STEPHAN G. STEPHANSSON

# BRÉF OG RITGERÐIR

## III. BINDI

## BRÉF FRÁ ÁRUNUM 1908—1927



REYKJAVÍK —— 1947

# FORMÁLI

„Í bréfum er oft eina æfisagan að gagni, — ég á við þá, sem æðst er og innanbrjósts. Þau eru eins og skjáir, þeim sem inni er, sýna með því, hvernig stráin leggjast, hvaðan vindur stendur, það er að segja þau, sem eru um annað en veðurfar og búrdalla. Slík bréf merkra manna ættu að geymast til upprisudags.“

Þannig kemst Stephan G. Stephansson að orði í bréfi til hollvinar síns, Baldurs ritstjóra Sveinssonar, og er hann þá að vísu að tala um bréf frá hinum og öðrum vinum sínum, er hann vilji með engu móti láta glatast. Safn það af bréfum sjálfs hans, sem hér liggur nú fyrir prentað í þremur bindum, nær með nokkrum hætti yfir hálfa æfi skáldsins. Að vísu er safnið slitrótt nokkuð framan af árum, en um síðustu 20 árin er það svo samfellt og yfirgripsmikið, að úr verður æfisaga, einmitt þess háttar æfisaga, sem skáldið sjálft nefnir einu æfisöguna að gagni. Nú má líklegt telja, að enn muni koma í leitirnar bréf frá skáldinu. Slíku efni er svo farið, að seint verður til hreins gengið um söfnun þess, því fremur er það hefir dreifzt um tvær heimsálfur. En hversu mikinn árangur, sem sú eftirleit kann að bera, þá mun þetta safn halda gildi sínu óbreyttu. Sú mynd, sem það gefur af höfundi sínum, samtíð hans, æfikjörum og andlegu lífi, er svo fullkomin og afdráttarlaus, að þar verður trauðlega um bætt, þótt nokkru yrði við aukið.

Þess er ekki að dyljast, að nokkur missmíði hafa orðið á útgáfu þessari. Vil ég fyrst telja það, sem reyndar liggur mest í augum uppi, að eigi hefir tekizt að halda beinni aldursröð bréfanna gegnum bindin öll, þótt svo væri til ætlazt í fyrstu. Þetta er einkum að því leyti bagalegt, að bréfin skýra sig bezt sjálf, þegar þau eru lesin í réttri tímaröð. En þótt þetta virðist fyrst og fremst klaufalegt, er hér engu öðru um að kenna en því, að meðan á prentun stóð, var alltaf að bætast við safnið. Seinast nú, þegar hafin var prentun III. bindis, bárust mér í hendur nokkur bréf til Sigfúsar Halldórs frá Höfnum, fyrrum ritstjóra Heimskringlu, sem prentuð eru aftast í þessu bindi. Bréfin til Helgu, konu skáldsins, fékk ég ekki fyrr en seint á árinu 1945, o. s. frv. Hér var ekki um annað að gera en að hafna slíkum viðbótum við safn-

ið, eða reyna að skjóta þeim inn, að upphafi eða við lok bindis, þar sem ekki var hægt að fella þau inn í tímaröð sína. Ég valdi síðari kostinn og vænti, að það verði eftir atvikum metið betra úrræðið. Hér eru prentuð öll bréf skáldsins, er ég hefi í hendur fengið, að frátöldum 2—3 orðsendingum um lítilvægan erindisrekstur, og hvergi fellt úr, nema í III. bindi er sleppt í nokkrum stöðum endurteknum frásögnum um sjúkdóm höf. síðustu ár hans. Þær úrfellingar eru táknaðar svo .... Stafsetning er lagfærð og samræmd og augljós pennaglöp lagfærð þegjandi, og á einstaka stað skotið inn orði, er vanta sýndist, en alltaf innan hornklofa. Meginhluti bréfanna er prentaður eftir handriti, er dr. Rögnvaldur Pétursson lét gera og fékk mér í hendur, en þar sem náðst hefir til frumrita, hefi ég stuðzt við þau. Er það von mín, að útgáfa þessi reynist sæmilega traust, og að vísu hefir verið til hennar vandað eftir föngum. Þeir mag. art. Lárus H. Blöndal bókavörður og Sigfús Halldórs frá Höfnum hafa lesið með mér próförk af þessu III. bindi. Sigfús Halldórs frá Höfnum hefir og veitt mér mikilsverðar leiðbeiningar við samningu skýringa og athugasemda við þetta bindi. Þakka ég þeim báðum góða aðstoð.

Það er trú mín, að með bréfasafni þessu hafi íslenzkum bókmenntum bætzt dýrgripur, er jafnan þyki mikils um vert, hversu sem tímar breytast. Engum einum manni er meira að þakka að það varð nokkru sinni til en dr. Rögnvaldi Péturssyni, elju hans og framsýni, er hann tók sér fyrir hendur að safna bréfum skáldsins af tvístringi, meðan enn var tími til. Þannig verður verk þetta helgað minningunni um þá menn tvo, er hæst hafa lyft íslenzkri menningu vestan hafs. En það er jafnframt fagur minnisvarði um ýmsa menn vestan hafs og austan, er báru gæfu til að binda vináttu við hinn mikla einliða vestur við Klettafjöll og létta hina þungu baráttu hans með hlýhug sínum, skilningi, fórnfýsi og tryggð.

*Þorkell Jóhannesson.*

*Helga Stephansson.* Duluth, 6. des. 1908.

Góða mín. — Hérna er eg nú hjá Kristjáni Jónssyni, í bezta yfirlæti. Kom hingað kl. 7 í morgun, eftir næturferð með lestinni og vagnaskipti í Crookston um miðja nótt. Á stöðinni hérna mættu mér Jóhann, Kristján og Þórir, og tóku mig til mannheima. Ég les hér upp annað kveld, og fer á þriðjudagskveld til Grand Forks, ef ég get, og þaðan til Edinborgar næsta dag.

Á lestinni rakst eg á Íslending, í nótt sem var, bara af hendingu. Það var sonur Antons frá Arnarvatni, sem eitt sinn bjó við Garðar, og var að fara eitthvað aust-norður fyrir Duluth að finna bróður sinn, sem þar heldur búð. En enginn félagsskapur var að honum.

Í morgun komst ég inn í Wisconsin. Brautin liggur um bæ, sem heitir *Superior,* rétt við Duluth, en sá bær er þó í Wisconsin. Var það þó ekki gaman! að koma svona á æskustöðvarnar, þó langt væri austur í Shawano County.

Góða nótt, bezta mín, og koss til ykkar allra.

Þinn Stephan.

*Helga Stephansson.* 26. jan. 1909.

Á lestinni frá Yorkton — kl. 9 árdegis.

Einn míns liðs á lest í dag
Líð um fenntar grundir:
Raula íslenzkt rímna-lag,
Rymja hjólin undir. —

Karlinn þinn Stefán.

*Helga Stephansson.* Heima, 11. júlí 1911.

Góða mín. — Á leiðinni heim keyrðum við fram hjá gamla Jones, með þrjá hesta fyrir vagni. Kerling hans rak hann

burt og lét hann hafa þetta að skilnaði, sagði hann aldrei hafa orðið sér að meira gagni um æfina en sem þessu svaraði! Það er gaman að mönnunum. Við vorum lengi á Markerville. Komum heim kl. 12. Kobbi fór strax að sofa. Ég fæddi svín mín og bola. Þá var kl. orðin eitt og Rósa og Fanny komnar heim og háttaðar. Nú er ég búinn með morgun-verk og að skrifa Skafta viðvíkjandi farbréfi þínu, og sendi þetta til Eggerts. Þú færð það á föstu-eða laugardag. Ég lét Munda kalla Jónu yfir símann í gærkveldi, kl. að ganga 9. Fengum það svar, að hún væri úti við (gone out). Ég ætlaði að spyrja um, hvort þú hefðir komizt vel á veg frá Innisfail. Í póstinum var bréf frá Emmu til þín. Krakkar rifu það upp. Ég hefi ekki lesið það. En hún er farin suður, svo ekki sérðu hana í Winnipeg. Það var sungið á Markerville til kl. 11 í gærkveldi. Bættust við Jón Ólson og tvær dætur „Bjössa“. Æfing aftur annað kveld. Baldur hafði komið, meðan enginn var kominn hér heima, og skilið eftir skrifuð boð til Kobba að koma í kveld og slátra. Kobbi fer í dag ofan á Markerville, með þetta bréf um leið. Gott veður og þurrt enn, en þungbúið loft eins og áður. Ekki fékkst Rósa til að syngja. Ég rugla þetta, til að láta þig vita, að öllu líður vel. Býst við, að krakkar hafi ekki rögg til að skrifa eins fljótt og ég. En svo verður víst ekki hörgull á því seinna. Þú þarft ekki að óttast um okkur, við búum eins og forkar. En reyndu að skemmta þér sem bezt. Nú er nærri hádegi, og hús og heima biður kærl. að heilsa þér, og svo hann

karlinn þinn.

*Helga Stephansson.* Heima, 19. júlí 1911.

Góða mín. — Seinustu skeyti frá þér eru kjóll til Rósu og frétt um, að þú hafir drukkið Heimskringlukaffi með Karólínu hjá Baldvin. Það hafa engir ritstjórar þorað að taka mig heim til sín, nema tveir prestar: séra Friðrik og séra Rögnvaldur, sem ekki er von, þeir vita, að ég get látið hvern skrattann í blöðin þeirra sem mér sýnist. Ekki varð þurrkurinn lang-gæður, þetta sinn. Stóð rúma tvo daga. Síðan sífelld bleyta. Rigndi látlaust í alla nótt. Sólskin þessa stundina, kl. 3 síðdegis. Á sunnudaginn vorum við öll á Markerville. Fanny til að syngja, ég til að

heyra nýja lagið Sigurðar við „Jón Sigurðsson“ minn. Helgason mæltist til, að ég hlustaði á það, þegar við sáumst á Innisfail, daginn sem þú fórst. Ekki hefi ég vit á fegurð lagsins, en mér fannst hann breyta vel um hljóm eftir efni, og ekki er það létt-meðfarið, þó það stökkvi hvorki tiltakanlega hátt né lágt, né skjálfi um samrunnar nótur. Það er gert fyrir karlmannaraddir, og allar vísurnar fjórar sungnar í kviðusöng, fyrr er lagið ekki á enda. Við komumst heim um kveldið, rétt undan dimmu-regni og leiftra-gangi. Í gærkveldi var æfing aftur. Ég keyrði telpur, því Jakob þóttist ekki geta það. Hann sótti þó nýja sláttuvél. Ég vildi ekki, að telpur væru einar, um miðnætti og kannske í húða-regni, sem áhorfðist. Klukkan að ganga tólf í nótt var ég að taka af hestunum tygin og koma þeim í haga, í niðamyrkri og húða-regni. Baldur kom líka á Markerville. Fjóla fer frá honum í dag, minnir mig. Spjald frá Jónu í gærkveldi. Segist koma þann 24. Þykir orðið nóg að gera, bæði að bera á borð og búa um. „Kíninn“ lá einn dag í skrópasótt. Á meðan var Lauga „Head-cook“ — höfuð-eldabuska, sagði Begga. Símað var frá Innisfail til Munda í gær að koma boðum til Gríms, að Sjana væri veik.

Séra Pétur sendi mér í gær að gjöf „Ljóða-bók“ — *Buch der Lieder, Heine's,* þýzka skáldsins. Hafði áður boðið að ljá mér hana.

Manstu eftir greininni í Heimskringlu um blindan karl og gamla konu nálægt Grunnavatns-nýlendunni, reyndar við Dog Creek P.O. svo kallað, sem misstu eina soninn sinn á 13. ári svo, að hann skaut sig óvart, tók hlaðna byssu sína upp úr bát. Þessi blindi karl er Andrés Gíslason frá Ípishóli, næsta-bæjar-drengur við mig í æsku og eitthvað skyldur mér. Hann skrifaði mér fyrir nokkrum árum, þegar hann kom að heiman, og ætlaði hálfgert hingað. Nú lét hann konu sína skrifa mér aftur, mest hvað á daga sína hefði drifið. Hann er nú stein-blindur. Annað augað tekið úr honum á spítala í Winnipeg fyrir nokkrum árum, hitt varð sjónlaust í ár, og svo missti hann drenginn svona, og er nú í rúminu. Honum sjálfsagt leiðist nú, en framúrskarandi lítið kvartar hann. Segir sögu sína svo blátt áfram. Hann hefir komizt vel af hér, hvað efni snert-

ir, ekki lengur en hann hefir verið, eftir því sem hann segir, en nú nýtur hann þess líklega lítið. Ég skrifaði honum strax, ef honum væri hugnun að því. Jæja, láttu þér líða vel í svakkinu, og ég sendi kveðju mína í hópinn ykkar, góða mín.

S. G. S.

PS. Eggert þótti þú staldra þar lítið við. Þú ættir að koma þar aftur og til fleiri. Þú hefir nægan tíma og peninga, og það er meira um vert að njóta nú ferðarinnar sem bezt að unnt er, úr því fyrirhöfnin til hennar er gerð, heldur en að komast sem kostnaðarminnst. — S.G.

*Helga Stephansson.* Heima, 24. júlí 1911.

Góða mín. — Í dag er sólskin og sunnanvindur, og þurrt var í gær (sunnudaginn). Annars hafa alltaf verið óþurrkar. Í gær kom hér húsfyllir af piltum, J. M. og Sigurður Helgason, meðal annarra. Þeir, og við öll, keyrðum til Baldurs, og var ögn glatt á hjalla, en jafngóðir voru allir fyrir því. Við komum heim til mjaltanna. Rósa fékk armbands-úr frá Baldri og dollar frá Kobba í afmælisgjöf. Kobbi fór til Innisfail á laugardaginn, í húða-regni, hann lét draga úr sér 4 eða 5 tennur. Í dag er hann að slá Flagghól, það er það fyrsta, sem við sláum. Bella kom aftur frá Innisfail á laugardaginn, með pósti. Sjana liggur enn. Læknirinn bannaði að taka hana heim. Baldur kom sömu nóttina aftur. Söngæfing á Markerville í kveld. Jóna kemur með pósti. Ég ætlaðist til, að Kobbi tæki kistu hennar seinast, en hann gat það ekki, en borgaði pósti fyrir fram, bæði fyrir Jónu og kistuna, svo hún kemst heim fyrir peningaleysi. Ekki get ég farið til Wynyard. Get ekki stokkið frá heyskapnum, fyrst hann dróst svona. Nú liggur á að ná upp ræktaða heyinu, ef unnt er. Enn er ég að rusla í garðinum. Ógresið er hátt og ákaft. Bráðum er ég búinn. Ég fékk bréf frá Baldri Sveinssyni. Honum þótti vænt um þú komst að sjá hann, en er sáróánægður að geta ekki tekið öðru vísi móti þér og biður mig að afsaka það við þig. Segir þú munir koma við að Lögbergi, þegar þú kemur að sunnan. Ef þú kemur á Agnes-stræti til Eggerts og þeirra, þá heilsaðu upp á Kristján Stefánsson (ekki

Kristinn Stefánsson) fyrir mig. Hann ætlaði að byggja sér hús á því stræti um árið. Hann er einn af þeim, sem gaf út og vænt þykir um kvæðin mín. Góður drengur og áburðarlaus. Láttu einhvern senda hraðfrétt (telegram) um leið og þú leggur upp heim, svo hægt verði að mæta þér í Innisfail.

Eiður lagði upp, heim á leið, frá Kristni í morgun. Skilur eftir báða stráka sína hjá Guðfinnu gömlu og segist koma alfarinn í haust.

Svo trúi ég, að ég muni ekki meira til að segja í bráðina.

Blessuð og sæl. S.G.S.

*Helga Stephansson.* Heima, 30. júlí 1911.

Góða mín. — Bréfið þitt, frá mánudegi sem var, kom fyrst í gærkveldi. Var lengi, því stundum hafa þau komizt á tveimur dögum, fljótara en frá Winnipeg, sem sé með C.P.R.-St.Paul-lest. Hefir Jonni fengið 40 dollara póstávísun, sem ég sendi héðan handa þér? Þú hefir aldrei minnzt á það. Ég þarf að vita strax, sé hún ókomin. Ég og telpur erum heima. Kobbi fór út til John Fich með Bleik sína. Kominn er strákur hjá Línu, Markerville. Tíðin leið, ekki stór-regn, en þornar varla af strái dögum saman, og rosahvass á milli — reglulegt september veður. „Brómið“ og bakkinn hérna eru slegin, það er allur heyskapurinn enn. Ég er að reyna að drýla það milli skúra, en svo dreifir næsti vind-skúr því og ég má hnyssa að öllu upp aftur og aftur. Nú höfum við nýjar kartöflur. Sigurður Helgason við og við að mála skólahúsið með strák sínum. Þeir borða hér og hafa gist eina nótt. Sjana er víst orðin betri. Hún er enn í Innisfail. Jóna kom og Lauga hætti um leið. Ég hefi skrifað „öðrum ágúst“ í Wynyard uppsagnar-bréf. Ég kemst ekki í svona veðri. Ég geri ögn enn og er úrræða-skárri en drengir. Oldham gamli og Barnett eru á ræðuskrá hér annan ágúst, Kristinn og ég. Ég má líklega til að vera þar, en hefi ógeð á því. Bæði þreyttur og tómstunda-laus. J. M. sagði sér fyndist enginn „annar ágúst“, ef ég væri ekki við, jafnvel þó ég kæmi ekki upp á ræðupall. O, jæja, það er nú kannske grobb, en ég veit, að sumir karlarnir sakna þess heldur,

ef ég er ekki með. Skilaðu til Guddu, að kaffi og ísrjómi sé varla „kristið slark“, því það deyfir hvað annað og verður hvorki heitt né kalt, og að hún verði að gera betur, þegar hún kemur til Alberta.

Þá held ég ég hafi ruglað um allt, sem ég man síðan seinast, og öllu líður vel, nema lekanum í veðrinu. Ég bið hjartanlega að heilsa, og vertu nú blessuð. Ég ætla ofan á bakka, þó sunnudagur sé, og drýla ögn upp, ef ég get fyrir veðri eða gestum, en regn-skýja-fyllan hrannast hring um kring, og ýrir úr annað veifið, og svo rofar aftur fyrir sól.

Þinn S.G.S.

*Helga Stephansson.* Heima, 2. ágúst 1911.

Góða mín. — Klukkan er 10 að kveldi. Ég er aleinn heima, kom heim fyrir liðugum tveimur tímum og er löngu búinn með kveldverkin. Í nótt sem var var húða-regn og leit illa út í morgun. En ég hafði lofað að koma á samkomuna og hjálpa, ef ég gæti; ég vildi efna það; en heldur vildi ég vera kyrr. Svo fór ég með telpum í morgun kl. 10. Sadie Guðmundson kom í gærkveldi og var hér í nótt sem var, og var með. Vegir voru svo bölvaðir eftir regnið, að á engu varð byrjað fyrr en klukkan að ganga fjögur. Það stóð á lúðraflokknum frá Innisfail. Þeir komust ekki áfram fyrir ófærð. Við byrjuðum þó án þeirra, en svo komu þeir og léku, eftir að samkoman var sett. Ræðumenn voru: Bjarni Jónsson, Jónas Hunford, Oldham (á ensku), Christinnson, og ég sagði fáein orð. Grímur var forseti. Ótrúlega margt fólk kom, einkum enskt. Sérstaklega var hópur frá Raven háværr, strákar og stelpur með „Base-Ball“-flokk, með einhverja vél, líkasta hrossabresti, sem það urgaði við hvert hnattkast, og orgaði svo sjálft og ýlfraði, svo yfir tók, einkum stelpurnar. Annars er hálfgaman að vitleysunni, einkum af því að Raven er mest allt Bandaríkjafólk, enda kannaðist ég við hljóðið, þó ég þekkti ekki fólkið. — Svo keyrðu telpur heim kringum kl. 6—7, og ég var í sömu lest. Þær fóru upp Kristins-megin. Skildu hestana þar eftir. Ég lofaði mörgum að koma aftur, en svíkst um það, enda gat ég það ekki, nema að ganga, og langaði heldur ekkert til þess. Telpur höfðu lofað Sjönu

Geirhjartar (sem er nú hjá Guddu) fari með sér til Markerville aftur, og þá hafði ég ekkert rúm með, enda sakna ég þess ekkert, þó mér yrði ofaukið. Ég bað telpur að fá Rósu til að verða eftir hjá Kristni og Nellie, sagði hún hefði ekkert að gera í þann „andskotans crowd“, sem á Markerville yrði í nótt. Auðvitað hafa þær reiðzt því og Rósa farið með, en svo slarkast það af, vertu viss, þó ég hafi bölvun á svona löngum vitleysum. Yfir höfuð var dagurinn góður. Ræðurnar voru bull, söngurinn átti ekki við neitt af því, sem annar ágúst þýðir, bara einhver lög út í loftið, en kannske ögn betur sungin en venja er — en svo var allt gott — því fólki líkaði allt vel (nema hvað seint var byrjað). Allar almenningshátíðir verða að vera flónska, til þess að fólk geti skemmt sér. Það er lögmálið. Úti er logn-nótt, kollheið og úrsvöl, með stirndri hvelfing og svörtum skýja-baug milli lofts og lands, nema í norðrinu, þar er heiðbjart, eins lágt og eygist, og örlar á norðurljósum. Það var tunglskin áðan, nýlýsi, sem nú er gengið undir. Bakkinn niður að ánni og Flagghóll er kafinn blautum heydrýlum, því ekki hefi ég getað stakkað enn, sökum óþurrkanna. En, ég sé æfinlega eitthvað fallegt í náttúrunni úti, hvað sem öðru líður, annars væri ég orðinn geðveikur fyrir löngu. Vertu nú blessuð, og viss um það, að ekkert gengur enn að okkur.

S. G. S.

Bréf frá þér til Kobba kom í fyrrakvöld. — Ég kem þessu bréfi í póstinn eins fljótt og ég get. Líklega samt ekki á morgun. Þá sofa allir. —

*Helga Stephansson.* Heima, 6. ágúst 1911.

Góða mín. — Á fimmtudagskveld fékk ég bréf frá þér, og telpur póstspjöld á föstudaginn. Ég skrifaði þér að kveldi annars ágústs og sendi þér fjögur póstspjöld í bréfi, földu Skafta, á föstudaginn. Alltaf sama tíð, ekki unnt að stakka og mest allt engi undir vatni. Úrhellisregn mest alla aðfaranótt föstudagsins. Þá vorum við nokkrir hjá Kristni. Jón Guðmundsson kom með tvo bjórkúta og ég komst ekki hjá að vera með. Klukkan var um 4, þegar ég fór heim, svaf fram undir miðjan dag og var jafngóð-

ur. Gerði heimaverkin, gekk yfir til Kristins og hló með sjálfum mér að, hve lélegur hann var, hafði bæði timburmenn og kvartaði undan, að fólkið væri reitt við sig, og ég vissi, að það var, og reyndi að hugga með því, að hjá þessu hefði ekki orðið komizt, fyrst svona stóð á, og ánægjulegt að vera búinn að ljúka því af! Um daginn var ekkert hægt að gera fyrir bleytu, fremur en vant var. Baldur og Lína og krakkar voru hér þessa nótt. Fóru ofan á Markerville og náðu hingað í byrjun dembunnar og settust að. Gamli Graham kom til Baldurs að sjá haglskemmdirnar á Eggeman's-akrinum. Það fæst dollar á ekruna. Ég er einn heima, seinni hluta dagsins. Krakkar fóru til Guðm. Björnssonar að sjá Boggu. Hún kom heim Íslendingadag, en fer á morgun. Ætlar, trúi ég, að verða saumakona á Edmonton og leigja stofu að Línu Jónatans. Öllu líður yfir höfuð vel, nema þeim, sem veikir eru út af veðrinu, en ég held helzt, að hvorki guð né menn geti gert að því. Í gær var ég að slá með orfi og ljá kringum húsið og inn á milli trjánna, það sem vélin náði ekki. Ég á eftir dags-slægju enn af því dóti, varð að slá á þann hátt blett af „Timótheinu" norður undir fjósunum. Grímur kom hér og óskaði sér, að hann kynni að slá svona, eins og ég. Hann hefir aldrei tekið í orf. Sjana orðin frísk og vinnur áfram. Húsbændur hennar taka ekkert fyrir aðhjúkrun, sagði Bella gamla mér, en lækninum borgar hún. — Nú er farið að rigna. Baldur er rétt nýkominn og ég ætla að fara að hita kaffi.

Ég man þá ekki meira til að rugla að sinni, geri það bara til að þú sjáir, að öllu líður vel — everything quiet on the Potomac! eins og einu sinni var máltæki í Bandaríkjunum. Láttu þér því ekki leiðast og vertu blessuð!

S. G. S.

*Helga Stephansson.* Heima, 9. ágúst 1911.

Góða mín. — Ég skrifaði þér seinast á sunnudaginn var, til Winnipeg. Þetta nær þér þar kannske, verðirðu þar um næstu helgi, því nú er miðvikudagur, fyrsti dagurinn, síðan einhvern tíma fyrir Nóa-flóð, með sólskin og sunnanvind, en allur er hann vætu-skýjaður enn í kring og út-

lit ótryggt, hvað sem verður. Kobbi er úti hjá Baldri, við hin heima, ég að slá meðfram götugirðingunni með orfi mínu. Allir frískir.

Í gærkveldi heiddi upp. Tunglið lygndi ofan, vætukalt og kýreygt. Alla nóttina lá við frosti, og allir höfðu spáð upprofinu á þann hátt, en furðu lítið varð úr því, í þetta sinn. Aðeins sér á sumum kartöflublómum, en þau voru orðin mörg og mjallhvít. — Sagt er, að í orði sé, að Scott granni skipti landi sínu og áhöfn fyrir kjötmarkaðinn á Markerville. Svo vill hann fá póstflutninginn, því hinir vilja losna, síðan bæja-póstur (free delivery) komst á, en gamli Redlon býður í líka. Ég man ekki um annað fréttaþvaður núna. Líklega skrifa ég ekki oftar, nema ég frétti, að þú dveljir því lengur í Wpg. eður farir miklu seinna en þú ætlaðir. Seinast fékk ég póstspjald þitt, dagsett 4. ágúst.

Kl. er að ganga 5 síðdegis. Ég er einn inni, telpur komnar til berja. Lúðraæfing á M'ville í kveld, og Kobbi líklega fer, og þetta bréf.

Vertu svo sæl, góða. S. G. S.

*Helga Stephansson.* P.t. Calgary, 2. febr. 1912.

Góða mín. — Ég er hér enn kl. að ganga 10 f. m. og kemst ekki fyrr en í kveld kl. að ganga 8. Ég rakst á Theodor Reinholt á lestinni frá Innisfail. Hann fór af í Austur-Calgary og fylgdi mér til J. G. Ég ætlaði að taka kl. 3-lestina um nóttina, fór þangað sem hún stöðvast í tíma, en þá var hún sögð 4 tímum of sein og færi héðan ekki fyrr en kl. 8.45 í morgun. Ég var þar svo aftur áðan kl. 8, en þá var hún farin fyrir hálfum tíma, að þeir sögðu, svo ég varð strandarglópur fyrsta sinni á æfinni. Engin lest fyrr en í kveld, nema svefnvagnar tómir, og ég hefi nú ekki þess háttar far. Er hjá J. G. og á gott. Jæja góða, það gerir ekki til, þó svona færi. Ég kemst á endanum.

Koss til ykkar allra. Karlinn þinn.

*Helga Stephansson.* Victoria, B. C., 15. febr. 1913.

Góða mín. — Ég er hér enn. Held til hjá Arngrími Jónssyni. Fékk ekki að fara fyrr en á sunnudaginn kemur. Er

alltaf í heimboðum, keyrður út á fjöll og firði, eða farið með mig á strætis- eða járnbrautum út í veröldina hér í kring. Í gær til Sidney. Svo samkoma í gærkveldi, almenn meðal landa hér, gerð fyrir mig. Þeir gáfu mér þar bæði gullstaf (cane) og peninga. Svona er meðferðin þeirra öll á mér. Í dag á ég tvö heimboð enn fyrir hendi. Eins á morgun, en þá ætla ég með bátnum kl. 5 að kveldi áleiðis til Seattle og kem þar líkl. kl. að ganga 10 sama kveld. Hve lengi ég verð þar, get ég ekki sagt. Svo verð ég að staldra í Blain og Cresent, og úr Vancouver fæ ég ekki að fara í nokkra daga. Ég má til að heimsækja svo marga, sem ég hefi lofað því. Ég verð miklu lengur en ég bjóst við. Get ekki að því gert, enda er fólkið mitt, Íslendingar hér, góðir við mig, svo ég er alveg forviða. Ég kem eins fljótt og ég get án þess að styggja þá, sem endilega vilja sýna mér góðvild. Veður er milt. Hlý sallarigning með köflum nú, en þoka og móða svo mikil, að sjaldan sést langt. Heilsaðu krökkunum og öllu okkar fólki frá mér, og vertu nú blessuð og sæl.

Karlinn þinn.

*Helga Stephansson.* Vancouver, B. C., 2. marz 1913.

Góða mín. -- Í gær komst ég loks hingað. Var tvo daga í Blaine. Hélt til hjá Magnúsi frá Fjalli og Ágúst Teitsson, syni Teits heitins við Garðar, sem eldingin sló. Svo skilaði Jón sonur Magnúsar mér til Cresent, það er til Sig. Kristófenssonar, þar var ég tvær nætur og Sig. fylgdi mér hingað í gær. Ég var í nótt hér hjá Vigfúsi. Blaine-menn héldu samkomu, söng og ræðuhöld og aðra skemmtun, og sömdu mér ávarp eins og Victoria-landar og gáfu mér lindarpennann, sem ég skrifa þetta með. Allir bera mig á höndum sér, kunnugir og ókunnugir. Ég er nærri farinn að trúa, að ég hafi virkilega áunnið mér hlýhug Vestur-Íslendinga, fleiri en ég hafði von á.

Dóttir Sig. Kristófer. er ekki heima, kennir skóla, en hún lét móður sína færa mér bók, kvæði Pauline Johnson, af því hún vissi ég myndi koma þar. Þorbjörg hérna (Mrs. Bell) fræddi mig á, að fjölgað væri hjá Baldri. Það er allt, sem ég hefi frétt að heiman. Í gærkveldi rakst ég á

Borgfjörðshjónin í sporvagni, sem við Vigf. tókum. Mrs. Borgfjörð sagði ég ætti þar eitt bréfspjald. Ég næ því í dag, hvort sem það er frá ykkur. Mig langar til að leggja upp heim héðan í vikumótum næstu, en ekkert er það dagsett enn. — Í dag er rigning og þokuloft. Var bjart og fjallasvali af norðri fyrirfarandi, fraus á pollum sumar nætur og stirfði for á vegum, sem þiðnaði samt upp síðdegis, nema sízt norðanhallt undir hrikaskógunum.

Þetta verður nú allt og sumt í bráð. Bið kærlega að heilsa krökkum öllum, og vertu blessuð,

frá karli þínum.

*Helga Stephansson.* Markerville, Alta, 23. des. 1913.

Góða mín. — Þakka þér fyrir jólagjöfina í gærkveldi. Ég fékk líka tvo kassa af svona pappír og umslögum í jólagjöf, frá Einari Brynjólfssyni í Victoria. Þetta er fyrsta bréfið, sem ég skrifa á þennan skrautpappír. Auðvitað er þetta allt eftir tízkunni, og víst nógu dýrt, en mér hefir aldrei fallið „Irish Linen“ rétt vel. Finnst sá pappír of harður. Ekkert að frétta. Kobbi hjá Baldri í dag og allt með ró hér.

Kemur þú ekki heim um jólin?

Þetta er bara kveðja frá karli þínum.

*Helga Stephansson.* Wpg., 14. maí 1917.

Góða mín. — 2 bréf hefi ég fengið hingað frá þér, og 2 póstspjöld sent þér alls. Mér líður vel, er hér eins og heima hjá mér hjá séra Rögnv. og verð, unz ég kemst á kreikið heim. „Goðafossi“ seinkar ávallt. Englandsstjórn heimtar hann til Halifax, sem kvað vera 300 mílna krókur, og töf í höfn þar að auki. Nú er ráðgert að fara héðan þann 25. til 27. þessa mánaðar. Árni heldur, að kringum 14 verði farþegarnir, en ekki veit ég hverjir það eru, nema einn piltur, sem er að fara alfari heim, og svo þær stúlkur frá Red Deer. Þær bíða í Calgary og hittu mig þar. Ekki veit ég heldur, hvort nokkur ætlar að koma aftur, annar en við Árni, né hvenær né hvernig hann ætlar hing-

að. Hann sagði, að sér myndi verða tilkynnt allt um skeytið, sem ég fékk að heiman, þegar til kæmi, og sagðist skyldi greiða úr því. Hann bauð okkur séra R. heim til sín, eitthvert næsta kveld núna, en ákvað það ekki upp á víst. Jónas og „KN“ komu strax í fyrradag og verða hér þessa viku. Jonni treysti sér ekki. Hann er víst lasinn aftur af því sama, sem að honum gekk, þegar hann var hjá okkur. Ég á einlæg heimboð — kveldboð — fyrir höndum. Einn frændi minn, sem segist vera og býr hér utan við bæinn og ég ekki þekki, Sigurður Árnason kvaðst hann heita, kallaði mig yfir símann. Hann sækir mig kl. 5 í kveld. Í kveldboði var ég annað kveldið mitt hér hjá Ólafi, bróður séra R., og þau hjón hérna. Kona Ólafs er hálfskozk að ætt, en talar íslenzku svo vel, að engum dettur það í hug. Í gær borðaði ég miðdagsverð hjá séra Friðrik. Þar voru Hjálmar og Emma, og Skúli Johnson hinn lærði, sá sem Rhodes-verðlaunin fékk forðum og þýðir íslenzk kvæði á ensku. Í gærkveldi tók Jónas mig til Steina síns. Hann og Sigríður hans eru ósköp alúðleg. Hún söng lag eftir lag, og hann spilaði. Hún hefir mikla rödd og fallega, að mér fannst, og söng með öllum þeim viðbrigðum í andliti og limaburðum, sem söngkonur hafa á leiksviði. Að því var skemmtun. Hún er gróflega holdug og gildvaxin, en andlitið er þó svo góðhýrlegt, að manni geðjast hún vel, jafnvel þegar hún gerir sig byrsta og brúna-þunga, eftir geðbrigðum í laginu, sem hún syngur. Ég vildi þú hefðir verið komin líka, þér hefði verið unun að heyra til hennar. Það á að halda okkur Árna samsæti af Íslendingum á laugar- eða mánudagskveld. Þar kvað Tómas ráðherra, séra Friðrik og helztu skörungarnir hér eiga að mæla fyrir minnum. Kveldverður, og setið á einhverjum bezta veizlusal í Wpg., að sagt er. Ég veit ekki, hvort ég kemst skammlaust út úr slíku „stássi“, en ég verð að taka því. Svo ætla Unitarar að hafa mig hjá sér eitthvert kveldið. Til Emmu og Hjálmars þarf ég einhvern tíma, og í ótal aðra staði.

Þetta er nú held ég allt, sem ég get sagt í þetta sinn. Heilsaðu krökkum og kunningjum

og vertu svo blessuð.

Stefán.

*Helga Stephansson.* Winnipeg, 21. maí 1917.

Góða mín. — Klukkan er hálf sjö, ég er einn á ferli, aðrir ekki vaknaðir hjá séra Rögnvaldi, og þetta verður bréfið, sem ég skrifa þér næst því, sem kemur frá New York, því þangað leggjum við upp kl. 9 í kveld. Við erum um 20, sem heim förum. Skipið „Ísland“ kom rétt á undan „Gullfossi“ til New York, og með honum landar, sem heim fóru fyrr. Þeir kváðu láta ið bezta af öllu. Sagt er, að „Gullfoss“ þurfi ekki að koma við í Halifax á heimleið. Í gærdag var ég hjá Emmu. Við séra Friðrik, Jónas og „KN“ borðuðum þar. Þeim Hjálmari líður vel og hún sagðist myndi skrifa þér bráðum. Ég hefi alltaf verið í heimsóknum, nætur og daga, að heita má. „Stóra-kveldið“ var á hótellinu, sem „KN“ skírði upp á íslenzku og nefndi „Vatnajökul“. Minnin voru drukkin í vatni og „ísrjóminn“ æði frosinn. Þar voru í salnum um 60 Ísl., margt heldra fólkið hérna, t. d. prestarnir íslenzku allir. Séra Bergmann sagði vel og vandlega fyrir minni Árna og mín. Ég svaraði fyrir mig nokkrum orðum, upp úr mér og af handa hófi og ófyrirkallaður. Ég fékk skeyti frá Innisfail, að peningar hefðu verið sendir frá New York, og svo hingað. En „addressan“, sem til var nefnd, var röng, 615 Maryland í staðinn fyrir 650. Það er ókomið enn, en við spyrjumst fyrir á pósthúsinu í dag.

Ég sendi nokkrar myndir af okkur þremur. Skiptu þeim, eins og þú vilt. Svo er mynd af „KN“, sem þú geymir fyrir mig. Ég mátti til, eftir skipun Árna, að láta taka mynd af mér einum. Fæ hana ekki fyrr en um miðjan dag og veit ekki, hvernig hún verður enn, en legg líkl. einhverjar með. Verið svo öll blessuð, góða mín —

frá karli þínum.

*Helga Stephansson.* „Hilldale“-svefnvagni, 23. maí 1917.

Góða mín. — Það er illt að skrifa hér, vegna hristings. Okkur líður vel. Við Árni búum í sama rúmi. Í gærmorgun kl. 8 vorum við í Port Williams, sá bær og Port Arthur liggja saman við Huron-vatnið. Meðfram því er farið langa leið. Land allt klappir og kjarrskógur. Kuldastormur í gær. Snjóaði ögn í nótt. Regn og þoka í morgun. Er

nú að glaðna til kl. að ganga eitt. Við erum rétt nýfarnir gegnum þorpið Parry Sound, þar sem Íslendingar bjuggu forðum og nokkrir eru enn. Það er ekki ólaglegur bær. Við eigum að koma til Toronto kl. hálf fjögur í dag, og að „línunni" kl. liðlega 6 í kveld. Þar verður tollskoðun. Svo förum [við] „The Leigh Valley"-brautina til New York og eigum að verða í Jersey City kl. liðlega hálf tíu á morgun.

Ég fékk bréfin og bankaávísunina að heiman morguninn sem ég fór frá Winnipeg. — Manstu, að einhver Th. Jónsson var að auglýsa fyrirlestur, sem hann nefndi „Svipir". Hann er Bárðdælingur, hér með á heimleið, sonur Hólmfríðar Marteinsdóttur á Lundarbrekku. Annar piltur, sem heim fer, er Þingeyingur. Heitir Þórólfur. Laglegasti piltur. Frændi Guðm. á Sandi og konu séra Rögnvaldar.

Ég endist ekki að klóra þetta lengur. Lestin hendist svo til. Reyni að koma því í póst í Toronto.

Blessuð og sæl og heilsaðu frá mér. Karl þinn.

*Helga Stephansson.*

„Gullfossi", New Jersey, New York, 28. maí 1917.

Góða mín. — Síðan hingað kom, hefi ég fengið bréf bæði frá Munda (í fyrra dag) og Rósu (rétt áðan). Þakkaðu þeim fyrir. Svo fékk ég bréfið og ávísun Guðm. F. um leið og ég fór frá Winnipeg. Segðu Rósu minni, að mér hafi þótt bréfið hennar vel skrifað og íslenzkan hennar býsna góð. Nú, mér líður vel. Hefi verið tvær nætur á „Gullfossi", og í fyrri nótt hjá Árna Björnssyni, sem var í Dakota. Hann bauð okkur Árna E. Hann á heima einar 15 mílur frá því sem skipið liggur hér í New Jersey, úti í Flushing. Þetta er samt allt í New York. (Einhver rósta varð í New York í fyrra dag, og manndráp, út af svertingjum. Ég vissi ekki einu sinni hvar, og hefi ekki lesið um það). Árni B. er giftur enskri konu. Hann býr í nýju húsi, sem kostar, með lóð, $20.000. Kona hans skemmtileg og, ég held, gáfuð, og vill kynnast Íslendingum og heldur upp á þá, vill eignast faldbúninginn t. d., er „organisti" og eitthvað hagorð á ensku, kát og alúðleg, en líklega öldruð (fertug?), þó hún sýnist nokkuð ung. Árni er nú 59 ára.

Ég er hér gestur Eimskipafél., hefi ágætt rúm á fyrstu „káetu“ og einlægar stáss-stofur til að vera í. Árni er hér á sama rúmi. Svo úir og grúir af íslenzkum kaupmönnum, sem sumir fara með heim. Sagt að séu 30 Ísl., sem halda til á „Astor“, einu fínasta og dýrasta hótellinu í New York, og mér víst ætlað að vera þar, ef ég vildi. En ég þáði það ekki. Herbergi eitt saman $5,00 á dag og allt eftir því.

Ég hefi samt fylgdarmann ísl. meðan ég er hér, hvert sem ég vil um New York, sem Ólafur Johnson leggur mér til. Hann heitir Tryggvi Jóakimsson, sonur Jóakims „snikkara“ frá Árbót í Fnjóskadal, bezti drengur, hefir verið 12 ár í New York og þekkir hér allar götur og merkisstaði, hefir sýnt mér Broadway og 5th Avenue, auðkýfingastrætin í New York, og fleira. Í gærkveldi fór hann með mig út á Coney Island, kveldlystistað New York búa, þar sem öll glaðværð New York safnast saman og gengur af göflunum, og allt heimsins „humbúgg“ leikur og ginnir í álfahöllum rafljósanna. „Þaðan komst þó áður enginn óskemmdur, nema ég,“ sagði Gröndal um kaþólskuna. Það kom húða-regn í gærkveldi og eins er í dag. Við komum úr ferðinni, fram á skip, kl. 12 í nótt. Ég er á einlægum þönum, meira en ég vil, eins og í Winnipeg, en þeir vilja ekki sleppa mér frá að sjá New York. Ég fór samt á fætur kl. 6 í morgun, til að skrifa þér og nokkrum öðrum, því annars var enginn friður. Í gær var ég líka við „messu“ hjá Billy Sunday. Hann „grasserar“ hérna núna í 3 vikur. Ég vildi sjá þann „skolla“ og „messan“ var sannarlega merkileg heimska. Annars hefi ég ekki tíma til að lýsa neinu bréflega. Það verður að bíða, þangað til ég kem heim. Jóhannes glímukappi kom hingað á skipið að sjá mig. Hann er hér nú. Vildi taka mig á „hótell“ sitt, heim til konu sinnar og dætra, en af því varð þó ekki.

Sigurður Pétursson, skipstjórinn, hélt, að við myndum komast á stað í morgun. Allt er til tafar, til dæmis þarf að fá leyfi, bæði frá London og Washington, til að mega flytja vörurnar út úr landinu, svo allt gengur svo seint, og allir flutningar hálftepptir, allt vegna stríðsins. Við farþegar sleppum þó líklega, en með mesta ragi og umstangi, og svo verður önnur rekistefnan í Halifax.

Fyrirgefðu ruglið, góða mín, ég hripa þetta í hasti, bara til að láta ykkur vita, að ég er „svo sem slarkfær“ og heilbrigður. Heilsaðu öllum heima og vertu blessuð af

karli þínum.

*Helga Stephansson.* „Gullfossi“, Halifax, 4. júní 1917.

Góða mín. — Nú erum við komnir til Halifax, en ekki veit ég, hvenær við fáum burtfararleyfið. Ég er nýbúinn að koma í land bréfi til Munda, sem hann lofar ykkur að sjá, ef þið hafið nokkuð gaman af því rugli. Því þetta verður seinasti miðinn, sem ég get skrifað heim, þangað til við komum til Rvíkur. Það var þoka og svalt veður í allan gærdag. Komum á móts við Halifax kringum kl. 11 árdegis. Sigldum og sigldum allan daginn, blístrandi á hafnsögumann, en enginn kom. Óleyfilegt að sigla inn á höfn án hans, þó skipstjóri rati. Við vorum svo á siglingu hér framan við í alla nótt, rétt á skriði, því ekki er hættulaust að liggja við akkeri utan við höfnina. Í morgun kom svo hafnsögumaður. Halifax stendur báðum megin við langan fjörð, innsiglingin líklega um 3 mílur. Bærinn gisinn og ólögulegur, en höfnin afbragðs djúp og löng, og eyjar í miðju mynninu. Veðrið er alltaf kalt. Hrakviðri og þoka í gær, en bjart og svalt í dag. Allir frískir á fyrsta farrými, en sjóveiki á öðru farrými, með versta móti í nótt, einkanlega stúlkurnar. Aðeins ein þeirra gat borðað í morgun. Ruggið er nærri ógleðilegast þegar hægt er siglt, eins og í nótt. Annars hefir alltaf verið eins lygn sjór eins og bezt getur verið, og „Gullfoss“ kvað fara ágætlega í sjó. Skoðunarmenn úr landi komu fram áðan, litu yfir dót okkar og vegabréf, en fundu enn að engu og voru kompánlegir. „Show me your baggage, please,“ sagði hann, sem fyrir var, við mig. „Is this all, 2 satchels and box? Show me into them.“ Ég gerði það. Þar var eitt blað af Heimskr[inglu] ofan á. „What paper is that?“ Heimskringla, an Icelandic newspaper, printed in Winnipeg. „Oh, yes, there is also an Icelandic book named Heimskringla.“ Yes, Heimskringla by Snorri Sturluson. „Yes. But what is in the box?“ Í kassanum voru nokkur „Kolbeinslög“, send til sölu heim. Books. „What kind of books?“ Only

small books of poetry. „Oh, yes, patriotic poems, songs about the independence of Iceland, of course.“ Yes. „Allright, we are through.“

Sannleikurinn er, við kviðum þessari rannsókn hálfvegis, því allt er nú ef til vill í banni, blöð og bækur ekki sízt, og getur orðið stagl og tafir fyrir skipið úr því, en hver klukkutíma töf á skipinu kostar svo tugum dollara skiptir. Við verðum því fegin, ef allt gengur liðlega, og gangi það eins og bezt getur, sleppum við úr höfn einhvern tíma á morgun. „Ísland“, sem fór heim á undan okkur, tafðist hér fjóra sólarhringa, áður það komst út aftur. Hvað að var, veit ég ekki. Það er danskt skip, með danskri skipshöfn, sem stjórnin heima leigir.

Hér á höfninni lágu 3 eða 4 herskip Breta, sem við sigldum inn fyrir, og dallur einn, sem Canada líklega á, varðskip. Önnur skip, sem hér liggja, eru flest hollenzk, dönsk, norsk og sænsk, og þau eru þó nokkuð mörg. Annars segjast þeir hér ekki afgreiða nema svo [sem] 10 skip á viku, og er það öðru vísi en innrennslið í New York og nærri hörmulegt um jafn ágæta höfn eins og hér er.

Við fáum ekki af skipi að fara, né á land að stíga, fyrr en siglingaleyfið er fengið, og þá aðeins með því móti, að félagið borgaði og setti í ábyrgð svo mörgum hundruðum dollara næmi. Það verða því víst allir að dúsa á skipsfjöl, unz lagt verður upp og komizt til Reykjavíkur.

Ég held ég geti nú ekki þvaðrað meira í bráðina við þig, góða mín, og kveð þig, krakkana alla og kunningjana, eins vel og ég kann tök á.

Karl þinn.

Raffræðingurinn, sem ég gat um í bréfi til Munda, er Kjartansson, ekki Vilhjálmsson — heitir Sigurður.

*Helga Stephansson.* „Gullfossi“, 15. júní 1917.

Góða mín. — Þá er hingað komið á sjónum, upp undir Ísland, líklega lendum í Reykjavík á morgun, sjálfsagt á sunnudaginn. Það kemur upp á, hvort bjart verður, svo hart megi fara og skemmstu leið fyrir Reykjanes og Fuglaskerin og þá snaga. Í morgun er glaða sólskin, fyrsta sinn á hafinu, og svöl gola, en ekkert köld. Nóttin orðin nærri albjört.

Mér hefir liðið dásamlega vel á skipinu. Aldrei veikzt. Þrír af okkur sjö orðið lasnir. Tveir legið í rúmi sínu dag eða svo. Árni var annar þeirra. Ég er nýkominn í morgun úr sjóbaði hjá „jómfrúnni“ — skipsþjónustunni —, því fyrsta, sem ég hefi tekið. Þessi „þerna“, sem kölluð er „jómfrú“, er sænsk, en talar dönsku og öll mál, nema ensku og íslenzku, jafnvel rússnesku. Allir, nema ég, hafa horn í síðu hennar, af því þeim þykir hún ófríð. Mér hefir verið sýnt um allt skipið. Þeir herrar, stýrimenn og vélstjóri, hafa boðið mér inn í klefa sína, upp á „skipstjórabrú“ og um allt, sýnt mér loftskeytatækin o. fl. Ég hefi drukkið með þeim allt frá bjór upp í „sjampaný“, en ekki máttu halda, að hér sé „fyllirí“. Það er allt í góðu hófi, skipstjóri reglumaður mesti og mjög varasamur með allt. Á öðru farrými hefir sjósóttin verið bölvuð, nærri allir orðið lasnir, einn maður legið nærri alltaf, og kona séra Bjarna Þórarinss. og Ingiríður, systir Jóns Þorvaldss. frá Red Deer, alltaf lasnar. Þessi Ingiríður er myndarleg kella, nærri myndarlegust af þeim stúlkum, sem eru með okkur. — Ég nærri kvíði viðtökum í Vík, að þær verði of-góðar. Hefi séð hér „Vísi“ og „Morgunblaðið“ með lofi um mig. Nýjustu „Iðunni“ sendi prófessor Ágúst Bjarnason mér, með grein eftir sig um mig — sjálfsagt það bezta, sem um mig hefir verið sagt, þó það líklega sé oflof. Hann sendi hana með stýrimanni hérna, og Baldur Sveinsson bréf, sem fór á land í Halifax. Hefir eflaust verið rifið þar upp, hvort sem það hefir komizt seinna vestur. Þið getið rifið það upp og lesið, ef þið viljið.

Ekki tala ég við danska fólkið hérna meira en ég kemst minnst af með. Þeir segja ég tali dönsku vel, sem er bölvuð hræsni, en verr gengur mér þó að skilja þá, það suðar svo í hálsinum á þeim.

Allir tala hér dönsku, Íslendingarnir að heiman, nema við Ameríkumenn, Árni og Sigurður, og af þeim er ég sá eini, sem nokkuð get.

Ég ætla að hafa þennan miða til þegar ég kem til .... ...... póstinn. Hann .......... einhvern tíma vestur til þín. Annars síma ég, ef ég get, og það kemst líkl. sama dag, eða nærri því.

Verið svo öll blessuð og sæl, og það vildi ég, að ykkur

liði öllum eins vel og mér. En verst er að frétta ekkert að heiman, fyrr en einhvern tíma í haust — en það verður nú svo.

Vertu sæl, góða. Karlinn þinn.

*Helga Stephansson.* Geldingaholti, Skagaf., 2. ág. 1917.

Góða mín. — Loks er ég kominn í Skagafjörð og held hér „annan ágúst“, en kemst ekki héðan fyrr en upp úr 12. þessa mánaðar, því þann dag eiga að verða einhver hátíðahöld á Sauðárkrók, á Víðimýri á laugardaginn kemur, og á Hólum í Hjaltadal, að sögn, í næstu viku. Héðan fer ég svo til Borgarfjarðar eða Ísafjarðar, hefi enn ekki afráðið, hvort heldur. Ætlaði til Ísafjarðar, en Borgfirðingar vilja endilega fá mig þangað, svo ég sé þar á íþróttamóti hinn 19. þessa mán., og ég á illt með að neita, sökum þess þeir vildu fá mig strax frá Reykjavík í vor, en frestuðu mótinu þá, vegna þess að ég kom ekki. En fari ég til Borgarfjarðar héðan, verð ég að fara til Reykjavíkur aftur og komast svo með skipi þaðan til Ísafjarðar og Stykkishólms.

Frá Reykjavík fór ég 3. júlí. Kom til Reyðarfjarðar aðfaranótt hins 6. Fór næsta dag á mótorbát (um 5 mílur enskar) til séra Stefáns á Hólmum (Lögbergs ritstjóra fyrr og frænda okkar), átti alúðarviðtökur þar, eins og alls staðar. Var þar nótt. Svo flutti Stefán mig til Reyðarfjarðar aftur á gæðing sínum bezta, og fylgdi mér. Þaðan fór ég upp Fagradal, til Egilsstaða, um 20 mílur enskar. Með mér voru tveir kaupmenn af Reyðarfirði. Fórum af stað að kveldi kl. 10 og komum í Egilsstaði kl. 3 um nóttina. Daginn eftir komu búnaðarskólakennararnir frá Eiðum og drifu mig þangað. Var þar nótt. Þaðan í Vallanes, til séra Magnúsar, bróður Bjarna frá Vogi. Þaðan í Hallormsstað. Mætti þar séra Guttormi í Stöð, sem átti Málmfríði sál. Austmann. Ungmennafélagið þarna hélt mér hátíð í Atlavík við Lagarfljót, í Hallormsstaðaskógi, svo ég varð að sitja dag um kyrrt. Næst gisti ég hjá Ólafi lækni í Brekku, bróður séra Jakobs Lárussonar, sem var í Wynyard prestur. Þaðan fór ég í Skriðuklaustur. Þar býr Halldór nokkur, skyldur okkur. Reið um kveldið að Valþjófsstað. Séra Þórarinn ekki heima, en dætur hans og sonur, sem ég kynntist í Atlavík, og séra Þórarni [þá] líka. Hann stýrði

samkomunni, og það fólk kvað líka vera skylt okkur. Svo fór ég til Eiríksstaða í Jökuldal. Kom þar um kveld, og nóttina eftir reið ég til Möðrudals. Þar býr Einar, sonur Stefáns, sem vestur kom. Arnfríður móðir hans lifir, en er utan við orðin. Frá Möðrudal fór ég til Grímsstaða á Fjöllum. Við Jökulsá tóku Mývetningar við mér. Jón Gauti, Sigurður Jónsson (skáld), sonur Jóns Hinrikssonar, Jónas Þorbergsson, sem vestra var, og tveir aðrir. Komum í Reykjahlíð um kveldið. Fjöldi Mývetninga, karlar og konur, riðu á móti mér inn á Námaskarð og tóku mér þar með söng og fögnuði. Samkoma í Reykjahlíðarkirkju um kveldið, söngur og ræður og húsfyllir. Svo gisti ég þar, en næstu nótt í Baldursheimi, hjá Þórólfi Sigurðssyni (ritstjóra „Rétts"), sem sendi mér bréfið frá Þorgilsi heitnum Gjallanda. Hann var einn, sem mætti mér við Jökulsá og skildi ekki við mig, fyrr en á Húsavík. Næstu nótt gisti ég á Gautlöndum, hjá Jóni Gauta, syni Péturs, og systrum hans og konu, sem allt er skemmtilegasta fólk, og var svo gott við mig, eins og væru þau systkini mín, eins og reyndar allir eru. Frá Gautlöndum reið ég til Húsavíkur, en tafðist 4 eða 5 klukkutíma á Breiðumýri. Reykdælir höfðu safnazt þar saman og tóku mig þar á förnum vegi, með flöggum og söngvum og kveðskap og ræðum. Ég komst því ekki á Húsavík fyrr en kl. 6 morguninn eftir, enda er þessi leið milli 40 og 50 mílur enskar. 15 mílur út frá Húsavík riðu þau á móti mér um nóttina, Unnur frænka þín og maður hennar, Sigurður Sigfússon, og 3 aðrir heldri menn á Húsavík. Næstu nótt reið ég inn í Sand til Guðmundar, kom þar kl. 3 um nótt. Fór þaðan á næsta hádegi í Yzta-Fell. Þaðan að Halldórsstöðum í Kinn, þar býr systir Jónasar Hall, og í Eyjardalsá komst ég kl. 3 um nótt. Var þar kyrr næsta dag. Reið svo með fjölmenni suður í Mjóadal og kom til baka kl. 6 morguninn eftir. Í Vagli í Fnjóskadal komst ég svo næstu nótt kl. 12. Með mér voru þeir frændur okkar (og frænkur þrjár), fullorðin börn Guðna og Stefáns, allt myndarfólk. Helga var heima líka, sem stendur, en var nýkomin af Ísafirði, frá Jóni syni sínum. Hún er kát og orðhvöt, sem áður, en nokkuð ellileg og hefir misst sjón. Frá þessu fólki átti ég að segja ykkur margar kveðjur og

góðar, þér og krökkunum. Á Vöglum býr Stefán Kristjánsson frændi (frá Mýri) og er skógarvörður. Hann flutti mig næsta dag til Varðgjár við Eyjafjörð. Þar tóku við mér á mótorbát bæjarfógetinn, Páll Einarsson sýslumaður, og aðrir nefndarmenn fjórir. Stórveizla á Hotell Akureyri kveldið eftir, ég og Matthías sessunautar í hásæti, og sýslumaður veizlustjóri, og um hundrað manns að borði. Ræður og kvæði og alls konar tilhald. Nú var kominn maður frá Skagfirðingum að sækja mig, skólapiltur, sem hér á heima. Hann heitir Brynleifur, af ætt Gísla Konráðssonar. Á mánudaginn var lögðum við upp af Akureyri kl. 5 um kveldið, en gistum á Hrauni í Öxnadal, þar sem Jónas Hallgrímsson er fæddur. Um morguninn, áður en ég fór, fór ég að sjá Hraunsvatn, þar sem faðir Jónasar drukknaði. Það er hátt uppi í fjalli og tók okkur um 3 klukkutíma að komast báðar leiðir. Þaðan héldum við til Víðivalla í Blönduhlíð. Með okkur var af Akureyri Guðrún Pétursdóttir, móðir systkina, sem þar búa. Hún er nokkuð eldri en ég, og falleg enn, þekkti mig og mundi frá æsku okkar, þó ég hefði gleymt henni, og var bezti lestamaðurinn í ferðinni. Í gær mætti mér við Héraðsvötnin Þorvaldur Arasen, sem býr á Víðimýri, tók mig heim með sér fyrst og okkur Brynleif, en svo fór ég þó með Brynleifi heim til hans, en fer líklega til Víðimýrar annað kveld. Ég er nærri ráðalaus yfir, hve allir eru mér góðir, einkum þó unga fólkið. Það er nærri metizt um að gera mér allt til ánægju og sjaldan víst af hræsni gert. Ég fyndi það. Það er eins og fólk telji ekkert ómak eftir sér, í mína þágu, og allt er gert borgunarlaust. Þvílíkt! Stundum ríða stórir flokkar manna á leið með mér, og þó er annatími.

Veðrið hefir verið inndælt, aldrei öðru hærra, að heita má, síðan ég sté á Norðurland, enda veitti ekki af. Tíð var vond og köld áður og horfur illar. Nú virðist ætla að rætast úr því.

Frískur hefi ég verið, en nokkuð dasaður stundum, af næturvökum helzt. Hæsi fékk ég þó snöggvast af að þeysa móti hafrænu um nóttina, frá Gautlöndum í Húsavík, en er nú bötnuð. Ég sendi þér hraðskeyti frá Akureyri, á laugardaginn var (29.). Svona: *Akureyri for Skagafjord.*

*All well*. En ekki veit ég, hvort þú færð það, né nokkurt bréf, því allt þess háttar sekkur eða týnist, meira og minna. Ég talaði við Dr. Finnbogason í símskeyti frá Akureyri, og ekki var þá neitt bréf til mín komið til hans. Þetta bréf fer frá Víðimýri þann 10. ágúst, kemst til Reykjavíkur þann 17., eða svo, en hvað um það verður svo, veit ég ekki. Ég frétti ekkert — ekki einu sinni af stríðinu. Þú heyrir kannske, að íslenzkum skipum hafi verið sökkt, þau eru nú víst orðin fjögur eða fleiri, leiguskip. En þau fóru öll til Englands, ekkert vestur. Ég hefi varla tíma til að klóra bréf. Hvar sem ég er, er einhver hjá mér, eða þá veizluhöld og ferðalög. Mér líður samt vel að öðru leyti en þessu hátíða-annríki. Enga stúlku hefi ég enn kysst, nema Helgu frænku og Ólöfu gömlu skáldkonu á Hlöðum, og fáa karla, nema Eyjardalsárbræður, Gunnlaug lækni Einarsson, Þórólf og Matta gamla — en hann stökk á mig. Annars kyssast flestir enn, og ég er hálfhræddur um, að ég þyki ekki mjög alúðlegur stundum, enda hefir þú sagt, að ég kyssti bæði lítið og illa, svo mér er ekki úr háum söðli að detta með kossana! Vertu nú blessuð og sæl, og heilsaðu öllum heima þarna, krökkunum og nágrönnunum,

frá karlinum þínum.

*Helga Stephansson.* Ísafirði, 26. ágúst 1917.

Góða mín. — Hér er ég nú á Ísafirði hjá Baldri Sveinssyni. Kom hingað í fyrrakveld á véla-bát yfir Ísafjarðardjúp, sem er um 6 klukkutíma ferð. Ísfirðingar sóttu mig til Arngerðareyrar. Mér líður ágætlega og Baldur er mér sem bezti bróðir, eins og alltaf. Ákaflega þótti mér fallegt að sigla hér með ströndum inn, að það vildi ég, að fleiri hefðu verið komnir til að sjá það með mér. En ekki er alls staðar greiðfært né fljótfarið um Vestfjörðu. Ég held, að sumum myndi þykja brött og svimahætt sniðgatan ofan að Fjarðarhorni í Kollafirði, en gaman er að sjá það allt.

Ég skrifaði þér 2. ágúst frá Geldingaholti í Skagafirði. Samkoma var mér haldin á Víðimýri. Þaðan var mér fylgt til Hóla í Hjaltadal. Var þar dag um kyrrt. Fór svo til Sauðárkróks. Þeir Sauðkrækingar fluttu mig á véla-bát til Drangeyjar. Við vorum 7 saman. Steingrímur Matthías-

son læknir var einn. Ég klifraðist upp á eyna, eins og hinir, og varð þar góð skemmtun við tóftina af kofanum, sem Grettir bjó í. Við borðuðum þar, lásum úr Grettissögu og öll kvæði um Gretti og Drangey.

Á Sauðárkrók stóð mikil veizla þann 12. Fólk kom þangað langt framan úr sveit. Úr Skagafirði fór ég vestur á Blönduós og gisti hjá Ara sýslumanni Arnalds, tengdasyni Einars Hjörleifssonar. Þaðan til Borðeyrar, og varð að vera þar dag um kyrrt hjá sýslumanni, Halldóri Júlíussyni, sonar-syni Halldórs heitins Friðrikssonar, föður Moritz heit. læknis. Auðvitað gisti ég víðar og kom. Því þessi leið er löng og ómögulegt að segja þetta allt í bréfi, nema þetta: allir eru mér svo framúrskarandi góðir.

Hér á Ísafirði eru frændur okkar, Ingólfur frá Mýri og Jón, sonur Helgu á Eyjardalsá. Báðir vinna þeir við sömu verzlun, Karls Olgeirssonar hér. Ingólfur á tvær dætur, vaxnar nokkuð, Kristbjörgu og Helgu, að mig minnir, og Jón einn dreng, að ég held. Annars á ég eftir að koma til þeirra. Ég verð hér líklega kringum viku í allt. Fer með skipi, að ég held, til Reykjavíkur. Hættur [við] að koma í Stykkishólm, því séra Ásmundur er nú í Reykjavík. Bezta veður hefi ég sífellt hreppt, að því undanteknu, að nú í liðuga viku hafa gengið kuldastormar. Heyskapur hefir gengið vel og spretta í meðallagi norðanlands, og þykir mér vænt um, því illa horfðist fyrst á, vorið svo slæmt. Afli úr sjó lítill, sökum ógæfta.

Hvenær ég legg upp heimleiðis, veit ég ekki enn. En ég „telegrafa" þér það, þegar ég fer. Mættu mér í Winnipeg og skrepptu með mér suður, þegar ég kem, því líklega verð ég að fara til Garðar og Nýja Íslands, áður en ég kemst heim. Vertu nú blessuð og heilsaðu öllum heima.

Þinn S. G.

Skúli, sonur frú Theodóru, dó nýlega úr taugaveiki. Hann var þingmaður og yngstur á þingi. Ég kenni í brjósti um Theodóru, hún hefir átt um svo margt sárt að binda í lífinu.

*Helga Stephansson.* „Gullfossi", 28. okt. 1917.

Góða mín. — Hér er þá komið út á mitt Atlantshaf, og hálfa leið til Halifax. Við fórum frá Reykjavík þann 24ða að

kveldi, erum 19 farþegar, og einn þeirra er Hermann gamli Jónasson frá Mýri, frændi þinn, ætlar til barna sinna í Seattle og getur verið, að hann komi með mér til okkar. Svo er kona, sem er að vestan, Guðfinna Bjarnason, systir Björns frá Viðfirði, doktors og rithöfundar. Við vorum samskipa heim og erum enn. Tvö systkin að vestan að fara til Dakota og Winnipeg. Dvöldu ár á Íslandi í kynnisför. Og svo er Sigurður trúboði Sigvaldason einn. Stúlka er með, dóttir Jóns heit. frá Víðikeri. Hún ætlar til New York, og önnur íslenzk stúlka, kennslukona. Karlmenn eru: Ögmundur Sigurðsson skólakennari, Matthías Ólafsson þingmaður og Jón Bergsveinsson síldarmatsmaður — ætla til New York og verða þar í vetur, og svo er Björn, sonur Guðm. landlæknis. Ætlar til Chicago.

Ég hefi verið bæði heilsugóður og veðursæll, og enn er svo — ágætt sjóveður. Ég verð að fara til New York og skal síma þaðan. Sendi þessar línur á land í Halifax, ef ég get, en þar verða þær þó tafðar og lesnar. Skrifaði þér seinast í ágúst, frá Ísafirði, en Íslands-póstur til útlanda var þá settur fastur um tíma, svo ekkert bréf komst út.

Við verðum í Halifax, að líkindum, á föstu- eða laugardag næst. Tefjumst þar sólarhring minnst. Og þaðan um liðuga tvo sólarhringa til New York. Kannske þú viljir nú koma austur til Winnipeg og mæta mér þar og skreppa með mér þaðan til Dakota? Ég skal borga farið og sé ekki eftir því, ef þú hefðir ánægju af því. Símaðu til Rögnvaldar, ef þú vildir það, og hvenær þú kæmir. Áritun hans er: 650 Maryland Str., Winnipeg. Ég síma þér, þegar ég kem til Winnipeg.

Ég hefi ekkert nema svo gott að segja af mér og viðtökunum heima, að nærri ótrúlegt er, svo ég verð að segja það, en ekki skrifa.

Vona, að ykkur líði öllum vel. Skrifa frá Winnipeg, því þar tefst ég. — Verð líklega að skreppa til Dakota og Nýja Íslands. Ekki veit ég, hvort þú kemst fram úr þessu, það er svo illa skrifað, skipið ruggar svo, og ég kann ekki enn lag á því að skrifa í vöggu.

Beztu kveðjur til krakkanna og kunningjanna, og blessuð og sæl á meðan.

Karl þinn.

*Helga Stephansson.*

„Gullfossi" — við Cape Race, 31. okt. 1917.

Góða mín. — Í morgun sá ég þá Ameríku aftur. Við sigldum í sólskini og blíðviðri fram hjá Cape Race, skaganum fyrsta á Nýfundnalandi, sem verður fyrir á þessari leið. Uppi undir landi liggur bezta skip Norðmanna, „Christiansfjord", strandaði á grunni, hálft upp úr sjó, fór eins og Goðafoss okkar, vegna óvarkárni. Við sigldum 3 til 4 mílum dýpra. „Christiansfjord" var með hundruðum farþega, sem allir komust að vísu af. Á skipinu var að sögn glaumur og gleði, þegar slysið skall á. Til Halifax komumst við á föstudag, ef allt gengur jafn vel og hingað til. Við fyrsta rúms farþegar sendum Reykjavík símskeyti í sameiningu, því í Cape Race er loftskeyta-stöð, til að láta kunningja okkar þar vita, að við værum vel á veg. Þeir hafa gaman af að vita það.

[Bréfið ekki lengra. Undirskr. engin].

*Helga Stephansson.* Winnipeg, 19. nóv. 1917.

Góða mín. — Ég símaði ykkur héðan. Hefi fengið bréf þitt. Þökk fyrir það. Fer líklega suður til Garðar, og til Nýja Íslands. Tekur líkl. 2 vikur. Verð að fara um Wynyard og tefjast þar eitthvað. Sigfús Bergmann vill fá mig þangað. Ég síma ykkur þá þaðan, hvenær ég komi. Kem náttúrlega til Witaskiwin þá, en ekki til Calgary.

Ég hefi verið önnum kafinn hér. Ýmislegt að gera fyrir vini mína heima, sem eiga það margskilið, gæti eg gert nokkuð fyrir þá.

Er nýbúinn að klóra 4 bréf heim og er hálf-þreyttur á pennanum, svo ég verð feginn að leggja hann frá mér um stund, og er því svona stuttorður. Mér líður vel, hefi haldið til hjá Mrs. Árna Eggertsson og séra Rögnv. til skiptis. Á að koma til séra Friðriks kl. 8 í kveld.

Verið öll blessuð. Karl þinn.

Ef þið skrifið, sendið það falið séra Rögnv., 650 Maryland Str.

*Helga Stephansson.* Winnipeg, 1. des. 1917.

Góða mín. — Kom hingað að sunnan á miðvikudagsnótt. Öllu leið vel syðra. Fer ekki til Nýja Íslands. Legg upp vestur héðan líklega þriðjudagsnóttina, sem kemur. Hvað ég dvel í Wynyard, veit ég ekki, en eins stutt þó og ég get. Ég læt ykkur vita þaðan, hvenær ég kem. Ég hefi allmikinn flutning, tvær kistur og fleira, get um það sökum flutnings heim frá Innisfail. Heilsaðu öllum, og Laugu sérstaklega, með þökk fyrir bréfið hennar.

Blessuð og sæl. Karl þinn.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* 3ja — fyrsta.

Í fyrra dag var ártal: Eitt,
Á fékkst ei vilnaður,
Að í tvö því yrði ei breytt! —
Aftur hjónaskilnaður! — — 1922.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Ég hefði nú látið þig í friði þetta sinn, hefði ég ekki mátt til að svara bréfi þínu, komnu í gærkveldi, sem ég þakka kærl., og erindisrekstur konu þinnar og þín við frú Theodóru og sendinguna frá henni.

Mér kom á óvart spurning þín um J. S., hafði ástæðu til að hugsa það allt „klappað og klárt". Hann kom til mín í vor sem leið og spurði mig, hvort ég hefði orkað að losa mitt heit við Sv. Sv. Ég sagði sem var, að helmingur væri löngu greiddur, og afturfæturna væri ég nú í þann veg að senda. Hann kvaðst spyrja í því skyni einu að bjóða mér sitt lið, ef mig brysti, og leita mætti ég sín, lægi mér á. Þess boðs hefi ég þó aldrei vitjað, hversu sem velzt hefir. J. hefir verið mér og mínum vel. Hann hefir nú sínar aðdróttanir sveitaþvaðursins, eins og fleiri. Ég tek hans taum, sökum greindar og greiðasemi hans. Stíg yfir hitt, sem ég veit lítið eða ekkert um. Þegar Sv. Sv. var hér í haust, vildi ég þeir hittust. Varð þó ekki af. Vildi ekki þreyta öldung á útreiðum og fylgdi ekki fast fram. Heyrði, að J. æskti þó að hitta hann einslega. Þegar ég fylgdi Sv. til Innisfail, komum við við hjá J. Hann var nýfarinn til Innisfail á undan. Náðum honum á leiðinni.

Þeir ræddust eitthvað við einslega. Síðar sagði J. mér, að erindið hefði verið að segja Sv., að enn hefði hann ekkert sent, en gerði það bráðlega. Þetta er allt, sem ég veit. J. er talinn einn af þremur mestu bústólpum byggðarinnar, er hagsýnn, hefir stórt bú og gott. Peninga-kreppa er hér mikil. Kann vera hann eigi ekki allt. Þrír synir fullorðnir heima. Einn giftir sig, að sögn, nú næstu daga, dóttur annars auðmannsins, svo nefnda, hér í byggð. Byggði hús nýl., í því skyni. T. d. þeir feðgar keyptu nokkuð af löndum fyrirfarandi, eins og fleiri. Hafa enga gripi selt í haust, sökum óverðs, ala þá fyrir vorsölu, að sagt er. Þetta kann að eiga einhvern þátt í þessu, án þess ég viti það. Enn er annað, sem ég hefi tekið eftir, en veit ekki um J., að víða brennur nú eitt við: Ef gömlu karlarnir íslenzku ætla að verja einhverju til annars en gróða eða gleðskapar, verða þeir stundum bókstaflega að gera það svo, að „vinstri höndin viti ekki, hvað sú hægri gerir“, til að komast hjá óánægju krakka sinna og jafnvel húsfreyju, sem fylgir þeirra máli. Það eru víst syndir feðranna úti á Íslandi, sem nú koma niður á niðjum þeirra hér, síðan ömmur og langömmur voru að laumast með smérdömlu eða kornskál undir „svuntunni“, til að víkja einhverjum, svo karl sinn yrði ekki var við! Hvort tveggja hefi ég séð út undan mér. Annars er allt þetta órar mínir og aðeins „okkar milli“. Ef ekkert kemur bráðlega, láttu E. minna J. aftur á, í febr. eða marz — líklegu gripa-sölu mánuðina — J. er mjög hneigður að E. og ég þykist viss, að hann standi enn við orð sín — þegar „hans stund kemur“.

Ég hélt „Tímaritið“ væri fullbúið fyrir þetta ár — en settu þulurnar mínar þar, sem þú vilt, og hvernig sem þú vilt. Ég þakka þér fyrir, en óttast aðeins eitt: að mitt nafn verði „helzt til víða skráð“ í heftinu, fyrir vinsældir þess, því „„allt er að varast“.

Ég reikna öðru vísi en þú, og alveg rétt: að ég skuldi yngri mönnum og þér, sem hafið haldið í hönd mér, jafn „öfugt og ég keyrði af stað“, eins og Breiðfjörð kvað um sig. Vel veit ég þú vilt ekkert af mér hafa. Síður en svo. Enda var það ekki. Ég átti fáeinar krónur hjá Ársæl, sem ég tek aldrei hingað, hvort sem er. Vil ekki auka á niðurlæging þeirra hér. Væru mér ónýtar. Borguðu ekki 8 lóða

gerblöndu frá „skinnsokk" — bootlegger — þó ég vildi við þá verzla. Gerði Sögufél. svolítið gagn, sem var í fjársveltu. Var ánægður yfir og þótti vel við eiga að geta heimsótt þig svona einu sinni á ári, þó jafnvel ég yrði „allur á brott". Þú verður að fyrirgefa!

Vinsaml. Stephan G.

*Ársæll Árnason.* Markerville, Alta, Can., 4. jan. 1922.

Góðvinur Ársæll! Gott ár. — Nýlega fékk ég vitneskju um það frá Winnipeg, að þú hefir tekið vel tilmælum mínum viðvíkjandi séra Rögnv. Péturssyni í sumar. Hafðu góða þökk mína fyrir þá umsýslan þína, auk annars.

Viltu gera svo vel að senda mér reikning um, hvernig okkar sakir standa, svona við hentugleika?

Ég legg hér með sýnishorn af druslu eftir mig, blaðagrein, sem einn vinur minn hér kostaði til að láta prenta upp og gaf mér svo. Mætti ég senda þér 200 eintök, og ef svo, viltu þá líka gizka á fyrir mig, hvað hæfilega fáa aura upp mætti setja, svo að líklegt væri, að þú losnaðir fljótt við skranið og fáum kaupendum blæddi mjög í augum ókaupin. Það voru aldrei til nema 600 eintök af þessu roði, að mér er sagt. Láttu mig vita með línu, hvort þú vildir við þessu snerta og hvernig skynsamlegast væri að senda það heim, héðan frá Klettafjöllum, væri svo, að þú leyfðir því landtöku. Þetta er svo ekki lengra að þessu sinni. — En vegni þér vel!

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jónas Hall.* 21. janúar 1922.

Jónas minn góður. — Nú kem ég aðeins til að kvabba. Einhvern tíma seinna rita ég ykkur Jonna og rabba. Erindið er: Viltu gera svo vel og láta mig vita, hvort nokkur Íslendingur við Garðar, Mountain, eða Akra, fæst nú við bókasölu, og ef svo er, hverjir þá? Svo stendur á, ég á nokkur eintök af rýjunni, sem ég sendi ykkur Jonna: „Jökulgöngum" — kom hún til skila? Vinur minn við Wynyard kostaði þessa sérprentun án minnar vitundar og gaf mér 300 eintök. 200 býst ég við að senda til Íslands,

en vildi bralla út svo sem 100 hér vestra — 25 c. inntökuna og aðra hverja í sölulaun. Gætir þú vísað mér veg til að farga fáeinum þarna syðra? Eg veit um vel-greinda menn, hér og heima, sem eru svo óvarorðir að hafa sagt, að „Jökulgöngur“ sé bezt rituð blaðagrein vestan hafs. Hvað sem þeim stóryrðum líður, vil ég koma þeim af mér fyrir dómsdag, það bætir lítið úr illri skák að sitja einn uppi með alla þá kássu við reikningsskilin. Ég held það þyki ekki dugnaðarlegt. — Svo er annað enn. Haustið 1917, þegar ég var hjá ykkur, skildi ég eftir hjá Jónasi bóksala í Garðar nokkur eintök af „Úrvalinu“, sem þeir doktorarnir heima, Guðmundur og Ágúst, tíndu upp úr „Andvökum“, átti að seljast hér 25 c. hvert, voru á krónu heima. Um það veit ég svo ekkert meira. Myndi nokkuð hafa selzt, eða nokkuð vera til? Líklega allt fallið í fyrnsku, og ekki að fást um það né ómaka sig neitt. Ó. Thorgeirsson tók við 75 eint., eða þar um bil, og [hefir] enga grein gert fyrir enn. Annars, okkar á milli, við Vestmenn erum líkl. frægastir fyrir bóksölu, t. d. þeir Bardal og Ottenson, að minnsta kosti í Reykjavík. Allir verða að hafa eitthvað til síns hróss, og eins þegar endaskipti verða á. Bið kærl. að heilsa. Þú veizt, hvert það stefnir. Vinsamlega Stebbi.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 23. jan. 1922.

Góðvinur. — Örfáar línur, sem svar til seinasta bréfs þíns, svo þið í tíma getið farið í aðrar fjörur, ef ykkur sýnist. Ég býst ekki við að geta þetta, svo sæmandi sé, þó engum hefði þótt vænna um en sjálfum mér að hafa orðið til þess. Eins og stendur á ég ekkert efni í neitt, sem mér finnst beint viðeigandi. Er uppþurrkaður þar í bráð. Er líka ekki vinsælla að láta fleiri reyna? Sumum finnst þeir settir hjá, vegna mín. Sbr. samtal við kvæða-bróður minn einn fyrir fáum árum: „Hvernig gengur það nú, góður minn“. „Æ — minnstu ekki á það, mér gengur mæðulega. Stephan fær allt hrósið, en á mig er ekki minnzt — það hefði nú ekki þótt merkilegt af *mér*, þetta:

„Dóttir langholts og lyngmós,
Sonur landvers og skers“.

Því hvað er „dóttir langholts og lyngmós“ annað en andskotans tófan og „sonur landvers og skers“ annað en bölvaður blöðruselurinn? En, æi, áttu nú ekki bragð að gefa mér, æi, mér er svo flökurt!“ — Ég segi þér nú þetta bara svo þú gætir brosað að því, eins og ég.

Ég á þulu í smíðum, vorkvæði, undir eins konar Grýlukvæða-lagi, einrænings sérvizku, eins og vant er hjá mér. Ekki verður þar um þjóðrækni að gera, aðra en þá, sem íslenzkt er í tilbendingum. Ég hefi ætlað að senda þér hana fyrir „Kringlu“, þegar fullseydd væri. Geri það svo fljótt sem ég get. — Skrifaðu J. sjálfur, ef E. er „forfallaður“. Hann er þelþýður til þín engu síður. Annars botna ég ekkert í undarlegleik hans stundum, né hvað nú gengur að. Veit einu sinni ekki, hverju *hann* lofaði. Grennslaðist aldrei eftir því, þó það væri hann, sem kom til mín með bréf þitt, sem þessu kom af stað. Ég aðeins tók því vel yfirleitt, og sagði fyrir mig, og hann virtist á sama máli.

Vinsamlega Stephan G.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 24. jan. 1922.

Góðvinur Jón. — Jú, bréfið þitt ið fyrra fékk ég með skilum, og ið síðara, sem þú sérð. Það er satt, ég hefi aldrei svarað þér upp á sumarbréfið, en þó veturinn sé mér fimm-mánaða sunnudagsleysi, verður sumarletin þó þyngri, þá vill „samvizkan sofa um stundarsakir“ og því fer sem fer. Bréfin þakka ég þér samt kærl., þykir gott hvað gengur, meðan ég get grætt tvo á einum á þér, því ekki vil ég fyrir nokkurn mun missa þig úr bréfa-veltunni, meðan ég veld penna. Nú er ég að reyna að rífa mig úr bréfaskuldunum, sumum margra ára gömlum. Hroða stundum upp tveimur bréfum á dag vikuna út, og á lítilli stund, sem ég hefi árdegis, áður en ég fer í fjósin. Bótin er, ég er nógu hroðvirkur til að vera ekki öllum seinni. — Sveitarfréttir sömu og alls staðar: dómadags barlómur, þó fæstir eigi ennþá verulega bágt. Tíðin góð yfirleitt. Skarpir frostakaflar við og við, kringum 40 stiga frost þær stundir, sem kaldastar verða, eins og alvenja er. Þeim ofbauð það svo á Íslandi, að þeir nærri rengdu

mig, þegar þeir fóru að reikna það eftir sínum tugamæli. Miklu orkar trúin um það, sem ekki er reynt.

Í kosningum fórst bændum vonum betur, einkum hér í Alberta. Við erum á eina grundvellinum, sem fastur verður undir fótum (Eigum leiðtoga okkar, Woods, það að þakka). Reyndar er hann ekkert annað en Soviet-fyrirkomulagið rússneska, undir öðru nafni, *economic class groups*, iðnbræðralag. Eitthvað vinnst, meðan við það er haldið. Það er næst náttúrunni, og hver stétt sínum högum kunnugust, og helzt leið til að semja sanngjarnt milli mismunandi aðstæða, sé viti og velvilja beitt, en ekki undanbrögðum og ofríki. Óðara en flokknum er inn hleypt, allir teknir utan stéttar, sem segjast vilja vera með, er skrattinn vís. Til þess er þessi ásókn gömlu flokkanna að stinga hausunum alls staðar inn og komast áfram kattarleiðina. Það var ein ástæðan, sem fór með „Nonpartizans" í Dakota, þeir tóku „alla inn", og það olli að miklu leyti afturkippnum í Ontario. Drury vill hræringinn. Dr. Clark okkar var aldrei alþýðumaður, yfirburða enskur „Patent Patrioti", eins og Brandes sagði á sínum tíma um Stór-Dani. Eins-pundsmaður í pólitík: *Free trade as they have it in England.* Ég var á fundi þeim hér, þegar hann var fyrst til nefndur, greiddi honum mót-atkvæði eins lengi og unnt var — veit ekki hvers vegna þá — en nú? Ja, hann barðist með Lloyd George móti Búastríðinu, „stumparaprédikaði" yfir öll ensku „miðlöndin" (The Midlands) gegn því, varð undir, komst í niðurlæging, flúði hingað, varð hér einhver mest umflakkandi stríðstungan, yfirgaf Laurier, gerðist „Unionisti", daðraði við bændaflokkinn, þegar hann kom til, og sagði skilið við „Unionista", og svo við framsóknarflokkinn (Progressives), þegar hann sá, að sitt gamla kjördæmi hér vildi sig ekki. Gekk til „Liberala" aftur, fékk hjá þeim útnefningu og féll við kosninguna í Saskatchewan. Hann er mjög léttmáll, en síður orðspakur, ekki æfinlega í sæti sínu á þingi, þykir „sopinn góður", að sagt er. Einn kost hefir hann, auk talandans, sem kemur að liði hverjum flokki, sem hann er í, þegar í harðbakkana slæst: hann kann þingskapabrögð öll, sem óvinir vita ekki að beita. — Stewart er efalaust ráðvendnis karl, eftir því sem „pólitíkusar" gerast, ráðvandur sígandi-lukku-

maður, sem enginn býst við ötulleik af til breytinga. Sanngjarn, svo langt sem hann sér sér fært, en síður skarpsýnn. Svona hefi ég tekið eftir þessum körlum, en allt eru það mínar „kreddur". Hér á Markerville voru bóndanum greidd 96 atkvæði, „konservatívanum" 5 og „liberalanum" 11.

Vel þótti mér fara, að bændur tóku engum samningum við King, enda var King genginn gegnum sjálfan sig, þegar austur kom, með þau boð, sem hann lét fyrst í veðri vaka. „Austanvérar" hans hafa hrært í, sökum tollmála o. fl.

Þá þótti mér ekki miður fara heldur, að enginn bóndi í Alberta hefir enn viljað standa upp úr sæti, Stewarts vegna; þá er heilt meðan svo horfir, að mínu mati. Þingmaður á engan rétt til að „bralla" með sætið, sem alþýða fól honum, það eru hrossakaup, sem oft eru undirferli í. Um Crearer er mér um og ó, og yfir höfuð er það fremur, að bændaflokkurinn hér lætur hann vera en líki hann alls kostar. Minnst hafa „tvíbytnurnar" margræddu við það að gera.

Mikið var reynt að ginnkaupa Woods frá formennskunni, fyrst í hveiti-kaupa rannsóknina, svo í forsætis-ráðsmennskuna hér í Alberta. Ég var hræddur um hann. En karl stóð sig bæði skiptin og afþakkaði hvort tveggja — og, er á meðan er.

Ég er eins og þú, skil nú ekki til fulls viðsjárnar í íslenzkri pólitík. Datt í hug, þegar „Tíminn" lagði kapp á að fella stjórnina: Hann kann að vita meira en hann getur sagt frá, af því sem fram koma muni, af því hann veit leynityglana, sem allar stjórnir eiga í bak sitt, sem sé, hafa grunað það, sem fram hefir komið, sökum aðstæðanna. Verið gat, að önnur stjórn, sem virtist vera óskörungslegri, en átti aðra hlið að, hefði reynzt hollari, aðeins fyrir áhrifin undir niðri. Ekki er um að efast, kaupmenn og stjórnmálamennirnir gömlu eru Íslands-banka samsoðnir, hafa sumir tekið þar hlut á þurru landi, hafandi hluti í honum, sem aldrei kostaði þá eyri, sjálfborgaðir og meira með ágóða, auk fleiri matarhola. Það gengur svo alls staðar. Því var líkl., að Jóns Magnússonar flokknum væri annt að sitja lengur, til að umbúast, eins og t. d. þegar Kristján dómari varð eins-bils ráðherra, aðeins til að bjarga banka-

málinu þá og þeim, sem þar áttu hlut að, frá hæstarétti. Nú eru málin þrjú, öll dularfull, Íslandsbankamálið, lántökumálið og landráðamálið. Einhver kann að eiga eitthvað á hættu, ef ekki er fyrir hlaðið. Það sést betur síðar.

Gott, að Rögnv. nuddaði þér til að rita í „Tímaritið“. Þú skrifar æfinlega alþýðlega og óþröngsýnt, og hann hefir æfinlega mætur á atgervi óblönduðu Íslendinganna hér, frekar en hálf-tröllanna hér upp sprottnu. Ég trúi á rafmagn til heimanota, ekki á stóriðnað á Íslandi — né reyndar neins staðar. Hann verður alls staðar ofmenning og þrælahald. Ég óska rafmagn á hvern sveitabæ, hverjum læk að gróðurmagna drög sín með því og held, að þá yrði gaman að lifa. Það var Gullbrá, sem var sök í Surtarloga. — Af nýju prestunum vænti ég góðs fyrir mál og manndóm. Guðdómurinn sér um sig. Ég held ég hafi mætt Melan í Rvík og við verið samskipa austur, en er ekki viss, og víst hét hann ekki *Melan* þá, svo ég muni. Er það bæjarnafn — Melur — og er bær með því nafni skammt frá Búðareyri? Allur kveðskapur um heim er útburðarvæl, sem stendur. Það er tízkan, sem bergmálar á Íslandi. Þeir kalla það „hærra undir loft“. — Má ég ekki heilsa og kveðja á sömu síðu? Ekki af pappírs-eklu, en af ómaks-sparnaði. Megir þú halda fótum og sjón og fullu fjöri árum saman enn.

Vinsaml. Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 3. febr. 1922.

Rögnvaldur minn góður. — Til að binda enda á loforð mitt um að senda þér þulu mína, þegar hún væri fullþulin, legg ég hana hér með. Ekkert veit ég, hvort þið getið notað hana til upplestrar eða til að (ó-)prýða ræðu, alla, eða eitthvað úr henni. Hún er ekki beinlínis einæt íslenzk þjóðrækt (en að öðru leyti al-íslenzk að efni), því ég býst við, að tungumálin mörgu á fyrstu hvítasunnu, sem þulan endar á, séu nú orðin íslenzkt æfintýri líka. En þulan er, ef til vill, of löng og leiðinleg fyrir ykkar áheyrendur. Ég gat ekki að því gert, né annað sent. Þetta sat í mér (en ekki sem fundar-kvæði ykkar, um það hafði ég engan grun), þegar bréf þitt kom með boðin, og annað komst ekki að (var heldur ekki til), fyrr en ég gat

ræskt þeim bita úr hálsi mér. Hafið það sem ykkur sýnist! Rétt komið bréf frá ritara ykkar, Páli S. Pálssyni, með sömu bragar-bón sem þitt. Ég skrifa honum og þú getur sýnt honum forsending mína, mér til skálkaskjóls, fyrst ekki verður að gert. Kannske kemur þú vestur hér, þegar þú ferð á flakk. Þjóðr. deild hérna veitti ekki af því. Hún er lögzt fyrir, norður í Húnavatnssýslu og suður í Árnesþing. Stundum þurfti að „reisa“ horsauði, sem þó hjörðu af, — það er að segja, lyfta þeim á fæturna, en ekki „reisa“ eins og við Vestmenn, þegar við t. d. „reisum djöfulinn“. Það ætti að mega nota íslenzku hirðana þína nýju til þess, þegar fram vindur. Ég vorkenni þeim það ekki. Var sjálfur beitarhúsa-maður eitt sinn heima og þurfti að gera þetta!

Fréttaleysið er svo langt hér, að enginn tími er til að skrifa það niður, en um margt væri að tala, ef þú kæmir.

Heyrðu — þarna í Winnipeg rétt nýl., að læknir einn sérstakur, sem kallar sig *Whaley*, og auglýsir í „Kringlu“. Viltu komast eftir, hvort hann gerir nokkuð meiri kraftaverk með sinni *sérvizku* heldur [en] hinir, hversdags „hrossalæknar“, eins og t. d. þeir í sveitabæjunum, og láta mig vita um það við tækifæri.

Auðvitað hafa greiðamennirnir enn ekki við hinum, sem vilja svelta alla út, sem af hafa hjarað. En svo hefir heimurinn aldrei sætt eins sameiginlegu skipbroti. Það er eina vonin.

Yfir heimi er hjarn —
Hánótt á vegi.
Ég er birtunnar barn —
Býst enn við degi.

Gangi þér svo allt til góðs.

Vinsamlega Stephan G.

*Baldur Sveinsson.*

Markerville, Alta, Can., 8. febr. 1922.

Góðvinur Baldur minn. — Jólakveðjuna ykkar þriggja fékk ég heim hingað 5. þ. m. Þökk minni fyrir hana fylgir þá aftur ósk mín um árslöng jól til ykkar! Með sjálf-

um mér er ég svolítið drjúgur yfir því, að yngstu ungfrúrnar, eins og Rænka þín og dóttir dr. Guðm. Finnbogasonar, senda mér kveðjur. Geri nú önnur gömul kvennagull betur en ég! sem aldrei hefi átt svo mjög upp á pallborð kvenhyllinnar, meðan ég var þó félegri en ég er nú. Auðvitað segi ég engum þetta nema þér. Aðrir tryðu mér ekki. Héldu það væri mont — allir nema þú og Guðmundur. „Hæ, hæ og hó, hó! Húsfreyjan veit ekki hvað ég heiti!“

Hæ, hæ og hó, hó!
Honum er koss af meyjum réttur!
Vita ekki þó, þó,
þær, hvað hann er orðinn grettur.

En í alvöru, Baldur minn, ég varð þessum línum frá þér feginn. Þær sýndu, að enn voru engin ný skörð í hópinn. Þegar hugsað er um hann út í fjarlægðinni, í liðinni tíð, sezt oft að manni þessi ósvaraða spurning: Skal hann nú vera allur með heilu og höldnu?

Almennar fréttir get ég engar til-tínt. Þær eru svo líkar um víða veröld. Mannfall og munaðarleysi, þar sem verst fer. Basl og barlómur, þar sem allt lifir þó og lafir enn. Óáran og óánægja alls staðar, þar sem flestir renna blint, og sinn í hvern sjó, hversu við verði gert. En aldrei hefir almenningur hugsað út í heiminum slíkt sem nú. Það er eina morgunstjarnan. Sjálfur trúi ég á ekkert minna en gagngerða umsteypu í viðskiptum mannanna — byltingu, ef ekki fæst með betra móti. Verði ég til ráða kvaddur, hlífist ég þó við henni. Bara afnema allan hernað og hans (ó)gögn, því meðan hann er til, ræður alþýðu-skynsemin engu. — Strika yfir allar stríðsskuldir, gamlar og nýjar. Alþýður heimsins geta aldrei unnið þær af sér, og af handafli þeirra eru þær teknar. — Ógildi alla banka og peningabrask, sný því í þjóðeign. Það er lánstraustið á framleiðslu-von hverrar þjóðar, sem bankar og þessh. velta á. Einstaklingum gefin sú allra-eign, til gróða. Margt annað myndi ég láta á eftir fylgja! Þér mun þykja ég eirrauðari en „í-rauður“, en ég verð að láta þig vita, hve heimskur ég er, og það þér til leiðinda!

Lítil tíðindi gerast meðal Vestur-Ísl. önnur en þau, sem

blöðin segja undan og ofan af. Allt mun þó enn fullt af flokka-viðsjám í „höfuðstaðnum“ Wpg., eins og áður. Ég held, að kirkjufélags samlokan sé frekar „að týna tönnum“, fremur sökum sundurlyndis „innanbæjar“ en utan að ásókna. Annars er ég útvestur á þekju hér, og ekki á ég við trúfræðina, hún er mér meinalaus, nema að svo miklu leyti, sem hún fleygar öll samtök okkar önnur. Ég hefi trú, að íslenzku prestarnir ungu, hans Rögnvaldar míns, geti orðið okkur til gagns í „þjóðrækninni“, ef lag er með og þeir hemjast hér til muna. Þess óska ég.

Af mínum eigin högum er ekkert að segja, nema sama. Vinn eins og ég get, og kemst svo enn af. Les og rugla og rita, þegar ég er þess í færum, en allt í belg og byðu og sitt úr hverri átt. Er annað hvort að verða kreyma eða kvillasamari en ég var þó. Hefi t. d. lagt af útiverk nú í 4—5 daga til að sjá, hvort það hressti mig við. Að ýmsu leyti eru þó taugar í mér enn, og andinn, eða andleysið, sama.

Í huganum heilsa ég þér og þínu húsi, Ingólfi frænda og hans skuldaliði, öllum vinum mínum í Víkinni, og Rænku sérstaklega —.

Hugrenningar hljóðar
Heim til þín sig draga,
Unz mér uppi daga
Allar óskir góðar.

Vinsamlega Stephan G.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, Can., 4. marz 1922.

Baldur minn góður. — Nýlega sendi ég þér seðil, samt kem ég suðandi aftur, flugunum líkur á sumrin. Mér vildi það happ til, að vera frá verkum nokkra daga fyrirfarandi, sökum lasleika eða leti, og svo hitt, að eiga ýmislegt ógert til, sem ég hafði ætlað mér svo árum skipti, en aldrei komizt að. Eitt var nú þessi „Skipa-skaði“, sem ég sendi hér með, og til *þín,* sökum þess að þú ert ögn við hann bendlaður, hann á rót sína að rekja til Ísafjarðar, og fyrir þitt tilstilli kom ég þangað um árið. Á eyrar-jaðri í þorpinu var hrófað saman mörgum gömlum skipaskrokkum,

ó-nýtum og uppsettum, eins konar skipa-valköstur. Við gengum þar saman, og oft fram hjá, en minntumst aldrei á það. Þér var það víst hversdags-sjón orðin og hafðir meira gaman af Götu-Surtlu, kindinni, sem var svo miklu sauðspakari að viti og viðburði en hópurinn, sem hún gekk í. En þessi grafreitur ofanjarðar greip mig sem yrkis-efni, sem ég varð þó að geyma þá. Nú sneri ég þessum hugsunum í hendingar og sendi þér að gamni mínu, af því þú og Ísafjörður eruð hálf-gert upphaf að þessu.

Ég get þess um leið, að ég sé eftir gömlu siglingalistinni, sem týndist niður með vélaskipa-komunni. Í kveðskap detta mér svo margir útúrdúrar í hug, að ég tek hér nokkra fram í þessari kviðu. Engin von, að hugur lesara hitti alltíð léttilega alla þá snúninga mína. Því fer sem fer, þó ekki verði allténd aðgert.

Ég mundi, að í eldri þjóðsögum en íslenzkum reri Dumbur konungur í Gandvík stein-nökkva, og féll sjálfur á honum.

Ég vildi, að íslenzkan tæki upp eitthvað úr þessum ó-grynnum af fallegum nöfnum úr kenninga-máli gömlu skáldanna til að einkenna með þeim stærð og lögun skipa, í staðinn fyrir önnur eins afhrök og „kúttari“, „barkur“ og „jakt“, og önnur óteljandi.

Fallegasta draugavísan, eftir drukknaðan sjómann, þykir mér þessi í „Þjóðsögunum“ gömlu, einhvers staðar:

Fer ég djúpt um fiska-geim,
Fjarri hringa-sólum.
Þó ég sé dofinn, dreg ég mig heim
Til dóttur Jóns á Hólum,

en það var stúlkan hans, áður en hann sökk. Aldrei var ég sjómaður, en formaður sagði mér, að skömm væri að láta menn ausa skip í góðum byr, væri „neglan“ tekin opin, ysi skipið sig sjálft, ef skrið væri nóg á. — Ekki er sagan í síðustu vísunum uppspuni minn. Sjómaður heima sagði mér hana um sjálfan sig (ég man ekki hvar, né hvað hann hét), árið mitt heima fyrir skömmu. Ég var viss um, að hann var ekki að ljúga. Var ekkert að grobba. Sagan barst í tal af hendingu, og hann sagði hana nærri feimnislega, hálf-fannst víst þetta svo heimskulegt — en ég gat

ekki gleymt því né stillt mig um að nota þetta þarna. — Fyrirgefðu mærðina mína. Gleðilegt sumar, þér og þínum!

Vinsaml. Stephan G.

*Theodóra Thoroddsen.*

Markerville, Alta, Canada, 11. marz 1922.

Vinkona góð. — Þökk fyrir kveðju frá þér senda með séra Rögnvaldi. Hana og sögurnar bar póstur mér snemma í vetur. Ég var búinn að lesa sögurnar fyrir löngu síðan. Inga Lára sendi konu minni þær, víst um leið og þær komu út. Ég las þær með ánægju, og er þó, satt að segja, fremur ólystugur orðinn á skáldsögur, finnst þær flestar *skáldleysur*, uppgerðir úr erlendum nýsögum og sumar undur viðvaningslegar. Ég á við þær íslenzku, og mikið af þessum ensku eru bara bókmenntaleg ókjör, — sem ég sneiði alveg hjá. Að ég „snugga“ svona, er líklega af því, „að mig skortir skilninginn“, eins og Gröndal kvað um Dani og brennivínið þeirra.

Sveita-bragurinn á sögunum þínum átti vel við mig, lausar við uppgerðarástir og aumkunar-róma, eins og þær eru. Svo fannst mér eins og hér og þar brygði fyrir svip af stelpu eða stúlku, sem ég ímyndaði mér, að ég kannaðist hálfgert við. Ég er nú að láta karl-klaufa, eina bók-bindarann svo nefnda hér, festa þær í spjöld fyrir mig, eins og þær komu, í ferðafötunum, það er í kápunni, og þykir það séu betri afbrigði en engin. Aldrei hefi ég getað efnt að senda þér myndina, sem þú baðst mig um. Það er mér að kenna, og ekki mér að kenna! svo ég api viturleg svör í sögum okkar um Amlóða Danaprins, t. d. eins og: Vindur fer í vatn og vindur fer úr vatni!

Það er gott að heyra af krökkum þínum, sem þú sagðir mér af, sinn á hverri menningarskák. Þú ert í þann veginn að verða amma menntagyðjanna níu. Þorvaldur er víst í bæ, sem heitir New Westminster við Frazer-ána á Kyrrahafsströnd Canada. Eitt sinn fór ég þar viðstöðulaust um. Þótti þar fagurt, fljótt að sjá. Elfan allstór, með þorpið á hlíðar-brjóstinu. Ég fékk víst kveðju frá Þorvaldi, bréfspjald, eitt af mörgum hugnunarskeytum, út af Vígslóða mínum, þegar hávaðinn um hann stóð sem hæst

í blöðum hérna. Ekki gat ég svarað. Áritun var engin. Bréf frá honum til kunningja síns hér hefi ég nýlega séð. Atvinnulaus var hann þá í bráðina, en kvartaði ekki um neitt. Hér er illt í ári, eins og annars staðar, nema þar sem verra er. Fæstir svelta, og líkl. sem næst engir af Íslendingum, en lómurinn er barinn látlaust. Engin úrlausn enn á ástandinu, aðrar en ráðlausar umbóta óskir, sem standa yfir rústunum. En slíkt er nú sjálfsagða sagan alls staðar enn.

Hærzt og holuvangazt
Hef' ég við að árast,
Meira gretzt og gárazt,
Grá-myglazt og krangazt,

er nú helzt af mér að segja, sem líður að öðru leyti vel og venjulega. En ég trúi þér fyrir því, Theodóra, að þú látir ekki Katrínu dóttur þína komast að þessari mynd af mér, þó að sönn sé. Hún sendir mér þá aldrei „koss" oftar, eins og þú sagðir hún hefði gert með bréfi þínu, inu fyrra. Ég sá í heimanblöðunum, að hún sæti hérna suður á „Kili". Mig minnir, að þar séu lönd byggð af spönskum kynblendingum, verstu tegund mannkynsins! — eins og íslenzkur listamaður komst að orði um írska gyðinga. Hann átti þá við leikhúss-ref í Lundúnum, af því kyni, sem reynt hafði að hafa af honum. Ég er því „hræddur um" Katrínu. Set það samt í hendingar, bæði okkar allra vegna, og sökum hins, að enginn hagmæltur Íslendingur getur kallazt skáld, nema að hann hafi á einhvern hátt frá Hinrik Hænir, leynt eða ljóst, en ég hefi vanrækt það hingað til. En nú kem ég með það:

Donna Kata, Donna Kata!
Dagar uppi fjöld af vonum!
Löng er kossa-leiðar gata,
Laus er höndin spönskum donum.

Verði að mér orpinn haugur,
Eða sjálfur „gangi í fossinn",
Svo ég komi í dansinn draugur,
Donna Kata, fæ ég kossinn?

Vertu svo blessuð og sæl, frú Theodóra, og virtu þetta óþarfamál hér eins og til er ætlazt, mér til gamans gert.

Vinsamlega Stephan G.

*Sigfús Blöndal.* Markerville, Alta, Can., 12. marz 1922.

Góðvinur. — Nú er liðið á fjórða ár, líklega, síðan ég meðtók gott bréf frá þér, 1919, er ég hefi þó aldrei svarað enn, bæði sökum tímaleysis og trassaskapar, en einkum þó vegna kergju, sem kom í mig út úr þessari rannsókn og upprifi á öllum bréfum, meðan stríðið stóð yfir. Að vísu á því nú að vera löngu lokið, en bæði er ég langrækinn við lögleysur, og veit varla enn, hvort allt er vel gróið, þó heilt sé kallað. Áreiðanlega týnast nú bréf tíðara en var, eða svo hefir mér reynzt. Alls konar óskilvísi grær upp úr gorvelli mannmorðanna, eins og illgresi, jafnvel löngu eftir að hlé kemst á. Ég get sannað það [á] sjálfum mér: að hafa svikið þig svona lengi um svar, Sigfús, eins bróðurlegur og blátt áfram eins og þú varst mér í „Vík" forðum, útkjálka-karlinum, eins og ég er og var.

Líklega hefir orðabók þín tafizt við óaldarfarið, sem á allt komst sökum stríðsins. Ég hefi ekki af henni spurn, nema hvað íslenzkt blað gat þess fyrir löngu síðan, að prentun hennar væri byrjuð í Reykjavík og yrði þriggja ára þraut. Ég óska þér þeirrar ánægju, að þú fáir nú að sjá þessu lostverki langra ára þinna lokið, og vel af hendi leyst, innan skamms og áður en þú verður „kvaddur á brott" sjálfur. Mér finnst ágætur þessi „endurburður" bókar þinnar, sem þú hefir fyrirhugað henni, fram í aldirnar, með því fyrirkomulagi, sem á er ætlað. Gaman væri að vita íslenzkuna svo vel vistaða hjá sem flestum tungum mannanna. Uppástunga þín um enskuna er góð. Væri ekki nema skylda vestur-íslenzkrar þjóðrækni að hlynna að henni, þeirrar, sem helzt hefir, eða þykist hafa, til „manns að moka". Komist ég að því, skal ég stinga þeirri hugsun einslega að þeim kunningjum mínum, sem ég hefi helzt traust á og ég næ til og veit að vilja íslenzkunni vel af alvöru. Ég skilaði kveðju þinni til séra Péturs Hjálmssonar og gat um þetta við hann. Hann lét mjög vel yfir slíkri ætlun og bað mig að bera þér kæra kveðju sína, þeg-

ar ég skrifaði þér, og loksins efni ég það nú við hann.

Í bréfi mínu inu fyrra til þín, bað ég þig að bera kveðju mína pilti, sem ég vissi að var þarna í Höfn: Kristjáni Albertssyni, en mig minnir á eftir, að ég muni hafa brenglað nafni hans, enda er enginn skaði skeður, þó þú hefðir ekki botnað í þeirri bón. Reyndar má ég heita þessum unga manni ókunnugur, átti aðeins nokkurra augnablika viðtal við hann á „Víkur"-götu haustið 1917, rétt í því hann var að stíga á skip til Hafnar, en það settist einhvern veginn að mér, að í honum væri efni til listdómara, á sviði bókmennta að minnsta kosti, og að hann væri þar á réttri, en síður vinsælli leið, eins og þá stóð og stendur enn. Getur verið, að ég hafi gripið það út í loftið, viðkynningin var svo stutt. Mér verður vanalega hvort tveggja í senn, að þykja vænt um og hálf-kenna í brjósti um unglinga, sem mér finnst þannig farið, slíka æfi sem þeir hljóta að eiga hjá okkur Íslendingum, þó hlutfallslega séum við ekki öðrum þjóðum verri í því. Og kannske, eftir allt, eiga þeir fleiri farsældar-stundir en fjöldinn, hver veit? En þetta var ástæðan, að ég bað þig fyrir þessa vitlausu kveðju, sem varð.

Fyrirgefðu frágang þessa miða, Sigfús. Eg verð allt að skrifa með annað annríki hangandi yfir höfði mér, svo til alls er höndum kastað — en svo er það þá meira gaman — eins konar glæfraleikur. Þökk fyrir viðfelldna viðkynningu og bréfið, sem ég svara svona seint og illa.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

Eflaust fengu blöðin hér „Det Nye Nord" frá þér. Gátu þess lítið eitt. Ég hefi aldrei séð það. Stefnan er góð: Samkomulag Norðurlanda. Verst, ef Grænlandsmál ætla að verða til ýfingar. Danir ættu að gefa verzlun þar frjálsa. Afsala engum landskosti. Fyrirbjóða sjálfum sér og öðrum verzlun með skaðræði öll.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 31. marz 1922.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Þökk fyrir bréf þitt og sendinguna, þér og félaginu. Ég vænti hvorki launa né

þakka, var aðeins að gera skyldu mína, að mér fannst, fyrst þess var æskt, og úr því ég hafði ratað í það völundarhús að gerast rímari, því það er eins og að lenda inn í annað líf, í hvorn staðinn sem er, maður á ekki þaðan útkomuvænt! Auðvitað kemur sér þetta þó vel. Ég finn, að fyrir þetta er ýmislegt, sem ég eyði, öðrum fremur, t. d. ritföng og frímerki, „ekki tekin út úr búinu", eins og Ásmundur sálugi „prestlausi" í Mikley komst að orði, um annað efni sitt. En þó ég aldrei eyði tíma frá öðrum störfum til skrifta, hefi ég löngum verið látinn kenna þess, að „rissið" mitt sé vanræksla nauðsynjanna, þó mín eigin samvizka sé þar „glöð og góð" og þykist geta sannað, að hún hafi fullan rétt til að vera það. En mest gaman væri að „yrkja fyrir ekkert", nema það, að „þjóna lund sinni".

Mig langar til að senda vini mínum, Sigurði „magister" Guðmundssyni á Akureyri, þetta hefti „Tímaritsins" — hefðu átt að vera öll, þó hann ef til vill eigi þau, hafi hann getað keypt þau. Í því skyni sendi ég þér $1.25 og bið þig að sjá um að senda honum heftið. Bréf til hans læt ég hér fylgja með, opið, og þú mátt lesa það. Það skýrir, hví ég er að þessu. Þeir heima hafa engir sagt neitt til gagns um ritið, svo ég hafi séð. Ég er því að „freista" Sigurðar. Alveg óvíst, að af því verði fyrir honum þó, jafnvel þó hann ætlaði sér og væri viljugur til, en fær er hann til þess, er næmur fyrir því, sem vel er gert, og á næstum bágt með að taka hart á göllum þess, og ritar íslenzku á við þá, sem bezt gera. En svo er nú sama, hvað hann gerir í þessu. Þetta verður þó til þess, að hann veit loks, að ég man eftir sér, og það á hann skilið af mér. En gera verður þú eitt fyrir mig: leiðrétta 3 villur í þulum mínum, með penna þínum, á opnunni, sem þær eru í, þannig:

Bls. 32, síðasta erindi, næst-síðustu hending: Sem á brjósti, í staðinn fyrir: Sem í brjósti. Bls. 46, þriðju línu að ofan talið: Hnýttar mundir, í staðinn fyrir: Knýttar mundir. Hvort tveggja er rétt mál nú, en k-ið raskar stuðli. Á næstu bls. á undan (45), þriðju línu að ofan: Skraut*hug*felldnin, í staðinn fyrir: Skrautfelldnin, sem er of stutt og stirt og raskar hætti. — Reyndar eru þetta smámunir, sem ég rækist ekkert í, nema fyrir það, að „það mun lítið" (svo ég hafi við orðskvið, sem illa fer á um þetta) „sem

hundstunga Sigurðar fyndi ekki“ af raski ríms og máls, jafnvel þó hann gengi fram hjá að geta um það.

Gaman verður, fái ég að sjá þig hér vestra bráðum. Svart brauð og undanrenningu skaltu fá, allt sem þú torgar og eins lengi og heilsa þín og annir leyfa, fyrir að segja mér sögur að heiman, og það með þeirri meðvitund, að betri viðurgerning ættir þú skilið. En mundu að koma í einhverjum þjóðræknis-erindum líka. „Spámennirnir“ hérna hafa enga virðingu orðið í sínu eigin föðurlandi, eða eru „fals-spámenn“. Fólkið þarf að fá nýja „opinberun“. Í síðasta bréfi mínu bað ég þig að komast fyrir, ef þú gætir, orðstír þessa Whaley læknis, sem auglýsir sig sérfræðing í endaþarms-sjúkdómum. Hann auglýsir í „Kringlu“. Það getur verið, að mér yrði gagn að að vita um hann, sé hann öðrum skárri og annað en auglýsing. Líkl. hefir þú gleymt því, sem von væri til, þar sem þú átt í ragi allra erinda þarna í Winnipeg. — Vertu blessaður og sæll.

Vinsaml. Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 11. apr. 1922.

Góðvinur séra Rögnvaldur. —

Ódyggðirnar elta mig,
Illar við að glíma
(sbr. síðasta Lögberg).
Verð að abbast upp á þig,
Eyða frá þér tíma.

En það skal ekki vera um neitt, sem þú þarft að svara bréflega. En svo er mál vaxið, fornkunningi minn frá Dakota, Ásgeir Líndal (eða J. Ásgeir J. Líndal, eins og hann orðar nafn sitt), heimsótti mig í sumar. Meðal annars kvartaði hann um, að þú hefðir í „Tímaritinu“ fellt úr sitt nafn sem eins af stofnendum „Menningarfélags“ okkar sæla í Dakota forðum. Ég hélt nú það ekki vera af ásetningi gert. Hann bað mig svo að gera það, sem ég réði honum til sjálfum: Minna þig á þetta og „æskja inntöku í söfnuðinn“, með leiðréttingu, áður þú lykir máli þínu um „þjóðr[æknis] samt[ök] Ísl. í Vesturh[eimi]“. Ég lofaði því loks — ef ég mætti muna. Hefi alltaf gleymt því

hingað til. Bréf frá honum í gær vakti samvizkuna, þó ekki minntist það á þetta mál. Nú hefi ég skilað þessu af mér. Og vel mætti gera honum þessa hugnun, ef þú myndir eftir og áður en þú lýkur við, úr því hann lætur sig það nokkru varða, að hann eitt sinn var í þessu margrægða ræningjafélagi!

Enn var annað, — S. minn Sigurjónsson minnti mig á það með [því] að prenta vísuna í „Lögb." í óendurbættri útgáfu —: Ég gleymdi að geta um fjórðu villuna, sem ég fann í mínu „moldviðri", í ritinu okkar, sem sé, í „Tildrögum" (bls. 24) stendur: Drepa þessa óma, í staðinn fyrir: *Depra* þessa óma, eins og ég kvað það, — sem sé, vísan verður ögn klaufalegra „drápsverk", af því „*drepa* í stúf" er í næstu hendingu líka. — Sértu ekki búinn að senda Sigga mínum „gráa" það, sem ég mæltist til í síðasta bréfi, en gerir það enn, þá leiðréttu þetta líka. Annars er ég nú leiður á sjálfum mér fyrir svona smásmuglegt „kvabb". — Haft er eftir vini vorum Jónasi Hún., að þú munir koma með séra Kvaran hingað í sumar. Jóhann Björnsson rokinn í að láta mála Lútherskuna — ég ætlaði að segja: lúthersku kirkjuna! því sú methodiska er til „uppboðs", eins og „Lögberg" í tíð Jóns heit. Ólafssonar. Séra Pétur spurzt fyrir, hefir hlerað eitthvað, en þeir leyna hann fréttum, sem honum þykir *þeim líkt,* því ekki sé hann andstæður komu góðra manna hingað. Hann gerði mér boð, hvað ég vissi í málinu. Ég sagði sem var, að samningur væri bréflegur sá, milli mín og þín, að kæmir þú vestur hingað í sumar, borgaðir þú mér greiða svartabrauðs og undanrenningar með Íslandsfréttum. Þetta er þér sagt, bara til að brosa að, og önnur tíðindi hér kann ég ekki að segja, fyrr en fleiri atburðir gerast, eða ég hitti einhvern aðstandanda þess, sem í hönd fer, eða á að fara. Blessaður og sæll, og fyrirgefðu gleymsku og kvabb. Til að muna allt, sem maður hugsar sér, milli blaða og búbjásturs og „illra hugrenninga", þarf nærri að hafa jafn „sterk bein" eins og til að þola „góða daga" — og mín fara víst að veikjast.

Vinsaml. Stephan G.

P.S. (Hinn 15.).

„Það fór nú svona um flokkinn minn", — bréfið þetta,

það kom óveður með enga ferð á pósthús héðan, fyrr en í kveld. Í millibili kom langi-frjádagur, þegar foreldri okkar kaþólsk hýddu öll börn sín, sek sem saklaus, í fyrri daga. Mér datt S. Sigurjónsson í hug. Þú sérð *árangurinn* á fylgiskjali. *Hann má en á* ekki endilega að koma í „Kringlu“, við hentugleika. Ég þekki S. S. ekkert, svo ég viti til, nema af ritmennsku hans. Þú veizt betur en ég, hve voldugur til spells í Þjóðr.fél. hann gæti orðið, og hagar þér samkvæmt — en ég held þeir verði ekki *ertir* betur, hann og hans líkar, en með nýju og nýju kvæði úr biblíu þeirra og stríðinu, hvenær sem þeir reyna að rægja. Ég skil hann Sigurbjörn(?) svona: Hann ritar ekki af velvild til þjóðrækni, heldur af undirferli, af því hann og hans nótar ráða ekki riti og öllu, sem af drýpur, reynir svo það sem hann þorir að spilla áliti ritsins hjá almenningi, svo sínir sinnar nái tökum, til að látast „bjarga málinu“. Rugl hans má ekki ganga um ómótmælt, nema svo sé, að sé félagsskapnum háski í. Það, sem mér við víkur, er ekki nema náttúrlegt, frá þessari hlið. Þaðan á ég ekkert nema illt skilið, frá hennar hagfræði skilið, og er við því búinn. Mig þarf að gera að grýlu í félaginu, því til hnekkis, ef unnt er. Ég er með kvæðinu að draga að *mér persónulega* illkvittni hans S. alla, en frá félaginu, vilji hann „bíta á krókinn sinn“ aftur. Gáðu fyrir mig að, hvort latínu orðin (upphafið að kaþólska sálminum fræga) eru rétt stöfuð, og lagaðu, ef þarf. Ég er þar ekki alveg viss á minni mínu.

Vinsaml. S. G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Heima, 23. apríl 1922.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréfið og sendinguna. — Kom í gærkveldi. — Bara að Siggi minn nuddi sér af stað, því bóngóður er hann þó.

Ég var að spyrja þig um Dr. Whaley, einmitt sökum „sérvits“ hans í þarmalækning og þessh., og fyrir sjálfan mig. Ég er gamall „dyspeptic“ frá innan við þrítugt. Er það ættfylgja og sjálfskaparvíti, ofkæling og ill aðbúð og erfiði, í fyrstu. Nokkur síðustu ár bættist við nýr kvilli, líkl., snertur af gyllinæð einhverri, sem sé „Piles“. Leitaði ögn læknis hér, fyrir 2 árum, og aftur í vetur. Skánaði

heldur, og kannske batnar — í sumar. Varð að hvíla mig 2—3 vikur frá vetrarverkum í febrúar. Fyrr aldrei, þó mér vegnaði ekki sem bezt. Í þess konar segist Dr. W. vera læknir, sá eini, sem ég hefi séð auglýsa það, og ef til uppskurðar komi, nota aðeins holddeyfingu, sem þeir kalla „Local", en ekki svefnlyf. Þess vegna spurði ég þig um orðstír, sem af honum færi, yrði ég ófær, sem ég vona, að verði nú ekki. Þetta var nú allt. Og um það þarft þú ekkert að segja mér, fyrr en við sjáumst.

Kannske það verði eins og með „Vígslóða", „Tímaritinu" til útbreiðslu, ef nú yrði aftur hrina, því þar getur Finnur ekki komið sinni ár fyrir borð, eins og með hann, að hafa ekkert af því á höndum, þegar hann sér, að útsala og eftirspurn er meiri en hann getur girnzt.

Oft skammast ég mín fyrir að ónáða þig svona oft með bréfum, og svo er nú. Mér vill alltaf eitthvað til. Kunningi minn, nýdáinn vestur á Strönd, gerði mér boð af banasæng sinni að minnast sín með einni línu, eða svo. Reyndar átti hann það skilið án boða, en óvíst, að af hefði orðið. Þó, þjóð okkar var í æsku minni orðin svo góðgjörn, að hún trúði, að ekki mætti á nokkurn hátt neita um bón, þegar svo stóð á, og vera vítalaus af. Ég gerði því þetta í gær, og var búinn að „slá ut[an] um" til ritstj. „Hmkr." Ríf það nú upp aftur og sendi þér hér með til „framvísunar".

Nú er að hlýna og hlána fjalla-kinn —
Hvítum tárum vorið grét sig inn.

Gott og gleðilegt sumar.

Vinsaml. Stephan G.

*Sig. Guðmundsson skólameistari.* Markerv., Alta, apr. 1922.

Góðvinur Sigurður Guðmundsson. — Oft hefi ég hugsað hlýtt til þín, síðan við kynntumst í „Vík" forðum, fyrir skemmtunina, alúð þína og kveðjuna þína til mín í Ísafold, í fásinninu mínu hérna upp við fjöllin. Aldrei hefi ég þó skrifað þér. Sá duttlungur datt í mig, meðan öll bréf manns voru rifin upp, lesin eða eyðilögð, að ég varla hafði skap til að senda línu heim, nema í lífsnauðsyn. Svo nærgöngul fannst mér sú gagnsleysu-heimska stríðsþjóðanna. Nú skal hún vera skelld og felld, en enginn er

til að segja, hve lengi kann að eima eftir af illvenju, sem lögskipar bréfastuld, svo ég er nú rétt nýbúinn að jafna mig eftir ólundina og hefi sent kunningjum mínum nafn mitt í vetur, við og við, eftir því sem ég komst höndum yfir. Samt hefi ég öðru hvoru séð til þín, gegnum blöðin, og veit hvar þú ert nú niður kominn, og óska þér gleði og góðs gengis við heimilisskiptin — ykkur báðum hjónunum.

Nú er ég að hugsa um að gera mér það til erindis við þig, að sjá um, að þér verði sendur síðasti „gamlársgangur“ tímarits okkar þjóðfélaganna vesturheimsku. Ekki skal ég þó lá þér, þó þér virðist það lítið vinarbragð, í góðu skyni gert, því „böggul“ læt ég fylgja því „skammrifi“ og segi þér um leið, að undir því býr sú ósk mín, að þú hefðir tæki til að geta ritsins í grein, annaðhvort í „Tímanum“ eða „Degi“, ögn ýtarlegar en enn hefir gert verið (að svo miklu leyti, sem fyrir mig hefir borið). En því „kýs“ ég þig fyrir þessum „oddi“, að ég þykist þekkja þig að glöggdæmi, sem mér geðjast, og næmi fyrir því, sem fagurt er í efni og orðum, en alls þurfum við hér við af velvild ykkar heima — við, sem erum því hlynntir, að móðir íslenzka verði hér ekki svo bráðkvödd á unga aldri, að lítið eða ekkert liggi eftir hana, sem hún er svo líkleg til, ef örlög og aldur leyfa. Í bráðina er það í mínum augum aðalatriðið. Síður hitt, hvort hún geti enzt hér um aldur og æfi! Ég held, að ef þú hefðir hentugleika til, gætir þú gert þetta með góðu geði, einkum yfir þetta nýjasta hefti. Þó sumt okkar hérna, sem „ritað stendur“, kunni að þykja eitthvað Vestmannaeyjalegt, skil ég ekki í öðru en að þér fallist allvel á kaflana ritaða af mönnum heima, t. d. þeirra bræðra, Kjartans og Magnúsar: *„Mátt orðsins“* og *„Landnámu“*. Þáttur séra Rögnvaldar: *„Þjóðræknis samtök Vestur-Íslendinga“*, er það, sem sannast og hlutdrægnislausast hefir sagt verið um félagsmál okkar Vestur-Íslendinga, þó „Austurland“ ykkar heima hnýtti að Rögnvaldi fyrir, auðséð af því, að Rögnvaldur fylgdi ekki sömu „fagurfræði“ eins og herra Hagalín. Í öllu, sem áður var ritað um þetta efni, var einn þráður, og oft á öfugum snúð, sem sé: Alls-staðar-nálægð kirkjufélagsins okkar lútherska, í allri góðri gjöf. *„Landskuld“* og *„Fýkur í spor-*

*in*", eftir Guðrúnu H. Finnsdóttur, og „*Jakahlaup*", eftir J. M. Bjarnason hér vestra, finnst mér orðaverð, og er ég þó andstæður eftirdrögum þeirra, í ályktun lesarans af efninu. Eins konar glæsing á vitfirzku stríðsins í „*Landskuld*", og örvænting um allar minjar Íslendinga hér í „*Fýkur í sporin*" og „*Jakahlaup*". Þjóðrækt þarf annars með en vonleysu, og lítilmennska er að „leggja sig til", fyrir örlög fram, þó allt einstakt líf kunni að vera stundlegt. En, þrátt fyrir: Guðrún nær fastari og tilgerðarminni og rauslausari tökum á sögu-efni en ýmsir samsetninga-höfundar ykkar heima, að því sem ég hefi vit á, og Magnús má sín oft vel á æfintýrum. Ég veit, að þú skilur mig ekki svo, að ég sé að kvabba á þér, sökum þess ég sjálfur eigi lítinn hlut í „grautar-gerð", sem sé kvæðin. Nei, það veldur, að ég vil vinna félagi okkar hvert smá-gagn, sem ég gæti, en þau mega liggja í þagnargildi. Og eins trúi ég því, að þú afsakir ósvífnina, að biðjast beininga af þér, óviðkomnum. Vertu svo sæll! Sigurður, og berðu konu þinni kveðju mína líka og þökk.

Vinsamlega Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Heima, 7. maí 1922.

Góðvinur. — Ef þú (eða séra Kvaran) kæmuð vestur hingað, gætuð þið hagað því svo að vera hér staddir 17. júní og talað þá eitthvað til okkar? Þá stendur yfir „Íslendingadagur" okkar hér, og tækifæri gott að „sýna sig og sjá aðra". Þetta er nú bara sérvizka mín. Get hvorki boðið borgun ræðumanni, sem stendur, né hefi umboð til útvega. En, hugleiddu þetta og láttu mig vita. Jón Sveinsson hitti ég nýlega. Ég gat þess, að Kvaran kynni að hafa gaman af að koma vestur, en myndi þurfa að takmarka ferðakostnað. Mér skildist á honum, að hann teldi það lítilræði, að skildinga það upp hér. Eins og þú veizt, er kona Jóns móðursystir Ragnars, og ég gerði þetta til að heyra, hvernig í Jóni lægi, en hann er maður ónízkur til greiða, þegar honum sýnist svo. Hann sagði líka, að þau myndu hafa skrifað R., hefðu þau vitað heimili hans í Winnipeg. Ég taldi hæginn hjá að fela þér bréf til hans og tók Jón því vel. Þetta var nú ekki nema lausahjal og naumast til

frásagna — nema ef Lárus Guðmundsson væri að rita blaðagrein. — En svo er hann ekki ég!

Viltu gera svo vel að afhenda „Kringlu“ meðlagða skammagrein? Ætlast ekki til, að prentuð sé, en vil ekki kalla sjálfan mig „Úlf“ athugasemdalaust, af því ég er nafninu mótfallinn! — og vænist því leiðréttingar.

Með vinsemd Stephan.

*Jónas Hall.* Markerville Alta, 13. maí 1922.

Jónas minn góður. — Þökk fyrir bréf, fyrir fáum dögum síðan. Átti að svara strax, en stóð á hausnum í fjósum mínum og upptekt á illræti af ný-yrki á akurbletti frá í fyrra. Svo þakka ég þér og Jonna undirtektirnar á prangi með Jökulgöngur. Ég ætla ekki að sinna því, en söm er ykkar gerð. Ég hefi ekki geð til að nota mér kunningsskap við menn til að knékrjúpa almenningi til að kaupa þetta af okkur óviljuglegur, sem er svo ódýrt, að engan munar, né færa það niður í söluverð Símonar Dala-skálds og Axels, þó ég viti vel, að það sé kannske kaupsýslubragð gott og geri fólki léttara fyrir um miskunnarverk. Get það heldur ekki. Hjálmar Gíslason selur fyrir 25 c. fyrir mig og illt til afspurnar, færi ég að „undirselja“ hann sjálfur. Ég sendi honum fyrst 25 eint. til reynslu, og síðar sagði hann mér að senda sér 50 í viðbót. Þetta kver mitt álpaðist upp á mig óvart. Vinur minn einn í Wynyard kostaði það, að mér fornspurðum, og gaf mér 300 eintök alls. Ég vissi, hvað klukkan sló hér, en hélt ég gæti brallað einhvern veginn út svo sem 100. Það er nú hér um bil líklegt, ef Hjálmar losnar við sín, því ég hefi gefið meira en á vantar. 200 hefi ég ætlað að senda heim (þegar tæki væru á), sem verða nú tæplega svo mörg. Þetta er því allt enn í góðu lagi. Vini mínum t. d., sem býr í íslenzku fámenni vestur við haf, gaf ég að gamni mínu 7 eint. eða svo. Hann kom þeim óðara út, og ein kona þar borgaði honum $ 1.50 fyrir sitt, sagði það myndi þess virði, fyrst það væri meðal annars eftir mig. Ég segi það svona til að sýna, hvað kvenfólk getur verið einfalt í verzlun stundum. Gerðu mér greiða enn. Ef nokkuð er óselt af kverunum, sem ég skildi eftir á Garðar, þegar ég kom að

heiman, hjá Jónasi, og þau til, biddu hann að senda mér. Hann hefir enga grein fyrir þeim gert. Samt er það nú ekki neitt kappsmál. — Verði vorið þér varmara en ennþá reyndist mér.

Vinsaml. Stebbi.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Heima, 16. maí 1922.

Góðvinur.

Fyrsti vorskúr! Eg sit inni!
Afleystur frá vinnu minni,

og svo þurfti ég endilega að leiðrétta sjálfan mig við þig. Í síðasta seðli mínum til þín gat ég um, að við hér héldum Íslendingadag 17. júní, ef svo gæti farið, að einhver ykkar, þú eða þínir, ættu hér leið um um það leyti. Dagsetningu var breytt á fundi í fyrradag. Hófið verður haldið degi fyrr, hinn sextánda. Ástæðan: að 17. er laugardagur, en dansinn næturlangur, eða meira, svo helmingur hans yrði lögleysa og helgispjöll, ef sá seytjándi væri við völdin. Þetta bölvað Gregoriska tímatal! sem fæðir alla daga á afturfótunum og fyrir mál, eða hefir yfir — og það eftir allt, sem blöðin okkar sögðu þó í „vetri-var". Bótin er þó sú, nú verður þríheilagt hér, því unga fólkið fer ekki á fætur fyrr en hádegi á sunnudag, og þá verður enn „heilagt" til miðnættis. Ég hef *sagt* og samvizkuna friðað. Svo er þitt *að muna* og kannast við það!

„Vel gengur vaggan" á „Rústum hruninna halla" — allar bullur á lofti! Ég hefi sent ritstjóra „Kringlu" sína smáþóknun til hvors, Jóhanns og Sigurbjarnar. Veit ekki, hvort það fær inni enn. „Sveinstauli" í „Lögb." veit ég ekki, hver er — gruna einn af „lærðu" unglingunum, sem [ég] ekki þekki þó að neinu, og er víst utanmarks. Hefði ég vitað hver var og þekkt eitthvað eftir hann prentað, hefði ég aðeins svarað á þann hátt, að beita við það sömu aðferð eins og hann gerir við kveðling minn og sjá, hversu færi. Get það ekki sökum ókunnleika. Hans grein er bezt gerð, en í verstum tilgangi, engri skoðun trú, en öllum lævís, svo langt sem hann nær. „Karlarnir", sem á mér ætla að berja, stefna þó ekki út um allt, í vitleysu sinni. Ég legg hér með línur til „Staula" — það er sönn lýsing á aðferð hans. Af því ég veit ekki höfund, né í hvors

flokk ég veg, en vil hlífast við vissa hlið, sendi ég þér „syrpuna“ til prentunar í „Kringlu“, eða „stungu undir stól“ — ef þú veizt betur. Ef prentað yrði, sjáðu fyrir mig um *ä* og *å* í sænskunni, sé það hægt vegna „stíla“-eignar. Allt er þetta gróði! að fá „skollana“ til viðtals, svo uppvíst sé, hver andi í þeim býr! Þeir eiga löngum önnur fylgsni: Þögn og undirróður.

Lastu dóm „Lögbergs“ um grein í „Eimr.“, sem mag. Sigurður þýddi? Aldrei hefir „kreddu“-vitleysa „Lögbergs“ opinberað sig gleggra og fáorðara og einfaldlegar — þar væri efni til að glöggva almenning á, ef vel væri að verið.

Ég skal temja túla minn,
Og tefja þig ei lengur —
Verði ætíð vegur þinn
Vonum þínum fengur!

Vinsaml. Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Heima, 4. júní 1922.

Góðvinur. — Ég hafði byrjað bréf til þín í gær, ennþá einu sinni! Í gærkveldi „var ég staddur á Þingvelli“ eins konar, á Markerville — Íslendingadagsfundi, og tók þar bréf þitt, með þökkum í hug.

Hátíðin hér er nú aftur færð til síns burðardags, 17. þ. m. Já, ég bjóst nú aldrei við, að svo bæri saman, að þið gætuð verið hér þann dag, þó vænt hefði verið, en lét ykkur bara vita um þetta, minna upp á von en óvon.

Jú, bæði í fyrra og nú hefi ég hlynnt að því í nefnd, að „Staula“ væri boðið að flytja hér ræðu á Íslendingadag. Vissi hann langaði að vitja æskustöðva og uppeldisbræðra en hafði fátt til fjár. Hann kom því ekki við í fyrra, sökum atvinnu. Nú ætlar hann að koma. Ég veit vel, að hann hefir lengi langað í mitt „höfuðleður“ og gert tilraunir, en ekki hefi ég erft það, nema meðan ég svaraði, þegar hann yrti á mig. Þegar ég hentist heim um árið, fór hann að friðmælast einslega við mig í Winnipeg og afsaka með því, að aðrir hefðu ýtt sér út í það. Ekki grennslaðist ég eftir hverjir. Sagði sem var, að við skyldum ekki á það minnast, enda væri ég ánægður, því mér teldist svo til, að hann ætti ekkert hjá mér. Eins og þér, var mér hálf

sárt um Sigurbjörn, og af sömu ástæðu. En svo varð ég viss um, að hann var eins konar Svika-Smerdis í þjóðrækninni. Í fyrra hnýtti hann í Tímaritið fyrir illa prentun o. fl. Eins í ár, í stuttri grein í „Lögb." — að ég hélt — merktri S. S., og svo í löngu „dellunni" síðar. Hræsnaði yfir allt með velvild sinni til ritsins. Ég þóttist sjá „fiskinn undir steininum" og held ég hafi dregið hann upp, með „hreistri" hans um „söng" og „Sambandssöfnuð" og allt það rugl, og grunnhygnis-ganið að fara að eigna sér *Prestslambið* og breiða svo auknefnið út, sem honum var svo meinlega við — þegar hans bezta ráð var að þegja við og látast ekkert skilja, eins og hann hafði haldið fram, að hann gerði.

Nú sendi ég þér eina „rolluna" enn. Ætti að vera „útgöngusálmurinn" að sinni, þó ekki sé hægt að aftaka. Farðu með eftir vild, eins og fyrra dótið. Ég æski aðeins ölnbogarúms, ef að mér er þrengt, og þó má það lokast við og við, ef *það* veldur vinum mínum óvinsælda, að opið sé. Ég er ánægður með frelsi rakkanna, að fá aðeins að bíta bein fyrir mig og það, sem mér finnst vera inn betri málstaður, og geng berhentur — af því mér var kennt, „að lin séu vettlingatökin" á málstaði, en menn síður, og ekki að fyrra bragði.

Kyndug er og kænleg nóg
Klerka frelsisgjöfin —
Hún er að sauma sauðarbóg
Í svörtu hempulöfin.

Þú manst, hvernig Sæmundur slapp — og kirkjufél. okkar sleppur ef til vill eins, eða skilur eftir hempu á hverri stigarim. — Svona vinnur *þróunin!* — Með kærri kveðju

þinn Stephan.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, Can., 10. júní 1922.

Góðvinur Baldur minn. — Nú, fyrir nálægt viku, sendi ég þér sendingu áleiðis til Íslands, venjulega póstgötu, hvort sem þú verður hennar nokkru sinni var eða ekki. Það var „syrpa" ein, sóðaleg, en átti að vera í þá átt, sem þú mæltist til í bréfi þínu, inu síðasta. Ég kem nú til að biðja þig afsökunar á öllu flaustrinu. Allt varð mér

um hönd, ég var jafnvel pappírslítill og varð að klóra sumt á aflóga druslur, sem ég átti, auðar öðrum megin — svo það er tvílitt eins og „lúðurnar“. Það vildi svo til, að ég fékk ekki kaupstaðarferð, en mátti ekki missa neina frístund, sem félli til milli annarra vika, til að hlaupa í og úr þessu, ætti ég [að] geta sýnt lit á að *vilja* gegna þér. Fyrirgefðu vanhöldin öll, og getir þú nokkuð notað úr þessu „bráðræði“, verður þú að laga framsögn og stafsetningu. Um það hirti ég ekkert. Lét pennann „rata götu sína“, eins og kerlingin skærin forðum, og er henni álíka snjall að „sníða“.

Annars eru svona sögur furðu-mikil „forsending“ á annan hátt en í viðræðum. Þó allt sé rétt munað og maður vilji forðast það, verður maður sjálfur „söguhetjan“, eðlilega, og um leið grunaður um að vilja „halda sér til“, og þá er hitt ekki auðvelt að gizka á, hvað annar maður kann að meta merkilegast af ótal ómerkilegum atvikum úr hversdagslegri æfi. Af því ég vildi heldur ná öðrum en mér með í „æfintýrin“, gat ég um t. d. Jón á Þingeyrum og Pétur amtmann öfugt við almennan orðstír þeirra, sem á lagðist, því Jón var talinn „glanni“ og Pétur „ofstopi“. Hin hliðin á þeim var sjálfsagt til, úr því ég rakst á hana að óvöru.

Ég hefi talið verustaði mína, eftir aldri. — En svo ég miði ið helzta ekki alveg við „hundatölu“ minna eigin ára, heldur að nokkru leyti við „kristið tímatal“, skal bæta þessu um:

Úr Skagafirði fluttist ég í Bárðardal 1868.
Frá Íslandi til Vesturheims 1873, til Wisconsinfylkis, og settist þar að „landi“ 1874.
Frá Wisconsin til Norður-Dakota 1880 (Bæði þau fylki liggja í Bandaríkjunum),
og frá Norður-Dakota til Alberta í Canada 1889, og setið þar síðan um kyrrt.

Syrpuna sendi ég þér sem „handrit“ — „Printer's Copy“ — en ekki sem bréf, sökum burðargjalds. Enda voru engin „einkamál“ í henni, þó aldrei sjái neinn prentari hana, og póstlögin segja ekkert um aukagjald á greinum, sem blöð neita um upptöku!

Ég óska þér, að þú verðir sendur til Svíþjóðar — og alls

góðs. En heyrðu: Láttu mig vita, ef þú ferð! Þú hlýtur að geta rakið ætt þína til Ynglinga, ekki síður en ég! Við skulum fara saman og kalla til ríkis yfir Svíþjóðu! Svo stjórnum við þar, eins og þeir fyrri frændur okkar, Magnús og Haraldur, Noregi! Þú hefir nóg efni til að verða Magnús „góði"! og mig skortir ekkert nema vitið, snilldina og klæmskuna til að gerast Haraldur „harðráði".

Vinsamlega Stephan G.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 8. júlí 1922.

Jakob minn góður. — Ég byrja svo að þakka þér kærl. fyrir það, sem þú barst blak af mér nýl. móti káfinu hans *Sveinstaula,* gamla sveitungans míns heima og hér, Kolgrafar-Ólafi Tryggvasyni, sem ég hefi aldrei áreitt að fyrra bragði. Auðvitað er sá ræfill ekki til að reiðast við og tæplega svarandi. En maður skilur hitt, að söm var hans og þín gerð við náttúrufar hvors ykkar fyrir sig. Ekki var nú samt þetta þakkarávarp aðal-erindið, þó minnkun sé að meðkenna þetta gamla: „Guðlaun og slepptu!" — að taka við velgerð þegjandi. Svo er mál vaxið, að Sigurður gamli Jóhannsson skrifar mér, sem þú sérð. Ég legg bréf hans með. Ég vildi gera þetta, ef ég gæti — en kaupavinna verður hér engin. Heyskapur varla teljandi og akrar léttir víðast, sökum þurrviðra. Allir sneiða því hjá aðkaupa-vinnu. En hvernig er hjá ykkur? Blöðin guma, en ég „sver aldrei við þau" á annan veg en að efa þau. En gætir þú útvegað karli eitthvað að gera, í góðum stað, og ef svo vel vildi til, skrifað honum það beinlínis — áritun er á bréfi hans. Mér er annt um karl, hann er svo laglega skáldmæltur oft og að auki góðmenni, sem veröld vor hefir aldrei í trafa-öskjur lagt um dagana, eins og við var að búast með vænan mann. Ekki veit ég, hvort karl er nokkurs nýtur á ökrum úti, — þó getur það vel verið — en vilja og dyggð hans efa ég ekki. — Svo það mál ekki lengra, né bréfið heldur, þó betra ættir þú skilið og lengra ávarp. En sem stendur er ég „óbréflega" á mig kominn á ýmsan veg. — Blessaður alla daga!

Vinsaml. Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 25. okt. 1922.

Góðvinur. — Einlæga þökk fyrir bréf þitt og allt það, sem þú hefir umhyggjur af mér viðvíkjandi. Bréf þitt og þreskivélin riðu bæði jafnt hér í hlað, fyrir fáum dögum. Hún tafði mig í tvo daga og því er ég svona seinn til svars. Svo fór ég að gera það, sem allir góðir „sýslumenn“ geyma til jólaföstu: að „verðleggja vörubirgðirnar“. Nú er ég að senda þér niðurstöðurnar. Hafði þá svo sem engan skrifpappír — hafði ekki svo lengi þurft á honum að halda við mína vinnu, að ég gleymdi að kaupa hann. Leit svo á dagatalið mitt. Þar stóð fyrsti ágúst og seinasti. Þarfleysa að færa það til, þegar maður hefir engan tíma til að svara bréfum. En nú fer ég að „stela tíma“ og fyrst frá þér. „Vörumatið“ finnur þú á öðru blaði meðlögðu, eins og ég get gengið frá því í bráð.

Já, gaman yrði, gætir þú komið, og á margt að minnast. Ég hefi aldrei talið komu þína vísa í sumar, grunaði, að alltaf legðist eitthvað fyrir, þó ekki grillti ég neitt í, að þú hefðir verið „hertekinn“. Nú, ég kveið þessu fjandans „Hermannariti“, eins og það var fyrst auglýst. Kveið því, að það yrði okkur, „söguþjóðinni“ sjálfri, til ævarandi skammar, færu hálf-Bretarnir okkar íslenzku að mærða um stríðið, eins og til stóð. Vissi, að þeir vissu ekkert nema uppspuna. Vel, að ekki varð af. Hitt var heimska að amast við, að taldir væru fram þeir Ísl., sem viðstaddir voru. Það var aðeins að segja svo sögu sem hún gekk, hvað sem hugsun manns um stríðið leið. Ég kaus, að einhvern veginn hefðu geymzt nöfn og ætt þeirra, sem „utan fóru“, þó enginn kunni af afrekum þeirra að segja, sem þeir unnu öll á bak við vitund guðs og manna og sín sjálfs, eftir nútíðar-hermennsku. Aðeins eru nú líkl. myndirnar eina óþörfin, til kostnaðarauka aðeins. Þessir piltar, spenntir í „dára-treyjur“ herbúningsins, verða á mynd svo svipaðir sem baunir í sama sjóði og líta út eins og Danmörk í „Eldgamla Ísafold“.

En sleppum því! Mig langar til að gera þetta, sem þú nefnir. En nú á ég ekkert afgangs og — ég er að verða ögn eftir mig, eftir árafjölda og útslit. Finnst ég guggni heldur af getuleysi „að vekja upp andana“, meira en var,

þangað til ég „braggast“ ögn eftir verka-volkið, sem oft er langt að sjá fyrir enda á. Ef ekki liggur á og eitthvað getur oltið upp úr mér í tíma, sé ég ekki eftir því, mér, Lárusi og hans nótum, til skemmtunar. Til dæmis að taka — ég hugsaði mér „Veðramót“ og þuluna til Sveinbjörns, meðan ég var að smala kúnum á morgnana. Var þá orðinn „sinnulaus“ og annað til að gera.

„Minna brestur þrek — en þol,
Það er að mestu farið!“

sagði einn móður-frændi minn og nafni um sjálfan sig. Hann hafði þótt kraftamaður, en varð þollaus af þrælkun fyrir lífi sínu. — Svo bið ég að heilsa heim til þín og hlakka til, ef þú sæist hér í sveit, áður en árið væri á enda.

Vinsamlega Stephan G.

25. okt. 1922.

Viðvíkjandi útgáfu, færðu forgöngu- og styrktarmönnum hennar þökk mína einlæga fyrir vilja sinn að brjótast í þessu í bágærinu, sem er. Spurningum þínum get ég aðeins svarað svona, í bráð.

I. Líklega stærð miða ég við bindin þrjú, sem út eru komin af „Andvökum“. Þau munu, öll samanlögð, vera hér um bil 55 prentuð örk, eða 864 blaðsíður, sama sem 432 blöð. Handrit mín flest rita ég á *helmingaðan* skjalapappír — „Foolscap“ eða „Legalcap“ — 12 til 14 línur á bls. Lætur því nærri, að þrjú mín blöð verði eitt blað prentað, eða 2 blaðsíður, í sama broti með sama stíl eins og á „Andvökum“ er. Eins nærri og ég get gizkað, mun ég nú eiga rusl kringum 760 *mínar* blaðsíður (Kolbeinslag með talið), væru öll kurl hirt. „Registur“ er þá ótalið. Þetta yrðu þá *þriðjungi færri* prentuð blöð, báðum megin. Ótalið er í þessu „Heimleiðis“ og „Vígslóði“, en samanlögð munu þau kver 7 til 8 prentaðar arkir, en ögn í öðru broti og stíl en „Andvökur“ hafa.

Nær þessu kemst ég ekki nú, að óreyndu. Hygg þó, að óbundni syndabagginn minn sé ekki stærri. Því, t .d. tel ég hér allar stakar vísur eins og eina blaðsíðu *mína*, skrifaða, en dettur ekki í hug að eyða dýrmætum prentpappír svo á óþarfann! — en við það vinnst eitthvað

upp í „registrið“. Ég er samt svo ókunnugur öllu bókagerðarmati, að líklegt er, að hver óvalinn „prentara-púki“, sem sé „Printer's Devil“, kæmist nær þessu en ég.

Nú sýnist mér, að „síðari villan verði verri inni fyrri“, nefnilega að það sé heldur meira fyrirferðar, sem eftir er, en hitt, sem á undan er komið. Auðvitað mætti fella margt út, jafnvel prenta aðeins „úrval“ svo kallað. En hver ætti að kjósa í það? Ég gæti það ekki, þó margt megi missa sig mín vegna. Valið úr Matthíasi varð „doktorunum“ deiluefni heima. Inir sömu völdu *báðir saman* lítið „úrval“ úr mér 1917 og sögðu mér, að ekki hefðu þeir orðið alls kostar ánægðir með það eftir á. Hver listamaður, nálega, sem ég hefi spurn af, tónskáld og málarar, telja það sjaldnast sitt metfé, sem almennast er úr valið. Fyrirfarandi hefir mikið verið hnjóðað í að tína allt til, jafnvel eftir frægustu höfunda. Hvað skyldi þá mínum hégóma? — þar sem flest mætti kyrrt liggja! En — ég verð að segja eins og er, þó ekki til að halda mínu „rubbi“ fram: Ég held, að Jón Sigurðsson hafi verið réttur að tína allt upp, í eitt skipti, eftir „Bægisár-skalla“ gamla. Ég vildi heldur, skáldskaparins eins vegna, að ekkert væri hirt nema afbrögðin, þar sem þau eru til. En, hefði þeim sið verið stranglega fylgt, yrðu ekki skörð í andlegu söguna á öðrum sviðum? Skilning á tíðaranda, sálarfræði, siðvenjum, o. s. frv.? Því aldrei er að vita, í hve óálitlegum hálmlegg framtíminn kann að finna einhvern Promeþeifs-neista, þó ekki sé skáldskapur einskær. En þetta kemur mínu dóti lítið við, svo þið ráðið þar, svo mikill kaupmaður er ég þó, að ég veit, að „þó kaupmaður vilji sigla, ræður Kári byr“ — efni og aðstæður í þessu máli — og mig óar við kostnaðinum!

II. Nafninu „Andvökur“ vil ég halda og niðurskipan líkt og var, þó hún sé ágreiningsmál. Ef af útgáfu yrði, teldist ið næsta: *IV.* bindi o. s. frv. Kysi, að allur frágangur yrði sem líkastur og var á „Andvökum“ áður.

III. Get ekki sett upp kaup. Vildi helzt geta gert þetta launalaust, ef ég gæti. Yrði bara að taka sjálfan mig úr fjósi í vetur. Er viðvaningur og seinn til ritstarfa svona. Var 10 mánuði með handrit að „Andvökum“ áður, vann sem ég gat þó, sunnudaga líka — þó lygilegt sé og sú sí-

ekja mér sæmdarlaus! En nú er ég betur við búinn. Lærðist ýmislegt.

IV. Haldi ég heilsu, ætti ég að geta skilað öllu *fyrir sumardaginn fyrsta,* að ég held. Fyrsta flokk til dæmis upp úr nýári. Gegni eins og þið heimtið, geti ég það.

Með vinsemd Stephan G.

*Rögnvaldur Pétursson.* Heima, 14. nóv. 1922.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Síðan þú skrifaðir mér, hefi ég haft samvizku af að geta ekki sent þér neitt af því, sem þú mæltist til. Ég var öreigi og óviðbúinn. Lúi og lasleiki stundum hendi nær en kveðskapur. Samt mundi ég eftir, að ég átti einhvers staðar (týnt) þulurnar þrjár fyrstu, sem ég sendi nú. Ég geri mér eitthvað til *gamans* enn, hvenær sem ég get, en hugsa síður um að koma því á framfæri. Eftir langa þjófaleit hjá sjálfum mér, hafði ég upp á þessu og sendi þér svo, ef þú gætir nokkuð af því notað, og þó ekkert af því „stæðist vigtina", geri ég sjálfum mér gagn að hafa þó reynt þetta.

*Nift Nara* er svo til komin: mér þykja kviðurnar gömlu fallegar, svo að ekki verður betur gert, og heimska að reyna til. En Dr. Finnur segir, að enginn viti, hver „Nift Nara" sé. Á þannig löguðum stöðum mætti, ef til vill, koma einhverju að, án þess að spilla listaverkum, sem sé ímynda sér ið ósagða, gæti maður gert það vel. Að gamni mínu rita ég gamlan ljóðahátt sem laust mál, því svo ímynda ég mér, að hann hafi verið í fyrstu, áður hann fékk fast form.

*Amma og afi* eru runnin frá þeim grun mínum, að einhvern tíma muni niðjar okkar „hér í heimi" sjá eftir, að allt íslenzkt var eyðilagt, þegar spansk-grænka yfirborðsenskunnar hefir nuddazt nokkuð af þeim með tímanum og menningu hans. Ég hefi séð móta fyrir líku í þriðja og fjórða lið ungra Norðmanna hér, og ætla okkur, í kvæðinu, sömu söguna, og þá komu yfir mig gamli *Móses* og fjallgöngur hans, í þjóðsögum Júðanna.

*Galilearnir* komu frá Nýjatestamentinu, Lúkasi, að mig minnir, svo ekki er ættin ill! Það er í mínum augum aldarandinn, en ekki einstaklingarnir, sem allar „illar gjafir gefur".

Lengi hefir mér þótt gaman að kvæði gamla Holmes, síðan ég sá það fyrst í lesbók latínuskólans í Albion í Wisconsin. Rasmus gamli (Björnsson) Anderson gaf mér hana. Hafði verið skólabók hans sjálfs. Það var á öðru ári mínu í Ameríku, og [ég] á skrudduna enn. Í gær og dag þýddi ég kvæðið svona, en það er nærri óþýðandi, örðugur háttur, og hitt verra, að sökum kynleysu enskra orða og venjunnar, getur Holmes karlkennt hvorugkyn að ósekju, eins og hann gerir, en við höfum aldrei hugsað lauf svo — ekki einu sinni í skáldaleyfi. — Ég varð því að líkja *laufinu* til *manns*, en ekki *manni* til *laufs*, eins og í frumkvæðinu. En ég hafði samt meira gaman af því að falla á örðugleikanum. Kær kveðja.

Þinn S. G.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 28. nóv. 1922.

Góðvinur. — Beztu þökk mína fyrir bréf þín og skrifin í blöðin. Að ég ekki hefi sent þessa þökk fyrr, er afleiðing af annríki og ódugnaði. Þegar ég er lúinn og lasinn, eins og stundum er, verð ég sérhlífinn við pennann, finnst ég ekki geta hert mig upp til að snerta hann. Nú er svo komið í bráð, að ég skulda bréf unnvörpum, en reyni nú að byrja að grynna á þeim, hvenær sem ég er pennatækur til. Aldrei skortir mig ætlanir um góða ásetninga.

Séra Rögnvaldur hefir skrifað mér um handrit af mærðinni minni til prentunar. Ég hefi svarað því líklega, ef mér endist veturinn til þess. Lítið átt við það enn, og kingi niður þó hálfri ósk um það, að „sá bikar hefði verið frá mér tekinn“, en það er aðeins ómyndarskapur. Ég veit, að ég hefi til hans unnið fyllilega og verð bæði duglegur og hróðugur, þegar ég kemst að því, hvað sem vandvirkninni kann að líða. Mér er minni vandi í að moka fjós en búa bók til prentunar, þó ekki vilji ég játa því við alla, að ég sé ekki um hvort tveggja fær. Mér líður annars vel, eftir aldri. Er alltaf á stjái, mér til matar og skemmtunar, og er eins „sáluhólpinn“ eins og nokkru sinni áður, en auðvitað kreppir árferðið ögn að mér, eins og öðrum, en ég tel það aldrei í fyrsta flokki þess, sem andstreymt er. Skilaðu þökk minni til félaga þinna í Wynyard, sem vilja vera að brjótast í því óefni að raka saman ruslinu mínu, eins óbyr-

lega og nú blæs fyrir bókaverzlun, svo maginn verður að vera kóngur, en andinn ekki. Ég kvíði kostnaði ykkar sakleysingjanna, sem til útláta hafið unnið, en „gjaldið minna misgerða“. — Berðu Blöndahl kveðju mína og þökk fyrir grein sína. En heyrðu! Hvað kom Sveini Oddssyni á stað í Lögbergi? Ég skil tæplega, hvert sumt þar stefnir. Var hann sá, sem hnýtti að Íslendingadegi ykkar? — og er nú að jafna sakir við Blöndahl fyrir það, sem hann svaraði því til. Er hann með þessari „roga-stanz opinberun“ um, að kvæðið hafi verið „fullboðlegt ritinu“, að drótta því að Blöndahl, að hann hefði einhvern tíma álitið annað? Það verður varla öðru vísi skilið, eigi það nokkuð að þýða.

Ég bið að heilsa Sigurði mínum Jóhannssyni. Hann hefir skrifað mér tvisvar og þakkað mér að vista sig á þínum vegum, eins og það sé þakkarvert að gera ekki allt verr en maður veit! Jæja, Jakob minn, ég þakka þér þá fyrir karlinn og bið svo að heilsa þínu heimafólki, aðeins til að láta vita, að ég muni eftir því, því engan dregur um tómar kveðjur frá þeim gestum, sem engu öðru borga fyrir sig.

Ef ég svo ríkjum réði,
Og ráðin kæmu til mín:
Sól og sumar ég léði
Saskatchewan — vegna þín!

Vinsamlega Stephan G.

*Dr. Jóhannes P. Pálsson.* Markerv., Alta, 29. nóv. 1922.

Góðvinur Jóhannes. — Seint og illa kem ég — og kem úr fjósaverkunum, — til að senda þér þessar línur, með þökkum mínum, fyrst fyrir nóttina góðu á Þórarnarstöðum forðum, sem varð svo endaslepp, þegar þú þurftir að taka á móti nýjum gesti og varst að gegna „embættiserindi“. „Fyrir blessuðum skyldunum ofan ég tek!“ kvað Hafstein.

Þá þakka ég bréfið. „Ögmundur! Hvað? Þú manst til mín! Mannskrattans, hérna í útlegðinni,“ kvað Breiðfjörð gamli (til „Ankiesar“, íslenzku piltanna í Höfn) norðan af Grænlandi forðum. Og („*In tertio*“, sögðu gömlu prestarnir í stólræðum sínum) — þökk fyrir Blómslóða, allt það, sem þú átt sjálfur í honum, þegar prentarinn var bú-

inn „að yrkja fyrir þig“ eftir sínu viti, eða ritstjórinn; þeir sjóða á allt sitt „sleifaralag“, svo á því verði þó ættarmótið. En í alvöru, ég las „Blómslóða“, skildi andann, að ég held, en hvernig sem ég „braut kollinn um það“, gat ég með engu móti hugsað upp höfundinn.

Ég afsaka sjálfan mig sjaldan, vil heldur verða fyrir dómi og flengingu. Ég bregð ekki þeim vana út af drættinum á að svara þér — en, ég segi eins og er, eg hefi ekki komizt höndum undir að svara neinu bréfi nú í nærri allt sumar. Á alltaf of mikið „fyrir stafni“, og svefn og nótt láta mig ekki stela af sér eins og áður, og ég ekki eins „heill á há“, eins og þegar „vær vórum yngri“. Ég er ekki enn „árvakur“, eins og Egill kvað um sig, en er þó byrjaður að „bera orð saman“ í bréfaborganir — „með málþjóns morgunverkum“, eins og hann, það er að skilja: *Between chores,* svo ég segi það á hreinni vesturheimsku, sem hann líkast til hefir haft í huga, þó Dr. Sveinbjörn Egilsson taki „málþjón“ fyrir „tunguna“, í sínum skýringum. Mér þykir metnaður í því að hugsa mér, að Egill hafi hirt gripi, eins og ég, ekki sízt fyrir þá fróun, sem í því er, þegar Sveinstauli er að yrkja: „Assverus er kominn í kýrnar“, og „Fjær kaupsýsluhöllum við kotgarðs-hlið“, þó sjálfsagt séu sneypufarir fyrir okkur báða að vera aðeins bændur, en geta ekki orðið afblaðaðir ritstjórar eða húsaskræpu-málarar, eins og Ólafur Tryggvason.

Heilsaðu „fjólunum“ þínum frá mér. — Mínar — systur þeirra — risu aldrei upp úr gröfum sínum í sumar.

Vinsamlega Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Heima, 5. des. 1922.

Sérhvert blað, er sendir mér,
Sýnist á því klifa:
„Hrappur“ reynzt ég hafi þér!
Heitrofinn að skrifa.

Marga þökk fyrir blöðin samt. Þú getur varla trúað, hvílíkur gluggi út í mann-heim þau eru mér, og ólík moldryki þyrilblaðanna okkar (ekki svo, að þau séu mér allténd sammála), en góð blöð, sannorð og víðsýn, það sem þau

ná, eru oft eins og maður héldi um lífæð tíma síns, og geti þannig greint heilbrigði hans og hitasótt, einkum „Nation". T. d. ég vildi ég gæti rétt Wisconsin minni gömlu og La Follette hennar hendina! Hann er eitt batamerki á því, sem að er, með mörgum fleiri. Jafnvel „Heimskringla" er að láta rifa í augu sín. Ræða Rögnvaldar okkar, yfir steini Péturs gamla Bjarnasonar, er gull, enda er Rögnv. sá eini af íslenzku prestunum, sem talað getur af andagift, hinir „gutla" aðeins yfirborðs-laglega, en eftir því „klæja eyru" alþýðunnar lang mest, svo það hefir líka sína þýðingu. — Sveitinni hérna líður sæmilega, í slíku illæri. Uppskera varð víða rýr, en vonum betri og á blettum með bezta móti, t. d. hveiti á nýju landi, hjá sumum. Með gripafóður hygg ég flestir hér sleppi gegnum veturinn. Haustið afbragð. Verður mánuði styttri gjafatími en oftast er. Fjárkröggur eru miklar og höfum allir orðið að miklu leyti að gefa í burt gripi okkar í haust. Kornverð líka lágt, en ekki þó afskaplega. T. d. fengum við 83 c fyrir bushelið af hveitihári okkar, 300 til 400 bushel. — „Gudda" Kristinsdóttir er komin úr rúminu, en blind (eða nær því) eftir taugabilun sína. Liðalæknir (Chiropractic), Young gamli í Innisfail, átti við hana í allt sumar, bæði í Innisfail og heima. Hún var komin í rúmið. Kristján gamli halti á Markerville er allur í heilsumolum nú. Var lengi undir handarjaðri Young's þessa í Innisfail, sem loks lét Turner taka við, og nú er Kr. heima, en á litlum batavegi enn. — Thompson, „laugardagur", og dóttir hans ung, liggja nú bæði í botnlanga-uppskurði á sjúkrahælinu hjá ykkur, ég held Holy Cross. Sjálfur hleypti ég Young gamla í hrygginn á mér, 15 sinnum, en í því skyni, að ég héngi uppi við vinnu í sumar, sem varð. Hann bætti mig eitthvað, held ég, en læknaði ekki, sem ekki var von. Þá var þetta kveðið:

Krankleiks-ok mitt freista að friða
Fingra-stroku skil,
Hleypi-lokum hryggjar-liða
Hlemma og þoka til.

Ég er oft ekki vel frískur á skrokknum. Ýmislegt sækir að, sumt kannske lúi. Nú er ég kominn í vetrarvist mína, fjósin, svínin og eldiviðinn, en er brattari en stundum.

Kalt nú í 2—3 daga fyrirfarandi og föl á jörð. — Lestrarfélags-samkoma á Markerville á boðunardag Maríu. — Þórel Eymundsson frá Prince Rupert hefir unnið hjá Stóra-Johnson í sumar, og verður hér í vetur, að sögn. Hann hefir ekki sézt hér í Neðri-byggð. Sú saga gengur, að Lauga hans og hann séu skilin að faðm-lögum.

Svo með hraða brýt ég blað,
Búin slaður-saga. — — —
Næsta laði ár þér að
Alla glaða daga.

Ég tek svo upp hjá sjálfum mér það, sem ég veit ég yrði beðinn að bæta hér við, vissi heimafólkið, að ég væri að skrifa þér: — Kæra kveðju frá því.

Duga ei lengur mun fyrir mig
Að morra inni —
Kýrnar fara að furða sig
Á fjarvist minni.

Vinsaml. Stephan G.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerv., Alta, 6. des. 1922.

Góðvinur Jón. — Nei, svo mátt þú ekki taka það, sem ég sagði, að ég myndi gjalda þér eitt bréf fyrir tvö, hvorki í tilliti til þinna bréfa né minna, að ég telji slíkt jafn-keypi, og ekki mátt þú sjálfur meta það svo heldur. Ég sagði það bara út í tíðarfarið (þar sem jafnvel bankar nú verða að gefa refjamönnum upp hálfar skuldir, eða allar), væru mér og þér manna-dæmi. Já, þökk fyrir bréfin þín tvö, ósvöruðu. Ég læt öll önnur verk sitja fyrir þeim, sem ég nota pennann við. Má til, og hefi alltíð haldið þeim sið, að svíkja ekki neinn hag af heimili mínu hans vegna, hvað svo sem fólk heldur um það. En nú er ég oft svo lúinn eða lasinn, þó tóm væri til, að til *hans* er ég sinnulaus, og *hann* heldur mér nú ekki uppi kveld og nætur, eins og áður. Sú er nú skuldin. — Já, við því var að búast, að Ísland þyldi ekki alveg oflátungs-mát gróða-áranna svo nefndu, fremur en önnur lönd, og stríðs-seyðið hlutu allir að súpa, það var nú fyrir séð og til ætlazt, það er að segja, hver þjóð ætlaði annarri það, en ekki sjálfri sér, en guð lét það ganga jafnt yfir, eins og bóndinn bað, sem missti fé sitt úr hor. Sannleikurinn er, öll ríki jarðar eru gjaldþrota, af því

sem nú er gjald talið, nema Bandaríkin í bráð og Bretland, að sínu leyti, en þó ekki, þyrfti það að greiða ábeking sína til samherja sinna, sem það gekk í. Því getur það svo vel haldið fram „góðgirninni?“ að gefa upp allar stríðs-skuldir, því það græddi mest allra, samningslega. Bandamenn standa þar í vegi, af eigingirni flestir, þó er þar flokkur göfugustu manna, sem ekki vilja heldur slaka á, nema að því verði keypt við hina, að hernaður og her sé niður lagður, því til ills eins sé varið allri uppgjöf og hjálp, sem til þess verði að ala áfram slíka ógæfu. —

Heldur er þó að heiða til í heiminum. Að allir eru óánægðir og standa á glóðum, er þó vöknunar-vottur frá illum draum, og af því er meira en almennt er af sagt, blöðin okkar vefja það vitleysum sínum og vöflum, flest. „Sovíettið“ hefir staðizt allar eldraunir enn. Þar eru vansmíðar, sem við var að búast, en hugsjón, sem „vex að vizku og náð“ og ein á lífsvon, trú mér til, fái hún frið og framtíð.

Ég var rétt núna að lesa skipulagsskrá þessara ítölsku „Fascista“, „Svörtu skyrtnanna“ eða „Prinsanna“, eins og þeir nefna sig sjálfir, og eru í fyrstu auðmannaflokkur, með aðal-markmið að verja einstaklings eignarréttinn gegn sameignarmönnum, en eru nú orðnir svo blandaðir bændum og verkamönnum, sem þeir kúguðu inn til sín, að ýmislegt getur oltið upp á teningnum, sem sízt varir. Konungur Ítala kom því svo fyrir, að þeir fengju stjórnarvöld til reynslu, annars var innanlands-stríð sjálfsagt milli þeirra og þáverandi stjórnar. En almennar kosningar vildu þeir ekki. Bjuggust við að tapa þeim, því hlutfallskosningar eru lög á Ítalíu. Þeir virðast vera þröngsýnustu þjóðræknismenn. Skipulagið argasta hervald, sem þeir segjast taka eftir forn-Rómverjum. Almenn lög og réttur ógild gagnvart herlögum. Hver einstaklingur, og stjórnin sjálf, skilyrðislaust háðir einhverju andlegu ráði, sem þeir nefna „Hierarchi“ og setja sér sjálfir. Enginn efi, að þeir eru föðurlandsvinir miklir, en skipulagið finnst mér fengið frá keisaraöld og páfaveldi Ítala. Ekki er önnur stefna ákveðin en „allt fyrir Ítalíu“, og eiður unninn föðurlandinu, guði og blóði félaga sinna, sem fallið hafa fyrir málefnið. Gaman verður að sjá, hverj-

ar umbætur þeir ætla sér. Ítalía og Frakkland eru bæði gjaldþrota fyrir löngu, væri fyrri reglum fylgt. Frakkar fljóta á „óhreinum reikningum“, eins og allir vita. Annars eru þeir nú „syndahafur“ hinna samsæringanna, eins og eitt ríki er alltíð. Þeir skipa þar nú sess Þjóðverja, fyrir og um stríðið, en Rússar þar áður. En — ekkert helvíti er svo rambyggt, að ekki hrynji um síðir.

„Ferst mér illa að fræða þig,“ Jón minn, og að því er ég ekki, en bara að gefa þér í skyn, hvernig ég hugsa í fjósinu og hvað ég les í hjáskotunum.

Illa féll mér glappaskot Þórólfs míns Sigurðssonar, þó ekki lái ég það mjög. Við slíku mátti búast, nærri úr hverri átt. Þannig lá tímanna tal. En hvort tveggja var, hann er myndarmaður og framfús, og var mér inn bezti. Einu sinni yfir borðum, hjá frú Ástu Halldórsson í Rvík, þar sem ég og alls konar kaupalýður sat að mat, var sem oftar verið að hnýta að Þingeyingum fyrir mont. Ég stóðst ekki mátið og tók svari þeirra, sem ég gat ekki slettulaust. Kvað mér falla þeir vel í geð. Auðvitað væru þeir bændafólk og höfðingjadjarfir, en ég teldi það kost, með fleiru, sem ég færði til. Síðan lagðist það tal alveg niður. Ég vissi, að ég var „dóni“ þarna. En jafnvel Ágúst minn Bjarnason gat ekki varizt því að glotta heldur að Þórólfi fyrir að koma til Víkur, í þeim erindum að hlýða á fyrirlestra um heimspeki — ef til vill, sem Ágúst sjálfur hélt. — Jú, ég sá nokkur merki þess, að aldarandinn ríkti líka heima, og hálf-kveið afleiðingum, en mig huggar það þó, að vægri eru þær en víða annars staðar, og við því bjóst ég líka.

Hér sem annars staðar er búþröng — ekki bjargarþröng, peninga kreppa og dýrtíð. Uppskera var víðar rýr en góð. Gripi má nærri gefa burt, en ekki hesta. Ágætt haustveður fram á fyrri viku. Nú, föl á jörð og frosthörkur talsverðar.

Þakka þér, Jón, fyrir óskirnar allar,
Ekki þær brygðust ef þú fengir ráð um.
En öllum er tjónlaust, að húskarli hallar
Hót undan fæti, og dettur nú bráðum.

Áttu ekkert í „Þjóðr. Tímar.“ núna næst? Efni væri fyrir þig að sýna fram á, hvað miklu fé Ísland ver til fróðleiks og listamanna, til andlegrar menningar. — Hagsbætur þess hinar hefir þú skýrt.

Jóla-eldur innri þinn
Út yfir kveld þitt logi,
Skugga-veldin aldrei inn
Að þér heldur vogi.

Vinsaml. Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Heima, nýárskveld, 1923.

Góðvinur. — Ég má til að skrifa þér og segja þér sögu. Ég veit varla hví. En ekki þó til að létta á mér óhugnaði, eins og sagt er sé við að segja öðrum sínar *sorgir*. Ég hefi litla löngun til að hlaða mínum aumingjaskap á aðra líka, að óþörfu.

Þegar frú Stefanía Guðmundsdóttir lék hér vestan hafs um árið, óskuðu margir, að hún kæmi hingað, jafnvel töluðu utan að því við mig, að ég skrifaði henni. Ég sagði sem ég vissi, að hægðarleikur myndi að fá hana hingað, ef nokkrir menn fengjust hér til að ábyrgjast einhverja upphæð, sem hún tiltæki, hverjar inntektir sem yrðu af samkomu. Fengist það, skyldi ég skrifa. Annars gætu þeir gert það sjálfir. Þar með lauk minni „uppástungu“, að hún „féll“ — þegjandi. Af því þú minntist eitt sinn á í bréfi til mín, að hana hefði langað til að koma hér við, get ég um þetta, sem ég hefi aldrei svarað fyrr.

Nú kom Eggert söngmaður vestur. Ýmsir létu í ljósi, að hann hefðu þeir viljað heyra. Enginn vissi, hversu hans högum hagaði, fyrr en blöðin bárust í gærkveldi. Óvíst jafnvel af þeim, að hann girntist né gæti komið svo langa leið. Þrátt fyrir það símaði ég Munda syni mínum á Markerville í morgun og bað hann að leitast fyrir við menn, sem margir koma þar, hvort nokkrir vildu ganga í ábyrgð með mér, væri Eggert fáanlegur og okkar meðfæri að fá hann. Ef það fengist, síma honum þegar í dag og beiðast svars um hæl, bæði um getu og gjald. Ekki er lengra af að segja, allir viku því af sér, eins og boðinu til brúðkaupsins forðum. Ég kom núna frá þeirri símafrétt og raulaði:

Orðið að læra mér er mál
Meiðmunum sízt að farga —

Ef kjósa ætti um „cent“ og sál,
„Centinu“ fyrr að bjarga.

Einn hefði ég getað gert þetta, ef ég vissi ekki, að það gæti orðið loforð upp í ermina sína. Svo ekki meira um það. Ég óska Eggert láns og langra daga. Er honum ókunnugur. Sá Sigvalda bróður hans í svip 1917. Hann reið langa leið til að verða á vegi mínum. Við drögumst víðast aftur úr.

Fékkstu nýl. frá mér fáein fiskhelminguð spyrðubönd af hendingum? eða hafa þau týnzt? Jæja, fór fé betra, og ég nefni það svona, rólegur.

Um þig árið ið nýja,
Vil að annt láti sér —
Leggist hamingja og heilsa
Í hömina á þér!

og öllu þínu heimili.

Vinsamlega Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* 20. janúar 1923.

Til Gríms. — Congratulation.

Fagna muntu frelsis-von,
Fylkið vort er þingar —
Þangað dugðu Davidson
Drottinn — og fátæklingar!

Vinsamlega Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Heima, 21. jan. 1923.

Góðvinur. — Fyrir 2—3 dögum sendi Mundi minn frá Markerville hraðskeyti til Eggerts söngmanns, á heimili hans í Winnipeg, spurningu þess efnis, hvort hann treystist til að koma hér við og syngja, færi hann vestur á Strönd. Beðið var svars til baka, en ókomið er það enn. Margt getur eðlilega hamlað, t. d. óráðin vesturferð enn. Viltu gera svo vel, að grennslast eftir þessu við tækifæri. Ég veit ekki, hvort ég hitti hann með bréfi. Hann kann að vera hér og þar. Ég held, að ef hann færi vestur, myndi

honum verða skaðlaus kostnaður hans frá Calgary, hvernig sem færi. En vita þyrftum við það nokkru fyrir fram, svo auglýst yrði í tíma, og svo hitt líka, hvað aðstoð við hljóðfæri snertir — verður hún meðferðis? Ég veit sem sé ekki, hvort nokkur er hér, sem við mætti bjargast. Held helzt ekki.

Ég skal nú ekki tefja þig lengur. Þú hefir víst nógu að sinna samt, viðsjánum í Þjóðræknisfélaginu og uppreisn að „Heimskringlu"! Þessi byltinga-öld „leggur menn ekki í hveitistokk", og þó aldrei verði hún afkasta-stór, en samt gaman að henni.

Ég heilsa og þakka „Þursasprengir" og þér!

Vinsamlega Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Heima, 16. febr. 1923.

Góðvinur. — Ég var rétt að stafa Stephan G. — á vökunni í gærkveldi undir ofurlitla grein, sem ég sendi þér hér með, en í öðrum umbúðum. Það er eins konar svar til allra, sem lastað hafa „Rústirnar" mínar. Ætlaði sífellt að gera það, hvenær sem slotaði, einkum af því ég sá, að á þig var stefnt líka. Bjóst ef til vill við, að „Lögb." legði eitthvað til um þjóðræknis-þingtímann, tilraun að spilla fyrir þér, því Jónas Ari er eflaust sá, sem „Bíldur" vill, að við taki. Ég bjóst t. d. við Jóni E. Skil ekki í þögn hans, svo illvígur sem hann er. Bjóst við, að „Lögb." kynni „pólitíska" hrekki betur en kvæði. Vildi setja undir lekann, gera mótspyrnu-áhlaup á sama tíma, ef þú og „Heimskr." álituð við eiga. Annars má greinin kyrr liggja, ef ykkur þykir ráðlegra, eða viljið síður lengja lífið í þvælunni. Ég held samt, að sumir „Kringlu"-kaupendur hefðu gaman af henni, um „þingtímann" ekki sízt, og hinum verr við en ekki, af því þeir haldi mig uppnæman, eins og æfinlega áður, þegar ég þagði lengi.

Með kvæði, sem þú nefndir, komst ég í bobba. Sendi þér í ráðaleysi tvö (með greininni), sem ég kvað, þegar ég var í „kör" af lasleika. Þau hafa hvergi birzt og eru því sem ný. Sendi þau þá í bréfum til vina minna heima, sem vissu, hvernig á efni þeirra stóð, um leið og „Reykjavík", sem kom út í „Eimreiðinni", en var send dr. Guðm. Finn-

þogasyni, af því að hann kallsaði heima til mín um kvæði um Rvík, sagði „ég *ætti* að gera það“, en ég færðist undan þá með hálfgerðum refjum, þó ég vissi vel, að ég hafði rangt, „Víkin“ átti það skilið, hún var mér góð! Mér er sagt, að það kvæði hafi þótt gott. Sama er um hin sagt, að því mér er skrifað. Eitt má um bæði segja: Þau minna ögn á Ísland, haf og hauður. Nokkrar skýringar lét ég fylgja „Skipa-skaða“, ef upp yrði lesinn, til skilnings þeim, sem læsi. Hafið þetta sem ykkur bezt líkar, notað eða ónotað. Aðeins eitt: gerið svo vel að senda mér handrit mitt aftur, ég á sjálfur ekkert eftirrit af þessu, en það á að fylgja „Heimleiðis“ í Syrpu minni.

Ég held áfram að tína upp; hvað sem útgáfu líður nú, er mér þetta gagn. Það rekur mig til að gera það, sem ég þurfti hvort sem var, sem sé: að rífa til í ruslakistunni, þar var allt í vitleysu. Ég er með „heyfork“ í annarri hendi, og „penna“ í hinni.

Já, ég vil, að reynt verði að mæta Eggert. Komi hann til Calgary, gætum við ef til vill falið hann góðum vinum þar, og mætt honum sjálfir í Innisfail. „Komi hann út“ í Witaskiwin, mætir einhver honum, því þar er enginn „maður“, þegar engir eru menn nema Íslendingar! Við sjáum til. Þið látið okkur vita áttirnar!

Prentara-verkfall í Reykjavík. Engin blöð komast út. „Iðunn“ og „Eimreiðin“ búizt við að „bæli sig“ um tíma. Þing hefir líkl. komið saman í gær. Sú frétt gaus hér upp (ekki veit ég upptök hennar), að Jónas Ari væri hingað væntanlegur. Enn hefir ekki „bólað á Barða“, og erindis var ekki getið. Ég sá í „Kringlu“, að hann var að fiska á „Þorrablótinu“ þeirra í Saskatshewan.

Líklega kem ég þessu ekki „í póst“, fyrr en á mánudag, 19. þ. m. Á pósthús kannske á morgun, en sunnudagsganga er ekki hér. Kulda-heljur standa nú yfir og pósthúsferðir færri fyrir það.

Svo segi ég „Selah“, eins og Davíð söngvari. — Ég vorkenni þér að lesa svona langt og lýta-ritað. — Bið að heilsa, og vertu blessaður.

Þinn Stephan.

*Grímur S. Grímsson.* Heima, 17. febr. 1923.

Spaðsins gá þó geðjist þér,
Grímur, frá því skjóztu!
Syngja á hann Eggert hér —
„Ætlarðu þá að gegna mér?“

Grímur, líklega kemur Eggert söngvari til Markerville um næstu mánaðamót. Óvíst, hvora leið hann kemur, og dagur óákveðinn enn. Verður símað hingað. Það þarf að mæta honum. Komi hann um Calgary, gætuð þið nú ekki mætt honum á stöðv[unum], og séð honum farborða til Innisfail og sparað okkur ómak? Láttu mig vita fljótt. Ein lína nægði. Allt hér með kyrrum kjörum — en ekki batnar Guddu frænku. Á Íslandi: prentara-verkfall í Vík. Engin blöð útkomast. Góð tíð. Ofviðri um miðjan fyrra mánaðar, braut hafnargarðinn eitthvað, laskaði skip og báta. 2 menn drukknuðu, 2 syntu og komust af, 5 fórust undir Jökli. — Ég skrifa þetta við aftanskin fyrsta hlýja dagsins, sem hér hefir komið í hálfan mánuð. Febrúar allur kaldur, sem oft er. — Gott kveld, Grímur minn, og vertu sæll.

Vinsamlega Stephan.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* Heima, 17. febr. 1923.

Góði vinur. — Fyrir nokkru síðan fékk ég bréf frá þér — þökk fyrir! En hefi ekki getað fyrr fengið stund til að svara, bundinn við fjósaverk mín úti og pennann inni, því ég hefi haft margt til að skrifa, sem ég hafði trassað, og er ekki alla-tíð „upp á mitt bezta“. Samstundis og ég fékk bréf þitt, sendi ég þér í pósti nokkur síðustu eintök „Eimreiðarinnar“. Fékkstu þau? Fréttalaust um sveit, því kuldarnir, sem nú hafa gengið, segja sína sögu í hverju húsi. Ekki batnar Guddu frænku. Hún er í rúminu oftast, eða situr stund í stól. Hefir víst sjaldan þjáningar til muna, og þá helzt höfuðverk. Er blind og ekki allténd með fullu ráði, „slær út í“, man ekki, eða misminnir. Turner, Innisfail-læknir, var nýl. kallaður til hennar, og kom. Sagðist engu geta úr bætt. Veikin væri sú, að engin meðöl gerðu gagn. Við vissum nú það. Vonin væri sú, að kraftar hennar entust, þangað til henni batnaði. Bréf tvö að heiman frá

Guðm. Finnbogasyni og Baldri Sveinssyni. Guðm. ferðaðist um í Danmörku, Þýzkalandi og Englandi í sumar. Hélt 3 fyrirlestra í Danmörku, um Íslenzk einkenni (Islandske Særtegn), sem út eru komnir á prenti þar. Tíð góð fram í jan. Um hann miðjan gerði ofsaveður á sjó fyrir sunnan. Bátar og skip skemmdust. Reykjavíkur-höfn skemmdist. Brotnaði skarð í garðinn. 2 menn drukknuðu þar af bát, en 2 komust af á sundi. 5 menn fórust undir Jökli. Alþing hefir komið saman þessa viku. Verkfall prentara í Rvík svo ekkert blað kemst út. Þórður Pálsson, læknir í Borgarnesi, sonur séra Páls heit., sem reit „Aðalstein" og þið kannizt við, dáinn. Gleði- og söngmaður með afbrigðum, svo glaðværðar-gjarn, að ýmsum fannst um of. Eggert söngmaður kemur hingað, líkl. um næstu mánaðamót. Dagur óákveðinn enn. Þá átt þú að vera orðinn frískur, þér er svo vel til söngsins, en ég ætla að gefa gott veður. Ég er betri til heilsu en í fyrra um þetta leyti. Hangi við verk mín sæmilega, hefi ýmsan ónota stundum, eins og við er að búast, eftir ýmislegt vos og veðurbit í nærri 70 ár — en ekkert að miklu marki. Hvort liða-læsingar gamla Young's í sumar eiga þátt í, að ég er skárri en í fyrra, veit ég ekki, en mér fannst það bæta ögn í hvert sinn, og engin von, að hann gerði mig „endurfæddan" alveg, hve lengi sem hann hefði þreytt sitt liða-rjál. Kannske á ég heilsuna að þakka veðurblíðunni í vetur, eða hinu, að ég hefi lengi varla annað borðað en brauð og undanrenningu uppvelgda. Ég gæti trúað, að liðalæknir gæti „lappað þig ögn upp". Í Calgary er sagt, að sé ágæt stofnun, „The Hydro Electrical Medical Hospital", læknar aðeins með vatni, rafmagni og öðrum handlækningum, þó höfuðpaur þar sé „útlærður" læknir þar að auki. Maður þarf ekki að sögn að setjast þar upp í „kvennafans" o. s. frv., má jafnvel vera við sína iðju, sé maður svo fær, og ganga undir lækninga-okið eftir þörfum, og ákvæðum heilbrigðisráðsins, sem þar stjórnar. Ég get ímyndað mér, að það sé all-góð stofnun og geti gert sumum gagn.

Í dag er ég var við einhvern yl,
Austan-gari að sjatna.
Það er bara að þiðna til!
— Og þér á að fara að batna.

Nú má ég til í fjósið að fara. — Hefi meira að gera í dag. — Hefi viku-skegg til að raka, grátt og óvært orðið! Ekki treyst mér út í skafrenningana með skafna vangana fyrr. Við biðjum að heilsa.

Þó að mæði menn
Vetrar-myrkra móða:
Bragi mun oss bjóða
Marga morgna góða
Æsku-reifur enn. — Blessaður og sæll!

Þinn Stebbi.

*Jónas Hall.* Heima, 18. febr. 1923.

Góðvinur Jónas minn.

Gætir *þú* að oss gert
Gis — og nokkuð bert,
Möðkunum moldar-bingsins,
Upp kominn sem ert
Á efra himin þingsins.

Jæja, þökk fyrir bréfið, falli þér sætið vel og líði þér lengur vel. Ég hefi átt svo annríkt við fjós og eldivið, og pennann, þegar ég var inni, að fyrr gat ég ekki smeygt bréfi inn til þín um þá lokuðu hurð. Enda ekki margt að segja þér héðan, ekki einu sinni bæja-þvaður. Hér hangir flest þegjandi á sömu rim, lítið að verða í peninga-veskinu, þegar allir bjuggust við, að marg-fylla það í velti-árum, sem kæmu eftir stríðið, eins og kennt var, meðan á því stóð. Sjálfur er ég eins og vant er, á aldrei neitt, en hefi æfinlega nóg. Almenn heilbrigði og nóg að borða hér í byggð, og sú huggun, að víða líður fólki verr. Kristinn eða Lauga líkl. skrifa ykkur, svo ég segi ekkert um heilsufar Guddu þeirra í þetta sinn — en það er tvísýna um hana. Sjálfur er ég furðu brattur, en innviðirnir, sem aldrei voru of góðir, eru að verða eins og í gömlu húðar-klárunum tannlausu. Tíð var afbragð fram að þessum mánuði. Frost með meira móti síðastl. 2 vikur, nærri aftökur stundum. Hlýviðri aftur í gær og dag. .... Það er hart í búi á Íslandi, eins og annars staðar, veit ég, en varorður kunningi minn þar segir „ekki gert minna úr en er“, að íslenzkum sið.

— Já, svona átti það þá að fara, kirkjufél. að gleypa ykkur Garðarbúa, eftir allt saman. Jú, ég skil. Gömlu mennirnir, sem sannfæring höfðu, þrætu-þreyttir, yngri menn, sem ekkert vita og engu trúa, nema fjársýslu og að allt sé æðst í heimi í „United States of America", og þeir sjálfir því æðri verur, og svo ykkar æðstu-prestar, sem vilja vita sig og ykkur í skottinu, þar sem virðulegast sé. Um trú eða trúskap við trú sína er ekki að tala. Þar er um enga sannfæringu að ræða, hvorugu megin, annars væri ekki hægt að semja um sáluhjálp á grundvelli afsláttar. Hitt er rétt hjá *hinum,* að engin sannfæring er svikin, ef einstaklingum félagsins er leyft að trúa því einu, sem vit hans og tilfinningar telja sennilegast af því, sem engin kann öðrum að sanna. Það var grunnurinn í Menningarfél. okkar gamla — og nú er Sambandssöfnuður að reyna að byggja á honum, eftir því sem skilið verður enn.

„Ort fyrir aðstandendurna":

Mínum fáu fjöðrum
Farga ei Eggert skal —
Syngi hann yfir öðrum,
Ef það kostar dal.

Þá var öðru vísi, þegar Einar, sem þá hét Hjörleifsson, flutti fyrirlesturinn á Garðar forðum, sem átti að láta deyja út af með afskiptaleysi, svo enginn kæmi. Manstu það, gamli félagi!

Lengur sit ég ekki að —
Eg þarf nú í fjósið,
Annars yrði þrætt um það,
Þegar kveikt er ljósið.

Blessaður ætíð.

Þinn Stebbi.

*Grímur S. Grímsson.* Heima, 27. febr. 1923.

Grímur. — Guðbjörg frænka andaðist aðfaranótt sunnudagsins næstliðna, um kl. 12. Verður jarðsett heima eftir miðjan dag á morgun. Bréf kom frá Eggert Stefánssyni í gærkveldi. Hann kemur til Innisfail á morgun um hádegið og við sækjum hann þangað. Með honum verður Pétur Magnús Torfason, minnir mig — sem hér söng Íslendinga-

dag forðum með Gunnari Matthíassyni, svo um E. þarf ekkert að annast. Það babb er nú í bát, að við viljum reyna að fá E. til að syngja hér á laugardagskveldið, hinn 3ja þ. m., í stað föstudagskvelds 2an, eins og blöð gerðu ráð um. Hvort það tekst vitum við ekki fyrr en E. kemur. Veltur á tíma hans vestur, líklega. Reyni að láta síma þér til Burn's, þegar ég veit hvað verður. Svo stendur á, að við fáum ekki „Fensali“ föstudagskveldið. Leikfélag hér hefir þá það kveld og fæst ekki til að þoka um. Líklega kem ég þessum miða ekki til Markerville fyrr en á morgun, svo hann kemst ekki til þín fyrr en á föstudag.

Vinsamlega Stephan.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 6. marz 1923.

Góðvinur Baldur minn. — Fyrir 2—3 vikum síðan fékk ég bréfið frá þér, dags. 20. jan. síðastliðna. Ég varð því feginn, hafði ekki frétt af þér „grimmilega lengi“, eins og Sigurður okkar Guðmundsson segir. Síðasta spurnin, sem ég hafði haft af þér þangað til, var í sumar sem leið, og í einhverju heiman-blaði, að þú hefðir lagzt veikur. En af því sú saga varð aldrei lengri og að mér bárust mörg blöð eftir það, réði ég, að ekki hefðir þú verið „á bál borinn“ í það sinn, og nú tók bréfið þitt af öll tvímælin, hjartað og höndin alveg óbreytt. Þakka þér kærlega fyrir! Og skilaðu Marenu og litla hnokkanum kveðju minni og þökk fyrir að reka þig af stað! Ó, ég veit það Baldur: Penninn getur orðið manni eins erfiðis-leiður eins og orf eða ár, þegar allt „lífsins-brauð“ manns er undir því komið að dangla með þeim dag eftir dag. Þá verður manni vorkunn, þó hann hliðri sér hjá að handleika þau að óþörfu.

Líklega er bezt, að ég fylgi fundar-sköpum, sem sé, taki fyrir „óafgreidd mál frá síðasta fundi“, það er, að ég svari því, sem þú mæltist til. Áætlun þín er mér velkomin! Veit, að mitt fé verður þar í vinahöndum, auk þess sem íslenzkan þín er ætíð falleg. Eitt aðeins að: að baka þér borgunarlaust starf. Ég er alveg „ólofaður“, enda enginn „beðið“ mín í alvöru, né átt þeirra gesta von, svo ef þig langar til að taka þessa góðgirnis önn á þig, er ég meira

en viljugur að láta þig alveg um þá hitu og segja þér í einlægni allt, sem þú vildir vita og ég kann frá að segja. En — ég varð í vandræðum með að ráða fram úr, hvað helzt þú kysir, að frá væri skýrt. Skyldi hafa „gengið til spurninga“ til þín, hefði ég ekki átt of langt til „kirkju“. Mér kom því það eina úr-ræði í hug að skrifa nokkrar athuganir á síðurnar á óbundnum „Andvökum“, sem ég átti, og senda þér svo. Það gerði ég svo, og legg þær í póstinn um leið og þennan miða. Ekki veit ég, hvort þar er nokkuð, sem þér er gagn að, en ég skal bæta því við, sem þú kynnir að æskja, hvenær sem væri, svo þetta gæti þó orðið eins konar upptak. Verst er, að það er handaskola-verk, í flýti. Átti annríkt og engin gögn við hendi, nema minni frá æsku-árum, t. d. hvaðan ég hefi fengið sumt úr íslenzkum sögum. Aftur eru tildrög kvæðanna, frá hverjum áhrifum á mig þau komu, sögð svo sem var, svo langt sem það nær. En kannske verður þú engu nær um samsetningana mína, þrátt fyrir þetta, og allt varð of illa skrifað líka og orðum verr að komið, vegna þess að þurfa að gera þetta á hlaupum og hafa allan hraða við. Gerðu eitt fyrir mig, ef þú rekur þig á prentvillu eða úrfallið orð, láttu mig fá það einhvern tíma. Ætlaði að líta eftir því sjálfur, en er klaufi að finna það í því, sem mér er kunnugt, eða eftir sjálfan mig. Kunnugleikinn hleypur eftirtektina af sér.

Í vetur hefi ég verið að tína saman fjaðrirnar, sem ég hefi fellt síðan „Andvökur“ komu út, í aðskotum mínum frá útistörfum. Þær voru dreifðar um allt, eins og dúnninn úr sængum skessanna í sögunum okkar, sem strákur átti að viðra og tína saman eftir bylinn. En — hann hafði dverg til að hjálpa sér! Ég engan. Fyrir 3ur árum varð það í ráðagerð nokkurra vina minna hér að „kosta“ það rusl út. Ég hefi heldur dregið úr, sökum dýrleikans. Nú heimtuðu þeir í haust, að ég hefði senn handritið til. Ekki veit ég enn með vissu, hvað úr verður. En svo þurfti ég að ganga betur frá þessu, hvort sem var, og þetta neyðir mig til að trassa það ekki fram yfir alla kör og hvörf, þó líklega væri samt litlu glatað. Enn er þó þetta víst laungarmál, hálfgert. Aðstaða mín er örðug, svo allt verður verr en vildi. Heimastörf hindra. Ég óþolnari en var og

hysknari, og umfram allt óvanur klaufi í bókagerð, með mislagðar hendur um þess konar allt. Ef eitthvað yrði að frétta, skal ég skrifa þér seinna um það. Læt blöðin okkar um slíkt í bráðina. — Berðu vinum vorum kveðju mína, og „vertu sæll, unz sjáumst aftur“.

Vinsamlega Stephan.

*Sigfús Blöndal.* Markerville, Alta, Can., [7. marz 1923].

Góðvinur Sigfús minn. — Þökk fyrir bréfið þitt frá 25. ágúst árið sem leið. Mér þótti vænt um að fá það og vita um, að þér liði vel og værir nú að læra kínversku, því ég hefi þá trú, að til þess að eldast ekki fyrir örlög fram, sé nauðsyn að eiga sér ávallt einhver ný áhugamál, eins konar leikfang sitt í tómstundum, því það geri mann færari um dagsverkin. Þegar ég var strákur, áttum við piltungar sitt prikið hver og nefndum þau „hestana“ okkar. Við tókum þau með okkur til smalamennsku og sendiferða bæja milli og þeyttumst á þeim karlvega, þegar holdlegur hestur fékkst ekki, og alveg er það satt, við vorum fljótari í ferðum fyrir bragðið. Ég held, að maður þarfnist einhvers af þvíumlíku á öllum sviðum, til að lafa sem lengst á æsku sinni og þrótti til venjulegra starfa, hver sem eru.

Lesið hefi ég, að orðabók þín sé komin til Finns bóksala í Winnipeg, en ekki hefi ég séð hana enn, enda hefði ég ekki vit til að dæma um hana, en meira en nóg af fáfræði og hugar-hressing til málsins sjálfs, til að hafa bæði gagn og gaman af henni, þegar ég sæi hana. Ég segi því aðeins: Vel gert! og heill! að vera hálfnaður! Út af því, sem ég hefi einhvers staðar séð, að þú fylgir sunnlenzka framburðinum fyrst og fremst, af því þau tungutökin séu almennust, reyni ég ekki að rífast við þig, þó ég sé Norðlingur. Það hefir sína ástæðu í orðabók. Það, sem ég vildi, — væri, að þjóðin íslenzka öll tæki upp framburð sem næstan réttu ritmáli. Það yrði hægt á svo sem tveim—þrem mannsöldrum, kennt í barnaskólum og upp stigann — ekki fleiri túlum en við höfum til né ósamræmari. Ég sé ekki eftir, þó okkur Norðlingum væri bannað t. d. að segja „kvað?“ og heldur ekki tæki mig sárt, þó „Sunnlingar“ yrðu

að leggja niður að segja „ged“ fyrir get — breyta t-i í d, k-i í g, p-i í b, o. s. frv. Það kann að þykja mjúk-mæli, en mér finnst það ófétis-„ítalska“, nema stafsetningu ritaðs máls sé breytt um leið, sem er þó flækja. Að ég ekki nefni „gutu“ fyrir götu, og önnur u fyrir ö, því ég býst ekki við, að það „nesjamál“ sé til í þinni orðabók, nema þá sem afbrigði. Fara mega y-ið og z-an, úr því sem komið er. Ég hefi ætíð trúað, að ég „sæi á þeim feigð“. Ég veit ég „veit ekki“, Sigfús, — og þó er mér *þessi* „vitleysa“ alvara.

Af blöðum okkar ræður þú, hvað okkur líður, svona yfirleitt. Býst við þú sjáir þau, hvort sem þau hafa tímt að senda sig safni þínu gefins,eins og þau drógust á við mig haustið 1917, en sviku óðara sum, og hin ef til vill nú fyrir löngu. Ég held hér sé í aðsigi eitthvert ofurlítið andlegt upprof, takist að halda tórunni í Þjóðræknisfélaginu og klerkunum nýju að heiman. Í mínum augum er það ekki stærsta synd kirkjufélagsins okkar lútherska, að það er forn-kreddufast, heldur hitt, hversu andlaust, ofríkisgjarnt og jafnvel ótrútt það hefir verið, og hve mikið andlegt myrkur og yfirskin það hefir leitt yfir lýðinn okkar, sökum þess líka, að það var fjölmennasta félagið okkar, hingað til. Ég held það hafi, að öllu aðgættu, sundrað meira en safnað, og orðið til þess, að fjöldinn Íslendinga hér hefir kosið helzt að vera „utanríkis“ alls íslenzks félagsskapar. — Mér líður eftir vanda. Gæti enn gengið með þér út í Örfirisey og haft skemmtun af, værum við í Vík saman og sé búið að bæta það af hafnargarðinum, sem brimið braut nýlega. — Ég er enn allur milli bása og blaða, það er að skilja: á flótta milli skrif-finnsku minnar, þess sem mig langar að lesa, og vinnumensku minnar við heimilið. En ekki er þó um að kvarta. Óska þér alls góðs og er ánægja að fá bréfin frá þér.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

E.S. Ég skammaðist mín svo fyrir dráttinn að svara þínu vingjarnlega bréfi, Sigfús, að ég gleymdi að dagsetja þetta, enda var það hygginda-bragð, hefði „í hart farið“ milli okkar! — 7. marz 1923. S. G. S.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 12. marz 1923.

Góðvinur. — Erindið er að segja þér, að „utan“ þessarar „tösku“ sendi ég samstundis í póstinn rugl út af komu Eggerts hingað. Reyndar hlæ ég að sjálfum mér að fara að rausa um söngmennsku — ég var svo viss um, að upp á þeirri heimsku tæki ég aldrei. Það er ekki að ósekju, að þeir hafa brugðið mér um elliglöp, í nærri 20 ár. Ég gat ekki stillt mig, ófæran um þetta — ef skeð gæti, að Eggert mislíkaði ekki, þó á sig væri minnzt ekki óhlýlega, þó af litlum skilningi sé. Allt sem ég segi sé satt og rétt, þó ég noti gárungsskap minn til að gera það læsilegra. Líka legg ég hér með klipping úr „Province“ okkar. Ég hygg, að sú, sem ritar „Markerville í molum“, sé kennarinn þar, Miss Henderson, sú sem „aðstoðaði“ Eggert hér svo sem hún *gat* og var *þolinmóð*. Við gátum engan viðbúnað haft. Dagur aldrei ákveðinn til fulls og ómögulegt að komast hjá, að Eggert syngi deginum áður en helzt var tiltekið. Annars hefðum við auglýst með nægum tíma og margir innlendir líkl. komið. Nú urðu það svo að segja Ísl. einir, þeir sem til náðist með talsíma. Eggert kom frá Edmonton, svo þetta var nærri í leið hans. Kostnað hans hér og til og frá Innisfail borguðu fáeinir hér, svo hann fékk óskert það, sem inn kom, $101.50. Svo er sú saga ekki lengri.

„Bostonferð“ séra Friðriks verður góð, haldi hann eins áfram! Það er víst ekki þrengt að „andanum“, að líkaminn sé í bláum fötum og rúmgóðum! Vertu blessaður.

Vinsaml. Stephan.

*Guðrún J. Erlings.* Markerville, Alta, 18. marz 1923.

Sezt er nær-klædd sólin há,
Söngva-kær, að veizlum.
Bleikar hærur holta á
Hlýjum slær 'ún geislum.

Flúnum hretin, fugla-hreim
Ferst nú betur, við að
Koma úr vetrar-vertíð heim,
Vorljóð geta kliðað.

Góðvina Guðrún mín. — Þarna kemur miði frá mér loksins. En þökk fyrir bréfið, sem þú skrifaðir mér, í síðastliðnum september, það var svo hlýlegt, enn þá meira fyrir það, að það barst mér í hendur einn dag, þegar svo stóð á, að kuldann „lagði inn“ með meira móti, þá, eða fyrirfarandi. Svo þú sérð, að drátturinn á því bar einmitt „vel í veiði“ og þurfti engrar afsökunar við eða bréfið sjálft heldur.

Ég hefði nú líka átt að koma í verk þessari kveðju til þín fyrir löngu. En ég er eins og Hjálmar kvað, um séra Ásmund: „Bóndi og djákni í búri og kór, beggja rétt að sækja“, Ásmundur guðs og mammons, að því er Hjálmar hélt, en ég búskapar-baslsins og skrif-finnsku minnar. Árs-útgerðin sú, að um hvert nýár skulda ég bæði bréf og peninga, og „vertíðarlokin“ líklega þau, að hvort tveggja „stelur af mér öllum hlut“, eins og Hjálmar bjóst við, að mammon gerði við séra Ásmund. Oft er ég að reyna að sarga skörð í skuldirnar, svona upp úr skammdeginu, og loksins er nú komið að þér. Svo þekki ég þetta, Guðrún, sem þú getur um, að það verður manni til tafa, þegar rækallans taugarnar fara að taka fram fyrir hendurnar á verka-viljanum. Maðurinn má öfunda hákarlinn, af gerðinni á honum. Annars, í alvöru, hefi ég um ekkert að kvarta, sem skynsemi mín og samvizka segði að væri nema það sem við var að búast, og ég reyndar átti von á. Ég held ég sé enn líkur sjálfum mér, þegar ég kom til Íslands um árið. Að vísu fitnaði ég þar, en lét þau hold óðara aftur hér. Fyrir meira en tíu árum, var mér brugðið um það í blaði hér, að á mig væru komin elliglöp, og það hefir sagt verið síðan. Mér finnst ég alltaf hafa verið svona „glapmáll“. En kannske er þetta fyrir mér, eins og með sumar aðrar sóttir, að sú líkn sé lögð með þraut, að eftir því sem veikin elnar, sljóvgast tilfinningin fyrir líðaninni. Þökk fyrir hug þinn til „Þulunnar“ minnar, og happ var mér, að þú lézt ekki prenta hana. Sú er sagan til þess, að fyrir „Þjóðræknis-þingið“ í Winnipeg er ég árlega kvabbaður um kvæði, síðan það hófst. Í þetta sinn sendi ég þeim „Þuluna“ og annað söngl, sem ég sendi líka öðrum manni heim. Átti ekki annað til og of seint beðinn. Happ að hvorugt var prentað, svo ég gat látizt verða við

bóninni, hvort sem þau yrðu þegin eða ekki, þessi vetur-gömlu duttlunga-börn mín, sem urðu til þegar ég lá las-inn inni, og gat ekki annað aðhafzt. Ekki tek ég nærri mér nuddið um mig í blöðunum hér. Svara því, einhverju öðru en glettni, svo sem einu sinni á ári, til að örva þá ögn. Satt að segja, auk ómaksins að svara þeim nokkru, set ég helzt fyrir mig það, að hafa, þó óviljandi sé, orðið orsök til þess, að upp komst, að við Vestmenn gætum vað-ið svona mikla vitleysu eins og andstæðingar mínir hafa látið út úr sér. Ekki að ég sé yfir aðfinnslur hafinn, held-ur hitt hversu ónýt heimskan þeirra er og hlægileg.

Ánægja var mér það, Guðrún, að þú hefir lag til að láta þér líða vel, jafnvel í örðugleikum. Það er listin að lifa! Ég bið að heilsa heimili þínu — og öllum vinkon-um mínum í „Vík“! Þér verður nú víst skota-skuld úr að skila þeim því rétt! Ég víst trúði þér aldrei fyrir hverj-ar þær væru, og þær munu varla vita það sjálfar, sum-ar, svo ég stofna víst getspeki þinni í vanda! En, gott og gleðilegt sumar, og vertu nú sæl!

Vinsamlega Stephan G.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 25. marz 1923.

Góðvinur Jakob. — Þökk fyrir bréf þitt, sem ég er þó ekki að svara, heldur öðru undan gengnu, sem ég hefi orð-ið að trassa. Þú spurðir mig um „Nýal“ Helga Péturss. Ég á hann, Helgi sendi mér. Komi „Syrpa“ mín út, verður þar þula, sem segir satt frá, hversu ég kann við „Nýal“. Ég er ögn kunnugur H. frá dögunum, sem ég var í „Vík“ heima. Áður hafði hann getið mín hlýlega í greinum sín-um. Mér þykir vænt um, [að] Helga dáist að honum. Þeg-ar við sjáumst, get ég sagt þetta nákvæmar. — Þegar bréf þitt kom í haust með „Kúfung“ Einars og Páls míns, gat ég engu sinnt fyrir önnum, en ætlaði að reyna þetta, þeg-ar ég kæmist til. Leit ekki á þýðing E. Læsti hana niður fyrir sjálfum mér, svo aldrei stælist ég í hana af ógáti, því það var rangt gagnvart okkur báðum, ef ég reyndi líka. Loks greip ég það vikuna sem leið, las svo E's., þeg-ar ég var búinn, eins og ég gat. Hafði ásett að brenna mitt, yrði það meira en níu stigum neðar en hans. Þrjú til sex

væru allt, sem mátti muna. Nú sendi ég þetta, mitt, með kveðju minni til Páls og því með, að við kvæði Holmes hafi ég kannazt, dáðst að því, en ætíð fundizt það ögn ofkveðið, það er: of saman-rekið, og þó óþarflega *litum* glæst. Hitt var sér, að örðugt er að þýða það, bæði háttur örðugur og mál kjarnyrt. Ég þýði aldrei orðrétt, finnst það nóg til að vængbrjóta hvern fugl. Tel allt í því að ná anda, efni og blæ sem bezt, bæta um, ef maður kann, skipta um lýsingar og til-bendingar, sem eiginlegri eru í á-þýdda málinu, en í sama anda. Því set ég „Dvergaskeið" fyrir „skálda uppgerð" hjá Holmes, því þar í felst skáldskapurinn og er gömul Eddu-saga og falleg. Eins er með Heimdall í stað Trítons, grísks sægoðs, en Heimdallur var við hafið ættaður líka. „Níu em eg systra sonur", segir hann — eflaust á hann við bárurnar, Ægisdætur, sem voru níu. Og báðir höfðu þeir lúðra, Tríton og Heimdallur. Annars reyndi ég að fara eins léttilega með efnið eins og ég gat, aðeins halda því, sem ekki mátti missast. Kvæðið var nógu erfitt samt á frummálinu, þó ekki væri það líka niður njörvað í þýðingu. Láttu mig vita, ef P. vantar aftur handrit sín. Ég skal þá senda þau. Ég bið P. að fyrirgefa tilraun mína við þetta kvæði, sem eflaust er hans uppá-hald, og honum er sómi að, jafn göfugt og gott eins og það er.

Nei, handrit mitt er ekki í Winnipeg enn, þó nokkur hluti þess gæti verið þar. Því er ólokið enn, en talsvert fyrir-greitt. Ég er ekki alla tíð vel fyrir kallaður. Útibjástur verður fyrir öðru að sitja og illt að hafa við því á hlaupum, sem ekki er neitt íhlaupa-verk. Ókunnugt er mér um manninn hér, sem þú gazt um. En — er ekki \$500.00 í bréfi þínu óvart ritað fyrir \$50.00? Það kunna að vera tveir menn hér til, sem það væri ekki afhöggun að gera eitthvað í þessa átt, væri það við þá nefnt, sem ég geri aldrei, en tæplega þætti mér lægri talan líkleg. Jú — ég er seinvirkur á þetta, og svo bætast við mig nýjar „skriftir" og oft óvæntar, sem ég get ekki stillt mig um. Mér þótti vænt um þá, sem tóku svari mínu. Gott til að vita, að ekki voru allir á hinna máli. Ég hafði hvorki tíma né nenningu til að svara öllu þeirra ónýti jafnóðum. Dró á langinn, þangað til þeir væru útblásnir, svo ég sæi, hverju væri að svara. Eitt er víst, þeir sem minn málstað tóku

hafa enga slyðruför farið fyrir hinum, hvorki í efni né búningi né að tilgangi, hvort sem ég átti það skilið eða ekki. Það sem í J. E. situr er ekki „klámvísa“ eftir mig, heldur ritdeila svolítil í blöðunum 1899. Hann stökk þá í mig fyrir „málvillu“ og ég svaraði í alvöru og — glettni, og ef til vill hefir hann þá þótzt lítið græða.

Komir þú hingað — og henda það má!
Þér hamingjan góðfæri „skaffi“.
Kofinn er smár, en ég allsnægju á
Af undanrenning og „kaffi“.

Blessaður alltént.

Þinn Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Heima, 4. apríl 1923.

Góðvinur. — Bréf þitt kom í gærkveldi. Þökk fyrir það — og ég sé eftir þér í öllum þessum óhægðar-ómökum vegna mín, með öðrum önnum þínum. En um það ætla ég ekki að orðlengja nú. Þó ekkert yrði af útgáfu, var mér umtalið happ. Það dreif mig til að róta upp í ruslinu, sem ég hefði annars trassað lengur. En allt var í óreglu, en mér sjálfsagt kominn meira en tími til að „ráðstafa húsi mínu“ eitthvað. En, illan tíma hefi ég haft, og er enn ekki alveg úr nálinni bitið, og hitt verra, mig brast bæði þol og eirð til að vanda eins vel og ég þó hefði getað ýtrast, ef öðru vísi hefði á mér staðið, eins hætt og mér er þó við að gera illt verra af óvizku.

Engir reikningar hafa komið til mín viðvíkjandi „Andvökum“ nokkurn tíma frá Finni né Hjálmari. Vissi ekkert um það, nema það sem þú hefir minnzt á í bréfum til mín. Ið síðasta og eina var það, sem Hjálmar borgaði mér í Wynyard forðum, þegar þú og ég „prédikuðum“ þar forðum „Íslendingadaginn“ sæla.

Hér er orðið hér um bil snjólaust á brautum. Til dæmis, Jóhann Sveinsson (frá Dakota, Mountain) var jarðsettur í gær. Nokkrir komu á bifreiðum og létu vel af færi, að sögn. Auðvitað getur snjóað snögglega enn, en færi er gott nú og að líkindum helzt. Of kalt fyrir aur á vegum. Annars „veit veðrið hér aldrei sína æfi, fyrr en öll er“, fremur en við mennirnir. Allt eins: guðir og menn! —

Blessaður og sæll og láttu mig vita, ef þú ræðst á vestrið, hefði vilja til að sjá þér farborða frá Innisfail. „Lögberg“ segir von Jónasar Ara hingað upp úr páskunum. Hvaða erindi skyldi hann eiga? Hvernig væri, að þið „mættust í miðju trogi“? Býst við það yrði Jónas, sem bara borðaði ketið, en skildi þér eftir beinin.

Vinsamlega Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Heima, 16. apríl 1923.

Góðvinur. — Bréfi þínu af 29. næstl. svaraði ég til Wynyard daginn eftir að mér barst það. Bjóst samt við, að mitt myndi tæplega ná þér þar. Þó svaraði ég ekki tvennu í bréfi þínu í það sinn, ef ske kynni, að við hittumst. Ætlaði þá „að láta kjaftinn hafa það“ og spara svo löppina. En nú kem ég til að tala um það.

Með kvæðin tvö, sem hjá þér eru — þau eru margvelkomin í ritið, það sem ég ræð við. En svo stendur á, eins og ég minntist á, ég sendi þau heim til kunningja, ekki til prentunar — bauð það hvorki né bannaði — heldur sem fylgiskjöl við bréf, til skemmtunar þeim, sem ég vissi, að höfðu gaman af slíku. Samt gæti svo farið, að annað hvort eða bæði yrðu prentuð þar, áður „Tímaritið“ næsta kæmist út. En það yrði of mikil „alls staðar nálægð“, nema þá að Lárus og Jón væru þagnaðir til fulls, sem maður vonar þó, að ekki komi fyrir, hér í heimi — andinn lifi, þó ýmsum nöfnum sé hann nefndur! Ég held þó síður, að kvæðin komi út heima, af því að bæði „Eimreiðin“ og „Iðunn“ eru sagðar ekki ólíklegar til að leggjast fyrir um stund, sökum harðæris. En, við sjáum hverju fram vindur.

Nei — ég á ekkert afrit af þessum erindum — greip þau, heldur en ekkert úr handritinu mínu nýja að „rusla-langanum“. Annaðhvort verð ég því að fá þau aftur — eða — þau mega vera geymd hjá þér, þangað til úr sker með þetta, og ég þarf þau aldrei aftur, ef af prentun „Syrpunnar“ verður. Síðasti flokkur í henni verður „Heimleiðis“, eins og ég ætlast til nú, og þessi tvö kvæði koma þar síðast og endar á „Endurskin“. Ef svo færi, að prentað

yrði, gætir þú því eins bætt þessum þulum við, „hnýtt þeim aftan í“ fyrir mig.

Nei, ég veit enga von til, að nokkur tök væru til að senda neinum þessar 300 „Andvökur“, á nærfötunum, í bráð. Getur þú geymt þær fyrir mig? — Ég vil heldur, að þær „éti sig inn á“ þig en Ísdal eða Ottenson, eins og skruddur Vésteins! Í alvöru, verði hinum „eftirlegunum“ smalað á prent, hvernig væri að eiga þá eftir jafnmörg hundruð af þeim í „næturkjólum“, og láta svo einhvern tíma, þegar um hægist, binda þær afturgöngur saman, þegar allar hinar eru komnar í umbúðaþörf mannanna? Hver veit nema þær seldust á 300 árum! Lengur, að sögn, hefir Túta „farao“ orðið að bíða, til að gera heiminn ríkan! Þetta gekk betur og fljótara fyrrum hjá okkur Íslendingum, til dæmis í Andrarímum.

Þornar um flóa. Færð í vil!
Frævgar skóga snauða —
Senn fer að gróa — get ég til!
Grundin snjóa-auða.

Vertu svo sæll, alla daga.

Þinn Stephan.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 6. maí 1923.

Góðvinur Jakob minn. — Þökk fyrir bréfið þitt síðasta. Ég fer um í flýti, eiginlega til að skila þér Oliver Holmes og Einari Ben. — af flækingnum. Sem sé, fyrst þeir voru þínir „heimamenn“, vil ég ekki narra þá frá þér, eins og lútherska kirkjufélagið okkar lokkaði Matthías okkar sáluga forðum frá Jóni Ólafssyni og Unitörum. Ég hripaði bæði kvæðin upp fyrir sjálfan mig til gamans — og, þökk fyrir lánið! Svo sendi ég þér nýtt afrit af „Skeljabobbanum“. Það sem ég sendi fyrr var flaustursverk, á sunnudag, í gestagangi og fjósaverkum. Var ekki að vanda torfið, meðan ég vissi ekki, hvort þið Páll vilduð svæla því. Það kann að vera einhver lítill orðamunur nú og fyrr. Ég man það ekki. En, þetta blað er orðrétt eins og ég hefi það í handriti mínu af „Syrpunni“. Svo hripaði ég upp og sendi þér lausaríms ljóðið um „Nýal“ dr. Helga, ef þú kynnir að hafa forvitni á að lesa það. Líka sendi

ég þér bréf til mín frá Guðm. á Sandi, af því það sparar mér skriftir að lýsa efni þess. Þú lætur það ekki fara annarra milli og sendir mér það aftur við hentugleika. Ég get hér ekki útvegað Guðm. það, sem hann biður mig um: greinar mínar út af „Vígslóða". Gætir þú nokkuð gert í því, þarna sem þú ert? Væri svo, sem ólíklegt er, þyrfti ég samt að fá það hingað, til að leiðrétta leiðar prentvillur. Greinarnar eru þessar:

| | | |
|---|---|---|
| 1. „Gáði seint að reiðast", | „Heimskringla" | 24. nóv. 1920. |
| 2. „Til þeirra, sem það varðar", | —— | 19. jan. 1921. |
| 3. „Lárus varð ljúgfróður", | —— | 26. jan. 1921. |
| 4. „Nikulásarmessa", | —— | 23. febr. 1921. |
| 5. „Mishermismaðurinn", | —— | 3. jan. 1923. |
| 6. „Þakkargerð", | —— | 28. febr. 1923. |

Þetta er aðeins tilraun, ef ég gæti geðjazt Guðmundi, svo hann saki mig ekki um „fúss" við sig, þegar hann mun vera að bjóða mér „brydda skó".

Nei, ekkert hefi ég frétt af Wynyard-fundum ykkar, né veit meira um það mál en var. Ég bíð rólegur og vonbrigðalaus, hvernig sem fer. Handritinu er nú lokið, hér um bil, eins vel og ég get, og þó verr en vildi. Það er allmikið verk, og allt sliturs aðskota-flýtisverk, gert í vetrar-vistinni hjá 20 til 30 gripa fjósi og eldiviðar hrauknum.

Ég veit ekki — en grunar — að „Viking Press" fundurinn 9. næstk. skeri kannske að einhverju leyti úr. Held — sem sé — að vélar og áhöld félagsins séu sum svo eydd, eða engin, að það gæti tæplega gert „skrudduna" úr garði, nema ný áhöld fengjust. Prentun heima öll í reiðuleysu og með afarkostum — og „Columbia-pressan" neyðar-úrræði. En þetta er aðeins ímyndan mín — kannske ofsjón, þegar ég er að „telja ljónin á veginum".

Alla tíma blessaður!

Þinn Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 16. maí 1923.

Góðvinur. — Af Íslendingadags nefndinni hérna var þess æskt af mér að komast fyrir, ef ég gæti, hvort nokkur af ykkar mælskumönnum þarna eystra myndi vera líklegur til að eiga leið hér um nágrennið næstkomandi Íslendinga-

dag okkar, 17. júní, flytja okkur ræðu þá og láta „bjóða sér inn, upp á kaffibolla“. T. d. þú sjálfur? En ég býst við, að þú verðir þá líkl. í „hers-höndum“ innar „stríðandi guðskirkju á jörðunni“, eins og mig minnir, að Vídalín minn lýsti henni fyrir mér í æsku.

Jæja — hugsaðu ögn út í þetta fyrir mig, um sjálfan þig eður aðra, og láttu mig vita sem allra fyrst, og ef svo ólíklega færi, að einhver væri sýnilegur í þeim framtíma: kjör og kosti, sem við lægju.

Kulda-blásturs blíðu skort,
Bölvað er að þola 'ann —
En, Jónas hafði áður ort —
En ekki greri „holan“.

Vinsamlega Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Heima, 27. maí 1923.

Góðvinur. — Bréf þitt barst mér í gærkveldi. Bar vel í veiði. Gat skilað af mér erindisleysunni til þín á nefndarfundi sama kveld. Hún kom mér ekki óvænt, og hinum líkl. ekki heldur, ég hafði sagt þeim áður, að ég byggist við einmitt þeim hömlum, sem til tókst. Okkar hag varð það að vísu óljúfara, en stærra happ var þó hitt, að þú varst bundinn þarfara máli.

Handrit mitt er nú til og skal ég senda það, hvenær sem vill, án annarra vafninga. Lát mig vita, með línu. Að vísu er allt það frá minni hendi illa úr garði gert, verr en ég vildi og hefði kannske getað betur fyrirkallaður. Það varð að vera handaskolaverk, að og frá hlaup á hverjum degi síðan í haust, milli stauts að hirða 20—30 nautgripi í básum sínum, annast um eldsneyti o. fl., svo allt varð mér klaufhendara og mislagðara í minni, með annað stjá í hug og á höndum. Var ekki alltíð með alveg „heilli há“ á heilsufarinu. Verð því að „biðjast vægðar“ með útlátin. Það bættust líka á nokkrar skriftir heim. Kunningi minn einn þar bað mig að segja sér æði margt af sjálfum mér og „synda-registri“ mínu í kveðskapnum. Það varð nokkuð aukaverk, og enn vill hann vita meira, sem er enn ósvarað. En, ég mátti ekki neita, jafnvel forvitni hans. Hann hefir lengi reynzt mér svo bróðurlegur

drengur, auk þess sem að hann lætur sér annt um þetta mín vegna.

Ég sendi ef til vinn nánari íhuganir mínar viðvíkjandi handritinu, þegar á því þarf að halda. Ekki held ég, að ég geti komizt austur í sumar, sízt til nokkurrar dvalar. En kæra þökk samt fyrir allt, sem þú vilt og gerir mér til sæmdar og ánægju. En hagur minn stendur svo, að verði ég verkfær, má ég ekki missa mig frá að drýla á ökrum okkar, ef uppskera verður nokkur. Og, verði ég ekki um það fær, sökum vesalmennsku, yrði ég andlegt ónýti líka, og þar að auki kann ég ekkert til prófarkalesturs, né hefi hugmynd um prentiðnina — og, getur þú trúað því? Mér yfirsést mest að leiðrétta eftir sjálfan mig! Ég hálf-kann allt utanbókar, og hleyp svo á hundavaði yfir stafavillurnar og þess konar, auk þess sem ég hvorki kann málfræði né stafsetningu til neinna hlíta. Þó myndi ég biðja, að mér væru send hingað jafnóðum svo sem 2 eintök af hverri örk, ef af prentun verður. Það, sem að heilsu minni gengur, er auðvitað fyrst og fremst nærri 70 ár, og líkl. gamall kvilli frá hálf-þrítugu, sem ekki er nú að breytast til bóta, sem ekki er von. En hafi skollinn það þó! Ég hefi staðið hann af mér í rúm 40 ár og hefi ekkert um að fást, og er eins **maskinn og áður, svona** heima að hitta.

Ég hefi alla tíð hálf-efazt um, að ruglið mitt ætti rétt til útkomu í bók. Það var fyrst nú, við að blaða í því í vetur, að mér fannst kannske það hafa líka þýðingu, sem sé þessa: með öllum sínum göllum og firrum sýnir það þó eina hlið af vestur fluttum íslenzkum trefjum úr alþýðu-menningu þar, fyrir meira en hálfri öld síðan. Það kann að verða einhverjum gagn síðar, til samanburðar og skýringa á andlegum högum okkar, eins og við vorum þá uppi.

Annars er gott til þess að hugsa, svona undir kveldið, að ýmislegt, sem manni var áður í mun, sýnist vera að viðgangast. Tek til aðeins tvennt: Sambandið ykkar hérna — þú veizt hvern veg það hefir allténd í mér legið — og „þjóðhátíð"-ar mál Bjarnar Þórðarsonar í „Eimreiðinni" nýju — sbr. „Þingvalla-ljóð" í „Heimleiðis", sem rann mér í skap við að sjá „völlinn".

Aldrei komst Jónas Ari til Markerville — bara til Innisfail, og sneri þar um. Séra Pétur var búinn að boða komu hans hingað, en erindi ekki, að öðru en því, „að líkl. væri hann í þjóðrækniserindum“ — Ég hafði gizkað á skólamál sem aðal-erindi, með þjóðræknina ofan á breidda, kannske fyrir hugnun úr „hjálparsjóði“ Þjóðr.fél.! Auðvitað vissi ég ekki erindi hans. Þeir séra P. skiptust á einhverjum símskeytum, og erindislokin hér urðu svona.

Hvernig væri, ef því yrði um þokað, að senda hingað einhvern „nýmóðins“ prestinn ykkar í svo sem „mánaðarfrí“ til „þjóðrækni“ hér? Hún er steinsofnuð. Enginn „heimalningur“ gæti vakið hana. Kynni líka að verða til þess, ef hann kæmi ekki sem „postuli“, að fólki hér færi eins og tilheyrendum „postulans“ forðum: „að það fýsti að heyra nokkuð nýtt“, og „afvega-leiddi“ sig sjálft, án þess að hann væri upphafsmaður að. — Blessaður og sæll!

segir Stephan.

Eftir á að hyggja! Ég gleymdi að koma því fyrir fyrr — sem frétt — að nú messa 2 prestar innlendir og á ensku! á Markerville, í lúthersku kirkjunni okkar. Við látum hana fala hverjum Freys-guðlingi sem er — veit ekki þó, væri hann kaþólskur! — Annar er methodisti frá Innisfail. Vel þykir unga fólkinu íslenzka að hann sé máli farinn. Hinn er „presbýtari“. Seztur að í mánuð á Markerville. Segist vera 5 ára lært læknisefni, í raun og veru, og alveg eins ánægður með að lækna líkami sem sálir, ef einhver þurfi þess fremur með. Veit ekki, nema ég fari til hans — með skrokkinn! Sálin mun of langt leidd! Báðir eru þeir ungir menn, og í alvöru að segja alþýðleg skinn.

S.

*Jón Jónsson frá Sleðbrjót.* Markerville, Alta, 20. júní 1923.

Góðvinur.

Aldurinn sverfur ný og ný
Nennileysis-merki
Á „drif-fjöðrina“ okkar í
„Æfi-sigurverki“.

Bæklarar vors fjörs, mér finnst,
Að fæstur leiki á vafi:
Upp til hundrað ára minnst,
Undið þína hafi.

Þökk fyrir bréfið síðasta og afsakaðu dráttinn að svara því. Virtist vera bata-hljóð í bréfinu, trúði því, og ætlaði nú ekki að láta þig lengi bíða, en þá komu blöðin og báru allt ofan í okkur, svo hik kom á mig, sem hélzt þangað til nýlega, að þau tóku þetta aftur, hvort sem það var nú gert læknunum til lofs, eða af því, að þeim hafði ratazt satt af munni og sem ég trúi, unz ég tek á. Og þó að saga þeirra um heilsufar þitt sé enn óbotnuð lokleysa, eins og „helmingarnir", til alls ónýtu, sem þau flytja, sem hver bögubósi á að „pota neðan við", og prentararnir auka svo heimskuna í, kem ég nú samt í þessari trú, og óska þér langvarandi bata! Skammgóður skal ég þó vera, og hvergi leita þín annars staðar en heima hjá þér, hvar sem þú annars ert. Að vísu veit ég, hvað „Tímanum" líður í pólitíkinni heima, og á hans sveif væri ég þar, en um „pólitík" vil ég ekki nú tala. Aðeins geta þess, að fjármála-ræða Magnúsar er ein sú glöggvasta og einlægasta, sem ég hefi nokkru sinni lesið, og hefi ég þó margar séð, en flestar byggðar sem „völundarhús". Ég hálf sé eftir, að hann sagði af sér, einmitt vegna hennar, en vitaskuld er þar einhver „eldur undir", þó ekki sjáum við nema „eimyrjuna" úr húsa-leigu hans í landssjóðnum. Ég þykist þess vís, að Framsóknarflokkurinn færist í aukana við næstu kosningar, skil ekki, hvað fyrir því gæti staðið, eins og á stendur.

Sjálfum mér líður víst ekki verr en efni eru til, en þó er ég hvorki kvillalaus né endingargóður, eins og ég vildi vera. Þó er ég hálf-hreykinn yfir vetrarverkinu, sjálfsagt af því ég er kominn svo hátt á „raups-aldurinn". Ég staulaðist gegnum útiverkin mín, venjulega sunnudags- og rúmlegu-laust, og í höppum og glöppum, milli þeirra og letikastanna, kom nokkurri mynd á að safna flestu því saman og flokka samkvæmt minni sérvizku, sem ég hefi ruglað í rími síðan „Andvökur" komu út, auk annarra „skrifta", sem ultu á mig að óvöru. Allt lá þetta í reiðuleysu áður,

en kannske skylda og sjálfsagt tími til kominn að ráðstafa því „húsi mínu“, svo sem ég var til fær og tími vannst til. — En heyrðu, Jón, þú ritaðir eitt sinn fyrir „Tímaritið“ um verklegar og væntanlegar framfarir Íslands. Verðir þú fær, áttu nú að „botna“ þetta, og sýna, hversu tiltölulega miklu Ísland ver til andlegrar menningar, svo sem til listamanna og lærdóms, og koma því í næsta „Tímarit“. Amerískt blað hafði orð á því, eins og þú víst manst, og okkur ekki til minnkunar. Sjálfir vitum við þetta varla, eða vanþökkum. Þú hefir heyrt getið um aðals- og jafnaðarmanninn sænska, Hjalmar Branting, annað veifið forsætisráðherra í Svíþjóð og stundum forseti á „alþjóðafundum“. Nýlega átti íslenzkur listamaður tal við hann, sem sagði mér frá. Hjalmar spurði ýmiss, meðal annars, hvað þjóðin ísl. gerði fyrir skáld sín og listamenn. Íslendingurinn taldi það allt upp, öfundarlaust og hróðugur. Að lokum sagði Hjalmar: „Já, skammast mættum við okkar, Svíarnir, jafn fjölmennir og við erum í samanburði við Íslendinga.“

Sá eg ei meta-mun, sem er
Mínu setri háður:
Alls, er getur gróið hér,
Gengis-betri áður.

Vinsamlega Stephan G.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 21. júní 1923.

Góðvinur Jakob minn. — Þökk fyrir bréf þitt og blaðastrangann, nærri nýkominn. Þú gerðir vel, eins og vant er um þig. Mér var annt um að geta þetta fyrir Guðmund minn. Ég er ekki viss um, hvernig hann hefði skilið það, hefði mér ekki tekizt að verða við tilmælum hans. Hann hefir oft haldið í hönd mér, en þykktist við mig eitt skipti, út úr glettni. Gat ímyndað sér, að enn væri „fúss“ í mér. Ég heimsótti hann 1917, en ekki barst það í tal, og ég erfi ekki slíkar skrá-veifur við drengilega menn. Þykja þær nærri sjálfsagðar, eins og svali í mollu lífsins, en öðrum er ótamara að taka það svo, hvort sem það á við Gvend minn.

Ég verð að segja þér eins og í mér hefir legið og ligg-

ur enn viðvíkjandi kveðskap mínum og bóka-gerð af honum. Það þætti mér þó verst, yrði afleiðing hans þykkjuefni milli þeirra manna, sem eru vinir mínir og vilja allir „brjóta sig í mola“ mín vegna, heldur kysi ég, að ekkert yrði af útgáfu en að til þess drægi. Ég vissi og hræddist sífellt, að kostnaður yrði illþolandi, og efaðist um, að kveðskapur minn svaraði þeim kostnaði. Þó hefði ég aldrei hugsað mér, að kvöðin til ykkar Wynyard-búa yrði slík — eiginlega enga ágizkan gert, nema einhverja „óttalega upphæð“ yfirleitt. Ég hefi aldrei reynt að vera hvatamaður þess, hvorki fyrr né nú, að miklu væri til kvæða minna kostað, þó ekki þurfi það fram að taka, að ég skil vel, hversu mikil drenglund í felst, og kann að virða það. Spyrja má, hví ég leyfi það þá, úr því ég metnast ekki meira af „vöru-gæðunum“ mínum og er ragur við tilkostnaðinn. Svarið er það: Ég veit fyrir víst, að til eru nokkrir menn, „og þeim hefir farið fjölgandi“, sem hafa líka ánægju af að fara með sumt eftir mig, eins og ég af að setja það saman. Það væri því þverhöfðaskapur að neita, svo þeim fyndist ég telja sér „illt of gott“, sem mér vilja bezt, og því legg ég þeim til það litla, sem ég orka, og eins ljúflega og þakksamlega og ég kann, — allt, nema hvötina til að ráðast í þá hagsmuna-leysu. Ef vel tekst til, svo „Syrpan“ fær að einhverju leyti meðmæli viturra manna á síðan, verður það þeim til sóma, en ekki fjár, og sízt ætla ég að synja vinum mínum um það, ef þeir æskja að reyna. Og þó svo færi, að það ylti upp, að þeir hefðu hætt fé sínu á „fráleik síðgengara hestsins“, yrði það þeim ef til vill virt til vorkunnar, sökum þess, að það mun einsdæmi, að alþýðumenn meti svo mikils kveðskapinn, að þeir af sjálfsdáðum sækist eftir að sóa fé sínu og fyrirhöfn í svo arðlaust erindi. Þetta var, í einlægni sagt, mitt viðhorf við þessu máli, fyrir 12 árum síðan, þegar „Andvökur“ komu fyrst út, og er enn. Þá lét ég kostnaðarmenn ráða tilhögun og hversu mikið þeir vildu taka. Þeir heimtuðu allt, sumt sem ég tók ekki upp í fyrstu. Allt vildu þeir þó gera að mínum vilja. Fyrir mín orð var prentað heima, þá var það bæði betur gert og ódýrra þar. Aftur, fyrir mín orð líka, samið við vissan mann um pappír og prófléstur. Ég hugðist gera það honum í hag, en varð til óhugnunar

okkur báðum víst. Varð að leita laga, því hann hélt handritinu fyrir okkur. Enn skyldi útgáfu-nefnd ráða, hvar og hvenær, ef til kemur, og ljóðafjöldanum líka. En ósk mín er, að prentun, pappír, snið og band sé sem svipaðast og verður því, sem var, aðeins vegna samræmis. Ég er, úr því svo varð í fyrstu, ánægðastur, að allt sé uppskafið, illt og gott, mér finnst það fari bezt, í einni og fyrstu útgáfu. Þar verð ég þá allur, lestir sem kostir. Svo sekkur það í botn gleymskunnar, sem ekki er fært um að fleyta sér á framtíðina, kássan öll eða kaflar úr henni.

Annars hefi ég ekki gert nema grætt, þó engrar útkomu yrði auðið nú. Þetta lá fyrir mér, úr því í svo marga bragarbölvun var komið. Ég hefi trassað það, enn um sinn, en ekki séð, að bráðum sjötugum sé sætt að sitja. Skeð gat, að í einhverju augnamiði hefði sumu verið hrúgað út, en vandséð hvernig sá „ræfill yrði rifinn" upp úr svelli, þegar við allir værum „staðnir af stokki", sem vorum þvílíku samtíða. Nú er það heldur heildarlegra viðfangs.

Enn sé ég ekki eftir, að ekki var flýtt útgáfu, þó peningar væru þá léttari fyrir fæti. Aðeins eitt, ef til vill, hefir þar skotizt hjá, það, að taka tillög í sjóð, sem til væri, hvenær sem byrja mætti. Hættan var „Vígslóði" þá, þó helmingur hans væri þá varla til. En, hefði óvinum hans hugsazt það og orkað því, mátti, eins og þá stóð á, leggja lagabann í veginn, og lítt kleifan kostnað og stapp. Þess óvinafagnaðar vildi ég ekki unna þeim, né auka ykkur fyrirhöfn og fémissi.

Viðvíkjandi því, að hreyfa þessu sem blaðamáli, á undan framkvæmdum, myndi eg fremur ráða frá, því það gæfi þeim, sem andstæðir okkur eru í einhverju, opið hlið til undir-róðurs og blaðadeilu, verri og vitlausari en fyrr, brigslyrða um betl og allt, sem þeir þættust eiga sín í að hefna fyrir, og trú mér til: Það yrði ekki sparað, eins og málin eru nú vaxin og slíkir sem við erum, sem fyrir þessu göngumst. Að öðru leyti en því, að ég þykist sjá fram á, að slíkt yrði fyrirspilling, stæði mér á sama. Höggstaðurinn yrði notaður, væri þeim sýndur hann. Annars býst ég við, að þeir hafi ávænu af þessu, en geta ekki beitt sér á hann, meðan við þegjum. Í mínum grun er þaðan runnin þessi suða, um sinn í hvert sinn af þeim, sem yrkja hér

vestra, sem ég eigi að „sitja í ljósi fyrir“, en almenningur að taka fram yfir mig. Á móti styrk þeirra hefi ég ekkert, öðru nær, enda er hann óhugsanlegur frá þeim öllum, sem um hann fjasa. En rausið um þetta gæti dregið dálk úr og dreift úr flokk, sem stæði með mér. Til þess hygg ég, að „refirnir séu skornir“ hjá þeim, sem kænastir þykjast, þó þeir láti aðra leggja „orðin í belg“. Ekki veit ég, hvort margir, sem þó eru mér vinveittir, vildu kosta fé á kvæðin mín. Það kunna að vera nokkuð fleiri en þið, en um það er ég óviss. Til sannindamerkis er þessi saga. Hvað sem kveðskap mínum líður, vissi ég aldrei til, að ég ætti annars staðar meiri ítök en hjá nokkrum mönnum við Garðar. Þegar þú gafst mér eintökin af „Jökulgöngum“, skrifaði ég tryggða-vini mínum þar, sem ætíð hefir viljað allt fyrir mig gera. Bað hann að útvega mér mann þar, til að bjóða nokkur eint., á 25c. hvert. Ójá, á Mountain var íslenzkur karl, sem gekk um byggð á sumrin og seldi bækur. Þann gat hann útvegað mér kannske, fyrir örfá kver, þó enginn þættist geta séð af „centi“ nú orðið fyrir neitt þess háttar. Þetta fór þó út um þúfur. Guð tók í strenginn, en ekki á mína hlið. Karlinn dó áður sumarsala hans byrjaði. Það sund var lokað. Þá stakk vinur minn upp á að fá einn frænda minn og vin þar, sem átti embættisferð um sveitina, til að taka af mér svo sem 10—15 eintök, til framboðs á bæjunum — en, ég hafði ekkert geð til að eiga við það og afþakkaði, og sendi aldrei neitt. Auðvitað er þetta varla frásagnavert, svo smátt er það, nema aðeins þetta: „stráin sýna, hvaðan vindurinn stendur“ og enginn, sem ekki reynir, trúir, hvílíkur andlegur torfgarður er um yngra fólkið, síðan gömlu mennirnir gáfust upp. Auðvitað, *ég vissi og sá*, að að þeim aldaranda stefndi, og á að ganga undir nafni kristindóms, frjálslyndis og framsýnis — en, því meiri verður þörfin á einhverjum landskjálfta. Ekkert hefi ég heyrt frá öðrum en þér um „Andvöku“-málin síðan. Að einu er ég að spyrja sjálfan mig, en get ekki svarað: Er ekki 1500 eint. of mikið? Nægir ekki 1000? Fyrri „Andv.“ voru, minnir mig, 1500 eint., og eitthvað óselt enn, eftir 13—14 ár.

Vertu marg-blessaður!

Þinn Stephan.

*Aðalsteinn Kristjánsson.* Markerville, Alta, 23. júní 1923.

Góðvinur Aðalsteinn. — Beztu þökk fyrir bókina, sem þú sendir mér í vetur, „The Soul of an Emigrant", og línurnar nýskeð. Að ég þakkaði ekki bókina fyrr, var ekki einungis vegna annríkis við ýmsar skriftir, venju meira, og auk útistarfa, sem ég gegni enn og á oft í fullum höndum við, heldur var hitt nóg, að: Ég hafði þá ekki heimilisfang þitt — húsatöluna — á hraðbergi, þó ég myndi vel bæjarnafnið þitt. En bréfið þitt bætti nú úr því. Þú minnist á sálma-kveðskap. Ó, jæja — það er fleira til af „sálmum" en guðfræðingana grunar enn. Sá tími kemur, að sumt, sem nú er nefnt „veraldlegur kveðskapur", verður talið til „Te Deum" og „Óvinnanleg borg" framtímans. Það er eldmóðurinn, en ekki kreddan, sem gerir sálm að sálmi. „Allah er guð og enginn guð nema hann", segja Múhamedar, og þegar menn einhvern tíma sjá, að lífið er guð og enginn annar guð nema það, og að allt veltur á, að því, sem meðvitund hefir, farnist sem farsælast, þá fjölgar því, sem við nú nefnum sálma, trú mér til.

Ég þýði sjaldan, Aðalsteinn, og aldrei orðrétt. Það er kannske sérvizka: en mér finnst ég haldi aðeins skelinni, en fleygi meiru eða minna af kjarnanum, ef ég tek orðin upp aðeins. Nái ekki því „eins og talað er", eða með öðrum orðum skemmi það, sem skáldskapur eiginlegast er. Til dæmis, vísunni, sem þú sendir í bréfinu, sný ég nú um leið og ég hripa þetta, svona:

Æ, gef oss þrek — ef verja varð,
Að vernda æ inn lægra garð.
Og styrk til þess að standa ei hjá,
Ef stór-sannindum níðzt er á.

Ég býst við, að þú þykist naumast þekkja vísuna þína ensku í svona „útgáfu", og ég lái þér það ekkert. En svona þýði ég, oft og oft. — Þakklátur fyrir hlýhug þinn til mín.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 8. júlí 1923.

Góðvinur Rögnvaldur. — Til frekari hvatar að koma hér við, ef unnt væri, á austurleið, læt ég nú þessar línur

leita þig uppi. Ég hefi nú hlerað, að fornkunningja ykkar bræðra, Kristófer Hjálmssyni, hafi fallið miður, að hann vissi ekki um, að þú varst hér staddur um daginn. Svo stendur þar á, hann á mörg börn óskírð! Fyrir löngu minntist hann á, að hann vildi láta skíra þau. Ég stakk upp á, að hann léti það bíða, þangað til þú kæmir hér, sem líklega yrði með tímanum. Náttúrlega gerði ég það sjálfum mér í hag, í veizlu-von! Hann tók því heldur ekki fjarri, en hefir ekki borizt í tal síðan. Ég er því kannske óbeinlínis skuld í, ef börnin verða „heiðin“ héðan af! og myndi nú láta hann vita, værir þú væntanlegur. Hann býr ögn út úr, 8—10 mílur héðan.

Í gær hitti ég Hunford. Svo fór sem mig grunaði: Sál hans var óróleg yfir vonbrigðunum, að hafa ekki náð „prestsfundi“, og kvað það þó hafa verið meira áríðandi fyrir þig en sig.

Segjum þið gætuð komið við. Það er nokkuð löng bið í Wetaskiwin, að mig minnir, hvort sem er, á austurleið. Þú flyttir erindið, sem þú hefðir með þér, á Markerville, skírðir svo krakka Kristófers „eftir messu“, að „söfnuðinum ásjáandi“, yrði hann nokkur. Létir mig vita í tíma, svo ég gæti borið út boðskapinn og glatt Jónas, o. s. frv. Þó þið gætuð öll komið aftur, yrðu sömu ráð og áður með viðtökur, og hugsun um átroðning megið þið ekki láta hamla, sko: Hann kæmi niður á þeim einum, sem ekki er óþægð í honum. Er, sem fyrr, í flughasti. Alúðar-kveðjur til þín og þíns föruneytis alls.

Þinn Stephan.

Eftir á að hyggja! Ekkert bréf til ykkar hefir borizt hingað enn. Og færi svo, að þið færuð hér um heim, gætir þú ef til vill stillt svo til, að annaðhvort koman til Markerville, eða förin þaðan til Innisfail, bæri upp á sunnudag. — Ekki er það samt áríðandi. S.G.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 14. júlí 1923.

Góðvinur Jakob minn. — Þökk fyrir bréfið þitt síðasta og kveðjuna með dr. Ágúst, sem hann skilaði mér rækilega. Ekki máttu ímynda þér, að ég kunni ekki að virða kapp þitt og vinsemd við að koma upptíningnum mín-

um á markaðinn, ég skil þá velvild og veit vel, frá hverju stafar óró þín með það, sem þér þykir tómlæti annarra félaga þinna í því máli. En, mér er sífellt svo gersamlega um geð, hve nærri sér, fjárhagslega, vinir mínir verða að ganga, til að koma þessu dóti á framfæri, og þó veit ég engan veg annan, sem væri léttari og mér ljúfari, eins og allt er á sig komið.

Ég hygg, að þetta síðara safn af „Andvöku"-nóttum mínum verði umfangsmeira en ið fyrra, en læt „útgerðar menn" alveg ráða bindafjölda. Hin þrjú urðu, hvort sem var, ekki öll jafn-þrýstin í roðinu, þó það færi bezt, og miklu munar á kostnaði bandsins að minnka hann um þriðjung, og ef til vill má með lagi á prentinu eitthvað draga úr „ístrunni", án þess mikið mismuni á að sjá. Ég ber lítið skyn á bókagerð, en ætlast aðeins til, að ruslakistan mín heiti einu nafni öll og sé eins samsvarandi sjálfri sér á flestar ytri hliðar, sem hægt er. Nú er handr. líkl. rétt komið til Wpg. Sendi það inn 10. þ. m. Veðjaði því móti $700.00 við C.P.R., að hann kæmi því til réttra skila, en taldi mér þó minn skaða óbættan, ef ég fengi þá. Það mun eiga að byrja á að „setja" það óðara, áður en séra R. P. er þó kominn heim að vestan. Séra Eyjólfur Melan mun ætla að lesa „próf", að einhverju leyti. Dr. Ágúst fór þó yfir nokkuð af handritinu hjá mér hér heima og leiðrétti staf á stöku stað, þar sem mér hafði yfirsézt. Vildi helzt hafa haft tíma til að fara yfir allt. Ég gat ekki haft hann upp úr því að þræla í því, þó ég áminnti hann um það. Ég vissi vel, að mér myndi hafa skjátlazt hér og hvar, þetta var svo mikið rústarverk, og ég hafði fullar hendur af öðrum störfum og oft illa fyrir kallaður til vandvirkni, svo mér tókst miður nú en fyrra skiptið. Þá gat ég setið við óskiptari. Þó held ég það slarkist enn, því Ágúst sagði, að lítið þyrfti að leiðrétta, en hann er vandvirkur sjálfur, og rætist það, sem hann hélt um ruslið yfirleitt (og hann er einlægur og kallar ekki allt, sem við skáldskap er kennt, „ömmu sína"), já, þá megum við halda, að vel hafi úr ráðizt jafn vandséðu, — en ég á við kostina, en ekki *kostnaðinn!* og um þá er mér þó annast, svo óánægður sem ég er þó að sjá af skildingum ykkar og annarri fyrirhöfn.

Ég kynntist dr. Ágúst ögn heima. Enginn var mér bróðurlegri þar, og er þá mikið sagt, þegar nær hver maður, sem mætt er, er manni svo góður, að maður getur varla notað efri stig þess orðs, sem sé: betri, beztur, um einn fremur en annan. Auðvitað álítur Ágúst mig ekki „syndlausan", sem betur fer! og við erum ekki ætíð á sama máli, hvað sé „synd" — engir tveir eru það, sem betur fer líka, því þá væru tómir „Farisear" í mannheimi, og „syndin" er sín eigin verðlaun, á þann hátt, að hún týnir sjálfri sér fljótlega, en menn getur greint á, hve fljótt það eigi að verða! Ég segi þér þessar sögur, ekki til átrúnaðar, en af því ég veit þær gleðja þig.

Flyttu vinum vorum við Wynyard kæra þökk mína, þrátt fyrir það, að ég hefði ætíð sett það fyrir mig að reyta fjaðrirnar af fuglunum í byljum og bjargleysu-tíð, þó nú hafi ég einhvern veginn orðið til þess. Blessaður og sæll.

Þinn Stephan.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 1. ágúst 1923.

Góðvinur Jakob minn. — Þökk fyrir bréfið þitt síðasta, fram komið fyrir fáeinum dögum. Ég skemmdi ögn skrif-finnsku hönd mína hér um daginn, svo hún var um stund tæplega pennafær. Það, auk annarra tafa, veldur, að ég svara venju síðar.

Við R. vorum stutt saman um dagana, sem þau dvöldu hér. Ágúst gisti hér lengur. R. bjó annars staðar — nema eitt kveld — sökum húsnæðisleysis hjá mér. Á *kostnað* minntumst við ekki, ég masaði um ýmislegt viðvíkjandi handriti mínu, sem ég hafði þá til, en vissi, að ýmsir gallar voru á, þó ekki gæti ég betur í bráðina. Okkur samdist, að ég sendi það til prentara eins við „Heimskringlu", áður en hann kæmi heim aftur, og hann bjóst við, að sá byrjaði að „setja". Það hefi ég nú gert, eins og ég gat um við þig. Meira veit ég enn ekki, né hvort „Syrpan" rataði á „smiðjuna". Um fjárhöld spurði ég ekkert. Fylgdi þeim sið, bæði ið fyrra skiptið og nú, úr því ég gat ekki „gert þar neitt sjálfur". Eins er um rit-gerð aðra, ég læt þá, sem „kosta", því ráða, veit mig brestur alla þekkingu á bókagerð og sölu, og ber kannske fram vitleysu, eða ein-

hvern ómögulegleik, tæki ég slíkt í mig. Reyni aðeins að vera það samvinnu-þýður sem ég get og næ, enda væri engum það skyldara, eins og á stendur. Hefi jafnvel gefið leyfi mitt fyrir, ef svo sýndist, að gefa aðeins út „úrval“ eitthvert, til að klípa niður kostnað. Aðeins tekið fram, að sjálfur gæti ég ekki gert það, og hitt, sem satt er: að engum tveimur, hversu vel sem valdir væru, myndi sýnast alveg eins, hvað úr skyldi fella en upp að taka. Framtíminn einn sker úr, hvað flýtur og sekkur með straumnum, ef nokkuð af þessum mínum „blöðum“ á að losna frá landi.

Þetta er þá allt, sem ég get sagt í bráðina. Ekki veit ég hvort R. og hans fylgd er horfin austur aftur, en tel það sjálfsagt og jafnvel, að eitthvað hafi verið staðið við í Wynyard.

Þetta allt ætlar að verða of mikið umstang og of dýrkeypt þeim, sem umgangast — og ég — sem hafði ásett mér að tóra sem lengst, svo að ég svaraði kostnaði! Þrátt fyrir það þakka ég ykkur öllum alúðlega — og það væri eins, þó við yrðum að leggja árar í bát, sökum ófæranna. Blessaður alltén d!

Þinn Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 4. ágúst 1923.

Góðvinur. — Bréfið þitt og „prófin“ síðari bárust mér á laugardaginn var, og þann dag sendi ég „prófin“, þau sem fyrr komu, og þessi nú svo fljótt sem ferð fellur á pósthúsið. Ekki veit ég, hvort þið ráðið fram úr rúnum mínum. Ég kann ekki verkið. Hefi aldrei „próförk“ lesið og verð að ímynda mér einhverja aðferð. Þið notið það sem hægt er og ráðið fram úr. Ég hefi víst merkt margt „máð“ eða „brotinn staf“, sem kemur út óskaddað á betri pappírinn. Gerði það aðeins til að vekja eftirtekt á, ef eitthvað kynni að vera að, en þið vitið betur, hvað um er að vera, en ég. Þessi síðari „próf“ voru víst furðu góð frá ykkar hendi, að mig grunar.

Já, raðaðu „hryggjarliðum“ þessum eins og hægast er og þér þykir hentugast og bezt fara. Ég fellst á þína uppástungu. Meira en það, ég var sjálfur að hugsa um, að „Skráveifur“ (allténd nokkuð af þeim) ættu að vera „ljós-

ið í rófunni“ á Vígslóða, þær væru limir af hans líkama! En svo gat ég engan grun gert mér um binda-fjölda og raðaði aðeins „ættingjum“ saman, svo sem ég gat, án tillits til, hvar hver flokkur kæmi fram í bók.

Verst hvað þetta er allt dýrt og örðugt, og ef eitthvað selst af „dótinu“, ætti það að ganga í kostnaðinn fyrst og fremst, og yrði þó allflest óborgað samt.

Í svipinn er ég svo „slyddulegur“, að ég get tæpast uppi setið — bara ískot, flökku-vesöld, sem gengur hér, eða veðrið, eða vinna — því nú stendur uppskera hér hæst, og hún með örðugasta móti, en ég að reyna að hjálpa ögn til, með öðru stjái — auðvitað til lítils gagns, sjálfsagt, aðeins til að raupa af hinum megin, að hafa „sjakkað“ sjötugusta árið mitt. „Að hafa særðan ræsi Róma, raupa máttu í Heljar-sölum“, kvað Breiðfjörð í Núma-rímum. Ég tel fram drýlin.

Ég verð betur fyrir-kallaður bráðum „að ausa mærðinni yfir þig“, og þá kem ég aftur. Þökk mína góða fyrir allt og allt — og kærar kveðjur okkar hjúanna hérna til ykkar, sem eruð nú heimilislaus! Hefir þú selt 650? Ég villist þá, þegar ég kem næst.

Vinsamlega Stephan.

4. ágúst 1923.

Ég opna bréfið aftur. Einu gleymdi ég að svara. Mundi það, þegar ég var lagztur fyrir. Ég gerði *ekkert kvæði* til dr. Ágústs. En vinur minn, Ásgeir heitinn Líndal í Victoria, sendi mér kvæði eftir sig, rétt áður en hann dó, og bað mig að koma á framfæri. Í fyrstu bjóst ég við að lesa það upp, á samkomu Á. á Markerville, en sneri því þó af og sagði heldur ekkert sjálfur. Ég er nokkuð kunnugur Á. og skil hann, held ég. Ég efaði að geta geðjazt honum. Hann er dálítið vandfýsinn — þykir nærri hótfyndinn um það, sem öðrum virðast smámunir, sárnar það, sem [ég] og mínir líkar myndu brosa að, finnist honum sínu fegurðarnæmi misboðið. Ég vildi því ekki lengja kveld lúins manns, nema sem minnst. Vissi ekki, nema honum yrði raun að því, og svo hitt, að leyfa hverjum sem vildi að komast að honum, en ekki slá minni *eign á hann,* nema sem minnst. Geri það ætíð, þegar líkt stendur hér á, að því leyti sem ég get. Þegar heim kom,

afhenti ég honum kvæði Ásgeirs, það mun vera það, sem þig rekur minni til. Sagði þeim hjónum báðum frá, hví ég hefði ekki lesið það upp né sagt neitt sjálfur (honum hefði *getað* orðið raun að því). Sigríður hló. „Þú gerðir alveg rétt, Stefán,“ sagði hún. „Oft hefi ég kennt í brjósti um aumingja Ágúst, þegar farið er að hæla honum. Mér finnst hann ætli að skríða undir borðið.“ Ég hefi reynt ögn sjálfur af líku, finnist mér, að gumað sé fyrir siðasakir og skilningslaust, en ég get glott um tönn, án þess á nokkru beri. Svona er þá sú saga. Kvæði Ásgeirs á ég ekki, hefðuð þið kosið það fyrir blöðin. Afhenti Ágúst það. — Þannig er sú saga.

Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 14. ágúst 1923.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Loksins get ég nú sent myndina, sem þú mæltist [til], þó ekki verði hún nú flutt heim í ferða-tösku neins Ph. D. Allt varð um seinan, tveggja daga „túr“ til Red Deer — og svo — ja, Adam kenndi konunni um, en hún höggorminum, en ég hefi engan milli-lið, skelli skuldinni beint á orminn: Ljósmyndarinn var lengur að þessu en hann lofaði, þessi „Photo-artist“, eins og hann auglýsir sig, og er vorkunn, þó seint gangi með „listaverk“ af minni snoppu. Jæja, ég held myndin sé nokkuð góð, ekki svo stórkostlega fallegri en ég, að hún beinlínis geti kallazt „erfiljóð“ — bara ögn „barið saman“ yfir stærstu brestina. Hana þá! við „Flæmingi“ (Fleming) gátum líkl. ekki betur — og „haltu til góða, maður“.

Handritið sendi ég fyrir löngu, en hefi ekki heyrt, hvort „C. P. R.“ skilaði því, eða leizt svo illa á það og óguðlega, að hann vilji heldur borga $700.00 sekt og fá að koma því fyrir kattarnef. Það er sízt fyrir að synja, hvað föðurlandsvinirnir kunna að leggja í sölurnar fyrir land sitt og þjóð, þegar háski hennar er á ferðinni.

Verði „Rauðskinna“ mín prentuð, bið ég þig að breyta kvæðis fyrir-sögninni „Lengstlafandilauf“ í *Eftirlegu-lauf.* Þú finnur það í Vta kafla, að mig minnir. Dr. Ágúst sagði það ljótt orð, og ég var honum sammála, jafnvel löngu áður en hann hafði orð á því. Hann stakk upp á „Hinzta

lauf", en ég hugsaði það ekki þannig, þó „bókstaflega" rétt sé. Seinna sá ég, að ég hafði sjálfur komizt skár að orði í sjálfu kvæðinu, fyrstu hending síðasta erindis: „Verði ég *eftir-legu lauf*" — það er liðlegra en „Lengstlafandi" og bendir á það, sem fyrir kvæðinu vakir, sem sé: að lifa yfir sig, eða eins og dr. Björnson ykkar sagði um Vopna, þegar taugaveikin drap hann ekki, eins og „doktorinn" hafði spáð, af því að hjúkrunarkona treindi tóruna í Vopna, til að stríða „doktornum", en Vopni var frávita á eftir: „Hann hafði ekkert ‚business' til að lifa"! og líkt leit *dr. Holmes á „The Last Leaf"*. Svo er þetta ekki lengra í bráð. — Með kærri kveðju

Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Heima, 7. okt. 1923.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Biddu konu þína fyrirgefningar fyrir mig á að ég rangfeðraði hana skriflega nýlega, annars gæti hún stefnt mér fyrir róg um foreldri sitt, en hjá því vildi ég komast. Ég er sá klaufi, að ég man bezt gælunöfn kunningja minna, og hennar er „Fríða", og það mundi ég, en ófært var að skrifa svo viðhafnarlaust. Ég leitaði mér aðstoðar minnis annarra, sem ekki voru betri en mitt og kváðu mig myndi minna rétt. Allir verða eða flestir eitthvað alheims-vitfirrtir nú á dögum, eins og von er!

Ég sendi þér hér með afritanir af heillaóskum að heiman. Viltu nú gera svo vel og koma þeim í „Kringlu" sjálfur, fyrir mig. Ég geri það í því skyni, að sendendur viti, að skeytin sín komu fram. Ekki mér til metnaðar. Ég sé mér ekki annan veg í bráð til að þakka þetta! Hefi ekki einu sinni áritun ýmsra, t. d. félaganna. Enn er eitt. Ég á 180 eintök prentuð af þulunni „Jökulgöngur". Vil senda þau heim til sölu, ef lest af „Andvökum" leggur upp þangað. Getur þú tekið þetta með, ef ég sendi þér það, og komið því fyrir hjá þeim sama, sem annast um útsölu á „Andvökum". Hér var „inntakan" seld á 25 c. Líkl. eina krónu heima. Annars er verð ekki ákveðið, heldur hitt, einhver kann að hafa upp einn eyri úr þessu heima. Enginn hér. Hjálmar Gíslason tók af mér nokkur eintök, til

reynslu. Veit ekki, hvort nokkuð seldist. Ef eftir væri óselt, væri vel, ef það fleyttist heim með.

Vinsamlega Stephan.

*Grímur S. Grímsson.* 13. okt. 1923.

Grímur minn, ég þakka þér
Þel, sem ekki dvínar —
Áður hrinið hafa á mér
Heilla-óskir þínar.

Stephan G. Stephansson.

*Jakobína Johnson.* Markerville, 13. okt. 1923.

Ég þér ljóð-hög Jakobína
— Játning þjóðar við þó skakkir,
Systur-góð við söngva mína —
Sendi bróðurlegar þakkir!

Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 21. okt. 1923.

Góðvinur. — Bréf þitt kom í gærkveldi. Þökk fyrir það og allt annað. Prentvillur, sem þú getur um, eru næstum sjálfsagðar, að einhverju leyti, hversu sem látið er: breyskleiki, sem ekki verður að gert nema svo, að sitja svo á þeim, að þær verði sem minnstar og meinlausastar, eins og allar óviðráðanlegar syndir. Mér eru þær líkl. flestar að kenna. Prófalestur var mér alger óvenja og um hönd. Oft illa fyrir kallaður og frístundafár, auk þess sem ég treysti minni mínu einu saman og flýtti mér sem mest, svo síður stæði á mér. Þakka þér fyrir þína fyrirhöfn við að „bæta um borða“ minn, og ef til vill fást einhver ráð enn til að taka það aftur, sem vitlaust varð, sé það nokkuð! Sumir prenta leiðréttingar sér, á miða, sem límdur er á saurblað, þegar bundið er. Kjöftugum ratast ekki einungis oft satt af munni, heldur hlýtur líka þráfallt að verða mismæli. Og eins fer mér!

Ekki veit ég glöggt, hvað seljast kann hér. Ið fyrra skiptið seldi Grímur okkar Steingrímsson um 50 eint., eða svo að segja bók á hvert heimili íslenzkt hér í byggðinni,

Red Deer bæ (og Calgary og Edmonton eitthvað). Íslenzk heimili hér eru nú líkl. færri en þá. Og nú nýtur ekki Gríms við hér. Ég yrði að selja sjálfur, en er ýtnari með annarra vöru en mína eigin, og kæmist kannske ekki í hálfkvisti við Grím, þó ekki væri sá ljóður á, að bækur eru meiri óþarfi hér en þá var, ef þær virða sig hærra en 25 „centa“ fátæklegasta og andlega aumasta og gárunglegasta og töturlegasta gustuka-skyn. En, ekki svo að skilja, að ég haldi, að hér verði verra útræði en annars staðar. Við búum víst allir hjá „Ámóta“. En, sendið 50 eintök sem áður. Það má eyða þeim einhvern tíma. Ég bið Grím fyrir Calgary. Í Edmonton þekki ég engan líklegan, nema ef einhver hér, kunnugur þar, getur kosið mann fyrir oddi, og úr Red Deer eru nær allir Íslendingar horfnir, nema þeir, sem eru mállausir á íslenzku. Annars vegna en kostnaðar hefði ég kosið að fá svo sem 25 eintök öðru vísi bundin saman, en sökum hans er bezt að hlífast við því. Svo stendur á, að ið fyrra sinnið „gaf“ ég af „gjöfinni“ þá líklega milli 10 og 20 eintök, flest í „samloku-bandinu“. Nú eru sumir þeirra, sem ég sendi þá, dánir, en þeim sem enn lifa, og erfingjum sumra, hefði ég haft gaman af að senda framhaldið, þeim sem ég veit upp á víst, að geymdu og þótti vænt um „skammrifin“ — og ég varð þess var á einstaka stað heima. Þá eru nýir vinir. Ég tek til dæmis dr. Ágúst og dr. Guðmund. Að vísu munu þeir hafa keypt „Andvökur“ fyrri. En t. d. sagði dr. Ágúst við mig heima: „Mig sárlangaði til að ná í „Andvökur“, sem þú sendir Jóni heitnum tengdaföður mínum, en ég gat ekki komið mér fyrir með það. Allar bækur Jóns fóru til Gísla“ — sonar Jóns. — Nú hefi ég gaman af að geta sent svo sem 10 til 12 manns „Andvökur“ frá upphafi, þessum sem ég nefndi og t. d. Sigfúsi Blöndal í Khöfn (við urðum mátar), Baldri Sveinssyni, og séra Stefáni á Hólmum (hann var alla tíð vinur minn, þrátt fyrir trúna! og við frændur) og nokkrum fleiri. En, ég er óráðinn í, hvort ekki mætti eins vel senda, þegar *allt væri sent, í kápunni* og *láta* þá *ráða bandinu* sjálfa, eða binda allt hér áður. En svo er þetta bara hugarburður en ekki heimting, eins og ég veit þú skilur. Ég felst á þína „réttlætingu af framkvæmdaleys-

inu" og segi við hana, eins og dr. „Forni" sagði við búðarbuskuna: „Ég ætla þá upp á þig"! og vona, að hún svari „Já", eins og telpan.

Svo kveð ég þig, Rögnvaldur minn, hérna á hlíðinni! með: blessaður og sæll! og óskum okkar allra hérna, að þið unið vel og lengi nýja heimilinu, og ef þið flytjið aftur, sé það aðeins sökum þess, að enn betra bjóðist.

Vinsamlega Stephan.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 22. okt. 1923.

Góðvinur Jakob. — Ekki var það nú þess vegna, að ég líktist hákarlinum í því að „leggjast á meltuna", 3ja okt. um kveldið, þegar sendingin frá þér barst mér, nei, ekki er allt til þess að rekja, að ég varð svona seinn að „þakka þér fyrir matinn", en nú geri ég það loksins, kærlega! Einn ættingi minn kom þá líka, með fulla flösku, svo úr þessu varð „íslenzkt sakramenti", sem þó það þyki ekki kirkjulegt, á í því sammerkt við öll hin, að það á upptök sín að rekja fram til hærðustu heiðni. Jæja, síðan hefi ég verið að gæða ýmsum á hákarls-bita. Misjafnt er fyrir honum mælt, eins og venjulega fer um mannkosta menn. Þeir, sem hákarli höfðu kynnzt til muna, eru vinir hans enn. Ókunnugum hnykkir við honum, ekki sízt þeim, sem helzt kunna ögn í enskri fiskafræði, eða vita svo mikið um hann, að hann heiti „Shark" á máli föðurlandsins! Honum er lagt það til lasts, að hann er vís til að éta þá, sem éta hann, er sem sé mannæta, eins og svínin, sem engin hneykslast á, nema Hund-Tyrkinn og Helvítis-Júðinn. Aftur ljúka allir upp einhóla-munni um þorskinn, eins og þá menn, sem hans nafn bera, allt fyrir sína gleypigirni, mýkt og meinleysi. Svo hefi ég þá lesið þér „borðsálminn". Vertu blessaður! Anzi hefi ég átt annríkt liðið ár, að mér finnst! Nú er því nærri lokið. Hefi litið yfir þriðju prófork af öllum „afrakstrar-haug" mínum, nú síðast. Verst var, ég varð að kasta höndum bæði til handritsins og leiðréttinganna og skammast mín, að svo lítur út sem mér hafi farið aftur frá inu fyrra skiptinu, því þá átti ég að njóta óslitnari aðsætni. Þessu er þó lokið, handritið fullprentað hjá „Kringlu", að mér er sagt, og

nú í umbindingu „Lögbergs“. „Hann gerði englana að sínum þjónum“, er einhvers staðar sagt. Blöðin okkar eru nú kannske ekki englum jöfn, en þau hafa þó orðið bæði okkur „þjónustu-samir andar“, svo ekki er nú langt á milli líkingar og fyrir-myndar.

Sumarspretta á öllu hér, sem á jörðu grær, var sú bezta, sem sézt hefir hér enn. Hveiti frost-skemmt þó, sums staðar. Svo er t. d. okkar feðga hér. Allar haustannir örðugar og venju meiri. Tíð in hagstæðasta, að þessu. Þreskivélar svo að segja á hverju strái, en skarða þó lítið í akra enn, flestar eru þær „grýtur“, en ekki „Gróttur“ og fara seint yfir sögu.

Í morgun var þresking byrjuð hér hjá okkur.

Ég er „eins og útspýtt skinn“!
Og það mun þig gruna —
Við að hakka hákarlinn
Og hugsa um þreskinguna.

Og því verð ég að „slá botn“ í þessa botnleysu.

Bregðist þér aldrei „bein úr sjá“,
Né bresti þig fiski-vöru —
Reki margan aflann á
Auðnu þinnar fjöru!

Vinsamlega Stephan.

SKILABOÐ.

Hér á jörð á meðan mátt
Með oss dvelja *gestur!*
Veit ég það: þú virða átt
Vera henni beztur.

*Grímur S. Grímsson.* Heima staddur, 22. okt. 1923.

Góðvinur Grímur. — Það er sagt, að „sannleikurinn sé stundum ótrúlegri en uppspuninn“, og svo er það um fjórar línurnar, sem ég sendi þér fyrir skemmstu, ég hafði engan tíma til að láta það vera lengra. Þrír Vestur-Ísl. sendu mér afmælis-óskir, þú, Jónas Hall og Jakobína Sigurbjörnsdóttir í Seattle. Ég þakkaði ykkur öllum með 4 línum. Það er fremur mont fyrir mér en ég sé *að barma*

mér yfir því: en ég hefi átt, að mér finnst, aldrei annríkara en um-liðið ár, kannske finnst mér það sökum þess, að ég á bágra með að halda mér uppi við bók og penna, ýmist sökum lúa eða lasleika. En ég má kallast vonum betri: vinn alveg sem áður, hefi fáar frístundir, en ligg sjaldan fyrir. Þegar ég var seinast boðinn til Wynyard, tóku nokkrir kunningjar mínir þar mig á fund og vildu kosta útgáfu á því, sem ég hefi ruglað, síðan „Andvökur“ „fyrri“ komu út. Auðvitað þáði ég boðið, en dró á langinn, að að því yrði unnið þegar í stað. Svo stóð á: ég átti von á „Vígslóða“ þá á næstunni, sem ég læddi með mér heim, gegnum „rannsóknina“ 1917. Vildi láta hann hafa sæti í Syrpunni, en vissi, á hverju ég myndi eiga von, þegar upp kæmist, og að öllum brögðum yrði beitt, sem heimskunni í hug kæmi. Hvað sem öðru leið, mátti rægja út úr yfirvöldunum hér ómök og aukakostnað á útgefendur, og sölu-bann um stund; það þóttist ég sjá, þó ég segði fáum, því ég dró þetta úr hömlu. Auðvitað varð þessi dráttur til óhægðar, þannig, að „þeir, sem þangað komu þá fullríkir, hafa nú farið þaðan fátækir“, og allur útvegur þrengri. Næstliðið haust var ég kvaddur um handrit. Ég kveið erfiðinu. Allt lá ókarað. Í desember í fyrra tók ég þó til. Hangdi við þetta, hvenær sem mér var augnabliks tóm til, og oft verr fyrir kallaður en ég vildi, enda varð handrit mitt lakara en ið fyrra sinn. Þá gat ég setið meira við. En hvað um það, ég hafði það þó til, þegar eftir því var kallað, í ágúst í sumar, og það hefir slarkazt gegn og er nú *full-prentað* og hjá „bindara“ „Lögbergs“, en „Heimskr.“ prentaði og séra Rögnv. hefir alla útsjón „fyrirtækisins“. Þar að auki varð ég að sinna þriðju prófórk, svo sem ég gat, og nokkrum „skrifum“ heim til Íslands. Þetta allt (um sjálfan mig) er í afsökunarskyni þess, að ég ekki sendi þér lengri línu fyrr. — Og Grímur! Nú nýt ég ekki þín við hér með sölu, sem forðum! En mætti ég senda þér eitthvað til Calgary? Skruddan verður hvort tveggja í senn, of-dýr og of ó-dýr. Líkl. dollara 5.50 (þó ekki sé fullráðið enn) tvö bindi í bandi. Annars ekkert um þetta nákvæmara nú, en láttu mig vita, hvort þú hefir nokkur tök til þessa. — Bezta gróðrar-ár, sem hér hefir sézt, síðan mig bar hér á land.

Held ég hafi hvergi séð slíkan sumargróður fyrr. Galli varð þó á, hveiti fraus sums staðar til mikilla skemmda (hjá mér og fleirum hér í kring). Annars kalla allir það, nema ég, nýju tignarnafni: „ryð“, því „guð og menn og allt er orðið breytt“ — en mitt rusl heitir ennþá frosið hveiti, á mína tungu. Uppskeran varð sumum einkar örðug, sökum þess að korn féll flatt af ofvexti. Þresking öll á seinni skipum. Veður hagstætt hingað til. Akrar með mesta móti; um hundrað ekrur á bæ, minnst, til 500, að sögn, hjá Einari Jósefssyni, mest, og ýmis hundraða töl þar á milli. Kornið (einkum hafrar) veltur í skriðum, þar sem búið er að þreskja: t. d. Maxonar 11 þús. mæla, Gunnars um 7000. Óþreskt enn hér hjá okkur. Annar hvor maður kaupir þreskivél: svo sem Einar Jósefsson með Jóni Sigurðssyni — Alfons Kristjánsson — Björn (langi) Guðmundsson — „Max“-synir — en allt eru af þeim vélum „grýtur“, en engar „Gróttur“. — Nú þrýtur mig mælgi í þetta sinn, og fyrirgefðu allt þetta efnisleysi. Líði þér sem bezt! og þökk fyrir mig.

Vinsamlega Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 11. nóv. 1923.

Góðvinur séra Rögnvaldur.

— — —

Þegar vín, sem veröld brast,
Veittist hverjum svelgnum,
Haustið sjálft tók kæti-kast,
Kastaði elli-belgnum!

Tíðin er enn inndælli en elztu menn muna. Nema ef sá, sem enska biblían kallar „The Ancient of Ages“, getur tilfært eitthvert ár, löngu fyrir heimsaldur. Uppskeran ríkuleg, en örðug og ýmislega gölluð og illa launuð, þeim sem í henni þræla. Svo er um aðrar búsafurðir — nema helzt svín, því verzlarar veraldarinnar elska mest sér líkt.

Að gamni mínu legg ég með til þín blað af „Degi“, þó ég viti, að þú hefir séð það. Mér voru send nokkur eintök af því, líklega til að gefa Lárusi og Jóni! Mér þykir vænt um að sjá af Lögbergi, að Jón er tórandi, þó hann hafi týnt niður nafni sínu.

Leiðist fólki þvögl úr þér,
Þinnar „tyrfni“ vegna,
Þá er að rita sjálfum sér
Sendibréf — og gegna.

Blaðið mitt á enda er,
Og ýmislegt að gera.
„Veit ég ei, hvers biðja ber“ —
En blessaður skaltu vera!

Vinsamlega Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Janúar 1924.

Góðvinur R. — Þökk fyrir það (kvæðin), sem þú hefir komið fyrir mig á hreppinn hjá „Heimskr.“ Enn sendi ég þér langloku. Síðan ég frétti lát Courmonts, hefi ég ætlað mér að minnast hans, en aldrei orðið af, fyrr en nú í innisetunum. Ég kynntist honum lítið 1917. Eins og vant er Íslendingum, og ekki sízt mér, tranaði ég mér lítið fram, oflítið. *Hann* vék að mér. Meðal annars bauð mér heim, lasinn og í önnum. Þetta litla, sem ég kynntist honum, varð til þess, að mér bæði varð hlýtt til hans og dáðist að honum. Svo var og með menn, sem ég trúði, t. d. G. Finnbogason, sem þekkti hann vel, hann sagðist elska hann sem bróður. Þau orð, sem ég hefi eftir Courmont og í þulunni standa, eru hans *eigin orð,* í viðræðu við mig. Annað sagði hann mér líka, sem ekki er þar eftir honum haft. Það var þetta: „Ég hefi ásett mér, ef ég endist til, að keppa fyrir háskóla doktors-stig í bókmenntum, og ég ætla mér að taka þín verk, Stefán, til efnis í ritgerð mína.“ Ég varð nærri hvymsa. Hafði heyrt getið þess, sem nefnt er „frönsk kurteisi“, og nærri datt hún í hug, en gat hvorki þá né síðar ætlað *honum* hana, svo blátt áfram fannst mér hann. Samt hafði ég rænu til að þakka honum þurrlega, en bætti við: „Eini gallinn er, að þú hefir valið of-lítilfjörlegt efni.“ „Nei, nei,“ sagði hann, „en annar galli er á: svo getur farið, að ég komi þessu aldrei í framkvæmd, og svo, þegar þar að kæmi, yrði annar einhver búinn að taka efnið frá mér.“ Hann sté víst aldrei heilum fæti á jörð eftir stríðið. Honum kann að hafa mislíkað „Vígslóði“, um það veit ég ekki.

Hann var heitur föðurlands- og friðar-vinur, á sinn innilega hátt. Því komst ég að. Hvað um gildir: mér finnst ég í meiri skuld við Courmont en flesta aðra, fyrir jafn stuttan tíma, og á þessu sviði. — Og því kvað ég, og sendi þér, viljir þú nota það einhvers staðar. Rímleysuna í „Nation“ gat ég ekki stillt mig um að misþýða og misríma, mér fannst efnið svo ágætt. — Blessaður og sæll.

Þinn S. G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 16. jan. 1924.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — „Gleymt þegar gleypt er“, hefir þú mátt hugsa, að ég hefi ekki þakkað fyrr sendinguna, bækur okkar, sem komu fyrir löngu með góðum skilum. Nú kem ég loks að gera stutta afsökun, sem síðar mun sögð.

Frá ykkar hendi eru bækurnar vel um vandaðar, og ég er meira en ánægður með útlitið allt. Undir 20 stafavillur hefi ég rekizt á. Mér eru þær víst margar að kenna og mega ekki margar heita, sú sem aðstaðan var, og slíkt bákn sem verkið varð. Ég hefi hugsað mér að leiðrétta þær skriflega í nokkrum þeim eintökum, sem ég kynni að senda vildar-vinum mínum síðar, þegar ég verð klórfærari en ég er nú. Og þér lista af þeim síðar, hvort sem maður ætti þá að stinga þeim í „Kringlu“, þegar af er sölugangur allur, svo enginn viti það sem „enginn veit“ og geti afsakað, að vilja ekki eiga „Andvökur“ sökum prentvillna!

Hér kemur svo afsökun mín: Ég var kafinn önnum þegar bækurnar komu. Hafði á hendi sitt af hvoru, svínum, nautum og eldivið, eins og vant er. Ætlaði þó, milli jóla og nýárs, að fá mér mann nokkra daga og flakka sjálfur um byggðina með „vöruna“. Varð samt að draga það [þangað] til eftir nýár. En þá kom enn annað hik á mig. Þriðja þessa mán. réðst mannýgur hrútur óvörum að baki mér og felldi mig flatan! — Þú mátt brosa að þessu, ég hefi leyft öðrum það. Annar leggurinn í vinstri fram-armi brotnaði við úlflið. Auðvitað spratt ég upp sem stálfjöður, hegndi hrússa og rak hann í fangelsi. En út úr þessu varð ég í 6 daga vist á sjúkrahælinu í Innisfail, undir

hendi lækna og líknar-dísa. Græðararnir voru grunsamir um gróðrarmagn mitt, því sjálfsagt myndi ég nær sextugu! Ég gat hins heldur til, að ég myndi ekki eins merglaus og þeir héldu, þó ég væri orðinn nokkuð bein-hákarlslegur. Brotið mun hafa hafzt vel við, að ég held. Það verður ekki fullséð, fyrr en seinni hluta næsta mánaðar. Ég hefi engar þrautir liðið, sem ekki urðu hæglega harkaðar af sér. Liðið vel. „Hospítals"-drottningin, 6 feta há og falleg „Barbarósa", sagðist „sakna mín", þegar ég kvaddi hana! O, jæja, — „Heilsaði hún mér, drottningin, og hló að mér um leið", hafði Jónas eftir Þjóðverjanum. „Túttur litli, og toppur fyrir nefi! Meiri var Goðmundur í gær borinn", söng jötunmærin við Örvar-Odd. „We had a baby tonight — a baby boy"! sagði hjúkran við mig einn morgun. „It was time you had one"! svaraði ég. Ég gat svarað sakleysislega, því hún hafði áður sagt mér, að „hospítalið" hefði ekkert barn eignazt, síðan á jólum!

Sem sökkva ætti í sjávar djúp
Sundur-mölvað hneykslis-bein:
Hefi ég nú, við vinstri-væng
Vandlega bundinn mylnu-stein.

Gleðilegt ár — og þakkir fyrir allt og allt!

Vinsamlega Stephan.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 17. jan. 1924.

Jakob minn góður. — Þökk fyrir bréfið þitt síðasta, og allt og allt gott, mér til handa, þó það flest sé ofgert! Ég ætlaði og átti skyldu til að hafa sent þér línu fyrir löngu, en svo sté nokkuð fyrir mig, svo ég varð eins konar „strandar glópur". Ég var „önnum kafinn" — en ekki þeim, sem KN okkar kvað um, því hans mætti helzt skrifa með upphafs-staf, svo allir skilji, hvað hann var að gefa undir fótinn, þeim sem ekki voru nákunnugir. Mínar voru fjósaannir! Svo komu „skruddurnar" um líkt leyti og bréf þitt. Þær eru vel úr garði gerðar. Nokkrar sjálfsagðar stafavillur, mér líklega sjálfum að kenna, sumar, en alveg óbjásneiðanlegar á vorri „villu-öld". Ég ætlaði að leigja mér mann 2—3 daga og fara flökku-söluferð hér um byggð

með „góssið", og var rétt í þann veginn að hefja þá herferð, en húrra! mannýgur hrútur réðst á mig, ósýnilega, af því skaparinn hafði ekki forstand á því í fyrstu að smella í mann þó ekki væri nema einu auga í hnakkann. Ég fékk óheilagt „fall til vallar", sem var það betra en Brjáns konungs, að hann dó af sínu „heilaga", en ég aðeins braut aðra „ölnina" í vinstri framhandlegg. Þetta varð þó til þess, að ég lenti hjá lækni og „hospítali" í Innisfail í 6 daga. Þar átti ég gott. Varð „allra vinur en engum trúr", eins og Matti sagði um sig, og hjúkrunarkonurnar reyndu að flýta fyrir bata mínum með að láta í veðri vaka, að ég væri þar eitt af „gullunum" sínum. Ég kom heim þann 9da, en ekki verður það í árbækur sett. Með alvöru, mér hefir liðið betur en ég bjóst við, jafnvel af litlu beinbroti. Að vísu er sú vinstri ómagi og alls staðar fyrir, eins og þeim er vant að vera, og þetta olli nokkru um, hvað seint ég heimsæki þig nú. Ég nærri fellst á, að þetta hafi verið mér ábati á einn hátt! Rökfræði mín sú: þegar letin í manni er orðin sjötug, er henni sönn heilsubót að eiga litla beinbrots-afsökun, jafnvel að vera í værð, en það hefði mín ekki getað nema með þessu bragðinu, og læknir minn ætlar ekki að brjóta upp „steingerving" sinn af handlegg mínum, fyrr en eftir miðjan næsta mánuð, og þá verður nú betra „velgróið en heilt". Svo er þá sú saga sögð, og ekki dregið af mælginni. — Það, sem þú stakkst upp á, að ég fengi nöfn þeirra við Wynyard, sem „Andvökur" borguðu nú, væri mér kært. En sögu skal ég segja um, hvað mér kæmi bezt. Ið fyrra skiptið fóru þeir til, sem þá kostuðu (og að mér óafvitandi), og gáfu mér allar þær „Andvökur" í sérstöku (en allt of kostnaðarsömu) bandi, með eiginhandar nafni allra, sem að því stóðu, á innbundnum aukablöðum framan við. Slíkt er inn mesti minjagripur, og áður vissi ég ekki nema nöfn örfárra, eins og nú. Helzt vildi ég eiga nokkuð því líkt, en ætti að vera langtum kostnaðarminna. Nú gætir þú, eður þið, útvegað mér nöfnin rituð, sem þá, og innbundin með, væri mér það ein velgerð enn. Ég skyldi borga *bandið* með tímanum. Hér er enginn, sem gæti bundið fyrir mig. En — er ekki landi þarna í Kandahar, sem skrautbindur allvel? Hvernig væri að fá hann til þess, svona laglega gjört og sanngjarnlega. Hugleiddu það fyrir mig.

Er sem hægri hönd mín dug
Hinnar vinstri lúti —
Réttir þér samt hlýrri hug
Heldur en veðrið úti.
Vinsamlega Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 19. jan. 1924.

Góðvinur. — „Oft verða erindin smá á vordaginn“, sögðum við heima. Þeir, sem þröngt áttu í búi þá, töldu ekki eftir sér að koma þar við, sem fjáðara var fyrir til „góðgerða“. Nýl. hefi ég samt sent þér tvo skekla. En af því ég veit, að þér er annt um sáluhjálp landans, kem ég bara til að segja þér sveitarsögu, sem berst bæja milli, en er sögð sem ávæna til kirkjusögu okkar hér í Alberta. Fyrir nokkru barst það um byggðina, að hingað væri væntanlegur þýzkur prestur lútherskur, sem héti Hermann, og að séra Pétur hefði lofað að gefa upp við hann þetta barð af inu andlega „brauði“ sínu, sem hann hefir hér, ef fólk hér vildi þýðast hans kenningar. Ég hefi ekki hitt séra Pétur lengi, en hann hefði sagt mér sem var.

Nýlega las ég í Calgary-blaði, að þangað væri kominn lútherskur prestur, gleymdi hvað hann hét, nema að nafnið var þýzkulegt (en ekki Hermann), tók meira eftir útdrætti úr „jómfrúprédikun“ hans, sem stóð þar líka, aðallega það, að engan nýrri lærdóm mundi hann flytja né vita, ekkert nema ómengaða biblíuna, „Krist og hann krossfestan“. Hreinskilni sú fannst mér góð. Eitt er víst: Einhver annarra-þjóða lútherskur prestur er kominn til Calgary, en nafn hans kann ég ekki, giftur er hann íslenzkri konu, og tengdamóðir hans líka með honum. Konan er af Laxdals-ætt, þeirri, sem bjó að Garðar eitt sinn, en býr nú nálægt Mozart í Saskatchewan. Ein íslenzk fjölskylda í Calgary kvað gengin í söfnuð hans. Skrifa þér þetta bara til gamans, jafn rugluð „Historia Ecclesiæ“ eins og það þó er.
Vinsamlega Stephan.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 24. jan. 1924.

Góðvinur. — Þökk fyrir sendinguna, „Nation“ og „Norðlu“ — sbr. Grettla —, en svo nefni ég nú „Scandinaviu“.

Sendi þér hana senn, en dreg það ef til vill enn, ef einhverjir á heimilinu vilja líta í hana. Hana hafði ég ekki áður séð. Þar er margt býsna gott, einkum grein Áka Malara (Aage Möllers) um skólana. Hann er hár-réttur og „finnur hvar er feitt á stykkinu“. Ég vildi, að blaðabusarnir okkar þýddu hana á íslenzku og prentuðu í staðinn fyrir gamalærs nöldur „Bílds“ um æskuna í Lögbergi hans. Sama mætti segja um ummæli Hofgarðs — Hovgaards — ins danska um þjóðerni. Gaman að greininni um Hvindalinn — Susendalen — o. fl. Mig grunar samt, að höf. sé ekki nógu sögufróður, lengra fram. Hann nærri efar, að dalurinn hafi verið mannabyggð áður og eyðilagzt t. d. við svartadauða. Norðurlandamenn hafa sagt mér frá dölum nýbyggðum síðar, skógivöxnum, fullum af minjum og mannaverkum, þegar jörð var rótað, en sem höfðu gjöreyðzt og gleymzt í „plágunni“. Mig minnir, að Hvindalur og Hvindælir séu til í sögum okkar um Noreg, en hefi enga við hendina og man ekki fyrir víst. En „Hvindalur“ er til á Íslandi, oft nefndur í „Sturlungu“ og ef til vill heitinn eftir hinum, eins og landnámsmenn gerðu og gera enn með staðanöfn. En sé svo, er fjarsýni Forvitra-Knúts (Vise-Knuds) þeirra ekkert undarlegt þarna, hann rámaði í gamla og rétta sögusögn, en dæmalausa dulspekistrú hafa Norðmenn á þeim karli. Ég rak mig á það í Wisconsin. Las þar sögu hans og ég held, að þessi saga hafi verið þar, ef mig rámar rétt til.

Lítið hefir „landinn“ enn lagt til í Norðlu, sem og er von. Liðlegast er kvæði dr. Gíslasonar, þó þar eimi ögn fyrir úr útlendu kvæði, ef mig minnir ekki rangt. „Víkings hjartað“ hennar Láru hefi ég ekki enn lesið og nærri kvíði fyrir, eftir lýsingu „Bílds“ í Lögbergi! „Víkings hjartað“, „Gerda“ og „Loki“ sem íslenzk sögunöfn eru eitthvað svo óskáldlega veimil-títuleg til að byrja með, og maður fær strax ólyst og efa, þó ekki væri nú annað. En svo kann allt að reynast betra en maður bjóst við, ef maður nennir nokkru sinni að sullast gegn um það. „Lögberg“ lofar auðvitað vegna þess, að því finnst höf. hafa „gyllini-plástrað“ stríðið og lýst svo „kristilega“ skegginu á séra Jóni heitnum Bjarnasyni. — En í alvöru, ég hefi enga aðra ósk en þá, að sagan væri *gullvæg,* úr því okkur langar svo ósköp

til að sýna ótamda list okkar á ensku. — Sagan um meiðsli mitt er fremur skopsaga en hvað hún sé hastarleg. Ég var að hýsa kindurnar um kveld; þar er í hrútur mannýgur, og það vissi ég vel. Hann komst að baki mér, renndi í hnésbótina, ég féll með vinstri hendi undir mér og braut aðra „rengluna“ í fram-armi við ölnlið, þá sem gildari er og mestur mergur í. Ég varð eitthvað að gera til að tolla í tízkunni, því fyrirfarandi hefir hér staðið yfir slysatíð, og er svo enn. Margir að meiða sig. Þetta fór svo fyrir mér að:

Þunga hellu á handlegg minn
Heilsu-fellir gaf mér,
Þennan drellir „doktorinn“
Dregur að skella af mér.

Það á ekki að losa um umbúðirnar, fyrr en um miðjan næsta mánuð. Ég hefi þótzt „brattur“, eins og þú sérð! Þó ekki geti ég enn flogið með einum væng, líklega af óvana, því sá bæklaði er bara ómagi. — Við biðjum öll hérna vinsamlega að heilsa þér.

Þinn Stephan.

*Jón Jónsson yngri.* Markerville, Alta, 28. jan. 1924.

Góði frændi. — Ekki man ég, hvor okkar nú á „högg í annars garð“ — það er: hefir svikizt um að svara síðasta bréfi. Enda gerir það engan halla. Ég kem hér hvort sem er með fáeinar línur, bara til að láta þig vita, að ég er „still alive and prowling“, eins og stendur í enskri vísu, þó það séu, nú orðið, hvorki ný né góð tíðindi. Ég held mig bara við heimahagann. Næstliðið sumar var ið gróðurgefnasta, sem komið hefir yfir Alberta, yfirleitt, síðan mig bar hér að landi, og svo var hér í sveit. En sumarfrost-nótt mun hafa komið í ágúst snemma, þó enginn tæki eftir því fyrr en síðar og kalli það „ryð“, sem skemmdi hveiti víða, sem annars leit afbragðs-vel út. Einstaka blettur slapp þó, og þar urðu frá 40 til 50 bush. af ekru. Hafrar og bygg gott alls staðar. Víða afbragð. En öll upskera hér sem annars staðar í afarlágu verði og allar búsafurðir, yfir höfuð.

Við Kobbi höfðum hér heima um 125 ekrur undir korni og fengum alls um 700 af hveiti, 3400 af höfrum og 480 af

byggi. Svo leigði Kobbi blett á næsta landi og fékk þar liðug 200 bush. af byggi og um 200 af höfrum. Við höfum selt hveitið, vagnhleðslu (1100 bush.), í samlögum við Baldur, til hveiti-félagsskapar Alberta-bænda, sem við erum í. Það var flokkað nr. 4. Kornhlöður næstu töldu það 5 eða 6. Þegar við seldum, var aðalmarkaðsverð eystra á þeim flokki liðug 60 cent, og það gaf félagið. Við fengum 39 fyrir bush., hitt gekk í kostnað, kornhlöðugjald, flutningsgjald, stjórnar-yfirlit, sölulaun o. s. frv. Einhver uppbót er ekki ómöguleg, ef salan tekst vel yfir höfuð, en hún kemur ekki til skila, ef nokkur verður, fyrr en í ágúst næsta. Svona sala er enn viðvaningsverk, og allt til andstæðis, kornkaupmenn, kornhlöður, og jafnvel bankar — ekki upphátt mjög, en allt í hvísli. Samt er þessi byrjun eini vegurinn fyrir bændur, ef þeir bara skilja það, færast í aukana og bjóða öllum andstæðingum byrginn í föstum flokk, því þeir hafa þá í hendi sér, ef þeir bara kunna til að gæta. Vagnhleðslu af höfrum höfum við Kobbi selt, um 1900 bush. Fengum 23 fyrir bush. hjá kornhlöðunni. Bændur hafa enga félagssölu á öðru en hveiti enn. 9 gripi seldum við, 7 uxa, sem á meðaltal gerðu $33,00, og tvær kvígur, á $20,00 hvora, og 19 svín um 6 mán. gömul, sem gerðu að jafnaði liðuga $12,00 hvert. Allt þetta var fullvænt fé eftir aldri, en verðið lágt. Við höfum sjálfsagt borgað öðrum í ár fyrir „brot“-vinnu og þreskingu, frá $500 til $600, því allt er það enn dýrt, sem að er fengið, og höfum þó sjálfir unnið að þessu sem við entumst til. Skattar okkar af löndunum eru hátt á annað hundrað dala, sé allt talið, og afkoma sú, að ég hefi ekki verið hengdur fyrir skuldir enn. En, ég varð þó að finna eitthvert annað ráð til frásagna, þó minna væri í spunnið, svo ég fór til og datt, og braut aðra álmuna í vinstra framhandlegg 3ja jan., þá sem digrari er og mergjaðri, — man ekki hvað enskan kallar hana á sinni „lækna-latínu“. Læknir frá Innisfail var hér á ferð í grenndinni sama kveld. Ég símaði honum að koma við, sem hann gerði. Hann lagaði og batt um til bráðabirgða, en heimtaði mig til exgeislans og hospítalsins í Innisfail næsta dag. Ég var „meðlimur“ þess í 6 daga, áður ég slapp. Þar átti ég gott. „Is this your first night at a hospital?“ sagði ein hjúkr-

an við mig, morguninn næsta. Ég kvað svo vera. „A hospital is a nice place to come to,“ svaraði hún. „Might be,“ svaraði ég, „but it depends much on the nurses.“ Hún gekk svo inn í annað herbergi, þar sem stallsystur hennar voru: „What did he say? What did he say?“ heyrði ég þær segja, því hurðir stóðu opnar. Hún sagði sem var, og svo hlógu þær og flissuðu. Ég held spurningin hafi verið samantekin ráð telpnanna. Ég komst að, að einhver „túðrari“ hafði frætt þær á, að ég væri hagmæltur, en ég vildi fá að vita, hver það væri, sem væri að „segja eftir manni“, en fékk það ekki. „Höfuð-pauran“ sagðist „sjá eftir mér“ og bað mig að koma þar við aftur einhvern tíma. Ég lofaði því, en sagði henni ekki það sem ég ætla, nefnilega að svíkjast um það, nema aðeins til að heilsa henni.

Læknarnir vóru hræddir um, að beinið greri illa sökum aldurs míns. Ég liti út fyrir að vera orðinn sextugur. Ég sagði þeim, að það sakaði ekkert, því ég væri sjötugur og ómergsvikinn enn. Ekki réttu þeir brotið meira við, aðeins steyptu mig upp í steingerving eftir 6 daga, og slepptu mér heim. Sögðu mér samt, að líklega yrði ég ögn boginn í ölnlið, en ekki til skemmda. En fari svo, er það þeim að kenna, þeir gátu lagað það eftir að myndin var tekin, en gerðu það ekki. Jæja, við sjáum hvað setur, því ég læt þá ljúga þessu, ef ég get, en ekki á nú að brjóta af mér „innsiglið“ og opinbera „leyndardóminn“, fyrr en upp úr miðjum næsta mánuði. Á meðan hvíli ég mig, — en það er eins og sú vinstri sé alls staðar fyrir, jafnvel við að skrifa, næstum sem hún vilji sýna, að þó hún sé talin sú óæðri, einkum við hjónabönd, geti stundum orðið lítið úr þessari „aðalbornari“, ef sín njóti ekki við.

Helga meiddi sig líka, litlu seinna en ég, marði fótlegginn. Varð að vísu ekki rúmföst, en átti helzt að vera það. Nú er henni mikið að batna. Þetta er annars dæmalaus slysavetur. Nærri annar hvor maður að meiða sig, og í haust drápu tveir sig í þreskivélum hér í héraði, sem ég vissi um. Hvorugur þó Íslendingur.

Siggi og Jóný eignuðust dóttur í sumar. Ekki er hún skírð, nema hvað ég hefi gefið henni nafn, hvort sem það tollir við hana, þegar séra Pétur „límir á hana númerið“. Ég kalla hana *Kaðlín,* eftir formóður okkar frænda, sem

á að vera, á landnámstíð forðum, en hún var konungsættar og keisara, ættuð frá Karli keisara mikla, sem við höfum nefnt á íslenzku „Karla-Magnús“.

Vinnumann urðum við að taka, þegar ég bilaði. Rósa hefir verið í vist í Calgary að gamni sínu síðan fyrir jól. Kemur heim í lok næsta mánaðar.

Bið ég þér í búk og sál
Blessun hverja, er getur —
Biddu nú samt hann séra Pál
Að signa þetta betur.

Systir þín og heimilið allt sendir kærar kveðjur, og vertu sæll, frændi.

Stebbi.

*Jónas Hall.* 29. janúar 1924.

Jónas minn góður. — Mér barst nýl. kveðja þín frá Kristni, úr bréfi frá þínu heimili. Annað hefi ég ekki úr því frétt enn. Ekki man ég heldur, hvor okkar er nú skuldaþrjóturinn, það er svo langt síðan að seðill fór á milli. En það gerir ekkert til, ég geri mér trú til, að það sé *ég,* sem nú komi til að vekja *þína* sofandi samvizku, og sama skalt þú gera, þegar þú skrifar mér næst, fullvissa þig um það ég sé í *sektinni,* því úr því manni er boðið að „halda frið við alla menn“, og „kærleikurinn á að byrja heima“, er hér ekki um að villast. Ég skrifaði Jonna í gær allt úr heimahaganum, sem mér datt í hug, og fer nú ekki að tyggja það líka í þig. Aðeins get þess, að af því ég hefi nú vinstri hendina bundna í stein í bráð, skil ég betur, hví skjaldbakan fær ótilunnið last fyrir að vera hægfara, þessi hálfsystir mín, sem var sköpuð úthverf, með beinin utan á holdinu. Það er hvorki til þæginda né flýtis. — Aldrei hefir heimurinn verið hringavitlausari en nú, eftir stríðið, eins og sjá mátti fyrir fram. Og, þó er gaman að að hafa fengið að lifa fram á þessa tíma og sjá „nöktu konuna“, almennings-skynsemina, neydda til að spinna eitthvað, þó flest séu það hnökrar og bláþræðir, eða hrosshárs-reipi á þrælana, þar sem maður sízt bjóst við, eins og t. d. í inum „frjálsu“ Bandaríkjum ykkar. Svona varð það líka að vera, sé það upphafið að því, sem fransk-

an nefnir „Le debacle“, en enskan gleypti greinislaust, sem sé „kolmölvið“ á úreltu mannfélags-fyrirkomulagi. Það gerar og gnestur, það gusast og brestur, það sýður og svellur, unz síðsta lýgin fellur, — þó langt sé enn að bíða. — Jafnvel hér í Alberta er umrót á, meira en í hinum fylkjum Canada. Bænda-hreyfingin, sem sé yfirborðið, sem mest ber á og í blöðunum sést, er auðvitað hveitisölu-félagsskapurinn. En þetta ristir dýpra. Í rauninni er hér barizt utan og innan bændafélagsins um það að forðast það, sem steypt hefir hingað til flestum slíkum félögum, sem sé að hleypa öðrum inn en bændum, t. d. pólitískum flokksmönnum, sem einungis troðast inn til að kljúfa og sundra. Ennþá hefir það tekizt, þrátt fyrir andstæði innra fyrir, skilningsleysi misskilins frjálslyndis, og ytra, með öll blöð á móti og nasa-núning þeirra um drottnunargirni og stétta-stríð. Jú, við erum að því leyti enn „Bolsévikar“, að við trúum á, að *allar* stéttir ættu að vera fylking fyrir sig, ekki til að drottna yfir hinum, heldur til að sjá sínum hluta borgið, án hagsmunaskerðingar annars verkalýðs, því það yrði helzt til lagfæringar, þegar þeir þinga saman, sem eru sjálfir í þeim skó, sem þrengir að. Þá fyrst er hægt að hlutast um með sanngirni, hvað helzt sé réttlæti og lands og lýða heill. .... Þegar frá þessu verður vikið, fer bændafélagsskapur hér á hausinn, eins og annars staðar, fyrr eða síðar. Eftir síðustu fylkis-kosningar hafa bændur tögl og hagldir á þingi og í stjórn. Hvort tveggja verið hægfara til byltinga. Átt nóg með að verjast gjaldþroti. Hinir, með hjálp stríðsins, skildu svo við. En mikið hefir verið dregið úr fjáraustri og fólkshaldi. Yfir höfuð er stjórnin gætin og góð, það sem hún ræður við, en ekki sérlega stór-ráð. Ekkert stjórnarblað er hér nú, en öll narta þau í hana og færa á verri veg, oft fyrir sinn eigin tilbúning, því hún hefir tekið þann kost að fræða fréttasnápa þeirra ekki um, hvað hún ætlist fyrir þá og þá, fyrr en framkvæmd varð, svo þau hafa stundum gizkað henni það, sem henni hefði ekki í hug komið, eða öðru vísi stóð á en þau sögðu. Sveitarhagur hér er víst ekki verri en víða annars staðar og betri en sums staðar. — Yngri menn að taka fram fyrir hendur eldra fólks, eins

og gengur og gerist, en ekki held ég það sé á öllum sviðum, sem æskan hefir þroskazt það, sem þeir gömlu hafa gengið úr sér.

Byggðina hafa heimsótt, eins og þú veizt, próf. Ágúst og Sigríður hans, séra Rögnv. og hans fjölskylda, séra Kvaran og kona hans og síðast synir séra Matthíasar. Öllu þessu fólki, nema frú Kvaran, var ég ögn kunnugur áður og þótti vænt um það. Ég er kominn á þá trú, að velgáfaðir, víðsýnir og vandaðir Íslendingar heima komist af öllum þjóðum næst því að vera það, sem menntir menn ættu að vera. Þú mátt því geta nærri, að mér var hátíð haldin við heimsókn þessara góðkunnu og virðulegu bræðra vorra. „Og muntu þykja mestur maður, hvar sem þú fer", sögðu forfeður okkar, sem vel spáðu fyrir. — En, við Íslendingar förum enn of lítið — þeir, sem menn eru, en við höfum afsökun — við erum svo fáir í samanburði við margmennisþjóðirnar, þó við séum mennilegri upp og ofan.

Nýl. er kominn til Calgary lútherskur prestur, að nafni Look. Rétt skrifað er það líklega Luke = Lúkas. Ég sá það í ensku blaði með útdrætti úr biblíu-fastri fyrstu ræðu hans. Svo fékk ég bréf, sem sagði mér, að kona hans væri íslenzk, og móðir hennar væri með og myndu þau setjast að í Calgary, hjá lútherskum söfnuði þarlendum. Svo gat kerling hér í gær frætt mig á, að prestskonu-móðirin er gamla kunnkona mín, „Gunna" Laxdal, og prestskonan þá „Nóra" (hét hún það ekki?) dóttir hennar, sem eitt sinn átti „föðurland" frá Garðar til Park River, og sem er sagt að orðið hafi myndarstúlka. Ég hefi heyrt, að þessi Luke hafi verið prestur áður í Saskatoon, og þær mæðgur átt þar heima.

Ég hefi átt annríkt. Í fyrra haust var ég beðinn að hafa kvæðin mín til prentunar búin. Þau voru þá enn fles í rusli og molum hjá mér. Ég kveið fyrir, var lúinn og lasinn hvern dag, og tómstundir fáar og á tvístringi sökum úti-anna. Þó tókst mér þetta svo í tíma, að ekki stóð á því. Gerði eins vel og ég gat með frágang, en varð verr en ég vildi og hefði getað óhindraður. Svo var mér send „prófórk" (líkl. sú 3ja), þegar annríkast var hér um uppskeru, og beðinn heldur að hraða mér. Því var ég of hlýð-

inn. Leiðrétti aðeins eftir minni, en þessar „beinagrindur“ dyngdust á mig, margar í einu og stundum dag eftir dag. Ég hafði aldrei á æfi minni lesið „próf“ fyrr og kunni það ekki eftir réttum reglum, varð að skapa þær að mestu sjálfur. Ég hefi rekið mig á undir 20 stafvillur í kverunum, sem auðvitað er of mikið, og kannske mér að kenna allt, en getur tæplega talizt vonum verra eftir ástæðum öllum. Ég gat þess við dr. Ágúst í sumar, sem ég sýndi handritið, að verst tækist mér að leiðrétta mitt eigið, sökum þess, að ég væri því svo kunnugur, að mér sæist meira yfir. Hélt ég væri einn um þá heimsku. Hann sagði mér þá, að þetta væri almenn örlög, sem allir könnuðust við, sem læsu „próf“. — Kulda-kast all-skarpt eftir jól, og nú nýafstaðið. Dýrtíð og búkreppa — en næstum ergilegra að hlusta á barlóminn í fólki, sem líður þolanlega þó, en vita hálfan heiminn hungurmorða. Helga og ég, sem er allt heimafólkið í dag, og oftar, biðja kærlega að heilsa heim til þín.

Þegar þú skrifar mér, segðu mér þá nokkuð það, sem nýtt er í kirkju-sögu ykkar Dakotinga. Mig hugar enn til hennar. — Klórað hef þér með krumlu minni krumma spor. — En, gleðji þig enn í æfi þinni ótal vor.

Stebbi.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 3. febr. 1924.

Góðvinur. — Mér þótti vænt um kveðjuna frá þér, nýkomna. Ég þakka þér fyrir hana. Einmitt, við týndum hver öðrum um stund, en hvort það var þú eða ég, sem seinast sá til hins, man ég nú ekki. Það kann eins vel að hafa verið ég, því ég gerði það svo greinilega, að ég vissi ekki, hvar þú varst niðurkominn, eftir að þú fórst frá Lundar, en ímyndaði mér, að þú værir á einhverju heimili í Manitoba, víst af því ég var vanur að hugsa um þig þar.

Það var fyrst í sumar sem leið, og mig minnir, að það væri dr. Ágúst Bjarnason, sem fræddi mig á því, að hann hefði hitt þig í Saskatchewan, en vissi þó ekki né mundi, hvar helzt til heimilis.

Jú, ég meiddist ofurlítið nýlega, braut aðra ölnina vinstri, við ölnliðinn. Ekki var það nú meira. Síðan er

nú mánuður liðinn, en ég verð að hólkast með steinsteypu á handleggnum enn í tvær vikur, að læknaráði. Þeir héldu ég væri tíu árum yngri en ég er, en samt svo merglaus, að seint greri. Ég féllst illa á hvort tveggja, aldurinn gerði ekki til, því ég væri sjötugur, og um merginn ætla ég að sanna þeim seinna. Mér líður vel að öðru en því, að vinstri hendin er alls staðar til tafar, sem von er, að dragnast með þessa dræsu af leir.

Berðu Þórarni og hans heimili kveðju mína. Ég vona, að vel fari um þig og sért heill á húfi.

Vinsamlega Stephan.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 11. marz 1924.

Góðvinur Pálsson. — Ég þakka fyrir skemmtunina, leikrits-lánið, sem ég skila þér aftur hér með. Ég las það, kveldið sama og það kom, eftir vökulok. Hefði ég verið í leikhúsi staddur og séð það lifandi sýnt, hefði ég orðið einn af þeim, sem æpa „Bravó!“ — og hvergi með þeim, sem urga „Bah!“

Af ritstörfum annarra verð ég ýmist ánægjusamur eða hrifinn, falli mér efni og umgjörð og nái skilningi á því!

Leikrit þitt snart mig svo, að ég varð hrifinn, og háttaði mig svo og fór að hugsa. Ég get það svo vel, vegna þess að flestar nætur fæ ég kvilla, sem heldur fyrir mér vöku um stund.

Á leikritum hefi ég ekkert vit og hefi aðeins komið tvisvar á æfinni í það, sem nefnt er *leikhús*. Ég setti mig þarna í þau spor: að hefði sjálfur átt það, sem ekki er, efni til að semja þetta rit, og væri svo á eftir að brjóta heilann um „snöggu blettina“, sem á því hefði orðið eftir minni tilætlun. Það fyrsta, sem ég rak mínar andlegu tær í hjá [mér] sjálfum var, að skóg-gyðjan sjálf, hún *Sylvia,* „betri helft“ *Hórasar* (eins og Milton nefndi Evu, fyrstur manna, að ég hefi tekið eftir), að hún, hugsjónaþráin sjálf, blandar dauðadrykk hans og sinn, of undirbúnings-laust. Mér fannst það ekki geta orðið af hennar völdum, sem tilgangur hennar. Of-góð til þess. En hvernig átti þá að koma því fyrir? Ekki mátti það missast, sjálft hástigið í harmasögunni! Hver átti þá að vera

nornin? Mér datt í hug frú Málamynd: *Mrs. Chromer.* Eins og hún væri nú hjá mér, í leikritinu, góð sem fulltrúi tízkunnar, auðvitað, það sem hún nær, yrði hún næstum óþörf — hennar þáttur í leikslokum væri of veikur, sjálfrar andstæðu *Sylviu*. Hvernig gæti ég látið hana vera valdandi að byrlun bikarsins? í stað *Sylviu*, sem réð ekki við forlögin.

Svo fundust mér fugla-skiptin (og fuglarnir eru annars afbragð!) ekki nógu átakanleg við efnið. Ég hefði helzt átt að láta sálarfræðinginn snúa söng-fuglinn úr hálsliðnum, bæði í því skyni að tákna endalokin, sem eiga að verða, og til að ofbjóða áhorfendunum, „hrista þá upp!"

Taktu þetta samt ekki svo sem athuganir manns, sem nokkuð sé að marka! Þær eru firrur, en sagðar svo sem er.

Sérstaklega er sálna-morðinginn: *The Psychologist*, góður hjá mér, hefði ég hugsað!

Einu sinni áður, og einhvern tíma, hefi ég lesið leikrit í líkri stefnu — „The Dollar", eftir Gyðing í New York — „Cohen" minnir mig hann heiti, er höfundur og skáld, ritstjóri og fleira. Að því var mér ánægja. En það var fremur nær skopleik og hafði ekki afl harmbeiskjunnar í þínum þætti, og því þykir mér hann nú betri. Annars eru Gyðingar undarleg þjóð. Í Evrópu eru þeir konungar allra amerískra skálda, í metum fólks, og nafnkunnari en aðrir meðal alþýðu, og rita þó allt sitt bezta á máli, sem fáir skilja: Júðsku: „Yiddish".

Berðu Magnúsi og Þórarins-fólkinu kveðju mína og fyrirgefðu rausið.

Vinsamlega Stephan G.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 12. marz 1924.

Jónas minn góður. — Þökk fyrir bréfið þitt, gott og greinilegt. Nú kem ég bara sem snöggvast, á svo sem ekkert erindi, annað en víkja að ofurlitlu í bréfi þínu. Sá sem fótbrotnaði hér var ekki okkar Jóhann Björnsson Tindastóll, heldur Jóhann bóndi Bjarnason, Árnesingur að uppvexti, að ég hygg, og býr vestan megin Medicine, nokkrar mílur vestur af Markerville.

Með tilliti til „The American Scandinavian Review", hví reynir blaðið ekki að fá annaðhvort Sigurð Nordal í

Reykjavík (sé hann ekki kominn til Noregs nú, sem prófessor við háskóla Norðmanna) eða Sigfús Blöndal, Royal Librarian, Amagerbrogade, Copenhagen, Denmark. Báðir ættu að vera góðir, ef fengjust. Sigurður afbragðsgáfaður, andans maður og söguskáld. Beitir speki sinni og sálarfræði svo snilldarlega við rithöfunda okkar forna og nýja, að maður lifir í nákynningu við hug þeirra og hjarta og sál og samvizku. Aðeins svo er líka sagan sögð til gagns og gleði. Til dæmis grein Sigurðar um Grím Thomsen, eða ritgjörð hans núna um „Völuspá", í „Árbók Háskóla Íslands". Sigfús Blöndal (orðabókarhöfundurinn) er líka andans maður og skáldmæltur á íslenzku. Bezti drengur og hófsmaður í hvívetna og alþýðlegur. Ég kynntist honum í Reykjavík, hann var þá heima. Hefir skrifað mér oft síðan. Sigfús er einn þeirra norrænna manna, sem ritar fyrir „Det nye Nord", blað, sem hann sendir stöðugt til blaðanna hér, en þau minnast aldrei á. En stefna þess blaðs er að vekja viðkynningu og hlýhug milli norrænu frændþjóðanna, og Sigfús er þar málflutningsmaður Íslands. Báðir þessir menn rita víst ensku fullum fetum. Sigurður var við Oxford háskólann, sumarið sem ég var heima. Um Sigfús veit ég, að hann hefir fengizt við svo mörg og óskyld mál, að mann furðar, og líkl. enginn Íslendingur þar jafn fjölhæfur. Hann ritar ensku sem dönsku. Hefir verið í Lundúnum. Annan hvorn þeirra væri matur að fá. Snæbjörn Jónsson kannast ég lítið við. Hefi séð eitthvað laglegt eftir hann, þó sem sýndi, að hann væri kunnugur Englendingum, hefir að líkindum dvalið þar í landi. Hann getur því vel verið góður.

Í mörg ár keypti ég „Scandinavian Review", en hætti svo við hana. Allt um Ísland var þar sjaldgæft og hrafl, og hún fór til og færði verðið sitt upp í $3.00 árganginn, þegar verst stóð á, þó hún, auðvitað, stækkaði. Aftur hélt ég þá, og held enn, rit þeirra Svíanna hér, „Scandinavian Studies and Notes". Það er miklu bókmenntalegra rit og vandaðra en „Review". Ætli að „Scandinavia" þeirra Grand Forks pilta gæti ekki orðið til gagns, ef Íslendingar, sem færir eru um, hlynntu að henni. Ég hefi lesið þau tvö tölublöð, sem út eru komin. Þar var ýmislegt bærilegt og ein afbragðs grein, um unglinga menntaskóla útlendinga-af-

komenda. Maðurinn, sem ritaði, Aage Möller, danskur og prestur, að ég held, skildi það mál djúpt ofan í kjölinn og svo fordómslaust. Ég óskaði, að þjóðræknin okkar hefði þýtt þá grein á íslenzku. Það sem Ísl. höfðu lagt þar í búið var fremur í molum, þó ræktarlegt væri. Bezt fannst mér kvæði dr. Gíslasonar í Grand Forks, en ekki vissi ég áður, að hann fengist við þess konar. — Loppan, sem ég lamaði, er leyst úr fjötrum nú fyrir nokkru, en ónýt enn og á „sönginn stirfin“, eins og Grettla lýsir Glámi. En þetta lagast víst.

Heyrðu: Ætlar herra *Beinsög* að skera þig upp við kviðsliti, svona aldraðan? Myndu ekki góðar umbúðir græða þig? Hunford, með gamalt gauðrifrildi, finnur nú lítið til þess. Jakob, sonur minn, nálægt gróinn, eða gróinn, þó læknar segðu honum, að uppskurður einn dygði. — En auðvitað, í báðum tilfellum tók þetta mörg ár, en umbúðirnar bötuðu strax.

Ég er kominn þarna að þrotum, þar við engu get ég bætt. Tíndu úr þessum bita brotum, bara sé þar nokkuð ætt.

Vinsamlega Stebbi.

*Sigfús Blöndal.* Markerville, Alta, Can., 13. marz 1924.

Góðvinur Blöndal. — Ég kem hér til að þakka, ekki til að borga, bréfið þitt frá 17. f. m., nýkomna, það var svo gott og fjölviturt, að til að borga það, þyrfti ég að skrifa í „átta kapítulum“ minnst og óvíst þó, að kaupin stæðust á, þegar búið væri [að] fella úr allan minn „smáa stíl“. En þrátt fyrir það: kæra þökk fyrir bréfið, Blöndal.

Sízt myndi ég gruna þig um að vera „húmbúgg“, það er, að þykjast meiri tungumála-garpur en þú ert, en hitt er satt, ég dáist að, hve víða þú hefir getað við komið. Að vísu hafði ég heyrt, áður en við hittumst, að þú hefðir, þegar á skólaárum þínum, þótt hamhleypa við „lærðu málin“. Einhver skólabróðir þinn gat þess við mig. En þegar við höfðum ögn kynnzt, vafðist það fyrir mér, hvort þessi maður gæti verið „grimmilegur“ málfræðingur, eins og ég hafði hugboð um þá náunga. Mér fannst þú myndir of andlega „liðlegur“‘ til þess. Í málfræði veit ég ekkert, og flest heimska verður að fordómum. Þó vissi ég, að

málfræðingar eru þarfa-menn. En oft fannst mér, að það væru menn, sem byðu mér til borðs með sér, en á borðum væri tóm bein. Það er skáldið í þér, Sigfús, sem hefir varnað þér að verða eintómur „beina-karl“. Í þínum fræðum kann ég minna en ekkert, en ég skil viðhorf þitt og þykir vænt um það. Í mínum augum verður „holdið“ „orð“ á tungum mannanna, hjá þeim sem hefir eyru til að heyra. Marga ánægjustund um dagana hefi ég haft af því, að einhverju orði hefir rignt í þegjandi hugann, mér fundizt eins og að mér birtist þar andi framliðinna, sem opnaði mér sál sína og sögu. Ég hefi dáðst að því með sjálfum mér, hvað einhver óþekktur hugur gat myndað tungutak sitt, svona fagurlega-hárrétt, eða ég hefi rakið flæking einhvers orðs í munni mannanna, þótzt hitta og þekkja, á svipnum, heila herskara af einni og sömu ættkvísl, jafnvel geta greint, í hverjum félagsskap þau hafi búið, ýmist sér til upphefðar eða niðurníðslu. Og þess vegna skil ég þína átt, þó hvergi viti ég vegamerkin.

Þú minnist á, að öðrum eigir þú mikið að þakka, að orða-bók þín varð það, sem hún varð. Auðvitað — og það rýrir ekki þitt starf. Ég ímynda mér, að ef við gætum reytt sjálfa okkur sundur, tutlu fyrir tutlu, og gætum með vissu merkt, hvaðan hver er komin, þá yrði sennilega lítið eftir, sem við einir ættum allt í. Enda er það næg frægð og frumleiki, að hafa orðið fyrir því láni, að verða geislasafnari einhvers, sem andlegt er, og raðað þeim úr dreifinni í fullkomnara ljósakerfi. Ég er óviss í, að nokkur komist hærra. Verði þér svo virðing og þökk fyrir orðabók þína, Sigfús. Kannske að hún, og „Völuspá“ Sigurðar Nordals, eigi eftir að verða metin stærstu stigin í bókmenntum okkar, þessi síðustu ár. — Tíðarfar og jarðargróði má heita að hafi leikið við mann hér, umliðið ár. En mjög kreppir að alþýðu þjóðskuld og arðlaust erfiði fólksins. Mér líður þetta mátulega vel, eftir aldri og aðstöðum, yfir engu að kvarta. Rétt upp úr nýári handleggsbrotnaði ég og hefi legið inni í lamasessi síðan. En svo ætla ég mér að verða jafngóðum af því enn — eða betri!

Beztu menn okkar hafa reynt mjög, nú á seinni tíð, að sameina þann hluta Íslendinga hér, sem meira vak-

andi hug hefir. T. d. er „Sambandssöfnuður“ og „Þjóðræknisfélagið“ þættir í þá áttina. Auðvitað átti að byrja það starf fyrr. En, fáir komu auga á þá þörf, lengi vel, og margur var misskilningurinn, eins og gengur. En nú er líka að „sverfa til stáls“. Þaðan eru runnar deilur blaðanna núna. Það er ekki „fyrnskutrú“ kirkjufélagsins, sem verstu veldur um, heldur „trúleysi“ þess og rógur um allt, sem hvorki er þeim flokk *einum* lausafé, né lof eða dýrð, sem sé: eigingjarnasta efnishyggja.

Út komust „Andvökur“ mínar, tvö kver. Þar lagði ég lítið til, *enga upphvatningu,* lítið fram yfir handrit og samantínslu, o. s. frv. Vankaðri urðu þær af prentvillum en ég vildi. Aðstæður mínar voru svo á móti mér, að ég naut mín ekki við „útgerðina“, en þar hefði ég þurft aðstoð, en ekki fyrir-fipanir. Kostnaðarmenn vildu þó ekkert til spara, svo mínu lánleysi er mest víst að kenna. Þrátt fyrir þessa galla, sendi ég þér kverin nú nýverið, en galli varð á: Ég hafði þá ekki fengið bréfið þitt síðasta og sendi þetta til þíns fyrra húsnæðis, 153 á „Amakri“ (ɔ: Amagerbrogade), eins og forfeður okkar hefðu líklega „norrænað“ það. Ég held ég hafi gert enn verr, líkl. skrifað utan á aðeins „herra S. Blöndal“ og stolið af þér öllum titlum, sem eru þín einkenni. Viljir þú ómaka þig eftir þessu, verður þú nú að spyrja það á einhvern hátt uppi, og — fyrirgefa! — Vertu svo sæll, Sigfús, og sé þér hamingjan holl.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

Þú minntist á veikindi — ekki þín sjálfs þó. — Ég hefi ekki um þau heyrt, né hver þinna veikur sé.

*Guðm. Finnbogason.* Markerv., Alta, Can., 17. marz 1924.

Góðvinur Guðmundur. — Sneypulegur kem ég nú loksins til að stama upp þökk minni til þín, fyrir „Hafrænu“ þína, bréfið þitt síðasta og ómök þín öll fyrir mig, sem ég var að kvabba á þér um og þú gerðir svo góðfúslega, sem sé: útgáfuréttinn minn til „Heimleiðis“ og „Vígslóða“. Ég skammast mín að draga það svona lengi. En ég átti von á að geta sent þér „Syrpu“ mína fyrr en varði, og ætlaði að „myrða tvær þær flugur“ í einni atrennu, en

það gekk allt í eintómum „bössum“ og undandrætti, þó óviljandi væri það sumt. — Fyrir „Hafrænu“ áttu að taka tvö-, eða helzt þre-faldar þakkir: fyrst að láta þér detta svo gott ráð í hug, og framkvæma það. Því það er sá „botninn, sem verður eftir suður í Borgarfirði“ fyrir okkur svo mörgum. Í öðru lagi þökk fyrir að hýsa þar svona margt af mínum kindum, og að síðustu þökk fyrir bókina að gjöf! Þú mæltist til, að ég segði, hvað mér sýndist um safnið. Að vísu er það að skjóta máli sínu undir „bolladómara“ í bókmenntum, þar sem ég á um að segja. En svo getur verið gaman að því líka, og ég skal segja eins og er. Mér datt í hug t. d. ein vísa, eftir Gröndal elzta, sem ég vildi, að hefði átt horn í „Hafrænu“. Hún er svona, rituð mínu eigin rúnaletri: „VinDa anDi byrstur hvín í heflum, | Héðan teygir dúKa slaKan þyn, | SprynGur þrunGin hvilft á spentum reflum, | SpýR um þveRa fuRu ránar gin, | LöÐur-boÐum riÐar loStið flauSt, | FararFerFi hörFar faSt og lauSt“.

Þegar ég hugsa þessa vísu, eins og oft, síðan ég lærði hana í æsku, er ég úti á sjó á siglingu og heyri allar tungur vatns og vinda. En þetta eru eins manns kenjar, aðeins, og engin bók grípur yfir þá alla. Ekkert yrði fléttað úr slíkum sandi! Ég skal þá segja þér, hvað ég hefi sagt um „Hafrænu“ í viðtali við aðra. Það er svona hér um bil: Dr. Guðmundur hefir hitt þarna á það, sem verður sálmabóka-fyrirmynd framtímans. Fleira er „sálmar“ en: „Óvinnandi borg er vor guð“, og þess konar. Þetta eru beztu sálmarnir sem við höfum kveðið til Ægis í meira en þúsund ár. Næst kemur bók, sem í verða allir okkar beztu sálmar um móður okkar „Fjörgyn“, — „Mornaland“ (Morgunland), o. s. frv., unz allir okkar beztu sálmar eru komnir í eitt kerfi og heild. Og þá verður gaman að „sitja í kór“. Gegnum „Hafrænu“ sé ég fram á þetta. — Þá hefi ég nú sagt eins og er, og séð eins og verður!

Fyrir fáeinum dögum sendi ég þér í pósti „Vökulokin“ mín. Þau fóru verr en ég vildi, að mismælum til. Nokkur leiðrétti ég með penna í þessum kverum, sem ég sendi þér — þau, sem ég kom fljótlega auga á. Skotizt mun mér hafa yfir: á bls. 35. 10. l. „hálf“ fyrir *hálft,* í fyrra bindinu (IV.), og á bls. 163. 21. l. „Hljóðyn“ fyrir *Hlóðyn,*

í síðara bindinu (V.). Þannig kann margt fleira að hafa farið. Ég er hvort tveggja í senn: klaufi og viðvaningur, og ósýnastur um sjálfs míns afglöp á þessu sviði, auk örðugrar aðstöðu með fleiru. — Fyrirgefið, því ekki varð að gert! Á hitt ætla ég ekki að minnast né afsaka, sem er illa eða of-sagt í skruddunum. Það yrði ókleift verk, og

Ef eins og stólpi stæði
Hver stafur bókum á,
Um dýrðina yrði lítið
Á dómsdegi þá!

Það tel ég víst og að vonum, að illa hafi ykkur heima þótt þjóta í blöðunum okkar hér, „kristninni“ og þjóðrækninni, nú fyrir-farandi. Ég undrast það ekki, nærri fagna því, að loks var skorið svo upp úr, að opinbert sé öllum. Mig hefir lengi grunað, að t. d. þjóðræknin hér sigldi með „lík í lestinni“, meðan „kirkjufélagsandinn“ gæti skotizt að stýrinu, sá sem sterkastur og almennastur hefir verið að þessu. Ég hefi þótzt sjá fram á klofning sem einna líklegasta úrræðið á endanum, og láta svo skeika að sköpuðu, þó vandræði sé. Fyrir mér er það ekki sökum „vantrúarákafa“ míns. Að mínu viti eru þetta aðstæður okkar, sem olla. Sem sé, hér er flokkur, sem fleytast vill með, aðeins svo lengi, sem hann hefir von um forráð sér til *dýrðar* eður *hagsmuna*. Annar kjarni yrði aldrei í aðstoð hans, eins og stendur. Þetta er orðið honum innrætt frá upphafi séra Jóns heitins Bjarnasonar. Nennti nú einhver að ganga gegnum rit hans öll, yrði auðvelt að sanna, að enginn hefir látið í ljósi og troðið í okkur Vestmenn meiri lítilsvirðingu fyrir öllu nútíma-íslenzku, né fundizt allt vestrænt og brezkt vera slík fyrirmynd, eins á-sig-hlaupslega. Allt nútíðar-íslenzkt, menning, stjórnarfar, skólar og kristindómur og bókmenntir, land og þjóð var að „blása upp“, allt nema fornsögurnar og „Hallgrímssálmar“. Þetta festi rætur hér, og upp úr því er sprottinn „kirkjufélagsandinn“, eins og hann kemur nú fram hjá mönnum. Ég efast ekki um, að séra Jón vildi öllu vel. Hitt er mér ljóst, að enginn einn maður hér vann (þó óviljandi) [eins] að því að dreifa Íslendingum hér út í alla þessa kergju, sem nú er orðið jafn

gamalt mein veru Íslendinga hér, og er nú, ef til vill, að springa. — Mér líður eins vel og vant er. Hefi verið í lamasessi, með brotinn handlegg, nú í liðuga tvo mánuði, en verð auðvitað betri en bættur bráðum, og leystur úr reifum fyrir nokkru nú! Ég bið að heilsa heim til þín, og kveð þig allténd með vinsemd

Stephan G.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 20. marz 1924.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréf þitt, og meðlagt. Satt að segja kemur sjaldan neinn hrollur í mig sökum þess, hvað að mér viðrar í blöðunum, og alls ekki á meðan að veðrin standa ekki undan voldugri Hræsvelgs-vængjum en þeim, sem lyfta honum „Lalla" mínum. Ég hefi hálf-gaman af honum allténd, að öðru leyti en því, að það er blöðum okkar minnkun að hýsa slíkan illúðar-hégóma, og verður Íslendingum vestan hafs til áfellis síðar meir að hafa alið upp jafn skynlausan oflátung og ruglurellu. Ég veit þó, að hann gerir mér sjálfum ótilætlað gagn, hjá skynbærum mönnum. Samt er hitt satt, hlýviðrin, eins og bréfið þitt, eru mér margfalt mjúkfelldari.

Heyrðu! Varstu búinn að fá leikritið þitt, sem ég endursendi með nokkrum línum, þegar þú skrifaðir? Ég átti eftir eina lýsingu á minni afstöðu, ekki „boðorð", aðeins skýringu, svo þú skildir, hvernig í mér liggur, en nennti ekki að rausa lengur þá. Innihaldið er þá þetta: Ég skil, hversu stórfagurt og sönnu næst að það efni er, að „hugsjónin er banasóttin" (sbr. enskuna: *The ideal kills),* og að það er sami „fiskurinn", sem liggur undir steini í þessu: „að enginn má lifa og guð sjá", sem stendur einhvers staðar í biblíunni. Hefi nærri því sjálfur sagt þetta, eða ætlað að segja, t. d. í „*Vofan*" í fyrri „Andvökum og „*Afmælisgjöfin*" í inum nýrri. En ég er aldrei al-ánægður að skella skuldinni heilu á *hugsjónina.* Kannske brestur mig þar þrek eða skilning. Ég hallast meira t. d. að grísku hugsaninni, í goðasögunum um gyðjurnar, sem ætluðu að gera syni sína annaðhvort svo, að engin vopn bitu þá, eða kasta þeim í eld og brenna úr þeim allt, sem dauðlegt var og erfð frá föðurnum, sem var mennskur maður. En það tókst aldrei alveg. Önnur tók son sinn of fljótt úr eldin-

um, sökum fávizku föðursins. Hin varð að halda um hælinn á sínum syni, upp úr vatninu, sem annars staðar gerði hann ósærandi, og sá blettur varð líka bani hans. Mín niðurstaða er þá: Það er ekki gyðjan (hugsjónin) sjálf, sem vígið vegur, heldur „snöggi bletturinn“, „hællinn“, veikleikinn í erfð og andstæðunum í okkur sjálfum, „holdið og heimurinn“, eins og biblían kemst að orði, sem myrðir andann. En þeir eru þó „goðum bornastir“, sem lengst komast lifandi. Svona er mín eigin kredda, engum nema mér sjálfum ætluð að vera lögmál.

Ég skil vel, við hverja úrklippan á. Vissi, á því sem gekk, að allt var ekki heilbrigt, en sérstöku aðferðirnar í þessu tilfelli ekki, það er að segja: hver borgaði brúsann. Langt er síðan að ég sá höfunda í Bandaríkjunum, sem ég gat ekki rengt, og vissi að vissu, ljósta því upp, að ríku útgáfufélögin þar hefðu leigða fasta „blaða-snápa“, sem væru grímuklæddir í blöðunum sem gagnrýnendur, og þeirra verkahringur væri að hlaða oflofi á ónýtis-bækur, sem félögin ætluðu að stórgræða á, og smeygja skjallhróðri í hvern blaða-kima og krók, sem fengist, og allir væru þeir þessu opnir, fyrir lykli auglýsinga-borgunar. Og sönnunin væri sú, að slíkir höfundar, sem svona væri farið með, sæju bækur sínar detta dauðar niður og ófrægar næsta ár. Því trúir enginn, sem elskar bókmenntir, en hefir enga nasasjón af, hversu holgrafnar þær eru, eins og annað, af hégómagirni og gróðafíkn. Höfundar jafnvel stela óúrunnum hugmyndum sinna sessunauta, og reyna að slæða þær upp úr þeim, sem ekki vara sig. Jafnvel komið fyrir Íslendinga (Kamban gagnvart Sigurjónsson).

Ég las ritdóm Bíldfells í Lögbergi. Fann hvert stefndi. Fékk óbeit á. Hefi flett, en ekki haft geð á að lesa enn. Aðalmein „orthodoxíunnar“ er, að hún gerir menninа „trúlausa“, það er: hún japlar á skelinni (kenninga-kergjunni), en skirpir kjarnanum (andanum), og drepur hugsjón og andríki allra, sem á henni glæpast. Að öðru leyti eru allar „dogmur“ meinlausar, hvorki hér né þar. Vertu svo sæll.

Vinsamlega Stephan G—.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, Can., 27. marz 1924.

Jónas minn góður. — Kæra þökk fyrir bréfið þitt. Ég er í eins konar innifjötrum enn, svo bréf koma sér vel, og engu niður-slökkt við að svara. Mætti ekki koma þessari Elíná okkar — Hönnu Larsen — til að tiltaka sjálf efni (mörg ef vill) og orðafjölda í grein um Íslendinga, sem reyndu að svara biðilsbréfum hennar? Það kæmi í veg fyrir allan *vanda,* og varla von, að hún og þeir leggi hönd á allt óákveðið og undir skafti og blaði. *Hví snýr hún* ekki þannig að því. Ég man, að Jón heit. Trausti ritaði eitt sinn langa grein fyrir „Review“ þeirra, alla um „framfarirnar“, gott efni að vísu, en ritgjörð sú var langt of fjölorð, að mér fannst. Auka-fyrirhöfn var og á, þeir höfðu orðið að þýða hana af íslenzku (líklega) á ensku. Margir heima rita víst ensku sæmilega, en efa sig. Lítið að hræðast, þó leiðrétta þurfi orð og orð. Veit þó dæmi þess, að öðrum fer eins. T. d. skrifaði Joseph heitinn Poëstion mér bréfspjald einu sinni. Fáir munu hafa verið snjallari íslenzkumenn en hann og það í örðugasta málinu: ljóðamálinu. En hann skrifaði mér á þýzku, og bar því við, að þó hann skildi íslenzku, treysti hann sér ekki til að tala hana né rita og yrði að skrifa mér á sínu „móðurmáli“, en hann hefir líklega grunað, sem var, að ég væri nokkuð þunnur í þýzkunni, þó komst ég hjálparlaust fram úr þeim fáu línum, af því ég skildi efni þeirra og orðin voru svo auðveld. Og þannig mun nú fleirum fara. Hitt er okkur sneypa og ógagn, að láta „Review“ fara „bónleiða til búðar“. — Skratti smellna háðgrein ritaði einhver í „Tímann“ um viðtökur Reykjavíkur-„konsúlanna“ á „páfans legáta“. Ég kannast við suma þeirra, ef ekki alla. Það þarf að koma löndum heima, mennta-mönnunum, til að stofna mót-tökufélag (klúbb), þegar þeirra sessunautar, erlendir, sækja Ísland heim, og auglýsa það eitthvað erlendis. — Jú, eitthvert blað heima gat um þennan eldgíga-gægi, sem erindisleysuna fór. Íslendingar sjálfir uppgötvuðu eldstöðvarnar þetta sinn. — Það var rétt, ég var ekki viss, hvort „gyrtur“ átti að þýðast „umgjörð“ eða „umskurn“. En var hræddur við hnífinn, og til „vondra vara“ vildi gera þig það líka. Ef til vill líka vegna þess, að læknar hér kenna öllum, að ekkert dugi annað en uppskurður við svona bilun. — Löpp

mín er enn í ómegð og ekki matvinnungur. Beinið er líklega löngu brasað. Að ég á svona lengi í því veldur, að ég held, að þeir felldu það aldrei alveg rétt saman. Og það vissu þeir, en trössuðu. Var þó auðvelt, ég fékk lækni löppina til spengingar svo sem klukkutíma eftir áfallið, og „ex-geislað“ var brotið degi síðar og á „hospítali“, og undir þeirra hendi var ég 6 daga. En að þrem dögum fráliðnum kvaðst læknir ekki vilja brjóta brotið upp, beinið væri farið að hnýta, og bugðan yrði ekki stór né mér til baga. Ég gekk svo að því, „af því ég byggist þá heldur ekki við að þurfa eins lengi á þessum handlegg að halda og hingað til“. Satt að segja, ég hálf-kveið uppbrotinu, og líklega svæfingu. Vel getur verið, að ég verði „jafnvígur á báðar hendur“ með tímanum — en líkl. á ég lengur í því fyrir bragðið. Taugar tornæmar á nýja lagið.

Sem stendur er snjógangur nokkur nú, næstum hvern dag, en frost lítið. Helga hefir nú verið hjá Jóný um viku. Jóný á dóttur, litla hnyðru, sem veik hefir verið af lungnapípu-bólgu og varla verið ætlað líf. Jóný býr ekki all-langt héðan, en út úr frétta-leið. Í fyrrakveld var þessari veiku körtu ögn léttara og henni virtist þá bata von. En síðan hefi ég ekki frétt þaðan.

Enginn við hann ergi sig,
Um allt hann látum spjalla —
Því þögult verður þá um mig,
Þegar ég missi „Lalla“.

Baslinu það er bezta hvíld,
Og „businessið“ að skána:
Ef verið hafa vátryggð „Bíld“
Verka-lokin „Stjána“.

Lítið upp þér létta ljóðstafirnir mínir —
En sólskin og sumar senn verða gestir þínir.

Stebbi.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 29. marz 1924.

Góðvinur. — Bréfið þitt var gott og þakkarvert, og því sendi ég þessar línur, þó ekkert hafi ég að segja, sem nokk-

ur snúður er í. Líklega ert þú réttur, að ef ég er annars nokkuð, þá sé ég næst því að vera eins konar „umfeðmingur“ eða „universalisti“, eins og það er nefnt á „lærðra-mannamáli“. Auðvitað hefi ég aldrei gert mér glöggva grein fyrir sjálfum mér. Skáld og listamenn ganga í „torfum“ (sem nefnast „skólar“), rétt eins og síldin okkar íslenzka. Ég hefi ekki haldið, að það tæki því að telja mig til neinnar, ég væri svolítill útúrskotningur aðeins. Hitt finn ég, að af öllu á himni og jörð er mér þó annast um mennina, yfir höfuð, sem er náttúrlegt, því svo langt sem ég veit og skil, á ég þeim allt það að þakka, sem mér hefir fundizt vera vel og bezt til mín gert — þrátt fyrir allt — jafnvel sólskin og gott veður — af því kyn mitt hafði lag til þess að láta sér líða betur undir áhrifum þess. Hitt finn ég líka, að er til í mér: segjum að mannkyn allt ætti að farast í einu stórstrandi, en mér byðist að komast einum af, á einhverju flaki — ég þægi það ekki! Að þessu leyti er ég líklega „universalisti“. Hitt er aðeins tilviljun, að ég er Íslendingur, sem takmarkar mig um leið svo, að væri nokkuð nýtilegt í mér, sem ég ekki veit hvort er, þá væri helzt eðlilegasta von, að það kynni að koma að einhverjum notum í því umhverfi, sem ég er sjálfur einhver hlutinn í, en menning og framför hvers þjóðflokks, hversu smár sem hann er, er auki og styrkur almanna-göfgisins.

Þú segist vera „einyrkingurinn“, sem sé „individualisti“. Auðvitað! Og eflaust er það áhrifameira og listfengara, ekki sízt, manngervi í leikriti. En svo eru báðar þessar stefnur aðeins tvær hendur á sömu verunni, sem er að dunda við (því aðrir gera það ekki, sýnilega) að hlaða upp sama „heygarðs-hornið“ að fegurð og farsæld mannanna. „Individualistinn“ með því að reyna að „manna upp“ einstaklinginn, út af fyrir sig. „Universalistinn“ með því að vilja bæta umhverfið, svo mennskir menn geti vaxið þar og viðhaldizt, því, nema það takist, verða þeir alltaf kyrktir og drepnir út, eins og kornið af þistlunum og þyrnunum.

Þetta varð nú langt raus, en lítil speki. En svona er ég innrættur.

„Jú, — frú Chromer — „Málamynd“, sagði ég — „getur aldrei (eða má aldrei) verða banamaður hugsjónarinnar þarna“, hugsar þú, og getur vel verið rétt hjá þér. En mér

kom frú Chromer fyrir sem gervimynd „Hégóma-girninnar“, það sem hún náði, og góð! t. d. það sem hún var forvitnust um, og gullhylkið og vindlingana. — Og er ekki „hégómagirni“ rétt núna að gera út af við „list og sannleik„ í verki höf., sem við höfum verið að minnast á? Auðvitað drepur hún ekki af ásettu ráði, hún er of mikill ræfill til að fremja „stórdáð“, þó það sé „myrkranna dáð“, en hún flytur með sér eitrið, banasóttarkveikju „stórdáðarinnar“, óáætlað —bara með því að ganga um hús manns og snerta við manni.

Þú kveður upp úr um „skort á list“ hjá sjálfum þér. Ég er ekki svo viss á því. Hitt hamlar meira en lítið, líka þá: Þú settir þig í þrengsta skóinn, mikið efni í eins-þáttar leik. Víst finnst mér það sniðið fegurst, en sýnist ég sjái vandann við það.

Ég skil, hvað okkur ber á milli með „kanarífuglinn“. Þú ert að hugsa um samræmið í framkomu „Mefistófelesar“ þíns. Jú, víst er hann sléttmáll, meira en það: „Ameríku frum-agent“, eins og Hannes kvað. En honum hlekkist líka óvart á — slysast af óaðgætni í smámunum að sýna náttúru sína, að hann er líka níðingur! En bilið milli mín og þín er þetta, ég hugsaði mig á áhorfendabekknum, (en þú ert höfundurinn). Sessunautar mínir, þarna niðri í „pyttinum“, eru ekki allir eins tortryggnir og ég. Kauði er „sléttmáll“, talar svo sennilega, t. d.: að það sé skylda manns að vinna sinni samtíð, fortíð og framtíð sé ekki verkahringur manns — þetta virðist svo heilrátt. Að vissu veit ég alltaf, hvað hann er að fara, en til að sýna hinum ögn inn í hans innri mann og búa þá undir leikslokin, læt ég hann snúa söngfuglinn úr hálsliðnum fyrir augunum á þeim. Það býr þá undir að skilja í, að svo fer sem fer. Páfuglinn er ágætur — lætur allt raupið og ruglið enda á: Guð gæti konungsins! Hefði ég ekki þótzt vita, að ritstjóri „Lögbergs“ var bráðlifandi, hefði ég haldið, að sál hans hefði tekið hamaskiptum, eftir trú þeirra manna, sem halda, að mannsandinn hlaupi um dýrahringinn hérna á jörðunni, niður og neðar — hafi hann ekki náð því að upphefja sig, meðan hann bjó í mannsmynd.

Jú — ég las: „Að frægðarorði“, með nokkurri furðu, sem þú. Á hinu er ég ekki svo viss, að séra R. hafi verið málið vel ljóst. Veit ef til vill ekki, að alþýðu hér er villt svo

ísmeygilega um sýn um bækur, eins og annað, í eigingjörnum tilgangi og af hégómaskap — hefir tekið ritdómana ensku gilda og góða, frá hérlendri hlið, og orðin feginn, að *Íslendingur* varð fyrir því. Um þeirra orðstír er hann einatt að hugsa. Enn er eitt, sem ég hjó eftir í stuttu samtali í sumar eð leið. Höf. þessi barst örlítið í tal. Bókin þá ekki út komin. Ekkert varð fullyrt. Að hann hafði meiri trú á höf. en ég, fann ég þó! Ég hafði séð eitthvað eftir höf., látið það vera, en ekki dáðst að. Þarf að „vera sýnt", eins og Tómasi og „Missouri"-búanum, áður en ég „fell fram og tilbið". Og enn eitt, mér fannst ég kenna erfðasyndar á dótturinni, sem ég þóttist hafa orðið var á verkum föðursins. Í einu orði: mig skorti trúna, eins og oftar. Og þá hafði ég líka séð, hverjir höfðu komizt að að verða höf. ráðgjafar (mentors), þegar verkið lá í sniðunum. (Það stóð óbeinlínis í blöðunum, og mér hættir við að lesa *eitthvað* milli lína). Þetta sat í mér og varð mér vafamál.

Illa fór það, að Ísl. hafa aldrei átt mann, sem ekki fékkst við annað en gagnrýning bókmenntanna. Allir, sem við það hafa átt, eða flestir, hafa verið kallaðir eða voru t. d. skáld sjálfir. Þá er nær ómögulegt að neyta sín, með þann djöful í dragi. Hrósi maður, er hann að koma sér í mjúk, en sé að fundið, er það af því: að „hann gat engan á himni vitað, heiðri tignaðan, nema sig".

Umfram allt, J. P., taktu mark á sjálfum þér, en ekki því, sem ég né aðrir segja. „Kritik" er manni þá mest verð, þegar hún sýnir manni, að þrátt fyrir allar misfellur, sem maður sjálfur sér, hefði þó verr tekizt og fjær því markinu, sem maður hugsaði sér, hefði maður breytt samkvæmt boðorðum hans, sem í góðu skyni vill gerast ráðunautur. Skáldskapurinn er meðsköpuð innri bygging (constitution), sem ekki verður kennd. — Rétt! Það er að lyfta undir íslenzkan dag aftur, undan þokubakka af slæðingi af erlendum hégóma, sem að utan barst. Merki þess eru mörg. Engin kannske í skáldskap enn — en annars staðar víða, t. d. í Orðabók Blöndals að sumu leyti, en einkum í „Völuspá" Sigurðar Nordals. „Me skal koma, om inkje so braadt" (sem sé brátt), kvað Norðmaðurinn.

Vinsaml. Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Heima, 30. apríl 1924.

Grímur minn góður. — Þökk fyrir blöðin öll o. s. frv. Jóna segir þér allt af okkur „Árungum“ (eða Árunum), þó hún reyndar búi „austur á Fellinu“, þarf því ekki að klóra það upp úr kollinum á mér. — En heyrðu! Kannast þú nokkuð við „Onota Watanna“, réttu nafni Mrs. Winifred Reeve, ritdómara og 20 skáldsagna-móður í „Álfheimum“. Hún á húsnúmer að 1712 Twelfth Str. W. í Calgary. Hún og Lára vor „Sölvason“ komust í „vankant“ út af Víkings-hjartanu! og þessi kona skrifaði mér og vildi fá „mitt einlægt álit“ um „góssið“. Ég svaraði henni loksins, en hálfnauðugur, mátti til, að mér fannst, en ætlaði mér ekkert af því máli mér að skipta. Ég sagði henni, að að mínum dómi væri bókin ekki nema meðaltal, sem kæmist í engan samjöfnuð við það, sem vel væri ritað heima í sömu stefnu, auk margs fleira, sem hún impraði á og ég gat ekki komizt hjá að svara. Þessi „kella“ er forseti Calgary-deildar kanadiskra rithöfunda. Auðvitað svaraði ég svo, að ég býst við, að hún hafi ekki orðið alls-ánægð, eins og mér er oft lagið. Lét í ljósi, að canadiskar bókmenntir væru engin ósköp heldur. Hún hefir eflaust kannske tekið það að sér, en ég hirti ekkert um það. Annars veit ég lítil deili á henni og hún var mjög vingjarnleg, bauð mér sæti í sínum félagsskap, o. s. frv., sem ég gat ekki þegið og sagði henni sem var, að ég væri erfiðismaður, en enginn bókmenntamaður. Ég get ekki sagt þér þetta nákvæmar nú, en segi „kella“ allt satt um Láru, þá er sú „frú“ víst Lárusdóttir! og sumt get ég ekki efað, að satt muni vera. Ég segi þér þetta svona, ef þú hefðir bros til að bjóða því, eins og ég.

Ég sendi þér „Scandinaviu“ með Jónu. Sandvold (líklega) hafði sent mér þetta hefti, áður en þitt kom.

Veröld öll í voða miklum stendur,
Vond og kærulaus.
„Káinn“ brenndi báðar sínar hendur —
Bíldfell ærulaus!

Hvíldu þig, og komdu fljótt,
Keppstu ei við svona að erja:

Við möðkunum um miðja nótt
Myglu-ketið Burn's að verja.
Blessaður og sæll. Þinn Stephan.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 4. maí 1924.

Góðvinur Jakob minn. — Þetta er samúðar skeyti frá okkur hjónunum, báðum. Við höfum verið í þínum sporum þarna, fyrir fáum árum, svo okkur er það í fersku minni enn, þó það séu sköp, sem enginn fær rennt. En þá er hitt:

Svo mörgum við átt höfum eftir að sjá,
Að á útfirið kveldgeislum stafar,
Og brosandi getum við beðið á
Barminum nálægrar grafar.

Miðinn frá þér barst mér í gærkveldi, og bréf einum eða tveimur dögum fyrr. Ég veit, að hugprúðum er flest fært, og vertu nú blessaður og sæll.

Vinsamlega Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 6. maí 1924.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Ég er rétt kominn inn úr fjósinu! „Fékk þar flugu í höfuðið“, eins og oft hefir áður til viljað, enda er nú „flugnatíðin“ að byrja. „Eggið“ var auðvitað áður lagt í kollinn, en hérna ungast það nú út. Svo er mál vaxið, að í gær fékk ég aðvörun um, að Íslendingadagur verði enn haldinn hér í sumar, eins og venjulega, ef ekkert leggst í veginn. Væri þá nokkur vegur, sem þú vissir, til að fá einhvern úr ykkar liði til að „tala yfir hausamótunum“ á okkur hér? — segjum prest — og ef svo væri og þannig viðraði, að hann gæti vakið upp þjóðrækniserindi t. d. — og þaðan af „veitt sálir“, ef svo bæri undir, en það færi allt eftir útliti, „hversu veiðast vildi“. Auðvitað er, eins og vant er, fjárhagur til fyrirstöðu. Þið gætuð ekki orkað því á eigin reikning alveg, og okkur væri það skömm. Við fáir og sundurleitir og sínkir og í kröggum, og það þó verst, að við trúum því nú sjálfir, að svo sé komið, að við eigum ekki „túskilding með

gati" né nokkru sinni verið eins snauðir og nú. Þegar til fargjaldsins eins er hugsað, væri ef til vill séra Friðrik í Wynyard „billegast brennivín", í andlegum skilningi, náttúrlega.

Svo er annað, hér hefir til ára lafað uppi lúðrafélag, og hangt uppi, þó innlend hafi hrunið í „stórbæjunum" okkar næstu. Fólki hér farizt vel við það, eftir ástæðum. Kostað talsvert, og orðið nokkuð marg-hyrnt. En eitt var ætíð að: enginn nógu leikinn leiðtogi. Nú hefi ég heyrt fleygt, að það hafi ályktað að fara á fjörurnar við Íslendinga eystra, ef til vill „Brynka". Hvort af því er orðið, veit ég ekki. En heldur þú, að hann, eða vinur vor Björgvin, væri þar á lausum kjala? Og hvað myndu þeir vilja fá mikið í vistarbita? Ég vildi, ef af yrði, að Íslendingur tæki við stjórn. Eitthvað af þjóðlegu kynni að fljóta með — jafnvel ekki ómögulegt, að einhverjir tækju tilsögn í söng, eða öðrum strengleikjum, líka. Þú skilur mig, að ég er aðeins að „slæða fyrir", alveg „umboðslaus".

Næsta sunnudag, 11. þ. m., verður Ísl.dags-nefndarfundur aftur. Ég sæki hann, ef ég verð fær til. Næsta sunnudag verður að líkindum fundur enn, þann 18. þ. m. Ef þú gætir svarað mér fyrir þann dag, *viðvíkjandi ræðumanni* fyrir Ísl.dag 17. *næsta mán.*, væri mér þökk á því — ég sæi þá „hvað setti" með fargjalds-von hér. Annars er þetta bölvaður klaufaskapur! Til að „ferðast frítt" eigum við allir landar að komast á sambands-þing, jafnvel þó við þyrftum að kosta því til allir að kaupa stél-kjóla, svo við gætum litið út eins og canadiskar engisprettur — það ynnist upp á „fríum ferðum". — Fer nú aftur í fjósið — og kveð þig því.

Vinsamlega Stephan G.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 7. maí 1924.

Jónas minn. — Rétt til málamynda er það, sem ég sendi þér þennan miða, sem svar við seinasta bréfi þínu, viðvíkjandi umgetningarleysi blaðanna heima á þessum amerísku farfuglum, því ég þykist sjá, hvernig á henni stendur: hún er hvorki tilætlun né tómt skeytingarleysi, heldur afleiðing af því, sem ástatt er. Hitt er víst, Tryggvi hefði átt að svara bréfi þínu einhverju, en ég býst við, að hann

sé allur á kafi í ritstjórn, pólitík, búskap o. s. frv., eða svo leizt mér á hann, sem hann væri líklegur til þess, þessar fáu mínútur, sem við mættumst eitt sinn hjá nafna hans heitnum. Mér virtist hann vel, og næstum hörkudugnaðarlegur, og varla líklegur til að láta sinn hlut ljúflega í neinu, væri því að skipta, og búskapur og bjargræði eru nú hans aðal-mál, og „Tíminn“ hans á aga-samt, þó bezta heimanblaðið sé hann, að undanteknum „Degi“, sem er smærri. Það er nú svona með þessa gesti heima, þeir koma, en kynna sig lítið, því minna sem þeir eru menntaðri, þó Ameríkumenn hafi verið nafntogaðir um alla Evrópu fyrir bægslagang. Ef þeir rita eitthvað, kemur það út hingað og þangað og einhvers staðar í öllum þessum sandi af amerískum ritum og blöðum. Heima vita fæstir vitund um það, sem varla er von, það er eins og að elta upp dúnfjaðrir úr sæng skessunnar, eftir bylinn. Gæti enginn gert, nema ef dvergur hefði tíma til. Satt að segja væri þetta ekki síður verk blaðanna hér, heldur fremur — en þau hafa hingað til verið enn fávitrari þó, um slíkt. Það verður heldur aldrei neitt úr því, nema einhver hér taki sig fram um það sjálfur, að minnsta kosti framan af. Þegar það svo verður að *sið og fremd,* mun ekki skorta hjálpina. Vilt þú nú ekki ríða á vaðið? Þú ert orðinn þessu máli kunnari en aðrir og hefir nokkur sambönd, sem gætu orðið þér að liði með að gera þig varan við veiðar framvegis. Nefna þá, sem um Ísland rita héðan, og fáort, hvað helzt þeir hafi sagt um land og lýð. Gætir byrjað með því, sem þú nú hefir komizt á snoðir um. Ég ímynda mér, að t. d. Magnús Jónsson tæki slíkt upp í „Iðunni“, og blöðin hérna myndu gleypa það — jafnvel þjóðræknisritið. Viltu ekki leggja upp í þann leiðangur? Hann væri ekki vonlaus.

Þinn Stebbi.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 8. maí 1924.

Góðvinur Jakob minn. — Marga þökk fyrir bréfið þitt. Þá er því fyrst til að svara, að enga ömun hafði ég á spurningu þinni viðvíkjandi Hirti. Ég einmitt gleymdi að svara spurninni, og ætlaði þó að gera það, en datt úr mér, líklega af því, að ég hafði engu að svara, sem sé, veit ekki

enn í dag, hvort hann lagði nokkuð til eða ekkert. Aðeins það, að hann hefir verið mér afbragðs-vinveittur lengi, og var því vís til góðs. Sannleikurinn er, ég veit ekkert í þessu máli, meira en það lítið, sem þú hefir sagt mér. Hefi ekki samvizku til að spyrja neins. Er óánægður við sjálfan mig, fyrir að verða vinum mínum hálfgerð fjárhagsvandræði. Hugsaði eitt sinn svo hátt og heimskt, að eignast efni til að gera þetta af eigin ramleik — en þeir loftkastalar hafa allir hrunið. Gat fyrir löngu komið þessu í verk gegnum „forleggj[ar]ana", en hafði ímugust á þeim, ekki efnahags vegna, fremur hins, að þeir myndu síður láta mig sjálfráðan í tilhögun, og hefir þó sá eini, sem ég hefi reynt, Ársæll, reynzt mér drengur. Þá er því máli lokið, en vinsamlega bið ég að heilsa Grandy.

Nei, ekki kvað ég annað eftir Matthías en vísuna, sem þú kannt. Hafði gert Gröndal og Steingrími áður lík smáskil. Þessir menn voru unaður minn í æsku minni, svo mér fannst skylt að „molda" þá sem minnst. Æfisögu Matth. hefi ég lesið, en ekki séð eftirmælin, þau eru víst alla vega, enda sagði einhver heima, að loks hefði hann verið „grafinn í leir". Hver þessi „þrístirningur" er, veit ég ekki. Eitt vissi ég, „Forni" heitinn — dr. Jón Þorkelsson — orti lengi undir þessu merki, og fáir vissu hver var. Af einhverri ratvísi, sem ég skil varla í, þekkti ég hann strax á fyrstu kvæðum hans, sem ég sá. Hann getur þess framan við kvæði sín ný-útgefnu, að annar maður hafi ort undir sama merkinu, en að hann eigi sjálfur ekki önnur kvæði en þau, sem í kveri sínu séu, og þar er ekkert um M., enda glettist J. ögn við hann sem fleiri; t. d., M. sendi honum að gjöf kvæði sín og bað hann að athuga málið hjá sér, þar væri hann sjálfur svo veikur í, en hann, „elskan sín", svo sterkur. Auðvitað var þetta til vona um vænan ritdóm. Jón á að hafa sent honum bókina aftur alla útstrikaða, eins og gert er við stílabækur skólapilta, því eins og nærri má geta, verða ljóð illa úti, ef beitt er við þau ströngum málfræði-reglum lesmálsins, hversu góð sem þau eru. Þessa sögu hefi ég heyrt, en sanninn veit ég ekki, en líkt var það Jóni — og báðum þeim. Steingrímur minntist á vísu mína. Afsakaði, að hann hefði ekki af henni vitað, en hún væri svo lagleg. Ég sagði

sem var, að það hefði ekki verið til vonar, og ég tæki mér það ekki til, síður en svo. Hann gat þess ekki, að þú hefðir bent sér á hana, en ég þóttist strax vita það, án þess ég gæti um. Hann gat þín, að þið hefðuð átt viðræður og sér verið ánægja að kynnast þér, þú værir svo gáfaður og skemmtilegur. Við urðum „mátar", „sambýlingar" og „sjómenn" á Sauðárkrók. Flest er vel um Steingrím. Nei, Á. H. B. hefir misskilið mig viðvíkjandi „Vígslóða", í góðu skyni, eflaust. Ég sagði að vísu, að „Vígslóði" hefði komið of snemma út, en ég átti við það, að ég hélt, að minni mærð og okkur til minni ósæmdar hefði orðið um hann, þegar menn hefðu enn betur rekið sig á afleiðingar stríðsins og upptök þess, því ég sá það þá ekki fyrir, að málið yrði tekið upp aftur í blöðunum hér. Datt það sízt í hug. En nú sé ég, að ég las rangt í þann lófa. Annars er fleira ekki alveg rétt í grein Á. H. B., — ekki þó það, að framtíðar-efni í „Andvökum" yrði meira en ein bók — svo fer öllum á dómsdegi ókominna tíma, en hitt er óvissara, að jafnvel beztu spámenn vorra daga viti fyrir víst, hverju lengsts lífs verði auðið, í einu og öllu. En slíkt eru smámunir allt hjá Á., þar sem ég er á öðru máli um en hann, og það er ýmislegt, og það vitum við báðir. Aðalefnið er, hann segir allt af velvild til mín, og heima var mér enginn alúðlegri en hann.

Vissulega iðrar mig einkis enn, viðvíkjandi Vígslóða, en eins og á stóð, gat ég ekki leiðrétt, það hefði verið vanþökk, óverðuglega niður komin og óvinafagnaður, við vin minn, ofsóttan að ósekju. Sjái ég mér færi síðar, kann ég kannske að gera grein fyrir mér, geti ég gert það, án þess að ráðast að Á. Ef ekki verður af, verður mér það lítill hnekkir. Bíldfell hefir krúnkað yfir þeirri krás stærra en í henni var. Tilgangur þeirra um árið var auðséður, sá að hleypa að mér íslenzku hermönnunum. Þeir vissu dæmin, blaðamennirnir, þetta tókst við annarra þjóða menn. Þeir létu æsast til að misþyrma mönnum, sem mælt höfðu móti stríðinu. Við Ísl. tókst það ekki, og því treysti ég þvert á móti. Ég hefi orðið þess áskynja, að landar sem í stríðinu stóðu, bæði eystra og vestra, hafa ekki áfellzt mig. — „Það sýnir bezt, hverjir menn þeir eru, hvernig þeir reyna að fara með Stefán, eina manninn, sem stóð með okkur

hermönnunum“, hefi ég heyrt haft eftir Íslendingi, sem á heima vestur við Kyrrahaf. Þetta er nú löndum mínum til hróss — ekki mér.

Okkar á milli, það er misminni Á., að ég kvæði nokkuð við hann, þegar við skildum. En hér heima afhenti ég honum ljóð frá öðrum manni í fjarlægð, sem bað mig fyrir það og tók fram, hvernig á stóð. Hitt bað ég hann hér heima, að „tína gull úr taði Enníusar“. Hann var að lesa handrit mitt, og annað hitt, hann bað mig heima að leyfa sér að gera „úrval“, og ég hét honum því, þegar allt mitt rugl væri út komið. Hefir ef til vill gleymt því, og ég minnti hann ekki á það, en ætla að efna það, vilji hann það enn. Hann yrði eins góður og aðrir. Ég skildi, að ég held, hvað undir bjó. Hann og Guðmundur Finnbogason eru keppinautar, en vinir. Guðm. gerði „úrval“ úr kvæðum Matth. Mig grunar, að Á. hefði viljað verða til þess. Á. fann að gjörðum G. Úr því varð ritdeila, nokkuð hvöss. Ég hefi lagt svo fyrir, að Á. megi eiga við mitt dót, ef hann vill. En reyndar flíka ég þessum barnaskap við fáa. — *Við* biðjum hjartanlega að heilsa nafna okkar, hann sem hann heitir eftir, og ég.

Sólskin og sunnan stormur
Sitja í dag um mig.
Sólskinið einsamalt óska
Eg að skíni um þig.

Vinsamlega Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 15. maí 1924.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Fyrir 2—3 dögum ætlaði ég að vera búinn að svara þér, því þá kom bréfið þitt, og bjóst til að svara strax, meðan minni og tóm væri til. En eitt rak annað, og óvænt, t. d. varð ég svo lánsamur að taka eftir, að maður myndi hafa „hrasað“ hér austur á veginum og „meitt“ sig — ekki meðal ræningja, heldur út úr vagnsæti á ferð. Svo gekk þá sá dagur minn í að stumra yfir honum, með öðrum, hingað heim, og leita læknis og „hospítals“. Þetta var karl vesalingur innlendur, höfuð hans orðið undir hjólinu á vagninum, meiddur en með ráði, hvernig sem honum kann að reiða af. — En

þetta átti að verða bréf, en ekki sjúkdómslýsing! Því miður held ég „Bíldur" hafi hvergi hreyft vistarráðum dr. Guðm., þegar hann var hér í skólaerindum um árið. Ég heyrði þess hvergi getið, en hitt er þó enn meiri ástæða, að Jón okkar Sveinsson, sem keyrði hann um hér, sagði mér óaðspurt, þegar þetta mál byrjaði hér í blöðunum, að þrátt fyrir allt ætti „Bíldur" það, að hann hefði hvergi imprað á því hér. Þeir eru gamlir járnbrauta-þrælar og kunningjar frá „duggarabands-árum" „Bílds" hér, og því leitaði hann til Jóns, sem ekki var þó um erindi hans. „Bíldur" heimsótti mig þá, en beiddist einkis. Sveif hér inn og sagði mér, til formála, „að af því hann hefði átt erindi um byggðina, hefði hann viljað koma við hjá mér, en ekki þyrfti ég að óttast sig, því mig myndi hann láta í friði, hann kvaðst vita, ‚hvar ég stæði'." Ég svaraði því til, að velkominn væri hann, erindi hans vissi ég vel og óttaðist ekki, en vel færi á að ræða það ekki, af því það myndi verða árangurslaust. Svo spjölluðum við um ýmislegt annað. Mest um minnisvarða Jóns Sigurðssonar, sem þá lá í láginni. Ég braut upp á því og taldi öll sömu tormerkin við þinghússflötinn, eins og í „Bautarímu", sem þá var ókveðin. „Bíldur" hvorki meðgekk né mótmælti og ég fann af því, hvað „með manninum bjó". En um hendingu hjálpaði hann mér, sem ég ekki kunni. Hann sagði: Það lakasta væri, að sumir varðafélagar Jóns, sem yrðu á þeim Þingvelli, hefðu verið „haffbrídar"! Auðvitað stóð mér það á litlu, en forðaðist að skemma það og notaði í „rímuna" í hendingunni: „Brezka kóngsins kynblendingum", svo þú sérð, að „Bíldur" kvað „rímuna" þarna með mér! Annað vissi ég ekki um ferð hans, nema hvað sumir lofuðu meiru en ég bjóst við — og ef til vill þeir sjálfir, síðar, en mér er sagt af kunnugum, að svo að segja allt hafi borgazt, og ekki var séra P. neitt ákafur, að séra J. A. S. kæmi hér út frá Innisfail í fyrra sumar. Hann komst þangað og þeir töluðust við gegnum síma, og hefði J. komið, ef P. hefði þótzt geta sótt hann og hvatt hann til — en svo kom þá líka tengdamóður-látið með hraðskeyti, rétt á eftir, svo J. rauk austur, en var setztur upp á gistihúsinu í Innisfail.

Ég var nýbúinn að senda þér kvabblínur. Endurtek ekkert af því. Hugmynd mín er, að ef svo væri, að einhver af

ykkar liði gæti átt erindi hingað, hvort ég gæti ekki látið Ísl.dag hér létta undir með fargjöld o. s. frv. Annars er allt óákveðið enn og okkur verður sífellt á. Ég skildi vel, hvert stefndi, strax og árásin á dr. Ág. var hafin. Það er engin hætta á, að þeir láti „togna á trúnni", þó þeir tali um að „slaka á klónni" — þeirri trú sinni að geta „engan vitað heiðri tignaðan nema sig". Hefði Ág. bara hnýtt að mér og þér og frjálslyndi, mikill dýrlingur hefði hann orðið þá í Lögbergi, og þess betri því fjarstæðari! Þeirra flokkur lifir sífellt í þeirri sáluhjálplegu og einu, sönnu trú, að það sé guðs vilji og sinn réttur að naga upp allt, sem þeir nái til. Við öðru er aldrei að búast hjá þeim, sem ekki kunna mun á kreddu og drengskap. En deilan verður til góðs — ókunnugir skilja nú, við hvað var að búa. Loks hafa þeir sagt það *sjálfir*. Við höfum hingað [til] verið of friðsamir, hlífzt um of við þá, ekki okkur sjálfum til saka — en málefnum. Öll til-látssemi við þá er aðeins til ógæfu, þeir virða okkur það aðeins til vanmættis og strákast því meira upp. Ég þykist lengi hafa vitað slíkt og séð fram á. Þeir verða aldrei siðaðir „biskupar", nema þeir séu „barðir til", eða fyrirfari sjálfum sér! og það eru þeir senn vel á veg með. Það gerir minnst til, hverju maðurinn trúir, sé *manninum* trúandi, en það er þeim hvergi. Ég trúi því, að Þjóðræknisfél. væri happ að losna við þessa 23, og alla þeirra taglhnýtinga.

Það var viðbúið — sjálfsagt, að þeir spilltu sölu „Andvaka", eftir því sem á undan var gengið. Set það ekki fyrir mig, ég fæ meiri hlýju úr öðrum áttum og betri fyrir þær en því svarar.

Kæra þökk fyrir sendinguna — dalina fyrir kvæðið. Eyford var búinn að segja mér þetta. Ég fékk bréf frá honum, að þýða þetta fyrir sig. Kannaðist varla við manninn, en gjörði það þó, sem ekki var nú þrekvirki. — Nú veit ég ekki meira í bráðina — og vertu nú blessaður!

Vinsamlega Stephan.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 2. júní 1924.

Góðvinur Jóh. — Þökk fyrir lánið á „Geirbjarnarskeri", sem ég sendi nú heim til sín aftur, með „óskum alls góðs"!

Því er nú miður, ég er engum til liðs sem vog á verk annarra, sízt á „sögur“ og „leikrit“. Þar hefi ég orðið utangarðs, kannske sökum vanefna til, en sannarlega vegna tímaleysis. — Ég rataði á þetta rím, ef til vill vegna þess, að aðstaða mín bauð ekki til annarrar setu — ég komst ekki til annars. Auðvitað hefi ég *í því líka,* fyrir sjálfan mig aðeins, mína eigin duttlunga, ánægju og ólund. Sé eitthvað í þeim firrum mínum íhugunarvert, væri það af hendingu — ekki af hyggjuviti mínu á slíku. Allt, sem ég get hugsað mér, við að lesa leikrit, er, að ég sitji á bekk og sjái leikinn, og marki áhrif hans á mig — eftir því sem mér skilst hann.

Leikur þessi er „Nitsjisk“ niðurstaða (af „Frederick Nitchze“: nafni þýzka heimspekingsins, ef ég stafa þetta slafneska? nafn rétt: c-in og z-urnar. En þú skilur, og þessi stafa-margföldun kvað hljóða sem einfalt ess.) Það sem ég á við er: Hermaðurinn þinn er „afarmennið“ hans, sem eitt stendur upp úr „ragnarökum“, fyrir afl og fegurð, líkamshreysti, hálft dýr og hálft maður, eins og „Elg-Þórir“ okkar. Að vísu, er ég sjálfur marg-hugaðri, en lygi er þó sá dómur, að niðurstaðan sé tómt dýrsæði. Aðalhugsunin hjá „Friðrik“ (og þér þá líka) er sú: að allar þrautir séu þó þolandi, til þess að framför og farsæld mannanna fáist, og þarna sé von og vissa. Ef til vill sé ég frá *þínu sæti* annað en *sjálfur þú.* En það breytir engu — leikurinn eins góður fyrir því í sjálfu sér, t. d. „sporin í bergið“ ágæt, og presturinn albróðir „gauksins“ þíns og „verulega“ broslegur — meira en fyndni, háð, sem er ánægja að.

Annars er heimspeki „Nitchzes“ algerlega trú forfeðra okkar — og mér því kær — meðan þeir enduðu hana með Valhöll, og áður þeir bættu „Baldri“ við, og sjálfur held ég, að hann sé ekki Hvíti-Kristur, fenginn hjá Gyðingum, heldur eðlileg framþróun Ásatrúar — nokkuð sem öll merkustu trúarbrögð, heimspeki og skáldskapur enda loks á, gegnum alla kreddu-vafningana.

Þá er nafnið. Ég vil engu heiti ráða, nema minna eigin krakka. En þakka þér þó vilja þinn að gera mig að „guðföður“. Byron segir einhvers staðar í vísu, að mig minnir, að nú sé sér að förla: orðin komi ekki eins ört og áður. Ég skil það. Hitti eitthvað mig lúinn eða lasinn, eins og

oft vill til, sprettur ekkert upp í huganum, og ég verð leiður á sjálfum mér, sem er mörgum veikjum verra. Svona stóð á mér, kvöldið sem rit þitt kom og ég las það. Jónas þurfti að éta nautasteik, segir sagan, til að geta botnað: „Þú stóðst á tindi Heklu hám“. Ég þurfti að hátta, sofna og vakna aftur, til að láta mér detta eitt lélegt orð í hug, og það var „kletta sýningin“ í leiknum, sem vakti upp forn minni. Mér þykir vænt um athugun Sig. Nordals, að fornmenn og við séum líkari en menn hafa hugsað. Það vakti oft fyrir mér, t. d. í „Norna-Gesti“. Nú hefi ég oft hugsað um harmaleikinn í íslenzku landnámunum forðum: Vínland, Grænland, t. d., en hörmulegast er æfintýrið í „Landnámu“ um Gunnbjarnarsker. Bókina á ég ekki og get ekki vitnað í. En, aðdragandanum lýsti séra Magnús Helgason af miklum skilningi, í Tímar. Þjóðr.fél. okkar í fyrra. En við þá „landkönnun“ hlutust slys, víg og voði, fall skálds: Styrbjarnar Galta, o. fl. Styrbjörn var, að líkindum, sæfara skáld, af írskri konungsætt í kyn fram. Svo settist það í mig: *Þetta leikrit er Gunnbjarnarsker hið nýja,* og svo skal ég skýra það — fyrir mig!

Gunnbjarnarsker veit enginn nú hvar er — líkl. einhver ey, nálægt austurströnd Grænlands. Fannst frá Íslandi. Kennt við nafn þess, er fann. Þaðan fundu Íslendingar Grænland, frá Grænl. Vínland, o. s. framvegis — sem sé, þeir höfðu stigið yfir þröskuld landnámanna sinna, með að hitta Gunnbjarnarsker. En, um þetta nafn! „Gerðu við mig, hvað þú vilt!“ sagði nunnan við munkinn í kvæði Eggerts Ólafssonar, og svo er því máli lokið.

Jú, í öllum bænum, bjóddu séra Rögnv. ritið fyrir næsta árg. „Tímar.“ — þó ekki verði nema til að þú fáir skömm fyrir, og þið báðir, ef hann skyldi þiggja það. Það er upphaf þinnar gæfu, eigi hún nokkur að verða (og meira að marka en þó ég spái góðu), að þeir skamma þig, sem ekkert skilja, eins og þú segir þeir geri fyrir t. d. „Apann“. Á Íslendingadagsfundi í gær sagði t. d. einn sveitungi minn um mig, upp úr þurru: að ég væri sá maður, sem hefði orðið þessari byggð til mestrar skammar og bölvunar, í blöðunum.

Ef þér ræður svo við að horfa, máttu láta séra R. vita um þetta raus mitt um rit þitt. Ekki svo að skilja, að ég

ekki viti, að mín orð ráða engu um. En það er undarlegt, hvað álit, sem jafnvel er þó heimska, getur stundum orðið til þess, að maður átti sig fljótara á einhverju, og rétt.

Nei, ég gleymdi ekki, að ég skrifaði greinarstúf um ljóðakver Magnúsar — jafnvel annan um Únítarakver Björns heit. Péturss. — hann mæltist til þess og við vorum vinir. — En slíkt tel ég engan ritdóm, það var eins konar „viðurkenning“ —: *appreciation*, eða: aðeins umgetning.

Jú — skrifi „kella“ mér, en það verður varla, skaltu fá að sjá það.

Heyrðu, að forfallalausu verður Íslendingadagur haldinn hér 17. þ. m. Máske þið Magn. viljið þá vera hér „bifríðandi“. — Ræðupallur verður til! og sveitin í hátíða-buxunum báðum. „Segðu mér nú að sunnan!“

Fyrirgefðu svo þessa „lengd og breidd“, en ómakaðu þig ekki um „dýpt né hæð“ á þessu klóri, og vertu svo sæll!

Vinsaml. Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Heima, 13. júní 1924.

Grímur minn. — Kem bara til að láta þig vita, að við eigum von á séra Friðrik frá Wynyard til að tala hér þann 17. næstk., Mrs Gun, forseta Albertu-kvenna, auk fleiri. Svo verður annar gauragangur, líkt og vanalega — eða vel það. Þú getur svo látið aðra landa vora vita þetta, þó líkl. sendi einhverjir auglýsingar.

Segi ei fleira að sinni —
Fer eins og fló á skinni!

Vinsaml. S. G.

*Grímur S. Grímsson.* Heima, 20. júní 1924.

Grímur minn góður! — Ég legg hér með bréf til mín frá Jónasi okkar Hall. Þú skilur efnið við að lesa það. Getur þú komizt þess á vit, sem hann mælist til? Ef svo er, láttu mig vita með línu, svo fljótt sem þér er fært. Ísl.-dagur tókst all-vel, held ég. Séra Friðrik frá Wynyard kom og fór strax. Hélt fjöruga ræðu *um íslenzkt rím.* Alla leið frá Elfros komu J. Magn. Bjarnason og dr. Jóhannes P. Pálsson og Jón Guðmundsson, kaupmaður — Garðar-

piltur að fornu fari, sonur Hallgr. Guðmundssonar löngu liðna, nálægt Garðar. Þeir gistu hér hjá mér. Komu í bifreið alla leið. Lögðu heimleiðis í gær, gegnum Calgary. Ætluðu lítið við að standa þar. Óvíst þú hafir orðið þeirra var, þó ég geti um það við þig. Hafa líkl. farið frá Calgary í gærkveldi.

Kæra þökk fyrir sendingarnar, blöðin og bækurnar. Ég skrifa svona skammt. Er eftir mig og í önnum að koma þessu sem fyrst frá mér, lifði í eins konar „andlegu svalli" meðan þeir Magnús og Jóhannes voru hjá mér. — Vertu blessaður. Þinn gamli S. G.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 4. júlí 1924.

Góðvinur Magnús minn. — Þökk fyrir komuna, skemmtunina og bréfið. — Ég bý að því öllu enn og veitir ekki af, ég er annað veifið slæmur af þessari „innanhnjósku" minni, sem ég gat um við Pálsson. Annars er allt með „ró og spekt", jafnvel regnleysið og hitarnir, sem helzt ama nú að —. En hvernig líður þér? Hefir þú náð þér eftir svefnleysið? Ég vildi, að ég hefði mátt búa þér „flatsæng" í greniskógi, kveldin þau. Á slíkum „svanadúni" hefi ég ekki sofið síðan ég var útilegumaður, eins og „rómantísku" skáldin okkar lýstu „bælum" „kóngsdætranna" fögru, í æfintýra-ljóðum sínum: Er „Svanhvít á dúni svanafríð" t. d. Ég hefði verið búinn að senda þér línu fyrr, væru ekki ýmis ónæðis-strá sífellt að stinga mig, oft þau, sem ég á enga von á og ætla að komast hjá. T. d. 12. þ. m. verður smérgerðin okkar hérna 25 ára gömul, ein sú elzta og skrykkja-minnsta í fylkinu og forgangsverk Íslendinga hér. Fyrir ári síðan ákvað „ráðið" að gera úr þessu hátíð. Ég hefi verið utan við fundarhöld síðan ég losnaði við ráðsmennsku í nefnd. Umsjónarmaður smérgerðar í Alberta er danskur maður, Carl P. Marker, sem Markerville er við kennt, þó ekki réði ég því nafni. Varð að láta það hlutlaust, sökum aðstæða. Ég var honum ögn kunnugur áður fyrr. Hann var okkur hlynntur. Hann er nú orðinn „meistari" og „doktor" að nafnbót og „riddari af Dannebroge". Honum er boðið og á að færast skrautritað ávarp.

Tveir „ráðsmenn“ voru sendir á mig, til að semja þetta. Ég þverneitaði. Loks kom „forseti“ sjálfur, Daniel Mörkeberg danski. Við erum góðvinir, vorum samverkamenn að þessu fyrstu 8 árin örðugustu, hann forseti, ég féhirðir og ritari. Hann forseti enn. Ég losnaði, feginn, með afsögn. Reyndar vissi ég, að það var hann og ég, sem mestan botninn bjuggum til. Til að geðjast honum, gat ég ekki neitað lengur að reyna þetta, hann lagði svo fast að mér. Auðvitað var þetta hvorki stórt né langrar stundar verk, en ég ætlaði að komast hjá því og kunni fátt til slíkra starfa, — en svona gengur það, í mínum búskap, svo ég verð oft allur í ótal molum, og hver fyrir sig handaskol. Þetta er mín afsökun.

Lengi höfum „synt á sel“
saman lífsins „hafið rauða“.
Láttu þér nú líða vel. —
Lifðu alla karla dauða.

Vinsamlega Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 5. júlí 1924.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Ég hefi þagað nú nokkra daga við bréfinu þínu seinasta, bjóst við, að þú hefðir nóg af vantrú á þinni könnu þessa daga, sem þing stendur yfir, þó ekki væri ég að bera í bakkafullan læk! Ekki vænti ég þó, að þið hafið nú gleymt að samþykkja „frið á jörð“, eins og ýmsir aðrir „trúvillingar“, t. d. einn meþódista-presturinn okkar í Alberta, sem í stríðinu var og lýsti því á þinginu þeirra, hvernig sér hefði orðið um að vera í „nautaréttinni“ — „bullpen“ nefndi hann það, — þar sem honum voru kennd seinustu „sláturstörfin“. Hann lýsti þeim öllu verr en ég í „Vígslóða“, þar sem ég minntist á þau. Ég held, að ég og hann séum í „sama söfnuði“.

Þrátt fyrir allt fengum við þó íslenzkan ræðumann: séra Friðrik, eins og þú eflaust veizt! En sögulegt ætlaði það að verða, og varð! Ræða séra Fr. „Um ísl. rímlist“ þótti víst flestum skemmtileg — eina eða tvær undantekningar hefi ég þó heyrt. „Það hefði átt að berja þennan langa slána með spýtu ofan af ræðupallinum fyrir slíka ræðu,“ hefi ég heyrt haft eftir einum. Ekki veit ég, hvort það var nema

„samstilling sálarkrafta“ hans, fremur en viðbjóður hans á „vantrú“, sem hvergi kom í ljós, en eitt sinn var sá sami einn helzti safnaðarstólpi og fór með „sjóðinn“, meðan „guðs kristni“ stóð hér á íslenzkri jörð í Alberta, sú sem kennir sig við Lúther og Evangelium.

Jú, ég og kona mín, Kristinn og Lauga, vorum boðin í brúðkaup „Halls“ — en komumst ekki, og Hnausa-boðið varð ég að afþakka. Fyrst og fremst geng ég ekki vel heill til skógar, sem heldur hefir ágerzt í bráðina. „Takið úr mér svangann og langann! Fram þarf ég í gilið að ganga! Takið úr mér svilin og vilin! Fram þarf ég í Mjóafjarðargilið,“ kváðu heilluðu heimamennirnir, samkvæmt þjóðsögunum okkar, þegar yfir þá kom æðið að hlaupa í tröllahöndur. Og svo, ég má varla að heiman fara. Við erum ekki nema tveir í takinu hér heima, þó nokkuð að bjástra við, og þó afköst mín séu lítil eða engin, þarf þó mann í minn stað, sé ég fjarverandi, og jafnvel oft þó ég eigi að heita viðlátinn, en vinnufólks-hald er að hlaða á sig ómegð, eins og nú stendur, þó ekki verði alveg hjá komizt.

Rétt nú kom bókargjöf Huldu til mín með þinni utanáskrift. Þökk fyrir. Hér um slóðir ganga þurrkar sem stendur og hafa kippt úr öllum gróðri, sem áður leit vænlegar vonum út, svo svalt sem viðraði þó.

Blæs ei í brjóst mitt inn
Bónstafa ljóð.
Vil þó að veröldin
Væri þér góð!

Vinsaml. Stephan.

*Sveinn Björnsson.* Markerville, Alta, 17. júlí 1924.

Góði, gamli félagi. — Þökk fyrir grein þína í „Lögb.“ og bréfið. Ég hefi heyrt þá, sem mér eru hliðhollir, hæla greininni þinni. Eðlilega þótti mér vænt um hana, ekki sízt þar sem gamall félagi minn þorði að skera upp úr, og þess mátti af þér vænta, fyrst þú tókst til máls, þegar aðrir þögðu. Ég skildi vel, að undir mig lá „slagur“, að þú hafðir „spilað þannig út“, hefði ég getað við snúizt. Um Lárus er mér sama. Hann hefir elt mig í blöðunum í nær 30 ár, og þó verið rekinn heim með sumt í ritstjóratíð Stefáns

Björnssonar og séra Rögnv., sem báðir eru mér vinveittir, og það þó við frændur, Stefán og ég, sitjum ekki í „sama kór“. En ég hafði ætlað Lögbergi og „Bíldi“ lítilræði af leiðréttingum út af Ágústar-málinu o. fl., en úr varð úti-deyfa. Það var lengi ógerningur á að bæta, og deilt út um allan hvipp og hvapp, þar sem ég var ókunnugur og utan við. Ég er æfinlega í önnum: dagleg störf, skriftir og bréf óaflokin og ég lasinn eða latur. Því varð nú ekkert úr þessu. Það er þá bara einni fjölinni fleira hjá mér í gólfinu á því Víti, sé það satt, að það sé gert úr góðum ætlunum, sem svo voru undir höfuð lagðar. Eiginlega þótti mér þó deilan þörf. Svo margt kom upp í henni af okkar vestrænu ómennsku, að t. d. *menn heima* á Íslandi skilja afstöður betur en áður og vita heldur, hvað við var að búa hér — fyrir þá, sem frjálslega hugsa og ekki eru að „maka sinn eiginn krók“. Það raktist margt ofan af refjum Lögbergs. Hvernig sem reiknað var, var t. d. „Bíldi“ ekki hægt að fela 700 til 800 doll., sem þeir ætluðu að hafa af „konunum“, fram yfir sannvirði, auk margs annars. „Klæki vantu þá Þórr, er þú á konum barðir,“ segir í Eddu. Upp á séra Rögnv. stóð ekki, nema helzt vottorðin frá Wynyard, um gyllingar með Guðm. Finnbogasyni, í skólabetli „Bílds“, en sú saga gekk þar, heyrði ég.

Eftir útliti að dæma, var grein dr. Ágústar aðeins kafli í væntanlegri, lengri ritgerð, gripin út úr, af því svona stóð á með mig. Ekki veit ég það þó! Fékk bréf frá honum nýl. Ekki á þetta minnzt. Aðeins gat um, að hann ætlaði að svara „Bíldi“, en hætti við, þegar séra R. slóst í leikinn — enda langt til-drátta. Steingrímur læknir sagði mér í óspurðum fréttum, að hann hefði hitt Ág. í svip í Reykjavík og hann sagt sér, „að aldrei myndi sér það gleymast, hve vel Vestur-Ísl. hefðu við sér tekið“.

Nýlega hefi ég lesið „The Brass Check“ Sinclair's. Er nú að lesa í aðskotum „The Cry for Justice“, sem hann hefir safnað til. Hafði lesið „The Jungle“ fyrir löngu. Kynntist honum ögn, árla á árum hans, þó ekki vissi ég, hver var. Ég las í tímariti „The Journal of Arthur Stirling“, sem deilan stóð um, fyrst þegar sú saga kom út, og eitthvað fleira. Hann er, eins og Brandes gamli sagði, og Sinclair kannast við, endurbótamaður, á undan að vera lista-

maður, en hver kann að lasta: að höfundur leggi listina í sölur fyrir nakinn sannleikann?

Já, gaman væri að hitta ykkur einu sinni enn á „guðs grænni jörð“, ef svo mætti takast, því:

Vera skulum masknir menn,
Meðan upp úr náum.
Gamlir fauskar sveipast senn
Sandi, í holtum gráum.

Mér sjálfum líður ekki illa, eftir aldri, né neinum minna, sem stendur, en gaddhraustur er ég ekki orðinn, svona að innanverðu, nema í svip og svari. Kristinn og Lauga eru enn býsna brött líka. Bið þig að bera konu þinni kveðju okkar, og fyrirgefa klaufna-klór mitt. Ég hroða öllu af í flýti, síðan ég komst í það að kveða prentvillur í blöðin, því þau gerðu þá verst, þegar ég vandaði mig bezt, og þá er helzt ráð að hafa „syndaskipti“, eins og einn fermingarbróðir minn las orðið „sinnaskipti“ í kverinu okkar. Ári þér svo ennþá lengi til heilsu og hamingju, Sveinn!

Vinsamlega Stephan G.

*Sveinn Björnsson.* Markerville, Alta, 27. júlí 1924.

Góðvinur Sveinn. — Nei, láttu „Lalla“-bréfið eiga sig í bráð. Tæplega heimilt að taka það allt og prenta, að honum fornspurðum, fyrr en hann gæfi tilefni til, með nýrri heimsku. Óvíst, að blað tæki það að svo búnu. Ég skil ekki í einu: Að venju hefði hann verið búinn að senda þér óbóta-hroka-skammir fyrir „Opna bréfið“, og að sjálfsögðu í „Lögb.“, ef hann ætti þar gang að. En hvað „dvaldi Orminn langa“ nú? Það er mér gáta. Var honum einhvers vegna lokað hliðið þar? Ef til vill hefir „Bíldur“ ekki grætt, sem hann bjóst við, á vinsældum „Lalla“ fyrir það, sem þeir hafa til mín lagt nú í hálfan mannsaldur, síðan „L.“ tók mig að sér. „Lalli“ hefir þann sið að ljúga sig inn á blöðin á víxl, með skjalli, þegar þau finna, að hann er að verða þeim til skammar, og úthýsa honum, eins og hefir komið fyrir. Reyndi hann svo nú að viðra sig upp við ritstj. „Hkr.,“ til að koma þar einhverju „óféti“ um þig, en ritstj. neitaði — hafði hann af sér með því að segja,

að ég væri á förum? Það gat verið flugufótur fyrir því. Ég hafði skrifað séra R. sem satt var, að ég var lasinn. Ég hafði afsagt Ísl.dags-nefndinni í Hnausa að koma og tala þar 2. ág. og borið við, að ég treysti mér ekki sökum lasleika, sem bæði var satt og góð afsökun. Annars getur „L." logið þessu öllu, og sjálfsagt snýr því við, sér í þann hag að láta þig halda, að sér hafi gengið góðmennska til, hefði hann ekki komizt að í blöðunum til að skamma þig. Maðurinn „andlegt ótæti" og fáfræðingur, sjúkur af sjálfsáliti og öfund. Þú heldur kannske, að ég sé svona í reiði minni við hann. Nei, hamingjan sönn! Það er nær ég aumkvi hann — en fyrirlíti þá ritstjórn, sem ekki sér, að hann er sér til ósæmdar — vestur-ísl. blaðamennsku yfirleitt. Hann rausar: flaður eða illgirni og sjálfshól, en skortir dómgreind í hvívetna og sér ekki út úr eigin augum, því hann veit ekkert utan við sig. Við slíka menn verður ekki deilt á annan hátt en með kímni eða kinnhestum. En þeir eru hættulegir, með hroka sínum ljúga þeir fulla sér jafneinfalda en betri menn, sem halda, að vaðall þeirra sé vit. Ég vil ekki eyða þér, Sveinn minn, á slíkan óþrifagimbil, að fyrra bragði og að svo komnu, enda stendur enn „Opna bréfið" þitt ósvarað í blöðunum, svo þú átt „síðasta slag". Beri nýtt við, kann nauðsyn að verða til að taka í hann.

*Lalla-lýsing.*

Sérhvert fákænt sultar-blað,
Sem að þínar lellur tók sér að,
Skar upp tóman skaða af þér!
Skömm, sem fegið þurrka vill af sér.
Fleiri og fleirum finnst nú við sér klígja!
Fest því við það er
At þíns skjalls, þín yfirlætis spýja:
Eðlisbróðir gorkúlna og dýja.

Ég hefi gert tilraun: Sent séra R. úr bréfi þínu línuna þína, um að þér hafi orðið hverft við heilbrigðis-tíðindi „L." um mig, eins og hann orðaði og bar ritstj. „Hkr." fyrir — sem líkl. á þó við Sigfús — og nokkrar hendingar til „Lalla" — ekki þessa hérna — hún spratt núna. Nú

ætla ég að sjá, hvað úr verður — hvort þetta verður prentað — það er meinlaust, má heita — eða ég fæ svar í bréfi — eða að verði „þögn á þingi“, og læt þig vita, verði svarað. Taki „Kringla“ línur mínar, rís „Lalli“ upp á afturfótum, einhvers staðar, ef hann getur, og — þá máttu eiga hann, Sveinn! Það er satt, ég er lasinn stundum. Ég hefi næstum alla æfi gengið með kvilla, sem ég veit, að bæði er ætterni og afleiðing af tveimur stuttum legum, „þegar vær várum yngri“. Það er einhver innyfla-veila — en hver veit ég ekki, né hafa læknar getað sagt mér, þá sjaldan ég hefi til þeirra leitað. Eins og eðlilegt er, með aldri eða sliti, er það nú nokkru ásæknara, eða ég óþolnari en þá, þegar ég var sprækari. Aldrei hefi ég talið þetta sjálfsagt banamein — en það kann einhvern tíma að verða aðstoð þess. Það veit ég hvorki né sakast um. — Jú, ég reyni að hlífast við sem mest. Er linari en ég var, latari en ég var, svefnugri en ég var. Mest leiðist mér, sé hugur minn svo utan við sig, að ég finn til þess, að nú geti ég hvorki lesið né bollalagt með sömu elju og áður, því þá leið mér bezt, þegar ég var með fullu fjöri, en átti svo annríkt, að ég sá ekki út yfir það, sem ég þurfti að vinna, lesa og skrifa.

Ekki er ég smeykur um að verða rekinn úr landi nú né ofsóttur fyrir „Vígslóða“, þó allur heimur skildi hann, af öðrum en þeim, sem ekkert gæti og enginn myndi taka tillit til. Einu sinni stóð það hæpnara, en aldrei eins og jafnvel sumir, sem mér vildu bezt, voru hræddir um. Ég viss ögn mínu viti; hefði á verið hert, stóðu aðrir hallt, einmitt þeir, sem mest hrinu. Ef til vill gekk það meira til en góðmennskan þeirra. Og nú — „guð og menn og allt er orðið breytt“, jafnvel beztu menn í Bandaríkjunum kysu engan fremur forseta en La Follette, landráðamanninn, nú lengi einn af mínum uppáhöldum. Gamla heimalandið mitt, Wisconsin, orðið eitt siðbættasta fylkið í Bandaríkjunum, sem var eitt ið auðmannariðnasta, þegar ég bjó þar forðum. „Still she moves,“ át svertinginn eftir, þegar hann fann, að hann rak sig á það, að jörðin hlaut að snúast, hvað sem prestur hans og ritning sagði.

Sveinn minn, það ég vona og vil,
Þú verðir enn svo hraustur,

Að þér fjölgi fjaðrir til
Að fljúga hingað austur!

Vinsamlega Stephan G—.

*Sigfús Blöndal.* Markerville, Alta, 13. ágúst 1924.

Góðvinur Blöndal. — Innilega þökk fyrir bréf þitt og bókina. Mér er vansi í að hafa ekki viðurkennt það, fyrr en eftir fleiri mánuði, en þú afsakar það. Ég hefi verið hálf-lasinn um tíma, en haft útiverk á hendi, þangað til nú nokkra daga, að ég lagðist upp í leti til að reyna, hvort hún læknaði mig ekki í bráðina.

Um „Ynjurnar“ ykkar Evripidesar þykir mér einstaklega vænt, helzt af því, að svo stendur á þeim, sem er, að þær eru frá *þér* og *þitt verk* á þeim .... „Getir þú veitt mér vogstöng og fótfestu utan við jaðar vorrar jarðar, mundi ég geta hreyft hana“, er haft [eftir] einhverjum fornspekingi — var það ekki Arkimedes? Einmitt sama skortir mig, þegar grískar bókmenntir væru umtalsefni — mig skortir alla fótfestu, og fram yfir það! — En ég kann að meta velvildina, sem veitti mér gjöfina.

Þú ert lánsmaður að fá að leggja lokahönd á áætlunarverk þitt, orðabókina, og hvernig sem fer, verður hún móðurmáli þínu til þarfa og þér til sæmdar. Þannig munu vitrir menn og vænir um dæma, og það eitt myndi meira en bjarga, þó einhverjir risu upp og segðu, að þetta væri því til skaða og þér til skammar, sem varla verður. Það litið, sem ég hefi séð orðabókar þinnar getið, er mest í eina átt: lofsamlegt. Einhver saknaði, að ekki var meira í bók þinni tekið upp úr eldri íslenzku. Ég efaðist um, að það hefði verið þitt ætlunarverk, verið vinnandi verk undir þinni aðstöðu, né bráð-nauðsynlegt. Annars kann ég engan dóm á það að leggja.

Nú ættir þú að fá einhvern Ameríkumann, um-færan, til að rita um bók þína í tímarit vestan hafs, t. d. ætti það að vera nærri „skandinaviskt“ skylduverk fyrir rit eins og „Scandinavian Review“ eða „Scandinavian Studies and Notes“, ið litla en að ýmsu leyti bókmennta-bragðlega tímarit Svíanna hér.

Ég ætla þá ekki að mærða meira við þig nú. Það var

ekki aðalerindið, og kannske ert þú nú í „höfn kominn“, svo þetta verði að elta þig uppi, af því ég silaðist svo seint á stað. — Verði þér flest til vegs og gengis.

Vinsamlega Stephan G—.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 14. ág. 1924.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Ég skal óðara komast að efninu. — Manstu, að þegar þú komst hér síðast (með dr. Ág.), fór ég meðal annars þess á flot við þig, hvort þú vildir gera svo vel að taka því að gerast *ráðsmaður míns andlega þrotabús,* þess sem ég hefi ritað um dagana, bundið mál og óbundið, prentað og óprentað, o. s. frv. Þú tókst því vel. Ég bað þig að fá gerða hjá lögmanni þannig lagaða erfðaskrá og senda mér til undirskriftar og skjalfestu. Tvær óskir þar að lútandi bar ég fram við þig, aðra, að þú afhentir „Þjóðræknisfélaginu“ að lokum allan útgáfurétt þess alls, sem eftir mig liggur, á þessu sviði, svo framarlega, að það hefði ekki lent í ómildra höndum: höndum eigingirni og afturhalds, því þá væri að fela þetta félagi einhverju heima. Það gæti, af tilviljun, einhvern tíma orðið áhættu-efni til bæklings, hraflaðan upp úr því, og fárra króna hagur einhverju því félagi, sem ég ann þess vel. Í *því skyni* dettur mér þetta í hug. Hin óskin var sú: Að ef að dr. Ág. vildi gera eitt þetta „Úrval“ úr ruslinu, yrði hann látinn verða fyrir því, þó mér sé það ekki lagaboðorð. Það var misskilningur dr. Ág., í „Iðunni“, sem í ljósi lét, að ég hafi mælzt til þess af honum að fyrra bragði, með orðum mínum um að „tína gull úr taði Enníusar“. Ég sagði: „Nú getið *þið* (nefnilega þeir, sem læsu), af því nú væri ég þegar kominn allur út“ o. s. frv. Hitt er, hann bað mig þessa sjálfur að leyfa sér þetta, þegar ég var heima 1917, og ég hét því og vildi efna það, væri honum hugur á. En við höfum þó aldrei minnzt á þetta síðan. Eins misskildi hann, að mig iðraði „Vígslóða“. Ég aðeins sagði, „að hann hefði komið ögn of snemma út, áður en fleiri hefðu áttað sig á afleiðingum stríðsins“. Nei, ég var ekki gerður til „iðrunar og afturhvarfs“, en Ág. hefði verið illa launað af mér, hefði ég mótmælt þessu opinberlega, eins og á stóð. En hvorug þessi „ósk“ mín þarf að

vera fram tekin í samningnum, ef af honum yrði. Þær væru bara tilmæli, óbókuð.

Ástæður fyrir kvabbinu eru þær: Mér er ögn sárt um ruslið, sé í því einhvers staðar svo sem saumnál! Hér myndi enginn hirða það, hefi því ekki neinn að flýja til. Treysti þér, sökum langrar velvildar við mig, og nú geldur þú þess svona! Ég er lasinn dálítið. Varð að gefa upp öll útiverk fyrir liðugri viku. Á flakki innanhúss, en læknir minn vill ekki lofa mér heilbrigði. Ég segi þér það seinna, hvað að á að vera. En þetta er með öðru fleira, að ég bið þig að „drífa í þessu“. Liggur fyrir mér, hvort sem er!

Vinsaml. Stephan.

*Ársæll Árnason.* Markerville, Alta, 15. ágúst 1924.

Herra Ársæll Árnason. Góðvinur. — Minnkunn er það mér að hafa ekki fyrr sent þér línu, og þökk mína góða fyrir bækurnar tvær: Dægradvöl og Vísnakver Fornólfs, báðar ágætar í sinni röð, en hérna er það: hafðu sæll gert! Annir og lasleiki hafa verið mér nokkuð í vegi fyrirfarandi, að ég héldi vel við bréfa-skilseminni. Heyrðu! — Við vorum eitthvað að minnast skuldaskipta síðast, að þú kynnir að skulda mér örfáa aura. Ef svo er, greiði ég þannig úr þeim reikningum: Ég tel ekki til skuldar hjá þér fram yfir það, sem þú þegar hefir borgað mér. Við gerum „bræðrabyltu“ úr þessum viðskiptum okkar, og þar með er þeim lokið. Láttu mig vita, ef þú ert ánægður með það. Sendu mér, ef þú vilt, „kvittun“ frá mér til þín, til undirskriftar. Ég skal svo skila þér henni. Ef ég endist nógu lengi og næ til, langar mig einhvern tíma að senda þér „í kápu“ allar „Andvökur“, svo getur þú „skorið þeim klæði“, sem þér sjálfum sýnist. Þú gafst mér heima, forðum, þær sem þú hafðir „handtérað“ handa þér sjálfum. Ég hefi ekki þetta við hendi nú. Í síðari heftunum eru mörg mismæli. — Bara, að ég gleymi þessu ekki.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 30. ágúst 1924.

Góðvinur. — Einlæga þökk fyrir bréfið þitt, Baldur minn, fengið fyrir fáum dögum síðan. Það barst mér á bezta tíma. Ég lá fyrir inni-við og athafnalaus, sökum veilu, sem í mér er, og þá er gott að baða sig í hlýindunum utan-að. Þess er þá fyrst að geta, að Helga, kona mín, biður kærl. að heilsa ykkur, með þökk sinni fyrir myndina af börnunum ykkar — sér sé ætíð yndi að barnamyndum. Mér flýgur þá í hug eitthvað þessu svipað:

Karla-vonin eina er,
Að ári sælla bráðum,
Svo, vaxna æska, að veitist þér
Vor, er sjálfir þráðum.

Svo á ég annað erindi við þig, bezt að lúka því þegar: Business before pleasure! segir vestan-vérinn. Um leið og þetta bréf, sendi ég þér canadískt tímarit. Í því er saga eftir Jóhannes P. Pálsson, lækni í Elfros í Saskatchewan. Hann hefir ritað margt fleira, ýmist á ensku eða íslenzku: Sögur og leikrit. Sjálfum þykir honum þessi saga lítilsverð. Mér þykir hún all-góð, enda hefi ég ekki undir hendi annað eftir hann. Að mínum dómi tekur hann langt fram frú Salverson, Jóa Stefánssyni etc., sem eru að gera Íslendingum hér minnkun á ensku. Pálsson er ekki eftirherma, en fer nokkuð einförum, en hér gildir að jarma upp á ensku, eins og að „tyggja upp á dönsku“ heima forðum. Jæja, ég hefi álit á Jóhannesi. Getur þú ekki komið þessari sögu hans þýddri (helzt af þér sjálfum, þið ritið svo líkt og vel, þú íslenzku, hann ensku, hvað sem öðru líður) annaðhvort í „Iðunni“ eða „Eimreiðina“ til sýnis „til skrafs og ráðagerða“? Gerðu það, ef þú getur. Ég hefi leyfi Jóhannesar til þess, en öldungis enga bón né uppörvun. Þetta er „dyntur“ úr mér, af því ég held, að höfundurinn sé efnilegur.

Það eru samúð þín og hlýindi í grein þinni um mig, miklu fremur en sá, sem frá er sagt í henni, sem því veldur, hve vinsæl hún er, — og þau eru aldrei endaslepp hjá þér, þar sem ég er í umtali.

Ég rubbaði enn upp fáeinar markleysur um mig, eins og þú mæltist til. Legg þær hér með. Ég skil, og þykir vænt

um, velvild þína, en finnast mínar minningar bæði blóð- og merglausar, þó oft leiki ég mér sjálfur þegjandi að þeim.
Hér í Canada er minni neyð en víða er í veröldinni nú. Þó er hér þröngt í búi ýmislega. Atvinnuskortur. Sums staðar hafa bændur jafnvel ekki í né á sig og sína. Dýrtíð, bændavöru-verð lágt, skattar háir. Við Canadamenn kváðum vera sjö til átta millj. talsins. Þjóðskuldin, í fyrra, um hálfa þriðju $ biljón. Skulda-leiga um 140 millj. Fylkjaskuldir ¾ bilj. og sveita og borga svipað því. 50 millj. kváðu fara til eftirlauna*). 1000 millj. ríkisskuldabréf, einstakra manna eign (stríðslán í fyrstu, eru skattfrí, nú í eign banka og ríkismanna). Ríkistekjur kváðu hafa verið $ 396 millj. Skuldir bænda veit ég ekki. Þær eru sér. Séð hefi ég gizkað á um 60 millj. í Alberta einni. Allar stjórnir eru „pottbrota"-stjórnir! og þjóðviljarnir „þverssum" og „langsum". En aldrei hefir mannheimur hugsað jafnmargt og nú. Sumartíð til sveita hefir víða verið skrykkjótt. Yfir höfuð verður tæplega meðal sprettu-ár. Hér í byggð minni komast allir af. Engin neyð. Örðugt uppdráttar, en um ekkert að kvarta. — Mér og mínum líður að venju all-vel, eftir ástæðum. Löpp mín er löngu bækluð. Verður þó aldrei söm við sig, en bagar lítið héðan af. Læknir minn kom henni ekki alveg í samt lag, sem honum átti þó að vera auðgefið, eins og á stóð. Tvær-þrjár vikur nú hefi ég haldið mig innanhúss og lagt allt verk af. Ég geng með kvilla, gamlan mjög, að ég hygg, og hefir nú ögn ágerzt. Læknir minn segir það aldraðra manna mein og ólæknandi, nema með uppskurði, sem nú sé aftak sökum aldurs míns. Segir það vera þrútinn kirtil í endaþarmi og blóðstíflaðar æðar — *Hæmorrhoids and enlarged glands*, á hans máli. Mér er nú heldur að skána. Ekki við öðru að búast, þar sem fyrir er aldur og slit, auk þess sem ég kann að vera kveita, þó ekki vilji ég vera það. Að ég segi þér svona greinilega frá þessu, er ekki í umkvörtunar-skyni, en sú fregn hefir verið borin út í Winnipeg og vestur á Kyrrahafsströnd jafnvel, að ég sé „allur uppi". Það kann nú vel að vera, enginn getur líklega sagt það með vissu — að minnsta kosti ekki ég. Og

*) Ef til vill er þessi tala eitthvað röng, — en samt há.

þú kannt kannske að frétta sama. Því vildi ég segja þér, það sem mér er sagt af þeim, sem vit þykjast hafa á og ég hygg, að geti rétt til. Ég kæri mig lítið um, að þeir, sem um mig er annt, fái þær fregnir af mér, sem kunna að vera orðum auknar. Öðru nær. Ég ætla að koma heim hátíðarárið 1930 og fá þá að sjá börnin þín, Baldur minn!

Nú hætti ég rugli, þetta sinn. Bið að heilsa konu þinni og vinum vorum. Að henni þótti ég góður gestur er sökum þess, að hún lætur mig njóta þín! Líði þér og þínum alla stund vel.

Vinsamlega Stephan G.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerv., Alta, 1. sept. 1924.

Góðvinur Magnús. — Ég er lengi að borga þér bréf þitt gott, en svo kvað þig ekki hafa verið ávallt heima að hitta, síðan það hafnaði sig hjá mér, en þökk fyrir það og bækurnar frá ykkur, sem bárust mér í hendur næstliðinn laugardag. Í gær las ég „Landauðna-land“. Skilningur minn gekk þar sneyptur frá, en ekkert hissa, hann hefir áður kennt smérþefinn af „symbolism“, „impressionalism“, „fúturism“, „kúbism“, „dadaism“ og alls konar skálda-„kveisu“. Flest slíkt er mér ánægjulaust og botnlaust, en ekki að ég hneykslist þó á því. Sumt af því hefir lengi til verið í góðum, gömlum skáldskap, og farið vel. Nú hefir það verið gert að einæti og óæti, en einhver matur kann úr því að verða, og aldrei má skáldskapurinn úldna upp í sama sullinu. Séð hefi ég, að í Surtshelli okkar sé eitthvert krot á vegg, fornt, sem enginn ræður enn í. Kannske þýðir einhver það, og verður þá skýring á æfintýri Hellismanna — eða flumbrur eftir fjósareku beitarhúsamanns, þegar hellirinn var fjárborg.

Sviðið allt er sandroks-ský.
Sjón mín er ei skýrri
En það, að missa áttir í
Eyðimörku nýrri.

Ég þakka hamingjunni fyrir alla, sem eru bara „leirskáld“ samkvæmt nýstefnunum, þó ekki aftæki ég, að þessi moldviðris-fjöll kunni að fæða eitthvað meira en

mús, og menn, sem glöggvir þykjast, spá því. „Lad gaa,“ segir Daninn.

Ég hefi „legið uppi í leti“ í meira en tvær vikur. Er hraustari aftur, svo stór munur er á, en eins „mérhlífinn“ og kveitulegur, þó minkun sé, í önn og uppskeru, kannske „lagður upp í hróf“, eins og gömlu bátarnir, sem sökkva, ef þeir fara á sjó. Við sjáum samt, hvað setur. — En hvernig líður þér? Varstu ekki í Winnipeg nýlega? Og er nokkuð að frétta? En, þú mátt ekki þreyta þig á að svara, þó ég spyrji í þaula — þú hefir engin augu til þess. Gróður hefir mjög batnað hér síðustu vikur — en frostnótt í fyrri nótt og nú í nótt sem var. Skemmdir þó óséðar enn.

Bið kærl. að heilsa „doctor“, og öðrum öllum í Elfros, sem minni kveðju vilja taka.

Óska þér, að öll þín kveld verði þér eins blíð og fögur eins og þau, sem yndislegust eru um sumaraftna í Alberta. Betra þarftu ekki.

Vinsamlega Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 3. sept. 1924.

Grímur minn góður. — Ég hefi verið byrgður hér í búi mínu síðustu 2—3 vikur, ekki rúmfastur, rólfær, en verklaus og varfærinn. Þann tíma hefi ég notað til að borga ýmsar bréfaskuldir. Því má ekki minna vera en að senda þér línu líka, þó fátt sé til tíðinda að segja. Gróður hér var kominn á gott stig. En svo kom slys, harðar frostnætur í mánaðar-lokin næstliðnu, að minnsta kosti hér í Markerville. New Hill slapp t. d. alveg. Margir hér orðið fyrir miklum skaða, sem enn er þó óséður. Vegna veðurlags í sumar var allt korn svo síðbært. Hér er því sem stendur „súrt í broti“. Allt annars með kyrrum kjörum. Ég hygg enn, að allt okkar korn sé þó ekki ónýtt hér heima. — Er þér ekki farið að leiðast eftir bókunum eftir Sinclair, sem þú sendir mér? Ég hefi verið svo lengi að lesa þær, í smáskömmtum, t. a. m. „Cry for Justice“, af því það er svo mikið brotasilfur alls staðar að og í margt annað að líta, t. d. dr. Pálsson sendir mér ýmislegt, þar á meðal „Singing Jail-birds“, leikrit Sincl. Láttu mig vita, ef þér liggur á þeim, og ég skal lúka við og senda þér.

Góð var Íslendinga-dags ræða Guðmundar bróður þíns, ein sú bezta, sem sézt hefir. Hann skilur svo vel í sjálfum sér hvað íslenzkt er. Jafnvel þessi ungi Thorlaksson var ágætlega „harðmúlaður", að þora að segja um stríðið, það sem hann gerði, yfir hænuhreiðrunum í Winnipeg, fullum af annarra fugla eggjum. Það er loks að létta í lofti! Ég hefi lengi gengið með ýmsa kvilla, líkl. ¾ æfinnar. Fyrir nokkrum árum sagði Wagner vor það þarmabólgu (Piles). Ég efaði það, enda gat hann lítið bætt mér. Ég fann, að áreynsla og aldur voru að ágera þetta. Í sumar var ég að verða frá. Gat varla í bælinu legið sumar nætur. Nú fór ég og skipaði Wagner að vanda skoðun á mér og sagði honum sjálfur til. Hann gerði það. X-geisli hans sýndi ekkert innyfla-mein. Með höndunum kvaðst hann hafa komizt að, hvað að væri. Það sé aldraðra manna mein, margra, þrútinn kirtill í endaþarmi, og stíflaðar æðar, með ýmsu, sem því fylgi. Verði ekki alheilbrigt gert, nema með uppskurði, sem sé af og frá á mér, sökum aldurs. Annars hafa þeir sagt Munda mínum, að með nokkrum tíma muni þeir mikið betra mig, sé ég sjálfur varkár. Þetta hefir valdið mér innisetum, þó illa falli mér um uppskerutímann, einkum. Ég „et meðöl", og reyni sjálfur ýmislegt — og víst er um það, að svo mikið er ég betri, að ólíkt er; þó ég versni ögn við hverja vinnu-hreyfing, jafnvel hve létt sem er, og lakist dálítið á hverju kveldi, sef ég nú eins og selur. Ég á enn eftir að verða að „nýjum og betra manni". Bréf hefi ég fengið að heiman. Aldrei segja þau eiginlegar fréttir. Aðeins drepa lítið á. Satt er það, sem blöðin segja, það rætist þar furðanlega fram úr ýmsu. Næstum ómuna velti-ár með sjávar-aflann. Þeir, sem mér skrifa, eru engir uppveðrungar, svo þeim má trúa til. Fólkið mitt biður að heilsa þér, Grímur.

Gestina frá þér hlaut ég hér
Hávelkomna, Grímur —
Borgun engin yrði þér
Allar mínar rímur!

Vinsaml. Stephan G.

*Sveinn Björnsson.* Markerville, Alta, Can., 5. sept. 1924.

Góðvinur Sveinn. — Þökk fyrir bréfið þitt síðasta. Ég sendi þér hér með afrit þitt af skilningsleysi L. G., sem er dæmalaust að því leyti, að reyna aldrei að fara rétt með neitt, ekki einu sinni sitt eigið sjálfsálit; hann kemur ætíð upp með því sinni eigin heimsku, án þess að geta gert það skemmtilegt, eins og sumum er þó gefið, t. a. m. Snjólfi Austmann. Þú þarft kannske á bréfi L. að halda, ef t. d. þér dytti í hug að svara honum bréflega. Ég veit það ekki, en grunar, að blöðunum sé bumbult af honum sem stendur. Ég veit með vissu, að áður hefir hann gengið á milli blaðanna með „dellur“ sínar um mig, og skjall um þau, á víxl, til að koma sér í mjúkinn við þau, en verið gerður afturreka hjá báðum. Hann bar sig upp um það sjálfur í einni blaðadellu sinni, þó ókunnugir skildu ekki, við hvað hann átti. Var að fárast um hlutdrægni blaðanna. Hann hefði ritað um mig „þann sannasta og bezta dóm, sem sézt hefði, en hvorugt tekið hann, og myndi því líklega aldrei komast fyrir almennings augu, fyrr en eftir sinn dag“ — eða efnið hjá honum var svona. Annars hafa þessi blöð okkar ætíð haft vitlausa karla á víxl, eins og kóngarnir blámenn forðum, t. d. Jón Einarsson, L. G. o. fl., til að úthúða mönnum og ritum, sem þeim var í það sinn í nöp við, og skjalla sig sjálf, og úthýst þeim svo annað veifið, þegar þeir „pössuðu ekki í kramið“. — Fyrirfarandi hefi ég verið ögn lasinn, en er nú miklu skárri. Læknir minn segir það vera ellifylgju aldraðra manna og slitinna, sem ekki verði læknuð til fulls, nema með uppskurði, sem hann ræður mér frá sökum aldurs.... Er það líka ekki von, eftir að hafa hámað í sig alls konar óæti í 70 ár! Jú, mér leið all-ónotalega og hefir oft liðið, í fleiri ár en flestir vita, og ég finn, að „I am not so young as I used to be“, en þó er eiginlega um ekkert að barma sér eftir „almennu sjónarmiði“.

Nei, jafnvel sterkustu stuðningsmenn La Follette búast ekki við, að hann verði forseti. Það yrði kynjaverk, eins og aðstæður eru. Hitt er það, það er verið að sá fyrir framtíðina, í von um uppskeru í öldum frammi, sama eins og þú og ég, Sveinn, höfum verið að „pjakka við í pólitíkinni“, okkur sjálfum til óhagnaðar og af einfeldni

að annarra dómi, en erum þó ánægðari með, við sjálfa okkur, en þó við hefðum breytt á hinn háttinn. Þannig eiga þeir að vera, sem þykjast af konunglegu kyni, hinir eru þrælbornir að viti eða vilja. Ég flutti fyrst til Wisconsin, til Dane County, þar sem La Follette komst fyrst á stjórnmála-legg, löngu eftir að ég var allur á burt, en af honum hefi ég alltaf frétt, og enn er mér vel til Wisconsin. Næst þeim fornstöðvum mínum hefi ég komizt til Duluth síðan. Á brekkunni fyrir ofan bæinn og Lake Superior blasa bláskógabreiður norður-Wisconsin við í fjarska. Einhvers staðar þar austur í útsýni, inni í fjarlægðarfelunum, átti ég heimili og minningar. Þarna hefi ég staðið, horft yfir um og dreymt.

La Follette met ég mann,  
Mest þó væri rægður —  
„Upp á færður" enn mun hann,  
Allur saman „fægður".

Hann var „Dude".

Vinsamlega Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 9. sept. 1924.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Bréf þitt kom í „nótt er leið", um kl. 12. Þökk fyrir það! Og það gladdi mig, að allt stóð við sama, sem ég reyndar vissi nú. Nei, fái ég að ráða, geri ég *enga* aðra erfðaskrá en þessa, til þín. Ég hefi þegar minnzt á það við drengi mína og sagt þeim frá samningi við þig um rit-ruslið. Hér er hár erfðaskattur. Staðfesting erfðaskrár einsömul $50.00, sem lendir í lögmönnum, þó dómara-laun séu aðeins $10.00. Ég veit þetta, því marga erfðaskrá hefi ég hripað upp fyrir „landann". Erfða-skattur er afar-hár, teygður í ríkissjóð sem allt annað þess konar, getur skipt mörgum hundruðum af smábúi jafnvel. Ég vil komast kringum það, þykist ekkert skulda Alberta-féhirzlu. Ætla því að reyna að „selja" fólki mínu „í hendur" allt, sem mér er eignað, meðan ég er sjálfur viðstaddur, fái ég því ráðið. Ég á heimilis-landið skuldlaust. Það eftirlæt ég konunni. Svo er í mínu nafni liðug hálf „Section", sem ég skulda alls á um

$2,000.00. Það sel ég sonum mínum, vilji þeir við taka. Þannig hyggst ég að „bregða búi“, þó ekki sé enn af orðið. Með erfðaskrá gæti kostnaður orðið kannske um $500.00. Ég veit dæmi þess. Annars segi ég *þér* bara þetta, út í frá.

Mér er beinlínis þökk á, viljir þú geyma „Tímaritinu“ þulurnar, mest vegna minningar Courmont's. Mér varð svo hlýtt til hans, þó ég kynntist honum lítið eitt — mér fannst hann svo líkur því, sem ég held, að góðir menn og gáfaðir eigi að vera, að ég held mig í skuld við minningu hans, og kvæðið er, að mínu viti, eins einlægnis-vel-gert eins og ég kann til skást, eins konar „erfðaskrá“, jafnvel þó ég viti það verða á ýmsum stöðum óvinsælt, þ. e. a. s. „mínar kreddur“, sem í því eru, en um slíkt hirði ég aldrei, nema ef önnur mál annarra góðra manna líða halla við mína framhleypni.

Jú, ég man vel eftir Jóhannesi og ferðinni til Hnausa forðum. Meira en það, hann heimsótti mig hér eitt sinn, hann og Sig. heit. Kristófersson. Þó varð ég J. ekki nákunnur. Hann fór svo hóglátt um sjálfan sig. Grein þína las ég. Af líkindum réði ég, hvernig þér var innan rifja. Jæja, maður getur þó, hér í lífi og alla tíð, valið þann „val“, sem maður vill sjálfur liggja helzt í!

Vesöld mín er að líkindum í kyni við kvilla, sem ég hefi alla-jafna gengið með, sjálfsagt tvo-þriðju æfinnar: einhvers konar innyfla veiklun, sem læknar kváðust ekki vita, hver væri, þá sjaldan ég leitaði þeirra. Fyrir 3—4 árum var einn að eitra mig móti þarmabólgu: *Piles,* sem ég trúði honum aldrei til. Ég varð fyrir nokkru svo ónotalegur, að ég gekk að honum að rannsaka mig vandlega. Það hygg ég hann hafi gert. Hann segir lasleik minn vera aldraðra manna mein, æðastíflur eða slit, og þrútinn kirtil í endaþarmi. Verði ekki læknað til fulls, nema með uppskurði, sem sé af og frá, á mér svo gömlum. Ég trúi helzt, að nú fari hann nærri réttu. En, þeir fél. segjast geta bætt mig upp, með tíð og tíma, sé ég sjálfur varasamur, og gamall geti ég enn orðið langt um fram það, sem enn er, og ekki ætla ég að slá hendi móti nokkrum árum enn, þó ég vilji skila af mér ýmsum áhyggjum, meðan ég hefi tíma góðan til að sinna þeim. Ég brúka

meðöl. Hefi tekið umbótum, jafnvel unnið ögn á akri úti nú síðari dagana, en varð verklaus og lá alveg inni, en las eða skrifaði. Vesöld mína kalla þeir á „lærðramanna máli“ „Hemorrhoids and enlarged glands“. Ekki er nú skömmin að grískunni! Þó líkl. megi segja skakkt til á henni, eins og öðrum málum mannanna.

Frost fór hér yfir víða nú um mánaða-mótin. Skemmdir víst orðið víðtækar, en eru enn ekki fullséðar. Við hér höfum ekki orðið verr úti en aðrir, rýrt líkl., en ekki allt ónýtt.

Hünford gamli skilaði mér kveðju þinni í gær. Kvað þig hafa leitað liðs hjá sér um dálk í „Tímaritið“, því nú yrði þér „aflatregt“ í öðrum verstöðum. Ég segi þetta satt, en samt í spaugi!

Þó lið á báðar hendur hnígi,
Heldur sæmd og drenglund vígi!

Og vertu nú sæll.

Vinsamlega Stephan G.

*Jakob J. Normann.* 22. september 1924.

Innilega þökk fyrir bréfið og áhyggjur þínar allar viðvíkjandi mér. Nærri var að komið, að ég sendi þér línu, því ekki hafði ég af þér frétt síðan Saskatchewan-gestirnir voru hér um Íslendingadag okkar — og hann er „fyrirmáls lamb“ af Íslendinga-dögum! — en, þú varst fyrri til bragðs, eins og vant er. Já, ég skil þetta allt! Eftir að einhver hefir kvatt fyrir fullt og fast, dettur manni svo margt í hug, sem maður hefir gleymt og mistekizt, en átt að gera, og maður aldrei sá þó fyrir. Ein er þar afsökun manns: Þau slysin koma af athugunarleysi, ekki af ásetningi — með öðrum orðum: maður gat ekki betur í það skiptið, af því maður í það sinn var ekki máttugri, andlega eða líkamlega. Það skil ég líka, að það „sækir að“ að eiga sér ætlunarverk, sem er óaflokið, en happ er það samt, því meðan svo er, er maður þó andlega lifandi og líklegur til að lúka því enn af. Óframkvæmdu ætlanirnar eru lífs-mark, og maður aldauða, þegar þær eru allar um garð gengnar — þrátt fyrir óánægjuna með eigin ódugnað.

Fyrirfarandi hefi ég verið að reyna í bréfum að eyða ófyrirsynju-kvíða sumra, sem um mig er annt, út af þessum kvilla, sem ég geng með. Hann hefir komizt í hámæli og getgátur, ég veit varla hvernig. Auðvitað gat ég um hann, t. d., afþakkaði boð til Hnausa á Íslendingadag sökum lasleika, og sumir hér í byggð vissu, að ég var með einhverju óáti og leitaði læknis, en viljandi hélt ég [ég] hefði ekki gert ósköp úr því, ég var vanur við þessa vesöld, þó hún hefði ágerzt nokkuð og ég settist að inni við 2 til 3 vikur. Ég hefi gengið með „innanhnjósku" einhverja, síðan ég var kringum 26 ára. Þeir fáu læknar, sem ég hefi leitað, vissu aldrei, hvað helzt var að. Þetta, sem nú bagar, er ekki samt ið sama, en kann að vera „sambýlingur". Fyrir nálægt 20 árum líkl., hefi ég kannske orðið þess var, sem nú ónáðar mig helzt, en skipti mér lítið af. Fyrir 3—4 árum leitaði ég læknis hér, tvívegis. Hann þóttist vita, að endaþarmsbólga („Piles") væri það, sem að væri, án þess þó að „grennslast vel á mér", né að ég tryði mjög á það. Meðöl hans gerðu mér lítið gagn. Í sumar varð ég með versta móti. Fór til sama læknis. Sagði honum, hvar komið var, og bað hann gera góða gangskör að uppgötvun kvillans. Hann gerði það, held ég, með X-geisla, en fann engan ágalla í innyflum, en með hendinni og minni tilsögn fann hann það, sem hann kvað vera margra gamalla manna mein: þrútinn kirtil í endaþarmi, sem hann sagði, að ekki læknaðist með öðru en uppskurði, en undir hann gengi ég ekki með sínum ráðum, ég væri allt of gamall. Eldri en fimmtugir þyldu hann ekki. En svo tíðan kvað hann þennan kvilla vera, að þrír hefðu leitað sín sömu viku, með sama lasleika og ég. Eftir sem hann segir, er það, sem að er, þrútnir eitlar og æðahnútar í innyflum, og ég hygg, að hann geti rétt til. Hann segist geta bætt mér, gert mig bærilegan með meðölum og tímalengd, ef ég sé sjálfur nógu gætinn með mig, og engin ástæða, að ég geti ekki orðið „allra karla elztur". Hann bannaði mér að vinna fyrir 3—4 árum — en það fór nú svona! Ég veit, að ég á ögn að hrósa því, sem við köllum „slit og lúa". Mér væri skömm að öðru, eftir sjötugt! Ég hefi nú hlíft mér, étið meðöl og „iðkað ýmsar kúnstir", er miklum mun hraustari, hefi getað drýlt ögn á akri jafn-

vel, nú í nokkra daga. Auðvitað ekki orðinn „gadd-hraustur“, ögn veill enn, og líkl. verð, og kenni sviða, einkum að kveldlagi — en bærilegur er ég þó, og ætla að batna enn. Þannig er nú þessi sjúkdóms-saga, í flýti sögð — en of löng þó. Ég hefi heyrt getið um Thomasar heilsu-hælið í Wpg., gegnum blöð og augl. Vissi, að systir þín fékk þar bata, sem betur fór. Vissi fyrir löngu, að til er hópur manna, sem á hráæti trúir, og sjálfsagt hefir það komið sumum að gagni. Tvennt stendur í mér: hráæti er viðsjált, eða getur verið. Ástæðan: suða drepur líka illar „bakteríur“, til dæmis væri nærri engin taugaveiki til, ef allt vatn, sem menn neyta, væri soðið. Svo lengi hefir nú hráæti reynt verið og svo dyggilega, af þeim sem því fylgja, að reynslan sýnir, að þeir, sem flokkur, eru hvorki heilsubetri né langlífari en annað fólk, sem ætti þó að vera. En enginn efi, það hefir gagnað sumum.

Hver var þessi krafta-verka læknir í Wpg., þegar systir þín var þar? Var það „Reverend Doctor“ Pierce, sá sem Bíldur lýsti í Lögbergi? Ég kannast við hann af orðspori. Hann hefir meinlokað og ærslað bæði Calgary og Vancouver og Wpg., nú síðast. Hann er „rétt-trúnaðar“ krafta-verka-læknir, „Faithcurist“. Hefir læknað einhverja, að minnsta kosti í bráð. Mig gætu slíkir læknar ekki læknað af neinu — sjálfan mig skortir sjálft „meðalið“, trúna og traustið á „guðfræði“ þeirra. Ég veit þeir lækna stundum, en aðeins þá veiki, sem stafar frá taugakerfi, t. d. „móðursýki“, sem engin „meðöl“ ráða við, jafnvel kreppu og fleira, og það hafa líka góðir „dáleiðarar“ og heiðnir getað, jafnvel landskjálftinn í San Francisco læknaði margra ára rúmfasta hospitals-„limi“, þegar hann gekk um árið. Annars er það rétt, hælin, sem lítil eða engin meðöl nota, heldur ýmsa aðbúð, eru í mörgu nota-bezt, einkum í langvarandi sjúkleika. En margt er þar rangt til getið um „læknis-lyfin“ til dæmis. Bær er til í Bandaríkjum. Þar eru tvö heilsuhæli. Annað læknar með kjötáti einu saman, hitt með brauðáti. Bæði hafa læknað menn og litlu skipt, hvort heldur var kosið, því leyndardómur lækningarinnar var: Bæði læknuðu átvögl og iðjuleysingja með sama: með sveltu. Gamli Mark Twain, karlinn sæll! samdi eitt sinn stutta skop-sögu, út af líku efni.

Í bráðina hugsa ég mér sem svo: haldi ég áfram að „forbetrast", eins og ég hefi gert, leita ég líkl. ekki lengra í bráð, býst við ég sé óhlutgengur til allra verka, hvort sem er — þó ég sakni þess. En ef í það færi, leitaði ég fremur „hælis" á „hæli" en í hospítali, nema í „bráðafári". En Jakob, ég get ekki komið orðum að, hversu undursamlega þér er annt um mig, langt er frá, að því nái mín þurra þökk.

Vinsaml. Stephan.

Ég gat ekki gert þetta ver
Úr garði, með blínum og blettum —
Komandi dagarnir hvísli að þér
Einlægum fagnaðar-fréttum.

---

Ósk sérhver efni sig, öllum sem nefna mig!

S. G.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 23. sept. 1924.

Góðvinur Jakob minn. — Reyndar sendi ég þér línu í fyrradag, en á samt lítið erindis-korn til þín aftur í dag. Það er svo vaxið: Ég hefi séð í blöðunum, að Steinunn, systir þín, er að gangast fyrir svolitlum samskotum vestan hafs handa dr. Helga Péturss., frænda ykkar. Lengi hefi ég haft í huga að koma þangað mínum „smápening", en hefir dregizt úr hömlu. Bæði er það, að ég met gáfur Helga mikils, svo hitt, sjálfur á ég honum upp að inna hlý ummæli að fornu fari. Ég vil því málefninu reyndar betur en hvað rausnarlega ég legg fram, en held þó, að ykkur muni hugnast þetta smáræði frá mér, betur en alls ekkert. Nú bið ég þig að koma því til skila fyrir mig, við tækifæri. Býst við, að þér sé það lítið ómak, veit, að þú fyrirgefur það allt — og vertu svo sæll.

Vinsamlega Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 24. sept. 1924.

Veslings Grímur minn! Þetta var nú slys, að þú þurftir að meiða þig, þó líklegt sé, að enn megi fyrnast yfir það, ef þú bíður þarna nógu lengi og rólegur. Já, svona er

það að vera Íslendingur! alinn upp á tröllasögunum okkar, við höldum við séum aldrei orðnir of gamlir til að fara í „hnútnakast“. Ég vona, að þú fáir fullan bata og þarfa hvíld, ef þrautir verða ekki því meiri. Verst, ef blöð og bækur komast ekki til þín, ef þú hefir sinnu til þeirra. Hvernig er það þarna, sem þú ert? Er því ekki *skilað*, þangað sendu? Ég veit, að sumum er ekki leyfður lestur né bréfa-móttaka, eða allt fer vitlaust, nema maður viti No. á „Ward“ eða eigi vingott við hjúkrunarkonu sína. Líkl. gæti einhver landi í Calgary skotið slíku til þín við og við. Jón Guðmundsson er hér nú nyrðra. Fer um vikumót, að sögn. Hefir ekki komið til mín. Ég er nú hjá Hróbjarti. — Í morgun sálaðist Sigurður Benediktsson. Hefir lengi lasinn verið í vor og sumar, og þungt haldinn fyrirfarandi. Læknar hér gátu ekkert og segja nú, að verið hafi krabbi. Sigríður Víðimýrar-Sigurðar er nýkomin á hjúkrunar-hæli í Red Deer. Hún er orðin mjög af sér dregin.

Ég er ei enn sem allra beztur —
En afsegi að heita: verstur.

Anna, kona Guðmundar Illugasonar, hefir legið í lungnabólgu, en er í afturbata, nærri áttræð eða meira. Svona stöndum við okkur stundum, gömlu hróin!

Mikið hefir víst frostið skemmt uppskeru hér. Þresking að byrja í dag, hér á næstu grösum. Maxon rétt sloppinn inn til mín, meðan ég skrifa þetta. — Það væri rétt gert, Grímur, að ganga hér milli góðbúa í vetur, „þegar þú ert gróinn sára þinna“. Hér í byggð vantar gesti, og þú gerðir henni greiða með að dvelja hér um tíma. Fólk mitt biður að heilsa og óskar þér heilsu — og vertu nú „sæll á meðan“.

Vinsaml. Stephan.

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 2. okt. 1924.

Góðvinur Magnús. — Þökk fyrir bréfið og Tímaritið. Ég endursendi þér hér með bréfið frá Hight. Það er hálfleitt að hugsa um, að karl-tötrið skuli hafa eytt æfi-starfi sínu í þörf íslenzkrar sagnaritunar, og sjá það að lokum allt að forgörðum fara, jafnvel þá ánægju að koma því

á prent. Auðvitað veit maður ekki, hversu vel það muni frágengið — en velvildin hans til þess mun söm. Mér sem sé þótti grein hans í „Tímaritinu“ halastutt, en skörulеg, vinsamlegri en hve hún var kostagóð, ef til vill af hræðslu að vera með efni, sem væri lítill aufúsugestur þar, ef djúpt og langt væri til lagzt.

Væri ekki reynandi að bjóða „The Scandinavian Foundation“ hérna vestra eitthvert handrit karlsins? Það er þó svo „norrænt“, að það gefur árlega út eitthvað af Norðurlanda bókum á ensku, og „Gyldendals“ í Kaupmannahöfn eru farnir að gefa út á ensku danskar bækur. Slíkum félögum er þó „nánara nef augum“ í því, sem norrænt er, en t. d. brezka bókaverzlunin, sem reiknar það eitt, „að pundin standi sig“. Jú, ég hefi mikið „gengið aftur“ til heilsunnar frá því sem ég varð slakastur, og gott er að heyra, að þín sé í framför, og náttúrlega var það boðskapur draums þíns, að þú ættir líka að leggja niður þína „byrði“ eins og ég, á næstu vegamótum nálægs tíma, en halda samt enn áfram „veginn“ og léttfærari.

Ég bið að heilsa dr. og bækurnar sendi ég honum einhvern tíma aftur. Þetta „Mannaldar-ágrip“ Wells er svo umfangsmikið, að maður sér seint út yfir og ég hefi eftir svo mörgu öðru að líta jafnframt, en ætla að reyna að „þrælast gegnum það“, þó gagnslítið verði, og ég verði litlu nær að „saman líma“ í koll minn þessa mola af ýmsu því, sem ég hafði áður einhvers staðar rekið mig á, en hann setur saman í heildir. Ég öfunda yngra fólkið, sem má alast upp með t. d. heimspekisögu dr. Ágústs og „Outline“ Wells, þegar ég hugsa um allan þann upptíning út um holt og hóla, sem maður sjálfur varð að notast við og að koma jafn mislitu dóti í eitthvert andlegt verð — og samt áttu feður vorir enn verra með en við, enda er það ein in helzta vilspáin, sem á væri að treysta, um þetta margnefnda himnaríki, ódáinsakur eða ósáða akra, það er í því fólgið: að vera sífellt að sá, svo enginn tími sé til að uppskera né safna í kornhlöður, því það er sífellt þeirra verk, sem aðeins koma um „tíundu og elleftu stund“, þeirra sem geta „þegið“ en ekki „gefið“, en þeir „þjóna“ líka og þess vegna er kannske réttlátt, að „kaupið“ sé reiknað jafnt.

Glöð og hróðug, Magnús minn,
Mín skal ljóða-bænræknin.
Sé þér góð og greiðvikin
Gamla móðir, veröldin.

Vinsaml. Stephan.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 22. okt. 1924.

Grímur minn góður. — Í gærkveldi komu línur frá þér. Líkl. ná þessar þér, áður þú „útskrifast", og „fari þær í slöngul", verður ekki margt að missa. Ég gat ekki sent þér neitt af því „nýjasta-nýja" eftir yngstu skáldin okkar, af því ég á ekkert eftir þau. Eins og von er, senda engir þeirra mér „syrpur" sínar. Milli mín og þeirra er „mikið djúp" staðfest, og við ókunnugir. Ég „slæ með gömlu lagi". Þeir elta tízku út í löndum um allar jarðir, tízku, sem mér finnst hvorki „lystileg" né líkleg til langlífis. Gæti orðið hættuleg eftirherma, væri ekki svo, að okkar bezta bókvit heima andæfir henni fremur, en heldur fast á okkar eigin alþýðu-mennt, t. d. Sigurður Nordal, og fleiri inna færustu manna. Vitaskuld er breyting og vöxtur sjálfsögð, annars kemur korka í allt — bara breytingin má ekki vera til úrgengis. — Um uppskeru og uppskeruverð hér get ég lítið sagt. Þreskingu er enn ólokið víðast og allt óselt. Korn er víðast rýrt. Sumt ónýtt, helzt hafrar, en yfir höfuð held ég, að betur rakni úr öllu á endanum en margir búast við; ég hygg, að sökum lágrar uppskeru víða verði allt nýtilegt þó keypt að lokum, og borgað sæmilega vegna skorts. Sem stendur lítur kornverð út fyrir að verða kringum dollar og 20 c. hveiti, og 40 til 50 „cents" hafrar. Þrátt fyrir fá bush. af ekru og lága flokkun kann svo að fara, að uppskeruverðið, samanlagt, verði skárra en á horfist. Mikla uppskeran í fyrra varð næstum með öllu og öllu hefndargjöf.

Fólk hér er friskt og feitt, sem stendur, og skortir ekkert nema skildinga og skyn, en svo færi það aldrei saman, hvort sem væri. Veður er inndælt á síðkastið. Var óþerrisamt, svalt og tafsamt um tíma. Öll jörð enn „plógþíð". Okkur hérna á heimili líður venjulega. Ég ólíkt betri — en eins og „leirkarl" séra Hallgr. Péturssonar, á ekki von

á að verða aftur „heill", slíkt er heimska að hugsa sér á áttræðis aldri! „Fyrr er nú gilt, en valið sé". Bókunum liggur mér ekkert á. Geymdu þær þangað til þú kemur, sem verður eftir „Vejr og Vind", eins og Danir hétu að flytja póstinn til Vestmannaeyja, meðan þeir gerðu allt, sem gert var á Íslandi. — Við biðjum öll að heilsa og viljum, að *þér* heilsist vel „á flakk", bráðlega.

Vinsamlega Stephan.

*Jakobína Johnson.* Markerville, 23. okt. 1924.

Vinkona góð. — Heila þökk mína fyrir heilla-óskina og bréfið þitt síðasta. Á báðum endum æfinnar, lifnar yfir mönnum, þegar látið er vel að þeim, og þess hefi ég notið, þrátt fyrir allt óstýrilæti.

Þegar sitja verðum við
Vetrar-frost og kvefið,
Illu sumri óveðrið
Allt er fyrirgefið!

Allt er hér æfintýralaust, eins og vant er, og það hefir sinn kost, því þá skilur maður fyrst í, hvílíkt dáðakvendi kerlingin var, sem reyndi að bera inn sólskinið í svuntu sinni í húsið sitt, sem smiðurinn hafði gleymt að setja glugga á. Haust-tíðin hér er heldur góð, þetta leyti árs, en búskapur eitthvað örðugur, akuryrkjan arðlítil, sökum frosts og sólskins, sumarið sem leið, en enginn á þó bágt, sem heilsu hefir, og ég þykist knæfur karl enn, eftir aldri. Öðrum mun virðast ég vera svefnþungur og seinvirkur. Jú, satt mun það! en montið í ellinni verður að takast fyrir viljann í æskunni!

Mér þótti „Sögufróði" þinn gott kvæði, og ekki síður fyrir það, að það var óvenjulegt „minni". Ég skil vel lystarleysi þitt á leiðinda tuggunum. En svona fer allt, á sinn hátt eins og trúarjátningarnar, verður trúlaus venju-jarmur, þetta sem postulinn nefndi „ský fyrir utan regn". Eitthvert nýjabrum sprettur upp, verður venja, margstögluð og líflaus, þeim einum til bóta, sem þora að brjóta hana. Þó er það svo, að aldrei hafa eystra verið haldnar jafngóðar Ísl.dags-ræður sem nú. En svo kvað nú dagur renna

ætíð í þeirri átt, sem við nefnum austur! T. d. ræða Guðm. Grímssonar, séra Friðriks, jafnvel Thorlakssonar, hún var vonum fremur djörf, að bölva stríði í slíku „ræningjabæli“ sem Winnipeg var meðal Íslendinga. Margt var vel sagt í ræðu séra Halldórs ykkar líka, ef ég man rétt! Eitthvað er að rofa til. „Hkr.“ orðin blað með bezta móti, og „Lögb.“ svo snar-vitlaust, að allir hljóta að sjá, því það er framför líka, á sinn hátt. Þeir sem halda, að mannkynið verði aftur villidýr, hafa að vísu sínu máli til sönnunar biblíusöguna um Nebúkadnesar, en hún er ekki í þróunarkenningunni, svo ég muni til! Að vísu er þar þróun (evolution) og afturför (retrogression), en hún er heldur fram, og færir líkur til, að með tímalengd verði tegundir fastmótaðar og breytist ekki. Það er ekki ólíklegt með mannkynið í heild, úr því einstaklingar þess verða fullþroskaðir og fast-skapaðir. Það er ekki tegundarbreyting, þó til dæmis eðla (lizzard), sem eitt sinn var höfuðskepna, sé nú veslingur — og við kunnum að fara eins: verða að volum í okkar hóp, en síður að fílum, þó Bryan og aðrir gætu „staðið á og rifið“ biblíuna. Annars er þessi þræta nú „að gegna gæsum, sem í gær flugu“. Í aðalatriðum er þróunarkenningin staðfest, og var happ, eins og allt, sem gefur manni stærra heildar-yfirlit yfir tilveruna. Hitt er óyndi, sem brýtur hana alla upp í sem mesta mola. Við menn erum nógu nærsýnir samt.

Síðasta ný bók, sem ég hefi séð, og mér send verið, er „Lestrarbók“ eftir próf. Sigurð Nordal, að flestu leyti einn mesta gæða-mann í bókmenntum, þeirra Íslendinga, sem nú eru uppi. Bókin er skrifuð í því skyni að sanna, að íslenzkar bókmenntir hafi aldrei slitnað sundur, eins og sumir hafa haldið fram. Innlendri alþýðumenntun verið við haldið, og verði að varðveitast framvegis. Bókin stiklar á skáldskap Ísl. frá 1400 — þegar allt átti að hafa komizt í kalda kol — til 1900. Hún er ætluð skóla-lýð, og er góður fengur, þó blaðið mitt sé of stutt til að tala um það nákvæmar. Svona er ég að reyna að bera inn „sólskinið í svuntunni“. — Blessuð og sæl.

Vinsaml. Stephan.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 25. okt. 1924.

Góðvinur Jakob. — Ég kem aðeins augnablik nú, vegna tímaleysis, bara til að þakka sendinguna, og veit þó varla, hvernig ég á að fara að því, svo óverðskuldað sem það er af minni hendi, og þú — kannske ekki auðugri en ég! og líklega að taka nærri þér. Mér finnst ég ekki eiga orð yfir þetta! En tvöfalda þökk þó — til ykkar beggja! En, þetta má ekki svo til ganga, vinur! Ég verð aldrei borgunarmaður fyrir slíkri skuld. Þetta er aðeins „kvittering“, að láta þig vita, að gleypt er ekki svo gleymt, að ég ekki sendi línu um það. Fleiri línur bráðum, fái ég næði til.

Hann, sem með mér heiti á,
Héðan beri stærri
„Olymps“-leikjum lífsins frá
Lista-sveig — og hærri.

Þetta þýðir: að mér hefir verið sagt svo, að nafnið okkar sé gríska, og að svo hafi verið nefndir sveigir þeir, sem þeim voru gefnir, sem sigruðu í Olymps-leikjum Grikkja, forðum.

Þetta er handaskömm í flýti. — Blessaður og sæll.

Vinsaml. Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 16. nóv. 1924.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Kæra þökk fyrir bréfið og allar áhyggjurnar út af heilsufari mínu, þínar og annarra, og líklega hefi ég skreiðzt upp á skör áttunda tugar fyrir hlýleik frá hugum margra mætra manna, verið vígður af þeim til lífseigju og ekki að vita, hve lengi ég kann að endast enn sökum þess. Mér líður nú margfalt betur en þegar ég var leiðastur í sumar. Lyf frá lækni mínum, sem ég nota sífellt, eiga, að ég hygg, nokkurn þátt í þeim bata, auk ýmissar sérvizku, sem mér hefir sjálfum í hug komið. Hann, þessi læknir minn, sagði mér „hreint og frómt“, að ekki gæti hann gert mig lasleika-lausan, en gæti að líkindum „lappað“ mig eitthvað upp, og mér finnst, að meðöl hans hafi gert það. Hann næstum fyrirbauð mér að láta skera mig upp, þó það væri eina albata-lækning, sem hann vissi til. Ef til vill er það, sem að mér gengur, ekki nema

innyfla-máttleysi af margra ára meltingar-veiklun, úr því orðið svo aðkenning af „sigi“ (Prolapsus) með ýmsum öðrum fylgifiskum — og svo aldur og slit. Þetta eru nú samt mínar eigin einföldu getgátur, mín, sem enga kann „lækna-latínu“. Jæja, mér líður betur en í sumar. Þú mátt geta nærri, ég gat hjálpað að drýla korn, hirði nú og að undanförnu um 20 nautgripi í fjósi, nærri jafn mörg svín, er „eldiviðarkarl“, auk fleira. Að vísu er oft „linka“ í mér, en ekki gæti ég þetta, nema af því ég er ekki með öllu frá enn. Ég reyni að sjá mér leik á borði og treina mig allt sem ég hefi tækifæri til, „lægi inni með leti“, ef mér væri það unnt. En við erum hér á heimili fáliða, en meira en nóg um að sjá, uppskera hér yfir höfuð t. d. bæði marg-skemmd á flestan hátt og fyrirhafnarsöm, sökum veðurs og vanhalda. Ég vil síður segja sjálfan mig „verri mann“ en ég eiginlega kannske er, læt ekki ímyndun mína öllu ráða, hún getur verið varasöm og villzt út í æfintýri!

Bæklingana, sem þú sendir, hefi ég lesið. Auðvitað eru þeir „auglýsing“, en, að mér sýnist öfgalítil, og lasleika lýsingar réttar, eftir því sem maður hefir áður kynnzt, og það sem það nær. Allt getur þar átt sér stað, og Árna Jóhannssyni hefi ég kynnzt, og hann er óskrökvís. Ef því harðnaði aftur að og framhaldsbót á heilsu minni virtist verða tæpari, gæti ég vel reynt þennan „græðara“, þó langt sé til suðurheima hans, væru ástæður til fyrír hendi. En satt að segja, ég er orðin afhuga því að verða ríkur á „jörðinni“ og tel ekki það „mannkaup“ í mér, sízt nú orðið (þegar öll arðsvon er úti og fyrir endann séð, sú sem nokkur gæti vonað, að „í mér gæti legið“), að fimm hundruðum „silfurs“ væri vel til þess varið. En beztu þakkir þó fyrir góðviljann! Og við skulum sjá hvað setur, en láta „well enough“ eiga sig í bráðina og sjá, hverju fram vindur um skeið.

Hafið þið séð „Lestrarbók“ Nordals og „Stjórnarbót“ Guðm. Finnbogasonar? Þið ættuð að geta þeirra í „Kringlu“, þegar tími væri til, og „Lestrarbókin“ ætti að verða skólabók í íslenzkunni hérna, þó ekki væri nema fyrir innganginn. Það var tími til kominn, að einhver mótmælti „kreddu“ Guðbrands og annarra bókmennta-ráðleysingja, viðvíkjandi ritöld okkar. Oft hefi ég bitið á jaxlinn yfir henni.

Alltaf gengur heilbrigð skynsemi meira og meira af aumingja „Lögbergi“! Sbr. Hornafjarðardeilan öll, og dóminn um sögu Boga. Alls staðar!

*Afhrökun:*

Bíldur lærði af Lalla að leggja dóm á skáldskapinn —
Lærisveinninn meiri varð en meistarinn —
Af því honum allajafna út af bar með skilninginn —
Baksar svona á báðum endum „breytiþróunin“
Og í sínum „svarta-skóla“ á sessinn neðsta býður inn.

Fyrirfarandi hafa hér staðið yfir hríðar og hörkur. Korndrýli fennt á ökrum sums staðar, óstekkt sökum raka. Í gær og dag sumar og sólbráð aftur.

*Snjóbyrgið.*

Þegar að sumar og sunna
Síðustu kolunum brenna,
Flosnuð úr skjóli og skóg,
Hraunflóðin hríðanna renna
Hátt yfir lautir og runna,
Bý ég við rjúpkarrans ró:
Læt yfir fjaðrirnar fenna!

Þegar ég hefi tíma til, skal ég skrásetja umhugsanir mínar um þetta efni okkar á milli. Það var engin von, að „lögmaður“ réði fram úr þessu. „Formúlurnar“ komast þarna ekki að. Refur gæti einu sinni ekki varið tóu á svona skjali, sem Jónasi fannst „fallega ofið“, þrátt fyrir slaðrið.

Konan og ég biðjum kærlega að heilsa heim til ykkar.

Vinsamlega Stephan.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 22. nóv. 1924.

Góðvinur Grímur. — Þökk fyrir 4—5 eintök af „Nation“, sem ég hefi fengið frá þér. Svo fór, sem okkur reyndar alla varði og við könnuðumst, „Bob“ varð utanveltu — en hugmyndin vann áhangendur, þó, sökum kosningarlaganna syðra, að allir kallist annaðhvort „Rep.“ eða „Dem.“ Ég stend nú stutt við. Er að flýta mér að ná mér undan póstferð til M'ville. Ég veit ekki, hvar þú ert niður kom-

inn, á „hótelli“ eða „hospítali“ Burns, né hvernig þér líður, og því hripa ég þér.

Korndrýli hér lentu víða undir snjó. Tafir miklar. Þresking ekki öll búin enn. Hafrar nærri alls staðar léttir og lítils virði. „Sjana“ Óla Jóhannssonar nýl. skorin upp í Lacombe, við einhverjum gall-„galla“. Líður vel að vonum, að allir segja. Hjá henni er Jóhanna systir hennar, frá Elfros, kona Steingr. frænda þíns. Sigríður Sigurðar Víðimýrar í Red Deer milli heims og helju. Þórður Hunford nýkominn heim af „hospitalinu“ þar, hefir legið í illri lærtaugargigt í 2—3 vikur —, eitthvað betri nú. St. Maxon á „hospitali“ í Innisfail. Lenti með hendina í tannhjóli á þreskivél þeirra og meiddi sig, ekki háskalega, að ég held. „Þetta má nú margur segja!“ Á að vera þér huggun, sértu á „hospitali“ enn, eða til þess var það líkl. sagt heima!

Skírnir og bókmenntafél. bækur hefi ég fengið, og „Lestrarbók“ eftir Nordal, sýnishorn af skáldskap Ísl. síðustu 5 aldir. Á að verða skólabók í bókmenntum og er mótmæli þess, að nokkru sinni hafi slitnað upp úr tungu né skáldskap Ísl. — einkum inngangurinn. „Stjórnarbót“ hefi ég fengið, bók eftir Guðm. Finnbogason, eins konar reglugerð fyrir nýtt fyrirkomulag á stjórnháttum heimsins, sérst. Ísl. Eins og sé, sé allt verra en vitlaust! „Landinn“ er þó alla tíð hugsandi maður, og það er meira en sagt verður um ýmsar aðrar þjóðir, svona hlutfallslega. Okkur hér líður að venju. Ég hangi uppi við mín gömlu vetrar-verk, en er ekki æfinlega „brattur“, dálítið „slitróttur“ — en „verra gat það verið!“ Baldur og nokkrir aðrir eru að búa sig á „dýraveiðar“, eitthvað „út úr byggð“. Leggja upp á morgun. Heimili mitt biður að heilsa þér.

Gerðu nú ellinni grikk,
Grímur, í rúmlegu-bætur—:
Farinn á fætur,
Felld'ana á mjaðmar-hnykk!

Vinsaml. Stephan.

*Guðm. Finnbogason.* Markerv., Alta, Can., 30. nóv. 1924.

Góðvinur. — Alúðar þökk mína, Guðmundur, fyrir bréfið þitt síðasta, bókina og greinina, sem þú gazt um, því

þó mér ekki hafi verið send hún, að minnsta kosti ekki komið fram, þá veit ég þetta: Þessi skrifli mín hafa verið í vinarhöndum, þar sem þú varst. — Svo er „Stjórnarbót“ þín þakkar-verð, elja þín og velvild að brjóta heilann um þessi manna-mein í vorum holgrafna heimi, jafnvel þó ekki yrði enn gripið læknishendi á hverju kýli, nema með reynslunni, sem aðeins sést í „anda“. Flokkar og blöð eru sem þú segir. Það er bert. Og þó ekki sé til meira mælzt en bótar á þessa flakandi flík: fyrirkomulagið, þá er það allt í átt til umbóta-vona, og hleypir í menn hugrekki um, að mannheimur stýri um síðir ólaginu af. Mér skilst, að Kristur og ýmsir aðrir menn hafi skilið við hugsjónir sínar naktar, með að hugsa þeim ekki neinar fyrirkomulags-umbúðir, en sem ýmsir (þú þar á meðal) byltingamenn og „bolshevikar“ séu að reyta saman reifar á, og sú ágizkun er mér til ánægju. Hitt hræðist ég, að enginn einn umbúnaður dugi, ef „alltaf lifir andinn sami“, andi ágengninnar, þeirrar almennu heimsku að ala sjálfan sig á öðrum og trúa, að slíku fylgi farsæld. Það er í mínum augum sú heimskasta hagsýni, gagnvart einstökum sem öllum, og ekkert vit í. Að gamni mínu sting ég með enskri grein, eftir einn Alberta-þingmann okkar í „Parlamentinu“ í Ottawa, ekki í því skyni, að þú lærir neitt af henni, heldur til að sýna, að hann er að „leggja höfuð sitt í bleyti“ til að leysa jafnvel verra vandamál en ykkar „efri deild“ er, því ykkar aðferð er þó skynsamlegri, jafnvel þó hún sé lítið annað en sama sagan: neðri deildin í þingi, kléðst við í minni mynd. Ég trúi á sanngirni, væri hún til í „pólitík“. Þekkingarlaus verður hún þó viðutan, svo mjög, að ég skil ekki, því góðir menn geta fengið sig til að rázka um mikilsverð þjóðmál, sem þeir hafa engan botn í. Ég myndi þverneita að taka það í mál. Yrði þröngsýni bægt á braut, trúi ég því, að „þekkingin“ sé ugglausust innan hverrar stéttar, fyrir hvað sanngjarnast sé, borið saman við kjör annarra stétta, sem *þær* kunna betri skil á. Þekkingu má kannske leggja þingi til með fyrirkomulaginu. Reipadrátt hindrar ráðvendnin ein. Og í gamni, Guðmundur, ég hræðist skrifstofurnar, meðan verið er að koma á öllum þínum mælikvörðum, hvílíkt bákn þær verða! Það kemur af því, að ég er sjálfur svo rýr reglumaður. En

auðvitað er regla, sem bregðast kann, stundum betri en tóm botnleysa, svo tilraun þín er góðra gjalda verð og miðar til menningar. En veiztu hvernig færi í Ameríku, ef kirkjugesta-kvarði þinn á presta yrði tekinn upp? „Billy“ okkar „Sunday“ yrði hér æðsti prestur, sá „postulinn“, sem ég kysi sízt fyrir „sálusorgara“ minn, né annarra, nema ef satt væri, það sem sagt hefir verið, að „Guð hafi nú tekið af honum“ röddina, svo hann geti ekki lengur flutt sinn knattleikara-kristindóm. Hann var „Base-ball“ leikari fyrr en prestur, og ræðumanns limaburður hans er allur þaðan þrifinn. En, auðvitað, ég viðurkenni, að fjöldinn hefir rétt til að velja sér sáluhjálp við sitt hæfi, hvað sem mér líður!

Gott var að heyra, að þú kannt vel við þig í nýju stöðunni. Ég kveið hinu, leiðindum út af að verða að láta af því, sem maður hefir lagt fyrir sig og trúað á, að þjóð sinni myndi að gagni koma. Hart í ári hér í Canada, einkum meðal bænda, og þá sjálfsagt verkamanna. Yfir höfuð kornuppskera hvorki góð né mikil. Í Alberta hálfu minna af hveiti t. d. en í fyrra, og flest korn annað létt vægt. En Ísl. hrikta það samt af á við aðra, og enginn hér í héraði í neyð staddur.

„Heimskringla“ að stórbatna. „Lögbergi“ að lakast. Íhald virðist alls staðar að færast í aukana, en er reyndar bara að verða vatnaskil milli afturhvarfs og *afturhalds* — hver að þekkja sína sauði og sameinast þeim.

Hlýindin eru orðin mér holl, og margt á [ég] ykkur að þakka heima: góðan orðstír, bréf, bækur og blöð. Ég sagði nýl. í viðtali við menn, að t. d. „Lestrarbók“ Nordals og „Stjórnarbót“ þín leyndu því ekki, að enn væru Ísl. hugsandi menn yfirleitt, öðrum fremur.

Blaðið á að bera kveðju okkar til þín og í þinn bæ, og auðnu-ósk til lýðs og lands —

Verði hver staka þér stundar yndi,
hver stjarna að sólum,
Og árið allt að einlægum jólum.

Vinsamlega Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* 23. desember 1924.

Allir, sem mér eru hjá,
Eru að skrifa sínar
Jólagjafir utan á,
Þar til dagur dvínar!

Minnstu samt ekki á mínar!

Þú átt aleinn þær að fá,
Þær eru að koma — horfðu á:
*Þökk fyrir tryggðir þínar!*

Stephan.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 23. des. 1924.

Góðvinur. — Í síðasta skeklinum, sem ég sendi þér, hafði ég víst við orð að senda þér línu bráðlega, en brást þeirri bogalist. Var þá fletrækinn og fjósrekinn og í skuldum upp að öxlum, bréfa-skuldum, sem eru bezti *gróðinn,* hvernig sem árar. Nú nær tveim vikum hefi ég haldið mig innanhúss og lítið gert. Var lasinn, að mér fannst. Er nú betri aftur. Et allt, nema ket, tygg tóbak og er nærri búinn að „drekka upp“ lyfjabúðina í Innisfail vatnslausa og sýrulausa, og það geri ég þangað til ég verð albata!

Svo illa hefir nú viðrað hér undangengnar vikur, að enginn man verra — frost og fannkingi. Ungu mennirnir segja, að slík ósköp hafi aldrei á gengið, frá upphafi sköpunar. Þeir sem tóra á raups aldri þykjast hafa lifað líkt, en eru álitnir gortarar. Ég skal ekki lýsa því frekar, „Sask.“ mun hafa fengið „reyk af réttinum“, þó „Alta“ sé sögð að hafa hlotið fyllstan mæli. Kaldasta daginn dóu tveir karlar hér í grenndinni, menn yfir sextugt. Voru við útiverk. Annar komst aðeins inn. Hinn hné niður milli fjóss og bæjar. Frost var talið frá 60 til 70 stig, og eins var sagt fyrsta veturinn minn hér. Nú var ég inni — þá var ég úti. Leti getur verið bjargvættur! Skárra veður nú í 2 til 3 daga, en ófærð og ill-svalt.

Erindið er nú þetta, ef erindi skal kalla: Mér hafa verið sendar nýl. frá Ísl. tvær bækur, nýjar og ágætar, „Lestrarbók“ Nordals og „Stjórnarbót“ dr. Guðmundar. Einkum er

bók Nordals svo sem ég vildi vera láta, en hefi ekki tíma til að hæla henni við þig. Hún er ætluð skólabók — nærri öll um skáld og skáldskap Ísl., 5 síðustu aldirnar. Ég er ögn kunnugur Ársæl bóksala í Rvík og hefir farið vel á með okkur. Ég hefi skrifað honum og beðið, að bæði þessi kver sendust beint til þín, „Stjórnarbót“ handa þér, ef þú kynnir að verða stjórnarherra í „Sask.“ — og „Lestrarbókina“ handa nafna mínum, svo hann sjái seinna, að ég er ekki einn um að vera „leirugur“. Ég veit ekki, hvað Ársæll gerir, og engin von um svar fyrst um sinn. Svo skammt er síðan ég sá bæklingana. En — láttu vera að kaupa þá fyrst um sinn, þó þeir komi hér á markaðinn. Sjáum hvað Ársæll setur.

Þakkaði ég þér nokkru sinni afmælis-vísu þína? — nema í hljóði heima. Ef ekki, geri ég það nú.

„Lögberg“ er svo ráðlaust rit
Ræfil sinn að fela.
Hefir ekki almennt vit
„Almennilegu“ að stela.

„Kringla“ að verða sæmilegt blað, hjá Sigfúsi.

Þó næði um oss, sem aðra menn,
Íhlaup vetrar-tíða,
Skulum lifa ótal enn
Uppbirtingar hríða!

Kærl. kvaddur og vinsamlega. Stephan.

*Jakob J. Normann.* Markerv., Alta, aðfangadag 1924.

Gleðilegt ár!

Ég ber hvergi að jötum inn
Jóla-gjafa drögu.
Ætti ég samt, Jakob minn,
Jarteikn skárra en bögu,
Skyldi ég koma í klefann þinn
„Kertaljósi“ og „Sögu“!

*J. Magnús Bjarnason.* Markerville, Alta, 24. des. 1924.

Magnús minn. — Þökk fyrir kveðjuna og komuna. Og komdu aftur.

Sé þér hlýr til hagsældar
Heimur nýr og sögur,
Við æfintýri ellinnar
Æsku-hýr og fögur.

Kona mín og ég, og ég þori að segja: sveitin hérna, leggja kærar kveðjur sínar innan í umslagið, ósýnilegar en einlægar. Vinsamlega Stephan.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 25. des. 1924.

Grímur minn. — Gleðilegt ár, og þökk fyrir bréf og blöð. Engar fréttir að færa. Tíðin óvenju ill. Færi svo þungt, að menn komast hvergi um, og póstur aðeins með höppum og glöppum. Ég hefi nú innisetur. Er lasinn. En nóg er að lesa og næg bréf að skrifa. T. d. dr. Ágúst sendi mér „Siðafræði“ sína, nýkomna út, 1. hefti. Það er góð bók og fróðleg. Ág. er sprenglærður í spekingasögunni, hún er hans andlega heimasveit. Svo voru mér send frá New York, frá Aðalsteini Kristjánssyni, Æfisaga Mark Twains, eftir hann sjálfan, tvö stór hefti. Ég er svo sem ekki einn í kofanum, þrátt fyrir allt.

Mig langar að biðja þig bónar. Er að hugsa um matinn! þetta, sem haldið er, að hollt sé fyrir mína innyfla-ræfla, svo sem gróft brauð og grauta — jafnvel „bran“. Heyrt hefi ég, að Krístín Ásmundsson haldi sér uppi á því (líkl. eftir lækna ráði) og láti vel af. Viltu tala um það við hana við tækifæri, hvað hún notar helzt, hvernig hún matreiðir það, og hvar það fæst í algengum mjölbúðum, eða annars staðar, og skrifa mér svo þá „Matreiðslubók“, ef þú kemst til. Læknarnir segja mér, að ég geti varizt, en ekki læknazt, og það er ég að reyna.

Spilli ei þinni heilsu hót
Hættur slysa atviks —
Steyttu nú aldrei stirðan fót
Við stigunum hans Patriks!

Vinsamlega Stephan.

*Sigurður Nordal.* Markerville, Alta, Can.

Herra Sigurður Nordal. — Þessi miði flytur þér þökk mína góða fyrir „Lestrarbók“ þína. Hún er mér ánægjueign, frá ókunnugum. Áður hafði mér send verið Árbók Háskólans, með „Völuspá“ þinni, sem þú hafðir blásið sem „lifandi anda“ í „nasir“ skólaskýrslanna. Sá „skenkur“ kom mér ekki síður, en gat ekki séð, hverj[um] sérstaklega ég átti fyrir að þakka! „Lestrarbókin“ var mér fengur. Ekki einungis fyrir það, að það er síður en svo, að þú „setjir *mig* hjá“ í henni. Það er auðvitað „lukkuhnútur“ á „smalasnærinu“, sem runnið hefir, mér að óvöru, á það, og þeim fylgdi happ, að því er „barnatrúin“ kenndi. Samt varð ég enn hróðugri yfir því, að bókin er mótmæli gegn því, að bókmenntir Íslendinga hafi dáið út úr öllum æðum, „annó“ svo og svo. Sú kredda kom mér sífellt í illt skap, eins konar ráðleysis reiði, því ég fann, að mig skorti gögn og gáfu til að kveða þann draug niður, sem Guðbrandur og aðrir frægir menn í forneskju höfðu magnað svo mjög. Nú hefir þú dregið hring í kringum hann að nokkru leyti, enda var mál til komið, hvort sem þér tekst „að koma honum fyrir“, að svo stöddu.

Vænt þótti mér um „Völuspá“ þína — líkl. vænst um hana af öllu, sem þú hefir enn ritað og ég hefi séð. Það er af því, að ég hefi næstum frá æsku haft grun um, að rituð séu ýmis „guðspjöll“ í Eddunum okkar, sem norrænn andi muni eitt sinn lesa opnum augum — þrátt fyrir það, sem getur hafa gleymzt, eða annar siður náði of ungu og óþroskuðu og kippti vexti úr. Auðvitað má, og verður, ýmislegt í niðurstöðum þínum að takast upp sem efamál, en eftir er þó hitt, að segja eitthvað sennilegra. Jafnvel „óttinn við dómsdag“ kann að hafa knúð ímyndirnar innfjálgara en nokkur saga segir. Því getur sá vel trúað, sem hefir lifað, eins og ég, upp aftur og aftur vissu fólks og voðahræðslu við þennan rang-reiknaða „drottinsdag“, og svo þögnina um það, að þjófurinn kom ekki þá nóttina sem til var tekin, en settur jafnharðan annar eindagi trúnaðartraustur sem hver annar, sem á undan brást.

Meðal annars: mig grunar Egil meira um metnað en það, sem fest er við hann fastast, fégirnd. Hann er svo vitur, að hann kann kosti sína, t. d. sem skáld, og ættar sinnar

allrar. Hann vill heldur vega Skálaglam en lítillækka sig svo, stærra skáldið, að kveða lof um hann fyrir skjaldargjöfina, þó ekki yrði að gert, sökum venjunnar og kænsku Einars, að komast allur á burt. Einar var að „bralla sér inn“ góðan „ritdóm“ hjá frægum manni, eins og höfundar gera enn þann dag í dag, eða útgefendur, gróðans vegna. Egill verður léttbrýnn af sæmdinni, að konungur bætir honum bróður sinn — leggur sig í hættu að ná arfi konu sinnar, svo enginn geti sagt, að kona Egils hafi ambátt verið, — þiggur borgun fyrir arfinn eftir Ljót, af því höfðingi og vinur Gunnhildinga kannast við þá landhreinsun, sem Egill vann, og réttmælt lög um reyturnar eftir hann Ljót. Metnaður, að hann þykkist við, að aðrir fari í fallegustu flíkur hans, meðan hann sjálfur ber þær bezt uppi, — og orðinn hornreka eldabuskanna og fyrir hnjátum ins hruma manns, finnst honum kveðskapur sinn og saga gleymd og ónýt, og í gremjunni út af því vill verja fé sínu að síðustu til ódæðis, til að bjarga minningu sinni á einhvern hátt.

Fyrirgefðu rausið, Sigurður. Það er smá ánægja að hlusta á minn orðabelg tala við sjálfan sig, og vanþakklæti við þig. — En autt blaðið freistar. Megi þér auðnast sem flest þrekvirki í bókmenntum okkar.

Virðingarfyllst og vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 4. jan. 1925.

Góðvinur séra Rögnvaldur. Gleðilegt ár! — Heila þökk mína fyrir bréfið og fésjóðinn. Þó ekki ætti ég á honum neina vissa von, kemur hann sér vel, mér og líkl. fleirum, sem hans mundu njóta, og þó ég teldi ekki til neinnar skuldar og upphæðin væri hærri en mér hefði getað í hug eða hjarta komið, er því ekki að leyna, að af honum leiðir mér margt og mikið gott, og að hann bjargar við í bráðina ýmsum mínum málum og gerir mig „ærlegri“ aðsýndar „í annarra augum“ en ég sýndist áður, að líkindum — og svo, þessi heimilis-hugnun: að það getur orðið matur úr öðru eins óæti eins og kveðskapurinn virðist að vera, jafnvel sá, sem ekki var „tekinn út úr búinu“. Ég er hvort tveggja, innilega þakklátur þér og þínum drengskap og

allra, sem um gengust, og óánægður með sjálfan mig, að taka við nokkru. Meðferð ykkar á mér er eflaust dæmalaus í landnáms-sögunni, og „löndum“ til stór-sæmdar — aðeins eitt, sem ég óttast: að mínir viðburðir hafi brugðizt, að vera slíkrar borgunar verður.

Hættulaus er himni á
Heimvist. Nema tvísýnan:
Héðan burt að flytja frá
Fólki, sem var gott við mann!

Það gladdi mig, að þið Hjörtur kynntust eitthvað og að ég var ofurlítil orsök í því. Jú, við vorum eitt sinn sveitungar og samtíða, hann á drengs-aldri þá. Æfin varð ólík. Langt á milli og mörg ókunnug ár, þó alltaf vissi ég ögn, hvað honum leið, en datt aldrei í hug, að *hann* myndi mig, fyrr en fyrir nokkrum árum, að hann fór að senda mér jólagjafir, dýrar bækur, og línu einstaka sinn, en ekki er hann örlátur á *það*, bréfa-greiðamaður lélegur. Nýlega sendi ég honum „Andvökur“ síðustu. Ætlaðist til, að þær sæju Chicago á jólum, hvað sem af hefir orðið. Klóraði vísu, á „millipils“ þeirra! (Mér þykir það „fínna“ orð en „saurblað“). Hún var svona — ef ég man hana —:

Forðum vættir verstu,
Vomar úr fjalla-skjólum,
Sóttu að bæjum beztu,
Boðslettur að jólum!
Hjörtur, um sveitir sínar
Siðunum lítt þeir breyta,
Er þig uppi leita
„Andvökurnar“ mínar!

Hjörtur var aldrei gárungi, en engan vissi ég hlæja hjartanlegar að spaugilegu, t. d. „Heljarslóðarorustu“ Gröndals. — Segðu heimili þínu kæra kveðju mína, og vertu blessaður og sæll!

Vinsamlega Stephan.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 9. jan. 1924.

Jónas minn góður. — Ég óska þér og ykkur allrar árgæzku og skyldi ráða því, ef ég gæti, að það yrði að áhrífsorðum. Bréf þitt frá 28. des. f. á. nýkomið, eða svo að kalla.

Nei, um Ingólf þennan veit ég ekkert, nema af spán-nýju orðspori, sem ef til vill er ruglað. Við hér vissum ekkert um hann fyrir þessa frétt Wpg.-blaðanna. Að vísu, rámaði einhvern þá í það, að í „Edmonton Bulletin“ hefði staðið eitthvað um einhvern Hans Andersen, sem hefði verið kærður um morð. Nú er sagt, að Ingólfur þessi hafi gengið undir því nafni. Sagður vera 54 ára að aldri, eiga föður á lífi og frændfólk í Manitoba. Hafa þótt drykkfelldur. Íslendingur, sem bjó í Red Deer, hefir einhvern tíma séð hann þar í svip. Sagt er, að maður sá, er hann átti að hafa komið fyrir, hafi verið félagi hans fyrrum, búið nálægt Fort Saskatchewan, einbúi. Ingólfur hafi komið til hans í sumar og setzt upp á hann. Stefnt honum fyrir kaup, og tapað málinu. Heitazt um að jafna á honum. Horfið, en maðurinn fundizt dauður í brunni. Lögreglan náði Ingólfi einhvers staðar í Sask. Verið kærður og dæmdur. Líkur, t. d. þær: Þegar lögreglan tók hann (líkl. óvaran), hafi hann verið að tauta fyrir munni sér: „Guilty — Not guilty,“ haft á sér úr ins dána manns og einhverja flík af honum. Sjálfur neiti hann sekt, og vitni séu engin. Það kvað hafa komizt svo upp, að hann var Ísl.: Maður er nefndur Mundi Johnson. Hefir lengi átt heima í Edmonton. Ekki þekki ég hann, en gott ef hann er ekki að „sunnan“, þ. e. frá Bandaríkjum. Hann var á flakki í Edmonton nýl. Mætir lögregluþjóni, sem spyr, hvort hann vilji ekki heimsækja bróður sinn. Mundi kvaðst engan bróður eiga. Gekk samt með hinum til fangelsisins, sem Ingólfur sat í, og það var ið fyrsta, sem nokkur Ísl. varð var, hvar komið var. Haft er eftir Munda þessum, að sér hafi virzt Ingólfur tæplega sem fólk er flest. Hann hefði sagt þeir mættu taka sig af, gætu þeir sannað á sig nokkra sekt. Kona þessa Munda er sagt að hafi skrifað séra Jónasi Ara og sagt, hvar komið var. Þá komst þetta upp. Ég hefi ekkert nema orðasveim, og þetta kann bæði að vera rangt og er ónákvæmt. Ég fyrir mitt leyti vildi, að Bergmanni tækist að frelsa hann. Hefi tvær ástæður: hata öll líflátslög — ann Bergmann að gera sér til sæmdar, ef unnt er. Hann aftók álit sitt hjá mörgum góðum landa á Tjaldbúðarmálinu. Nú kynni hann að vinna það upp. Þetta er allt, og líkl. of mikið, sem ég hefi um þetta mál heyrt, og auðvitað verða

ísl. blöðin að vera varorð, sjálfs sín vegna og eigi málið að komast lengra. Eg held, að þau hafi gert rétt, og kannske eins og þau vissu fyllst.

Tíð var hin grimmasta hér yfir desember, hörkufrost og fannkingja. Mildaði með nýári. Ég hefi legið inni að mestu nú í 3 vikur, þoldi ekki mátið lengur við útiverk, sökum lasleika míns. En er nú orðinn mikið notalegri. Et ögn meðöl og tek í mig ýmsar mínar „tiktúrur“, t. d. núna, borða, má heita, aðeins eina máltíð á sólarhring.

„Myndir“ Huldu á ég, mér voru sendar þær. Tvö eintök af „Kerlingabókinni“ máttu senda mér og segja hvað kosti, þegar þú hefir þær. En ekki ætla ég þær til útsölu. „Lestrarbók“ Nordals in nýja er ágæt bók, og „Völuspá“ hans í „Árbók Háskólans“ afbragð. „Siðafræði“ dr. Ágústs og „Stjórnarbót“ dr. Guðmundar sömuleiðis þarfabækur og vel ritaðar. Mér hefir verið sent það allt að heiman, frá höfundunum, og „Hafræna“ dr. Guðmundar. Það er munur á þeirri menningu heima og hér. „Amerískan“ hefir gert okkur að andlegum grútarpjönkum. Sigfús frá Höfnum er að gera vel í „Heimskr.“, þurfti fyrir löngu. Ég hefi haldið því fram: „Friðsemin“ var dauðasynd okkar frjálslyndari og bárum aldrei af okkur til gagns lymsku, fólsku og flónsku hinna, og spilltum fyrir okkur, einkum heima, að samþykkja svo með þögn. Þeir láta aldrei undan, strákast upp, nema að í þá sé tekið, en sé það gert að gagni, mega þeir til á endanum að koma með alla sína óhreinku út úr pokanum, ef að þeim er gengið, og því betur auglýsta það, sem inni fyrir býr, út úr vandræðum sínum. Andleg spilling má ekki dubbast upp sem dyggð aðeins fyrir hlífðarsemi og hirðuleysi þeirra, sem til þekkja. Að líða löðurmennskuna umtalslaust, að þola heimskuna hlutlausa, er að gera sig seka í „annarra syndum“. Nóg á maður samt með sínar eigin.

Þín skal saga, er eftir er,
Önn og baga farga,
Lífga hag þinn, lengja þér
Ljóssins-daga marga.

Vinsamlega Stebbi.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 12. jan. 1925.

Grímur minn. — Erindið er bara að láta þig vita, að ég hefi fengið bæði bréf þitt og böggul Kristínar. Þakka hvort tveggja og berðu henni þá kveðju mína við tækifæri. Mér er sagt af „lærðum mönnum“, að mér dugi helzt iðjuleysi og át, svo ég er að leita mér að mat: „reyna og prófa allt,“ eins og postulinn réði til, og senn mun ég reyna að „sitja til borðs“ með Kristínu, þegar ég kemst til, að einhverju leyti.

Ekkert er að frétta. Tíðin ögn að milda úr sér, en hálfköld ennþá, og þungfæri á brautum, hvenær sem vindur andar.

Manstu nokkuð, að Ísl., sem Ingólfur hét, var nokkra daga vinnumaður Þorsteins Davíðssonar, þegar hann bjó hér forðum, sama árið sem Þorst. hélt uppboðið, og um það leyti. Hann kom með þennan þjón frá Innisfail. Var stutt í vist. Ræfill og drykkfelldur. Kom hingað frá Seattle, að hann sagði. Hafði flækzt víða. Þóttist ætla til Íslands aftur. Enginn man, hvers son hann var. Einar stjúpsonur þinn hefir hitt þennan Ingólf Ingólfsson í Red Deer. Hann þóttist hafa verið í stríðinu, bæði í skotgrenjum og verið læðuskytta (sharp-shooter), og Einar segir hann hafi sýnt örkuml á sér, sem líti líklega út fyrir, að séu svo fengin. En hvað um það, Canada hefir engan mannlegan rétt til að myrða hann, jafnvel þótt sekur væri. Ísl. er sómi í að hindra þann glæp. Og vertu nú sæll, Grímur.

Vinsamlega Stephan.

Ingólfur þessi kvað hafa sagt Einari, að Ingólfur, faðir sinn, hafi verið skipstjóri, og að „flóabáturinn“, sem ég hefi heyrt oft nefndan hér á fyrri árum og „Ingólfur“ hét, hafi verið nefndur svo í koll á karli. Annars virtist Einari orð hans og æði tæplega á réttum kili óbrjálaðra manna.

*Jakob Briem.* Markerville, Alta, 23. febr. 1925.

Herra Jakob Briem. — Fyrir nokkrum árum átti ég fárra augnablika viðtal við íslenzka konu vestur á Vancouvereyju, Mrs. Cox (nú dáin) — Salína Pálsson mun

hún hafa verið nefnd áður, er hún var ógefin. Hún var gáfuð kona og vel að sér í íslenzkum bókmenntum, yfir vonir fram, einangruð eins og hún var meðal hérlendra. Ég lét það eitthvað í ljósi við hana, að mig furðaði kunnátta hennar og dómgreind, eins og á stóð. Hún svaraði því, að hún ætti það allt Jakob Briem að þakka, því að hann hefði sagt sér til í æsku. Síðan hefir mig oft rekið minni til þessara orða og hugsað hlýtt til þín, vegna íslenzkunnar, þó mér væri þá, eins og enn er, aðeins nafn þitt kunnugt, því ekki minnist ég þess, að við höfum mætzt. Svo kom bréf þitt nýl. Ekki grunaði ég það né efni þess, en þakka þér kærlega fyrir. Það hefir verið sagt, „at óvíst er at vita, hvar óvinir sitja á fleti fyrir“, en mér hefir reynzt það miklu erfiðara oft að gera mér grein fyrir, *hvar vinir* sátu, eða *hví* þeir sátu þar, og því var mér bréf þitt eins konar óvænt kveðja úr hlýrri átt, sem ég vissi ekki af. Þess konar veðurstaða verður manni notaleg til umskipta annað veifið, og einlæglega og vel hefi ég virt það, sem verðugt er.

Ég óska þér og ykkur öllum, sem búið í biðstofu ellinnar, þarna á Gimli, allrar ánægju, svo aldrei verði ykkur dvölin dauñeg til muna. Ég get það með enn meiri alvöru, sökum þess, að nú er ég sjálfur „siginn á seinni hlutann“, jafnt við suma aðra.

Með vinsemd Stephan G. Stephansson.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 27. febr. 1925.

Góðvinur Jakob. — Nú er svo langt um liðið síðan bréf hafa borizt milli okkar, að „ég geri mér upp erindi“ til þín, í von um að fá að vita, hvernig þér og ykkur líði. Málamyndar-erindið er þá það, að Ársæll Árnason bóksali í Reykjavík hefir nýskrifað mér, að hann hafi sent þér fyrir nokkru kverin, sem ég bað hann um og gat um einu sinni í línu til þín. Ef þau koma fram, viltu gera svo vel að láta mig vita það með línu? Því þá þarf ég að skrifa honum. Þú fyrirgefur svo ómakið!

Ég hefi ekkert frétt um ykkur lengi. Er heilsa þín ekki kannske vel rösk? Af því hún er biluð, er svo hætt við, að hún liggi undir svona illfylgnu vetrar-veðri, eins og

nú gerist, því ég býst við, að því svipi saman, hér og hjá ykkur.

Snifna glannast heljar-heiði
Hvítur fanna-renningur.
Öðrum bannar úti-leiði
Illviðranna spenningur.

Heilsu minni líður milli húsgangs og bjargálna, en það var nú einmitt það, sem Agúr heitinn bað um, í sínum búskap, og mér hefir ætíð þótt sú bæn ein með þeim fegurstu, þó á hinn bóginn, að ég kysi bæði öðrum og mér „auðuga“ heilsu, hvað sem öðrum eigum liði. Skildu þetta samt ekki svo, að ég sé að uppgefast við annað en iðjusemina, en svo hefir löngum verið sagt svo, að ég hafi engu nennt nema að „liggja í bókum“, og það af þeim, sem aldrei kynntust mér, og nú er mér tími til að heita „strákur og vinna til“. Í alvöru, ég er að sjá til, hvað hvíldin kunni að gera fyrir mig — og svo kemur vorveðrið — og ekkert er mér að versna — skárri að sumu leyti en ég var verstur.

Innan skamms við ekkert gjörum
Úr óveðranna köldu svörum,
Svalviðrið er senn á förum,
Sumarbros á allra vörum.

Ég bið að heilsa nafna mínum og nágrenninu.

Gefi þér vorið gull í mund
Og glaða lund,
Værra drauma vöku-blund
Og vinafund!

Og vertu svo blessaður! Vinsamlega Stephan G.

*Magnús Jónsson frá Fjalli.* Markerv., Alta, 2. marz 1925.

Góðvinur Magnús. — Það gladdi mig að sjá línu frá þér, með sömu merkjum skilnings og góðvilja eins og áður, meðan langdegið var meira og bjartara var kringum þig — þakka þér fyrir! Lengi hafði ekki borizt nein afspurn af þér, þó ég vissi vel, að þess myndi getið í blöðunum, hefðir þú „ráðizt í eitthvert annað skiprúm“.

Ekkert er að frétta. Um tíðina ekki til neins að tala, en örðug var hún árlangt, eða meira, og sér enn hvergi fyrir endann á. Búskapur bænda hér fremur basl en gróði, en engin neyð í mínu nágrenni. Sjálfur hangi ég, eins og ætíð, milli halla og hruns, en kemst sífellt af og eins enn, án þess að leggjast kylliflatur. Uppskera brást mjög hér í kring næstliðið ár. Ég hefi verið verklaus í vetur, síðan litlu fyrir jól. Lasinn nokkuð. Slit og bilun. Aldrei rúmfastur. Skárri, að ég held, en ekki jafngóður, og líkl. verð aldrei. Kominn víst af þeim árum, sem menn geta „tekið út vöxt“ á. En yfir höfuð líður mér þó vel. Menn eru mér svo góðir, margir, minnast mín svo hlýtt! eða þá aðrir, sem hnýta að mér, eins og þeir geta bezt, og ég á skilið, og það bara gerir „vistina ódauflegri“.

Aldrei, held ég, að á Íslandi hafi komið út á einu ári fleiri bækur frumritaðar, og ágætar í sinni röð, en umliðið ár. „Stjónarbót“ (nýtt stjórnarfyrirkomulag) eftir Guðm. dr. Finnbogason, góðra gjalda vert, þó eitthvað megi kannske athuga. „Siðafræði“ eftir dr. Ág. Bjarnason, upphaf og ágrip lengra verks líklega, en stórgróði fyrir þá, sem fátt vita um þau mál, ljóst þó stutt sé sagt. „Völuspá“ Sig. Nordals, í „Árbók Háskólans“, afbragðs rit. Tilraun að sanna, að „Völuspá“ sé kveðin á Íslandi, en ekki í Noregi, og sé langt um dýpra og andríkara verk en aðrir hafa áður haft hugmynd um. Jafnvel brytt á, að ekki sé óhugsandi, að „germanskir““ menn taki tillit til hennar, þegar þeir næst smíði sér ný trúarbrögð og fullkomnari þeim, sem uppi eru. Líkt hefir mig lengi grunað um Eddurnar, og auðvitað verður þetta ekki sannað sem reikningur, en langt finnst mér Nordal fari að gera margt líklegt um „Völuspá“, og ég sé ekki, að ið gagnstæða verði sýnt sennilegar. Þá hefir Nordal safnað og gefið út nýja „Lestrarbók“ í íslenzkum bókmenntum, yfir 5 síðustu aldirnar, ágrip fyrir skólana, mest ljóð. Með henni, og formála, vill hann sanna, að Ísl. sé mesta bókaþjóð, og aldrei hafi upp úr því slitnað, aðeins depraz við og við, en einhver ætíð bjargað, þegar útlendur siður var að því kominn að þagga það, sem þjóðlegt var að uppruna. Ný-íslenzka og ný-íslenzkar bókmenntir séu villikenning ókunnugra manna, „Fjölnir“ og viðreisnin sé framhald, en ekki

upprisa. Þetta hefir mér líka lengi fundizt, en Sigurður kann að fara með það, en ég ekki, en vænt þykir mér um hann, og bezt af öllum ritar hann um bókmenntir, að mér finnst, en annað álit hefir hann, bæði á höfundum og stefnum, sumum, en það, sem víða hefir við gengizt, og er líklegur til að fá „krúnuna kembda“ fyrir það, eins og fyrir álit sitt á Einari okkar Kvaran, nú nýlega.

Ég er að fjölyrða þetta, Magnús, einungis til að segja eitthvað við þig, ef ske kynni þér þætti það mas betra en autt blaðið og hefðir skemmtun að, en vel má vera, að þú hafir kynnzt þessu öllu sjálfur og lagt þinn eiginn dóm á, því ekki kom ég til að kenna þér. En hitt veit ég, að sértu enn með öllum ummerkjum þínum, öðrum en sjóninni, hefðir þú haft unun af, að eitthvað af þessu hefði verið lesið fyrir þér, og kannske svo vel hafi viljað til, að það sé þegar skeð — en ef ekki, vildi ég þú værir nokkru nær.

Ég bið að heilsa konu þinni og fólki, Magnús minn, ég man það allt, síðan ég var gestur ykkar forðum, og vertu svo blessaður og sæll!

Hvernig sem heimur er gerður,
Hvernig sem sköpunin fer:
Jafnaldri veralda verður
Vitið, sem uppfæddist hér.

Vinsamlega Stephan G —.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 3. marz 1925.

Góðvinur. — Erindið er eiginlega að spyrja, hvort „Jordens Gröde“ hafi komizt í hlöður þínar, eða týnzt, eða stolizt úr pósti. Þig vantaði hann, og ég sendi hann, og „Wasteland“ og „Outline“, síðast. Fjórða bókin var „*Singing Jail-birds*“. Ég gat um, að ég fyndi hana hvergi í svipinn, en vissi, að hún væri víst til í rusli mínu, myndi koma fram, og þá skyldi ég senda hana. Þetta varð, og hún var í „skruddu-skáp“ mínum, innan um hin villidýrin. En ég sendi hana aldrei! Þú hafðir skrifað orð á titilblaðið, sem létu í ljósi, að þar væri ekki búizt við neinni skilvísi fram yfir þrjá af fjórum! Þessu hafði ég gleymt, þegar ég skrifaði, og því hafði ég þó stung-

ið kverinu „í minn vasa", svo ég glæptist ekki á of-ráðvendni, þegar til skilanna kæmi. Svona hafðir þú séð fyrir þessum „söngfuglum", svo nú er það þökk mín hér, sem flöktir heim, ein á rána til þín, og hafðu sæll gert! Bókin er góð, alveg eins og „Manga" Sinclair's segir: „Hans eina listaverk". Ég fer að trúa, að „Magga" sé mesta „myndar-kona" um margt, og fyrirgef bresti fyrri konu S. fyrst svona fór, auðvitað, af því ég varð ekki sjálfur fyrir þeim! Svo mikið er í listina borið þarna, að hún verður hamhleypa, úr öllum áttum aðkomin og örðug að eltast við, ef ekki svo mikil, að hún verði stundum „láta-læti í staðinn fyrir list" — *artificiality, instead of art,* — eins og einhver sagði, að brygði fyrir hjá Tennyson, og leiðinlegur er mér „Enok Arden", en skemmtilegur yfir höfuð, að einu atriði undanteknu, þessi Sinclair's „Söngfugl í prísund". En hafi „Jarðar-gróðurinn" týnzt, á ég að borga þér hann, og hvað var þá uppskeran metin, þegar þú festir kaup á henni? Segðu mér það við tækifæri. Verst, ef kerlingin, sem vildi fá hana lánaða, þarf lengi að standa málþola. — Þú segir rétt til, Kvaran er „útvalinn" — *prófessional,* ef nokkur Ísl. er það. Hefir getað gefið sig að söguritun sinni eingöngu, sökum sæmilegra skáld-launa. Góður, það hann nær, á „Smælingjum" og „Æfintýra-stíl" — en, hvorugt er efni í stórvirkin. „Trausti" rakst oft ofan á ágætar skapgerðir — *karaktéra,* en steypti flestum ofan í forina að lokum, hafði víst þá ímyndun, að aðstæður lífsins réðu þannig ætíð úr, sem ekki er þó nema að sumu satt. Allir fá ekki uppdráttarsýki. Einari vill sjaldan til að velja neitt, sem ill áferð er á. Trausta of oft.

Satt er það líka, sælir voru þeir þess, að mega vera sjálfráðir, og þurfa ekki að kljást við þessa bókmenntakokkála hér, sem kallast „forleggjarar" og halda, að þeir viti betur en höf., hvað sé „blóð og mergur" í eigin viðleitni, og miða allt við að „húmbúgga húmbúggið", svo skildingar hrökkvi af.

*Lárus* nýskírður: *Jón halti.* Guðfeðgin: Bíldur og Lögberg. Það er vor „stríðandi kristni"! Og fyrirgefðu mælgina, og vertu blessaður og sæll.

Vinsamlega Stephan G—.

*Guðmundur Finnbogason.* Markerv., Alta, 15. marz 1925.
Góðvinur dr. Guðmundur. — Erindi mitt er að koma á þig gömlu bréfi frá Bertel Högna heitnum Gunnlögsen, rituðu öðrum manni, Sigurði Ólafssyni, sem nú er prestur að Gimli í Nýja Íslandi, en hann gaf mér það fyrir nokkrum árum síðan og mátti ég ráðstafa, sem vildi. Ef til vill ræðst ég á „rangan mann", því ég sendi það til geymslu, ef hæfa þykir, en staður fyrir það er kannske ekki í þinni „hillu", en komdu því þá á *sína* fyrir mig, ef þér lízt svo líklega á það, eða eyðileggðu annars. Úr mínum höndum komið myndi það glatast hér vestra. Mér þykir bréfið nokkuð merkilegt sökum þess, hvað sagt er í því um enskuna og fleira, svo hefi ég undarlega viðkvæmni fyrir minningu þessa „týnda sauðar af húsi Ísraels", Högna heitins, sem ég þekkti þó ekki og fáir munu minnast. Hann var víst við fárra fjöl felldur, líklega Hindúi í anda, en Íslendingur í eðli. Þeir fáu, sem kynntust honum, luku á hann lofsorði fyrir lærdóm hans. Í Tacoma bjó hann að sögn í einsetu, í lélegum kofa, sem fáir vissu hvar var, við fræði sín og fátækt. Dró sig í hlé, og náðu fáir fundi hans að mun. Nokkrir mennta-menn þekktu hann þó, og Norðmenn þar voru hróðugir um hann. T. d. hefir Íslendingur einn, sem kynntist norskum blaðstjóra, sem þekkti Bertel vel og vildi hjálpa örbirgð hans, sagt mér eftir honum, að svo mikill höfðingi hafi Gunnlögsen verið, að enga gjöf hefði hann þegið, nema henni væri komið inn á hann með brellu, sem hann sá ekki við. Ein var sú saga: Vetur var kominn, Bertel klæðafár, átti t. d. enga yfirhöfn, en orðinn kulsæll. Það vissi Norðmaðurinn. Keypti sér nýjan yfirfrakka, heimsótti Högna, því hann vissi heimili hans. Tafði, en skildi frakkann eftir í húsinu, sem hefði hann gleymt honum. Bráðum komu orð frá Bertel, að frakkinn hefði orðið eftir. Norðmaðurinn gerði honum aftur orð, að frakkanum hefði hann að vísu gleymt, en keypt sér þegar annan, því án yfirhafnar hefði hann ekki getað verið, og bað Gunnlögsen að hirða hann á sig, ef hann gæti notað. Sér væri hann nú óþarfur. Á þann hátt kom hann flíkinni á karl, án þess hann grunaði það vera gjöf.

Séra Sigurður sagði mér, að hann ætti Gunnlögsen það að þakka, að hann ekki uppgafst við námið þá, svo örðugt

hefði hann þá átt, og verið einstæður, en hann „stappað í sig stálinu“. Í bráð eru þá þetta mín erindislok — og vertu blessaður.

Vinsamlega Stephan G.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 23. marz 1925.

Góðvinur J.

Fyrir þetta þokka-strik,
Þökkin sprettur hjá mér:
Að mig settir, augnablik,
Upp á klettinn hjá þér!

Að fjara uppi á flæðiskeri
Finnst mér þó smærra
En hrap í hengiflugi —
Því hóti nær himni
Mun hann þó álpast
Sem klifrar, en hinn sem kafnar.

Kenndu nú Bíldi bænir,
„Bíaðu“ honum rótt —
Hafðu nú aldrei framar
Fyrir honum „ljótt“!

---

**NB. Gott að skruddan kom til skila! Nóg að hafa haft „jaundice“, þó ekki séu þau eftirköst líka að verða bókaþjófur. Hin urðu ærin — og vertu blessaður.**

**Þinn einl. Stephan G—.**

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 29. marz 1925.

Grímur minn góður, — Þökk fyrir blöðin öll og bréfið síðasta. Nei, þú yrkir ekki leirburð! Þú kemur saman full-laglegum ferhendum, þó þú kveðir eiginlega bara af rælni. Þannig voru þessar um Skram eða „Schram“. Heima í Skagafirði vissi ég mann og sá, Björn Schram, fulltíða maður, þegar ég var strákur. Hann kvað all-mikið ferskeytlur, hringhendur t. d. um fylgikonu sína, sem þá var:

Öll heims-gæði eru til
Und „for-klæði“ þínu.

Ótal hagyrðingar settu „haus og axlir“ ofan við. Björn sjálfur líka. Sumt varð nokkuð „kvistótt“. Heflaðast var þetta:

Bezt þú glæðir ástar-yl
Andar-svæði mínu.

En ekki man ég, hvort Björn var höfundur að því. Björn reri suður. Elding drap (einn vetur) nokkra sjómenn á Suðurnesjum. Stóðu í illviðri undir hjalli. Björn var í sjóbúð skammt frá og sá upp á, og orti um, kvað sig hafa dreymt fyrir. Þóttist vera á sjó staddur. Alda reis upp grá og gríðar-há. Hún kvað til Björns:

„Gráan fald ég gjarnan ber,
Glym við kalda súðu.
Mitt Hjúp-alda heiti er!
Hlynur skjalda, trúðu.“

Annars var þetta ein vísan í bragnum, sú eina, sem ég kann enn. Kannske er Jósef þessi sonur Björns?

Einhver hefir sent mér þrjú tölubl. af „Freyr“, mér sýnist Fúsi sjálfur. Ég ætlaði að kaupa blaðið af „tötrinu“, þegar „cent“ lægju laus fyrir, sem ég sjálfur ætti. Við komumst eitt sinn á „öndverðan meið“, en ekki erfi ég það, né sé í hitt, að honum hættir við að vera „endaslepp-ur“ um ýmislegt. Annað er lakara: íslenzkan á „Freyr“ er slæm, ensk viðkvæði kúguð í orð, sem íslenzk eiga að heita.

Enn er kalt og alsnjóa. Sigríður Sigga frá Víðimýri ögn hressari aftur, en í rúminu þó. Yngsti „kútur“ Munda míns viðbeinsbrotnaði. Datt ofan stiga heima. Læknir batt um í gær, og businn er brattur að öðru leyti en „handjárni“ hans síðan. „Vagnhleðslu“ af höfrum sendi Jakob burt, en óseld er hún enn, og lítur helzt út fyrir, sem stendur, að okkar arður verði: skuldafangelsi, fyrir bragðið!

Haltu þínum heilu limum
Á hundrað-þúsund stiga-rimum,
Og fjúki úr þér — með fítons-krafti —
Ferskeytla á hverju hafti!

Blessaður allténd.

Vinsaml. Stephan.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 30. marz 1925.

Góðvinur Jakob. — Þökk fyrir bréfið og gott var að heyra, hve hress þú ert, því þó:

Erfiðið borgun ei bjóði,
Betri er heilsa en gróði!

Hitt er rétt, hefði Agúr lifað enn og verið bóndi í Canada, eins og við, hefði hann aldrei þurft að búa til bænina, sem í „saltaranum" er við hann kennd, og er þó ekki svo að láta: ég vildi, að hún væri áhrinsorð á öllum og þykir hún bæna bezt, eins og „spaðið" í Valhöll átti að vera „fleska bazt", að Edda segir.

Eins og þú veizt af línu frá mér áður, hefi ég haft „innisetur" miklar fyrir-farandi. Þær hefi ég notað til að „róta upp rusli" mínu gömlu og raða í handraða, t. d. það sem um mig hefir verið ritað af skrumi og skömmum frá því fyrsta, að ég man til mín, sem er lítið minna en Guðbrandar-biblía hjá Gröndal, en hún „náði meðalmanni í klof". Þó vantar mig ósköpin öll, sem ég ýmist hefi aldrei náð í, eða ekki haldizt á, eða verið skaddað, eða hefir horfið. Jæja, það er þó líklega einhvers staðar til, „í öðru lífi"! Heyrðu, átt þú grein þína í „Heimskr." (26. jan. 1921, minnir mig), þar sem þú svaraðir „Bíldi" út af „Vígslóða". Mig vantar í hana fáeinar línur fremst, og nokkrar nær miðju, sem einhvern veginn hafa afmáðst. Hitt allt hefir vel geymzt. Ef þú átt greinina, getur þú gert svo vel að skrifa mér línurnar, sem vantar? Og svo límí ég þær inn í „doðrantinn" minn. En hafðu ekki mikið fyrir. Svo margt vantar hvort sem er, bæði sem ég man eftir og man ekki — t. d. allt „einvíg" þitt og „Sveinstaula". Ég veit ekki, hvernig ég hefi tapað ýmsu, sem ég þó hirti. „Oh, well!" „Rusla kistan" mín var opin! Og nóg er eftir samt að drasla við á dómsdegi. Um fáa hefir meira verið talað en mig, og mest getið til góðs þó, komi öll kurl til grafar, og er þó merkilegt! Á blaði sér tek ég til, hvað eru eyður í grein þinni. Hvernig líður Steinunni systur þinni? Eitthvert kvis var um, að hún ætlaði til Wpg., aftur í bataleit — kannske bara þvaður. Ég er skárri til fjörsins en ég var, lækna mig á endanum með leti og svarta-brauði, en læknirinn minn þakkar líklega sínu sulli það!

Sumar-máninn mjaki að þér
Mjúku tánum á sér!
Veit ég: ef hlánar vor hjá þér,
Veturinn skánar hjá mér.

Vinsamlega Stephan G.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 31. marz 1925.

Góðvinur. — Alúðar þökk fyrir bréfið — og „bankaseðilinn". „Ha-n-han-a nú," sagði Mó-Steinn heitinn. „Nú skal ég segja þér. Nú skal ég segja þér." „Bankó" kom sér nógu vel, og ég segi þá sögu bráðum. En í millibili: skildingar eru ögn „skjarrir" sem stendur — og fyrr. Til dæmis að taka: Við eigum heila vagn-hleðslu af höfrum einhvers staðar austur á járnvegum, sem enn hefir ekki fengizt eitt „cent" fyrir. Öll kornsala æðisgengin, eins og búast var við, gagnvart bænda-félagsskap í virkileik og vændum. En sagan sjálf af „bankó" er svona. Rósa, dóttir mín, á hér ofurlítið kúa-bú, kinda-bú og „kalkúna"-bú. Hér hefir lengi verið margbýli og ég hvorki aðaleigandi né ráðsmaður, nema lítillega. Höfuð-„Tyrkinn" í kalkúna-húsum Rósu varð bráðkvaddur. Kaupa þurfti nýjan „Súltan" og þeir eru dýrari en hafra-æki: $5.00, á þessum tíma. Rósa ekki peninga-rík. Ég gaf henni „bankó", til styrktar við „Tyrkeríið", og nú stendur 25 punda „Látúns" („Bronce")-Soldán, ógurlegur og uppbelgður, á svölunum á þessum „kalkúnu-Constantínopel" Rósu — þér að þakka. Hana-nú. Eiginlega er ég frétta-fár. Veturinn einn sá aðsætnasti og örðugasti, sem hér hefir gengið. Sá fyrsti, sem ég var hér, var líkur, en enginn trúir því nú. Allt næst er verst. Aðeins byrjaði sá seinna, en hélzt alsnjóa fram yfir fyrsta sumardag, hvað sem þessi gerir, en enn er öll jörð í gaddi, þó veður sé mildara en var. En svo er ekkert undur um „áraskipti", og oftar eru þau hér þolanleg. — Ég lagði sjálfan mig af við útivinnum, litlu fyrir jól. Fannst ég ekki þola mátið lengur. Hirði aðeins eldivið og eldstæði, skilvindu og „skrif", bóklestur og „blaðarusl", sem ég hefi safnað, en aldrei getað alveg óglatað geymt, né í röð raðað, fyrr en helzt nú — og nærri blessun, að svo fór, til þess þó „að halda sér uppi" við eitt-

hvað í leti-lífinu. Ég hefi étið eitt meðal í allan vetur og margs við mig freistað af eigin uppá-tækjum. Skánað. Með bezta móti fyrir-farandi. Oft verið „ónotalegur". Aldrei mjög illa á mig kominn. Sumt er bara þreyta og slit. Enn ætla ég að láta mér batna, en er líklega ekki orðinn til smávikanna. Nú, þá það! — Ég hefi fengið bréf frá Nonna nýl. og sendi honum línu einhvern tíma aftur. Jú, þú hefir rétt fyrir þér, Kr. hét þér því, sem hann hefir enn ekki efnt. Ég er nokkuð „nasinn", nærri því sem hefði ég gengið í skóla „spæjarans". En, blessaður, láttu ekki vitnast, að ég hafi sagt þér þetta, af því þú vissir það sjálfur.

Heill sértu á há — hraustastur af körlum —
Varð-veiztu frá vorhretum öllum.

Vinsamlega Stephan G.

*Sveinn Björnsson.* Markerville, Alta, 31. marz 1925.

Góðvinur Sveinn. — Rétt til málamynda sendi ég þér þessar línur sem „handveð", „víxil" eða „nótu" fyrir að ég skuldi þér bréf, því sökum „efnaleysis" verður þetta ekki „borgun", bara til að láta þig vita, að ég sé „Still alive and prowling", eins og sungið er á ensku í „Kattar-kvæðinu", sem sumir halda að sé fyndið — og er það líka á þann eina hátt að vera heimskara en allur annar kveðskapur.

Út úr híði — hraustir mest —
Híðbirnir ei þora —
Árinu hefir yfirsézt,
Að ég held, að vora.

Þessi vetur lengri og snjóugri en flestir þeir, sem menn hér þykjast muna, og er ekki léttur af enn. En ekki er um það að fást: það er sama, hvorum er að kenna, Guði eða Foster, það er eins og það er, og eina ráðið að sætta sig við forlaga-trú! „Kringla" er að verða gott blað. Von var, að þeir reyndu að „tvískera" Sigfús, læknarnir, hann er óþarfur þessi „Status quo". Furða, að þeir skyldu ekki fyrirkoma honum! En í alvöru — hann er eftir sig á heilsunni, sem von er. „Lögberg" er alltaf að líkjast meira og meira heimskum og framhleypnum krakka, sem ekkert

kann og skilur í „kverinu“ sínu á kirkjugólfi! — Alltaf eru þeir að gefa út góðar bækur á Íslandi. Nýkomin kvað vera barnaskólalesbók, eftir einn gáfaðasta og höfðingjadjarfasta leikmanninn og endurbótamann á flestum sviðum: Jónas frá Hriflu. Þú getur nærri, að kverið er kjarnagott: sagt er að „Jón Hrak“ sé líka í því! eins og í „Lestrarbók“ Nordals fyrir hærri skóla. Ég vona að „Hrak“ komist á háskólann líka! Hann á nú ekki annað eftir! Heyrðu — áttu og geturðu látið mig fá eða útvegað mér Opna bréfið þitt til mín? Ég hélt því til haga, en einhver hefir glatað því fyrir mér. Ég hefi verið að tína saman prentað skrum og skammir um mig, sem ég hefi náð í, í næstum stuttan mannsaldur nú — en mig vantar bréfið þitt, Sveinn, eins og „festu-fleyg“ (en svo skíri ég „Key-stone“) í þann Sigurboga!!! — En nú ætla ég ekki að skrifa þér bréf, bara biðja að heilsa þér, og fleirum.

Vinsamlega Stephan G—.

*Sigurður Jónsson frá Víðimýri.* Markerv., Alta, 1. apr. 1925.

Siggi minn góður. — Þökk fyrir bréfið með Frk. Gott var að heyra þig glaðari í bragði, þann gadd af þér keyra, sem veturinn lagði! Og hefir vorið þó víst „hlaupið apríl“ með heimskasta móti, því hvergi bólar á því enn. Hefir kannske narrazt nú eins langt og fyrsta árið mitt hérna, þá náði það ekki hingað fyrr en nokkru upp úr sumardegi fyrsta, sem var eins fönnugur og er dagurinn í dag, eða fullt það, og brast í byl um kveldið — en, þá vorum við líka ekki á áttræðisaldri!

Fyrir kom, að fennti í spor
Forðum, og til baga —
Sólina og sumrin vor
Sáum ei alla daga.

— Þakka þér fyrir vísurnar líka. Þér getur enn verið létt um að sigla „fjögurra skauta byr“.

Fréttir kann ég víst engar aðrar en þær, sem standa af veðri og vind í sömu sveit og sem þú færð jafnt og ég. Auðvitað fæ ég ýmis bréf, en þau eru þá ætíð um „andlegu málin“, sem þeir hafa nýskírt „eilífðar málin“, en fátt um

veraldlegri tíðindi. Blöð og bækur að heiman fæ ég alltaf líka öðru hvoru, og það sem bezt er, aldrei nema úrvalið, frá þeim sem hvorki semja né senda annað. Ég skyldi bjóða þér stundum upp á bók eða blað, værir þú nokkru nær og ég vissi þig hafa tíma til lesturs. Vænt þykir mér að sjá, að „Heimskr." helzt þetta bezt við í höndum Sigfúsar, sem hún hefir nokkru sinni gert. „Lögberg" lekur neðar og neðar, sem von er, slíkur andlegur busi sem Bíldur er. Ein er framför þess þó, sljákkaður rosti, af að geta engri afsökun komið fyrir alla sína heimsku, sem Sigfús þorði að segja sem var. Enginn vegur við flón sem Bíld og Lárus G. og Co. annað en þver-reka upp í túlann á þeim. Öðru vísi er ekki hægt að siða fávizku og ofmetnað.

Okkur hérna líður líkt venju. Helga hefir verið „hölt og handarvana" af „gigt" með köflum, en aldrei frá verkum. Ég er sérhlífinn í meira lagi. Sit mest inni. Sé bara um elda, skilvinduna og gríp í þvotta-kerið stundum með. Hefi ásett mér að vera latur og fara vel með mig um tíma — hvað sem tautar. Hefi oft verið öðru vísi en „notalegur", en aldrei sár-veikur, aldrei í rúminu, og er nú talsvert skárri. Heyrt hefi ég, að Guðný á Markerville vilji selja hús sitt þar (á $550.00?), en veit ekki sönnur á samt.

Á því hangir hugur vor
Hrumur að ganga drengja-spor,
Og að langa út í for,
Ef að fangið býður Vor.

Blessaður og sæll!

Þinn Stebbi.

Helga biður að heilsa Sigríði og þér. Sömuleiðis ég.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 4. apr. 1925.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Innilega þökk til þín og Magnúsar. Þetta „hittir" mig allt svo óviðbúinn að eiga vonir á því, að þó slíkt hafi aldrei komið sér öllu betur, mistekst mér að þakka það með *orðum,* svo sem verðugt væri, eða eins hlýtt eins og [ég] hugsa til þess. En, það vildi ég, að ykkur yrði vel fyrir, betur en ég jafnvel kann að óska, því lítið hefi ég til unnið. Ég kynntist Magn. veturinn sem ég „flakkaði". Var gestur hans þá. Naut mestu

alúðar: settur í hásæti í héraðs-veizlu, sem M. mun hafa gengizt fyrir, og Stefán heit. Valberg — sem tók sér nafn af Valabjörgum í Skagafirði, ættarbóli sínu og Vatnsskarðs-bæ, eins og Víðimýrarsel mitt var. St. var bráðgáfaður, frjálslyndur, glettinn og mælskur. M. (eins og þú segir) bráðskynsamur, bezti drengur, frjálshuga og gætinn, ef til vill ekki eins orðhvatur og St., né slyngur að gefa heimsku og hjátrú „selbita", en óbilandi við það, sem hann unni: sannindum og drenglund. Saknaði stórlega að hafa farið á mis við alla tilsögn í æsku. Okkur Ísl. hættir mörgum við að efa efnið í sjálfum okkur meira en þarf fyrir þann skort — ég þekki það og gat ímyndað mér, að M. væri „einn af oss". Oft hefi ég hugsað til hans síðan, og einmitt sem þú: Bjóst við hann væri lítill „Vígslóða"-vinur. Hafði engar ástæður fyrir þó, aðrar en líkur, vegna tengsla. Mér var því ekki síður hugnun að að vita, að svo var ekki. Ég varð að kveða „Vígslóða", jafnvel *vegna vina minna,* hvernig sem færi. Jú, ég vissi jafnvel þá, að þú áttir að búa Jórunni undir „fermingu". En kynntist þú „Imbu"? (Mrs. Oskar Olson nú, að mig minnir). Í Heimskr. hafa stundum staðið meinhæðnar greinar um „Orthodoxiuna" okkar. Kunnugur hefir sagt mér, að Magn. sé höfundur, en „Imba" stílarinn — og þær greinar hafa sagt heimili sitt Churchbridge, en höf. dulinn. Ein stóð í Lögbergi, ekki alls fyrir löngu, roga-háð um gömlu trúna, sem „Bíldur" hafði villzt á og tekið fyrir hrós! Sú grein var frá Churchbridge líka, og ég eignaði þeim feðginum hana — kannske af því, að þar þekkti ég enga líklegri — en greinin var „meinlega" góð! En þetta eru víst grillur manns, sem gamalærður er. — Svo ég hætti þá. Ég er rétt nýlega búinn að senda þér „afsalið" okkar á „einkis-virðunum". Veit það hefir skilað sér og segi ekki fleira um að sinni. Blessaður og sæll!

Vinsaml. Stephan G.

Mér finnst nú á mörgu, að heldur sé „að létta til í lofti" og „rakna fram úr" fyrir „heiðindómnum" okkar — eftir öll þessi ár! Nú, ekki til einkis barizt!

*Magnús Hinriksson.* Markerville, Alta, 5. apríl 1925.

Góðvinur Magnús. — Enn man ég með hlýjum hug viðtökurnar góðu hjá þér og þínum forðum. Hitt var mér óvart, að fá nýlega bréf frá séra Rögnvaldi Péturssyni, með $25.00 gjöf frá þér innan í. Innilega þökk. Ekki einungis fyrir gjöfina, heldur engu minni fyrir tryggðina, gegnum svo langt „þykkt og þunnt", síðan um aldamót, og eins oft og ég hefi af mér brotið höfðingja-hyllina. Ég er alla tíð ögn sár á að glata gömlum vinum og geri það aldrei að gamni mínu, aðeins vegna þess, að mér finnst sannleikanum ríði á því. Því gleður það mig að vita til, að þeir, sem mér áður vildu vel, umbera mig og styðja enn. Ég marg-þakka þér þetta, Magnús. — Ég er ekki hárviss á áritan þinni og hefi þetta því ekki langorðara — og vertu svo blessaður og sæll.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 6. apríl 1925.

Góðvinur. — Rétt hefir þú. Þú hefðir getað misskilið vísurnar fyrir sneiðar, sem þær voru þó ekki, en bara hversdags meinleysi. Því „aldrei verður fyrir öll sker siglt", ekki sízt af ekki aðgætnari „formanni" en ég er. „Þar kirkjan hafði löngu síðan brennt út allan skóginn", stóð í kvæði, sem ég sendi góðum vini mínum — presti. Var ekki að stilla orðum mínum, fremur en vant er. Seinna datt í mig, upp úr þurru: „Á... tekur þetta fyrir sneið og sárnar við mig" — en til *þess* hafði eg ekki teflt. „Þá það, látum flakka!" hugsaði ég og hló við. Æði löngu seinna — þetta var í Íslandsbréfi — fékk ég línu, vingjarnlega að venju, en eftir grun mínum hafði gengið. Hann spurði mig, hvort ég þættist hafa rétt fyrir mér. Kvæðið var hugsað á kirkjustað, krökkan af gömlum kolagröfum, — og ég hafði þó reynt að afsaka eyðilegginguna í kvæðinu. Ég svaraði, að ég þættist á sönnu máli halda. Vísaði honum á gamla máldaga, sem heimiluðu kirkjum skóg og hrísrif, út um allt land. Í næsta bréfi hans sagði hann svo: „Svarið var þér-líkt," vingjarnlegur sem áður. Sama datt í mig nú þegar eftir á, er ég hafði sent þér vísurnar. En nú sé ég, að ég hefi ekki verið spámaður!

En verð ætíð „mér-líkur!“ Til málamynda og af rælni sendi ég þér annað blað. Það er öðru nær en ég sé orðfróður, né orðhagur, — það er bara orðin sögn! Svo er annað: mér kann helzt að hugsast eitthvað, ef ég er *sjálfur* í orða-kröggum, og þá er ið þriðja: Orðin bera blæ af, hverju sambandi þau standa í, eins og vatn af sól og landslagi. Utan þess verður það *að þýða orð* líkt mynd með engum bakhjarli — og fyrirgefðu þá!

Ágætt! mér líkar það! ef þú átt verkefnin „tvenn“ og „þrenn“, eins og Egill kvað, og í alla staði er „Þjóðræknisfél.“ líklegast, — þar eru þó þeir okkar menn, sem andlega eru fimastir, þó reipadráttur sé við hina. „Tíu toga að ofan, tólf að neðan. Takið á betur piltar,“ sagði kerlingin, sem árarnir voru að draga til sín, og hálf var í jörð sokkin, þegar tíu bæjarmenn hlupu til og björguðu henni. Ótrúin („ótrúin“ er þýðing mín yfir orðið „Orthodoxia“) er komin á elli-hækjurnar, jafnvel „Bíldur“ bjargast á „adventistum“, að mér sýnist. „Dísir okkar komnar til Danmerkur,“ eins og Vöggur Bjarkafóstri kvað, undir flóttalokin.

Nú er að hressast himinninn.
Hlýtt og blessað veður.
Af yndi þessu altekinn,
Óma vess um skrokkinn minn.

— Leir, leir! Einskær leir! —

Veitist þér allt í Braga-brunni. —
Bið svo að heilsa „Þrenningunni“.

Vinsaml. S. G.

„Geir*þjófr* hétk, er grýttak smábörnum,
Val*þjófr,* erk valköst hlóð,
Frið*þjófr,* erk fór með dul.“

Aðal-efnið úr fornri þulu.

*„Modern woman“* héti í minni orða-skjóðu eftir því, hvernig sá „engill birtist“ mér, sitt orð í hvert skipti, eftir því „hver endinn væri upp á henni“, en ekkert líklega hæft sem „titill“ yfir allan „kapítulann“, sem sé: kynkvíslina. Auðvitað þýðir enskan „bókstaflega“: *„nútímakona“*, og er taglhnýtingur“: þrír jálkar teymdir í lest.

En, oft bera þeir bagga sína betur en af er látið, og sumir vel. Svo segi ég stundum: „*kven-nýlunda*“ — „kotröskva“ — „nýbruma“ — „tízku-tylla“ — „keisi-kvendi“. — *Ad infinitum* mál-leysur!

„*The Eternal Feminine*“ er, náttúrlega, þetta: „sí-tilsegjandi kvennageð“. Ég myndi ýmist kalla það: „kynfylgjur kvenna“, „kvenna innræti“, „kvenleg-leik“ eða „kven-þrályndi“, eða „eilíflega á öðru máli“, eða „spákonulist“ — (með meiru!).

„*Easel*“. Þegar ég kom að því hjá þér, fauk í mig: Hver andskotinn er það nú aftur? Já, því læt ég svona! Það mun vera „grind“ eða „þön“, sem málarar þenja undir dúkinn, sem þeir draga upp á! En aldrei hefi ég það „svikatól“ séð né átt orð yfir: Ný-yrðingar vorir, inir magur-yrtu, myndu skýra þetta gagn „málara-grind“ eða „málverkströnur“. Ég vil kalla það „taktein“ eða „takteina“. T. d. væri ég að rita skáldsögu, lýsing á innanstokks hjá málara, lygi ég svona:

„Á miðju gólfi, öndvert glugganum, stóð mynda-dúkur á takteini, byrjun á uppdrætti, sem enn var ófullger.“ Flestir skildu, hvað við væri átt, nema „Bíldur.“ (Sbr. „að hafa á takteinum“: eitthvað, sem er til búið).

Málfræði veit ég ekki, tungumál kann ég ekki, bulla þetta bara, eins og börnin, við þig, og viti menn! úr *því* smíða nú fullorðnir orð — og ég er að þessu, til að vekja þig upp að gera það sama, ef ske kynni, að eitthvað af þessu gæfi þér betri bendingu til *happyrðis, frá sjálfum þér.*

Viðvíkjandi „taglhnýtingum“, verður að nota þá — en fallega. — Hljóðvörp og hljóðskipting, sem Sig. Nordal og Páll Bjarnarson nefna, eru fegurst, auðvitað, en verða varla notuð til alls, sem fyrir fellur. Samsett orð — „taglhnýtingar“ — í málinu eru líka fornfrægilega fögur mörg, að ég hygg. Amen!

*Jón Jónsson yngri.* Markerville, Alta, 9. apríl 1925.

Frændi góður. — Ég kem nú eiginlega erindisleysu, aðeins til að þakka bréfið og greinina um verzlunarferð okkar til Valhallar forðum. Ég hefi sent hana heim, hversu

söguleg sem hún kann að þykja þar, hún er þó skyld „skreiðar-ferðum“ forfeðranna. Líkl. frétti ég til hennar, þegar viðtökumaður, Baldur minn Sveinsson, skrifar mér, en það getur nú dregizt. Hann er bæði ágætis-drengur og vel gáfaður og menntaður, en enginn „snarfari“. Hall okkar og hann eru sagðir skyldir og þeim svipar ekki all-lítið saman, en innilegri vin á ég ekki en Baldur, tryggð, sem hann tók upp sjálfur og án alls tilverknaðar frá mér.

Fréttir verða engar. Sumarið næstl. brást að gæðum og gróðri. Veturinn var rummungur. Nýl. brugðið til bata, svo snjór er á förum, jörð hér orðin auð, að mestu, nema stórfenni. Búsifjar bænda ögn örðugar, sökum nýrrar uppskeru, af misæri. Dálítil vanhöld sums staðar á nýbornu fé, eins og oft er í hörðum vetrum og löngum innistöðum, þó ekki séu mikil brögð að því — og fólk kemst þó bærilega af víða, þó til séu hálfar sveitir flosnaðar upp hér í fylki, suður og austur. *Okkar* hagur hefir gengið ögn skrykkjótt í ár, eins og sumra. Höfum misst með meira móti gríslinga. Eigum járnbrautar-vagnburð af léttum höfrum óseldan enn, einhvers staðar hjá umboðsmönnum, en fyrir löngu sendan. Gott, ef ekki lyktar svo, að við megum borga þeim eitthvað til að taka við því fyrir ekkert. Fyrir fáein bush. af hveiti, seld til bænda-lagsins (The Wheat Pool), höfum við aðeins enn fengið „fyrstu borgun“, 40 c. á bush., eins og þá stóð, en svo verður það nú skilvíslega borgað á endanum. Annars er allt með „sama sið og var“, hér á heimili. Helga oft lasin af gigt, en aldrei frá verkum. Ég ónýtur, en alltaf á róli. Höfum því orðið að halda „fjósamann“ oft í vetur í minn stað — Júlíus Bárðdal, frænda ykkar. Ég er skárri annað veifið, en aldrei traustur. Allt mitt „innræti“ er að sífelldum smá-ónotum við mig og fæst ekki til að jafna sig til fulls ennþá.

Þó hugsast kynnir hljóm-hvells veill
Að hljóða á sálmaskræður:
Lifðu af ennþá, hress og heill,
Hundrað páskaræður.

Biðjum að heilsa og vertu blessaður og sæll.

Þinn Stebbi.

*Jakobína Johnson.* Markerv., Alta, 15. apríl 1925.

Óvíst gæti óskemmt flutzt
Óska-sumar frá mér,
Kynni af mínum kuldagust
Kólna í veðri hjá þér!

Hér þegar vetur herjar mig
Helzt þinn sumar-ylur.
Það hefir tekið tryggð við þig,
Trauðla við þig skilur.

Þetta var nú andagift í lagi! og er þó ekki bréfs-efnið meira né minna en að skila þessu af mér, með þökk fyrir síðasta bréfið þitt, og um-mæli þín um „Mannheim“ minn. Einhver var að segja mér, að sig undraði, hve vel ég kvæði, „jafn jarðbundinn og ég væri þó“. Alveg rétt: ég er „jarðbundinn“. Allir eru það, þrátt fyrir sjálfsblekkingu og tilgerð. — Sé mitt hrós nokkuð, er það, að ég hefi kjark til að kannast við þetta — fyrir sjálfum mér fyrst og fremst, og fyrir öllum á eftir. „Goðheimar“ allir eru eftirmyndir af jarðneskum högum og hugmyndum, á sama hátt og vatnið finnur sinn eigin flöt. Hvorki „andi“ né „hold“ stekkur yfir eigin eðli. Hvernig gæti það líka verið? Einmitt af því allt er svona „jarðbundið“, get, jafnvel ég, litið með velvildar- og vorkunnaraugum á vonir og drauma, sem ég sé engan veg til að líklega rætist, í þeim skilningi, sem aðrir taka þá — og það, sem veilast er, er: að allur fjöldinn er engu vissari, innst inni í eðli sínu, en ég, sé krufið til mergjar. Fyrirgefðu! Ég er aðeins að lýsa sjálfum mér (svo aðrir villist ekki á mér), bæði í „Mannheimum“ og „Courmont“, en engum að „boða trú“ né „trúleysi“. Skil það skyldu mína við „sannleikann“ í sjálfum mér. Ið „eina sanna“ í öllum almennum trúarbrögðum er aðeins það *góða í vilja og verki einstaklingsins,* sem þau spretta frá. Bölvunin hitt, að vonzkan verður líka að trúarbrögðum, því guð skóp ekki „manninn í sinni mynd“, heldur maðurinn guð. — Og nú hefir bréfið þetta verðskuldað, að þú brennir það! eins og villutrúarmann!

Svalkandi svali
suðar við glugga,

Allir skaflar
Skriðnir í skugga.
Bláflekkuð, bálhvít,
Belgja sig fjöllin.
Vindhærð vetrarsína um völlinn.
Iðin eru að tæta ungblómin smáu
Grænsilki og gufvef undir gráu.

Syngdu sæl, á milli
Sæs og fjalla.
Stæli þau og stilli
Strengina þína alla.

Vinsamlega Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Heima, 30. apríl 1925.

Umvendunar-prédikari, nýkomin til Calgary, Mattie Crawford, stór og aðsúgs-mikil þvottakerling, lét þess getið, að hún ætlaði að lút-bera (brenna) syndabletti heimsbarnanna þar í bænum; bretta upp ermar og þvo þá hreina í blóði lambsins. Fréttablaðið „Western Farmer and Weekly Albertan", 23. apríl, hefir þetta eftir henni og um hana: „This dynamic woman preacher and laundress of sin-sick souls .... intends to go after the sin spots of Calgary with her sleeves rolled up."

Lenda þétt, með þrýstinn hupp,
Úr þvættum bletti að vinda:
„Mattie" brettir ermar upp,
Ataðar slettum synda.

St. G. St.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 2. maí 1925.

Gleðilegt sumar! og þökk fyrir „sáluhjálpina" í bréfum þínum, fyrr og síðar.

Nú, minn orðstír kann að vera um skör fram — mér finnst það stundum, að hann sé orðinn það, í alvöru! En þó svo væri: það réttlætir eitthvað, að ekki er hægt með sönnu að segja, að samtíðar-menn mínir hafi afskipt mig ómaklega, eins og hefir brunnið við með aðra. Eitt

er ég viss um, að satt er samt: Viljandi hefi ég aldrei af mér dregið.

Lengi hefi ég efazt um, að Ísl. endurtækju sig á *sögum*, trúað á, að öllu á botninn hvolft, létu þeim ljóð ennþá bezt, og var ég þó um eitt skeið á báðum áttum með sjálfan mig — það sem líkl. réði var „tímaleysi", sögur verða síður sagðar á hlaupum en hendingar. Leikrit eru okkur landnámsland, hvernig sem það kann að byggjast. En ég sé hvert stefnir, í bráð: Kona þín skildi „Courmont" minn hæglega, ég þakka henni fyrir og sendi kveðju mína: en „Courmont" er rímleysa! og rekur þar mína „kreddu" í vörðurnar.

Jæja, ég fer þá til og „ríma" í „vörðunni", svona:

Ekki verður lýðum létt
Ljósheim skilja viður:
Allt kvað vera sólum sett
Suður, upp og niður!
(Sbr. „Salmagundi").

Vissan þar af vex, að er
Veröld ekki þrengri:
Sólöld vor þó sortni hér,
Sumri önnur lengri.

En verði engin auðna þín
Þér endaslepp í sumar —,
Svo munu löngu ljósin sín
Þér lána aðrir gumar.

Þetta er ekki nema rælni! Mér þykir „Salmagundi" Boga ágæt, og rétt skilur hann það, að guðhræddustu fuglarnir reynast ætíð mest illfygli.

Ég bið kærl. að heilsa Jóni og Magnúsi, „og vertu æfinlega í guðsfriði" og fyrirgefðu flaustrið.

Vinsamlega Stephan G.

*Sigfús Halldórs frá Höfnum.* Markerv., Alta, 10. maí 1925.

Góðvinur Sigfús. — Þökk fyrir bréfið þitt, dags. 12. marz, en engu enn svarað! Þá er ekki síður að þakka dóm þinn

af velvild um mínar aðgerðir, bæði þann í bréfi þínu og „Heimskringlu“. Sé þar of djúpt í ár tekið, að því leyti, að mér hafi farizt miður en þú ætlar mér, í kveðskapnum mínum, þá er hins að geta, að ekki hefir það á *mér* sannazt, sem oft er brugðið um, að vantað hafi á viðurkenningu, bæði hjá þér og öðrum, því margur má láta sér minna nægja! Það er satt, sem þú segir, ég er „jarðbundinn“, hefi oft sagzt vera „barn þessa heims“, án þess að ásaka mig *með því* um munaðarfýsn, yfir meðal-lag. Og með „annan heim“ eru þrár okkar og óskir, eins og í þessum heimi, engin sönnun um hvað „verða vill“, nema að svo miklu leyti, sem okkur er *sjálfskapað,* jafnvel þó að allt sé „áskapað“, sé til botns kafað.

Ég átti nokkurt tal við Matthías gamla, „trúmanninn“ (fyrsta og síðasta sinni), þegar ég var „heima staddur“ árið góða — eða, öllu heldur, hann var *sá, sem talaði,* svo málreifur sem hann var. Hann gat þess oftar en eitt skipti, að nú ætti hann stutt eftir, og það var nú svo sem fyrir séð þá. Þess konar spár vil ég varla ræða né heyra, við menn, sem ég sé eftir, ekki af neinum ótta, né að ég viti ekki vel, að slíks er að von, heldur hitt, að ég er að hlífa sjálfum mér við hugsun um [það] í lengstu lög. Meðal annars sagði hann, „að heldur hefði hann kosið kyrr að vera hér, sér hefði reynzt þessi heimur vel og viðunandi, og væri ekki verðugur annars betri“. Ég fann vel, að hann sagði þetta af sannfæringu þá, og af umhugsun. Auðvitað, eitthvert annað skipti gat honum auðveldlega hrotið eitthvað andstætt — hann var svo „flug-gáfaður“. En hissa varð ég á *honum,* — þetta var einmitt mín eigin afstaða, þó ekki gæti ég um það! Og því kveð ég sem ég geri. „Leitt var, að við fundumst ekki fyrr, Stephan, við hefðum orðið vinir,“ sagði hann, er við kvöddumst við heimagarðs-hliðið hans. „Nú er ég að alfara.“ „Við vonum ekki!“ anzaði ég. „Ég skal gefa þér það skriflegt, svo að þú trúir því,“ svaraði hann. „En ég myndi neita að taka móti því,“ sagði ég. Og svo brostum við báðir. Af þessu skilur þú, að t. d. eftirmælin eftir Courmont, og þess konar, er„gamalt mein“, en sem mér er engin launung á, þó búið gæti ég svo árum skipti saman við mann, svo að ég innti aldrei að trú eða trúleysi mínu né hans, nema að

hann yrði fyrri til. Svona sýnist ég, og stefin mín sum, geta farið hjá.

Já, að mínu viti eru kostir dr. Helga: góðvilji hans til mannanna, ágæt orðfærni og ímyndanir, samkynja og rétt byggðar ofan á og eftir þeirri þekkingu, sem við þykjumst nú hafa sannasta, um vorn hlutheim. Aðrir byggja utanveltu, frá botni.

Bezt þakka ég þér, að endingu, fyrir þá Guttorm og Jóhannes P., í krufning þinni á „Þjóðr.ritinu". Ég beið að skrifa þér, sjá hvað þú segðir um J. fyrst, mér var annt um hann, og er sárt um báða — hann og G. — þeir eru svo líklegir til góðs, (og „Salmagundí"-Bogi). Þú gerðir vel og rétt. — Ekki veitir af! Þó Bíldur og „Jón halti": Lárus Guðmundsson? standi þér til annarrar handar.

Vinsamlega Stephan G.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 24. maí 1925.

Góðvinur. — Það er þakkavert, að bréfin þín muna mig svona stöðugt, og ólundin hýrnar af manni, gangi eitthvað að, að sjá þess votta, að ýmsir hugsa til manns, og á þann hátt er ég orðinn „mikill gæfumaður". Ég átti við, að *eftir væri,* að einhver minntist Boga að mak[leg]leikum — ekki, að hann væri *orðinn á eftir* sjálfur. Enginn efi, það er andlega að rofa í lofti, og senn til sólar að sjá, þó Blindnættið biðji, með orðum Steingríms: „Byrgið hana! hún er of björt, helvítið að tarna." Þegar svo er komið, er lítið að, að verða uppiskroppa sjálfur.

Jú, Magn. hefir aldrei átt „óskilabörn í skóginum". (Milli sviga: Hann skrifaði mér nýl. draum sinn um okkur í skógarjaðri, hann og mig — nú datt mér það í hug —). Hann valdi sér „ið góða hlutskiptið", tekur mann fram á fjörðinn, aðeins í bezta sjó og blíðviðri. Leggur engan í „barning", eins og við! En, segðu fáum það, að þú *skiljir mig betur* en hann. Þú yrðir ekki ætlaður með „öllum mjalla"! Að miklu leyti er það satt, sem þú segir: Maður hefði sjálfur kosið, að Sigfús hefði „krufið" þig, betur en með almennum orðum, sýnt fram á „hvaðan" og „hvern veg" gott kom að, jafnvel hver var „formgall-

inn“ í því formi, sem leikrit þitt tók sér, annar en allt þess steypumót, sem fylgt var samkvæmt. Ekki sízt þess vegna, að Sigf. sýnir, að hann er þessum „nýja stíl“ kunnugur og veit vandann að leika svo í lagi fari, það sem hvorki eru mennskir menn né afturgöngur eða huldufólk, en aðeins „stefnur og straumar“: „örlaga þræðir“ í ónefndra manna mynd, sem hvorki eru „umskornir“ né „skírðir“ — geta jafnvel nefnzt „hæna“ eða „hákarl“, ef höf. ræður svo við að horfa. Almenningur hefir augun í herðunum, þau sem nokkra list sjá. Ég veit þetta á sjálfum mér, og er þó varla allra verstur. Í öllum bænum: láttu leyfi til, að leikið sé, og „Gaukurinn“ væri góð byrjun, en ekkert vekur eftirtekt sem „umtalið“ — jafnvel þó það sé bæði „heimskt og illgjarnt“. Hana — nú — þá!

Já, ég skyldi verða 100 ára, eins lengi og ég gæti ímyndað mér, að ég gæti tórt einhverjum til geðs eða gamans og ætti mér eitthvert áhugamál. En vandi er á úrræðum: Ég óttast, að ég hafi ekki verið settur saman af eins miklu mannviti eins og „Einækjan fræga“ („The Wonderful One Horse Shay“) hjá Holmes, sem 100 ára gömul varð öll að ösku, og öll jafn snemma, svo hvergi sá urmul eftir. „Logic is logic — that’s all I say,“ las Oliver yfir rústinni! En, „við sjáum nú samt svona til,“ og vel sé þér! að vilja vita mig ofan jarðar. Ekki er ég „albata“, en „málaverkum“ (chores) hefi ég gegnt aftur hátt á annan mánuð nú, og ýmsu „rangli“ þar á milli. Er ekki alheill, en ekki afleitur. Hefi ýmis ónot oftar, einhvern tíma úr sólarhringnum, og þá næstum heill á húfi hina stundina. Gæti lýst því nánara, en leiðist að kvarta framan í þig, þér og mér kannske til leiðinda, en gerði það samt, ef ég vissi, að þú hefðir annað en ömun af því, þó ekki sé það sögulegt.

Nei, Jóhannes, þeir hafa ekki „gleymt“ mér heima! Menn sem dr. Ágúst, Guðm. Finnbogas., Sig. Nordal, Sig. Guðms. senda mér ágætisrit sín nýjustu, og 3 blöð eru mér send ókeypis. Og undur og skelfing! Jónas frá Hriflu „tekur mig upp“ í bókmennta-bók sinni fyrir barnaskólana (eina skamma-vísu! eftir mig líka, að sagt er). Það kver hefi ég ekki enn séð. Eftir Nordal er ný-prentuð „Lesbók“, bókmenntamál 5 síðustu alda, ætlað efri skólum og erlendum. Þar er ég settur á bekk jafnbreiðan og t. d.

Matth. og Einar Ben. Ég er svo sem ekki „grafinn utangarðs" heima enn.

Nú varð alheims-spekin spök!
Sprettan dvalin grænkar,
Komin dala-döggin rök.
Dæld og bali vænkar!

Blessaður allténd! Vinsaml. Stephan G—.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 8. júní 1925.

Grímur minn. — Ætla að nota miðdegið til að tína í þig tíðindin héðan í flughasti. Var að „garfa" í garðinum o. s. frv. Ísl.-dagur verður sem venjulega. Ekkert hefi ég verið við hann riðinn, nú þurfti mín ekki við! Jóhann ritaði Kvaran þakkarávarp fyrir fram. Því hefði ég aldrei nennt. Einar kemur þann 16. Konan komin fyrir nokkru. Um ræðumenn veit ég ekki, aðra en E. og séra Pétur. Jóhann bað til Mrs. Salverson og fékk hryggbrot. „Knella" gamla (það er Mrs. McClung) var beðin, en afsakaði sig með þingmennsku sinni — en, einhver kann enn að fást. „Jonni" frændi og Guðbjörg kona hans ætla að koma vestur hingað í sumar. Leggja upp um miðjan þennan mán. Dvelja um viku í Winnipeg og viðlíka lengi í Wynyard, og koma svo: Þú ættir að koma dag eða svo, meðan þau eru hér, til að fá fréttir, og auðvitað tefja lengur, ef þú getur! Við getum farið með „nesti og nýja skó" út í fjós, ef okkur væri ofaukið inni — og reyndar „skólausir — væri nestið nóg". Kristinn er töluvert lasinn. Læknir hans segir af elli! Eins og minn um mig. Innyfli biluð, og þarafleiðandi óregluleg blóðrás (Blood Pressure) í höfði. Hann er sem stendur lakari af því en ég, að ég held, en svo hefi ég þá aðrar aukagetur. Er annars býsna brattur nú oft, en eins og við er að búast: enn í „ellibelgnum". Gamli Kristján Sigurðsson orðinn nærri afvita, en á flakki þó. Svo læt ég þá hér við lenda í bráð. Átti ekki annað erindi en að láta þig vita „gesta-vonir" — og vertu svo sæll.

Vinsaml. Stephan G.

*Sig. Guðm., skólameistari.* Markerv., Alta, 9. júní 1925.
Góðvinur. — Alúðar-þökk fyrir skemmtilega og hlýja viðkynningu í Reykjavík forðum. Ég man þér hana enn. Og fyrir, nú síðast, dóm þinn um Hermann Jónasson dáinn, og skólatölur þínar. Mér finnst það allt góður fengur, ekki einungis *mér,* heldur öllum, sem hugsun til hafa. Nýlega las ég í „Vesturlandi" hnjátu til þín fyrir Hermanns-erindi þitt. Mér þótti það, sem þú hafðir um hann að segja, vel sagt og maklegt, skarplegt, og skáldlegt víða, og allt í góðu gervi. „Vestlendinginn" skildi ég varla. Hann „kom" og „sá", en „sigraði" ekki, það er að skilja: honum láðist að gera grein fyrir svo nokkur væri nokkurs vísari, hvernig hann ætlast til, að æfiminning sé sögð á sannari hátt og betri en þú gerðir. Atburðir og skapgerð stóðu þar hvergi vefengd heldur, engin fótfesta önnur en sú, sem í mátti ráða, að þú hefðir minnzt á misbrestina, en komið þeim þó fyrir svo samúðarlega, að þeir sýndust ósjálfræði en ekki ásetningur, örlög en ekki ónáttúra — og mannkostirnir þó, ekki einungis yfirbót, heldur framtíðar-spor. Og enn eitt — og fleira — þó smærra sé: Ég hafði frá fyrsta haldið því fram, eftir mínum skásta skilningi á þess konar, ef til tals kom, að þátturinn um Njálu væri lakastur af öllu í dulspeki Hermanns, einmitt það sem aðrir voru að lofa hann mest fyrir: sjálfsagt ósjálfráð, en auðséð, íórun af ýmsu skyndi-skyni marghugsandi manns. Gleymdir kaflar úr umhugsunum, sem svo setja sig þarna í samræmi, en eru alls engin „opinberun". Bera það næstum utan á sér.

Skólaræður þínar þykja mér ágætar, mest fyrir þetta: Þú leggur áherzluna á það, sem ég hygg háleitast, að maðurinn sjálfur og markmið hans sé ágætast alls — hvað sem líður lærdómi, lofsæld og lífskjörum, sé sá eini Ódáinsakur, sem á verður vísað með vissu og bezt gefst til að búa í. Þar að auki verður þér margt snillyrðið á munni [og] létt lagt á minnið, eins og málshættir eru, eins konar innsýnir í heim menningarinnar. Þetta er hvorki hól né hræsni, Sigurður, en svona skilst mér, og fagna því, að líkt get ég með sönnu sagt við fleiri síðari höfunda — aðra en skáldin! eins og stendur nú. — Hjá ykkur sumum, og *íslenzkri menningu,* er að renna afturelding, segir spá mín,

og hún á að koma „þó vér biðjum ekki!“ Gangi þér flest til gengis, og fyrirgefðu mælgi mína.

Vinsamlega Stephan G—.

Sigfús Blöndal. Markerville, Alta, 10. júní 1925.

Góðvinur Sigfús. — Fögnuður var mér að fá bréf þitt, gott og glaðlegt að vanda. Ánægja er mér það, að ýmsir, sem ég met merkismenn, virða mig þess að senda mér svo marga línu, og eins og þú, án þess ég hafi leitað þess að fyrra bragði. Þeirra bréf eru eins og ljórar á minni andlegu „myrkvastofu“, hér í fjarlægðinni. Eini ágallinn sá, að ég er svo endurgjaldssmár í flokki menntaðri manna og fjölfróðari, en þess meiri „guðsgjöf“ er mér það, að fá þau bréf.

Og það gleður mig, að gott er af þér að frétta, t. d. fyrirlestraferð þín til Hollands í haust, ef af verður, og „uppfræðsla“ þín á „Fornjótunum“ — jafnvel um mig! — sem þú gazt um. Ég hefi ávænu um, að þeir séu okkur að ýmsu leyti geðugir karlar og erfi það ekki, að ein kerling þeirra á að hafa seilzt, heldur „óhönduglega“, til gullhrings á fingri eins okkar mikla glæsimennis forðum, þegar hann var nauðlegast staddur. Slík skuldaskipti segir sagan frá sérhverri þjóð, á einhvern hátt. Lengi hefi ég gert mér í grun, að þrátt fyrir allan þjóða-mun sé meira samúðar-skylt milli menntuðustu manna hverrar fyrir sig, þegar þeir eru alls-gáðir, jafnvel þó hörundslitur og höfuðskeljar eigi ekki saman, heldur en er milli mennta-manna og skríls hverrar um sig, og skríll er í öllum stéttum. Því verð ég feginn að heyra og vænti góðs af, að flytjir þú mál okkar og mennt fyrir þjóð, þó hún væri jafnvel fjarkomnari okkur en Hollendingar eru. Ég hefi að því hallazt, og sú ágizkun elnað með aldrinum, að enn hafi Íslendingar ekki notið fullskilins sannmælis sem bókmennta-þjóð, við sjálfir varla enn gert okkur grein fyrir, hve margt og gott með okkar andlega manni bjó, en það þarf að skiljast og segjast á strætum heimsins úti, mannkyninu til göfgunar, en enginn til þess fær né skyldugri en við sjálfir, og vel gangi þér að ríða á vaðið á vatnsaganum á Hollandi og teyma fremd okkar yfir hann þurr-

um fótum. Og víst verður þess lengi getið, að þér vannst aldur og elja til að lúka við orðabókina. Það verður verk sem vex, og mikil guðsblessun er það, að æskan kann varla orku sinni hóf — fyrir *það* verður svo margt að framkvæmd, því vel trúi ég því, að nú með reynslunni fenginni myndir þú ekki leggja einn út í annað eins. Í bókmenntum okkar er víða vorgróður, nema kannske korka í skáldskapnum, eins og alls staðar, en verst er, að við erum að fá þetta að, því betra væri að drepast úr sínum eigin hor en að vera að taka hann til láns! Ég er viss um, að vildi auðnan svo, að þú kæmir leikritum þínum á laggirnar, að þrátt fyrir það, að enga gmiskuna kann ég né skil, myndi mér fallast betur á þau en margt hitt, sem hæst er tíðkað í svipinn — en svo er ég eflaust í „ellibelgnum" og ekki um það barsmíði fær, sem hafa þarf til honum að kasta. Hefi alla tíð einrænn verið, og staur-stirðleikinn ágerist með aldrinum, eins og aðrir kvillar.

Þú spyr um, hvort ég hafi kynnt mér nokkuð smiðjumálin, „Esperantó" og þess konar. Nei, ekki nema af nasaþef af fáeinum, sem um þau hefir sagt verið, flest til góðvænis, fyrst „Volapük" (eða hvað sá skammlífur hét), en vænlegust virðist mér „Idó". Öll hafa þau orðið „dægurflugur", svo eitthvað bagar. Næst þeim „uppvakningum" hefi ég komizt þetta: Einhver sendi mér blaðsnepil, sem sagði sig til heimilis suður í Brasilíu. Ritstjóri þess nefndi sig Magnus Söndahl og þóttist „þingeyskur" að ætt. Það var jafnaðar-, eða helzt almenningseignarmanna- (Communista-)blað. Það var prentað á máli, sem átti að vera „Esperantó", og var, að svo miklu leyti, sem ég bar skyn á. Ég las það að gamni mínu og komst furðanlega að efninu, að mér fannst. Ekki sökum þess, að ég hefði áður í það hnýstst. Það sem mér fleytti, það sem ég flaut þó, voru þau kynni af orðum úr ensku eða dönsku, sem sumir hafa nefnt „Evrópisku" (en eru latneskir eða grískir bastarðar), og Norðurálfu-málin öll eru full af, og sem sumir vilja „skarna Tótu" okkar, íslenzkuna, líka með. Þarna er mitt *„láð"* í upplöptu málunum! Ég hefi gert mér grun um, að ætíð verði þau ófrjó mál, þó á kæmust. Það þýðir, hjá mér, að uppruna-hugsun grói sjaldan upp í þeim, af því þau sjálf eru smíðar, en ekki skapandi skyn. En

þetta yrðu þarfa-tól samt, á sinn hátt, sem gætu veitt manni nokkra eftirmynd af því, sem alskapað er orðið, eins og t. d. vaxblóm líklega gera, eða orðaþrælsþýðingar. Hitt er sjálfsagt: sá hagur, sem viðkynningu, viðskiptum og verzlun mannanna myndi stafa af auðveldu allra-máli. Og, ef til vill, legðist málagrautargerðin þá niður, því hún yrði alls-óþörf. Þarna eru þá mínar „kenjar“ í þessu máli, sagðar eins og eru, ef þú hefðir gaman af. Ef allir óttuðust að segja sínar vitleysur, yrði ekkert umtal, og það væri skaði, og þess vegna þori ég að þegja ekki um mínar, þó í smáu sé, vilji nokkur vita þær — finnst það vingjarnlegt að vera krufinn eftir þeim í einlægni.

Einhvern tíma ættir þú að bregða þér hingað vestur, ef ástæður þínar leyfðu. Ekki þess vegna, að ég búist við að verða þér til liðs í því, af getuleysi er það samt, en ekki óvilja. Flytjir þú Niðurlendingum erindi þitt á ensku, ættir þú að nokkru leyti aflokið verk, í enskumælandi borgunum hér, skyldleiki nokkur, svo „Knickerbockísk“ sem t. d. New York þykist vera stundum, og nóg er af „norrænum stofni“ hér. Það er „heilagt trúboð“ í því, Sigfús, að kenna „heiðingjum, sem hvorki vita til hægri né vinstri“ í Íslandi, hvað það hefir á bókmáli að bjóða, og sú „siðabót“ er í aðsigi.

Já, fyrirgefðu sendinguna: „Andvökur“. Ég var nærri á báðum áttum um að senda *þér* þær, sökum „Skráveifa“. Get ef til vill leitt líkur að, að þeirra var þörf í þetta sinn, af ástæðum, sem óviðstaddir ekki gætu metið, en ég veit, að *þér* muni þekkara að „ganga um sættir“ en vera í ádeilum.

Þá er mér mál að þagna, og þér að þurfa ekki að lesa lengri mærð.

Farsælin „sé þín fylgikona“ til Hollands, eða hvert í heim sem bátinn þinn ber.

Vinsamlega Stephan G—.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 14. júní 1925.

Góðvinur. — Þökk fyrir bréfið, 5. þ. m. Já, ég veit það! J., þú ert ekki öfundgjarn — þér er gleði, hvað sem gott er sagt í minn garð. Mér er illt, að geta í engu látið þig njóta þess. Ég hefi ástæðu til, að frú Jakobína taki þér

sæmilega, þó ég sé henni lítt kunnugur. Kom í hennar hús, í Seattle forðum, fáein augnablik. En sú er *ástæðan,* að ég veit, að ég, langt um óþvegnari maður í orði en þú ert enn orðinn, hefi verið hennar „kvæða-Keli“ um langt skeið, og engin „svik“ verið í. Við sjáum til, og verður gaman af að frétta.

Nú skildi ég ekki, við *hvað* þú *áttir* með Sig. Nordal, Vígslóða og Völuspá. Hefir hann (og hvar) líkt þeim saman? Eða miskil ég mál þitt. Einkis þess konar hefi ég orðið var, og fékk þó nýl. óvænt og hlýtt bréf frá honum. Áður hafði hann sent mér að gjöf „Völuspá“ sína, sem ég sendi þér og sýndi, og „Lesbókina“ sína nýju, en nafnlaust fyrst, og ég þekkti þá ekki heldur rithönd hans, en grunaði hver ætti. Ýmislegt úr bréfi því gæti ég sagt þér, en læt bíða að sinni, en seinna til með, ef þú vilt. Hann verður í sumar í fyrirlestrar-ferð um Norðurlönd, í 3 mán. Lengst í Oslo, tveggja mán. háskóla-heimboð. Flytur erindi um ísl. bókmenntir í seinni tíð. Alltaf birtir til!

Þú gætir sagt mér að gamni mínu (ég veit þið læknar hafið grun um það): hvort lægra sjávarmál (Altitude) en hér er gæti verið bót við þeim elliglöpum heilsunnar, sem þið enskulæknar nefnið „Hypertension“ eða „Blood Pressure“, að mig minnir rétt, sem sé: vitlausri fjöru og flóði blóðs til heila. Ég hefi auðvitað dálitla aðkenningu af því, sem von er, með mína „innviðu“, en ekki stórkostlega enn. Ég er að hugsa til Kristins mágs míns. Hann varð nýl. og er enn „all-slæmur“ af því, sem líkl. er óregluleg blóðrás til höfuðs, svo hugsun verður ögn „utan við sig“ stundum. Annar karl hér orðinn nærri örvita, 3 til 4 árum eldri en ég. Annars sé ég nú, að ég hygg, að 4 til 5 gamlir menn á mínum aldri hér í nágrenni hafa að líkindum farið þessa leið til Valhallar, sem við K. erum á nú. Hann er 6 mán. yngri en ég. Að ég spyr um þetta er af grun, sem í mig datt, af því að vita, hvernig háfjalla-göngur hrífa á þessa höfuð-skepnu, manninn. En svo kann það að vera óskylt. En við Ísl. að heiman, og hér að austan, erum lægralandsdýr en þau, sem lifa í Alberta. Þó fjöll á Ísl. sýnist há t. d., standa [þau] þó öll lágt yfir sjávarflöt — fjarða fjörur, kannske ein 700 fet, eða svo. Hefir þú séð „Bréf til Láru“, sem eru að gera

uppnám á Íslandi, eftir þennan öfgamann, Þórberg Þórðarson, eins konar Gröndal í nýjum stíl og kvistóttum mjög. Á ég að senda þér til lesturs? Er gjöf frá vinkonu og verður ekki fargað þess vegna, en velkomið til láns.

Vinsaml. Stephan G—.

Kvaran er hér fram yfir 17. Fer svo strax vestur alla leið til Los Angeles. Og nú verða engir útilegumenn í mínu landi! Og er mér skaði að.

*Sigurður Nordal.* Markerville, Alta, 29. júní 1925.

Góðvinur Sigurður Nordal. — Vænt þótti mér að fá bréfið frá þér. Ekki er ég borgunarmaður fyrir því, en þakkað get ég þér, og til þess á ég erindið. Það sem ég ann ritum þínum mest fyrir, er sá skilningur þinn á t. d. æfisögu merkra manna, að ef þú hefir handa milli eitthvað af inum „andlegu ritum“ þeirra, getur þú, að mínum dómi, gizkað svo líklega á, hvað fyrir þá hafi stigið, þó ytri atvik finnist hvergi, að manni finnst, að svona hafi það eflaust verið og sé trúlegara og dýpra í ár tekið, en þó sagan sjálf hefði til verið af höppum þeirra og hörmum. Ég tek t. d. Völuspá þína. Þú hefir, held ég, sálarfræðilegan sagnaranda, svo sem í grein þinni um Grím Thomsen, og þannig sögð saga er mitt yndi, hún verður að því, sem ritningin nefnir „samfélag heilagra“, á annan hátt getur það varla orðið en gegnum samúð og skilning. Ef þetta er einfeldni mín, sem hér á hlut í máli, er hún samt einlægni mín.

Ég get tæplega lýst óánægju minni oft yfir þessari „svartadauða-kenningu“ um íslenzkar bókmenntir: að t. d. slíkur einlægnis-vinur okkar, sem Bayard heit. Taylor var, skyldi geta kveðið svo á þúsundára-hátíð okkar: And though Thy native harps be silent! Ungum og heima þótti mér vænt um Guðbr. Vigfússon, ég hafði þá svo mikla ánægju af „Tímatali“ hans og „ferðasögum“. Mér sárnar nú því fremur, hve óánægður ég er með in ensku rit hans um íslenzkar bókmenntir, sem ég hefi aðeins glepsað í hér og þar, og rétt nýlega, og réði heldur ekki við sökum vanþekkingar, en svo öfugt finnst mér þar margt,

að ég kenni í brjósti um okkur að þurfa að moka svo miklu burt af þeim torfgarði, sem er þó nauðsynlegt Englendinga vegna, hverjir sem til þess kunna svo að verða.

Hafi til tals komið um innlent og aðflutt í íslenzkum bókmenntum, hefir mín niðurstaða vanalega verið svona: Já, víst er um það, að um hvort tveggja þykir mér vænt, og vil hvorugt missa, en að hinu get ég ekki gert, hærra met ég hann, sem finnur og grefur upp gull úr heimajörðinni, en hinn, sem er upp á útlönd kominn með handbærina á því. Ég gat aldrei látið „eftirlíkingar" vaxa mér í augum, eins og sumir aðrir. Stundum er ég í efa um, að yngri skáldunum sumum sé alvara með að trúa, að ýmislegt, sem þeir yrkja, sé skáldskapur. Oft og tíðum botna ég ekki í, hvað það er, sem „gling-gling-glóarnir" *(expressionistarnir)* eru að fara með — svona „gamaldags" er skilningurinn minn orðinn! Ég á ekki einungis við þessa íslenzku okkar, því þeir eru ekki nema „krækiber í tunnu". En alltaf þarf að skapast ný jörð og himinn, jafnvel þó bæði gangi saman við það!

En, hví er ég að rugla um þetta við þig, ég, sem enginn myndi að spyrja? Ég geri það aðeins til að svíkja ekki „lit á mér" við þig né aðra — segja mínar kenjar eins og eru, svo enginn haldi mig glöggskyggnari en mér var gefin sjónin til. *Þér* get ég heldur ekki sagt fjárhöld né tíðarfar, svo ég verð að hafa kreddur mínar að bréfsefni, og ég veit, að þú munir virða það á hægri veg fyrir mér, eftir ástæðum mínum. Nú verður, hvort sem er, að láta sér margt lynda, sem betur *ætti* að fara, t. d. að svo mörg ljóðskáld og óljóðræn skáld ætlast til, að afkáraskapur sé álitinn vera andríki sitt!

Gott er að heyra, að þú ert eins konar „Norðurlandapostuli" í sumar, og þess óska ég þér af alhug og trúi, að þér takist að „umvenda heiðingjunum frá villu síns vegar" í íslenzkum bókmenntum. Að vísu er svo sem þú segir, að við vitum fæstir, hve gott sé í eigu okkar, fyrr en aðrar þjóðir benda okkur á það. En *sjálfir* verðum við þó að kenna þeim skilning á því í byrjun. *Það* getur enginn annar, fremur en að *lesa rétt* úr fornritum okkar fyrrum, enda ekki við að búast. En „uppgötvuna-hróðugleikinn" í útlendingunum á eftir rekur eins konar smiðshögg á, í aug-

um okkar sjálfra, sem sífellt sungum: „Vér fáir, fátækir, smáir“. Það verða hátíðir í haust og sumar, þegar þú hefir „kristnað“ göfugustu menn á Norðurlöndum og Blöndal Hollendinga!

Gaman væri að vita þig kominn í vestur-víkingu hér. Nóg munu lönd að nema, og ég vona auðunnari en var fyrir nokkru, jafnvel meðal Ísl., en þar var verst áður, nema að gesturinn „primsigndist“ þegar til vestrænnar lúthersku og amerísks ofmetnaðar og héldi vel þá trú sína, en á síðari árum held ég, að nokkur dálkur hafi dregizt úr þeim þorski, svo menntaður maður komist klaklítið gegnum þvælurnar (jafnvel með heiðri og sóma), og við hér jafnvel að verða upp með okkur af að geta sýnt Íslending, sem standi öllum á sporði, nema stór-ríkustu mönnum hér!

Velkominn værir þú og mér, ef svo vildi til, að leiðum okkar bæri saman — en hitt veit ég vel, að þrátt fyrir þína góðvild í minn garð, yrðu mín geitarhús ullarlaus fyrir þig — því miður, en þakka þér ósk þína. Nú skal hér hætta. Veitist þér frægt og fagurt starf af höndum að leysa.

Vinsamlega Stephan G—.

30. júní. „Fyrst að blaðið autt er eitt, og eftir stund af vöku“, kvað rímnaskáldið. Fyrst þessi miði kemst ekki með pósti í dag, bæti ég svona við bullið: „Heimskringla“ gat aðeins um það, sem Vikublaðið sænska hafði eftir þér um Einar Bend.s. og mig. Minntist ekki á Kvaran, svo ég séð hafi. Um það mál las ég í „Degi“ og „Tímanum“, það sem þar stóð. Strax og ég sá Einars getið sem keppinauts, spáði ég því, að hans hlutur myndi tæplega upp koma. Ég veit ekki, hví mig grunaði það, en ekki var það af öfund til Kvarans. Að vísu hafa sögur hans, þó góðar muni vera, fallið í grýttari jarðveg hjá mér en mörgum öðrum — líkl. mér ofvaxnar. Nobelsverðlaunanefndinni hefir mér stundum fundizt „uppgötvgast“ það, sem alla myndi minnst vara. Uppþotið heima, við þig, hélt ég vera misráðið, jafnvel í garð Kvarans, deilan út af áliti þínu um skáldskap Einars óviðeigandi, eins og á stóð. Ég þóttist skilja hvað þér þótti á vanta hjá honum. Mér hefir fundizt það tíðkast nokkuð, að nýr höf. einhvers

staðar, sem orð fær á sig, verði eins konar almennt upprekstrarland allra nýgræðinga. Jafnvel mesti aðdáandi Einars hér vestra gat þess fyrir löngu (séra Bergmann í „Breiðablikum“), ef ég man rétt, vildi ekki fortaka, en bar í bætifláka, það sem sumir sögðu, að ein saga Einars, sem lá til umræðu þá, líktist ögn um of „*The inside of the Cup*“, enskri sögu nýl. útkominni þá og mikið á orði í bráðina.

Ég skil þig svo, að þú metir hærra einkennilega fagran smíðisgrip, sem einhver hefir tálgað til með eigin hendi, heldur en eftirmyndir af honum, með veraldar-verksmiðjusvip, og mér myndi eins fara, bæri ég skyn á völundarverkið. Sama mun vera um andlegar smíðar. Hitt matti ég líka við þig, að láta ekki kúgast frá því, sem þér fannst satt vera, hver sem í hlut átti og hvernig sem lyki.

Þar sem þú talar um í bréfi þínu til mín, að rangt kunni að vera að rýna í gullöld okkar einungis, í bókmenntamati, það verði að sýna, hvað uppi stóð, þegar örðugast lét — er raunar ið sama, sem vitraðist anda Bjarna gamla í „Oddi Hjaltalín“, íþróttin sú: að skapa „skóga hugmynda“, þegar „hold var saxað hraunöxum“. Það á eins við þjóðina í heild.

Enginn þakkar það um of:  
Að þeir sem andríkt skrifa  
Eru að gera — guð-sé-lof!  
Gamanið meira, að lifa.

Vinsamlega S. G.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 30. júní 1925.

Ég kem til að segja fá orð í flýti, með þökk minni fyrir bréfið. Það var ágætt frá þinni hendi, en mér til minnkunar að mælast til. Í því skyni, að þér þætti gaman að sjá, hvernig Sig. Nordal hugsar og hvað, sendi ég þér, til að lesa, bréf frá honum til mín, nýl. komið. Það er gróði að kynnast og þekkja stefnur framtíðarmanna í bókmenntunum, þegar svona er „sýnt upp í lófann“, eins og Sig. gerir hér. En, eins verð ég að biðja, *og heimta,* ef minna dugar ekki! Þú mátt ekki flíka miðanum og verður að skila honum við hentugleika. Sízt af öllu máttu segja nokkrum, „um hvern sóma“ Sig. segir ég sé „einn“ — varla

lesa það né muna sjálfur! Auðv. er hann að tala um skáldin heima — og hvað heldur þú að úr yrði, ef upp kæmist? Svo mikinn storm sem það gerði, að hann hefir ekki slíka kynja-trú á Kvaran, sem öðrum góðum vinum hans hæfir.

Rangur eða réttur, hefi ég alltaf haft í huga eitthvað líkt stefnu Nordals viðvíkjandi ísl. bókmenntum — sem sé svipað vaflazt fyrir *mér*, en verður *honum* að heildar-sjón. Njóti hann lífs og hamingju og hug-festu til, og vertu nú blessaður!

S. G.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 22. júlí 1925.

Grímur minn. — Jonni gerir ráð fyrir að fara héðan til Calgary næsta mánudag, 27. Þau hjón fara til Banff. Ekki vænti ég, að þú gætir fengið einhvern góðan landa og kunnugan að bregða sér með þeim? Það er ekki bein þörf, en væri svo margfalt skemmtilegra. Þau dvelja þar stutt, líkl. einn til tvo daga. Ég skyldi sjá það við einhvern seinna, að einhverju leyti. Ég treysti sjálfum mér illa vegna lasleika míns, og þó all-brattur, en verð að hafa ýmsar „kreddur". Láttu mig vita með línu, svona í kyrrþey. Í gær og dag fljúga öll fiðrildi hér í kring til Benalta, nema ég, þar er bæði bjór og leiknar allar listir, sem nöfnum tjáir að nefna. Líkl. síma ég þér, ef breytist með burtför Jóns og Guðbjargar.

Allténd sæll! Þinn Stephan G.

*Jón Jónsson yngri.* Markerville, Alta, 31. júlí 1925.

Frændi góður. — Í fyrradag fékk ég seðil frá Grími, sem sagði mér af ykkur í Calgary. Ég kveið, að þið kæmuð kúgþreytt til Banff — sá á eftir, að þið hefðuð átt að staldra við í Calgary og hvíla ykkur, eins og fyrst var ætlað. Í gærkveldi kom bréf þitt frá Banff. Jú, þú hefir rétt, ef borgun fyrir fagursýni „borgar sig" — reyndar ætti allt þess konar að vera ókeypis-meðal, til menningar og ánægju — þá borgar sú „borgun" sig bezt eftir á, annars tæplega. Ég vona, að þið njótið lengi og vel — en tími ykkar var of tæpur.

Hér hafa engin tíðindi gerzt, en eyðilegra varð eftir að

þið fóruð, jafnvel Kobbi talaði um það, en ég horfði þegjandi í auða hornið, þegar ég kom inn á morgnana.

Veðrið enn ágætt. Ökrunum fleygir fram. Kobbi að heyja með Baldri. Líkl. byrjar hveitisláttur hér heima upp úr helgi. Rósa nýkomin úr „útreið“ til Jónu, heilan dag í blá-berja mó — og „karl og kerling“ í sama skapinu og skinninu eins og þið sáuð þau síðast. Kristinn furðu hress. Hann fann lækni sinn, Wagner, og segir mér eftir honum, að hann hafi furðað framförin, þó albati væri ekki áreiðanlegur, sagt að blóðólgan væri nú aðeins orðin 180, úr 210 — ég veit ekki um þá vog: kannske „vættir“ eða „lýsipund“ — og vildi að sér tækist að þoka henni niður í 150.

Við erum ei týnd eða töpuð —
En, úr togleðri er mannsæfin sköpuð,

— og verið marg-blessuð af heimafólkinu hér og mér.

Stephan.

A t h.

Þessar firrur, stökurnar, sem ég sendi ykkur (fyrst fréttabréf yrði sögulaust), áttu sitt upphaf morguninn sem ég varð árvakrastur að smala kúnum, daginn sem þið fóruð. Nú læt ég þær elta ykkur uppi, þó ekki séu þær góðar fylgjur né glæsilegar.

Bezt er ég geti um, hvernig í „ívafinu“ liggur, ekki vegna skilningsskorts hjá ykkur, heldur hins, að oft er örðugt að átta sig í svip á „undiröldunum“ í bullinu mínu. Ég kveð svo tvírætt, sé sögn og nútíð svipa saman. Því er ég talinn torveldur. Ég hvorki vildi né gæti gert við því. Hérna er það!

Þengill mjöksiglandi bjó að Höfða snemma Íslandsbyggðar. Hefir verið góður „ferðamaður“. Á það bendir auknefnið: mjöksiglandi.

Hallsteinn, sonur Þengils, sigldi fyrir Höfða síðar, sem sé inn eða yfir Skagafjörð. Hallsteinn hafði frétt lát föður síns, og kvað vísuna: „Drúpir Höfði“. Hún hefir lengi loðað mér í minni, svo falleg finnst mér hún, klökk og karlmannleg, kveðin af hug, sem huggar sig við ið fagra í náttúrunni, og að því leyti nokkuð einstætt í norrænum kveðskap, ekki fyrir hversu margt er sagt, heldur hversu

ímyndun manns er hreyfð, þetta, sem nú er nefnt danska ó-orðinu „stemning", af íslenzkum menntamönnum, sem eru svo nærfærir um bókmenntir að nenna að kryfja kveðskapinn okkar.

Ef fegurð fjalla og dala, inn úr skagfirzku hafi að sjá, létti lund Hallsteins, hví þá ekki ykkar eftir þessa ferð, og það er það, sem ég treysti á, og held ég hafi ekki sagt „söguna" rangt, þó eftir minni sé, sem nú er orðið gamalt.

Þá er því máli lokið, og — langa-strik á endanum!

Stebbi.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 1. ágúst 1925.

Góðvinur. — Enn kem ég aðeins með „fá orð í flýti sögð", sem fyrr hefði átt að vera, en „driftin" var nú ekki „burðugri" en þetta, yfir gestkomur, Íslendingadag, Kvarans-kveðjur, smalamennsku, bústang og vesaldóm. En beztu þökk fyrir bréfið síðasta! og „ritstjóra-grein" þína til „Rænku". Ég held þið ætlið að stofna henni í andlega endalykt, um það lýkur, og kenni í brjóst um „Bíld", verði hann ekkjumaður í trúnni og siðafræðinni.

Með að „Bogi væri eftir", átti ég aðeins við, að hann væri enn „ófundinn", eins og hann ætti skilið, af lesendum „Heimskr." Um að hann sé efni í afreksmann, efast ég ekki. Á þér og honum hefi ég nú augastað, kannske vegna vantrúar minnar á „Vora frú" Salverson. Rétt er það, sem þú segir: ég hygg skáldskapurinn sé of góður og meira ætlað en „glingrið tómt", þó fagurt sé. Ég trúi á fegurð til bóta og að hún verði varanlega fegurst, hvernig sem sé dæmt, en auðvitað, án þess að „prédika". Meira að segja hygg, að sumt, sem skýrt var „skamma-skáldskapur", hafi verið göfugra mörgum „góðum sálmi". Á eitt þarf ég að minnast: Í enda „kveldmáltíðar-hugvekju sinnar hér minntist Kvaran á ósk „Ströndunga": um að fá hingað Íslending heiman eða héralinn, til að „lesa fyrir" háskólunum hér um íslenzkar bókmenntir, svo þeir „syndguðu síður af vanþekkingu". Þar held ég Nordal væri bezt til fallinn, sem nú stendur, og hann myndi viljugur, að ég ræð af bréfi hans — en, vantrú hans á „hæstu-hæðir" Einars Kvarans verða honum þröskuldur, bæði heima

og hér, ef mig grunar rétt, og yfir höfuð álit hans á íslenzkum bókmenntum, forðum og í framtíma. En á þeim sviðum er ég (og var) honum samdóma, án þess hann hafi „umvent“ mér. En, það sem mér fannst mig „óra í“ getur hann rökrætt, en gætum við nokkuð hlynnt að komu hans hingað — fyrst í kyrrþey meðal kunningja?

Í bréfstað sendi ég „Láru“ Þór. Þór., þessa furðulega blendings af Gröndal og Sinclair, báðum óheflaðri og oforðari, nema í spakmælum (Epigrams) — þar er hann stundum „meistari“ beggja og myndi frægur, væru þau tínd úr, og háðið sumt. Já, hann er „kynlegur kvistur“, og nokkuð „kvistóttur“.

Sem „góður hirðir“ þarf ég nú að fara að sjá um, að svínin fái sína „fæðu í hæfilegan tíma“, og kúahjörðin safnist í „sína borg“, og má því ekki vera að þessu lengur! og vertu þá blessaður og sæll, lengur en „á meðan“.

Vinsamlega Stephan G—.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 15. ágúst 1925.

Góðvinur Jóhannes. — Bréfið þitt, 10. þ. m., kom í gær. Það get ég þakkað, en umhyggju þína og séra Rögnvaldar á ég engin orð yfir, mig brestur þau, enda hefi ég líklega ekki verið talinn kaldrifjaður að ástæðulausu og orðið tamara að taka spaugi andstæðinga minna en slíkri alúð, hún verður aðeins höfð á tilfinningunni. Séra R. kom vestur hingað, aðeins í þeim erindum að sjá, hvernig „háin hefðist við“. Það er einlægni mín, að ég held, að hann hafi lýst mér ljótari en ég er, en slík hafa jafnan verið forlög mín, einkum hjá kvenfólki! En, sleppum því í svipinn! Ég lofaði R. því að þiggja liðveizlu ykkar bráðlega, ef ekki raknaði úr fyrir mér senn, og strax, ef engin slys varna. Ég fann, að þið höfðuð átt eitthvert tal um mig. Séra R. vildi í fyrra vetur, að ég „tæki mig upp“ í Ódáinsakra-ferð, og bað mig að berja ekki neinu nestisleysi við. Í alvöru, get ég ekki annað haldið, en að ég hafi skánað að ýmsu leyti, en ofur hægt, og er sjaldan ónota-laus, og þó kemur það fyrir, að mér finnst ég í allt fær, stund og stund og dag og dag. Sárindi minni, t. d. þoli langtum

betur að sitja uppi í stól, ferðast í bifreið o. s. frv., því það gat orðið mér ögn örðugt, þó ég gerði það. Sjaldan að ég þurfi á flakk að næturlagi, aðeins vill til. — .... Í stuttu máli: ég er aldrei þjáður — en ekki al-heill, og ekki ólíklegur til að „þvælast nokkuð enn“, og heldur á bata vegi. Ég skrifaði þetta bara til að „láta þig vita“, af því ég sé, hve mjög þér er hugstætt um heilsu mína. Ég vil segja sem *er*, og ekki heldur *verr* en er. Ég hika ekki að koma sökum þess, að ég *ætti ekki* að gera það, né hins, að ég sé á nokkurn hátt hræddur við handleikni læknanna. En oft hefi ég ekki „gengið heill til skógar“ um æfina, en átt því að venjast, að „úr mér moltnaði“. Mér er ekki að vísu geðfellt að verða það, sem ég ekki vildi: vinum mínum beztu vandræði og byrði, en heimsku-þrái væri hitt, að þiggja ekki það, þegar í harðbakkann slæst, sem af svo góðum vilja er gert, en þola heldur þrautir, og að sjálfráðu skal mig ekki henda það. Vel veit ég, að minn „vinnutími“ er þegar á enda, hvernig sem fer, og ekkert „mannkaup“ í mér orðið, en gott er samt að hjara, meðan góðum vinum er þægð í því — og hér er allt sagt, og „hreint og frómt“, og blessaðir fyrir boðið! Og hvenær sem eitthvað skerst í, skal ég skrifa þér ákveðnara og þigg boðið, líkl. í haust — eða fyrr. — Þennan skratta, sem að mér er, þarf að „skíra“ hvort sem er af þeim einhverjum, sem þekking hefir á, alveg eins og aðrar syndir. Nógur er samt holdsins heiðindómur í þessari veröld!

Blessaður og sæll! Þinn Stephan.

Þegar von og varnir brestur,
Velviljinn er læknir mestur!

*Sveinn Björnsson.* Markerville, Alta, 20. ágúst 1925.

Góðvinur Sveinn minn. — Ég hefi undir höfuð lagt, mér til gremju þó, að svara bréfinu þínu inu fyrra, en ið síðara rekur mig nú til þess — og þökk fyrir þau bæði! Ég hefi alla dregið á bréfum, nú nokkra stund, dugði ekki til alls: daglegra snúninga minna, gesta-komum o. s. frv. Jón mágur minn og kona hans Guðbjörg t. d. heimsóttu okkur og dvöldu um tveggja vikna tíma. Kvaran kom

tvisvar í byggðina. Ég sótti samkomu hans og var í gestaboði, sem Jón Sveinsson, svili Einars og bóndi hér í byggð, hélt honum, og nú nýl. kom séra Rögnvaldur og kona hans og dvöldu 2—3 daga. Af einu skal ég státa í Svipheimi, því, að í mínu koti hér hefi ég oft orðið góðra-gesta-sæll, yfir líkindi fram. Þetta er mín réttlæting fyrir þegjandahátt minn, og líka: ég er dálítið utan við mig stundum, af lasleika mínum, enda hefi ég nú orðið aldurinn til þess! Gott var að heyra, að þér vegnar skár aftur — og fari það í vöxt! Það er svo hatramlegt að vita vini sína í öngum í ellinni, sökum öfugra kjara, eftir dygga þjónustu og þrældóm þessa heims, nóg getur á bjátað samt af því, sem ekki verður að gert. „Öndungur“ er ég ekki, né verð — efasemi mín er ekki „ein bára stök“. Yfir mig gengur sá „barnaskapur“, sem gáfaðir menn og sjálfsagt einlægir, eins og Kvaran, geta verið ánægðir með að bjóða. Hefi ekki tíma til að segja þér nánara, hvað „að mér gengur“, í þetta sinn. Guðspekin er góð siðspeki. En svo eru öll trúarbrögð að miklu leyti, þau, sem þroska hafa náð. En hún hefir tínt saman þær furðulegustu forntrúar-firrur í „króka-kerfi“ svo haglegt, að ekki verður rökrætt, gangi maður í byrjun inn á „tvítilveru“ = „Dualism“. Einstæð tilvera = „Monism“ er líklegri til sanns að færa. Getgáta Helga Péturs er hyggilegust að þessu: Hún byggir óþekkt framhald ofan á ofurlítinn grunn, sem við köllum *vísindi*, sem sé það, sem þekking okkar nú veit vissast vera, gangandi út frá því, að sama lögmálið, sem við verðum hér varir, ráði í allri tilverunni — hún: eilíf uppfinning og umsköpun — eða eins og stendur í „Þúsund og einni nótt“, eins konar verzlun „með nýja lampa fyrir gamla“. Auðvitað er hugmynd Helga aðeins „trú“, þó hann haldi annað sjálfur, en möguleikinn fyrir henni er minnst tvístraður og bezt hornsteinaður — og hana-nú, Sveinn minn, þó ekki viti ég öðrum betur það, sem öllum er ráðgáta, og ekki verður hér nema hálfsagt jafnvel, en er þó einlægt, það sem það nær. Eitt er hér um bil víst, eins langt og okkar hugur nær, verður *ekkert að engu*, og *ekkert er í hættu*, þó okkur sýnist svo: „Stjórnin í Washington lifir enn“, var sagt um árið, og fyrirgefðu svo glamrið mitt. Jú, velkomið, gerið við miðann frá mér sem ykkur sýnist.

Í sannleika, mér kom aldrei til hugar, að hann væri ljóss-ins verður, né laununungarmál, og þannig er um flest mín bréf: þau eru stundar-flaustur, sem ég býst við að reyna að standa við, eða kannast við, ef til kæmi, jafnvel þó mistök væru. Nú kemst ég ekki lengra þetta sinn. Konan og ég sendum ykkur, *konu* þinni og þér, kveðjur okkar góðar, og ég Jakobínu játningu mína, að hún á að mér bréf, hvenær sem ég verð viðlátinn, og þökk mína þangað til.

Örðugri fréttir af „Afa" en venja var til. Hann hefir verið lasinn í vor og sumar. Það, sem bagar, er blóð-glundur, sem gömlum mönnum er gjarnt til, þetta sem enskan nefnir „Hypertension" eða „High Blood Pressure". Lá nærri heilablóðfalli. Er þó á bata vegi og á flakki heima, oftast, en utan við sig ögn, þegar ásæknast er. Ég held, að aftur brái af honum, með tíð og tíma — og vertu nú blessaður og sæll, Sveinn!

Vinsamlega Stephan.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 30. ágúst 1925.

Jónas minn góður. — Þökk fyrir bréfið þitt, 23. þ. m. Heyrðu, komdu og seztu hér að svo sem mánaðar-tíma, og ég skal láta þig hafa penna-næði hérna í krónni minni hjá mér. „Við skulum koma hérna inn og *þegja saman*", sagði Baldur frændi þinn við mig stundum. Ég var gestur hans á Ísafirði. Erum líkir með það, að við þegjum oft lengi milli samræðukastanna, eins og tungan í okkur sé ekki sköpuð eins og rella, sem ætti þó að vera, svo maður þætti „skemmtilegur".

Nú „fékk ég flugu í hausinn", enda er nú flugnatíð í húsum inni, ef vel viðrar. Við áttum orðaskipti um það, sem Ameríku-ferðamenn rita í blöðin um Ísland, en hvergi kemur fram heima. Þú varst því svo kunnugur um allar áttir og átt bréfa-ítök svo víða meðal þeirra pilta. Á Íslandi, í Rvík, er félag vestrænna landa, „Vestur-Íslendingur", minnir mig, eins konar „samkunda" þeirra, sem hér hafa verið vestra, í því skyni að halda við fornri viðkynningu. Kom víst í stað „Íslendings", sem lagðist fyrir. Baldur er þar með. Skrifari líklega. Við hefðum átt að sjá til, að því félagi væri sent allt, sem „enskan" hér leggur

orð á okkur um og til næst. „Vestur-Ísl." verða hilla af því, til fróðleiks og fágætis og upprifjunar. Vilt þú nú ekki reyna að ná í skruddur ferðalanganna sem flestar, og gefins, og sem þú kemst yfir, nýlegar og framvegis, og senda Baldri handa félagi þeirra? Mér finnst það næstum skylda við þessa tví-löndunga okkar, úr því þeir vilja sjálfir muna okkur og sig. Hugsaðu út í þetta, nema að þú ritir grein um það í Tímaritið, eins og ég fór fram á. Helzt hvort tveggja.

Já, ég sendi Baldri sögu Jonna um ferð okkar til „Valhallar" forðum. Hann hefir sífellt viljað vita um eitt og annað. Ég hefi t. d. sent honum ræfla, sem ég átti, af „Fjalla-Eyvindi" okkar. Ég er viljugur að gera þetta, ekki mín vegna, mér finnst ekkert mér viðvíkjandi í frásögur færandi, en á hinn bóginn hafi landnámsæfintýri okkar hér aldrei verið sagt, en sé of gamansamt til að gleymast alveg, og talin sök á, þegar of seint er orðið. Smá-sögur eins og t. d. sú, sem þú gazt um, og Valhallar-ferðin, eru *meira en saga* (og sumar „skærurnar" líka), þær eru lífið, eins og „það lagði sig", eins konar mustarðs-smyrsl „í lagnað ket" matar-stritsins. Mér er illa við að segja af sjálfum mér. Samt vil ég þó vinna það til, fyrr en allt fari að forgörðum. „Búnaðarbálkur" okkar er orðinn leiðinlega ýtarlegur, nú þegar. Einhvern tíma í framtíðinni verður menningar-saga okkar ísl. landnema krufin, til samanburðar við það, sem „fyrir sat". Mig grunar, að það verði okkur ekki til minnkunar, verði góð gögn til, þegar skyggnzt verður eftir manndómi en ekki mokstri, og að því rekur einhvern tíma. T. d., til að fá pósthús á Garðar, fórum við á uxum í hávetrarheljum (Eiríkur og ég) til Sweden (sem var), til að fá meðmæli McKenzie, póststjóra þar, og unnum til að flytja póst á samlögu-kostnað sveitarinnar í marga mánuði, án stjórnar-styrks — fengum aðeins leyfi til pósthúss-nafns. Líkt var með skólahúsið, sem fyrst var byggt. Þá var gaman að safnaðar-málunum þá, stundum. Um „kvenréttindin" var deilt, en bara ofan á. Dýpra niður undir lá „fundamentalismi" innlendra kirkna og „new-theologian" íslenzka. Séra Thorgrímssen hafði skorað okkur Garðarmenn til kappræðu, tilnefndan dag. Ritningar rannsakaðar. Ýmsir komu til mín að vita, hvað ég myndi.

Þú komst á mótið með alla biblíuna í fanginu, og tilvitnanamiðarnir stóðu alls staðar út úr endum og hliðum, eins konar „angalíur“, meira fyrirbrigði en skata með „níu hölum“, — en allt fórst fyrir með kappræðuna — séra Th. mætti ekki. — Þá var ekki síður sú kviðan glettin, þegar Mountain- og Gardar-Township fengu loks skilnaðinn, sem áður voru „eitt“ Mountain. Mountain-byggðin var ögn fjölmennari til héraðskosninga. Með réttu eða röngu fannst okkur Garðar-búum, að hinir létu kenna aflsmunar og ganga okkar menn á bug til „embættanna“, og vildum kljúfa í tvennt, sem ekki fékkst, nema að meiri hluti allra héraðsbúa kysi klofning, en hann vildu Mountainbúar með engu móti. Samt hættum við Garðarmenn á kosningu, en vissum okkur þó liðfærri. Báðir hlutar fjölmenntu og héldust fast á um atkvæði. Kunnugir vissu, að við Garðarmenn myndum, að lokum, verða í minni hluta, sem svaraði 2—3 atkv. Nú voru góð ráð dýr, og kosningu lokið að lögum kl. 4 síðdegis. Einhverjir ykkar Garðar-pilta höfðu stungið saman nefjum, hvað til bragðs skyldi taka. Ég var ekki fyrst við þá ráðagerð. Eiríkur var sendur á minn fund með þessi tíðindi og eitt sjáanlegt úrræði, að ónýta einhvern veginn tvö til þrjú atkv. Mountaininga. Tilraunin varð sú, að ég færi með brennivíns-pela í vasanum út í skóg, og reyndi að koma þangað með mér 2—3 Mountain-mönnum, sem ekki hefðu atkvæði greitt, og héldi þeim þar hjá mér og glasinu, þangað til of seint væri að greiða atkv. Ég tókst þetta á hendur, en með þeim skilmála, að tapa líka mínu eigin-atkvæði, sem allir vissu, að ógreitt var, en Garðarmegin. Veður var hálf-kalt og ekkert vín á ferðum, nema það, sem lá í mínum vasa. Mér varð vel til með fylgi-fiska, en vildu heldur bíða, unz kosið hefðu, en [ég] taldi ekkert á hættu að verða of seinn, ætti sem þeir mitt atkvæði ógreitt, og væri engu áhuga-minni. Það hreif. Ég gekk sem lengst ég kom þeim og kom þeim til að dreypa á oftar en eitt sinn, svo þeim dvaldist. Við heyrðum, að ópi miklu lýstur upp heima við kjörstað. Það var ákvæði milli mín og samsærismanna, að gert skyldi, er kl. væri fjögur og kosning afstaðin. Hinum varð hverft við og spurðu mig, hvað þýddi. Ég sagði sem var, að kl. væri fjögur og ég [hefði] glatað atkvæði mínu. Þeir tóku á rás til búðar og

ég á eftir, en gat ekki fylgt þeim sökum hláturs, en hrópaði til þeirra, að nú væri slík áreynsla árangurslaus og hægförin hyggjulegust. Þegar heim kom, kom ið kátlegasta þó fyrir. Sjálfir Mountain-menn voru svo æfir yfir þeim klaufaskap þessara sinna liða að missa meiri hluta, sem gefinn var, að þeir réðust nokkrir á móti þeim með stóryrðum og sýndu hnúa og hnefa, en varð þó ekkert úr, við Garðarmenn hlupum á milli. — Eða var ekki lýsing Nelsons gamla góð af kosningunni við Eyford? þegar La Moure og Wilson sóttust á, „að ekki hefði skort nema skammbyssuna, til að þar hefði staðið Missouri-kjörþing fullkomið“, eftir því sem „Pembina Pioneer“ hafði eftir honum. Nelson var kosninga-kappi La Moure's með Eiríki. Björn Brynjólfsson og ýmsir með honum gengu fram hinum megin. — Í mínum augum gera svona sögur saltið út á söguna, og — þær „meiða“ mest með því að gleymast. Til að geyma þær, vil ég jafnvel vinna til það, sem ég hefi þó ógeð á: að segja sjálfur frá *mér*. Ég var ekki foringi — en ég var nærstaddur. Ekki vil ég heldur sjálfur fara þess á flot við Baldur, að sýna Sigurði neitt frá mér af þessu dóti, þó ég sjálfur hafi enga ömun á því. Vera má, að Baldur ætli *sér* efni úr því einhvers staðar, og — ég hefi gefið honum það til allra umráða. Hitt veit ég, að B. og S. eru kunningjar og ráðgast eitthvað um sameiginleg mál sín, sem að bókmenntum lúta.

Jú, Kristinn er ekki vel farinn sem stendur. En hann var alla tíð örgerðari en við, á allan hátt, svo við mátti búast. Annars held ég, að hann sé einhver orsök í. Hann „glænæpaðist“ í verstu hörkunum í vetur á hestbaki út um alla sveit og hálf illa búinn. Hugsunarleysi. Er eldsábyrgðar-umbjóðandi og var í þeim erindum. Ofkæling gat verið nóg byrjun. Hann var fyrirfarandi ár ernari en ég, að mér fannst. Annars er hann á fótaferli — t. d. kom í morgun hingað. Með köflum tæki maður varla eftir, að hann væri annarlegur, og lítur ekki mjög veiklega út. Hann bilar ögn minni við og við — en það eru elli-glöp, sem ýmsir fá af að segja, og stundum „slær ögn út í“ fyrir honum og hann er kannske ögn óvær yfir sér. — Ekki hefi ég neinum sagt sögurnar hér að framan, fyrr en þér. Rámar þig nokkuð í þær. Geturðu ekki gert efni úr þeim?

Heldurðu að ráðist ríkmannlega
um rit og bögur,
Ef — gamlir hættu að segja sögur?

Hjónin hérna biðja af heilum hug að heilsa hjónunum „hjá Hall“, og sértu æ með glöðu geði, Jónas minn.

Þinn Stephan G.

Jónas minn. — Hér er þá áritun Sigfúsar. — Eitt væri enn —: Það mætti spyrja mennina sjálfa, ef fengjust, um *hvaða efni* þeir kysu sjálfir helzt að skrifa. Það fæst enginn, sem ekki er von, út í þetta allt og ekkert, von og óvon þeirra um viðtöku eða aftur-rekstur, og ég lái það ekki. Þessi blöð þurfa að fá góða Íslendinga til að rita í sig. Báðum til góðs. Enginn fæst hér enn. Eftir allt gortið í okkur um vesturheimska menntun og lærdóm okkar hér, treystist enginn af okkar skólamönnum vestan hafs til að rita spannarlanga grein á sínu eigin uppeldismáli, sem nokkurt bókmennta-bragð væri að. Úr okkar skólum koma „drepnar sálir“, svo leita verður heim, sem stendur. Seinna fáum við „uppvakningu“ hér.

Já, skrifaðu Nordal. Enginn, sem nú er uppi, skilur né getur skýrt svo ljóst anda íslenzkrar menningar og einstaklinga. Hann leikur liðnum sálum fram á yfirborð æfiatriða svo skýrt, að ekki verður um þær villzt. — Eitt hefir mér dottið í hug: Hver kemur í stað Hermanns við Cornell? Það yrði þó aldrei Blöndal? Veit, að hann langaði vestur, að minnsta kosti snöggva ferð. En einhver veikindi eru á hans heimili, kannske konan, Björg Þorláksdóttir — þó er það bara mín tilgáta.

Vinsaml. Stebbi.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 31. ágúst 1925.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Ég kem nú aðeins í þeim erindum að friða vonda samvizku sjálfs mín, en óröskslegar þó en von Kariot. Ég sem sé var farinn að fá í mig innri óværð að hafa enn ekki sent þér heilsufars-tíðindi mín, en þú og kona þín að koma hingað óra-veg og kostnaðarsaman, ekki í öðrum erindum en „að vitja sjúkra“. Já, þökk fyrir komuna, „bæði tvö“.

Hér kom J. Sveinss. í gær og minnti mig meðal annars á þetta, svo nú skal ég „bæta mig“ með að segja þér, að *hann* var „hraustur eins og hestskónagli“, eins og Skagfirðingar áður lýstu heilsu sinni, væri hún í lagi, en Jóns er það ekki refjalaust æfinlega. Annars var „J. P. P.“ búinn að skrifa og víst með þinni vitund, og hafði boðið mér að sækja mig á ykkar „kviktrjám“ og flytja mig fyrir „ráðið“ í Winnipeg, og gegna öllum mínum lögskilum við „yfirvöldin“ þar, sem ég meira en tryði honum til. Umhyggja ykkar er yfir allar mínar þakkir og verðskuld fram! Þið viljið vera forsjón mín, þegar hún er í önn annars staðar, og mér finnst, að þið mynduð duga mér sýnilega betur. Ég hafði svarað J. P. P., eins ábyggilega og ég gat, *að mér væri að skána,* og lýst því svo vel sem ég gat, en auðvitað: kann ég ekkert í grindagerð mannsskrokksins, þeirri sem nefnist „anatomia“, og fer því sem þeim, sem semdi sveitarlýsing, en þekkti engin örnefni né landslag. En aðalefnið var: ég er talsvert skárri en undanfarið (nærri ár) — ekki „batnaður“ en „batnandi“, svo munur er á — og „batnandi manni er bezt að lifa“, eins og sagt er. Ég hálf-bjóst við, að „J.“ hefði sagt þér eitthvað úr seðli mínum. En, gangi ég annaðhvort illa aftur, eða alls ekki, ligg ég samt ekki kyrr, en kem sem þið bjóðið, og læt ykkur verða mín vara. Ég trúi einna mest á „náttúru-galdra“, komist maður yfir þá „Gráskinnu“, án þess þó mig skorti traustið á „meistarana“. Ekki fleira um það í bráð — en, framvegis.

Enn er hér útlit gott með allar búbjargir. Að vísu brá til nokkurra votviðra, til tafa, í nýliðnar tvær vikur, eða svo . . . . . .

Þegar þið héðan hurfuð öllum
Heim til sléttu-lygnunnar,
Víðsýnustu vesturfjöllum
Vöknaði um skyggnurnar —

Selah! á þessari hliðinni!

Er „Grímur“ í „Lögbergi“ (loftunga Ein. Ben.) „Lalli“ með nýju nafni? eða á hann andlegan son, svona fjandi sér-líkan, því án þess verður slíkt skinnsokka-slit á dulnefnum næstum botnleysa. — Er Einar P. Lögbergs-útlagi?

Og hver er þá „aðstoðarinn“, eða heitir hann Tómas Johnson?

Fer séra Ragnar heim alfari í vetur?

Ekki liggur *mín sáluhjálp samt við* að fá svör við þessu. Á slíka forvitni er ekki frímerki fargandi, því síður bleki og tíma, nema að ekkert betra sé til í blaðsíðulínu.

Wpg.-blöðin ísl. næsliðinnar viku ókomin enn, líkl. vegna ofáts af jólamatnum á Gimli. — Óska svo blessunar í bráð og lengd!

Þinn Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 5. sept. 1925.

Góðvinur. — Þú minntist á við mig, hvort ég vissi nokkuð, hversu „Kolbeinslagi“ hefði farnazt í „Bárðardal“ og á „Finnmörk“ bóka-brallsins okkar í Winnipeg — sagðist hafa misst einhvern kapítula úr þeirri sögu. Ég sagði sem var, að í rusli mínu myndi ég *einhvers staðar* geyma bréf frá þér, þar sem *eitthvað* stæði í um hreppaflutning „Kols“. Svo gleymdum við því aftur. Nú kom Bardal til bjargar og minnti mig á aftur — ekki nema sendir *mér* sjálf-kvittun sína! eftir öll þessi ár, mér, sem ekki komst inn í þann reikning, svo ég vissi til, nema að rétt er það: bækurnar tvær, sem hann nefnir, fékk ég frá honum, og „Finna“-stafrófin. Ég leitaði uppi alla reikninga, sem þú hafðir sent mér, aðra en þá, sem koma við „fjórum og fimm“ af „Andvökum“, og sendi þér hér með — með „aflausn“ Bardals, ekki af því ég rengi hann, né ætlist til, að þú farir að „vekja upp framliðna“ — heldur hins vegna, að eitthvað í þessu kynni að verða þér eins konar „varnargaldur“, færi nú „Kolbeinn“ allur að ganga aftur, því Finnur kann að vera fjölkunnugur. En blessaður! ómakaðu þig ekkert um þessi gömlu blöð! Ég geri þetta eiginlega af gáska og þjóðrækni, því enginn hér í héraði er póststjórninni eins arðsamur og ég, þó landráðamaður sé.

Ég var nýl. búinn að senda þér miða og læt því hér við lenda nú, og bið að heilsa H. F., ef þeir vilja við taka.

Vinsamlega Stephan G.

*Athugun við „SKIPA-SKAÐA“.*

1. Í sjóbæ heima, sumarið sem ég var þar, gekk ég með kunningja mínum oft fram hjá, þar sem mörg gömul fiskiskip voru fjöruð uppi, auðsjáanlega seglskip, sem vélabátar höfðu tekið við af. Ég sé eftir seglskipunum — að menn „eignast skip, þó enginn kunni að sigla“. Þetta varð kvæðis-efnið.
2. *Dumbur* — konungur í Gandvík — reri stein-nökkva. Mér finnast gufu-skip líkjast „nökkva“.
3. *Byrðingur, snekkja, o. s. frv.* — Ég nota gömlu íslenzku kenninga-nöfnin um mismunandi stærð og lag skipa, í staðinn fyrir: kútter, jakt, barkur, o. s. frv.
4. *Dóttir Jóns á Hólum.* —

„Fer ég djúpt í fiska-geim,
Fjarri hringa-sólum.
Þó ég sé dofinn, dreg ég mig heim
Til dóttur Jóns á Hólum.“

Svo átti drukknaður draugur að hafa kveðið. Var á leið til unnustunnar. Mér hefir æ þótt vísan góð.

5. *Ormsins langa.* Hann átti að hafa orðið rangskreiður og ónýtur, eftir fall Ólafs konungs.
6. *Hallfreðinn.* Hallfreður vandræða-skáld eirði helzt í sjóhrakningum, eftir fall Ólafs. Enn fara menn til sjósókna, til að hrista af sér þunglyndi.

Söguna um að sitja uppi í mastri, unz Ísland sést, sagði sjómaður heima mér af sjálfum sér (sem kvæðið endar á).

*Grímur S. Grímsson.* 8. sept. 1925.

Óskina, Grímur, þakkar þér
Þessi tvæ-vetrungur!
Fyrir hana — og fleiri — er
Fauskurinn gamal-ungur.

Stephan G.

*Fréttin.*

Heldur gallast himnarnir,
Hrynja, falla, síga.

Leka-dallar laggbrotnír
Loftsins allir míga.

8. sept. 1925.

*Sig. Guðm., skólameistari.* Markerv., Alta, 17. sept. 1925.

Góðvinur Sigurður. — Alúðarþökk fyrir ágætisbréf þitt, ritað 5. ágúst í sumar — ásamt viðkynningunni allri, sumarið mitt sæla, forðum. — Kunnleik okkar gæti ég ekki gleymt, og skilnings-ræktina, sem þú leggur við skvaldrið mitt, met ég mitt lán. Það gerir mig ekki hreykinn, en hamingju-drjúgan, því ég er þess fullviss, að þú ert einn af of-fáum, sem hvorki brestur vit né velvilja. Það votta skólaræðurnar þínar, þær eru alveg eins og ég bjóst við þér — þinn innri maður, eins og mér skildist hann og geðjaðist svo vel að, þá og nú. Gott átt þú, ungmennarækt þín, með þeim hætti sem þú hugsar þér menning mannanna, á að bera ávöxt, arðmeiri og endingarbetri en „hveitigjafi“ Glúms var, jafn oft sem þó er til hans tekið. Í bréfi þínu tekur þú, meðal annars, fallega til orða um erfingjana, sem allt eiga að erfa: okkur og æðra líf. Þá er sú bæn uppfyllt „að mega lifa lengi í landinu“ — og ef því er að skipta — að þurfa ekki að koma sem landráðamenn og drottinssvikarar hér í heimi, inn í „ríki himnanna“. Nei, ég gruna þig ekki [um] skjall, Sigurður, þú ert ekki þann veg hneigður, og hvert gagn myndi þér gerast að skjalla mig, sem ekki á neins „ráð á jörð né hæðum“. Nei, við tökum aðeins undir, af því við „hittum sjálfa okkur fyrir“. Auðvitað ert þú ekki sérlega laginn á úr-og-í-slátt, þér er sýnna um að segja kjarnort og fallega, og til dæmis, þegar þú talar um mig, að þú „mælir“ þá og „teljir“ nokkuð ríflegara en ég hefi „lagt inn“ fyrir — en ég met það ekki í átt til of-hóls, heldur einlægni, svo sem sakir standa, það sinnið sem sagt er. Meinið er, að „krosstrén“ kunna líka að bregðast, gerast öfugsprettur með aldri, og vina-raun þeim, sem vildu manni bezt, það eru þeir, sem úr sér gangast, og það er óvinafögnuður, sem ekki verður látinn ónotaður.

Ég tel mig ekki meðal „spámanna“ né „dómaranna“, í höll vorrar íslenzku „Iðunnar“, þessarar norrænu „Aþenu“.

En ég hefi mínar grillur um það, hverjir helzt eigi þar heima. Mér sárnar — finnst það ganga níðingsverki næst, sé góð grein, bók eða ritgerð, misvirt eða gengin á þagnarbug. Svo var með eftirmæli þitt um Hermann heitinn og fleira, sem þú hefir ritað með líku lagi. Því gat ég um það við þig og er ánægður yfir að hafa gert það, fyrst það gladdi þig. Sagt hefir verið, að in forna sagnasnilld Íslendinga sé falin í því einkum, að segja ytri atburði svo, að andlegar einkunnir manna gangi þar um í ljósum logum. En þess er að gæta, fornsögur okkar voru fjölmennissmíðar, fágaðar af árafjöldanum og íþrótt margra frásegjanda, með skapandi skyni alþýðumunnmælanna. Síðar urðum við bara tíðindamenn, rituðum aðeins árbækur og „annála“, að vísu vel og merkilega, en „andinn“ varð frekar utangarðs, en nú er verið að „blása honum í nasir“ þeirra. En leyfa tímarnir nokkrum að leika upp aftur sína snjöllustu snilld, eða hví eru þá skáldsögur okkar nú svo feysknar, í samanburði við inar fornu? Getur gullöld verið lifuð upp aftur, öðru vísi en áfram, á nýjan leik? Ég efast um það. En sá nýi leikur er oft tómar „aðfluttar vörur“, sem eru glingur. En ný snilld er í aðsigi hjá ykkur, og hefir meira en brugðið fyrir, bæði hjá Nordal og þér: Hið innræna kannað svo djúpt, að sé til eitthvað af *anda* ókenndra manna og liðinna, verða inir ytri viðburðir í æfisögu þeirra sagðir með sannindum innblásins anda. Þar liggur fyrir okkur okkar framhalds-list, engu óvirðulegri en hin, jafnvel skyldari skáldskapnum, endist okkur orka til.

Fyrirgefðu svo þetta mas, Sigurður. Það er sjálfsagt draum-órar en ekki draumspeki, líklega rugl, sem ekki verður ráðið í og ég sjálfur ekki komið orðum að.

Það er svo sem þú gizkar á: Björn Halldórsson (kenndur við Úlfsstaði, að mig minnir), systursonur Magnúsar Eiríkssonar, einkennilegur karl og marghæfur og lét alla þess vara, hvar hann væri á ferð, — við urðum ögn kunnugir hér vestra, en aldrei til óbeitar, þó við stundum stæðum á öndverðum meið. Hann var orðfrekur, en engis öfundarmaður. Enginn hversdagsmaður, en ofbeinn höfðingi. Ólafur frá Espihóli er sá mesti vitmaður, sem ég hefi komizt í kynni við um dagana. Honum varð ég vel

kunnugur. En hann eirði helzt engu, öðru en nýungum, meðan þær voru nýungar. Dró sig í hlé um of, jafnfær og hann var. Hafði sín andlegu augu úti um allan heim. Fræddist um allt af eigin-ramleik, t. d. að skilja nokkuð enska tungu, franska, þýzka og hollenzka, auk Norðurlandamála. Reyndar hafði hann verið samsveitungi og samsætisbróðir Eyfirðinganna mikilhæfu: Séra Björns Halldórssonar, Einars í Nesi, Jóns á Munkaþverá, auk annarra. Gröndal fór frá „Djúnka óskemmdur", en frá slíkum mönnum sem þessum fer enginn „óbetraður".

Út af „Rústum hruninna halla" spyr þú: Hvernig ég viti, að þrek þeirra, sem förguðu sér til ónýtis, verði „síðar þjónn í ríki sannleikans". Ég „veit" það ekki öðru vísi en svo, að ég get ekki trúað, að mannkynið fyrir-fari sjálfu sér, sem verður með sama stríðs-áframhaldi og verra (sem verður). Þegar almenningur skilur það, notar almenningur sama eiginleikann, sem þurfti til að vinna illverkið, stríðið, til að fyrirtaka að ganga í hernað, hvað sem það kosti sig; og jafnvel það: að líða raunir fyrir réttlætið, að eiga *þrek* til þess, gerir hvern göfug-sælli. Bending í þessa átt ætlaðist ég til að væri *móðirin* og *sonurinn, sem heima sat* og kvæðið getur um. Hann með glaða og góða samvizku, hún með hugraun yfir að hafa verið sjálf, að sumu leyti, orsök í að hafa orðið „þeim verst, sem hún unni mest", en hefir fengið *þrek* til að horfast í augu við heimsku sína, og skyn á tálinu. Fleirum hefir svona hugur snúizt, að ég veit fyrir víst. Ég hafði sífellt haldið fram, að *það* gæti orðið ið eina mögulega góða, sem leiða kynni af slíkri alheims-hrösun, einmitt fyrir það, að hún kom niður á öllum mannheimi, á einhvern hátt. Stríð, jafnvel stór-styrjaldir milli aðeins tveggja þjóða eða svo, hversu fjölmennar sem eru, er öllum, sem utan við standa, aðeins *saga,* næstum skemmtisaga, meðan ekki er höggvið í heimagarðinn. Allar mannraunir geta verið lán, *ef þær þroska mann,* og manndóms-sæla að hafa mætt þeim og vaxið við það. Það er mín „kredda". Metnaður í því að hafa orðið þess *verðugur að vinna sannleikanum,* hversu smátt sem er, og hversu þung raun, sem manni þótti það, meðan á því stóð. Þetta er mitt innræti.

og því verð ég aldrei botnlaus bölsýnismaður, án þess þó að óttast og „líta undan“ því, sem að er.

Alveg rétt! „Sæunn hafkona“ er hvort tveggja, ill að skilja og auðskilin. Hún er hálfkveðin vísa, eins og t. d. „þulurnar“, en ekki eins oft út í hött, enda er hún upp úr æfintýri í þjóðsögum okkar, skáldskapur (ef svo má kalla), sem á ekki rót í ímyndun („róman“) né veruleik („fact“). Áhrif hans eru sá *„móður“*, sem hann setur hug þann, sem hann hrífur, í: hetjumóður, hugmóður, vílmóður, þetta sem þið líkl. kallið „stemning“ með „danskinum“, geðbrigði, sem enginn „veit hvaðan kom né hvert fer“, eins og ranglega var sagt um vindinn.

Þessi „Sæunn“ mín kom upp úr kafinu á milli þeirra heims og helju, sem mér finnst ég stundum í: hugsaninni til þeirra, sem ég hefi misst, og hinna, sem hjá mér eru.

Enn er kveðið „ofljóst“, eins og Snorri nefndi það (þó ekki sé nú með langsóttum kenningum), *synd* sem ég oft gat ekki stillt mig um — enda eru líklega allar syndir drýgðar á þann hátt. Þetta er sagt svo sem ég veit bezt! og ekki þarftu að afsaka spurninguna. Það er ekki til að fyrtast af að vera virtur þess að vera spurður!

Gott var að heyra, að nú ertu húsbóndi á eigin-heimili og yfir það hafinn að vera „borinn út“, og gaman hefði víst verið þig heim að sækja, en ekki held ég, að þér þyki jafnstór eftirsjón í því, þó ekki geti af orðið, eftir að þú hefir lesið þessa langloku: bréfið þetta. Þú finnur þar, að nú er ég að gerast gamal-ær, upp úr því að vera alla æfi „andkannalegur“ — en ég veit, að *þú* fyrirgefur mér enn öll mín „óvöndugheit“.

Berðu kveðjur mínar góðar í þitt heimahús, og þeirra vina minna á Akureyri, sem við kunna að kannast, með þökk fyrir mig forðum.

Ekki ætti enn að vera fyrir von komið, að þú kunnir að koma vestur, einhvern tíma. Það fer eftir því, hvort milliferðum fjölgar og verða venjur, sem hyllt væri að hér — og, það er þó að aukast, mest fyrir viðgang þess hluta Íslendinga hér, sem alla tíð hafa átt óbundnastar hendur í vösum og huga í brjósti.

Allt vildi ég vel til þín mæla og vinsamlega. Stephan G—.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 10. okt. 1925.

*Viðurkenning.*

Þökkin mín er þrota-raus!
Þörfum hugans minni,
Alveg ráða- og orðalaus
Yfir góðvild þinni. Stephan G.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 18. okt. 1925.

Jakob minn góður! —

Seinn til svars ég er,
Svona einatt fer.
Skellur skömm á mér,
Skaðlaus alveg þér —

Gott var bréfið þitt og gjöfin — en að þiggja svona af þér, sífellt launa-getulaus, er mér áhyggja. Þú tekur of nærri þér, Jakob, jafnvel þó að öll góðverk eigi að mælast eftir þeirri einu reglu, hve nærri sér er tekið. Værir þú ríkur, þá slægi ég sigg í samvizkuna, bara kysi að komast hjá að þiggja, því afþakkaður velvilji getur líka valdið bæði misskilningi og sársauka. Á allan annan hátt kom mér þetta vel, og vel verði þér og nafna mínum fyrir það!

Örðug tíð hér, síðan um miðjan ágúst — sífelldar rigningar, svo hvergi var „flóa-friður" við uppskeru-hirðingu (eins og sagt var um torf-kofana heima, þegar alls staðar lak) — hefir hindrað mig, að ýmsu leyti, frá að senda þér línu fyrr en þetta — sem sé auk mínu venjulega „völtin-tölti" hefi ég unnið ögn á ökrum, drýlað korn í hjáverkum, og síðan snúið út skemmdu hliðinni á melónunni, eins og heimsk-ráðvanda kaupmanns-efnið í sögunni, sem ég las strákur. Hann hafði hana til sölu, en vildi engan á henni svíkja, sem annaðhvort er hauga-lygi, eða hefir skeð árið á undan því, að Ameríka var fundin og almennir verzlunar-vegir.

Nóaflóð ei endað er!
Með okkar jörð svo regnið fer,
Að frá „báðum heimum" hér
Hún er að gerast anda-ver.

Sérstaklega þarf ég þó ekki að bera mig illa. Hjá okkur hafa barizt úr í þreskingu „milli skúra“ yfir 2,000 „bushel“ — ef ekki „hitnar þá í kolunum“. Eigum þó allmargar ekrur óþresktar. Höfðum undir kringum 150. Hefðum fengið ágæta uppskeru, hefði haust-veðrið haft hemil á sér.

Þvílíkt má þola!
Þarflaust að vola.
Slettist út af barminum bara,
Milli bikars og vara.

Lengi áður en þú skrifaðir, var ég að hugsa um að senda þér línu, til að frétta frá þér, þó aldrei yrði úr. Mér kom því miði frá þér vel. Nokkrir, sem ég hefi náð í og komið hafa hingað, það er að segja: menn sem marka mátti, hafa getið þín við mig, svo mér þótti vænt um, allir á einn hátt, að þú værir á andlegum gróða-vegi. — Einn var séra Friðrik, annar séra Rögnvaldur, og nokkrir fleiri.

Já, það er rétt, mér hefir oft fundizt illa farið, að góðir drengir og frjálslyndir urðu andstæðingar að óþörfu, sem áttu þó samleið, að öllu sjálfráðu. Fundizt það ein mesta tímatöf sannleikans og oft út úr misskilningi, eða aukaatriðinu í aðferð. Sjálfur hefi ég lifað þá tíð að vera jafnvel af vinum mínum grunaður um að vera genginn af „van“-trú okkar, af því ég mætti þeim kunnuglega, sem henni og okkur voru andstæðir, í félagi, hvar sem okkar kom saman, en gugglaus, hvar sem okkur greindi á. Mér fannst ég enginn veifiskati vera og myndi halda mínum bát í andófi. Það er satt, ég kysi helzt að bera sáttarorð milli góðra drengja sem þín og Rögnv. Mér hefir hann reynzt ágætlega. Veit, að hann er óvinsæll hjá vissum flokk manna, en hygg, að það stafi mjög frá því, að hann hefir tíðum reynzt þeim ofjarl að hyggindum, en ekki veit ég, hvar ýmislegt, sem frjálslegast er og drengilegast í stormum og straumum ins andlega lífs okkar Vestmanna, stæði nú, hefði hans ekki notið við.

Þú spurðir eitt sinn, hvort Hjörtur Þórðarson hefði lagt nokkuð til *útgáfunnar*. Ekki gat ég svarað þér. Vissi það ekki. Enn er það leyndarmál og mér bannað að segja af Hirti sjálfum. En ég stelst til að segja þér, úr því Rögnv. gat um þessa $600.00 ($600.00 hefi ég fengið og 50 eintök,

gefið þau flest upp nú, kunningjum mínum, heima mest. Engum boðið til sals, en selt 3 eintök fyrir bón, 2 hér í byggð, og eitt til Calgary. Get ekki selt bók eftir sjálfan mig). Þessir doll. voru frá Hirti. Þegar hann kom til Winnipeg í vetur og lagðaði gamalmennahælið, lagði hann $1,200.00 í Andvökur, en séra R. aftók að taka við, nema svo, að ég fengi helming, því enn var þó skuld frá útgáfu. Hjörtur samþykkti þetta með því móti, að ekki færi annarra á milli en mín og þeirra, og ekki mátt þú láta það enn koma upp, að þú vitir þetta, ég þykist geta séð, að það kynni að verða H. hvimleitt, ef það bærist út. Alls konar betl kynni að honum að steðja, jafn auðugur og hann er haldinn (sem að vísu er satt, en ekki að peningum, æfinlega) og svo rausnarlegur sem hann er, séu „centin“ handbær.

Af heilsu minni er það helzt að segja, að þó ég geti ekki með sönnu sagt, að ég sé fráleitur, er ég ekki fullhraustur, og þó ég ekki viti, hvað að gengur, fyrir víst, annað en gömul bilun og slit, finn ég ýmislega til þess, að nú er ég kominn á áttræðisaldurinn, enda er þá (og fyrr) „allra veðra von“, og er ekki undur.

Ég skal hugsa til þess, sem þú nefndir. Enn hefi ég ekki komið því við, og eins vel og væri að vita þig nær, skal ég ekki eggja þig á það. Þér væri þá launað gott með illu, ef ég héldi, að það „borgaði sig“ að flytja frá bærilegum hag í basl hér, aðeins til að *komast í nágrenni við mig*, því það væri ekki þess virði, og þó lítið væri, jafnvel, í sölur lagt. Ég veit engan augastað hér á nokkru hæfilegu, en skal vera á varðbergi. — Nú verð ég að ljúka línum, til að ná pósthússferð — og fyrirgefðu, og klappaðu á kollinn á nafna mínum fyrir mig!

Órækt vitni eg um það ber
Ávallt í sjóð:
Vinanna minna vegna er
Veröldin góð.

Blessaður og sæll. Þinn S. G.

PS. Enga línu hefi ég nú lengi séð frá Guttormi. Hann skrifar mér stundum — en, með höppum og glöppum margra og langra millibila. S. G.

*Magnús Jónsson frá Fjalli.* Markerville, Alta, 24. okt. 1925.

Magnús minn góður. — Já, samvizkusamlega skilaði Ófeigur mér boðunum frá þér. Svikin eru mín skuld. Ætlaði þá þegar að senda þér, það sem ég hafði fengið um þetta mál Nordal-Kvarans: blöðin „Tímann“ og „Dag“, varnargreinir Sigurðar. „Lögrétta“, sem sé Þorst. Gíslason (en hann mun vera „útgefandi“ Kvarans-bóka), mun hafa byrjað deiluna, og í hana slógust eitthvað 18 lærðir Reykvíkingar. Það var, finnst mér, góð „auglýsing“, hefði Einar hreppt „Nobels“-launin, þó ekki sé það uppi látið. Ég er hér um bil viss um, að það er ekki trúarbragða-taut Einars, „spiritisminn“, sem í Sigurði situr, heldur bara dómgreind hans um skáldskap og bókmenntir. Dáir Einar ýmsum minna sem höfund, blandar ekki saman íþrótt og „andatrú“, eins og margir aðrir, telur jafnvel ekki „mannúð“ vera allan skáldskapinn. Ég veit ekki nema Sigurður sé sjálfur andatrú eitthvað hlynntur. Að minnsta kosti sá ég, að hann var einn með Einari í rannsókninni á danska Nielsen miðli, sem gerð var í Reykjav. og deilt var um. En af svörum Sigurðar varð ekkert ráðið um „trú“ hans til né frá, hann hélt sér við „höfundinn“. Deilan við Nordal byrjaði svo: Um það leyti, sem Kvaran var á „Nobels“-fjörunni í Höfn, komu út í nafnkunnugu myndablaði í Svíþjóð, „Viku-blaðið“ (Veckojournalen), eftir fregnrita þess, frú Garm, umsagnir eignaðar Nordal um íslenzk nútíma-skáld. Hún var send heim í þeim erindum. Meðal annars kvaðst hún hafa spurt Sigurð, hversu honum litist á, ef Kvaran fengi „Nobels“-launin í ár, það hefði verið „ögn á hann minnzt“ (En smule påtænkt) til þess. Sigurður segir, að hann hefði ekki heyrt það fyrr. Hann hefir ekki það álit á Einari, að hann myndi verðugasta skáld Íslendinga, ef til kæmi. Telur ljóðskáldin, Matthías og Einar Ben., líklegri, væri unnt að þýða þá. Segir, að Kvaran hafi ritað nokkrar ágætar smásögur, en fari í mola í inum lengri; þar skorti á frumleika, stíl og skörungsskap. Orðrétt man ég ekki, en sú er skoðun hans, skýr og skorinorð. Þetta segir hann, að Reykjavík hafi vitað, hann hafi sagt þetta álit sitt fyrr, á fyrirlestri, sem hann hafi flutt þar. Nýlega hefir Sigurður gefið út „Lestrarbók“ í íslenzkum bókmenntum, ætlaða sem skólabók og sönnun þess, að ís-

lenzkar bókmenntir hafa uppi verið og óslitnar frá fornöld og fram á þennan dag. Allt mas um nýíslenzku og nýíslenzkar bókmenntir sé misskilningur og villa, því *„íslenzkar“* bókmenntir hafi, enn sem komið er, lifað allar útlendar árásir dauðar, þó tæpt hafi staðið stundum, og undir því, að það haldist um aldur, sé framtíð Íslendinga og frægð öll komin, og svo hafi ætíð verið, jafnvel orðið sjálfstæð þjóð einungis fyrir þá velvild, sem þeir hafi áunnið sér hjá voldugri þjóðum fyrir það starf sitt. Sem sé, Sigurður er þarna andstæðingur bæði Guðbrandar, sem vildi veita bókmenntum okkar nábjargir á 14. öld og eigna Keltum margt í flestu þar fyrir framan, og eins lítur Sigurður ekki hýrt til hins, að apa eftir sérhvað það sápubólna-ger, sem gýs upp hjá stórþjóðunum og hjaðnar jafnharðan. Eins og við er að búast, er jafn sjálfstæður maður og Nordal er í bókmenntum ekki við allra fjöl felldur, sem stendur átti að losa íslenzka háskólann við hann, þó forðað væri. Norðmenn buðu þó betri laun, vildu fá hann.

Maður var sendur á Sigurð (séra Magnús Helgason) til að fá hann til að mótmæla frú Garm. Hann neitaði, sagði að hún færi svo nærri því, sem hann hefði sagt og áliti Einars verðleik sem skáldlaunamanns Nobels, að ekki tæki því að rita gegn henni, og þar við sat, en þá hóf Þorsteinn deiluna og hans flokkur. Sigurður kvað sér hafa komið það vel, þá fyrst hafa fengið færi að segja sína hlið á máli, sem áður fór í læmtingi. Hann hefir haldið fyrirlestra um íslenzkar bókmenntir við háskóla Norðmanna í sumar, og Svía og Dana, hafi tími enzt til. Svo hefi ég þá sagt þér það bezta (en stytzta, sem ég veit) um þetta mál. En illa gerðu íslenzku blöðin vestra að þegja þetta fram af sér, þó gruna megi, hvað til kom. Körlum, sem þér og mér, koma knífar sínir sjaldan í svona feitt — hvað sem öðrum líður.

Aldrei hefi ég Nordal hitt. Hann var við háskólann í Oxford, þegar ég kom heim. Bækur hefir hann sent mér, „Völuspá“ sína, í „Ársriti“ háskólans, og „Lestrarbókina“, og vissi ég þó ekki fyrst, hver sendi, og bréf fékk ég frá honum síðar. Hann væri til með að koma vestur fyrirlestrarferð, vildum við til þess vinna nokkuð. Kvaran

sagði, að þið „Ströndungar“ hefðuð farið fram á að fá mann að, heiman eða héðan, til að halda fyrirlestra við háskólana hér vestra um íslenzk efni, til að bæta úr vanþekkingu manna hér á Íslendingum. Það væri snjallræði, og engan veit ég líklegri til góðs um bókmenntir okkar en Sigurð. Og auk þess, að hann getur „talað sem sá, er valdið hefir“, sökum kunnugleiks og menntunar, er ég (að minnsta kosti) honum samþykkur með svo margt og margt (og Kvaran líka) og íslenzka bókmennt yfir höfuð. Grunur minn, en ekki menntun mín, hefir fyrir löngu lætt ýmsu af því að mér. En ruslakista eigin ímynda er rýr í rökfærslu, en gott að sjá sér færari menn gera eitthvað í henni að sannmæli.

Blöðin ætlaði ég að senda, eins og ég drap á. Þau voru þá týnd. Svo ætlaði ég samt að skrifa þér. Fann þá ekki í svipinn áritun þína. Átti þó margar í bréfa-rusli, en engin tími né nenning að leita þá. Mundi sífellt til þín og beið tækifæris, með illri samvizku, þangað til nú, og er þó allt hálf-karað.

Sem stendur „hugsa“ ég hvorki né „skapa“, sem þú spyr um. Aðeins óframkvæmdar ætlanir og hálf-gleymdar. Lasleiki, umsvif og ómennska sundra mér nú í mola. Tíðarfar eitt ið örðugasta þetta haust, og mikið basl að bjarga sínu að nokkru leyti, svo sem unnt var. Gróður góður, en haustregn til hömlu.

Heyrðu, ég hefi nokkuð af nýrri bókum íslenzkum, sem vinir mínir, höfundar heima, senda mér, t. d. Nordal: „Völuspá“ og „Lestrarbókina“, Guðm. Finnbogason: „Stjórnarbót“, Páll Eggert Ólason: rit sitt ið stóra „Menn og menntir“. Hefir þú *heyrt* nokkuð af þessu? Ég gæti sent þér eitthvað til láns, ef þú vildir, og einhver ljær þér augu sín. Láttu mig vita. Ég má víst ljá, en ekki gefa „gjafir“. Og þú, eða kona þín, gætuð skilað, þegar tími væri til. Mér er aðeins ánægja, að sem flestir lesi góða bók. Þó *ég* kallist eiga hana, sem varla er rétt, því hún er „guðsgjöf“ á sama hátt og gott veður! sem allir eiga að njóta.

Bið að heilsa konu þinni og fólki þínu, með þökk fyrir síðast!

Mikil raun var Magnús þér
Í myrkrið sjón að glata — —

En, meðan víðskyggn andinn er
Ná augun hálfum bata.

Blessaður og sæll! Þinn Stephan G.

*Magnús Jónsson frá Fjalli.* Markerv., Alta, 1. nóv. 1925.

Góðvinur Magnús. — Að vísu var ég nýbúinn að svara þér, svo sem ég gat, með ávænu af því, sem þú inntir eftir, um álit Nordals um Kvaran. Get samt ekki stillt mig um að bæta þeirri frétt við, að fáum dögum eftir að sá miði flaug frá mér, barst mér *Skírnir* inn nýjasti. Þar skýrir Sigurður málið frá sinni hlið í grein, sem hann nefnir: „Undir straumhvörf", tekur glöggt og fallega fram, það sem *sér* þyki viðsjált í verkum Einars, í orðum og anda, og rekur tildrög þess, og bendir á staði, án þess að segja allt, sem segja mætti, í krufningu til hvers mergjar. Fær þú að heyra Skírnir? Yfir höfuð er hann ágætur í ár, auk greinar Nordals. Ég gæti sent þér hann, svona bráðum, ef þyrfti og þig fýsti og létir mig vita. Hvenær sem þú kynnist honum, getur þú greint *nú,* hvort ég muni hafa skilið Nordal rétt, sem óljósara var þó ákveðið þá en nú, og enn hallast ég á Sigurðar sveif. Mér finnst hann segja það með ljósum rökum, sem hefir „setið í mér", en ekki gat „gengið til dóma", af því mig skorti bæði „valdið" og „lagakunnáttuna" til þess.

Auðnist þér svo ánægjusamar hátíðir! — Vinsamlega
Stephan G.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 8. nóv. 1925.

Góðvinur Baldur minn. — Nú man ég ekki, hvort ég svaraði síðasta bréfi þínu í sumar, sem færði mér góða ljósmynd af „Vörðu", og enn betri: fyrirsögn þína, hversu byggja eigi slíka „brautarsteina", svo standi. Allt var það ágætt frá þinni hendi, hverjar sem „efndir" yrðu frá minni. Mig minnir, að ég sendi þér bara stuttaralega þökk — ef ekki, kemur hún hér, af heilum hug, en hálf-gremju við sjálfan mig, að gera þér alla þessa fyrirhöfn. Ef til vill lenti svar mitt í úti-deyfu þá, ég man það ekki nú. Ég

var í kröggum lúa og lasleika. Svo orðlengi ég það ekki frekar að sinni.

Í póst hefi ég stungið litlum bréfa-böggli til þín: Þar í eru nokkur bréf frá sjálfum þér, sem eftir urðu áður — nokkur bréf til mín frá Þorst. Erlingssyni. Guðrún ritaði mér og bað mig að ljá sér þau. Ég fæ henni þau til fullra umráða og skrifa henni. Þá eru nokkur bréf frá Jóni Ólafssyni. Þau sendi ég Sigríði og Ágúst, til geymslu eða glötunar, og bið þig enn ómaks, að koma hverju þessu reiðuleysi í réttar heimtur. Ég tek þetta ráð, því að „mér frá gengnum", lenda þau í hirðuleysu eða verra „hér í heimi". Sjálfur gæti ég ekki fyrirfarið þeim, þó ég tímdi. Mér verður bimbult af að selja grip „undir hnífinn", sem ég hefi hirt um, hvað þá að bera á bál bréf frá vinum mínum, svo ég fæ þeim þá heldur „fóstur" svona. Svo er annað, í bréfum er oft eina „æfisagan" að gagni — ég á við þá, sem æðst er og innanbrjósts. Þau eru eins og skjáir á þekju úti, þeim sem inni er, sýna með því, hvernig stráin beygjast, hvaðan vindur stendur, það er að segja: þau sem eru um annað en veðurfar og búrdalla. Slík bréf merkra manna ættu að geymast til upprisudags, þó ég samþykki höfundar-réttinn og ættar-erfðina og viti, að varasamlega verður að nota tveggja manna hljóðskraf, og á vandaðan hátt. — Og heyrðu nú! viðvíkjandi þínum eigin-bréfum til mín: Þú hefir minnzt á að geyma niðjum þínum ýmislegt: t. d. „drauma" þína og fleira. Alveg rétt! Verði útlitið bjargvænlegt í þeirri átt. En hví ekki að geyma þeim líka *bréf þín* til mín, t. d.? Þar er svo margt vel sagt, á ýmsan hátt. Og sé þar nokkuð, sem þú kysir ekki sagt að hafa öðrum en mér, er auðvelt fyrir þig, að „deletera" það, eins og „prófarar" hér segja, þegar ólæst er á einhvern hátt. Ég veit, að ég er ekki að „öllu þessu stússi" sökum þess eins, að ég átt hefi því að fagna, að skeyti frá „beztu mönnum" ýmsum yrðu mér til „lofs og dýrðar", ef entust. Til slíkrar ánægju, sem þau hafa orðið mér — mætti það þó afmást, mín vegna, en það eru „sálir" manna og „tíðarandi", sem mér er ætíð sögulegast. — En, fyrirgefðu svo þessar grillur mínar, sem eiga kannske ekki annað betra erindi en að gera þér ónæði, með kvabbi mínu við þig um að *skila þessu af mér*. Drauminn (um bikarinn),

sem þú skrifaðir mér, réði ég á svipstundu, en gleymdi að senda þér „ráðninguna“. Líklega veiztu það ekki, en hefði ég verið uppi á dögum þeirra Gyðinganna, Jósefs og Daníels spámanns, hefði ég varla orðið ófrægari en þeir fyrir „draumspekina“, þó mín aðferð sé önnur en þeirra. Draumar eru, flestir, *eðli manns innanbrjósts,* í dularbúningi „skrípitrölla og skóga hugmynda“ ins daglega lífs — afbakaðra og ómunaðra jafnvel. *Þér* finnst þú aldrei orka að gera eins vel og þú vilt, það sem þú vilt vanda, finnst þú munir „brjóta bikarinn“. Eitthvað þess konar verður þér að svefnórum, sem koma fram í málrúnum óviðráðanlegrar ímyndunar sofandi manns, eins og t. d. að b-ið í *bikar* verður að p-i í *pocal,* i-ið að ó-i, k-ið að c-i, r-ið að l-i, og *a*-ið eitt óbreytt og með sínu lagi, en það er sama sem: viljinn þinn að vanda, og óttinn við mistekt, og ánægjan, að „bikarinn“ bjargaðist heill — og finnst þér nú ekki, að ég megi „státa“ af minni rúna-ráðningu? einkum þegar ég kannast við, að ég hvorki veit né get sýnt neina heimild fyrir því, að „bikar“ og „pocal“ sé sama orðið, en þykist bara sjá það „í hendi minni“.

Já, Baldur, ég veit ég *ætti* að gera þetta, sem þú nefndir — ég *vildi* gera það — en, ég er gömul segl-skúta, og „byr ræður siglingu“! — sem sé: ég *vil ekki! get ekki!* nema mér finnist, að „í mér kvikni“, og sú íkveikja kemur kannske aldrei, og nú er ég (ýmissa orsaka vegna) ekki eldfimur — en, ég mun samt ekki gleyma þessu, nema þá af kæruleysi — þó til lítils komi líklega. Annars er mér minn andlegi ómagaháttur leiður, og vinir mínir úr öllum áttum að ala andlega önn fyrir mér með bókagjöfum og langdvalaróskum enn:

Vildir góðra vina
Víst er ljúft að þiggja,
Þeim, sem engin afrek
Eftir framar liggja.

Þó er naggað nokkuð
Nærri, að lifa á stuldum:
Bara að tolla og tóra
„Til að safna skuldum.“

Kona mín og ég biðjum kærlega að heilsa þér og þínu skuldaliði og þökkum fyrir myndirnar og marga sumarauka aðra.

Leitaði ég í muna mér
Að minnisverðum línum —
En nógu góð þér engin er
Af öllum kveðjum mínum!

Svo hún verður bara:

Vinsamlega Stephan.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 11. nóv. 1925.

Góðvinur. — Einhver hefir því að mér logið, eða með sönnu sagt, að taugaviðkvæmni hesta og manna væri sárasvipuð. Miklu munar þó. Þegar húðarbikkja heltist í hestahóp, hefir ekki orðið þess vart, að hinir gerðu sér annt um heilsufar hennar, narta í hana ef til vill, nærgætni þeirra getur ekki betur. Þrátt fyrir alla illsku, bera menn þó önn fyrir öðrum. Það eru yfirburðirnir, neistinn, sem glæðist og vermir loks allt mannlíf! —

Þakka þér línurnar! og ykkur huga ykkar í átt til mín. Oft var nærri að mér komið, að senda þér línu, en ég varðist þess, meðan þú værir í „ferðalaginu“, skildi, að þú varst að heimsækja kunningjana, mig sem aðra, og myndir eiga nógu víða við að koma, þó ekki væri þvælzt fyrir þér. Annars vildi ég helzt eiga „Hnausaför“ þína í kveri fyrir sig, blöð slíta fram í fyrir manni, eins og skriflarokkar, þegar langt skal spinna. En ég býst við, að fylgd þín yrði ekki fjölmenn þar að sinni. Þú getur þess svo sjaldan, „að guð fyrirgefi syndirnar“, hitt liggur nær þér að reka í þær hnýflana, greyin, og þær halda, að þú sért að hafa sig í háði — og þó, þarna kom þessi „frú frá Tanganum“, hver sem hún var, hældi þér og stældi þig í ferðasniðum, og gerði það svo laglega, að ég hafði hug á henni, — hvort sem hún er karl eða kona — og þakka svo fyrir skemmtanina!

Heilsan mín — jú, hún gæti verið stöðugri í rásinni, en líka orðið mér ónotalegri en hún þó er. Að ýmsu leyti er ég betri en þegar ég var verstur, og veit ekki betur en ég sé á batavegi — svona á seina-gangi! enda freista ég margs: ætla t. d. ekki að borða nema tvisvar á sólar-

hring í skammdeginu. Nýlega tók ég samt upp nýja ólund í eyrunum, heyrnardeyfu og hálfgerðan hlustarverk, er nú að herja á þau með bómolíu og volgu vatni og verkurinn að skammast sín, en heyrnin heldur víst, að hún sé búin nóg illt að heyra um dagana — en svo sjáum við samt hvað setur. Sem stendur hirði ég í húsi 20 nautgripi, auk annarra snúninga, les blöðin, skrifa skratta-dóm af bréfum, sem ég alla vega kemst í skuldir um, og í sumar var ég kúasmali og „hvað annað", eins og vant var, en að öðru leyti er ég guði og mönnum gagnslaus, þó ekki sé ég í rúminu nema á nóttunni. Og ætli að sé við að búast betri „heiðins-manns-heilsu" matvinnung á mínu reki? Enn á ég von á að „taka á mig rögg", til heilsubótar og hugbótar. Bótin er: þó *ég* svíkist um, gera aðrir betur. Nú eru nógir til — þú þar á meðal.

Um tíðarfarið segi ég ekki orð. Vildi, að enginn vinur minn í Saskatchewan vissi, hvernig það er, en er, því miður, hræddur um, að ekki „verði mér kápa úr klæðinu því".

Niðja þeirra Vatnars, Vikars og Framars (ættin er forngöfug, frá áttundu öld, eða fyrr) bið ég mæta-vel að heilsa, og hátíðlega!

Ljósan dag og langvinnan
Þér líf skal boða —
Hverf svo út í eilífan
Árdags-roða.

Vinsamlega Stephan G.

*Theodóra Thoroddsen.* Markerville, Alta, 12. nóv. 1925.

Vinkona góð. — Ekki sökum gleymsku, né elliglapa vegna, hefi ég aldrei enn þakkað þér bréf og bækur þær, sem þú sendir mér að gjöf í sumar (og þó var eins og minningarnar um drenginn þinn gengju mínu hjarta næst). Kæra þökk fyrir sendinguna! og fyrirgefðu, hve djúpt ég hefi fallið í forherðingu letinnar, eða hvað það var nú, sem dró hug minn og hönd svona lengi úr hömlu, því þó ég ætti engin efni í sendibréf, hefði ég átt fyrir löngu að viðurkenna móttöku þessarar kveðju frá þér.

Aðsókn versta venst á mann, sem verður gamall,
Kringum fauskinn flykkjast taka
Framkvæmdir, er sitja á haka.

Munu ei reynast fegurst leikslokin
Lífsins, þeim sem fyrr en nokkurn yggir
Mega hverfa í morgunroðann inn,
Meðan hvergi á æskuþrárnar skyggir;
Mánar fölna út í sólheim sinn!

Viðvíkjandi inni „nýjustu-nýju“ tízku kveðskapar og skáldskapar er ég orðinn „aftur úr lestinni“, eða helzt: var aldrei í henni. Ég átta mig ekki á helmingnum af þessari „Freudisme“ eða kyn-sálfræði, sem ég skíri svona í höfuðið á sálarfræðingnum mikla Sigmund Freud. Þar var hann vísindalegt höfuð og herðar, en nú eru enn nýrri menn að efa hans ritningar. En allt líf er hreyfing í einhverja átt. Sisið á sama stað dauði, eins í skáldskap sem öðru, svo ég er hvergi uppvægur yfir minni utanveltu og eftirlegu. Ég á ekki við íslenzkan nútíðar-kveðskap einungis, hann er aðeins ómur af sama-són, hvar úti í heimi sem hlust ber að. Mér finnst fátt hneykslanlegt, en ýmislegt ofaukið. Aldrei rakst ég á höfund „Láru-bréfanna“ heima um árið, svo ég vissi. Heyrði hans getið sem einskonar andlegs öfugugga í tvíbytnu tíðarandans, þessa milliliðar milli galsa Gröndals og kristindóms Upton Sinclairs, en spakyrtari en báðir þeir, ef hann grípur til orðskviða. Almennings forvitni er engu lakari bóksali en almenningsálit.

Ég sá það á eftir, þegar bréfið var flogið og farið, að ég hafði haft „býtti á bakara og smið“, í nöfnum dætra þinna. Ætlaði að láta það þámast af, treystandi á aðgæzluleysi þitt, en mér varð ekki „kápan úr því klæðinu“.

Ég hefi' mínu máli spillt,
Ber mis-gár-skuld á herðum —
Svona er að fara systra-villt
Í sínum biðils-ferðum.

Aldrei höfum við Þorvaldur hitzt, en ég hefi stundum til hans spurt: t. d. veit ég, að hann hefir reynzt góður drengur hálfgerðum vandræðamanni hér, sem þykir því vænt um Þorv., og nafnlaust bréfspjald held ég ég hafi

fengið frá honum, ánægjuorð um minn hluta máls, þegar verst viðraði um „Vígslóða“ minn. Og yngsta hnyðran þín orðin 18 ára! Ég man eftir henni. En hvað gróðurinn er þó góður, þrátt fyrir allt! Biðjum að heilsa þér og þínu fólki.

Þó drottinn fari ekkert eftir óskum mínum,
Sjálftilboðnir sólskinsblettir samt þig skíni' um.

Vinsamlega Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 24. nóv. 1925.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Þakkir fyrir fyrst og síðast, og fyrir bréfið. Það var allt með góðu gefið, en hitt, að ég svaraði ekki um hæl, stafar frá því, að ég hafði léð „Lestrarbók“ Nordals vestur á strönd, Magnúsi (blinda) „frá Fjalli“. Hann á nú svo ömurlegt, en „andinn lifir æ inn sami“, sólginn í allt vel ritað. Konan er nú honum í augnastað, held ég. Hann skrifar mér oft, getur það nokkuð með ritblýi og einhverri „reglustiku“ á hendinni, sem Jón sonur hans bjó honum — að mér er sagt. Nýlega hafði ég sent M. bókina, þegar bréf þitt kom. Ritaði honum jafnskjótt að senda þér hana, þegar er hann hefði lokið lestri. Býst við hann geri svo. Á meðan svo stendur, lá þér síður á svari. Þó sendi ég þér nýja Akureyrar-skóla skýrslu Sigurðar Guðmundssonar, sem hefir reynt bókina á sínu „hyski“, getur um það og lætur vel af, sem vonlegt var. Hefir bæði vit og sannsögli til að segja sem er, og hefir sjálfur samið lítið kver til kennslu, um fornbækur okkar, og því verið hælt. Annars er nokkuð þögult um Nordals bók, líkl. af því að hann heldur fram óvenjum. Íslendingar vildu „burt með hann“, þó ekki tækist. Norðmenn buðu vel í hann, og er hann þó þeirra ágirnd óþarfur, þó ekki sé nema með „Völuspá“. Ef unnt er, þarf að koma bók Nordals að við íslenzkukennslu hér, til að leiðrétta margt, sem Guðbrandur vann okkur verst, meðal enskra manna, ekki einungis fyrir hans Kelta-kjass, heldur fyrir hans bókmennta hindurvitni. Hann vann okkur bæði gagn og bölvun. Nordal er líklegastur til að reka þann þvætting um þvert bak, þar sem helzt þarf við, hjá Englendingum og okkur sjálfum, og „Lestrarbók“ hans er aðdragandi að því. Hvað hún kostar, hefi ég hvergi séð, til mín er hún gjöf frá Nordal. Hún

mun vera um 20 arkir, og getur þú þá, ef til vill, gizkað nokkuð nærri. Pappír og prent allgott, en skrautlaust. Háskólasjóður heima styrkti útkomuna eitthvað. Svo er það mál búið í bráð.

Á ég að senda þér aftur sjálf-synda kvittanir Bardals og Finns? Ég gaf kunningja mínum heima, Ársæl bóksala, það sem eftir var hjá honum óselt af „Laginu“. Honum var það verðleysa í bráðina, nýkomið í síðari „Andvökum“ — en borga ætlaði hann samt. Væri ekki bezt að arfleiða einn mann og sama að allri „afrakstrar-hrúgunni“, sé eitthvað eftir hér og hann viljugur að þiggja? Annars býst ég við, að svarið ætti að vera: „Borgar ei fyrir bælið sitt á bóka-hillu ruslið þitt af rími illu!“

Heilsufar mitt: Nýlega lýsti ég því svo við dr. J. P. P., sem sífellt er að forvitnast um það, að ég vissi ekki betur, en ég væri á batavegi — á seinagangi. Alltaf á fótum uppi og vinn eitthvað á hverjum degi, t. d. hreykti og marg-viðraði kornbindin, sem regnið húðvætti jafnóðum, og er enn svína- og nauta-hirðir. Þykist góður af að vera ekki öllu til ógagns.

Apótekin ögn ég styð,
Ólund mína að lina.
En heilsunni minni halda við
Hugir góðra vina.

Held stundum, að mestu valdi um gömul bilun, og slit, en síður nein „bráðapest“, og ráðum ykkar skal ég hlýða, ef ég held, að í „illt ætli að fara“. J. P. P. vill ég geri það, sem þú stakkst upp á, komi til Winnipeg í „Þjóðræknina“. Nú, hver veit! Bæja-göngull er ég ekki né rápsamur, og ferðahugur fjaraðri en var — en: „Eins mig fýsir alltaf þó, aftur að fara í göngur“. Eiginlega er ég að verða óþarfur, aðrir verða nú nógir til að erta vonda veröld, þó mín missi við — svo er fyrir að þakka.

Jú, náttúrlegt! Þetta hlaut að ske „að Lögbergi“, svo ritningarnar uppfylltust, t. d. Ingimararnir tólf í himnaríki, allir eins á litinn, í sögu Salómear sænsku —: Selmu Lagerlöf. Því: Skorti um eitthvert bráða-bil blaðamyrkurs þjóna, æ mun Lögberg leggja til Lárusa og Jóna.

Já, ég sá út úr þér, þegar þú fórst héðan seinast, að þú

varst ekki alls-glaður yfir komunni, og vissi hvað olli, en úr hefir rætzt. Kristinn er furðu brattur, svo að oft myndi jafnvel kunnugur ekkert eftir því taka, að honum hefði neitt brugðið, er alltaf uppi, og jafnvel tekur til handargagns, og ekkert áfall fengið. Ég hefi ávallt haldið, að af honum myndi „rjátla“ nokkuð. Drengur Jóns varð fljótt jafngóður. Það fór sem Scott læknir gat til, enginn uppskurður þarflegur, að minnsta kosti enn, þó þetta, sem að honum gekk, hafi kunnað að vera einhver botnlangabylur. Þetta er eins og Ian Macklaren sagði í sögu sinni einni um Skotana sína: Það má talsvert treysta íslenzka skrokknum, eins og „The Scotch constitution“, í Frú Ian's.

Ég hefi verið svo utan við sjálfan mig í sumar og haust, að ég hefi varla rímað nema ferhyrninga, í bréfum til kunningja minna, við og við. Nýlega fór ég að reyna, hvort ég hefði týnt öllu niður, eins og ég les stundum Norðurlandamálin, ef ég næ í blaðræfil, bara til að vita, hvað ég kunni enn. Finnst skömm að týna niður, af því sem lítið var. Svo finnst mér það heilsumark, að fara með höfuðstafi! Árangurinn legg ég hér með, og máttu ljá „Kringlu“ hann, ef þér sýnist svo.

„Punkt“ ég set, og kveð með koss!
Kost þann met við hæfi.
Margir vetrar voru oss
Vonum betri um æfi.

Gleðilegar hátíðir! og góðæri þér og þínum.

Vinsamlega Stephan.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 29. nóv. 1925.

Góðvinur. — Ég hefi bæði fengið bókina með skilum og bréfið þitt síðasta, og litið yfir síðasta „Hnausinn“, sem þú lagðir í byggingu „ferðasögunnar“ — en með „púkann“ fer líkl. eins og fór fyrir piltinum, sem hnýstist í galdrakver Vogsósa-Eiríks okkar: sandurinn, sem hann var á ferð um, fylltist af púkum, sem hneigðu sig og tóku ofan og spurðu í sífellu: „Hvað á að gera? Hvað á að gera?“ „Flétta reipi úr sandinum,“ svaraði hann. Það gekk nú skrykkjótt, og blaða-púkar okkar hafa þó varla verkavit á við árana hans Eiríks sáluga, en vel var það gert af

þér samt að „koma þeim fyrir“ á sandinum um tíma. — En heyrðu, sendi ég þér ekki með „Láru“ leikrit Jóns heitins Thoroddsens (yngra)? Mig hálf-minnir það — eða er kannske í rusli mínu, í felum. Annars — já, kom þá ekki „Magdalena“ Jóns upp í „fangið á mér“ úr einu hólfinu í ruslakistu minni! rétt þegar ég nefndi hana, „aldeilis að óvöru“. Afsakaðu! En eru þetta að verða „andleg fyrirbrigði“, sökum þess að þú rótaðir við „púkanum“? og allt vit og aðgæzla að verða prentvilla! Hefir þú séð „Magdalenu“? Á ég að senda þér hana? Hefir þú séð „skólaskýrslur“ Akureyrar-skóla eftir Sigurð „magister“ Guðmundsson, ræðurnar hans yfir „kóðinu“, sem hann kennir. Þær eru óvenjur, en afbragð, í sinni röð.

Þakka þér fyrir, hve vel og maklega þú minnist á „tunguna“ okkar, einkanlega eftir fréttina frá Hnausum, að dætur Guttorms okkar töluðu heldur *annað mál* en það, sem frægir föður þeirra mest, jafnvel þó það væri (það mál sem það ekki er) þeirra „móðurmál“! Það er ein syndin sú, sem seinni tíðin verður að iðrast sárt fyrir, jafn almenn eins og hún er. Við Vestmenn eldri höfum sumir „viljann til ins góða“, en förlast í að „framkvæma“ réttlætið! Það er nú eitt með Sigurð minn (með öðru fleira): maður *les málbragð* hans sér til sálubótar. Svo snjöll er íslenzkan heima orðin, að jafnvel þér og mér gelur hún „góða galdra“. Þú þarft ekki þér að kvíða, þrátt fyrir allt, sem við skal stríða: á engu er eins létt að hitta óskastundina sem á „englatungu“, þeim, sem hefir „eyru til að heyra“, og það hefir þú. „Seraf *lægsti* sig má vara“ o. s. frv. er ekki það hrós, sem við höldum, af því Jón gamli Þorláksson orti á *íslenzku*. Höfuð-„Serafarnir“ sjálfir hafa mátt „vara“ sig á karli, ef mig grunar rétt! Og mátti, og má þó sjálfur Jón „vara“ sig á æðimörgum Íslendingum, fyrr og nú.

Í dag er sunnudagsveður:

Veður er vænt, þó grenið eitt sé grænt —
Blíðviðri lund mína betrar!
Fyrir fegurð þá,
Sem að öllu er á
Utan við minn skjá,
Eitthvað óséð að fá,
Ef ætti eg þá:

Sérhver sá,
Sem í brall það byði mér, á baukinn skyldi fá!
Ég sel ei sæluna þá:
Sveit mína að sjá,
Sólheim ins snjóhvíta vetrar! —

Séra R. stakk upp á sama og þú í sumar, að ég „þjóðræknaði“ mig í marz. Kannske! Vel er mér við Björgvin — en, þekki ekki „Cantata“ frá „Sonata“, né „Jazz“ frá „Sankey“ sálmalagi.

Skjögtið er að heimta hér,
Ég hætti nú að skrifa þér, —
Og fræðadísir fussa að mér:
Fjósalykt mín „koddi“ sér!

Megi þeir, sem þér kynnast, eiga þér gott að gjalda! eins og ég —

Vinsaml. Stephan.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 2. des. 1925.

Grímur minn góður. — Ég hripa þér til að láta þig vita, að ég sendi með þessum miða kver, sem kallað er „Bréf til Láru“. Ég held þér þyki gaman að lesa þær firrur og fallega-sagt, út um allt og sitt úr hverri átt, líkt og galsa Gröndals, en klúrari, og meira spakmæli með köflum. Skræðan er nýkomin úr láni austan úr Saskatchewan, annars hefði ég sent þér hana fyrr. Ekki nenni ég að spyrja þig fyrst, hvort þú hafir séð þetta undur, en svo kann það nú að vera, en verður samt enginn stór-skaði skeður. Svo þakka ég blöð og bréf þín. Lítil eru þó tíðindi að telja og fæ ég þó bréf nærri úr öllum áttum, en þau eru venjulega um það eitthvað, sem við gætum „rabbað um“, ef við sætum saman, en sem síður verður sagt upp aftur á annan hátt en að sýna. Séra Kvaran fer heim í marz, skemmtiferð. Séra Rögnv. gegnir starfi hans á meðan. „Conservativsku“ hluthafarnir (Sv. Thorwaldsson og hans nótar) eru óánægðir með Sigfús sem ritstjóra, (er of sanngjarn og ótemjandi) þó enn hafi ekki tekizt að bola honum út. Getur skeð hann komi hingað vestur, áður öll nótt er úti. Langar til þess, en á örðugt með — félítill. Sigurð Nordal þurfum við að fá út í fyrirlestrar-

ferð hingað vestur, ef unnt væri, bæði yfir höfuðmótum háskólanna ensku hér, og „tanglum“ landans. S. N. er skarpastur bókmenntamaður okkar, sem nú er uppi og eitthvað liggur eftir, og íslenzkastur allra, og lætur hvergi af okkur stela, hvorki Norðmenn né Englendinga í hróksvaldi Guðbrandar heitins Vigfússonar. Nordal hefir haldið fyrirlestra um ísl. bókmenntir við háskóla Norðurlanda í sumar, og Sigfús Blöndal um sama efni á Hollandi í haust, fengi hann lausn til frá bókavarðar-starfi sínu í Höfn.

Haust-tíðin hér var frámunalega örðug, en nú aftur á hinn bóginn inndæl. Allt hirtist á endanum, en er flest spjallað, en að vöxtum víða ekki lítið. Við höfum fengið um 5000 „bushel“, alls, það er að segja Kobbi og ég. Moor, tengdasonur Mörkebergs, slasaðist nýl. Varð undir og milli 12 hesta trossu, sem hann keyrði fyrir 3 vögnum hlesstum. Fatlaðist á báðum fótum, annar þeirra loks skorinn af honum í fyrradag, eftir þó að draga það eins lengi og unnt þótti. Liggur á hospítalinu, síðan að slysið varð, og óséð um, hvernig af reiðir.

Senn eru komin hættu-höld
Hér, að fara að sofa —
Kem samt eitthvert annað kvöld,
Ef að kýrnar lofa.

Alla næsta árs um slóð,
Með ánægjurnar sínar,
Séu heill og heilsa góð
Húsmæðurnar þínar.

Vinsaml. Stephan.

Annað í efni. Líkl. kemur innan skamms á markaðinn „Saga Dak. Ísl.“ Thorstínu Jackson. Hún hefir kostað „Stínu“ mikla fyrirhöfn og fé, en stúlkan fátæk. Af bókinni er vel látið af þeim, sem til vissu, t. d. Jón frændi. Að mig minnir er skruddunni lýst svo: 300 bls. Æfiatriði 400 landnema, þriðjungur sjálf-frásagnir. 200 myndir. Tveir formálar, höfundarins og Vilh. Stefánssonar. Afstöðu-uppdráttur ísl. landnámsins. Fyrsta býlið í Dak. (Jóh. Hallssonar). Litmynd dregin af Emil Walters. Bókin kostar dollara 2.50.

Stína hefir spurzt fyrir um útsölu hér. Ég vildi hlynna að, ef ég gæti. Er að leggja drögur fyrir það. Bókin um mína gömlu byggð, og margra hér, og orðin til fyrir ræktarsemi að ljúka við starf, sem faðir stúlkunnar féll frá. Kostnaður mikill af vanefnum, t. d. myndamótin („plates") eina 800 dollara. Viltu ekki taka að þér að bjóða Calgary-Ísl. bókina? Láttu mig vita, hvort þú treystist til. Ég hugsa þetta sem svo: Fá sent sýnishorn, þegar bókin er búin, bjóða hana svo og selja á áskrift einungis, svo ekki þurfi að gizka og flækja fleirum en sala er fyrir, eins og oftast fer. Fái ég undirtektir þeirra, sem ég leita til, skrifa ég „frúnni" um það og bið fyrst um „próf-eintök" 3 eða 4. Sendi þér svo eitt til yfirsýnar — verði af þessu.

Þinn S.G.

*Jóhannes P. Pálsson.* 11. des. 1925.

*Lumbago.*

I. Sér hvernig hagi heilsan mín,
Ég hripa þetta „Bulletin".
Nú ligg ég inni í „lenda-gigt",
Svo lokið er mitt úti-„fikt".
En fyrri daga minjum minni,
Mig mátar hún í fjórða sinni.
Og misst hef ég — með móti hröðu —
Af minni fjósakarla-„stöðu".

II. Mér svíður ennþá sárt af orðum,
Sem sagði lagleg stúlka forðum:
„Þú hefir lýti líkams-gerðar,
Ert lúalegur ögn á herðar"!
Til hennar nam í skopi skjóta:
Þú skalt samt aldrei hrygg minn brjóta!
En oft, að vísu, var hann slakur.
Samt varð ég aldrei „kroppin-bakur".

III. Ég missti fegurð. Fyrrum bjartur.
Og flestir „þrælar" nefndust: Svartur.

IV. Á lengri skýrslu þig ei þreyti!
Er þvælan sama, að öðru leyti!

Svo hér sé endi á illu riti,
Fyrst ekkert get ég sagt „af viti“.
Af mínum garna og gigtar-„klápi“,
Mun geigur í sjálfum „Eskúlápi“.
Stephan G— í flaustri.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 15. des. 1925.

Væri ég, góði vinur minn,
Valdur þinna kjara:
Betur en vana-veröldin
Vildi ég með þig fara!

En það sér nú líka á, eða hitt þó heldur, að hafa ekki drattazt til að leysa eitthvað úr því, sem þú spurðir um í síðasta bréfi þínu, fyrr en nú. Annað áttir þú þó skilið. En það er nú bæði, að hér er ekki „feitan gölt að flá“ með fjölkosti atvinnuveganna, og hitt, að varla mun „til manns að moka“, þar sem ég er með kaupsýslu-útsjónina. Þó skal ég nú rugla, það sem mér hefir í hug flogið, sem reyndar er sama og ekki neitt. Fyrst datt mér í hug gamalt gistihús á Markerville, sem hér hefir þó hangt uppi mörg ár. Innlend hjón byggðu það, sem síðar urðu í ýmsum tengdum við Ísl. hér. Gróða-fyrirtæki var það víst aldrei, en dálítil umferð þó við og við og margar samkomur á Markerville. Hesthús fylgdi þá, sem nú mun allténd autt vera, síðan allir ferðast „bifríðandi“. Eigandinn er dáinn fyrir nokkru. Ekkja hans býr vestur á Strönd. Hefir leigt húsið. Nú síðustu ár innlendri „ekkju“ *lifandi manns* hér úr nágrenninu, heldur myndar kerling. Sú hefir fleytt sér og dóttur sinni fram að þessu, ég held nógu vel. Leigu-tími var úti nýlega, og nú keypti hún „innið“ fyrir fáum dögum að hinni, svo farið er það, og varla var farandi í kappboð við hvoruga, eins og á stóð. Ef til vill var þetta reynandi helzt, hefðir þú haft vilja og kringumstæður til. Þá er póstflutningurinn milli Markerville og Innisfail, 12 mílur kallaðar, daglega, nema sunnudaga, samið við stjórnina, tilboðs vinna, illa borguð að sagt er, en allmikill aukaflutningur fyrir búðirnar tvær og ýmsa, flutnings-vél (truck) notuð. Þá sýslu hef-

ir nú tengdasonur Jóns heit. Benediktssonar (sem C. P. R. drap í Calgary næstl. sumar), innlendur maður. Nú tók sá við búðarstörfum Jóns heitins, en bróðir hans gerðist Öku-Þór, þeir eru hérlendir. Heyrt hefi ég, að húsbóndinn hér þykist ekki græða nóg, enda var haustið afleitt með illfæra vegi. Hitt var víst, sá sem á undan honum var við þetta, og sem þessi keypti að hús og úthald allt, gerði hér full-vel. Fór héðan nauðugur sökum heilsulausrar konu sinnar. Hitt veit ég ekki, hvort þessi iðn muni „til sals", og varla fyndist mér þú fær um hana. Smérgerðarbú, sem bændur hér eiga en leigja dönskum manni, er á Markerville, og sala fyrir rjóma sífelld, þó borgun þyki oft of lág, eins og gengur. Landið, sem bæjarholan stendur á, utan hana, mun til kaups, um 120 ekrur, með plægðum blettum og Medicineánni sem „miðjarðar línu" þess. Veð mun á vera. Eigandinn austur í Manitoba. Leigu-liði á kotinu. Ólíklegur til að kaupa.Húsakynni nokkur, en gömul og ekki góð. Heyrt hefi ég, að „slotið" fengist máske fyrir kringum $1,500.00. Væri kannske ekki óhentugur staður fyrir kúa-bú, lítið, fengist meira land til viðbótar á einhvern hátt, t. d. væri, ef til vill, hesthúsið við gistihúsið (sem ég gat um) fáanlegt fyrir lítið, sé það ekki of af sér gengið, en um það veit ég ekki, hæft fyrir kúa-fjós, það sem það næði, mætti mjalta svo að segja undir veggnum á smérgerðinni („Creamery"-inu). Um mílu norður frá Markerville mun land til sölu. Bóndinn nýlega dáinn. Ekkja og börn (burt flutt nú) myndu eiga. Annars var það C. P. R. land, keypt á langan gjaldfrest og eitthvað borgað. Húsakynni nýleg og sögð allgóð. Eigandinn var sjálfur smiður, 60 ekrur plægðar (þ. e. „brotnar") eða meira kannske. Heyrt hefi ég, að ekkjan telji til $4,000.00 fyrir „býgarðinn" — en ekki er það að marka. Leigt er þetta land, en líkl. ekki nema árlangt um sinn. — Húskofi er til sölu á Markerville (ekkjueign enn, sem nýl. missti karl sinn þar). Ég held, að hún kalli sína virðingu á því bæjarbóli vera $550.00.

Markerville er: 2 verzlanir og pósthús, gistihúsið, járnsmiðja, smérgerðin og ballskák ein. Ein kirkja notuð meira til jarðarfara en messugerðar. Eitt samkomuhús, nefnt „holið", sem oft er meira en uppfyllt. Þetta læt ég þá duga,

enda ekki meira til í bráð, um þetta efni, en viljir þú vita nákvæmara um eitthvað af þessu, sem ég gæti þá úr leyst, þá — spurðu mig úr spjörum! Og eins hlaupi eitthvað „á snæri hugar míns", sem ég gæti sagt þér, og í þessa átt lægi, skal ég gera það. En ekki býst ég við því, að það kraftaverk komi fyrir. — Haustið mátti heita albríma úrfelli, en veturinn fram á þennan dag óvenju blíða og snjóleysur. Á endanum varð allt korn þreskt, sem þreskt verður, skemmt en viða-mikið að mæla-tali, en lágt í verði, sökum haust-skemmda.

Kristinn mágur minn (en við höfum verið næstu nágrannar, hvar sem við höfum dvalið, svo að segja allan okkar Ameríku-aldur) hefir verið lasinn í sumar. Fékk þá einhverja tegund líkl. af því, sem læknar kalla „heila blóðfall" (Blood Pressure). Skánaði aftur, en fékk sama áfelli aftur í fyrra dag, lifir og ekki lakari, en óséð enn, hvernig úr raknar. Hann er aðeins fáum mánuðum yngri en ég. Ég hefi lítið sem ekkert aðhafzt nú í nokkra daga. Fékk lendagigt ofan á mína gömlu ógerð. Var vinnuslæptur. Er hressari aftur.

Jólin fögnuð flytji
Og farsæld þér,
Heimboð hjá þér sitji
Heilla-dís hver —

óskar S. G.

*Jón Jónsson yngri.* Markerville, Alta, 27. des. 1925.

Góði frændi. — Bréfið frá þér 20. þ. m. er fyrir nokkru heimkomið. Að ég ekki gat þess fyrr við þig kom af því, að þú gazt þar um böggul, sem Guðbjörg hefði sent, og vildi ég ekki skrifa þér, fyrr en ég gæti eitthvað af honum sagt. Bjóst ef til vildi við tollhúss-töf. Nú hafnaði hann sig hér, heilu og höldnu í gærkveldi. Kvenfólkið mun eflaust geta hans betur síðar. En beztu þökk fyrir bréf þitt og sendinguna. En, þó ég segi eins og „Bíldur" komst að orði í bréfi til mín, um leið og hann bað mig að senda *sér* nokkra dali fyrir kveðlinga KN, sem ég seldi hér, „að allténd er þörf fyrir peninga", þá áttir *þú* ekki að vera að senda *mér* peninga, ég á að grafa þá upp annars stað-

ar, þegar „þörfin" kallar, þó enginn mannprýði væri í þeim „látalátum" að þykjast ekki gleðjast við jafnvel ofvel gert við mann — og hafðu svo sæll gert.

Dauflegra fannst mér inni — en lengi var gróðrarveðrið gott samt, eftir að þið kvödduð okkur hér, og vel gekk kornskurður. En í ágúst tók steininn úr með votviðri, síðara hluta hans, og það veður hélzt á haust fram, svo að segja til vetur-nátta. Slíks úrfellis minnist ég ekki áður. Allir gengu síðbrýndir og kornið spíraði og grotnaði í drýlunum. Ég sneri og sneri bindum aftur í hverju upprofi; þó ekki kæmi að nægu haldi, hugga ég mig við, að ennþá var ég ekki alveg „tagl-tækur", þó aldrei væri til annars en ef vera skyldi, að veður-völdunum væri stríð í því. Ef ég bölvaði, bölvaði ég í hljóði og bara þumbaðist. En þreyttur fannst mér ég oft verða og hefir alla tíð fundizt það bæði þyngra vask og óánægjulegra að snúa votum bindum en að hreykja þeim nýslegnum, og það gerði ég nú líka, sem ég hafði þrek og tíma til, því þó við leigðum lengst af mann í uppskeru, hefði enginn einn haft undan slætti, því akrar hér voru flestir allvel sprottnir. Aldrei ætlaði að verða þreski-fært. Þó tókst það um síðir, í þremur atrennum og með löngu millibili, og með hálfum hug, að allt myndi orna í kornbyðunum, en slapp þó þar að mestu skemmdalaust, að öðru en því, sem á ökrum varð. Í fáeinum bush. af hveiti ylnaði þó, en urðu samt gott svinafóður. Um kornverð get ég ekkert ákveðið sagt, það sem okkur áhrærir. Þeir Kobbi og Baldur lögðu saman í eina járnbrautarvagnshleðslu, um 1000 bush., og sendu „samsölunni" (The Wheat Pool), sem við erum allir í. Verðið vitum við ekki að fullu, fyrr en „bækurnar verða opnaðar", líkl. í endalok ágústs; þangað til verður smáborgað eftir ástæðum. en mest þó við móttöku strax. Við fengum 3ja flokk, rakan (þ. e. 3rd class, damp). Verður því að fara á þerriloft í þurrk-hlöðu, sem kostar, að mig minnir, 5c. á „bushelið". Þetta þykir nú hér einhver skásta útreið. Flest hveiti hér um slóðir í lægri flokkum og allt víst „damp" eða „tough". Við Jakob fengum um 1000 bush. af hveiti. Um 800 af byggi. Um 3400 af höfrum. Eigum allmikið fóður í óþresktum höfrum, þess utan. Höfðum um 150 ekrur undir korni.

Spretta var heldur lakari hjá Baldri. Hann fékk af hveiti um 250 bush. Af byggi um 800, af höfrum 2000, og nokkuð á hann í bindum. Hafði undir korni eitthvað yfir 100 ekrur. Við seldum 8 nautgripi, flest tvævetlinga. Sjálfur átti ég einn uxa, hátt á 3ja ári. Fyrir hann fékk ég $46.00 Hann komst hæst. Hitt hefir farið nálægt $25.00 hvert höfuð. Baldur seldi um 20 gripi unga, sem líklega fóru að meðaltali líkt og Jakobs. Þá er fram talið það, sem enn er selt. Óvíst hversu fer um hafra. Þeir hafa verið lágir að þessu. Bleytu um kennt, og ekki í samlögum seldir enn, þetta ár, hér í Alberta. Eitt æki af byggi höfum við selt, fyrir 43 „cents“ bushelið. Brúkum hitt líkl. sjálfir. Okkar svín eru óseld enn og sum of smá, sökum lélegs fóðurs í sumar. Sum furðu góð. Gyltunum báðum urðum við að farga. Önnur lagðist á hænsnin, hin á hvolpa sína nýgotna. Fyrir mína fékk ég liðuga $35.00, vó á fimmta hundrað. Jakob fékk svipað fyrir sína. Um „kalkúnu“-„Turkey“-búskapinn skrifa stúlkur sjálfsagt. Þær eru honum kunnugastar. Árið sem leið hefi ég borgað um $125.00 í allan skatt og í peningum, af mínum löndum einum. En hvað um gildir, svo er árferðið alls, að sá má heita meðal galdramaður, sem aðeins hangir á horriminni, svo hann dettur ekki af henni, og meðan svo gengur, ærist ég ekki yfir að vera einn í þeirra tölu, er jafnvel „montinn“ af að halda við þjóð og landi að mínum hluta — og fyrirgefðu þessa fjárhags-fjölmælgi, — því aldrei er ég skemmtilegur og sízt í henni. Í haust hjálpaði ég sem ég gat við uppskeru. Tók svo við fjósi með um 20 gripum í að hirða, og svínin að seðja. Oft var ég utan við mig, þó uppi hengi ég þangað til nú fyrir 2—3 vikum, að ég „lagði mig inn í hús“ yfirkominn, en ekki fárveikur, og finn, að ég hefi fjörgazt síðan — fæst oftast bara við eldivið, nema í nauðir reki, og held því áfram í vetur, ef ég ræð við. Tíð í vetur hefir verið framúrskarand góð, alveg einstök síðan upp stytti. Fyrst í fyrradag fauk svo, að sleðafæri fæst, ef fönn sú liggur nokkuð. Í dag stytti upp, í þetta sinn. Mér líður sjálfum vel, eftir ástæðum, að vísu er ýmis „linka í mér“, sem von væri. Hefi sífellt meira að skrifa og bréfum að svara en ég kemst að, þó ég hafi sinnu og nenningu á, sem ekki er

æfinlega — og meira að lesa en ég kemst yfir, því líður mér vel, á meðan. Bókagjafir fæ ég svo að segja úr öllum áttum, mest að heiman, oft frá mönnum, sem ég hefi aldrei séð, né skipzt á orði við áður, t. d. bækur frá þeim „doktorunum" Sigurði Nordal og Páli Eggert Ólasyni, auk annarra, sem ég hefi séð í svip. Ég skil, að það eru ánægjuóskir góðra drengja í minn garð, en er ekki að segja þér þetta í því skyni, að ég telji mig með „spámönnunum" sökum þess. Ég veit, að þú annt mér þess svo vel, að þér verður óleitt, að ég get um það.

Að öðru leyti er: „Everything quiet on the Potomac," eins og þið „Yankees" höfðuð forðum að orðtaki.

Ekki vill Kristinn verða vel til heilsu aftur. Að vísu skánaði hann svo í sumar seint, að hann rólaði úti við og rétti hönd að viðvikum. Svo fékk hann annað áfelli, nú um mánaðamót síðustu, varla eins hastarlegt og ið fyrra, að mér sýndist, en síðan er hann lakari en hann var áður. Lauga á örðuga æfi, þreytt af veikinda-stríði og barnamissi og útslitin, þó hún kvarti ekki.

Nú er ykkur óhætt að koma að sumri. Þið fáið eitthvað sem á að vera tígulegra en „Ford" til að þeysa í til næsta bæjar. Jakob skipti honum í sumar fyrir „Dodge", nýlegan, sem kostaði $700.00, en gamli „Ford" fór $150.00 upp í það. Svo fékk Kobbi sér síðar nýtízku tjald yfir farið. með gluggum í allar áttir, nema upp til himins, og ekki er gler í gólfinu heldur! Svo ekki er slorlegt, nema brautirnar séu forugar. Sumum finnst eflaust, að ekki ætti að vera ofverk mönnum, sem komnir eru á okkar aldur, að vera á sífelldum faralds-fæti, t. d. vilja sumir vinir mínir eystra, að ég komi til Winnipeg, þegar að vori líður, og sjá þeir þar mér fyrir fylgdarmanni og fargjaldi. Það er mikil hæfa í því með mig, ég ætti að [vera] orðinn ofaukningur hvort sem er, hvar sem manntaks þarf með, en miklu skemmtilegra finnst mér þó, að aðrir komi, en ég megi sitja kyrr. Svona er að vera afbrigðalatur. Annars eru þeir, sem upp á þessu stinga, að hugsa um heilsufar mitt, búast við, að Winnipeg hafi betri „græðurum" á að skipa en Markerville, og ég rengi það heldur ekki, en hvaða meðöl ætli að dugi við minni leti? Á

hinn bóginn er ég þó enn næstum til í allt, nema að verða aftur „fyrir-hafnar barn“.

Í sumar skrifaði ég Hall langt bréf. Síðan hefir hann ekki látið á sér bæra, orðið víst skelkaður við, að ef hann svaraði, yrði það til þess, að hann fengi frá mér aftur aðra eins dembu, eða verri, og ekki viljað eiga það á hættu. Samt bið ég vinsamlega að heilsa honum, og skyldi gefa honum góðæri komandi, ef ég orkaði, ekki síður en Sigurður Júl., væri hann „guð um jólin“.

Jæja, Jonni minn, heilsaðu Guddu þinni frá mér, og reyndar öllu því, sem eftir er í hreiðrinu, og með þig og mig er það svona:

Við hjörum á eggjum og áfum,
Þó ístru við tæplega fáum.
Við strekkjum með stigunum smáum,
Við staulumst eins langt og við náum.

Fyrirgefðu — ég skrifa nú orðið eins fljótt og bölvanlega eins og skólapiltur, sem hvorki hefir ritvél né kann hraðhönd, en þarf að hripa upp fyrirlestur fljótmælts kennara síns, því það hefi ég séð krummasporum líkast, annað en mína eigin-skrift nú á dögum, en svo er það ið eina, sem ég er tveggjamanna-maki í, þeirra, sem seinhendastir eru.

Inn í aðkomu-árið,
Úr árinu sem fer,
Það allt, sem þér varð áhent
Til unaðs, fylgi þér.

Þinn Stebbi.

P.S.

Mjöllina gljáa geisla-brá
Glóir á og skín um.
Fjöllin háu tylla á tá
tindum bláu sínum!

*Sig. Jónsson frá Víðimýri.* Markerv., Alta, 5. jan. 1926.

Kynni ég lag á efldum orðum:
Eg í bragar-laun þér kvæði,
Eins og í Skaga-firði forðum,
Fjöruga daga og æsku-gæði.

Gleðilegt ár er þó ósk mín, og þökk fyrir allt ið umliðna og bréfið í gær komna. Oft hefi ég ætlað og ætlað ýmist að koma eða „klóra þér“, en aldrei komizt lengra en það að hugsa til þín. Hefi oft verið dálítið óhraustur og utan við mig, og þá verður maður sérhlífinn, einkum sá, sem er að eðlisfari kyrrsetull, eins og ég. Svo er ég sífellt að svara bréfum einhverra, og safnast þó fyrir. Fram í miðjan næstl. mán. var ég við verk, en varð þá að hætta og setjast fyrir. Ég hefi frískazt við iðjuleysið, og alltaf hefi ég gert hvað ég gat úti við, á akri í allt haust, því aldrei var hlé á að hreykja og snúa bindum, milli húðarigninga. Ég varð þreyttur, er víst orðinn húðarhestur. En, skrattinn hafi það samt! Við erum búnir að vinna fyrir því fyrir fram að mega vera ómagar á áttræðis-aldri, jafnvel að liggja við hlóðarsteininn, eins og Egill, hvað sem griðkum verður um.

Kristinn er enn ekki álitlegur til bráðs bata. Hefir fengið tvö áfelli nú nýlega, söm og ið fyrsta. Klæðist þó oftast. Getur jafnvel spaugað, með köflum, og talað af ráði. Minni þó bilað og eftirtekt, og „slær út í“ við og við. Auðvitað kann hann enn að ná sér nokkuð, ef köstin létu hann í friði um langan tíma. Að honum gengur líklega mest þetta aldraðra manna mein: æðastíflur í heila, þó enn hafi tæplega orðið úr verulegt heilablóðfall, sem sé: *slag*. Ég geng yfir um marga daga, nú síðan hann varð verri aftur, og við getum þó sagt ýmsa alvöruleysu enn og brosað að. Kvef og kverkasæri hefir verið stinga sér niður hér um slóðir, en ekki illkynjað þó. Hátíðahöldin eiga, ef til vill, sinn þátt í því, þó tíðin sé afbragð. Rósa er hálflasin af þessu, nú nokkra daga. Svona eru þá heimilishagir heilsunnar, en um kaupskap og kornverð, bikkjur og bifreiðar, skrifa ég ekki, né dansa og giftinga-vonir. Unga fólkið hefir einkarétt á því, og kerlingarnar, og „kvæða-þjófur“ vil ég ekki viljandi vera. Jú, Lögberg ætlar víst að ávinna sér „Fálka-orðuna“ fyrir „valmennsku“ sína við íslenzkar ferhendur, og líklega „Sokkabands-orðuna“ fyrir vísindamennsku og fagur-fræði, enda er nú sá Svarfaðardalur vel setinn, þar sem Finnur Jónsson og Sigbjörnsson „Prestlamb” eru nú loks orðnir meðritstjórar, opinberlega, á skrifstofu þess, Pétur „adventisti“ aðal-

„theologus“ og sálmaskáld þess, og „Lalli“ og Jón Einarsson ráðgjafar og ritdómarar: „Jafnir að vörn, sem ég sjálfur, Jötun-Björn og Finn-Álfur,“ má „Bíldur“ kveða.

Já, víst væri það gaman, gætir þú komizt til að koma og gista nokkrar nætur. Nóg væri til að minnast á, sem hvorki er tími né pappír til að „klóra upp“.

Bið að heilsa Sigríði — og vertu blessaður og sæll!

Þinn Stebbi.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 6. jan. 1926.

Gleðilegt ár góðvinur! — Hér koma þá „Örvar“ þínar aftur, eins og Gusisnautar á bogastreng Örvar-Odds, hvert sem þeim var stefnt. Ég beið með þær eftir blaðinu, til að skilja betur í, hve mikið „smér“ þeim virtist vanta í „strokkinn“, þarna í Winnipeg. Eins og ég hefi sagt þér áður ber ég ekkert skyn á annað en lítillega á ljóð, og því minna sem það er nýtízkulegra, mitt eina ráð er þá að hugsa mig niður í „pytti“ leikhússins og vita, hverju ég get fylgzt með og skilið, en hefi varla á leik *litið* um æfina og fáa lesið. Nú, mér fannst strax auðvelt að ímynda mér, að „vælið“ og „gargið“ væri í „skolleyrum“ þeirra, sem hamast að Huldu, en hún *ein* hefði „eyru til að heyra“ rétt, — að svo ætti að skilja það. Mér fannst þetta myndi svo auðvelt að sjá eða heyra, að ég sá ekkert „andróma“ í því við efni leiksins. Þannig greip þetta mig, við að lesa bréfin, og stóð eins í „mínu höfði“, eftir að ég hafði lesið leikinn. Hitt er annað mál: mig grunaði, að efnið væri ofviða einum þætti, stuttum, manni ef til vill vera „eindengt“ of inngangslaust ofan í „leikslok“, svo örðugra yrði að átta sig, einkum af því að útburðir eru illræmdir í alþýðutrúnni, og meðferð þín á þeim óvenjuleg, eins og hröfnum, sem þó eru í þjóðtrúnni „mannkosta“-fuglar, í öðru veifinu, spakvitrastir allra fugla, og „borga fyrir sig“. Þú og Hulda hafið ein heyrt enn barnið, „sem grætur“ í útburðinum og geldur þess eins, að hafa fæðzt, og svo hneykslumst við á „krunkinu“ og „vælinu“ — allir, nema Davíð Stefánsson í „Krummi er fuglinn minn!“ Önnur „kredda“ mín er, að leikrits-snið sé aðeins form, og aðalspurningin ekki, hvort hægt sé að „leika“ það, heldur fyrst

og fremst: er það *skáldskapur?* Heyrt hefi ég, að hvorki sé hægt að leika „Faust“ Goethesar né „Brand“ Ibsens. Sé svo, sannar það ímyndun mína um þetta, ef svo fer með „grænu trén“, afbragðs-„leikritin“, sem þykja. Ef til vill er það samt eðlilegt: af því „skáldið“ njóti sín bezt, þegar það fari frjálsast — fjötri sig engri venju. Séð hefi ég sagt, að Tolstoj heitinn hafi samið leikrit í ellefu þáttum, sem spáð hafi verið verstu útreið og ómögulegleika, sökum listreglu-brota, en þvert ofan í þá hrakspá hafi leikið verið, tekizt vel og orðið vinsælt. Annars er með leikrit sem annað, ekki nægir að það sé „afbragð“, skorti fólk sem skilur, hvað „afbragð“ er. Svo segi ég ekki fleira utan af minni „þekju“.

Jafntímis þessum miða ætla ég að senda þér „kverin“, sem ég gat um. Það eru „ræður“ Sigurðar úr skóla-stólnum, sem ég vildi sýna þér, fyrir tvennt, hvernig sá „meistari“ skilur og kennir, hvað „menntun“ sé, og reynir að innræta ungviðinu það, og svo hitt, sem enginn reynir að draga af honum: hann er „meistari“ í íslenzku. Þá er „María“ sæl „Magdalena“ Jóns heit. Thoroddsens ekki smámennaleikur, sjálfur Kristur og María og „hórkonan“ í einni og sömu persónu, rómverskir riddarar og hebreskir höfuðprestar, skríll og skörungar eru leikendur, og sviðið sjálf Jórsalaborg, allt í eftirmynd hátízkunnar, sem þú skilur svo miklu betur í en ég, og allt „fyrirgefið“, sem „elskar mikið“, eftir orðum Krists sjálfs. Annars dó Jón að „dagmálum“, og öllum sínum til mikils harms. Ég var honum ókunnugur, og var þó svo vikum skipti gestur á heimili hans. Ég hefi aldrei allra-gleðra verið, og ég hygg hann ekki heldur, þó varla hafi hann verið slíkur „þurradrumbur“ sem ég.

Nú að „ryðja“ reynt hef' mig,
En rýrari iðju ei þekki!
Allur styðji þokki þig!
„Þó við biðjum ekki.“

Vinsaml. Stephan.

[Jóhannes P. Pálsson]. Markerville, Alta, 10. jan. 1926.

Mér finnst, að heilsa mín fari skánandi, með dálitlum afturkippum, stund og stund.

Austur í hátíðahöldin kem ég líkl. ekki í þetta sinn, hvorki sökum neinnar fýlu, né að ég óttist, að ég myndi ekki slarka það „af“ sökum minnar „kvellisýki“. Ég hafði ásett mér að vera eins áreynslulaus í vetur og ég framast gæti — sjá hvort það væri ekki líka læknis-lyfið. Grunar sífellt, að nokkuð af „linkunni“, sem í mér er, sé erfiðis-slit gamals gaddhests — en, ef ég held, að *annað* kreppi að, læt ég ykkur vita — „kvaka“ til ykkar þá! Hitt er líka: ég er ýmislega vanbúinn til ferðalags, á margan hátt. — Þá er svo þetta, Kristinn mágur minn er nú svo kominn, að ekki sýnist annað liggja fyrir en aðeins eftirbiðin til þá og þegar. Hefir t. d. legið í móki og varla opnað augun né mælt orði í þrjá sólarhringa, eða svo. Lauga systir á örðugt með veikindi og missi sinna, bæði áður og enn, vesalingur, þó hún láti lítið á bera. Þau eru aðeins tvö á heimilinu (hún og Hannes sonur þeirra), sem á fótum eru. Ég veit, að ég get úr engu bætt, en hitt er: væri henni nokkur hugnun að að vita mig heldur nær sér en fjær, gæti ég illa yfirgefið hér, fyrr en fyrir endann á veiki Kristins væri séð. Þetta veit ég þú skilur, og segðu séra Rögnvaldi það svona, ef svo fer, að ég ekki skrifa honum í millitíð, og „berðu kveðju mína í bæinn.“

S. G.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 7. jan. 1926.

Góðvinur Grímur. — Af meðlögðu bréfi frá Jonna sér þú, hvert erindið er. Viltu nú gera svo vel að senda Jonna „Láru bréfin“? Ég held það verði „messufall“ á Garðar, ef ég geri þetta ekki: presturinn og forsöngvarinn farlamast annars. Fréttir get ég engar sagt í þetta sinn. Heilsa Kristins mjög bág. Fær „köst“ með stuttu millibili, sífellt. Vit og minni brjálað, en þekkir þó fólk. Sagt, að æðastíflur í höfði — High Blood Pressure — gangi að. Annars allt með kyrrum kjörum og veður inndælt. Mér hefir boðizt ferð vestur á Strönd og til „þjóðræknis“ í Wpg., á annarra kostnað. Fer þó hvergi. — Ætla að vita hvort mér ekki verður hollast „sérhlífni“ heima, eins og ég get við komið, og viðsjá við öllu ofurefli. Ég held ég sé alltaf heldur að hressast. Er á róli og rétti hönd. Oft kem ég til Kristins. Lauga systir á erfitt enn.

„Knapar“ fá frá kóngi sinn
Kross úr silfur-vöru —
En hann Jóhann, auminginn,
„Endapunkt“ úr tjöru.

Blöðin frá þér fæ ég alltaf. Beztu þökk, og blessaður og sæll! og fólk mitt biður að heilsa þér. Þinn Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 7. jan. 1926.
Góðvinur séra Rögnvaldur.

Allt gott eg þér léði,
Ef árinu ég réði.
En gangi þér flest að geði,
Til gleði!

og þökk fyrir bréfið síðasta og allt, sem ég á ykkur ólaunað, fyrr og síðar. Nýlega sendi ég ykkur Sigfúsi böggul af sérvizkum, án þess ég ætlaðist endilega til, að ykkur þætti það hæfur „nýársbiti“ blöðunum ykkar. Ég var allslaus, þegar þið fóruð að „manga til“ um eitthvað í þau, og skammaðist mín fyrir, en hélt ég væri að sýna ykkur eitthvað af „mannlegum metnaði“, með því að bjóða þetta þó, heldur en ekkert. Þið fyrirgefið fátækt mína. Ég legg hér með reikn. inna réttlátu, af því þú hélzt að það væri ef til vill betra að fá þá aftur í þínar hendur. Jú, þeir kynnu að yfirfara þá enn, til að skella á þig skuld, og ef ekki, má þó æfinlega brenna bókhaldið *„in effigie“*, eins og farið er með fræga menn.

Jú, mér var nú ekki ókunnugt um, hvernig þú kvaldir og píndir Hunford minn til að skrifa fyrir Tímaritið, nauðugan og vísvitandi vanfæran! en [hann] gat ekki fengig sig til að afsegja, sökum vináttu við þig. Í tvö eða kannske þrjú ár hefi ég heyrt þá sögu. Á hinn bóginn risu mínar eigin efasemdir og vantrú, og dróttuðu því að: Aumingja karlinn! Þetta eru hans venjulegu látalæti. Hann er sjálfur að fiska fyrir að fá að rita í Tímaritið — langar til að vinna sér nokkuð til frægðar, því satt að segja tókst honum vel með Landnámsþættina héðan (fyrir Óla Þorgeirs — nei, nei, ekki „bola“! heldur *son!)*, betur en flestum öðrum, að undanteknum „Sleðbrjót“ heitnum, þar sem

hann gat notið sín. Hunford hafði betri aðstöðuna, öllum kunnugur frá „upphafi veraldarinnar“ hér. — Nú, ég láði H. ekki metnaðar-löngun sína, ef ég annars gizkaði rétt á, þvert á móti, ég unni honum heppni — en, ég trúði tæplega á, að hann risi undir þessum hurðarás um öxl sér. Það er annað að rekja æfi-atriði næstu nágranna, jafnvel á allgóðu „annála“-máli og stíl, eða skilja áhrif bóka á menningu fólks, og Hunford er of gjarnt til að „mæla það, sem aðrir mæla“ aðeins, rekast í hleypidómum sem alvenju: segjum t. d. núna, það sem allir stagast á, „að kvenfólk ætti ekki skrift að læra, það skrifaði sér einungis til skammar“. Þetta kann að hafa verið satt sums staðar, en lygi er það á því litla svæði, sem ég var alinn upp á, sem sé Víðimýrarsókn og Seyluhreppi. Leiksystur mínar allar og fermingarsystur kunnu að „draga til stafs“, voru hvattar en ekki lattar til þess af sínum vanda-mönnum. Ég vissi dæmi þess, jafnvel um „niðursetur“, sem lentu á góðum heimilum. Yfir höfuð, þar sem drengir fengu tilsögn í skrift, voru telpurnar ekki settar hjá, svo langt sem mín kynni náðu til, og aldrei heyrði ég þá þetta „lögmál“ um skrift kvenna sér til „skammar“, en það ætlaði Hunford að „innsetja“ í ritgerð sína m. fl., og hefir ef til vill gert það, þrátt fyrir að ég mótmælti því undantekningarlaust, og með sömu rökum og hér eru sett. Á sumar bækurnar, sem þú nefnir, minntist ég, t. d.: Þorlákskver, riddarasögurnar og Péturspostillu, hversu hún hefði útrýmt postillu Vídalíns, sem einstaka maður hefði þó aldrei uppgefið, og það fyrir góðan skilning á kostum hennar. H. sá hjá mér Lestrarbók Nordals — eða eiginlega ég sýndi honum innganginn og hældi honum. Eftir það komst ég að, að í honum sat að tyggja þetta upp „að aldrei hefðu íslenzkar bókmenntir slitnað sundur“, sem hefir verið grilla sjálfs mín langa lengi — rám í það, sem ég gat ekki þó rökfært til gagns. Ég varaði H. við að endurtaka það, nema því aðeins, að hann sæi sér fært að færa ný auka-rök að ályktun Nordals, og þau eru til, einmitt á þessu sviði, að alþýðumenn lásu og skildu fornbókmenntirnar, jafnvel efni dróttkvæðra vísna, svo gamalt og flókið sem það mál er. Ég held, að umræður H. við mig hafi skipt augum, síðan *þú?* stakkst þessari skrúfu í koll hans. Ég var

viljugur að segja honum það sem ég gat, sem til lítils kom. Mest talaði hann um ártöl á útkomu bóka, sagði, að þú hefðir viljað fá þau. Ég sagði honum, að það myndi síður áríðandi í svona ritgerð, og varasamt, fáir gætu slíkt eftir minni, til þess þyrfti mikinn bókaforða, og sumar þeirra hefðu verið í fleiri útgáfu en einni — réði honum til að láta þig ársetja þær, því þú værir bókabirgur. Eftir að þú skrifaðir honum síðast, gat hann þess, að nú hefði hann litið yfir eftirrit sitt heima aftur og rekið sig á kórvillu í því, þá, að hafa *líkt einhverju við tvennt,* sem væri ið mesta axarskaft í stíl. Ég hélt það smámun, tvær tillíkingar kynni að þurfa, þar sem engin ein næði yfir allt í fyrirmyndinni, og auk þess kæmi þetta fyrir í slíkri bók sem sálmabókinni, og það gífurlegar: hlaðið líking ofan á líking, til að lýsa sama efni! Annars var það oft illt og broslegt, hefði nokkur hlýtt á, og æfinlega gaman, að mér þótti.

Ég held nú, að þú hafir hafið með þessu nýjan fróðleik hér vestra, ef þú gætir fengið framhald á og fleiri til að rita um, helzt sinn frá hverju landshorni. Héraðamenntun hefir verið misjöfn fyrir 70 árum. Heima hefir nýl. komizt rekspölur á þennan fróðleik, fyrir grein Jóns gamla fræðslustjóra, um hve allt hefði verið bágborið forðum! Líkl. verið svo í hans æskureit, en það veit ég, að hans „góðfiske í Garðinum", eins og Bjarni kvað, átti ekki alls staðar við, enda bar annar maður norðlenzkur það til baka, um sína sveit og sjálfsagt með sönnu. Þar að auk hefir Hallgrímur „sögumaður" gert ágætan samanburð, eftir föngum, um bókhneigingu Norðmanna og Ísl. á fyrri tíð, svo sem af skýrslum verður ráðið nú. Þetta mál er býsna merkilegt, náist það rakið niður í kjöl, og við þurfum að hirða hverja fjöður ísl., sem okkur hefir ekki miður farið en öðrum mönnum. Hinar hafa, hingað til, séð um sig.

Eitt má ég minnast á: fari svo, að þú látir prenta „Metnað" minn einhvers staðar, verður vel að líta eftir prenturum og öðrum „villumönnum". Sérvizka mín, að minnsta kosti, er ekki enn í kör komin. Ég gerði grillu í handritinu, ritaði þennan „blending" ljóðs og lauss máls þannig, að í línum á að lesast, *en ekki dálkum,* eins og venjan er,

t. d. fornyrða-lag, sem þetta „viðrini“ mitt líkist helzt. Aðeins er eyða í línuna, lítil, milli „hljóðstafa“: sem sé, milli „stuðla“ og „höfuðstafs“, sett í því skyni að létta fyrir réttum lestri, svo allt bögglist ekki upp fyrir óvönum við slíkt mál, eins og hætt er við, sé allt ritað í jöfnum lesmáls línum. Annars rita sumir „Norðlendingar“, aðrir en Ísl., fornyrða-lag með þessum hætti, og finnst mér, að vel fari á. Og svo ekki meira um það.

Ég „resignaði“ allri úti-vinnu um miðjan mán. síðast liðinn. Mátti til, stóðst ekki mátið lengur. Ég er að sjá, hvort sé mér leyft að safna þreki. Fyrst iðjuleysi ekki er keypt á „apóteki“! og — ég hefi hresstst við til muna. „Horngrýtis“-lindar-penninn minn gamli er farinn að hrækja í allar áttir, sá þyrfti á „spítalann“! Þú fyrirgefur blettina, því ekki er ég svona „skjálfhentur“, það eru engir nema unglingar, sem „ástadropa“ bréf sín af taugatrylling.

Ekki blæs enn byrlega með heilsufar Kristins mágs. Hann rétti nokkuð við um tíma, frá því sem þú sást. Nú er hann aftur lakari. Hefir fengið tvö ný áfelli, klæðzt þó enn, og hefir ráð á mörgu, getur jafnvel brosað að spaugi. Hitt er þó óyndislegt, að sjá hann ekki „orðinn nema hálfan mann“, eins og hann lýsti sér sjálfur við mig í gærkveldi. Ég kem heim til hans nokkuð oft nú. Líklega er honum lítil bata-von til muna, nema ef hann næði því að vera laus við þessa afturkippi um langan tíma.

Veturinn er einhver mesti mildingur, sem hér hefir sézt, og fólki líður yfir höfuð „venjulega vel“.

Gott þótti mér að sjá, að blöðin gátu aldrei um annað örðugra, en að þú varst „afkvíaður“, og nú vona ég, að nærri því sé komið, að þú megir „um frjálst höfuð strjúka“.

Einhver töf í öllum ferðum,
Út af gröfunum,
Lögð er að gjöf — sem lúta verðum,
Lífs á nöfunum.

Kveð svo þig með því fyrirmæli, að þér farnist allt vel.

Vinsamlega Stephan.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 13. jan. 1926.

Góðvinur. — Ég var nýbúinn að senda þér eina mína „skammavísu“ sem „lífsmark með mér“, þegar bréfið þitt barst um kveldið. Mig furðar á Fúsa, — eftir bréfi hans að dæma var lítið að leik þínum, annað en hávaðinn í hrafnabjarginu, og mér t. d. fannst ég skilja eða ímynda mér, við hvað hann átti. Mig minnir, að Sigf. minntist einhvers staðar á hann Maeterlinck „Matar-Belg“ (höf. „Bláfuglsins“, sem mest var um fyrir nokkru) og með góðu geði, og í líkum anda hafa aðrir stall-bræður hans haft hænur og sérhvað þess konar á leiksviði, að mig minnir. Hvað er svo á móti krumma okkar íslenzka, þó krunki á leiksviði? Í mínum grillum er: *stefnan:* andinn — *aðferðin:* bókstafurinn, þetta: „sem lífgar og deyðir“ — og sama sem svanurinn og dægurflugan í veröld vængdýranna og er ég þó óhandgenginn nýnæminu, nema að mér finnst ég skilja stundum, til hvers miðar, og virðist það vel sagt, þó á „fugla-máli“ sé. — Alveg rétt: mér þykir mannvitið merkilegast við mennina. Góðir menn og betri víst en ég halda hinu fram, að tilfinningarnar „króni“ okkur. Ég hefi haldið fram, að þær væru stýrislaust skip í stormi, voði ef vit réði ekki. Að þeirra ráðum einna saman hefðu in óþörfustu verk unnin verið. Sumu, sem við höfðum löngu-lært, höfum við gleymt, t. d. þessu marg-ítrekaða í Hávamálum fornu: „Byrði betri berrat maðr brautu at, en sé mannvit mikit“. — Ojæja, samvizka og lög eru að vísu ekki nema aðsetztar siðvenjur, oft og tíðum yfir sig lifaðar og sjálfum okkur heimskari. T. d. á dögum Grettis, hefði ég, eins og hann, haft *samvizku* af að höggva *ekki* hausinn af Ferðalang, sem í óhræsis-skap hæddi sér miklu meiri og betri mann ný-dáinn: föður minn. Öll framför hefir sína „fyrnsku“ í eftirdragi, unz hún dregst upp, orðin vitleysa. — Ojá; grein Nordals reynir kyrrstaðan og stærilætið að færa sér í nyt, ef gætu, en sú „bogalist“ bregzt að líkindum, þegar þau mál skýrast. Nordal drepur á, en *útræðir* ekki, jafn flókið mál á báðar hendur, eins og von er til. Fyrirgefning af „þróttleysi“ er honum vafasamur kærleikur: kærleikur, sem hræðist að horfast í augu við sannleikann. Sannleikurinn er sá, að svo langt sem við þykjumst ráða mega af „verkum guðs þeirra“,

sem kristna kalla sig, verður ekki annað af þeim ráðið en að sverð hefndarinnar hangi yfir höfði allrar náttúru, dauðrar og lifandi, dýra og manna, alls, sem eflir sig gegn umsköpun eða mannviti. Mönnum: að vaxa ekki að vizku, dýrum og jurtum: að semja sig ekki að háttum veðra, lofts og láðs og lagar. Að öllu getur „hefnzt fyrir", er einmitt annar aðalþáttur framþróunar. Ég hefi aldrei haft trú á þessari flatneskju af guðsgæzku, sem einkennir nýtízku kennarana, sem gleyma, að „fagnaðarboðskapur" sjálfra þeirra, kenningar Krists, eru tvískinnungur líka, t. d.: „Exin sett til rótar trjánna og hvert ávaxtarlaust tré upphöggvið og í eld kastað"; burtrekstur „bölvaðra í þann eilífa eld, sem búinn er djöfli og öllum hans árum" — „þar sem þeirra ormur deyr ekki og þeirra eldur slokknar ekki", o. s. frv. Það er ekki aðeins „gamla-testamentið", sem kennir: „auga fyrir auga og tönn fyrir tönn", og bannfæringarnar í biblíu þeirra eru jafn óvefengjanlegar eins og blessanirnar, hvort tveggja á sömu bók lært. Afleiðing allrar heimsku er eyðilegging, og illska mannanna hefir þá sjálfsögðu hefnd í eftirdragi, að hún er þröskuldur fyrir þroska einstaklingsins og allra. Að t. d. aftökur glæpamanna í hefndarskyni eru góðum mönnum og vitrum ósamboðnar, er einkum af því, að þær eru verri en gagnslausar: þó einn og einn sé afmáður, er ekkert áunnið, tilhneiging mannanna jafn útbreidd og áður — innræti þeirra sama, unz vitið verður ofan á. *Það,* en ekki ímyndaður og botnlaus kærleikur, er „frelsarinn, sem kemur". Kærleikurinn verður þar þarflaus, sem sanngirni ræður. Sá er sigur sannleikans. Þetta eru nú mínar „kreddur", sagðar ekki til að *kenna* öðrum þær, því ég tel mig ekki með lærifeðrum, en til athugunar hverjum sem vill og skýringar á sjálfum mér, hverju ég þykist hafa næst komizt sem sannleik. Það má líka læra af „vítum", þ. e. vitleysum annarra, þeirra sem hafa hug til að segja þær vöflulaust og einlæglega! Að vísu kann það að vera gremjulegt að vera misskilinn heimskari en maður þó er, en ekki er hitt stórum betra að vera haldinn vitrari en raun verður á, og verða svo öðrum andlegt fótakefli. Af þessu sér þú, að ég líkl. hallast nær „hefndar-kenning"! Nordals („progermanisma"! „norrænu"!), eins og mér skilst hún,

heldur en „anda“-kærleik Kvarans, sem ég festi síður fingur mína á. Því hann gufar út um greipar skyns míns — og — hana nú þá!

[Jóhannes P. Pálsson.] 19. jan. 1926.

„Hingað og ekki lengra“ var bréfið þetta komið, þegar mér barst „Iðunn“, með svari Kvarans. Ég fór og las það, fljótlega þó. Það var sem ég bjóst við, ef hann svaraði (sem ég taldi í huga mínum óvissan hag Einari sjálfum). „Einar is intelligent, but he is an intellectual weakling, in spite of it“. Svo sagði gáfaður Íslendingur, sem nú er látinn, við mig, fyrir löngu síðan. Mér hefir ætíð fundizt þráður í þessu. Einar hefir þann sið (og tekst vel), þegar í harðbakka slær, að mæta andstæðing sínum ekki á hans *eigin hólmi,* heldur teygja og toga fullhermingar hans eins og hrátt skinn, unz þær eru orðnar allar aðrar að útliti en upphaflega var að líkindum ætlað til og Einari viðfangs-þægari, og svo hitt, að skáka úr hróksvaldi einhverra frægra heimilda, og standa sjálfur bak við þær, og í hvoru tveggja er hann snillingur. Það sem ég ekki felli mig vel við í þessu, er að mér finnst að E. sé varla nógu varkár að láta hvergi sjást, að hann ekki vilji „vinna neitt með sleitu“ (það er: göldrum — brögðum —), sem sumum fornmönnum þótti sér ekki hæfa, en aðeins vörn og sókn með hreysti. Það var, hygg ég, ógætni af E. að aka sér yfir því, hvar sveið, þegar í byrjun, sem sé, að S. taldi aðra Ísl. launaverðugri, ef til vildi, en hann. Sama er að segja um þessa þrástöglun á „háskólakennara“ og „heimspekingi“, því það er í læginga-skyni mælt. En aðal-undanbragðið er að láta „refsing“ og „hefnd“ hjá S. hilla sem hæst, en geta lítið eða ekki um „ábyrgðarleysið“, sem S. óttast mest sem afleiðingu af „fyrirgefningar“-kenningum E. og hans liða. E. hleypur á bak við Krist og Pál, sér til hlífðar, í stað þess að „standa einn og beinn“, og hleypur yfir hitt allt um „hefnd“, sem nýja-testamentið eignar þeim orð um. Hann kemst út í „tvíveldis-trú“, eins og „guð“ og „tilveran“ sé ekki „tvíveldi“ líka, og í stað þess að „tilveran“ ein er næg og uppfyllir allt, að *gera sér guð* og hugsa sér á þann hátt að ráða eina gátuna, með því að búa til aðra, enn óráðnari. Auðvitað er „tvíveldis-kenn-

ing“ gömlu Persa, ið endalausa stríð milli „ljóss og myrkurs“, afturfarar og framþróunar (í siðferðis-lífi mannanna líka), nær því sem á sér stað í mannheimum en ábyrgðarleysi einvaldsins í „fyrirgefningunni“, svo langt sem séð verður, og öll trúarbrögð heilög og sönn, á þann *eina hátt,* sem þau kunna að betra og fegra líf mannanna i hérvist þeirra í vorri veröld. Ákefð E. að troða andatrú alls staðar að var sjálfsögð, en utanveltu þarna, nema hvað hún kann að duga honum sjálfum sem hróp um hjálp til sinna líka, gegn S., enda er hún höfuð og herðar alls „ábyrgðarleysis“ og „fyrirgefningar“, svo ramlega ríkja andarnir hér í heimi, og taka svo fram fyrir hug okkar og hendur, að við verðum verkfæri tóm. T. d. var ég gestur eins andatrúar-öldungsins í Rvík um árið, hyggindamanns að almenningsdómi. Hann vildi koma mér út í andatrú. Ég veik því af mér ýmislega, með hægð. Ég þakkaði honum, hvern hlut hann hafði átt að að koma í veg fyrir járnbrautarflanið um árið, eins og hann átti skilið. Hann svaraði því svo, „að lítið væri sér að þakka, öllu væri stjórnað hér að ofan.“ Hann átti við „andana“, vissi ég vel. Eins myndi hann hafa hugsað, hefði ég beinzt eitthvað að brellum hans. Skynsemi, mannúð, siðferðisþrek mótmælir þessari þrekleysis hjátrú á kærleik og fyrirgefningu út í einhvern endalausan bláinn.

Þarna hefir þú eitt hornið af „heiðni minni“, sem sýnishorn en ekki þér til „sálubótar“. Og haltu til góða! ef þú getur, eða líttu ekki við svo rugluðu rausi, ef þér sýnist svo, og „stíktu því í stóna“ ólesnu. En hér skal þá staðar numið, og ekki að sinni syndgað meira upp á kærleik og fyrirgefningu, og vertu svo blessaður, bæði af Kristi og Þór. Lengi voru ritdómarar í ráðaleysi með mjólkurblöndugæðamennina nýguðfræðis-skáldanna, slíkra sem E. er. Þeir urðu allir þvílíkir smælingjar í höndunum á þeim, en stórsyndarar þeirra báru af, hvað þeir voru „hrífandi“. Orsökin er auðséð: það vantaði Þór í þessa Krista þeirra, unga ljós-guðinn, sem sífellt berst við „makt myrkranna“: mannvitið þroskaðra og þroskaðra í eldraun sinni að brenna úr sér sora heimsku sinnar í deiglu lífsreynslunnar — þennan guð, sem Nordal segir sér myndi næst að trúa á.

Annars þykir mér vænt, að þessi deila varð einmitt á

milli mjög færra manna, og þó ég viti mig hliðstæðari einum en öðrum, verð ég báðum þakklátur og vildi á hvorugan halla vísvitandi, aðeins óska, að þeir heyi einvígið til úrslita og sem riddaralegast. Ég sveik þig um að hætta þessu áðan, þegar ég ætlaði það þó, nú skal af verða — og

vinsamlegast Stephan.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 14. jan. 1926.

Jónas minn.

Árið að þér hlynni,
Ósk þá láti rætast mína,
Að góðri sögu sinni
Sérhver dagur bæti í þína
Æfi — svo að ellin
Á þér hvergi vinni.

Bréfið verður málamynd
Og marklaust raus —
Ég er fráleit flökku-kind
Og fréttalaus.

Þó á það að gilda sem þakkar-vottur fyrir bréf þitt, það um daginn.

Öllum líður bærilega, nema Kristni. Hann er ýmist afleitur, eða hálfbráir af honum, og þá á flakki inni við .... Ég varð að segja lausu fjósverka-brauðinu um miðjan næstl. mán. sökum „linku“ minnar — og er hressari fyrir iðjuleysið, alltaf á fótum, og rétti hönd hér og þar, svínum, kálfum og eldivið. Mér eru sendar bækur og blöð nær úr öllum áttum. Seinast t. d. sendi Vilh. Stefánsson mér eina bók sína. Af þessu sérðu, að ég lifi á andlegum „eldhúsdögum“ nú, hvað það snertir. Tíðin víst betri en til er í manna minnum að vetri til og fram á þennan dag. Bæði Kristins fólk og mitt biðja kærl. að heilsa og vertu nú blessaður.

Þinn Stebbi.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 21. jan. 1926.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Bréf þitt 17. þ. m. barst mér í gærkveldi. Hitt bréfið, sem þú getur um, hefir enn ekki komið til skila. Gerir lítið til, hvað mig áhrærir, með

vesturför. Hefði ekki getað þegið það góða boð, hvort sem var, en berðu Aðalsteini kæra þökk mína. Svo má heita, að ég eigi engan nákunnugan í Vancouver, nema Eggert okkar Jóhannsson. Í Seattle ögn fleiri, og þó er svo, að ekki eru sumir þar sem stendur, t. d. Sveinn Björnsson „genginn á Myrkviðu" upp í fjallaskóga í vetrar-vertíð.

Er í hraða að koma þessu á pósthúsið með ferð sem fellur. Blessaður og sæll!

Þinn S. G.

*Sveinn Björnsson.* Markerville, Alta, 25. jan. 1926.

Góðvinur Sveinn minn. — Ég var farinn að spyrjast fyrir um þig í bréfi til Jakobínu ekki alls fyrir löngu, en svo kom saga þín sjálfs, og þakka þér fyrir. Annars grunaði mig þetta, að þú værir genginn úr Seattle í „trölla hendur", en kunni ekki skil á, hvar á Finnmörk þú myndir vera — en sama er „þarland" og „hérland", svo lengi sem þér líður bærilega, úr því sem ráða er, að þú þarft enn „að krafsa ofan af fyrir þér", svona roskinn — og eins og við fleiri.

Verði þér hvorki heilsan höll
Né „hörð-aðgöngu" vinna,
Og reynist þér mestu tryggða-tröll
Trippur galdra-Finna.

Mér er vel við þennan „huliðsheim" þinn, af því þar varð „Opna bréfið" til, sem er stór umbót á „himnabréfið" fræga, sem átrúnaður lá á. Einn félaga fann ég heima, sem ætíð bar það á brjóstunum, til varnar öllum slysum. — Jú, jú, Lárus er enn heill á húfi heimsku og hreykni, sem betur fer, þann blaða-dordingul megum við ekki missa, fyrr en sem allra seinast. Óvíst, að nokkur fylli hans skarð, nema að Jón Einarsson geti endurfæðzt, þegar hann fellur frá. En „siginn er Lárusi larður", því miður, þeir vilja engir eiga við hann orðastað lengur, og segja svo upp í opið montið á honum, og það er að vera settur á bekk með „markleysu-mönnum". Ráðunautar „Bílds" og meðritstjórar kváðu nú vera *sjáanlega* þeir Finnur Jónsson og „Prestlambið". Áður lágu þeir á „leynivogi". Einar P. Jónsson átti að „afsetja" í sumar. Hann varð aldrei

„altaminn", en „óreglu" var við borið. Hann er samt á „heimilinu", en á öðrum stað einhvers staðar „undir loftinu". Allir, sem skást rita nú hér, forðast „Lögb." Þannig sálga afturhöld sjálf sér ætíð á endanum. Í æsku gat ég aldrei fallizt á það, sem biblían sagði: „að guð hefði forhert Farao". Nú sé ég, hversu það verður, að síðustu drekkja heimsk blöð sér sjálf í „rauðahafi" hreppapólitíkur og síkjuskapar. Lengi naut „Kringla" þess, að hún hafði átt nokkra „frjálslynda" að í fyrstu, á því hélzt hún lengi við, jafnvel eftir að það var aðeins ekki nema gamall orðstír — „tradition". Nú er hún að ná sér aftur, þó enn eigi hún í úlfakreppu. „Conservustu conservatívar", eins og Reykdal og Sveinn Þorvaldsson, „bera hana í sjóði", ef þeir geta — eiga fé í henni. Furða hvað Sigfús situr, því hann myndu þeir „feigan kjósa" sem ritstjóra sinn, og eflaust helzt hann við í skjóli séra Rögnv. og hans liða — nema mér bregðist allar „draumkonur". En hvernig sem allt fer, eftir þetta hálfrar-aldar sarg okkar „guðleysingjanna" og „vitfirringanna", hefir þó „heitt til" í allar áttir og upprunninn yngri manna flokkur, einarður og vel að sér ger, sem tekur upp merkið, t. d. Sigfús ritstjóri, Jóhannes Pálsson læknir, Bogi Bjarnason („Salmagundi") o. fl., þó ekki telji ég aðra en „óvígða menn", eins og þá forðum, sem fyrst komu því á (jafnvel heima), „að Kringla væri *betra blaðið* vestan hafs".

Stundum hefir illan enda undanhaldið —
Svo fer það með leirhlass-lallið
Lögbergs okkar „niður fjallið" ....

Af minni hreysti er það að segja, að þó langt sé frá, að hún sé slík sem var á „Opnabréfs"-árunum, af því nú er ég orðinn „garmur", get ég þó oftast enn borið mig nokkuð „brastaralega". Maður gisnar við aldurinn úti í öllum veðrum og alls konar erindum. Vinir mínir, sumir, þeir, sem fjarri búa og fæst gott hafa af mér að segja, hafa óttazt um mig — viljað, og vilja enn, kosta mig inn á „rannsóknar rétt" stórborgar-lækna, því enginn, sem ég hefi um það spurt, þykist viss, hvað „í mér búi", en svo eru þeir hvorki margir né merkilegir taldir. Ég held helzt sjálfur, að að mér ami gömul innyfla-bilun, upp úr

veiki, sem ég varð fyrir innan við þrítugt og aldrei greri síðan um heilt — og nú, að ég sé nærri því að vera „útunninn“. En ég held, að úr mér sé að rætast og finnst mér batni við iðjuleysi! Reyndar er ég alltaf eitthvað að rétta hönd, skrifa eða lesa, annars myndi ég „lognast út af“, eins og kerling Eiríks sál. frá Brúnum undir Mormónaskírninni forðum. Íslenzkir „doktorar“ og „meistarar“ senda mér að gjöf bækur sínar: Ágúst, Guðmundur, Sigfús Blöndal, Nordal, Páll Eggert Ólason, Vilh. Stefánsson, Sig. Guðmundsson Akureyrar-meistari, auk ýmissa vina og vinkvenna. Ég hefi aldrei „lifað eins hátt“ og nú! Taktu þetta samt ekki svo sem ég sé að segja: með „doktorum“ var hann talinn! Nei, nei! Það ætti ekki betur heima en þetta forðum: „með illræðismönnum var hann talinn“. Þetta sýnir aðeins, að „doktorar“ og „meistarar“ okkar Ísl. eru „almennilegir“ menn.

Nei, ekki að draga saman til að borga jarðarför þína enn, Sveinn! Ég hefi lofað að koma „heim“ á hátíðinni 1930, auðvitað með þeim fyrirvara, að ekki megi mér um kenna, ef það bregzt. Ég verði þá of vant við kominn. Dragðu saman í að verða samferða. Líkl. verðum við að fara með loftbát, ömurlegasta ferðatækinu, sem til er. Helzt færi ég gangandi — þar næst siglandi. Skemmtilegast að sameina það: ganga á sjónum heim, eins og Kristur og Pétur hinn helgi gátu gert — en við — við erum trúminni en jafnvel Pétur, og hann næstum sökk. Verðum að gera okkur loftbátinn að góðu — og sértu svo heill og sæll!

Vinsamlega Stephan.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerv., Alta, 26. jan. 1926.

.... „Ég les Lögberg fyrir svefnmeðal, en „Hkr.“ til uppvakningar. Og nú get ég tekið undir með þér, að hún sé „að verða gott blað“.“

Í þessum svifunum fékk ég þessi orð í bréfi, frá fjarlægum vin mínum, gömlum og greindum. Ég svaraði svona:

*Undanhallið.*

Stundum hefir illan enda undanhallið —

Svo fer það með leirbulls-lallið
Lögbergs okkar „niður fjallið!“
Þinn Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 29. jan. 1926.

Góðvinur. — Ég hafði ekki tíma til að svara í síðasta miða mínum öðru en því, sem var aðal-erindi „týnda hlekksins“, sem hvergi kom fram. Vona, að svar mitt hafi ekki setzt að hjá honum, í reiðileysunni.

Þá þakka ég fyrir „Egil“. — Ekki mun *hann* hafa dregið „ýg“ á „augu“ við að vera settur í „öndvegi“, hvar í Valhöll sem hann vera kann.

Ég hlakka til að sjá Hunford, þegar hann er á „þrykk út genginn“. Karl hefir ekki komið hér lengi nú. Er líklega, eins og við strákarnir vorum, hálf-fyrtur, þegar spilin spáðu, að við ættum „barn í vonum“.

Heyrðu, ekki hefi ég minnzt neitt á það við Ársæl, að ég ætlaði að hrepps-ómaga á hann þessa Kolbeina. Séra Ragnar verður að skýra það fyrir honum. Mér datt aðeins þetta í hug, að úr því upp á hann öbbuðust þessir fyrri niðursetningar, sem hann hefir ekki getað losað sig við, færi bezt, að hann héldi þá alla einn, unz þeim yrði á einhvern veg í „eld kastað“, því ekki ætla ég að „kalla til kaups“ fyrir þá.

Ekki get ég enn sagt, hvort ég muni koma austur, en boðið ykkar J. met ég og marg-þakka. Mér er það næstum óskiljanleg hamingja, að þeir skuli láta sér oft annast um mig, sem ég á sízt skilið neitt að. Eiginlega finnst mér enn ég nærri fær í flestan sjó, og það eins og er sem stendur. En á hinn bóginn hefir mér dottið í hug, að þetta, sem ég kann að vera „að losna upp úr bandinu“, væri meðfram af „vondri meðferð“, of-miklu gjögti á gamalli skruddu, og hugsað mér stundum að hlífa mér við öllu hnjaski í vetur, hvað ég gæti, nema mér hrakaði, og sjá til hvað setur, hvort ég „festist ekki ögn niður í kjölinn“. Mér hefir heppnazt það eitt skipti áður, veturinn sem ég safnaði saman fyrri Andvökum. Beinhallar-Árni heitinn hélt, að hann væri dauður, þegar strákarnir skutu á hann púðurskoti — og þetta haust, um árið,

var ég hræddur um, að nú væri ég að fara í kurl eða kör. Mér skánaði svo við áreynsluleysið, að mér reyndist það rétt, sem mig óraði líka í, að mér baggaði læpuskapur lúins manns, fremur en bráðapest. Ég læt ykkur vita, hversu mér fleygi fram. Ég er alltaf á rjátli og rétti hönd hér og þar, eftir þörfum. Heimilið fámennt, en bú-bjástrin „tvenn og þrenn". — Nú er „Kringla" óðum að yngjast upp aftur, verða það sem hún var ætluð til, áður en Baldwinson & Co. húðar-jálkaði hana, sem sé: gæðingsefni. Þið þurfið að halda af öllum mætti í menn eins og Jóhannes og Boga. — Enn seint fyrir með bréfið í póstinn. Ferðin bíður mín og enginn tími til að kveðja, svo ég tek „french leave" og laumast burt þegjandi, og vertu blessaður.

Þinn Stephan.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 12. febr. 1926.

Grímur minn. — Ég skila kveðju þinni til Laugu systur við tækifæri, en Kristinn andaðist í gærmorgun, og verður jarðsettur á sunnudaginn, og bréfið þitt kom í gærkveldi. Þakka þér fyrir. Ekki skaltu ásaka sjálfan þig neitt fyrir dráttinn. Hann kemur að engri sök. Meira að segja, mér væri sama um bókina, nema af því, að mér var send hún að gjöf. Ég hefi lesið hana. Líkl. les hana ekki aftur, frekara en flestar aðrar bækur sem ég les, og — kannast við efnið allt áður.

Vinsamlega Stephan.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 16. febr. 1926.

Grímur minn góður. — Þökk fyrir skilsemina á bókinni og bréf þitt síðasta í gærkveldi komið. Engum fjarlendis var hraðboðað lát Kristins, nema Nelly. Ég sendi „Kringlu" 5 orða skeyti, sama dag og hann dó. Kemur, ef það kemur, í næsta blaði hennar. Vel gat ég sent þér skeyti í tíma, jafnvel flaug það í hug, en sneri því af, hræddur um, að þú færir þá að brjótast í að vera viðstaddur, en fannst þú varla fær til þess, eins og á stóð: hríðarkast stóð yfir, brautir vondar og nokkuð kalt, og leiðin út hingað frá Innisfail of löng.

„Iðunni" hefi ég sjálfur fengið. Svo ekki meira að segja

að sinni, nema ef vera skyldi, að Munda var „bolað“ út úr búðinni á Markerville. Ekkjan vildi fá „forretninguna“, og tengdasonurinn á að stjórna. Án þess ég viti fyrir víst, hvað verður, held ég, að Mundi hefði kóklazt fullt svo vel fram úr. Hann var kunnugastur bæði í héraði hér [og] bankanum í Innisfail, og hvað sem öðru leið, höfðu allir traust til hans. Auðvitað er allmikið til á pappírunum, en minna í hendi, af öðru en vörum og „útistandandi“, en talsverðu út að svara. Grímur bauðst til að kaupa og borga „út í hönd“, til að verða einvaldur auðvitað, en það var heldur ekki þegið og Mundi ekki gengið að einu skilyrði hans, ef til vill, að sínum hluta. Líði þér vel, og vertu nú sæll!

Vinsamlega Stephan.

*Sveinn Björnsson.* Markerv., Alta, Can., 25. febr. 1926.

Góðvinur Sveinn. — Það hefir dregizt nokkuð, að ég sendi þér þökk fyrir bréfið þitt síðasta, af ástæðu, sem þú hefir víst séð í „Hkr.“ Kristinn okkar var rétt ný-andaður, þegar bréfið þitt kom. Ég man ekki, hvort ég gat þess við þig, en ég las honum bréf þitt ið næsta þar á undan, hægt og skýrt, og hann virtist geta fylgzt með og brosti við og við. Hann í einni afbrá sinni þann daginn. Það, sem að honum gekk og á honum vann að lokum, var heilablóðfall .... Dó upp úr þriggja sólarhringa svefni að lokum. Ekki held ég hann hafi þjáðst stórkostlega og því neitaði hann ætíð, þegar ég spurði hann að því og hann virtist vera með sjálfum sér. Ég kom þar oft. Hann dó 11. þ. m. Jarðsettur heima þar í reit okkar, hinn 14. s. m., og hvílir þar hjá Stefáni syni sínum, Guðbjörgu dóttur sinni, Gesti mínum og Guðbjörgu móður minni. Lauga kona hans og Hannes sonur þeirra eru orðin ein eftir á heimilinu ....

Það er ekki svo að skilja, að Nordal telji sig beinlínis *trúa* á þennan guð, sem hann lýsir, aðeins *ef um guð væri að gera*, myndi *hann* hugsa sér hann þannig, en það er trú fornu Persa, að efninu til eins konar orusta milli ljóss og myrkurs, og mennirnir í fylking ljóssins, þrátt fyrir allt. Annars veit ég ekki trú S. N., nema þetta, sem hann segir. En þekking hans á trúarbrögðum stendur líkl. víðs vegar. T. d. var hann einn þeirra, sem voru við „rannsókn“ danska

miðilsins Nielsens í Reykjavík, sem „öndungar“ *importeruðu*, og „handaskolin“ urðu út af.

Ójá, eins og þér, finnst mér Ó. bróðir þinn hafa brugðizt óþarflega, mest föður ykkar heitnum, því mér var það vel kunnugt, að til staðfestu hans bar hann mest traust af sínum niðjum. Ég er Ó. ókunnugur. Kom heim til hans nokkur augnablik, þegar ég kom að heiman, með erindi til hans. Hitt hafa vinir hans „hinum megin kirkjunnar“ sagt mér, að það hafi verið eins konar hagsýni hans í iðn sinni, að hann snerist sýnilega til Winnipeg-lúthersku.

Ég þakka þér, Sveinn minn, hve vel þú hefir haldið sjálfur trú föður þíns. Við, hann og ég, vorum mátar, og hann átti upphaf að því. — Von þú viljir koma í Fljótsdalinn þinn. Ég hefi komið þar sjálfur og skil þetta. Von var að sagan segði, að Jónas Hallgrímsson hefði kveðið „Fífilbrekka, gróin grund“ á Brekku, því þar hefi ég séð flest „grasahnoss“ í túni, svo mér gleymist aldrei — og þó er sagan líklega skáldskapur.

Vertu nú sæll, Sveinn minn, og fyrirgefðu, hve „stuttur í spuna“ ég er í þetta sinn. Er allfrískur, en hönd og hugur „á ýmsum skeklum“.

Vinsamlega Stephan G—.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 1. marz 1926.

Góðvinur Jakob. — Stubbaralegur verður miðinn þessi — aðeins að láta þig vita, að bréfið þitt síðasta er komið fyrir nokkru, en hefi ekki getað svarað með vissu, sökum aðstöðu — en leigan fyrir þennan landskika *átti að vera* $100.00 árið sem leið. Fátæklingur leigði, og ég hygg, að að óborgað sé enn. Kemst fyrir það síðar, og hvort laust verði jarðnæðið. En hvað sem tautar yrðir þú að koma og sjá sjálfur, þó varla sé kannske til kostandi. Í öllum bænum, láttu þér ekki koma til hugar, að þú hafir gert mér neina fyrirhöfn, það er öðru nær! ég veit þetta, sem ég sagði, „gratís“ og ómakslaust sjálfur, af því ég er inni í umhverfinu og sveitarsögunum hvað þetta mál snerti.

Gott var að sjá, að hagur þinn er þó svona góður, eftir allt. Þú hefir fleytt þessu furðanlega, gegnum mikið andbyri.

Á því hefi ég enga trú,
Að hann Marz, sem byrjar nú,
Endi loks við illan hróður,
Af því hann fæddist svona góður! —
Enskurinn lýgur meira en —
Það er að segja: en fuglinn flýgur.

Vertu blessaður! Þinn Stephan G.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 6. marz 1926.

Jakob minn. — Aðeins fá orð, í flýti, og raunar efnisleysa! Viðvíkjandi því, sem við höfum verið að minnast á, jarðnæðin hérna á Markerville, þá hefi ég hlörað nú síðast, að eigandi „skikans", sem borið hefur helzt í tal, ætli helzt [að] láta veðhafann í honum „taka eignina" — hann treysti sér ekki að leysa úr veðinu. Auðvitað er það ekki nema munnmæli enn. En sé svo og fengist „skekillinn" fyrir það, sem veðskuldin líklega er, um eða yfir $800.00, væri það ef til vill skaðlaus kaup og betra en leigu-gjald. En ekki vil ég eggja þig neins, — en ef þú hugar til „njósna" um þetta, myndi betra að gera það bráðlega.

Á Markerville er breyting í bæ orðin, — Guðmundur sonur minn, sem þar átti verzlun með Jóni heitnum Benediktssyni, sem dó af slysi í Calgary næstl. sumar, hefir selt erfingjum hans sinn hluta í búðinni og flytur líkl. burt úr „kotinu", en hvert og hvenær verður ekki um sagt.

Svo er þetta búið í bráðina!

Vinsamlega Stephan G.

*Sigurður Jónss. frá Víðimýri.* Markerv., Alta, 6. marz 1926.

Góði minn! — Ég fékk bréfið þitt og kem bara til að láta þig vita um það og þakka það þannig. Ég kveið fyrir, færir þú að brjótast í að vera viðstaddur jarðsetning Kristins heitins. Þú varst ekki fær um það, og veður [og] færð ekki gott. Varð feginn, að þú sazt um kyrrt. En æfinlega skemmtun að sjá þig, þegar „vel blæs", og nú fer senn að styttast til einhvers sumars og þá er þó oftast ferðafært, án þess að þurfa að vera „norðurskautafari".

Reyndar er nú svalara þessa seinustu daga, þó bærilegt sé. Okkur öllum líður vel, eftir vonum. Berðu Sigríði kveðju okkar og vertu blessaður! Þinn Stebbi.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 10. marz 1926.

Góðvinur. — Í gærkveldi fékk ég sendingu í pósti frá þér, smyrsli víst, áburður við þarmabólgu og þess konar, frá lyfjabúð Tómasar-hælisins í Winnipeg. Alltaf ert þú að hugsa til mín. Beztu þökk fyrir. Engin fyrir-sögn fylgdi um meðferð, en býst við það sé aðeins borið á „innhliðina“, — hefi haft þess konar um hönd áður, en ef til vill úr öðrum toga spunnið. — Margt er til, og úr mörgum efnum, alla leið frá brenndum „skóbótum“ til „ópíum“-áburðar. Sem stendur er ég býsna brattur, — brattari en áður, hvort sem það er fyrir dálitla meðala-brúkun um langt skeið, eður fyrir sérhlífni talsverða í vetur — eða hvort tveggja. En ég er ekki „alger“ enn — en ætla að verða það, og meðal þitt reyni ég, hvenær sem mér finnst tiltækilegt — en „gott á meðan góðu náir“, og til dæmis hefi ég nú um nokkurn tíma getað rétt hönd við gripa-hirðingu, án þess mér yrði meint við, og alltaf verið á fótaferli. Og aftur þökk: ég held, að þið vinir mínir sendið mér heilsu með hugboðum!

Nú hefi ég ný-frétt, að fjósið eða hlaðan á Markerville, sem ég gat um við þig að auð væri, sé leigð manni, sem ætli að nota það fyrir bifreiða-smiðju og gasólín-búð, en sönnun veit ég ekki á því. Markerville er að verða á ferðinni, ekki fjörmeira en það þó er.

Verði þér allt þitt æfiskeið
Allir dagar góðir,
Þó að fari á „ringul-reið“
Ríki, lönd og þjóðir.

Vinsamlega Stephan G.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 16. marz 1926.

Góðvinur Jóh. — Bréf þitt ið síðasta nýkomið, svo að segja. Þökk fyrir það og enn fremur greinina í blöðunum síðustu og að þú heldur svo fast í hönd með B. Það er

lagið! hvar sem íslenzka er líkleg til frama, að skilja *það*, að það er ekki einungis þjóðskylda, heldur mannkynsskylda dugandi drengja, að skjóta fyrir hana skjaldborg skilnings og velvilja. Eins og þú segir svo fallega: „Ísland og Canada þarf alls síns með, og þá fyrst verður jarðríki að því himnaríki, sem óskavert er, þegar mennirnir geta tekið sér í munn með sannindum, það sem sagt var forðum: Engum glataði ég af þeim, sem þú gafst mér.“ Gott er að sjá, að þið yngri og efnilegri Ísl. *að ætt* takið saman höndum til verndar því, sem var göfugast flutt inn í auðnina hér, utan úr hafsauga Íslands. Við inir eldri erum þegar úr sögunni og höfum engu orkað vegna andstæðnanna, nema ef vera kynni, að halda einhverri auðri vök í ísinn, svo allt þyrfti ekki að mettast „á vind og snjó“, eins og Jón gamli á Bægisá talaði um að „venja fólkið“ við.

Já, ekki kem ég austur um „þingtímann“. Ég var fús að vísu, en skorti áhug — en síður áræði — kaus nærri fremur að koma í kyrrþey en steypast ofan í hátíðahöld, ekki af feimni, heldur fann ég á mér, að ég var engin „veizluprýði“ í bráðina. Mátti segja eins og Þórður heitinn „hræða“ er látinn segja í rímunum:

„Illa búinn ég var þó,
okkar nú við fundi.“

Svo leystist Kristinn mágur úr lestinni um það leyti. Auðvitað var ég þar ekkert lið fremur en hver vandalaus. En ýmsu þurfti að ráðstafa á eftir og ég hélt, að kannske gæti ég orðið ýtir undir það, að það drægist ekki of lengi úr hömlu, svo „yfirvöldin“ kæmu að öllu ógerðu, sem alls staðar þykjast ítök eiga, — og það komst nú í kring, og hefði ef til vill orðið án minnar ámálgunar, en kunni ekki við að eiga undir því, — svona lá í svikum mínum.

Heilsan hangir við sama, finnst ég vera fleygur og fær að flestu leyti, *nema* þessu „garnagauli“, eða hvað það nú er. Finn lítið til suma daga, en sjaldan alveg frí, einkum og framan af nótt. Oftast betri að morgni. Brúka alla varasemi sem ég kann og „olíur og inntökur“ Wagners míns dyggilega, en eins hóflega og ég get — og þrautavinur minn, Jakob Normann, sendi mér nýlega „smyrsla-

bauk“ frá heilsuhæli Dr. Tómasar í Wpg., og sem Kobbi hafði reynt á sjálfum sér og til bóta, vantrúaður eins og hann var! Ég var að „æfa mig á þessu“ líka, en efa árangur. .... Yfir höfuð, það er líkast því, að í þessari „Republik“ minni, sem við köllum „skrokk“, sé að verða „Bolsevika“-bylting, hver hönd á móti annarri, út af því fyrirkomulagi, sem er og verið hefir. Jæja, þá það! En í alvöru, sé nú þetta, sem að mér gengur, það sem Wagner minn skírði það seinast, meinloku-mikillæti þarma-kirtilsins! eða „Hypertrophy of the Prostatic Gland“, svo ég reyni að tala „lærðra manna mál“ — er þá nokkru tilkostandi viðvíkjandi batavon, nema því einu, að hlynna að sér eins og hægt er? Ég veit það ekki og ekki heldur, hvort Wagner minn hefir rekizt á rétt-nefni.

Reyndar hefði ég nú þurft að segja séra Rögnvaldi þetta líka, mér til réttlætingar fyrir þráann, sem lítur út vanþakklæti næst. Og viltu nú gera svo vel og segja honum? Gætir sent þetta klór-bréf, ef þér réði svo við að horfa — væri ómakssparnaður. Sjálfur vil ég síður þurfa að endurtaka þetta volæði, þykir það ekki svo skemmtilegt öðrum — vildi heldur um allt annað skrifa.

Jæja, góði, ég er svona „lang“-leiðinlegur núna, svo þú þurfir ekki næst að minnast á, eins og þú hefir gert áður: að ég hafi ekki getið um heilsufar mitt!

Tíðin ágæt, eins og áður. Enginn „umbreytingar-skuggi“ á héraðinu, eins og kverið mitt komst að orði [að] ætti sér stað hjá guði, sem líklega hefir verið það mesta missögli, sem hægt var að hugsa sér, en ég bæti það upp með að nota það um það, sem er sannreynd.

Vertu svo „guðs-blessaður“ og gangi þér í haginn.

Vinsamlega þinn Stephan.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 25. marz 1925.

Góðvinur. — Miðinn frá þér viðvíkjandi B[jörgvin] kom áðan. Sakir standa nú svo, ég var nýbúinn (um helgina sem leið) að senda ritstj. „Kringlu“ ofurlitla þulu til B. í rími. Ekki eiginlega til prentunar, fremur en verkast vildi — en ég bað Sigfús að koma því til B. „á einhvern hátt“. Ég vissi ekki áritun B. og „þulan“ átti að vera á

„sinn hátt“ eins konar „Gratulation“ til hans. Ég kynntist B. svolítið sem fljótast í Wynyard „um árið“. Ekki veit [ég] hvort þulan er ykkur nokkurs virði, en efnið lýtur að sögninni í Spesar-þætti (Grettis-sögu) um „söng“ Þorsteins drómundar í „dýflissunni“ í Miklagarði forðum, þegar hann hefndi bróður síns — er auðvitað drepið fáort á — aðeins tilbending. Þetta verður að nægja, einungis, í bráð að minnsta kosti. Rétt er það, atrennan verður að vera einn „sífelldur leki“, eins og Salómon lýsti nöldrunar-kerlingunum, ef nokkuð á að vinnast hjá alþýðu. Miklir andsk. álfar eru þessir „amerísku milljónerar“ okkar Vestmanna, ef nokkrir annars eru, að þeir skuli ekki hafa vit á því, sér til frægðar og syndafyrirgefningar, að koma á framfæri þeirri list, sem „mannkaup“ er í. — Aðrir auðmenn annarra þjóða sjá þó sumir það bragð á borði —.

Fyrirgefðu, og vertu blessaður. Þinn Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 30. marz 1926.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — „Guðsást fyrir mig, og þó að hefði *ekkert* verið,“ var viðkvæði förukerlinganna heima, sem báðust beininga, þegar húsbændur í sveitunum höfðu stungið tólgar-skildi eða ullar-reifi í skjóðuna þeirra. — Sama segi ég við þig fyrir það, sem þú sendir mér fyrir raus mitt í „Ritinu“ voru. Nýlega sendi ég þér leiðréttingu á 2—3 orðum, sem okkur höfðu misheppnazt — og svo, þökk fyrir viðskiptin öll!

Ég hefði nú næstum glaðzt við að heyra, að „líkin“ í lest Kringlu hefðu labbað fyrir borð, ef ég vissi ekki vel, hve örðugt það verður að halda henni á floti fyrir lifandi menn fáa. Enn í dag eru það „draugarnir“, sem eru þrælsterkastir, þó vit og áræði eitt saman hafi oft orðið þeim að fótakefli hjá þeim, sem lagnir voru að ráða af dögum meinvætti. Aldrei hefir „Hkr.“ mátt síður missast en einmitt nú. Nú hefir hún náð aftur sínum fornu, beztu dögum, eftir að Baldvinsson steypti henni í sína andlegu glötun, með því að hugsa helzt þannig, að „allt væri um að gera“ að ala hana á ætinu í pólitísku hor-skrokkunum. Undarlegt er það, að greindum mönnum skuli vera fyrirmunað að sjá það, að þeir séu að farga jafnvel eigin-hag

og heiðri með því að vilja hanga á spena afturhalds, sem enga framtíð á, eins og nú standa sakir, um svo að segja allan heim. — Afturhald er feigt alls staðar, og sums staðar með kvölum, það er að segja: það „afturhald“, sem við þekkjum og hefir það að lífsreglu, „að aldrei fari betur, þó breytt sé“.

Þakka þér líka fyrir aðvörun þína með A. Annars ekki, held ég, hundrað í hættu. Ég er honum svo að segja ókunnugur, nema af bréfaviðskiptum, og afspurn, — en ég hefi tæpl. skilið í honum. Viðskipti okkar eru þessi: Þegar fyrri „Andvökur“ mínar voru „á stokkunum“, ritar hann mér, að hann hafi verið einn útg. fél. ykkar, orðið óánægður, gengið úr, en býður mér að kosta allt einn. Ég svaraði því, að ég hefði heitið ykkur handritinu og riftaði það ekki, þó samningar væru óritaðir enn. Svo náði það ekki lengra. Árum síðar sendir hann mér „kristilega hugvekju“, eftir einhvern „uppáhalds“-guðfræðing sinn, sjálfsagt. Ég las hana, hún var nýfræði lagleg, en „það er vatnsblandað, mágur minn — mér verður illt af því!“ lét „Bægisár-Skalli“ piltinn syngja yfir skál í brúðkaupi systur sinnar — og svo fór mér, og eitthvað í þá átt ritaði ég A., um leið og ég þakkaði bréf hans. Enn síðar sendir hann mér nokkur blöð vélrituð úr bók, sem hann kvaðst vera að semja og nefndi „Menn, sem ég hefi kynnzt“, að mig minnir. Það var um Roosevelt forseta — ómelt lof, að mér virtist, og víst eftir öðrum haft, nema A. hafði heyrt ræðu til „Tedda“ sáluga einu sinni, að því er séð varð. Svo mæltist hann til, að ég þýddi fyrir sig kvæði um Roosevelt, eftir Hall Kain (Hall Caine). A. hafði beðið einhvern ísl. hagyrðing að þýða það, áður en mig, en ekki orðið ánægður — og ekki að raunarlausu, eftir sýnishorni að dæma, sem A. sendi mér. Eftirmæli Halls voru auðvitað eins konar verðleikalaun fyrir glamur Roosevelts með Englendingum í stríðinu stóra — það var auðskilið, en kom hvergi blátt fram í ljóði hans. En kvæðið átti þann þýðingar-rétt á sér, að það var, í mínum augum, undarlega fallegt og vel kveðið, þessi „keltneski“ kveinstafa-blær yfir því (eins og haustgola í lauffölnum skógi), hve heimurinn yrði snauðari „When Great-Heart is gone“, eins og Caine kenndi Roosevelt og sem ég þýddi „Hjartaprúður“. Ég hafði því hálf-

gerða skemmtun af að rubba þetta á íslenzku. Sendi svo A. það með þeirri athugasemd, í bréfi, að Roosevelt væri, að mínu áliti, frægari sökum síns bægsla-barnings í orði en á borði. Fyrir þetta tók ég ekki „stein í staðinn“ hjá A. Hann sendi mér að gjöf „sjálfs-sögu“ Marks Twain's, ný-útkomna þá. Enn skrifar A. mér síðastl. haust. Segir mér, að Vilh. Stefánsson, fyrir sína áminningu, hafi sent mér að gjöf eina bók sína í apríl í vor, en skilun dregizt fyrir sér. Rétt! Bókin kom, með mjög lofsamlegri áritun V. S. A. sendi mér um leið tvö brot úr erindum um Wilson, mundi ekki eftir hverja þau voru, mæltist til að ég þýddi, hann væri, sem sé, að rita um Wilson. Ég kvað 2 erindi til Vilh. Vissi ekki, hvar hann væri að hitta. Sendi A. þau og bað hann að koma til skila. Gat þess um leið, að hann mætti koma þeim í „Kringlu“. Við þýðingarnar sagðist ég ekki myndi eiga að sinni, enda væri sá galli á, að þar væri kveðið í einum þessum nýja-stíl, sem mér væri ófimur — og það var satt. Auk þess, sem þú varst áskynja um, fékk ég enn miða frá A. á vesturleið hans, mig minnir einhvers staðar af skipsfjöl. Þar segir hann mér, að vísurnar hafi hann sent V. S., en látið þær ekki í „Kringlu“, og mæltist til að mega geyma þær í ritgerð, sem hann ætli að semja um Vilh., og það leyfði ég honum. Þetta eru öll okkar viðskipti. Hann hefir ætíð verið mér hlýlegur — en, ég aldrei skilið hann til fulls, fundizt hann furðulegur á sinn hátt, og sama kom fram hjá sveitungum hans, Akureyringum, þegar ég var heima um árið, og svo ég kveði þó vægt að orði, en hann var þá þar nokkuð nýlega um garð riðinn. Sú rakalausa grunsemd hefir einhvern veginn í mig dottið, að þar væri „fiskur undir steini“ æ og sí, og að fiskurinn væri A. sjálfur, sem ekki væri þó glöggur á lag né leyni steinanna — og ég nærri skammast mín þó fyrir svona getsök um mann, sem hefir ekkert nema vel við mig mælt — en, get ekki að henni gert, og því „viðrað fram af mér“ — og fyrirgefðu nú svona „langa stöng í svona lítilli grýtu“. Ég vildi segja þér með sanni mína hlutdeild í rithöfundar-skap A., ef skrif hans einhver kæmi út, svo að á mig yrði þar minnzt.

Eitt þarf ég að segja þér. Við höfum verið að hálf-kvíða!!! skuldakröfu frá „Kringlu“ fyrir grein séra Péturs um

Kristinn heit., sem „Kringla“ prentaði upp úr „Lögbergi“. Séra P. ritaði þetta að ósk Laugu systur og með mínum vilja. En ekki er frændsemi Hannesar Marinós og Kristins heit., né kennsla Kristjáns heit. skálda, frá okkur komin. Um þetta vitum við ekki. Hitt er víst, að Hannes, afi Marinós, og Guðbjörg, móðir Laugu systur, voru systkin. En *það* er ekki efnið: „Lögberg“ heimtaði $3.65 fyrir eftirmælið, sem því var borgað. Frá „Kringlu“ hefir engin krafa komið. Er þetta orðinn siður? Það vitum við ekki, nema hvað sagt er um „Lögberg“, að sumir dánir kaupendur þess hér hafi orðið að borga jafnvel $5.00 fyrir viðlíkt, enda eru þá komin síðustu forvöð að hafa nokkurn hag framar af gömlum kaupendum! Þetta eru nú smámunir, en gaman hefi ég að vita þetta, og „Kringla“ er eins velkomin að, í öllu baslinu, að fá sitt, eins og „Lögberg“, hafi hún tekið upp sama sið. Og spauglaust að tala, kann nú að vera fótur fyrir honum, eins og ástæður eru.

Svo hætti ég að sinni að vaða elg við þig, og vertu heill og sæll.

Þinn einl. Stephan G—.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 3. apríl 1926.

Góðvinur. — Nú skal koma og fara fáorður! Ég þarf aðeins að svara því, sem þú inntir að síðast: Jú, ég skildi feginn skildinga saman í Björgvins-„budduna“ hér, í byggð okkar, væri ég fær og fleygur til flakks og hefði von um árangur — en, ekki fyrst um sinn. — Veður er vont sem stendur og útlit þess eins, enn um tíma. Og þarnæst held ég það yrði erindisbót hér að hinkra við, ef svo kynni að takast, að ríflegur listi ykkar eystra sæist í íslenzku blöðunum, þar sem B. er þekktur, áður en tilraun væri hafin „hér hjá oss“. Ég skal lofa að hafa það í huga og koma einhverjum á stað, ef ég get — en, miklar „smáskammta-lækningar“ yrðu það, og við *litlu* að búast. í bezta lagi.

Ef ég skil rétt, eru „Helga“-100-dalirnir sami „lækna“-hrekkurinn, sem Brandson gerði um árið, þegar hann lagði séra Birni til 100-dalina til að byrja með hermanna-„Minnisvarðann“ fræga, hér á „styrjaldar-árunum“ okkar! Ég óska, að „Helga“-hundraðið boði betri „enda-lykt“.

Bréf fékk ég frá B. Hann var ánægður með þuluna undir Grýlu-laginu. Ég er *ánægður,* úr því hvorugur ykkar hneykslaðist. Mér er þá nóg. Og ekki kvað [ég] svo sem ég gerði sökum þess ég óttaðist um „þrákelkni" B. Ég kynntist honum „í svip" fyrir nokkrum árum og gerði mér sama grun um hann þá, sem þín „þekking" fullyrðir.

Leggur um hérað hreta
Hrímkaldan súg,
Vetrar verrfeðrungur
Vortíminn er nú.

Ég vona og vil:
Sé vorylur til,
Að þér geri hann góðra gesta skil.

Vinsaml. Stephan.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 8. apríl 1926.

Fá orð í flýti, góður! Mér þótti skylda mín að fara nú að láta þig vita „hvað gengi", úr því þú fórst að taka þig fram að senda mér meðalið. Og hérna er það: ég hefi notað það nokkuð í 2—3 vikur og er svipaður, kann þó að vera, að „sviðinn" sé minni á nóttunni. Annars fylgir þessu ýmis armæða, sem von er um minn aldur. Ég hripaði núna upp nokkrar línur á ensku um heilsufar mitt, og spurningar tvær eða svo. Datt í hug, hvort þú kynnir að vilja senda dr. Tómasi það með meðmælum ykkar, systur þinnar eða þín, sem eruð honum kunnug. Svo man ég heldur ekki áskrift hans, en hefi gaman af að sjá, hvað hann segir, ef hann svaraði. Þetta er nú aðal-erindið ....

Séra Rögnv. og dr. Pálsson hafa fyrir löngu æskt, að ég kæmi austur og sýndi mig „lærifeðrunum" þar. Boðizt til að sækja mig hingað og sjá mér farborða fjármunalega. Séra Rögnv. vildi fyrir löngu, að ég reyndi „sérfræðingastofnun" langt suður í ríkjum, sem þykist hafa lækningu við þarmabólgu (innspýtingu), og ég hygg það satt vera. Það hefði kostað líkl. um $500.00. Enn hefi ég ekki þegið neitt, en lofað „upp á æru og trú" að gera aðvart, ef breyttist til ins verra, að mér fyndist. Ég skrifaði samt þessum Bandaríkja-græðara, sagði honum, hvað sagt væri, að að mér

gengi, sem sé þrútinn þarma-kirtill, og spurði hann, hvort hann treysti sér til við þess konar, ef það væri nú mein mitt. Hann svaraði mér vel og kurteislega og sagði, ef svo væri, að það gengi að mér, ætti hann ekki við þess konar. Skeð gæti samt, að ég skryppi austur í sumar, ef allt leyfði, og við sama stæði — og „þá er sagan öll!“

Þökk fyrir stöku þína til „Lögbergs leirskældunnar“ — og góð var hún til Björgvins, sú sem hann fékk. Nú hefir lengi verið hér vetrar-, en ekki vorlegt: hret og frostvindar, og rosaveður enn í dag —

Úti þó stormarnir steyti
Sturlaða menn,
Allt verða sól-heimar senn:
Hólar og lægðir og leiti —
Sem þér öllum hlýindum heiti!

Vinsamlega Stephan G.

PS. Skyldi svar koma frá dr. T. og hann setja upp fyrir svarið, ábyrgstu í bráð og sendu mér upphæðina af „reikningnum“, smáa sem stóra.

Sami.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 26. apríl 1926.

Góðvinur. — Gleðilegt sumar! Fyrir nokkru síðan ritaði ég þér langa „þónbjarga-rollu“ út af kvilla mínum. Veit ekki, hvort sú áníðsla hefir náð til þín og sakar lítið, þó svo hafi ekki orðið. Enn ætla ég þó á kvabbið að bæta: Getur þú útvegað mér annan „kútmaga“ til af þessum „Tómasar-rjóma“ — sama smyrslinu sem þú sendir? Ég hefi notað það. Það hefir að vísu ekki „læknað“ mig enn, en eftir lengri „brúkun“ finnst mér það „virkilega vera“ það, sem mest er til bóta af öllu, sem ég hefi reynt, en það fer senn að minnka í bauknum. En blessaður, ef þú gerir þetta, segðu mér, hvað „útgáfan“ kostar. Ég veit ekki „áskrift“ Tuma né nafn á heilsubót hans.

Í óskapa flýti, vinur. Stephan G.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 3. maí 1926.

Góðvinur Jakob. — Kem bara til að segja þér, að í fyrra kveld fékk ég stóra bréfatösku frá Tómasi doctor. Þakka

þér og Steinunni kærl. fyrir. Ég hafði gaman af sendingu karls. Þar kenndi ýmsra góðra grasa og óvenjulegra, en öll voru þau hlýleg, skynsamleg og rauplaus, að mér fannst, en nokkuð sitt úr hverri átt, og bara betri og broslegri þess vegna. Í vélrituðu skjali talar hann ögn um kvilla minn, kýs að ég komi til skrafs og ráðagerða, segist hafa furðanlega „stundum" lappað upp á heilsu ýmsra, en ekki *lækni* smyrsli sín, en séu þó eins mikið til bóta og allt þess konar, sem sér sé kunnugt. Segist hafa von um, að kunna kannske að geta „lengt daga" mína, komi ég til sín. Reiðir sig mest á rafmagn sitt. En — geti ég ekki komið, skuli hann leggja mér þau ráð, sem hann kunni, „í mat og drykk" o. s. frv. og sem ég mælist til. Sendir nokkrar venjulegar læknaspurningar. Enn hefi ég ekki komizt til að svara, segi ef til vill, að kannske komi ég seinna í sumar.

En ið bezta er eftir, hann sendir líka kveðskap og heimspeki eftir sjálfan sig. Þú hafðir æst hann upp í það með að senda honum „Andvökur" að gjöf. Með meiri ástæðu en margir aðrir ber hann sér um skilningsskort sinn á málinu hjá mér, því ljóð hefði verið sitt yndi og sjálfur hafi hann fengizt við þau ögn; tvö kvæði eru þar eftir hann: *„The Fatalist"*, sem sé sú kenning, að allt sé örlögum háð, og *„Death"*, eins konar karlmannlegt velkomuminni að fara með honum, kveðja farsælt líf og gagnsamt og hvíla í gleymskunni (eða afvitundarleysinu, öllu heldur). Efnin eru ágæt, en mælskan minni — enda á hann aðstöð við enskt mál. Ég held karl sé kominn út af Tómasi postula, sé írskur að ætt eins og við Íslendingar sumir.

Blessaður. Þinn Stephan.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 10. maí 1926.

Góðvinur. — Líkl. hefir þú fengið kvabb-bréfið, eitt enn, frá mér. Hér með sendi ég þér aftur þinn „Tómasar-pistil". Þökk fyrir hann. Rétt búinn að svara karli. Ýmislegt tafði — jafnvel gestur, sem kom. Ég segi karli sem svo, að ef ég geti við komið, kunni ég að koma til Winnipeg í sumar, kannske þá síðari hluta næsta mán. Mér hefir flogið það í hug, en er þó óráðinn. Nú veit ég hvar bréf hitta „Tuma" og get sönglað við hann sjálfur, ef það dettur í mig; svo

hefi ég „gert mér hann í hugarlund“ af skrifum hans og skáldskap, sem hann sendi mér. Hann er gáfaður og „glúrinn“, hugsana-fastur og hrein-skilinn, segir margt með sannindum, sem ekki mun falla við allra fjöl, og kennir þar margra grasa, og fleiri en tómra „lyfjagrasa“. Hann trúir á forlög, neitar frívilja — og mun rétt vera, að öllu athuguðu — eða: orsök og afleiðing, og röð og reglu í tilverunni, allt lögmál væri annars lygi. Hann trúir á eilífa tilveru manns, fyrir og eftir feigðar-stund, sem er nú aðeins sú kenning, að aldrei hafi neitt af engu til orðið, né geti að engu orðið. Og ekki verður nú nær komizt, að mig grunar. Þó getur hann *guðs*, og læknar líka með *bænagerð*. Ojæja, allt má ímynda sér, jafnvel sína eigin heilbrigði, séu taugar manns og vit nógu til-leiðanlegt, — að minnsta kosti um stund! Ennþá kann enginn hugum um að hyggja, hve mjótt sumum verður milli sanninda, sem þeim eru ný, en ó[nóg] grein fyrir gerð, og berrar hjátrúar. Til þess leiðir sumt sem þó eru *sannindi* í, kannske ekki „kennarann“ sjálfan, en lærisveina hans. Það er hættan!

Vorönn byrjaði hér nokkuð seint, en orðin úrkippalaus, að þessu. Gróður með bezta hætti á þessum tíma árs, þó. Rekja nóg frá haustinu. Fyrirfarandi daga svalt og skuggalegt.

Nú er eins og yfir vofi óveður —
Skera mætti úr skýja-rofi skóleður!

Ég bið að heilsa heim til þín, og nafna mínum helzt, svo læt ég þig smá-vita, hvað setur. Minna get ég ekki borgað áhyggjur þínar út af mér!

Fyrir vildar-viljann þinn:
Gangi ei af þér gróandinn!

Eins og vant er, með fáum kveðjum en einlægum.

Þinn Stephan.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 11. maí 1926.

Góðvinur J. P. — Þökk fyrir bréf þitt ið síðasta, sem dregizt hefir að svara. Annir og kenjar heilsu minnar hafa sífellt „riðið mig af baki“. Seinna segi ég eitthvað, gefist

mér færi á, sem ég *ætla að búast við.* Líka ætlaði ég að segja þér „sólarsöguna“ héðan af samskotunum til Björgvins vors. Læt það líka „bíða betri tíða“ — enda get ég einu sinni ekki ennþá sagt, hversu *lítil* þau urðu.

Það er miður dagur og ég rétt risinn úr bælinu. Vakti í mestalla nótt, oftast á flakki með kvilla minn. Það hefir nú viljað til stundum áður. Ég hefi aldrei haft mikla von um Wagners kraftaverk á mér, og um annarra aðeins það: „að ske kunni“!

Gegnum vin minn, Jakob Normann — þú munt kannast við hann — hefi ég komizt ögn í „bréfarabb“ við Júlíus karl P. Thomas á *Thomas Sanatorium* þarna í Wpg. Sjálfsagt munt þú um hann vita meira margt en ég. Ég veit, að hann er lögleysingi, óskrásettur „skottulæknir“ hér í Canada — líklega „fimbulfambari“ samkvæmt læknalögum — á þeim hefi ég aldrei haft átrúnað, eða hefi enn, ég gæti það ekki, ég sem efa svo margt, sem góðar heimildir þykja fyrir! En þó get ég ekki sökum minnar fáfræði fyrir-svarið, að karl hafi stundum bætt t. d. þarmabólgu. Annars gumar hann ekki við mig. Ræður mér samt til að koma. Segir, að ekki sé víst, að hann kunni ekki að vinna mér bót með matarhæfi og einkum *rafmagni.* Hann kvað aðeins heita manni því, hvorki að „kodda“ manni né auka á eymdir manns. Ég sé, að karl mun teljast til „sérvitringa“, fremur en „sérfræðinga“, vitnað í það, sem venjulegt er. En í „trú“ og „heimspeki“ sinni er hann eitthvað annað en „orthodox“. Hann er þar nærri „leiðum að líkjast“, sem sé: sjálfum mér! Ég les það út úr kvæðum og hugvekjum, sem hann hefir sent mér, eftir sjálfan sig. Ég veit, að jafnvel þar kann að kenna kenja hjá karli, en þó svo væri, myndu þær aldrei mig saka. T. d. ég myndi borða munnbita af „hráæti“ hjá honum (að minnsta kosti) mér að meinalausu. En væri of „vantrúaður“ til „að lækna mig sjálfur“ með „bænagerð“. Ég hefi sagt karli nú í seinasta bréfi, að ef til vill kunni ég að koma til Wpg., þó ekki hafi ég „ráðið mig hjá honum“.

Bréfsefnið er nú þetta: Ég hefi lofað þér og séra R. að láta ykkur vita, ef mér versnaði. Mér er *ekki* að batna, og þessi ógerð í mér er að þreyta mig og afmenna. Ég bjóst við, að af mér kynni að brá, svo ég yrði ein-ferðafær

— og er það nú líklega, nema fyrir ragmennsku mína, að ég kynni að komast í krappt kast á leiðinni.

En nú skal ég koma, að mér uppi standandi, og ef þið viljið, og sé svo, ráðið þið R., hvernig og hvenær, og látið mig aðeins vita áður — eftir ykkar hentugleikum allt. Ég held ekki, að þetta sé svo bráðlátt, né mikið „mannkaup“ í „hánni af mér“, nú orðið, hvort sem er. — —

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 19. maí 1926.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Hjartans þökk fyrir sendinguna og bréfið, komið í gær. Ég er nú aftur frískari, að hætti, en ég var síðast, er ég skrifaði J. P. bréfið, sem þú sást. Samt ætla ég að koma austur, jafnvel þó ég verði svo brattur, að ég þurfi lækna við til að verða veikur. En ekki liggur á að leggja af stað, fyrr en J. P. er þægilegast. Annars trúir þú tæplega, hversu mikið ég sé eftir ykkur í ómök og fjáreyðslu. Á hinn bóginn, er milli steins og sleggju metnaðar míns og hins, ef til vill, að gremja þá sem vilja mér vel með því, sem líkist því, að ég fyrirlíti boðin bjargráð. En ekki meira um það. Ég ætla að koma. Finnst, að ég jafnvel eigi önnur erindi líka.

Já, Rögnv., mér kom ekki á óvart, að þú eigir í mörg horn að líta nú, slíkar sem aðstæður eru — og er þó víða að rofa til, og gaman er að lifa það þó, að sjá bjarma í lofti. — —

(Höf. lauk ekki við bréfið; fór til Winnipeg daginn eftir, samkvæmt áður gerðri ákvörðun, stakk því á sig og afhenti það móttakanda.)

*Helga Stephansson.* Winnipeg, 45 Home Str., 4. júní 1926.

Góða mín. — Ég fékk bréfið þitt rétt áðan. Skrifaði ekki fyrr, sökum þess, að ég gat ekkert sagt af sjálfum mér til gagns. Hefi verið undir rannsókn læknis míns, Baldurs Ólsonar, á hverjum degi og oft tvisvar á dag, síðan ég kom, X-geislaður margsinnis, o. s. frv., en hann lauk skýrslu sinni um það fyrst í gær. Þá var hitt, ég ætlaði ekki að láta mikið á því bera, að ég væri hér staddur, svo engin að-

sókn gengi á af þeim, sem mig þekkja, en það tókst ekki, bæði blöðin íslenzku náðu í það, gátu þess, og þið munuð hafa séð, að ég náði hingað heilu og höldnu, fyrr en þó ég hefði skrifað, og það var nú allt, sem ég gat af mér sagt ....

Á „spítala“ hefi ég ekki komið, en hefi á hverjum degi orðið að sýna mig, og stundum oftar sama dag, á byggingu, sem læknar hér eiga í samlögum og heitir *Medical Arts,* reglulegt völundar-hús af lækna-skrifstofum og þess konar. Séra Rögnv. tekur mig þangað í bifreið, og stundum hefir Baldur læknir minn keyrt mig. Hann og allir eru mér góðir, framúrskarandi góðir. Tvær íslenzkar telpur, aðstoðartelpur lækna, ekki „nurses“, hefi ég rekizt þar á. Þær fóru að tala við mig íslenzku að fyrra bragði, annars hefði ég ekki vitað, að þær voru íslenzkar .... Ég er ekki verri en ég var og alltaf á ferli sem fyrr. Hér er ég í foreldrahöndum að öllu leyti eða betur. Aðeins fellur mér illa fyrirhöfnin og átroðningurinn, sem ég geri, en ekki má ég nefna það. Ég hefi látið draga nokkrar tennur. Læt líklega draga allar, áður líkur. Tannlæknir minn er bróðir Baldurs, Jón Ólson, ungur maður en nærri heyrnarlaus, nema fyrir áhald, sem hann hefir á öðru eyranu. En dregur svo vel, að ég get varla sagt, að ég hafi vitað af því, og án þess þó að nota nema meinlaust deyfingarlyf — hvorki *cocaine* né þess konar. Þetta er þá lækningasagan, svo stutt sem ég get sagt hana — en löng og leiðinleg samt! Sem sé: það er ýmislegir ræflar í mér orðnir, en engir bráð-banvænir, að öllum líkindum — get enn orðið „allra karla elztur“. Hvenær ég losna héðan, veit ég enn ekki. Baldur sagði mér í byrjun, að hann yrði að halda í mig 3 vikur minnst! T. d. á þessi *Nurse* að vitja mín hér víst tvisvar enn. Ég hefi engar áhyggjur enn um kostnaðinn, sem ef til vill verður hár, úr því ég fór út í þetta. Aðrir „borga brúsann“ með mér. Ef til vill verður hann líka vægur. T. d. sagði Baldur mér, að X-geisla læknirinn (dr. McMillan) hefði lofað sér að taka ekki neitt fyrir sitt starf, sem var mikið, hvað sem úr því verður. Hjúkrunarkonan, sem kom í dag, setti upp ein 75 cent, og spurði mig samt, hvort mér þætti það ekki of hátt.

Fáa hefi ég heimsótt enn, en margir hafa boðið og beðið mig. Ég hefi komið til Gróu Brynjólfsson. Hún býr hér í inu gamla húsi þeirra Skafta. Er bæði heilsuveil og þreytuleg. Elur aldur sinn við að hjálpa hjálparþurfum. Leigir nokkur herbergi til annarra, það munu hennar mestu inntektir. Hún er ekki rík. Hefi komið sem snöggvast til Árna Eggertssonar. Verð að koma þar aftur. Hefi lofað að koma til Gísla Jónssonar, Þorsteins Borgfjörð og Arngríms Jónssonar. Hann heimsótti mig í gærkveldi. Er nú 68 ára gamall. Var nærri frá í vetur. Hefir „High Blood Pressure". Magnús læknir Björnsson Halldórsson gerði hann góðan. Og hann kvað hafa læknað fleiri af sama kvilla. Hann er þó í ónáð hjá hinum læknunum hér og getur ekki átt við þá neitt saman að sælda. Hann mun ekki alls-ánægður, að ég komi ekki til sín. Ekki vegna þess, að hann sæi fjárvonir í mér, heldur hins: hann er mér velviljaður! Ég var við jarðför í dag með Rögnv. og konu hans, frá útfararstofu Bardals, út í Brookside, 4 mílur utan bæjar. Sá, sem jarðaður var, hét Þórður Jónsson. Hann þekkti ég ekki. Hann var alkunnur hér í fyrri daga, hélt þá gistihús Íslendinga hér. Var í frændsemi við Borgfjörðs fólkið, sem er vinir mínir. Margt fleira gæti ég skrifað. En læt það bíða, svo klórið komist sem fyrst í póstinn. Bið að heilsa kærl. krökkum og Laugu, og klappa þér á kinnina í kveld, þó langt sé að seilast, og vertu nú sæl!

Karlinn þinn klóraði þetta.

*Helga Stephansson.* Wpg., 45 Home Str., 7. júní 1926.

Góða mín. — Ef svo er, að Rósa ætlar suður til Dak. um þessar mundir, vil ég þið vitið, að von er til, að Jonni og Jónas Hall komi hingað bráðlega, fékk línu frá Hall rétt áðan, því viðvíkjandi. Þar væri góð samfylgd. Nú, ef svo væri, sendið *strax* hraðskeyti hingað og Rósa vindur að að búa sig og koma, í snatri. Ætli hún ekki, þarf engu að svara, og skeytið aðeins að vera eitt orð, „coming", eða eitthvað þess leiðis. Annars minnir mig, að sama verð sé á 5 orðum, sem einu. Það er það „bölvað baks" að stíga yfir „línuna", að Rósa þyrfti hjálp einhvers hér. Annað ekki gerandi. En þarna væri bezta tækifærið,

sem fengizt gæti, og ólíkt skemmtilegra en vera ein á ferð.
Ég er nýbúinn að senda þér langt bréf, og hefi því engu við að bæta að sinni.

Vertu sæl góða! Karlinn þinn.

*Helga Stephansson.* Winnipeg, 45 Home Str., 14. júní 1926.

Góða mín. — Ég fékk bréfið þitt rétt áðan, ritað 10. þ. m. Beztu þökk. Þótti vænt að vita, að allt gekk bærilega, að undanskildu því, að þú hefir langt of mikið að gera, eins og ég vissi, öldruð og slitin. Það er ótækt, einkum ef Rósa fer. Þú verður blátt áfram að fá ykkur einhverja hjálp — t. d. það hlýtur að vera hægt að fá eina telpu Baldurs, nú þegar skóli er enginn, þangað til hann byrjar aftur, að minnsta kosti. Borga sæmilegt kaup, hvenær sem við höfum cent. Annað ekki bjóðandi, og þú mátt reiða þig á, að alltént verða einhver ráð með það. Engan kvíða þarft þú að hafa um peningaleysi mitt. Ég flýt alltént og alls staðar. Bara, fáið einhverja hjálp, hvernig og hvern sem þið viljið eða fáið, þá hjálp sem þið helzt viljið, hvað sem hún kostar — og þangað til ég kem þá heim. Mundu það nú!

Rósu er ég nýbúinn að skrifa og sagði henni frá, að Fjóla frænka hennar fer héðan suður til Dak. *ekki* seinna en 3ja næsta mán. Rósa ætti nú að hraða sér og ná hingað fyrir þann þriðja. Samfylgd sú væri góð og líklegt, að náð yrði í fjórða-júlí hófið einhvers staðar syðra, þó ekki viti ég, hvort það stendur til, en reynið þið að koma þessu fram og látið mig vita, *hvenær* Rósa kæmi þá. Ég sæi um, að móti henni yrði tekið við stöðina hér og komið til Emmu, svo allt yrði auðvelt.

Jonni og Jónas fóru heim aftur í morgun. Séra Rögnv. vildi fá Jonna til að vera í dag, og ætlaði að fá mynd tekna af okkur körlunum þremur saman á beztu myndastofu í bænum. Emma vildi fá pabba sinn til að vera svo sem viku hjá sér, en Jonni var ófáanlegur, og var ekki nema firra þó. Hann er býsna brattur og líkur sem fyrr, þó að taugaskreppingurinn sæki oft á hann. Jónas er orðinn framúrlegt skar, svo mér ofbauð.

Á laugardagskveldið vorum við, hjónin hér og ég, í

heimboði hjá Árna Eggertssyni, fram yfir kl. 12. Þar var margt manna. Fæst þeirra var mér kunnugt, en nokkrir þó. Þar var gleðskapur góður, veitingar rausnarlegar o. s. frv., því Árni er inn mesti höfðingi heim að sækja og allt óþvingað. Ræður haldnar. Hall lék lög, og Sigríður kona hans og Mrs. Stefánsson (in rússneska) sungu eins og svanir og voru víst vel fyrir kallaðar, og hlífðu ekki röddinni, sízt Mrs. Stefánsson, sem söng á íslenzku. Hún hefir rödd, þó hvorki sýnist hún stór vexti né fríð, býsna feit með undirhöku (og svo er Mrs. Hall líka), og báðar orðnar aldraðar að útliti og „maddömulegar". (Rétt kominn frá tannlækninum. Þorvaldur keyrði mig, eins og oft áður, langan veg.) Í gær borðaði ég miðdegisverð hjá Emmu okkar. Hjálmar þá heima. Engir við borðið nema heimafólkið, Jonni, Jónas og ég. Síðan kom Þórey þar, sem við þekktum á Garðar. Orðin ellilegri en þá, en líður ágætlega. Á heima hjá gömlum hjónum enskum — faithcuristum — sem fara með hana eins vel og sjálfa sig. Hefir lengi átt þar heimili. Emma vildi, að ég kæmi aftur fyrir kveldverð, en ég afþakkaði. Fór til kirkju með fólkinu hérna. Hjá Emmu áttu þá að vera í boði séra Björn og Líndal Hallgrímsson. Annars á ég svo mörg „boð boðin", að þó ég komi ýmsum af, fjölga þau samt fremur en fækka. Gísli Jónsson annað kveld, og Arngrímur einhvern tíma, Bárður Sigurðsson, Björgvin, Guðmundur Eyford, fólk sem ég varla þekki, eða þekki alls ekki, o. s. frv. Jonni vildi endilega, að ég kæmi suður, áður en ég færi. Engu lofaði ég, en veit ég ætti að gera það, ef ég entist til. Sama er að segja um ferð til Nýja Íslands, „norður að fljóti", til Guttorms míns Guttormssonar.

Fyrir miðjan dag í dag fór ég með séra Rögnv. að fylgja á lest Straumfjörð þeim, sem blöðin hafa um getið, og konu hans. Ungur maður. Kom til skólagöngu. Hafði verið skorinn upp heima við „fistula", sem tók sig upp hér. Brandsson skar aftur. 18 mánuði (að mig minnir) undir lækna- og hospitals-hendi. Maður félaus. Bati enginn. Séra R. hefir nú setið í því daglega í 3 daga að koma þeim hjónum heim svo, að landssjóður hér borgaði, og vel með þau farið. Loks tókst það nú.

Af mér er það að segja, að eins og þú sérð, er ég býsna

frískur. Að sumu leyti skárri, að ég held. Það hefir allt komið fram um heilsu mína, sem mig hafði grunað sjálfan, ef útskýring Baldurs er rétt, og ég hefi aldrei búizt við, að hann né nokkur annar gerði mig að „nýjum manni“, en hefi gaman af að reyna, hvort hægt sé að gera mig að „betri manni“, og að því er stefnt. ,

Innan stundar er von á dr. Gíslasyni frá Grand Forks hingað. Hann er hér í bænum staddur og þeir vinir, séra R. og hann, og kemur til kynnis. Ég hefi aldrei séð þann pilt, svo ég viti. Sprettuhorfur við Garðar voru illar fyrir þurrkatíð þar. Jonni sagði, að ein vika lengur skúralaus myndi nær eyðileggja hveiti. En ég hefi síðan frétt, að rignt hafi við Mountain, kveldið eftir að Jón fór að heiman hingað, en veit ekki um Garðar. Heilsaðu krökkunum og Laugu systir, góða mín, og vertu blessuð og sæl!

Karlinn þinn.

Ég gleymdi því! Í gær kom Jón Tómasson, prentari við „Kringlu“, og gaf mér góðan og dýran lindarpenna, „fyrir allt, sem ég hefði gert fyrir sig“ (meinti víst kvæðin mín), því hann hafði ég ekki áður séð og ekkert fyrir hann gert.

Karl.

*Grímur S. Grímsson.* Winnipeg, 24. júní 1926.

Grímur minn góður. — Kæra þökk fyrir blöðin. Af mér er það að segja, að ég er orðinn nærri tannlaus, og verður ekki við það hætt, fyrr en ég er „sléttumgóma“. Er alveg á valdi ýmist læknis eða hjúkrunarkonu, eða kvenna, því þar lenti ég út í eins konar fjölkvæni — og á heima hjá séra Rögnvaldi, og er alls staðar í systkina höndum. Heimsótti Lögberg í gær. Átti hrókaræðu við ritstjórann, sem þeir kalla Guð-Finn, en nefnir sig Finn Jónsson. Séra Jónas Ari hitti mig þar, hrifinn af að fá að taka í höndina á mér!!! — Og Einar Páll og Hermann gamli eru eldri kunningjar. „Bíldur brá sér út“, en bað mig bíða sín, hann kæmi aftur fljótlega, — en mig brast þolinmæði að bíða þeirra „afturfunda“. — Allri fjölskyldunni virtist vel líða. „Kringla“ er víst „allslaus“, nema af frjálslyndi og glettni, alveg eins og allir öreigar eiga að vera. Heilsa mín er

líklega orðin við heldur betra. Margt kvað að mér ganga, allt ólæknandi, en stendur til bóta, og engin ástæða til að segja fyrir víst, að neitt af því drepi mig, segja læknar mér. — En dýr eru meðölin hérna! En við læknana sjálfa geri ég ekki upp reikninga fyrr en í síðustu lög. Ég er í einhverju heimboði á hverju kveldi, og í sífelldum lífsháska að éta og drekka yfir mig. Ekki veit ég, hvenær ég „vendi mínu kvæði í kross“ heim aftur. Ég læt „doktorana“ ráða því, og vertu nú blessaður!

Þinn Stephan G.

*Helga Stephansson.* Winnipeg, 26. júní 1926.

Góða mín. — Ég hefi skrifað mörg bréf til ýmsra heim, en lengi ekki fengið nokkra línu frá neinu ykkar, en svo kann hún að koma á hverri stund. Ég sit hér nú í herbergi mínu, allur upp-dubbaður (eins og skáldkonan sagði um sig, hún sem vonaði, að „góður guð gæfi sér hann Pétur“!). Ég fer kl. 2 í dag með Hannesi Péturssyni til Gimlis í bifreið hans. Nú er kl. um 11. Á Gimli verður haldið kirkjuþing unitara, fyrstu daga næstu viku, og í dag er þangað sunnudaga-skólabarna skemmtiför. En ekki er það erindi mitt, heldur hitt fremur: Þangað kemur Guttormur „skáldi“, og hann kemur ætíð, viti hann af mér í Winnipeg, og biður mig sífellt að koma norður til sín, en ég aldrei gegnt því. En nú ber vel í veiði með það. Kem hingað aftur líkl. um miðja viku. Ég er á sífelldu ragli til tannlæknis á daginn. Þær eru nú 3 eftir þó. Í heimboðum á kvöldin. Ég kemst ekki undan því. Var hjá Ólafi lækni Björnssyni (Péturssonar) í fyrra kveld, hjá Magnúsi lækni Halldórssyni í gærkveldi, og komst ekki heim hingað fyrr en kl. 4 í morgun. Auðvitað gat ég komizt fyrr, hefði ég beðið þess. — Aldrei hefi ég verið svona seint á ferli áður, oftast þetta frá kl. 11 til að ganga eitt. Hjá læknunum var fámennt. Hjá Ólafi: Magnús læknir, Sveinn Björnsson, læknir í Árborg N. Ísl., séra Rögnvaldur og ég. Hjá Magnúsi: Borgfjörðs hjónin, Halldórs ritstjóri og stúlkan hans, Rósa Hermannsson söngkona, Stefán Scheving og ég. Það er etið og drukkið, sungið og lög leikin, venjulega mest rabbað og allt hæversku-laust. Rósa Pétursson, ekkja Óla heit-

ins, var á ferð frá Wynyard til Garðar hér í gær. Sonur hennar, sem með henni var, kom hingað í húsið. Hann kvað þeim líða vel. Skeð getur enn, að ég fari suður. Ólafur læknir hér ætlar suður, geti hann mögulega losað sig. Fer í bifreið sinni og bauð mér að vera með sér. Hængur er þó á, sá, að dr. Gíslason í Grand Forks vill endilega, að ég komi þangað, „þó ekki væri nema einn dag", og heimsæki sig og tengdaföður sinn, séra Hans Thorgrímsen. En ekki veit ég, hvað ég geri. Er saddur af heimboðum, en svo er hitt: Þetta kunna að verða síðustu forvöð að koma til ýmsra, sem (þrátt fyrir allt) þykir hálf-vænt um mann, og því er hart að neita.

Heilsufar mitt svipað og var, en engu verra. Baldur segir mig vera á batavegi. Hann ætti að vita það. Rannsakar þvag og blóðólgu, við og við, þegar við hittumst á læknastofunum — en það er með höppum og glöppum, hann úti um bæ að vitja. Vertu nú sæl, góða mín, og heilsaðu krökkum og Laugu systir.

Karlinn þinn.

*Helga Stephansson.* Winnipeg, 5. júlí 1926.

Góða mín. — Alltaf hefi ég verið að smá-senda línu og býst við, að Rósa skrifi líka, eftir að hún kom suður, þó ekki hafi hún skrifað mér enn. Hún sendi þér línu héðan, sama daginn og hún kom. Ég kom sama dag frá Gimli og Árborg, eftir að hafa setið Kirkjuþing Sambandsmanna, sem endaði á heimboði í hallarsal Gimli-búa, mjög fjölmennu. Margar ræður haldnar, sungið og leikið á hljóðfæri. Ég var þar „heiðursgestur" nefndur og margt til mín talað, af velvild en óverðskuldað, og ég ónýtur að svara, svo vel væri, hálfþreyttur og illa fyrir kallaður, eins og oftar, en ég held, að allir fyrirgefi mér, þó mér förlist, og ég kemst ekki hjá þessu.

Veður er að batna aftur hér, stundum all-heitt í veðri, en ekki aftaklega enn. Gróðrar-fréttir úr sveitum góðar, nema úr Nýja Ísl. Þar er sára-rýrt fyrir ofþurrka.

Ekki hefi ég fengið öll þín bréf. Rósa sagði mér frá einu, fyrir víst, sem hvergi hefir komið fram.

Nú voru síðustu „gemlurnar" dregnar úr mér í gær, og er gott að vera laus við það. Þær voru bjargfastar, svo

þessi „tannfellir“ minn, Jón Ólson, varð að beita allri orku, og með hvíldum, og vildi þó vægur vera. Enn hefi ég ekki gert samning um nýja tanntöku. Ég hitti líka lækni minn, Baldur. Eftir rannsókn hans var niðurstaðan sú, að nýrun væru orðin furðu góð, en blóðólgan ekki minnkað að sama skapi. Betri en þegar ég kom fyrst, en meiri en þegar hún var minnst. Bólgan í endaþarminum segir hann að engin merki sjáist til að sé „krabbi“ og segist trúa því, að sér takist með tíma að verja því, að hún vaxi ekki, og eins þessi blóðþrýstingur, en muni ekki verða læknað, og við bata bjóst ég aldrei. Er stundum lasinn á ýmsan hátt, eins og áður, og þreyta segir hann að mér sé skaðlegust af öllu. Allir eru mér góðir, og séra Rögnvaldur og kona hans bezt. Ekki veit ég enn, hvenær ég hverf heim, en vil koma eins fljótt og ég mögulega get losazt frá vinum og vesöld minni. Vertu blessuð, góða mín.

Í gær „vatnsfastaði“ ég. „Doktor“ lagði svo fyrir, dag í viku. Heilsaðu frá mér fólkinu okkar.

*Jakob J. Normann.* Winnipeg, 12. júlí 1926.

Góðvinur. — Bara fáar línur að láta þig vita, að ég er enn á róli og kreikur sem fyrr, að sumu leyti talinn í framför, þó hitt fari sem ég bjóst við, að aldrei verði ég smíðaður upp, nýr af nálinni, því það væri ofvaxið öllum mannlegum möguleik, en læknir minn, Baldur Ólson, heldur, að hann geti eggjað mig til varnar í óákveðna tíð enn, og ég efa það ekki, tekst það líklega, nema ekkert yrði úr fyrir ófyrirséð slys. „Lærðir og leikir“ eru mér svo góðir (þeir, sem ganga mín megin múranna), að betra gæti enginn á kosið — og þá er sú litla saga sögð. Í dag heimsótti ég Tómas dr. þinn, minn og almennings! Gat það ekki fyrr — „allur upptekinn“, nærri dag og nótt. Til engrar skuldar taldi hann hjá mér. Þú hefir líkl. borgað hana. Hann sendi „heilsubætur“ sínar jafnvel heim, eftir að ég fór, en ekki ílendist ég hjá honum þetta sinn, enda er ég tannlaus í bráðina. Ekki veit ég, hvenær ég sný við blaðinu heim, en þá kem ég við hjá þér, með fyllri fréttir. Þetta er bara málamynd. Ég er að hugsa um að skreppa til Dakota nú á næstunni. Kemst varla hjá því, og upp úr því,

sem fyrst, vildi ég ganga í vesturátt, segjum eftir svo sem tvær vikur hér frá, en svo, ég ræð mér sjálfum tæplega.

Blessaður og sæll, þangað til!

Þinn Stephan.

*Helga Stephansson.* Winnipeg, 13. júlí 1926.

Góða mín. — Í morgun fékk ég bréf frá þér (9. þ. m.) og Rósu. Þökk fyrir. Mig var farið að lengja eftir þeim. Býst við, að Rósa hafi skrifað þér. Af mér er sama að segja. Ég er „frískur“ eftir von. Fann Baldur lækni í dag. Hann mældi að venju .... Ég á að vera í boði hjá þeim hjónum annað kveld. Ekkert vill hann taka fyrir sína hjálp. Eins gerir Jón Stefánsson, sem hefir tvisvar verkað eyrun, en þeim verður ekki við hjálpað nema með hljóðaukum, og þeir, sem að gagni eru, kosta $40.00—$60.00. Svo því sleppi ég að sinni. Nú eru loks allar mínar tennur dregnar. Það kostaði $25.00. Þessi meðöl hér eru ákaflega dýr, og eru þó eiginlega ekki meðöl. Ekki lofar Baldur mér bata, sem ég heldur ekki bjóst við, en hitt kvaðst hann vona, að geta komið í veg fyrir, að mér versni æði-lengi enn. Ég veit, að til meira má ekki ætlast, og það heldur hann að takist heima, með sömu reglum og hann hefir haft við mig hér, ef ég reyni ekki á mig .... Í lok þessarar viku er ég að hugsa um að skreppa til Dakota, verði ég brattur, helzt með bifreið héðan, fái ég ferð. Ekki vil ég vera þar lengi, en koma aftur fljótlega, og halda af stað heim eins fljótt og ég get viðkomið, en í Wynyard verð ég að hafa dvöl, kannske í viku eða svo. Tannlæknirinn bauð mér bráðabirgða tennur fyrir $45.00 og taka þær svo aftur fyrir $10.00 eftir nokkra mánuði upp í viðvarandi tennur, ég afþakkaði. Verð sléttumgóma þangað til, ef ég kaupi tanngarða eftir að ég kem heim. Þó sagðist Jón ekki færa vöruna fram. Þetta væri verð tannsmiðanna sjálfra. — Líklega eigið þið *verra* heima en ég, eins og þú segir, en þrátt fyrir allt, kysi ég þó fremur að vera við heilsu heima en lasinn hér í heimboðum. Þið Lauga verðið að hætta umstangi. Það er hægt með lagi, svo „örm“ erum við þó ekki! Það er bara barlómur. Á gamalmennahælið eigið þið ekkert erindi og komizt af með minna en þar þarf að borga. Enginn mun þar viljug vera hreppakerling né -karl. Jú,

að vísu mun þar vel farið með gamla fólkið, eftir ástæðum. En ekki er þar skemmtilegt, innan um veika og suma vitvolaða, og ögn er þar óræstið — eða svo virtist mér. Sigríði er farið að líða betur. Heilsa skárri. Býr í herbergi heldur þröngu, með steinblindri kerlingu. Sigurður vestur við haf. Hefir reynt í tvo mánuði eða meira að komast suður í Bandaríki, til San Francisco eða Los Angeles, man ekki hvort, — en hefir verið gerður afturreka sem komið var, en ég held fyrir klaufaskap, að kalla sig Íslending, en ekki canadiskan borgara, eins og hann er. Annar Ísl., sem ég kynntist hér og ætlaði suður til Dakota, fór sömu för.

Ég rausa ekki lengra í þetta sinn. Geymi ögn þangað til ég kem heim aftur. Bið þér blessunar, og að bera kveðju mína þeim, sem næstir eru.

Karlinn þinn.

*Helga Stephansson.* Staddur hjá Jonna, 18. júlí 1926.

Góða mín. — Ég kom hingað í gærkveldi kringum kl. 11. Með mig keyrðu í bifreið frá Winnipeg séra Rögnv. og kona hans, með þeim var Ólafur „litli", en Ólafur „stóri", bróðir séra Rögnv., stýrði, og með honum var Filippus sonur hans, fullorðinn piltur. Þegar hingað kom, var Hjálmar og Emma nýkomin með krakkana alla. Fara heim aftur í dag og dóttirin með, vegna skóla. Rögnvaldar-fólkið fór til Halls. Rósa var hér fyrir. Fer líkl. með Rúnu vestur. Ef til vill bíð ég eftir henni og verðum samferða til Wpg. aftur, og hún skreppur þaðan til Gimli, og förum svo saman vestur og heim, en stöldrum við í Saskatchewan.

Ég fer suður til Halls innan stundar til að kveðja Rögnvald, sem fer heim aftur í dag.

Ég frétti lát Sigríðar hjá Rósu, en giftingu Ófeigs hafði ég séð í grein Jóhanns. Hér líður öllum vel, en fremur er spretta öll rýr. Hagl-skemmdir æði víða í Manitoba, á leiðinni suður, en hér baga þurrkar.

Heilsa mín er hér um bil söm — ögn bláþráðótt, en þvælist

Þú skrifar mér næst til Winnipeg, og [ég] sendi þér línu, þegar ég flosna þaðan upp. Líkl. skrifar Rósa þér um allar matar-hátíðir og dansa, o. s. frv., því það er sjálf-

sagt saga. Þegar við komum að Garðar í gærkveldi, varð þar ekki þverfótað fyrir margmenni og bifreiðum, „bara dans“. Sama var í Cavalier, nema enn meira um að vera — bæði lúðrasveit og uppboð. Þvílíkar þó laugardags-samkomur! — Nú bið ég þá að heilsa og hætti í bráð.

Vertu blessuð, góða.

Karl þinn.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* St. að Garðar, 22. júlí 1926.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Í gær var ég gestur hjá Árna Jóhannssyni. Meðan ég tafði þar, barst Árna miði frá séra Albert, sem lýsti yfir, að hann myndi messa á Hallson kl. 3 e. m. næsta sunnudag, og að Mountain að kveldi sama dags. Mér flaug þegar í hug að fá far með honum til Winnipeg, það bæri svo vel í veiði og yrði öllum ómakslaust. Að vísu veit ég ekki, hvort hann kemur „bifríðandi“, en býst við því. Ég hyggst að hitta hann á Mountain og „messa mig“ þar hjá honum, og ef til vill fleiri af fjölskyldunni! — en leið er fátæktin, að eiga ekkert til að láta skíra né gifta. Það sér á, að maður er að gerast gamall! Nái þessi miði til þín í tíma og komi séra A. við hjá þér um leið og hann strýkst suður hjá, gerðu svo vel og gettu um þetta við hann. En hvort sem er, ómakaðu ykkur ekki hingað eftir mér. Það er of mikið í borið, og Jonni aftekur það, segist keyra mig til Pembina, eða hvert sem þurfi. Jú, ég vissi það! Þú myndir vilja sækja mig til himnaríkis, ef þú héldir, að ég væri þar vegalaus, og enga fyrirhöfn spara. Þökk fyrir alla þína umhyggju. Ég fer að venda við —.

Um Selkirk-ferð er mér svona um og ó, en ekki annars vegna en leti, því löngu síðan lagði ég þann löst af að vera mannfælinn, hvað þá nú, þegar vinir og frændur eiga í hlut, hvað sem guðfræði, stjórnfræði og mannasiðum líður. Ég „fresta því atkvæði“ í því máli í þetta sinn, með fullri þökk fyrir gott boð í bráðina.

Ég er í klípum með að gera það, sem þú skilaðir til mín frá dr. Gíslason. Við höfum ekki töluna á heimili hans í Grand Forks, hvorki húsi né síma. En, enn kann það þó að lagast og leggjast til. Þangað gæti ég engan ómakað nú með mig. Allir nú í önnum. Uppskera á að byrja.

Góðvinur. Alúðar-þökk fyrir bréf þitt, og afsökun fyrir dráttinn að segja þér hana. Heima-annir og héraðs-fundir, ýmsir, taka frá manni hverja tómstund hér, og verst kringum vetrarhátíðirnar. Það er hræsnis-laust, að bréf þitt gladdi mig, en ekki þó fyrir metnaðarsakir. Það er svona: mér er annt um sum efnin í ljóðum mínum, án þess að eg kalli þau hugsjónir, af því eg hefi traust á þeim, en alveg er það laust við, að eg þykist af mínu smíði á þeim.

Vel getur skeð, að við eigum eftir einhverntíma að hittast. Reyndar held eg, að eg sé eldri en hvað eg er af mér genginn enn, þó enginn garpur verði eg.
Skilaðu kveðju til Guttorms J. G., ef þið hittist.
Vertu svo sæll, og gangi nýárið þér til góðs.

Vinsamlega,

Stephan G. Stephansson.

*Rithandarsýnishorn.*

*Upphaf og lok bréfs til Jóhannesar P. Pálssonar, 12. jan. 1917.*

Mér líður vel, sem fyrr. Ætt mín hér er ykkur þakklát fyrir alla meðferðina á mér.

Með kærri kveðju, þinn Stephan.

*Grímur S. Grímsson.* Winnipeg, 28. júlí 1926.

Góðvinur Grímur. — Eiginlega er þetta bara þökk fyrir „Nation", og fleiri blöð, sem þú hefir sent mér sífellt og ég fengið með góðum skilum hingað, og svo þetta: Ég býst við að leggja upp heimleiðis síðast í næstu viku. Kemst ekki héðan af burt, fyrr en eftir Íslendingad. Ég er boðinn þar, og þó: hjálpi mér sá, sem vanur er, og hitt líka, að „heiðursgestur" sé ekki skyldugur til að þenja kjaft, vildi og heldur hafa sloppið við slíka stórmennsku — en „la-go" — það er nærri lítilmannlegra að renna af hólmi, þó *sýningar-pallur* sé. Að vísu býst ég við að tefjast á vesturleið í Saskatchewan, en ef þú sendir mér blöð framvegis, þá sendu það heim til mín, héðan af — þú tekur þetta samt ekki svo, að ég sé að minna þig á að halda áfram að stinga bita upp í mig. Ýmislegt mætti segja, ef við sætum saman og þú gætir „rakið úr mér garnirnar", en allt er þó mörlítið, sem á þeim hangir, og verður að bíða sláturstíðar. Ég kom til Nýja-Íslands og sat kirkjuþing, — er nýkominn frá Garðar, var þar viku o. s. frv. Er sífellt þetta slarkfær, en sjaldan jafngóður sem væri ég frískur, en ef til vill betri að sumu leyti — heilsan þetta „af og á", eins og við er að búast, þegar skrokkurinn er orðinn skrifla-búð.

Svo brýt ég nú blað, og vertu blessaður.

Vinsamlega Stephan.

*Helga Stephansson.* Winnipeg, 28. júlí 1926.

Góða mín. — Ég kom hingað til séra R. kl. 2 næstliðna nótt, í bifreið með séra Albert, sunnan frá Dak. Hann messaði þar á Hallson og Mountain næstliðinn sunnudag, og sætti því færi að komast með norður. Maður Lilie frændkonu fór sama dag og ég hingað með hana vestur til Mouse River, Clara og Rósa. Líklega kemur Rósa hingað til Wpg. um næstu helgi. Fer ef til vill snögga ferð til Gimli, svo

verðum við kannske samferða til Elfros, en héðan kemst ég ekki fyrr en síðari hluta næstu viku.

Jonna og Guddu mun hafa fundizt eyðilegt heima hjá sér, þegar allir gestirnir þeirra voru um garð gengnir. Þau, Mundi og Ása, fylgdu mér til Mountain. Þar tók séra Albert við mér. Hjá Hall var ég eina nótt og tvo daga. Heimsótti á Garðar Sig. Sigurðsson, Jósef Walters, Völu gömlu og Samúelsson-hjónin og Guðm. Davíðsson, öll sem snöggvast. Býst við, að Rósa lýsi fyrir þér gestum og heimafólki Jonna.

Við séra A. urðum vegatepptir hingað. Bifreið hans bilaði um 10—12 mílur vestur af Carman. Komumst þangað með manni, á leið til Winnipeg. Máttum lengi bíða þar, unz við fengum viðgerðarmann, og svo eftir aðgerð. Fórum frá Carman um kl. 12. Þaðan 158 mílur til Winnipeg. Komumst það á tæpum 2 kl.tímum, að töfum frádregnum. Við fórum gegnum Valhalla, Haskett, Brown P.O. Morden, og svo frv. Valhalla og Haskett eru tollhús, sitt hvorum megin línu. Því þurftum við þar um að fara. Í Brown-byggðinni komum við að húsi, að spyrja til vegar. Þar kom til dyra íslenzk kona, sem eitt sinn átti heima að Garðar. Miss Bergmann þá. Nú Mrs. Helgason, kona drengsins, sem eitt sinn sat gripina með Geira Olgeirs, á hryggnum og kringum land fiska-Jóh. heitins, þegar við bjuggum þar. Þau mundu vel eftir okkur, og hún telur sig í ætt okkar, og mun vera rétt. Einkum mundi hún vel eftir þér. Hitar gengu í Garðar. Ofþurrkar nokkrir. Held þó uppskera nái nálægt meðallagi. Sláttur á engi langt kominn. Kornskurður að byrja. Meira regn og betri spretta við Mountain og Hallson, þangað keyrði ég með Jonna og Jóni K. Ólafssyni, þingmannsefni, einn dag, þeir til Cavalier, ég til Árna Jóhannssonar vinar míns, bróður Eggerts.

Ég er viðlíka til heilsunnar. Sízt verri. Margt væri fleira að segja, sem ég læt bíða nú, og vert svo þú og þið öll blessuð. Tvö bréf frá þér las ég hér í nótt, áður en ég háttaði. Þakka fyrir. Karlinn þinn kveður þig svo.

*Helga Stephansson.* Winnipeg, 9. ágúst 1926.

Góða mín. — Bara til að láta þig vita, að við ætlum að halda heim á leið annað kveld, og ef þeim reikningi skakkar ekki, og ég sé varla von til þess, þá verðum við í Saskatchewan um miðjan dag á sunnudaginn kemur, en hvað lengi við tefjumst þar, get ég enn ekki sagt. Ég hafði ætlað að leggja upp héðan í nótt, en hætti við. Í kveld er kveðjuheimboð hér, mörgum boðið, heilum húsfylli, og ég þekki nú orðið, að þau geta orðið nokkuð halalöng kveldin. Í gærkveldi var ég í einu slíku hjá manni, sem ég ekkert þekkti, Halldóri Ástralíufara. Við séra R. komum heim um kl. 4 í morgun. Þjóðræknisfélagið kvaddi mig með stóru samsæti í Sambands-kirkjunni og $125.00 gjöf í gulli í fyrrakveld. Annars mun „Kringla“ lýsa því eins og öðru því, sem mér vill til, svo sem „öðrum“ ágúst. Rósa kom hér áðan, er nýfarin til Emmu, kemur kannske aftur í kveld, henni var boðið það. Okkur líður vel. Mér hefir ekki orðið meint við flakkið. Ögn þreyttur og syfjaður stundum, í bráðina bara.

Svo fjölyrði ég ekki lengra í þetta skipti. Rósa, eða ég, skrifum líkl. frá Sask. næst. Biðjum að heilsa, og vertu svo blessuð. Þrátt fyrir alla dýrð og dálæti, hlakkar *karl þinn* til að koma heim.

PS. — Tómas Jónson, ráðherra sem var, veiktist austur í Ontario. Var fluttur veikur heim og rúmfastur. Í gær lagður á hospítal. Illkynjuð innyflaveiki sögð að honum ganga. Aðrir kalla það sár eða mein í görnum. Var eitthvað skárri, en versnaði aftur í gær.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Elfros, 11. ágúst 1926.

Vinur —

Kyrrahafs hvalur brautar
Kastað mér úr kláfum
Hérna hefir. Horfin er ei
Eilíf spámanns-öldin!

Líður vel, milli vonar og ótta *héðanfarar* og *heimkomu.*

Kveðjur mínar beztu. S. G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 23. ágúst 1926.

Góðvinur.

Ég hef' hallazt helzt að því
Horfna tíð að dreym' um,
Viku legið lúinn í
Leti og þagnar heimum,

því hefi ég ekki skrifað þér fyrr en þetta, þó illt sé til afspurnar! Fyrirgefðu! Ég veit, að þetta var ómaklega gert — þeim, sem er jafn annt um mig og ykkur, vinum mínum í Winnipeg, og hér með bið ég að heilsa þeim öllum, með þökkum fyrir glaðar minningar! Ég kom heim heill á húfi, sem áður, þann 15. næstl þ. m., ögn volkaður og hálfþreyttur eftir allt „svallið“, sem líklega var ein þessi „guðsgjöf“ á sinn hátt, meðan maður var aftur að venja sig við þögnina og fásinnið. Það verða allir „einmana-legir“ fyrst, sem koma úr álfheimum! T. d. engir hollvættir, sem bera mann á höndum sér um foreldra-hús og bræðra-borg, vakinn og sofinn, en velkominn, — enginn „arnfleygur hugur“ að „sveima“ með né láta „vængi síga“ hjá — enginn Sigfús, sem heldur ræðu, Ragnar, sem „spilar“, né Rósa, sem syngur — né margur annar fögnuður, og samt verður sá vinheimur varanlegur, unz allur dagur er uppi, og sú eilífð er næg. — Jafnvel hér heima er mér enn fært gull að gjöf, hyski mitt og hérað heilbrigt, í glaðviðri og góðum vonum. Heimurinn hérna getur verið dýrlegur, svo von var, þó Matthías okkar væri ósólginn í nein „hnattaskipti“, þetta sinni sem við sáumst, þó hann byggist við, að sætta sig við það! Og þó er það ömurlegast, hvað lítið það er, sem „liggur eftir mann“.

Þetta er nú orðin ósjálfráð skrift, því ekki lagði ég upp til að „messa“! Fréttir eru engar, svo eitthvað varð að þylja í þeirra stað.

Þegar heim kom, átti ég full skúma-skot af bréfum og blöðum, heiman og handan, sem flest er ótilgert enn. Ég verð að fara að taka rögg á mig! Er ekki mest andlegt líf á Íslandi nú í heimi vorum: *„Stúdenta-vikan“, tímaritið tilvonandi:* „níu mæðra mögur“, eins og Heimdallur, sem sé: fósturbarn allra færustu vitringa okkar, sem uppi eru nú, sem þora að hafa „sína kredduna hver“ og vinna samt

saman. Það nærri því eins mikið fyrirbrigði eins og að „Lögberg“ skyldi kannast við það nýlega, að allir Vestmenn geti orðið samtaka stundum! Þá er deila Kvarans og Nordals afbragð, og tímans tákn. Í mínum augum er manna-munur þeirra, sá sem sífellt verður, munurinn milli töku-trúar og sjálf-ala sannfæringar, og lán var, að þeim „lenti saman“.

Meðan ég man: Var það ekki eitthvert tölubl. af „Skuggsjá“, sem þig vantaði í safn þitt af henni? Ég hefi gleymt númerinu, en skal gá að, hvort ég á það — eða, var það úrfellir í öðru riti en henni? Láttu mig vita.

Nú er ég að verða uppiskroppa af mælgi í bráðina. Gestagangur um kofann og afkomu-von með miðann á pósthúsið „*strax*“.

Blessaður nú og allténd. Þinn Stephan G.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 24. ágúst 1926.

Góðvinur. — Þökk fyrir síðast og allt gott, áður og þá, þér og þínu heimili, og kærar kveðjur okkar til kunningjanna allra í þínum heima högum. Erindið mitt er nú ekki annað en það sem minnst má vera, að láta þig sjá, að ég er slysalaust heimkominn og hefi slarkað allt af enn þá, og heilsan viðlíka. Ég var eftir mig nokkuð þessa fyrstu viku, hálfþreyttur og dasaður, nennti engu, og því kem ég ekki fyrr en þetta. Á fyrir liggjandi æði margt óanzað, sem safnaðist fyrir, meðan ég var á húsganginum. Ég vinn það upp með tímanum, þó nú sé ég orðinn nokkru smátækari á pennanum en ég var á betri „duggara-bands árum“ mínum. — Tíðin góð, en ögn vætusöm í bili dag og dag. Spretta viðunanleg, einkum á hveiti, ofþerrir nokkur fyrr í sumar dró eitthvað úr. Aðal skakka-fallið mun það, að hveiti mun hafa frosið til skemmda meira en fólk grunaði, að ég hygg. Held samt, að það hafi sloppið að mestu hjá okkur hérna. Sláttur á því byrjaður þó nokkuð á okkar ökrum. Annars varla almennt enn. Flestir hafrar seinir og grænir. Mínu hyski líður ekki illa. Svo er þá allt sagt í þetta sinn, Jakob minn.

Það er smátt í þessu klóri,
Þar er einhver deyfð, sem letur!

En einhvern tíma — ef ég tóri,
Ætla ég að gera betur.

Og vertu marg-blessaður! Þinn Stephan G.

*Vilhelm Pálsson.* Markerville, Alta, 28. ágúst 1926.

Góðvinur Vilhelm. — Þökk fyrir allt að „fornu fari“, og þessa „sjón í svip“, nú síðast. Það hefir hlotið að vera hrekkur forlaganna, að þú skyldir þurfa að koma hingað, einmitt þegar ég var *ekki heima,* sem sit þó lengst af á sömu þúfunni, nema þá sjaldan sem það dettur í mig að gerast snöggvast „allra-sveita“ kvikindi. Þá var hitt ekki síður hastarlegt, að *ég* skyldi heldur ekki álpast til að heimsækja þig á dögunum, eins nærri og lá þá, að úr því yrði. Verst er, að það get ég engum kennt, nema sjálfum mér. Ég hafði heitið víða við að koma og átti sums staðar erindi, tók lengur en ég bjóst við, ýmsir ekki heima, svo uppgefa varð eða tvítaka. Gáði þess of seint, að þú varst kannske *óvissastur* heima að hitta, eftir ástæðum, þú á þönum við að gera við girðingar Dunnings! Ég mátti vita það, en tók það ekki í reikninginn, fyrr en of seint, jafnvel þó dr. Pálsson minnti mig á það undir eins og ég kom, að hann ætlaði að flytja mig til þín, hvenær sem ég kysi. Mér fannst ég eiga þig alltaf vísan heima! Þú veizt nú, hvernig þar fór. Ég hefi víst verið búinn að flakka mig til fávita! Ég hafði heitið mér að komast heim, eins og ég gerði, svo ekki var um annað [að] gera en senda þér mína „confessió“, og við báðir að heita því, að í næsta sinn skuli Skuld ekki slysa okkur svona, því mörg sporin ætlum við að eiga eftir enn — vertu blessaður!

Nenni ekki að fást við það, sem fréttir kallast, til þess þarf ólatari mann en mig! Er hálf-ruglaður enn, eftir þessa ringul-reið, og varð feginn að „setja mig niður á þúfuna“. Það er sagan um „sterku beinin“, sem þarf til að þola „góða daga“. En óskemmdur er ég, sem væri annað hvort, og sjálfsagt betri maður, þó ekki veiti nú af ennþá!

Blessaður vertu, vinur minn —
Vona ég það að tóra:

Að vanti ei „rollu“ í „rekstur“ þinn
„Réttadaginn“ stóra!

Ég á við þann 14da, verði veröldin ekki „forgengin“ áður.
Ætíð sæll, Vilhelm minn! Þinn Stephan G.

*Elisabeth Ruhr.* Markerville, Alta, 28. ágúst 1926.

Góða vina. — Beztu þökk fyrir bréfið þitt, dags. 12. þ. m. Mér hefir löngum komið á óvart, að ljóðin mín svokölluð ættu unnustur í ýmsum áttum og mér alveg ókunnugar, en það hefir víst viljað til stundum. Um það ber bréfið þitt vitni, og víst ætti þeim að vera ánægja í, ef þau vissu um, að konum þyki vænt um sig. — Af mér er það að segja, að það hefi ég þeim hæst hugsað, að þau kynnu, þrátt fyrir ýmsan andhælisskap sinn og misskilning annarra, þó að verða einhverjum örvun til gamans eða gagns, þá og þá, svo vera kynni, að betur væri þó farið en heima setið í því að leyfa vinum mínum, sem kostnaðinn klufu allan, að ráða því, að hafa þetta á almenningsboðstólum, þó mér sjálfum fyndist, að sú týra mætti liggja undir mælikeri til endaloka, öllum að skaðlausu. Kannske hafa þeir haft réttara fyrir sér en ég, eftir allt saman, úr því þér og fleirum hefir fundizt, að „Andvökur“ hafi orðið sér stundar-styttir. Annars var ég sífellt að söngla við sjálfan mig, en hugsaði aldrei um aðra, né bjóst við, að þeir skeyttu, hvað ég væri að tauta, sízt að nokkur gæfi aleigu sína af gulli fyrir það, né streittist móti stormhörku til að fá að heyra farið með það á mannamótum.

Oft hefi ég það sagt, að þá væri ég ánægður, að einhver hefði haft viðlíka unun af einhverju í vísunum mínum eins og ég að gera þær, meðan á því stóð.

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Magnús Hinriksson.* Markerville, Alta, 29. ágúst 1926.

Góðvinur. — Þökk fyrir gott, æfinlega, og síðast fyrir heimboðið og samsænginguna [í] grasinu í garðinum í Winnipeg, undir trjánum, á búi barnanna þinna þar.

Lengi var það að brjótast í mér að heimsækja þig á vest-

urleið, þó ekkert yrði úr því, eins og oft vill verða með ýmsa góða ásetninga okkar mannanna. Ég var orðinn af mér genginn af of miklu eftirlæti og heimfýsi — hálfþreyttur af ferðavolki. Svo var hitt, ég hefði þurft að staldra við hjá þér einn-tvo daga, ef ég kom á annað borð, en hafði tæplega tíma til, þar sem dóttir mín var líka að heiman, og kona mín og sonur ein heima, en of mikið að gera. Ég hitti Jórunni dóttur þína í kveldboði hjá séra Rögnvaldi, rétt áður en ég fór frá Winnipeg. Við bárum þetta í tal og bað ég hana að bera þér kveðju mína, ef hún ritaði þér bráðlega. Hún sagði sem var, að nú værir það þú, sem ættir að bregða þér vestur hingað, til að lyfta þér ögn upp sjálfum, ef ske kynni. Við höfðum nú líka sjálfir fallizt á það, okkar í milli, þegar við lágum í Lindals-túninu, ef hentugleikar yrðu til.

Bærilegt útlit með uppskeru. Korn þó rýrara en við var búizt, þegar bezt blés í sumar, ýmist fyrir þurrk eða frost. Uppskera hafin almennt og veður ekki óhagstætt, þó væta komi dag og dag.

Heilsaðu konu þinni frá mér, og vertu blessaður og sæll.

Vinsamlega Stephan G.

Séra R. skilaði mér dyggilega boðunum til mín í bréfinu frá þér. S. G.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 30. ágúst 1926.

Góðvinur Grímur. — Þökk fyrir blöð þín og bréf, og allt annað gott. Mér hefir skilað aftur á heimahagann, eins og þú sérð. Ég var á höndum borinn alls staðar eystra, og munt þú hafa haft „smérþefinn" af því í blöðunum. Ég var nærri friðlaus maður vegna „velvildar" manna, þó hitt eigi sér oftar stað um þá, sem „leggjast út". Hálffeginn að komast heim. Var orðinn lúraður. Heilsan er, held ég, skárri, en ýmis bölvun situr í mér enn, sem vinir mínir vona, að ég kannske láti betur undan með iðjuleysi, lyfjum og löngum tíma, föstum, o. s. frv. Því ekki réði ég mig hjá þeim „meistaranum", sem bætt hefir á mig *bænagerð*, en það er „Sanatóríu"-Tómas í Winnipeg, Bandaríkja sérvitringur, eða sérfræðingur, lengra fram. Annars er ég yfir höfuð sjálfum mér svipaður enn

Ýmislegt mætti rabba, værir þú hérna hjá mér, en er óvinnandi verk á pappír. Verður að bíða þeirra tíða, þegar þú ert við, til að minna mig á. Uppskera að verða almenn. Spretta viðunandi. Talsverðar skemmdir, bæði af frosti og funa sólar í sumar. — Erindið var nú að biðja þig að koma miða til Snjólaugar, hér með samferða. Hún skrifaði mér um bók, sem ég léði henni handa Skram heitnum, en hún skilaði mér bundinni, en gleymdi heimilis-númeri sínu á bréfinu.

Karlinn sem að klæðir þig
Ketsæll enn mun vera —
Allteins þó hann o'ní mig
Ekkert þurfi að „skera".

Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 22. sept. 1926.

Góðvinur Grímur minn. — Mér datt í hug, að ég ætti að láta þig vita, að von er Jakobínu Johnson hingað til Markerville, annan næsta mán., að sögn, til að lesa hér eitthvað upp eftir sjálfa sig. Annars býst ég við, að þú hafir þegar frétt það, jafnvel að hún komi við hjá ykkur, t. d. geri vart við sig hjá frú Salverson. Þær eru „stöllur" eða „Collegar", svo ég tali menntamanna-mál. Annars veit ég ekki um þetta, nema á skotspónum. Jakobína kvað hafa skrifað kvenfélaginu hérna, og það tekið málið að sér. Gaman, gætir þú komið, án illhrifa, ef „Bína" fer fram hjá ykkur. Mig grunar, að vinir hennar og venzlafólk í Winnipeg, t. d. séra Rögnv., Gísli Jónsson o. fl., séu hvatamenn — en óvíst á ég það. Hvað um gildir, hún á skilið, að för hennar yrði góð. Nú væri líka þörf á hátíð hér, ef nokkru sinni, hraukar og hálfslegnir akrar aftur undir snjó í þrjá daga, hvort sem upprof byrjar einhvern tíma í dag. Um að gera þá að bjóða ótíðinni byrginn, þegar verst blæs, en örðugt er það, því illviðra-orðbragðið inni er ekkert ófúlla en slyddan úti.

Til þess að hafa úr sér hrollinn
Hentugt væri að slá sér í sollinn.
Gráar geitur í kollinn
Gefið hefir sumrinu skollinn.

Ég skrifaði „Snjóku“ sérstakan miða falinn þér, að „Búrfelli“. Ætlaði á, að þú bættir á húsatölu og sendir svo í bæjarpósti. Líkl. ekki komið í „búrið“. Jæja, skaðlítið.

Hér er allur heimurinn
Hulinn myrkri og vetri —
Sé þér, góði Grímur minn,
Glaða sólin betri!

Stephan G.

*Jón Jónsson yngri.* Markerville, Alta, 8. okt. 1926.

Góði frændi, þökk fyrir síðast. — Bréf frá þér nýl. komið. Kem bara til að láta þig vita, að við séum öll uppistandandi og bærileg. Tíð hefir verið framúrskarandi örðug. Slætti rétt nýlokið, því sem náðist. Víða frosið. Rétt nýbúið að þreskja hveitið hjá Baldri og okkur Jak. Við Jak. fengum um 1400 mæla — auðvitað ekki óskemmt — en víða lakara, og óséð hvernig selst. Uppskera orðið afbragð, hefði tíð ekki spillzt. Eigum alla hafra óþreskta enn og bygg, þresktum aðeins 4—5 æki af höfrum, nýbrot. Mikið korn í, en auðvitað frosið nokkuð. Nokkuð mikið lagðist með blettum, og í lægstu bollum, en náðist þó vonum framar yfirleitt. Síðan veit ég betur. Tíð batnaði ögn með október. Rignir þó enn öðru hvoru og útlit úrfellislegt.

Heilsa mín er ógóð, en ekki afleit. Geri ekki nema snúninga. Nú vann ég ekki í uppskeru — í fyrsta sinn. Tók móti korni inni í hálfan dag og lifði það af. Þóttist skratti hnellinn. Yngri menn, sem reyndu sama verk styttri stundir, báru sig engu betur. Jakobína Johnson, skáldkona, er nýfarin héðan austur um á upplestrarferð. Hún kemur í ykkar hérað áður líkur. Ég veit, að þið vinir mínir við Garðar takið vel við henni. Hún á það skilið, skáldmælt vel á bæði málin okkar hér, prúðkvendi og vel menntuð, á alþýðumanna vísu, því ekki er hún skólagengnari en sveitakennarar hér, þó kynnzt hafi hún mennta-mönnum. Hún hefir lengi haft mætur á mér, og höfum þó varla sést fyrr, að heita má. Seinasti króinn hennar heitir Stefán, og ættin ætti að láta hana njóta þess, að nöfnum í henni sé haldið uppi, það er gert henni að kostnaðarlausu, hvort

sem er. „Bína“ hefir þýtt á ensku „rugl“ eftir mig. Ritað grein um það og lokið á það lofsorði — líklega skrökvað óviljandi, en „enskurinn“ er ekki ofgóður, þó í hann væri logið líka, hann er ekki allténd of orðvar sjálfur, þegar hann segir frá.

Við skulum lengra viðtal hafa, viðri betur,
Og það á að vera þennan vetur.

Helga biður mig að skila kveðju sinni, og svo er mín með.

Vertu ætíð sæll, frændi. Stebbi.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 9. okt. 1926.

Góðvinur Jakob. — Ég á þér ætíð allt gott óþakkað — síðast bréfið og sendinguna. Um það er ekki tiltök að tala við þig né nafna minn. Bara að blessa ykkur í hljóði og hirða allt. Tafasöm tíð hér, fram úr hófi. Heldur skúra-hlé þessa fáu daga af október, en yrjar með köflum þó, og útlit alltaf ótryggt. Þresking þó á veg komin ögn. Uppskera misjöfn mjög. Víða að vöxtum vonum framar, en regn og frost hafa víðast „lækkað risið“ til muna, en óséð enn, hversu úr rætist. Hjá okkur hveitið nýþreskt. Fengum 1400 mæla talsins, en verður nokkuð úrgangssamt, þó ólán sé að, að víða er þó verra. Hafrar okkar bíða enn. Að öðru leyti gengur ekkert „hallæri“ að okkur. Ég alltaf á róli, en lélegur „kaupamaður“, kom ekki í uppskeru þetta sumar, fyrsta sinn í mínu búhokri.

Nú munt þú hafa heyrt og séð Jakobínu skáldkonu. Hún er hér rétt nýl. um garð gengin. Nutum komu hennar of stutt, og annir og illfæri stóðu okkur og henni í vegi. Mig hefir hún gert að „sínum sveini“, það er að segja „andvakandi“ — síðan hún var krakki, en varla höfum við sézt áður — aðeins fá augnablik í „vesturför“ minni um árið. Ég er nú hræddur um, að ég sé „útgengilegastur“ óséður — einkum nú á dögum og í illviðrum!

Segðu nafna mínum, þegar þið hafið önn fyrir þessum óútkomna slæðingi, sem enn liggur eftir mig, að ég hafi að vísu haldið því mest megnis saman, meira til að koma í veg fyrir missagnir síðar, heldur en til sýnis framvegis. Af því ekki er nema eðlilegt, að mín eigin umsjón á því

geti orðið styttri héðan af en hingað til, en á engan hér, sem væri í færum að hirða það, hefi ég arfleitt séra Rögnvald að ruslinu öllu, skjal-lega, og vin minn, Baldur Sveinsson í Reykjavík, að dálitlu. Rögnvaldur gerði þetta fyrir mín orð. Ég treysti ekki né vissi aðra í jafngóðum færum að geyma, né kunnugleik um „dótið“ mitt. Ég hefi þegar afhent honum eitt bindi af gömlum blaðagreinum ýmislegum, flest, nema ið allra-síðasta, í sumar. Svo á ég „Syrpu“ af því, sem um mig hefir verið sagt „upphátt“, og „doðranta“ af „úrklippum“ kvæða minna í dagblöðunum, og hefir Rögnvaldur heitið mér því, að taka við því og geyma, eða koma því einhvers staðar niður, þegar ég risi eða gæfist upp. Ég kunni þá ekki, né kann enn, önnur betri ráð. Hver forlög fyrir þessu liggja, læt ég hann og aðra vini mína sjálfráða um.

Lítið verður „innlegg“ í
„Upptíningnum“ mínum,
Gripnum út' um „borg og bý“,
Bara úr „flögum“ sínum:

Þetta er, sem ég get svarað í bráð, og þökk fyrir umhyggjusemina!

Ég bjóst við þessu með myndirnar! að kvenfólki ofbyði aldursmunurinn og þætti lítið til koma — til þess var nú leikurinn gerður! En bíðum við: Þær eiga eftir að eldast líka, vonar maður! Og þökk fyrir —

Vanskil í viðdvöl
Verður þetta sinn.
Kveðjan mín kyrrsetul
„Kemur samt inn“.

Gangi ykkur allt til góðs! Þinn Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 11. okt. 1926.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Auk alls annars hefir þú nú átt hjá mér ágætt bréf, æði lengi. Svarið dró ég, bæði sökum „sálardoða“ og þess, að ég þóttist vita, að enn værir þú önnum kafinn við ónæðin tvö: kosningarnar og kirkjumálin, auk allra annarra aðkalla. Nú er að vonum ögn á þér létt: Kvaran heim horfinn í kirkjuna og kosn-

ingin kljáð í bráð, og fór sem fór, svo að verra gat þó verið. Þetta lagðist þegar svo fast í mig, að „conservar“ hefðu nú þröskuldað sig svo vel með Meighen og Byng, að ekki væri þeim viðreisnar von. Ég er enginn glæframaður, en þorað hefði ég í „hjólböruveð“, við talsvert ríflegri manns-skrokk en ég rogast með, á spá um líka endalykt, og er ég þó orðinn æði hvílrækinn og gjarnari til að þykja betra að „láta aðra drepast, en að drepast sjálfur“, eins og sveitungi okkar, Sveinn „á fótunum“, þegar hann lét kerlingu sína borða rjúpu-skrokkinn, sem hann þorði ekki að éta sjálfur, af því strákar lugu því að honum, að rjúpan væri hræfugl og óæti. Sú saga getur verið sönn, því hún er þó skagfirzk — og bezta saga er bara „getur verið“.

Hér í okkar reit, við Markerville, gekk allt með „heiðinna manna heilsu“, bóndinn Speekman var kosinn aftur, varla skriðinn úr rúminu eftir löng veikindi og dauðaspár ýmsra, fékk hér yfir 70 atkv. móti 11 „consans“. Einn galli var þó á: öll blöð, sem um það gátu, sögðu hlutföllin 11 móti 22, sem lítið gerði til, því ég trúi því, sem sagt var, að „consi“ hefði tapað ábyrgðarfénu, og kenni ég þó í brjósti um þá, þeir verða öreigar á þessu ansans pólitíska braski sínu áður líkur, ef þeir sjá ekki bráðlega að sér. Að vísu var slys, að Hannes frændi fór flatt. Ég þakka þér og „Kringlu“ hliðhollustuna við hann. Hún var rétt, eins og á stóð. Æ, við hverju er að búast, þegar ungur maður, vel að sér gjör og drengur all-góður, skuli láta flokks-fylgið villa svo um fyrir sér að bendla sig við afturhald í afturför, sem er orðið bráð-feigt. Hannes ætti nú að ganga í flokk framsækjenda einhverra (annarra, auðvitað, en Manitoba-mannleysanna), af þessum höfuðlausa her, og illt er til að vita, að greindir menn og áhugasamir, eins þeir „frændur“ A. og B., skuli verða hamstola af tröllatrú á slík skurðgoð sem Bancroft og Meighen — vera blindir á „bræðing“ — komnir í efsta-bekk aldurs og reynslu. Það er tjón að vera „tvisvar barn“, en eru líklega álög ellinnar sem fleira, sem bagar þá. Sífellt er „Kringla“ „að vaxa að vizku — og náð“, — já, maður þorir varla að hafa seinni hluta fullyrðingarinnar eftir — maður veit aldrei, hvernig sá múgur er „inn við beinið“.

[sem] þar er vitnað til. Nýl. gat séra P. þess við mig, að Sigf. væri „bráðgáfaður", og lygi [væri] það, að hann væri heiðingi. Ég bar þetta ekki af Fúsa. Það held ég, að Hunford heykist á austur-víkingu, og skortir þó ekki heimboðin: í Winnipeg, Selkirk, Gimli — matur á öllum borðum, eins og ég ætti við að kannast! Karl þykist illa treysta heilsunni. Það er ekki af öfund, að mér og fleirum virðist hann karlmannlegri en jafnvel ég, sem þykist þó enn enginn „dauðans-matur". En svo kann það að vera misskilin heilsugæði að vera öðrum ókvalráðari, og að Jónas beri af mér í því.

Tíð hefir á tréfótum gengið í allt haust og enn, til þess að ekki yrði úr þessu ári afbragðs-ár! Sjálfur sit ég sífellt heima nú — í „sóma og yfirlæti" svo miklu, að jafnvel Jóhann minn Björnsson situr með Sigurást sína, og les fyrir henni „stúfinn", sem hann lærði af mér, en ég las yfir Jakobínu, kveldið sem hún var á Markerville, en „Ásta" Jóa á stað í „símann", til að senda mér „koss" með honum fyrir „ræðuna" — alveg eins og ég vildi helzt kyssa hana. Hún átti það fyrr skilið, því ég veit, að hún hefir stundum verið „skjólið" mitt, þegar gustur stóð af Jóhanni á mig, þó ekki hafi hún ætíð við ráðið. En nú er mér varla að verða „um sel" um sjálfan mig! Alls staðar er ég eitur í sveit, jafnvel Jóhann sjálfur að spillast af mér, orðinn þeim auðveldur, „sem mest hefir verið sinni sveit, til skaða og skammar", eins og hann lýsti mér einu sinni. Eins fer tíðin og uppskeran með okkur, á endanum, þegar öllu verður á botninn hvolft, þó hrollur væri í Hunford í síðustu fréttagrein. „Svona eru mínir mágar", kvað Jón heit. Þórarinsson, frændi minn, í orðastað Steins í Stóru-Gröf, um tengdasyni Steins tvo, sem sultur varð í búi hjá. Skagfirðingar hafa sífellt skénsnir verið.

En, svo ég bæti við bullið (þó ekki bæti það úr): mér finnst ég geti ímyndað mér „tvíveldis-kenningu" Nordals svipaða sjálfs mín. Þegar borg manns hefir verið á sandi byggð (eins og *Miami*), og hefir hýst glæfra og ósiðu, sem hún hrynur í rústir yfir, verður maður, jafnvel þó óhagur sé, að klambra saman aftur bjálka-kofa, yfir kollinn. Minn varð nú svona: Alheimur er einn og óskiptur. Ekkert til utan hans, né kemst nokkru sinni út úr honum. Er

í veru sinni hvorki siðaður né siðlaus-hverkynlegur. Illt og gott eru orðtök höfð um það, sem okkur finnst að geri okkur mennina sæla eða ófarsæla. Það „tvíveldi“ er til, og því má ekki sleppa, „tvíveldinu“ í okkur sjálfum, stríðinu eilífa, siðferðis-framförinni. Sigurður getur hafa hrófað sér upp hreysi, líku að laginu til, en sjálfsagt miklu viturlegar viðað í — en „guðfræðistalshættir“ hans og Einars skjótast fyrir skilning manns í aðal deilu-efninu.

Það er nú kannske happlaus einfeldni ímyndunarinnar að bendla Nordal við nokkuð í minni fávísi, enda geri ég það ekki, þó mér hafi hún dugað betur en allt annað. Annars skrifa ég þér svona losalega nú, af því ég get ekki ráðið mér, nema að rugla um eitthvað. Ég er á als oddi svona, af því mér virðist svo víða vera þó „að rofa til“. Enn í dag er drífu-fjúk, með köflum, en það „festir“ ekki eins fastlega eins og fyrr. Eins finnst mér viðra úti í heimi hugsananna.

Hvernig líður heilsu Jóns míns Tómassonar? Hann var framúrlegur — bjóst jafnvel við að komast „undir hnífinn“ í haust. Var Tómas Jónsson fluttur heim af hælinu sökum bata, eða til biðloka?

Bið að heilsa húsinu þínu, og heimafólkinu þínu öllu, jafnvel herberginu mínu gamla í hæðinni, en „einkanlega og sérstaklega“ konu þinni og þér.

Þó á sólu skúra-ský
Skyggi myrkrum sínum,
Mörg eru ljósin ennþá í
Álfheimunum mínum.

Vinsamlega þinn Stephan.

*Jakobína Johnson.* 14. okt. 1926.

*Farar-heillin.*

Heil kemst þú úr hættum öllum!
Heillin mín —
Fylking guðs af gömlum körlum
Gætir þín.

Stephan G—.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerv., Alta, 15. okt. 1926.

Góðvinur Goðormur. — Loksins byrja ég að efna langa ætlun mína við sjálfan mig, þá, að senda þér kveðju mína, fáorða og fréttalausa, með þökk fyrir fornt og síðast og ósk um, að þú látir mig ekki alveg gjalda, hversu illa mér ferst við þig alla jafna. Ég á við, hve stutt ég dvaldi í sumar og kom ekki aftur, eins og mig langaði þó til. Ég er hvort tveggja: „óeirðarmaður" annars staðar en heima hjá minni „andlegu ómegð", og í eins konar „hershöndum". sé ég utan bæjar, verð ég bara flökkukind, sjálfum mér og öllum óþarfur. Ég er oft „standandi hissa", hví fólk er mér svo velviljað, að vilja hafa mig kringum sig, þegar þessi flækings-gáll er yfir mér! En „austur" ætla ég enn að koma, og þá á að verða svo löng viðstaða hjá þér, að hvorki verði „þurrt né vott" leift, þegar ég ríð heim til mín frá þér. Í sumar stóðu líka á mér járn lækna minna, jafnvel kvennanálar hjúkrunar-kvenna og tangir tanntogara — „upp á stund og stað", í Winnipeg. Slíkar voru aðstæður, sem ekki eru þó afsökun nein, að fara svona „kringum þig". Syndir sínar réttlætir maður aldrei, nema maður taki kaþólska trú, en þangað til er ögn karlmannlegra að kannast við þær.

En heyrðu mig! Þú ert ekki afskaplegur að öllu heldur. Lítið hefir þú á þér krælt, síðan þú fékkst „fluguna í höfuðið", sem þú sendir „Kringlu" í sumar. Að vísu var hún góð-galdra fluga, en ekki áttu að hætta öllum töfrum fyrir það. Við verðum að „suða" vetur og sumar, annars missir íslenzkan okkar hérna málið og við verðum öll dauf-dumbar. Sko til!

Meðan vaka vígspjöll ljóða,
Við unz taka rústir þjóða:
Vöggur og Kraki viðnám bjóða!
Verja hrakför málið góða.

Annars hefir nú guð meira en „borgað þér fyrir hrafninn" — sent þér Jakobínu í húsvitjun. Hún lét mig á sér skilja, að skemur en þrjár nætur og þrjá daga yrði hún ekki hjá þér „í kjallaranum". Ég finn það á sjálfum mér, hvernig *þú* mundir „rísa upp", hefði hún búið svona lengi með *mér*, því það hefir ætíð verið fullt svo hlýtt og bjart

í þínum „kjallara“ sem mínum, — það votta allir þeir, sem upp hafa borið sig um óskiljanlegu yztu-myrkrin í gryfjunni minni. — Þegar ég komst heim, var ég sokkinn í þær skuldir, sem ég hefi oftast getað varizt: bréfaskuldir. Enn er ég í þeim mörgum. Báðum, og öllum líklega, skaðlaust. Ég borga minna en ég viðtek og enga vöxtu, og þeir geta ekki „hengt“ mig og verða að gera sér að góðu. — Bið að heilsa í hús þitt — „Bínu“ líka, ef að þið hafið ekki „sagt í sundur“ með ykkur — og utanbæjarmönnum, Baldvin og Sveini lækni, og Guðm., Árborgar-verjum, ef þið „rekizt á“.

Dísir viðs og vatna
Völdu þig fyrir hörpu —
Þögninni þinni að hefna
Þær hafa snöru að vörpu.

Eitt mitt lán ég ávallt tel,
Ef ég veit þér líður vel.

Vinsaml. Stephan G—.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 16. okt. 1926.

Góðvinur Baldur minn. — Nú er orðið „langt til loku seilzt“, sem sé síðasta bréfsins þíns, sem kom í sumar, þegar ég var að heiman, en sem beið mín, þegar ég hvarf heim aftur, í ágúst. Allt kvað nú vera af sama toga spunnið, dyggð og lestir, aðeins tveir endar á sama spottanum. Nú er ég orðinn sá, sem seinni er til svars. Lengi hefir þú sjálfan þig sakað um undandrátt, en mátt nú benda á mig! Ég var allur á tjá og tundri, meðan ég var eystra, og varð því ekkert við höndur fast. Ætlaði að læðast um Winnipeg og grenndina „sem þjófur á nótt“, en íslenzku blöðin þar báru þetta óðara út, sögðu og stöguðu á: „Hann Hjörleifur er kominn!“, eins [og] spáð er um í „Heljarslóð“, og eftir það var ég eins konar allra manna ágangur, auk læknanna, sem voru að „lesa út úr mér bölvunina í mér“. Vinir mínir, Jóhannes Pálsson í Elfros, Sask., og séra Rögnvaldur, ólu þangað til á, að ég kæmi á „skoðunarvöll“, og sóktu mig síðast, að ég sá, að þrjózka var að þverskallast lengur, og hefði ég þó nærri

svarið fyrir að ég væri hálfvirði þeirrar fyrirhafnar og kostnaðar, sem af mér stóð — og það of dýrkeypt samt. Kostnaður var mér að mestu gefinn, og „matur og öl" að auki, og *„ávörp"* (í ofanálag). Svona er að hafa verið „Satans barn", í ellinni kennir fólk í brjósti um mann, fyrir bragðið, og vill gera manni allt gott, og sumir hafa *alla daga sína* verið svo „blindaðir" að gera það. Þú veizt sjálfur um einn!

Þó svona færi fyrir mér með bréfsborgunina, lét ég mig ekki alveg „án vitnisburðar verða". Sama daginn sem ég lagði héðan upp í austurveg, sendi ég þér óbundnar „Andvök." síðari með *krotuðum köntum*, líkt og inar eldri, ef til vill allt óþarft og ekkert í, sem þig fýsti um að vita. En þá verður þú sjálfur að „rekja úr mér" með spurningum þær „garnir", sem þig skortir, ef einhverjar eru. Um leið ætlaði ég að senda þér línu með, en sem ég ætlaði að setjast að því, var Pálsson læknir „vaðinn inn á mig" og rak mig út og austur. Fyrir fáum dögum síðan sendi ég þér enn eitt hefti af tímariti á ensku: *Scandinavia*, sem ekki er nú uppi lengur. Í því var grein um mig, eftir Jakobínu Johnson í Seattle (dóttur Sigurbjörns heit. frá Fótaskinni), sem nú er hér á ferð um sveitir Vestur-Ísl. og les þeim kvæði sín og þýðingar íslenzkra ljóða á ensku, sem hlýða vilja. Síðar lætur þú mig vita, hvort þetta hefir rekið á þínar fjörur, þó lítil agnsemd verði að, enda síður sent í því skyni en hinu, að ég væri uppi enn og „farinn að skammast mín".

Þú minntist á það, sem þú mæltist til fyrr. Engu get ég enn svarað endilegu. Hefi munað tilmælið, en engu áorkað við sjálfan mig. Er í öðrum klípum líka, sem ég sé ekki fram úr, og skal segja þér nánar af síðar — innan árs, kannske. Ég er orðinn bæði hyskinn og verkasmár, og veitti þó aldrei af. „Dísin" orðin kenja-kind, að mér finnst!

Þá þakka ég þér myndirnar af framtíðinni að komast á fót.

Það á að erfa, þetta lið,
Allt þjóðsagnanna framhaldið!
Og æfintýrin okkar,
Sem entumst ei til að ljúka við.

Barnagull manns týnast aldrei öll, hvar sem frá þeim var gengið. — Og þá er ekkert eftir, nema að biðja að heilsa. Hér í byggð hefir ekki „haustregnið þakið jörðina með blessun“, þetta sinn. Sífelldar bleytur og fjúk og frátafir, og ýmiss konar afsláttur á góðum gróðrarvonum, en einhver hluti þeirra hjarir af, eins og vant er. Og víða lítur út fyrir, að fleiri „blettir hafi dottið á sólina“, ef þeim er um að kenna, eins og spekingarnir spá. Árstíðaguðinn fægir þá líklega aftur af, sé sólkerfi okkar ekki eldra en á er ætlað.

Mér og mínum líður björgulega. Heilsa mín dálítið duttlungasöm, en ekki aftaks-ill, enn. Sífellt er ég á kreiki.

Svo er nú heiður himininn,
Að hamingju ég teldi,
Væri sérhver vinur minn
Eins veður-sæll að kveldi.

Vona að kvaka til þín aftur, áður jafn-langt um líður, eins og nú varð. Hyski mitt biður að heilsa, þér og þínu, — en sé „hyski“ ekki sama sem „húsfólk“, þá skilaðu því svo, að ekkert virðingar-leysi við loði, og vertu blessaður, þú og kona þín.

Vinsamlega Stephan G—.

*Björgvin Guðmundsson.* Markerville, Alta, 18. okt. 1926.

Góðvinur Björgvin. — Erindið miða þessa verður ekki annað stærra en að láta þig vita, að bréfið frá þér er hér í höfn komið. Þökk fyrir það og síðast og annað gott í okkar viðkynningu. Ég veit vel, að þú talar ekki þvert um hug þér, það sem þú mælir til mín, og auðvitað gleðja góðspár mig, sem alla aðra, en lítill metnaðarmaður er ég sífellt fyrir sjálfan mig, enda ætti engum að vera kunnugra en sjálfum mér, hvar skór kraftaleysu minnar kreppir, þó ég aldrei berji mér um efnaleysi. —

Kosningarnar hér í haust hefðu getað verr farið, en tíðarfar tæplega, sífelld votviðri og frátafir um vestur-sveitir hér, og flóð og fellibyljir á suður-bógi, bölvanlegastir í þeim byggðum, sem bezt þóttu liggja við sólu, svo sem í suður-fylkjum Bandaríkjanna. Annars veiztu þetta allt

af blöðum. Gott er að heyra, að þið unið ykkur það sem af er, ekki sízt það, að ykkur fellur fólkið vel, sem þið hafið við að sælda. Úr öðru rætist ætíð einhvern veginn. Ég nærri kvíði samt, hve naumt ykkur verða „vegin út“ kolin í vetur, verði Lundúna-þokan mjög köld og ekkert rætist úr eldsneytisleysinu hjá óstjórninni ensku.

Ekki hefi ég gleymt því, sem þú ámálgaðir við mig í Winnipeg, en allt er það í endileysu — gefst líklega upp í getuleysu — veslast upp af vitleysu — ófærur alls staðar, nema engin af viljaleysu. Seinna minnist ég kannske nánara á það, þó ekki verði nema þér til leiða og vonbrigða, sem við er að búast.

Brátt þagnar sumar-söngurinn
Og suðan í hverri flugu —
En svíðandi næðingur syngur sig inn
Um sérhverja hreysis-smugu.

Töfra-tóna rama
Tendraðu um Dísa-hallir,
Svo að aðrir allir
Ómar þyki stama.

Vinsamlega Stephan G—.

*Sig. Guðm., skólameistari.* Markerville, Alta, 28. okt. 1926.

Góðvinur Sigurður minn. — Jú! jú! — bréf þitt og skólaskýrsla kom með góðum skilum og mér til fagnaðar í fyrra, sömuleiðis nýtt bréf og skýrsla nú, og fyrir það allt myndi ég gjalda þér þrefalda þökk, væri ég maður til, en hún verður grennri en einföld — aðeins einlæg. Það var skilvísi mín sjálfs, sem lenti í óskilum! Mundi þó skuld mína sífellt og ætlaði að „sýna lit“ á því, en ýmislegt dró úr: annir, lasleiki, skerpuleysi og þess konar, og að síðustu kom það yfir mig „sem þjófur á nóttu“, að vinir mínir eystra sendu lækni til mín, til að reka mig til Winnipeg, til að sýna mig „lærifeðrunum“, sem sé: læknunum þar. Og af því þeir höfðu boðið mér og beðið mig svo árum skipti að reyna þetta, og ég lofað að þiggja það, þegar ég sæi fram á, að kvillar mínir myndu trássast við að meltast úr mér sjálfkrafa, lét ég til-leiðast í maí í vor

að verða „flakkari“ einu sinni enn! Reyndar bjóst ég ekki við neinni nýsköpun, grunað flest, sem að gekk, en orðinn of gamall til „frálags“ í niðurskurði. Þetta reyndist líka svo og varð um leið til þess, að ég gegndi engum skyldum, meðan ég var að heiman, um 3 mán., en á mig hlóðust hér heima nýjar gegningar og ný svik, unnvörpum. Að vísu hefi ég ögn á því grynnt nú, því ég kom heim aftur um miðjan ágúst næstl., en langt er þó enn frá, að ég sé „jafn við borðið“. Þó á það að verða, nokkurn tíma til! Meðan ég var á burtu, var ég „allur í molum“ „viðgerðar“ og veizluhalda, varð ekkert að verki nema „rausið“ í „Kringlu“ (sem þú getur um), því ég varð að „verja hendur mínar“ á einhvern hátt, úr því út í þetta var komið, og ég í þeim kröppustu „hershöndum“, sem verða: vinahöndum, sem maður má sem minnst til minnkunar verða, þó viti ofætlun á sig. Þetta er þá minn „handaþvottur“ frammi fyrir þér.

Sér hefir Elli markað mig —
Meinleg kerling er hún —
Í kör að fella 'ún kynnir sig —
Karla-brellin er hún!

Það sem mig bagar er að vísu ekki líklegt til að verða „bráðapest“, en ekki verra en svona, eyðandi óþægð, sem veikir og vinnur á að lokum, eins og líka er „löglegt“. Mínar meinsemdir eru að miklu leyti gömul innyfla-taugun, arfur eftir uppköst í veiki, sem ég tók og hefi síðan gengið með að ég var innan við þrítugt, auk slits og ofþreytu. Læknar halda mig „uppá-lappandi“, en ólæknandi — og það fellst ég á.

En meðan ég er við þessa veikinda-„skýrslu“, verð ég að minna *þig* á að reyna að sjá við *svefnleysinu*. Æskan þarf að eiga þig lengi glaðvakandi og hraustan, — Ísland þarf þín sem lengst og einkum Norðurlönd. Einhvern tíma um fimmtugs-leytið, var ég sjálfur að verða værðarlaus: vann um daga, vakti nætur, oft fleiri en eina, svo ég festi varla svefn. Sjálfskáparvíti! Hafði lengi haft þann sið að vaka og lesa eða skrifa fram til kl. 2—4 að næturlagi, eftir dagsverkið, betlaði kaffi- eða te-bolla hjá konunni til þess. Að síðustu gat ég ekki fallið í svefn. Varð skelk-

aður við, að ég myndi missa það, sem ég sízt vildi án vera, meðan ég entist: þessa glóru af viti, sem ég þóttist hafa. Brá á það ráð að neita mér um nætur-lestra og kveldkvæðaskap. Þótti þó súrt í broti. Lengi orkaði það engu á um andvaraleysið. Loksins varð svefninn mér óstyggvari, og á endanum nokkurn veginn leiðitamur, oftast, og er enn svo. Þetta gæti komið þér að haldi, ef líkt stæði á, þó engum þykist ég kunna að leggja lífsreglur, þó ég segi mína reynslu.

Í bréfi þínu, inu fyrra, en ósvaraða, var svolítill kafli, spurning um, hvort nokkuð „vinnst" með öllu striti og meinlætum mannanna fyrir því, sem þeir trúa, að flytji þeim farsæld og framför. Ég hafði ætlað að drepa á mínar „kreddur" um það, ekki í því skyni, að ég treystist til að „sanna mína sögu", onei! Sannleikurinn er því miður tvíleitur, eins og Janus, en ef til vill ekki jafnleitur, eins og hann. Sú ásjóna hans, sem bjartari er, er mér alla tíð hagfelldari, og verður aldrei ósannanlegri að vera sú endingarbetri, þrátt fyrir allan efa. Svona ályktaði ég, án þess að vita mig hafa *„ráðið* þá rún", og enn situr ið sama fast í mínum hug. Nú, ekki meira um það. Í „skýrslu" þinni nýjustu hefir þú svarað sjálfum þér rétt, og betur en ég gæti gert, svo mitt „mald í mó" væri verr en þýðingarlaust. II. kafli í þessari „skýrslu" er allur um það mál, og gersemi og stórþarfur. Þessi „Ætternisstapasteypa" er að verða „kerlinganöldur" — upptugga þeirra, sem eru að reyna að stækka sig á „stælingum", t. d. „Vonina" Kristjáns, „Sprengikúlu" Ibsens — út í endileysu, og „Helmessan" í „Vesturlandi" síðust og verst, þó rösklega sé kveðin, því allar eftirhermur „yfirtala" kennifeður sína.

Yfir höfuð er „Skólabragur og skólamein" ágætt, og ég þakka þér!

Fyrirfarandi hefi ég sent séra Rögnvaldi Péturssyni skýrslurnar þínar, nokkrar í einu — ég held í fyrra. Hann hafði ekki séð þær. Ég minntist eitthvað á þig í bréfi. Ekki held ég, að það hafi til þess orðið, að „Heimskringla" prentaði upp ræðu þína. Ég mun geta um þessa síðustu við R., ef ég man, og senda honum hana, ef hann kýs. Vel mættir þú senda honum slíkt framvegis, eða blaðinu.

Hann er ekki „prentaður“ ritstjóri, en er ráðunautur, hvar sem til þarf að taka. Drengur góður alls staðar. Mér ágætur og tröll-tryggur. Á hans herðum hefir hvílt allt, sem eitthvað aðhefst, frjálslegast og íslenzkast er vestan hafs, öll in síðari ár, en af því leiðir aftur, að íhald og eigingirni andstæðinga *þess,* undir niðri, myndu einkis Íslendings hamingju hér kjósa feigari en hans. En R. er ráðspakur og ekki uppnæmur og því illskast ýmsir við hann, að hann verður þeim ofjarl. Ég hefði gaman af, að þið kynntust, ef svo bæri undir. Furða er, hve góðir drengir og greindir eiga margt svipað saman, takist þeim að leysa hugsanir sínar úr álögum steingerðra orðtaka, sem kallast að vera kenningar! Oft hefi ég mig á það rekið, jafnvel þar sem ólíklegt sýndist.

Í þínum heimahögum nú búa menn, sem ég minnist: Steingrímur, Jónas, Davíð o. fl., auk þín — líklega Steinþór og Ingibjörg — jafnvel konur, Steinunn Jónsdóttir frá Mælifelli t. d. Heilsaðu öllum frá mér, ef ég berst í tal, og konu þinni sérstaklega.

Með góðra gjalda ósk fyrir alla þá tryggð, sem þú hefir tekið við mig, Sigurður.

Vinsamlega Stephan G—.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 28. okt. 1926.

Góðvinur. — Það var „daginn fyrir dómsdaginn“ — það þýðir: 2. þ. m., daginn fyrir afmælið mitt, að póstur færði mér „Ávarpið“ ykkar, fallega „inngyrt“ og fullborgað. Ég sá, að það kom frá Fred Swanson. Skrifaði honum og spurði: Hvað skuldar? Fékk aftur það svar, að þú hefðir borgað, í .... við sig! Nú hangir þetta hér yfir borði mínu, sem „boðorða-tafla“ yfir altari í íslenzkri kirkju. Jæja, innilega þökk fyrir! Ég hafði spurt þig, hvaða tölubl. (af Skuggsjá?) það var, sem þig vantaði, væri svo ég ætti það. Nú minni ég þig aftur á það, því þú hefir ekki svarað því enn. Aukreitis sendi ég þér hér með „Skólaskýrslu“ S. G., sé svo, að þú hafir ekki séð hana. Og ásamt þessum miða bréf til mín frá honum, í þeim tilgangi aðeins að láta þig sjá, að það hýrgaði hann, að þið tókuð upp ræðu hans í fyrra í „Heimskr.“ Hann er hálf-þagaður fram af

sér heima, en hefir til annars unnið. Geldur víst framsóknar sinnar fyrir Menntaskóla Norðurlands, auk þess sem hann ekki þykir nógu „prófessors-heflaður“ á manna móti, og of orðhagur. Hvað um það, hann er bráðgáfaður og velviljaður menntun og mannkyni.

Mikið hefir raknað fram úr haustönnum manna, nú á síðkastið, og uppskera víða betri en búizt var við — auðvitað, „margur dropinn milli skeiðar og skolts“ farið samt að forgörðum.

Nú ætlaði ég að verða fámáll, og vertu blessaður!

Vinsaml. Stephan.

*Sigfús Blöndal.* Markerville, Alta, Can., 3. nóv. 1926.

Góðvinur dr. Blöndal. — Mér til meira en meðal-minnkunar hefi ég ekki komizt fyrr en þetta að því að senda þér orð frá mér, í borgunar-skyni fyrir bréfið þitt væna, ritað 29. sept. í sumar. Það er nú svo fyrir mér um ýmsa, sem senda mér línu, að um þá vildi ég sagt geta, að „engum glataði ég af þeim, sem þú gafst mér“ og mörgum síður mætti það ske um þig, ef unnt væri, jafn tryggur og hlýr eins og þú hefir mér reynzt, Sigfús, alla tíð, síðan þarna „upp úr þurru“ í Reykjavík forðum, því „útlendingur“ var ég þér þá, eða hefði átt að vera, eftir ástæðum. En — þakka þér alúðlega alla endinguna í þeirri góðu viðkynningu. Hérna, í „fásinninu“, er það meira en meðalhátíð að fá við og við kveðju frá kunningjunum og vita, hversu þeim vegnar og una sínum heimum. Dálítið meira til mats en hreyknin tóm yfir því, að hafa þó átt orðaskipti við mæta menn! þó það sé einnig lán. Hitt, hve ógreiður ég varð í svari, er að nokkru afleiðing af því, að ég lenti á dálitlum flækingi í sumar. Var að heiman um þrjá mán., undir lækna-hendi, en meira þó „í höndum“ vina og kunningja. Meðan ég var í því „rölti“, gat ég engu sinnt nema „daglátum“ og bréf mín bárust hingað heim og biðu — þar með þitt. Nú hefi ég, síðan heim kom, ögn grynnt á mér, en ligg þó löngum eitthvað í, á ný. Þetta er nú nokkuð fyrir það líka, að ég er ögn „þyngri á mér“ en ég þó var — ekki „vel fyrir kallaður“. Eina bótin, að slíkt er öllum bagalaust, nema sjálfum mér!

Ég þykist vita, að það hafi verið hamingja þín, sem réði því, að þú kvongaðist aftur. Hafði frétt það með dagblöðum. Þóttist vita, að verið hefði með góðu samþykki allra þeirra, sem það kom við. Finnst, að „hann" og „hún" séu sá eini helgi-Pétur, sem „lykla-valdið" eigi til að „leysa" og „binda" þess konar „skrár" — og óska, að þið búið vel saman! Ein snurða hefir þó hlaupið á ánægju mína yfir þessum nýju tengdum þínum, hún er sú, að þær hafa tafið ferð þína til Hollands, til að „prédika" yfir öndunum í „díkja-fangelsinu" þar íslenzkar bókmenntir! Sú meinloka situr sífellt sí-fastari í mér, að nú þurfi að herða sig að því, það sé ómagaháls Íslendinga að ætla útlendingum allt þess háttar endalaust. Okkur sjálfum sé þetta skyldast og skiljanlegast, tímar að verða hagstæðari, og þeir menn til hjá okkur, sem orku hafi á þessu. En ég skil þetta: þú þurftir að vera „skrýddur brúðkaupsklæði" í þetta skipti! Seinna koma sumir dagar.

Já, ég drep á dyr þínar, þegar ég kem til Kaupmannahafnar. Þér að óvöru, einhvern tíma þegar þú kemur heim frá dagsverki þínu, heyrir þú vesturheims-blesta íslenzku hlymja gegnum hurðir og göng þín og undrast, hver valdi þeim óhljóðum. Það verður óboðinn ég, spyrjandi frú þína eftir þér, því svona hjónabönd verða að eins konar gresjum íslenzkum í eyðimerkurnar erlendu, hvar sem frónskur pílagrímur ferðast. Og undarlegt er það, mér finnst annarrar-þjóðar kona hafi tekið nær sér og lagt meira í sölurnar við að giftast Íslendingi en hin, sem heimlend er. En, vinnur hún þá kannske á hinu, að verða hugumrýmri heimsborgari, fyrir bragðið?

En — smámunirnir mínir, sem detta upp úr mér! þegar ég verð allur að rugli! Vænt að þú skemmtir þér svo vel hjá venzlamönnunum á Varmalandi sænska, að það hefir verið „heima", með nokkru nýja-brumi gömlu, og kostuleg voru „kringlóttu tunglin" í máli þeirra — „Hornafjarðar-máninn" okkar er þeim óskyldur, en ögn fyndnari. Svíar í Bandaríkjunum gefa hér út lítið tímarit, en furðu gott, eftir vexti. Það fjallar um sænskar bókmenntir, ritað á ensku. Nefnir sig *Scandinavian Studies and Notes*. Ég hefi verið í því félagi nokkur ár, fyrir dollar um árið. Einu sinni voru þar mörg orðtök sýnd úr sænsku sveitar-

máli, sem hvergi voru til í ritmáli, öll svo örlítið bogin norræna, að ég skildi hvert um sig við fyrstu sjón, sem sæti ég með Íslendinga-sögur. Víða stendur frændsemi vor fótum, í leynidölum Norðurlanda. Ögn er þessu tímariti, eða þeim sem það semja, þó gjarnt til þeirrar fræðimennsku að rekja ættarmót norrænna sagna suður um allar álfur, út í útnára fjarlægra þjóðsagna og fornra, eins og svipaðar hugsjónir beri ekki fyrir augu manna, sem brjóta heila sinn um lík efni, — nema í þá sé tuggið. Séð hefi ég þó margfalt meira af því gert, og orðið leiður á, unz mér þótti sem væru öll liðamót líkindanna úr tengslum teygð. En slíkt varð tízka, sem trúað var á, og stundum átti sér stað í hugsana-flækingi mannskepnanna. En, ég er þar alls ófróður, en er víst kröKkur af kenjunum.

Já, nú er mörg nýjungin í listum og lögum, og líklega er „hjassinn“ — the jazz — einna auðkennilegastur, eitt óp og gnístran tanna yfir bröltandi búkum. En ég hefi aldrei dansspor stigið og er ekki vitnisbær. Mér finnst sumt í skáldskapnum á svipuðu stigi, og er þar líka allur utanveltu og orðinn að heimskingja og hjárænu. Að vísu veit ég, að allar mannlegar menntir þurfa uppyngingar við, til að verða ekki ellidauðar, og ekki um að fást, þó mönnum sem mér finnist stundum fyrstu sporin í því furðuleg. En gallinn er, mér finnst, að æskan beri svo ört á, að tízkurnar sjálfar visni upp, áður en þær vaxi svo, að spor sjáist eftir þær í sandi tímans — verði að útburðum einum. En sé svo, er það hamingja, hvað skammlíft það er! Eitt sinn grær þó allt upp, vonar maður, því svo gera jafnvel afraksturs-haugar á Íslandi. Og kannske maður sé sjálfur kominn á „grafar-bakka“ Gísla gamla Brynjólfssonar, „leiður á öllu, utan Íslendinga-sögum“, þó í aðra átt sé.

Þetta er nú allt á hlaupum hripað. — Fyrir mér stendur lengstum svo á.

Oft eru margföld aðskotin
Áður blaði lýkur.
Bóndinn er sem „útspýtt skinn“,
Er á skeklum fýkur.

Gallana mér „til góða halt“!
Getan varð í molum —
Skriftin fór og efnið allt
Eins — í handaskolum!

Endist þér svo heilsa og hamingja enn, um mörg ár, vinur.

Þinn einlægur Stephan G. Stephansson.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerville, Alta, 8. nóv. 1926.

Góðvinur Guttormur. — Bæði bréf þitt og kvæði voru með þakklæti meðtekin ekki fyrir all-löngu, en mér blöskrar að hugsa mig borgunarmann fyrir jafn flóknum skuldaskiptum eins og ferðinni til Beach. Skemmtileg var hún — ekki skorti það, en hún minnti mig á æfintýri í æskuminni. Einn leikbróðir okkar kunni langa þulu á einhverju útlendu máli, sem hvorki hann né nokkur okkar hinna skildum eitt orð í né vissum, hvaða tungumál var, en við hættum ekki fyrr en við höfðum lært hana allir utanað, og okkur fannst mikið fyrir þeim fróðleik okkar fara. Marga spurðum við, hvað þulan myndi þýða, og loks eftir mörg ár gat danskur karl (eða þóttist geta) ráðið í, að þetta væri franska, og eiginlega ekki „lærðra manna franska“ á neinn hátt! En hvernig sem það var, mér þykir enn hálf-vænt um þuluna, skil hana ekki frekar en áður, en kann enn graut í henni, eins og við höfðum hana. Skemmtunina, sem við höfðum af henni, verður mér ætíð vel við, þrátt fyrir ýmislegt, sem að hefir verið. Eins hugsa ég til ferðarinnar okkar til „Hornstrandarinnar“ inn af eyðimörkinni skrælnuðu, við Winnipeg-vatnið. Til dæmis fannst mér það ekki hneyksla mig neitt, spaugið eða alvaran, hvort sem heldur var, í deilunni, hvort meybarn hefði verið skírt tvívegis, eða einungis í eitt skipti. Forfeður mínir sumir munu hafa komizt í líkan tvíverknað, verið „prímsigndir“ og skírðir „skemmri skírn“ og síðan „lengri“, að ég ekki nefni nú, að ég hefi sjálfur séð upp á endurskírnir ýmsar hér á landi — jafnvel gert öðrum til þægðar að vera „skírnarvottur“ nokkrum sinnum — aðeins færst undan formálanum um kennslu-ábyrgðina —

hefi jafnvel gefið sjálfum mér nafnið Stephan G., eða öllu heldur þegið það að gjöf góðra vina minna. Ókunnugur ástæðum tek ég slíkt sem glettni góðra vina í frekasta lagi, ekki neina hneisu, sem hríni við. Svo fer um fleira. Aðvífandi maður veit ekki rætur væringa heimamannanna. Ég veit, að þú skilur vel, að það sem ég á annað borð segi í alvöru þessum málum viðvíkjandi, er ekki í því skyni sagt, að ég treystist til að „leggja öðrum lífsreglur“ í einu né neinu. Hins er mér gjarnt til, að segja blátt fram mínar „kreddur“, er hvorki hreykinn af þeim, né fyrirverð mig fyrir þær. Þær hafa dugað *mér* býsna vel. Ég átti engin ráð á öðrum betri og segi þær ekki öðrum til eftirbreytni, heldur til þess að sýna sjálfan mig eins og ég er „innrættur“, því til varnar, ef mögulegt er, að vinir mínir hyggi mig hvorki vitrari né vænni en ég í alvöru er. Ég tel það sífellt skyldu mína að taka svari ins framfúsara og frjálshugaðra, hvar sem er og stendur, eins fyrir það, þó ég vel viti, að langt sé til þess lands, sem mér sýnist að blámi fyrir með ströndum fjarstu sanninda, eða þótt þeir séu ekki afburðamenn yfir alla fram í sérhverju manngöfgi, sem bera í tal. T. d. myndi ég taka málstað kargrar lúthersku, gagnvart kaþólskri kenningu flestri, væri ég þar staddur, þ. e. fyrir að hafa færri fordóma og losað um samvizkuböndin, því það var kjarninn í siðabótinni. Alveg ið sama sem Unitarar og frjálslyndu Gyðingarnir eru nú aftur að aðhafast í andlega heiminum, sama sem Sambands-safnaðarmennirnir okkar íslenzku eru að streitast við. Því er ég þeim hliðhollur. Tel *mér* minnkun og menningar-skort og skilningsleysi, væri ég það ekki, svik við sannleikann, eins og ég skil hann, brot gegn minni betri náttúru. Hitt veit ég vel, að rígbundni rétttrúnaðurinn er að láta undan síga, en aðeins vegna þess, að hugur almennings er þeim úr greipum að ganga. Þeir þoka til af nauðsyn, ekki sannleiksást né frjálslyndi. Ég veit, að ég skil þetta rétt. Þetta á við viðskipti þín t. d. og kargrar kenningar prestsins þíns, sem þú tiltekur, og það á ekkert skylt við andlegt umburðarlyndi né víðsýni. Þú myndir sjá það, ef afturkippur gripi framsóknar-flokkinn. Annars [er] ég „trúlaus“ maður í kirkjulegum skilningi. Ið eina virðingarverða við

þau fræði er það, sem þau flytja með sér af „vizku og náð“ hér og hvar til mannanna, sem sé: siðbætur og hugsana-göfgi. Ég veit, að sjálfur ætti ég heima í þeim flokk, sem nefnir sig „Society of Ethical Culture“, væri ég honum nærlendis. Það er langt síðan svo varð. Var rót „Menningarfélagsins“ okkar forðum, og játningarlega er lítill munur á Sambandssöfnuðinum og því, sem þar var. Fyrir einu ber ég önn. Hvað verður úr krökkum manns, í trúarheimskunum hérna, þegar maður er sjálfur allur? Það er auðséð — verr viðbúin en maður var sjálfur, og heimskari í þeim efnum —: þau verða ofsaheimsku-trúarflokkunum að bráð, „Holyrollers“, „Adventistum“ og alls konar andlegum ærslamönnum, og er vont til að vita. Eina vörnin væri, að venja þau í félag frjálsasta flokksins, sem maður næði til. Skilja við þau í sæmilegum félagsskap, væri líklegasta samvizkubót, hvað sem úr yrði svo. Um þetta hefi ég hugsað. .... Eitt veit ég vel og kannast við, hver andleg hreyfing almenn endar á því að verða að *stofnun* (Institute) um síðir, verður ráðrík (absolute) og þröngsýn (arrogant). Svo fór lútherskan og prótestantisku systurnar hennar allar. En slíkur er gangur menningarinnar og nýir „protestantar“ rísa upp og eru umburðarlyndir og framfúsir, þangað til þeir verða voldugir! Á þessu stigi stöndum við. Í almenningsmálum er einstakling eins og mér ekki annað unnt en að reyna af mínu megni að unna því sannmælis og sigurs, sem betur gegnir, og þó að manni sjálfum sýnist það bara hanga í hálfu tré. Þannig eru örlögin úr garði gerð — aðeins „tafl á fremsta hlunn“ — engu neitt! — eða afturhald, ekki einungis í trúmálum, heldur á öllum sviðum. Og þá hefi ég „gert upp mína reikninga“ fyrir þér, eins hreint og ég get, og set þar „tönn fyrir tungu“. — Nú legg ég fyrir þig „forsendingu“, Guttormur, sem þú ekki átt undan að skorast! Þú verður nú á næstunni að fara á flakk og flytja kveðskap þinn um „breiða byggð“ Íslendinga, vestan hafs. Jakobína og ég höfum okkur af lokið. Það batar fólkið, að flakkarar sem við heimsæki það, og við slörkum í gegn og heim aftur, glaðari og betri menn á marga vísu. Við erum í skuld um þetta, fyrir að hafa fengið auknefnið: *skáld*, og mestri þó við okkur sjálf!

Meinbugina á því minnist ég ekki á, þeir þýða ekkert! Ekki snjallari en ég er, né eftir-æsktari, hefi ég lengst af rétt þá svo alla upp, að þeir hafa ekki orðið mér að þröskuldi. Úr slíku flakki kemur maður „bráðendis hlessa“, hvað mennirnir eru miklu betri og skemmtilegri en búast mátti við. Lengir líf sitt líka, ef ekki að árafjölda, samt að sólskins-stundum. Hvað heldurðu? Já, flugvélin er „forsvaranleg“. En á hana skortir niðurlagið. Eftir að þú ert orðinn *sól*, verða örlögin samt þau, sem þú sízt hefðir kosið, mörgum mönnum verður þú til meins, mörinn í þeim bráðnar, þeim verður ofbjart í augum o. s. frv. Þú lendir í óþökk við eldri „sólirnar“, og verður hinum í vegi, sem höfðu ætlað sér að verða sólir *„ad infinitum“* — Væri ekki fullkomnara að segja söguna lengri og um leið „tragiskara“? Enn er eitt eftir að taka fram við þig. Mikil hugar-hreysting var mér sagan þín af J. og G. Eins og þú manst, hefi ég dregizt á að heimsækja þig enn, ið þriðja sinn — ef ég get „risið upp“. En ég veit, að þú getur verið gapi, og ég er vatnshræddur að eðli. Grunar að svo geti farið, að þú narrir mig „fram“. En nú sé ég ráð, sem við mig á. Set upp, ef svo færi, verði Garún að vera með sem björgunarbátur og yrði ég þá ókvíðinn! En sjá verður þú fyrir því, að hún „væti ekki sinn ögur“. Það þótti sjálfum Þór vera „harmur“, og þá er G. meira en vorkunn. Á eftir kveður þú svo „Hárbarðsljóð“ in yngri.

Þegar vindar volka dröfn
Svo vatnið um strendur sýður,
Séu þér kvæðin heima-höfn,
Hvað sem veðrum líður!

Vinsamlega þinn Stephan.

*Vilhelm Pálsson,* Markerville, Alta, 10. nóv. 1926.

Góðvinur Vilhelm. — Ég kem til að þakka þér bréfið þitt, frá 24. f. m. — allt nema „barlóm“ þinn um eitthvað sem á að vera í ætt við „andlega fátækt“. „Hana, nú skal ég segja þér“, var sagt að væri byrjun allra samræðna hjá Steini heitnum í Stóru-Gröf, Mó-Steini, væri hann ekki verrnefndur. „Hana, nú skal ég segja þér“! Konan mín las

bréfið þitt og bað mig að muna að skila kveðju sinni til þín fyrir bréfið þitt, það væri svo innilega hlýlegt, svo ég ætla ekki að láta það undan dragast, þó slíkt megi heita að byrja bréf „á afturfótunum“. En litla ástæðu finnst mér þú hafir til að berja þér um bréfa-gerð, meðan þér blæs jafn byrlega með leikslokin, og víst má ég öfunda þig af orðstírnum, því ætíð hefi ég fengið orð fyrir að vera „handkaldur“ í bréfaskriftum. Það þótti mér vel að verið, hversu létt þér varð fyrir að sætta þig við „strok strokumannsins“, þegar þú vissir, að allt *stóð það af mér*, og hvernig líka *á mér* stóð. Ég var líka orðinn „allur á skeklum eins og útspýtt skinn“! Þegar heim kom, átti ég fyrir mér „handraða fulla“ af ó-önzuðum bréfum, sem hlaðizt höfðu upp. Ögn hefir nú í þeim lækkað, en ekki hefir „stikillinn“ enn „gengið allur upp“, fremur en á horni Þórs forðum — enda er ég nú orðinn hvílrækari við allt, heldur en ég þó einu sinni var. Ef að Niagara varð „smærri, smærri“, eins og Jón heit. Ólafsson fullyrti, hvers er þá von með „lognhatta“, sem lifa fram á áttrætt?

Það vona ég, að þér endist enn tóm til, að „gefa út ferð til Alberta“ í nýrri útgáfu og lengri inni síðustu, og þá ætla ég við að vera, og enn kann ég „aftur að fara í göngur“, í Austurveg, og kem þá á hvern bæ, sem ég reið óvart fram hjá í haust.

Síðustu fréttir eru: ágætis-veður þessa stundina! og mér líður eins og þú sérð!

Enn er gamla höndin hlý,
Þó henni seinki að skrifa. —
Og aldrei gleymt við getum því,
Hvað gaman var að lifa!

Ef einhver vinur minn þarna eystra innir þig eftir mér, getur þú nú með sönnu sagt honum, að ég sé vís! Og það vissi ég í bréfsbyrjun að yrði eina erindið mitt, með þennan miða, að segja þér þá sögu af sjálfum mér, því sem stendur (og stendur líklega lengst) er það eina afreks-verkið mitt, sem ég veit af, nú á dögum.

Með þökkum og vinsemd fyrir alla þína tryggð við mig.

Þinn Stephan.

*Sveinn Björnsson.* Markerv., Alta, Can., 11. nóv. 1926.

Góðvinur Sveinn. — Bréf þitt frá 29. f. m. er heim heimt og hafðu þökk fyrir. Jú, á flækingnum í sumar varð ég allur aftur úr með að standa í bréfaskiptum, auk þess að ég er stundum orðinn „sérhlífinn“ við pennann, „ófjörugur“ og eftir mig af linku, lélegri heilsu en meðan ég var í „broddi lífsins“. Meðan ég ekki var við, hlóðust að mér bréf héðan og handan, og síðan ég settist að aftur, hefi ég reynt að svara svo mörgum, sem ég komst yfir, getað grynnt ögn á, en svo spretta samt sífellt ný. Ég held ég hafi klórað bréf, eitt eða fleiri, flesta daga (í hjáverkum), síðan ég kom heim um miðjan ág. í haust. Þetta er nú ástæðan, að ég hefi þagað svona lengi við þig, en ekki hin, að ég hafi ásett mér „að þegja þig fram af mér“, fyrr en ég *settist alveg að.*

Þegar ég var heima um árið, vorum við Lárus próf. Bjarnason (bróðir Ágústar) lengi samferðamenn. Eftir æði-löng kynni datt það upp úr karli einu sinni við mig: „Eftir einu hefi ég tekið, Stefán, með þig: öll þessi lofdýrð og veizluhöld spilla þér aldrei“. Ég hafði séð út úr honum, að hann var athugull, enda er hann stórgáfaðastur sinna systkina, hvað sem öðru líður, og varð mér inn alúðlegasti að lokum. Það, sem ég vildi „þér hafa sagt“, er það, að á því sama, sem Lárus til tók, er ég enn með sömu „fullri heilsu“ eins og ég var þá, og vona að svo verði, meðan mér endist sú „skíma“, sem ég hefi. Eitt var það enn, mér fannst að Winnipeg-blöðin vera „meira en nóg“ bréf til þeirra, sem til mín vildu spyrja, meðan ég var í allri þessari „upphefð“, að þau tækju af mér allt ómakið við að láta vini mína vita, að ég væri ofan jarðar. Þannig vildi nú þetta til. Fréttir kann ég engar, ekki einu sinni sveitar-mas. Hér hefir ekkert gerzt, nema örðug útivinna fyrir rigningar og þess konar, síðan ég kom heim, þangað til síðast í næstl. mán. og nokkra daga af þessum, að nú er svo komið, að mestu er bjargað — en auðvitað með ýmsum afföllum frá bezta útliti, sem eitt sinn var. Man. og Sask. hafa á endanum orðið verr úti, að virðist, en Alberta.

Já, það vildi ég, að lífið og hamingjan létu rætast þá ætlun þína að skreppa austur að ári. Þér er mál á því!

Velkominn værir þú að koma hér við í kofa mínum, en þó eiga þínar leiðir að liggja svo sem þinn eiginn hugur og hagur bendir bezt til.

Já — vel get ég sagt þér, hverjir voru með mér í boði Ólafs bróður þíns. Þeir voru ekki margir: embættisbræður (eða iðnbræður) hans tveir: læknarnir Magnús Björnsson (Halldórsson) og Sveinn Björnsson, læknir í Árborg (Nýja Ísl.), lærisveinn Ólafs fyrr, yngri maður, mér ókunnur áður — séra Rögnv. Pétursson og ég og „Skotinn", sem þú getur um! Við erum gamal-kunnir, ég og hann, og enn er svo, að mér þætti minnkun í að látast ekki við hann kannast, hvar sem ég og hann erum staddir saman, og þeim sið fylgdi ég hjá Ólafi og varð ekki þess var, að „Skotinn" hrekkjaði mig neitt, og sú hefir venja hans lengstum verið! En hví spyr þú? Ég spyr milli gruns og forvitni — ekki vil ég særa þig um svar! Liggur þetta ekki í þungu rúmi. Gaman væri að kynna þig sumum kunningjum mínum heima, t. d. tveim-þrem kennurum við Akureyrar-skólann, gagnfræðaskólann — bráðum menntaskóla Norðurlands. Þar gæti „skrattinn hitt ömmu sína„ í „jafnaðarmennsku", þó „lærðari" séu þeir miklu en við. Og þetta eru „lærifeður" inna „uppvaxandi" — furðar þig ekki? Og við hverju býstu? Og svo fæ ég fjölda bréfa og bóka, sem ég hefi stundum sýnt þér. Ég hefi orðið fyrir því láni að lenda í mjúk hjá nokkrum menntamönnum íslenzkum, sem orð hafa á sér og til þess unnið, þó ólíklegt væri slíkt um fjósakarlinn mig. — Ég varð að „kasta kveðju" á Bínu. Bæði átti hún það að mér, svo hefir það verið siður minn við fleiri en hana, sem hingað í byggð hafa líkt erindi átt, ef ske kynni, að einum fleira kunningja minna annars staðar, ef til vildi, yrði það hvöt að hlusta á þá. Annars gekk mér ekki til, nema þá þetta: hér í sveit skortir ýmislegt á viðtökur, söngflokk og fleira, jafnvel kjafta-skúma — ég varð þá að vera það sjálfur, sem kjaftaði, þegar aðrir stein-þögðu — eða gestirnir máttu sitja í þorska-hjalli. Séra Pétur einn brást mér þar aldrei, þó við ýmsu lægi stundum. Lifðu svo lengi til að láta liggja vel á þér, Sveinn minn! og vertu nú sæll.

Vinsamlega þinn Stephan G—.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 24. nóv. 1926.

Góðvinur Grímur. — Ég átti að vísu að vera búinn að senda þér línu fyrir löngu, ekki í fréttaskyni, en í þakkarskyni fyrir öll blöðin, því tíðinda-maður er ég aldrei. Enn hefir þó aukizt rjóðrið í byggð okkar hér: Kristín Maxon var jarðsett í gær. Lengi lasin heima. Andaðist á sjúkrahúsinu í Red Deer, ef til vill úr vatns-sýki og hjartabilun. Ekki er það þó nema minn eiginn grunur. Sig. Jónsson hefir nú verið hjá mér nokkra daga. Honum líður ekki sem bezt, sem von er, 2ur árum eldri en ég. Sjálfur er ég heldur betri, enda hlífi ég mér við öllu. Kom ekki á akur til vinnu í haust, aldrei þessu vanur! Samt er ég alltaf „eitthvað að“, þegar ég hangi uppistandandi, sem oftast er. Þegar ég kom heim, var skákin mín hérna hlaðin ósvöruðum bréfum, sem safnazt höfðu að. Ögn hefi ég af mér ýtt, en margt óviðlokið enn, og nýtt sprettur í skörðin — og flest er mér það lán — jafnvel óbótabréfin, sem ég fæ fá, en ekki eiðsært fyrir.

Tíðin var töluvert blíð um tíma. Í dag er hún hríð. Loks þresktist hér allt, sem laust náðist — jafnvel var betri útreið á en á horfðist og spáð var. Auðvitað urðu misföll mörg og spjöll, frá því, sem guð hefði getað látið vera, þegar hann bjó hér bezt síðastliðið sumar. Við hér heima fengum nál. 4000 „mæliker“ af korni alls. Þar af um 1400 hveiti. Um verð þess né flokkun veit ég ekki enn — en gallar verða eflaust á. Með þessum miða sendi ég þér „Dak.-sögu“ Stínu, sem þú átt að eiga — eins þó þú eigir hana!

Hegningin á enda ei er  
Æfi minnar breka —  
Allur heimur eftir mér  
Ennþá sýnist reka.

Og því hætti ég hér nú, með kveðjum vorum beztu.

Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* 2. des. 1926.

Góðvinur séra Rögnvaldur. — Fyrir nokkru átti ég að vera búinn að þakka þér bréfið þitt seinasta og skilin á „Skýrslunni“ og „Lesbókinni“, en ýmislegt hefir að kall-

að. T. d. er ég nýbúinn að skrifa Aðalst. okkar langt bréf, þar sem ég varð að bera af mér margar rangfærslur um það litla, sem við höfum við átzt. Ég er nú alls ekki óvanur við líka sendingu, en einna mest var þar málum blandað. Vísan mín í „Kringlu“ til Sigfúsar f. H. hefir kastazt svona í „nöpina“ — eða svo skilst mér. Annars tók ég ekkert af því nærri mér, nema ónæðið við að verða að svara honum, af því allt var rangt hermt hjá honum, og ég grandalaus um deilu hans og S. H. Ég „áminnti“ hann alvarlega, en ekki „tók ég ofan“, og er svo „samur sem áður“.

Fyrir fáeinum dögum síðan hittumst við Jón Sveinsson, hann bað mig að skila því, þegar ég skrifaði þér næst, að þú mættir senda sér „ritninguna“ um listaverk Einars Jónssonar, *þá dýrustu,* og hann skildi svo sjá um borgunina. Salan á henni hér er víst að verða „seigpínandi“. Ég held ég megi biðja þig að senda mér tvær, séu þær enn til og geti komizt til mín fyrir jól. Ég hefi í hug að gefa þær nöfnum mínum hér, tveimur sona-sonum. Ég nærri held það ekki illa tilfundið. Það verður ekki verr þegið með tímanum en annað „glingur“, þó ekki væri fyrir annað en að skruddan er á „þrennslags tungumálum“, eða fleirum, eins og „yfirskriftin“ fræga forðum. Svo skal ég reyna að senda þér borgun, einhvern tíma áður en ég er orðinn 75 ára!

Nú vildi ég, að Hunford færi austur, og *þú* yrðir viðstaddur einvíg þeirra Arnljóts, en eins vil ég biðja þig, fari svo: Það er, að þú lokir hurðinni á húsi þínu, þegar þú sér Ljót koma (því Jónas hefir heitið því að setjast að hjá þér), þangað til þú sérð, að kólnað muni í kolli Ljóts, því báðir munu nokkuð „rauðir á kambinn“, fyrst er þeir mætast.

Alveg rétt, bréf S. G. átti ekkert almennt erindi, nema að S. segði svo sjálfur. Einlægni hans efa ég ekki, en *síðar* gæti honum sýnzt eitthvað betur ósagt, og aldrei fýsir mig að hlaupa að baki vina minna í vanþökk þeirra. Hitt þætti mér vel, flytti „Kringla“ „ræðuna“ hans, af því ég veit líka, að honum væri það hýrgun, að einhver tæki eftir henni.

Í desember-heftinu af Bandaríkjatímaritinu: *American Magazine,* er góð grein um Hjört okkar Þórðarson, að

miklu leyti hans eigin sögusögn. Hafið þið fengið hana? Hún ætti að komast á íslenzku, en er nokkuð örðug að þýða, sökum orða-skorts okkar yfir raf-fræði, og andlega leti og hégómaskap sumra höfunda okkar, sem vilja bæta einum vanskapningnum enn við „dauðu málin“, eins og „stórþjóðirnar“ temja sínum tungum, og fóðra með því, að þetta hafi fornu Ísl. líka gert, eins og heimska feðranna sé hrós niðjanna. En yfir höfuð vita Ísl. lítið um Hjört, né hans dýrð, og væri mál að gera það, þegar það yrði þá líka í „hróksvaldi“ hérlendra.

Nú held ég, ég hlífi þér við meira masi, í þetta sinn, en heilsa bið ég Fríðu þinni og heimafólki þínu öllu, og aukreitis-vinum mínum — þeim vera kunna ennþá til, og verði þér veturinn sólskins-dagur, hversu sem úti viðrar!

Vinsamlega Stephan G—.

*Elisabeth Ruhr.* Markerville, Alta, 4. des. 1926.

Vinkona góð. — Ég kem aðeins til að þakka þér síðara bréfið þitt frá 7./9. síðastl., óska þér glaðra hátíða í vændum og láta þig vita, að enn er svo, að manni er unun að vita sig eiga ókunnar álfkonur í huldu-hömrum, sem hugsa hlýtt til manns, þó aldrei hafi maður séð þær, né átt við þær orðastað. Ég gat um þig við Jakobínu, þegar hún kom hér í haust, og ef þið hittist, berðu henni kveðja mína. Af henni keyptir þú víst „Andvökurnar“, líkl., þær sem þú gafst gullið þitt fyrir, sem þú gazt um. Oft hefir mér verið um nasir núið, að ég níðskældinn væri. Við Ísl. nefnum oftar glettni og bersögli einu orði *skammir*. Ég held, að þú sért alein, sem ekki sér illsku í öllum órunum mínum. Megi íslenzkur kveðskapur verða þér til yndis enn lengi, lengi!

Vinsamlega Stephan G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerville, Alta, 7. des. 1926.

Annað veifið fannst mér, að ég ætti að senda ykkur *ómaga* fyrir jólin — en, engir voru „í vonum“, fyrr en nú, að þessir fæddust óvart, *tveir*, sem fylgja. Viltu „setja þá niður“ — á „Heimskringu-hrepp“ — hvar sem vill — eða alls hvergi?

Nýl. sendi ég þér línu. Minntist á ensku greinina um Hjört okkar. Fór svo að stuðla. „Lögberg“ kom að loknu því. Eins og vænta mátti, var þýðing þess öll úr þeim hluta greinarinnar, sem Nordal myndi nefna „Samlagning“, sem sé, fram hjá því gengið í greininni, sem mætast var, fróðleik og hugsýni, en fengsældin ein tekin upp úr henni — aðferðin til *aflans*. Ojæja — „útleggjarinn“ ekki verið öðru meira vaxinn. Mig minnir ég sæi danskan höfund geta sér til, að það hefðu verið vorsólarnæturnar heima, sem gert hefðu Finsen heitinn að ljóslækni. Mér fannst sú ímyndun bæði skáldleg, og líkl. sönn. Þessum Clark dettur svipað í hug með Hjört. Nýkomin „Vaka“ fer með það (í „Rafstöðvum“ Nordals), að engri þjóð muni vera meira annt um birtuna en Ísl. (eða hér um bil sama, að efni), og færir til það, sem honum finnst vera líkindi til að valdi því: skammdegið. Þessu verðum við á lofti að halda, eins og á sannazt hafi. Það er falleg trú, að skammdegislandið sjálft hafi alið upp tiltölulega mörg ljóssins börn — og vertu svo blessaður!

Vinsamlega Stephan G—.

*Jónas Hall.*

[Bréfkafli, ódagsettur, líklega ritaður fyrir árslok 1926.]

........ Það eru ekki mín bréf til þín, Jónas, sem máli skipta. Hitt er það, hérlendir menn hafa orðið til að dást að því, hve vel þú t. d. ritaðir ensku, — hve vel þú kynnir lög — útlendingurinn — Íslendingurinn. Þjóðinni minni til metnaðar, vil ég skilja eftir einhvers staðar staf fyrir þessu. Við eigum rétt og skyldu á því. Því er ég að þessu nauði. Farðu með bögglatrúss þitt til Winnipeg í vor. Þú færð hjálp úti — eða hjá góðum mönnum, og fyrir tvo er það fljótgert — og hjá Steingr. getur þú líklega verið. T. d. mun séra Rögnv. ef til vill leggja þér „ráð og dáð“, þó sjálfur yrði óviðlátinn — finna þér skjól undir öðrum steini. Þetta er ofurauðvelt, haldi heilsa þín út, Jónas.

S—. G—.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 20. des. 1926.

Kæri vin. — Mörg og gleðileg ár enn, Baldur minn. — Aldrei þessu vanur, er ég upp á aðra kominn með skriftir,

svo bréfið verður stutt í þetta sinn. Þegar ég verð brattur aftur, borga ég seinasta bréfið. Sem stendur ligg ég á bakinu í bælinu og get ekki á ferli verið; það, sem að mér gengur, er snertur af slagi, fékk það föstudagskveldið síðasta, féll flatur, en missti aldrei ráðið. Síðan hefi ég ekki í fætur getað stigið. En eins víst, að ég rakni við aftur eftir nokkra stund og heimsæki þig þjóðhátíðarárið, að minnsta kosti skal ég gera það, ef ég get.

Aðrar fréttir segi ég þér ekki í þetta sinn.

Blessaður og sæll, gangi þér og þínum allt vel. Auðvitað á ég von á bréfi frá þér, þegar þú fréttir upp á víst, hvert þú átt að senda það.

Alla tíma sæll, vinur minn.

Þinn vinur Stephan G. Stephansson.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* 31. des. 1926.

Skriftin getur sagt til sín,
Svona er orðin höndin mín;
Að lesa úr því er leiða spaug,
hvort letrið sé eftir horn eða klauf.

Kæri vinur. — Aðeins fáar línur að láta þig vita um líðan Stephans; hann er ögn að koma til, hægt auðvitað, sem náttúrlegt er, getur betur brúkað hendina, hefir borðað með henni í gær og í dag, auðvitað með skeið, súpu og svoleiðis þunnmeti. Hann bað mig um pappír og blýant í dag, sagðist ætla að reyna og vita, hvort hann gæti nokkuð. Býsna er skriftin ólík, en varla von á henni betri. Hann biður mig að skila kveðju til ykkar og að hann hafi gert þetta að gamni sínu.

Með hugheilustu nýárs-óskum og þökk fyrir öll gæðin í okkar garð og verið þið í guðsfriði.

Ykkar einlæg Helga.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerville, Alta.

Okkar heimi eflaust frá
Eitt er ráð að flýja:
Úr hans skugga skáldið má
Skapa himna nýja.

Æstari galdra enginn gól!
Í öllum merkja-hringnum!
Ljóðatákn um tungl og sól
Titra þig í kringum.

Ég hefi gríðar-grun á því:
Gröndal verði minni!
Sá er grimmur galdur í
Gráskinnunni þinni.

Kæra þökk fyrir mig. Stephan G.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 8. jan. 1927.

Góðvinur. — Kærar þakkir fyrir tilskrifið og ég óska þér góðs árs. Í bráðina verð ég að halda skrifara, því ekki er ég orðinn pennafær, en það verður nú bráðum, og þá skal ég senda þér kveðju mína, og henni áttu að skila til Jóns og Guðbjargar.

Gott er, að þú sendir Baldri sem fyrst þessi bréf, sem við höfum talað um. Skilaðu til Sigríðar og Kobba, að ég biðji að heilsa þeim, og sendi þeim þann boðskap minn, að hvað sem búskapnum líði, sé það skylda þeirra að gefa þig algerlega lausan við hann og láta þig ekki þurfa um neitt að hugsa, nema ráðstafa æfi-sögu þinni, það megi ekki dragast úr þessu. Það ríði á miklu, að sem fæst glatist af því, sem okkur Íslendingum var gefið, og beri á sínum tíma miklu fegurri ávöxt en öll kýrverðin, sem hver okkar kann að geta skilið erfingjunum eftir.

Með beztu kveðjum til þín og þinna.

Þinn, þangað til ég get gert betur, Stefán.

*Séra Rögnv. Pétursson.* Markerv., Alta, 10. jan. 1926.*)

Góði vinur. — Ég er betri, en hvorki er ég klæddur né kominn á ról, né orðinn skrifandi enn.

Gleðilegt ár. Stephan.

*) Skrifað af Rósu dóttur hans.

12. jan. 1927.

[Skrifað aftan á myndarumgjörð (til Sig. Nordals).]
Til Nordals. Frá Stefáni.

Eitt sinn ef eldast
Íslands sólir,
Eru þeim samt ætlaðar
Ungar dætur — —
Svo er trú vor,
Sigurður!

Sbr. Edda:
„Sólin á sér dóttur eigi ófegurri en hún er sjálf."

Stefán G.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 12. jan. 1927.

Til Normanns, frá Stefáni. — Gleðilegt ár þér og þínum.

Þökk fyrir allt, sem átt hef þér að kynnast,
Ársins liðna nú er skemmst að minnast.

Hefi legið rúmfastur fyrirfarandi. Í aftur-bata, en ekki orðinn sendibréfs-fær, því er ég svona seint á ferð.

Blessaður og sæll. Þinn Stefán.

PS. Skrifari Rósa biður að heilsa.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 12. jan. 1927.

Góðvinur. — Þetta bréf og blað fékk ég að heiman, þar sem ég lá flatur á jólunum. Að gamni mínu sendi ég þér það til að lesa, veit ekki, hvort þið hafið séð blaðið, sjálfsagt ekki bréfið. Blöðin hérna, einkum „Lögberg", hafa gert umtal út af því, sem Nordal hefir áður sagt um mig. Bezt að það komi þá allt fram.*) Þú gerir svo vel að senda mér ruslið til baka við tækifæri.

Ég er hvorki góður né beztur, en betri en ég var. Rósa mín skrifar, en ég „dictéra" í rúminu. Alla tíma blessaður.

Þinn Stephan.

*) PS. Ég á við greinina, en *ekki* bréfið, um að hún megi koma fram.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 15. jan. 1927.

Góðvinur, heilsan bezta. — Ég hefi gert mér það að skyldu að vera sí-sífrandi við þig, með einhverju rausi, síðan ég settist að, — fannst það sjálfsagt að láta ykkur af mér vita. Ég ligg á bakið í bælinu og klóra sjálfur mitt fyrsta bréf í 5 vikur! Hefi nýlega dregið mig 2—3 fet með rúmstokknum. Gæti gert betra letur, færi betur um mig. En göngulagið yrði víst á fjórum fótum — til tólf.

Ég hefi minnzt áður á íslenzku bækurnar hér vestra í lestrarfél. okkar og í eigu einstakra, er brátt verða afrak og óþverri — aðalsfólks í úrþvætti — hryllileg hugsun! Margir hafa haft orð á því við mig, sem ísl. bækur eiga. Væri ekki t. d. stingandi upp á [á] Þjóðræknisþingi í vetur, að fá þær allar gefnar fél, og gefa þær svo aftur bókasafni Akureyrarskóla? til að lána, gefa eða selja íslenzkum stúdentum og fræðimönnum, sem þyrftu. Ekki þó þá, þá mörg væri sama bókin. Get ekki sagt þetta nánara nú, sökum lasleika míns. Að vísu veit ég húsnæðisleysið okkar.

— — — —

Íslenzk kona í Seattle heitir Elizabeth Roe — eða Ruhr. Seinni maður líkl. þýzkur. Hún vill bjarga einhverju af ísl. bókunum, sem hún á. Ég vísaði henni á þig — gegnum Jakobínu, — ef hún væri ókunn þér. Ég er konunni alókunnugur, en hún er frá Gimli — stríddi í ströngu og man síðan samkomu okkar þar forðum, að þú varst með mér fyrsta sinn. Man það enn svo vel, að annaðhvort hefir hún aldrei orðið jafngóð síðan, eða betri.

Fyrirgefðu, — blessaður allténd.

Þinn ólæsilegur skrifari Stephan G.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 29. jan. 1927.

Tryggða-vinur Baldur. — Nú á ég bæði lítið og lélegt erindi, að skila þér þessum erindum. Þú baðst mig um þau fyrir árum síðan, og ég kinokaði mér við því, treysti mér ekki til þess skammlaust, en fyrirvarð mig að neita þér um þetta — var milli steins og sleggju. Loks hefi ég rasað fyrir ráð fram út í þetta og þarna hefir þú árangurinn, farðu með hann, hvernig sem þú vilt. Geymdu hann eða glataðu. Kvæðið er barnalegt. Til Íslands get ég ekki

kveðið öðru vísi. Hvorki með hamgangi, tilgerð, herrasvip, né uppgerðar mærð, kveðskapur okkar allra er hvort sem er, eins og kverið kenndi okkur, að við mennirnir værum, „ekki eins góðir og við ættum að vera“. Síðustu línurnar í vísum þessum er einmitt hugsun mín, sem ásótti mig svo angurvært, að ég efa mig við að lýsa því, kveldið sem ég lagði út af Reykjavíkur höfn, vestur um haf 1917. Ljósin í húsunum hjá fólkinu, sem ég hafði verið hjá og saknaði að hverfa frá, voru að líða út í náttmyrkrið, hvert af öðru, en höfðu fylgt mér eins langt eins og auðið varð og nokkur geisli þeirra náði til. Þú finnur það, að svo fáskrúðugt sem þetta er, þá er það samt kveðið fyrir munn Vestur-Íslendinga.

Heilsaðu hjartanlega öllum vinum mínum í Vík. Ég nefni aðeins einn sérstaklega að því, hann er sá seinasti, sem hefir ávarpað mig vinar-orðum, það er dr. Nordal. En upp á alla kunningjana ætla ég að heilsa síðar, þegar ég rís úr rekkju.

Vertu blessaður með konu þinni og börnum, Baldur minn.

Stephan G.

*Jakob J. Normann.* 1. febr. 1927.

Normann góður. — Til bráðabirgða — þangað til ég verð skrifandi. Þökk fyrir bréfið og allt. Heilsan til nafna: mín vegna meira en velkomið, tekið með þökk, því sem þú ferð fram á. En svo er nú komið, að leyfi þarf. Þú eða ég getum fært það í tal, ef til kæmi, og yrði líkl. auðsótt.

Blessaður af S.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 2. febr. 1927.

Góðvinur. — Góða þökk fyrir bréfið. Gott að þú ert í undirbúningi með bréfin þín. Bara að þú fáir færi til að láta verða af því. Það er tjón fyrir framtíðar orðstír ísl. alþýðumenntunar, ef allt týnist, sem þú og innlendir hér hafa skipzt orðum á, en — það veit ég — þar hefir þú svo vel haldið þínum hlut, alla leið frá greininni í „Fjalla-Eyv.“ forðum, og hún er nú komin heim, og nú fara forvöð að fækka, til að bjarga. Bréf *innlendra* til þín bera

þér vitni. Heyrðu, gætir þú engan kunningja fengið svo sem 2 vikur, færan og viljugan að ýta þessu á stað með þér? *Bréf frá mér* komu mér ekki í hug. Man ekkert um þau, en býst samt við, að þau hafi gerð verið. Nei, það er álitið á þér, sem *íslenzkum uppalningi og Íslendingi,* sem ég er í að sjá — *það* sem *ég* tel okkur mestan metnað, „löndunum". Það allt rétt. Svo rákumst við saman eitt augnablik Sigtr. frændi þinn á götu í Vík. Ég kannaðist þá ekkert við hann, fyrr en minnzt var á frændsemi ykkar. Sýndist hann sveitabóndi karlmannlegur. Síðan hefi [ég] séð margt vel um þá bræður. Raun, ef að skóli og skógur á Núpi verða eyðimörk fyrir „nápínuskap" ins almenna aftur.

Enn rúmfastur. Riða þó einu sinni eða tvisvar á dag fram í eldhús lengst, og strax „heim" aftur! En sú fótaferð! Stúlkur mínar hanga á mér, eins og hálf-reisa horgemling. Taugar og liðamót gjökta — og þó er munur til bóta. Það sérðu á skriftinni, þó hvorki sé góð né „létt um vik" enn.

Nú ég hlýt að hætta við —
Að heilsa bið
Inn til þín og Jonna. Þinn Stebbi.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 4. febr. 1927.

Góði tryggðavinur. — Þökk fyrir bréfið og boðið til okkar. Það var sem vænta mátti frá þér. Gæti verið gott ráð, ef fært væri — en er enn framtíðarmál — að minnsta kosti til næsta sumars. Manstu, þú sýndir mér í sumri var lítið herbergi í byggingu ykkar bræðra, þá í smíðum, og spurðir um leið: hvort ég myndi una í svona vistarveru? En ég hélt það, ég hefði víðast þreyju haft. Fleira var ekki sagt. En ég samt vissi ofan í þig þá, Rögnv., jafn glöggt og nú. En svo yrði annað mál um alla aðra, en ég er jafn-þakklátur þér engu síður. Og svo er annað: gerðu þér ekki örðugt ómak hingað vestur, öðru vísi en þægilega félli. Ég er að verða líklegri til umbóta.

Illa er mér við að nauða við þig um allan óþarfa, þig sem engan færð frið — en á ekki til annarra að flýja þeirra sem myndu virða firrur mínar viðlits. Þú manst.

hvað okkur hefir borið í tal um Jónas Hall og *minningar* hans. Ég hefi alið á honum til ára — árangurslaust en tillangandi. Loks í sumar samdist svo, að hann hirti nokkur bréf til sín frá menntamönnum innlendum — þó, en enn í rusli og rugli — og Baldur Sveinsson í Rvík, frændi hans og tryggða-tröll mitt, og bezti drengur, hefir lofað honum að hirða um þetta heima. Úr þessu verður ekki, nema einhver „afbæja" ýti öllu á stað: karli og kerlu! — sem sé, setjist að þar heima hjá þeim nokkra daga, sem gestur, í þeim erindum, að róta af stað, byrja á og ráða fram úr fyrst, og verja Hall með lagi fyrir „málaverkunum". Getur þú séð ráð til þess? Góðan mann þarf. Þig sjálfan helzt. Svona úrval og því um líkt er ekki öllum hent. Hver vildi eða gæti gert það? Séra Albert t. d.? ef hann boðar þar „kristni" enn? Hvað heldurðu? Ég vil nauðugur, að Hall okkar týnist. — Hann var of „velgefinn" til þess og of dyggur og tryggur mönnum [og] málefnum til þess, að hann gleymist alveg úr góðminningum vestra, ef unnt er annað. En fyrirgefðu masið.

— — — —

Þú sérð framför mína á skriftinni. Betri, en „rúmlatur" daga og nætur. „Riða" út í eldhús lengst, eina eða tvær ferðir á dag, sný óðara inn aftur og upp í flet mitt, *„eftir að hafa gáð í pottana"*, náttúrlega, og stúlkur mínar þora ekki að sleppa höndum af mér, svo valtur er ég á „völubeinum", — einkum um liðamót eftir „áfallið" — gjökti til eins og grindaverk!

Betri yfir höfði líka. En ég les ögn og rabba, sé við nokkurn að tala. Ömurlegar innilegur! og þó, og þó —

Nær er víðsýn veröldin!
Veggja-þröngur rúmklefinn.
Gægist þó í gluggann minn
Gamli fóstur-vinurinn,
Skrúðgrænn greni-skógurinn!
Faðmar vind og veturinn.

Marg-blessaður! Ég er orðinn þreyttur „að strita við að sitja" — í bráð.

Stephan.

*Magnús Hinriksson.* Markerville, Alta, 5. febr. 1927.

Góðvinur Magnús minn. — Þökk fyrir forna velvild alla, bréfið síðasta og sendinguna. Illt þótti mér að geta ekki heimsótt þig í haust, en mér fannst ég orðinn svo heimfús eftir allan langflækinginn. Treysti því þá, treysti því enn, að *þú* komir hingað næsta sumar, og er alltaf að láta mér heldur skána, þó hægt fari. Liggjandi í rúminu ritblýa ég þér þetta. Stíg á fætur einu sinni, tvisvar á dag, er studdur ögn fram í næsta herbergi [og] í bólið aftur. Batinn verður seinn. Taugar lamaðar, einkum hægra megin, höfuðþyngsli auk fleira. En áreiðanlega hressari þó. Blessaður Magnús. Ég geri betur þegar get.

Þinn Stephan.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerville, Alta, 5. febr. 1927.

Til Guttorms míns —

Verður bréfið mjótt frá mér,
Mærðar lítið þakklætið,
Aðeins sýna ætla þér,
Að ennþá kann ég stafrófið.

Þökk fyrir bréfið og síðast. Já Guttormur! Góðar óskir vina minna „halda betur í mig" en allt annað. Það hefi ég löngu þekkt, og þinn innilegi vilji vegur þar vel. Rósa bætir við þetta, eins og þú baðst. Þokast í bata-átt, en seint. Já, láttu kvæðið koma, blessaður! hvenær sem það verður „fullklætt". Þakka það strax óséð! Finnst ég nærri „ábyrgðarfullur" fyrir því, eins og sagt er á svo dæmalaust *blaðamannlegri* íslenzku. Blessaður alla æfi.

Þinn Stephan G.

Kæri Mr. Guttormsson. — Aðeins fáar línur, til að láta þig vita um líðan pabba. Eins og þú munt sjá á miðanum, sem þessu bréfi fylgir, þá er hann talsvert mikið betri, þó að batinn fari hægt, að manni finnst. Hann hefir legið rúmfastur í meira en sjö vikur, og er það enn. Hann reynir að ganga fram í eldhús þetta tvisvar-þrisvar á dag, en er fjarska afllaus í fótunum, þegar til gangs kemur, og eins og allar taugar séu lamaðar. Höndin sýnist hafa náð sér betur. Eins og þú munt sjá á skriftinni, þá er

hún furðu góð fyrir að vera skrifuð í rúminu. Hann hefir aldrei tekið út miklar þrautir, sem er svolítil bót. Vonandi væri, að hann gæti farið svolítið að rölta um húsið, og ef hlýtt veður helzt, þá kannske fer hann að reyna að sitja í stól, part úr degi. Kannske vorið færi honum svolítið meiri styrk, þegar það kemur. Hann þráir að geta farið að róla svolítið um, bæði úti og inni, sem von er, en þess er ekki að vænta sem stendur. Annað hefi ég ekki að segja. Vona að þú virðir þennan miða á betri veg, þó honum sé ábótavant.

Vinsamlega Rósa.]

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 12. febr. 1927.

Góðvinur. — Enn kem ég eina erindisleysu sem fyrr, og hún er ósk mín um, að þegar þú sendir mér bréfið og norska ritið frá Nordal, gerir þú svo vel og senda dr. J. P. Pálsson í Elfros það. Ég held það fari betur á hesti „að reiða norrænu“ „ofan á milli“ „expressionisma“ og „modernismans“ ný-Enskarans, og „Jói“ getur lært að „búa upp á dróg“ — eða kann það að mestu. Þetta er þá „nöldrið“ núna!

Þá nálgast nú Þjóðræknin okkar! Bið að heilsa henni og óska hamingju. „Kringla“ kemur líkl. í kvöld. Hlakka allténd til hennar. Henni fylgir oftast einhver vorbloti í veðri hugans. — Rúmfastur er ég enn. Af mér genginn. Þungt yfir höfði stundum. Taugariðlaður og flogagigtarflak, um vöðva og liðamót — en eitthvað brattari.

Ósýnt mun, hvort oftar verð
Eg einn af smala-Gvendum.
Svona rösul fóta-ferð
fórst mér aldrei — kenndum.

Blessaður allténd. Þinn Stephan.

*J. Magnús Bjarnason.* 13. febr. 1927.

Til Magnúsar.

Hressir eins og híðbjörninn,
Hræðslulaus við skuggann sinn,
Magnús minn,

Vaktir upp af vori og sól,
Við munum báðir koma á ról.

Stephan G.

*Sveinn Björnsson.* Markerville, Alta, 15. febr. 1927.

Sveinn minn.

Skussi er ég, að „skrifa til“
Skugga-vetur þennan!
Seinna meir við sumar-yl
Sezt ég upp við pennan!

Nú er ég ei bréfa-„beinn“!
Borgun mín er þetta —
Glatt varð mér samt, gamli Sveinn,
Gott af þér að frétta!

Og þakka þér kærl. Ég ligg flatur enn í bæli mínu, ófær, en ef til vill hægbatnandi. Hvenær sem ég get gert þér betri skil, geri ég það! Enn er ég „allur“ af-mér-genginn! en ég verð að reyna að gera það, sem svo margir eru að biðja um: *að vera kyrr!* nokkuð enn.

Getur þú lesið þetta? „Skrif“-hönd mín er bæði stirð, dofin og rösul og aðstaða í bælinu, við kné sitt, boruleg —

Eftir bréfi svo bíðir,
Bara þér ég segi,
Batar það eigi,
Í „bæli“ mig þó hýðir!

Vinsamlega, sem áður. Þinn Stephan G.

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerv., Alta, 19. febr. 1927.

Guttormur góður. — Margfalda þökk fyrir bréfið, það kom í gærkveldi. Fyrirfarandi hefi ég margsinnis sagt það, að það muni hafa verið hlý-hugi vina minna, fremur en nokkuð annað, sem hefir fleytt mér á fótum, svo að þú sérð, að ég trúi því sjálfur, sem þú varst að segja viðvíkjandi heilsu minni. Ég hefi gleymt að segja þér eitt, enda kom það fyrir núna í vesældar-kastinu mínu, svo ég lærði það ekki utanbókar, en það var bezta og

spámannlegasta vísan eftir sjálfan þig, sem út kom í Lögbergi nýlega. Hún er átta línur í fornyrðalagi, og er hugsjón þín um mannssálina. Þakka þér fyrir hana, þetta hefir þú bezt gert. Svo ætla ég að enda miðann með því að segja þér, að ég álít, að það sé ekki unnt, að mér batni, ef að jafn andheitur vilji sem þinn orkar engu þar um.

Í þetta sinn ætla ég hvorki að þreyta skrifarann, né þig frekar. Vertu blessaður. Ræfill er ég ennþá, aldrei á flakki, en það batar engan að bera sig illa. Hlakka til næsta bréfs.

Vertu alla tíma sæll. Stephan G.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 3. marz 1927.

Jónas minn góður. — Eiginlega kem ég nú erindisleysu, aðra en þá að „bekénna“ bréfið þitt síðasta, svona „í lit“, og þó hitt heldur að gefa eitthvert hljóð af mér, svo þið Jonni þurfið ekki að „undrast um mig“. Ég skrifaði þér, en ekki honum, sökum þessa auka-erindis um bréfin. Vissi, að þú myndir „hóa“ til Jonna „ástandið“, en er ekki bréf-greiðugur, baklægur við koddann, nema sem minnst. Veðr-ið skárra nú, en var illt. Fönn mikil. Veikindi í öðrum hvorum kofa — eitt aðalnafn oftast „flue“ eða þá „Pneu-mónía“ eða hósti eða hettusótt, þegar gróft er talað, og læknar gefa sama lyfið við því öllu. Ögn er [ég] skárri — en eins til gangs þó. Skripla fram og inn úr eldhúsi 1 sinni — 2var á dag, og nærri á nösunum, og allur út á hliðar, Strengir og stríðugleikar um taugar, liði, vöðva, líkt því sem skýrt er gigt. Læknirinn nefnir það „Blood Pressure“: Æð í hausnum hafi slitnað. Reyndar vissi ég þetta, hafði haft aðkenningu til ára, auk meiri kvilla, en beit það af mér eins lengi og gat. Settist um kyrrt seinna en ég átti. Það gerum við öll, og er þó bæði ósiður og illmennska.

Þegar ég get, skal ég skrifa Jonna. Þú kemur enn kveðj-um okkar kærum til hans.

Úti er ótíða-vetur,
Svo óskir manns gera ekki betur
En austur um ófærð svo langa
Á eldingum hugar að ganga.

Blessaður. Þinn Stephan.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 13. marz 1927.

Séra Rögnvaldur. Góðvinur minn! og aðrir góðvinir. — Þökk fyrir alla umhugsun um mig, og bréfið síðasta í fyrradag, með kvæðakaupinu í. En þeim mun „ótérlegra" var það þá af mér, að skrifa þér ekki fyrr og láta ykkur „undrast um sig". En ég var að reyna að „brölta ögn um gólf", fyrirfarandi (þó sá „skeifugangur" sé skripl-gangur og hallinrang út á hægri hlið enn). Svo vant sé að vita, hvor endi upp muni snúa, hefir það ekki orkað slysi enn. Enda hefi ég oftar haft konu á hvora hlið til „að taka af mér fall" ef þyrfti, og minna hefir „gamla Adam" orðið að duga, fyrstu veraldar árin sín! Ég hefi líka setið uppi í stól síðari hluta hvers dags, næstl. viku. Ögn betri en var, en ógóður þó.

Þetta er annað blað mitt með bleki og penna. Hitt í gær. En ekki er enn „vakurt, þó riðið sé", eins og á sér, og engan grunar gleggra en mig, hve staursleg öll atvik eru. Jafnvel á bata getur maður orðið leiður á sjálfum sér, þó illa eigi það við. Ég hefi reynt það, og þó reynt að þegja yfir.

Vetur er hér enn yfir allri jörð, þó hann hafi nú þynnzt. Sífelld vesöld í fólki, t. d. hefir Hünford legið rúmfastur í tvær vikur víst og ekki sagður á batavegi nýlega, og þau gömlu grannar mínir, Guðmundur og Guðbjörg Þorláksson, við rúmið og í því fyrirfarandi daga.

Nýlega hafði ég sent þér danska grein, í sænsku riti nefnt „Sögn og Sjón": Ord og Bild. Ekki vegna þess, að hún gat mín, en hinna „ólærðu". Og svo hitt, dr. Nordal er íslenzkastur, sjálfstæðastur og sannastur þeirra allra, sem íslenzka bóklist dæma, nú á dögum, því skeikar ekki, hvað [sem] nöldrað er. Ekkert verður úr okkur, í okkar eltingaleik eftir útlendu, sem oft eru dægurfirrur af afkáraskap, sem á að standa fyrir „ósköpin öll". Hitt er líka víst, við verðum að „ota fram okkar eigin tota", annars gera engir það, og er skömm að „ganga stelandi", en eiga efni nóg. Á því hefir Nordal bezta einurð og vit, eins og nú stendur. Þetta er mitt hrós um hann — síður hitt að heldur í hönd með mér — þó undarlega lægi í mér, léti ég hann *gjalda* þess!

Nýl. réði ég Hall til að flytja sjálfan sig til Wpg., með

Syrpu sína. Leggjast upp hjá syni sínum þar, meðan þú, eða einhver, sem þú tryðir til, „drægi safnið“, með Hall, — ekki líkl. margra daga verk, sé að því gengið.

Jónas er að bera önn um einhver bréf frá mér. Þau skipta engu máli, en það eru til H. (fáein líkl.) ensk, þar sem góðir menn hafa dáð hann — skólaleysingjann — fyrir enskuna hans og fróðleik. Vitni þess mega ekki glatast, ef til eru. Ísl. eiga ekki að þegja sinn eigin-sóma í hel af leti og hugsunarleysi. Nóg af góðu gleymist samt og gengur í sig.

Hér mun ég hætta þá. Rætist ykkur blessun, ein fram úr öllu.

Þinn S. G.

PS. Víst mun ei til vinnu neinn
Verða mig til að fala:
Ef héðan af verð ég svona seinn
Silakeppur að smala!

Þetta er fyrsta bréfið, sem ég klóra með pennanum, sem Jón Tómasson gaf mér. Færðu honum þá fregn, með kærri kveðju minni!

*Guttormur J. Guttormsson.* 14. marz 1927.

Guttormur minn góður. — Aðeins þökk fyrir alla umhyggju, alúðina þína í minn garð. Óskir og andi vina minna verða mitt læknislyf, öllu framar þínar þar ekki sízt, „það veit ég vel og hygg það ekki hégóma“. „Sólheimur“ þinn fer líka sístækkandi í kvæðinu þínu. Síðasta vísan t. d. er „guðspjall“ hinna andlega hugsandi. Annars hefi ég ekki enn í bráðina ástæður í mér að segja sem ég kynni, væri ég vel með „heilli há“. En svo verður það síðar þó. Til að sýna þér *lit* á *því*, bagla ég þetta með bleki og penna. Bar það fyrst við í gær. Varð alveg „óskrifandi“, og enn ógóður, haltur og nær handleggs-vana, valtingengur á hægri hlið og taugatitrandi og strengdur, með verk í vöðvum og liðamótum. Og þó — nú hraslast ég um húspallinn endilangan og í brókum, tvisvar-þrisvar á dag (en ófagur er gangurinn), og í stól sit ég uppi síðdegis nokkuð, í nærri vikuna síðast liðnu. Tafsamur afturbati bara. — En lítið liggur á enn: engar vorannir að hugsa um, meðan vetur ríkir yfir!

Leiki lán þér og gleði
Í ljóði og geði.
Og kveðju mína kæra
Ið komandi sumar ég ykkur bið að færa.

Veri þér allar vættir vel, Guttormur, segir Stephan þinn G.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 18. marz 1927.

Góðvinur Jónas. — Kem bara snöggva-ferð í því helzta erindi að þakka þér bréfið seinasta (11. þ. m.), glöggt og langt, og segja þar stutt svar við því, sem er þó heldur rugl en svar. Ég skrifaði séra R. líkt og þér um þetta mál, ég held tvisvar, og mæltist til, að [hann] skryppi suður og kæmi rekspöl á. Stakk svo upp á að [þú] kæmir norður til hans með „moðið", en hann eða *hans maður* einhver byrjaði með þér, og þú yrðir í Wpg. á meðan „moðað" væri úr. Svar er: R. gerir það, að finna þig, þegar hann getur við komið, en er, eins og alltíð, á allra þönum. Veikindi í vetur í heimilinu, hann sjálfur jafnvel lasinn, og Ólafur bróðir hans liggur, og yngsta dóttir (inflúenza í Winnipeg eða reyndar um allar jarðir). R. varð því að taka við verki Óla og Jakobs, er hætti við „Kringlu"-bókhaldið, um áramót, og vera „aðstoð" í embætti séra Kvarans, þegar hann vék frá. En í þínu máli er það ætlun hans, þegar við yrði komizt. Kunningi hans gamall og sjúkur suður í Dak. hefir æskt eftir fundi hans. Það ætlar R. að gera, þegar unnt er, og *heimsækja þig um leið*. Takist það, ráðið þið ykkur ráð, sé það ekki þegar ráðið, og þú skrifar R. Þessa viku bætti feti af vetri á það, sem fyrir var, svo vorinu er ekki norður-ganga enn árennileg. Ég í mínum molum, en kannske minni en var, og „reikull í rás" og fá-förull um gólf, alls konar „lamasess" sitja í mér, hátt eða lágt. — Ekki lengri viðstaða í þetta sinn. Heilsaðu þeim, sem ég er vanur að kasta kveðju til — og blessaður.

Þinn Stebbi.

*Sveinn Björnsson.* 28. marz 1927.

Minn gamli, góði Sveinn. — Rétt til að láta þig sjá, að ég hefi fengið bréf þitt frá 21. þ. m. bögglast ég við *blý-*

*letrið.* Í fingrum og lófum, fótum og öllum skrokk mínum, hér og þar, eða sífellt — taugar stirðar eða í „stokk" — allt enn „halt" eða „handlama". En svo á það kannske eftir að rétta betur við enn. Þetta er nú bara batinn minn hægi, eftir áfallið um miðjan næstl. des. Ég róta ögn innan kofa, litla stund á hverjum degi, nú skakkur og skældur eins og rímvilla, en út kem ég ekki enn, enda er snjór svo ótekinn enn, að varla yddir á kné manns við skefli. Seinna langar mig að gera lengra og betur við þig, forni félagi, og líklega kannske, að þú „rennir" hér austur-yfir. Svo nú ertu „aðstoðari" orðinn hjá séra R. Alltaf er kirkjan þeirra í framför. Einu sinni spáði hún mér því, að ég myndi ætla að gerast kennimaður í Alberta. Auðvitað átti það að heita háð, en var illa til getið, og gat alls ekki rætzt á mér. Á eitt verð ég að minnast við þig, sem ég veit fyrir víst, af kunnugleik en hreint ekki hnýsni, af hendingu þar að auki, því ég kann varla „slæður í kring", en víst er það, að séra Rögnv. heldur mjög af Ó. bróður þínum. Hann hefir sagt mér fullum hálsi, að hann sé „bezt" menntaði ísl. læknirinn í Wpg. og fleira honum til hróss, ekkert til lýta. Aldrei minnzt við mig á „kirkjuklukkurnar" íslenzku á „Medical Arts" þeirra í Winnipeg. Svo er líka með Jón Stefánsson „augnakarl", og hann mun líka eiga það skilið. Þessi mál koma mér ekkert við. En ég er ágjarnari á velvild milli mætra drengja en óvild þeirra, ef ég þykist um vita.

Undu heill og hugrór við
Haginn beztan.
Hingað sendu mér sumarið
Sveinn að vestan.

Þinn gamli Stebbi.

*Björgvin Guðmundsson.* Markerville, Alta, 8. apríl 1927.

Góðvinur Björgvin minn! — Feginn varð ég bréfi þínu nýkomna. Allt efnið er, að segja þér, að enn er ég varla sendibréfs- og síður húslestrar-fær, þó ég skjögri ögn um gólf [og út á] hlað stund og stund á dag, enda er hlaðið ný-autt og vorveður aðeins í undirbúningi, — og ég rytja

og ræfill. Bati enn ekki bráðþroska, enda árar mér til slíks sem von mun vera til. Ég kveið fyrir, að þulan, sem ég sendi þér, yrði þér leiðindi og vonbrigði. Allt var mér andstætt, *aðferð og heilsa.* Mér fundust það *svik* við það traust, sem þú barst til mín *(að ég gæti þetta),* að gera ekki mitt ýtrasta, jafnvel þótt ég aldrei heitstrengdi þér neitt og lægi loks óvígur. Ég var búinn með allmikið, en botninn samt „suður í Borgarfirði" og honum „klúðraði" ég saman í fletinu — til að gefast ekki upp. Von þótt vandkvætt sé. Annar ágætis-vinur minn heima á Íslandi hafði beðið mig um líkt árum fyrr, en auðveldara, — bara kvæði. Honum hafði ég eins engu lofað, — talið mér tormerki á — en dauðlangaði að geðjast honum, ef ég gæti, eins og þér. Þar lagðist ég á, út af á koddann, frá annarri „botnleysu" líka og lauk eins við hana, á honum, og sendi heim, en veit ekki, hversu fór. Voru aðeins fá erindi og „veðurhljóðalaus", eins og mér verður löngum, en hvað um það, ég er rólegri af að reyna — og tapa, af því góður vinur átti í hlut, sem hafði þessa tröllatrú á mér. Eins var með þig. Ég var þér of ókunnugur, hefði getað sparað alla „knésetningu", hefði ég vitað sem nú, hve vel þú ert „heima" — en vissi ekki — þorði ekki að þegja. — „Kviðan" er gáta eða vitleysa ókunnugum — en undarlega hughreif mér frá æsku og minnisstæð, þessi systir „Völuspár" í litlu broti, — þessi hálf-heiðna og hálf-kristna helgi-saga, að sumu leyti dýpri en svo að vera kristin eða heiðin. Yfir því er ég samt sár. Ég var ekki fullfær að gera henni góð skil, né naut fullra krafta minna líklega, eins og á mér stóð. Um hitt er ekki að gera, *þú ræður* aukum og úrfellum, ef þú annars „kemst til ráðs" við þetta, og án þess að leita míns leyfis. Jú, ég á afrit, sem mér dugar. Nóg, að þú geymir drusluna, sem ég sendi, unz henni verður endilega ráðstafað til geymslu eða glötunar. Svo held ég verði að minnka „masið" þetta sinn, — okkur báðum til bóta!

Ég bið að heilsa konu þinni með þökk fyrir kveðjurnar hennar og viðtökurnar í Winnipeg. Og vegni ykkur ætíð vel.

Vinsamlegast Stephan G.

Fyrirgefðu blýið. Löppin er enn hrösul með blek og penna.
S. G.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Markerv., Alta, 9. apríl 1927.

Góðvinur séra R. — Sendi þér bréf frá S. G. mag., svo þú sjáir, hvað hann segir um þig á bak. Allténd betra — þótt ekki sért þú orðsjúkur. — En hrós hans um mig, hlauptu yfir *það!* Bara nennti ekki að gera blaðið *grunsamt* með að lauma því undan og slíta upp úr.

Ótíð brekótt, gæða grönn
gengur ei hót til bóta.
Vonzku-frek er' veðrabönn,
Vorið rekur niður fönn.

Ofsagt að vísu. En seinast í morgun fauk og blés svalt, og jörð hvergi ör-ísa enn.

Það ætla að verða „þingdeildir" að „Þjóðrækni", sýnist mér. Auðvitað veit ég ekki hvað, en grunar! og „fordæmi" ekki að fletta upp um „Bíld", þó honum tækist illa upp á gróðabragði — ef svo er — eða hverju helzt hrekkjabragði sem væri.

Ég er allur alla vega aftaugaður;
Haltur, skældur, handarlama,
Hérna skárri, þar við sama.

En örðugt er aðgerðarleysið.

Bið að heilsa heimilinu okkar þarna hjá þér.

Ég hefi aldrei svarað því, en víst mun satt sem þú segir, að í Winnipeg sé ég liðflestur.

Margblessaður af öllum góðum — og

S. G. —

*Guttormur J. Guttormsson.* Markerv., Alta, 11. apríl 1927.

*Til Guttorms.*

Helgir hjá mér standa
Hugir afturbata.
Vina-vegu rata
Vítt á milli landa.
Að mér heilsu að anda,
Þökk þér! fyrir að fara
Fremstur í þeim skara.

Stephan G.

Guttormur minn. — Þetta er bara „viðurkenning“ fyrir alla „fyrirhöfnina á mér“, því enn er ég „ómagi“, andlega og öðru vísi, og óborgunarfær. Að vísu „klæðist ég upp á“ undir hádegi, skjögra um pall og kringum hús, „haltur á hægra auga, og hringeygður á vinstra fæti“, eins og karlinn heima lýsti gæðingnum. Í alvöru, ég er enn á tauga-„tvist og bast“, og heimskur yfir höfði, þó eitthvað fari ég batnandi. Rannsaka meira en ég get gert mér grein fyrir — en hvað um það. Ég ætla enn eitthvað að jafna þessa ritblýsreikninga mína við þig, nær sem ég get liðkað um málbeinið, á pappírnum. En heyrðu, þú leggur það fyrir mig að glata handriti þínu. Sjálfsagt, ef þú segir svo! En er þér það blá-alvara? Segðu næst, ef svo er. Líkl. lætur þú prenta allt, úr því nokkuð er prentað, og því þá að „bera þetta á bál“? Sem sé, ég vildi sjálfur halda í það til minja. En ráð þú og ég hlýði!

Bjóð þú svo dísum vors og unaðs inn
Allan daginn — vinurinn tryggi minn —

Það segir þinn Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 12. apríl 1927.

Grímur minn góður. — Þökk fyrir bréfspjaldið, o. fl. Slæmt var, að lækningin dugði þér ekki lengur, en ef til vill gerir taugalæknir betur við þig í svona tilfelli. Þrátt fyrir alla öfga, gera þeir stundum við, þar sem hinir ganga frá, ef þeir kunna sína fræði, meira en að *ein aðferð lækni allt* og að hún sé sín auðlærða. En þú ert ekki orðinn til gangs, Grímur, þó þér skáni aftur, sem líkl. er. Þínir fætur, nú orðið, standa ekki stigum Burn's á sporði, sem von er. Fréttir, sem ég kann, eru: Mrs. Benediktsson, eða eiginlega *Melur,* hafa selt búðina. Því var spáð sjálfsögðu strax í haust eð var. Verð veit ég ekki. Kaupandinn nýkominn, síðast í Medicine Hat, heitir Lemon. Mrs. B. og börn sagt að ætli til Calgary. Skuldir útistandandi sagðar vera um $8000.00. Mikið, ekki eftir lengri tíma. *Melur* verður hér eitthvað enn að innheimta, og „síma-mærin“ fyrst um sinn, að látið er. Guðm. og Guðb. Þorl. eru á

flakk komin aftur og að búskapnum eitthvað, en eftir sig mjög. Dr. Wagner sagði það „flú“ — mest sögð í fótum Guðm. — og Wagner kvað hann lánsmann, að hún hefði ekki stefnt hærra. Hunford liggur enn, í nýrnaveiki, að dómi dr. W., og getur enn ekki risið úr rúminu, en ef til vill ögn til bata brugðið, við síðustu frétt, á sunnudaginn var. Ég fer í föt alla daga nú. Kem fram og út, slettist út á allar hliðar, þegar ég „spássera“, fremur af þrákelkni en mætti, en hefi þó enn „hangt á löpp“ með hörkubrögðum. Er t. d. nú nýkominn úr „slangri“ alla leið norðan frá fjósahliði. Engri skepnu biði ég þó kapphlaup, nema 12-fótlungi. Jú, ég er hraustari talsvert, sé ég ekki verri en sýnist. Er misjafnt „upplagður“.

Heyrðu — segðu okkur, er það frændkona þín og forna nágranna okkar Helgu þessi Guðrún Friðriksson, sem yrkir til Helgu minnar í „Lögb.“ síðasta — sú, sem eitt sinn var vinnukona hjá Laugu systir við Garðar forðum. Okkur grunar það, en áttum okkur ekki á. Hvað heldur þú? Hún var greind, eins og hún átti ætt til, þó ekki muni ég kveðskap til hennar þá. Hver sem konan er, á Helga að skrifa henni.

Snjór að vísu senn á förum — en stormar og nepjur, þó þýtt sé veður, og akrar enn óvinnandi.

Vertu blessaður Grímur, svo segjum við öll.

Þinn Stephan G.

*Til Gríms míns.*

Heilindi þitt hlýrra veður hressi og bæti!
Vorið gerir þig frárri á fæti,
Fram í sveit og út um stræti.

Vinsaml. Stephan G.

*J. Magnús Bjarnason.* 17. apríl 1927.

Sumarvísa til J. Magnúsar míns.

Okkur bata og bragga storð
„Bænir“ hlýrra tíða,
Þegar að sumars áhríns-orð
Öll verða gróður-blíða.

Þannig kveður þinn stafkarlinn Stephan G.

„Af mér sjálfum að segja“.

Uppréttara ögn mig ber
Eg, en þegar flatast hér
Hnipur-kúrði — hvergi er
Hundraðasti af fyrra mér.

Á Páskadaginn 1927. S. G.

*Jóhannes P. Pálsson.* 21. apríl 1927.

*Sumarósk til vinar J. P. P.*

El eg í brjósti ósk og spá,
Innst í þeli mínu:
Að aldrei setjist sólin á
Sumarlandi þínu.

Stephan G—.

NB. Skrifaði með *vinstri hendi:* Gerði það, handlama á hægri, fyrir nokkrum árum. Aldrei fyrr né síðar. Er um hönd meir nú en þá. „Löppin“ brotnaði í „millitíð“, svo að skekktist við. S. G.

*Jónas Hall.* Markerville, Alta, 25. apríl 1927.

Góði gamli vinur. —

Bréfið ber að þakka þér.
Því er ég hér. Ég veit svo fer,
Ef lína fæst ei frá mér,
Fipast spár um: hvað mun há mér.

En annars kem ég erindisleysu. Hafði sagt allt, sem í mér sat, um okkar efni á þessu stigi málsins, þykist viss, að séra R. heimsæki þig, á sínum tíma, hvenær sem önn og „arg“ eða lasleikar ekki banna, en af því er hann umsetinn, frekara en ónákunnuga grunar. En þegar þar að kemur, verður eitthvað úr. Annars hefi ég enn sömu kreddu og áður: Sértu ferða-fær, væri vissast, að þú værir með dót þitt svo langt undan landi, að hvorki heyrðir þú kýrbaul né sæir reyklausan reykháf í svo sem eina-tvær vikur, með því, með hjálp góðra vina, „leystir [þú] ofan af“ skjóðunni. Þetta er nú allur galdurinn. Heima hjá þér

verður útideyfa álög á þér einum, nema ef til vill með aðfengnum ráðsmanni. Ég er hér að „dæma“ sjálfan mig. Er í líkri súpu, nema dýpri. Bunkar af bréfum ósundurtíndir, seinni kvæðin óniðurröðuð, sem ég ætlaði þó — og hefi ég þó miklu „moðað“ og ekki „af mér svikið“, en nú veltur á, hversu heilsa mín fer, úr því ég „misréð“ svona lengi að láta allt annað ganga fyrir — jafnvel að moka og hirða fjós. Jæja, Jónas minn, nú átt þú að reka rögg á að ljúka *þínu* af, sjálfs þín vegna, þetta liggur á þinni samvizku þangað til og verður þér að eftirsjón. — Hér gerði fannfergis páska-hrets vonzku-veður. Ég lenti ofan í bælið aftur þá þrjá daga, sem „hamurinn“ lá í lofti og jörð. Annars var ég á ferli, úti og inni um bæ ögn, meira af þráa en mætti, hélt, að lengri rúmlega yrði að kör. Var í dag ögn á fæti úti aftur. Nú komið gott veður og snjór mestur farinn, og vorvinna á næstu grösum, haldist veðurbati, og ekki umhverfist aftur. Ég er líkur ræfill sem fyrr. Taugakerfið allt í glundroða, auk allrar annarrar óveru. En ekki nenni ég að skýra það frekara. Læknirinn ráðleggur mér stöðugt „þolinmæði“ og sömu dropana. Hann getur víst ekki betur. Jæja, mér er nærri hugnun, að „klórið“ mitt er líklega hreysti-legra en heilsufarið enn er. En svo sjá aðrir „batamerkin“ betur en ég, eins og gengur, þegar rétt gengur og eðlilega. Kallaðu góðar kveðjur okkar til Guddu og Jonna vors, og Sigríðar þinnar, og frændfólks vors.

Gangi þér allt að geði,
Njótir þú gæfu og gleði.

Þess óskar þér þinn Stebbi gamli.

*Jakob J. Normann.* Markerville, Alta, 26. apríl 1927.

Þetta á bara að vera viðtökuvottorð fyrir bréfið frá þér, vinur. Ný-búinn með nokkrar línur til Sigurjóns míns gamla, og læt þig svo sitja á haka, ef ég get seinna lengur og betur, eins og ég ætla. Er ögn á rjátli, ef veður leyfir, litla stund í senn, gjöktandi allur, teygður og stirður á taugum og hálfreikandi, en hangi þó á löpp. Leiður „yfir höfði“, auk ýmsra eldri galla. Yfir höfuð ég er ræfill, betri

en þegar „verst blés“, en mikið mætti lagast enn, áður en ég þætti nú gangna-fær, þó ekki væri nema á kvíaból og með hvíldum.

Jú, það sem þú sást í „Kringlu“ um mig var víst með sönnu sagt — skrifað héðan af heimili, og sízt ofsagt.

Þetta hefir verið sá margörðugasti vetur, sem hér hefir um hérað farið, síðan við settumst að. Ónotatíð, vorleysa fram að þessu, páska-hríð með fannburði og frosti, alls konar kvillar og veikindi. Nú er snjór ný-tekinn og sýnist sumar koma. Einstaka maður á akri í dag, en víðast of blautt. Já, ég bið að heilsa nafna sem hlýlegast. En hver var veikur hjá þér í vetur? Þú ert sjálfur ekki öruggur eftir leguna í „flugunni“ forðum, og því spyr ég. Læknar hér kalla þetta sumt „inflúenzu“, sem hér hefir gengið um í vetur. Ef þeir ekki vita, verður þó allt eitthvað að *heita*, eins og vant er.

Lengra ei þetta þvagl hér,
Það er mörgu vikið.
Að geta skrifað gott bréf,
Ég gefa skyldi mikið.

Sem þinn hugur hlýr er mér,
Allt „höndfarandi“ reynist þér!

Vinsamlega frá Stephani G—.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 2. maí 1927.

Baldur minn, góði tryggða-vinur. — Svo hefir sagt verið: „að oft séu efnin smá á vordaginn.“ Nú rætist það á mér og miða þessum, ég kem í deníkjur um að fá að frétta, hvort þú hafir fengið frá mér í vetur blað með erindum á, gerð að lyktum, mig minnir, þegar ég lá flatastur í legunni í jan. í vetur, sem ég bý enn illa að, þó nú eigri ég ögn um hlaðið, reikull, riðandi og gagnslaus öllu — taugabilun o. s. frv. upp úr legunni. Klórað, helzt með ritblýi, svo líklegast sé að lesa megi. En betri er ég þó, en engu af að státa enn. En ég ætla að „bæta mig“ ennþá.

Já, en efnið! Erindin, sem ég sendi þér, voru 6, að mig minnir, með hendi Rósu litlu dóttur minnar. Þá gat eng-

inn lesið mína skrift — ekki sjálfur ég! Enginn skaði í sjálfu sér, þó týnzt hafi, nema þessi: mér væri hugnun að vita, að þú *vissir,* að ég reyndi að gera bón þína (þú veizt, hver hún var), því vilja hafði ég til, þó ég vantreysti orku minni, og allt væri mér andstætt og um hönd, eins og á mér hefir staðið. Ég lái engum, þó lítið þyki nú að mér kveða, en lofaðu mér að vita með línu, hvort línurnar hafa lendingu náð. Annars sendi ég þér þær aftur, og það þarft þú að varast — eitt slíkt örverpi meira en nóg!

Ill-kvilla vetur var hér, vorleysu vetur nú á sumar fram, svo aldrei hefir verr blásið hér um hérað á þann hátt, svo ég minnist. T. d. eru það víst um 6, við landar hér, ungir og gamlir, sem liggjum lamaðir heima eða á „hospítölum“, án þess þó ég telji hina venjulegu „uppskeru“ af botnlangabólgu.

Kona mín og ég biðjum að heilsa kærl. þínu heimafólki, með þökk fyrir öll ykkar hollu hlýindi, ávallt, í okkar garð. Gangi ykkur forlögin til blessunar!

Þinn gamli Stephan G.
gæfi ykkur það, ef hann gæti.

*Björgvin Guðmundsson.* Markerville, Alta, 7. maí 1927.

Góðvinur Björgvin minn. — Sumardags-fyrsta-bréf þitt kom í gær. Það er mér gleði, og starfslaun meira en næg, að alltaf ert þú ánægður með „kvakið“ mitt, slík álög sem á mér lágu þá og liggja enn. Ég bjóst ekki við svo góðu, — aðeins vildi ekki bregðast *þér að reyna til,* í lengstu lög. Heyrðu, hafðir þú ekki fengið miðann minn, sem setti þér í sjálfsvald, að auka í eða afsníða, eða flytja til, sem þér virtist við þitt eiga? Ég sendi þér þó nýlega svolátandi orð. Við sama situr enn, og að engu þarft þú þar að óttast né að að spyrja. „Eftirleikinn“ þann ert þú einráður um og eðlilega án ráðaleitni við mínar firrur, kannske. Ég veit það þarf svo að vera. Ekkert „blý“ má þinn væng binda, ég skil það á sjálfum mér, þó á öðru sviði sé. Þar dugar „þægðin“ ekki. Sé af henni einni saman unnið, en engri „hrifningu“, þá er allt úti.

Já, kjóstu þessu nafn, sem *fellur* þér *sjálfum,* ef þess

þarf. Mér er mitt *nafn* sízt fast í hendi og hafði ég þó um það hugsað, en ekki nema til að ganga ekki frá „nafnleysu“. „Kantötu“ þoli ég illa í íslenzku, þó ég hér um bil viti ætt þess, — og ég veit ekki, hvort mér dytti betra í hug en búið er. Kæmi það fyrir, léti ég þig vita. En ráddu nafni. Reglan er ekki nema ein, að fara með það eitt, sem manni fellst á, hvað sem aðrir um dæma. Nóg er „raunin“ samt, þó ekki sé allt af „öðrum skafið“. — Ég er ögn á ræfils-fótaferli, stund og stund á dag, sem ég geri mér til tilvonandi styrkingar, en kannske of mikið af, sökum óþreyju. Ég veit það ekki, en tek allar hreyfingar nærri mér, titra og skjögra, — stirðna, liggi ég dægra-kyrr, hendur og fætur. Tíð alltaf umhleyp og köld, ef það veldur nokkru um. En ég klæðist, og „rasa“ um úti, allmikið, flesta daga, undir mílu á dag, í 2—3 skömmtum, ef til vill! „Kastið“, sem ég fékk, fór illa með mínar gömlu og slitnu taugar, sem voru, svo batinn er seinfær, en ég reyni að „herða mig“.

Berðu heimili þínu kveðju okkar og blessun, og fylgi þér farsæld og ánægja.

Þinn einl. Stephan G—.

*Sveinn Björnsson.* Markerville, Alta, 8. maí 1927.

Sveinn minn. —

Áhyggjur ég af því hef,
Að það svona gengur,
Að ég get ekki borgað bréf
Bærilega lengur!

En þá er eina ráðið, að hugsa þeim þökk mína, sem mér skrifa, og það geri ég til þín, Sveinn. Ég er enn í „beyglum“ og biluðum taugum, á flestum „landamerkjum“ skrokks míns, og batinn er ekki bráðþroska. Vorveðrið er fram úr hófi örðugt hér, en þegar það lagast, vilja vinir mínir mér *betra gengi*. Ég hefi skilað til Laugu systur kveðjum þínum, en ég man nú ekki, hvort ég hefi komið hennar til þín, en nú skal það ske: hún sendir þér hlý-huga heilsanir sínar fornar og nýjar. Auðvitað meðan ég man: Þú verður að senda „Kringlu“ „prestslambið“ þitt, sem átti

að verða. Ég er viss um, að það hefir „fóðrazt“ fullvel hjá þér í vetur.

Jú, fyrir löngu las ég ýmislegt um þennan gamla sæg af biblíu-æfintýrum, þjóðsögum: tyrkneskum, sýrlenzkum o. s. frv. Ég hefi jafnvel rekizt á Austurlanda „farand-sala“ hér, sem trúa öllum þeim hégiljum. Eitt er einkenni allra þeirra „trúarbragða“: biblían ber eins og gull af eiri af öllum þeim urmul af ímyndunum og fjarstæðum, en svipar þó saman um margt. Og trúin þeirra á þetta er sterkari en okkar kristni, eins konar andleg ærsl og örvit. Okkar aumasta „orthodoxia“ er nærri „helgidómur“ hjá því sumu.

Unnum við saman, eg og þú,
Þó æfin skammt því réði,
Hefir mér verið síðan sú
samvist oft til gleði.

Já, austur ættir þú að komast, meðan þú ert *nógu ungur* enn til að ferðast og njóta þín nokkuð í flokk frænda og fornra vina. Já, stelstu burt til þess, með hvern þinn skilding „reyttan saman“, vilji svo vel til og ekki betur. Enginn á þá annar en þú, hvort sem er. — Og nú er ég „út af túr“ að skrifa þér lengra í þetta sinn. Á í mörg bréfahorn að líta og er „þungur“ til þeirrar vinnu svo mjög, að varla er frá segjandi. Því veldur enn vesaldómur minn. Hann situr nokkuð fast í mér og lætur lítið að gagni undan enn. En ykkur því meiri þökk, sem alltaf eruð um mig að hugsa.

Sveinn, ég óska, að ennþá auðnist þér
Öll sú bót, sem betur fer —
Stebbi við það efnið er.

Þinn forni Stephan G—.

*Jón Jónsson yngri.* Markerville, Alta, 12. maí 1927.

Frændi góður. — Ekki hefi ég fyrr komið mér að að senda þér enn eina skrípamynd af skrift minni nú, þó alltaf sé ég að því til einhverra, sem sífellt eru um mig frétta-fúsir, meira en mér er nærri dugur til, því aldrei verður full-þakkað, hvað fólki er orðið annt um mig, eins

óþjáll og ég hefi verið, né að mér ókunnugir, jafnvel, minnast mín, þó gizka mætti á, að það væri bara þekkingarleysinu að þakka, væri ekki hitt (sem líka er), að sumir *fullkunnugir* eru eins að þessu. Jæja, ég þakka þér þinn hlut í því. En bæði var ég og er latur nú (eða sama sem): hafði af litlu fréttnæmu að borga og bjóst við, að kveðja hefði komizt með fornvinu minni, Guðr. Laxdal, á förum úr Calgary með „guðspjallamanni“ Lúkasi, tengdasyni sínum og Missour-íu presti. Hann á þar von betri kjara en buðust hér. Annars er Þjóðverji sá að mörgu maður snæfur (þar sem hann er ekki eins kargur eins og í „missúr-iskunni“). — Ég hefi heyrt eina Íslendingadagsræðu til hans hér, óviðbúins og aðvífandi á Markerville, og hún var skemmtileg og vel flutt, eftir atvikum — líkl. mér *betri* en sunnudagshugvekjur hans. „Gunna“ er enn lík, og ég held boðari betri trúar en „Lúkas“ sjálfur, ef í það færi. Íslendingar óspilltir eru svo í eðli sínu.

Seint brá hér til sumars. Enn er oft úrfelli og rosasamt. Byrjuð er þó vorönn, en blautt mun land víða. Hér er búið að sá um 70 ekr. hveitis. Nutum þess, að haustplæging varð með meira móti. Nokkuð til, fyrir hafra, ef ekki fer allt á flot og betur „hysjar úr“ lægsta landi í „nesinu“ okkar. Allur úthagi að grænka, þó sjaldan sé hlýtt. Rekja í jörð nóg.

Júl. Bardal hefir unnið hér á akri með Kobba, síðan fært varð.

Ég er orðinn „uppiskroppa“ af „aðsetu“, liggjandi i legubekknum við að klóra. Er lakari, en fylgi samt fötum að nokkru leyti, aldrei enn á beinum batavegi, að mér finnst, alltaf ræfill ennþá, meiri eða minni aðeins. „Húsi“ þínu öllu sendi ég kveðju mína kæra. Segðu Guðbjörgu, að síðan ég á endanum varð henni kunnugur, svo ég kynni að meta hana, hafi mér þótt að sómi að eiga hana í ætt minni. Svo væn kona er hún á flestan hátt! þó ég hafi um þagað. Héðan af má segja, verður varla gert að *grunsemi* úr þessu, og er mér þó ekki *sjálfum* svo uppkippusamt um orðstír minn „fyrr né nú“.

Þó lítt fjörugur liggi eg hér
Lágt, og fæstu nenni,

Enn á flug til ykkar fer,
Af því hugur fleytir mér.

Þinn gamli Stebbi.

*Séra Rögnvaldur Pétursson.* Liggjandi enn, 12. maí 1927.

Góði, bezti minn! — Viljandi hefi ég vanrækt að skrifa þér línu. Þú varst lasinn, er ég sá þín síðast getið, og mér alla tíð um og ó að auka á argið þitt, en nú þarf ég að fá línu frá þér og hlöra um þína heilsu. Líka var lítið af mér að segja, og enga frægð, en lafi líkl., við lík horf. Ef til vill er mitt mesta mein nú taugarnar. Þær eru allar iðandi, stirðar og stamar um leggi og liði og leiða lúa-verkjar sviða um allar mínar „trissur", svo mér liggur við óþolinmæði. En Wagner minn fyrirskipar sífellt sömu „pillurnar" og „dropana" og þolinmæðina. *Ég viti,* að svona lækning sé sein. Tvisvar hefi ég til hans séð. Hann gerir sér engin útúrgön, þó beðinn sé að koma við í leið, nema „kallaður" sé hvert sinn. Við dagsetjum því ekki al-bata minn, hann né ég.

Grímur Steingrímsson er hér, haltur af lærhnútugigt (Sciatica) af hrasi í stiga hjá „Burns slátrara", sem G. var „næturvörður" hjá. Líkl. kemur til, en tapar atvinnu, en má illa við því. Frétt hefi ég um heilsufar Tómasar J., sunnan frá Dak. Að því er Ísl. missir.

Jæja, ég bað þig um 2 eintök af „Myndum" E., en ekkert skeyti sent þér um þær. Var í „sjóðþurrð" síðan þær komu. En hvað er verðið? Minnir, að á því velti eitthvað. Láttu mig vita. Einar sendi mér eintak að gjöf. Nem hér svo staðar með „lappann". Bið að heilsa í hús þitt.

Margsæll! Þinn Stephan G—.

PS. Seint sumraði. Vorönn dálítið á veg hér. Víðast forugt enn. Rosar o. fl.

*Björgvin Guðmundsson.* Markerville, Alta, 14. júní 1927.

Góðvinur Björgvin. — Kæra þökk fyrir bréfið frá þér nýkomna, frá 29. næstl. Alveg rétt! við skulum ekki bera

áhyggjur út af nafni, sem ekkert veltur enn á. Nógur er tíminn til að skíra, og eins og ég hefi marg-tekið fram: „mér er nóg sem nægir“, að þú fellir þig við þulu mína, hvert sem upphafsorðið verður fyrir laginu að lokum. Það gerum við bara af því það er „kristinn og fallegur siður“, en engin umbót á „rímið“ og „nóturnar“ — jafnvel þó það væri „innblásið“ nafn, sem sjálfsagt væri, eins og maður hefði orku bezta á í öllu öðru. Auðvitað gæti svo farið, að einhver fyndi að því, að þú hafir skipt um nafn. Af því vil ég láta vitnast, ef til kæmi, að slíkt var með mínu ráði gert og ekki með mínum óvilja. — Konu þinni skilar þú kveðju vorri hlýrri. Sú frétt þín gladdi mig, að hún hefir fest unað við þitt ánægjuefni á listinni og þráir að skilja þig. Það er lánið bezta, þegar svo vill verkast, en harmurinn þyngsti, ef öðru vísi fer, sem því miður vill oft til og ollir illu heilli æfinlega. — Annars bíta engin járn, en báðum sigur vís. Séu það þín laun. — Lítil er heilsubót mín, enn sem komið er. Er þó á flakki oftar, út að hlaðvarpa eða út í hann — haltur og handlama og með verra móti skrifandi. En kannske að enn rætist úr, þrátt fyrir allt, eitthvað vildi ég nú gert hafa enn í viðbót, og ekki skal ég svíkjast um það, ef ég ræð við.

Ég klóra með versta móti. Veðrið heitt. Ég engan staf lengi rispað, og „ber of ótt að“ — eins og ég hefi æfinlega gert, — en má sízt við nú, og læt því Rósu skrifa.

Söngvar þínir séu
sumardægrin öll
eins og bergmál allténd,
upptekið í fjöll.

Stephan G—.

Ekki þori ég að þegja alveg við því, sem þú drapst á, að okkur mundi um sumt svipa saman. Ólærðir verða sérstæðir. Lærðir saman-svipaðir. Ég uni okkar hlut vel, ef rétt er til getið. Þar í falinn frumleikur, meðal annars, sé sá hlutur til.

Vinsamlegast Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 1. júlí 1927.

Grímur minn góður. — Hér komum við öll, bara til að heilsa þér — Komdu nú sæll! Lengi hefi ég engum línu sent — eitthvað svo „úrvinda“ og „utanveltu“ enn, þó ég sé að þessu „monti“. Finnst nærri, að tauga-hólkurinn um handlegg og fingur þrengist, en sér ekki á skriftinni þó, að miklu muni, nema sé ég umhöndaðri, ef til vill. Ég þakka þér bréfið rétt fyrir Íslendingadag okkar. Hlífðist við svari, þú hefðir heyrt fátt, sem frétta var. Hitt hana, sem hér kom þá. Í dag eru allir „lúðurþeytararnir“ leigðir til Trochu á „þriggja daga belging“. Fleiri strákar í förinni í 3 bifreiðum, Kobbi og Frost, t. d.

Kveðju sína kæra
Karlinn þessi býður —
Seinna vill hann vita
Að vel þér líður. — S. G.

Hér er nú gæða gróðrartíð og daglegt regn.

*Auka-póstur:* Guðm. Þorl. í rúminu oft, annað veifið. Hunford ögn hressari. Staulast út. Ætlaði til „messu“ nafna síns. Regn kom í veginn.

*Jóhannes P. Pálsson.* Markerville, Alta, 10. júlí 1927.

Góðvinur sæll! — Sem fyrr er bréfa-skilvísin þín þakkarverð, Jóhannes góður, og ég er að sýn'a ekki nema lit á því, því illa líður mér enn æði oft, eða finnst svo — haltur og valtur á „báðum endum“, haus og fótum, þó ég slangri dálítið um hús og hlað, „eins og reyr af vindi skekinn“ með „allra tauga-tauga hálsríg“ og „höfuð-þyngsli“, og „brakandi“ liðmót, og verk í iljum og kálfum, eins og við er að búast! Og kannske er ég orðinn þreyttari en hvað veikur ég er — en „ónotin“ eru svipuð, þó varla muni sýnast svo á blýants-strikum mínum, né hvílík „körbrögð“ og „hliðarrið“ göngulagið er, og vandsýni á að verjast falli, en það hefi ég sloppið við, nema fyrsta skiptið — en „hætt hefi ég staðið“ oft, og „gapalega“, að mér finnst! Í dag er ég „lurkum laminn“, og með „blýhatt“ á kolli og „ritblý“ í „hálfstorknum“ fingrum.

Ég er nú annars að lesa þér þessi leiðindi, til að geta

því betur látið af mér, þegar ég skrifa næst, því þá ætla ég að vera orðinn „miklu stæltari“! Þykir þó þakkarvert, að sífellt [er] að svara bréfum. Maður gleymir sér heldur, ef unnt er að „kúska“ sig í það.

Já, vinur — ég hefi fyrir löngu séð, að eina ráðið, skásta og hyggilegasta, fyrir sálarvelferð manns ungu, andlegu ómegðar, er að skilja þá eftir í félagi þess frjálsasta vits og vænsta, sem verður til náð. Annars eru þær í „hershöndum“ allrar argrar heimsku, sem maður sízt kysi. Þeir eru jafnvel berskjaldaðri fyrir flónskunni en þeir, sem upp í henni hafa alizt — falla dýpra í hana, öllu ókunnugir og utanveltu, ærslast fram í einfeldni, og spillast meira andlega en þeir, sem missa vitið af vanatuggunum, sem á endanum verða bara hugsunarlausir, of-oft uppteknir orðskviðir, af venju en lítilli einlægni og engum andhita.

Satt er það, sárt er að geta ekki veitt hverjum vin sitt eigið sannasta og réttasta, en jafnvel fyrir börn sín verður maður að sætta sig við ið *bezta* og *vitrasta* í annarra trú — eða bregðast þeim! Ég á við menn sem okkur, sem rekið hefir jafnlangt um höf hugsananna. Og að öllu sögðu, er ekki jafnvel fögur helgisaga andlegur gróði manns, þó maður sjái gegnum *æfintýrið* sannleikann og göfgina, það er hugsjónin, sem heldur öllu uppi — jafnvel sannleiknum sjálfum! Og Amen! og fyrirgefðu!

Ég þykist sjá, að Karl Olson sé í sinni „byrjun“ hjá ykkur, ísmeygilegasti, endingar-minnsti, undarlega þynnsti, en aðsérdragandi „rílinn“ á fyrsta spretti, íslenzkur prestur, sem ég hefi kynnzt. Enskir froðustampar komast jafnvel lengra í því, en varla með Íslendinga. En Karl einhvern veginn átti við, þó ekki stæði lengi. Hann var hér „trúboði“ lítinn tíma. Unga fólkið elti hann á röndum um stund. Sá aldrei hvers vegna! En það þraut, áður úti var embættið!

Þér hver hróður hæfi,
Heill og fróðleg saga! —
Eigir um ljóða æfi
Ætíð góða daga,
Bjargvættur þjóðar Braga!

Beztu kveður mínar, þér og þínum!

Stephan G—.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 16. júlí 1927.

Góðvinur. —Loksins kemst ég að því að borga þér skuldina. Hér með legg ég þrjá dali. — Okkur líður svona við það sama og hefir verið, ekkert betur. Pabbi er alltaf slæmur og batinn sýnist enginn vera. Það er fjarska leiðinlegt, bæði fyrir hann og okkur mömmu. Þó maður reyni að gera svona, það sem maður getur, þá sýnist það vera svo lítið að gagni. Sigurður Jónsson hefir nú verið hér á aðra viku. Hann er nú annar auminginn frá, að hann segir, en þó finnst mér einhver munur á honum og pabba, hvað veikindin snertir. Svo hann eiginlega er ekkert upplífgandi, því talað er þá oftast nær um veikindin. Jónas gamli og Guðmundur eru svona þolanlegir, sem stendur. Þeir eru allir orðnir býsna hrörir, þessir blessaðir gömlu karlar okkar. Kerlingarnar virðast bala betur enn, og hafa þær þó oft mátt stríða í ströngu, engu síður en þeir. — Ég ætla að biðja þig bónar. Mig langar að fá tímaritið „Scandinavia", með greininni í um pabba, eftir Jakobínu Johnson. Pabbi sagði, að þú hefðir einu sinni boðið sér það. Ég get skrifað kvæðin upp og sent þér svo tímaritið. Pabbi hefir það ekki, því hann sendi víst blaðið heim og skrifaði það ekki upp.

Fyrirgefðu, hvaða klór þetta er. Ég er að flýta mér svo mikið, ég hefi svo margt að gera. Við biðjum að heilsa, og pabbi sérstaklega.

Vinsamlega Rósa.

*Magnús Hinriksson.* Markerville, Alta, 23. júlí 1927.

Góði holl-vinur. — Kæra þökk fyrir alla forna vináttu og velgerðir: bréfið þitt síðasta og komuna ekki sízt.

Engar fréttir get ég fært þér. Þetta er aðeins gert til þeirra málamynda, að þú fáir að vita, að ég hefi fengið línurnar frá þér. Ekkert hefir borið við hér merkilegt, síðan þú fórst, nema tíðin sem hefir verið að vísu hér yfirleitt bærileg, að undanteknum votviðrum í meira lagi og hagl-skúrum hér í nágrenninu, sem hitt hafa akra

nokkurra Íslendinga líka og gert skaða, þó ég hafi sloppið enn og næstu nágrannar mínir.

Jón Sveinsson hefi ég ekki séð, síðan þú varst hérna, en skila skal ég kveðju þinni til hans, þegar svo ber undir.

Það hve vera von á Thorstínu Jackson hingað í byggð með myndir sínar og fyrirlestra í næsta mánuði. Ekki býst ég sjálfur við að geta orðið henni vagn á vegi hér í þetta sinn, nema að því litla leyti, sem að ég hefi fært í tal við aðra menn að taka á móti henni. Annars býst ég við, að þú og þínir nágrannar verðið hennar varir.

Heilsa mín er svipuð og var, þegar þú varst hér. Ég hefi engum stórbótum tekið, enn sem komið er. Er enn einhvern vegin svo latur, að ég hlífi mér við öllum skriftum, þangað til löppin verður viljugri, enda vill mér það happ til, að Rósa hjálpar upp á sakirnar sem stendur.

Gróðrartíð in ágætasta hér í kring, með þeim undantekningum á lágu landi, sem langvinnar rigningar ollu fyrst framan af. Blettirnir okkar líta vel út og verða góðir, ef vel árar framvegis og engin áföll verða.

Þetta verður ekki lengra í þetta sinn, aðeins eins og ég sagði: mála-mynd.

Kveð þig svo með vinsemd og óskum alls ins bezta.

Stephan G.

*Grímur S. Grímsson.* Markerville, Alta, 27. júlí 1927.

Góðvinur. — Kæra þökk fyrir tímaritin, sem ég fékk með góðum skilum. Mér þótti svo vænt um að fá þau. Allt er hér við það sama og var. Fjarska heitt á hverjum degi nú. Ekkert hagl hér enn. Það hefir samt haglað bæði fyrir norðan og austan í byggðinni. Pabbi fékk bréfmiðann frá þér, og vonum við, að þú getir farið til Wynyard. Ef svo ber við, að þú ferð, þá gerðu svo vel að skila kveðju pabba og okkar til Sigurjóns Sveinssonar, Normann's-hjónanna og nafna pabba (drengs þeirra, er heitir eftir honum), til dr. J. Pálssonar, Thorarins Guðmunds. í Elfros, W. Paulson, sr. Fr. Friðriksson og Sigurjóns Eiríkssonar í Wynyard og fleiri kunningja, sem spyrja um hann. — Pabbi biður að heilsa, og eins við.

Vinsamlega Rósa.

*Magnús Hinriksson.* 8. ágúst 1927.

Fyrirgefðu missendinguna á bréfunum. Hér kemur það rétta til þín loksins. — Ég hefi ekkert við það að bæta, sem er mjög markvert. Heilsa pabba við það sama, ekki sem lökust núna. Hagl kom hér yfir fjarska stórt svæði fyrir nærri tveim vikum síðan. Gjör-eyðilagði akra á stóru svæði. Jakobs og pabba akrar voru skemmdir að mun, en þó komumst við af býsna vel. — Thorstína Jackson er komin og farin. Hún sýndi myndir sínar á Markerville á laugardagskveldið fyrir húsfylli af löndum. Við pabbi vorum ein heima, en svo sýndi hún myndirnar hér í húsinu í gær, svo við höfðum ánægjuna af að sjá þær líka. Hún fór í gærkveldi til Edmonton, áleiðis til ykkar.

Vertu sem bezt kvaddur af Rósu.

---

*Sigfús Halldórs frá Höfnum.* Markerv., Alta, 9. okt. 1924.

Góðvinur. — Einlæga og innilega þökk til beggja, Sigfúsar Halldórs og ritstjóra „Heimskringlu", fyrir afmælisskeytið og greinina. Ég varð eins léttbrýnn af því, eins og forðum í æsku, þegar mér bættust skriffög óvænt að. Ég efast oft um, að ég eigi skilið hlýleik ykkar yngri manna fyrir mína smáu viðleitni að átta mig í þokunni hérna, en ánægja er hann mér, því þrátt fyrir alla vantrú er sú vantrúin verst, sem sífellt stagast á hrakspám um allt, sem er öldungunum yngra. Þeir stóðu eitt sinn sjálfir í hennar sporum, á hennar aldri. En, það er víst erfðasynd, sem sífellt gengur koll af kolli, að „heimur fari versnandi". En hvað sem því líður, og mér sérstaklega: Þeim er enn óhætt, sem æskan sér ekki meiri ellimörk á en svo, að hún lítur á þá sem leikbróður — og því segi ég það: Þökk fyrir mig.

Það var fyrir atvik, að ég svaraði „óskinni" þinni ekki samdægurs. Skeyti þitt var símað frá Innisfail, þann 3ja, eins og þú hefir ætlazt til. Dóttir mín varð til viðtals, en gat með engu móti ráðið fram úr nafni sendarans, eins og talsíminn fór með það. Rysjuveður var líka á og talfærið loðmælt. Ég bjóst við að fá skeytið bréflega með næsta pósti, því það hefir venja verið: talsímað sama

dag, og svo sent í pósti. Nú brást bréfkoman. Ég heimtaði svo skeytið skrifað. Það kom, en er undirritað: *F. Halldors Fra Halnum.* Ég get svo sem nærri, hvernig enskur munnur bar slíkt fram, um langa leið. Þetta olli, að ég áttaði mig ekki fyrr á, hver kveðjuna sendi, og því kem ég svona seint. Með kærri kveðju til þín og „Heimskringlu".

Vinsamlega Stephan G. Stephansson.

*Sigfús Halldórs frá Höfnum.* Markerv., Alta, 13. des. 1924.

Góðvinur Sigfús. — Þökk fyrir bréf þitt, ritað 4. þ. m., meðtekið 10. Hefir líkl. „legazt" á leiðinni, hún er hér um bil þrídægra, þegar „C-P-R-ið!" gengur rösklega. En, svo sakaði það lítið mína svifaseinku. Góðar fréttir, að þú varst skorinn minna til blóðs en bata (vonandi), svo þið „Heimskringla" kunnið enn að eiga hamingju saman, og að þú megir halda í horfi. Mig grunar nokkuð um aðstöður í „Babílon inni óvirðulegri". Höfðingi þessa heims er hagsýnn, og kemur ár sinni fyrir borð, svo að hans hlutabréf í trúarbrögðum og mannfélagsmálum kjósi sína kaupamenn, á alla bóga. En í alvöru: ég held blaðinu yrði magur gróði að flæma þig nú frá sér, sértu fáanlegur. Mér virðist það með vinsælasta móti. Hefi jafnvel heyrt menn, sem ekki vildu viðurkenna „Kringlu" „Bergi" betri fram að þessu, kúrulegustu kyrrstöðumenn, segja hiklaust, að nú sé „Lögberg" orðið lakara blaðið! Ég sé ekki, að það sé eiginlega nein hagsýni heldur, að tveir keppinautar gangi um garða og bjóði öllum „sama grautinn í sama dallinum", þar sem „útsalan" er augnamiðið. Svo er eitt, þrátt fyrir allt er þó hér til tórandi taug af vakandi hugsun, meðal íslenzkra Íslendinga, og heimska að hanga ekki á henni, það sem hún nær, fyrst hinn tvílembingurinn saug sig fastan á hina „geirvörtuna". Ég myndi því sakna þín sem húsbónda að „Heimskringlu".

Um ekkert að sakast, þó hendingarnar kæmu í „Heimskringlu"! nema þetta: Þar hefir orðið orðavilla, fyrirsögnin er: Afhrökin, en átti að vera *Afhrökun,* það er að segja, sama og „Degradation" (í ensku), hefði ég mælt á því máli. Viðskipti *mín* og Bílds koma vísunni ekkert við. En hann

vinnur „níðingsverk“ á bókagerð okkar hér (líkl. af heimsku og mikil-læti) með ritdómum sínum, og það má þó sízt, tökum t. d. bull hans um æfintýri J. M. Bjarnasonar í „Þjóðræknisritinu“ í fyrra vetur, eða bjána-ruglið um bækling Boga Bjarnasonar, hvort tveggja uml andlegs óvita, og eins ferst honum nær alls staðar, taki hann sér bók í hönd. Þetta var það, sem í mér sat, en ekki okkar eigin viðskipti. Vissi ekki, hvort hann taldi til „uppbótar“ hjá mér, eða átti hana skilið. Var sjálfur ekki óánægður. Hollvina-hrós er blessað og gott, að vísu, og að ýmsu leyti lifir maður andlega á því. En eitt getur að orðið: að maður orki ekki eins vel og maður vildi og vinir manns vona. Í gær sendi ég þér stef áleiðis. Hafði ekki betra að bjóða, sízt svo að segja samstundis. Vildi þó heldur reyna, en hreint að bregðast. Átti ekkert fyrirliggjandi. Hefi átt við útisnúninga, eins og á sér. „Hausinn er lasinn og maginn“, eins og Páll kvað, þó önnur og verri sé orsökin. Í gær og dag snerti ég á engu, nema bók eða penna. Tek mér einhverja hvíld, ef ég get. Ég hefi áður „legið úr mér linkuna“ um stund. Vona það fari enn eins. Þetta er aðeins formáli til þín, hvers vegna kvæðið kemur „seint og illa“. Þú notar það í einhverja eyðu, ef þú vilt — eða ekki, og afsakaðu! verkið, vegna viljans. Ég veit, að þú skilur bendinguna til borðræðunnar frægu um „eiturorma og nöðrukyn“, og spurninguna um, hvað væri skrifað á „skattpeninginn“. Ég veit ekki, hvort Bíldur og Rannveig hafa lesið það, án þess þó, að mér dyttu þau sérstaklega í hug. Allt er þetta í flaustri gert og er því ómynd. Svo bið ég hátíðlega að heilsa, þér og vorum vinum. Verði þér nýárið velti-ár.

Vinsamlega Stephan G.

*Sigfús Halldórs frá Höfnum.* Markerv., Alta, 1. febr. 1925.

Góðvinur Sigfús. — Þökk fyrir margt, bréfið frá þér, og húsrúm í „Heimskr.“ nú síðast. Mér varð hálf-bilt, þegar ég sá, að þeir lögðu þig undir knífinn aftur, meðan þú varst rétt að reyna að rísa upp af blóðvellinum. En það hefir farið betur en búast hefði mátt við, úr því þú ert þó kominn þetta á kreik og sjálfsagt ertu nógu ungur

enn, til að verða fljótlega fullbata, og þess óska ég og vænti af þér. En hvernig í ósköpum var þetta? Skildu þeir óvart eftir eina „gréluna“ sína innan í þér, og urðu að „opna“ þig aftur, til að ná henni, til að skera þann næsta með? Jæja, það er leyfilegt að spauga, fyrst þú lifðir þetta af. Ekki vissi ég, hvernig á stóð fyrir þér, þegar ég sendi þér þuluna. Sá það í næsta blaði. Það er mín afsökun, þó ég sjái, að þú ætlist ekki til, að ég sé eins göfuglyndur og Bíldur sagði sig vera, áður hann fékk seinustu höfuðsóttina af að hugsa til þín. Nei, ég átti ekkert afrit af þulunni — meira að segja hefði ekki getað rifjað neitt upp, hefðir þú ekki kunnað það *allt*. Ég er alveg hissa á þér, undir þínum kringumstæðum, því auðvitað kannast ég við, þegar það er haft yfir fyrir mér. Satt að segja, af löngu klóri er ég orðinn svo latur, að ég trassa oft eftirrit, og þó ég hirði svona lagað, læt ég oft „kylfu ráða kasti“, hvort það komist í áfangastað. Er ekki annara en svo, og þannig stóð nú á. Ég get samt sent þér þetta hér með, en er *þér að þakka,* og ekki veit ég nema einhver „titill hafi til jarðar fallið“ hjá mér, úr því sem týndist, en svo trúum við ekki svo fast á bókstafinn, að miklu haggi. Ég sendi þér líka afrit af ritdómi „Balda“ míns, sem gerði mig svona kveðandi, svo þú vitir, við hvað þulan á. Ég held ég hafi rétt eftir, en ekki hafði ég þó blaðið við hendina. Þú „handtérar“ þetta eftir þínu höfði. Nýja „rímu“ sendi ég þér líka. Hún á að vera til „smekkbætis“ við „skammirnar“. Ég hefi oft fundið til þess, að heimur vina minna hafi farið vel með mig, og viljað segja það, en ekki náð laginu — en „Mannheimar“ eiga að miða í þá átt.

Mér líður þolanlega, en ekki víst ég verði jafngóður. Ég kvað vera kominn svo langt af „umskurðar“ aldri! Ég vinn svo sem ekkert úti við og lifi letilífi, sem væri óbærilegt, hefði ég ekki verið svo lánsamur að hafa gaman af bókum og blöðum.

Já, víst er gaman að fá góða gesti hér í fásinninu, þó ég láti fara of illa um þá — en, ég sæi eftir hverju „centi“ sem næstum óþarfa, sem vinir mínir eyddu frá sjálfum sér til slíkra hluta, af því ég get ekki borgað þeim það í neinu — jafnvel heimboðið heim forðum gekk nærri

þeirri nízku minni. Þakka þér alla vinsemd, jafnvel þó ég viti, að hún er varla verðskulduð svona ríkulega — og verðir þú svo bráðl. heill heilsu!

Vinsamlega Stephan G.

*Sigfús Halldórs frá Höfnum.* Markerv., Alta, 17. maí 1925.

Góðvinur Sigfús. — Reyndar var ég nýbúinn að „klóra þér“ og er áníðsla að „abbast upp á þig“ óðara aftur. En samt ber til hverrar sögu nokkuð. Ég rauk til í vikunni og klambraði saman þessu: „Norðmenn“. Fannst ég ætti margs að minnast og ýmiss góðs, auk frændseminnar skjalllausrar, svo ég sat ekki á mér. Vel veit ég, að Austmönnum þykir smátt til koma, eins og líka er, þeir eru líka gefnari fyrir gumið en svo. Margt hefir líka orðið í frændsemi okkar, svo að það finnst mér, að um eitt skeið hafi engir höfðingjar orðið okkur Ísl. óþarfari. En þar eiga margir frændur og viðskiptamenn nánir sömu sögu. Að gamni mínu sendi ég þér svo þennan afrakstur. Hafðu eftir þínu höfði, hvort þú „kringlar“ það, ég set það ekki upp. En fari svo, láttu kviðuna koma út á næstunni við þessa Norðmanna-hátíð. „Skýringarnar“, utangerningana, þetta sem forfeður vorir nefndu „randglósur á spássíunni“, ætla ég þér sjálfum, en ekki almenningi. Ég fór að óttast, að það myndi ef til vill taka þig *óþarfa tíma* að átta þig á þessu bendingamáli mínu inn í alla fyrnsku, og væri maklegast, að ég gerði það sjálfur. Að vísu rennur mér skyldan til allra Norðurlanda, en ekki veit ég þó, hvort mér þykir ofvaxnast: gleiðgosaháttur Norðmanna, skrafskjóðuskapur Dana, kropin-kurteisi Svíanna eða tómlæti Mörlandans, en allir eru þeir samt „gull af manni“, á margan hátt. En þegar ég hafði svona kveðið, og ólofsamlega, kom „Kringla“ með „hátíðahalda“-grein þína og ofan í mig rigndi stökunum á síðasta blaðinu. Svo sendi ég *þér* þær líka, svo sem „salt og pipar“ á bragðlausa kartöflu. — Þessi Gisle Botne getur tæplega verið sá „botn“, sem var prófessor við Decorahskólann norska, fyrir nærri 40 árum, þegar ég dvaldi í Dakota. Guð hefir líkl. tekið hann til sín, áður en hinn Norðmaðurinn, Volstead, barði bannlögin gegn, annars væri undur, væri „botninn ekki dott-

inn úr honum“. En, ef til vill er þarna sonur hans. Annars var sá Botne, sem ég heyrði getið, hinum Decorah-kennurum víðsýnni. T. d. andæfðu þeir Ibsen og Björnson, eins og þeir gátu, sökum „vantrúar“ þeirra, en Gísla þessum þótti mikið til þeirra koma og kenndi piltum það, svo hinir kusu helzt, að Botna væri úthýst úr skólanum, og höfðu fyrir ástæðu, að hann væri um of ölkær, en komu engu fram um það, því „strákar“ stóðu með Gísla, fannst hann mestur andans maður í þeim félagsskap. Íslendingur, skólapiltur þar þá, fræddi mig um þetta. Annars varðar það engu, hver „botninn“ er upp. Mér rann þetta bara í hug út af grein þinni. — Nú skal ég þá þagna, og líði þér sem bezt!

Vinsamlega Stephan G.

*Sigfús Halldórs frá Höfnum.* Markerv., Alta, 20. ágúst 1925.

Góðvinur. — Þökk fyrir viðskiptin öll — fyrr og síðast. Erindið er að segja þér, að ég sendi þér nýja ljóðabók að heiman, „Bláskóga“, eftir Jón nokkurn Magnússon, beykir í Rvík. Hann sendi mér kverið að gjöf, en erum ókunnugir, og aðeins sem glaðning, því kveðskap kryf ég ekki í blöðum. Viltu nú gera svo vel að geta kversins í „Kringlu“ við tækifæri. Ég sendi það *nú,* svo þú getir gert það í hægðum þínum, því það kvað ekki eiga að „koma til markaðs“ fyrr en í haust. Þú segir eitthvað (eða ekkert), eins og samvizkan segir þér til. Mér finnst kverið umgetningar vert, þó ekki væri fyrir annað en að það er svo þjóðlega gert að háttum og efni, nú þegar allt ætlar í „kaf að keyra“ í erlendum fyrirmyndum, hjá ungviðinu okkar, svo haldi slíku fram, óar mig við, að íslenzkur skáldskapur fari eins og Napóleon þriðji, í sögu Victors Hugo: „Napóleon litli“ —: verði bara „api í búningi Napóleons mikla“.

Verði þér haustið heilsugott,
Og Heimskringlu auðugt —
Fæli það allt til Bíldfells brott,
Sem báðum ykkur er nauðugt!

Vinsamlega Stephan G.

*Sigfús Halldórs frá Höfnum.* Markerv., Alta, 4. des. 1925.

Góðvinur Sigfús. — Viðvíkjandi því, sem þú mæltist til í bréfi þínu nýkomnu, býst ég ekki við, að mér auðnist að verða við bón þinni, þó ég feginn vildi. Tæpur tími héðan af. Ef eitthvað „dettur í mig", verður það helzt í hljóðstöfum. Er hálflasinn, og þá ekki með mínu betra sjálfstrausti. Hefi ekkert sérstakt í huga, sem mér sjálfum geðjast, og á meðan er loku fyrir skotið. En færi svo, að einhver góð fylgja yrði mér send fyrir inn 12. þ. m., væri mér ánægja ein í að láta hana sækja að þér um jólin. En ég veit það verður ekki og læt þig því vita það, svo ekki farir þú að ætla henni „autt rúm", eins og stundum þurfti handa þessum „óboðnu gestum" heima. Seinna svara ég svo bréfi þínu betur. Ágætt var það, og heila þökk fyrir. Ósköp getur lengi í manni enzt, á eintómri velvild góðra drengja! En heyrðu! Nokkru áður en bréf þitt barst mér, hafði ég sent séra Rögnv. tvo „styttinga", rímaða að mestu, og óhafandi í jólamat, sjálfsagt. En ég sagði honum, að hann gæti „skarnað" þeim í „Kringlu" einhvern tíma, ef honum sýndist svo. Bið kærl. að heilsa honum og þau boð fylgja, að bók, sem við ræddum um, hafi verið send honum frá New Westminster 30. næstl. og vona ég því, að nú sé hún í hans höndum.

Vinsamlega Stephan G.

*Sigfús Halldórs frá Höfnum.* 12. des. 1925.

Góðvinur. — Það fór sem mig varði, ég brást þér að leggja til í jólaask Kringlu. Varð „óvígur" um stund, bæði með exi og penna. Settist inn, og hjarnaði aftur. Setti saman langa rollu og sendi nú séra R. blending ljóðs og lausmælgi um Egil Skallagrímsson, sjálfsagt sérvizka, og líkl. of langt fyrir öll almennileg blöð og rit. Það er fyrir mér, þegar ég „rugla", eins og andatrúarmaðurinn heima sagði mér með mikilli alvöru: „Það eru þeir þarna uppi, sem okkur ráða, við bara verkfæri, sem ekkert er að þakka" — yrkisefni stækkar og smækkar óviðráðanlega í tóskapnum á því. Svo tíndi ég upp í dag lausavísur þessar hér, þær sem ég mundi, úr bréfum mínum til annarra, ef þú vildir eður gætir notað eitthvað af þeim, allar, eða engar! Þið

R. komið ykkur svo saman um allt „dótið“. Ég hefi gert sem ég gat skást og yrði við góða samvizku, þó þið hornskelltuð þennan fénað minn, eða rækjuð hann heim aftur.
Geðilegt ár!

*Sigfús Halldórs frá Höfnum.* Markerv., Alta, 5. jan. 1926.

Góðvinur Sigfús. — Gleðilegt ár og beztu þökk fyrir bréf þitt ið síðasta, sem ég hefi að nokkru leyti svarað — og svarað ekki! Fór fyrir mér eins og svikavöru-salanum: „gull og gull ekki“! en *gilti sem bréf*, og bréf þitt kom að tómum kofunum, svo ég gat ekki gert bón þína, og féll mér þó miður, en það sækja stundum fleiri óvættir að manni um jólin en tröll og ofát, og svo fór nú mér. — Þá er að minnast „Bláskóga“, sem þú gazt um. Jú, ég vildi heldur, að þú minntist á þá, ef þú ættir hægt með og hefðir stund og rúm til. Ég veit vel, að þeir eru ekki nein miðjarðar fimbulmörk, en kjarrið í þeim er þó margfalt prýðilegra en þessir útlendu kræklingar og berbeinur nýtízkunnar, sem aðrir eru að stinga niður í holtin, hér og þar. Það verða óþrifa-plöntur í íslenzku loftslagi, eru ekki „burðugar“ í sínum heimahögum. Þér sagðist vel um „Grágæsarmóður Austursjó“, slóst á réttan streng, þó ekki hafi ég lesið, í hve mörgu að þessi Marta „mæðist“. „Dagur“ og „Tíminn“ hafa nú lítillega minnzt „beykisins“, en varla maklega. Þú gætir gert betur. Auðvitað er galli á, næstum bókmenntaleg „ósiðsemi“ að geta bókar, sem ekki var vestur send né sýnd, en mætti ekki einmitt hafa það fyrir inngang í lurginn á því ólagi, sem er á bóka-viðskiptum okkar Aust- og Vestlinga? Segja sem er, að það hafi aðeins verið af hunda-heppni, að blað þitt hafi í bók þessa náð. Svona vel gangi nú vaggan sú yfir höfuð — en auðvitað, þú gerir alveg sem þér lízt. Ég er hvorki að ýta þér út né kenna þér ráð, þar sem ég er sjálfur að draga mig í hlé í því, sem ég hefi talið mér ófært, sem er: bókaboðskapur! — Ja, ég veit ekki, Sigfús! Auðvitað væri ég ekki tilsparandi að segja eitthvað á mæltu máli, hefði ég vit til og lag á að segja nokkuð það, sem athyglisvert væri — en það er nú svona: þurfi maður endilega að létta

af sér álögum, getur maður það á styttri tíma í rími en í ræðu, og minni freisting til mælgi, þó ekki sé á hitt stólað, sem þó er all-víst, að rímið hylur nærri eins margar syndir eins og kærleikur mannanna. Mér fannst nóg að gert að vera liðleskja í einni íþrótt, þó ekki slægðist ég til að vera það í öllum, þrátt fyrir það, að ég ætla, að það sé mesta fanta-kenning, „að sá sem brýtur eitt boðorð verði sekur við þau öll". Ég ætlaði því að vera við eina „fjöl felldur", en varð ekki, og satt að segja: sú var tíðin eitt sinn, að ég hefði helzt ráðizt í sögur, hefði ég haft meira tóm til að rugla en ég hafði. Mér fannst mér myndi láta það skást, en ekki sé ég þó eftir því. En eitthvað varð það samt að vera, og svo varð það þá „rím"! En þó, til allrar ólukku hefi ég ekki getað alveg forðazt freistingu óbundinna orða. Ég á „Syrpu" allmikla af blaða-bútum ýmissa efna, meira en nóg í eitt „kver", og þeir munu af sama toga spunnir sem kvæðin, en í þrengra umfari, og margir þættir í þrætum, þó sífellt hefði ég það í huga að lyfta einhvers staðar, í gamni eða alvöru, fjöður upp úr deilu-forinni, þar sem við yrði komið. — Þá er nú sú saga sögð!

Já „Meistari"! mér varð bilt við það fyrst, og fyrir nokkuð löngu síðan, og þá var það ekki þú, sem svo hrökktir við mér. Nú brosi ég og þegi. Einn maður heima „um árið" vandi mig við þetta. Ég veit, að hann er fjölhæfur gáfumaður í flestu öðru, og vinur vísnanna minna sumra, og af einlægni. Hvað gat ég gert, í slíkum klípum, nema að læra að brosa? Og svo er annað, ættfræðingar, sumir, hafa fullyrt það, sem er ágizkun, að ég eigi einhvers staðar fram að telja til séra Einars sáluga galdra-„meistara", og í einlægni játað: Ég er dálítið „upp með mér" af þeim orðrómi!

Reiðstu þá við rugl úr mér,
Svo ríði ég brott úr hlaðinu —
Bæði tálmi og tjón er þér
Töfin löng frá „blaðinu".

Vinsamlega Stephan G.

*Sigfús Halldórs frá Höfnum.* 14. marz 1926.

Góðvinur Sigfús. — Þökk fyrir „Bláskóga“ og mig, oft og oft. Einhvern tíma tala ég lengur við þig í letri, þegar mér verður létt um vik. — Gerðu bón mína: komdu þessari meðlögðu „þulu“ á einhvern hátt til Björgvins. Ég veit ekki hvar hann býr. Ég kynntist honum í fljótræði í Wynyard, fyrir nokkrum árum, féll vel við hann, og mér var hann glaður og hýr, svo ekki má minna vera en að [ég] rétti honum rímhönd mína og óski til auðnu, á minn sérvitra hátt, nú, þegar honum hefir vel gengið. Um að gera, að allt, sem einhver „dugur“ er í, standi saman um „Kringlu“ ykkar, því nú þarf hún að lifa af herzlumuninn.

Með velvild St. G.

*Sigfús Halldórs frá Höfnum.* Markerv., Alta, 31. marz 1926.

Góðvinur Sigfús. — Er ekki næsti *sumardagur fyrsti* útkomudagur „Heimskringlu“ þinnar líka? Um þann dag hefir mér lengi þótt vænst nærri allra hátíða. Því vildi ég nú, í þetta sinn, „halda upp á“ hann með því móti að bjóða þér og henni meðlagða rímu í það tölublað, ef það þætti eiga við, og húsnæði til handa því dóti, en fari það eftir ástæðum ykkar, að engum kýs ég að þrengja. Annað er hitt, þessum miða þarftu engu að svara, og mig órar til þess, að þú munir fullsaddur af ritstörfum, þó ég sé ekki á þær [annir] að auka, að þessu sinni — en, þökk fyrir vinsemi þína og viðskipti öll, hingað til.

Vinsamlega Stephan G.

## Athugasemdir og skýringar.

(Tölurnar framan við athugagr. tákna blaðsíðutal.)

5. Tvö fyrstu bréfin til Helgu eru skrifuð í ferðalagi Stephans, er hann fór undir árslokin 1908 um byggðir Íslendinga, sbr. I., bls. 177—81, 357; II., bls. 9.

— *Kristján Jónsson,* frá Sveinatungu. Um hann sjá Alm. Ó. Th. 1924, bls. 21—26.

— *Sonur Antons frá Arnarvatni.* Um Anton Kristjánsson sjá Saga Ísl. í Vesturheimi II., bls. 167.

— *Að koma svona á æskustöðvarnar.* Þau Stephan og Helga urðu samferða vestur um haf 1873, ásamt foreldrum sínum, og settust fyrst að landi í Shawano County, Wisconsin, og þar giftust þau 1878. Til þessa verður Stephani hugsað, er hann kemur til Duluth, við landamæri Wisconsinfylkis.

— *Á leiðinni heim* frá því að fylgja Helgu á brautarstöðina. Þetta bréf og hin næstu, frá sumrinu 1911, eru skrifuð meðan Helga dvaldist hjá frændfólki sínu og vinum þeirra hjóna í Manitoba og Dakota. Sbr. I., bls. 270, og II., bls. 18.

6. *Kobbi, Rósa, Fanny, Mundi, Jóna.* Börn þeirra Stephans og Helgu: Jakob Kristinn, Rósa Sigurlaug, Stefaný Guðbjörg, Guðmundur, Jóný Sigurbjörg.

— *Emma.* Emilía Sigurbjörg, bróðurdóttir Helgu (dóttir Jóns Jónssonar yngra frá Mýri í Bárðardal), kona Hjálmars A. Bergmanns, lögfræðings.

— *Heimskringlukaffi með Karólínu hjá Baldvin.* Hér mun átt við heimsókn þeirra Helgu og Karolínu Dalmann, gömlu grannkonu þeirra Stephans, til Baldvins L. Baldvinsson, ritstj. Hkr. Um merkiskonuna Karolínu Dalmann, er þá dvaldist í Wpg., sjá Lögberg 13/4 1922 (eftirmæli).

7. *Nýja lagið Sigurðar.* Sigurður Helgason tónskálds Helgasonar, er um þetta leyti dvaldist í Alberta, samdi lag við kvæði Stephans, Jón Sigurðsson. Sbr. I., bls. 266.

8. *Kristján Stefánsson.* Sbr. I., bls. 361—62.

10. *Skilaðu til Guddu,* Guðbjargar Guðmundsdóttur, konu Jóns

Jónssonar yngra, bróður Helgu. Sjá um þau hjónin: Saga Ísl. í N.-Dak., bls. 337—38.

14.—15. Bréfin frá 15/2 og 2/3 1913 eru rituð í för Stephans vestur á Kyrrahafsströnd, sbr. I., bls. 309—16.

16. *Í gærkveldi tók Jónas mig til Steina.* Sonur Jónasar Halls var Steingrímur Hall, tónlistarmaður alþekktur, búsettur í Winnipeg, kvæntur Sigríði Jónsdóttur Hördal, þekktri söngkonu. Um þau sjá Saga Ísl. í N.-Dak., bls. 119—20.

17. *Stóra-kveldið.* Þeim Stephani var haldið kveðjusamsæti í Wpg. 19. maí, sjá Hkr. nr. 34—35 1917.

18. *Th. Jónsson.* Stephan ruglast hér nokkuð í því að gera grein fyrir samferðarmönnum sínum. Th. Jónsson er Vilhjálmur Theódór Jónsson, og kann eg ekki frekari deili á honum, en hann var ekki Bárðdælingur. Sonur Hólmfríðar Marteinsdóttur frá Garði við Mývatn — ekki Lundarbrekku —, Steingrímur Sigurðsson, var með Gullfossi heim. Hann er nú nýlega látinn norður í Axarfirði.

— *Þórólfur* Jónasson, nú bóndi á Hraunkoti í Aðaldal, dvaldist vestra nokkur ár og kom heim alfarinn 1917.

19. *Árbót í Fnjóskadal.* Hér misminnir Stephan, á að vera Árbót í Aðaldal.

22. Úrfellingar í niðurlagi bréfsins stafa af því, að rifið er af horni þess.

23. *Halldór nokkur.* H. Benediktsson bjó að Skriðuklaustri 1880—1918, mikill búhöldur og merkismaður.

24. *Guðni og Stefán.* Guðni bóndi Jónsson á Hvarfi og Stefán bróðir hans, bóndi á Eyjardalsá, voru náfrændur þeirra Stephans og Helgu, því að móðir þeirra bræðra, Guðný, var systir Guðmundar, föður Stephans, og Sigurbjargar, móður Helgu.

— *Helga* Jónsdóttir frá Eyjardalsá, systir þeirra Stefáns og Guðna, móðir Hannesar Jónssonar dýralæknis og Jóns Geirs Jónssonar, átti þá heima á Ísafirði, hjá syni sínum Jóni Geir.

27. *Ingólfur frá Mýri* í Bárðardal, Kristjánsson Ingjaldssonar og Helgu Stefánsdóttur, systur Guðmundar föður Stephans. Þeir voru bræður, Ingólfur og Stefán skógarvörður á Vöglum. Ingólfur átti lengi heima á Ísafirði, nú búsettur í Reykjavík.

30. *J. S.*, Jón Sveinsson, sbr. I., bls. 194, 359.

— *Sv. Sv.* Sveinbjörn Sveinbjörnsson tónskáld.

32. *Tilmæli mín við séra Rögnvald,* sbr. II., bls. 256.

— *Sýnishorn af druslu.* Jökulgöngur, sbr. II., bls. 268—70.

33. *Samtal við kvæðabróður.* Mun eiga við Jón skáld Runólfsson.

37. *Melan,* séra Eyjólfur J. Melan, hefir verið prestur vestra síð-

an 1922. Ættarnafn hans, — en hann er upprunninn í Reyðarfirði, — mun ekki dregið af bæjarnafni, a.m.k. ekki af æskuslóðum hans.

— *Sendi þér þulu.* Á við kvæðið Martíus, pr. í Tímariti Þjóðræknisfélagsins 1922.

40. *Ingólfi frænda,* Ingólfi Kristjánssyni frá Mýri í Bárðardal, sbr. athgr. 27.

43. *Suður á Kili,* þ. e. Chile. Hér misminnir Stephan. Það var ekki Katrín Thoroddsen, sem um þetta leyti dvaldist um hríð suður í Chile, heldur Kristín systir hennar, sbr. vísu Stephans á bls. 257: Svona er að fara systravillt o. s. frv.

48. *S. minn Sigurjónsson.* Sigurbjörn Sigurjónsson skrifaði ritdóm um Tímarit Þjóðræknisfélagsins 1921 og þótti Stephani þar að vonum ekki allt af vinsemd mælt um kvæðaflokk sinn „Á rústum hruninna halla“. Sjá Lögberg 16/3 og 6/4 1922.

49. *Þú sérð árangurinn.* Svar Stephans við ritdómi Sigurbjarnar birtist í Hkr. 26/4, kvæðið: Úr Stabat mater dolorosa og Sálmi ríka mannsins í heljarkvölum, sbr. Andv. V., bls. 198—99: Endurómar.

50. *Kunningi minn vestur á Strönd,* Vigfús Halldórsson, sjá um hann Almanak Ólafs Thorgeirssonar 1911, bls. 66—67. Eftirmæli þessi eru pr. í Hkr. 3/5 1922, sbr. Andv. IV., bls. 132.

53. *Vil ekki kalla sjálfan mig Úlf.* Í eftirmælunum um Vigfús Halldórsson varð prentvilla í upphafi síðasta erindis: Úlfurinn óskar, f.: Útfarinn o.s.frv. Þótt Stephan væri ýmsu vanur af hálfu blaðasetjara og „prófara“ blaðanna, þótti honum sem hér mætti ekki við svo búið standa. En öðrum, sem lítt voru vinveittir skáldinu, þótti úlfsnafnið vel hæfa og gerðu gabb að.

54. *Sína smáþóknun til hvors, Jóhanns og Sigurbjarnar,* þ. e. til Sigurbjarnar Sigurjónssonar, er svarað hafði kvæði Stephans, sbr. athgr. 49, með drjúgum skætingi í Lögb. 3/5 1922, og Jóhanns Björnssonar, sveitunga Stephans, er minnzt hafði hans í fréttabréfi í Hkr. 10/5 s. á., með þessari stöku:

Dimmbrýnn Stephan dapur er,
Dimmbrýnn ljóðin syngur,
Dimmbrýnn mannlífsmálin sér
Montinn Skagfirðingur.

Þessi skeyti Stephans birtust í Hkr. 17/5 (Prestslambið, sbr. Andv. V., bls. 247—48) og 24/5 (Samsveitungurinn, sbr. Andv. V., bls. 248: Vinur, sem til vamms kvaðst segja).

— *Línur til Staula.* Í Lögb. 11/5 1922 birtist greinarkorn, Karlakapp, um hnotabitið út af Á rústum hruninna halla, undir-

ritað Sveinstauli, eftir Ó. T. Johnson, fyrrv. ritstj. Heimskringlu. Svar Stephans birtist í Hkr. 31/7: Reductio ad absurdum, sbr. Andv. V., bls. 250: Sveinstauli í Lögbergi.

56. *Nú sendi ég þér eina rolluna enn.* Kvæði þetta, Móðir mín í kví-kví, birtist í Hkr. 14/6 1922, sbr. Andv. V., bls. 34.

— *Sendi ég þér sendingu.* Hér á Stephan við ævisöguágrip sitt, „Úrlausn", sem prentað verður í IV. bindi þessa verks.

59. *Ég kveið þessu fjandans „Hermannariti".* Hér á Stephan við Minningarrit ísl. hermanna, er þá var á döfinni og séra Rögnvaldur annaðist loks um og ritaði að nokkru.

61. *Bægisár-skalli,* þ. e. Jón skáld Þorláksson, prestur á Bægisá.

62. *Þulurnar þrjár,* kvæði, sem birtust í Tímar. Þjóðræknisfél., 4. árg.

64. *Berðu Blöndahl kveðju.* Á við Ásgeir Ingimundarson Blöndahl. Um hann sjá II., bls. 113, 245, 277, 280.

— *Ankies,* réttara: Anchises, þ. e. séra Ögmundur Sigurðsson á Tjörn á Vatnsnesi. Um séra Ögmund og nafngift þessa, er stafar frá Bjarna skáldi Thorarensen, sjá B. Th. Ljóðmæli, Kh. 1935, II., bls. 273—77.

65. *Between Chores,* þ. e. milli gegninga.

66. *Yfir steini Péturs gamla,* þ. e. Péturs Bjarnasonar frá Kolbeinsstöðum, sbr. Hkr. 2/8 og 29/11 1922.

— *Gudda Kristinsdóttir,* Guðbjörg, dóttir Kristins Kristinssonar og Sigurlaugar, systur Stephans.

69. *Hjá frú Ástu Halldórsson.* Hér misminnir Stephan um nafn frúarinnar og á hér að standa: Ástu Hallgrímsson.

— *Þórólfur,* þ. e. Þórólfur Sigurðsson frá Baldursheimi.

70. *Eggert söngmaður.* Eggert Stefánsson var um þetta leyti í söngför vestra.

72. *Rústirnar mínar.* Grein sú, er Stephan talar um, andsvar hans til þeirra allra, er þá um hríð höfðu ritað sitthvað miður vinsamlegt um kvæðaflokkinn „Á rústum hruninna halla", birtist í Hkr. 28/12 1922, heitir Þakkargerð.

82. *Rugl út af komu Eggerts,* ritgerðin Kveldórar, sjá Hkr. 28/3 1923.

— *Bostonferð,* ferðapistlar og hugleiðingar, eftir séra Friðrik A. Friðriksson, Hkr. 7/3—21/3 1923.

83. *Þökk fyrir hug þinn til þulunnar minnar.* Stephan hafði sent frú Guðrúnu þulu sína: Endurskin, sjá Andv. V., bls. 313—14.

84. *Kúfung Einars og Páls,* kvæði O. W. Holmes, The Chambered Nautilus, sbr. Andv. IV., bls. 287—88. Jakob hafði sent honum þýðingu kvæðisins eftir Einar Benediktsson og Pál Bjarnason, kaupmann í Wynyard, og hvatt hann til að reyna líka. Páll, sonur Bjarna Bjarnasonar, ættaður af Hólsfjöllum

og bróðir Boga Bjarnasonar, sbr. bls. 214, er skáldmæltur vel. Þýð. hans, sem fyrr var getið, er pr. í Heimskr. 22/12 1926.

88. *Túta „faraó“,* Tut-ankh-Amon, egypzkur konungur frá 16. öld f. Kr. Gröf hans, full af margs konar ágætum gripum, fannst 1922 og var margt rætt og ritað um þennan stórmerka fornleifafund.

91. *Þjóðhátíðarmál Bjarnar Þórðarsonar.* Ritgerð dr. jur. Björns Þórðarsonar, Þjóðhátíð, er pr. í Eimreiðinni 1922, bls. 39—52. Er sú ritgerð ein hin fyrsta hvötin, er fram kom um Alþingishátíðina 1930.

95. *Samið við vissan mann,* Jón ritstj. Ólafsson.

135. *Hanna Larsen,* H. Astrup Larsen, ritstýra The American—Scandinavian Review, en þeir Stephan og Jónas Hall voru að bollaleggja um, hversu komið yrði að í tímariti þessu greinum um íslenzk efni.

138. *Að frægðarorði,* grein um Mrs. Láru G. Salverson skáldkonu, einkum bók hennar The Viking Heart, er þá var nýlega fram komin, og Emile Walters listmálara, birtist í Tímariti Þjóðræknisfélagsins 1923.

142. *Brynki,* Brynjólfur söngfræðingur Þorláksson, þjóðkunnur af bók sinni Organtónum, um hríð organleikari í dómkirkjunni í Reykjavík, en síðan um mörg ár búsettur vestra, dvelst nú í Reykjavík.

145. *Grein Á.H.B.:* Frá Vesturheimi, Stephan G. Stephansson sóttur heim, birtist í Iðunni, VIII. árg. 1923, bls. 21—31.

148. *Árásin á Á.H.B.* Grein dr. Ágústs H. Bjarnasonar í Iðunni sætti gífurlegum andmælum í Lögb. (Vitnisburður dr. Ágústs H. Bjarnasonar um Vestur-Íslendinga 31/1 1924 og Æði og viðurstyggð 14/2 s. á.). Þessum greinum andmælti dr. Rögnvaldur Pétursson jafnharðan í Hkr.: Kveðja Lögbergs til Á.H.B. 6/2 og Æði og viðurstyggð 20/2. Ritdeila þessi varð ærið löng og blandaðist þar inn í sitthvað, er eigi varðaði beinlínis upphaflega deiluefnið. Má hér benda á alllanga grein eftir dr. Rögnvald til ritstj. Lögbergs: Bíldfell og krækiberin, Hkr. 5/3 1924, þar sem að gefnu tilefni er vikið að heimsókn nokkurra Ísl. að heiman, svo sem dr. Guðmundar Finnbogasonar, dr. Á.H.B., Einars Kvarans o. fl., en að þessu efni víkur St. G. St. í bréfum hér á eftir.

— *Losna við þessa 23.* Hinn 31. marz 1924 rituðu 23 menn stjórn Þjóðræknisfélagsins bréf, með áskorun um að taka ritstjórn Tímarits Þjóðræknisfélagsins af dr. Rögnvaldi Péturssyni fyrir ýmsar tilgreindar sakir, en ella mætti svo fara, að Þjóðræknisfélagið klofnaði. Áskorun þessari var jafnharðan hafnað. Um þetta sjá Hkr. 23/4 1924.

— *Þökk fyrir lánið á Geirbjarnarskeri.* Svo stendur þetta í frumritinu, hvort sem hér er um að ræða misritun fyrir Gunnbjarnarsker, eða leikritið hefir haft þetta nafn í fyrstu frá hendi höf. Leikþáttur þessi er pr. í Tímar. Þjóðræknisfél. 1925 og bókinni Vestan um haf.

156. *Opna bréfið,* óbeint svar frá Sveini Björnssyni við árásum Lárusar Guðmundssonar á Stephan, birtist í Lögb. 5/6 1924.

159. *„Ynjurnar“ ykkar Evripidesar,* Bakkynjurnar, sorgarleikur eftir Evripides, er Sigfús Blöndal þýddi úr grísku, pr. í Khöfn 1923.

164. *Landauðna-land,* þ. e. Wasteland, sbr. bls. 197.

168. *La Follette—Dude.* La Follette var nafnkenndur stjórnmálamaður í Bandaríkjunum um þessar mundir. Dude, þ. e. tilhaldssamur skartsmaður, sbr. vísuna.

170. *Fyrirmálslamb af Íslendingadögum.* Sú venja komst á, eftir að Stephan kom heim úr Íslandsför sinni 1917, að Íslendingar héldu Íslendingadag á Markerville 17. júní, en víðast annars staðar í Íslendingabyggðum er þessi hátíð haldin 2. ágúst.

191. *Ingólfur.* Morðmál þetta varð að ýmsu mjög sögulegt. Maðurinn neitaði ákærunni og var loks dæmdur eftir líkum sekur dauðamaður, svo sem lög þóttu til standa. Þegar þetta varð kunnugt og Íslendingar vestra minntust þess, að aldrei fyrr hefði dauðadómur gengið um nokkurn mann af íslenzkum ættum vestra, vildu þeir reyna að forða slíkri hneisu, því fremur, er málið var alls ekki vafalaust. Þjóðræknisfélagið gekkst þá fyrir almennri fjársöfnun meðal landa vestra til þess að standast straum af kostnaði við að fá málið tekið upp til nýrrar rannsóknar, en hinn kunni lögfræðingur Hjálmar A. Bergmann tók vörnina að sér. Vannst það nú á, að dóminum var breytt, Ingólfur var dæmdur í æfilangt fangelsi.

192. *Kerlingabókin.* Hér mun átt við tímaritið Hlín, gefið út af Kvenfélagasambandi norðlenzkra kvenna, ritstj. Halldóra Bjarnadóttir.

193. *Jakob Briem,* bróðir séra Valdemars Briems vígslubiskups og sálmaskálds á Stóranúpi, fluttist vestur um haf um 1890 og bjó um mörg ár hjá systur sinni, frú Rannveigu Jónasson. Meðan hann dvaldist í Winnipeg stundaði hann aðallega barnakennslu, kenndi unglingum að lesa og skrifa íslenzku. Þegar elliheimilið Betel var sett á stofn á Gimli, fluttist Jakob þangað og varð þar eins konar fræðari og ritari fyrir gamla fólkið, er þar átti heima. Með orðunum „í biðstofu

ellinnar" vikur Stephan að elliheimilinu, síðasta dvalarstað Jakobs, en hann andaðist þar 1929.

201. *Freyr—Fúsi.* Freyr, heimilisblað, hóf göngu sína í Wpg. í des. 1924, varð ekki langær. Ritstj. var Sigfús B. Benediktsson.

206. *Þökk til þín og Magnúsar.* Um Magnús Hinriksson sjá greinarkorn eftir sjálfan hann í Almanaki Ó. Th. 1918, bls. 103—06. Þar er og getið dætra hans, Ingibjargar (Imbu, Mrs. Olson), og Jórunnar, er síðar giftist Walter Líndal lögfræðingi í Winnipeg.

214. *Salmagundi Boga.* Salmagundi þýðir eiginlega samsull, kássa, en er hér sama sem rabb um ýmislegt efni, daginn og veginn. Um þessar mundir birtist greinaflokkur í Heimskringlu undir þessu nafni, ritaður af Boga Bjarnasyni, skáldi og blaðamanni, bróður Páls Bjarnasonar, sbr. athgr. 84.

229. *Þessar firrur,* Kveðja til Jóns og Guðbjargar, sbr. Andv. VI., bls. 89—90. Í athgr. sinni um kvæðið misminnir Stephan, er hann tengir hina fornu vísu: Drúpir Höfði o. s. frv., við Skagafjörð. Hún á við Höfða í Höfðahverfi.

234. Afi, þ. e. Kristinn Kristinsson, mágur Stephans.

255. *Hnausaför.* Hnausaför mín, frásaga eftir Jóhannes P. Pálsson, birtist fyrst í Heimskringlu en var síðar, 1928, gefin út í bókarformi.

278. *Hallgrímur sögumaður,* Hallgrímur Hallgrímsson mag. art. Hann samdi ýtarlega og merka ritgerð um íslenzka alþýðumenntun á 18. öld, pr. í blaðinu Tíminn 1925.

— *Metnaður,* sbr. Andv. VI., bls. 255—59.

291. *Ó. bróðir þinn.* Ólafur Björnsson, læknir í Winnipeg.

293. *Að þú heldur svo fast í hönd með B.,* þ. e. Björgvin tónskáldi Guðmundssyni, sbr. bls. 295—96.

306. *Baldur, bróðir Baldurs, Jón Ólson.* Baldur Ólson læknir í Wpg. og bróðir hans Jóhannes, „Joe", er Stephan kallar hér Jón, tannlæknir í Wpg., Haraldssynir Jóhannessonar og Hansínu Einarsdóttur frá Húsavík, S.-Þing.

307. *Gísli Jónsson,* skáld frá Háreksstöðum á Jökuldal, prentsmiðjustj. í Wpg., bróðir Einars Páls, ritstj. Lögbergs, var kvæntur skáldkonunni Guðrúnu H. Finnsdóttur.

309. *Straumfjörð,* Andrés Straumfjörð síðast forseti Sambands íslenzkra berklasjúklinga, d. 1945.

310. *dr. Gíslason,* Gísli Guðmundur J. Gíslason frá Flatatungu í Skagafirði, háls-, nef- og eyrnalæknir í Grand Forks.

314. *Jón Stefánsson* frá Sigluvík á Svalbarðsströnd, háls-, nef- og eyrnalæknir og læknakennari í Wpg.

316. *Séra Albert Kristjánsson,* nafnkenndur kennimaður vestra, forseti Þjóðræknisfél. 1923—24.

320. *Sigfús* Halldórs frá Höfnum, ritstj. Heimskringlu 1924—30, nú fulltrúi í Reykjavík.
— *Ragnar* Hjálmarsson Ragnars frá Ljótsstöðum í Laxárdal, S.-Þing., píanókennari og söngstjóri í Wpg., nú í Bandaríkjunum.
— *Rósa* Hermannsson, nú Mrs. Vernon í Toronto, ein nafnkunnasta söngkona vestur-íslenzk.
323. *Né sízt, að nokkur gæfi aleigu sína af gulli fyrir það.* Frúin hafði í bréfi til Stephans getið þess, að hún hefði keypt tvö síðustu bindin af Andvökum fyrir fimm dollara gullpening, sem hún hafði geymt lengi, sér fundizt hún borga þau betur með gulli en grænum seðlum.
328. *Kvaran,* Ragnar E. Kvaran, sonur Einars H. Kvarans, prestur vestra 1922—33, forseti hins sameinaða kirkjufél. í N.-Ameríku 1924—33, forseti Þjóðræknisfélagsins 1928—29, d. í Rvík 1939.
329. *Hannes frændi,* Hannes Marinó Hannesson, lt. col., lögfræðingur, þá í framboði fyrir íhaldsflokkinn í Selkirkkjördæmi við nýafstaðnar kosningar.
351. *Aðalsteinn* Kristjánsson fasteignasali, rithöfundur, Eyfirðingur að ætt.
357. *Að skila þessum erindum.* Stephan á við kvæðið Í munarheimi, sbr. Andvökur VI., bls. 289—91.
369. *Þulan sem ég sendi þér.* Stephan á hér við Þiðrandakviðu (Andv. VI., bls. 259—69), er hann sendi Björgvin Guðmundssyni til Lundúna. Var ætlun Björgvins að semja lag við hana, er helgað yrði þúsund ára hátíð Alþingis. Hinn vinurinn, sem Stephan minnist á í þessu bréfi, er Baldur Sveinsson, og kvæðið, sem hann hafði lofað honum, er Í munarheimi, sbr. bls. 357.
388. *Rannveig* K. G. Sigurbjörnsdóttir, skáldkona.
393. *Þér sagðist vel um Grágæsamóður Austursjó,* þ. e. skáldkonuna Mörthu Ostenso og bók hennar Wild Geese, frásögu um frumbyggjalíf í Canada, en þar koma Íslendingar við sögu.

STEPHAN G. STEPHANSSON

# BRÉF OG RITGERÐIR

IV. BINDI

## UMHLEYPINGAR



REYKJAVÍK —— 1948

# Formáli.

Með þessu bindi er lokið heildarútgáfu Þjóðvinafélagsins af ritum skáldsins Stephans G. Stephanssonar í óbundnu máli, er hófst að frumkvæði dr. Rögnvalds Péturssonar árið 1938. Hún hefir tekið rétt 10 ár. Skal ekki fjölyrt hér um ástæðurnar fyrir því, hvers vegna verkinu seinkaði svo, en vísað til formála 2. og 3. bindis.

Um efni þessa bindis er það að segja, að kostað hefir verið kapps um að taka upp í það allt, sem skáldið hefir eftir sig látið í óbundnu máli, auk bréfanna; fyrst og fremst allt það, sem Stephan hefir sjálfur látið prenta, og svo þætti og ritgerðir, sem hann hefir eftir sig látið í handriti og svo var heillegt, að prenthæft þótti. Hefi ég við útgáfuna stuðzt við úrklippusafn Stephans sjálfs af prentuðum greinum hans, með leiðréttingum sjálfs hans, en að öðru leyti hefi ég stuðzt við handrit hans, er ég tók við af dr. Rögnvaldi Péturssyni og nú eru í vörzlu Landsbókasafns, svo og handrit í eigu frú Marenar Pétursdóttur, ekkju Baldurs ritstjóra Sveinssonar, er hún hefir góðfúslega leyft mér að nota og prenta. Nokkrar greinar, sem vantaði í úrklippusafnið, hefi ég tekið úr blöðum og eru þær prentaðar eftir þeim útgáfum. Skal ég nú stuttlega gera grein fyrir því efni, sem hér er saman komið, aldri ritgerðanna og heimildum útgáfunnar, og svo niðurskipan efnisins. Efninu hefi ég skipt í fjóra höfuðflokka og gefið þeim nöfn sem þurfa þótti, að nokkru samkvæmt tilbendingu höf. sjálfs.

Í I. kafla eru skáldverk höf. Þennan kafla hefi ég nefnt **Hripað í hjáverkum**, tekið eftir undirfyrirsögn höf. á þáttum þeim, sem hér birtast og hann nefnir: *Ar, hripaðar línur í hjáverkum.* Í þessum kafla, eins og öllum hinum, hefi ég flokkað efnið að mestu eftir aldri. Hér er þá fyrst sagan *Dómarinn.* Í handriti höf., er ber dagsetninguna 11. jan. 1888, er svofelld fyrirsögn: *Silhouettur af sveitarfélaginu. I. Dómarinn.* Saga þessi hefir ekki verið prentuð áður. Flokkurinn *Ar* hefir allur verið prentaður áður sem hér segir: 1. Hkr. 18/3 1894, 2.—3. Hkr. 12/3 1896, 4. Hkr. nýársblað 1899,

5. Hkr. 20/7 1899, 6. Hkr. 14/9 1899, 7. Hkr. 26/4—3/5 1900, 8. Hkr. 6/9 1900, 9. Hkr 2/5 1901. — *Brot,* upphaf á sögu, er hér prentað eftir hdr. höf., áður ópr., virðist ritað um 1890.

II. kafli, **Litið um öxl**, hefir inni að halda endurminningar skáldsins. Hér eru og prentuð eftirmæli, hið eina af því tæi, sem hann hefir eftir sig látið. Endurminningar Stephans, sem hér birtast, hafa eigi áður verið prentaðar, nema *Drög til ævisögu,* pr. í Andvara 1947. Allir þessir þættir: *Drög til ævisögu, Úr „skólasögunni“* og *Afsökun,* eru í rauninni bréf, sem Stephan ritaði Baldri Sveinssyni, að tilmælum hans. Fyrsti þátturinn, er hann nefndi *Úrlausn* og hér er haft að fyrirsögn um alla minningakaflana, er dags. 31/5 1922. Hinum er svo bætt við á árunum 1924—1925. Fjórði þátturinn, *Mylluferð,* er reyndar ritaður af öðrum manni, Jóni Jónssyni, mági Stephans, en hann er þessu efni svo nátengdur, að ég vildi ekki fella hann niður. *Ferðasagan til Ameríku* er prentuð eftir handriti höf., virðist vera eftirrit af bréfi, er hann hefir skrifað heim og lokið við að rita 14/10 1873. — Um kaflana, sem ég hefi nefnt *Þrír viðskilnaðir,* er það að segja, að hinn fyrsti þeirra er áður prentaður í Hkr. 18/8 1894, annar í Breiðablikum IV. árg. 1909, bls. 44, og hinn þriðji í Hkr. 11/6 1924.

Í III. þætti, sem ég hefi nefnt **Ádrepur og erindi**, er margs konar efni saman komið: Ræður fluttar við ýmis tækifæri, fyrirlestrar og ávörp, ritgerðir um ýmis efni, fréttaþættir, ritdómar o. s. frv. *Árnað heilla,* ræða flutt í húsi J. Bardals nýreistu 1884, *Að skilnaði,* ræða haldin í Winnipeg, líklega 1886, og *Um Andra jarl,* fyrirlestur, líklega fluttur fyrir lestrarfélagið á Mountain 1887, er prentað eftir handriti höf., svo og *Fyrir minni Bandaríkjanna,* ræða haldin á Mountain 4. júlí 1887. *Frá Garðar,* fréttabréf, er prentað í Lögbergi 11/4 1888. *Hið íslenzka menningarfélag* er einnig prentað í Lögbergi 11/4 1888 og er í rauninni viðbætir við fréttabréfið frá Garðar. — Athugasemd dr. Rögnvalds Péturssonar er hér birt, vegna þess sem þar er frá skýrt um Menningarfélagið og starfsemi þess. *Albertanýlendan* er prentað í blaðinu Landneminn 1891. Er hér að finna lýsingu á byggðarlagi því, er Stephan dvaldi lengst í. *Á gamlárskvöld 1891* (Öldin 27/1 1892), *Katekismus únítara* (Hkr. og Öldin 11/5 1892), *Um rím* (Hkr. og Öldin 21/9 1892), *Um bóklestur,* ræða flutt fyrir lestrarfélag Íslendinga í Alberta (Hkr. og Öldin 8/3 1894), eru prentaðar eftir úrklippubók höf. og með leiðréttingum hans. *Minni Íslands,* flutt á þjóðminningardag Íslendinga í Alberta, er pr. eftir hdr. höf. *Um Ljóðmæli eftir Jóhann Magnús Bjarnason* (Hkr. 13/4 1899), *Baldur* (Baldur 23/5 1904), *Ávarp á Íslendingadag 2. ág. 1904* (Freyja II. bd. 1904, 3 h.), eru prentuð eftir úrklippubók höf. *Fyrir minni*

lúðraflokksins er pr. eftir hdr. höf,. dags. 24/3 1906. *Einar Hjörleifsson* (Lögb. 3/10 1907), *Þökk* (Lögb. 1/2 1912), *Kveldúlfs minni* (Hkr. 27/3 1913), *Gestkoma* (Lögb. 23/9 1915), *Aðkomumenn* (Lögb. 8/6 1916), *Íslendingadagserindi,* flutt að Wynyard, Sask., 3. ágúst 1914 (Lögb. 17/8 1916), *Landið okkar ótilnefnda,* flutt á Markerville, Alta, 2. ágúst 1915 (Lögb. 31/8 1916), *Heimafáninn,* flutt á Markerville, Alta, 2. ág. 1916 (Lögb. 4/9 1916), *Gullskórinn* (Lögb. 5/10 1916), *Góðar heimtur úr helju* (Voröld 25/11 1919), *Kjartan prófastur Helgason* (Voröld 2/12 1919), *Jólasveinar og jólameyjar* (Hkr. 14/7 1920), eru pr. eftir úrklippubók. *Jökulgöngur* eru pr. eftir sérprentun úr Voröld 7/5 1920. *Hægt er að þreyja þorrann og góuna,* erindi flutt í Wynyard, Sask. á Íslendingadag 1920 (Hkr. 18/8 1920), *Veðramót,* Íslendingadagserindi flutt á Markerville, Alta, 17. júní 1920 (Hkr. 19/7 1922), *Kveld-órar* (Hkr. 28/3 1923), *Kveðju kastað á gest,* flutt Jakobínu skáldkonu Johnson 2. okt. 1926 (Hkr. 13/10 1926) og *Í vökulok,* ávarp flutt á samkomu í Winnipeg 4. ág. 1926 (Hkr. 12/8 1926), eru pr. eftir úrklippubók, nema tvær hinar síðast töldu, þær eru pr. eftir Heimskringlu.

IV. þátt bókarinnar hefi ég kallað **Umhleypinga**. Þetta nafn hafði Stephan sjálfur valið öllu safni sinu í óbundnu máli, svo sem hér er og gert á titilblaði þessa bindis, en hér er það haft að fyrirsögn á þann þátt bókarinnar, sem hefir inni að halda ádeilugreinar hans o, þ. h. Skal ég stuttlega gera grein fyrir ritgerðum í þessum kafla, hvaðan teknar séu. *Menningarfélagið og Sameiningin,* dags. 6/6 1888, er pr. eftir Lögbergi 20/6 s. á. Greinin er þar fyrirsagnarlaus og fyrirsögnin sett af útg. *Um jafnrétti,* greinarbrot, er prentað eftir handriti höf., ópr. áður. *Karólina um kristnu skáldin* (Lögb. 11/3 1893), *Skrifað upp Jóni Einarssyni til minnis* (Hkr. 17/8 1899), *Út af eftirmálum við Jón Einarsson* (Hkr. 5/10 1899), *Kveðja* (Löb. 8/3 1906), *Í veðrinu út af Vafurlogum* (Baldur 13/4—17/5 1907), *Mannadæmi* (Lögb. 12/2 1914), *Fréttaburður* (Lögb. 25/5 1916), *Það sem bóndanum þykir* (Voröld 16/7 1918), *Óhlutdræg blaðamennska* (Voröld 1/10 1918), *Minnisvarða-málefni* (Voröld 18/2 1919), *Fundarfregn* (Voröld 25/3 1919), *Villuvörður* (Voröld 25/3 1919), *Árni Sveinsson til sanns vegar færður* (Voröld 1/4 1919), *Til Nikulásar Ottenson* (Voröld 8/4 1919), *Þjóðnýting* (Voröld 8/4 1919), *Nokkrar veilur í Winnipeg-varðanum* (Voröld 29/4 1919), *Brauð og steinn* (Voröld 13/5 1919), *Að hrósa verki en klípa af kaupi* (Voröld 1/7 1919), *Áréttingar* (Voröld 19/8 1919), *Þú skalt ekki mann vega* (Voröld 16/3 1920), *Lög, sem hafa tog* (Sama blað), *„Og samt hreyfist hún!“* (Sama blað), *„Með óþreytandi árvekni einni saman, verður frelsið kaupi keypt“* (Sama blað), *„Gáði seint að reiðast“* (Hkr. 24/11 1920), *Til þeirra sem það varðar* (Hkr. 19/1

1921), *Lárus varð ljúgfróður* (Hkr. 26/1 1921), *Nikulásarmessa* (Hkr. 23/2 1921), *Metnaðarmál* (Hkr. 16/11 1922) og *Mishermismaðurinn* (Hkr. 3/1 1923), er allt pr. eftir úrklippubók. Síðasta ritgerðin, *Þakkargerð* (Hkr. 28/2 1923), er prentuð eftir blaðinu, sem hún birtist í.

Eins og sjá má af því, sem hér er ritað að framan, hafa langflestar ritgerðir Stephans verið prentaðar áður í blöðum vestan hafs. Handrit þeirra eru yfirleitt glötuð og því sjaldnast við annað að styðjast en hina prentuðu gerð þeirra, sem oft er miður vönduð. Sjálfur hefir Stephan leiðrétt ýmsar verstu villurnar í úrklippubók sinni og er bót að því, svo langt sem það nær. Stafsetning blaðanna á greinunum er með ýmsu móti og er hún samræmd hér eftir föngum og augljósar prentvillur leiðréttar hljóðalaust. Í sumum stöðum má grunsamt þykja, hvort rétt sé prentað, en þar sem eigi varð úr skorið með vissu, að rangt væri, hefir engu haggað verið. Í einum eða tveimur stöðum er augljóslega málum blandað, en varð ekki leiðrétt að svo komnu.

Þá eru hér í *viðbæti* prentuð nokkur bréf til Baldurs Sveinssonar ritstjóra. Þessi bréf komu ekki í leitirnar fyrr en í sumar, en þau eru svo merkileg að efni, að sjálfsagt þótti að prenta þau. Er þetta vottur þess, sem reyndar kemur ekki á óvart, að enn muni sitthvað leynast af þessu tæi, sem eftirsjá er að, en um það tjáir ekki að sakast.

Loks fylgir þessu síðasta bindi verksins skrá yfir bréfin í fyrstu þremur bindunum, ásamt stuttri greinargerð um þá menn, sem bréfin eru stíluð til, og svo skrá um mannanöfn, er nær yfir bindin öll. Rúmsins vegna eru hér þó ekki með tekin öll mannanöfn, sem fyrir koma, heldur þau nöfnin, sem mestu máli skipta og eitthvað er um talað í bréfunum eða ritgerðunum. Að endingu vil ég þakka þeim mönnum, sem hafa veitt mér aðstoð við að gera bók þessa úr garði. Indriði Indriðason rithöfundur hefir tekið saman bréfaskrána og mannanafnaskrána. Árni Kristjánsson cand. mag. hefir annazt prófarkalestur með aðstoð Haralds Péturssonar, umsjónarmanns í Safnahúsinu. Kann ég þeim öllum beztu þakkir fyrir verk sitt.

ÞORKELL JÓHANNESSON

# Efnisskrá.

# I. Hripað í hjáverkum.

## Dómarinn.

Hann var búinn að reyna margt, maðurinn. Síðan hann kom til Ameríku, lagði hann allt á gerva hönd, sem liggur milli þess að moka sand með skóflu við brautargerðir og klína olíu og blýhvítu utan á borðveggina á timburkofunum í smábæja-vonunum, sem hrófað er upp í óbyggðinni, sem nýir járnvegir eru lagðir um.

Sex eða sjö fyrstu árin, sem hann dvaldi hér, hafði honum tekizt að fara í flæmingi undan öllu föstu mannfélagi og hrakizt svona á útjöðrunum, þar sem mætist líf inna villtu og siðuðu manna, án þess þó að eiga eiginlega heima hjá hvorugum. En svo var það áttunda sumarið. Hann veiktist og treystist ekki að halda út flækinginn. Hann settist að hjá nokkrum löndum sínum og beið þess, að sér batnaði. Járnbraut hafði verið byggð þar árinu áður, og landnámið hafði færzt svo út á þessu seinasta sumri, að það voru að minnsta kosti hundrað mílur þangað, sem yzti nýbyggjarakofinn stóð, siginn niður í miðjunni, með gafla, sem stungu sér út að ofan, líkt og köttur, sem læðist á veiðum, rétt eins og kofinn byggist til að taka stökk lengra út á „preríuna“, sem lá þar fram undan, marflöt og hreyfingarlaus, eins langt og augað eygði.

En svo varð hann nú frískur aftur. Það var ungur og hraustlega byggður maður, hann Óskar. En hann var líka orðinn inniluktur, ekki einungis átti hann ekki eitt „cent“ til að komast burt, þó það væri raunar ekki dýrt, heldur var hann orðinn talsvert skuldugur, lítið í hverjum stað, en æði víða. Það var því ennþá áhrifameira, þegar allir þessir smá-lánardrottnar töldu hann frá að fara þaðan. Þeir voru allir kunningjar hans og vildu honum náttúrlega vel.

Hann réð það því af að gifta sig. Með því endaði hans: Létt er þeim, sem lausir flakka.

Ætt hans var öll heima á Íslandi, og þar hafði hann alizt upp fram undir tvítugt. Svo fór hann til Ameríku. Hann átti ekkert fyrir utan farareyri sinn nema það, sem þá var kallað heima: að vera vel að sér; og það var nú, að hann ritaði mjög fallega „hönd“ og gat „stílað“ bréf, sem sumum þóttu afbragð; þau voru orðuð svo líkt „þúsund og einni nótt“, því þá bók hafði hann lesið. Einu sinni var honum komið fyrir til lærdóms hjá presti einum; þá var nú danskan aðalnámið hans í heilan mánuð; í því máli útskrifaðist hann eftir að hafa lesið nokkrar blaðsíður framan af „Börnevennen“. Hann var þrekinn maður og hvatlegur, augun lágu utarlega í höfðinu og voru mikið dökkblárri en vanalega sést á Íslandi. Aðalskapeinkunn hans kom glöggvast fram á því, að honum fannst sér enginn hlutur ofvaxinn, og svo vantaði hann algerlega það, sem menn kalla íhugun. Flestir sögðu þess vegna, að hann væri bráðgáfaður, og nokkrir héldu jafnvel, að hann væri reglulegur vísindamaður. Þó fannst þeim öllum hann vera heldur montinn.

Það er nú orðinn svo almennur siður að lýsa okkur öllum Íslendingum svo seinum í öllum umsvifum, eins og froskum, þegar þeir eru að þiðna upp fyrst á vorin, og við erum farnir að gera það sjálfir. Hugsaðu þig um, hvort þú þekkir engan í hópi kunningja þinna svipaðan manninum, sem ég er að lýsa; kannske þig fari svo að gruna, að síekjuskapið íslenzka eigi líka sínar óreglulegu sagnir. Hann Önundur dyttur var íslenzkur; eins var hann Þorgeir, sem hjó, af því vel lá við högginu.

Fjögur ár voru liðin frá giftingardeginum hans.

Þó nú væri orðið mikið þrengra um hann en á umrenningsárunum, hafði honum tekizt furðanlega að kútbylta sér í jafn takmörkuðu rúmi og nýlendan Breiðablik var. Hún hafði verið skírð svona af Eddu-fróðum Íslendingi, og almenningi þótti nafnið ljómandi fallegt. Þau voru svo dýrleg þessi skrúðmiklu nöfn, sem hafa svo litla þýðingu. En hann hafði verið bóndi, greiðasölumaður, túlkur, „agent“ og allt, sem honum var mögulegt og ómögulegt, sitt í hvert skiptið og stundum margt í einu. Þó hafði hann ekki grætt veraldlega

né andlega fjársjóðu á allri sinni löngu reynslu, aðra en þetta innlendings snið í orðum og viðmóti, þeirra sem streitast við það að gera sig svo húsgangslega ameríska, að menn taka þá alls staðar fyrir næsta númer við „common Yankee“. Þessi liðleiki að leggja sig niður við hvað sem vera skal, til að fylgja tízkunni, er almennt álitinn sérstakt merki um göfuglyndi, prúðmennsku og frjálslegan hugsunarhátt. En ef þú kreistir þetta silkimjúka yfirborð ofurlítið þéttara, máttu ekki láta þig furða, þó þú verðir var um eitthvað hart í hjartanu og einhvern tómleik í höfðinu. Þeim hefir farið eins og gulrófum, sem spretta niðri í moldinni og eru svo ógnar mjúkar að utan, en innan eru þær trénaðar, og innst eru þær svört hola. Þær hafa vaxið of mikið út á við.

Nú var hann orðinn „Justice of the Peace“, það er, hann var orðinn dómari af lægstu röð, í dálitlu sveitaþorpi, sem í tvö ár hafði sprottið upp eins og dálítill spámanns-njóli og allir trúðu um, að myndi verða dálítil borg, svo hver einasta framtaks-sál í nágrenninu, sem á einhvern hátt gat losazt við sínar fyrri umbúðir, settist þar að og fór að „spekúlera“. Og allir kölluðu sig þar „businessmenn“, til aðgreiningar frá bændafólkinu; fjósastrákurinn upp til öreigans byggðu sér búðir og skrifstofur. En svo kom hrunið. Fyrst valt einn, tveir, þrír, og svo hver einasti einn, af bara tómri meðlíðun. En þeir sátu samt flestir kyrrir í rústunum. Það er ekki alltént svo hægt að losa sig, þegar húsið hrynur utan að manni, þó það hafi ekki verið nema loftkastali. Einn eða tveir þeirra, sem fyrst veltust, lifðu því hægasta lífi sem hugsazt gat eftir áfallið; þeir sýndust ekki þurfa að hafa fyrir neinu og sátu yfir allsnægtum. Þeir höfðu einhvern veginn ráðið gátuna að lifa áhyggjulausu lífi. Sumir hristu höfuðin: „Þeir lifa þó ekki á tómri guðsblessan, svo mikið veit ég!“ Fæstir bæjarbúar höfðu þó komizt upp á þetta lag, og fyrir þá var ekki um annað að gera en lifa af hverju helzt, sem upp gat oltið.

*Justice Office.* Þetta stóð með stórum tjörustöfum á hvítri léreftspjötlu uppi yfir dyrunum á eina húsinu nálægt miðju þess, sem eitt sinn átti að heita „Aðalstræti“. Þar var skrifstofa hr. Óskars Northlights, Justice of the Peace. Raunar vantaði eignarfallið, essið og úrfellinn við endann á fyrra orðinu, til þess að það gæti táknað það, sem það átti að þýða:

skrifstofa dómarans. En það var alveg saklaust, eitt af þessum minnstu pennafeilum, sem réttvísinni verða óvart, af því hún veit ekki betur.

Hugsarðu kannske það sé þunnur bjargræðisvegur að vera dómari í litlum smábæ, sem kominn er svona gersamlega í hundana, en reyndu, lagsi, að ganga honum einu sinni á hönd, upp á náð og ónáð, og ég skal veðja við þig, þú sérð eftir að hafa gert þér svona lága hugmynd um afraksturinn af illsku mannanna. Og bæirnir í Ameríku, — þú hefir víst heyrt, að það sé varasamt að hætta sér út í ærsla-uppganginn í þeim, meðan þeir eru að byggjast. En þú veizt ekki, að þeir eru varasamastir, þegar þeir eru komnir að eyðilegging, eins og jötnarnir í gömlu sögunum, sem strádrápu heilar fylkingar, meðan þeir tóku dauðateygjurnar.

Það var nokkru fyrir hádegi, og „jústisarius“ stóð úti fyrir dyrunum á húsinu sínu. Hann var dálítið rauðeygður, og hálfsvimaði, því nú var það orðinn siður hans að sitja við lögin langt fram á nótt. Ekki samt til að lesa þau né vega mönnum út umbun og hegning eftir fyrirmælum þeirra, — í því var hann orðinn svo æfður, að hann gat gert það eftir beztu hentugleikum. En hann þurfti að ganga um kring í bænum, til þess munnlega að útskýra lagavit sitt fyrir öllum þeim, sem nokkur von var um, að stefnt gætu eða stefnt yrði fyrir sinn hátt upphafna dómstól. Og þá mátti finna á hverju strái. Í pósthúsinu, sem síðan bænum fór að fara aftur, hafði gefið af sér 5 dollara og 5 cent um mánuðinn, hreinan ágóða, bara póstmeistarinn varð að fæða og hýsa sjálfan sig endurgjaldslaust og sitja 18 klukkutíma úr sólarhringnum til að varðveita og útdeila því, sem kallast „United States Mail“ (Bandaríkjapóstur) og sem þar í þorpinu samanstóð vanalega af 2 eða 3 sendibréfum, jafnmörgum póstspjöldum, 6 reglulega teknum dagblöðum og fullri tösku af sýnishornum af blöðum, bókum, skottumeðölum og auglýsingum um allt það, sem Ameríkumenn hafa skírt heimsfræga nafninu „Humbug“. Samt höfðu „republikanar“ þar í bænum róið að því lífróður með núverandi póstafgreiðslumann í stafni, að „demokratanum“, sem sat í brauðinu, væri steypt úr völdum, svo foringi þeirra næði því og kæmist svo til verðskuldaðrar tignar. Svo mátti tína marga upp í búðinni, sem kona eins þessara föllnu verzlunarengla hafði reist við, stuttu eftir

að bóndi hennar sagði af sér og lánardrottnar hans höfðu hremmsað og leitað svo, með lögregluþjónum og málfærslumönnum, að þeir þóttust þess fullvissir, að nú ætti hann ekki eftir eyrisvirði, sem nokkur þjófur gæti eftir grafizt. En madama Uppmann — því svo var eigandi nýju verzlunarinnar nefndur, eftir fyrirrennaranum, bóndanum sínum, sem var ættaður af Upsaströnd — mad. Uppmann var lifandi vottur um þetta óbifanlega traust konuhjartans á þeim, sem það elskar, sem skáldin hafa svo margdáðst að, ekki sízt þau, sem barma sér mest um, hvað unga stúlkan var fögur, en flá. Engum, sem áður hafði lánað hr. Uppmann vörur, myndi hafa komið til hugar að trúa honum fyrir verzlun sinni jafn vel og hún. Hún kom aldrei í búðina, nema hvað hún þurfti allténd að verða á undan öðrum til að velja sér í kjól, þegar nýi varningurinn kom, og þá varð hún að spyrja um verð á vörunum, eins og hún væri bara réttur og sléttur kaupandi. Það hafa sjálfsagt verið stórsummurnar við stórkaupahúsin, sem hún gaf sig við. — Þó var hvergi um auðugri garð að gresja en á vínsöluhúsinu, sem eitt hafði staðið óhaggað gegnum borgarhrunið. Þess konar húsum er klakið upp af mannlegum veikleika og þess vegna standa þau svo föst, þó allt í kringum þau falli, rétt eins og viðhafnarmiklu raunavísurnar hans Kristjáns heitins skálda; menn muna þær allar, en gleyma því, sem hann hefir gert betur.

Það verð ég þó að segja dómaranum til hróss, hann kom á „bauk“ sjaldnar en við mátti búast um jafn félagslyndan mann. Hann hefði eflaust orðið að mæta þar mörgum, sem hann í fullu lagaleyfi hafði hirt með smáum eða stórum fjársektum, þó það hefði víst ekki allténd orðið hegning til betrunar, því heyrzt hafði, að einhver [hefði] svarið þar við alla goðafræði þvera og endilanga að gefa dómaranum á h.... kjaftinn, hvenær sem hann kæmist höndunum undir. Svo voru þeir vínsalinn engir mátar. Þegar dómarinn flutti í embættið, hafði vínsalinn sagt, að nú væri svívirðing foreyðslu borgarinnar fullkomnuð. Og dómarinn tók það að sér.

En svo mátti þó segja, að dómarinn stæði þar sífellt með hægri hendina reidda yfir drykkjuskálunum eða spilaborðinu. Veitingahúsið var aðaldægradvöl samþjóns hans, sendiherra réttvísinnar, lögregluþjóns Mr. Langmanns. Þú sérð á nafninu, að hann hafði haft einhver kynni af Langanesi. Það

kom ekki almenningi óvart, þegar Langmann komst í þá tign að verða gæzlumaður friðar og siðsemi. Hann hafði alla þá kosti, sem einkenna þurfa boðbera lagastafsins, að fólki skildist; hann var fæddur til embættisins. Hann var stór og klunnalegur og ákaflega hneigður fyrir flangs og áreitni við aðra, því hann var fremur sterkur og hafði makalaust yndi af að sýna mönnum það. Það var ekki í átökum einungis, að hann lét til sín taka. Þegar honum var mikið niðri fyrir, reif hann sig upp úr öllum hljóðum, sótti róminn langt ofan í kok og lét svo röddina smárykkjast til, eins og þegar steini er velt fram af bjargabrún, sem hendist svo nibbu af nibbu niður alla hamrana. En svo skildu menn stundum ekkert nema hljóminn, og því sagði eldabuska ein, sem hlustað hafði á hann einu sinni, þegar hann hélt ræðu og lét sér takast upp: „Þetta var lungnabjúga, en ekki heilastappa.“ Málið átti ekki til það orð í eigu sinni, sem hann veigraði sér við að brúka, þegar hann spaugaði; hann vildi offra öllu, sem hann átti til, fyrir glaðværð og góðfélagsskap. Ef þú virtir fyrir þér þetta litla ríki, sem nefndi sig Henry Langmann, mundi þér ekki hafa dulizt, að því var engin hætta búin af innbyrðisóeirðum, þessu stríði milli holdsins og andans, sem hefir eyðilagt svo marga viðunanlega „constitution“. Það var auðséð, að holdið drottnaði þar í nærri ótakmörkuðu einveldi.

Það er rótgróin hugmynd, að „holdið“ þýðir mannanna vonzku. En ég sá einu sinni liðsforingja láta skjóta dátaskepnu fyrir litla yfirsjón, eins og siður er í hernum. Tárin komu fram í augun á honum, þegar hann hrópaði til tólf böðlanna með byssurnar: „Skjótið!“ Hann sneri sér undan. „Þetta á ég upp á hjartað í mér,“ sagði hann. „Það bilar mig allténd við svona tækifæri. Það var tæpast, að skynsemi mín héldi núna svo í hemilinn á því, að ég rækti skyldu mína.“

Henry Langmann hafði misst allt, sem hann hafði haft von um að eignast, eða ímyndað sér hann ætti, þegar lánstraust bæjarins bilaði. Nú þurfti hann af einhverju að lifa og hann vildi lifa glatt, og hefði líka gefið til, að aðrir gætu lifað glatt, hefði hann getað það. Búkur hans var stór, og innan í honum var hjarta, sem næstum svaraði til. Núna var hann samt ekki ólíkur þessum smáu þverám í leysingu, ákaflega strangar og fyssandi, með gný og grjótkasti, en dýpið varla tvö fet, þó hvergi sjái í botn fyrir skolinu.

Og svona var hægri hönd dómarans, hann Henry eða Helgi „pólití“.

Staða þessara embættismanna var svo náskyld, hagir þeirra svo svipaðir, að hvorugur gat hrært sig svo, að ekki yrði þá vatn á hins myllu, ef hann veitti á sína. Þeir stóðu því í nánum félagsskap. Þar sem tveir menn í litlu héraði hjálpast jafndyggilega að, að haldið sé uppi lögum og landsrétti, er ekki furða, þó metaskálar réttvísinnar séu síiðandi.

En þarna stóð hann, dómarinn, á tröppunni fyrir framan húsið sitt og hélt annarri hendinni um dyralæsinguna. Hann var rétt að hugsa um að hlaupa út í búð og kaupa sér gleraugu. Hann hafði séð yfirdómarann brúka gleraugu. Og hann minnti hann hefði heyrt einhvern lesa það í biblíunni, að „Jehóva setti brillur á réttarins nasir.“ Hann var búinn að gleyma, að þetta stæði í Vídalínspostillu og að það var sjálfur myrkrahöfðinginn, sem ætlaði að reyna að bæta úr sjóndepru lögfræðinganna og miskunna þeim með brillum. Hann var í þann veginn að hlaupa yfir um til kaupmannsins, þegar maður þrammaði þarna upp að honum, rétti honum hendina og bauð góðan dag með mestu virktum. Það var auðséð, þetta var nýkominn emigrant, andlitið var svo ofur rjótt, leðurtaskan hékk á hlið hans, spennt upp um vinstri öxlina, mosalitaði ullartrefillinn var svo vandlega vafinn um hálsinn og buxnaskálmarnar hans höfðu verið sniðnar af svo óskornum skammti; það auðkenndi hann allt sem nýkominn Íslending.

„Hvað er nú að frétta, Bjarni?“ spurði dómarinn hann ofur viðkunnanlega.

„Ekki svo sem neitt,“ svaraði inn aðkomni.

„Nema þér hefir liðið vel síðan seinast, og ert enn hjá Brown?“ Og dómarinn fór með hendina ofan í buxnavasann, hægra megin, og hringlaði saman þremur 5 centa peningum, rétt við eyrað á Bjarna, sem stóð utan við tröppuna.

„Og ekki trúi ég það. Kominn er ég frá bölvunar-Brún.“ Og Bjarni var íbyggilegur á svipinn. Það var fljótséð, að þeir Brown myndu ekki hafa skilið slétt. Hann var svo alvarlegur, eins og ef hann hefði komið til að lýsa vígi Browns á hendur sér.

„En hvað bar ykkur þá á milli?“ spurði dómarinn, og strauk hökuskeggið með þeirri hendinni, sem laus var.

„Ja, það er nú það, sem ég ætlaði að minnast á við þig," svaraði Bjarni. „Ég fann hann Helga frá Langanesi, pólitíið ykkar hérna, úti á vertshúsi áðan og minntist á það við hann, og hann sendi mig til þín."

„Það var alveg rétt," sagði dómarinn, kippti hægri hendinni upp úr buxnavasanum, sneri upp á hökutoppinn með hinni og skellti opnum dyrunum. „Komdu inn, komdu inn í „offisið" mitt með mér og við skulum skrafa um það."

Og svo staulaðist Bjarni ofur gætilega upp á tröppuna og inn fyrir dyrnar á eftir dómaranum, og þarna var hann kominn inn í „offisið". Þessi skrifstofa var ekkert nema íbúðarhús dómarans og fjölskyldu hans, allt eins og það var innan fjögurra veggja og sjö feta hátt undir bita, með eldstó, rúmi, búrskáp, borðum og bekkjum.

En kannske var „offisið" bara norðausturhornið af húsinu, því þar stóð ofurlítið skrifborð undir glugganum og hilla í horninu, sem geymdi tvær eða þrjár bækur, hér um bil þrjú hundruð til fjögur hundruð blaðsíður hver, í fjögurra blaða broti, og letrað á kjölinn „Session Laws" og seinustu ártölin. Á borðinu lá talsverður bunki af formálablöðum, með skýrum fyrirsögnum, „Summon" eða „Warrant of Arrest", að mestu leyti prentuð, aðeins nokkrar auðar línur fyrir mannanöfn, lýsing sakar og dagsetning. Stór og þunn skrifbók lá þar hjá þeim (það var fyrsta bindið af rannsóknum og úrskurðum dómarans) og ofan á henni lágu ritföng. Þarna stendur þú í anddyri ins mikla völundarhúss laganna, og það nokkuð innarlega, því hann Óskar Northlight var ekki einn af þessum útkjálka-lögsögumönnum, sem þú hefir lesið um í blöðunum, sem hvorki kunna að lesa né skrifa nafn sitt, og kunna engin lög, önnur en hversdags-sanngirni, svo afkáralega orðaða í dómum þeirra, að hver hálflærður lagabusi gæti rifið þá í tætlur á svipstundu. Nei, nei, hérna er talað um dómara, sem er fluglæs og vel skrifandi, og á þar að auki þrjár lagabækur.

Hann bauð Bjarna sæti, settist niður við borðið andspænis, fór að fletta skrifbókinni og laga blöðin. „Hvernig get ég þá hjálpað þér, Bjarni minn? Eitthvað með lögum líklega."

„Ja, eiginlega vildi ég leita ráða til þín. Mér þykir leiðinlegt, að þessir innlendu skuli fara með okkur landa rétt eins og þeim lízt, án þess við berum hönd fyrir höfuð okkar, þó þeir

kalli okkur græningja.“ Og rómurinn var svo drýginda-fyrirlitningarfullur, að það lá í augum uppi, að maðurinn hefði orðið fyrir gróflega óverðskulduðum miska.

„En hvað bar ykkur Brown eiginlega á milli?“

„O, það er nú nokkuð flókin saga. Eins og þú vissir, réðumst við til hans, fjórir landar. Hann sagðist borga sama kaup og aðrir, en svo bauð hann hverjum okkar þrjá dollara á dag, sem einn gæti sett upp á eftir sjálfbindara. Mér sýndist kaupið nokkuð og réðst svo í það. Hinir þorðu ekki. Fyrsta daginn gekk mér bölvanlega, mér tókst svo illa að láta bindin standa upprétt. Bindaraskrattinn komst svo langt á undan mér. Menn eru líka látnir vinna eins og þrælar hér í Ameríku, myrkranna milli, einn á eftir bindara, sem djöflast áfram eins og gufuvél. Það er nokkuð líkt því, sem sagt var heima, að vinnutími væri hér ævinlega svo reglubundinn, frá klukkan sjö til sex. Ég vann svo að þessu alla vikuna og um miðjan dag á laugardaginn sá varla orðið til bindarans; ég sá þá ég myndi ekki halda það út lengur og labbaði mig heim. Hinir urðu eftir, þeir höfðu það náttúrlega helmingi léttara og þóttust þó víst vinna fullhart. Nú leið og beið. Ég vann hingað og þangað. Í haust fór ég að „kollekta“ kaup mitt, eins og þið kallið það. Þá kom ég til Browns. En veiztu hvað hann gerir? Hann rétti mér, maður, ellefu dollara, fyrir fimm og hálfs dags vinnu, í staðinn fyrir sextán og hálfan, eins og um var samið. Hann gaf mér ekkert meira en hinum. Ég sagði strax við hann: „More monney“, og sýndi honum fyrst fimm og hálfan fingur fyrir dagana og svo sextán og hálfan fingur fyrir dalina. En hann sagði „nöff“ og „gjenöff“, og svo skildi ég, ég átti ekki að fá meira, þegar hann seinast sagði „plenty“. Ég bölvaði honum svo á hreinni og klárri íslenzku; mér þótti verst, að þrællinn skildi það ekki, en ég held honum hafi sýnzt það vera móður á mér. Og svo fór ég. Nú langaði mig til að vita, hvort ómögulegt væri að jafna sig upp við náungann. Helgi réði mér til að stefna honum og tala við þig.“

„Og það er ekki um annað að gera. Ég skal strax skrifa út „summon“ á hann.“ Og dómarinn bjó sig til að fara að rita.

„Það var einmitt, sem mér datt í hug: Fá þig til að skrifa honum fyrst og sjá, hvort hann vildi ekki borga með góðu, einkum þegar *þú* skrifar og hann sér það er hálfgert komið í réttarins hendur. Það er rétt. Skrifaðu summuna á hann,

það voru þrír dollarar á dag í hálfan sjötta dag, akkúrat fimm dollarar og hálfur, sem hann skuldar mér enn."

„O, þetta er misskilningur. Það væri ekki til neins að skrifa Brown „prívat" bréf um þetta, þó presidentinn sjálfur gerði það, ég þekki hann svo, piltinn. „Summon" heitir stefna á ensku og hana meinti ég, og henni verður Brown að gegna. Ég sé ekki heldur, hvað er í hættunni fyrir þig. Þú sverð" — og hann sagði þetta hægt og huggunarsamlega, eins og til að tala kjark í Bjarna — „þú sverð náttúrlega, að þú hafir unnið fyrir þrem dollurum á dag í fimm og hálfan dag og aðeins tekið móti ellefu, það er sannleikurinn í málinu."

„Og aldrei hafði ég ætlað mér til Ameríku til að standa í málaferlum, sízt meðan ég er ekki betri í málinu en ég er." Það hafði dofnað snögglega yfir honum. „En fyrst ykkur Helga ber saman um, að ekki sé annar vegur fyrir mig, býst ég við mér sé það óhætt. Þið eruð þó líklega færustu mennirnir hérna og með ykkar hjálp ætti það nú að takast. Það kostar mig líklega [ekki] það eina, og mér hefir allténd þótt illt að láta minn hlut."

„Það er alveg rétt. Hér í landi má maður ekki gefa sitt eftir, og við hjálpum þér allt sem lög leyfa. Ég skrifa þá strax út stefnuna?"

„Það held ég."

Bjarni steinþagnaði og svo skrifaði dómarinn stefnuna.

„Hvað kostar nú stykkið? En þú færð náttúrlega borgun fyrir það hjá Brown. Það kemur inn í málskostnaðinn." Bjarna þótti ævinlega gaman að vita um verð á öllu.

Dómarinn kom með skjalið til hans, eins og til að ofbjóða honum með þessum voðalega lærdómi sínum að geta skrifað nokkur orð á máli, sem Bjarni skildi ekkert í.

„Nei, hér eru það lög að borga allt slíkt fyrirfram, allan málskostnað, sá sem stefnir. En þú hefir það náttúrlega margfalt upp úr Brown, ef þú vinnur málið."

„Þú ert svo sem bærilega að þér í enskunni," sagði Bjarni, dómarinn hélt stefnunni svo fast að honum. „Ef ég væri orðinn eins, skyldi ég ekki kvíða mér hérna í Ameríku. En það eru þó skrítin lög að borga fyrir fram það, sem rétturinn ætlar að gera, meðan enginn veit, hvað hann gerir. Nú, segirðu, ef ég vinni málið! En hvað er það þá mikið, sem þú heimtar?"

„Láttu mig sjá," sagði dómarinn. Hann dró upp nokkra

tölustafi á umslag, sem hann tók úr vasa sínum. Svo lagði hann þá saman ofur gætilega, leit til Bjarna með mesta dánumannssvip. „Það verður um tíu dollara,“ sagði hann.

„Það er allt of andskoti mikið að leggja í hættuna. Mér er betra að sleppa þessu,“ sagði Bjarni.

Nú var dómarinn ekki seinn til svars. Hann sá hann var að missa manninn, eða réttara sagt peningana, sem hann myndi hafa upp úr málinu hans. Hann var kominn á síðustu forvöð með hann og þurfti bráðum öðru að sinna, nú reið á að tala svo það hrifi. Það rann upp úr honum eins og eldhússstrompi.

„Sleppa þessu máli! Þarna eruð þið lifandi komnir með bjánaskapinn og hugleysið. Látið hérlenda menn ganga ykkur ofan í forina, eins og þeim sýnist, og stela af ykkur peningum í tilbót. Og ef einhver landa ykkar, sem veit betur en þið og þið megið þess vegna treysta, vill hjálpa ykkur, þá ætlizt þið ekki einungis til, að hann geri allt fyrir ykkur, svo þið þurfið ekkert að því að vinna sjálfir, heldur að hann geri það allt saman borgunarlaust og pungi jafnvel peningum út úr sjálfs sín vasa eins og á þarf að halda. Þess vegna hnígið þið máttvana fyrir hvaða amlóða sem er. Hér í landi græðir enginn, sem ekki lætur peninga sína flakka fram og aftur. Ég fyrir mitt leyti get nú gjarnan gefið þér upp mín laun, bara til að hjálpa þér til réttar þíns, því ég vil feginn gera hvað ég get fyrir nýkomna landa mína. En ið opinbera verður að fá sitt, og „pólitíið“, fyrir að birta stefnuna, sitt, og svo mikið ættir þú þó að vinna til að ná þér niðri á Brown, að þú tímdir að borga það í bráðina. Ég vildi jafnvel lána þér það,“ og um leið lét hann smella hátt í fimm centunum í buxnavasanum. „Sleppa þessu! Ég hefi einu sinni ekkert vald til þess, þegar búið er að bóka málið opinberlega og rita út stefnu. Væri ég í þínum sporum, léti ég víst ekki svona gott tækifæri sleppa til að vinna mér inn tíu til tuttugu dollara með léttu móti; það er oftast, sem maður þarf að hafa talsvert fyrir þeim, greyjunum. Ég, sem er dómari, má ekkert segja um málið fyrir fram. Það er ætlazt til, að ég sé svo makalaust óvilhallur.“ Þetta seinasta sagði hann lágt og brosti hæðnislega. „Ég er kannske búinn að gefa þér of mikið í skyn, að minnsta kosti meira en nokkrum öðrum, sem komið hafa með mál til mín, af því ég vissi, að þú varst nýkominn og ókunnugur.“

„Og ég held ég verði þá að láta það gossa,“ sagði Bjarni og hreykti sér til. „Ég treysti á, að þið Helgi hjálpið mér. — En heyrðu, er það mjög dýrt að birta stefnuna?“

„Og pólitíið hefir tíu cent á míluna, og dálítið meira. Lögin skipa svo fyrir.“

„Helvíti er það nú mikið,“ sagði Bjarni og hugsaði sig ögn um. „Dygði ekki, að ég birti stefnuna sjálfur, eða ef maður þarf endilega að kunna ensku til þess, gæti ég ekki fengið einhvern, sem kynni að gera það fyrir ögn minna?“

„Og sussu. Það er ekki vogandi að láta neinn gera það, nema löglegt pólití. Það getur ónýtt bezta mál. Ég skal ekki ráða þér til þess. Sjálfur geturðu það nú ekki, það væri eins og þú færir að dæma í sjálfs þín sök. Maður getur varla verið að gera sér stórómak til að minnka málskostnaðinn fyrir Brown.“

„Það dugði þó fullvel heima á Íslandi,“ svaraði Bjarni. „En hérna eru tíu dollarar, það eru dalirnir frá Brown, það er bezt að þeir fari að leita að hinum fimm.“

Bjarni rétti að dómaranum peningana, ofur áhyggjulegur, eftir að hafa leyst niður leðurtöskuna, opnað hana, tekið upp pappírsböggul, sem hann vafði sundur, og innan úr honum kom tvíhólfuð leðurpyngja; neðst við botn annars hólfsins lá 10 dollara bankaseðill, samanbrotinn og strokinn úr hrukkunum. Hann var ekki gamall, seðillinn sá, stimplaður 1880, en hann var hrukkóttur, eins og ennið á sögudísinni. Það var ævisögu- og örlagarúnir hans. Hver sem hafði hann í vörzlum sínum, setti á hann nýtt brot og nýjar hrukkur. Þær táknuðu allt, sem hann hafði farið gegnum.

Og hérna er ein vikan af ævi hans: Á mánudaginn krypplaðist hann sama í lófa fátæks bónda, sem fékk hann fyrir seinustu tuttugu hveiti-bushelin sín. Á þriðjudaginn var hann böggiaður innan í hnút á einu horninu á vasaklút daglaunamannsins. Hann hafði fengið hann fyrir tíu daga harða vinnu, sem lagði hann fjórum dögum seinna ofan í kirkjugarðinn. Á miðvikudaginn dróst hann gegnum greipar málfærslumannsins. Með honum reyndi saklaus vesalingur að gera seinustu, misheppnuðu tilraunina að frelsa sig við gálgann, sem hann hafði ekki unnið til. Veslingurinn hafði komizt í hendurnar á réttvísinni. Á fimmtudaginn klemmdist hann milli sólanna á stígvéli þjófsins; það var keyptur fyrir hann

hálfur mannsaldur af tímanlegri glötun. Á föstudagskveldið lykkjaðist hann í bugðum utan um silfurdalina í peningaskúffu vínsalans. Hann hafði þá seinast orðið miðlunin, sem svæfði tvær dottandi samvizkur inum síðasta blundi, en vakti eina til ævilangrar andvöku. Alla laugardagsnóttina var hann settur í stagl, kreistur undir lásnum á ofurlítilli, glitsaumaðri pyngju, sem skar af honum eitt hornið; oddurinn á gylltri brjóstnál stakkst í gegnum hann og þrír títuprjónar nældu sér í bakið á honum. Hann var leiddur þangað til hvílu, því dagsverki hans var lokið, þegar seinasti bjarminn af kveldroða sakleysisins slokknaði undir skugga hans. Á sunnudagskveldið lá hann efstur í guðskistunni, ofan á eirskildingunum og litlu silfurpeningunum á samskotadiski safnaðarins. Hann var ætlaður til uppbyggingar guðshúss, nýrrar kirkju. Og presturinn sagði: „Guð hefir uppvakið hana til fyrirmyndar í söfnuðinum.“

En dómarinn tók við seðlinum og stakk honum svo lítilsvirðislega ofan í vasann, þar sem 5 centin voru fyrir.

„Hefirðu unnið þér mikið inn í haust, Bjarni minn?“ spurði hann svo.

„O, nei, mér hefir gengið illa, ég hefi ekki unnið mér inn nema tæpa hundrað dali, þó ég fái það allt.“

„Það er nú góð byrjun, ef þú bara gætir komið því í eitthvað, sem arður væri að, svo sem fasteign.“

„Ætli að peningar séu ekki fastasta eignin, ef maður annars ætti þá?“

„Látum það nú vera, en að kaupa fyrir peninga og selja aftur fyrir helmingi meiri peninga, ætli það sé ekki eins létt og þræla fyrir þeim?“

„Það gæti nú verið, en það komast nú ekki allir upp á það lag.“

„Já, en það er nú einmitt lagið, sem ég ætla að benda þér á. Ég hefi til sölu æðimörg hús hérna í bænum og byggingarlóðir, fyrir minna en hálfvirði. Ef þú legðir peninga þína í eitthvað þess konar, get ég ábyrgzt þér tvöfaldan ágóða.“

„Ég hélt, að bærinn hérna væri ekki í þeim uppgangi, að hann stigi stórt í verði. Að minnsta kosti hafa innbúarnir lækkað í verði, eftir því sem sagt er.“

„Þeir einir segja það, sem öllu vilja halda niðri og öfunda okkur, af því þá órar fyrir því, sem ég veit fyrir víst, að

bærinn hérna verður öðruvisi útlits næsta ár en núna. Menn munu þá iðrast eftir að hafa sleppt góðum tækifærum. Nákvæmlega get ég [ekki] sagt mönnum í bráðina, hvað það er. En ég get bent þér á nokkuð, sem allir sjá af, að okkur er að fara fram. Í fyrra höfðum við engan prest, nú höfum við hann og launum honum vel og ætlum að byggja kirkju; og svo er hitt, þeir sem voru dómarar hérna á undan mér, höfðu varla þriðjung að gera við það, sem ég hefi. Allt er að aukast. Okkur er að fara fram."

„Já, við getum talað um þetta seinna," sagði Bjarni. Hann var búinn að spenna á sig töskuna. Svo kvaddi hann dómarann mjög vinsamlega, setti upp húfuna sína og fór.

Tveimur mínútum seinna var klappað upp á dyrnar hjá dómaranum. „Kom inn." En áður en dómarinn var búinn að sleppa seinna atkvæðinu, var aðkomandi kominn á mitt húsgólfið. Það var knálegur maður með ullhvítt yfirskegg, sem vafðist út frá báðum munnvikjunum eins og hrokkinn toglagður. Andlitið var allt brosandi, einkum feitu kinnarnar, þær sýndust skellihlæja. Hann bar höfuðið svo hátt og sté fótunum svo fast niður og hleypti svo í herðarnar, að það var eins og bilið milli himins og jarðar væri of lágt fyrir hæð hans, svo hann væri neyddur til að spyrna ofurlítið frá sér með báðum endum. Þarna kom lögregluþjónn hr. Henry Langmann. Hann sló flatri hendinni svo hart ofan á skrifborðið, að það söng í því, og um leið sprungu tveir bofsandi hlátrar út á milli varanna á honum.

„Hvað gerði hann loksins, fíflið að tarna, lét þig skrifa stefnuna?"

„Já, loksins, hérna er hún. Þér er bezt að fara strax með hana," sagði dómarinn.

„Ja, hvert í sjóðbullandi," sagði lögregluþjónninn og skellihló svo rúðurnar í glugganum hristust. „Nú skulum við þó hafa einu sinni ærlega skemmtun. En það sem ég stríddi við þrælinn út á Bauk til að hafa hann upp í að stefna. Hann vildi alltaf skrifa Brown. Pýtt, sú helvítis vitleysa. Það hefði víst ekki orðið stórt gaman að því. Good, nú höfum við hann samt." Og svo hló hann allt að einu aftur. „En málið hans Jóns Bolungs er búið, við höfum ekki meira upp úr því."

„Búið, hvernig þá? Það mál átti að klárast fyrst í dag."

„Þú færð að vita það bráðum. Bolungur er á leiðinni til

þín. Ég segi þér barasta: Það er búið. Nú fer ég þá strax að stefna Brown.“ Svo þreif hann skjalið af dómaranum, stakk því í vasa sinn og snerist út.

„Þú verður að vera hér með fangann og vitnin klukkan þrjú,“ hrópaði dómarinn á eftir honum.

„Þú ert damn right,“ svaraði lögregluþjónninn, og var horfinn út úr dyrunum.

— „Hver fjandinn segir fyrir því, ef Bolungs-málið er búið?“ sagði dómarinn við sjálfan sig. Hann henti lögbókunum ofan af hillunni, niður á borðið hjá sér. — „Skyldi ég hafa gert eitthvert glappaskot í stefnunni?“ Hann fletti upp registrinu í einni bókinni, eins og hann væri að leita að einhverju. Svo fór hann að hugsa um stöðu sína. Hún var æði vandasöm og borgaði sig illa. Að setja öðrum lög og dæma, eða með öðrum orðum, allt sem maður gat komizt af með tunguna eina, var nú gott og blessað. En skriftirnar, þessi sífellda bókun og skýrslur, sem heimtaðar eru, það var allt vandhæfara, og þó reyndar ekki nema ótætis rústarverk, sem ekki ætti að vera heimtað af neinum embættismanni. Það mætti fara norður og niður. „Kom inn,“ sagði dómarinn, honum heyrðist einhver dumpa við hurðina. Hún opnaðist og inn úr dyrunum vaggaði stór og flatvaxinn maður, stígvélaður upp að hnjám. Andlitið, sem gægðist inn, var einkennilegt, það sýndist flatt og kringlótt, frá hverri hlið sem horft var á það, sett í þumlungsbreiða[n] ramma af ljósgulu hári og skeggi. Þetta var Jón Bolungur. Skírnarnafn hans var blátt áfram Jón Jónsson, en svo höfðu spurulir menn komizt að því, að hann var frá Bolungavík, og svo kölluðu gárungarnir hann Jón Bolung.

„Góðan daginn,“ sagði Jón, strax sem hann kom inn úr dyrunum. „Ég kom til að láta þig vita, Óskar, að ég er búinn að fá peningana mína frá þeim Pétri og Páli, sko, svo þú mátt taka málið til baka, sko.“

Hann ruggaði sér ofur hægt inn gólfið, nær dómaranum.

„Hvað, hefir þú sætzt við þá og tekið móti peningunum, eftir að hafa komið til mín og byrjað málið, sem átti að lúkast í dag?“

„Onei, ekki hafði ég svo mikið fyrir því. Ég kom á pósthúsið áðan og fékk peningana, þeir voru í registeruðu bréfi, sko. Sína tvo dollarana frá hvorum þeirra, það eru tuttugu og

fimm cent meira en ég átti hjá þeim, sko. Bréfið var búið að liggja lengi, mér datt ekki í hug að spyrja eftir því, ég fæ svo sjaldan bréf, sko.“

„Ætlarðu þá ekki að halda áfram málinu?“

„Nei, er þetta ekki dæmalaus spurning! Mennirnir eru alveg saklausir, sko, búnir að borga mér, sko. Þú mátt sjálfur stefna þeim, ef þú heldur þú hafir nokkuð upp úr því, minna vegna, sko.“

— Mikið glappaskot gerði ég að láta þrælinn ekki borga málskostnað fyrir fram, hugsaði dómarinn; ég var svo viss, að málið héldi áfram, og þá átti ég víst, að þeir borguðu. Þessi skratti datt mér ekki í hug.

„Bíddu við, lagsmaður,“ sagði dómarinn og hljóp fram á gólfið milli dyranna og Bolungs, sem var byrjaður að „venda“, eins og hann ætlaði sér að sigla út. Hann var nú búinn að snúa sér við, svo þeir horfðust í augu. „Viltu borga mér fimm dollara tuttugu og fimm cent til þess ég sleppi þessu?“

„Fyrir hvern rækallann á ég að borga, sko? Ég kom til að láta þig vita, að ég þyrfti ekki þíns dóms við, og þú átt hann svo óeyddan, sko. Fyrir hvað á ég að borga, sko?“

„Fyrir stefnuna, fyrir að stefna, fyrir allan tímann og öll ómök. Ég er ekki hér í minni stöðu til að láta hafa mig að fífli.“

„En þú vilt kannske hafa aðra að fífli? Varst það ekki þú, sem komst mér til að stefna sakleysingjunum, sko? Því borgunin til mín var þá á pósthúsinu, sko! Sagðirðu mér þá ekki, að það skyldi ekki kosta mig eitt cent, sko? *Þú* ættir að borga *mér* fimm dollara fyrir að narra mig til að stefna saklausum mönnum, sko.“

„Vertu nú bara rólegur, Jón Bolungur,“ sagði dómarinn fremur hægt, en það var eins og hann nísti orðin út úr sér. „Þú ert áfrýjandi og ert kominn hingað sjálfan stefnudaginn. Ég set réttinn strax og læt pólitíið halda þér hér. Ef þú ert ekki þægur, get ég „múlkterað“ þig tuttugu og fimm dollara fyrir þingsafglöp. Svo fellur málið náttúrlega á þá, því þeir mæta ekki til að verja sig. En þú verður samt að borga málskostnað, og ég vona hann geti orðið ofurlítið drýgri en það, sem ég set núna upp.“

„Ætlarðu þér að dæma mennina saklausa? Ég sver, að þeir

hafi borgað mér, því það er satt, sko. Hvernig ætlarðu þér að dæma þá, sko?“

„Þeim mun betra. Ef þú sverð, að þeir séu saklausir, eftir að þú hefir svarið til að stefna þeim, skal [ég] sjá um, að þú verðir „arresteraður“ fyrir meinsæri, fals og rógburð, og vittu svo hvernig fer.“

Bolung hnykkti við þessa áminningu; honum fannst þó eitthvað rangt í því öllu, einkanlega að hann ætti að verða af með peninga. Hann var reyndar meinleysismaður og dula, og hver gat farið með hann eins og honum þóknaðist, nema þar sem Jón átti að telja eftir peningum. Það er sagt, að á mannslíkamanum sé aðeins einn ofurlítill blettur, sem sá verður að hreyfa, er vekja vill þann, sem felldur hefir verið í gerningasvefn vorrar aldar, hypnotismann. Þannig er lundarfar sumra manna; það lítur út eins og efnið í því sé einhver óskiljanlegur samsetningur, sem ekkert verður sagt um nema það, að þó það veiti engum áhrifum minnstu mótstöðu, missa þau öll verkan sína óðara en þau snerta það. Skap þess háttar manna hrindir engu frá sér, og það bognar hvorki né brestur. En þetta er aðeins fyrir kunnáttuleysi þitt; einhvers staðar í meðvitund þessara manna er ofurlítill blettur, sem vekur hana, ef hann er snertur. Í Bolung var hann kærleikurinn til peninganna. Hann hefði varið sinn seinasta dollar til seinasta blóðdropa. Hann vildi nú reyna miðlunarsátt.

„Nú, nú, ekki á nú að sleppa til. Mikið þú skulir ekki líka stefna mér fyrir að hafa myrt þig. En mér leiðist að standa í þessu, sko. Ég vil heldur borga dálítið, sko, og við séum sáttir. Ertu ánægður með tuttugu og fimm centin, sem ég fékk fram yfir, ég skaðast ekkert, þó þú fáir þau?“

Dómarinn þagði um stund og hugsaði sig um.

„Fáðu mér tuttugu og fimm centin, og ég skal sjá, hverju ég get slegið af.“ Og hann var ögn mýkri í máli.

Jón fór að gaufa með hendinni niður í vestisvasa sínum. „Nei, ég get það ekki, ég hefi ekkert svo smátt hjá mér, ég þarf að skreppa ofan í búð að býtta.“

„Það má eins býtta hérna. Fáðu mér það, sem þú hefir,“ sagði dómarinn.

Jón dró upp úr vasa sínum tveggja dollara bankaseðil og rétti að hinum með mesta dræmingi. „Það eru dollar og sjötíu og fimm cent til baka.“

Dómarinn var búinn að hrifsa þá til sín og stinga þeim í vasa sinn. „Bíddu nú eftir því, sem þú færð til baka, þangað til þú hefir borgað mér það, sem á vantar," sagði hann glottandi og þokaði sér frá dyrunum.

Þetta gekk alveg fram af Bolung. Hann beið lengi og horfði á dómarann, hann hélt þetta væri kannske hrekkur. En þegar hann settist alvarlegur við borðið og fór að lesa í lögbókunum sínum, sneri Jón út og þuldi stanzlausa skammaromsuna út um allan bæ, gekk í veg fyrir hvern mann, sem hann sá, og heim að hverju húsi, þar sem hann þekkti einhvern, til að segja þeim frá, að hann hefði verið ræntur af sjálfu yfirvaldinu. Allir hlógu að sögu hans. Hann var svo sýtingssamur svíðingur, að allir höfðu horn í síðu hans. Dómarinn fór með hann eins og búast var við af honum, sögðu þeir svo sín á milli og hristu höfuðin. Hann fór skammarlega með skömmina. Þetta voru mennirnir, sem höfðu gengizt fyrir, að hann væri kosinn dómari, þremur vikum áður.

Á leiðinni heim var Jón að hugsa um skaða sinn, hvernig hann hafði hlaupið á sig og lánað þeim Pétri og Páli fjóra dollara, einu sinni þegar þeir voru allir saman að leita eftir atvinnu. Þegar þeir loks komu til bónda, sem gat gefið einum manni gott kaup og stöðuga vinnu, létu þeir Jóni eftir vistina, hann gat svo lítið bjargað sér í málinu; en svo þurftu þeir að flækjast, enginn vissi hve langt; þeir voru peningalausir, en þurftu líklega að kaupa sér að borða; svo báðu þeir Jón, og af því þeir höfðu oft hjálpað honum, stóðst hann þetta ekki og lánaði þeim fjóra dollara. En svo fékk hann ekki dollarana eins fljótt og hann hafði sett upp, svo bað hann dómarann einu sinni að innkalla þá fyrir sig; svo taldi dómarinn hann á það að stefna, og svo var nú útfallið. Og hann hugsaði þetta svo langt, að sökin bitnaði seinast á bræðrunum; hann hafði þetta allt af þeim, þeir voru reyndar enn ekki búnir að borga honum, honum lá við að fara að hata þá. Honum Bolung var þungt í skapi.

Dómarinn hafði ekki lengi frið. Eftir litla stund voru tveir komnir inn til hans. Það voru verjandi og sækjandi. Þeir heilsuðu dómaranum þýðlega, köstuðu þurrlegri kveðju hvor til annars, tylltu sér svo í sæti, annar í suðvesturhorni hinn í norðausturhorni hússins, þögðu svo og litu til dómarans, sem opnaði skrifbók sína, ritaði fáein orð, leit svo til beggja máls-

aðila og sagði með hátíðlegri rödd: „Réttur er settur. Sækjandi, herra Hallsteinn Hallgrímsson, komdu og vinndu eiðinn.“

Maðurinn, sem sat í suðvesturhorninu, spratt upp snarlega, hóf óðara á loft hægri höndina, og gekk með hana upprétta til dómarans eins og flaggstöng, þegar fylking skundar fram til atlögu. Það var eins og hann væri að benda þessari andlegu veru, sem búizt er við, að standi fyrir hverjum svartadómi jarðneskra Pílatusa og hlusti á eiðstafi og vitnisburði. Því þetta var löngu fyrr en Hallsteinn vissi, hver orð dómarinn myndi leggja sér í munn. En nú varð stundar bið. Dómarinn fletti í lögbókinni, en fann hvergi eiðstafinn. Hann leitaði fram og aftur, í formálanum og í registrinu, en árangurslaust. Hann mundi ekki fyrirsögnina, og leitaði undir röngum staf.

Slæpingjarnir í bænum fóru að ryðjast inn til að hlusta á málið, sækjandi stóð með upprétta höndina, dómarinn fletti bókinni og var farinn að svitna. „Þú þarft ekki að halda höndinni svona,“ sagði hann loks við sækjanda. „Og held ég haldi það út,“ sagði sækjandi, og vildi með engu móti lækka seglin. Nú fóru menn að kíma. „Ekki upp á það“, sagði dómarinn og þurrkaði af sér svitann, „ég gæti lesið eiðinn upp úr mér, ef á þyrfti að halda, en mér þykir það svona formlegra, af því ég hefi hérna bókina.“ „Hann hefir farið með hana eins og fermingarstrákurinn með biblíusögurnar, rifið úr henni blöðin, sem hann gat aldrei lært,“ hvíslaði einn spjátrungurinn að sessunaut sínum. „Ekki held ég það,“ svaraði hinn, „það væri þá víst ekkert nema spjöldin eftir.“ Og svo fóru þeir að smiltra. En nú hafði dómarinn fundið það, sem hann leitaði að. Hann hreykti sér til og las upp eiðinn með mesta dugnaðarsvip. Sækjandi játaði, hneigði sig ofurlítið og brá niður hendinni, eins og þegar maður hefir brennt sig á fingurgómunum, svo settist hann niður. Dómarinn leit til verjanda. „Komdu að sverja, monsér Friðjón Friðfinnsson.“ Sá, sem sat í norðausturhorninu, stóð seinlega upp og færði sig til dómarans. Hann var hár vexti og grannur og móleitur á húð og hár. Það var auðgengið að því, að hann var bóndi, hann var svo hæverskur og boginn í hnjánum, horaður og áhyggjulegur á svipinn; augun voru dökk og greindarleg, en það var eins og þau hreyfðust til í einhverju þreytumóki. Fötin, sem hann var í, sýndust öll of stór fyrir hann, og húðin

lá eins og húin væri laus frá holdinu. Það var eins og hann væri allur að skreppa saman innan í hýðinu. Dómarinn las honum eiðinn, hann hlýddi á, álútur og stífur, eins og sumt fólk, þegar það gengur til altaris. „Réttu upp höndina," sagði dómarinn, þegar búið var. Hann Friðjón var svo hugsi, að hann hafði gleymt því.

Nú varð löng þögn.

„Jæja, piltar," sagði loksins dómarinn, „Nú getið þið tekið til, ég skal hlusta á ykkur."

„Á ég þá að byrja?" spurðu þeir báðir samstundis. En Friðjón bætti við: „Ég hefi ekkert að segja, það var hann sem stefndi."

Dómarinn kinkaði kolli að Hallsteini, sem spratt upp eins og stálfjöður, færði sig nær dómaranum og sökudólg sínum, snippaði nefið nokkrum sinnum, spennti höndina í síðuna og setti sig í miklar stellingar.

Hallsteinn var lágur maður og stubbaralegur, í síðum lafafrakka, með hvíta bringu. Höfuð hans var snoðklippt og var að lögun og lit líkt gamalli billjardkúlu, sem kölluð hefir verið hvít. Það var einhver svartrauður blær á andlitinu, sem var þrútið og þykkleitt. Augun voru grá og kvikleg og var eins og það lægi einhver glerhúð utan á þeim, það sást svo skammt inn í þau, eins og þau væru úr gljáum steini. Hallsteinn hafði eitt sinn verið einn af verzlunarmönnum bæjarins á uppgangsárunum og selt járnvöru, en svo fór hann á höfuðið með hinum; en honum tókst að gera það á þann hátt, að í þessi tvö ár, sem liðin voru, hafði hann ekki annað gert en standa í sífelldum umsvifum út af verzluninni, sem var. Honum fannst mikið til sjálfs sín koma, látbragðið allt sýndi það.

En nú þarf að segja málavöxtu. Friðjón bóndi og fyrrum kaupmaður Hallsteinn höfðu einu sinni orðið ósáttir í kaupstaðarferð, þegar báðir voru ögn hýrðir. Það kom til handalögmáls og frakkinn og nefið á Friðjóni gekk hvort tveggja dálítið af saumunum. Eftir á var Hallsteinn reyndar ekkert reiður, því hann hafði borið hærri hlut; hann hló bara að því og sagði, eins og honum líklega fannst, að hann hefði gert þetta í beztu meiningu við Friðjón, það hefði ekki verið hægt að koma fyrir hann vitinu öðruvísi. Það fór á annan veg fyrir Friðjóni, honum óx þykkjan til Hallsteins því lengra sem frá leið og hann hugsaði oftar um viðskipti þeirra, sín og hans.

Hann hafði orðið fyrir skakkafalli. Nefmeiðslið tók samt ekki stórt á hann, það græddi sig sjálft, alveg eftirtölulaust, án þess að eyða tíma eða peningum hans til þess. En rifurnar á frakkanum greru ekki þannig saman. Madama Friðjóns sór og sárt við lagði, að hún nokkru sinni legði hönd að því að gera við frakkann, hún hefði víst nóg á sinni könnu með alla krakkahrúguna og húsverkin sín, þó hún sæti ekki í því líka að bæta upp larfana af þeim, sem væru svo vitlausir að drekka fyrst frá sér alla skynsemi og láta svo rífa utan af sér spjarirnar. Það væri mátulegt þeir gerðu það sjálfir, eða fengju sér aðra konu til þess. Og hún efndi þetta furðanlega. Hún lofaði karli sínum að dingla með sér til messu nokkrum sinnum í frakkanum, rifinn eins og hann var, og jafnvel benti tveimur eða þremur kunningjakonum sínum á, að svona útleikinn hefði maðurinn sinn komið heim úr seinustu kaupstaðarferðinni. En stúlkurnar eru allténd svo góðhjartaðar, og madama Friðjóns var þó ævinlega kvenmaður. Í einu miskunnarkastinu, þegar hjarta hennar var viðkvæmara en vanalega, tók hún frakkann og gerði svo vel að honum, að hann sýndist engu verri en áður. Öll þessi armæða með frakkann hafði smá-grafið um sig í huga Friðjóns, svo ef honum var þungt til nokkurs manns, þá var það Hallsteinn, því honum kenndi hann um öll upptökin. Honum höfðu því nokkrum sinnum hrotið ónotaorð um Hallstein, þegar menn voru við, sem óðara báru þau í milli. Ekki hafði hann þó sagt neitt svo meiðandi, að hægt væri að hafa á því. Þetta vissi Hallsteinn, en honum var annt um æru sína, sagði hann, og hann hugsaði Friðjóni þegjandi þörfina.

Og loksins kom tækifærið.

Kunningi og nágranni Friðjóns hafði flutt burt úr sveitinni og Hallsteinn varð honum samferða áleiðis, hann var að annast eitthvað viðvíkjandi verzluninni sælu. Það barst svo í tal, að maðurinn sagði sig minnti hann ætti lítilræði hjá Friðjóni, sem sér hefði gleymzt að heimta, áður hann fór. Hallsteinn bauðst til að kaupa skuldina, sem hinn gizkaði sér til að væri um þrír dollarar. Manninum fannst ekkert á móti að taka við peningum hjá þeim, sem voru þeir svona útfalir; hann bjóst ekki við að koma þar á slóðir aftur. Og svo handsalaði hann Hallsteini skuldina. Óðara en Hallsteinn kom heim, ritaði hann Friðjóni og bað hann að borga sér þriggja dollara skuld,

sem sér væri handsöluð af Nikulási Nikulásarsyni. Ef hann gerði það ekki, skyldi Friðjón sjálfur ábyrgjast afleiðingarnar. Þetta kom eins og regn úr heiðríkju yfir Friðjón; hann hafði búizt við flestu illu af Hallsteini, en svona lagaðan hrekk hafði hann þó aldrei hugsað sér. Honum fannst það nú fullkomlega fram komið, sem hann hafði alltaf órað fyrir, síðan kaupstaðarferðina góðu, að Hallsteinn ofsækti sig. Í fátinu, sem á hann kom, gleymdi hann öllu nema því. Honum kom ekki til hugar að gá að, hvort hann hefði skuldað manninum nokkuð eða ekkert, eða hvort Hallsteinn hefði lögheimild til að heimta það. Hann rauk því til og sendi Hallsteini einn dal og ritaði með: „Þú færð aldrei meira hjá mér." Hann langaði til að storka honum.

Þegar Hallsteinn fékk þessi skeyti, var hann ekki seinn á á sér; hann rauk óðara til yfirvaldsins og stefndi Friðjóni.

Það var eins og Friðjón sansaðist ögn, þegar þessi ósköp dundu yfir hann. Hann sat við að hugsa og leita uppi öll munnleg og skrifuð viðskipti sín og Nikulásar Nikulásarsonar, og eftir þeim reikningi hafði hann loksins ofborgað dollarinn, sem hann sendi Hallsteini. Hann botnaði ekkert í, því hann gerði þá vitleysu, en svo var hann ekki hræddur um málalokin, honum þótti aðeins verst að þurfa nokkuð við Hallstein að eiga.

Þetta voru tildrög málsins: Hallsteinn Hallgrímsson gegn Friðjóni Friðfinnssyni.

Nú byrjaði rannsóknin. Hallsteinn hóf að spyrja Friðjón með dynjandi röddu, sem var þó ögn skjálfandi í fyrstunni, að ýmsum spurningum, sem engir aðrir en málfærslumenn og kannske sumir dómarar hefðu getað séð, að ættu ið minnsta skylt við málið. Það var auðséð, að Hallsteinn hafði það fram yfir andstæðing sinn að hafa staðið fyrir rétti áður. Þó aðferð hans væri ekki annað en klaufalega öpuð málfærsla hversdags lagasnápa, var auðfundin stefnan að flækja, en ekki að leita ins rétta.

Hallsteinn þurfti að vita, hvenær Friðjón hefði fyrst kynnzt Nikulási Nikulásarsyni. Friðjón sagði það hefði verið '73. En þegar lengra var spurt út í það, þorði hann ekki að segja það fyrir víst, hann minnti þá, að þeir hefðu sézt árinu áður. Svo var Friðjón spurður, hvort hann hefði nokkurn tíma verið við konu kenndur, áður hann giftist sinni nú-

verandi madömu. Þá reiddist hann. „Onei", sagði hann, „ég hefi aldrei haldið mér uppi á því að flaga aðra, eins og sumir." En svo varð hann þó seinna veikur á þessari spurningu; hann hafði nefnilega einu sinni verið trúlofaður, en stúlkan brá honum upp og hann tók sér það nærri. Þess vegna reiddist hann, þegar hann var spurður svona. En svo mundi hann eftir eiðnum, hann átti að segja allt satt, og þarna hafði hann ekki gert það, fannst honum. Og svo hætti hann að taka eins þvert fyrir, að sér kynni ekki að hafa orðið það á, sem fæstir karlmenn hafa sloppið hjá, að renna hýru auga til morgunstjörnunnar, áður en stóra ljósið, madama Friðjóns, rann upp á sjónarhring hans í öllum sínum ljóma.

En á einu lét Friðjón aldrei hrekjast, hann hafði borgað Nikulási upp í topp, og heldur meira. Reikningurinn, sem Hallsteinn lagði fram, var skrifaður eftir misminni og löngu eftir [að] viðskipti þeirra Nikulásar fóru fram. En hann hafði samt engin vitni. Hallsteinn bar aftur á móti það fram, að Nikulás, sem allir þekktu að væri mesti sómamaður, hefði handsalað sér þessa skuld, og Nikulás myndi ekki hafa kallað þar eftir peningum, sem hann átti enga. Og svo lagði hann fyrir réttinn eiginhandar reikning yfir viðskipti Friðjóns og hans, eftir því sem Nikulás hafði sagt honum frá þeim. Og það mátti trúa honum Nikulási. En svo hafði Hallsteinn heldur engin vitni.

Einu sinni hvessti Hallsteinn róminn ákaflega og spurði Friðjón, hvort hann þyrði, undir eið, að bera á móti, að hann hefði borgað Nikulási dollar og tuttugu og fimm cent á pálmasunnudag í hitteðfyrra. Friðjón sagði sig minnti það. Hallsteinn krafðist það væri bókað, en dómarinn sagðist vera búinn að því.

Nú varð hlé, þangað til dómarinn rauf það og spurði, hvort þeir hefðu ekkert framar, sem skýrt gæti málið. Hallsteinn bað sér hljóðs. Hann þyrfti að endurtaka málsrökin, sagði hann, og svo væri sókninni lokið.

Það, sem Hallsteinn sérstaklega lagði áherzlu á í þessari seinustu atlögu sinni, var, að Friðjón hefði orðið tvísaga fyrir réttinum og því ekkert mark hægt að taka á framburði hans. Hann hefði viðurkennt sjálfur að hafa borgað áfrýjanda einn dollar og tuttugu og fimm cent á sunnudag, þvert ofan í sabbatslögin; hann mætti þakka fyrir að sleppa með að tapa

því og vera ekki settur í helgidagsbrot um leið. Vanhelgun drottinsdagsins væri hrópleg synd, sem yfirvöldin ættu ekki að leiða hjá sér. — Meðan Hallsteinn var kaupmaður, stóð búðin hans opin hvern sunnudag, þegar hann var sjálfur heima, og sumir sögðu hann hefði jafnvel selt þar dálítið af víni leyfislaust. — Svo tók Hallsteinn það fram, að verjandi segðist hafa kynnzt Nikulási Nikulásarsyni í fyrsta skipti '73, en svo segði hann aftur, að það hefði verið ári fyrr. Framburður annarra eins manna, jafnvel undir eið, væri einskis virði. Þá hefði hann líka verið í kvennabralli, áður hann hefði gifzt, enginn vissi hvað oft, eins og framburður sjálfs hans sýndi. Þetta væri víst útvalinn flagari, sem enginn gæti trúað. Persónulega sagðist Hallsteinn sjálfur vita, að verjandi hefði rægt sig. Það væri þess vegna rétt hann fengi að kenna á því einu sinni.

Það þurfti samt einstaklega góðfúsan áheyranda til að fá svona skipulegt efni út úr ræðunni hans Hallsteins, en þetta átti þó að vera meiningin.

Hallsteinn þurrkaði sér svo í framan með vasaklútnum og settist við borðið hjá dómaranum. Hann fann það á sér, að frammistaðan í þessu máli og einkum seinasta ræðan sín hefði þokað sér upp úr horninu, sem hann settist fyrst í. Dómarinn bauð Friðjóni að svara, en hann sagðist engu geta bætt við.

Nú var þá ekkert eftir nema úrskurður réttvísinnar. Dómarinn sat og nagaði endann á pennastönginni sinni. Hann var í ónotalegum vanda. Frammi fyrir honum stóðu tveir menn, sem höfðu sagt og svarið um sama viðburðinn sína söguna hvor, en þær voru eins ólíkar og þrír og ekkert. Annar þessara manna gat þó ekki vitað neitt nema það, sem honum hafði verið sagt af öðrum. Það hefði því kannske verið réttast að vísa málinu frá, hefði dómarinn þótzt geta það sér að skaðlausu, en það var öðru nær. Að dæma Friðjón sýknan var kannske næst réttast, en þá féll málskostnaðurinn á Hallstein, en hann gat orðið manni óþarfur, og svo var hann fylgifiskur gamall og sambæjarmaður, hann Hallsteinn, og bjóst ekki við því af dómaranum. Eitthvað svipaðar þessu voru hugsanir réttvísinnar, sem svo nefndi sig, eða það voru öllu heldur tilfinningar. Þá laut einn af áheyrendum að eyra dómarans og hvíslaði að honum: „Það væri skömm að láta Steina

greyið tapa alveg." Þessi maður hugsaði svipað dómaranum, hann var kunningi Hallsteins líka.

Og í sama vetfangi féll málið á hann Friðjón.

Dómarinn ritaði úrskurð sinn í snatri. Hann las svo upphátt: „Því dæmist rétt vera: Verjandi, Friðjón Friðfinnsson, greiði áfrýjanda, Hallsteini Hallgrímssyni, tuttugu og fimm cent og allan löglegan málskostnað." „Sérðu," sagði svo dómarinn og sneri sér að Friðjóni og hinum, sem viðstaddir voru, til að auglýsa öllum réttlæti sitt. „Ég gat ekki farið sanngjarnlegar í það. Þú gazt aldrei borið það af þér, Friðjón, að hafa borgað einn dollar og tuttugu og fimm cent á sunnudag, það er eftir lögunum verra en engin borgun. Málskostnaður er fjórir dollarar."

Þetta gekk svo fram af Friðjóni fyrst í stað, að honum fannst hann nærri vera guðsfeginn að borga og mega svo losast. Hann fyrirleit sjálfan sig, alla menn og þeirra réttvísi, fannst honum, meðan hann kvaddi og gekk út.

Á tröppunum mætti honum kona. Hún var há og grönn og kolbrýnd, með mórauða vörtu undir vinstri kjálkanum; nefið og varirnar, sem supu hveljur þegar hún talaði, voru þunnar og bláleitar. Andlitið var líka allt magurleitt og eitthvað þunnhyldislegt, og vöxturinn þyrrkingslegur, eins og vírgrassins. Þetta var kona Friðjóns. Meðan dómarinn hafði aðeins lokið við einn úrskurð, hafði hún með sex vinkonum sínum þar í bænum kveðið upp dóm yfir mörgum tylftum af kunningjum sínum í bænum og byggðinni, auk þess að skipta mörgum klyfjum af sveitarslaðri fyrir óteljandi pinkla af strætissögum.

„Það er þó líklega búið að dæma þig, Friðjón, svo ég geti komizt heim," sagði hún við hann, þegar þau mættust, og hópurinn, sem inni var, þusti strax út í dyrnar, þegar þeir þekktu málróminn hennar. Hún var ævinlega vön að segja eitthvað skrítið við svona löguð tækifæri, sögðu þeir, og þeir vildu ekki missa af að heyra það. Friðjón játaði, að búið væri að dæma.

„Það grunaði mig allténd," sagði hún. „Þér er nú bezt að gera þér það til frægðar að fara sem allra fyrst heim." En svo kom hún auga á þá, sem stóðu í dyrunum. „Sæll vertu, friðarhöfðinginn," sagði hún til dómarans, „og þið eintómu höfðingjarnir með. Það er eins og postulinn sagði, að gáfun-

um er ýmislega skipt; sumir eru svo greindir og vel að sér, að þeir geta lifað af öðrum, án þess að taka handarvik, en aðrir eru svo vitlausir, að þeir geta ekki haldið sér uppi á neinu nema ærlegu erfiði. Farðu að tygja þig af stað, Friðjón, nema að þig langi til að bíða eftir annarri skömminni til. Þeir gætu víst sett þig í fangelsi fyrir að standa á tröppunni þarna.“

Og svo röltu þau af stað, hjónin.

En tilfinningar Friðjóns voru allt annað en friðlegar, þegar hann leit til baka, rétt um leið og bærinn hvarf honum. Honum fundust allir lifandi menn vera fjandmenn sínir, heimurinn fyrir utan sig troða ofan af sér skóinn með öllu móti, og heimilið heima gera sér lífið eins súrt og auðvirðislegt og unnt væri. Það lá á honum eins og þegar hann var einn að bjástra á akrinum sínum heima og stingflugur skutust að honum óvörum út úr búi sínu. Hann sótti þá heim eld og brenndi upp búið og allan urmulinn. Í dag hafði hann geð til að fara eins með þorpið, sem hann Hallsteinn bjó í, hefði hann getað það. Hann hefði þó losazt við ofurlítinn part úr einum eiturdropa allrar þessarar vondu veraldar, sem búin var að gera honum lífið að tómri ólyfjan, hefði bæjarhrakið brunnið til kaldra kola.

Dómarinn á nú aðeins eftir eitt mál á dagskránni, og það er sakamál. Ef þú heldur, að refjar og stórglæpir liggi í loftinu ameríska, þá gættu um leið að kringumstæðunum, sem stundum setja sig þar niður á þann hátt, að fæði og frami yfirvaldanna byggist á því, að minnsti nágrannakrytur sé lagður eins og brekkusnigill á gull laganna. „Snigill, snigill, teygðu horn“, og þú þykist hafa séð orminn í Lagarfljóti.

Seinasta málið á dagskrá dómarans var höfðað í nafni ríkisins, fyrir atför og áverka. Taktu aðdraganda málsins næst á undan, og þú ert búinn að lesa byrjunina. Einungis að kærandinn, sem sleginn var, hafði haft miklu meira fyrir því að útvega sjálfum sér kjaftshöggið. Heima á Íslandi hafði hann verið eitt af þessum sveitarvandræðum, sem vaxa á útsvörunum svo hátt upp yfir höfuðið á fátækranefndum, að þeir verða þeim ofjarlar. Fátæktin og sveitarstyrkurinn hefir stundum skapað ofurlitla ómennsku-Napoleona úr sumum hreppslimum. Íslendingar hafa búið það svo út. Það var átakanlegt, hve auðmjúkt og lempilega hreppsnefndin varð

að fara að honum Marteini, eftir að henni datt það óskaráð í hug að koma honum af sér til Ameríku. Hann fór reyndar ekki fyrr en hún hafði lagt honum svo peninga, að hann gat keypt sér pípuhatt og klæðisfrakka, auk annars, sem hann þóttist þurfa með. Hann var ekkert upp á það kominn að flækjast til Ameríku eins og betlari, sagði hann. En svo þegar yfir um kom, varð honum aðgangurinn að hreppskassanum hérna örðugri, hann var svo ókunnugur stjórnarfyrirkomulaginu. En honum tókst samt enn að halda sér ögn uppi á annarra fé. Smákvaðir, hálfir og heilir dollarar, sem hann þokaði eins langt fram í tugadálkinn og hann mögulega gat, við hvern og einn, sem hann komst inn á, allt saman upp á fögur loforð, sem stundum stóðu fram á skildagann, var talsverður léttir fyrir fátæklinginn. En loforðin voru oftast öll borgunin, sem lánsdrottnar hans fengu, og það var nú afsakanlegt, því hann átti stundum bágt. En svo hafði hann það lag að svara illu, og ef hann varð dálítið kenndur, fannst honum allir menn vera hreppsnefndin sín gamla; hann hengdi sig þá utan á axlirnar eða treyjubarmana á viðskiptavinum sínum, skammaði þá fyrir allt það misjafnt, sem hann hafði heyrt um þá, á milli þess, sem hann spurði: „Því stefnirðu mér ekki? Stefndu mér, stefndu mér ef þú andskotans þorir!“ Hann vissi það, sem allir vissu, hann átti vísa vernd undir öreigalögunum.

Og svo hafði það eitt sinn viljað til, að maður, sem Marteinn var búinn að sneypa svona í tvo klukkutíma og eitthvað fært úr lagi fyrir honum úrkeðju, svo hann slyppi ekki frá sér, greip til þeirra örþrifaráða að gefa Marteini utan undir. Þeir, sem við voru, sögðu maðurinn hefði ekki getað losað sig öðruvísi.

En dómarinn hugsaði ekki þannig, hann var dómari, fullum titli friðdómari, og það var skylda hans, að enginn ófriður gengi óhegndur. Hann gerði sér því ferð til örkumslamannsins og taldi svo um fyrir Marteini, að hann réðst í það sjálfur, sem hann hafði storkað öðrum með: hann stefndi.

Skrifstofan var troðfull af vitnum og áheyrendum. „Ég skal þægja honum ögn, og málinu sé svo sleppt, rétt til að þóknast honum. Bjóddu honum það.“ Þessu hvíslaði sakarverjandi í eyrað á málfærslumanni sínum. Það var unglingur, sem einu sinni hafði lesið grundvallarlög Bandaríkjanna,

nokkrar blaðsíður af Blackstone, og „Homestead"-lögin. Svo hafði hann einu sinni unnið demokrötum mikið gagn, þegar þeir kepptu við republika um atkvæðafjölda til embætta. Haustið á eftir útskrifaðist hann hjá demokrötskum yfirdómara sem málfærslumaður. Lögfræðingur þessi skálmaði yfir til kærandans og mælti eitthvað lágt við hann. Áfrýjandi gekk til dómarans og hvíslaði að honum. Dómarinn hafði enn ekki komið auga á málfærslumanninn, það var svo þröngt þar inni og hann nýkominn. Hann hristi þess vegna höfuðið og sagði eins og hann var vanur: „Ertu genginn af vitinu, sérðu ekki að hann er hræddur um sig. Auk þess get ég ekki sleppt því." Og hann átti heldur ekki að gera það. „Dómur er settur," kallaði hann svo hátt. Ákæran var lesin, og hann bjóst við að fara að taka prófið. „Virðingarfyllst", sagði málfærslumaðurinn ungi, „við heimtum dómnefnd í málið," og sletti um leið tólf dollurum á borðið. Dómarinn varð forviða, hann hafði ekki tekið eftir, að málfærslumaðurinn ungi væri kominn í leikinn og honum stóð stuggur af því. Það var heimtað af honum nokkuð, sem hann botnaði ekki í, hann hafði alltíð dæmt sjálfur. En hann þorði ekki að neita, hann átti við ofurefli sitt, sprenglærðan lögfræðing, hélt hann. Ef einhver, sem hann hefði treyst sér við, hefði heimtað dómnefnd af honum, myndi hann hafa neitað því og sagt eins og var, að hann hefði hvergi séð neinn lagastaf fyrir því. En nú tók hann málfærslumanninn sér til aðstoðar og eftir fjóra klukkutíma var lögregluþjónninn búinn að safna þangað tólf óvilhöllum dómurum, sem engin lög höfðu lesið, nema kannske tíu boðorðin. Þeir sóru eiðinn og settust síðan í röð andspænis málsaðilum og vitnunum. Þetta var amerískur kviðdómur. Öllum var nú forvitni á, hvað næst ætti að koma, ekki sízt dómaranum; þetta var fyrsti kviðdómurinn, sem hann hafði séð. „Áfrýjandi byrjar," sagði ungi málfærslumaðurinn, ofur góðsamlega. „Hefir [hann] nokkurn til að flytja málið fyrir sig?" Hann sá, að enginn ætlaði að þora að ríða á vaðið. „Þú byrjar, Marteinn," sagði dómarinn í rausnarlegum róm. „Hefir þú nokkurn fyrir þig?" „Þú sagðir ég þyrfti engan," svaraði Marteinn. „Hvað hefir þú að segja?" spurði dómarinn. „Nú, ég er búinn að segja þér það allt. Þú getur sagt það," svaraði Marteinn.

„Það gerir ekkert til", sagði ungi málfærslumaðurinn, „þó

hann hafi engan fyrir sig. Inn tigni dómari sér um, að málið sé borið upp hlutdrægnislaust fyrir ina virðulegu dómnefnd. Viljið þér gera svo vel og skýra henni frá, fyrir hvern glæp vér erum kærðir?“ Og hann benti dómaranum að lesa stefnuna. Nefndarmennirnir sátu hljóðir og höggdofa, eins og líkmenn, meðan rannsóknin fór fram.

Kærandi var fyrsta vitnið. Málfærslumaðurinn ungi spurði hann fram og aftur, sálargáfur þeirra fóru í einvíg, og þó þóttust þeir báðir vera að leita réttar og sannleika.

Framburður Marteins var æði óljós. Hann mundi það, að á þriðjudaginn í sjöttu viku sumars var hann staddur í Middleton með ákærða og mörgum kunningjum sínum fleiri. Sólin hafði kannske verið í hádegisstað og hann hafði drukkið eitthvað. Frá þeim tíma og þangað til á miðvikudagskveld, þegar hann reis upp heima í rúmi sínu, vissi hann ekkert um viðskipti sín og heimsins fyrir utan sig. Hann hafði einhvernveginn týnt hálfri annarri blaðsíðu úr ævisögu sjálfs sín. Meðvitund hans hafði víst verið í líku ástandi og það, sem þeir ímynda sér, sem trúa því, að mannssálin hafi verið sköpuð og skynjandi vera, löngu áður en hún flæktist inn í þennan smáfúnandi moldarhnaus, sem við köllum líkama okkar, og sem var í fyrstunni tómur jarðarleir, þangað til syndin hnoðaði sér inn í hann. Virkileikinn úr nærri tveggja daga tilveru Marteins var honum alveg glataður, og þó, þegar sum atvik eða hlutir báru aftur fyrir hann, sem eitthvað höfðu snert hann á ómuna-tímanum, var eins og hann snöggvast kannaðist við það, en þegar hann reyndi til að ranka við sér og muna það gleggra, hvarf honum allt aftur, út í geim litlausrar auðnar. En svo hafði andlitið á honum tekið stakkaskiptum. Hann vissi ekki betur en það væri í sínu náttúrlega útliti, áður en hann gleymdi sér, en þegar hann reis upp aftur, kom honum það svo undarlega fyrir, að hann var lengi í vafa um að kannast við það sem sitt eigið. Ef því hefði nokkurn tíma verið trúað, að menn gætu haft hausakaup, myndi hann hafa á þann hátt leyst úr gátu þeirri, sem hann skildi ekkert í, eins og menn vanalega gera. Hann neyddist samt á endanum til að gangast við andlitinu, með því skilyrði, að það hefði verið barið úr laginu. Röksemdafærsla Marteins fyrir máli sínu átti þess vegna miklu betur við heimspeki en lögvísi, hún var svona öll „a posteriori“, þessi aðferð að finna upphafið,

sem er óþekkt, með afleiðingunum, sem maður þekkir eitthvað. Svo höfðu nágrannar Marteins sagt honum ýmislegt, sem hann studdi með tilgátu sína, að verjandi hefði barið sig.

Þetta var efnið úr framburði vitnisins, og ungi málfærslumaðurinn stýrði yfirheyrslunni, en dómarinn og nefndin hlustaði á. Forvitnu áheyrendurnir fjölguðu alltaf, þeir voru búnir að koma sér upp nokkurs konar lifandi fréttafleygi milli dómhússins og veitingaskálans. Þeir voru stöðugt á ferðinni á milli, sem tengdu þau saman. Enginn kvenmaður kom þó til að hlusta á málið. Það hafði ekki viljað til nema einu sinni, að konur sæktu skemmtun á þess konar fundi; það var þegar óþverralegt brot á því, sem kallað er sjötta boðorðið, var málefnið, að tvær eða þrjár hefðarkonur, sem mest höfðu haldið móti því, sem kallað er „kvenfrelsi“, höfðu látið sjá sig í dómsalnum. Á Breiðabliki höfðu einu sinni verið miklar umræður og kapp um þetta kvenfrelsi, svo við sjálft lá, að hjá sumum færi að bóla á hugmyndum og sannfæringu, en svo tókst prestinum og skörpustu oddborgurunum að bæla það niður. Það vill stundum til, að þessi stóru spursmál heimsins flytjast eins og eldurinn í hálmlegg Promeþevs inn í smábæina í fórum einhvers ferðamanns; þau kvikna, svo það fer að bjarma, en svo slokkna þau óðara. Kotungssál smáþorpsins er alltof lítil til að halda þeim lifandi.

Næst var tekinn vitnisburður ins ákærða. Hann gekkst óðara við því að hafa borið fyrir sig það, sem náttúran gaf mönnunum eitt til að verja sig með, í stað traustari vopna, sem hún útbjó flest hin dýrin með, nefnilega berar hendurnar, til að skilja sig að líkamlegum návistum við kærandann; sér hefði allténd verið þær á móti skapi, og á endanum fundizt þær óbærilegar. Í þeim kringumstæðum hefði sér ekki verið annað hendi nær en höndin sjálf, sem hann hefði verið að verja.

Þá voru vitni kölluð, sakarvætti og gagnvitni, en þau voru öll á einu máli. Áfrýjandi hefði verið barinn af verjanda, en hann hefði svo röggsamlega til þess unnið, að enginn lifandi maður hefði haft hjarta til að svíkja hann út af jafn vel verðskulduðu kaupi. Einn þóttist hefði fundið það skyldu sína, í sporum ins ákærða, að þægjast honum ögn betur. Það var maður, sem tveim dögum áður hafði sagt við nágranna sinn:

„Það var nú kannske óþarfi af honum Dóra að slá nokkuð til hans.“ Og þó var þessi maður sjálfum sér samkvæmur. En hann hafði misst þennan snert af meðaumkun strax þegar hann frétti, að Marteinn stefndi.

Svona lauk þá vitnaleiðslunni, og nú áttu dómarar út að fara. Það var heldur ekkert rangnefni, því lögregluþjónn, herra Langmann, varð að keifa með ina tólf útvöldu út í hesthús dómarans, því þeir þurftu að vera einhvers staðar undir lás og loku, svo þeir spilltust ekki, því hvað er ráðvendni tólf manna móti hrekkvísi alls heimsins? Það voru að vísu ýmis auð hús, sem dómarinn hafði til sölu, en hann sagði, að ekki væri í þeim líft, svona á kveldin, þegar farið væri að kólna. Það fór eins og fyrr, að ekki fékkst neitt rúm nema fjósið handa réttlætinu að fæðast í.

Það var glaumur inni, þegar nefndarmennirnir stóðu upp, þeir höfðu þagað svo lengi, meðan málið fór fram. Dómarinn lá fram á borðið og studdi olnboganum ofan á lagabækurnar sínar, meðan nefndin gekk fram hjá skrifborðinu. Ungi málfærslumaðurinn hafði tekið henni vara fyrir að líta í þær, það gæti haft ill áhrif á álit þeirra. Þetta hafði hann einu sinni heyrt yfirdómarann gera, og að dæma eftir sinni stuttu reynslu, fannst honum það ágæt varúðarregla.

Tæpur klukkutími var liðinn, síðan kviðdómurinn var lokaður inni. Nú voru allir nefndarmennirnir komnir inn í skrifstofuna aftur og biðu. Dómarinn, málsaðilarnir, málfærslumaðurinn og allur ríllinn var horfinn eitthvað út í bæ. Langmann pólití fór að smala þeim; bráðum tíndust þeir inn og dómarinn seinast.

„Saklaus“, var úrskurður kviðdómsins. Formaður dómsins afhenti dómaranum hann skrifaðan, sem las hann upp í heyranda hljóði.

Marteinn stóð úti í horni; hann var að hnippast við eitt vitnið út af framburði þess. „Stefndu mér, ef þú andskotans þorir,“ kallaði hann upphátt. Hann var orðinn ögn hýr. Langmann sótti hann og leiddi fram fyrir ráðið til að hlusta á úrskurðinn. Marteinn stóð beint frammi fyrir dómaranum, og ljósið, sem stóð á borðinu, skein framan í hann, því það var komin nótt og búið að kveikja. Hann var á gamla klæðisfrakkanum, með pípuhattinn í hendinni. Herðakistillinn á honum sýndist vera að hefjast upp og verða úlfaldalegri. Það

var eins og allt andlitið hefði dregizt saman til að leita að þungamiðju sinni, efri skolturinn og nefið skagaði svo langt fram, og svo hallaði allri ásjónunni snarbratt út frá þeim á allar hliðar. Hann stóð með hálfopinn munninn. „Hvað er það þá?“ spurði hann, þegar dómarinn hafði lesið honum úrslitin. „Hann er náttúrlega dæmdur sýkn, þú hefir tapað málinu, kunningi,“ sagði Langmann og skellihló. „Farið þið bölvaðir fyrir allt gabbið,“ sagði Marteinn og ruddist út. „Heyrðu lagsi,“ kallaði pólitíið, sem þaut út á eftir honum. „Ekki þessa leiðina, stattu við, ég traktera.“ Og svo dró hann Martein með sér á leið til veitingahússins. „Bölvað flón ertu nú, greyið mitt, að reiðast af þessu. Ég þarf að koma þér í skilninginn um þetta. Þú færð dollar fyrir að vera vitni í dag og þú hefðir ekki fengið meira, þó þú hefðir unnið málið. Og svo höfum við Óskar ögn fyrir það. „Countyið“ borgar það allt saman. Það er nógu ríkt, grýtið að tarna. Skilurðu nú? Skammastu þín ekki, náungi, fyrir að reiðast af því að gera nágrönnunum þínum þægð, fyrir borgun? Það er ókristilegt! Og svo traktera ég.“ Og Langmann skellti á herðarnar á Marteini og studdi hann með hinni hendinni, eins og vinnukona, sem er að dusta fat. „Ég er nú ekkert reiður við þig, Helgi greyið.“ „Bravo,“ sagði pólitíið og veifaði hattinum í veitingahússdyrunum.

Þeir voru orðnir eftir einir, dómarinn og málfærslumaðurinn. Dómarinn var að reikna málskostnaðinn og lögfræðingurinn að tala við hann um pólitík.

„Þessir proteksjónistar (tollverndarar, eða hvað sem við viljum nú kalla þá á íslenzku) ættu allir að hengjast, ef vel væri,“ sagði dómarinn, hann var að svara einhverju, sem málfærslumaðurinn hafði sagt. „Þeir vilja ekki tollinn vegna annars en að þeir geta okrað á honum sjálfir. Og svo hræða þeir fátæka og ómenntaða bjálfa, verkamennina sína, til að greiða atkvæði með sér. ... Málskostnaðurinn er minni en ég hélt, það er ekki nema tæpir sextíu dollarar, sem „Countyið á að borga.“

Og dómarinn hafði rétt að mæla. Hann reiknaði ekki með kostnaðinum friðinn og eindrægnina, sem gekk í súginn, og af því var þó byggðin kringum Breiðablik sízt aflagsfær.

[1888]

# Ár.

## 1. Kviksettur.

Þið hafið stundum neytt mig til að kveða við ykkur vísu, börnin góð. Ef þið haldið ég hafi gert það til að geðjast ykkur, skal ég nú segja það eins og er. Ég kveð einatt til að heyra ekki til ykkar, svo argið í ykkur geri mig ekki vitlausan. Þið hafið löngum verið óánægð við mig, af því vísurnar mínar voru kveðnar um ský eða skóg og annað þess háttar óskiljanlegt óæti, og af því ég hefi aldrei nennt að kveða sálmvers né gælur um ykkur sjálf, né lof um hann Títus Tólgarskjöld, sem þið hafið svo mikið uppáhald á, af því hann þykist vera ríks manns sonur. Ykkur hefir þótt lítið gaman að ljóðsögunum mínum, af því enginn hefir verið heilaklofinn né lagður gegnum hjartað í þeim, því hafi einhver af söguhetjum mínum fundið ögn til, og þó það hafi verið af mannavöldum, var það samt ævinlega það sem þið kallið tilfallandi, en gerðist ekki með spjótum og byssukúlum, og heilinn og hjartað í ykkur sjálfum er ennþá svo lítið, að það „finnur ekki minna gran í mat sínum", eins og þið komizt að orði. En ég vona að það vaxi, vaxi mikið, seinna — og þá . . .

Nei, ég skal ekki gizka á neitt. En nú ætla ég að fara að verða skemmtilegur og yrkja eins og ykkur ætti að líka bezt. Ég skal kveða um það, sem þið öll trúið, að þessi mannheimur sé ekkert annað en stórt súputrog, sem við sitjum öll við, og að sá sé sælastur, sem krækir í flesta og feitasta bitana, og þeim til hughreystingar, sem annað hvort fá ekkert eða sitja með lapþunna súpuna, skal ég ríma um það, eins hjartnæmt og ég get, að uppi yfir okkur hangi ennþá stærra súputrog, þar sem allir fái einhvern tíma svo meira og meira en nóg, og enginn verði útundan. Framvegis ætla ég að setja aðgreinistölu á skýin, svo þið vitið, um hvert þeirra ég er að kveða í það og það skiptið, og þá verða kvæðin mín hér um bil svona, fyrirsögn og efni:

*Vísa um svarta skýið No. 2,*
*sem situr á brúninni á Skollakoll.*

Ég ætla að úr því rigni
Svo of þurr jörðin digni,

Sig Rauðka og Rósa græði
Svo rjóminn úr þeim flæði.

— Reyndar er kannske ekki hægt að syngja þessa vísu, og þó er hún ferfætt, en ég vona að ég lagist, svo mér takist loks að kveða undir áttfættu sálmalögunum, sem þið lærið í sunnudagaskólanum, börnin góð.

En það liggur svo á mér í dag, að ég hefi ekki skap til að kveða. Ég er eins og langspils-strengur, tekinn úr raka — ég hefi misst hljóminn. Þess vegna ætla ég að segja ykkur sögu, en hún er ekki um mig, heldur er það: Sagan af manninum, sem var kviksettur. Ég vona þið skiljið hana, einkanlega þið, sem kvíðið því mest af öllu, að þið verðið á endanum grafin lifandi.

Alls staðar, úti á strætum og stígum, í borgum og baðstofum, mætti hann þeim, þessum kyrpingslegu manndvergum, með hnýttu hendurnar og bogna bakið, með undirleita svipinn og þokuaugun. Hann kenndi í brjósti um þá og spurði, hver hefði meitt þá og kippt úr þeim vexti. Allir sögðu þeir sömu söguna, og allir sögðu þeir hana eins. Þeir kölluðu hann á einmæli, þangað sem þeir héldu, að enginn heyrði þá né sæi, teygðu sig upp að eyranu á honum, héldu við orðin með hendinni, svo þau rynnu beint inn í hlustina, en hvískruðust ekki út í almenning úr því munnvikinu, sem frá honum sneri, og svo hvísluðu þeir að honum:

„Það eru orðnar hnýttar á okkur hendurnar af átökunum við alla stritvinnuna, sem til þess þurfti, núna síðustu árin, að hafa stundum sjálfir eitthvað að borða og vinna fyrir lífeyri handa honum Fésjóð, gjaldþrota kaupmanninum okkar, og fjölskyldu hans, sem varð á tíu árum svo vellauðugur, að hann þarf aldrei framar að vinna, þó hann sé tæpt fertugur; og það hefir bognað á okkur bakið við að ganga undir tollböggunum, sem ríkið leggur á okkur til að ala gæðinga til skemmtana og útreiða, en hefir okkur til að áburðar-klárast; og við höfum orðið svona undirleitir af því hann séra Steinn og kirkjan okkar hefir hótað að gera okkur að heiðingjum og illmennum, ef við látumst ekki í auðmýkt trúa því, að krakkarnir okkar, sem ríkið hefndi sín á með að hengja hérna fyrir eitthvað, sem það kallar stórglæpi, séu ennþá kvaldir í helvíti, hinum megin við gálgann og dysið. En, við

höfum aldrei getað trúað því um okkar eigin börn, þó okkur finnist það líklegt um únítara-börnin. Guð hjálpi okkur! Við höfum orðið að búa yfir þessu, en aldrei þorað að segja það upphátt, því við viljum hafa presta og kirkjur, en ekki verða að heimskingjum og bófum, heldur fá að vera kristnir menn, eins og við erum. En þokuslæðan yfir augunum í okkur er komin af að einblína. Frá því við munum fyrst til, máttum við aldrei líta af þessu þrennu: trúnni, lögunum, venjunum. Þeir, sem völdin áttu, settu í myrkvastofu alla, sem af því brugðu, tóku þá stundum af dögum, en héldu okkur hegningar-hátíð til uppörvunar, sem vorum hlýðnir og hjálpuðum til.“

Svo komst hann fyrir, hvort þeim þættu þessi kjör góð, og hvort þeir þráðu breyting á nokkru þeirra.

„Já, í guðs nafni, í guðs nafni,“ æptu þeir, sem engdust saman af sultarteygjum. „Í nafni sanngirninnar,“ tóku aðrir fram í og neru saman hnýttu höndunum. „Í nafni mannkærleiks og bróðernis,“ tautuðu ýmsir og hengdu bænræknislega höfuðin. „Í nafni mannvits og framfara,“ flýttu nokkrir sér að bæta inn í, og neru augun. „Í nafni frelsisins,“ hrópuðu allir einum munni. „Þeim manni skulum við vel launa, sem útvegar okkur frelsi.“

Á mánudaginn ritaði hann í blað sitt, Bersögli, grein um hvernig laumað væri burt eigum allslausra. Hann reyndi að sýna fram á, að undir núverandi viðskiptalagi inna svo kölluðu siðuðu manna, borguðu öreigar hæsta tolla; að skilvísir menn yrðu gjarnast að borga skuldir inna óráðvöndu óbeinlínis; að sá sem ekkert ætti, en drægi fram lífið á erfiði sínu einu saman, greiddi öðrum skatt af öllum lífsnauðsynjum sínum í því landi, þar sem öll vara væri tolluð, því hann gæti ekkert veitt sér sjálfur; að sökum prettanna í kaupi og sölu, hefði hagkænskan löngu birgt sig upp við þeim, með því að áætla tíu til tuttugu og fimm hluta af verði margrar stórsöluvöru glatað fé í hendur heimskra og óráðvandra lánkaupenda, og sömu reglu fylgdu aftur smáverzlarar. Þeir hækkuðu þess vegna verðið við þá, sem borguðu, um tíu eða tuttugu og fimm, til að komast hjá tjóni, og þar af leiðandi væri tíu til tuttugu og fimm sinnum örðugra fyrir inn skilvísa að vinna fyrir sjálfum sér en þyrfti að vera. Hann benti á Fésjóð, gjaldþrota kaupmanninn, sem allir vissu, að byrjaði verzlun alls-

laus, sem allir vissu, að varð gjaldþrota með stórskuldir, sem hann borgaði aldrei, og allir vissu, að nú var iðjulaus ríkismaður. Slíkir menn, sagði hann, að reyndar væru verri en rummungsþjófar.

Daginn eftir að hann Fésjóður las greinina um sig, varð hann hæstur á samskotalistanum með $ 100 gjöf í hungraðrasjóðinn, sem safnað var, svo inir allra svengstu fengju einn ókeypis málsverð á dag, meðan brjóstgæða-uppþot ríkismannanna var heitast og veðurvonzka forsjónarinnar köldust. Svo þegar þetta barst út og skarinn með hnýttu hendurnar og þokuaugun mætti uppgjafakaupmanninum á götunni, hliðraði hann fyrir honum og hneigði sig þakklátlega, eins og fyrir bjargvætti inna dauðvona. Þeir, sem sjálfir höfðu ævinlega svikizt um að vinna, þegar verkstjórinn sá ekki til, fundu, að það var dæmalaust þakkarverð samvizkusemi, sem ótilneydd borgaði mannfélaginu, endur og sinnum, einn milljónasta í vöxtu af rangfengnum höfuðstól.

Á þriðjudag hafði blað hans meðferðis grein um Stigamenn á stjórnarbrautum. Þar leitaðist hann við að rekja, að hvergi í nokkru landi væri helming skatta þeirra, sem alþýða greiddi, varið í almanna þarfir. Hreppsómagar væru kallaðir „niðursetningar“, og þætti minnkunarorð. Ríkisómagar væru dubbaðir „embættismenn“, því menn hefðu komið sér saman um, að það væri heiðurstitill. Þetta gerði oft allan mannamuninn. Svo tók hann dæmi af heimastjórninni, hvernig fjármálum ríkjanna væri ráðið, og nafngreindi nokkra í ríkisómegðinni, svo sem Lýting Töskubak, sem sendur var um allar jarðir með tóma stjórnartösku til varðveizlu, einungis til að draga embættis-yfirskin yfir $ 3000 launin hans um árið. Hann endaði á því, að frjálslynda stjórnin þeirra, svo kallaða, væri reyndar ránsmenn og kúgarar.

Næsta dag bar Lýtingur Töskubakur bænarskrá í kring til undirskrifta, að stjórnin hætti að leggja fé til vegabóta og vatnsræslu um mýrarnar í afskekktu útkjálkabyggðinni Heiðaþingi, því skattar væru almenningi óbærir, sökum alls þess kostnaðar. Þeir með bogna bakið og undirleita svipinn vildu allir koma nafninu sínu þar að, og ákafastir voru þeir, sem ekki kunnu að skrifa það sjálfir, en urðu að fá aðra til að gera það. Sjálfir bjuggu þeir í borg með steinrenndum strætum; hvern skrattann varðaði þá svo um, þó landar

þeirra í Heiðaþingi lægju í fenjunum þar; þeim var ofætlun að borga til að draga þá upp, þeir gátu gert það sjálfir. Um kveldið bættu þeir nýjum endurlausnara við í trú sína, hon-Lýtingi. Hann var þó eini framfaramaðurinn, sem nokkuð vildi gera almenningi til hagsbóta. Hvernig áttu þeir að lá honum, þó hann tæki við því, sem að honum var rétt af stjórnarbitlingum, né afbæði það, sem þeir vissu, að hann vann ekki til — þeir, sem sjálfir voru aldrei ánægðir með lífið, af því þeir komust svo sjaldan að því að fá eitthvað fyrir ekkert, einungis af því þeir höfðu orðið útundan hjá forsjóninni í að fá sinn hluta af bragðvísi, eða að mennirnir höfðu í æsku þeirra sett þá hjá skólagöngu.

Á miðvikudaginn kom út seinasta ritgerðin hans, um Andlegar fébrellur. Hann sagði, að kirkja og skólar væru samtaka í því að byrgja og fela hvern andlegan neista hjá almenningi, sem þau óttuðust, að kvikna kynni upp og verða að ljósi; þau reyndu að bæla hann niður í ösku útbrenndra kredda, undir grjótþunga rembiláts lærdóms og fyrirlitningarorða. Meðan það tækist, yrði lítið um ljós og yl, og því væri jörðin kvik af alls konar andlegum krypplingum, sem einlægni, hugsunarþróttur og drengskapur væri níddur úr. Hann leiddi líkur að því, að margir kennendur, til dæmis eins og hann séra Steinn Eftiræta, kenndu eins og þeir gerðu, einungis vegna þess, að kirkjan, sem þeir þjónuðu, væri sterkari en sannfæring þeirra sjálfra; þeir þyrðu engu að breyta, því það væri að rífa niður húsið yfir sjálfs sín höfði. Hann lauk svo við það, að þess konar menn sætu á bekk með páfum og hræsnurum.

Um kveldið var safnaðarfundur í kapellunni hans séra Steins. Þangað kom, sér til dægrastyttu, hópurinn með hnýttu hendurnar og bogna bakið, með undirleita svipinn og þokuaugun; hann vildi öllu framar kallast kristnir menn. Þar var því lýst fyrir honum, hvernig hann framvegis mætti halda því nafni átölulaust, þó hann tryði ekki ýmsu, sem honum væri kennt, ef hann einungis hefði ekki hátt um það; á sinn hátt eins og inum fyrstu kristnu forfeðrum þeirra leyfðist að bera út sín eigin börn, ef þeir gættu, að það kæmist ekki upp. Honum var gefin kirkjuleg uppörvun til að æfa það að fela meining sína. Þeir með hnýttu hendurnar og þokuaugun tóku þessari breyting feginsamlega, hún átti svo vel við skap

þeirra. Fullkomnari guðsmann en hann séra Stein gátu þeir ekki ímyndað sér, né göfugra frjálslyndi. Þeim fannst það ekkert tiltökumál, þó hann ynni það til fyrir róleg lífskjör og heiðarlega stöðu að leyfa mönnum í kyrrþey að efast um sannindi þess, sem hann sjálfur kenndi, né væri það von, að hann kenndi einmitt það, sem hann sjálfur tryði. Þeir könnuðust við það með sjálfum sér, að það var bitamunur en ekki fjár á óráðvendni hans og þeirra, sem voru allir keyptir síðastliðinn kjördag fyrir lítilfjörlega þóknun til að greiða því þingmannsefni atkvæði, sem þá grunaði að væri verra.

Hann kom til þeirra á fimmtudaginn, þar sem þeir héngu við vinnu sína, ánægðari og hreyknari en vant var yfir því, að nú hefðu „inir stóru“ látið undan. „Ég kem nú að treysta á drengskap ykkar, bræður góðir,“ sagði hann, „mér finnst ég eiga þar athvarf. Ég hefi fylgt máli ykkar eftir mætti, þó lítið hafi áunnizt. Það verður ef til vill meira seinna, ef við höldum saman. En fyrir það vann ég mér hatur þeirra, sem völdin hafa, og hér í landi er það samkvæmt lögum að kviksetja þá, sem fyrir því verða, séu þeir fátækir og bjargist af handafla sínum. Yfir ríka menn ná þau lög ekki. Ég þarf nokkurt fé til að forða mér. Þið eruð margir, kjarabræður mínir, ég hefi talað máli okkar allra. Getið þið bjargað mér?“

„Hjálpað þér um peninga, leggja þér til fé? Nei, aldrei. Við eigum nóg með ómegðina okkar, þó þú bætist ekki við. Talað máli okkar! Jú, við höldum það. Hafir þú gert eitthvað í þá átt, er það fyrir sjálfan þig, til að ná í óvildarmenn þína og skamma þá, en við hlutumst ekki til, þó þið eigizt illt við. Við illyrðum engan mann opinbert, og þú gerir það á eigin ábyrgð. Þú hefir kallað rausnarmann rummungsþjóf, alþýðuvin kúgara og frjálslyndan prest hræsnara. Nei, slíku er ekki viðhjálpandi. Svo þurfum við ekki þinna orða framar við, það er nú að lagfærast, sem okkur þótti helzt að. Svo höfum við enga peninga.“

Hann beit saman tönnunum meðan þeir töluðu, hélt að sér andanum og hverri taug í andlitinu grafkyrri, eins og þegar menn herða sig upp til að gera eitthvað, sem þeir hafa viðbjóð á, til dæmis að ýta frá sér dauðum snák, og það titraði engin geðshræring í rómnum, þegar hann svaraði þeim, fremur en hann væri fangi, sem hlustað hefði á dauðadóm sinn, sem hann vissi frá upphafi, að hann myndi fá, en var dreg-

inn á, þangað til hann var orðinn lífsleiður á dýflissuvistinni.

„Það er misskilningur ykkar, að ég hafi atyrt menn fyrir heiftar sakir, en sannleikurinn krækir ekki úr leið fremur en eldingin, og ef ykkur finnst loftið hreinna og léttara að draga andann en áður var, er það því að þakka. Tölum ekki um verðleik né brjóstgæði, segjum aðeins það sé eðli mitt eða álög að flytja mál vesalmennanna. Ég treysti það sé samkvæmt hjartalagi ykkar að bjarga þeim, sem á að kviksetja. Það er kvíðafyllra en að láta hengja sig. Hver laun fáið þið nú á dag?"

„Komumst nýskeð loksins upp í $ 2 — eða getur þú hækkað þau um 50 cent, þá skulum við skjóta í þig kauphækkun okkar fyrir fyrsta daginn."

„Nei, í dag er enginn vegur til þess; á morgun er föstudagur og þá á að kviksetja mig. Ég spurði aðeins til að sjá það, að eins dags kaup ykkar gæti frelsað mig."

„Eins dags kaup okkar allra? Við sveltum í hel, ef við missum það. Nei, aldrei, aldrei."

Hann sneri bónleiður frá þeim.

Á föstudagsmorgun, þegar skarinn með hnýttu hendurnar og bogna bakið, með undirleita svipinn og þokuaugun, gekk til vinnu sinnar, sagði einhver:

„Það er kviksetningardagurinn hans í dag."

„Kviksetningardagurinn hans! Ja, ég var hreint búinn að gleyma því."

„Ég hefi aldrei séð mann kviksettan."

„Það er víst skrítið. Eigum við ekki að fara og sjá?"

„En við töpum kannske fyrir það vinnunni og kaupinu í dag."

„Hvað um það. Það eru ekki svo margir frídagarnir okkar, að við megum sitja af okkur skemmtun, þá sjaldan hún er."

„Látum oss þá fara."

Svo hættu þeir allir við að vinna þann daginn, til að geta horft á, hvernig farið væri að kviksetja. [1894]

## 2. Morgunvindurinn.

„Fögur eins og sumarið og góð eins og sólin," söng morgunvindurinn, sem þeysti niður Fögrubrekku. Allar brekkurósirnar litu upp, horfðu á eftir honum og roðnuðu. „Um

hverja ætli hann hafi sagt þetta?“ „Um hverja ætli hann hafi sagt þetta?“ hvísluðu þær og stungu saman höfðum. Það var niðurinn í grasinu. „Um hverja ætli hann hafi sagt þetta, þó!“ hvein í gamalli hríslu á næsta hólbarði. Hún var bæði eldri og sá miklu víðar um en brekkurósirnar. „Það var víst um enga ykkar, litlu bjánarnir. Morgunvindurinn fer um víða veröld og sér allt, sem skrautlegt er. Hann hirðir aðeins um fallegasta litinn í geislanum þarna og snotrasta knappinn á víðinum hérna; hann flýgur láð og lög að leita að fegurðinni. Það er um hana, sem hann kveður. Heyrið nú til, hann er að syngja þetta sama við sinuna hérna úti á Flóanum. Um hverja ætli hann segi það?“

Svo kom morgunvindurinn aftur um hádegisbilið. Þetta skeði í landi, þar sem sólin sezt aldrei á vorin, og þá er rétt að kenna allt við föður ljósanna, morguninn. Hann söng sama kvæðið, en brekkurósirnar litu nú ekki upp. Hvaða unaður var að því, fyrst þær máttu ekki ímynda sér, að kvæðið væri um þær? Þær voru farnar að skrælna. „Óhræsi varstu,“ sagði morgunvindurinn við gömlu hrísluna og tók í hárið á henni svo hún bognaði. „Brekkan, sem tók mark á því, sem þú sagðir, er nú að fölna, en Flóinn, sem ekki heyrði til þín, er óðum að grænka. Vissirðu ekki, að það er glæpur að rýma burt ánægjunni og fegurðartilfinningunni, jafnvel með sannleikanum?“ [1896]

### 3. Gráskeggur.

*Brot af fornsögu.*

Um kveldið gekk sá maður, er Gráskeggur nefndist, í tjaldið fyrir Útstein konung, og er þeir höfðu kvaðzt, leit konungur við honum og spurði: „Hver er fæðingarstaður þinn, foreldri og íþrótt, gamli maður? Úr hverju landi bar þig hingað, og hvert er erindi þitt? Hvað hefir þú séð á ferðum þínum, því langt muntu að kominn, eður hvert muntu héðan stefna?“

„All-fjölspurull eruð þér, herra,“ svaraði Gráskeggur, „og ekki veit ég, ef ég kann úr að leysa. Karl og kerling voru foreldri mín; er þá full-langt rakið, því enginn lærdómur fer meir á bug við sannleikann en ættfræðin. Föðurland mitt mun Frón, því loft og sær var mér ætíð úrhendis. Þá eina kann

ég íþróttina að koma svo til dyra sem ég er klæddur. Úr Hvítramannalandi kom ég, en lokið er erindi mínu, því leitað hefi eg farsældar og fundið. Nú er ég á leið til átthaga minna; veit ég ei enn, hvar þeir liggja, en skammt á ég nú ófarið. Kann ég ekki fleiri ævintýri."

„Seg oss gjör frá fundi þínum," mælti Útsteinn; „á slíkum leiðangri erum nú vér og hirð vor, og æ farið erindisleysu."

„Hverf aftur konungur," svaraði Gráskeggur. „Sú, er þú leitar eftir, leiddi þig á götu og hvarf svo heim aftur. En þá var ég ungur, er ég réðst í lag með Unaðsemd drottningu, og góð þótti mér um stund hennar þjónusta. Henni gaf ég sakleysi mitt og fleiri gripi, en tók við reynslunni, en eigi undi ég þar lengi, því hafa vildi hún alvöruna. Fór ég þá til Metnaðs jarls; færði ég honum lítillætið, en þáði mannþekkinguna, en fá vildi hann sanngirnina einnig og skildi það með okkur. Næst var ég á vist með Auði konungi; lét ég hann fá örlætið, en hann gaf mér hagsýnina í móti. En þaðan hvarf ég, því fleka vildi hann af mér ráðvendnina. Þá þóttist ég fullreynt hafa þá höfðingjana; og leitaði á fund spekinga. Gekk ég fyrst í klaustur með Guðsótta ábóta; hann neyddi mig til að láta af hendi tilbeiðsluna, en seldi mér hugsjónina, en frá honum strauk ég, er hann ræntist eftir skynseminni. Þaðan komst ég til Fróða kennara; færði ég honum fullvissuna, en þáði af honum þekkinguna, en ekki gat ég ílengzt þar, því taka vildi hann ímyndanina líka. Um stund dvaldi ég hjá Braga söngmanni; hann tók aleigu mína móti fegurðartilfinningunni, en löngum hljóp ég þaðan, því oft skorti þar mat."

„Víða hefir þú rekizt," sagði þá Útsteinn konungur, „en lítil þykja mér erindislokin."

„Enn er ei saga mín öll," svaraði Gráskeggur. „Nú þóttist ég hvergi athvarf eiga, og brigðular höfðu mér vonirnar gerzt. Skyggndist ég nú um í eigin eðli og þar fann ég farsældina, konungur. Hafði ég borið hana í barmi mér athugalaust, alla götu."

„Nú fer þú með fals mikið," svaraði Útsteinn, „því það kann ég af útliti þínu að ráða, að mjög taka elli og lúi að halla á þig, og vesæll mun sá, er hrekst sem verðgangsmaður."

„Ekki þekkist farsældin af útliti né iðn, herra," mælti Grá-

skeggur, „heldur finnst hún í þreki, er veit neitt í lífi og dauða sitt ofurefli, og skapi, er á sér verklaun í eigin starfi. Og snú aftur, konungur, svo sem ég réð yður til fyrrum.“

„Engan trúnað leggjum vér á sögu þína, gamli maður,“ svaraði konungur, „og lengra munum vér leita, áður vér hverfum heim.“

„Fyrir vissi ég svar yðar,“ mælti Gráskeggur. „Sama veg hljótum vér allir að fara og þurfum langt að leita, áður vér finnum farsældina. Út liggur braut vor og þó situr hún jafnan inni. En fár kemst heim aftur.“

Um nóttina hvarf Gráskeggur úr tjaldinu og lézt enginn vita, hvað af var orðið. Héldu ýmsir það Óðin verið hafa, eða vætt nokkurn. [1896]

## 4. Kærleikur og Sanngirni.

Öld eftir öld og ár eftir ár hafa þau orðið samferða um heiminn. Gömul voru þau, þegar fyrsta jólagildið var haldið á jörðinni.

Aldrei hafa þau þó getað verið samnátta. Þar sem hann er boðinn velkominn, er henni úthýst. Í hreysið, sem opnar dyr sínar fyrir henni, gæti hann ekki stigið fæti sínum inn fyrir þröskuldinn.

Hann er hýr og brosandi eins og viðurkennt góðmenni, með krossa og orður á brjóstinu eins og þeir, sem halda sig með biskupum og konungum.

Hún er áhyggjufull og alvarleg eins og spámaður í sínu eigin föðurlandi, og fáskrýdd eins og allragustukamaður.

Hann er fyrirmannlegur eins og sá, sem er orðinn vanur að sitja í tigninni.

Hún er niðurlút eins og sá, sem á sín lengi að bíða.

Þannig er þeim háttað, Kærleik og Sanngirni.

Allt árið hafa þau ferðazt um og rekið erindi sitt. Á aðfangadagskveld er öll heimsbyggðin þeirra áfangastaður.

Frá hvítvoðungnum nýfædda, í bælinu niður í Glæpagötu, hefir hún þotið upp að kastala aðalsmannsins, þar sem verið er að reifa erfingjann. „Þetta er skammsýni,“ hrópaði hún, „þetta er skammsýni! Tvær mannsævir ónýtast þjóðinni. Örbirgðin þarna, arfleifðin hérna. Jafnið mannamuninn! Þá

líður öllum betur.“ Þjónarnir hrundu henni út um hliðið. Þeir hugðu hún hefði sloppið úr vitfirringahælinu.

Áður en grindin hné að stöfum, kom þar Kærleikurinn. Varðmennirnir leiddu hann inn með húfurnar í höndunum. „Það eru engin föt til á krakkann í Glæpagötu,“ sagði Kærleikurinn. „Engin föt til, guð minn góður!“ sagði aðalskonan. „Þjónustumey, færðu honum jólaföt.“ „Ég skal flytja þau sjálfur,“ sagði Kærleikurinn. Allir hneigðu sig með lotningu, meðan hann var leiddur niður riðið. Inn í bælið í Glæpagötu fékk Kærleikurinn ekki að koma, af því hann kom frá aðalsmannshöllinni. Varmennskan og Volæðið þar inni bjó í hennar landhelgi og mundu, að þau höfðu ekki getað borgað húsaleiguna. Hann sneri svo búinn frá og fól lögregluþjóni, sem gekk með alvæpni, að koma gjöfunum til skila.

Hugulsama fólkið hældi Kærleikanum á hvert reipi. Þá kom Sanngirnin inn á lögþing, þar sem fellidómur var háður yfir ræningja, sem vegið hafði féflettumann sér til fjár. „Leggið þetta niður,“ æpti hún, „það er aðeins blóðmissir en enginn bati að reyna að skera út hálfan glæpinn. Gerið auðlegð ekki eftirsóknarverða og frelsið bæði okurkarlinn og vegandann!“ Hún var barin á dyr fyrir að rjúfa dómhelgi.

Kærleikann bar þá að og vægði um dóminn til ævifangelsis. Og meinhægu mennirnir dáðu Kærleikann.

Sanngirnin var þar viðstödd, sem Iðjuleysið stóð auðum höndum. „Þú ert landeyða,“ sagði hún, „sem lifir á annarra sveita. Heiðarlegt líf er fyrirhöfn. Strikið yfir öll einstaklingsforréttindi til þess, sem gengið hefir hönd frá hönd. Nytsöm viðbót er ein verð erfiðislausra tómstunda, svo hún njóti nokkurs í eigin afleiðingum.“ Þaðan var hún landflæmd fyrir byltingakenningu.

Svo kom Kærleikurinn með brauðpoka. Það voru molar frá söddum Iðjuleysingjum til svangra Iðjuleysingja.

Fátækranefndirnar féllu á kné fyrir Kærleikanum.

Enn átti Sanngirnin leið þangað, sem Snilld og Mannvit lifðu á moði og undanbrögðum, af því þjóðfélagið batt þær við bekk með búðalokum. „Það er af því manngöfgið er troðið niður,“ sagði hún. „Kviksetjið ekki slíka krafta; setjið þá þar sem þeir mega njóta sín, níðið ekki úr þeim hvern ærlegan blóðdropa.“ Hún varð illa ræmd fyrir að taka mál af Hrekkvísinni.

Fyrir tilstilli Kærleikans náðu þær í góðan jólamat, sem laun þess, hve smellnar og gamansamar þær væru í samkvæmum.

Frjálslyndu mennirnir gerðu nafn Kærleikans að herópi sínu.

Þangað komst og Sanngirnin, sem stórveldi bjóst að kúga skattland sitt til hlýðni með sverðseggjum. „Láttu lýð þennan fara í friði,“ sagði hún við stórveldið. „Ánægður vinur er manni hollari en kúgaður þræll, sem báðir meiðast við að halda í skefjum.“ Henni var ógnað með landráðasök.

Kærleikurinn kom þegar orustan var úti, feðurnir fallnir, heimilin brunnin. Hann gekk um samskot handa ekkjunum og stjórnarbót handa ungbörnum og örvösum.

Og stórskáldin ortu sálma Kærleikanum til vegsemdar, og smáskáldin ferstiklur.

Jafnvel skáldin!

Jólaaftaninn hittust þau við hliðið hjá erkibiskupnum. „Hvert ferðu nú?“ spurði Sanngirnin.

„Hérna inn fyrst,“ svaraði Kærleikurinn, „svo til konungsins, skólameistarans og hirðskáldsins. Þeir hafa allir gert mér heimboð. En hvar verður þú í nótt?“ Hann brosti brjóstgæðalega eins og sá, sem mikið hefir orðið ágengt. „Það veit ég ekki,“ svaraði Sanngirnin, „mér hefir hvergi verið boðið inn.“

Hún skundaði þaðan niður svellgljáa, súgkalda götuna. Næturnæðingurinn leiddi hana eins og stallsystur. Uppi milli húsamæniranna sást löng og mjó rönd af loðgráum lognhimni, með starandi stjörnum, sem aðeins rifaði í, eins og maður, sem sefur með opin augun. Til beggja handa gnæfðu hélaðar húsaraðir, með dökkgráa reykjarstólpa upp úr reykháfunum og ljósbjarma í hverjum glugga, eins og gjósandi jöklagarður. Hvergi beiddist hún gistingar. Hún vissi, að hvert hús var fullt af jólagestum og sér var ofaukið. Loks staldraði hún við lægsta kofann, yzt í fátæklegasta umhverfi bæjarins. Dyrnar stóðu opnar, svo stjörnuljósið skini inn en reykinn legði út. Fyrir innan glórði í glóð niðri í gömlum katli, eins og kurl, sem sviðnar í kolagröf. Það var stofuofninn og jólaljósið. Við það sat hrumur og landflótta stjórnleysingi. Hann hafði ofan af fyrir sér með því að selja eldamönnum kveikispæni. Útlits var hann grár og grettur eins og gremjan, og önuglyndur eins og ill samvizka.

„Komdu ekki inn fyrir mínar dyr!“ æpti hann. „Þið, sem rænið ársforðanum, en þykizt gefa munnbitann — burt með ykkar fátækragjafir. Þú ert sá átjándi, sem ég rek héðan í kveld. Látið mig í friði!“

„Ég kem til að biðja um jólagjöf, en færi þér ekki neina,“ svaraði Sanngirnin. „Ég heiti Sanngirni. Enginn vill hýsa mig, það er svo þröngt í húsunum, því allir hafa boðið Kærleikanum. Viltu lofa mér að vera?“

„Velkomið, vesalingur,“ svaraði stjórnleysinginn, „við getum setið við glóðina til skiptis og sofið í spónahrúgunni.“

[1899]

## 5. Fyrirför.

„Ég hefi beyg af honum stundum, þegar hann verður flóttalegur á svipinn, eins og sá maður, sem hefir glæp á samvizkunni.“

Svona minntist þú á mig, ungfrú Engilráð. Þú bjóst þig á dansinn og þrýstir mjallhvítri hendi ofan í hanzkann þinn.

Það er engin von, að þig gruni, að þetta er þér að kenna. En þú minnir mig samt á hann — en á líkan hátt eins og sigurför hershöfðingjans um borgina minnir mig á valkestina, sem brúuðu díkið utan við.

— — Við gátum aldrei án hans verið, þegar við lékum okkur. Hann var svo greindur og glaðlyndur. Hann vann fyrir uppeldi sínu á daginn og skemmtun okkar á nóttunni. Þó hann væri þreyttur og vildi vera án þess, gat hann aldrei talizt undan því.

„Hafðu það sem þú vilt,“ sagði Afleiðingin við hann. „Taktu til láns af lífinu, unglingur, ég held reikningana.“

„Þú ert enn svo sterkur og hraustur, að aldur þinn hefir aðeins stytzt fimm ár,“ sagði hún svo við hann, þegar hann var liðugt tvítugur.

Hann brosti að því. Ein fimm ár af elli, langalangt í burtu, hvers virði voru þau? Svo gat þetta verið misreikningur, áreiðanlega var hann þó byggður á óvissu.

— — Hann erfiðaði á daginn, þangað til dimmt var orðið og hann sveið í hverja taug. Á nóttunni las hann og hugsaði, þangað til glýju dró fyrir augun og aftureldingin og fótaferðin lögðust á hann eins og kvalræði.

„Nú munar meiru,“ sagði Afleiðingin, þegar hann varð

rúmt þrítugur. „Þú hefir eytt tíu árum ævi þinnar fyrir þig fram, og er þó heldur vanreiknað.“

Hann lét það sem vind um eyrun þjóta. Hann miðaði langlífi við ágæti, ekki árafjölda.

En við höfðum hugboð um, að Afleiðingin segði þetta satt, en honum var það þó sjálfrátt. Hann gat borðað vel á daginn og sofið fast á nóttunni, eins og fénaðurinn og margir dugnaðarmenn.

— — Hann var önnum kafinn myrkranna milli. Þegar áhyggjurnar settust á kveldin, stigu heilabrotin upp og bönnuðu honum svefn. Hann var nú staddur í árstíðinni, þegar vorsáning var lokið, en hæfileikar manns sjálfs brjótast fram til að spretta. Hann vakti og vann, þangað til hann yngdist ekki lengur upp með vorinu, né lifnaði yfir honum, þó hann læsi fallega hugsun. Sérhver tilfinning var sljóvguð nema sú, að hafa varið allri ævi sinni til að stytta sjálfum sér aldur.

„Fimmtán ára reikningshalli,“ sagði Afleiðingin.

„Nú verður þú að koma,“ sagði Dauðinn.

Svo bárum við hann til grafar, og bjuggum öll yfir hugsuninni, hve hörmuleg fásinna það var að tæma svona sjálfan sig til síðasta blóðdropa hálfri mannsævi fyrir örlög fram.

Ég veit, að þetta var honum sjálfum að kenna, og að ég er í engri sök, fremur en þið og hann Kain.

— — En stundum þó, þegar ég hugsa um hann, ásækir mig einhver óró, skyld angist þeirrar sálar, sem grunar sjálfa sig um að hafa unnið glapvíg. Er ég ekki einn hluti af jarðveginum, sem gróðurinn sólbrennur í svona snemma?

Í þeim brjálæðisköstum er það, sem þér stendur þessi stuggur af svipnum mínum, ungfrú Engilráð. [1899]

## 6. Seinasta lóan.

Hinum megin dalsins, andspænis mér, stóð snarbrattur hálsinn, skriður og lausagrjót alveg ofan að hamrinum við árgilið; enginn götustígur lá yfir klungrið; allur gróður hafði hrapað þar til dauðs. Þeim megin sem ég stóð, bugaðist aðlíðandi fjallshlíðin með valllendisdrögum og lyngmóum í breiðan höfða yfir undir hálsinn, eins og ef að hlíðin kenndi í brjósti um hann, seildist til hans með hendinni og vildi rétta honum hlýrri klæðnað. En áin veltist fram út á milli þeirra,

í biksvörtum hyljum og leirljósum strengjum, niður í þverhníptri hamraþrónni, ofan í héraðið, fram yfir eyrarnar, út í fljótið. Henni leiddust dalaþrengslin og brunaði fram til að komast út í lífið og víða veröldina; hún var unglingur innan við tvítugt. Svo féll hún í fljótið og týndi sjálfri sér.

— — Veðrið var óvanalega gott allan septembermánuð; það var eins og íslenzka haustið vildi, að lóurnar, sem voru að flytja sig, minntust sín með hlýjum hug í þetta skipti. Nú voru þær allar farnar. Svo kom október, sá fyrsti með austanhríð, annar með norðangadd og sá þriðji með sunnanflapur og upprofið, þegar allir hlutir anda frá sér hráslaga og manni finnst að koma út úr húsdyrum eins og að stíga í krapabað. Þúfnafyllir af blotsnjó lá yfir mónum; hann var samt að síga, krækilyngið stakk mórauðum gómunum hér og hvar út um hann. Lækir og dragavætlur brixluðust upp af krapastíflum og svellbunkum. Höfðinn hafði breytt útliti, nú var hann eins og fögur og mjúk hönd, sem maður strauk í æskunni, þegar ellin og lúinn hafa hnýtt æðarnar og kreppt allar taugar. Dagsbirtan var korguð, eins og liðið væri að úthalli; lognkólgan hékk í slæðu yfir dalsmynninu og hlíðunum. Í hásuðri rofaði til geislalausrar sólar, eins og maurildis í rökkvuðum barrskógi, og samt sýndist hún vera svo nærri manni, eins og hún héngi uppi milli jökulsins og dalbotnsins. Nær manni, dýpst niðri í dalverpinu, blikuðu tveir ljósgullnir skildir, niður á botninum á grárri snjókistunni. Þar breiddist áin út við sléttar eyrar og sólskinið hafði einhvern veginn slæðzt þar niður, eins og fagrar endurminningar frá æskuárum manns.

— — Hu, hu, hu, kvað við í mónum fyrir ofan mig, en rómurinn var hreimlaus, eins og í fiðlustreng, sem hefir vöknað.

Það var seinasta lóan, sem kvað þar. Svo hætti söngurinn; hún kom ekki lengur upp hljóði í laginu við dirrídí.

Hví hafði hún ekki flogið burt með félögum sínum, en beðið hretsins, vesalingur? Hafði hún tafið eftir elliglöpununum, svo hún héldi, að hún gæti enn með bilaða rómnum sínum núna í hausthretinu, þegar meginið af tímanum er tóm nótt, sungið eins sætt og vorið sem leið, þegar hún var ung og bjóst við, að sumarið entist til eilífðar, að heimurinn væri loksins orðinn það, sem allir hafa vonað og þráð, eintómur söngur og gróður? . . . . .

— — Þá duttu mér í hug við æskufélagar mínir, sem hófum raddir okkar fyrir hálfum mannsaldri síðan og ætluðum að syngja sumar yfir landið til eilífðar. Við sáum þá svo glöggt, að það væri hægt. Nú er þó aftur komið haust, sumir þeirra eru flognir, aðrir þegja og búa sig til ferða, fáeinir kvaka enn við og við og lyfta vængjunum, eins og útfarinn, stiginn á skipsfjöl, sem veifar til manns hendinni að skilnaði.

Kvíðvænlegast af öllu er að verða seinasta lóan.

[1899]

## 7. Fráfall Guðmundar gamla stúdents.

*Hálfstolið og hálffrjálst.*[1])

Gamlárskveldið var indælt vetrarkveld, veðrið notalegt eins og vorblíða, en andrúmsloftið léttara og hreinna; andvarinn frá jöklinum lék um mann eins og fjörgandi ylur, manni jafnvel fannst, að snjórinn sjálfur myndi hlýr og voðfelldur eins og mjúk og hrein dúnsæng. Birta tungls og stjarna var mildari en nokkurt sólskin, þó hún væri ekki eins skær. Hálfþíður úthaginn blasti við manni, snivinn eða auður, eins og jólahlákan hefði gert hann að tryggum sáttmála milli sumar-sólbruna og vetrarharðinda.

Gamlárskveldið var bjart og blítt. Hefði maður átt að velja um það og fegursta sumardaginn, sem maður mundi eftir, og ekki getað hreppt nema annað hvort, myndi maður helzt hafa dregið um þau blindandi. Enginn veðurnæmur mannshugur gat gert mun þeirra öðruvísi.

Séra Hákon fann það líka á sér; hann var hress og léttur í spori, þó hann væri orðinn hálfsjötugur. Bæjarleiðin frá Garði ofan að Gerði var örstutt, enda óaði honum ekki við henni, þó nótt væri komin og hann einn saman. Hann þurfti heldur ekki að prédika í Garðskirkju að morgni. Sveinbjörn, aðstoðari hans, átti að gera það; því var hann líka feginn, uppgefinn og úttæmdur eins og hann var, á fjörutíu ára pré-

---

1) Orðin hálfstolið og hálffrjálst lúta að þessu: Þegar ég hafði lokið greininni, sá ég í bókafregn í einhverju blaði, að Gustav Freytag hefði í Týnda handritinu — skáldsögu — leitt fram lík rök og Guðmundur minn. Ég vissi mér yrði brugðið um stuld. Bætti svo þessu við til að firra mig vítum. En ósatt er það, nema svona: Þessi hugsanagangur er margra eign, hvorki Freytags né mín eins. S. G. S.

dikunum, öllum um sama efni. Jafnvel meðalskynsemi fellst á, að það myndi vera þreytandi að kveða sömu vísuna alla ævi, ef ekkert mætti skipta um nema róminn, þó maður tryði, að hún væri allra vísna fallegust.

Hugur séra Hákonar var allur fanginn af endurminningum og von, þetta gamlárskveld. Gamli séra Guðmundur stúdent i Gerði hafði sent til hans og beðið hann að vitja sín þessa nótt. Guðmundur hafði legið rúmfastur alllengi og var talinn aðfram kominn. Marga nóttina höfðu þeir saman verið um ævina, jafnaldrar, skólabræður, nærri aldavinir. Í mörgu öðru höfðu þeir þó farizt á mis um dagana. Hamingjan hafði gefið Hákoni þetta farsæla meðalvit, sem gerði hann að sómamanni, sveitaröðling og nú loks að prestaöldungi. Ævi Guðmundar hafði gengið stórkulegar. Enginn frýði honum vits, þó ágreiningur væri um, hver maður hann var. Einstaka maður minntist hans til góðs; flestum stóð stuggur af framkomu hans og vitsmunum; þeir sáu ekki, að aðrir en hrekkjamenn þyrftu á svo miklu viti að halda. Það var almenningsgrunur, að hann væri misendiskarl, þó enginn gæti sagt með vissu, hvað helzt illt hann hefði gert.

Endurminningarnar í huga séra Hákonar runnu frá því, hve raunalegt það væri, að Guðmundi varð lítið gagn að miklum hæfileikum. Svo rifjaðist upp ævisaga Guðmundar, frá því hann var gálaus en drenglyndur unglingur, sem þótti óskö̈p vænt um móður sína. Þeir ólust upp nágrennis.

Svo fóru skólaárin í hönd. Framan af var Guðmundur öfundlaust uppáhald allra bekkjunauta sinna. Það var eins og það lægi í meðvitund þeirra allra að treysta honum til nærri alls, eins og honum væri ekkert ofvaxið og væri ákvarðað mikilmenni. Seinustu námsárin fór það samt minnkandi. Það leit út eins og hann hefði orðið fráskila skólabragnum, væri ekki lengur fullorðið barn, sem lærir það, sem því er sett fyrir, eins og hinir, sem voru honum samtíða. Vit, sem efar ið viðtekna, er alla tíð einrænt og sjálfbirgingslegt í augum sprenglærðrar einfeldni. Hann lenti í deilum og keppni og einangraðist æ meir. Þó það sýndist auðunninn leikur að sigra ekki meiri garp með viðurkenndri, samlagðri, óhagganndi vizku ótal spekinga og kennifeðra, sem skólafræðin hvíldi á, varð Guðmundur stundum svo skarpseigur í hugsunum og örðugur viðfangs að verja sitt mál, og svör hans

voru svo keimlík heilbrigðri skynsemi, að þó andstæðingar hans vissu, að hann hlyti að hafa haft miður, fundu þeir þó til þess, að sinn eigin sigur var ekki eins auðsjáanlegur eins og þeir bjuggust við, og voru því ekki alls kostar ánægðir með hann.

Guðmundur útskrifaðist þó og hefði getað orðið prestur, en það vildi hann með engu móti, jafnvel þó unnustan sliti við hann heitorð; því foreldrar hennar sáu henni engan farborða, nema hún yrði prestkona að minnsta kosti.

Séra Hákoni var það enn minnistætt, hvernig hann lagði að Guðmundi að breyta slíkri fyrirætlun, og hversu Guðmundur tók af um það, því sér hnykkti við prestaeiðnum. Hvernig sem Hákon reyndi að færa honum rök að því, að loforð manns um að vinna ið æðsta og háleitasta lífsstarf í heiminum gæti aldrei verið varhugavert, þó kraftar manns gætu ef til vill ekki haldið það allt, brosti Guðmundur að heilræðum hans og daufheyrðist, en hélt því fram, að það sem væri rétt gert af Hákoni sjálfum, gilti ekki jafnt um alla menn.

Enn mundi Hákon gerla, hverju Guðmundur svaraði, þegar hann spurði loks í einlægni sinni, hvort hann hefði náð í bækur Ariusar eða Zvinglis. Voðalegri villutrúarmenn þekkti Hákon ekki í þá daga, og ekki að öðru en því, sem eftir þeim var haft og hrakið fyrir þeim — löngu fráverandi, dauðum; honum kom ekki til hugar, að Guðmundur gæti verið orðinn katólskur, prótestantisk sál að ætt og uppeldi, sem sú óguðlega kirkja gat ekki hafa gert neitt peningaboð í. Guðmundur lagði krumluna á öxlina á honum. „Heyrðu, Hákon sveitungi,“ sagði hann, „manstu eftir honum Skúla skottulækni, sem aldrei vissi, hvað að neinum sjúkling gekk og sagði svo alltaf, að það mundi vera tegund af ormaveiki — eða honum Finni gamla á Fjárvanka, sem ævinlega svaraði, ef hann missti skepnu og var spurður um tildrögin: „O, hún hefir víst étið gras og eitrazt af því.“ Eins ætlar þér að fara. Ég veit ekki, hvort ég man, hvað Arius og Zvingli eiga að hafa sagt, nema ég fletti upp á því. Það eru atvikin, sem mig hafa leitt afvega, ef þú vilt svo. Manstu þegar það datt upp úr mér, að Edda og Biblían væru innblásnar á líkan hátt, þegar við piltar nokkrir sátum saman í fyrra og viðtalið lenti af hend-

ingu á goðafræðinni, kappið, sem úr því varð, og eftirsögurnar?

Í fyrstunni sleppti ég þessu af rælni, án þess nokkru sinni að hafa hugsað um það. Ég var viss um, að það var rangt mál og óverjandi, og ætlaði sjálfum mér að rekast í vörðurnar við fyrstu mótmæli. Þegar ég svo fór að verja það, blöskraði mér sjálfum allt, sem ég fann og með því mælti. Það var eins og að sjá að óvöru í gegnum holt og hæðir. Í huga mínum opnaðist nýr heimur af samböndum og röksemdum, sem ég vissi ekki áður, að neins staðar væri til. Nú nær hann út yfir öll þau trúarbrögð, sem ég þekki, og sjálf byrjunin stendur á höfði hjá mér, svo: að í upphafi skapaði maðurinn guð. Svona strönduðu trúarlærdómarnir. Svo er kenning og breytni; til skamms tíma hefði ég dáið upp á, að það væri eitt og sama og kennt ófullkomleik trúaðra um áhallann, eins og aðrir. Kenningin er nógu trúuð alls staðar, það vantar ekki, svo var Júdas líka, en breytnin selur hana fyrir verð, eins og hann gerði. Á þetta hefi ég rekið mig nýlega, og þá hvarf mér virðingin, sem ég bar fyrir henni. Svo eru til fáeinir menn — þú ert t. d. einn, því er mér vel við þig, gæti ekki átt í illdeilu við þig, né þú við mig — þessir fáeinu menn eru vandir og góðir. Siðferðistilfinning þeirra styðst við allt, sem göfugt er og fagurt í kenningunni. Hún er ekki nógu þroskuð til að standa ein, en vefur sig utan um fallegu boðorðin og fögru loforðin, af því þau eru eðli þeirra samkvæm, þó þau væru ekkert nema ímyndun ein. En það er til meðal við allri skynsemi, það heitir sultur; þegar ég hefi tekið inn nóg af því, sæki ég um brauð.“

Hákon hafði ekki gleymt, hve honum ofbauð þá af Guðmundi og sjálfum sér: fjarstæður Guðmundar, sem gengu guðleysi næst, og ráðaleysi sitt að átelja og leiðrétta. En honum hugkvæmdist ekki neitt nema að spyrja: „Hvað ætlar þú þá að gera?“

„Kirkjunni get ég ekki þjónað í bráðina,“ sagði Guðmundur, „eftir eðli sínu getur hún ekki verið siðferðislega hreinlynd. Presturinn má ekki segja við Brota-Björn af stólnum: „Þú er bófi, Björn.“ Það væri rógur, trúi ég. Hann verður einungis að kenna: „að heimurinn liggi í inu vonda,“ svo Björn taki það ekki sérstaklega að sér, sem hann þyrfti þó helzt að

gera. En af því ég er lærður maður, alinn upp til embættis og ónýttur til líkamsvinnu, nema helzt að fljúgast á, verð ég að ná í eitthvað, sem laun hanga við. Réttvísin er blind, það er satt, en hún má skera upp úr með skoðun sína og segja við þjófinn: „Þú ert þjófur!“ — að minnsta kosti við þá allra smæstu. Ég held ég reyni að verða böðull.“

En svo varð Guðmundur aldrei böðull. Eftir tíu ára flækings-basl hans könnuðust margir við „Guðmund stúdent“. Þegar hann var orðinn prestur, var „séra Guðmundur stúdent“ nafnkenndur maður í sínu héraði, þó menn gætu varla sagt hvers vegna. Það lá ekki neitt betra né verra eftir hann en hvern meðalprest, sem menn gætu greinilega bent á.

Á þeim árum féll séra Hákoni hann einna verst í geð; þó varð honum aldrei nema hlýtt til hans. Skynsemis-grillur Guðmundar höfðu heldur ekki lagazt. „Því tókstu prestskap?“ spurði séra Hákon hann, eins og hann hefði aldrei eggjað hann á það. „Til að borga skollanum í hans eigin mynt,“ svaraði Guðmundur, „eða þessu, hvað sem það nú er, sem einskorðaði atvinnu mína, tók af mér konuefnið og tætti mig upp í duggarapeysu.“

Séra Guðmundur stúdent varð undarlega ónotaleg flís í holdinu á sinni eigin stétt. Naumast var þó hægt að fetta fingur út í embættisfærslu hans, hann gerði alls staðar lögskil. En viðræður hans og sögur af sjálfum sér, jafnvel í heyranda hljóði fjölmennis, gengu yfir alla prestlega hæversku. Það var naumast til sú hrösun um öll boðorðin tíu, að undanskildu inu fimmta, sem hann ekki gæfi í skyn, að væri dagleg tilviljun hjá sér, og fann þá ævinlega sams konar dæmi hjá öðrum helgum mönnum, forfeðrunum, postulunum, kirkjufeðrunum, jafnvel Kristi sjálfum, í að tala virðingarlítið um lærða menn og andlega leiðtoga. En, eins og hver maður er við sína heimsku bundinn, þannig hafði hver stéttarbróðir hans sinn galla og þekktu, að sögurnar voru reyndar af sjálfum þeim og fleiri en ein af sumum. Samt gátu þeir ekki látið á því bera og annað hvort reyndu að finna honum einhverja líklega afsökun fyrir öllum breyskleik hans, eða látast skilja, að hann einungis væri að spauga. Lakast var, að flestar sögur hans um afbrot sín, að dæmi inna helgu manna, líktust mörgu því, sem hnaut í mönnum um prófastinn sjálfan.

Við Hákon hló Guðmundur að öllu þessu. „Oft hefi ég nú skorað á þá í allra heyrn að kasta fyrsta steininum,“ sagði hann, „en enginn þeirra þorir það. Hræddir við að hitta sjálfa sig.“ Séra Guðmundur var óvinsæll, nema hjá fáeinum einstæðingum, sem höfðu lágt um sig og enginn matti hvað sögðu. Loksins komst prófasturinn í langt og flókið útbyggingarmál við fátækan og lítilsigldan bónda. Vissi enginn, hvaðan bóndanum kom kapp sitt og lögvizka. Grunaði marga, að séra Guðmundur væri traust hans og ráðgjafi. Og hvað sem málavöxtum leið, tortryggðu þeir Guðmund allir, sem minna vit höfðu.

„Nú hefi ég sagt af mér prestskapnum,“ sagði Guðmundur við Hákon vin sinn, eftir nokkur ár. „Mikill vandræðamaður ertu, Mundi,“ svaraði séra Hákon. „Með gáfunum þínum og nokkru meiri varkárni hefðir þú orðið prófastur á undan séra Jóni.“ „Manstu, hvernig trén völdu sér konung, Hákon stallbróðir?“ sagði Guðmundur og glotti að því. „Fíkjutréð þverneitaði tigninni, sedrusinn afsagði hana, en þyrnirunninn var fíkinn í konungdóm og lét ekki dekstra sig. Sá, sem sjálfur er frjáls, hefir óbeit á mannaforráðum. Við vorum ekki gerðir til að stjórna.“

Séra Guðmundur losnaði hæglega við embættið. Verst féll honum þó, að sá orðrómur lagðist á, að það hefði verið fyrir prófasts tilstilli og gagnstætt ætlunum hans sjálfs. Héraðsbúar óttuðust svo þennan dagfarsprúða, lagkæna undirhyggjumann, prófastinn sinn, enn meira eftir en áður, þó útbyggingarmálið félli á hann.

Svo flutti séra Guðmundur stúdent að Gerði, næsta bæ við Garð; þar bjó hann sem óbreyttur bóndamaður. Stundum kom hann til kirkju, en var aldrei til altaris. Sóknarfólkið hneykslaðist ekkert á því. Það vissi, að Guðmundur var eins vel lærður eins og séra Hákon og fannst það ekki tiltökumál, þó tveir beykirar væru ekki að kaupa kút hvor að öðrum. Séra Hákon vissi, hvað gekk að, en gaf sig ekki um, þó hann reyndar harmaði það. Hann óraði fyrir því, að það væri ekki nein utanaðlærð kredda né upphugsuð lífsskoðun, sem þar var að tæta við, heldur samgróið eðli, heilt sálarlíf, og það þeirrar sálar, sem sjálfum honum var innilega vel við.

Séra Guðmundur hvorki féll né sté í tigninni hjá heldra fólkinu eftir embættislausnina. Það leið hann, eins og gemling

af lakara sauðahúsi, sem uppeldi og venja hefði ófyrirsynju sett á garðann með því og yrði svo að þolast þar. Hjá sjóslöbburum og heimilisleysingjum var hann helzt í metum. Nokkrum ólánsmönnum var vel við hann, eins innilega og séra Hákoni var. Hann hefði nærri getað safnað um sig flækingum og vandræðamönnum og komið þeim til manns, hefði — já, hefði hann getað margfaldað fiskinn sinn og brauðið sitt með kraftaverki.

En skyldu ekki trúarskoðanir Guðmundar hafa breytzt til betra, um elleftu stund, nú þegar hann var líklega dauðvona? Þess var óskandi. Það var eflaust erindið.

Svipaðar þessu voru hugleiðingar séra Hákonar, á leiðinni frá Garði ofan að Gerði. Þær höfðu aðeins tæpt meira á meiningunni sums staðar og vafizt meir hver inn í aðra. Hann var nú kominn að bæjardyrunum á Gerði.

Í þrönga afhýsinu í norðurendanum á lágu baðstofunni í Gerði lá gamall maður í þilrúminu, sem þar var inni; það var Guðmundur gamli stúdent. Séra Hákon settist við rúmstokkinn. Það voru lítil guggnunarmerki að sjá á höfðinu, sem lá þar á koddanum, með langa, þunna hárið, sem lagðist niður með vöngunum eins og slétt og silfurgrá silkislæða, utan um stóra ennið, jafnvaxið, nærri eins og sveigður tígull, á þessu föngulega höfði með mikilleita andlitið og löngu kinnarnar, sem elli og banalega hafði svo litlu getað breytt á, nema blæ og yfirlit; þar hafði verið svo hörðu af að tálga, nærri tómri húðinni yfir sterklegum beinum. Nefið var hátt og bogið, augun myndu hafa verið kölluð dökk, vegna skorts á nákvæmara orði yfir hnökrana af svellbláma og sólskinsblettum í fjallshlíð, þennan sambreysking af ljósgulu og steingráu, sem einstaka mannsauga er gert af. Brýrnar voru loðnar og miklar, hrukkurnar á enninu kringum þær sýndu, að þær höfðu oft ýmist verið léttar eða þungar; nú voru þær ekki orðnar kviklátar undir veikindaþreytunni. Annað stóð ekki út undan rúmfötunum en höfuðið og hægri höndin, sem vafðist ennþá umfangsmikil og hnúaber utan um höndina á séra Hákoni. Samt bar á því, jafnvel gegnum sængurklæðin, að maðurinn var stórvaxinn, eins og menn verða varir við stærð fallins trés í skógi, þó það sé orðið innskorpnað og hálfsokkið ofan í jörðina.

„Ég sendi til þín, fornvinur,“ sagði Guðmundur, „til að vera

hjá mér seinustu gamlársnóttina, sem við eigum eftir að vera saman, og til að gera þig að ráðsmanni mínum við nýja árið, yfir því litla, sem ég og það eigum saman að skipta; ég endist ekki til þess sjálfur. Ég hefi alla tíð sofið værast með morgunsárinu.“

Séra Hákoni hálfhnykkti nú við þessari spá, en gat ekki svarað öðru en því, að almætti guðs væri auðvelt það, sem mönnum sýndist vonleysa, og að hann sjálfur hefði búizt við, að Guðmundur myndi vera óhressari; nú þætti sér líklegt, að hann myndi endast nokkuð enn.

Guðmundur þrýsti fast og alúðlega um höndina á séra Hákoni, eins og máttur hans leyfði. „Þreytum engar vöflur um dauðann, félagi.“ sagði hann. „Hefði tréð í skóginum mál, gæti það oft sagt með vissu, að eitt högg til felldi sig, þegar það finnur sig riða á stofninum. Tvívegis hefir veikin sorfið svo að mér, að ég hefi nauðlega raknað við aftur. Í nótt gerir hún það í þriðja og seinasta skipti, og svo er það úti. Við höfum marga skemmtilega gamlársnótt saman átt, og svo er gott að klykkja út. Þarna á borðinu er gamla flaskan okkar og silfurstaupið og tóbakspípan mín. Gerðu það fyrir mig, haltu gamlársnóttina eins og við höfum ævinlega gert, síðan við vorum drenghnokkar og reyndum okkur í tvísöng í herberginu hjá henni mömmu. Það er ekki af því, að illa liggi á mér, að ég get nú ekki verið með.“

Séra Hákoni var engin glaðværð í hug, en þó kom hann sér ekki fyrir að neita um það, sem hann var beðinn að gera. Svo kveikti hann í pípunni. Það varð eins og hann yrði rólegri, ef til vill af að hafast eitthvað að.

„Nú er ég ánægður með þig,“ sagði gamli Guðmundur og brosti, nærri eins og hann væri orðinn heilbrigður. „Svona á það að vera. Það minnir mig á tímana í ævi minni, þegar þú varst eini maðurinn af öllum, sem mig þekktu, sem ekki áleit, að ég væri týndur sauður. Eini maðurinn stundum, síðan hún mamma dó, sem treystir drengnum í mér, svo ég brást honum aldrei alveg heldur, jafnvel þegar ég átti við aðra eins óhræsismenn eins og hann séra Jón prófast, sem kaupkaups tilfinningunni minni fannst ekkert illt sparandi við.“

„Nei, nei,“ sagði séra Hákon, „nú ert þú ekki með sjálfum þér. Á banasænginni hatar þú engan; þú hefir fyrirgefið — fyrirgefið allt.“

„Fyrirgefið,“ endurtók Guðmundur. „Veiztu hvers þú ætlast til Hákon? Fyrirgefa, afsaka illmennskuna! Skrökva því upp á það, sem göfugast var í eðli mínu, að ég sé ásáttur við varmennskuna. Nei, nei. Séra Jón prófastur mætti verða æðsti höfuðengill hinum megin mín vegna; ég skyldi ekki hamla því þó ég gæti, fyrir þetta litla misjafnt, sem hann lagði til mín sjálfs. Það var nú velkomið. En hann var tuddi fram í andlátið. Ef ég segði annað, væri ég að miðla málum við ódrengskapinn og það vil ég ekki gera á banasænginni. Þó allur mannheimur bæri mig atkvæðum með fyrirgefningunni sinni, og yrði sáluhólpinn fyrir það, færi ég heldur norður og niður með sannleikanum og huggaði mig við, að við værum þó heiðarlegur minnihluti. En svo kemur nú ekki til þess, séra Jón er nú líklega orðinn engill — hann þurfti þess við — og ég fæ vonandi hvíld.“

„Engan veginn,“ svaraði séra Hákon, „þú flyzt sjálfur yfir á landið, þar sem allur misskilningur okkar mannanna hverfur, þar sem engin kvöl né söknuður mun lengur til vera.“

„Og hvað svo sem ætti ég þangað að gera, þar sem allir eru sælir, einskis málstað að taka, né neinum að rétta hjálparhönd, og við engan fordóm að fást? Hann Guðmundur gamli stúdent yrði fljótt leiður á því móki. Hann kvæði spaugvísu um það, rétt upp úr miðju Te Deum. Hann Guðmundur gamli stúdent, sem heldur missti af konuefninu en að vígjast til prests, þegar honum var það samvizkusök, væri illa settur í skauti Abrahams, sem vildi fórna syni sínum, þó hann hafi fundið, að það var rangt. Slíkur misskilningur getur aldrei jafnazt. Guðmundur gamli stúdent lenti þar í skærum við hann Jakob Ísaksson, eins og við prófastinn sáluga, út af því, hvernig Jakob okraði á dauðhungruðum bróður sínum með leifum af baunagrautnum sínum forðum. En svo er ekki neitt hætt við því, ég er þrotinn og þreyttur á stímabraki. Fyrir mér liggur ekki nema hvíld.“

„Langt frá, langt frá,“ sagði séra Hákon, sem var ráðalaus með svar í svona kröggum og vildi svo ekki trúa þeim. „Þér er ekki alvara með þessar gífurlegu hugsanir.“

„Ég hefi aldrei spaugað við þig um þess konar, og núna sízt,“ sagði Guðmundur. „Þín trú er náttúrufar þitt, sem sér gott í öllu. Þú ert hreinskilinn, en hefir ekki auga umbótamannsins, sem sér ranglætið eins glögglega, eða betur, en

sættina og málamiðlunina. Hugsun mín er ekki heldur gífurleg. Ég á mér einskis ills von. Ég gæti ekki farið illa. Í loganum þarna niðri yrði ég ekki alveg huggunarlaus, ég sem veit ekki um aðra sælu en að gera sitt bezta, af því það þroskar mann sjálfan og gerir mann ánægðari. Ég sætti færi að skara neista frá einhverjum veslingnum, sem þyldi hitann enn verr en ég. Ég blöskraðist ekki yfir þeim heldur, sem kveldust af samvizkubiti og örvinglan, þó mér kynni að þykja það nokkuð svæsið. Ég vissi, sem er, að þessi viðurkenning ræflanna um að þeir hefðu ekki breytt eins og þeir áttu að gera, og þessi eftirsjón eftir misendis skemmtunum, sem þeir verða að venja sig af, væru fyrstu batamerkin í betrun þeirra, þó þau sýndust nokkuð frekjuleg, úr því þeir eru eilífir og geta ekki framar gert út af við sjálfa sig, eins og í þessu lífi. Eins og þú sérð, er ég óhafandi í báða staðina, sem trúin ætlar mönnum í. Mig skortir hæfileikana fyrir þá og næ svo ekki tilganginum. Mér er einungis ætluð hvíld, og ég æski heldur ekki annars."

„Jú, þig langar til þess, sem þú bráðum færð, að sjá hana mömmu þína aftur, þar sem ykkur báðum líður vel," svaraði séra Hákon, handviss um, að hann sló þá viðkvæmasta strenginn.

„Þvert á móti," sagði Guðmundur, „sízt af öllum hana, af því mér hefir þótt vænst um hana af öllum mönnum. Hana mömmu, sem elskaði drenginn og treysti honum til að verða sá maður, sem hún hugsaði sér beztan. Nei, það væru of mikil vonbrigði, að maðurinn, karlinn hann Guðmundur stúdent, væri orðinn úr drengnum hennar, hún kannaðist ekki við hann. Og þó varð drengurinn hennar að verða einmitt þessi karl, til að svíkja ekki sjálfan sig og hana. Nei, henni vil ég ekki gera skapraun. Ég gæti það ekki heldur, hún yrði þá ekki lengur alsæl, eins og við trúum. Og komdu nú ekki með það, að vera okkar mömmu kunni að breytast svo við líkamsviðskilnaðinn, að þetta yrði okkur ekki til óánægju. Því það væri þá ekki lengur hún eða ég, sem þekktumst og unnumst einu sinni af því við vorum eins og við vorum, heldur værum við einhverjar aðrar verur; — Guðmundur gamli stúdent á sér hvíldina vísa."

Hákon þagnaði nú. Hann reykti fastara og hætti líka að hugsa, eins og sá, sem sér barn sitt, sem hann treystir, taka þann veg, sem honum sýnist muni ófær, gagnstætt viðvörun

sinni, og getur svo ekki aðhafzt nema að vona einhvers góðs og forðast að hugsa það, sem hann þóttist vita áður.

... „Við verðum að sleppa þessu, vinur,“ sagði Guðmundur svo, eftir nokkra þögn. „Ég er allur á förum, og verð að segja þér erindið. Láttu ekki séra Sveinbjörn halda ræðu yfir mér dauðum. Gerðu það sjálfur, og segðu hvað sem þú vilt um mig. Það verður ekki annað en það, sem þú heldur ég eigi skilið. Nútízku frjálslyndið hans séra Sveinbjarnar fellur mér ekki. Þetta óákveðna, sem vill koma sér í mjúkinn hjá öllum gömlum bábiljum og viðra sig upp við allar nýrri mótbárur, og hræra það saman. Það er stefnan hans gamla Abrahams, sem vill fórnfæra Ísak, þó skynsemi og tilfinning segi látlaust, að það sé glæpur, einungis af því einhver, sem hún óttast eða ber lotningu fyrir, skipar henni að gera það. Þessi hræringur af hjátrú og skynsemi er ef til vill eðlilegt augnabliksjafnvægi ins gamla, sem misst hefir máttinn, og ins nýja, sem er óþroskað. En ég hefi óbeit á honum, hann er átumein í hreinlyndi þjóðarinnar. Ég sagði honum upp vistinni í lifanda lífi og hann á nú enga heimting á að tala yfir moldum mínum. Svo eru tvöhundruð dalir í skúffunni undir borðinu mínu þarna. Fáðu hann Þorvald í Fótaskinni til að taka að mér gröfina og bera mig í hana. Gefðu honum fimmtíu dali fyrir það. Hann er bjargarlaus og stelur frá einhverjum ofan í sig og sína áður en veturinn er úti. Honum er svo varið, að hann tæki það ekki eins nærri sér eins og bónbjörg. Svo kemst hann undir manna hendur og verður ævinlegur vandræðamaður. Kannske þessir fimmtíu dalir fleyti honum yfir þetta sinn. Svo útvegar þú Kolbein í Kaldrana til ins sama, og borgar honum jafnmikið. Hann lagði elju sína og efni í einhverjar umbætur á kotinu, og vann sér svo inn hærri landskuld og líklega flosnar upp. Þá er Einar gamli söngur. Forsjóninni láðist að gefa honum ráðdeild og atorku, en bjó hann út með ljómandi fallega rödd og setti hann svo niður á það land, þar sem ekki fæst svo mikið sem einn munnbiti fyrir fallega rödd, nema ef slett er í mann máltíð við lágborðið í ögn fleiri veizlum. Og loksins er gamli Bergur í Selhaga. Hann á ekki til dal í eigu sinni og ráðgerði að selja einu kúna sína, til að koma Gesti litla suður til einhvers ættingja hans, sem býðst að kenna honum skólalærdóm. Þeim hnokka verður fræðifíknin hefndargjöf, eins og Níelsi og Daða, ef ekki er að

það var ekki „andaktin", heldur ímyndanaflugið og orðbragðið, og kunna þó margar ræður hans vera, með réttu, taldar snjallari.

*Barnsminni.* Það, sem ég man fyrst til mín, árla á Kirkjuhólsævi minni, var að hestur, sem faðir minn átti, stólpagripur, en aldraður, var sleginn af. Hafði kvikuslitnað. Sagður ólæknandi sökum aldurs. Nefndur „Skór", eftir hvítum hófi. Þetta fékk mjög á mig. Skrokkur hans var hirtur og seldur til hákarlabeitu. Ég stalst til og stal „sviðunum". Druslaði þeim út á hólbarð, yzt á velli, bar svo steina upp úr lækjardragi, sem þar var, og gerði úr grjótdys. Fékk mér fjalarstúf, festi á hann blað úr bænakvers-rifrildi prentuðu, tyllti rúðubroti yfir það og lét rísa upp úr hrúgunni. Hafði séð svipaðan „bautastein" úr tré í Víðimýrar-kirkjugarði. Mér var miklu hugléttara á eftir. Fannst víst ég hafa gert mína skyldu. Móðir mín kenndi mér að stafa og kveða að á „Sveinbjarnar (Hallgrímssonar) stafrófskver". Fór svo að lesa sjálfur, var læs bæði á latneskt og gotneskt letur, þegar ég fluttist þaðan, og byrjaður að læra kverið. Þar var það líka einu sinni, að faðir minn heimti mig til sín til yfirheyrslu í því, sem ég „þættist kunna í kverinu". Ég kveið fyrir. Vissi þó ég kunni þetta reiprennandi með sjálfum mér. Var feiminn lengi fram. Allt stóð og vafðist í mér. Föður mínum rann í skap. Hirti mig eitthvað, með þeim ummælum, að ég væri á þeim vegi að verða ættar-minnkun, því greindarfólk hefði þó ætt sín ætíð þótt, hver sem örlög þess önnur urðu, en svo ónæmur væri ég, að ég, sem væri skýrmæltur hversdagslega, „tafsaði" allt, segði jafnvel „kjaftaverk" fyrir kraftaverk — sem víst hefir verið svo — og hét að lokum að hlýða mér aldrei framar yfir — og efndi það vel, enda var það eina huggunin mín eftir það „bekkjarpróf". Eftir það skipti enginn sér af „lærdómi" mínum í kristnum fræðum, og aldrei varð ég mér þó til minnkunar á kirkjugólfi, svo ég muni.

Öðru óláni varð ég fyrir á Kirkjuhóli líka. Ég hafði plantað 3 kartöflur ofan í fjóshauginn eitt sumar þar. Þær spruttu og báru af, eins og þær væri í garði í Gósen, og ég var hreykinn og ánægður. „Í drambsemi míns hjarta" gerði ég það glappaskot að sýna leikbróður mínum frá næsta bæ akurinn. Hann tók þessu svo, að hann sleit allar kartöflurnar upp og reyndi að rota mig með þeirri stærstu, svo ég flúði, því hann var miklu

eldri og sterkari en ég. Eftir þetta hætti ég við kartöflurækt og haugaakra á Íslandi! En lengi átti ég samt 2—3 bletti uppi á bæjarvegg, svo sem spönn á hverja hlið, og sáði í þá á hverju vori þrenns konar sáði, rúgi, byggi og baunum. Fékk nokkurra þumlunga strá — var dýrlegt, einkum baunagrasið. Ég kom að Kirkjuhóli 1917, gekk út á vallarbarðið, þar sem Skóshaugur var orpinn forðum. Steinar lágu þar enn, nokkrir, en þögðu um, hvort þeir væru mínir. Og skaðasárastur um ævina varð ég víst á Kirkjuhóli, út af kartöfluáfallinu. En fyrirbrigði varð ég þar fyrir 1917, sem ég aldrei gat skýrt, hvernig sem ég velti því, fyrr en rétt þessa stund, er ég var að hugsa um að segja þér söguna sem leyndardóm og dulspeki, en allt í einu opnast þá hólf í skúmaskoti heilans, og ég fæ ráðninguna. Frá Víðimýri reið Þorvaldur Arasen á Víðimýri með mér suður til Álfgeirsvalla, til að heimsækja fermingarsystur mína, frú Halldóru Briem. Leiðin liggur um Kirkjuhól, sú sem við fórum. Næsti bær er Kolgröf. Milli Kirkjuhóls og hennar eru melásar. 7 ára fór ég frá Kirkjuhóli. Var ekki víðförull, en kom að Kolgröf. Vinskapur var milli heimilanna. Fór þær götur sjaldan eða aldrei, eftir að við fluttum frá Kirkjuhóli. Á ásnum og utan götu sá ég stein nokkuð stóran, kannaðist við hann og örnefni hans á svipstundu og hefi þó víst aldrei um hann hugsað. Sagði Þorvaldi, að hann héti Stóri-Dvergasteinn. Annars átti að vera þar til annar, nefndur Litli-Dvergasteinn. Hann gat ég ekki hugsað upp. Nú rétt man ég allt í einu, hvað valdið hefir. Eitt sumar á Kirkjuhóli fór móðir mín með mig suður að Kolgröf. Ungur hefi ég verið, því hún ýmist bar mig eða leiddi. Á heimleið þurfti hún að smala kvífé, sem gekk í haga þar í grenndinni. Hún skildi mig eftir á meðan, undir Stóra-Dvergasteini, en tók mér vara fyrir að ráfa frá honum, fyrr en hún kæmi til baka og sækti mig, sem líka varð. Nú skil ég! — Á Syðri-Mælifellsá dró ég fyrst til stafs. Hannes móðurbróðir minn kom þar eitt sinn. Hann þótti rita góða hönd. Móðir mín bað hann að gefa mér forskrift. Ég rellaði um, að hann kvæði um mig vísu. Forskriftina, stafrófið, fékk ég, vísuna ekki. Á sama stóð, þó mamma mælti með henni. Hannes neitaði og sagði það hamla, að hann sæi það fyrir, að einhvern tíma myndi ég geta kveðið vísu betur en hann. Móðir mín skar mér fjaðrapenna og bjó mér blek úr hellulit. Ég settist við ritstörfin, en

vandi varð á: Ég vissi ekki, hvar byrja átti á neinum staf, reyndi í ýmsar áttir, en ekkert líktist fyrirmyndinni. Móðir mín varð svo að sýna mér upptökin og halda um höndina á mér í byrjun, og loks tókst mér að klóra. Síðar sögðu þeir mér til, Sigvaldi Jónsson „skáldi“ og Björn Kristjánsson „Skagfjörð“ (Hann dó vestra). Í Víðimýrarseli lá ég í lánuðu skruddunum, hvenær sem ég komst að. Las t. d. „Grútar“-biblíu mína þrisvar alla einn vetur, út úr bókaskorti. Þar byrjaði ég að lesa dönsku hjá sjálfum mér, fékk lánað lítið kennslukver, með dönskum smágreinum og íslenzkum þýðingum á þeim, mig minnir eftir Sveinbjörn Hallgrímsson. Orðabók sá ég aldrei, en áfram hélt ég að lesa með sjálfum mér það litla, sem fyrir varð, svo ég réð nokkuð í létta danska bók, t. d. skildi hér um bil „Börnevennen“, sem ég las síðar í Bárðardal. Annars var ég smali þar, í Selinu, kinda og hrossa foreldra minna, sem fátt var talsins. Við móðir mín gengum „til grasa“ að heiman á vorin í næsta fjall, Víðimýrarhnjúk, og suður á heiðar var ég sendur með öðrum í sömu erindum, norður á Sauðárkrók og Reykjaströnd, sitt hvort sinn, til að fá að fljóta með og fiska og flytja heim hestburð af soðningu, þó ekki væri ég hlutgengur, nema fyrir kunningsskap föður míns við formennina. Nálega allir, jafnvel alls ókunnugir, voru mér góðir, og tóku minn hluta í mörgu, en er oflangt mál. T. d. eitt sinn var ég sendur að heiman að leita hesta. Lagði upp í góðviðri, léttklæddur og „á tómri brókinni“ og hljóp við smalaprikið. Regn skall yfir. Hestarnir stroknir úr högum, yfir Sæmundará, upp í Grísafell. Ég náði þeim loks og rak heimleiðis ríðandi, til vaðs við Gýgjarfoss, svo sem leið lá þá. Þegar út á vaðið kom, reið hópur af höfðingjum, húnvetnskum og skagfirzkum, vestur yfir móti mér. Suma þekkti ég að sjón, en þóttist illa til reika að fara fram hjá slíkri fylgd, því skó hafði ég gengið af mér líka. Samt slapp ég yfir um orðalaust og hélt mig lausan allra eftirmála, en þá hrópar til mín, af hinum bakkanum, einhver úr flokknum og skipar mér að bíða sín. Mér þótti miður, en vildi ekki flýja og beið kyrr. Svo komu þeir allir austur yfir, snúnir við, og „kallarinn“ fyrstur og spyr mig þegar, hvort mér sé ekki „við noll“ í svona veðri. Ég sagði ekkert mark að því. Hann reiddi við söðul sinn gríðarmikið dýrshorn og mjög koparbúið, sté af baki og leysti til þess. Það var fullt með

vín, og húfan yfir stútnum notuð fyrir bikar. Hann hellti í hana, rétti mér, ég renndi af og hlýnaði. Síðan rétti hann mér hálfan dal í peningum og kvaddi mig. Þetta var Jón Ásgeirsson frá Þingeyrum, nafnkunnur á sinni tíð, en ekki þekkti ég hann. Einn í hópnum var Eggert Briem, sýslumaður Skagfirðinga. „Það eru falleg augu í þessum strák," heyrði ég hann segja við einhvern þeirra, sem umkringdu mig. Sjálfur þótti hann þá eygður manna bezt, að ég hafði heyrt, og af því ræð ég, að vel eygðu mönnunum geti missýnzt líka!

Á flutningnum norður í Bárðardal sá ég tvennt nýstárlegt á Akureyri, það var reynitréð — og svín, sem Möller kaupmaður átti. Svínið var nú svona og svona, eins og guð hafði gert það, en reynitréð! svo minnistætt, að ég var að reyna að spyrja það uppi 1917, saknaði þess, en var sagt, að það hefði farizt í bæjarbruna þar fyrir nokkrum árum. Þó varð það að engu, þegar ég sá Vaglaskóg vorlaufgaðan, yfir Fnjóská óreiða. Hann verður ætíð fallegasti skógurinn, sem ég hefi séð, af öllum hundruðum, þeim sem bæði voru margfalt meiri og fegurri. Við fórum Fnjóská á ferju, en hún var nærri óferjandi. Enn sé ég hana í huganum, sundafulla, aðeins höfuðin á hestunum okkar upp úr, sem hún fleygir eins og fisum ofan fyrir allar götur, svo mér sýnist þeir muni aldrei losa sig úr streng hennar, stólpagripirnir, lausir og liðugir, en allt í einu brjóta þeir fjötur hennar og stökkva í land.

*Ýmislegt.* Eitt ið fyrsta afreksverk mitt í Bárðardal var að viðbeinsbrjóta pilt á líku reki og ég var. Sá drengur var hann samt að afsaka mig um slysið, en segja sem var, að sér væri um að kenna. Hann vildi glíma við mig; ég fann, að ég gat auðveldlega lagt hann, var þá vanari við tusk, stakk höndunum í vasana, hann sótti ákaft og datt á sínu bragði og meiddi sig. Svo illa féll mér þetta, að ég man það enn, þó ekki hefði ég orð á því þá. Í Mjóadal kvað ég mestar vitleysur. Hafði samt reynt það löngu áður. Ef til vill var það vegna þess, að þá las ég minna, færri bækur að fá og margt lesið áður, en klúðra mátti saman hendingum, hvar sem stóð. Eitt hefi ég rekið mig nokkrum sinnum á, sem ég get hvergi heimfært. Það hefir viljað til, að upp úr mér hefir dottið eitthvað, sem ég aðeins sagði sem alvörulausa öfga, til að ofbjóða öðrum og hafa þá af mér. Síðar hefir þetta orðið sannfæring mín

að mér óafvitandi, og án þess ég hafi verið að reyna að réttlæta tilsvar mitt. Vinnukona var mér samtíða í Mjóadal, kappdeilin mjög, réðst oft að mér, án þess þó að vera illa til mín. Stundum vildi ég sneiða hjá því. Eitt sinn riðum við til kirkju nokkur saman. Ég þagði, sokkinn ofan í ánægjuna, dalurinn var svo sumarfagur, veðrið svo blítt. Hún tekur þá til að lofa og vegsama biblíuna og sneri sér að mér. Ég nærri reiddist, að hún raskaði unun minni, og um biblíuna var ég ekkert að hugsa. Hún þrámælgdi, svo ég varð að svara einhverju, og það var: O jæja, viðlíka og aðrar „biblíur", t. d. Edda. Sjálfur hafði ég þá ekkert slíkt álit, og hafði ekkert heyrt né lesið í þá átt. Þetta var mitt græsku-glens. En þá tók hún fyrst til fyrir alvöru svo ég varð að verja mína öfga. Ég var þá vel kunnugur báðum bókunum. Móti hverju hennar sönnunargildi úr biblíunni færði ég líkt til úr Eddu einhvers staðar, svo henni varð örðug eftirreiðin á biblíunni, og varði þó deilan langa kirkjuleið. Nú hefi ég þá trú, að í aðalstefnunni hafi ég í rælni byggt betur þá en ég hafði sjálfur ávænu af. Þannig hefir mér oftar farið.

Í Víðimýrarseli langaði mig mjög að ganga á skóla. T. d. eitt haust var ég úti staddur í rosaveðri. Sá 3 menn ríða upp Vatnsskarð frá Arnarstapa. Vissi, að voru skólapiltar á suðurleið, þar á meðal Indriði Einarsson, kunningi minn og sveitungi, sitt fyrsta ár til skóla. Mig greip raun, ekki öfund. Fór að kjökra. Þaut út í þúfur, lagðist niður í laut. Mamma hafði saknað mín. Kom út og kallaði, ég svaraði ekki. Vildi ekki láta hana sjá mig svo á mig kominn, en hún gekk fram á mig. Spurði mig, hvað að gengi, ég vildi verjast frétta, en varð um síðir að segja sem var. Eftir þessu sá ég seinna. Mörgum árum á eftir heyrði ég mömmu segja frá þessu, en ég hélt hún hefði löngu gleymt því. Hún bætti því við, að í það sinn hefði sér fallið þyngst fátæktin. Tvisvar síðar, einu sinni heima, öðru sinni hér, hefir mér boðizt ávæningur þess, sem gat verið byrjun til skólagöngu, en ég hefi hafnað. Í öðru sinni vorum við öll ráðin til vesturfarar, svo ekki varð við snúið. Í hitt skiptið, hér, hefði ég orðið að láta foreldra mína, aldurhnigna og útslitna, sjá fyrir sér sjálf, hefði ég reynt að reyna á. Nú veit ég ekki, nema lærdómsleysið með öllum sínum göllum hafi verið lán mitt, svo ég uni vel því, sem varð.

Á Akureyri biðum við vesturfarar 1873 hrossaflutnings-

skipsferðar til Skotlands, með gömlu „Queen", mesta sædrelli, sem sökk við strendur Skotlands ári síðar eða svo, eins og sagt hefir verið um „Camoens", sem síðar flutti Íslendinga. Meðan við dvöldum á „Eyrinni", tókum við nokkrir Bárðdælir það upp að leigja okkur róðrarbát til fiskifangs og skemmtunar. Eitt sinn, snemma á „vertíð" þeirri, mætti okkur maður, aldraður og höfðinglegur, við bryggjusporðinn, þar sem við lentum. Það var Pétur Havsteen amtmaður. Hann tók okkur tali, sagði hver hann var, byggi í nágrenni við bæinn, en riði til Akureyrar flesta daga sér til hressingar. Hafði þá látið af embætti. Þessum sið hélt hann, meðan við rerum, mætti okkur á bryggjunni og ræddi um margt, mest um Ameríku, og var hlynntur vesturferðum. Eitt sinn sáum við, langt frammi, að karl stóð og beið okkar lengi á bryggjunni, svo okkur furðaði. Þegar við náðum upp, heilsaði hann okkur glaðlega að venju. Sagðist nú hafa komið með fyrra móti, til að verða fyrstur til að segja okkur fréttir, sem myndu gleðja okkur: Sézt hefði í „kíki" til „Queen" úti á firði, og myndi vera vís til hafnar fyrir kvöldið. Rétti okkur svo „mark" (16 skildinga), bað okkur að ganga upp á „Bauk" (gistihús Jensens) og drekka minni sitt, því nú myndum við aldrei oftar sjást. Þakkaði okkur kynnin og bað, að okkur farnaðist æ sem bezt. Einn dag gekk ég út á Oddeyri og við fleiri. Erindi mitt að sjá Einar í Nesi, sem þar var það sinn kaupstjóri Gránufélags. Mér leizt á hann líkt og Vögg á Hrólf konung, sat á skák og reri, og þagði löngum. Gunnar sonur hans gegndi búðarstörfum, sem voru lítil. Inn í búðina kom sjómannahópur. Einn vék sér að Einari, dró fram pening og sýndi honum, kvaðst hafa fengið hann fyrir eitthvað hjá amerískum sjómanni og bað Einar að segja sér, hvers virði skildingurinn væri. Einar leit á og rétti til baka með þeim ummælum, að bezt myndi að sýna þetta vesturförunum þarna, því að líkindum myndu þeir þekkja mynt landsins, sem þeir væru að flytja til. Í mig seig, að þetta væri ertni. Bað manninn að lofa mér að sjá, ef ske kynni, að ég þekkti. Hann gerði það. Þetta voru 25 cent (Quarter). Það sagði ég honum, og upp á hár, hve marga skildinga þau giltu. Einar sagði aðeins: Það er rétt! En Gunnar sonur hans kallaði til mín og gaf mér vínstaup! Ekkert þekkti hann víst til mín. Höfðum aldrei sézt né spurzt heita.

Um nótt í þoku, sem náttsólin skein gegnum, lögðum við út af Akureyri. Nokkrir kunningjar mínir ungir fylgdu mér á bát, sem þeir réðu. Þeir báðu mig að koma á land með sér aftur, unz skipið létti akkerum, skyldu róa með mig fram í tíma. Ég lét tilleiðast, en kom foreldrum mínum fyrir í skipi áður. Ég beið í landi til síðustu stundar. Þeir efndu heit sitt. Sungu eitthvað, um leið og þeir ýttu frá, en einhverjir farþegar á þiljum svöruðu á sama hátt. Alla nóttina og næsta dag vakti ég á þiljum uppi og leit til lands, en aldrei rauf þokuna, fyrr en að kveldi þriðja dags að blámaði fyrir öllu, sem þá var eftir af Íslandi, tveimur eða þremur þúfum, sem hurfu hver af annarri.

Það var víst annan vetur minn í Shawano County, Wisconsin, að ég réðst til vetrarvinnu í skógum úti. Nokkrir landar voru þar komnir á undan mér, 4 eða 5. Alls voru skálabúar um 60. Þegar ég kom þar, sagðist einn landinn, sem var kunningi minn, verða komu minni feginn. Ég spurði, hvað til þess bæri. Hann kvað orðbragð skálabúa um Íslendinga slíkt, að svara þyrfti til. Eina nafnið, sem minnst særði, væri Lapplendingur! Ég tók þessu ólíklega, og var það full alvara þá að hlífast við þessu. Brátt komst ég að raun um, að sagan var sönn, en komst lengi svo af, að ég átti aldrei sjálfs mín í að hefna. Reyndar var þetta ekki nema ófagur orðleikur, því að öðru leyti voru piltar þessir meinlausir við landann, jafnvel greiðviknir, enda átti hann það skilið, viljugur, trúr og dyggur. Nokkuð spillti það um, að einn landinn munnhjóst ögn við þá með siðareglum og kristni, gekk svo frá þeim orðlaus og hristi kollinn yfir ósköpunum, en það æsti þá. Einn bar þar af öðrum með orðbragðið, svo mjög, að jafnvel hinir, sem voru þó vel færir, létu oftast undan síga. Eitt skipti byrjaði sá á mér, við verk úti í skógi. Ég svaraði í sama anda, var lítt æfður, en hafði margt heyrt. Orð óx af orði millum okkar, unz þeir, sem viðstaddir voru, létu hendur fallast og hlustuðu. Einvígið stóð nokkuð [lengi] yfir, og ég flúði aldrei, því „enginn verður með orðum veginn“. Það man ég eitt, að það sem við sögðum, var, eins og „enskurinn“ segir, „ekki eftir hafandi í siðaðra manna samsæti“. Daginn eftir byrjaði sami maður á öðrum landa líkt, sendi honum tóninn úr fjarlægð. Ég gall á móti. „Hver svarar mér nú?“ kallar hann. „Ert það þú, Stefán?“ Ég sagði svo vera. „Já,

þá þagna ég! Þú spillist verr með hverjum deginum.“ Þar með lauk, og batnaði nokkuð um málfærið eftir það. En eitt er víst: Reynist það rétt, að einhvern tíma í framtíð verði maður að „standa reikningsskap af hverju ónytjuorði, sem maður hefir talað“, veit ég, hvar ég lendi: í vistarveru hjá Jack Castelo, svo hét hann, en kvíði því ekki, því eftir þessa hrinu vildi hann allt fyrir mig gera.

Þegar ég var í söfnuði séra Páls í Shawano County, vann ég um tíma í skógi með tveimur löndum mínum, á líku reki og ég og lærðari miklu og tilvonandi prestum þá. Oft deildum við, þeir saman, ég einn, ætíð um annað en trúarbrögð. Ég byrjaði sjaldnar, sökum liðsmunar! Eitt sinn tóku þeir til að hrósa Opinberunarbókinni. Ég lagði ekki til. Loks sneru þeir máli sínu beint að, hvert mitt álit væri. „Æi,“ svaraði ég í glettni, „verið þið nú ekki að þessu oflofi, piltar, um Opinberunarbókina, hún er enginn helgur spádómur, en aðeins eins konar „Gandreið“ eða „Heljarslóðarorusta“ eftir einhvern Gröndal þeirra tíma og um hans samtíð.“ Svarinu „rigndi ofan í mig“ óhugsuðu áður, en hafði þann árangur, sem ég ætlaði: Þeim ofbauð og hættu við umræður. Næst er ég kom til messu hjá séra Páli, lagði hann mjög út af óskeikun biblíunnar og hættunni, sem þeir stæðu í, sem efuðu hana, svo sem þeir, sem líktu Opinberunarbókinni við „Gandreið“ Gröndals. Mér lá við að hlæja. En jafngóður var Páll mér eftir sem áður, og aldrei minntumst við á þetta. Nú er ímyndun mín sú, að Opinberunarbókin snúist um tímana, sem höfundur hennar var uppi á.

Litlu eftir að ég kom til Alberta, var ég nefndur til að taka áratuga-manntalið hér, á litlu svæði. Eyðublöðin voru lögð til, en flókin voru þau fyrir óvana og ýmsar skýrslur að auki. Manntalsstjóri hér í fylki boðaði öllum lægri liðum tilsagnarfund. Ég komst ekki á hann sökum illviðris og langleiðis, varð að sætta mig við það, sem mér sjálfum skildist. Skila varð ég skýrslu minni í hendur höfðingjans sjálfs í Calgary og mæta þar augliti til auglitis. Hann tók mér vel, en fyrirbauð mér heimferð, fyrr en hann hefði rannsakað, að rétt væri að farið. Flestra skýrslur væru meira og minna rangar, jafnvel hjá þeim, sem annars væri af að vænta, til dæmis væri hann búinn að sitja við í viku með einn, og yrði þó aldrei eins og vera ætti. En koma mætti ég til sín daginn eftir, hann skyldi

þá vita, hver forlög mín yrðu. Mér leizt illa á blikuna. Þegar ég kom til hans næsta dag, sagði hann, að ég mætti fara heim, skýrslur mínar virtust að vera gildar og góðar. Ég varð feginn. Tók far heim samdægurs. Þegar ég var setztur niður, kemur karl í vagninn, sem ég var í, og sezt hjá mér. Var á ferð í sömu átt og ég. Hann tók að spyrja mig um, hvaðan ég væri runninn, menntun mína o. fl., svo um kyn, stjórn, sögu og trú Íslendinga. Ég svaraði því eins og ég vissi. Loks segir hann: „Nú skal ég segja þér eins og var. Af milli 70 til 80 skýrslum, sem mér hafa enn borizt, var þín sú þriðja bezta. En hvernig stendur á þessu, að þú, óskólagenginn útlendingur, getur gert það, sem innlendir og skólagengnir menn flaska á?“ Ég afsakaði mig að svara því. — Þegar ég vann við landmæling hér í Alberta, hvarf sá skyndilega frá, sem dagbókina („field notes“) hélt. Samverkamaður minn laumaði því að mér, að húsbóndinn hefði ráðið að láta mig taka við. Ég brosti að því og efaði. „Það er áreiðanlegt, og af því gert, að enginn í hópnum er fær um þetta, nema þú.“ Ég gat tæplega trúað því, að kringum 10 manns, allir innfæddir hér og eitthvað skólasmognir (jafnvel þó franskir væru að ætt, sumir, og fáfróðir allir, að mér fannst) væru í þessu miður færir mér. Þetta varð samt úr. Hefði ég neitað, hefði ég verið rekinn. Húsbóndinn var gæðamaður, en þoldi illa annarra ráð en sín. Aldrei hafði sá, sem á undan mér var, getað gert bókina honum til geðs. Var þó, meðal annars, útskrifaður af verzlunarskóla. Aldrei fann húsbóndi að við mig, svo ég slapp vel. Að ég slampaðist svona í bæði skipti og oftar, er ekki mínum yfirburðum að þakka, heldur skólunum að kenna. Fyrirkomulag þeirra er þannig, að það gerir of mörg barnshöfuð að eintrjáningum.

Þegar ég kom fyrst á „mælinguna“, tók ég við af manni, sem yfirgaf; var mér fenginn hestur hans og kerra til milliflutninga. Samverkamenn mínir voru margir Kanada-Frakkar, og svo var húsbóndinn. Fyrsta daginn, sem flytja sig átti og ég fór að leggja á og spennti jarpa hryssu fyrir, tóku Frakkarnir að tala og hlæja, eins og Frakkar geta bezt. Ég vissi, að það átti við mig, en skildi ekki, hvað að var, né lét sem ég tæki eftir þeim. Þegar sprett var af um miðdegi og aftur lagt upp, tóku þeir enn til, en nokkru hægara, og í hvort tveggja skipti þögnuðu þeir alveg, þegar upp var lagt. Mér var skipað rúm

fremst í lest. Næsta morgun bryddu þeir enn á sama, þegar ferðbúið var, en miklu minnst. Ég skeytti því engu og minntist aldrei á. Þegar úti var um haustið og við kumpánar skildum, spurði einn Frakkinn mig í heyranda hljóði, hvort mér léki ekki forvitni á að vita, hvað til hefði komið, að þeir létu svo, því var hefði ég orðið að verða við það. Ég sagði, að mér hefði staðið á sama þá og eins væri nú. Hann sagðist samt verða að segja mér það. Hryssan, sem ég keyrði, hefði verið rammstöð hjá Caron, sem keyrði hana á undan mér, svo að aldrei hefði hún ekizt úr sporum fyrst í stað, á annan hátt en að leysa hana frá kerrunni aftur og þeyta henni ríðandi góðan sprett, en oft orðið tafir að. Nú hefðu þeir búizt við, að hún gerði mér sömu skil, en orðið vonsviknir og þá hætt. Þetta var og satt, ég rak mig á það árið á eftir. Hún var fengin í hendur öðrum en mér og tók upp aftur sínar kenjar, og [var] fargað litlu síðar. Gaman væri að vita, hvað það var í skapgerð hryssunnar, sem breytti henni svona, en það get ég ekki, og hvorki er ég hestamaður né keyrslugarpur, svo ekki var því til að geta. En hitt er víst, meðan ég kann að muna, verður mér hlýtt til gömlu, jörpu „Nellie“ (svo hét hryssan) fyrir að hlífa sér við að láta mig verða að athlægi.

*Of fáorður.* Hefi rekið það af mér yfir á hinn öfgann. Afsaka mig á sama hátt og sagt er af Walter Scott. Hann ritaði bók, sem þótti lopakennd og leiðinleg. Af *honum* var ætlazt til betra. Hann var spurður að, hví hann hefði haft bókina svona langa. „Af því ég hafði engan tíma til að hafa hana styttri,“ á hann að hafa svarað.

*Athugasemd.* Þar sem ég nefni séra Friðrik, á ég við séra Friðrik Bergmann. [1922]

## Úr „Skólasögunni“.

Það er rétthermi, við Jón heitinn „Múli“ (Jónsson Hinrikssonar) vorum einn mánuð samtíðis hjá séra Jóni Austmann á Halldórsstöðum í Bárðardal, veturinn næstan áður en ég flutti vestur, og Halldór heitinn Jónsson, sem síðar varð bankagjaldkeri. Við þrír lásum saman upphaf til enskunáms. Samtímis okkur einnig var Friðrik heitinn Bergmann, síðar prestur vestan hafs, og Pálmi heitinn Pálsson, síðar menntaskólakennari. Þeir voru að „læra undir skóla“, eins og það var þá nefnt.

Mér fannst Jón skarpnæmastur okkar þriggja, einkum framan af. Ég dáðist að, hve fljótt honum lá nám í augum uppi, en virtist eins og úr því drægi nokkuð, er lengra lék. Góður drengur og skemmtilegur. Urðum mestir mátar. Halldór var nokkru yngri en við Jón, og vandaðastur af okkur og vel næmur og gæddur fagurri söngrödd þá. Friðrik var glæsilegastur okkar allra og glaðværastur. Pálmi og ég vorum drumbslegastir oftast og veit ég ei, hvor var meiri þumbari, líklega ég. T. d. við gerðum það bara af þægð, en af engu eftirlæti, ef við dröttu[ðu]m fram á gólf með vinnukonu í þetta, sem þær nefndu „dans", en sem við vissum varla spor í. Hinir gátu brokkað af ánægju.

Þennan tíma var þar líka gestur á heimili, Guttormur Vigfússon prestlingur, síðast prestur á Stöð, 1917, að mig minnir, en þá hittumst við aftur á Hallormsstað. Hann hafði átt þangað ferð. Spurði til mín og beið einn eða tvo daga til að fá „að sjá skepnuna", að hann sagði mér. Var þó furða, því ekki mundi hann mig frá Halldórsstöðum. Séra J. Austmann varð fyrsti tengdafaðir hans. Því var hann okkur samtíða á Halldórsstöðum. Hann hlýddi okkur yfir „og merkti stílana". Friðrik og Pálmi lásu landafræði, fornaldarsögu Melsteðs, byrjun til þýzku og latínu, gerðu stíla í dönsku og íslenzku. Ég man, að Guttormur hældi oft íslenzkustíl[um] Pálma, og að hann merkti þá oft hærri tölu en Friðriks. Hann fór líka yfir enskunám okkar hinna. Hann kunni enga ensku þá. Hann sagði mér svo sjálfur. Hafði lesið eitthvað í frönsku í skóla. Sagðist lesa með okkur, aðeins til að „læra af okkur", eins og hann kom orði að því. Þegar ég hitti hann á Hallormsstað, hafði hann lagt ensku fyrir sig og var í óðakappi að lesa rit Tómasar Carlyle — góður og glaðvær og bjartsýnn, aldurhnigni og heilsulausi mæðumaðurinn. Ég bæði kenndi í brjósti um hann og dáðist að honum fyrir þolgæði hans. Hann var hvatfær á Halldórsstöðum, ungur þá.

Vestan hafs vorum við Friðrik löngum kunnugir og lengst af sveitungar. Oft bar okkur á milli. Aldrei vissi ég til, að óvild yrði úr því, jafnvel þó í kapp færi. Hann varð mér því vinveittari sem lengra leið á ævi okkar.

Pálma hitti ég í Rvík 1917. Hann bað mig að koma heim til sín. Það gerði ég eitt kveld, ófyrirframboðað. Hann tók mér sem heimamanni sínum. Við röbbuðum á nótt fram,

mest um Halldórsstaðaveru okkar. Hana hélt ég mig nokkuð vel muna. Á hinu furðaði mig: hann mundi vel líka og gat jafnvel minnt mig á. Að tvennu spurði ég hann, hví hann hefði aldrei ritað neitt að marki í sínu aðalviðfangi, íslenzkunni, lét hann skilja, að mér þætti það áskortur. Hann sagðist aldrei hafa haft áhug á því. Hitt var: hvort þeirra færu ekki enn bréf á milli, séra Friðriks og hans. Vissi, að þeir voru lengi mátar og rituðust á. Hann kvað ekki svo vera þá, en hefði lengi staðið, en loks slitnað upp út úr trúmálum, á þeim árum, þegar séra Friðrik þótti þar íhaldssamastur.

Við Jón Múli skiptumst bréfum á eitt sinn eða tvisvar, eftir vistina saman. Því lauk, þegar ég fluttist vestur, og aldrei hittumst við, svo að fundum bæri saman.

Halldór heimsótti ég um vorið eftir, að bón hans. Með mér voru börn föðursystur minnar, Guðnýjar á Eyjardalsá, þau Guðni og Helga. Við vöktum nótt á Bjarnastöðum. Ætluðum að ganga Skjálfandafljót á ís, beint yfir að Mýri. Þegar að fljótinu kom, var ísinn allur jaka-floti. Hláka var á. Samt réðumst við yfir og tókst það slysalaust. Þegar yfir kom, stóð Jón bóndi á Mýri á fljótsbakkanum, hafði hlaupið að heiman, þegar til ferða okkar sást, og heilsaði okkur svo, þegar við náðum landi, að skilið ættum við að vera tekin þar og kaghýdd fyrir fíflskuna. Jón var inn mesti gætnismaður til orðs og æðis. Þessu hafði ég gleymt, en Helga frænka mín mundi það enn, þegar ég kom heim. Þetta voru síðustu kynni okkar Halldórs.

Ég held Jón (Múli) hafi í þá daga, sem við kynntumst, verið ætlaður til skólanáms. Hann var okkar fjölkunnugastur ýmsu þess konar stafrófi. Hafði átt við byrjun til þýzku, latneskrar málfræði og fleira, en ekkert framhald orðið. Hann hafði líka lært 30 „tíma“ í *100 Timer i Engelsk,* sem var okkar skólabók, áður en við byrjuðum saman. Eiginlega var kennslan engin, nema bókin. Við hlýddum hver öðrum yfir lærdóminn, en gerðum þýðingarnar hver út af fyrir sig, og bárum okkur ekki saman um þær fyrr en eftir „yfirheyrslu“ Guttorms. Honum var létt að leiðrétta stílana, þeir voru prentaðir sér, eins og þeir áttu að vera, í „Nöglen“, kveri sem fylgdi og hann hafði undir höndum.

Séra Jón Austmann skildi ensku nokkuð. Var talinn fær í henni, og líklega verið það framar vonum, fyrir sjálfs-tilsögn.

Sagði sér hefði veitzt hún létt lærð, sökum latínukunnáttu sinnar. Þó var framburði frekar ábótavant og til bar það, að hann gat ekki leyst úr á bók, sem ég las, þegar mig þraut, helzt auðvitað þegar til alþýðumáls var brugðið. Séra Jón var bæði tígulegur maður og fríður á velli og prúðmannlegur og kurteislega broshæðinn. Mér er sem ég sjái hann, þegar hann svaraði stráknum, sem hélt, að „fiskurinn væri æðsta dýrið", og sem þú minntist á og ég hafði heyrt og munað. T. d. var hann eitt sinn að tala við mig um embættisbróður sinn, sem var orðlagður fyrir að vera ölkær. „Mér leiddist hann mest," sagði séra Jón „þegar úr honum var rokið. Þá fékk hann svo mikla brennivínssamvizku á eftir. Einu sinni í slíku kasti bað hann mig að segja sér bróðurlega, hvort ég gæti ímyndað mér, að slíkur syndaselur sem hann væri myndi geta orðið sáluhólpinn." Ég gat varla að mér gert, en spurði þó: Hverju svöruðuð þér? „Ó, ég bara sagði, ósköp rólega: Ætli að það slarkist ekki einhvern veginn af?" Ekki hló hann, en svipurinn sagði til.

Góður var séra Jón mér, ekki síður en öðrum. Væri ég gestur, sótti hann mig og setti til borðs með sér í betri gestaröð sína, sem mér var þó aldrei um. Ég var aldrei framgjarn, og var feiminn í þá daga. Við lækningar fékkst séra Jón, var „hómópati", áður „allópati", en varð, sökum kostnaðar, að sagt var, að fella sig við það, sem átti við ódýrari lyf. Vel þótti honum oft takast, einkum meðan hann var „allópati". Í Mjóadal varð ég eitt sinn undir hans læknishendi. Flökkuveiki gekk eitt sumar, sem hann og allir nefndu „gallsótt", sótthiti og grimmt „tak". Ýmsir dóu. Ég var kvíasmali, annan hvern morgun, móti vinnumanni öðrum, og hvert kveld. Þurfti á ról að morgni, um kl. 4, áður en „Mývatnsvargurinn" fór á fætur og ærnar flúðu ofan í grófirnar. Einn morgun vakna ég „altekinn", þyrstur og logandi. Belgdi fulla blönduskál. Það var [á] mánudagsmorgun. Ég missti strax rænu. Rámaði aðeins í, í þoku þó, að ég sæi móður mína við rúmið mitt. Hún var þá vinnukona á Mýri. Og mér fannst ég sjá séra Jón Austmann og heyra hann segja við hana: „Það lítur tæplega út, að hann lifi það af, þó sárt sé með svona myndarlegan dreng". Seinna vissi ég, að rétt var. Um næstu helgi hafði mér létt og var með ráði. Séra Jón vitjaði mín þá aftur. Í Mjóadal var hreppskarl, Kristján fótalausi, kallaður „Nuff". Lá úti og kól. Sag-

aðir af fingur og fætur. Hafði verið ódæll, og var hvorki greindur né geðmjúkur. Karl átti rekkju andspænis minni. Hafði orðið lasinn líka og lá fyrir. Séra Jón sneri sér að honum og spurði mjög hæversklega: „Hvernig líður þér, Kristján minn, ertu sárveikur?“ Karl varð önugur, lét illa yfir heilsu sinni, enda kvað hann enga batavon sökum næringarleysis síns, en karl var matheill. Séra Jón spyr, hvort hann hafi ekkert nærzt í morgun. Að vísu, en ekkert að ráði. Já, en gat hann sagt hér um bil, hvað lítið það var? Það var ekki nema tveggja marka skál af skyri og mjólk, tveir eða þrír fjórðupartar af flatköku, og hálfur smáfiskur, og Kristján hafði orðið að skila þunnildisstykkinu aftur, sökum lystarleysis. Ég vissi, að þetta var satt, hafði séð það. Séra Jón leit undan og til mín. Spaugið skein út úr honum og svari hans: „Það má ekki búast við bráðum bata, meðan svona er.“ Ég hefi oft verið næmur fyrir því, sem mér þótti skrítið. Mig greip hlátur. Séra Jón tók mér strax vara fyrir. Sagði hættu á, að mér þyngdi aftur. Þetta kom fram. Ég lá enn í viku og missti aftur ráð. Svo raknaði ég við, en var svo máttfarinn, að mér var fyrirboðið að hreyfa mig út úr húsi. Nokkru síðar vorum við Sigurbjörg föðursystir mín ein heima. Hún við frammiverk. Ég stalst út. Skjögraði niður völl, ofan að Mjóadalsá, stuttan spöl. Lagðist niður. En varla hefi ég í verra komizt en að hafa mig heim. Hélt ég „yrði til“ á túninu í bezta veðri. En, eftir þetta fór mér dagbatnandi, þó „systir“ setti ofan í við mig fyrir úthlaupið.

Vel héldum við piltar okkur að lestrinum á Halldórsstöðum. Lásum kvelds og morgna. Við lögðum af. „Hvergi hefi ég orðið mat mínum fegnari.“ Jón lauk við bókina. Hafði lesið nokkuð áður. Ég lauk ekki við alveg. Las heima á tómstundum hjá sjálfum mér, það sem eftir varð. Halldór komst ögn skemmst. Á þessari ensku, slík sem hún var, fleytti ég mér þegar er vestur kom, hér um bil vandræðalaust. Skildi þó betur á bókina. Heima las ég, á ensku, „Norðurför Schaffners“ (Til Svalbarðs eða Jan Mayen, minnir mig). Arnljótur séra Ólafsson var í þeirri för. Stutt bók og hroða-leiðinleg byrjanda. Hálfvísindaleg. „The Vicar of Wakefield“ las ég líka á ensku. Fátt var um enskar bækur.

Við piltar lékum okkur úti, meðan sofið var í rökkrinu. Höfðum þá, hvort sem var, ekkert ljós. Fundum sleðagarm.

Fórum „hátt í hlíð“, settumst á og renndum okkur niður. Heimasætur og vinnukonur slógust í sleðaferðirnar og þótti allskemmtilegt. Vandi nokkur var þó á. Fjóshaugur mikill var á vegi okkar, og við piltar stýrðum á þann hátt, að einn okkar dró fætur útbyrðis eftir fönninni, laust eða þétt, eftir beygjum eða beinni leið. Skófrekt nokkuð! En sneiða mátti utan við hauginn, ef ekki sátu of margir á reiðinni. Einu sinni steypti ég öllum hópnum í hauginn! Hann var frosinn, svo enginn ataðist. Næsta kveld bað ein stúlkan að láta Stefán ekki stýra, hún kynni svo illa við að ganga með honum í eina sæng í fjóshaug! Sá ljóður á ráði mínu, eins, stóð þó ekki lengi. Hinum varð sama á síðar. Að síðustu meiddi Friðrik sig svo í fæti, að hann gekk lengi haltur.

Fyrir fáu kveið ég eins að koma heim sem því, að koma að kotunum, sem ég ólst upp á, öllum í eyði, fjórum alls. Ég gat þess við dr. Guðm. Finnbogason, að mér fyndist ég standa í sporum drauganna fornu, sem eyddu bæina. Hann sneri því óðara svo, að hitt væri nær, að enginn hefði unað þar eftir minn dag. Allra rústanna vitjaði ég þó, nema Syðri-Mælifellsár. Bárðdælir fylgdu mér fram í Mjóadal. Enn kannaðist ég við húsaskipan af tóftarbrotunum. Fann hornið, þar sem rúmið mitt stóð forðum, og sat þar um stund. Tók mig út úr og gekk einn ofan að á, sömu leiðina, líklega, sem ég vappaði forðum veikur. Þeir, sem mér fylgdu, voru svo vænir að bíða mín kyrrir. Svo lögðum við upp, seint um kveldið, norður að næsta bæ, Mýri, og þar var vakað mikinn hluta nætur. Um daginn hafði gengið á með rosa, og drungi var í lofti. Allt í einu varð bjart og blíða yfir alla auðnina, jafnskjótt og við lögðum upp. Þannig kvaddi Mjóidalur mig. Aldrei skildi ég hann eins vel og þá, þegar hann blasti þarna við sumarkveldsólinni. Dalurinn var að blása upp, þegar ég dvaldi þar, síðustu tætlurnar langt sunnan af söndum. Eyjarnar í urðunum, „torfurnar“, sem eftir stóðu í hlíðunum og sem ég mundi, voru orðnar enn minni, eða alveg horfnar. En þar sem áður var autt, blásinn sandur, glóði nú við nýgræðingur í sléttu fjallsfanginu milli sundurtættra barðanna gömlu: eyðileggingin að vinna að uppgróðri!

Í Mjóadal varð ég „hellismaður“. Fann hann í Grjótárgili, fyrstur svo sögur færi af, sem þá væru uppi: Skúta í bergi, þriggja til fjögurra manna rúm. Ég kom þar oft, og

eina tvo sunnudaga fórum við þangað skemmtigöngu, Helga, sem síðar varð konan mín, og frænka hennar ein. Ég krotaði í bergið inni fangamörk okkar. Verr féll mér, að ég hafði ekki tíma til að koma þar við í heimförinni. Þangað var langur spölur frá rústum bæjarins, grýtt og nokkuð bratt. — Urð er nú Álfhamar!

*Afsökun.* Hér hefi ég minnzt mest á Mjóadal. Það er frá því sprottið, að líklega hefir bæði þér og öðrum þótt ég varorður um veru mína í feðrasveit minni, Þingeyjarsýslu. Það væri að von. Ævi mín þar var bæði stutt og fáförul. Í Skagafirði varð æska mín lengst. Ef til vill hefi ég nú sagt hér sömu söguleysuna mína tvisvar. Ég man ekki svo, hvað áður var sagt. Meira en velkomið! Allt mér viðvíkjandi, sem mér dytti í hug. Er hróðugur, en hissa á, að nokkur vill nýta að hnýsast um það. Allt er það svo ó[gn] viðburðasnautt. Ég veit, að það er engum til ánægju, nema þeim, sem annt er um mig. Ég kann ekki að segja frá, eins og [ég] kysi helzt. Vildi geta sagt af sjálfum mér svo, að ég segði sögu annarra. Það er svo viðsjált að snúast sífellt um sjálfan sig, en vita engin ráð til að geta gert að því í svona vöxnu máli. Ég vakna skást við, ef að einhverju er spurt, eins og til dæmis núna, viðvíkjandi kynningu minni af Jóni Múla.

*Eftir á að hyggja!* Þess gleymdi ég að geta í masi mínu um Múla-Jón minn. Eins og mér ætíð ferst við ókunnuga, var fyrrabragðið hans, að okkur varð vel saman þessa stuttu viðkynningu á drengjaárum okkar, annars hefði hún orðið minni, en þó meinlaus.

Jón var þá hagorður, og léttmælskur á rím. Eina sögu man ég um það. Ung stúlka, vinkona húsráðandanna, dvaldi í heimsókn á Halldórsstöðum nokkra daga, þegar við vorum þar. Oft var hún með í „sleðaförunum“. Hún bjóst til heimferðar. Við sváfum allir saman í einu rúmi, Jón, Halldór og ég, og lásum í rúmi okkar, oft langt fram á nótt. Þegar því var lokið, nóttina áður en stúlkan fór, stingur Jón upp á því, að nú eigum við ekkert undanfæri annað en það að yrkja saman kvæði, í kveðjuskyni, til að syngja stúlkuna úr hlaði með. Ég lézt þess albúinn, og nú var tekið til. Halldór var líka hagmæltur, en lagði víst lítið til. Hann var svo ærslalaus og ungur. Fyrst var að hugsa sér hátt og lag. Fljótt var það

fengið, úr Friðþjófssögu Tegnérs-Matthíasar: „Á hildingsgarði greru í lund.“ Kvæðið var mesti langlopi. Jón var óþreytandi, og mér þótti hneisa „að hanga ekki á honum“. Á „skáldskapinn“ get ég ekki minnzt, man ekkert úr honum, en eitthvað var hann „Trubadóra“-legur. Nóttin varð nærri að vökunótt, því nú þurfti að hreinskrifa fyrir forsöngvarann, Halldór. Hann, og fleiri með, söng svo þessa þulu úr bæjardyrum, meðan stúlkan bjóst úr hlaði. Mér er enn í minni, hve vel hann söng þá. Allt bæjarfólkið þyrptist að til að hlýða á, og var vel skemmt, ekki sízt séra Guttormi. Ég man, að hann sagði, að aðeins hefði eitt verið að, að svo hefði skilja mátt, sem við hefðum allir átt vingott við stúlkuna, því við ávörpuðum hana í fleirtölu, en ekki með „ég“, eins og fleiri ástakvæði gera.

Þessa framansögðu „skólasögu“ okkar frá Halldórsstöðum hefi ég stundum notað í stríði, þegar tilrætt hefir verið um „tækifærin“ hér vestra, móts við „ómöguleikana“ heima. Nú, jæja þá, — hefi ég sagt. — En segja skal ég ykkur sögu að heiman, sanna og hárrétta, því hún gerðist við minn handarjaðar. Fyrir æði mörgum árum voru fimm sveitapiltar saman einn mánuð á prestssetri við að taka við sinni fyrstu tilsögn hjá skólagengnum manni í því, sem nefnt er almenningsmenntun. Enginn þeirra átti auðlegð að né neina stórlaxa, — lítið, nema sjálfa sig og ætterni sitt. Þó komust þrír þeirra, sem það reyndu, upp og í gegnum æðri skóla. Tveir urðu alla sína daga „ólærðir“. Einn varð háskólagenginn, og menntaskólakennari. Annar lauk lærdómi og gerðist bankagjaldkeri. Þriðji lauk námi við ýmsa skóla erlendis. Varð prestur, rithöfundur og prófessor. Fjórði: bóndi, þingmaður, verzlunarstjóri, og í öllu atkvæðamaður. Aðeins einn af fimm varð viðutan. Ef þið getið, þá sýnið mér betri hlutföll undir líkum aðstæðum í landi hér og hrekið með því, að Ísland sé líka „land tækifæranna!“ — Þeim, sem ég átti orðastað við, hefir orðið seint um svar. Þetta kom að þeim óviðbúið. Það er merkiskaflinn í „skólasögu“ minni. [1924]

## Afsökun.

Baldur minn. Í einu bréfi þínu mæltist þú til, að ég léti þér í té allt, sem mér dytti í hug af sjálfum mér að segja. Mér

fannst til einskis að grípa, svo fátt fyrir mig komið, sem í frásögur væri færandi. En úr því ráðaleysi fer nú að rætast, ég er að láta þetta „ofgert“ við þig! og sendi þér nú „syrpu“ af sorpi, druslur úr gömlum „Fjalla-Eyvindi“. Gerðu sem þér sýnist, líttu á hann, ef þú nennir, eða berðu hann þegar á bál. Ekki veit ég, hvað kom mér til að hirða hamsa hans forðum, eins og þeir voru líka útleiknir, eftir hreppaflutninginn — líklega mér til auðmýktar, eins og Sæmundur inn fróði fjósaföt kerlingar sinnar forðum, því ekki gerði ég það mér til metnaðar, enda aldrei á hann litið, fyrr en nú, að ég rakst á hann, þegar ég var að róta í rusli mínu nýlega, og nú á hann að verða minn „asnakjálki til réttlætingar“ á þínum „dómsdegi“, eins og Jónas gat um, og ef þér sýnist svo. Ég vil, að þú sjáir mig eins og ég var, er og verð, úr því þú ert að hugsa um mig og hafa fyrir mér.

Einn af fyrstu vetrum (1882) íslenzkrar nýbyggðar við Garðar, lá ég lengst af lasinn inni. Fékk farald-veiki um haustið, gulu, upp úr ofkæling og misjafnri aðbúð. Hefi aldrei orðið samur síðan. Nokkrir tóku sig fram að stofna skrifað blað til skemmtunar. Eiríkur Bergmann varð hvatamaður þess. Winnipeg-Íslendingar héldu þá uppi slíku blaði: „Hægfara“, og Jón Jónsson Júlíus var þá helzti framkvæmdamaður í Winnipeg-félögum Íslendinga þar, og staddur á Garðar, og hlynnti að þessu. Gaf $ 5.00 til „fyrirtækisins“, með þeim formála, að Winnipeg-Íslendingum væri sent eftirrit af blaðinu, eins og gert var. Heim til mín var gengið og ég fenginn til að nefna mig „ritstjóra“, en Kristinn Kristinsson, sem þá bjó í kofa mínum með mér, tók að sér ritstarfið. Ég var frá verkum, hvort sem var, og kunni því illa að bregðast bænastað, þó til einskis væri að slægjast. Það sem fyrir blaðið var borgað, 50 cent frá nokkrum bæjum, minnir mig, var látið standa á endum við ritunarlaun og ritfangakostnað. Blaðinu var aðeins skapaður þriggja mánaða aldur í upphafi, seinni hluta vetrar, unz vorannir tækju við, sem rættist eins og ákveðið var. Nafninu réð ég gegn nokkurri mótbáru þeirra, sem vildu, að það héti betur. Ég átti þá heimili undir hálsum þeim, sem nefndir eru Pembina-fjöll í Dakota (Pembina Mountains). Það minnti mig á útilegumanninn.

Tvö ómerk atriði í ævi minni hafa haft meiri áhrif á orðstír minn en annað flest: afskipti mín af „Fjalla-Eyvindi“

og „Menningarfélaginu". „Eyvind" gerði ég „skömmóttan" — „Menningarfélagið" „guðlaust". Þarna er þá „Eyvindarsaga", eins og hún var öll til, því lítið vantar í hann, og ekkert af „skömmum"! „Menning" mín ætti sögu sér, ef ég nennti og hefði tæki til.

„Eyvindur" vann sér inn óorðið svona: Ólafur Ólafsson — einhver mesti vitmaður, sem ég hefi kynnzt um dagana — ritaði (þýddi) grein um „karpa"-klak (fiskivatn tilbúið á bóndabæjum), sem öll blöð ensk réðu til, þau sem búskap ræddu, og engir efuðu. Auðvitað vita menn nú, að það átti að græða fé á fávizku með því bragði, líkt og á „þríhöfðaða" hveitinu, sem bændur hafa verið ginntir á, fram á þennan dag, en allt var *það* óframkomið, meðan „Eyvindur" lifði. Jakob Líndal ámálgaði búreikninga í „Eyvindi". Það er erfðasynd orðin, sem allir búmenn fremja, og Jakob unni tölustöfum. Móti hvoru tveggja þessu reis Sigurður Sigurðsson með „Athugasemd". Hnippingar urðu úr, og mest í glensi; engin urðu mannorðsspjöll en í þeim þykknaði, sem þóttust varla hafa við, eins og gengur. Greind og glaðvær kona, Karólína Dalmann, lék dansa á harmóniku fyrir þá, sem léttstígir voru, og hún var, með þeim, hrókur alls fagnaðar. Ritari „Eyvindar", Kristinn mágur minn, var sporvakur á þeim dögum. Dans var haldinn, eins og oftar. Nýtt bar við: tveir ungir piltar léku á fiðlur fyrir dansinum. Harmónikan komst ekki að. „Ritarinn" gat um dansinn í „Eyvindi" og þótti svo mikið til fiðlunnar koma, að hann endaði „fréttina" á þessu: Komdu aftur, fíólín! Sittu heima, harmónika! — og „spilið búið!" Karólína sendi sjálf fylgirit út með „Eyvindi", til að jafna sakir, og hélzt svo um stund. Allt er þetta í „Eyvindi", eins langt og náði, nema rit Karólínu. Ég náð aðeins skufsu af einni druslu, eins og frúin í Rvík ykkar af andasmokknum Nielsens, danska „spiritista", og þykir mér þó miður að þurfa að eiga þátt í þeim áhalla á konuna! Þetta hefi jafnvel ég skánað þó, síðan Adam var uppi! Öll „skammaverk" „Eyvindar" eru þá þarna upptalin, en svo nafnfrægur varð ég þó af þeim og honum, að ég hefi heyrt til þess tekið, því frekar sem fjarlægð varð meiri — jafnvel hefir það stungið sér niður úti á Íslandi, svo ég varð þess var. Mér er þetta meinalaust — og þarna er þá tilefnið. — Ég varð „syndahafurinn", sem sleppt var á eyðimörkina, fólkinu til frelsis. — Blaðamennska mín

byrjaði bæði og endaði annars snemma. Innan við fermingu var ég „ritstjóri“ „Dalbúans“, sem ég skipti á fyrir „Vestanfara“ Sigurðar Jónssonar á Víðimýri og „Júlíus Cæsar“ Indriða Einarssonar í Krossanesi, en „frægur“ er ég fyrir „Eyvind!“ Þú tekur eftir, að ég kalla mig þar enn réttu nafni, Stefán Guðmundsson (Ég er nú samt ég). Ég réð ekki lengur nafni mínu fyrir „enskum“, sem vissu, að faðir minn nefndi sig Stefánsson; svo vorum við 2 eða 3 í Dakota svo að segja alnafnar. Bréf til þeirra villtust stundum til mín. Því skírði ég mig *lengra* nafni með þessari *skemmri skírn*, og hálfsá þó eftir.

Ég fékk Jón mág minn til að rita „Mylluferðina“, sem ég sendi þér. Jón skrifar lakar venju, en ekki verr en ég. Bjóst við, að ég bætti um. O, nei, hvorki nenni ég, né vil vera grunaður um að segja af sjálfum mér meira en ég kemst hjá. Ferðin ekki merkileg nema fyrir það, að hún sýnir svolítið frumbýlið hérna forðum! Hún er engin hetjusaga — og máttu brenna, ef vilt, með hinu.

Þessi kafli er þá á enda. Af honum mætti ráða (sá sem spaugsamur væri), að ég hafi orðið svo „frægur“ ritstjóri, að ég hafi neyðzt til að skipta um nafn!

NB. Að blaðsíðutal á ræflunum er ruglað, er því að kenna, að tvö eintök voru gerð, annað handa Winnipeg, hitt innanhéraðs-roð. Fleiri tölublöð saman send til Winnipeg, og blaðsíðutala því lengri. Ég hirti þau, sem heillegust voru úr hvoru tveggja. Við styttum stafrófið um y-ið, með „exi yfir höfði sér“ (ý), og hitt berhöfðaða, viljandi, til að fækka stafsetningarsyndunum í eina stóra! Ég held það væri snjallræði líka á sumum öðrum sviðum lífsins. [1925]

## Mylluferð í marz 1881.

Mánudaginn 7. marz lögðum við H. Gíslason, St. G og ég upp frá Garðar og ætluðum til Walhalla, á myllu. H. G. hafði tvo uxa og heimatilbúinn sleða, mesta bákn og þungan. Við St. G. höfðum 4 uxa og heldur léttan, heimatilbúinn sleða. Þeir H. G. og St. G. höfðu keypt hveiti á Sandhæðunum, sem þeir ætluðu að fara með, en ég fór til þess að kaupa hveitimjöl. Mikill snjór var, um og yfir 2 fet á jafnsléttu, og slóðar-

litið eða slóðarlaust part af leiðinni. Þurftum að fara í gegnum Cavalier, af því engir vegir voru beina leið til Walhalla, og var það um eða yfir 50 mílur áleiðis; annars eru ekki nema um 32 mílur þangað, ef hægt er að fara beina leið. Af því að við St. G. höfðum 4 uxa, skiptum við um sleða við H. G. og tókum hans bákn. Um kvöldið komum við til Sigurbjarnar Hanssonar austur af Víkinni og vorum þar um nóttina, næsta dag til Sigurðar Jósúa og tókum þar hveiti, H. G. og St. G., að mig minnir, og vorum þar nótt. Miðvikudag um miðjan dag komnir til Cavalier; blíðviðri var um daginn og sólbráð. Eftir miðjan dag lögðum við norður sléttuna frá Cavalier. Vegir þar góðir, nema hvað þeir voru orðnir háir, og vildu uxar þeirra H. G. og St. G spyrna hvor öðrum út af brautinni, þóttust ekki hafa pláss á svo mjóum vegi; mínir uxar litlir og bar minna á, að þeim þætti brautin mjó. Allir okkar uxar í „Yokes". Í hvert sinn sem einhver uxinn kom félaga sínum út af brautinni, máttum við keyra hálfhring út af brautinni og koma svo beint að henni aftur, til þess að koma uxum og æki upp á þennan mjóa hrygg, og gekk þetta allan eftirmiðdaginn og fram á miðja nótt. Þá vorum við komnir til St. Joseph, sem er um 8 eða 9 mílur austur af Walhalla, og áðum við þar, það sem eftir var nætur. Uxar okkar allir uppgefnir, og við sjálfsagt líka. Við höfðum bleytt skó eða bootpecks okkar um daginn. En nú var komið mikið frost, en bjart og gott veður að öðru leyti. H. G. var orðið kalt á fótum, svo við kali lá, og gátum við ekki náð af honum bootpecks hans, þar til St. G. hafði þítt þau með berum höndum sínum, og nugguðum við fætur H. G., þar til ylur færðist í þá. Þarna vorum við svo það sem eftir var nætur, og bjuggum um okkur á sleðunum; ekki man ég, hvort við gátum nokkuð sofnað, líklega ekki fyrir kulda. Næsta dag, fimmtudag, komum til Walhalla um miðjan dag; næstu nótt vorum við þar. Föstudagsmorgun lagt af stað heimleiðis, komum til Cavalier seint á vökunni, og fengum að búa um okkur á búðargólfinu hjá Miller heitnum; Magnús Stefánsson vann þar í búðinni og áttum við það honum að þakka. Þar fór vel um okkur. Laugardaginn í blindbyl til Jóns læknis, bara 5 mílur. Vorum þar nótt. Þá var ég orðinn hálf-sjónlaus af snjóbirtu. Þar fékk H. G. Jón Jónsson frá Kolgröf til þess að taka æki sitt til Sigurbjarnar í Tanganum á sunnudag. Uxar H. G.

orðnir uppgefnir. Sunnudagsmorgun lagt upp suður hæðirnar og komum við til Sigurbjarnar Hanssonar um kveldið og áðum þar, en héldum svo heim um nóttina með lausa uxana, skildum eftir ækin og sóttum þau seinna, því slóðarlaust var þaðan og heim til okkar; rákum uxana lausa á undan okkur beina leið til Hallgr. og komum þar kl. 2 um nóttina. Þaðan héldum við St. G. heim til hans, og komum þangað litlu fyrir dag. Hallgr. hafði skíði frá Sigurbirni, en við St. G. köfuðum slóðina eftir uxana, og settist ég stundum niður á harðan snjóinn, og óskaði helzt að þurfa ekki að standa á fætur aftur, en St. G. kvartaði ekki. Ekki vantaði nema fáa klukkutíma til þess, að við hefðum verið 7 sólarhringa í túrnum, og hálfblindur var ég í marga daga á eftir.

Ekki man ég fyrir víst, hvort við vorum nótt hjá Sigurði Jósúa, eða við fórum ofan til Jón heitins læknis; minnir samt, að við værum hjá Jósúa. Ekki man ég heldur, hvort þið Hallgr. fenguð hveiti báðir hjá Jósúa, eða annar þar og hinn einhvers staðar annars staðar þar í nágrenni.

Á meðan að við vorum í Walhalla, kom þar bóndi frá Cavalier til myllunnar; þessi bóndi hét Douglas og var með hesta; hann kvartaði yfir því, að Íslendingarnir hefðu skemmt veginn og sagði það með svoddan fyrirlitningu, að það særði mig, og hálfskammaðist ég mín fyrir að vera einn af þessum „Icelanders“.

*Athugasemd:* H. G. er Hallgrímur Gíslason frá Rúgsstöðum (mér finnst Rútsstöðum líklegra, þó ég viti enga sönnun á) í Eyjafirði, þá bóndi við Garðar. Walhalla er þorp næstum á landamærum Bandaríkjanna og Canada. „St. Joseph“ sömuleiðis. „Cavalier“ er þorp austar og sunnar. Engar voru járnbrautir þá til í öllu Pembina County, þar sem þessi þorp standa. Vetrar-brautir hlaðast upp af snjónum og verða háir og mjóir hryggir, svo sleðar og „teymi“ — þ. e. „team“ á ensku — hrapa út af, en niðri fyrir kafhlaup. Sérstaklega haldast uxar og örðugir sleðar illa í horfi.

# Ferðasaga frá Íslandi til Ameríku árið 1873.

## 1. kapítuli. *Ævi mín á Akureyri.*

13. júlí komumst við til staðar þess á Íslandi sem Norðlendingar kalla Akureyri, og segja sumir það sé höfuðverzlunarstaður á Snælandi norður; en þó það máske sé ekki, átti hún nú að verða Örvæntingareyri inna fyrirdæmdu, sem ætluðu að kveðja gamla Ísland og svífa á vængjum vinds og gufu vestur langt í sælli heim; því eins og allir biblíufróðir menn vita, urðum við að hrekjast þar frá einni plágu til annar[rar], þangað til loksins að okkur rann upp í austri morgunstjarnan Monsieur Walker og gufudallurinn Queen; og leizt þá sumum illa á blikuna þegar bæði voru orðin að kveldstjörnu, því það var ekki fyrr en eftir miðjan dag inn fyrsta ágúst, sem gufan upp úr eldhússtrompi Englendinga sást norður á firðinum. Flaug þá fregnin um skipkomuna eins og örvarboð um allan bæinn. Ég var staddur á „Bauk“ þegar fréttin kom þar, og hljóp eins og elding upp á brekku, sem er fyrir ofan kaupstaðinn, til að hyggja að skipinu; sáum við Tryggvi Gunnarsson og Nörreaye beykir, að það mundi vera ið eftirþráða. Leið nú lítil stund þangað til skipið varpaði akkerum fyrir innan Oddeyrina. Fóru þeir þegar fram, bræðurnir Tryggvi og Eggert Gunnarssynir, og G. Lambertsen með þeim, og komu aftur með þá fregn í land, að allir þeir, sem biðu á Eyrinni, gætu ekki komizt, enda kom það fullvel fram, eins og menn vita. Margir komu í land af farþegunum ensku, bæði konur og karlar; voru þær allar ljótar. Um kveldið fór ég í vinnu fram á Queen til að skipa upp salti með nokkrum öðrum íslenzkum. Var það þung vinna. Eiríkur Briem var með okkur. Urðum við 4 íslenzkir eftir af óaðgæzlu, þegar hinir fóru í land; þeir sem urðu fyrir því vorum við Gísli frá Mjóadal, E. Briem og Ásgeir Baldvinsson; varð síðan löng rekistefna milli Eiríks og skipherrans út af þessu, en svo fór, að við fengum bát og tvo stráka til að róa okkur í land. En þegar við vorum komnir skammt frá skipinu, fóru þeir að heimta af okkur borgun fyrir að flytja okkur og settu upp 2 rd. En af því við sáum, að við höfðum ærinn liðsmun, þar sem við vorum 4 en þeir 2, neituðum við að borga. Þorðu þeir þá ekki annað [en] að halda áfram, jafnvel þó þeir hótuðu að róa okkur aftur fram í skip, ef þeir fengju ekki

borgunina. Komumst við svo heppilega í land, upp á bryggjuna hjá grútarhúsunum; bað [ég] þá báða að fara norður og niður að skilnaði. Á borgunina var ekki framar minnzt. Næsta dag var ég í kolavinnu, og hugsaði ég þá, að við myndum aldrei losast, því ekki komum við í land fyrr en klukkan 2 um nóttina. Mér voru borgaðir 2 rd. og 4 mörk fyrir mína vinnu, en ekki kom það fyrr en daginn eftir. Þetta var nú mesti gróðinn minn á Eyrinni; að sönnu gætti ég hesta einn sólarhring og fékk 1 rd. 32 sk. fyrir það, og líka reri ég nokkrum sinnum og fékk þá stundum 2 í hlut!!! Einu sinni aflaði ég 34 til hlutar, enda var ég þá sólarhring við veiðina og fékk svo margar sjók.... á hendurnar, að þær eru nýlega grónar. En eins og þú getur nærri, þarf maður að fá sér ölkollu og fl....... þegar maður kemur syfjaður heim. Lengst af veru minni á Eyrinni var ég á nóttunni hjá Hallgrími Kristjánssyni og borgaði ég 48 sk. í húsaleigu.

Svona var þá ævi mín á Akureyri ekki sem glæsilegust. Það var þar sem þessi siðalærdómur var settur í ljóð:

Hjartkær bróðir, heyrðu mig,
Helgum fylgdu vana:
Kauptu vín en kærðu þig
Hvergi um skildingana.

## 2. kapituli. *Ferðin frá Íslandi til Glasgow.*

Að kveldi ins fjórða ágúst var ég kominn fram í fjöruna við Akureyri, til að láta flytja mig fram á skipið Queen, sem um nóttina ætlaði að leggja af stað til Skotlands með hesta þá, sem Walker hafði keypt, og Íslendingana, sem ætluðu að fara vestur og voru nú búnir að borga ferðakostnaðinn fyrir fram, að nokkru leyti í peningum, en öðru leyti í innleggi til Gránufélagsins, eins og kunnugt er. Skrifaði Tryggvi síðan ávísunina góðu, sem síðar mun verða frá sagt. Við vorum allir með einum hug að vilja komast, þrátt fyrir það þó Walker væri á ný búinn að svíkja okkur um afslátt þann á flutningskaupinu, sem hann hafði þó lofað okkur fyrir munn síns spámanns, Lambertsens, og namdi hálfu pundi fyrir hvern mann; og var því nú borið við, að Walker gæti ekki efnt orð sín fyrir það, að við Íslendingar hefðum of mikinn farangur. Þeir sem ætluðu til Ontario borguðu

ferðina aðeins til Quebec, því það[an] skyldu þeir fluttir ókeypis til ins fyrirhugaða staðar. Þóttust sumir hafa vel veitt að ná í svona góð kjör og var ekki trútt um, að nokkrir þeirri vildu draga þá í sinn flokk, sem þegar höfðu ákvarðað sig til Milwaukee. Flokkur Ontariomanna var fjölmennari, því af 153 Íslendingum, sem fóru, voru það einir 30, sem ætluðu til Milwaukee. Fyrirliðarnir Ontarisku voru þeir Ólafur frá Litlahóli, Baldvin Helgason að vestan og Friðjón Friðriksson að austan. En Þorlákur frá Stórutjörnum var okkar megin. Svona var nú ástatt fyrir okkur Frónverjunum, þar sem við stóðum á þilfarinu á Queen (Drottningunni), reiðubúnir að kveðja gamla Ísland. Og þar á þilfarinu var það sem Páll á Kjarna sneri aftur heim til kjötkatlanna íslenzku, þrátt fyrir það þó hann næði ekki aftur sumu af flutningi sínum, sem hann hafði látið flytja fram á skip um daginn. Sá ég eitthvað af þess háttar föðurleysingjum á Skotlandi, en hvað um þá hefir orðið, veit ég ekki.

Nú var farið að skoða rúmið, sem mönnum var ætlað; var þá fyrst að ganga ofan stiga framar en á miðju skipi; kom maður þá ofan til blessaðra koffortanna, sem mörg stóðu laglega á höfðinu eða lágu á hliðunum í stórri hrúgu fram og aftur eftir með rúmunum, sem voru undir báðum hliðunum í tveim röðum, önnur ofar en hin neðar. Hér var „þröng á þingi", menn þyrptust ofan með sængurfatapoka sína og tróðust ofan í rúmin, hver sem betur gat; var það þó enginn hægðarleikur, því ef maður þurfti að leita fyrir sér undir hinni hliðinni á skipinu, eður hafði verið svo ólánssamur að hátta í rúm, sem þegar var „numið", gat það orðið lífsháski að hlaupa yfir kofforta-klungrið. Ég fyrir mitt leyti fór það oftast á handahlaupum, eða brúkaði hundasund, þó ég kynni hvorugt. Fyrir neðan þetta herbergi (sem ég ætla að kalla Miðju) var hesthúsið. Stóðu klárar þar og höfðu ekki góða daga. En rétt niður undan uppgöngunni var opin glufa eða gat á botninum í Miðju, og var þar leiðin til hestanna, sem var prýdd með mórauðum strigastrompi, sem átti að leiða burtu vont loft úr hesthúsinu. En af því að gatið var vítt en strompurinn mjór, gat maður með lagi fengið góðan þef úr neðri byggð. Svona var þá þessi stofan, en til var önnur vistarvera, sem kölluð var „The Cabin for Ladies" eður „kvennaherbergi". Áttu í fyrstunni allar stúlkurnar að vera þar, en þær

[voru] heldur margar, svo sumar urðu að vera niður í Miðju hjá karlmönnunum, þvert á móti vana Englendinga, því þeir vita góðan greinarmun á kven- og karlkyni. En hér fór öðruvísi; vildi það til, að konur lentu næst ógiftum karlmönnum o. s. frv., og bar þó ekki á, að það kæmi að sök. Þetta voru nú stofurnar. Margir af hestunum voru upp á þilfari og var það ekki gaman að komast áfram fyrir þrengslum á þilfarinu. Í stuttu máli, menn geta varla hugsað sér verri skip til að flytjast með en hestaskip. Margir Íslendingar fylgdu okkur fram, en þó fór svo, að ég gat ekki kvatt neinn af kunningjum mínum. Kl. 2 var létt akkerum; sungu þá Englendingar gamla lagið: „God save our gracious Queen", sem er sama og okkar „Eldgamla Ísafold". Var það ið eina, sem gamla Garðarsey var kvödd með, og það kom frá erlendum ferðamönnum! Alla þessa nótt vakti ég og lá fram í skut. Var vindur á suðaustan með þokurofum og dimmu. Tjörnes var víst ið síðasta, sem ég sá af ættjörðu minni.

5. ágúst fór ég að hátta kl. 5 um morguninn, og vaknaði ekki fyrr en um hádegi; var þá talsverð gola og kalt. Þá voru margir orðnir sjóveikir; voru piltar niður í kvennahúsinu að bera burtu uppsöludalla og veita konum vatn; gekk Hans gamli frá Stórutjörnum bezt fram í því. Þennan dag var ég dálítið sjóveikur og seldi nokkrum sinnum upp, en ekki þurfti ég þess framar.

6. ágúst var veður meira, seldi þá upp hver sem meira gat; þá var ég svo hraustur, að ég gat hjálpað öðrum, enda var það vinna mín um daginn.

7. ágúst. Þá var gott veður, sunnanvindur og bjartviðri. Ekki var veður hvasst. Flestir þeir, sem áður voru sjóveikir, voru nú nokkru betri, og var margt kvenfólk uppi á þilfari; þær stúlkur sem veikar voru, voru studdar og bornar fram á þiljur. Um daginn kl. 12 sigldum við fram hjá Færeyjum, sáust þær í fjarska í vesturátt og litu út sem skýbólstrar. Um kveldið komu tveir farþegar skozkir ofan í Miðju og sungu ýmis kvæði. Íslendingar sungu líka; voru þá sungin til skiptis ensk og íslenzk kvæði. Englendingar sungu „God save our gracious Queen" og „Rule Brittania", en Íslendingar „Eldgamla Ísafold" og „Ísland, Ísland, ó, ættarland"; var ið seinna sungið margsinnis, því Englar skildu það á byrjuninni, að það myndi vera þjóðsöngur.

8. ágúst. Vaknaði ég kl. 4. Sást þá land fyrir stafni; sýndist það ná langt austur og vestur, en framstafn horfði á fjörð nokkurn, sem við sáum seinna, að var sund. Vestan megin voru klettar; sást þó allt illa fyrir þoku, sem á var. Veður var hvasst á vestan og steypiregn með köflum. Þegar nær kom, sáum við, að þetta voru Hjaltlandseyjar; þær eru margar og mjög klettóttar, landslagið hrjóstrugt, snöggt og skóglaust. Margar eru þær byggðar; sá ég víða reisulega bóndabæi, og á einum bæ var hey úti, var það í drýlum, líkum þeim sem Íslendingar kalla „hrúgudrýli". Aðeins í einum stað sá ég plantaðan skógarrunna. Kýr og kindur voru víða. Á einum eða tveim stöðum voru fengnir hafnsögumenn; gekk þeim illa að komast til okkar, því veður var hvasst, en straumar miklir í sundunum. Kl. 9.30 f. m. komum við til Leerwick; var þar kastað akkerum og enskir farþegar fluttir í land. Nokkrir íslenzkir fóru hér í land og var Þorlákur frá Stórutjörnum og Stefán frá Ljósavatni í þeirra hóp. Vorum við kyrrir á meðan, og virti ég bæinn fyrir mér, sem kunnugir menn sögðu, að ekki væri stærri en Reykjavík, en miklu fleiri eru bæjarbúar, enda eru húsin þétt. Þar er stórt veitihús (Hotel), búðir nógar, og bankar. Víggirðing er fyrir norðan bæinn, með 9 vígskörðum. Á ströndinni fyrir vestan bæinn er mjög fagurt, akrar margir og fénaður; eins er fyrir utan bæinn. Mörg skip lágu á höfninni, en flest voru það smáskip (jaktir). Einn gufubátur var á höfninni, sem sigldi suður fyrir bæinn um leið og við komum. Húsin í Leirvík eru byggð fram í sjó og hanga róðrarbátar framan á gafli þeirra, sem fram veit; eru þeir látnir síga niður, þegar þeir eru settir fram, en dregnir upp, þegar upp skal setja. Hér voru nokkrir af hestum Walkers settir upp. Voru þá 5 eða 6 dauðir. Kl. 2 kom Stefán á Ljósavatni aftur fram til okkar; hann [var] einn í bát með róðrarkarli gömlum og gráhærðum ofan úr bænum. Hafði hann þá ekki verið nema litla stund í landi. Hann benti mér að koma, því karl bauðst til að róa okkur í land. Fór Ásgeir Baldvinsson með okkur; fleiri vildi karl ekki að færi. Þeir Íslendingar, sem fóru áður upp, voru kyrrir í bænum, og vildum við finna þá. Gekk allt greitt í land. Gekk karl með síðan inn í dimman skála og fór að heimta borgun fyrir fyrirhöfnina. Okkur leizt nú ekki á blikuna, en lofuðum karli að borga; lét hann sér það nægja, en spurði, hvert við

vildum nú fara. Við vissum það seinast til Friðjóns Friðrikssonar, að hann var kominn inn í lyfjabúð með lyfsala nokkrum, en hvar í bænum það var, vissi enginn. Við sögðum karli, að við vildum [hitta] landa okkar og sögðum, að einn væri þar einhvers staðar hjá lyfsölumanni. Karl varð litlu nær, því ekki var hann svo fróður, að hann vissi, hvort nokkur eða engin lyfsölubúð var í bænum. Samt leggur hann af stað og við á eftir. Er nú ekki að orðlengja það, að hann „gengur lengi, lengi“, spyr eftir Íslendingum í hverju húsi og hvern sem hann hittir á götunni, en enginn vissi neitt. Hristi karl þá hausinn framan í okkur og skálmaði svo stórum, að við gátum varla fylgt honum eftir. Loksins komum við að veitingahúsi; var Lambertsen þar þá, og túlkaði mál vort, en lítið gagn gerði það, því karl vissi ekki fremur, hvar lyfsölubúðin var. Enn var samt lagt af stað og eftir ærnar spurningar kemur karl að húsi einu og hleypur þar inn, en óðar kom hann aftur og sagði okkur hlæjandi, að hér væri Íslendingur inni. Var það og satt, því Friðjón var hér hjá lyfsalanum, sem var ungur maður og laglegur; bauðst hann til að sýna okkur bæinn og báðum við það. Sýndi hann okkur allt ið markverðasta, banka og kirkjur o. s. frv. Er bærinn mjög snotur, götur beinar og steinlagðar. Sagði hann, að bæjarbúar væru norrænir (Skandinaver) að ætt, og allir Lúthers-trúar, en nú væri fámennt í bænum, þar margir ynnu upp á landinu á sumrin. Hann sagði okkur og, að með því að koma þar við, hefðum við farið margra mílna krók. Að skilnaði sagðist hann koma fram á skip og kveðja okkur þar. Fórum við þrír síðan fram með karli okkar, sem beið eftir okkur með mestu þolinmæði, en Friðjón varð enn eftir. Þennan dag voru búðir ekki opnaðar; var sagt, að þá væri hátíðisdagur bæjarmanna, en í hvers minning veit ég ekki. Þegar við komum fram, var í óðakappi verið að skipa um steinkolum. Seint um daginn léttum við akkerum; varð þá dálítil viðstaða fyrir framan þorp nokkurt.

9. ágúst kl. 12 f. m. komum við til Aberdeen og sigldum þar langt inn í bæinn, sem er fjarska stór; er höfnin þar gerð af manna höndum og bryggjur hlaðnar svo háar, að þær voru jafnar borðstokkunum á Queen. Lá hún inn á milli húsanna. Þar voru hestarnir reknir á land; voru brýr lagðar af borðstokkunum á bryggjuna og hestarnir reknir svo upp

inn í stóra rétt, sem búin var til úr trégrindum, líkt og færikvíar heima á Íslandi. Safnaðist fjöldi fólks í kringum þá og fengu klárar margt högg hjá götustrákunum, sem allir voru vopnaðir bareflum, svigabrotum eða svipum, og líktust skríl, en ekki siðuðum mönnum. Hér kom það til orða, að við yrðum reknir á land og færum svo með gufuvagni til Granton, en ekki varð af því. Var það eitt með öðru góðu, að við vissum sjaldan, hvar við áttum að vera eða hvað að gera, því Lambertsen hefir víst fremur vantað skörungsskap en kunnugleik til að áminna og ráðleggja jafn óvönum ferðamönnum og við vorum. Kl. 5 e. m. fórum við frá Aberdeen og komum

10. ágúst kl. 2 f. m. til Granton, sem var staður sá, þar sem við áttum að skilja við „Her gracious[1]) the Queen“ (hennar náð Drottninguna) Kveið ég því ekki, því hér var við fáa vini að skilja. En nú kom að því, sem margur óttaðist, en það var, að nú skyldi farangur manna rannsakaður. Lá skipið við tollbúðina (the custum[2]) house). Snemma um morguninn kom maður fram á skipið til okkar, gráhærður og lymskulegur. Fór hann að biðja stúlkur að gefa sér tóbak og brennivín, en eins og lög gera ráð fyrir, höfðu þær lítið af þess háttar, svo karli varð ekki fengsamt. Alls staðar þar sem hann sá menn opna koffort, var hann á gægjum og skoðaði allt, sem hann náði í. Í einu kofforti sá hann munntóbaksmola, vigtaði hann lengi í hendi sinni og lagði svo frá sér. En þegar enginn sá til, krítaði hann kross og stafi á koffortið, þar sem tóbakið var. Okkur fór nú ekki að lítast á; þóttumst nú vita, að hann væri annað hvort þjófur eða tollheimtumaður. Við þurrkuðum krítina af koffortinu og færðum það til, svo karl þekkti það ekki aftur. En að litlum tíma liðnum kom annar maður til okkar, sem talaði dönsku; kvaðst hann vera tollheimtumaður (Toldbetjent) og eiga að rannsaka farangur okkar, og hinn hæruseggurinn sagði hann að væri embættisbróðir sinn. Leið nú góður tími, þangað til mönnum var skipað að bera upp farangur sinn og búast til landgöngu; fór kvenfólk og börn fyrst, en karlmenn urðu eftir til að bera farangurinn upp á bryggjuna, en skipverjar drógu hann upp úr lestinni. Var það feikna erfiði að bera upp þungar kistur og

---

1) Svo í hdr. ɔ: grace.
2) Svo í hdr. ɔ: custom.

koffort, því vegurinn var brattur, af því nú var gínandi fjara og flætt undan skipinu, svo borðstokkarnir voru lægri en bryggjan. Þegar allt var komið upp, byrjaði rannsóknin. Fundu þeir ekkert, sem tolltækt var, og hættu við, svo margir komust hjá þessari lúsaleit. Merktu þeir koffortin, sem þeir höfðu rannsakað, og var það sama merki og karlinn setti á tóbakskoffortið, er við óttuðumst mest. Þannig komumst [við] hjá þessari tollhættu. Biðum við svo nokkurn tíma á bryggjunni, þangað til okkur var sagt, að gufuvagninn væri kominn, sem ætti að flytja okkur til Glasgow. Hafði gengið illa að útvega hann í þetta sinn, svo t. d. að einu sinni var gert ráð fyrir, að allir mættu fara gangandi til Edinburgh, sem að vísu er stutt leið, en þess þurfti ekki, því kunninginn kom. Var það hér í fyrsta sinni, sem ég sá gufuvagn, en síðan hefi ég séð marga. Það er ekki gaman að lýsa þessum tröllauknu eldgígum, sem fleygjast þingmannaleiðina á fáum mínútum, en þó verður að reyna það og byrja ég þá fyrst á gufuvagninum sjálfum, sem ævinlega er fremstur, það er að segja, fari lestin ekki aftur á bak, sem oft kemur fyrir, einkum ef við þarf að snúa. En eftir vagninum endilöngum liggur fjarska víð járnpípa og þar innan í eru gufuvélarnar, sem setja í hræringu tvö stór hjól, sem standa á járnbrautinni, sitt við hvora hlið vagnsins, og rífa allt af stað með sér, þegar gufan fer að snúa þeim, en það gerir hún með því, að hún kippir fram og til baka járnteinum, sem liggja utan á vagninum og aftur snúa hjólunum. Fremst á vagninum, upp úr stóru pípunni, er strompurinn, sem kolareykinn leggur upp um, og fnæsir hann bæði eldi og ösku, en ekki ber á gneistafluginu, fyrr en dimmt er orðið. Fyrir aftan reykháfinn er enn þá vél eður pípa, sem stendur upp úr stóru pípunni; er hægt að opna hana með því að taka í streng, sem úr henni liggur; öskrar vagninn þá fjarskalega, því gufan ryðst út um opið á pípunni, en þess skal gæta, að þá er vagninn að tala (svo ekki ber að kalla hann málleysing); er það sama sem hann segði: „Varaðu þig.“ En óðara en strengurinn er gefinn slakur, lokast pípan aftur og gufan þegir. Þá er ennþá klukka, sem er hringt, þegar farið er um járnbrautir í borgum. Fremst á gufuvagninum er lukt, sem í er kveikt, þegar dimma fer, og er það greppilegt glóðarauga, þegar birtuna leggur gengum kringlótt gler, sem er á luktinni. Fram af vagninum neðst gengur þrí-

hyrnt járn og veit oddurinn fram og á hann að stanga allt frá sér, sem fyrir verður. Aftast á gufvagninum sitja tveir menn í ofurlitlu húsi eða skúr, fyrir aftan stóru pípuna; hafa þeir þar kol og kynda. Nú koma sjálfir flutningsvagnarnir; eru þeir 6-hjólaðir, sín 3 hjól undir hvorri hlið; líkjast þeir lágum og aflöngum húsum, með gluggum og dyrum á göflunum; er þeim krækt saman svo og svo mörgum og er það kallað train (ɔ: tren) (sem við getum kallað lest eður trossu), en því er krækt aftan í gufuvagninn, sem dregur það allt af stað. Tvenns konar vagnlestir eru til; heitir annað Express train (skyndilest) en annað Goods train (vöruvagnar). Expressarnir eru beztir; þar eru „stoppuð“ sæti og skrautlegt hvívetna. Þeir geta farið enska mílu á mínútu, eður 6 mílur danskar á hálfum tíma. Guds trenin[1]) eru seinni og allt verri, en þó mega vesturfarar oft fara með þeim, þegar til Ameríku kemur, en þar eru líka til vagnar, sem maður getur fengið að sofa í. Kostar það 2 dollars fyrir nóttina; eru þess háttar vagnar aftast í lestinni og eru kallaðir „Pullmans sleeping car“. Þessi vagn, sem við höfðum hér, var þannig, að það voru tveir flutningsvagnar næst gufuvagninum og voru koffort okkar sett þar upp, en þar á eftir komu mannflutningsvagnar; voru þeir því betri sem aftar kom. Ég var í inum fremsta og lakasta með öðrum íslenzkum. Var þar oft glatt á hjalla, þegar gufujötunninn þaut inn undir jarðbrýr, sem voru víða á leiðinni; varð þá allt í einu koldimmt, svo ekkert sást, en bráðum birti; sá maður þá fyrst reykinn, sem lagði eftir inni dimmu hvelfing, og þar næst kom maður aftur í ljósið og daginn. Var þá margt fagurt að sjá, gula akra og græn engi og fagra skógarrunna, sem sýndust flestir að vera gróðursettir af manna höndum; er það ekki unnt að lýsa allri þeirri fegurð, sem hér bar fyrir augu mín, enda eru Englendingar nafntoguð þjóð, og svo segir íslenzka skáldið:

Orð er gjört af aldingarði
Englafoldar — sízt vargoldið.

Eftir fáar mínútur náðum við Edinburgh, og er þar fljótt af að segja, að ég hefi ekki komið á fegri stað á ævi minni og væri hægt að fá mig til að trúa, að lestin hafi staðnæmzt í inum fegursta hluta borgarinnar. Liggur járnbrautin hér

---

1) Ritað svo til að sýna framburð.

undir fjarska stórri brú, sem að neðan sýndist öll vera úr járni. Er ekki hægt að segja, hve stór hún er, nema hún er ógurlegt jötunsmíð. Hér fórum við allir út úr vagninum, sem ekki vorum vesæl; fylgdi Lambertsen okkur til að sýna okkur minnisvarða Walter's Scotts, sem var þar skammt frá. Var góðan spöl að ganga, þangað til við stóðum frammi fyrir þessari ægilegu myndastyttu. Hafa Skotar þar reist skáldi sínu þann bautastein, sem „stendur óbrotgjarn í Braga túni". Situr Walter gamli þar undir fjarska stórri hvelfing með hvössum, himingnæfandi tindum; er það allt af steini gert og grátt að lit. Heldur skáldið á bók í vinstri hendi en penna í hægri og ritar; er hann berhöfðaður og snýr andliti vestur, klæddur stórum hvítum frakka, með uppbrotnum ermum; kraga hefir hann á herðum með mörgum fellingum. Við hægri hlið hans liggur hundur, mikilúðlegur. Mér datt í hug vísa þessi, þar sem ég stóð frammi fyrir bergrisanum:

Walter's minning helgast hér
Hamrasalur breiður,
En Snælands fjöll af guði ger
Geyma skálda heiður.

Þetta var einhver inn skemmtilegasti kafli af ferðinni. Mun flestum óvönum þykja gaman að vera á ferð eftir járnbrautunum og þjóta eins og elding gegnum borgir, akra og indæla skóga. Ef nokkuð er, skyldi manni helzt finnast vagninn fara of fljótt, svo maður hafi ekki nógan tíma til að virða fyrir sér það, sem fyrir augun ber. Á leiðinni til Glasgow var þetta kveðið:

Sól á sléttur Skotlands skín,
Skógar limi hringa.
Nú í fjarska felast sýn
Fjöllin Snælendinga.

Víða á leiðinni varð viðstaða og er það á vissum stöðum, sem lestirnar bíða við, til annað hvort að hleypa farþegunum (the Passangers)[1]) út, eða taka móti nýjum. Heita þess háttar staðir vagnstöðvar (stations). Vildi það eitt sinn til á einni stöðinni, að enskur maður opnaði vagninn, sem við vorum í (því á ferðinni var þeim læst); héldum við, að nú værum

1) Svo í hdr.

við komnir til Glasgow, og þustum út, en óðara rak mannræfillinn okkur inn í vagninn aftur, nema einn, sem hann vildi ekki sleppa inn; hélt hann, að hann væri ekki vesturfari en vildi stelast með lestinni. Var honum sagt, að maðurinn hefði vegabréf (thicket),[1]) og sleppti hann honum þá. Ruddist síðan fjöldi af Englendingum inn í vagninn til okkar og fór nú að verða þröngt; en ekki leið á löngu, þar til okkur var skipað út. Vorum við nú komin til Glasgow. Var orðið dimmt og búið að kveikja á götunum. Nú var löng leið fyrir höndum að húsi því, sem okkur var fyrirhugað, og þurftu margir að taka á því sem til var að fylgja eftir manni þeim, sem vísaði okkur veginn. Hér var ekki fátt manna fyrir; var svo þröngt á götunni, að varla gat maður komizt áfram. Voru Íslendingar hér eins og „vatnsdropi í ausu“ í samanburði við það, sem fyrir var. Fylgdi þessi sægur okkur eftir og glettust götustrákar til við suma. Voru íslenzku kvenhúfurnar orsök í því, að við fengum svo marga áhorfendur, og hlógu Englendingar dátt að þeim. Eftir langan rófuleik komumst við að húsi einu, þar sem flokkurinn var stöðvaður. Var fólkið talið um leið og það var látið inn. Hér komst allt á ringulreið; konurnar villtust frá mönnunum, börnin frá foreldrunum, og voru sett í önnur herbergi. Ég smeygði mér inn með illan leik og fylgdi maður mér í herbergi það, sem ógiftum var ætlað. En nú var það verst, að ég var þyrstur, en hér vissi ég ekki, hvar vatns var að leita, en ekki var hægt útkomu, því mér var harðlega bannað að hreyfa mig burtu úr búri mínu. Með lagi gat ég stolizt burt; opnaði ég þar einar herbergisdyr og spurði, hvort þar væri nokkur íslenzkur inni. Var mér svarað, að þeir væru þar, sem búnir væru að bíða hér í fjóra daga; var það madame[2]) Einars Bjarnasonar með börn þeirra hjóna 10 og ein stúlka önnur; var hún á vesturleið til manns síns og hafði siglt frá Reykjavík með öðrum Íslendingum, en varð eftir í Glasgow og átti að bíða okkar þar. Hér fékk ég að drekka. Litlu þar á eftir var kallað á okkur ofan í borðstofuna; var þá alheimt. Fengum við þar brauð, kaffi og egg að borða. Þar á eftir gengum við til hvílu; voru rúmin stór og allgóð; voru tveir í hverju.

---

1) Svo í hdr.
2) Svo í hdr.

11. ágúst. Fór ég snemma á fætur. Gekk ég ögn um bæinn og kom í búðir. Sá páfagauka, sem töluðu, svertingja, sem báðu beininga, asna, sem drógu vagna, menn, sem börðust á götunni, stúlkur, sem voru fullar, eplakerlingar og et cetera.[1]) Óðara en við komum út, söfnuðust að okkur strákar með bursta og svertu og buðust til að fægja skó okkar; vildu þeir hafa einn „penny" (3 og $^{3}/_{10}$ skildinga danska) fyrir vikið. Eltu þessir leiðindaseggir okkur allan daginn, hvar sem við vorum á götunni. Mætti koma mér á þá trú, að þetta illgresi spretti upp úr strætunum. Þennan dag boðaði Lambertsen okkur saman og færði okkur þá gleðifregn, að ávísunin (Vexelen) frá Tryggva væri ónýt; sagði hann, að Englendingar vildu ekki taka hana gilda; fór þá að síga brúnin á mörgum. Fór Lambertsen aftur í fjörurnar og sagði þá, að nú mundi allt ganga greitt. Ekki þóttist hann geta nú álitið eins gott að fara til Ontario eins og áður. Var nú margt umbreytt. Þenna dag fór ég í skóarabúð og keypti þar skó fyrir ýmsa; voru þeir misdýrir. Ódýrastir sjö shillings eður 3 rd. og 6 sk., en dýrastir 9 sh. 6 pence, 4 rd. 15 sk., það er að segja af þeim, sem ég keypti. Hér brugðu menn sér á banka og skiptu peningum; fengu menn 1 pound í ensku gulli fyrir 9½ dal danskan; hafa þá Englendingar tekið 4 mörk dönsk í skiptilaun (discount). Einn dollar amerikanskan gat maður fengið fyrir spesíuna. 2 shillings (84 skildinga) enska fyrir dalinn. Voru menn sviknir hér ákaflega. Sumir fengu lítinn pening fyrir spesíuna og var þeim sagt, að það væri 1 dollar í gulli, en þegar til kom, gildir þessi garmur aðeins 5 cent, en ekki fékk maður að vita það, fyrr en hingað kom; ekki veit ég, hve margir það voru, sem urðu fyrir slíku. Hollenzka og mexikanska peninga fengu sumir fyrir amerikanska. Nokkrir tóku bréfpeninga og fengu þeir 1 d. 10 cent fyrir spesíuna, og voru menn ekki sviknir á þeim svo ég viti, en varasamir eru þeir kallar. Þeir, sem ætluðu til Ontario, tóku Kanadaseðla, en Milwaukeemenn fengu peninga Bandamanna. Eru þeir auðþekktir á því, að [á] þeim stendur U.S. (United States), sem þýðir Bandaríkin, en á hinum er „Canada". Það er gaman að koma í búðir hér, því margt er að sjá, en varasamt er að kaupa hér mikið. Einu sinni lagði ég af stað til að skipta

1) Svo í hdr.

peningum fyrir pabba. Kom ég fyrst inn á banka, sem tvær stelpur héldu; vildu þær gefa mér 1 pound fyrir 10½ dal danskan, en ég vildi ekki þiggja; buðu þær mér það þá fyrir 10, en ég vildi ei; þá fyrir 9½; enn þáði ég ekki boðið; var nú ekki kostur á betri kjörum. Fór ég þá að búast til burtferðar og slapp ég út með illan leik, því þær héldu í mig og vildu, að ég skipti. Ég kom inn á fleiri banka, en fékk hvergi betra. Hætti ég því við allt saman og lallaði heim. Þeir, sem ekki skiptu peningum á Englandi, höfðu bezt úr býtum, því Páll útvegaði mönnum 1 dollar og 15 cent fyrir spesíuna, þegar til Milwaukee kom. Nú var þessi dagur á enda; fengum við loforð hjá Lambertsen að fá vegabréfin næsta morgun, því þá skyldi leggja upp á inn breiða veg til Nýja heimsins.

### 3. kapítuli. *Ferðin yfir Atlantshafið.*

12. ágúst. Þá var lagt upp frá vesturfarahúsinu kl. 1 um daginn. Yfirgáfum við nú Skotland og kerlinguna, sem veitti okkur, ölstofur, banka og búðir.

Nú gekk á mörgu. Menn týndust og töskur og pokar urðu eftir. Ég var svo heppinn að vera í þeirra tölu, sem komust slysalaust fram á gufuskipið „Manitoban“, sem lá við bryggjuna og átti að leggja af stað innan lítils tíma. Farangur okkar var kominn „um borð“ og lá hann í stórri kös á mið-þilfarinu. Sængurföt okkar tókum við hér upp og fluttum með okkur niður í herbergi það, sem okkur var ætlað. Það var ekki svo vont; uppgangan var rétt fyrir framan eldhúsið, sem stóð á mið-þilfari. Var fyrst þegar ofan kom stór almenningur með rúmum þvert eftir miðju skipi, hærri og lægri röðum, en tvö borð með bekkjum þar á milli. Aftur með báðum hliðum skipsins voru tveir dilkar, sem kvenfólki voru ætlaðir; voru þar borð og bekkir undir hliðunum, en rúmin á móti. Bjuggu menn nú um sig og báru ofan koffort þau, sem menn þurftu á að halda; hin voru sett ofan í lest. Eftir litla stund vorum við allir reknir upp aftur og taldir, og urðum við nú að afhenda nokkurn hluta af vegabréfum okkar. Fundu umsjónarmenn það „all right“ og slepptu okkur síðan niður. Nú vorum við þá komin fram á þennan ægilega gufudreka, Manitoban, sem sumir af Íslendingum kölluðu Veröldina; var það og varla uppnefni, því á skipinu voru 720 manns, en skipverjar voru eitthvað kring-

um 70. Var það 2394 tonn, eður hér um bil 1197 lestir danskar, sem er sama og 27880 danskar 10 fjórðunga vættir. Fremst á skipinu undir hápallinum var „kaahytte“ skipverja, þar næst var 1. Steerage og þá 2. Steerage, sem farþegar byggðu, þá vorum við Íslendingar í næstu „kaahytte“. Fyrir aftan okkur voru tóm „göfugmenni“! (gentlemen) og máttu frambyggjar ekki koma nálægt þeirra uppgöngu. Þar var líka veitihús og vínsölumaður; seldi hann Ale, Porter og Beer og var ekki gefið. Einn af Íslendingum varð eftir í Glasgow. Hét hann Gunnar og var frá Breið í Skagafirði. Var hann að skipta peningum inni á banka, þegar aðrir fóru af stað, en þegar hann hafði lokið við það, gekk hann til húss þess, sem við héldum til í; voru þá allir farnir. Hljóp Gunnar þá aftur til sama mannsins og gat gert honum skiljanlegt (því hann kunni fáein orð í ensku), að félagar sínir væru farnir; stökk þá bankaeigandinn af stað og fylgdi Gunnar honum. Hafði skipið þá yfirgefið bryggjuna og var komið nokkuð frá henni, en lagzt aftur. Keypti maður þessi þeim Gunnari báðum far með gufubát fram til okkar. Vildu þá skipverjar ekki sleppa Gunnari upp á Manitoban, en maðurinn setti hann upp, hvað sem hinir sögðu. Þáði hann enga borgun fyrir alla sína fyrirhöfn. Slíkir menn eru til á Englandi innan um skrílinn og bófana. Þennan dag sigldum við til Greenwich, sem er dálítill bær; skildi Lambertsen þar við okkur og sté á gufubát. Heyrðist ekkert húrra, þegar hann skildi við okkur, enda var dynjandi regn og fáir uppi á þilfari. Kl. 6.40 e. m. fórum við frá Greenwich. Nú muntu vilja fá að vita, hvað ég hafi fengið að borða hjá bróður Allan, því það var í Glasgow, sem við komumst undir hans verndarvæng. Matarsagan er hér um bil svona. Kaffi (svokallað) kl. 8 með kexi og smjöri, eður hrár grautur með sírópi. Miðdagsverður kl. 1: nautakjöt og kartöflur, stundum súpa með. Saltur fiskur með ediki og brauði. Rúsínu-„púðding“ í aukarétt á sunnudögum. The með kexi og smjöri á kvöldin. Þá fengu stúlkur graut. Og var það svona alla leiðina.

13. ágúst komum við til Liverpool kl. 2 e. m.; var þar varpað akkerum. Hér var það sem Lambertsen sagði okkur, að við, sem til Milwaukee ætluðum, mundum fá vegabréf fyrir alla leiðina, því þau, sem við nú höfðum, giltu aðeins til Quebec. En það brást algerlega. Okkur langaði til að koma

hér upp í bæinn og vorum ferðbúnir, þegar maður nokkur norskur kom fram til okkar og bannaði okkur að fara í land svona ókunnugum, því það gæti auðveldlega skeð, að við yrðum sviknir á einhvern hátt. Kvaðst hann heita Peter Bengtsen og mundi verða túlkur okkar á vesturleiðinni; sagðist hann koma aftur fram til okkar að fáum mínútum liðnum og bauðst þá til að fylgja okkur. Létum við okkur þetta segjast og biðum þangað til hann kom aftur. Gengum við skammt upp í bæinn og keyptum smávegis, svo sem hnífapör, blikkbolla og fleira, sem við þurftum nauðsynlega með. Hér komumst við sinn á hverja sundrungina; fóru sumir aftur fljótt fram með Bengtsen. Ég og nokkrir fleiri urðum eftir; fór svo á endanum, að við urðum að spyrja til vegar og létum við lögregluþjóninn segja okkur leiðina; er það ætíð vissast að snúa sér [til] þeirra í því efni, ef maður vill ekki verða svikinn. Komumst við svo klakklaust fram á skip. Var þá allt fullt af eplakerlingum, og höfðum við okkur það til skemmtunar að elta þær og sneypa fyrir hve dýrt þær seldu. Um nóttina var skipað fram miklu járni og leit það út fyrir að vera góð kjalfesta. Alltaf bættust við nýir farþegar. Þennan dag hafði skipið farið 202 enskar m.

14. ágúst. Fórum við frá Liverpool kl. 12.25 f. m. Þann dag voru þeir taldir, sem við höfðu bætzt, og vegabréf þeirra skoðuð. Seint um daginn sigldum við gegnum Orkneyjar (Falklandsöer).

15. ágúst. Sáum við Írland; höfðum við það á vinstri hönd; sýndist það vera fjöllótt nokkuð og óslétt. Kl. 4 e. m. hvarf það okkur öldungis, og með því Norðurálfan. Þennan dag glímdu Íslendingar uppi á þilfari og fengu marga áhorfendur.

16. ágúst. Um þann dag er fátt að skrifa. Var þá lengst af mótvindur, en ekki stórsjór, hliðskella um kveldið og segl uppi.

17. ágúst var sunnudagur. Þá lásum við Íslendingar húslestur, eins og heima. Þegar á leið daginn fór að hvessa á norðan og þótti sumum nóg um, því á gaf bæði að aftan og framan. Sigldum við fram hjá seglskipi, sem var á vesturleið; dró fljótt í sundur. Annað seglskip sáum við; var það á austurleið og lagði til drifs.

18. ágúst. Seinni hluta dags var þoka. Þá létu skipverjar gufupípuna öskra óaflátanlega, til að vara önnur skip við.

En um kveldið þagnaði hún, því á nóttunni þarf slíks ekki með, því þá er kveikt í luktum, sem eru dregnar upp í reiðann.

19. ágúst. Þá var norðan stormur hvass; rann sjórinn í boðaföllum eftir háþilfari. Einn [af] skipverjum slasaðist, var hann borinn blóðugur ofan af þilfari; héldum við, að holskefla hefði slegið hann niður. Seinna kom hann til. Þennan dag fór í hart með mér og matsveininum. Kom ég með bolla til hans og bað um heitt vatn; fyllti hann þá bollann með kaffikorg, sem ég hellti jafnharðan niður á eldhúsgólfið. Reiddist kauðinn af því og skipaði mér að verka hann upp, en ég kvað nei við og fór mína leið. Elti hann mig þá og vildi berja mig, en náði ekki til. Hótaði ég honum að kalla á skipherra. Fór ég síðan og hitti Bengtsen túlk og kærði málið fyrir honum. Hljóp hann til matsveinsins, sem aftur klagaði mig. Varð það dómur Bengtsens, að ég skildi aftur verka gólfið, sem ég þverneitaði, en heimtaði heita vatnið, sem ég fékk, án þess að láta minn hluta. Er það ætíð bezt að sneiða sig hjá skipsstrákum; eru þeir oftar þrælmenni. Ég hafði mér það til skemmtunar um kveldið að horfa á inn ólgandi sjó, sem streymdi aftur með skipinu í brimfextum boðaföllum. Og þegar ég var háttaður, heyrði ég glamur og gauragang í næsta herbergi; voru það diskar og skálar nágrannanna, sem voru að veltast ofan í kollinn á eigendunum, ofan af bitunum, þar sem þeir höfðu hengt þá upp; voru sumir fullir af brauði og kjöti, því ýmsir voru svo framsýnir (helzt Norðmenn) að draga mat saman, til að hafa nokkuð á járnbrautinni. Gaf ég mig ekki að slíku en fór að sofa og var það líkast sem ég væri í vöggu.

20. ágúst. Þá var herbergi okkar þvegið. Vorum við reknir eins og fé á fjöll upp á þilfar. Þeir, sem veikir voru, fengu að kúra kyrrir. Veður gott. Fengu Englendingar sér drjúgum neðan í því, einkum einn rauðnefjaður ræfill; var hann fullur á hverjum degi. Tvær enskar stelpur (flennur) sýndu íþrótt sína í því að steypa sér hnísur á þilfarinu. Var það oft á leiðinni skrítinn leikur að sjá til þeirra og skipverja.

21. ágúst. Veður gott, sólskin og norðanvindur. Var þá siglt. Þennan dag sigldum við fram hjá mörgum ísjökum; sýndust þeir fyrst líkastir skerjum, en þegar nær kom, litu þeir öðruvísi út; voru stórar víkur inn í þá og var gaman að sjá inar voldugu bylgjur Atlantshafsins, sem urðu að hníga lá-

brostnar við fætur ins norræna íss. Dönsk kerling fór að fræða mig á því, að þetta héti Isbjerg; hélt hún ég hefði aldrei séð ís fyrr. Vitrari var enskur maður; hann sagði við mig: „Plenty ice in Iceland“ — nógur er ísinn á Íslandi. Fóru sumir að kvarta um kulda og aka sér.

22. ágúst. Þá var hvöss vestangola. Veður bjart. Gott í sjóinn. Kl. 7½ um morguninn sáum við fyrst land, og eftir litla stund vorum við við aust[ur]tangann á Fagurey (Bella) og sigldum inn um Fagureyjarsund en höfðum Nýfundnaland (Newfoundland) á vinstri hönd. Var þetta ið fyrsta, sem við sáum af Ameríku, og reyndar ekki sem girnilegast, því stór ísjaki lá austan við Fagurey, sem er hrjóstrug og klettótt. Var þar enn fönn í lautum. Enga byggð sá ég þar, nema einn vitaturn; þó má það hafa verið meira. Þessu næst höfðum við Labrador á vinstri, en Nýfundnaland á hægri. Þennan dag var þýzku barni varpað fyrir borð, sem dáið hafði á leiðinni. Þann dag „útbýtti“ enskur maður ýmsum blöðum andlegs efnis milli farþega. Ég hlaut „Umvendun Páls postula“. Hlógu Frakkar mikið að þessum blöðum og kváðust vilja hafa þau með sér á náðhúsið. Um kveldið sungu skipverjar og dönsuðu. Kl. 7 e. m. hvarf okkur land; sáum við Nýfundnaland seinast.

23. ágúst. Talsvert hvass á suðvestan. Gott var þó í sjóinn. Kl. 2 e. m. sáum við aftur land á hægri hönd. Vissi ég ekki, hvort það var ennþá Labrador, eður eyjan Anticosti Seint um kveldið hlustaði ég lengi til Frakka, sem sungu; var það tröllalegt garg.

24. ágúst var sunnudagur. Þá bar margt til tíðinda. Um nóttina hafði íslenzkt barn dáið og áttu það hjón vestan úr Dalasýslu. Og var saumaður utan um það líkhjúpur snemma um morguninn og járn lagt innan í. Síðan var líkið borið af skipverjum upp á háþilfar. Kl. 10 var hringt líkhringing. Flykktust menn þá upp á miðþilfarið. Voru þá opnaðar dyr vinstra megin á skipinu og líkið því næst sótt og sett niður á þilfarið. Las þá maður nokkur ræðu á bók yfir líkinu. Sögðu sumir, að hann væri biskup eða yfirprestur héðan úr Ameríku. En hvað sem því líður, leizt mér mjög vel á hann. Að þessari ræðu lokinni, benti hann þeim, sem báru líkið, að varpa því fyrir borð. Var það gert og tóku inar .... bylgjur með brosandi faðmi á móti .... sinni og svelgdu hana sam-

stundis .... las maðurinn ræðu blaðalaust, með .... um[1]) augum og upplyftri hendi, og [að] henni lokinni var greftrunin úti. Við þetta tækifæri var kveðið. Að þessu loknu gengum við ofan í herbergi okkar og lásum húslestur. Þennan morgun var regn, sem stytti fljótt upp. Kl. 8 um morguninn sigldi hjá okkur gufuskip. Var það eitt af inum 22 skipum, sem eru á „Allan Line". Nú fengum við að sjá nokkurn hluta af ströndum Nýju Brunsvíkur, því nú sigldum við inn fjörð þann, sem liggur austur af Loirenfljótsmynninu.[2]) Þar næst sáum við nokkurn hluta af Kanada, en mjög var það óglöggt, því þokan beltaði sig yfir landinu, einkum norðurströndinni. Það sá ég samt, að landið var mjög sæbratt og skógi vaxið; sums staðar voru grænir blettir og hvít hús. Komum við nú bráðum upp í ið mikla Loirenfljót, sem er 40 mílur á breidd, þar sem það fellur út í flóann við strendur Kanada. Sýndust þær fagrar, þar sem þær brostu við kveldsólinni. Kl. 3 um daginn var haldin guðsþjónustugerð á miðþiljum; var lítið um andakt; hóuðu sumir, en aðrir klöppuðu saman lófum, eins og þegar dansmeyjar þeirra sungu einhvern daðurdræplinginn. Þess er að geta, að þetta kveld var safnað gjöfum handa borðþjónunum. Hefir það annað hvort átt að vera til þess, að þeir gætu keypt sér „einn danskan", þegar þeir kæmu heim, eða til að borga vissa tolla, sem auðveldlega geta áfallið á fólksflutningaskipum, einkum þar sem margt er af kvenfólki. Íslendingar lögðu ögn í guðskistuna.

25. ágúst var upprisudagur alls holds úr gröfinni, Manitoban, því þennan morgun kl. 7 var akkerum varpað fyrir framan Quebec. Kom morgunverður venju fyrr. Voru menn nú fljótir að borða. Síðan fóru menn að bera upp koffort sín (en það skyldi enginn gera, því skipverjar eru skyldugir til að sjá um allan farangur). Var þeim síðan fleygt ofan á bryggjuna, en þar tóku menn við þeim, sem fluttu þau á vögnum með hestum fyrir inn í tollbúðina. Hér kom Páll Þorláksson til okkar og þótti flestum það betur. Þegar búið var að keyra upp flutninginn, var farið að merkja koffort og poka; eru vissir menn, sem það gera. Þeir sem til Milwaukee ætluðu, urðu nú upp á nýtt að kaupa sér vegabréf og kostaði

---

1) Rifið af blaðröndinni.
2) Svo; þ. e. mynni Lawrencefljóts.

það $ 2 75 cents fyrir manninn. Þeir sem borguðu í dönskum peningum urðu að láta þá með grófum afslætti. Hér var það, sem margir af Ontariomönnum hefðu viljað komast til Milwaukee, ef þeir hefðu getað, en nú var þeim það ómögulegt, og er sú saga þar til, að frammi á Manitoban bauðst skipstúlkurinn, hr. Bengtsen, til að fylgja þeim til Ontario fyrir þóknun, svo sem 48 sk. danska af hverjum manni; ætlaði hann svo að túlka mál þeirra við stjórnina í Kanada. Var að þessu gengið og Bengtsen afhentur nafnalisti Ontariomanna, en ekki var hann fyrr kominn í land en hann afhenti stjórninni téða nafnaskrá. Og nú var ekki lengur hægt viðgerðar, því hefði Páll gengið í það, að allir Íslendingar færu vestur til Bandaríkjanna, hefði stjórnin í Kanada höfðað sök á hendur honum fyrir tiltækið. Þetta var svona óhappalegt. Eftir að við höfðum aflokið okkur með að kaupa vegabréfin og fá flutninginn merktan, gengum við skammt upp í bæinn og keyptu sumir sér þar að borða og kostaði það 25 cents fyrir manninn. Eru víða hús, þar sem maður getur fengið að borða fyrir þetta verð. Er það oftast einhvern tíma að deginum, að umsjónarmaður vagnlestarinnar (conductoren) kemur til manns og spyr, hvort maður vilji fá að borða. Telur hann svo þá, sem það vilja, og sendir síðan töluna til næsta matsala með einhverjum málþræðinum (telegraphen), sem alltaf liggja með járnbrautinni, fleiri og færri; er þá maturinn til, þegar þangað kemur. Ryðjast menn þá út úr vagninum og inn í borðstofuna (The dining room) og setjast að mat. En varaðu þig þá að sitja ekki yfir tómum disk, því hér fara víkingar ekki að lögum, heldur rífur hver það hann nær. En þegar þú ert rétt byrjaður að borða, kemur tollheimtarinn og orgar við eyrað á þér eins og mannýgt naut: „Twenty five cents Sir!“ (tuttugu og fimm cent, herra) og máttu þá fara að borga, en átt undir von, hvort þú færð nokkuð meira á diskinn þinn. Einu sinni sat ég yfir tómum disk og hefði ekkert fengið, ef Englendingur, sem hjá mér sat, hefði ekki hjálpað mér um bita, en svo fór, að ég fékk aldrei neitt the, en mátti þó borga mín 25. Í öðru sinni fékk ég engan borðhníf og lánaði danskur stúdent mér þá hnífinn sinn. Læt ég nú hér við sitja og byrja þar sem við vorum komnir upp í vagninn í Quebec; var þar þröngt og illt að fá sér sæti. Fór ég því með öðrum Íslending í vagn, þar sem allir töluðu

ensku; voru þeir andvígir, en ég kærði mig kollóttan og sat kyrr, þangað til minn tími var kominn.

4. kapítuli. *Ferðin frá Quebec til Milwaukee.*

Nú var ég kominn upp í amerikanskan vagn og þaut eins og elding yfir fyrirheitna landið. Fann ég það með sjálfum mér, að ég var nokkuð meiri en Móses, sem aldrei komst lengra en að sjá Gósen álengdar. Var nú gaman að sitja í vagninum og horfa yfir landið, sem allt er skógi vaxið, og liggur járnbrautin gegnum þessa myrkviðu. Víða eru rjóður, og sér maður þar akra og engjar, menn og bæi. Er ekki hægt að telja upp allt það, sem fyrir augun ber. Verð ég nú að hlaupa á ferðasögu minni, því fátt er að skrifa merkilegt, fyrr en maður kom til Cobourgh, sem var aðfaranótt ins

27. ágúst. Urðu hjón úr Eyjafirðinum þar eftir, Kristinn og Katrín kona hans, sem ól barn um nóttina; settust þau hér að þess vegna. Þennan dag komum við til Toronto og var lestin slitin þar í sundur, því hér skildu Ontariomenn við okkur; gátum við ekki kvatt þá, svo fljótt rann lestin áfram; féll mér illa að sjá þeim á bak, því þar var margur dugandi drengur. Eftir litla bið var okkur hnýtt aftan í stóra vörulest og lagt síðan af stað. Segir nú ekki af ferðum okkar framar þann dag, því ekki voru höfð vagnaskipti.

28. [ágúst]. Þá nótt vakti ég alla, því þá áttum við að fara yfir fljótið milli Port Sardina og Port Huron; langaði mig til að sjá það, því mikið var sagt af þeirri ferð. En ekki komum við þangað fyrri en snemma um morguninn. Hér eru landamerki milli eigna Breta og Bandaríkjanna. Eiga Bretar Port Sardina að austan, en Bandamenn Port Huron að vestan, og er fljót eður ós milli bæjanna, sem standa sinn á hvorum bakka. Yfir um fljótið fórum við þannig, að vögnunum var lagt fram á stórt gufuskip (gufufleka), flatt að ofan, með járnbraut; lá það eins og bryggja fram í ósinn. Hér var lestin slitin sundur og vagnarnir hafðir margir samhliða, svo lestin kæmist á öll í einu. Síðan var kynt gufuvélin á flekanum og öslaði hann yfir að hinu landinu með byrði sína, þó hann sýndist ekki laginn til gangs. Hér varð hann landfastur. Tók þá gufuvagninn sprett og þaut með lestina á land upp og inn í bæinn, en flekinn fór aftur heim til sín við góðan orðstír. Seinna um daginn sá ég hann

oft á ferðum sínum yfir ósinn og gekk hann aldrei laus. Nú vorum við komin í Bandaríkin, til Port Huron, og átti hér að skoða flutning okkar. Var okkur skipað út úr vögnunum, en lengi þurftum við að bíða, þangað til tollþjónninn fékkst; á meðan fórum við [til] norsks manns, sem seldi okkur kaffi, mjólk og brauð. Alls staðar hér kostar kaffi- og mjólkurbollinn 5 cents, sama vínstaupið og ölkollan. Um síðir var rannsakaður flutningurinn; tók tollþjónninn 10 cents af hverjum þeim, sem hafði sængurföt meðferðis. Um annan toll vissi ég ekki. Að þessu búnu fórum við upp í sama vagninn aftur, en yfirgáfum hann seinna um daginn (í Stratsford). Seint um daginn vorum við Íslendingarnir reknir úr þessum nýja vagni og skildir eftir á vagnstöð. Ég man ekki hvað hún hét. Máttum við bíða þar í húsi einu, sem stóð við járnbrautina (og haft er til þess), þangað til um nóttina, að vagn kom, sem við stigum í og átti að flytja okkur til Grand Haven austan megin Michiganvatnsins. Hér fengum við fyrst skyndivagn (Express). Get ég ekki sagt frá, hve fagur hann var, með stoppuðum sætum, og gylltu rjáfri!!! Var ég að hugsa um alla hans dýrð, þegar ég seinast sofnaði út við gluggann í sæti mínu og svaf svo vært eftir alla vökuna, að ég vaknaði ekki fyrr en snemma um morguninn inn

29. ágúst, sem var sjálfur höfuðdagurinn, hér um bil kl. 6. Var þá einhver undarlegur ókyrrleiki í vagninum, þar sem ég svaf; menn þyrptust út, sumir með ópi og fyrirbænum. Vagninn stóð kyrr (að mér virtist í svefnrofunum). Ég vissi ekki, hvaðan á mig stóð veðrið, taldi sjálfsagt, að nú værum við komin á vagnstöð og ættum að hafa lestaskipti. Greip ég upp skóna, hattinn og töskuna mína, sem ég hafði lagt frá mér, áður en ég fór að sofa, og þaut eins og elding með þetta í hendinni að þeim dyrunum á vagninum, sem nær voru; komst ég þar ekki út, svo margir voru þar að troðast ofan. Stökk ég fram eftir vagninum, en komst þar enn ekki ofan, því tröppurnar voru fullar af mönnum; hljóp ég þá í næsta vagn. En nú get ég ekki sagt frá mér nokkur augnablik. Ég varð allt í einu kófsveittur af einhverjum óþolandi hita, sem lagði um mig allan, en óðara þornaði hann og fannst mér þá ég vera að sviðna; allur vagninn var fullur með gufu, svo ég sá ekkert. Þetta skeði fljótar en ég get skrifað. Í ofboði fleygði ég mér út um glugga og kom standandi niður; varð

mér það til lífs. Hérna stóð ég skólaus og hattlaus, með blóðugt andlit og hendur; sokkurinn var sviðinn af öðrum fætinum á mér og fóturinn brenndur undir ilinni og á tánum. Ég hugsaði um þetta eins og draum og tók ekki eftir þeim, sem voru í kringum mig, sumir eins til reika, og voru að bjarga mönnum og börnum út úr vagninum, sem var allur brotinn. En allt í einu heyrði ég óp, að vagninn væri að brenna. Kom þá Páll og sagði okkur að koma hinum megin við lestina, því hefði mikið orðið af brunanum, var ekki hættulaust að vera þeim megin ég var. Stukkum við aftur fyrir lestina; var miklu fleira fólk hinum megin. Urðu þeir fegnir að sjá okkur, því hér taldi hver annan af. Nokkru af töskum og fatnaði varð bjargað; gerði Stefán frá Ljósavatni það helzt, því hann var inni í vagninum og kastaði út um gluggana sleitulaust. Læknir kom hér til okkar. Sagði hann, að ekki væri hægt viðgerðar fyrr en heim á vagnstöðina kæmi, sem var hér skammt frá, og heitir Muir. Vorum við þá sett upp í einn vagninn, sem var heill, og ekið af mönnum til bæjarins. Þar var mér fylgt inn í hús, ásamt fleiri Íslendingum. Kom stúlka þangað til okkar og spurði, hvort við kynnum ensku. Til ógæfu sagði jeg: „No Madam". Dró hún mig með sér upp á loft og átti ég að verða túlkur svenskrar stúlku, sem lá þar særð. Gat hún engu svarað mér, enda var ég nú ekki vel til fallinn að spyrja hana. Hér kom til mín læknir og batt um sár mín; gaf hann mér í staupinu líka. Var öll alúð við höfð að hressa mig við. Gekkst stúlka nokkur fyrir því; var hún eins nákvæm og bezta móðir. Svona var tekið móti okkur öllum. Eftir litla stund dó svenska stúlkan; var hún í sama herbergi og ég. Áður var móðir hennar og ein systir dauð; voru þær bornar látnar burtu úr inum ólánssama vagni. Vesalings faðirinn, sem var með í förinni, hafði þannig misst konuna og 2 börnin. Þýzk kona með barn á brjósti klemmdist milli vagna, og dó hvort tveggja. Var öllum líkunum veittur ágætur umbúnaður.

Nú er að segja frá tildrögum þessarar óhamingju. Nóttina áður en slysið vildi til, brotnaði hjól undir einum vagninum; varð þá lestin að setjast að, þangað til búið var að gera við það. Málþræðirnir voru látnir flytja fréttina, um að lestin stæði á brautinni, í allar áttir. Nú átti allt að vera óhult. En eftir nokkra stund heyrðist skrölt austur á brautinni, sem boðaði, að gufuvagn

væri í nánd. Var þá maður sendur af stað af umsjónarmanninum með veifu (signal), til að láta þá, sem á eftir komu, vita, hvað á götunni var. Nennti þessi þorpari ekki áfram og svaraði fúkyrðum, þegar umsjónarmaðurinn (conductoren) skipaði honum að halda lengra. Þoka var á og sáu þeir, sem komu, ekki veifuna, fyrr en of seint. Var þeirra lest á 30 mílna ferð (það er að skilja, hefði með sama hraða komizt 30 míl. á klukkutíma), þegar þeir fengu boðskapinn, en svo var dregið af, að hún var einungis á 10 mílna flugi, þegar gufuvagninn hljóp undir aftasta vagninn í okkar lest og braut inn næsta. Ef fullur hraði hefði verið á, myndi öll lestin hafa klofnað fram að gufuvélum. Letinginn, sem ekki nennti áfram, heitir Brown; segja dagblöðin hann í haldi, því sagt hefir verið, að hefði hann notað inar 15 mínútur, sem liðu frá því að hann fór af stað og þangað til lestin kom, hefði ekki orðið neitt slys. Okkur var engin vísbending ger, heldur sáu sumir Íslendingarnir, sem voru úti á vagntröppunum, þegar hin lestin kom í ljós. Kölluðu þeir til okkar, sem inni vorum, og forðuðu sjálfum sér. Ekki held ég, að skaðazt hafi sú lestin, sem að kom; hafði hún aðeins flutning meðferðis. Þeir af Íslendingunum, sem meiddust, voru þessir: Eiríkur Hjálmarsson úr Eyjafirðinum, Herdís frá Rútsstöðum og Kristján sonur hennar, Sigurbjörg frá Mjóadal og ég. Höfum við Eiríkur átt lengst í okkar sárum. Hin urðu fljótt jafngóð. Eftir að við höfðum dvalið nokkra stund í Muir, fórum við enn af stað með lest til Grand Haven. Var okkur, sem meidd vorum, boðið að vera hér eftir, þangað til við grerum sára okkar. Vildum við það ekki. Kl. 10 komum við til Grand Haven og fórum þaðan kl. 11½ með gufubátnum Ironsides yfir Lake Michigan, komum kl. 6 um morguninn, 30. ág. til Milwaukee. Urðum við vesalingarnir að bíða lengi fram á skipi, meðan Páll var að kvelja járnbrautastjórana til að sjá um okkur, þangað til við yrðum jafngóð. Þorgrímur Laxdal var inn fyrsti Íslendingur, sem ég sá hér, kom hann fram á skip til okkar. Þeir, sem frískir voru, fóru upp í bæinn og settist kvenfólkið að hjá Jóni Halldórssyni. Eftir langa bið kom Páll aftur, með vagn og járnbrautasjóla; vorum við keyrð á hans kostnað upp til Haraldar, sem nýlega hafði flutt sig í stórt hús. Um kveldið komu allir Íslendingar þangað og settust þar að. Læknir nokkur, sem Marteinn

hét, vitjaði okkar, og fékk [okkur] meðul. Þótti okkur þau góð og seinvirk.

9. september fóru Íslendingar út á landið, eftir 9 daga dvöl; voru þeir 18, að börnum meðtöldum. 16. september fór ég úr Milwaukee; hafði ég þá verið þar alls 15 daga. Næstu nótt var ég hjá Nilsen í Stoughton. 17. kom ég hingað. 5 daga var ég hér. 23. fór ég í vistina, en gekk úr henni eftir 10 daga vinnu inn 5ta. 14. október lauk ég við að skrifa heim.

[1873]

## Þrír viðskilnaðir.

### Joseph Hólm,

fæddur 26. júní 1870; dáinn 15. júlí 1898.
Hann var efnilegur maður, drengur góður
og sveitungum sínum harmdauði.

*Við jarðarförina.*

I.

Vinir. — Þau eru ekki á mínu valdi, kveðjuorðin ins framliðna, ef að hann, yfir djúpið, sem nú aðskilur, gæti hvíslað að ykkur hjartfólgnustu vonum sínum, látið ykkur nú í ljósi óskirnar sínar, rétt ykkur vingjarnlega hendina, eða sent ykkur síðasta kossinn.

Þegar öllu er lokið, gæti maður þá viðurkennt alla umönnunina fyrir sér, alla ástina og velviljann til sín, allan söknuðinn, sem eftir mann verður, hve hjartanlega myndi maður þá kveðja þetta erfiða líf, þennan örðuga heim, sem veittu honum þó allt, sem hann hefir nokkru sinni þekkt, af unað og fegurð, af farsæld og ást. Þau geyma þó enn allt, sem manni var nokkru sinni dýrmætt. Þá yrðu óafloknu ætlanirnar manni brennandi áhugamál, allt sem hann hefir vel og vingjarnlega til mannanna gert að innilegri bæn til þeirra um huggun og hjálp við þá, sem manni eru kærastir allra: skyldmennin nánustu — elskendurnir munaðarlausu. Aldrei myndu vinir manns og nágrannar jafn alúðlega kvaddir, né kona manns og börn finna eins glöggt til þess, að *sig* hafi hann elskað bezt af öllum mönnum — um *okkur* hefir honum þótt vænzt.

— Við, sem komum hér svona sviplega saman til að fylgja

inum látna vini okkar til grafar, skiljum kveðjuna *hans*. Ekki fyrir orðin — dauðinn er mállaus — en gegnum tilfinningar sjálfra okkar. Við vitum, að sú kveðja er: innileg blessun og þökk.

II.

Svo er þá að kveðja, fyrst leiðirnar hafa skipzt svona — *þín* í gröfina, *okkar* út í lífið aftur; *lífið* það sem þú hafðir séð björtu hliðina af, allan þann unað og gleði, sem æskan þín átti til handa þér; *lífsstarfið*, sem þú hefir aflokið, áður en fjörið var dofnað og manni fer að verða aflfátt. *Þín* er hvíldin, eilíf og órjúfanleg í faðmi grafarinnar; *okkar* er söknuðurinn, áhyggjurnar, erfiðið og misskilningurinn. Vandamenn þínir syrgja þig ævilangt, sveitin þín fámenna saknar þín. Hver burtfluttur nágranni er henni missir, hver látinn ungur efnismaður er henni dáin von; þegar vinna skal að almennum þarfamálum, missir hún nú við liðsins þíns. Þegar æskan safnast saman til skemmtana og leika, saknar hún nú eins glaðlyndasta og myndarlegasta mannsins. Þeim, sem þér unnu heitast, finnst harmur sinn bótalaus. Sé þeim það nú léttir að hafa eitt sinn átt þig. Sjái þeir svipinn þinn, sem þeir unnu, í andlitum barnanna þinna, glaðlyndið og æskufjörið þitt í hverjum gróandi vordegi — það var þeim svo skylt. Aðra huggun dirfist ég ekki að bjóða þeim hugum, sem þekkja lífið og dauðann jafnglöggt og ég, þeim hjörtum, sem hver áminning nærri ýfir, sem hvert huggunarorð næstum særir.

Af gröfinni þinni er grassvörðurinn næstum rifinn og um stund verður hún gróðurlaust flag. Seinna mun hún þó grasi gróa — gróa jafnvel betur, af því hún var tætt svona upp. Að missa þig svona ungan, sýnist eins og rifinn grassvörður af heilu ævistarfi, — en þó mun það líka eitt sinn gróa. Eitt er víst, þrátt fyrir allan söknuð og efasemdir: árangurinn af tilveru einstaklingsins týnist aldrei, þó hann sjáist ekki jafn glöggt, er tímar líða. Hann er góð og farsæl afleiðing af hverju lífi, sem er ráðvandlegt eins og þitt var, hversu stutt sem það verður.

Lífið er *stríðið*, dauðinn er *sættin*.

Svo kveðjum við þig þakklátlega, bróðurlega, hjartanlega, ástúðlega, eins og við vitum, að þú kveddir nú okkur, ef þú mættir. [1898]

## Gestur Stephansson.

Sleginn lofteldi til bana 16 ára gamall, 16. júlí 1909, að heimili foreldra sinna, Markerville, Alta.

I.

*Ritað á blómsveig.*

Hvar sem fyrir hug þig ber
Hjörtun okkar fylgja þér.

II.

*Um leið og gengið var frá gröfinni.*

Við þökkum vandamönnum og vinum hjartanlega fyrir hluttekninguna, og honum, sem hérna verður eftir, fyrir sonarlega samveru. Okkur var hann vænn sonur og systkinum sínum góður bróðir. Ég vissi hann aldrei viljandi bregðast sínum betri dreng. Lengra líf hefði getað gert hann að meiri manni, aldrei betri. Um hann er ég óhultur. Góðum manni getur hvergi farnazt illa, og allt það af honum, sem kennt gat til og illa farið um, hvílir nú í kistunni hérna og kennir sér aldrei meins. Hann hefir gert endurminningarnar mínar auðugri, og þó mér sé sárt að sjá honum svona á bak, væri þó auða skarðið í ævina mína enn þá hörmulegra, hefði ég aldrei átt hann og aldrei notið ánægjunnar, sem ég hafði af honum. Þökk og blessun mín fylgja þér, barnið mitt, meðan ég lifi.

Verið þið sælir dag eftir dag,
Duftinu háðir,
Fallnir í gröfina í fóstbræðralag,
Frændurnir[1]) báðir.

*Úr bréfi, 29. júlí 1909.*

Allt líf verður gengt, meðan hugur og hönd
Og hjartað er fært til að vinna —
Og gröfin er ljúf fyrir geiglausa önd,
Og gott er að deyja til sinna.

[1909]

---

1) Systursonur skáldsins dáinn fyrir skömmu.

## Mælt yfir moldum Margrétar Húnford.

Dáin 15. marz. — Greftruð 19. s. m. 1924.

I.

Það er að ósk annars manns, en ekki mitt eigið uppþot, að ég segi hér örfá orð. — Nokkuð, sem ég hefði viljað neita um að gera, en gat ekki. Það er líka gert í ljúfu leyfi hans, sem hér hefir talað og um langa tíð hefir haft það á hendi að mæla þeim huggun í hug, sem staðið hafa í sömu sporum og við nú.

II.

Ég ætla mér ekki að leysa þá þraut, að túlka tilfinningar þeirra, sem næstir standa þessu leiði. Þeir hafa sjálfir þann styrk, sem í því felst, að finna til þess gleggst og bezt, að hafa mikið misst. Sízt reyni ég að lesa í hug hans, sem héðan gengur nú einstæðastur, því honum fylgja nú heim minningarnar lengstar og bjartastar. Inn í þær veit ég að vefst þráður líkur þessum:

Langur dagur liðinn,
Ljósum hinztu kvöldskin slær —
Aðeins eftirbiðin!
Aftanhúmið færist nær
Þessu höfði að halla við
Hvíldarvon og næturfrið.

III.

Það er úr flokki nágrannanna hennar, gestanna hennar, í síðasta sinni, hennar sem hér hvílir, að ég mæli þessi orð. Ég veit, að það á við okkur öll að einu leyti:

Þú vissir það varla
Hve vænt um þig oss þótti,
Þann harm, er heim oss sótti,
Er hlauztu að falla —
Þá brast um byggðina alla
Í brosin okkar flótti.

Henni fylgdi sú ættarhamingja okkar Íslendinga, að

Gera sig velkomna víðast —
En vita ekki af fyrr en síðast, því:

allir þeir, sem unnt var henni að kynnast ... um hana eiga einhvers góðs að minnast. — Að efstu lokum það er: að vera sæl! [1924]

# III. Ádrepur og erindi.

## Árnað heilla.

### Ræða haldin í húsi J. Bardals nýbyggðu 1884.

Það er líklega enginn, sem skálin þessi er byrluð handa, verr til þess fallinn að mæla fyrir henni en ég, því þó ég þekki og kannist við ina fögru hugmynd í orðunum hús og heimili, ann ég samt meira nöfnunum fjöll og heiðar, öræfi og eyðiskógar, og oft hefir mér gramizt að sjá in stórkostlegu spellvirki, sem þessi stirða og sterka starfsemi og atorka mannanna hefir unnið á inni náttúrlegu eyðifegurð skógarins og grundanna. Inum blómfögru sléttum breyta þær í moldarflög, mórauð og frjólaus, og inum grænlaufga skógi í stofnber rjóður, þar sem hrúgur af hráviðarkvistum feyskna og fúna. Söngfuglarnir fælast burt af kúabauli og kindajarmi og varla heyrist „gaukur gala“ fyrir malandanum í kvörn ins fégjarna Fróða konungs, þessu síniðandi búsýsluskvaldri ins ameríkanska bónda, sem sífellt heimtar að mala að sér peninga-sæluna. En þó að mannshöndin þannig höggvi og uppræti mikla fegurð og frelsi, plantar hún þó stundum nokkur blómkorn í staðinn, með svo miklum þrifnaði og þokka, að það ber vott um snotran og smekkvísan anda þess, sem gróðursetti þau. Húsið það arna lýsir einmitt þessu. Það er haglega smíðað og vel frá gengið eftir föngum þeirra, er byggðu. Við það fríkkar nú aftur skógarrjóðrið, sem það stendur í, og byggð vor gerist við það héraðslegri. Þetta er ekkert skálaskrum, þó „punch“-reykurinn taki nú að gerast ginnandi.

Það er eitt, sem gerir mér það skemmtilegt að tala fyrir skál þessari. Þetta eitt er ekki „punchið“, eins og þið líklega haldið að sé. — Grillur! Það er heldur hitt, að hér eiga Íslendingar húsi að ráða, að hér hafa Íslendingar rutt völlu og unnið til landa. Tíu ár eru síðan, að vesturfarir vorar hófust fyrir alvöru, ið síðara skiptið, og þó ég ætli ekki að fara að segja

utanfararsögu vora, dettur mér hitt í hug: „Hvað verður úr öllum þeim Íslendingum, sem hingað hafa flutzt? Orðnir amerikanskir þegnar og góðir drengir?“ Það eru þeir eflaust margir, en ekki eru hinir allfáir, sem orðið hafa að ódæðum og aumingjum, sem hafa týnt og glatað öllu, sem nokkur manndómur er í, ef þeir áttu það fyrri, og sem eru týndir og glataðir Íslendingum og hverri annarri þjóð; að minnsta kosti menn, sem ekki hirða um annað en gróðasafn og fégræðgi, menn, sem ekkert þrá æðra en aukvisalíf munaðarseggsins og óska, að sitt fyrsta og síðasta verði eins og hans. Húsið þetta og samkoma vor í kvöld sýnir, að forgöngumönnum þess er ekki þannig háttað. Mörg högg og þung hefir þurft til þess að fella í það viðuna og gera veggina svona slétta, og afl og hagvirkni til að hefja ina miklu bjálka og skeyta þá saman, og ósinklega er það gert að hafa inni jafn rausnarlegt boð og í kvöld, í inu nýja húsi. Konungssynirnir í inum þjóðhelgu fornsögum vorum duldust í jarðhúsum og skógarrunnum, meðan þeir voru ungir og ofsóttir, en seinna heimtu þeir aftur allan frama og veldisljóma ættar sinnar. Svo mun og fara fyrir Íslendingum hér, sem fátækt og fákænska hefir um stund hrakið inn í torfkofana og skógarhreysin. Úr þessu húsi, eður öðru því líku, sem íslenzkir menn að ætt byggja, mun sá líklegast koma, sem Ísland bíður eftir, og sem „vekja á af vana-dvala“ ina fornu frægð þess og gera hróður þess heimskunnan, skáldið eða spekingurinn, eða hvað hann kallast. Innsteinn kvaðst hyggja, að „væri komnar til Danmerkur dísir vorar“, þegar sumra tók og honum þótti horfa vænlega. Munu ekki heilladísir íslenzkar vera komnar til Ameríku og hafa hjálpað til við bygging þessa, því þær ætla ég ættarfylgjur húsbændanna og muni flytja með þeim í ið nýja hús. Vér viljum heldur ekki taka heillaóskir vorar heim með oss, er vér förum, en óskum þær megi eftir verða, sem verndarvættir húss og heimamanna, og verði þannig að áhrínsorðum til auðnu og fagnaðar. Standi hús þetta lengi til gagns og gleði fyrir alla, sem í því búa, og blessist vel þeim, sem byggðu.

## Að skilnaði.

**Ræða haldin í Winnipeg, líkl. 1886.**

Landar mínir. — Þegar ég stend upp, til að þakka fyrir mig og kveðja yður, þá er það ei aðeins fyrir inar vinalegu viðtökur, alúð þá og bróðurhug, sem þér hafið sýnt mér og okkur félögum, að ég þakka yður. Þér hafið einnig virðing mína og þakklæti fyrir, hvað *þér eruð sjálfir sjálfum yður* og þjóðfélagi því, sem þér eruð nokkur hluti af. — Það eru aðeins örfá ár síðan helzt leit út, að Íslendingar hér vestan hafs myndu eiga sömu forlög fyrir höndum og feður þeirra á Austurströndinni fyrir 1000 árum. Alls konar eymd og óöld höfðu svo drepið úr þeim atfylgi og kjark allan, að margir hugðu, að hnignan og skrælingjaskapur hefðu til fulls unnið á manndáð og framgirni þeirra. Þá var það, að fjöldi Íslendinga flúði hingað, og Winnipeg hefir um nokkurn tíma verið vígvöllurinn, þar sem inir útfluttu Íslendingar vörðust og börðust móti öflum þeim, sem nær höfðu borið þá ofurliða. Og þó á orustusviðinu liggi allmikill valur og nokkrir inna hvatskeytu úthlaupsmanna yðar hafi stundum mátt hopa á hæli, þá hefir flokkur yðar ekki einungis haldið vellinum, heldur hafið þér líka treyst vígi yðar og hrakið fyrirsátrin af leið yðar, svo mótstaðan hefir guggnað.

Því það hefir margur örsnauður landi vor, fyrir laun iðnar sinnar hér í Winnipeg, lagt inn fyrsta grundvöll til eigin heimilis og sjálfræðis. Það er héðan frá Winnipeg að miklu leyti, að byggzt hafa inar þroskamiklu nýlendur Íslendinga í Dakota og Manitoba. Og það, er sízt skyldi gleymast: það er hér í Winnipeg, að ýmsar hreyfingar, sem lúta að andlegum framförum, eiga uppruna sinn. Framfarafélagið, kvenfélagið og bindindisfélagið eru annað hvort stofnuð hér, eða endurreist til nýs lífs. Að blaðmálinu hefir hvergi verið unnið með jafnmiklum áhug og fjöri. Ið unga kirkjufélag vort telur meðal yðar sína styrkustu stólpa. Það ér heldur engum jafnhægt og yður að halda forystunni í öllum inum sameiginlegu framfaramálum Íslendinga í Vesturheimi, ef þér kunnið til að gæta. Beinið þeim í þá stefnu, sem frelsi og menning vorra tíma hentar, og yður mun þá aldrei skorta dyggilega fylgd.

En fyrirgefið, ef þessu ávarpi mínu svipar til vorsins í

Dakota, sem byrjar svo hlýlega og með skini sínu og skúrum minnist við skóg og grænkandi grundir, en mitt upp úr blíðviðrinu breytist í svalan haustdag, með frosti og fjúki, svo vorgróðinn sýnist visnaður og fallinn.

Nýkomnum af inum víðlendu grassléttum í Dakota, sem sýnast takmarkalausar eins og inn blái sumarhiminn, sem hvelfist yfir þeim, hefir mér fundizt bærinn yðar þröngur, og mér hefir stundum virzt, að hugir yðar í sumum félagsmálum yðar hafi dregið dám af borginni í kringum ykkur. Nýkomnum frá inum foldgnápu hálsum Pembinafjallanna, sem lyfta inum skógkrýndu höfðum sínum í loft upp, hefir mér þótt bærinn yðar lágur og útsýnið lítið, og inu sama hefir mér fundizt bregða fyrir í skoðunum yðar á stöku málefni. Í beinu máli: mér hefir fundizt of mikill keimur af holdi og blóði af yðar andlegu fæðu, á kappsfundum yðar meira þreytt um menn en málefni, framför yðar stundum meiri gylling en gull.

En ég, sem vanur er inu blátt fram sveitalífi, misskil ef til vill bæjarbraginn, svo mér felst undir inu ytra skrauti hans kjarni sá og alvara, sem ég þykist sakna. Ég sé ekki borgina fyrir húsunum!

Lifið heilir landar góðir. Endist yður gæfa til að starfa vel og fagurlega að öllum sönnum framförum innar íslenzku þjóðar. Glæðið bróðurlega keppni milli landa vorra í Kanada og Bandaríkjunum og vekið með henni af dvala ina mörgu ágætu krafta, sem nú liggja í dái meðal þeirra. Þá mun sú byggð Íslendinga, er á þá flesta og bezta, gerast leiðtogi hinna.

Oss getur greint á um daginn og veginn, en í einu skyldum vér vera einhuga, það er takmarkið: framför og sómi innar íslenzku þjóðar.

## Um Andra jarl.

Enn er mér í barnsminni fyrsti sjóvettlingurinn, sem ég prjónaði heima á Íslandi. Þá var reyndar gullöld tóskapar vors farið að halla. Þó var það enn siður að nota unglinga til að pota vettlingsmynd, um in löngu jólaföstukveld, sem voru seldir í kaupstaðinn, eftir að öll lykkjuföllin höfðu verið tekin saman, hypjað fyrir toturnar, þvegnir, þvættir, þæfðir, dregnir yfir sporöskjulagað vettlingatré, sem efri endinn var

þverskelltur af, og líkt lagaðri borðflögu stungið sinni í hvorn þumal, hengdir til þerris, dregnir af trjánum og fergðir. Og svo þegar vinnumaðurinn kom heim úr kaupstaðarferðinni, Þorláksdaginn fyrir jól, hafði hann orðið að gefa kaupmanninum 4 pör af þessum vettlingum fyrir laka pott-tunnu af brennivíni. En sjóvettlingurinn minn hafði verið lengi á prjónunum; ég hafði reyndar verið að pota hann í viku, og þrisvar var búið að rekja hann upp. Nú var ég í fjórða sinn kominn fram undir þumalgötin, og fyrir manna sjónum, heyrði ég, að annað var ekki sýnilegt, en að hann héngi við mig hálfgerður öll jólin út, að öllu forfallalausu. — En þá varð allt í einu svo snögg skipan á verklagi mínu, að ég rak vettlinginn af á einni kveldvöku. Ég hafði unnið mitt fyrsta frægðarverk. Það höfðu verið kveðnar rímur um kveldið, og það var afl utan úr heimi hetjulífs og íþrótta, sem hjálpaði mér til þess. Það var maðurinn, sem ég kenni þennan fyrirlestur við. Það var hann Andri jarl.

Það er með Andra jarl eins og flesta afbragðsmenn, það er eins og smámennin, sem lifðu þeim samtíða, hafi tekið sig saman um að geta þeirra að sem minnstu, eður þeir leggja þeim til bresti, sem við vitum þeir ekki höfðu. Að þessu kveður svo rammt um Andra jarl, að þó ég hafi bæði leitað í Hostetters Bitters og Þjóðvinafélags almanökunum, þar sem fæðingar eða dauða merkra manna er getið við flesta mánaðardaga, þá hefir Andri ekki getað fengið einn einasta af hálfu fjórða hundraði, ekki einu sinni þennan staka hlaupársdag. Líka hefi ég farið nákvæmlega yfir „Árstíðir og merkidagar“ eftir stúdent Guðmund Þorláksson, þar sem allar messur og dýrlingsdagar eru upptaldir, en hvergi er þar Andri nefndur einu orði. Það er því rétt fyrir tilviljun, að við vitum, að hann dó; þess er getið í rímum, sem við hann eru kenndar og sem er það eina, sem við höfum að halda okkur til, en að hann hafi fæðzt, þess er þar hvergi minnzt. Fyrst löngu, mörgum rímum eftir fráfall hans, er móðir hans nefnd, en hvað hún hét áður eða eftir hún giftist er hvergi sagt, hún er blátt áfram kölluð „Andra móðir“, sem sýnir, að þá þegar var Andri orðinn frægur, nokkurs konar ættarhaukur, sem öll skyldmenni hans kenndu sig við. Vér vitum, að hún var ekkja, bjó á eyðiey; hefir Andri sonur hennar alizt þar upp við brimskelli ins beljanda hafs og brothrun inna slútandi bjarga.

og ber Andri ljósar menjar, hver áhrif það hefir haft á inn unga svein; því þegar hann var kátur og galsi í honum, hló hann svo átakanlega hátt, að höllin nærri skalf, og ef honum varð fótaskortur, datt hann ævinlega svo þunglamalega, að hann beinbrotnaði.

Af móðurinni hefir hann eflaust erft kapp það og ötulleik, sem seinna kom fram, því ekki lét hún hlut sinn fyrir stórbokkum eins og Högna og hans kumpánum, þó hún þá væri orðin hrum og barnlaus. Nokkuð var hún kaldlynd og einræningsleg, því aldrei gekk Andri sonur hennar á dansleika né bað sér stúlku, fyrr en hann var fulltíða maður og fluttur frá henni.

Allra manna umfangsmestur. Það mátti segja um hann, eins og íslenzki bóndinn sagði um biskupinn sinn, honum var ekki fisjað saman. Það var eins og breidd og lengd hefðu verið að þreyta það með kappi, hvor þeirra gæti byggt lengra út á við, og í fátinu, sem á þeim var, skeyttu þær ekkert um útlitið, svo hörundið varð dekkra en á hvítum mönnum. Skeggið var tinnusvart og liðaðist ofan um brjóstið. Það var eins og maðurinn við fyrsta álit sýndist tómt skegg, en hvorki fang né bringa. Ef hann opnaði munninn til að hlæja, gengu varirnar, sem voru þykkar og sællegar, í allteinum hnyklum og bugðum, eins og ef ánægjan með öllum sínum glaða hóp ætlaði sér að halda feluleik inni í munnvikjunum á honum. Var auðséð, að manninum var einlægni með að hlæja. Nefið var digurt og karlmannlegt, nasirnar nokkuð fláar að framan og lýstu því, að Andri myndi vera stórlyndur og draga andann þungt, ef honum væri mikið niðri fyrir. Hann var kallaður úteygur, en var það í rauninni ekki, en viðlitinu var einhvern veginn svo háttað, að það var eins og maður mætti augunum ævinlega fyrst, hvar sem maður leit á andlitið. Fyrir löngu hafði hann lagt niður að láta hár sitt vaxa, svo höfuðkúpan sást í allri sinni nöktu fegurð; hærur og hárskerar gerðu svip hans hvorki ellilegri né unglegri. Svona var Andri í broddi lífs síns, líklegast hér um bil 45 ára að aldri, því séra De Wit Talmadge segir, að menn fari þá almennast að hugsa sér fyrir heimili, en þetta er einmitt kveldinu áður en Andri fór sína alræmdu bónorðsför, að vér höfum þessa lýsing af honum. Þannig var þá in ytri ásýnd mannsins.

Um ina innri eða andlegu hlið hans getum vér verið

þeim mun stuttorðari sem hinni var lýst nákvæmar. Ekki er getið um neins konar skóla á eynni, sem Andri ólst upp á, enda er hann skólunum alveg óháður, og stefna hans öll liggur í inu „praktiska“. Þó hefir hann eflaust á einhverjum sunnudagsskóla heyrt söguna um Goliath, því Goliath hefir snemma verið hans uppáhalds hetja og fyrirmynd. Að skora hvern mann á hólm, strax sem þeir höfðu mætzt og heilsazt, hláturinn og storkunaryrðin, þegar enginn þorði til við þá, er svo allsendis einkennilegt hjá báðum, að oss liggur nær að segja, að Andri hafi farið þar svo langt, að hann hætti að vera „original“ og áhrif þau, sem Goliath hafði á hann, leiði hann stundum óafvitandi út í að stæla hann. Eftir því sem sést, hafa trúarskoðanir hans verið mjög óákveðnar, eitthvað svipað því sem Danir kalla „Det skjönnes Ideal“. Hann hefir dýrkað „ið fagra“, því óðar en hann heyrir getið innar ljómandi dóttur Loga konungs, efar hann ekki sögurnar um hana í minnsta máta, en langar til að eignast hana og leggur af stað, eins og pílagrímur ástarinnar, til að biðja innar fögru Svanhvítar, þó þau hefðu aldrei sézt áður og hann mætti því búast við hryggbroti. Enda var það það, sem reið honum að fullu, því í þeirri ferð slokknaði hetjan út af, eftir að hafa gefið meðbiðlum sínum sinn undir hvorn og klappað konuefninu undir hökuna. En þó hann væri fallinn, hafa þó áhrif þau, sem hann hlaut að hafa á sína öld, þegar komið í ljós á samtíðarmönnum hans og það svo greinilega, að sumir inir römmustu andstæðingar hans hafa líkzt honum hvað mest, til dæmis þeir Högni og Helgi. Takið hvern helzt sem þið viljið af öllum þeim, sem saga hans getur um, og ég skal sýna ykkur, að hann var ekkert nema svo mikið eður lítið brot af Andra jarli. Högni gat ekki stillt sig um að giftast Svanhvíti, allt eins og Andri, og Helgi reif af Högna alla garmana, inn að skyrtunni, öldungis eins og Andri. En áhrif hans lágu reyndar dýpra og komu fyrst fram löngu seinna, þegar farið var að tæta í kaupstaðinn á Íslandi, og kveða rímur á kveldin. Það er á „praktisku“ hliðina, iðnað Íslands, tóvinnuna, sem Andri hafði mest áhrif. Þeim áhrifum lýsti Jón Thoroddsen afbragðsvel í Manni og konu, þar sem hann segir: „Og hóf hann (Þorsteinn) að kveða . . . nálin hjá húsfreyju gekk liðugra og tíðara . . . þær Sigríður og Guðrún teygðu þriðjungi lengra úr lopanum en áður . .

Sigurði bónda sóttist og betur verkið, fléttaði hann nú miklu harðara en áður." Og þó voru það aðeins rímurnar af Úlfari sterka, og það daufasta ríman úr þeim, sem þá átti að hafa verið kveðin. Ímyndið yður, hvílíkt kvik og fjör þá var í fólki, er rímur af Andra jarli voru kveðnar fyrir því, er það sat og tætti. En vér mennirnir erum af lausu efni gerðir og höldum hvorki hitanum né kuldanum í oss til lengdar. Það gufar út úr okkur aftur, hvort sem það er pólitík eða prédikanir, brennivín eða bindindi, og áhrif þess gleymast. Árið 18[78] kom út nótnabók Guðjohnsens; þar voru gamlir sálmar undir nýjum nótum, en út úr því urðu svo mikil ónot milli inna yngri og eldri manna, að til vandræða horfði. Öldungarnir höfðu sungið „gamla lagið" frá því þeir tóku fyrst undir sálmavers; alla sína trú, huggun og bænheyrslu höfðu þeir sungið út úr sálmunum með „gamla laginu", og forsjónin hafði hvergi fundið að því, að það væri sungið „falskt", né dregið sig í hlé fyrir mönnunum vegna þess. Breyting var því óþörf, ef ekki hættuleg. Yngri mennirnir voru þar á móti svo hárvissir, að „nýja lagið" væri réttara, sem allar réttar söngreglur og nótnabókin var á þeirra hlið. Gamli söngurinn hneykslaði eyrað, svo andaktin komst ekki inn um það, en sálmurinn féll utan hjá veginum. Og ungu mennirnir unnu sitt mál; ekki svo, að þeir sannfærðu ina eldri né kúguðu þá til hlýðni, langt frá, þeir gerðu það á miklu einfaldari hátt; gömlu mennirnir voru náttúrlega svo miklu eldri og entust ekki til að lifa á við þá. Í þrasinu, sem af þessu leiddi, gleymdust rímurnar af Andra jarli, og þá var þess ekki langt að bíða, að inn síðasti sölusokkur væri felldur af. Jón Sigurðsson nuddaði um það í Nýjum félagsritum, að enginn nennti að taka lykkju, en hann var ekki svo glöggsær, að hann sæi orsökina.

Áður ég lýk þessu máli, verð ég að minnast á eitt. Af því ég held þennan fyrirlestur svona nærri „bændafélaginu", sem sérstaklega spornar á móti öllum kúgurum og einokunarseggjum, munu menn fljótt taka eftir því, að Andri jarl, sem annars var fremur opinskár og fljótur til að láta óvini sína reka sig ónotalega á, aldrei svo mikið sem bandaði hendinni við járnbrautakóngum né hveitikaupmönnum. En hann var að því leyti sinnar aldar barn, eins og flestir í rauninni eru. Þá var önnur aldar-venja, allt, sem nokkuð kvað að, var ein-

okun og einveldi, og voru þá svo mikil brögð að því, að einungis ribbaldar og mauraþegnar sölsuðu undir sig einkarétt til að ganga aftur. Nú er svo komið, að meinhægir menn og góðgerðasamir sitja ekki lengur á hakanum, þeir birtast mönnum nú jafn oft, eður öllu heldur tíðar en hinir, eftir því sem öllum „spiritualistum“ ber saman um. Andri jarl var „monopolisti“ á sinni öld. Hann gat ekki annað verið. Ef einhver vill áfella hann fyrir það, verður hann dæmdur fyrir sinn aðalkost, það, hversu mikill hann var. [1887]

## Fyrir minni Bandaríkjanna.

### Ræða haldin á Mountain 4. júlí 1887.

Það stóð íslenzkur bóndi í fjörunni við eina af strandborgum Englands fyrir nokkrum árum síðan. Það hafði heil sýsla eða amt skotið saman nokkrum rígsdölum til að koma honum þangað. Hann átti sem sé að sjá sig um í veröldinni og koma svo heim aftur með ósköpin öll af framförum og umbótum í kollinum. Höfnina framundan var verið að tryggja með grjótgarði, til að verja uppsátrið brimi. En íslenzki bóndinn varð standandi hissa. Færikvíar hafði hann oft séð, og átti þær jafnvel sjálfur, því hann var framtaksbóndi og átti fleira en hundrað ær; en skipakví, byggð frá mararbotni og langt út í sjó, sem rúmaði hundruð hafskipa, það var nú svo langt um langt fyrir utan allt, sem hann hafði heyrt eða hugsað sér áður. Ég man enn, hvaða orð hann hafði um það í ferðasögu sinni (því hann skrifaði ferðasögu eins og vesturfari). Hann hafði reyndar orðið að fara yfir nokkrar sveitir á Íslandi, áður hann komst til skips, en annað hvort hafði hann gleymt sér, eða honum þótti þar ekkert eftirtektarvert, því hann hafði ekki eitt orð um neitt að segja, fyrr en hann var kominn fram á útlent skip, en þá varð honum allt svo nýstárlegt, að hann þreyttist aldrei að segja frá hverju lítilræði, sem hann hafði séð. — Lýsing hans á hafnarbyggingunni var þó stutt og endaði svona: „Það er sárt að sjá upp á önnur eins þrekvirki unnin annars staðar, en ekkert verður gert heima.“ Ég er ekki að skopast að íslenzka bóndanum né ætlast til, að neinn geri það. Ég hefi einmitt sjálfur hugsað svipað honum margan fjórða júlí, síðan ég kom til Ameríku, þegar ræðu-

mennirnir kepptust hver við annan að lofa landið og landsins feður, unz svo leit út, sem hefðu þeir slitið hlekki allra þjóðlegra framfara sterkari en gresjárnið, sem Útgarðaloki batt með baggann fyrir Þór. Mér fannst þeir engan sigur hafa eftir skilið seinni tíðar mönnum. Sjálfsforræði Ameríkumanna unnið fyrir liðugri öld síðan, félagsstjórn ríkjanna, ósamkynja eins og þau voru í fyrstu, gerð traust og óslítandi nokkrum áratugum seinna. Og allar þjóðir Norðurálfu höfðu lagt eitthvað til ins fræga verks, því landsmenn þeirra [höfðu] unnið að því og áttu því hlut í sigurhrósinu, — allar nema Íslendingar einir. Þetta vakti fyrir mér. Og svo fannst mér ég engan dag jafn útlendur í Ameríku eins og fjórða júlí. Ameríkufundur Leifs heppna, fjórum öldum á undan Columbus, eða sá reikningur, að af því Íslendingar, Danir og Norðmenn voru einu sinni sama þjóð og allir saman víkingar, sem lögðu undir sig England, sé allt ið frjálslega í stjórnarskipun Englendinga norrænt, og svo hafi það flutzt hingað. Já, þess konar frægðarinnar langfeðgatal, notað til að telja sig í ætt við framfarirnar, byggi ég nú ekki svo mikla huggun á. Tvær óskyldar þjóðir bera sig oft eins að undir sömu kringumstæðum, rétt eins og einstaklingar. — Ef ég kæmi og kyssti tvær ungu stúlkurnar svona í glettni, þori ég að ábyrgjast, hvað ólíkar sem þær væru, ið fyrsta, sem þær gerðu, yrði að þurrka sér um munninn. — En svo er það þá sama, hefðir þú eða ég, landi góður, átt hlut að máli og verið til kvaddir, er ekki að vita, nema við hefðum vogað að rita undir „Declaration of Independence“, eins og sumir þeirra, sem unnu það mest að henni. Að minnsta kosti hefi ég heyrt þess getið, að Kanadastjórn hafi fengið eina eða tvær bænarskrár, sem við höfum skrifað undir, og að nokkrir landsins vinir og þessir lestamenn, sem koma til að selja okkur gripi, ættu einhvers staðar blaðræmu með nafninu okkar á, rétt eins og annarra manna. Og hver veit, nema að við hefðum þorað að brjótast undan yfirráðum Englendinga, hvað sem það nú hefði kostað, rétt eins og undan ágangi Winnipegvatns og Taylors heitins niður í Nýja Íslandi. Eitt af fornskáldum okkar sagði sér förlaðist að yrkja, ef hann ekki væri við yrkisefni staddur. Í áflogum og bardögum sá hann bezt yrkisefni, af því að hann var svo lítið skáld. Svo fer manni, er honum sýnist það allt unnið af öðrum og á undan

sér, er nokkurs sé vert og við sitt hæfi, — sem sér ekkert yrkisefni kringum sig.

Í inni frjálsu Ameríku, piltar mínir, [eru] 60 millj. manna og tæpur helmingur nýtur fullra mannréttinda. Þjóðstjórn er þar, en allsvarðandi lagabót um 10 ár fyrirbyggð af viðlíka mörgum járnbrautakóngum, öllum í skaða nema þeim. Tvær eða þrjár milljónir örsnauðra manna, verklausir um harðasta tíma ársins, menn sem vilja vinnu, en fá hana ekki; en 100 millj. doll. skattur, sem þessir menn hafa borgað meira en sinn skerf af, í ríkisfjárhirzlunni, sem vex svo óðum, að út lítur, að kveðja verði fulltrúa þjóðarinnar til aukaþings til að létta af ríkinu peningabyrðinni. Svo eftir allt, enn er rúm fyrir nýjan Jefferson til að færa í stíl aðra „Declaration of Independence“ og marga dugandi menn, sem viljugir ljá nöfn sín og lið sitt til að halda uppi merki frelsisins. Tímarnir heimta senn nýjan Lincoln til að tryggja bræðralagið. Líknarlaus auðlegð og líðandi örbirgð hafa fylkt liði til að berjast um nauðungarvaldið. Mannúð og sanngirni verða hermannskostir inna nýju sjálfboða, og það er þörf á heilum fjölda af þeim. Enn er tækifæri fyrir okkur Íslendinga, ekki einungis að nema land í Ameríku, framfaramesta og frjálsasta landinu, heldur líka að eignast nokkurn hluta af framför og frelsi, sem Ameríka sjálf hefir enn ekki numið, og þá getum við haldið fjórða júlí hátíð frelsisins, ekki sem gestir, heldur sem börn þess. En þá megum við ekki gleyma því, að þó við séum nú aldrei nema Íslendingar (hvort sem okkur þykir vænt um það eða ekki), erum við samt aldrei of stórir né of smáir til að vinna Ameríku gagn, eða hverri fósturjörð sem er, eins og tvö skáld okkar hafa sagt það, að

„Eins er betri hlekklaus hönd
Og hjarta ins frjálsa manns,
En þúsund þræla fans“
og
„Þitt fósturland er fullstórt handa þér,
Ef fullstór ertu sjálfur þínu landi.“

En finnst ykkur ég vilji kasta skugga á minningarljóma 4. júlís? Mér þykir ekki eins vænt um neinn hátíðisdag og hann, að minnsta kosti þegar ég er nógur „independent“ til

að halda enga ræðu. Þökk og heiður þessari þjóð og þessu landi fyrir að eiga svo fagran afmælisdag. Þökk og heiður snillingunum, sem fyrir 111 árum gerðu þennan dag þjóð sinni og öllum góðum mönnum svo gleðilega minnistæðan.

Og landar góðir, þessar línur eftir Longfellow, til innar nýju fóstru okkar, snerti ætíð hjörtu vor jafn innilega og þeirra sona hennar, sem unna henni bezt:

— Svo halt áfram öruggt. Þú óttast ei þarft,
Vorar óskir og vonir þær fylgja svo djarft.
Vor hjörtu, vor tár, og vort traust á þér
Svo tryggt, þú skalt sigra hvernig sem fer.
Því það *allt* er með þér. — Vort *allt* með þér er.

# Frá Garðar.

## Fréttabréf.

Veturinn, sem nú er að líða, hefir þótt fremur harður; frost og umhleypingar með langmesta móti. Hér hafa menn þó ekki orðið fyrir neinum stórsköðum af veðráttunni, eins og víða annars staðar, þar sem sífelld veðurblíða á þó að liggja í landi. Næstliðið haust var annars óvanalega langt og gott, svo þó veturinn sýni enn lítið ferðasnið á sér, verður hann að öllum líkindum lítið þaulsætari en fyrirrennarar hans oftast voru.

Hagir manna hér eru yfir höfuð svo góðir, að ég tel óvíst, að aðrar nýlendur Íslendinga hafi meiri efni að sýna eftir fimm eða sex ára frumbýlingsskap. Híbýli manna hér eru snotrari og þægilegri en jafnvel gerist hjá innlendum nýbyggjurum. Uppskeran hér var ágæt haustið sem leið, en griparæktin, sem flestir Íslendingar stunda talsvert, varð mörgum að góðu liði árin undanförnu, þegar uppskeran var rýrari. Svo er það ómetanlegur hagur, að nú er skammt til markaðar, síðan járnbrautin fyrir vestan okkur var byggð í sumar. Við erum samt ofurlítið argir yfir því, að hún skyldi strjúka sér svona rétt upp við eitt hornið á nýlendunni okkar, án þess að koma frekar við. Við vorum í huganum búnir að smíða okkur slíkt loftkastala-höfuðból á Garðar, því þangað höfðum við svo lengi trúað, að brautin yrði lögð, að það er

hálf gremjulegt að þurfa nú að sætta sig við, að reynslan skuli gera það að tómri hégilju.

Það er vottur þess, að efnahagur manna hér sé í býsna góðu lagi, að nú hefir Garðar-söfnuður afráðið að koma sér upp kirkju á næsta sumri. Nálægt $ 1000 eru þegar fengnir í samskotaloforðum og hér um bil helmingur þeirra kvað nú vera borgaður. Skólahúsið, sem verið hefir samkomustaður safnaðarins, þykir bæði lítið og óþægilegt til þess, og svo var óvíst, að uppskeran yrði jafn góð næsta ár eins og það, sem nú er liðið, svo menn yrðu þá eins færir til framlaganna, og því var að þessu undið.

Oft hefir verið talsvert um skemmtanir hér, og í vetur hefir verið reynt að halda þeim uppi. Helzt hafa in ýmsu félög hér gengizt fyrir því, að leiknir væru sjónleikir. Það er búið að leika víst fjórum eða fimm sinnum hér í byggðinni í vetur, og búizt er við einum eða tveimur leikjum enn. Menn sækja þess konar samkomur furðanlega vel, þegar tekið er tillit til þess, að Íslendingar eiga varla eitt einasta leikrit, sem fólki ætti að vera bjóðandi, og útbúnaður og margt fleira þess háttar hlýtur að vera mjög viðvaningslegt, þar sem bæði vantar efni og sjálfir forsprakkarnir hafa kannske ekki séð svo mikið sem eitt leikhús á allri sinni lífsfæddri ævi. Það vill samt til, að einstaka manni tekst betur en von er til. Það er annars leiðinlegt, að kringumstæðurnar skuli sjaldan vera svo eftirlátar við fólk, sem virðist hafa svo mikla ánægju af þess konar, að leyfa því að sjá vönduð rit og vel leikin.

Kosningar til Town-embættanna 6. þ. m. voru með langdaufasta móti. Sumir embættlingar höfðu við engan að stríða, nema sjálfa sig. Hér eru þó til flestar tegundir af alls heimsins pólitík, þegar fjör í mönnum, þó það sé nú í smáum stíl, auðvitað. Menn fylgja ýmsu, repúblískri pólitík, demókratskri pólitík, prohibition-pólitík, þjóðernis-pólitík, ættbálka-pólitík og persónulegri pólitík. Í Town-stjórninni okkar eru þeir nú Jón Jónsson, formaður, og Jakob Líndal, skrifari, báðir reyndir embættismenn og góðir drengir. Öll eru embættin skipuð af Íslendingum, þó hér séu talsvert margir af öðrum þjóðflokkum.

Allmörg félög eru hér komin á fót. Fyrst er safnaðarfélag, sem nærri hver maður er í. Í lestrarfélaginu „Ganglera“ eru

nálægt 50 manns. Það á um 100 bindi af ýmsum bókum, flestum íslenzkum, einkum allar inar merkari, sem út hafa komið heima in síðustu árin, nokkrar enskar og fáeinar danskar bækur. Árstillagið er 50 cent, en auk þess hefir félaginu áskotnazt töluvert fyrir skemmtanir, sem það hefir staðið fyrir. Íslenzku bækurnar eru lesnar býsna mikið, einkum af eldra fólkinu. Unglingarnir, sem standa svo miklu betur að vígi, af því þeir skilja líka enskuna, mega vara sig að verða loksins ekki lakar að sér til bókarinnar en gömlu mennirnir.

Þá er kvenfélagið. Um það kann ég lítið meira en að nefna það. Ég get ekki heyrt því til og geld þó þess þar, sem mér er ósjálfrátt. Félag þetta hefir gengizt fyrir mörgum skemmtisamkomum, sér til hags, og þótt vel takast. Það er sagt það eigi í sjóði yfir $ 200 og ætli að verja þeim til einhvers góðs. Skröki ég nokkru af þessu, stúlkur góðar, þætti mér það illt að þurfa að taka það aftur.

Bændafélagið okkar er nú eldra en þrevett. Það var stofnað haustið 1885, til trausts og fylgis við bændur. Það hefir nokkrum sinnum unnið félögum sínum hag með að gangast fyrir, að þeir keyptu vörur í samlögum; en alltof lítið gagn hefir þó verið að því, enn sem komið er. Nú er það ein deildin í „Bændasambandi Dakota-fylkis“ og er því vonandi, að að því verði meira gagn framvegis, er það á sér nú svo öflugan bakhjall.

Bindindisfélag er hér líka einhvers staðar til. Ekki veit ég félagatöluna; þeir þekkjast heldur varla frá drykkjumönnunum, núna síðan vínsölubannið komst á í Pembina Co.

Ið seinasta félag, sem hér hefir verið stofnað, kallar sig „Hið íslenzka menningarfélag“. Ég lýsi því ekki hér, af því ég ætla mér að geta þess sérstaklega, ef ritstjórinn lofar.

Þetta er nú kannske orðið of langt; en þess ber að gæta, að Garðar er kominn á sjöunda veturinn og hefir aldrei komið út í blöðunum fyrr; hann þarf einhvern veginn að vinna það upp. [1888]

## Hið íslenzka menningarfélag.

**Mannúð. Rannsókn. Frelsi.**

Stefna félagsins er að styðja og útbreiða menning og siðferði, það siðferði og þá trú, sem byggð er á reynslu, þekking og vísindum. Í staðinn fyrir kirkjulegan flokkadrátt, vill það efla mannúð og bræðarlag; í staðinn fyrir íhugunarlausa játning, skynsamlega og óhindraða rannsókn; í staðinn fyrir blinda trú, sjálfstæða sannfæring; og í staðinn fyrir heimsku og hleypidóma, andlegt frelsi og framför, sem engar hömlur séu lagðar á.

Félag þetta var stofnað 4. febrúar næstliðinn af sjö mönnum frá Mountain og Garðar. Stefna félagsins er tekin fram í greininni hér á undan, en hún er nokkurs konar inngangur fyrir lögum þess, sem líkjast því, sem algeng félagslög gerast. Það var skoðun stofnendanna, að flest þau félög, sem annað hvort einstrengja menn við gamaldags hugmyndir, eður reyna til að reisa upp þröngar skorður kring um hug og meiningar manna, væru ekki sem bezt fallin til að glæða það, sem svo mikill skortur er á: frjálslegan hugsunarhátt og sjálfsmenntun. Ærleg skoðun hvers þess, sem í félagið getur gengið, gerir hann því aldrei félagsrækan, hversu fáir sem henni kunna að fylgja, því tilgangur félagsins er sá, að hver styðji annan til að verða ögn vitrari og betri, án þess fyrirfram að gefa út endilega fyrirskipun um það, hverju hver eigi að játa og neita. Búizt er við, að félagsmenn skipi sér í deildir, sem hver um sig taki sér til íhugunar sérstakar fræðigreinar, helzt þær, sem snerta in almennu spursmál vorra tíma. Svona löguð félög hafa verið stofnuð á nokkrum stöðum hér í landi og hafa reynzt vel, þó enn séu þau ung og fámenn. Próf. F. Adler í New York er upphafsmaður þeirra.
Í Hið íslenzka menningarfélag eru þegar gengnir um 30 manns. Árstillag er $ 1,00 og þetta ár verður talsverðu af því varið til bókakaupa. Formaður félagsins er Skafti B. Brynjólfsson frá Mountain og skrifari undirritaður.

Garðar 30. marz 1888. Stephan G. Stephansson.

Aths. séra Rögnvalds Péturssonar:

„Á stofnfundi Hins íslenzka menningarfélags 4. febr. 1888 að heimili St. G. St. við Garðar var Stephan kosinn til að

semja forspjall félagsins. Er það bókað fremst í fundarbókinni með hans eigin hendi — — —

Lög samþykkt í 15 greinum.

Alls haldnir 16 fundir, félagið leyst upp 1893."

## Albertanýlendan.

### Eftir bréfi þaðan í marz 1891.

Alberta kallast hérað það i Kanada, sem hefst suður við landamæri Bandaríkjanna og brezku Ameríku, 49. mælistigið, Norðurjaðar þess er 55. mælistig. Vesturtakmörkin eru brúnir Klettafjallanna; nær það allt austur að 111. hádegisbaug. Nálægt miðju þess, eða um 52. mælistig, kringum 100 mílur enskar austan við Klettafjöllin, er byggð Íslendinga, norður af fljóti því, sem Red Deer heitir, í hálendum sléttudal, sem áin Medicine fellur eftir. Byggð þessi liggur því jafn sunnarlega og miðbik Englands. Landslagið er öldótt slétta. Hólar, grundir og engjaflákar miklir skiptast á. Jarðvegur er frjór og grösugur. Smávaxinn espiskógur grær á hólunum og grenitegund sú, er „spruce" kallast, vex í árbugum og hólaslökkum; það er húsaviður og girðinga. Viðarrunnar, sem „willow" eru nefndir, spretta mjög víða á sléttunni; ekki er það efniviður, en nota má það til eldsneytis.

Mjög er byggðin dreifð; hafa menn setzt að hér og hvar innan um 5 „townships". Lengd byggðarinnar er 14—16 mílur. 32 Íslendingar eru þar búsettir nú. Manntal er nálægt 140. Fleiri hafa þar lönd tekið, en ekki flutt á þau enn, og eru þeir ekki taldir hér. Fyrst fluttu Íslendingar þangað sumarið 1888; síðan hafa fáeinir bætzt við hvert ár og enn er von nokkurra. Eignir bænda eru ekki miklar, en skuldir eru líka því nær engar. Heilbrigði fólks hefir verið allgóð, eins og oftast er, þar sem loft er heilnæmt og byggð strjál. Engin er þar sveitarstjórn né kirkja, og hvorki greiddir skattar né prestsmata. Efni hefir verið fengið í ið fyrsta skólahús byggðarinnar.

Landskostir eru þar helztir: beitiland ágætt og engjar nægar, jarðvegur frjór; vex korn og garðmeti ágætlega, þegar sumarfrost ekki hamla.

Vatn fæst betra og með hægara móti en víðast annars stað-

ar, bæði í ám og brunnum, sem sjaldan eru grafnir dýpri en 8—16 fet. Land er auðunnið, svo óvíða þarf að ryðja til akra. Nokkur skógur til húsagerðar og eldiviðar nægur víða. Fiskafli svo um dregur að vorinu í ám og vötnum, hvarvetna þar sem til þeirra næst, en það eru árnar Medicine og Red Deer og vatnið Gull Lake.

Tíðarfar er nokkru mildara á vetrum en austur í Kanada. Þó hörkur séu stundum miklar um hávetur, er veður jafnast kyrrt. Frostmælir Fahrenheits getur þó stundum fallið allt að 60° niður fyrir núll. Ekki vill það samt til nema einstaka vetur, og þá aldrei nema einn dag í senn. Mest frost eru vanalega frá 30° til 40° neðan ziffru. Árferði hagar oftast þannig: Vor byrjar seinast í marz eða fyrst í apríl; þá tekur snjó og jörð fer að þiðna. Í apríl er korni sáð og stundum í marz. Næturfrost haldast þó fram í maímánuð. Í apríl og maí grær jörð. Í júní og júlí rignir mest. Þá er hiti mestur, og getur hann stigið allt að 90° Fahr. en þó sjaldan yfir 85°. Í júlí og ágúst standa yfir heyannir. Í ágúst eða september byrjar kornskurður. Næturfrosta verður einatt vart í ágúst, en oftast að sjálfsögðu frá 10.—25. september. Haustin eru löng, mild og hagstæð. Föl fellur oftast í nóvember, stundum fyrr. Lítil er samt snjókoma fram um jól eða nýár. Geldneyti, hross og sauðfé geta þá oftast gengið sjálfala. Janúar, febrúar og fyrri hluta marz stendur vetur hæst. Fellur þá stundum 2 feta djúpur snjór, og þá eru hörkur mestar. Upp úr miðjum marz bregður tíð venjulega til batnaðar. Reynsla Íslendinga hefir verið þessi: Sumarið 1888 var tíð in bezta; þá var uppskera ágæt og skemmdu næturfrost ekki. Veturinn 1888—89 var fyrirtaks góður. Snjóaði varla svo talizt gæti og jörð varð alauð í febrúar. Sumarið 1889 var of þurrkasamt og þá eyðilögðu næturfrost í ágúst uppskeru. En næsti vetur, 1889—90, reyndist harður. Tíð var góð fram um jól, en upp úr nýári snjóaði og fraus fram í marzmánaðarlok og ekki tók fönn fyrr en í apríl. Sumarið 1890 var nokkuð vætusamt, inn síðari hluta þess, og næturfrost skemmdu víða um miðjan ágúst. Uppskera varð þó dágóð af ýmsu. Veturinn 1890—91 var tíð indæl, allt fram að febrúar, snjóföl lítið á jörð og stillur og blíðviðri. Með byrjun febrúar spilltist veður.

Samgöngur hafa hingað til verið örðugar. Næsti markaður

byggðarinnar var Calgary, 80 mílur suður þaðan. Nú hefir það breytzt til batnaðar. Sumarið 1890 var fullgerð Calgary & Edmonton járnbrautin norður á móts við byggð Íslendinga. Framvegis verður kaupstaðarleið þeirra, sem næst búa brautinni, 6 mílur; 14 mílur fyrir þá, sem lengst eiga til að sækja.

Búskapur: Bezt er sveit þessi fallin til griparæktar, að minnsta kosti fyrst um sinn. Engjar eru nógar, haglendið ið bezta, vetrar ekki mjög langir né harðir og fénaður þrífst þar mjög vel. Kornyrkjan er tæplega eins viss né arðsöm enn, enda hefir hún víðast stórskuldir í för með sér, þar sem efni eru ekki næg í byrjun. Matjurtagarðar, bygg, hafrar, rúgur, jafnvel hveiti, mun spretta vel í mörgum árum; er reynd komin á það, og hefir sumum bændum í eldri byggðunum heppnazt ágætlega. Enginn efi er á því, að þegar tímar líða og reynsla manna eykst, verður jarðyrkja stunduð. Sem stendur er markaðarverð á öllum búsafurðum hærra í Alberta en á sams konar vörutegundum lengra austur.

Atvinnu er ekki alllitla að fá í Calgary og þar í grennd, þó langt hafi orðið til að sækja. Með inni nýju braut færist atvinna nær byggðinni. Skóga mikla, kolanáma stóra og húsagrjót er víða að fá í Alberta; er mikið unnið að því, þar sem járnbrautir eru komnar á. Hjá bændum er vinnumannskaup um 30 doll. yfir mánuðinn að sumrinu, á járnbrautum og í mylnum 26 doll. Daglaun erfiðismanna í bænum er 1 doll. 50 cent til 2 doll., trésmiða 2 til 3 doll., en fæði sig sjálfir.

[1891]

## Á gamlárskveld 1891.

Við höfum þyrpzt hér saman á gatnamótum tímans, til að kveðja gamla árið og heilsa inu nýja, til að fylgja gamla árinu úr garði og leiða ið nýja í hlað.

Okkur ferst flestum við gamla árið að tarna eins og okkur ferst við samtíðarmenn okkar: okkur finnst það hafa verið gott ár og þarft ár, þegar við sjáum, að það má til að kveðja, og okkur þykir vænt um það, þegar það er alveg týnt úr áratölunni og við sjáum það ekki lengur, nema í endurminningunni. Og árið liðna var skemmtilegur samferðamaður, sem slóst í þessa lestaferð hvers okkar frá vöggunni til graf-

arinnar, og varð okkur samferða um stund og réð svo miklu á framfarabraut sveitarinnar okkar. Það kom til okkar um miðjan vetur í fyrra, þögult og alvarlegt, eins og öll ár, sem renna upp norðarlega í heiminum, og við bjuggumst við, að það bæri í böggum sínum tveggja mánaða langan snjó og þriggja mánaða þykkan ís. En svo kom það með vestanþíður og sólskinsdaga ofan yfir hátíðirnar og vetrarhvíldina. Og svo lét það vorið sitt læðast á tánum yfir byggðina, svo menn hrykkju ekki upp í hlökkunarfáti þessara stóru vona um nýja jörð og nýjan himin, þessara ímyndana vorhugans, sem aldrei rætast. Og svo gekk það með okkur í sumarskúrunum og sólskininu yfir blómlega haga og vel sprottin engi, til að sýna okkur, að sumar mannsævinnar geti stundum verið auðugt, þó æskuvorið væri kalt og hirðingarlaust. Og seinast gladdi liðna árið okkur með haustinu sínu langa og góða. Af því skammdegisdagarnir eru stuttir, gerði það þá bjarta og hlýja og næturnar löngu heiðríkar og mildar. Liðna árið var hér alltaf svo hýrt og unglegt. Og loksins kvaddi það okkur, eins gamalt og nokkurt ár getur nokkurn tíma orðið, með aðeins tveggja daga gamlar, gisnar og fáar mjallarhærur í kollinum, með þakkir okkar að skilnaði, og svo stöndum við ofurlítið við til að sjá eftir því.

Og þá förum við og heilsum ókunna gestinum — nýja árinu. — Við vitum enn ekki, hvað býr undir næturstakki þess, en við getum boðið það eins hlýlega velkomið allt fyrir það, eins og mennina, sem við mætum dagsdaglega; það má heilsa þeim glaðlega, þó maður hafi enga ástæðu til að ætlast til mikils af þeim og láti líka vera að tortryggja þá. — Það tekur margur óþarfabarning í lífsbriminu, af því að hann var ofhlaðinn af vonum og trú, sem bylgjur reynslunnar eru stöðugt að skola út úr [hjá] honum, því honum lærist seint, að það þarf ekki nema sárlítið af jafnþungri vöru fyrir seglfestu. Framför byggða og þjóða er minnst undir árferðinu komin, ef alls er gætt, því þá væri betra að vera Hund-Tyrki og búa í Grikklandi, en vera brezkur þegn og búa í Kanada. „Vort lán býr í oss sjálfum“, sagði íslenzka skáldið og sagði það dagsatt. Eins býr líka góðærið að miklu leyti í oss sjálfum, í því, að hvað margar og langar þokunætur, sem verða kunna á árinu, í huga sjálfra vor, mannfélaginu, sem við búum í, eða sólarleysinu í náttúrunni kring um oss, láti maður sig þó aldrei

daga uppi né fósturjörð þá, sem elur mann, hver helzt sem hún er.

Ef okkur kemur saman um, að sveitina okkar skorti eitthvað til að geta verið okkur sem skemmtilegust, að því sem mennirnir geta að gert — því hitt vitum við, að náttúran rak aldrei allar landplágur á afrétt í Íslendingabyggðina við Red Deer; þær slöngruðust sumar út úr, jafnvel austur í blómlegu Argyle, — en þyki okkur eitthvað af hinu að, ja, þá er bara að draga hendina út úr barminum og ráða bót á því sjálfur. — Það er mælt, að sá, sem kirkjan kennir sig við, láti sér annt um hana, og að stjórnin hérna láti sér annt um skólana, og margt hafa menn þótzt sjá dásamlegt í þeirra handleiðslu á þessum eftirlætum sínum, en aldrei minnir mig, að neinn hafi staðið þau að því að láta rigna niður sjálfsteyptum kirkjum og prestum ofan úr skýjunum, né senda mönnum alfær skólahús með austanvindinum. Sjálfur er ég mjög ánægður með það, að við höfum árið sem leið kastað stjórnartrúnni og byggt okkar eigið skólahús, og sótt okkar eigin póst og komizt að raun um, að það þurfi engan almáttugan stjórnarkraft til að roga þessum björgum. Og svo getum við næsta ár hlustað með ró á blöðin okkar blótneytast í pólitíska flaginu yfir „íhaldsflokknum“ og „frjálslynda flokknum“. Við vitum þeir eiga báðir samnefni; „íhaldsmenn“ eru flokkurinn, sem vill halda sér í völdin, og inir frjálslyndu eru mennirnir, sem vilja hafa frelsi til að skríða sjálfir upp í veldisstólana. Það var talsvert hæft í svari rússneska bóndans, sem var spurður, því hann æpti ekki eins og aðrir menn, þegar hann var húðstrýktur: „Guð býr of hátt og keisarinn of fjarri,“ svaraði hann, og því þagði hann. Það er eflaust ófullkomin skoðun á lífinu, mönnunum hérna og þjóðerninu okkar, en ég hnýti henni hérna í, af því ég kann ekki aðra áreiðanlegri. Við samalningarnir hérna núna, heimilisfólkið í þessari sveit, eigum það verk af hendi að inna að gera auðnina, sem hér var áður, að mennilegri byggð, græða ögn út þennan litla skika af jörðinni, sem til annars er hæfur en villidýrum einum, og verkalaunin verðum við að taka hjá sjálfum okkur, í því að verða betri og nýtari menn sjálfir, og voninni um, að kynslóðin, sem kemur, verði ögn farsælli fyrir það. Dagarnir líða. Samkomu þessarar kynslóðar verður bráðum slitið, gamlárskveldið hennar byrjar, við för-

um að kveðja og tínumst svo einn og einn út í náttmyrkrið. Þeim sem gerðu mannfélags-fundinn að einhverju leyti skemmtilegri, fylgja að lokum einlægar þakkir og góðar óskir þeirra, sem eftir verða, eins og ljósglampi út í dimmuna. Og þó það brygðist, mundi einhver eftirrennara hans bregða bjarma yfir auða sætið, þó hann sé sjálfur löngu horfinn. Væri mér nokkur þægð í því, að mín væri getið sem Íslendings, vildi ég heldur, að mín væri getið sem þess manns, sem gert hefði óálitlegt land að kostajörð, en hinu, að ég hefði rammað fyrir hundalukku inn á eitthvert uppgripa mörlandið og getað komizt þar af. Það er engra þakka vert að búa í Róm, heldur að byggja hana upp.

Og svo hefir þá gamla árið liðið frá okkur friðsamlega og hretviðralaust eins og svörtu skýflókarnir, sem dregur stundum upp á fjöllin hérna, og vofa þaðan yfir okkur eins og stórir, kolsvartir hrafnar. En svo tekur vestanvindurinn þá, sveiflar þeim í loftinu upp yfir okkur og ber þá langt austur á slétturnar, og þar hvelfast þeir niður í stórviðrishríð, en við sjáum ekkert af þeim nema jökulgráa röðina, sem veit á móti sólarlaginu. En nýja árið gægist nú fram úr hulu ókomna tímans eins og skógarbeltin og hæðirnar kring um okkur í hillingunum á morgnana. Hvort það verður sólbjart og heiðríkt eða kólguþrungið og með veðurhljóði, er ekki unnt að segja enn. En eins vildi ég óska okkur: að okkur auðnist að halda næsta gamlárskveld með hugarfari þess manns, sem að kveldi finnur það hjá sér, að hann hefir unnið gott og þarft dagsverk, þó veðrið hafi verið rosafengið.

Gleðilegt nýár!

## Katekismus únítara.

### Eftir M. J. Savage.

Með kennsluaðferð við íslenzkar „barnalærdómsbækur“ yrði þetta litla kver inn óþarfasti „katekismus“, sem prentaður hefir verið. Ekki vegna þess, að kenning hans er ólúthersk, langt frá; lesarinn má vera grunlaus um, að ég skoði bók frá því sjónarmiði. En barnalærdómskennslan íslenzka, fyrir 20 árum að minnsta kosti, endaði að lokum á því, eftir 8 og 9 vetra stagl, að unglingunum var hleypt út í heiminn, fullan freistinga, með nokkrar þéttprentaðar arkir

í kollinum af þurrum lífsreglum og ritningargreinum, snúnum hér og þar út úr biblíunni til að sanna kirkjusetningar, á sama hátt og leikinn málfærslumaður saxar sundur og snýr upp og niður vitnisburði fyrir dómi. Manni var aldrei veittur kostur á að koma þessari innrættu trúarskoðun í samræmi við neina aðra þekking. Ekki svo að skilja, að íslenzka kirkjan leysti barnafræðsluna verr af hendi en aðrar rétttrúaðar kirkjur, líklega gerði hún það eins vel, því „kverið“, sem ég lærði, er mun betra en kver, sem ég hefi lesið og kennd eru hjá öðrum kirkjufélögum, án tillits til þess, að mér þykir enn vænt um bókina, sem fyrst sagði mér, að til væru á jörðinni margar milljónir manna, auk mín og minna; að hver þeirra væri minn náungi og ætti jafnan rétt á kærleik og þjónustusemi, og engan þeirra mætti fyrirdæma, þó hann tryði öðru en ég; vænt um bókina, sem fyrst leysti úr minni einföldustu spurningu um alstirndan himin, því að hve andlega bláfátækleg fræðsla sem þetta var, var hún þó öll sú menntun, sem kristileg kirkja kostaði þá upp á aðra eins pilta og mig, og þó einungis af tilviljun, því frá guðfræðissjónarmiði flestra var margt af þessu óþarfa flekka á lærdómsbók barna, sem höfundurinn hafði slett á hana af sérvizku, og margir reyttu hana upp með því að strika hana út, svo trúarbragðakennslan yrði einlit.

Katekismus únítara eftir M. J. Savage er auðsýnilega ritaður með öðrum tilgangi í tilliti til fræðslu en íslenzku kverin. Hann ætlar sér að leiða nemandann inn á braut meiri þekkingar, að minnsta kosti víða, þar sem trú kirkjunnar, sagan og vísindin beygjast í krossgötur. Hans aðalkostur er að leiðbeina mönnum til að vita og skilja svo margt af inu nýjasta og bezta. Niðurstöðunnar af inni skörpustu biblíurannsókn vorra tíma getur hann víða, t. d. í svörunum í IV. kaflanum. Og hvað svo sem rétttrúnaðurinn æpir um vantrú, guðleysi og *Tübingen-skóla*, þá eru svörin í bókinni hófsamleg og ekkert nema það, sem kannazt er við af sívaxandi fjölda menntaðra manna að mestu leyti, og sem að nokkrum tíma liðnum verður viðtekið álit alls þorra kristinna manna, hver áhrif sem það álit þá kann að hafa á kirkjur og trú manna. En að útvíkka sjóndeildarhring óskyggnra manna á jafn skuggadrungalegu landi og kirkjutrúin er eins glögglega og vera þyrfti, verður ekki gert á liðugum 60 blaðsíðum, litlum og

gisprentuðum. Í því liggur óþarfi sá, sem af bók þessari gæti stafað. Af íslenzkri lærdómsbókar-kennslu leiðir nógar andlegar skemmdir, þegar trúarbrögðunum einum er troðið inn í höfuðið á unglingunum, eins og snælda er sett í rokk, án tillits til þess, hvernig löguð eða hvort þau nokkurn tíma geti orðið honum eiginleg, andi af hans anda; en ef ofan á það bætist, að eitt og annað í sögu og öðrum fræðigreinum væri kennt á sama hátt, yrði tjónið enn meira, og það yrði niðurstaðan af katekismus únítara, kenndum eftir barnalærdómsaðferðinni okkar gömlu. Bókin sjálf skýrir ekki sín eigin dæmi, t. d. sköpunarsöguna, Herkúles, Buddah og Faust og ótal fl. Til þess hefir höfundurinn heldur ekki ætlazt, og því fylgir kverinu bókaskrá yfir rit nokkurra góðra höfunda, þar sem grundvöllinn, ástæðurnar fyrir svörunum í bæklingnum, er að finna. Sum þessi rit eru eftir heimsfræga höfunda inna menntuðustu þjóða, Englendinga, Þjóðverja, Frakka; svo sem þá Darwin, Spencer, Strauss, Renan, menn, sem þó þeir aldrei gæfu í skyn á titilblaðinu á bókum sínum, að með sínu starfi byrjuðu nein aldamót, höfðu þó hafið nýtt tímabil í heimi mennta og vísinda, áður en góðfúsir lesendur höfðu lokið seinustu opnunni í ritum þeirra. Flestir eru höfundarnir mjög merkir, svo sem Lubbock, Emerson, Lecky, og hver sá, sem hefði kynni af þó aldrei væri nema nokkrum þeirra, færi varla alveg á mis við þann andlega gróður, sem þroskast við lestur góðra bóka. Þessi katekismus er því eiginlega engin tíðkanleg barnalærdómsbók; hann er nokkurs konar lykill að góðra bóka skáp, eins konar leiðarvísir til að bera upp fyrir sjálfum sér trúarspurningar svo skipulega, að upp á þær fáist svar, sem eitthvað hefir við að styðjast, eins langt og nokkur únítari ætlast til að spyrja þurfi, og með bókaskránni bendir hann til, hvar svörin finnist, eins greinileg og rökstudd eins og þau geta fengizt enn sem komið er. Þar að auki eru svörin í bæklingnum sjálfum oft býsna glögg. Þannig er í III. kafla 17. bls. munurinn á skynsemi mannsins og dýranna greinilega framsettur, einmitt þar sem mörgum höfundum hættir við að gefast upp í heimspekilegum orðavöflum. Í IV. kafla 27. bls. er stutt og gagnort fram tekið: „að biblían kenni það, sem vér vitum er ósiðlegt,ranghermi sögu og vísindi og mótsegi sjálfri sér.“ Og í bæklingnum sjálfum er tilfærð mótsögnin um fæðingarstað Krists og

ímyndun biblíuhöfundanna um lögun jarðarinnar, svo hver sem þá bók á, getur flett því upp sjálfur. Stundum veltir höfundurinn um vallgrónum kirkjukenningum, svo fáort og léttilega að það er kímilegt, eins og í X. kaflanum, bls. 59, í svarinu upp á spurninguna: Hvort dauðinn sé hegning fyrir syndina. „Nei, hann átti sér stað meðal inna óæðri dýra, áður en nokkrir menn voru til að gera rangt.“ Rétt breytni er afleiðing þekkingar og kærleika, samkvæmt kenningu kversins, og í „framtíðinni geta menn vonazt eftir, að hungur og drepsóttir, lestir og glæpir fari þverrandi, og vor æðsta skylda sé það, að gera það litla sem í voru valdi stendur, til að koma lífskjörum mannanna í það horf.“

Ekki er þó svo að skilja, að allt það, sem í bæklingnum stendur, hljóti að vera hárrétt og ekkert nema það. Slík skoðun á aðeins við rétttrúar katekismusa, hún er þeirra viðhald. Ég get því ekki fallizt á kenning bæklingsins í VI. kafla 42. bls., að „ið illa sé ekkert annað en vanþekking á guðs lögum og vanrækt í að halda þau,“ þó ég sé þeirri kenning kunnugur allt frá dögum „Njólu“. Auðvitað leiðir allt böl mannanna af því, að þeir eru ófullkomnir að þekking sem öðru, en reyndar er sú staðhæfing ekkert svar, ef tala á um siðferðislega ábyrgð ins illa í heiminum, hún er aðeins tilraun til að þurrka út spurninguna. Eða er ekki ið illa í náttúrunni utan við oss í sjálfu sér illt fyrir það, þó mennirnir hafi með margra alda áreynslu, blóði sínu og tárum, lært að brjóta það á bak aftur, eða skjótast undan höggunum, eins og þræll undan svipuól böðulsins, ímyndi maður sér á annað borð, að gæzkuríkur kraftur stjórni heiminum og að menn kunni nokkurn greinarmun á réttu og röngu? Landslög ætlast til, að tillit sé tekið til afleiðinga einungis, en siðferðislögmálið ristir dýpra. Svo er og í I. kafla, 7. bls., þar sem sagt er, að trúarbrögð séu nauðsynlegust allra hluta, af því á þekkingunni á því valdi, sem opinberast í heiminum í kringum oss og í sjálfum oss, og á réttu sambandi við það, hvíli líf vort og heilsa, heill og hamingja. Það er alkunnugt, að allra þessara gæða geta trúlausir menn notið, að minnsta kosti hérna megin grafarinnar, og það jafnvel þó höf. ekki kalli trúleysingja suma þá, er færru trúa en sjálfur hann, enda kennir hann sjálfur í lok bókar sinnar, að „beztur undirbúningur undir hvern heim sem vera skal, sé að hafa lært hér

að *lifa réttu líferni.*“ Fastheldni höfundarins á „guðsmynd mannsins“ í III. kafla, 20. bls., er næstum spaugileg, einkanlega af því hann er sterkur Darwinisti á 16. bls. í sama kafla. Í sjálfu sér er það fullheiðarlegur titill fyrir manninn, að kallast „æðri skepna“ eða „æðsta skepna“, og það er líka titill, sem lítill vafi leikur á, að hann eigi með réttu. Guðsmyndar-nafnbótin er aftur nokkuð efasöm, og það hefir verið ágreiningur um, hvort maðurinn ætti það andlegri eða líkamlegri lögun sinni að þakka, að hann náði sér í þennan theologiska titil. Og þó að tekin væri upp skýring höfundar á nafninu, sem er sú lang-viðkunnanlegasta, að maðurinn sé líkur guði að greind, siðferði og anda, þá verður maður þó á endanum hálfleiður á hugsuninni um þessa löngu, sviplíku, margendurteknu skrípamyndaútgáfu af sjálfum fullkomleikanum. Neðan undir þetta, og jafnvel fleira í katekismusnum, sem höf. sjálfur varast að setja fram nema [sem] tilgátu, t. a. m. líkamann, sem Kristur birtist í eftir upprisuna — þó það sé samkvæmt spiritistum og postulanum Páli, — vil ég helzt rita höf. eigin orð: „Þekkingin sprettur af reynslunni, en hingað til höfum vér ekki haft neina reynslu, sem geti frætt oss um þessa hluti.“

Þýðing hr. B. Péturssonar á bæklingi þessum er málflækjulaus og auðskilin þeim, sem á annað borð skilur íslenzku. Prentvillur þær, er illlæsir menn kynnu að stranda á, eru þessar: á 9. bls., 2. spurning: guöi, fyrir *guði;* 41. bls., svar upp á 8. spurningu: uppreit, fyrir *uppreisn;* 42. bls., 20. spurn.: lti verið, fyrir *til verið;* og á 45. bls., svar upp á 3. spurn.: falíi, fyrir *falli.* Stíllinn er skýr.

Það er vel varið tuttugu og fimm centum fyrir þetta litla kver, af öllum þeim, sem ekki óttast að sjá mótbárur gegn ýmsu því, sem kennt hefir verið og sem menn hafa ímyndað sér eður trúað á hingað til. Dauð vanatrú er gagnslaus fyrir þetta líf, og til annars heims á hún ekkert fyrirheit að sækja, svo kunnugt sé. Ekkert andlegt líf þrífst við það að þylja alltaf upp sömu trúarjátningar og stauta sömu postillurnar, hve sannar og sáluhjálplegar sem þær kunna að vera, fremur en hjá katólska manninum, sem lætur páfann skammta sér, hvað hann megi lesa. Skoðanir, sem eru sniðnar utan á mann eins og frakki, slitna upp fyrr eða síðar, hve vel sem þær

kunna að fara. Og það er nærri óskiljanlegt, að nokkur skuli gera sig ánægðan með það fyrir sig eða börn sín að láta gera sál sína að andlegum trésoldáta á hjólum og streng, sem eitthvert kirkjufélag, eða jafnvel stjórnarflokkur, hnykkir til og frá, eða lætur standa í sömu sporum, eftir sinni eigin vild. [1892]

# Um rím.

Nokkrir hafa spáð því, að dagar ljóðskáldanna væru bráðum taldir og að rímaður kveðskapur yrði innan skamms talinn meðal fornleifa bókmenntanna; rímið væri ekki náttúrlegt og óhindraður búningur máls, heldur einstrengingsskorður, sem oft og tíðum lömuðu efnið, heltu og skekktu málið og næstum kyrktu sjálfan skáldskapinn. Það hefir oft verið sagt: Auðvitað getur skáldskapurinn lagt niður rímið, hvenær sem vera skal, og komið fram í öðru gervi. Ekkert í hugsun mannsins skiptir jafn léttilega um hami, svo þó að mannheimur tæki sig saman um að hugsa ekkert nema tómar verðlagsskrár og færa ekkert í letur nema markabækur, myndi skáldskapurinn finna einhver ráð til að smeygja sér jafnvel inn í þær, ekki síður en inn í grjót og málma. Hann klæðir sig eftir tíðinni og kemur fram í ríminu, meðan mannsminnið er eina bókin til að geyma hann; eða þar sem tíminn eða gáfurnar brjóta hann upp í smáagnir, vefur hann sig innan í ljóðinu eins og umbúðum, svo hann hrynji ekki niður og hægt sé að flytja hann. Þegar flokkur hefir safnazt um hann, tekur hann sér stöðvar á leiksviðinu, klæddur í orð og athafnir lifandi manna; og loksins þegar hann á erindi út um víðlendið til fjöldans og inn í kotin og hallirnar, þar sem þörf er á að semja sig að háttum svo margra, varpar hann yfir sig inum létta og algenga hjúpi söguformsins. Samt sem áður er ekki líklegt, að rímið verði niður lagður búningur skáldskaparins enn um langan, langan tíma. Þrátt fyrir alla þessa takmörkun og galla er það enn nokkurs konar vaxtasjóður skáldskaparins, sem hirðir smápeningana, svo færri af þeim glatast, og til að ganga úr skugga um, að svo sé, þarf ekki annað en athuga eftirstöðvar hans hjá alþýðunni — fallegu kvæðin festast enn létt í minni manna, en fallegu kaflarnir í

skáldsögunum og leikritunum ná þar tiltölulega litlu haldi; þar liggur oftast ekkert eftir, nema holdlaus beinagrind af yrkisefninu.

Hér í Ameríku gerði „góða skáldið gráhærða“ (the good gray Poet, var dálætisnafn sumra á honum), Walt Whitman, uppreisn á móti ríminu fyrstur manna. Enginn efi er á því, að talsvert af skáldskaparáhrifum hans ónýttist í bráðina sakir þess, þrátt fyrir þann viðauka af eftirtekt og umræðum manna, sem það vakti á honum, eins og hverjum byltingamanni á gömlum venjum, en því mega eftirrennarar hans í þá átt trauðlega búast við. Það var nýjabrum og nú afstaðinn bylur. Sá sem ekki hefir lag eða tómstund til að láta smágreinarnar af skáldskap sínum gróa saman við neina heild, glatar þeim oftast fyrr, dreifi hann þeim út í lausu máli, nema þar sem bönd rímsins verða að sjálfsögðum fjötri.

Annars er rímlaus kveðlingur líkastur því að yrkja í upphrópunarmerkjum og er eflaust niður lagður búningur skáldskaparins; því að þannig hafa ort forfeður ljóðskáldanna á löngu liðnum barnsaldri mannkynsins; en það er einmitt einn aðalkostur hans í augum þeirra manna, sem trúa á það, að heimurinn ætti helzt að rekja slóð sína til baka til ins upprunalega; en mest allt þetta afturhvarf til ins upprunalega yrði tóm afturför, þó það að öðru leyti væri vinnandi vegur.

Gott sýnishorn af órímuðum kveðskap er þýðing Jóns Ólafssonar á inu vel gerða kvæði „England“, eftir sænska skáldið Strindberg, í „Smástirni Aldarinnar“. In stórfenglega og þráðbeina hugsun í því kvæði, út af einkennum jarðlagsins á Englandi, kolunum og krítinni í jörðinni, sem verpur litum sínum yfir ensku þjóðina í augum skáldsins, tengir fast saman inar sundurleitu hendingar.

Þó maður mætti hlakka til alls þess, sem heiminum sparaðist, bæði ljós og heilaslit, ef það yrði almennur siður að yrkja rímlaust, svo leirskáldin sjálf þyrftu ekki lengur að þreyta sig á næturvökum við að hnoða því upp í hendingar, sem aldrei hefði átt að vera í orð fært, þá dregur það úr fögnuðinum, að maður sér það í hendi sinni, að þau hlytu að verða svo miklu langlífari við að geta farið svo vel með sig. Og þó menn ímyndi sér að almenningur tæki þá ekki lengur tómt rím fyrir skáldskap, yrði hann samt í vandræð-

um með að átta sig á, að kvæði eins og hans Strindbergs væru annað en tómt bull.

Á íslenzku hefir enginn ort algerlega í upphrópunarmerkjum, nema hann Moldhauga-Markús heitinn, sem hvorki þekkti höfuðstaf né stuðul og var fyrirtaks leirskáld — því hvað útbúnaðinn á yrkisefninu snertir, þá er hann og hún Karólína okkar Dalmann mestu fjarstæður. Hún, sem yrkir í rímuðum gæsalöppum, eins og sýnir sig á dálklöngu kviðunni, sem hún fékk í „Heimskringlu“ nýskeð út af mér.

[1892]

## Um bóklestur.

### Ræða flutt fyrir Lestrarfélag Íslendinga í Alberta-nýlendu.

Þessi ræðu-afsökun mín í kveld á að verða um bóklestur, og ég þykist þegar í byrjun hafa hálflokið loforði mínu við Lestrarfélagið ykkar með að velja það efni, sem mér finnst að ætti að eiga vel við það. En hitt veit ég líka fyrir víst, að síðari helmingur loforðsins verður lakar af hendi inntur, nefnilega sá hlutinn, sem nú liggur fyrir, að geta sagt eitthvað það um lestur bóka, sem meira væri en tímaeyðsla að hlusta á, eitthvað, sem vekti svo eftirtekt ykkar, að ykkur leiddist ekki að hlusta á það, og eitthvað, sem vakizt gæti upp í huga ykkar seinna og orðið skoðunarmál. Sjálfur ætla ég aðeins að reyna að færa í orðabúning hugsanir þær, sem oft hafa verið að vefjast fyrir mér, þegar ég hefi verið að bera saman pundatöluna af bleki og bókapappír, sem ég og aðrir hafa rogazt gegnum, við lóðaáttungana af góðri bókmenntun, sem okkur hefir á þeim græðzt.

Ég má til að segja ykkur frá því, um leið og ég nefni orðið menntun, að eftir minni skoðun þýðir það ekki skólalærdóm né bókfræði einungis. Það er eflaust handhæg skipting að deila mönnum í menntaða og ómenntaða eftir reglunni: skólagenginn og óskólagenginn; en sú aðgreining er jafn eðlileg og landamerkjalínan hérna sunnan við okkur; eini greinilegi munurinn er, að öðrum megin þessarar menntunarlínu ganga karlmennirnir á síðum frökkum og með pípuhatt, en hinum megin á stuttum frökkum og með barðastóra hatta; að öðrum megin landamerkjalínunnar eru hermennirnir dubbaðir upp í rauðar

treyjur, en hinum megin í bláar. En á kvenbúnaðinum er engin aðgreining. Eftir mínu viti fer ekki menntun manns sjálfsagt eftir því, hvort hann hefir gengið á nokkurn skóla eða engan, eður hvort hann hefir lesið þessa bók eður hina; hún fer einungis eftir því, að hve miklum *manni* skólalærdómurinn hefir gert hann, hve mikla andlega menningu bókin hefir veitt honum; hún er ekki eingöngu stíll í latneskri málfræði, vel af hendi leystur, né örðugt dæmi í bókstafareikningi, rétt reiknað, heldur er hún *snilld* og *göfgi* mannsins sjálfs, aðgreinileg frá því, sem hann hefir tekið til láns frá skólum og bókum. Í fám orðum: menntunin er inn *andlegi uppvöxtur* mannsins, en ekki búningurinn, sem hlaðið er utan á hann. Hugsið þó ekki, að ég ímyndi mér, að lærdómur og bókafróðleikur sé þýðingarlaus fyrir menntunina, þótt ég trúi ekki, að það sé sama og hún sjálf. Öðru nær. Skólagengni og bóklesni maðurinn er vel útbúni landneminn, með mikilli kunnáttu og öll tíðkanleg verkfæri við hendina, en inn óskólagengni og óbóklesni er Róbinson Krúsó, skipbrotsmaður, strandaður af hending á eyðiey, með tvær hendur tómar og í engu æfðar.

Þessa athugasemd varð ég að gera. Og svo sný ég mér að efninu aftur. Ég veit, að flestir ímynda sér, að fólk lesi bækur almennt til að mennta sig, en svo er þó ekki. Langflestir lesa sér til *dægrastyttingar* einungis. Vilji menn bera á móti því, ættu menn að minnast þess, hve sáróánægðir þeir eru með dagblöðin, sem almenningur les mest, þegar viku-fréttaskammturinn af bankaþjófnaði og gálga-hengingum er slakari en vanalega, eða þegar reyfarasögur og Salómons-námuspottinn er styttri en vant er; jafnvel verða kökuskurðir aldrei of margir né tombólur of tíðar; og þeim, sem skilja ensku, finnst gæðamunurinn á íslenzku og ensku blöðunum mestur einmitt í þessu. Milli slíkra frétta-stórkeralda og íslenzku sleifanna er enginn samanburður gerandi. Það sjá þó allir, að á engan hátt getur þetta og annað eins gert menn göfugri né menntaðri, og sára magur fróðleikur er það líka, og öldungis gagnslaus fyrir mann, jafnvel í hversdagslífinu. En almenningsskoðun á dagblöðum er, að þau eigi að vera fyrst og fremst fréttablöð, *skemmtiblöð*. Bækurnar, sem þess háttar menn lesa helzt, eru valdar eftir sama smekk, og sé Íslendingurinn svo óheppinn að skilja eitthvert bókmál annað en íslenzkuna, er hann viss með innan fárra ára að hafa lesið

sig ofan í stóreflis bókahlaða af „eldhússrómönum“, sem, eins og Guðbrandarbiblía Djúnka hjá Gröndal, nær meðalmanni í mjöðm. Í veraldlegum bókmenntum íslenzkum er ekkert til prentað jafn vesalt eins og rómanaruslið hjá öðrum þjóðum, og jafnvel „Amúratis-rímur“ og „Fróðlegt ljóðasafn“ eru gullaldarrit hjá slíkum þvættingi. Þetta fólk er þjáð af andlegum dofa. Það er leitt á sjálfu sér og heiminum kringum sig, og til að losast þó við það allt stund og stund, sekkur það sér ofan í lestur rómana, sem þykja því betri sem frásögnin er æstari og óeðlilegri; það hefir óbeit á öllu hugarerfiði, og ef þú bendir því á að lesa góðar bækur, myndi því þykja það jafn kímileg forsending, eins og ef þú vildir senda það eftir tunglinu.

Þá eru margir, sem lesa bækur sér til *fróðleiks*, til að muna og kunna sem allra mest. Þeir lesa mest í einhverja eina stefnu, svo sem sögur og annála. Þeir hafa oft fengið nokkurs konar oftrú á bókum, einhverja bókstaflega óskeikulleiks-skoðun á öllu, sem „skrifað stendur“. Það eru menn, sem hafa lesið allt eins og börn læra margföldunartöflu. Bækur þær, sem þeir hafa lært, sem oft eru margar og góðar, hafa þroskað næmið og minnið svo mjög, að það liggur eins og steinfarg yfir öðrum gáfum þeirra, skilningi, smekkvísi, skarpskyggni og öllu andríki. Sinn andlega mann hafa þeir byggt upp eins og drengir hlaða upp snjókerling, hvert lagið á annað ofan hnoðað utan um sjálft sig, kjarnalaust og kalt. Talaðu við þá um eitthvert atriði í sögum, t. d. kristniboð Ólafs konungs Tryggvasonar í Noregi, en láttu þér ekki detta í hug, að þeir sjái neitt göfugt í Þóri og Eyvindi kinnrifu; en þakkaðu þínum sæla, ef þú sleppur hjá að grafast lifandi í heilu jökulhlaupi af endalausum ártölum og nöfnum og dauðra manna búkum, sem Ólafur lét vega, allt vegna þess, að höfundur þeirrar sögu hefir skrifað svo og svo. En það er ekki í sögum einungis, að maður rekst á þessa bókaskápa, þó þeir séu flestir þar hjá okkur Íslendingum. Sumir menn eru nokkurs konar talandi bókaregistur yfir ótal rit og höfunda og þeir eru gjarnastir á að tyggja skoðanir merkra manna, að rota með sífelldum heimildum, þegar deilt er við þá um eitthvert efni; ef þeir þá geta vitnað í einhver orð í einhverri bók eða bréfi, eftir einhvern Pál eða Lúther, eða Spencer, eða jafnvel Mad. Blavatsky, þykjast þeir hafa fundið orðum sínum góðan stað og

öruggt vígi, þótt það sé á bak við beinagrindur framliðinna. — Mig hefir stundum langað til, að nokkrir af þess háttar fróðleiksmönnum væru sendir til hans Kristjáns Jacobsens bókbindara, og hann látinn binda þá trútt, setja skinn á hornin á þeim og gylla þá á kjölinn, og svo væri þeim hlaðið upp í bókasafninu þeirra Ísdals og Sölva Þorlákssonar; bara að stjórnin okkar borgaði kostnaðinn úr pólitískum verðlaunasjóði fyrir afturhaldsskoðanir.

Svo eru þeir til, sem bóklesturinn hefir *menntað*, menn, sem ekki einungis hafa dregið að sér skemmtun og fróðleik úr bókum, heldur miklu fremur skerpt og eflt krafta síns eigin anda; drukkið í sig andlegan þrótt úr bókvísinni, eins og grasið úr vorskúrunum. Reyndar býst ég við, að menntun, þannig skilin, þyki létt í vasann, embættislaus og brauðlaus, sem hvorki verður vegin á búðarvogina né mæld í pottatali, sem er svo tvísýn, að það er ekki víst, að fyrir hana fáist meira smér úr mjólkinni, né fleiri eggjatylftir úr hænsnabúrinu, því þannig verður hún ekki metin. En eitt er þó víst, hún gerir manninn *sjálfan* hæfari til alls nýtilegs, *mennilegri* en ef hann væri án hennar. Hún gerir hann næmari og gleggri á allt fagurt og gott, og tengir hann nánari og innilegri böndum við kyn sitt og náttúruna kringum sig. Hún þýðir manni rúnir liðinna alda, skýrir tungur vorra eigin tíma, og sýnir manni framtíðina í glöggri hilling. Hún forðar manni þess, að líf manns verði gróðurlaust og öllu fráskilið, eins og bjarg, sem oltið hefir fram á grassléttu og liggur þar hreyfingarlaust, unz það sígur ofan í jörðina. Hún lengir inn stutta mannsaldur um heimsaldra, því skynjan og tilfinningar ins sannmenntaða ná langt út yfir reynslu-spöl einnar mannsævi.

Það er ekki unnt að gefa nema ófullkomnar bendingar um það, hvers konar bækur bezt sé að lesa, allra *sízt* af ekki færari manni en ég er. Maður hlýtur að fara eftir reynslu sjálfs sín og eftirtekt á öðrum. En hvað sjálfum mér viðvíkur, þá hefir mér aldrei hlotnazt annað en fáir og sundurlausir molar, sem endrum og eins hafa af tilviljun fokið á götu mína af borðum bókfræðinnar, og það sem verst er, ég hefi hirt þá illa. En ef ég ætti að segja, hvað mér þætti bezt gert í íslenzkum bókmenntum, í samanburði við ið fáa af öðrum bókum, sem ég hefi séð, myndi ég í fljótu máli svara: Við höf-

um ritað beztar ævisögur og kveðið bezt erfiljóð. — Af allri menntandi bókfræði hefi ég mesta trú á skáldskapnum, því ef mönnum tækist að þurrka hann út úr sögunni, trúarbrögðunum og jafnvel vísindabókunum, er mér næst að halda, að dimmt yrði yfir öllum bókmenntum. Sé ekki þessi næma tilfinning, sem þreifar uppi hugsun og hjartalag jafnvel ókunnra manna, þetta skýra ímyndunarafl, sem dregur upp rétt ið hulda, þetta glöggskyggna auga, sem þrengir sér eins og leiftur í gegn um náttmyrkur ofan í „móðu myrkra alda“, — séu það ekki nokkur af einkennum skáldskaparins, þá veit ég ekki hver þau eru, og ég sé ekki heldur, hvernig nokkur verulega menntandi bók er til alveg án þeirra. Skáldin gera auðvitað oft ekki annað en finna orð og búning fyrir hugsanir og tilfinningar okkar, sem hafa vafizt fyrir okkur formlausar og óljósar, þangað til þau (skáldin) hafa gert okkur þær ljósar og skiljanlegar, svo við glöggvum okkur á þeim. T. d. í uppáhalds vísunni okkar: „Hvað er svo glatt“, er það skáldið, sem gat fyrst túlkað svo fagurlega, það sem við svo oft vildum hafa sagt og fannst við þurfa að segja, en fundum aldrei orð yfir, sem færu jafn vel; eða mun ekki oft hafa vakað fyrir glöðum og veðursælum ferðamanni ið sama og kemur fram í vísunni: „Þú reiðst um fagran fjalladal“, áður en Jónas Hallgrímsson gerði það ljóst, unaðslegt og fagurt? Og þó að önnur skáld lýsi gagnstæðum tilfinningum og sjái hlutina frá annarri hlið en Jónas, þá lýsa þeir jafn sönnum tilfinningum fyrir það og yrkja jafn fagurlega, ef þá skortir ekki gáfu til; en menntun manns er því fullkomnari, sem maður getur þekkt og kannazt við fleira fagurt sem sér sjálfum skylt, frá hverri hlið sem það kemur, og á því sviði er skáldskapurinn víðtækastur.

Þá eru sögurnar okkar gömlu enn þann dag í dag ágætt menntunarmeðal að mörgu leyti, séu þær ekki lesnar með of mikilli „andakt“, þessari hjátrú á gullöld fornaldarinnar og þessari oftignun á mikilmennsku og frægðarljóma fornkappanna, sem mörgum hættir svo við. Auk ins ágæta máls og forms, hafa fornsögurnar þann kost, að þær eru að miklu leyti ævisögur einstakra frægra manna, og festast því miklu skýrar í huga óbókæfðra manna en sögur þjóða og ríkja, þar sem viðburðirnir dreifast yfir löng tímabil, mikinn mannfjölda og ólíkt aldarfar. Svo eru þær flestar sannar (að undanskildum

elztu þjóðsögunum, Völsungasögu o. fl.). Ekki svo að skilja, að viðburðirnir séu ævinlega sagðir öldungis eins og þeir áttu sér stað; það væri til of mikils ætlazt af forfeðrum *sjálfra okkar*, og við vitum, að jafnvel innblásnum mönnum hefir skjátlazt rétt frásögn; en sögusögnin er samt oftast nær náttúrleg, samkvæmt því, sem vel gat átt sér stað. Það er alveg náttúrlegt, að menn í þá daga hafi líka skilið mennina og aðgerðir þeirra dálítið misjafnt, og hitt er líka náttúrlegt, að þegar sagan var seinna ritin, eftir manna minni, hafi söguhöfundurinn heldur valið þá söguna, sem gerði hans söguhetju að meiri kappa. Hitt er meiri furða, hve sjaldan menn sjá merki þessarar sögufegrunar í fornsögum okkar, og kemur það líklega nokkuð til af því, að forfeður okkar voru *forlagatrúarmenn*, og höfðu svo litla ástæðu til að fegra eða lýta menn, þótt þeir yrðu fyrir ósköpum. Ekki mátti sköpum renna, kváðu þeir. — En maður hefir því aðeins gagn af lestri fornsagnanna, ef manni lærist að skilja það, að mennirnir, sem þá voru uppi, voru að öllu náttúrufari svipaðir þeim, sem enn lifa, aðeins lifðu þeir við aðra siði og venjur. Geri maður sér grein fyrir, hverjar þær voru, verður manni af sögunum líf og hugsunarháttur fornmanna eins ljóst og maður hefði lifað því sjálfur. Hjalti Skeggjason, sem „geyjar goðin“ á Alþingi úti á Íslandi, er sami maðurinn sem Ingersoll í Ameríku, sem „guðlastar“ Jehovah; aðeins liggja milli þeirra nokkrar aldir. Á mönnunum, sem við dáumst að eða löstum, og okkur sjálfum, er oft enginn annar munur en sá, að þeir fæddust mörgum árum fyrr en við. — Það er eitt, sem vekur eftirtekt manns á fornmönnum: hve fúsir þeir voru að *leggja sjálfa sig í hættu*. Tilgangur þeirra var ekki ævinlega fagur né göfugur, en það er þó dyggð, sem hver vel menntaður maður ætti að eiga hjá sér, þegar um sannfæring eða áhugamál er að tefla, og mennirnir, sem það þora, eru enn þann dag í dag mannkynsins glæsilegasta framtíðarvon.

Af öllum fræðigreinum eru náttúruvísindin eflaust gagnlegust fyrir mann frá hagsmunalegu sjónarmiði; en bækur, sem um þau fjalla, eru alltof oft þunglamalega ritaðar og líkjast um of forskriftum lækna til lyfsala, registur yfir þurrar beinagrindur og efna-reikningar, sem skerpa meira minnið en hugsunarþróttinn og verða því leiðinlegar, nema fyrir einstaka menn. Ég hefi stundum æskt, að hægt væri að rita sem

flestar þess háttar bækur á sama hátt og lýsing jarðarinnar á einum af fyrri öldrum hennar — kolatímabilinu — í stuttri grein um jarðfræði eftir Thoroddsen í „Andvara", og niðurlagið á sömu grein. En geti maður af lögum og samböndum numið mál náttúrunnar og skilið „tungur fjallanna", hefir maður með því lagt sér ævilangan menntunargrundvöll og er fær um að byggja sér ofan á hann óteljandi andlegar unaðsemdir. Ég veit, að móti vísindum og vísindamönnum er til sú húsgangsskoðun meðal sumra guðhræddra alþýðumanna, að árangurslaust sé að lesa nokkuð þess háttar, því eftir allt saman nái það svo skammt, láti svo mörgu ósvarað, sem þeir vilji fá að vita, vísindin viti yfir höfuð svo fátt áreiðanlegt. En fyrsta stig vizkunnar er þó ævinlega að *hafa menning til að spyrja,* og það er ekki árangurslaust að gera sér grein fyrir, hve mikill hluti af manns eigin skoðunum sé byggður á þekking, og hve mikill hluti á getgátum, fyrir utan það, að óvíst er, að þessi mannheimur væri eina ögn skemmtilegri, þótt þekking okkar væri svo umfangsmikil, að hún skildi hvergi eftir autt rúm fyrir ímyndanina.

Á nútímabókmenntir okkar finnst mér tvennt skorta mest: *fjölhæf tímarit og góðar ferðasögur.* Það getur enginn getið því nærri, sem ekki hefir sjálfur reynt það, hve mikil menntandi áhrif að felast í yfirgripsmiklum tímaritum, þar sem svo að segja öll hugsanleg málefni, forn og ný, eru rædd frá ýmsum hliðum, í stuttum og vel sömdum ritgerðum, svo það getur varla hjá því farið, að hver hugsandi maður finni þar eitthvað, sem vekur hann til umhugsunar. Góð tímarit eru almennings skólabækur fyrir fullorðna, ritaðar fyrir þann allsherjar skóla, sem allir geta gengið á heima hjá sér, þar sem námstíminn er lífstíð, en lærdómurinn er ekki bitaður upp í ætlunarverk fyrir mann. Ég býst við, að mönnum þyki kynlegt að kvarta um skort á tímaritum, og vitni t. d. í „Sunnanfara" og „Sameininguna" og sams konar rit, og segi, að við meiru sé ekki að búast hjá fámennri þjóð. „Sunnanfari" er vafalaust ágætur, svo langt sem hann nær, en hann er of eyjarskeggjalegur, of bundinn við allt íslenzkt *einungis,* t. d. íslenzkar bækur og bækur um Ísland. Hann víkkar ekki út inn andlega sjóndeildarhring manns á nógu margar hliðar. Ég segi þetta ekki honum til lasts, hann fyllir ágætlega ið litla rúm, sem hann hefir tekið sér, og fyrir honum er, ef til

vill, ekki nema um tvennt að velja: *sitt litla rúm* eða *ekki að vera til*. Það ætti hver Íslendingur að lesa „Sunnanfara"; það gæti kannske vakið einhvern til að vinna eitthvað það, sem manndómur væri í, svo myndin af honum kæmist þar með tímanum á eina blaðsíðuna; einkum ætti það að vera ginnandi fyrir stúlkurnar, sem vita, að þær eiga fallegt andlit — þegar „Sunnanfari" fer að prenta myndir af kvenmönnum!

„Sameiningin", og sams konar blöð, eru aftur á móti *ekki* tímarit í þeim skilningi, sem ég á við. Hún er aðeins *flokksblað,* sem fjallar um aðeins *eitt* málefni, sem hún ræðir frá aðeins *einni* hlið. Það verður heldur ekki heimtað meira af henni því hún lofar ekki meiru. En þrátt fyrir það og þrátt fyrir hitt, að ritstjóri hennar á í henni nokkrar ágætar greinar, bornar saman við sams konar greinar eftir aðra, þá er hitt þó sannleikur, að af þeim fáu mönnum, sem ég hefi kynnzt, sem „Sameiningin" hefir haft nokkur áhrif á, hafa þau ekki verið menntandi. Þeir hafa ekkert af henni lært nema fáein stóryrði um mótstöðumenn sína og skoðanir þeirra, án þess að hafa neina glögga hugmynd um þá trúarstefnu, sem fyrir höfundinum vakir. Og orð hans hafa ekki vakið upp hjá sjálfum þeim neitt andlegt afl, þau hafa aðeins orðið þeim verkfæri, *ný sleggja,* sem þeir reyna að nota í stappi því, sem þeim finnst vera sitt trúarstríð. — Fyrir löngu síðan dró ég fisk á færi, heima við Ísland, fram með hafísjökum úti á Skagafirði. Mér þótti það undarlegt, að hver fiskur, sem ég dró, hafði ský á öðru auganu og var auðsjáanlega blindur á því. Ég spurði manninn, sem með mér var, hvernig á því stæði. Hann sagði mér, að það kæmi til af því, að fiskarnir hændust að ljósglampanum út frá jökunum, syntu í sífellu kring um þá og sneru því ávallt sama auganu að jakanum, unz þeir yrðu blindir, því birtuna út frá ísnum þyldu þeir ekki til lengdar, en kringum jakann syntu þeir samt eftir sem áður. — Eins hefir inum sterkustu „Sameiningar"-mönnum meðal alþýðunnar farið. Þeir eru allir blindir á því auganu, sem að henni og hennar málefnum snýr, en þeir synda í kringum hana samt, eins og *allir flokkar* gera kringum sín æstustu flokksblöð.

Sérhvað það, sem víkkar út ið andlega sjónarsvið manns, gerir honum mannheiminn skiljanlegri og ljósari tengdir hans sjálfs jafnvel við fjarlæga og ólíka þjóðflokka, glæðir mennt-

un hans. Í því tilliti geta ferðasögur verið ágætar, séu þær vel ritaðar, ritaðar af mönnum, sem skilja fólkið, sem þeir ferðast um hjá, og geta sett sig í þess spor svo nákvæmlega, sem hefðu þeir alizt upp hjá því, en flytja sig ekki yfir í *dómstól* sinnar eigin þjóðar eða þess, sem þeir hafa *vanizt*, eða *eru* sjálfir, því þá verða sagnir þeirra að miklu leyti fordómar. Í einu hefti af „Iðunni" er vel rituð grein í þessa átt, sem ég hér á við; það er ritgerðin „Frá Póllandi", eftir dr. Brandes.

Félagið ykkar hefir stundum verið að ráðgera að kaupa eitthvað af enskum bókum. Væri það að nokkru leyti fært, sem líklega er efamál, þá væri hægt að bæta sér upp það, sem ég hefi hér talið, að vantaði í íslenzkar bókmenntir; einkum ætti félagið þá að kaupa tímarit. Fyrir þá, sem hneigðir eru fyrir rómana eða skáldsögur, væri ekki fjarri að reyna sig á Byron og Dickens. Byron er kannske stundum óhemjulegur eins og vetrarhláka, en hann er þá aldrei leiðinlegur, og það er eitthvað í anda hans, sem *hristir mann upp*, svo maður kemur fyrir sig fótum, og menntunin á ekki að vera tómt *lánsfé*, hún er *sjálfseign*. Dickens kann að vera nokkuð tafsamur stundum, en hann sá meira sögulegt í hversdagshlutunum og í hversdagslífi okkar hversdagsmannanna en flestir aðrir, og hann þurfti ekki heila ættbálka af jörlum og lávörðum né margra kapítula treining af einvígum og morðum, ekki einu sinni það, sem varla er mögulegt að komast af án: ástir og giftingar, til að geta ritað góða skáldsögu. Umfram flesta aðra er Dickens skáld *meðaumkunarinnar*, og jafn kíminn og tilfinninganæmur eins og hann er, ætti engum að leiðast að lesa hann.

Ég býst annars við, að á bak við stofnun þessa „lestrarfélags", og sumra annarra meðal Íslendinga, sé hvötin til að koma þeim á fót langtum heldur sú, að fá bækurnar lesnar, af því það eru *íslenzkar* bækur, en hitt, að menn ímyndi sér, að það sé mönnum áríðandi hér, eða geri sér grein fyrir, hver menntunaráhrif sá lestur getur haft. En hver sem hvötin er, getur nokkuð gott af því leitt. Hér elst nú upp ungt fólk af íslenzku kyni, sem lítið eða ekkert mundi þekkja til Íslands og bókmennta þess, ef „lestrarfélögin" hlynntu ekki að því. Það verður aldrei hnekkir fyrir Íslendinga hér, þótt þeir skilji tvö mál, ensku og íslenzku, svo að þeir, sem því eru vaxnir, geti orðið heima í bókmenntum beggja. Þegar Ameríkumenn

stæra sig af Burns og Shakespeare, sem þeir eiga ekkert í, þá er það jafngott að geta látið þá vita, að við komum ekki hingað bóklausir heldur. Látið þá vita, að fyrir *löngu* vorum við orðnir menn, og að þeir séu ekki fyrst *nú* að gera menn úr okkur; svo lengi, sem nafnið Íslendingur verður haft um okkur. Mér hefir dottið eitt í hug: væri ekki hægt að tengja víða saman skáldskapinn við aðrar bókmenntir í hug inna yngri manna, hvort öðru til stuðnings? Ímyndum okkur t. a. m., að um leið og þeir læsu „Njálu", væri þeim kostur á að læra kvæðin „Gunnarshólmi" og „Skarphéðinn í brennunni"; myndi það ekki ávallt síðan prýða söguna í huga þeirra og skýra fyrir þeim kvæðin?

Samkvæmt gamalli venju er sjálfsagt ætlazt til, að ég óski félaginu til hamingju, áður en ég lýk við þetta mál. Mér finnst þess engin þörf, því síðan ég byrjaði, hefi ég alltaf verið að því eins vel og ég kunni. Og þó skrítið sé, í ræðulok er ég kominn í sömu kröggur eins og prestur, sem á að taka sjúkling til bænar af stólnum: ég veit náttúrlega ekki framar en hann, hvernig allt kann að ráðast, og bið því svona til beggja handa — annað hvort um góðan bata eða skjóta aftöku, því það stendur þó næst einhverri bænheyrslu, að svo miklu leyti sem ég ræð við. [1894]

## Minni Íslands.

Íslendingadagsnefndin ykkar hérna hefir falið mér að bjóða ykkur velkomna, eitt og öll. — Velkomna sem sveitunga, vini sína og gesti, en fyrst og fremst velkomna sem Íslendinga, komna saman til að minnast Íslands. Nefndin æskir velvirðingar ykkar á viðbúnaðinum og að þið takið eins mikið tillit til vanefnanna eins og vansmíðanna, og æskir einskis fremur en að næsta 2. ág. geri Björn bróðir betur. — Að svo mæltu leyfi ég mér að segja Þjóðminningardag Íslendinga í Alberta settan.

Það var álitinn heiður á Íslandi að vera leiddur í kór. — Einu sinni fór bóndatuska til messu á aðra kirkju, settist fram við dyr og sat þar ókórleiddur allan messutímann. Engum þótti þörf að færa hann nær guðsþjónustunni, af því hann var bara bóndagarmur. Þegar hann kom heim, spurði

kerling hans: „Hvar saztu, heillin?“ „Fram við dyr,“ svaraði hann. „Því saztu ekki inni í kórnum eins og aðrir bændur, heillin?“ „Nú, ég hefði getað setið þar eins og hinir, ef nokkur hefði komið að leiða mig.“ — Mér fer eins og honum, ég hefi hér engan til að leiða mig í kór, segja fólki frá því að herra Stefán Guðmundsson ætli að segja fyrir minni Íslands, en ég ætla þá sjálfur að láta ykkur vita það.

Sumarið 1873, snemma að nóttu til, lagði gufuskip út af Akureyrarhöfn með dálítinn vesturfarahóp. Það hafði verið glatt á höfn og landi, kveldið það. Vesturfararnir trúðu öruggt á heiminn og hamingjuna og hinir, sem heima sátu og kvöddu þá, trúðu, að þeim mundi farnast vel, hvar sem þeir kæmu fram. Mönnum þótti auðvitað sárt að skilja, en þeir höfðu svo góða von hver um annars velferð, eins og báðir ætluðu sér í skemmtiferð, aðeins sína leiðina hvor. Í það skipti að minnsta kosti skildu vesturfarar og Íslendingar heima með vináttu, en ekki úlfúð, og þannig ættu menn ævinlega að skilja, rétt eins og þeir gerðu þá.

Það var komið undir miðnætti. Seinasti vesturfarabáturinn var að fara fram. Húsin í Akureyrarfjöru sýndust í sumarnætur hálfrökkrinu eins og þyrping af svörtum, ferköntuðum skuggum. Til beggja hliða eygðust kolbrýndir, samfelldir veggir. Það voru fjöllin og heiðarnar við Eyjafjörð. Hafþokan var að læðast inn á Pollinn, en gegnum hana glitti í sjóinn, logagylltan af vorsólinni langt norður eftir, eins og kveldroðatungu inn á milli skýjabakka. Nóttin var steinþögul og stóð á öndinni; hún var víst að sækja í sig veðrið, eða bara að hlusta á mennina, áraglamrið og hlátrana. Á seinasta bátnum var 19 vetra unglingur, sem ekki hafði hraðað sér fyrr fram en í seinustu lög, þó hann væri engu ófúsari til vesturferðar en nokkur hinna. Honum hefir lengi verið það atvik minnistætt, að þegar menn höfðu allir kvaðzt og seinasti báturinn ýtti frá gufuskipinu, hóf einhver af róðrarmönnunum að syngja „Eldgamla Ísafold“, og svo var tekið undir á fleiri bátum, lengra og skemmra frá. Hvort sem þetta var tilviljun eða tilætlun, var þetta þó seinasta kveðja fósturjarðarinnar til vesturfaranna, því eftir það heyrðu þeir né sáu ekki neitt af Íslandi framar. Unglingurinn, sem ég nefndi, hafði ásett sér að sjá nú margt og mikið, sem hann hafði dreymt um, en aldrei áður séð, og þá fyrst og fremst strendur ættjarðar

sinnar, eins lengi og unnt var, og svo seinustu tindana hverfa. Hann langaði í þá sjón og þær tilfinningar, sem kváðu vera því samfara. Og hann, sem var allra manna morgunsvæfastur, vakti þangað til kl. 2 og fór á fætur kl. 4 í tvær nætur, aðeins til að vakta, ef nokkurs staðar eygðist til hverfandi Íslands. En það var alltaf ið sama, þokan mógrá yfir og kring, en sjórinn blágrár og gjálpandi niðri og fram undan, nema Orkneyjar til vinstri, eins og dekkri hnökrar í þokulopanum, þar til hæðir Skotlands risu, grænar, skógivaxnar, sólgylltar, einmitt það, sem hann hafði órað fyrir, að lægi utan við þokuna. Því hann hafði ætlað að bregða sér út snöggvast, sækja sólskinið og koma svo aftur heim — en það verður nú aldrei — ég veit svo vel um það, því ég var þessi unglingur.

„Hvað ætlar að verða úr minni Íslands hjá þér?" — farið þið að hugsa, „þú ert bara að minnast á sjálfan þig." Ég skal segja ykkur eitt, mér finnst við sumir Vestur-Íslendingar höfum aldrei komizt út úr þokunni, þegar við tölum um Ísland. Við minnumst oft á það eins og einhvern hreppslim eða horgemling, sem við megum til að kenna í brjósti um, af því allir vita, að við erum í ætt við hann, eða höfum átt hann. Trúið mér til, sá maður lýsir ekki fjallinu réttast, sem stendur upp við rætur þess; hann sér glöggt aðeins lítinn blett, en svo þarf hann fjærsýni, víðsýni, nóg sólskin og að komast upp úr þokunni, til að sjá það allt. Slíkt þarf að vera ljósmál einstaklinganna út yfir þjóðirnar. Og í rauninni, landskostamunur og þjóðamunurinn milli siðaðra manna er ekki eins mikill eins og menn láta. Ég kann hendingar úr kvæði, sem segir frá manni, sem stökk úr landi sínu, og hélt aðrar þjóðir svo miklu frjálsari og fullkomnari, en við reynsluna fór svo, að „Öll heimslönd urðu í hug hans jöfn, með hlutina sömu, önnur nöfn." Og þó þetta kunni að vera mikið íborið, ætla ég það næst lagi.

En hvað sérðu þá til Íslands úr sólskininu þínu, ef þú ert kominn út úr þokunni? viljið þið fá að vita. Margt og svo margt, en í dag get ég ekki nefnt nema fátt. Tilfinningar okkar allra binda mig við björtu hliðina, og aftur í tímann vil ég ekki seilast. „Veit þá engi að eyjar hvíta á sér [enn] vor", sagði Jónas. Jú, það vitum við og sjáum vott fyrir gróðri. Hvers vegna haldið þið, að ódýrra sé uppeldi manns

á Íslandi en t. d. hér? Sá einn svarar því réttast sem segir: Af því Íslendingar verzla tollfrítt, eina landið í Evrópu, sem hefir skynsamleg verzlunarlög, eins og nafnkenndur útlendur hagfræðingur komst að orði nýlega. Hvað skal hann þá halda um skynsemina í Ameríku? Og hvað sem jarðræktinni líður, þá hefir þó nýlega heppnazt ofurlítill blettur af ræktuðu grasi á Íslandi, sem menn ekki eru vissir um, að spretti vel hér. Og þó ekki sé annað, þá er eitt víst, að Ísland á, eins og Þorgeir í Vík, „vin, sem var honum trúr, ið víða blikandi haf." Jarðskjálftatjónið í fyrra er fallegasti bletturinn í framfarasögu Íslands, nú á tíma. Þá var svo drengilega og ötullega við brugðið að hjálpa og bæta, að menn hefðu bjargazt án útlendra samskota, og nú er næst því, að betra sé vel gróið en heilt. Menn fá víða betri hús fyrir þau, sem hrundu. Þetta er aðeins ádrepa á nokkuð af miklu fleira, sem er vottur um framför. Nú kostar líka þjóðin íslenzka fé til að rannsaka, hverja kosti landið hafi að geyma, svo sem innlend fóðurgrös.

Í heimi bókmennta hafa Íslendingar aldrei átt meira láni að fagna. Tveir menntamenn Þjóðverja verja öllum sínum tíma til að lofa og útbreiða nýíslenzkan skáldskap, og eitthvað andlegt, sem á Ísland fyrir föðurland, ferðast nú milli allra Norðurálfuþjóða, jafnvel suður á Ítalíu. Aldrei hafa Íslendingar átt betri dagblöð og aldrei kveðið betri ljóð; mér liggur við að öfunda þá af því, af því ég er Vestur-Íslendingur, og dagblöðin okkar og kveðskapurinn hérna — ja, það er bezt talað um það, þegar við megum gera það sjálfir. En ég veit, það er fyrir ykkur öllum, eins og mér, það sem Ísland skortir af gæðum, en hér er til, munduð þið þó helzt hafa viljað heima. „Fengi ég, skógur", segir Hafsteinn, og líklega er það sungið út úr hjarta hvers góðs Íslendings.

En skyldi gróðrarvotturinn á Íslandi ekki bráðum deyja út í einhverju vorhretinu, eins og svo oft áður? spyrja menn. Ég held ekki, af því mér sýnist, að hann hafi fest dýpri rætur og víðar en nokkru sinni fyrr, í meðvitund og trú almennings, og því eru menn líka hættir að flytja vestur til okkar að mun; því uni ég líka bezt að halda uppi aðeins viðkynningunni og mannakaupum við gamla Ísland. — Það er árangurslaust að rífast um kosti landanna; bezti kostur hvers lands er fólkið, sem í því býr, og þar er bezt fólk, sem á flesta einstaklinga, sem verja ævinni ekki einungis sér til uppeldis

og fjár, heldur til að bæta úr framtíðinni, þó það sé ekki nema að fá tvö strá til að spretta, þar sem aðeins eitt þreifst áður. Það eru líka mennirnir, sem eitthvað vinna í þá stefnu, andlega eða verklega, sem næst komast því að verða ódauðlegir, svo við vitum með vissu, því þeir vefja sig inn í framtíðarsögu þjóðarinnar. Það eru launin. Þeir sem lifa bara fyrir munn og maga og mammon, gleymast öllum á grafarbakkanum. Það er hegningin fyrir að hafa aldrei orðið að manni.

Þetta er íslenzka þjóðin nú að læra, að mér sýnist, og lærist henni það æ betur, því það er bezta blessunaróskin, sem ég get sent heim.

Standi Ísland meðan veröld varir. [1897]

## Um ljóðmæli eftir Jóhann Magnús Bjarnason.

Fyrir árum síðan gisti ég nótt hjá einsetumanni, langt úti í óbyggðinni vestrænu, einum þessum forkólfi nýbyggðanna, sem landnámshugurinn sendir út til að skyggnast um eftir bólstað, en sem láist að hverfa aftur með fréttirnar. Hrafnarnir, sem þeir Flóki og Nói slepptu af skipi, gleymdu eins að fljúga til baka, úr frelsinu og landrýminu. Arkirnar héldu líka horfinu á eftir þeim og hlutu að lenda við sömu ströndina. Það var aðeins sá dvalarmunur, sem seglið, er flytur fjölmennið, er seinfærra en vængurinn, sem ber einstaklinginn.

Þessi drottinn yfir „fuglunum í loftinu og dýrunum á jörðinni“ var inn heimamannlegasti. Einkum reyndi hann til að vera ræðinn. Hann „kunni sig“ ennþá, mundi sveitasiðinn og bæjabraginn: að tala, aðeins að tala, að tala sem mest. Hann fann samt til þess, að sér hafði förlazt þessi þjóðlega íþrótt; málbeinið hafði stirðnað. „Æ, er það ekki von,“ sagði hann, „ég sem hefi verið hérna í níu ár og ekki hitt mann að máli, nema endur og eins. Mér finnst stundum ég hafi gleymt að tala.“

Það er hjá mér gestur í kveld, Ljóðmælin hans Magnúsar Bjarnasonar. Ég ætlaði að vera heimamannlegur og segja um þau nokkur orð. En það er fyrir mér eins og einsetumanninum, mér finnst stundum ég hafi gleymt að tala! Andleg

einvera kennir manni tvennt — að njóta hugsana sinna, og þegja.

Það er líka örðugra að lýsa skáldskap Magnúsar en margra annarra; hann liggur enn þá einhvern veginn svo inni á landamerkjum dags og nætur. Það er auðvelt að segja, að dagurinn sé glóbjartur og nóttin biksvört. Um blæinn á hálfbirtingunni brestur mann orð og samlíkingar.

Ef ég man rétt, hefi ég einhvern tíma lesið erindi eftir skáldið Longfellow, sem á íslenzku yrði nálægt því að vera kveðið svo:

Þá grípur mig angurværð einhver,
En ástríðulaust og svo milt
Og sorginni álíka áþekk
Sem úðinn og regnið er skylt.

Þessi „ástríðulausa angurværð" er einkennið á bezta skáldskap Magnúsar. Hann er enginn víkingur, sem býst að sigla hvert haf og taka strandhögg á hverju nesi. Hann er frumbýlingur, sem ræktar blómsturgarð inni í skóginum á vatnsbakkanum, og finnur til þess, að jarðvegurinn er enn of rætinn og skuggarnir af trjánum of þéttir.

Magnús er framar öðru skáld íslenzka innflytjandans á nýbýlisárunum, — góðmannlegur talsmaður ins óharðnaða og niðurbælda. Öll kvæðin framan af bókinni, sem byrja á „Hann langar heim" og enda á „Húðarklárinn", eru með því marki brennd. Þau eru líka frumlegustu ljóð Magnúsar, heimajörð hans sjálfs í óbyggðum vestur-íslenzkrar ljóðagerðar.

Það er enginn efi á því, að Magnús á við nýkomna vesturfarann, þegar hann ávarpar mann með þessu fallega erindi, seinast í kvæðinu, „Hann getur verið jafningi þinn":

Með háðsbrosi horfir þú á
Inn hikandi, ferðlúna mann —
Þó stóðstu þar einnig, sem stendur hann nú,
Eins stúrinn og klæddur sem hann.

Það er af því jarðvegurinn er enn of rætinn, skuggarnir af stóru trjánum of þéttir, að „fjölskyldufaðirinn framandi í ókunnu landi verður að moka mold og leðju og sandi, unz hann lokar aflvana augum."

Einkenniskvæðin í þessum flokk eru: „Íslenzkur sögunarkarl í Vesturheimi“ — innflytjandinn í borginni, og „Grímur frá Grund“ — vesturfarinn, setztur að úti á landinu. — Ef til vill er fyrrnefnda kvæðið auðkennilegra. „Sögunarkarlinn“ þekkir hver Vestur-Íslendingur, sem í bæ hefir komið, á sjálfum sér eða öðrum, þó Magnús einn hafi komið honum á framfæri hjá bókagyðjunni. Hann er Íslendingurinn,

Sem eitt sinn var efnaður þó,
Og öðrum lét skýla sitt þak,

en hefir á gamals aldri „villzt hér á land“. Fjögur börn sín hefir hann misst — hann á að vísu eitt eftir, en það er verra en að vera barnlaus. — Sjórinn við Ísland hefir tekið drengina hans alla, þrjá; svo kemur hann hingað með Björgu og — Katrínu, sem hann

Unni heitast, því yngst hún var
Af öllum börnunum fimm;

en „þvottahúsið“ og loftslagið „svo þurrt og kalt“ hafa lagt hana í gröfina. Björg hefir villzt út í lífið frá honum, eins og hann sjálfur til Vesturheims. Hann er nú sjötugur; börn, vinir og frændur „eru frá“, hann er „einn og fáráður“. Kjörum sínum lýsir hann svo:

Ég hef ráfað með sögina og saghestinn minn,
Eins og sauður um graslausan mó.
Ég hef læðzt, eins og þjófur, og skimað og skyggnzt
Inn í skot hvert og afvikna kró,

hvort hvergi væri eldivið að sjá, sem hann mætti saga fyrir „þóknun“, því samkeppnin um þetta sultarbrauð og kauprögunin er nú orðin svo mikil, að hann oft „má labba þegjandi burt.“ Þó hefir hann „fyrirhitt hjartagott fólk,“ sem hefir boðið honum „brauð og smér“, gefið honum „frakka“ og „skó“, svo hann „má ekki segja, að enginn sé til, sem aumki sín báglegu kjör.“ Þetta er alveg íslenzk sanngirni við heiminn, sem nærri hver lesari fellst á. Þó finnst mér þetta einmitt veikja áhrif kvæðisins, með að deyfa dálítið tilfinninguna fyrir einstæðingsskapnum. Lýsingin er dagsanna, á hugsunum fjöldans, ég veit það, en mér finnst skáldskapnum stundum ofboðið, með að krækja inn hvern hversdagssann-

leik. Undantekning frá inu algenga getur verið eins sönn, en átt betur við andann í einhverju kvæði. Niðurlagið á þessu kvæði er sérlega fallegt:

Hér hími' ég sem stormbarin, afgömul eik,
Sem engan á laufgaðan kvist.

„Grímur á Grund“ er eitt með bezt kveðnu kvæðum í bókinni, sem öll eru tilgerðarlaus og flest létt og þýð. En Grímur er fáséðari maður í nýbýlislífinu en „Sögunarkarlinn“. Ekki svo að skilja, að hann sé óeðlilegur, en Magnús getur ekki gripið í hann við nærri hvern eldiviðarhlaða og sýnt okkur hann. Hann er undantekningin frá inu almenna, og fegri og sannari maður fyrir það. Grímur nemur land í skóginum, með konu og barni. Hann syngur og hlær og ryður mörkina, unz hann hefir „breytt sérhverri laut í engi“ og er orðinn „gildur bóndi“. Þá kemur dauðinn og tekur frá honum konuna og barnið. Hann grefur þau við húsið sitt, í garðinum, sem hann hafði sjálfur rutt. Hann ryður skóginn og ræktar garðinn sem áður, en nú er hann þögull. Grannar hans bjóða honum til sín, en hann bendir þeim á grafirnar. Hjá þeim er hans eina heimili og ættjörð, frá þeim getur hann ekki flutt. Kofinn hans stendur enn hjá „lundinum við lækinn,“ en nú eru þrjár grafir í garðinum, því nú hvílir Grímur þar sjálfur, en vorið ræktar garðinn.

Ég vil geta þess, að það hefir verið sagt í viðræðum, að Magnús hafi stælt þetta kvæði eftir „Þorgeir í Vík“ eftir Ibsen. Hver er þá lífæðin í þessum tveimur kvæðum? Þó atvikum svipaði einhvers staðar saman, gerir það lítið til. Það er *endurminningin,* sem gerir Grím að einræningi. Það er *hefndargirnin,* sem gerir Þorgeir í Vík það. Kona og barn Þorgeirs svelta í hel, og sjálfur verður hann margt að líða af völdum eins manns. Þetta sezt að honum, hann hálftryllist. Seinna færir atvik Þorgeiri þennan mann upp í hendurnar, með konu og barni, þar sem hann á vald á lífi þeirra, einmitt á þeim stað, sem fornar minningar særa hann til að hefna sín. Stríð hans við sjálfan sig er ógurlegt. Hann hefnir sín að nokkru leyti, en ekki blóð fyrir blóð. Göfuglyndið vinnur sigur, hann getur ekki fengið af sér að fyrirfara barninu. Það var „hún, sem að bjargaði bezt“, segir Þorgeir sjálfur, þegar öllu var lokið. Sama yrkisefni og Ibsens hefir látið Hall Caine,

Manarskáldi, haldast það vel uppi að rita sögu eftir sögu, með sömu mannaeinkunnum í, líkum viðburðum, svipuðum leikslokum, nærri endurprenta sjálfan sig stundum, án þess það sé Ibsensk stæling.

Kvæði Magnúsar og Ibsens eru ekki líkari en fellibylurinn og andvarinn. Hebreski sjáandinn varð ekki guðs var í storminum né eldingunum — en í blænum. Það er skáldskapur í storminum og eldingunum hjá Ibsen og blænum hjá Magnúsi, óstældur hjá báðum, þó hann berist gegnum sama loftið.

Samt sýnist mér ofurlítill brestur í gullið — einn smágalli á þessu prýðisfallega kvæði. Hví ekki það? Drachmann sér ekki þörf á, að allt sé svo „spegilslétt“, skáldið sé svo líkt sjónum. Hannes Hafsteinn íslenzkar þá hugsun svo, að það spilli litlu, þótt skörð séu milli fjallanna, svo „sólin skíni fegur þar á milli“. Skarðið í Grím á Grund er endurteknu hendingarnar, um hvað „enskum“ þótti um hann. Það varð skáldtízka fyrir nokkru að kveða með viðlagi, eins og gömul þjóðkvæði eru gerð. Eigi það að fara vel, verður það því aðeins, að skáldið nái merg kvæðisins, dýpsta anda þess svo að segja, upp í tvær eða þrjár hendingar. Hvert erindi vex upp af þessum kjarna. Álit enskra er öldungis ekki lífið og sálin í kvæðinu um Grím. Í sumum erindunum brýtur lýsingin á því nærri bág við virkileikann. Enskur almenningur — reyndar hver alþýða, sem vera skal — myndi hálfgert álíta Grím geggjaðan sérvitring fyrir einþykkni hans. Hann er það ekki í augum Magnúsar, né okkar, sem lesið höfum kvæðið, en einmitt sá sjónarmunur er bilið milli hversdagsmannsins og skáldsins. Mér finnst stundum sem Bandaríkjamaðurinn vildi segja: Það erum við, sem sköpuðum heiminn; það sem áður var gert, voru að minnsta kosti mestu handaskol. Og að Bretinn hugsi sér: Það erum við, sem viðhöldum heiminum; það yrði ljóta sleifarlagið á því, ef England sleppti hendinni af honum. — Að Magnús trúi inu sama eða dekri við þetta sjálfsálit, dettur mér ekki í hug. Það er ljóst, að með viðlaginu ætlar hann ekki að segja annað en að Grímur, Íslendingurinn, hafi verið vel virtur erlendis, slíkir hafi kostir hans verið. Þetta er aðeins sagt dálítið of oft. Það er nærri eins og jafnlítill galli sé varla umtalsverður.

Ekki man ég til, að ég hafi séð söknuði lýst öllu við-

kvæmara, né í látlausari orðum, en Magnús gerir í kvæðinu „Systir mín“:

Skrúði er klæddur skógurinn
Og skrauti þakin grund.
Mér finnst sem það beri allt fölari svip
En í fyrra, í þetta mund.
Því dagarnir virðast mér daprari nú
Og daufari birtan af sól,
Og skuggarnir lengri — sem líða með hægð
Yfir lautir grænar og hól.
Í golunni heyrist mér grátstuna löng,
Er glugganum þýtur hún hjá,
Og kvakið fuglanna kemur til mín
Eins og kveinstafir runnanum frá.

— — —

Systir mín elskuleg, systir mín góð,
Nú svifin á burt er þín önd.
Í svarta nökkvann þú settist svo ung,
Og sigldir að ókunnri strönd!
Að ókunnu ströndinni, ómlausu,
Sem enginn kemur frá.

— — —

Aldrei hæðist Magnús að heiminum, en hann segir stundum frá því, sem er kímilegt. Er ekki skilnaður elskendanna broslegur, sem unnustinn segir frá, í vísu úr kvæðinu „Sjómannasöngur“:

Ég fór um borð með fullan kút.
— Mér fannst ei vert að spara —
En stúlkan veifði vasaklút
Og vildi með mér fara.

„Voðalegt eitur í víninu bjó“ er trauðlega rétt fyrirsögn yfir vísu, sem lýsir jafn meinlausri glaðværð og þetta erindi:

Vér hugsuðum ekkert um kúgun og kvöl.
Vér kváðum þá lítið um manna böl.

— — —

Vér vorum svo frjálsir og fylltumst móð.
Vér fundum að í oss var konungablóð.

Spaugilegast er kvæðið: „Sagan er sönn.“ Í upphafi búa Íslendingar í „kærleik“ og „bróðerni“ niður í Nýja-Íslandi. Svo verða þeir þreyttir á róseminni, eins og allir skapaðir hlutir verða; til að hrista hana af sér, hugkvæmist þeim samt ekki vænna ráð en það „að troða skóinn“ hver af öðrum og „hefja deilur“ og vera „drjúgir“. Út úr því dreifast þeir „frá hafi til hafs“.

Og þá skeði tryggðrof og bindindisbrot.
Og blaðstjórarígur og safnaðarþras;
Þá heyrðist pískrað um peningaþrot,
Um pílagrímshrakning og giftingaflas,
— En heimurinn veit það að sagan er sönn.

Hverjum dettur ekki í hug sagan um aldingarðinn Eden og afleiðingarnar?

Hefir þú nokkru sinni setið einn í húsi, úti í eyðiskógi, þegar óveðrið ríður hjá? Loftið yfir þér hrökkur þér við með drunum og hvellum, eins og stjörnurnar séu að springa. Niðmyrkrið grúfir fast og þétt, sem það muni merja alla hluti saman. Stormurinn öskrar og þýtur úti fyrir og smellir að þér fingrunum gegnum rifurnar. Við og við blossa leiftrin gegnum skóginn framundan. Kolsvartar eikur skjálfa upp við bálið, eins og völvur á seiðhjalli. Eftir nokkur augnablik er öllu létt. Þú sérð engin vegsummerki þess, sem á gekk; enginn friðarbogi í lofti, hvergi regndropi á grasinu. Þú hafðir aðeins staðið á öndinni nokkur augnablik yfir því, að eitthvað voveiflegt myndi ske.

Það er til skáldskapur, sem snertir mann svipað. Skynjanin handsamar hann ekki, tilfinningin glöggvar sig ekki á honum. Kraftar hans lýsa sér í augnabliks ástandi, engum greinilegum áhrifum. Þannig er t. d. Hrafninn, eftir Edgar Poe. Reynt hefir verið að þvinga fyrirtáknun út úr því kvæði, en það er rangt. Hrafninn táknar ekkert, skeð né ókomið, fremur en Opinberunarbókin. Það er skáldskapur eins og hafgnýrinn; það sem þér heyrist hann segja, eru raddir í huga sjálfs þín.

Í ljóðmælum Magnúsar er eitt kvæði skylt þessum skáldskap. Fyrirsögn þess er „Morðið“.

Austur á Þjóðverjalandi kvað skáld eitt sinn hafa verið uppi, Heinrich Heine, Gyðingur að kyni. Skáldskapur hans

hefir verið unnusta þeirra allra, Jónasar, Kristjáns og Hafsteins, þó það verði ekki alls staðar sannað bréflega. Magnús yrkir til Hænis ástakvæði í hans eigin stíl, „Með Heinrich Heine í skóginum.“ Það sýnir bezt, hve hjartanlega Magnús elskar skáldskapinn. Í því eru þessar innilegu vísur:

Fé af mér Gyðingar græddu
Og gerðu mig allslausan heima —
En vegna þín, vinur minn, Heine,
Vil ég þeim rangindum gleyma.

Mér farnaðist illa með Frökkum
Fyrrum, þá ég var drengur —
En af því þú undir þér hjá þeim,
Erfi ég það ekki lengur.

Annars finnst Magnúsi ið sama baga þá Heine báða, þeir hafi ekki skap til að „lúta Karli konungi heimska“. Þunglyndinu er vel lýst í seinasta erindinu:

Skip minna vona er skriðið hjá —
Á skerjum við gröf mun það lenda.
— — —

Eitt andvarp, í samlíkingunni sem bezt á við: strandinu. Seinni helming sama erindis hefi ég gert að sérstöku kvæði, og raula það svona, eftir Heine en ekki Magnúsi: Mín brennivíns-samvizka — og dillum-dá — Og dansinn — er bráðum á enda. — Ég geri það til að láta í ljósi misþóknun mína á „chn“-hljóðinu í öðru eins orði og „chnedderedeng“ í þýzkunni er.

Málið á ljóðmælum Magnúsar er víðast svipað og á þessari vísu eftir hann:

Ég man við gengum hlið við hlið
Og hlupum margan langan sprett;
Um fagra skóginn fórum við
Svo frjálst og létt.

Þeim, sem ekki finna sjálfir, hve lipurt þetta er orðað, verður málfræðingur að segja það, en ekki ég. Vestur-íslenzkum blæ kann að bregða fyrir á örfáum stöðum. Er t. d. „Vort litla skólahús“ ekki óviðfelldið, þar sem rím þó ekki hindrar? Ég

veit það ekki, en mér finnst ég lesa ensku: „Our little schoolhouse“.

Spámaðurinn kvartaði yfir því forðum að búa meðal fólks, sem hefði „óhreinar varir“. Hvað ætli að tilsagnarlaus unglingur, alinn upp í Vesturheimi við íslenzkuna þar, gæti þá sagt? Sá veit bezt, sem reynir. Það er meiri furða, hve gott mál Magnús kann. Það eru auðvitað ensk áhrif, sem koma íslenzku skáldi til að kveða þannig:

Það heyrist ekki til kýrklukknanna
Þó komið sé undir nótt.

Jafnvel fyrirmyndarljóðskáld ensk kveða stundum svona, og enginn finnur að; menn læra svo fallegan lestur, að ekki ber á svona misfellum. En fyrst og fremst tekur sá, sem íslenzk braglist lætur vel, langt niður fyrir sig að grípa nokkru sinni til enskrar framsetningar, og svo steytir nærri hver íslenzkur lesari á þessu, þó ekki sé frægt til frásagna um menn, sem jafn almennt þekkja vel stafina. Bótin er, hjá Magnúsi kemur þetta örsjaldan fyrir. Þetta er kannske eina dæmið.

Aðeins í tveimur eða þremur stöðum verða ljóðstafir ekki samróma. Annað dæmið er þetta: Enn er þ-jóðarandinn þ-ungur, þ-röngsýnt enn er fólkið víða. — Það er nærri eins og gjallrunninn málfræðingur hefði rjálað við þetta, svo málbótalítið er hljóðfegurð spillt. Maður getur lesið annaðhvort svona: Enn er þ-ungur þ-jóðarandinn þ-röngsýnt enn er fólkið víða — eða E-nn er þjóðar-a-ndinn þungur, E-nn er þröngsýnt fólkið víða, og engu orði breytt.

En — Gyðingar sögðust ekki hafa vald til „að dæma nokkurn mann“. Íslendingar mega ekki dæma skáldskapinn heldur eftir kveðskapnum eingöngu, þó þeir séu þar flestum þjóðum rétthærri. En þó svo væri, þyrfti Magnús lítið að kvíða sér.

— Litlu eftir að ég kom hingað til lands, fyrir 25 árum síðan, las ég nokkuð af því, sem enskir og norskir landnámsmenn rituðu hér, snemma á sinni landnámsöld, en nú fyrir löngu síðan. Mikill andlegur dauðansmatur finnst mér það nú, í sambandi við það, sem liggur eftir þessa fáu Íslendinga, á fyrstu áratugum frumbýlingsskaparins hér. Þó var þessu haldið á lofti og haft í metum, sem ekkert var í, sem berandi væri saman við t. d. fyrirlestur séra Hafsteins um Kanada, eða Ljóðmælin hans Magnúsar, svo ég nefni það,

sem mér dettur fyrst í hug. Mér er annt um sæmd okkar Vestur-Íslendinga, og því eggja ég menn á að kaupa ljóðmæli Magnúsar. Ekki í gustukaskyni — það tel ég óhappaverk að biðja beininga fyrir leirburðinn — heldur sökum þess, að kverið eitt er þess virði, og engum stendur nær að meta það en Vestur-Íslendingi. Um hann eru beztu kvæðin í því kveðin. Magnús hefir þegar sýnt, að hann er skáld. Hann er maður framúrskarandi bókhæfur og vel að sér, ungur og sjálfmenntaður eins og hann er. Bókmenntir, einkum skáldskapur, er líf hans og sál. Það út af fyrir sig gerir reyndar engan að skáldi — en það er frjór jarðvegur til að sá skáldskapnum í. Magnús hefir því skilyrðin fyrir því að geta orðið Vestur-Íslendingum til sóma. En séu menn einráðnir í að koma í veg fyrir það, þá er þögn og nízka bezta meðalið.

Jarðamatið okkar týnist, búnaðarskýrslurnar okkar gleymast, jafnvel kirkjurnar okkar munu fúna. Hitt helzt lengur uppi, hvort Vestur-Íslendingar hlynntu að gáfu Magnúsar Bjarnasonar og hvort þeir létu leiðið hans Gests heitins Pálssonar týnast eins og sakamannsdys.

*Á páskadaginn 1899.*

## „Baldur“.

Ég hefi heyrt þá, sem hér kaupa „Baldur“, segja, að hann sé bezta íslenzka blaðið vestan hafs, en ekki er víst, að hann verði almennings eftirsókn fyrir því. Bull er útgengilegast. Ég hefi ekkert út á „Baldur“ að setja; en það er honum lítið lið. Auðvitað, skoðanir mínar og hans eru víða svipaðar, og ég hefi þann sið, að verða aldrei (að minnsta kosti ekki viljandi) því til óhags, sem eitthvað fer í mína átt. Ég hygg það heimsku að vera að fljúgast á á þeirri samleið, sem menn eiga, fyrir þá skuld eina, að annar vildi stíga sporið á annan hátt, eða hinn þykist sjá lengra fram í veginn. Það er galli á frjálslyndum mönnum að drepast of mikið á.

Sveitarráðsfundir ykkar, sem engan varðar nema Ný-Íslendinga, eru galli, sem ég veit þið komizt ekki hjá. Húsgangsfrétta sakna ég ekki, en gott væri að koma auga almennings á ganginn í stórviðburðum, sem eru að gerast, og afleiðingum af rannsókninni á því, sem skeð er. Að rýmka útsýnið er ið eina, sem vert er að gera; en þá er að sætta sig

við vanþökk fyrir kaup og leggja mannhylli sína og hamingju inn hjá langalánstakandi framtíð, sem aðeins borgar inn í dánarbú erfingjanna.

Ef „Baldur“ þolir það, kann hann að tóra, en verður varla ástsæll né auðugur. [1904]

## Ávarp á Íslendingadag 2. ágúst 1904.

Sveitungar góðir! þið, sem orð mín ná til. — Það er ætlazt til þess, að ég setji að ykkur stundar þögn, svo söngflokkur og ræðumenn fái áheyrn ykkar. Ég á að etja út sveitar-hljóðunum og héraðs-mælskunni, sem hingað er horfin utan af engi og heimahögum, til að rifja upp á Íslendingadag æskuminningarnar og breiða úr framtíðarvonunum út í þerrinn og sólskinið. Þeim, sem fyrir minnum munu segja, er um það annt, að sér mælist vel, og íslenzkan leggur þeim mál í munn, sú tunga, sem gerð er af þeirri íþrótt, sem flytur fullt mál í fáyrðum og kveður heilt kvæði í einu orði. Og hátíðarefnið er ekki af skornum skammti — takmarkalaust breiðablik af þúsund ára þjóðminningum.

Við kunnum þjóðsögur um tvær tröllkonur, sem ræddust við úr fjarska yfir hauður og höf. Þær sögur hafa forfeður okkar ofið upp úr óskum sínum um málþráð og hraðfrétt. Þær eru draumar þeirra fyrir daglátum, sem nú hafa rætzt.

Bjarni Thorarensen nefndi Ísland „Fjallkonuna“. Rudyard Kipling kallar Kanada „Mjallkonuna“. Í dag mega þær mælast við innan eins mánaðar, yfir hauður og höf. Þegar loftritinn fæst, tekst það samstundis. „Mjallkonan“, æskuör og yfirlætisleg, ávarpar „Fjallkonuna“, flytur henni kveðjur Íslendinga vestan hafs, barnanna þeirra beggja, og með þeim ummælum, að hagur þeirra standi nú vel og miklum mun betur en á móðurjörð þeirra. Fyrir sitt tilstilli séu þeir stórríkir menn, stór-menntamenn og stór-þingsmenn. — „Fjallkonan“, „há og vitur“, biður „Mjallkonuna“ heila segja góð tíðindi, en aðbúnað hennar við börn sín kunni hún ekki eins vel að þakka og til sé mælzt. Viðtökur „Mjallkonunnar“ sé engin gustuka-gerð. Ómagaaldurinn hafi „Fjallkonan“ annazt börn þessi sjálf, en „Mjallkonan“ tekið móti þeim mönnuðum. Það hafi „Fjallkonan“ sér ei til gróða gert, það sé útsvar hennar

til heimsbyggðarinnar. Fyrir hverjar þrjár máltíðir þeirra á dag, hafi „Mjallkonan“ hlotið eitt þarfa-dagsverk, sem annars lægi ógert, búi hennar til baga. Með alla sína landkosti, aukna og ósnerta frá upphafi jarðvega til síðustu alda, blöskri sér ekki sú náttúruauðlegð, sem „Mjallkonan“ eigi enn til uppskipta, og að íslenzkt menntunarleysi, sett á sama sjó og kanadiskur lýðskóla-lærdómur, sé ekki eins mikill eftirbátur og vonlegt væri. En þingmanna-gerðin úr Íslendingum sé ennþá einungis nota-hjól í flokks-vél og enginn metnaður í, fyrr en þeir sjálfir verði vélstjórar.

Okkur, sem um er rætt, sýnist misjafnt um málstaðina. En sannmælum unnum við þó allir sigurs, og báðum löndunum okkar viljum við vel.

Og svo er víst, að:

Þó þú langförull legðir
Sérhvert land undir fót,
Bera hugur og hjarta
Samt þíns heimalands mót.
Frænka eldfjalls og íshafs,
Sifji árfoss og hvers,
Dóttir langholts og lyngmós,
Sonur landvers og skers!

Yfir heim eða himin
Hvert sem hugar þín önd,
Prýða fossar og fjallshlíð
Öll þín framtíðar-lönd.
Fjarst í eilífðar útsæ
Vakir eylendan þín,
nóttlaus vor-aldar veröld
Þar sem víðsýnið skín.

Það er óska-land íslenzkt
Sem að yfir þú býr,
Aðeins blómgróin björgin,
Sérhver baldjökull hlýr. —
Frænka eldfjalls og íshafs,
Sifji árfoss og hvers,
Dóttir langholts og lyngmós,
Sonur landvers og skers!

Og í dag blasir nú við okkur fósturlandið okkar nýja, þar sem:

Blána teigar bjarka-lands,
Bryddir heyja völlum,
Vítt sem eygir víðsýn manns
Vestr' að reginfjöllum.

Ylur og raki, að yrkja þann,
Árstíð vaka' í túnum,
Sólskins-akur — iðgrænan
Upp að klaka-brúnum.

Hnjúkar stál-grátt höfuð-vaf
Heiðlofts bála gull' um,
Sumar-málum Íslands af,
Yfir skálum fullum.

Að svo mæltu leiði ég ræðumann í stólinn.

## Fyrir minni lúðraflokksins.

Það getur ekki verið góðs viti að stíga í ræðustól með vonda samvizku í vörzlum sínum. En ekki fæ ég að því gert, að mér hefir ekki tekizt að svæfa mína svo fast, að það skjóti henni engum skelk í brjóst að láta kryfja sig á hol og sýna fólki söngvitið mitt. Því verð ég að leita annarra bragða við hana en þeirra að telja upp fyrir okkur listir lúðraflokksins og vitna um, hvar vel sé leikið. Og þetta bragð við samvizku mína hefi ég við hendina, til allrar hamingju.

Ég er, eins og þið vitið, Vestmaður. Það kvað þeirra einkenni að halda sig við hávaðann. Norðurálfumenn lýsa þeim svo, að þeir sálist út af úr svefnleysi, sé kyrrt í kringum þá á nóttunni. Ef að þeir geti ekki fengið skröltið gefins, raði þeir í röð vekjaraklukkum, á hillu í svefnherbergi sínu, og stilli þær svo, að ein argar, þegar önnur hættir, svo aldrei verði þögn; annars yrðu þeir andvaka. Ég gæti því í hreinskilni hælt lúðraflokknum hérna, þó ekki væri fyrir annað en hávaða, svo ég geti sofið.

En ég ann honum líka sannmælis fyrir annað: Fyrir seigju hans við að þroska sjálfan sig og sigrast á vanefnum

og vankunnáttu. Sé þessi kveldskemmtun hans til þess stofnuð að eignast einkennisbúning, finnst mér, að hver félagi í flokknum eigi skilið borðalagða brók og skrautlegan stakk fyrir þetta eitt fyrir sig. Hvort sem það er mont eða misskilningur hjá mér, þá hefi ég oft dáðst að hæfileikum okkar Íslendinga, yfir höfuð, við hliðina á þessum meiri-mannaþjóðum, en gramið mig líka yfir þolleysinu okkar — uppgjöfunum við erfiðleikana. Öðrum mönnum fremur finnst mér við flestir ætlum okkur að verða bara „skáld af guðs náð“, fyrirhafnarlaust, áreynslulaust — eða leggjast annars með árarnar ofan í bátinn. En um ykkur, lúðraflokkinn hérna, má segja, þó lítið sé, að þið hafið fremur greitt róðurinn við trafalana.

Líka flýgur mér hitt í hug, að þið séuð, með þessum félagsskap, að gera ykkur sjálfum meira gagn en ykkur grunar. Þegar öllu er á botninn hvolft, er farsældin í lífinu það, að hafa unað sér sem bezt í því. Íþróttalaust ævierfiði og áhyggjur tómar gerir hvern okkar að húðarklár. Okkur er þess þörf að eiga okkur andlegt athvarf í einhverri íþróttaviðleitni, einu gildir hver hún er, og þó hún komist aldrei hærra en það að verða fullorðins manns barnaglingur, aðeins sé hún manni heilshugar hjáverk, þegar ekki er annað annríki.

Roskinn hagyrðingur gekk nýlega þar um, sem yfirgefin barnagull lágu. Stúlkan, sem lék við þau einu sinni, var vaxin yfir þau, en honum varð að orði:

Raun mér stílar stefin,
Stúlkan mín,
Er ég yfirgefin
Öll sé barnagullin þín.
Vaxirðu aldrei upp úr því,
Úr eigum smáum
Hallir byggja að búa í.
— Svo breyttist þá um:
Þér væru harðir harmar vissir
Og heimurinn af skáldi missir.

Sá verður aldrei munaðarlaus, sem kann að byggja sér höll úr smáu, eins og t. d. því, að þeyta lúður með listamannskappi.

Langt er nú líka síðan, að dæmið var tekið af fuglunum í loftinu og grasinu á akrinum, sem hvorki safnar í kornhlöður né vinnur né spinnur. Að vísu er það ekki hárrétt sagt, því sumir fuglar safna í kornhlöður, og grasið vinnur og spinnur á sinn hátt, en kvíðbogalaust, og kennidæmið á við það. Ekki veit ég, hvort sá, sem þetta sagði, hefir haft söngfuglana í hug, þó líklegt sé, því söngurinn sýnist liggja lengst frá kornhlöðunni. En sjáum samt til! Í heimahaga Íslands flýgur heiðlóin hvert vor og syngur sumarið út. Hún er bara nefnd „lóan", nú orðið. Við Íslendingar höfum líka stundum verið svo óglöggir að skipta mál-gullinu okkar fyrir látún, þó ýmsir hafi gert það oftar. Lóan íslenzka syngur líklega í lítilli þökk, og aldrei yfir kornhlöðum. En það man ég, Íslendingar veiddu hana ekki, meðan ég vissi til. Líklega hefði því verið fljótsvarað, að það væri vegna þess, að hún er svo smá til frálags. En grunur minn er sá, að hefði Íslendingur séð lóu dauðskotna, hefði honum fyrst sárnað vegna söngsins, en hugsunin um matarfurðuna komið á eftir. Jónas Hallgrímsson, Gröndal og margir aðrir hafa líka þakkað lóunni á sinn hátt, og allir söknuðu hennar á haustin, þegar hún var horfin, kannske mest vegna þess, að hún var fylgisveinn sumarsins.

Heiðló, sem um sumardaginn
Söngst við hlustarlausan bæinn,
Stilltir hljóðin há og lág:
Þegar heljur haustsins blakka
Hljóma þína slá í dá —
Þögnin, sem að þá leggst á,
Kennir sönginn þinn að þakka.

Við vonum öll, að ekki fari lakar fyrir lúðraflokknum okkar en farið hefir fyrir íslenzku lóunni. [1906]

## Einar Hjörleifsson.

Einar Hjörleifsson hélt fyrirlestra sína tvo í Markerville í Alberta, kveldin 18. og 19. sept., eins og auglýst hafði verið. Illviðri var rétt afstaðið, og allar brautir voru blautar og torfærar. Í Alberta eru Íslendingar fáir og strjálir, en allur fjöldinn af því fámenni sótti vel að erindi Einars, kringum 100 manns hvort kveld, jafnt yngri og eldri.

Áheyrendur heilsuðu Einari með lófaklappi, og kvöddu hann á sama veg, er hann hafði lokið upplestri sínum, og aftur þakkaði fólk honum á þann hátt fyrir ýmislegt, sem því auðsjáanlega þótti vel sagt, ekki sízt í fyrri hluta seinna fyrirlestursins. Bæði kveldin las Einar upp kafla úr nýrri skáldsögu eftir sig, og tvo kafla þó ið síðara kveldið, af því áheyrendur óskuðu þess.

Ið fyrra kveldið kvaddi séra Pétur Hjálmsson fyrirlesaranum hljóðs með hlýlegri ræðu. Hann sagði, að Einari væri engin þörf meðmæla í viðurvist Vestur-Íslendinga, manninum, sem svo lengi hefði fyllt þeirra flokk, ritstjóranum, sem ætíð hefði skotið fyrir þá skildi í blöðum sínum, ef á þá hefði verið hallað í orði, höfundinum, sem allir hefðu lesið sögur eftir. Sjálfræði íslenzku þjóðarinnar væri okkur öllum annt um. Til fólksins í „Litla-Hvammi", þar sem við hefðum alizt upp, bærum við enn hlýjan hug. Við hefðum líka góðar „Vonir" um, að vel myndi ráðast úr vandamálum þess, þó því kynni að verða nokkuð erfitt enn upp á „Örðugasta hjallann". Gesturinn sjálfur og erindi hans um það mál væri Íslendingum í Alberta öllum velkomið.

Stephan G. Stephansson mælti nokkur orð til Einars að skilnaði ið síðara kveldið, en þau urðu nokkuð í molum, eins og honum verður oft. Ég tíni þá fram eins og þeir féllu. Það var fyrst þökk til Einars fyrir skemmtunina og að hafa lagt á sig jafnlanga og örðuga ferð fyrir lítið í aðra hönd, slík vegalengd sem væri milli Winnipeg og Alberta. Fyrir nærri hálfum mannsaldri síðan kvaðst ræðumaður hafa haft veður af því, en hvergi verið þó viðstaddur, að líkt hefði staðið á í stjórnmálum í Noregi eins og á Íslandi nú. Þá hefði skáld þeirra Norðmannanna, Björnstjerne Björnson, ferðazt um norsku byggðirnar í Ameríku og flutt tvo fyrirlestra, annan um stjórnmál, hinn hefði verið „kritik" um kafla úr biblíunni, eins og Björnson hefði þá skilið hann. Síðan hefði Norðmönnum unnizt á um sjálfstæði sitt, allt sem þeir æsktu þá. Þröngsýnið meðal Norðmanna hér í landi hefði þá verið ögn andrætt inum síðarnefnda fyrirlestri Björnsons. Nú væri aðalefni hans víða orðið efst á baugi, þó að drögin væru ekki rakin eins. Nú héldi íslenzka skáldið Einar Hjörleifsson tvo fyrirlestra fyrir Vestur-Íslendinga um sjálfstæðisbaráttu og frelsishreyfingar heima. Skyldi það nú sýna, að margt væri

líkt með skyldum, og að Íslendingum myndi farnast eins vel og Norðmönnum?

Út af því, sem sagt væri í niðurlagi fyrra fyrirlestursins, um að Íslendingar heima væntu sumir einhvers styrks að vestan í sjálfstæðisbaráttu sinni, ef til þyrfti að taka, kvaðst Stephan ætla að hafa yfir erindi Þorsteins Erlingssonar:

„Ef fýsir þig yfir til framtíðarlands
og finnist þú vel geta staðið,
þá láttu ekki skelfa þig leiðsögu hans,
sem leggur á tæpasta vaðið.“

Hugboð sitt væri, að fúsastir yrðu Vestur-Íslendingar að styrkja það frjálsræði á Íslandi, sem mest sjálfræði heimtaði og legði þar á „tæpasta vaðið“.

Að lokum kvaðst ræðumaður ætla að hnupla hugsun frá Einari sjálfum. Hann hefði með öðrum verið að fagna Vestur-Íslendingum heima fyrir skömmu síðan, og í ræðu sinni þá minnzt á vorfuglana. Það sæjust stundum íslenzkir vorfuglar í Alberta líka. Þar kæmu stundum bæði álftir og lóur. En sá væri gallinn á, að þeir þegðu ævinlega. Enginn íslenzkur vorfugl léti þar til sín heyra, nema gaukurinn. En sú væri þó bótin, að gaukurinn væri svo veðurvís, að vor væri ævinlega áreiðanlega komið, þegar til hans heyrðist. Einari kvaðst ræðumaður óska líkra veðursælda, vors og vorveðra, hvar sem hann færi.

Svo fór Einar leiðar sinnar. En skemmtun var okkur Albertamönnum að komu hans. [1907]

## Þökk.

Manni óar oft við því að varpa þökk sinni út í dagblöðin, finnst það vera vinum sínum svo vargoldið, því frekar sem manni þykir betur til sín gert. Samt getur það orðið eina úrræðið til þess að góður drengskapur liggi ekki alveg í láginni, því það er öllum þarft, að honum sé á lofti haldið, jafnvel þar sem mörgum kann að sýnast, að hann hafi komið niður á því, sem lítilsvirði var.

Ég hefi kostnaðarmönnum kvæðanna minna margt að þakka. Þeir tóku sig sjálfir fram um að fá þau til prentunar, án minna bæna. Þeir hafa í engan kostnað horft, svo And-

vökur yrðu sómalegar frá sinni hendi. Þeir hafa látið mig taka við þeim tekjum, sem orðið hafa, en sjálfir setið að skörðum hlut.

Líklega er þetta íslenzkt einsdæmi.

Að vísu hafa forgöngumennirnir lagt mest í sölurnar. Jöfn fyrirhöfn á sjaldan heima í neinum félagsskap, sízt í svona. Engan ókunnugan mun gruna, hvílíkt aukaverk og umhyggja féll í hlut þessara manna, eins og á stóð. Samt voru öll ómökin til mín ætíð gerð með ljúfu geði.

Skrautbundið eintak af Andvökum mínum sendu kostnaðarmenn þeirra mér nú í nýársgjöf og biðja mig „að geyma til minja um ljúfa samvinnu". Orð leikur á því, að þeir, sem skáld þykjast vera, hafi ekki ætíð þótt auðsveipir til viðvika. Hitt er auðkenni allra leirskálda að kunna flestar kenjar sér fremri höfunda, en komast hjá kostum þeirra. Þeir geta ekki að gert. Mér er ánægja að eiga svona hlýlegt vottorð góðra drengja um að það hafi ekki bagað mig í þetta sinn.

Bæði þessi tileinkun og vísa, sem svo fylgir, er skrautrituð framan við kvæðabókina af Þorsteini skáldi Þorsteinssyni. Ég get þess, af því ég veit ekki, hvort mönnum er svo mjög kunnugt, að Þorsteinn er listhagur á fleira en kveðskapinn. Svo er öll hans hluttaka í þessu svo óvenju öfundlaus.

Þá fylgja eiginrituð nöfn kostnaðarmannanna, liðug þrjátíu, og þá bókarprýðina metur maður ekki minnst. Meðan á útgáfu Andvakna stóð, vissi ég ekki, hverjir áttu hlut að henni, aðrir en þeir, sem ég varð að eiga við um ýmislegt. Nennti heldur ekki að ganga grafgötur um það. Nú veit ég, hverjir það voru. Nokkrir eru sveitungar manns frá yngri árum, sem þrátt fyrir allt hafa aldrei látið sér verða illa við mann, alla þessa löngu og tilbreytingargjörnu tíð. Þá eru þar yngri menn, sem maður hefir aðeins séð í svip en aldrei grunað, að maður ætti sér þar vina von, og þar eru þeir líka, sem maður man naumast nein deili á.

Eitt sinn átti ég tal við mætan mann, sem ég vissi, að hafði unnið sér og sinni þjóð til sæmdar. „Ég var ólánsmaður með eitt", sagði hann, „að frátöldum þeim um foreldra mína, eru flestar mínar æskuminningar fremur kaldar." Ég svaraði honum aðeins því, að þar væri ég þá giftudrýgri, ég ætti hóp af þeim hlýjum. Hitt sagði ég ekki, sem ég sár-óskaði honum í huga mínum, að elliminningarnar yrðu honum unað-

sælli. Ég bar ekki auðnu til íþrótta á við hann. En engum er alls varnað, ósk mín hefir rætzt á mér með viðskiptunum við mig og nýársgjöfinni ykkar, piltar.

Gaman hefði verið að geta launað svona góðan greiða með því að strengja þess heit og halda það að kveða sér kvæði, betur gert en þau, sem búin eru. En svo minnist maður þess, að heitstrengingar þurfa að hafa orðið að efndum sólskinsmegin við sextugt. Þær mega ekki við því að flytjast inn í forsæluna.

Ekki er það minnst um vert, að manni finnst sitt eigið gengi geti verið öðrum góðsviti. Lengi hefir mönnum verið tamara að sjá allt við mann eftir á, fremur en meðan maður var uppi. Oft hefir það komið illa niður og orðið eftirkomendum til raunar. Stundum hvarflar hugur manns út í ókomna daga, að því, hverju fram muni vinda fyrir ýmsu, sem manni er annt um. Það er enginn löstur að láta sér þykja ögn vænt um sjálfan sig. En væri til sú véfrétt, sem með vissu gæti svarað svo sem þremur spurningum mínum um, hvað eigi að koma fram, og þó hún legði mér til leyfis að inna sig eftir þeim, yrði engin þeirra um, hvaða framgang ég eður mitt ætti í vændum. Ég yrði forvitnari um eitthvað annað. Stöku tilviljanir eru undanföru-skuggi þess, sem á að koma. Mér finnst velvild þessara kostnaðarmanna minna vera mér nærri vissa fyrir því, að ef Vestur-Íslendingar einhvern tíma eignast sannan listamann, eins og eflaust á að ske, þá mundu þeir verða því vænir, sem verulega væri góðra gjalda vert.

En hvað sem því líður: Alúðarþökk fyrir mig, drengir góðir.

[1912]

## Kveldúlfsminni.

### Miðsvetrar-Úlfamót Vancouver-Íslendinga, 7. febr. 1913.

Herra forseti, félagsmenn og veizlugestir.

Í sama sinn og ég heilsa nú Kveldúlfi, félaginu ykkar Vancouver-Íslendinga, og þessu fjölmenni, sem hér er saman komið, læt ég þess getið, að sjálfsagt hefði ég verið beðinn að færa ykkur kveðju Íslendinganna í Alberta, hefðu þeir vitað um ferð mína hingað. Ég hálf-stalst að heiman. Fleiri eru þar en ég, sem oft munu hugsa hlýtt vestur og langa að

sjá, hvað býr að fjallabaki, þegar kveldrænan greiðir með gullkambi aftanroðans hrímbjarta hláku-lokkana austur yfir ennin á náttmála-bláum fjöllunum ykkar og okkar. En vík ókunnugleikans liggur enn víð milli vina, inn í íslenzku landnámsbrotin, vestan hafs.

Þannig lagði ég upp úr næstu nágrannabyggðinni, án þess að hafa önnur kynni af Kveldúlfi en þau, að hafa gert mér í grun, að hann væri öðruvísi en flest félög okkar, utan kirkju og innan. Þau hafa oftar lög sín og sjóð að átrúnaði, en Kveldúlfur ykkar kvað eiga viðhald sitt undir vinsældum sínum einum. Svo vissi ég, að hann heldur hóf þetta í kveld, og að ég átti honum þessa ferð mína að þakka.

Skemmtunin, sem ég hafði af förinni, fann ég að var kynning mín af Kveldúlfi. Þegar ég fór um fjöllin, þennan jötunheim af jöklum, af gnúpum og gljúfrum, af sólskini og svartnætti, allan úr ógerðum söngvum fyrir yngri tungur, þá mundi ég eftir því, að þarna var kynning mín af Kveldúlfi. Svo vel fór þá um mig, þarna inni í miðjum fimbulvetri, að þegar ég heyrði einhvern samferðamann suða um tímann, sem það tæki, að komast yfir þetta veðravíti, hafði ég yfir erindi, óskylt hugsunum hans, því það rann upp með sólskins-blikum, sem loguðu lengst niður í skörðunum, og er svona:

Í suðrinu senn fer að vora,
Og sólgeislar fljúgandi þora
Í náttvökur norðinu að.
Allt ljós-kært sig langar að yngja,
Og lóan fer bráðum af stað
Til Íslands, til Íslands, til Íslands til að syngja.

Þegar ég komst vestan vetrar, ofan í vordalina sumarlöngu, og hlökkunin að sjá til hafs átti svo skammt eftir, að mér fannst ég finna saltþefinn af sjónum, var ég nánar að kynnast Kveldúlfi.

Þó á ég að leysa hendur mínar við hann hér í kveld, og það var mér örðugasta áhyggjan. Hann ætlast til, að ég kveði sér kvæði, og ég er ráðinn til að reyna það. Áður en ég hefi það yfir, þori ég að segja, að flestir hér munu muna það með mér, einkum þeir, sem kenna sig við Kveldúlf, föður borgfirzka landnámsins, að hann kom því ekki fram að flytja til Íslands, fyrr en Þórólfur sonur hans var fallinn, og að

hann andaðist í hafi. Aðrir landnámsmenn skutu goðhelgum öndvegissúlum fyrir borð og tóku land, hvar sem þær ráku upp. Kveldúlfur bað sitt sifjalið að nema land nærri því, sem kistan sín kæmi í fjöru. Ef til vill var hann ekki gjarnari að blóta goðin en Egill sonarsonur hans kvað um sig, og trúði sjálfum sér, jafnvel í kistunni, til þess að velja eins vel, líklega af því hann fann til þess, að enginn, ekki sjálf goðin, gat viljað börnunum hans betur. Hvað sem því líður, þessu ráði hans á að hafa verið fylgt, og árangurinn varð, að Borgarfjörður, ein af beztu sveitum Íslands, komst í eigu erfingjanna hans. Við Íslendingar kváðum líka flestir eiga til Kveldúlfs að telja. Allir okkar fegurstu menn og konur eru af hans ætt. Og okkur hinum til huggunar, sem ekki höfum fegurðina til að flíka, kváðu afkomendur hans vera ljótustu mennirnir líka. Allir Íslendingar sverja sig þannig á einhvern hátt í Kveldúlfskynið. Hann var einnig spávitrastur og mestur sæmdar-karl í Egilssögu, á okkar vísu, sem vel má vera vegna þess, að við hittum hann þar roskinn og ráðinn, og hlaupum óvitandi yfir bernskubrekin hans.

En hér kem ég með kvæðið:

Keifði kargan mar
Kveldúlfs landnámsfar,
— — —[1])

Nú kemur mér það í hug að kvæðislokum, að eitt sinn kynntist ég öldruðum Íslendingi hér í álfu. Hann var sjálfsagt af Kveldúlfs-ættinni, og var bóndi. Í akrinum sínum átti hann örðugan reit; þar óx aldrei annað en löðrandi illgresi. Margra sumra erfiði hans og árvekni vann þar til einskis. Við þennan blett hafði hann lagt mesta rækt, en óþakklátasta. Ég vissi, að karlinn gat verið geðstór við guð sinn og menn, þegar honum fannst það verða fyrir verstri útreið, sem hann hafði vandað vilja og verk bezt til. Ég gat þess að gamni mínu við hann eitt sinn, þegar hann sýndi mér akur sinn, að lítil yrði uppskeran enn af þessu óþrifa-horni. Ég vildi sjá, hverju hann svaraði, og bjóst við stóryrði. En aldrei vissi ég karl taka ósigri kappsmála sinna með slíkri ró, því svar hans var svona: „Ó, já, jarðvegurinn vill nú reyndar, að á sér vaxi. En svo verður nú þetta úr því.“

1) Kvæðinu er sleppt hér, pr. í Andvökum IV. bls. 68—72. *Útg.*

Svona vægilega ætla ég að biðja ykkur að hugsa um þetta Kveldúlfsminni mitt.

Ég veit, að hér bar öfugt við það, sem gerðist í Egilssögu. Svölurnar voru að vísu reknar úr glugganum, en enginn Egill inni til að kveða.

Stundum ímynda ég mér, að yndislegustu kvæðin manns séu ógerðu kvæðin, yrkisefnin, sem aldrei urðu manni að verki. Að þau séu eins og eftirsjáin lítur á leidda vini: bezt, af því tíminn getur ekki breytt skapi þeirra til manns framar. Stundin með ykkur í kveld verður mér þá einhvern tíma að þess konar kvæði.

Kveldúlfi ykkar kann ég beztu þökk fyrir alla rausn sína og óska honum, að hann verði hvötuður margra íslenzkra efnismanna, nær og fjær.

Og svo ætla ég, í góðu leyfi forseta, og sjálfsagðri feginsemi áheyrendanna, að fá að setjast niður. Ég veit, að hér eru allir svo brjóstgóðir inni, að þeir ætlast ekki til, að maður verði sér til ræðuhalda-minnkunar nema einu sinni sama kveldið, né lengur í einu.

## Íslendingadagserindi.

### Wynyard, Sask. 3. ágúst 1914.

I.

Herra forseti, forgöngunefnd og þessi þingheimur!

Mér flýgur í hug fornt skáldmæli, sem frægt er orðið: að göngin að Niflheimi séu gólfuð góðum ætlunum, sem allar lentu í útideyfu.

Tvisvar eða þrisvar hefi ég áður dregizt á að vera með ykkur á svona héraðshátíð, en ævinlega brugðizt því, þangað til nú.

Ég lái engum, þó hann gruni, að ég sé hér nú bara af því, að auðséð væri, hvar ætlanirnar ætluðu að lenda með mig, og hafi nú lagt á seinasta forvað.

Þó get ég með sanni sagt, að ég var ögn úrillur að þumbast heima hin skiptin, og í dag hlakka ég til að vera í hópnum með ykkur, þrátt fyrir það að ég stíg hér fram á ræðupallinn litlu betur á mig kominn en eins og ég stökk upp undan heystakknum í Alberta.

Við landnámsbændurnir vestan hafs finnum þess merki flestir, að við höfum ekki einungis lagt til fjalir í gólfið í Niflheimi, heldur stundum líka týnt greindustu hugsunum okkar á vakkinu milli bæjar og fjárhúsa.

II.

Ég hefi ekki lag á að leyna því heldur, að mér finnst ég taki laun fyrir lítið, þar sem þið flytjið mig heiman og heim til ykkar, aðeins til að gera þessa afsökun mína.

Alltaf hafði ég geig af því, að vandi væri á að flytja Íslendingadagserindi hér, í þeirri sveitinni, sem fangbreiðust er og fjölmennust af öllum héruðum, þeim sem íslenzkar ættir byggja vestan hafs, því við hana ættu aðeins ötul orð og útsýnar hugsanir; að allra íslenzkust yrði kveðjan að vera í þeirri byggðinni, sem varð fyrst til þess, utan borga, að sýna móðurmáli okkar þá rækt, sem hinar munu eftir henni taka: sem sé að nota ykkur þetta meinleysi fylkislaganna, sem aðkomnar þjóðir njóta hér enn, að mega í hjáverkum og upp á eigin spýtur nota skólahúsin, sem þið byggið, til skýlis fyrir börn ykkar, enda þótt þeim sé veitt tilsögn í tungumáli foreldra sinna.

Þið hafið fundið til þess, að úr öllum þessum strembnu áminningum um þjóðerni og þegnskyldu, loðir þó einn ljós sannleikur eftir, og hann er sá, að þjóðfélaginu fer alveg eins og einstaklingnum, að þó nauðsyn sé að nema allt nýtt og fagurt, eins og verður yfir komizt, þá er hins vegar alveg eins áríðandi að gleyma engu góðu og göfugu, sem manni hefir hlotnazt einhver kunnátta í.

Sá er þegnskapur beztur, að vera sem hæfastur í hvaða skiprúm sem skal á hafi samtímans, hver þjóð sem hefir fætt okkur eða fóstrað.

Þá yrði vegur Vestmanna mestur og hugum þeirra við hæfi, ef sönn saga segði það að lokum, að hverri þjóð, sem hingað hefir sent dætur sínar og sonu, hafi héðan komið máttur og menning, sem dótturmundur og sonargjöld.

Ættarböndin, sem tengja þetta land við allar þjóðir heimsins, ættu að styrkjast framvegis. Þá sköpum við hér kanadiskt þjóðerni og brezkt heimsveldi, sem rausn væri að.

Þið, Íslendingar hér, hafið hug til að hugsa svo hátt.

Fólki framtíðarinnar hitnar um hjartaræturnar að horfa yfir þær stöðvar, sem foreldri og frændur hafa byggt.

Grænland varð líkkista ættkvíslar okkar, ferlega-fegursta þjóðargröf í heimi. Íslendingur,[1]) sem þangað kom, öldum á á eftir, kvað svona um jöklana þar:

„Það er vinskaps orsök ein,
Yðar, verð að lofa!
Að Íslendinga öldruð bein
Í ykkar skjóli sofa.“

Hversu mun þá kveðið á íslenzka tungu yfir moldum okkar, ef draumur minn um kanadiskt þjóðerni rætist?

„Mig dreymdi draum, og dálítið meira en draum.“ Svona byrjar Byron eitt kvæðið sitt, en hann dreymdi þá erfiðlega.

Ykkur þykir kannske mig dreyma of dátt.

Sum okkar trúa því bezt, sem talað er á ensku. Ég ætla að hafa upp kveðjuna til okkar frá Bandaríkjamanninum Russell[2]) í seinustu ferðasögunni frá Íslandi, sem ég hefi séð, því hún var rituð í fyrra. Þannig minnist hann við þjóðina okkar:

„Erfð þín er undralandið, völundarsmíðin elds og íss. Hún er honum hugljúf, sem nú hefir fjórum sinnum verið gestur á ströndum þínum, og sem kannað hefir innstu öræfin þín. Fyrir tíu öldum varð hún hugljúf fyrstu landnámsmönnum þínum, þegar hún bjargaði frelsi þeirra, og hugljúfust ykkur öllum er hún orðin nú. Synir þínir á Dakota-sléttunum, dætur þínar í Winnipeg — farfuglarnir flognir heiman úr hlíð og dal, — þekkja, hvernig þú hrífur um hjartastrengina, og hverfa einatt til átthaganna aftur.“

Við höfum vitað þetta, en hugnun er að láta segja sér það svona alúðlega.

Og nú hefi ég útsagt. Þó ég kysi sízt að hafa þreytt ykkur um of og vildi vinna það til að lofa að gera það aldrei oftar, þá fellur mér samt svo vel að vera hérna núna, að ég er nærri í sama skapi eins og einn kvenskörungur okkar forðum, sem

---

1) Íslendingur: Sigurður Breiðfjörð.

2) Russell: W. S. C. Russell, Iceland. Horseback Tours in Saga Land 1913. Bók Russels kom út 1914, ekki 1913. Útg.

varð veik, hélt það yrði sitt síðasta, kvaddi bóndann og bað hann fyrirgefningar, hét að verða honum aldrei eins örðug framvegis, og þegar hann bar henni í bætifláka, anzaði hún ekki öðru en því: „Ójú, víst var ég þér vond, en nú skal það skána. En — mundu samt eitt, Sveinn, komist ég til heilsu aftur, stendur þetta loforð ekki lengur!“

Komist ég nú úr þessum ræðuklípum við ykkur, þá stendur mitt loforð um að halda munni heldur ekki lengur.

Þökk fyrir gott hljóð gefið mér, og góða skemmtun.

Fylgi velgengnin byggð ykkar og búum.

## Gestkoma.

Ekki veit ég, hvað hvolparnir hugsa, þegar sagt er þeir séu að spá gestakomu. Ég hefi engan spásagnaranda eins og þeir, svo þessi heimska kemur mér kannske þaðan. En ég get mér til, að þeir vilji láta fleiri vita þetta með sér. Svo er því farið fyrir mér, en allténd eftir á. Þetta dettur aldrei í mig, fyrr en gesturinn er farinn. Fæ ég Lögbergs-leyfi til að geta hér um gestkomu?

Í liðnum mánuði kom hingað til Markerville Jón bóndi Jónsson frá Garðar í Norður-Dakota. Erindi hans var að létta sér upp við að heimsækja frændur og forna sveitunga í Winnipeg, Wynyard og hér, jafnvel suður í Montana, ef tími leyfði.

Í góðra bænda byggð, eins og Garðar er, er Jón talinn efnaður, en hitt þó meira á orði haft, að hann sé forsjáll og snyrtimaður um allan búskap. Síðan hann varð fullþroska, hefir hann tekið drjúgan þátt í flestum málum síns heimahéraðs, en það er sú byggð Bandaríkja-Íslendinga, sem einna fjörmest hefir þótt og afskiptasömust um pólitík, trúarbrögð og öll sín sveitarmál. Jón hefir jafnan staðið framarlega í þeim flokki, sem trúir á breyting til betra, en þó íhaldsmönnum þætti hann sér andstæður, eins og von til var, mun honum sjaldan hafa brugðizt góður þokki þeirra né verið vændur dugleysis né ódrengskapar. Að lundarfari er Jón yfirlætislaus og heimaelskur og honum verið minni eftirsókn en ella hefði verið að sitja lengi í héraðsstjórn og vera valinn til þings, þó svo hafi farið. Hann hefir síður langað en leiðzt til þess.

Jón kom ungur til Ameríku, hann er íslenzkur uppalningur

hennar. Það uppeldi varð frumbýlingsfóstur, fremur til að berja ofan af fyrir sér en til bóknáms. Þrátt fyrir það er Jón furðu fjölvís og helzt víða vel í hendur við stefnu samtímans. Íslenzkur skýrleiki og sú mannræna að bæta sér það sjálfur upp seinna á ævinni, sem maður varð afskiptur á skólaaldrinum, hafa dugað honum til þess — og líka öll þessi bekkjaröð í skóla „Ameríkulífsins“, sem hann hefir flutzt um, frá skógunum austur í Wisconsin vestur á sléttturnar í Norður-Dakota. Í menningunni, eins og heyskapnum, verða „heimafengnu baggarnir hollir“.

Af þessu leiddi, að Jón var hér fyrir fram velkominn gestur, hvar sem hann kom og átti kunnugt fyrir. Hann tafði hér í byggð tveggja vikna tíma.

Að kveldi 21. ágúst, dagsins áður en Jón hélt heim, bauð systir hans, Helga húsfreyja Jónsdóttir, honum og öllum ættingjum þeirra innan byggðar, sem til náðist, nærri 30 manns, heim til sín. Vel lá á veðrinu og fólkinu.

Jón á engan ræðumann í ætt sinni hér í Alberta. Þess galt hann nú. Fyrir minni hans var þó mælt, eitthvað í þá átt sem hér var um hann sagt, þó með meiri aðfinnslum. Til dæmis tók Kristinn Kristinsson það fram, að þó sér þætti þakkarvert að hitta Jón hér, fyndist sér hann kominn of fámennur, því hvergi sæi hann nú Jónas Hall né Eirík Bergmann. Þá gat einhver þess, að Guðbjörgu, konu Jóns, vantaði líka, þó Jón ef til vildi væri ekki valdur að því, en nú væri hann beðinn að skila til hennar kveðju þessa safnaðar og þessari stöku frá eldra fólkinu:

Við erum ekki að „brjóta blað“,
Þó bráðum séu gráir lokkar. —
En Guðbjörg, hafðu þökk fyrir það,
Að þú varst góð við drenginn okkar.

Þá svaraði gesturinn þeim, sem á hann höfðu yrt, með því að minnast þess, að fyrir 24 árum síðan hefði hann heimsótt Íslendingabyggð þessa í Alberta, og ætíð síðan treyst henni til góðrar framtíðar og borið hlýjan hug til hennar. Vonir sínar um hana hefðu í engu brugðizt, nú er hann sæi hana á ný. Þá þakkaði hann fólki yfir höfuð og frændum sínum hér góðar viðtökur og vinsemd við sig nú og fyrr.

Næst söng hver með sínu nefi, það sem Þorsteinn Erlings-

son kallar „okkar gamla veizlulag", sem sé: „Hvað er svo glatt", og fáein önnur erindi, eldri og yngri.

Góð skemmtun varð að því, að þegar dans hófst, gengu þeir báðir í hann, gesturinn og Kristinn Kristinsson, nú á sextugs og sjötugs aldri, en höfðu ekki stigið þau spor í 15 til 20 ár, þó sú hafi tíðin verið, að þeir sátu ekki dansinn í úrgangi, og einhver minntist þess þarna með því að hafa yfir ina skemmtilegu vísu Matthíasar skálds, um séra Ólaf Johnsen:

„Þitt sæti vel þú varðir,
Er valsinn sveif í hring,
Og drósir færri firrtust
Inn fríða Íslending."

„Það er gott að dansa við hann," sögðu frænkur þeirra, sem nú voru á bezta dans-aldri en ekki kunnu að ganga, þegar þessir karlar hættu dansi, fyrir mörgum árum, og þóttust orðnir of stirðfættir.

Úr því varð þessi staka:

Þó við gömlu, gætnu menn,
Göngum nú með stilli,
Stundum brokkar æskan enn
Áranna fornu milli.

Líklega verður að geta þess líka, að einn af frændum Jóns, sem þarna var staddur, Stefán nokkur Guðmundsson, þuldi honum þessar vísur:

Til að láta losna í kvöld
Lögin, sem við ungir sungum,
Hillu-lögð í hálfa öld,
Hljóma læt ég stirð og köld,
Jonni minn, af vanefnd völd
Versin mín, hjá yngri tungum,
Til að láta losna í kvöld
Lögin, sem [við] ungir sungum.

Þó að slái á efri ár
Aftanroða sumarkveldsins,
Fríð er jörð og himinn hár,
Heiðrík fjöll og greiður sjár.
Fegurst enn á fimmtugs brár

Festir geisla morguneldsins,
Þó að slái á efri ár
Aftanroða sumarkveldsins.

Æ þú varst og verður, Jón,
Vinum þínum sæmd og gleði —
Við erum allir vestan-ljón,
Veit ég það, í raun og sjón.
Ég er að yppa öðrum tón:
Öðlingslund og hollu geði.
Æ þú varst og verður, Jón,
Vina þinna sæmd og gleði.

Við þig kváðu stutta stund
Strengja-slög hjá Klettafjöllum —
Fararheill um glaða grund —
Góða þökk af okkar fund —
Þegar hjúfrar blær í blund
Bæ á þínum heimavöllum,
Blandist í hann, stund og stund,
Strengja-slög frá Klettafjöllum.

Einhver hafði orð á því, að þessi kveðlingur væri bæði tyrfinn og torskilinn, og líkastur því, að hann væri eftir Stephan G. Stephansson. Ekki vildi kvæðamaður þó gera neina bót á honum, aðra en þá skýring, að þetta um „vestanljón“ kæmi af því, að sér hefði flogið í hug glettnisvísa eftir Þorstein Erlingsson, sem væri svona:

„Loksins er ég eitt af þeim
andans frægu ljónum,
sem að vaða um Vesturheim
með vorum stóru Jónum,“

en sjálfur hefði hann viljað sneiða sig sem stytzt hjá ljónagryfjunni.

Svona leið þá þetta sumarkveld í Alberta. Morguninn eftir kvaddi Jón og lagði upp suður til Montana. Okkur hér er það ánægja, að frétzt hefir með vissu, að Þjóðverjarnir þar lofuðu honum leiðindalaust að stíga inn fyrir landamærin.

Svo þakka ég Jóni komuna og húsfreyju og fólki hennar fyrir kveldskemmtanina. [1915]

## Landið okkar ótilnefnda.

Markerville, Alta. 2. ágúst 1915.

Herra forseti og sveitungar góðir.

Ekki vænti ég, að eitthvert ykkar kannist við ævintýrið um manninn, sem skildist við skuggann sinn?

Munið þið eftir raunum, sem hann rataði í út úr því, sem honum sýndist sjálfum vera smáræði, sem sé þessu: að eiga sér engan skugga?

Ég hefi heyrt, að jafnvel aldraðar meyjar, sem fyrir manna sjónum sýndist, að ættu að vera orðnar lítillátar, hafi hryggbrotið hann. Jafnvel þær gátu ekki látið það um sig spyrjast, að bóndinn sinn væri það öðruvísi en allir almennilegir menn, að hann ætti sér engan skugga.

Í einu orði sagt: fyrir skuggaleysið varð maðurinn mesti mæðugarmur.

Mér dettur þetta í hug af því, að sá, sem æskti þess af mér, að ég mælti hér örfá orð, tók það fram, að það sem ég segði þyrfti ekkert að heita. Mér væri, í þetta sinn, enginn sérstakur skuggi ætlaður.

Þið sjáið öll, vona ég, fyrir hvílíku óhappi ég er orðinn, því þó ekkert ykkar hefði skilið né tekið eftir, um hvað ég var að tala, hefði þó lítið á því borið, ef mér, til dæmis, hefði verið skipað að kalla það „Minni Íslands“ eða „Minni Kanada“. Þau orð hefðuð þið öll munað.

Þó skal ég með fám orðum lúka við loforð mitt, og mæla fyrir minni — landsins ótilnefnda.

Landsins, sem þú eða ég, eða hver okkar sem er, hefir kærast. Landsins, sem okkur tekur sárast til, af því vera okkar hefir vafizt inn í það, séum við annars nokkurs staðar heimilishæf á himni eða jörðu. Landsins, sem hvorki er „paradís in týnda“ né „paradís in afturfundna“, heldur aðeins landið, sem geymir manndóm manns: högustu handarverkin og hæstu hugsanirnar. Hver sem jarðvegur þess var, varð hann þeim gróðurreitur. Einu gildir þá, hvort það var kalt eða milt, flatt eða fjöllótt, það var okkar land. Á þess skjöld höfum við grafið einkenni okkar, á einhvern hátt og óafmáanlega.

Landið okkar ótilnefnda getur jafnvel verið lögur en ekki

land, sem sé: hafið — svo lengi sem einhver þurrabúðar-öld verkar ekki alla vætu af jörðinni.

Ég er ekki að hæða bindindispólitík — aðeins að benda á, hve skammt við séum komnir í að binda, því þrátt fyrir allt, hefir vont vatn orðið okkar mannkyni að lengri og verri skaða en vont brennivín — eins illt og það þó er.

Ótilnefnda landið, hvers okkar, getur einnig verið eins vítt og vötn blána og viðir laufgast; eður, ein einasta þúfa — tvö fet á eina hlið og sex á hina, jafnvel minna.

En, hvernig sem það er og hvar sem það er, og hver sem þú ert. Ég stóð hér upp, ekki til að lýsa löndum, heldur til að segja ykkur samúð mína — öllum sem eigið ekkert land.

Og lán var mér þetta, upp úr skuggaleysis-ógæfunni, að kunna ögn að mæla á íslenzku, því allt sem ég hefi lagt í þessa lausmælgi af ræðustúf, get ég léttara unnið upp í átta stuttar línur — svona:

Vort helga land, vort heimaland,
Vort hjartans land, vort feðraland,
Vort vænsta land, vort vonaland
Og vorra niðja land:
Með einum hug við hötum þann,
Sem hatar þig, og smáum hann.
Með einum hug við elskum þann,
Sem elskar þig, og dáum hann.

Eigi svo hvert ykkar heilt sitt Heimaland.

## Aðkomumenn.

Mánudaginn 22. næstliðinn hélt dr. Guðmundur Finnbogason fyrirlestur sinn hér að Markerville, eins og á var ætlað. Fylgdarmaður hans hingað var W. H. Paulson, þingmaður frá Saskatchewan, gamall góðkunningi margra byggðarmanna hér og fagnaðargestur að fornu fari og nýju. Íslenzka fámennið hérna fjölmennti allrækilega að erindi dr. Guðmundar; það leyndi sér ekki, að almenningur þekkti svo til rithöfundarins, að þar átti hann góðs ræðumanns vísa von, og engan hefi ég síðan heyrt barma sér um vonbrigði með það.

Að sjálfsögðu kvaddi íslenzki þingmaðurinn íslenzka

doktornum hljóðs, fyrst þó með því að æskja þess, að almenningur syngi með sér „Hvað er svo glatt“. Undir það var vel tekið. Ein af uppalningum sveitarinnar, ungfrú Lára Benedictson, lék lagið fyrir á slaghörpu.

Allir, sem heyrt hafa, vita að Wilhelm Paulson er vel máli farinn. Hann hóf mál á því að minnast fornra kynna við heimamenn, allt á betra veg, og mun þó ekki hafa leitazt við að láta neitt ofsagt. Hann kvað það gleðja sig að koma nú svo færandi hendi að hafa dr. Guðmund Finnbogason að förunaut. Gat um, hvert erindi hann ætti, og af hvers völdum hann væri hingað kominn, og hvern orðstír hann hefir sem ræðumaður og rithöfundur. Skrumlaust sýndist það allt mælt vera og þó drap ræðumaður á, að Guðmundur hefði sett ofan í við sig fyrir hól í inngangsræðu einhverri, sem hann hafði flutt honum fyrr. Dr. Guðmundur tók svo upp erindi sitt, að boði formælandans.

Ekki situr það nú á mér að fara hér með fyrirlestur dr. Guðmundar. Fjöldi fær að heyra hann, fleiri fá að lesa hann, því væntanlega verður hann prentaður. En ýmsir eru að biðja sér byggðafrétta í blöðunum. Koma þeirra Guðmundar og Wilhelms var viðburður, og „Heyrið þér hvernig Hellnamenn halda boðorðin tíu“ ... nei, nei: Hvernig afdælingar í Alberta sitja samkomur, því það ætla ég að segja mönnum, og hitt líka, hversu mér gazt að gestunum.

Maður getur stundum hugsað og heyrt, þó annar sé að tala. Þegar Guðmundur var tekinn til að tala, datt mér í hug íslenzk þýðing á þýzku kvæði, sem Kristján Jónsson kvað upp af tungu Heinrich Heine’s. Í kvæði því er skáldið útlagi og erlendis og yrkir til stúlku, sem fer ekki fjarri því, sem af Heine er sagt. Fyrsta vísan er svona, minnir mig:

„Þegar morgunsólin sæla
Signir allt með ljósi gljáu,
Geng ég fram hjá glugga þínum,
Gleðja mig þín augun bláu.“

Auðskilið er, að hvorki voru þau kunnug, kvæðishöfundurinn og stúlkan, né töluðust við öðruvísi en þegjandi, en í bláu augunum, sem glöddu skáldið, las hann þessa spurningu:

Hvaðan ertu, útlendingur, og hvað liggur þér á hjarta? Heine man vel, hver hann er, og með réttu, enda ríður engum eins

á því og útlaganum. Hann hefir ort „Þýzkaland“, þar sem Kristján kveður „Frón“, en svarar:

„Ég er skáld, á Fróni fæddur,
Á Fróni kunnur hverjum manni —
Þegar mestu manna er getið,
Mín er líka getið, svanni.“

Hve manni finnst þetta dýrlegt og djarft, eins satt og það líka er. En svona má enginn tala nema skáld, og Guðmundur Finnbogason telur sig ekki skáld, og þá er nóg sem nægir. Einhver má því segja það, sem satt er, en Guðmundi er varnað að segja um sjálfan sig: Þegar merkustu Íslendinga, sem nú eru uppi, er getið, er hans getið. Haldir þú ég segi þetta einungis til að gera Guðmund gildan, máttu það mín vegna. En, ég ætlaði að syndga stærra en það, og svona er það: Við höfum dubbað Vesturheim „tækifæranna land“ að auknefni, og ég er ekki að deila á það; með því viljum við í ljósi láta, að hér þurfi góðir hæfileikar manns hvorki fjár né fulltingis til þess að njóta sín, eins og hjá eldri þjóðunum. Sé maður af íslenzku bergi brotinn, mæti maður Guðmundi Finnbogasyni og muni æskuhaginn hans, vex manni dirfð og segir: Ísland er líka orðið „tækifæranna land“.

Guðmundur er góður talsmaður síns máls. Á ræðupallinum sópar að honum. Hann er skýrmæltur, og áhuga-ylur og alvöruafl í rödd hans. Þar bregður aldrei fyrir tómahljóðinu, sem maður merkir stundum í ræðum skrúðmælskustu manna. Samt er hann faguryrtur og svo ljósorður, að þó hann fari með örðugt efni, sem okkur hinum kom aldrei í hug né hjarta fyrr, leikur hann þetta svo léttilega inn í okkur, að við höldum, að við höfum allténd vitað þetta, og þökkum honum lítið fyrir að vera að bera í bakkafullan lækinn. Þessa kennir þó oftar í ritum hans ýmsum en í ræðunni hans nú, hún er meira algengs efnis. Eins torveldur eins og ég kvað vera, skal ég hér kannast við það, að mig grunar, að það sé stundum engu minna erfiði að flytja mönnum örðugt efni með fleiri orðum en manni sjálfum væri þörf á, og án þess þó að fimbulfamba neitt, heldur en hitt kann að reynast, að „segja fá orð í fullri meiningu“.

Það hlýtur að hýrga hvern þann, sem nokkuð er kvæðakær, hvílík ógrynni af íslenzkum ljóðum dr. Guðmundur

Finnbogason man, bæði að fornu og nýju, úr krókum og kimum kveðskaparins okkar, jafnvel þar sem maður hefði sízt búizt við, að hann hefði hnýstst um, og hversu vel honum er við það allt, sé nokkurt lag á því, þó sitt sé úr hverjum handraðanum gripið. Þessu bregður fyrir í ritum hans og ræðum. Eins og íslenzkur ræðari raulaði fallega siglingavísu við árina til að greiða róðurinn, eins lætur Guðmundur íslenzku ljóðin sín létta undir með sér, eða hann hvílir huga sinn á þeim.

Mig hefir annars oft undrað, hversu hægt heimatak íslenzkt ljóð á í muna heimaöldu mannanna, þeirra sem ekki þykjast yrkja sjálfir. Þó nokkrum sinnum hefi ég séð það hér í kaupstað, inni í veitingahúsi, að aldraður Íslendingur, sem einhvers er að bíða, sezt utan við gestahópinn og fer að raula vísu við sjálfan sig. Slæpingarnir í kringum hann, sem ekkert skilja, hvað hann sé að fara með, þagna og horfa til hans með heimskubrosi; þeir ímynda sér, að hann sé augafullur, vel á vegi að verða vitlaus, en efa sig við, hvernig eigi að taka þetta, eru flestir meinleysingjar, og búast líka bráðlega við einhverju stærra og greinilegra tákni um ölæði þessa útlendings, sem gaman megi gera að. En mér er dillað, ég er sá eini, sem veit, að karlinn er eins og hann á að sér, enda sér enginn ókunnugur neitt vín á honum, ef á hann er yrt, eða þegar hann stendur upp og fer.

Þegar dr. Guðmundur hafði lokið löngu erindi og snjöllu, um viðhald íslenzkunnar vestan hafs, stóð Stefán Guðmundsson upp, sneri sér til forseta og baðst leyfis að stinga upp á, að þakkaratkvæði væri veitt Guðmundi, kirkjufélaginu og þeim mönnum heima, sem gáfu doktornum orlof til farar sinnar hingað. Stefán kvaðst enga ræðu ætla sér, en gizka aðeins í hug áheyrenda, að þeim myndi gremjast, ef enginn bæri upp svona uppástungu, og hugsa um sig, sem tannhvassastur þætti, það sem skrafskjóðan heima hrósaði sér af forðum, að:

„Þagað gat ég þó með sann,
Þegar hún Skálholtskirkja brann."

Ekki þó þannig skilið, að Guðmundur Finnbogason myndi vilja brenna neina kirkju, aðra en tröllakirkju hleypidómanna. Við vissum öll, að hann væri heimspekingur að lærdómi, en fyrir okkur vefðist stundum, hvers konar speki það væri, en sagt

gæti maður sína ímyndun. Við mennirnir stæðum nú hér á ofurlitlum skika, sem við þekktum ögn til, en með Kyrrahaf fortíðarinnar að baki, og Atlantshaf ókomna tímans fram undan. Reyndar stæði þessi landafræði ögn á höfði, en væri með vilja gert. Þrátt fyrir alla bölvun væri sín trú sú, að mannkynið væri enn að ferðast móti morgninum en ekki kveldsetrinu. En viðfang heimspekinnar væri: frá öllu sem við þekktum á okkar reit, að ráða það af landslagi og lækjadrögum, hvaðan uppspretturnar kæmu og hvert þær rynnu, jafnvel að miða sér frá því flóð og fjörur út við strendur eilífðarinnar.

Ekki dytti manni í hug, að Guðmundur Finnbogason, né nokkur annar, myndi nokkurn tíma leita í öllum vösum tilverunnar og sýna okkur allt, sem þar lægi, enda hefði maður grun um, að hún væri svo töfrótt, að hún bæri ekki alltíð sama hlutinn í sama vasanum, og af því kynni að geta leitt, að heimspekingum ber ekki alltént saman, en mikið og þakkarvert hefðu þeir þó komizt yfir.

Ekki sagðist Stefán myndi fara neinum orðum um viðhald íslenzkunnar hér, sveitarmenn hér vissu vilja sinn um það. Fyrir mörgum árum kvaðst hann hafa dottið ofan á grein í blaði. Hún var lýsing á fólki í lítilli sveit einhvers staðar á ströndinni nálægt Nýju-Jórvík í Bandaríkjunum. Greinarhöfundinn furðaði, að þar hét annar hvor bóndi Jones en hinn Smith, að kalla mátti, og því fremur, er hann komst að, að upphaflega voru þeir hollenzkir að kyni; en svo stóð á nöfnunum, að endur fyrir löngu, er frumbýlingarnir settust þar að, fluttust þeir yfir hafið með enskum skipum og enskum skipstjórum, en þegar vestur kom, vildu þeir Hollendingar sem fyrst verða amerískir. Til að flýta fyrir því, lögðu þeir niður hollenzku nöfnin, en tóku hver fyrir sig upp ættarnafn þess skipherra, sem hann kom með. Ameríkumaðurinn, sem um þetta ritaði, hældi þessu fólki, sjálfsagt með réttu, en sérstaklega þó fyrir þessa ákefð að verða sem fyrst amerískt. Eitt kvað hann þó undur, um jafn merka menn, þeir hefðu ekki í manna minnum eignazt nokkurn mann, sem á hefði borið utan héraðs, en búið þarna þó undir heila öld. Stefán sagði, að fyrir sitt leyti væri sér auðséð, hvers vegna það fólk ekki hefði eignazt neinn merkan mann, sem gerði sér það svona létt fyrir að umskapast.

Forseti bar nú upp tillöguna; var hún samþykkt, eins og siður er til, og eindregið.

Þá gat formaður þess, að ekki væri inngangseyrir settur á svona samkomur, en samskot gætu menn gert. Til þess buðu sína umgöngu þeir Jóhann Björnsson og Ófeigur Sigurðsson.

Næst bauð forseti öllum þingheimi umræður, kvaddi til þess nokkra menn með nafni, sem svöruðu því ýmislega. Jóhann Björnsson, fyrrum póstafgreiðari á Tindastól, vékst vel undir málið og talaði lengst af héraðsmönnum. Kvaðst til dæmis ungur hafa lofazt Alberta, en í því heitorði hefði hvergi staðið, að hann mætti ekki láta sér annt um móðurjörð sína, Ísland, enda væri það ekki afbrýðisefni, því Alberta ein myndi að mestu leyti erfa ævistarfið sitt. Hér væri íslenzkan býsna föst í sessi, svo að yngra fólkið ritaði hana enn jafn vel inum eldri, en með fegurri hendi. Vitni um það bæru bréf frá dóttur sinni, sem nú byggi í fjarlægð og við enska tungu. Lestrarfélag hér héldi líka við, með 500 til 600 bindum af íslenzkum bókum. Einhvern tíma myndi líka íslenzkan vestan hafs líða undir lok; yrði það okkur tjón en Íslandi tekja, því þá yrðu allar sögurnar okkar þýddar á enska tungu; svo mikið myndi þykja til þeirra koma, að þó málið, sem á þeim er, hyrfi hér, myndi kynslóðin ekki vilja án þeirra vera. Líka flutti Jóhann doktor Guðmundi vísur eftir sig, en ég man þær ekki, svo ég megi með þær fara, né fylgdi ræðu hans sem skyldi; ég var þá að telja „collectuna“ með forsetanum, og að sýsla með peninga er eitt af mínum vandræða verkum. Ég bið Jóhann að fyrirgefa, hafi ég hraflað hjá honum eitthvað öfugt; hann er fréttaritari „Lögbergs“ hér og á létt með að leiðrétta mig.

Undir fundarlok gerði séra Pétur Hjálmsson þá tillögu, að forsetanum, W. H. Paulson, væri þökkuð frammistaðan með atkvæðisgreiðslu. Til þessa risu allir á fætur. En forseti þakkaði fólkinu fyrir góða aðsókn og samskotaféð. Svo var þessu þingi slitið með að syngja „Eldgamla Ísafold“ og „God save the King“, en ungfrú Lára lék lagið.

Um kveldið kom hér einnig Hannes M. Hannesson, lögmaður frá Winnipeg. Hann er nú hermaður, undirforingi, að mig minnir, í norrænu herdeildinni, sem verið er að fylkja upp í Winnipeg, og kom hér í hennar erindum. Hannes er ljúfmenni og vel þokkaður, hvar sem fer, og fer eflaust vel

með slíkt vandræðamál, sem hann hefir nú á höndum. Hann hefir aldrei komið hér áður, en á hér frændlið allmargt, auk þess sem flestir þekkja til hans sem efnismanns. Hversu sem hugir manna og hagir hér kunna að standa til þessarar styrjaldar, mundu sumir hafa óskað, að viðdvöl hans hefði orðið nokkru lengri, en hann dvaldi hér ekki nema hánóttina, því morguninn eftir, inn 23., kvöddu þeir okkur, gestirnir þrír, og héldu saman norður til Edmonton.

Þegar glaðir gestir hverfa, finnst manni í svipinn, að þar sem að þeir dvöldu við, komi maður nú að kofunum tómum.

Markerville, Alta., 31. maí 1916.

## „Heimafáninn“.

### Erindi, 2. ágúst 1916, Markerville, Alberta.

Heiðraða héraðsfólk.

Forseti ræðuhaldanna hefir mælzt til þess af mér, að ég fagnaði með nokkrum orðum fánanum nýja, þessum íslenzka, sem nú blaktir hér við hún, í fyrsta sinn, svona gerður.

Ég færist aldrei undan, ef á mig er skorað, að segja upp allan hug um það, sem mér þykir einhvers vert.

Fáni er þjóðar-þörf, á erlendum almenningi, þeim lýð, sem fer landa milli. Á því almanna-móti er hann heimilistákn þeirra, sem með hann fara. Með honum á að spyrjast, eins fljótt og augað eygir, hverjir gestir undir honum búi og hvar sá, sem gengur einn á erlendum öræfum, megi hitta á sína sveit.

Þessi íslenzki fáni er þó ekki orðinn þetta enn. svo uppi þyki mega halda, jafn fánýt fyrirmunun eins og það er. Eins og Íslendingar áður stundum, siglir hann í konungsbanni, ef hann leitar út fyrir landsteina. Hér má hann þó veifa sér í vinahóp.

Þó er þannig með þjóðfána, að út úr fylgisvip þeirra les hugsandi hugur ekki einungis hvað þeim, sem flíka honum, sé vel gefið, heldur líka nokkuð af hinu, sem þeim kann að vera áfátt í.

Í þá ætt er íslenzka fánanum einnig skotið.

Það verður honum til menningarbrags metið, að hann fer svo prúðlega í fánaþvögu grannþjóðanna, að hann þekkist

varla frá þeim, sem kallast kynstærri og óteljandi hendur hafa til að halda sér uppi.

En hitt ferst samt hjá, að hann sverji sig í sveitina þá, með höfðingjasvipnum þeim, sem sker sig skýrt úr, vekur á sér athygli hvar sem hann fer og verður mönnum minnistæður. Í svona fána hefir Ingveldur allra-systir ofið, en ekki Bergþóra. Krossmörkin í íslenzka fánanum eru hreinni en flestra hinna þjóðanna, sem hafa gert þau að goðgá, meiri en mistilteinn hefir orðið heiðnum sið.

Allar helztu þjóðir heimsins hafa merkt sína fána á undan Íslendingum og valið í þá allt, sem þeim virtist eigulegast, jafnvel sól og mána og stjörnur himins.

Enn eru þó norðurljósin ótekin frá norðurljósalandinu, og friðarboginn, fjölskreyttari en jafnvel þríliti krossinn, prýði lofts, láðs og lagar, eins víða og regn fellur og sól sér. Hann hefir enginn hrifsað af þeirri þjóðinni sem fer um allan heim með friði.

Þó er það síður fáni þessi, fremur er það fólkið, sem að undir honum gengur, sem við fögnum hér í dag, við, sem höllumst upp að öðru merki.

Við treystum því, að enginn óréttur, erlendur né innlendur, þori nokkru sinni að þurrka blett af brandi sínum í íslenzkan fána, af því að hann sjái fyrir, „að undir þeirri blæju muni búi sinn höfuðbani.“

Við vonum, að undir íslenzkum fáni vaxi allra manna velmegun. — Sá mannskapur, sem enga lund hefir til að lítilþægja nokkuð það, sem hver frjáls þjóð á að vera einráð um. — Sú framför, sem í heimsfylkingu sannrar mannkynsmenningar aldrei þarf að bera fána sinn á flótta.

Verði ætíð frjálst og fritt undir fána Íslendinga.

## Gullskórinn.

Edda[1]) sagði ömmu, amma sagði mér. Það var ævintýrið um gullskóinn. Stundum hafði hún það stutt og stundum langt, eftir því hve lengi varð að vaka í rökkrinu, áður kveikt

---

1) „Hjón sátu þar hár af árni, Ái (langafi) ok Edda (langamma). Rígsþula. Sæm. Edda.

var. Munnmæla-sögurnar drýgðu líka ljósmetið. Ég ætla að segja ykkur það sem ég man úr efninu í ævintýrinu um gullskóinn, þó nú gangi mér það eins og gömlum manni að rifja upp barnabænirnar sínar.

Einu sinni var kóngssonur, sem sigldi land úr landi að leita sér unnustu. Mörgum öldum hafði hann eytt í þessa leit, þó var hann alltaf jafn ungur. Enga kóngsdóttur hafði hann þó enn fundið, sem honum væri að hæfi. Það var líka varla von, hann var ekki ennþá viss á, hvernig hún ætti að vera.

Svo var það einn dag, þegar hann var kominn langt, langt úr ríki sínu, að hann fann í skóginum forkunnar fagran kvenskó úr gulli. Nú vissi hann, hvernig drottningarefnið sitt átti að vera. Það var hún, sem þessi skór var mátulegur. Þaðan gekk hann með gullskóinn til kóngshallarinnar og gerði boð fyrir drottninguna, því kóngsdóttirin þar hlaut að hafa týnt skónum. Svo sýndi hann drottningunni, hvað hann hefði fundið og spurði, hvort hún dóttir hennar ætti þetta ekki. Og drottningin sagðist reyndar halda það, telpan hefði týnt þessu nýlega, þegar hún hefði farið ofan í fjöru að gá að, hvort nokkur kóngsson kæmi siglandi. Það mætti ekki minna vera fyrir skilsemina en að hún skryppi nú inn og kæmi svo fram til hans með dóttur sína með skóinn á fætinum, svo kóngssonurinn sæi, að þær væru ekki að eigna sér annarra muni.

Drottningin gekk til dóttur sinnar með skóinn og bauð henni að setja hann upp, en hún kom honum ekki nema á stórutána, hún var svo stórfætt, því þær mæðgur voru tröll, en það er þeirra náttúra, að skessurnar kunna að sýnast kvenna fegurstar á mannamótum, en verða ferleg flögð ef þær halda, að þær séu komnar undan augum mennskra manna. Af því drottningin var tröll, vissi hún það líka, að kóngssonurinn átti einhvern tíma að verða mesti konungurinn í heiminum og hafði heitstrengt að eiga þá konu, sem kæmi upp gullskónum. Svo hjó hún hælinn og allar tærnar af dóttur sinni. Þá marðist skórinn upp á fótstúfinn. Hún leiddi hana fyrir kóngsson, sem þekkti skóinn á fætinum, þó honum virtist undarlegt, að hinn skórinn var ósamkynja og leit út, eins og hann væri úr mannshúð. Kóngssonur sagði drottningunni frá heiti sínu að eiga þá,

sem skórinn væri mátulegur. Bónorðið var auðsótt, hann fékk dóttur drottningarinnar heim með sér, bar hana út á skipið sitt, setti hana í lyftingu og hélt heimleiðis.

Þegar hann hafði siglt skamma stund, flugu tvær lóur ofan af landi, settust á siglurána og fóru að syngja. Honum brá svo við, að hann skildi fuglamál, og að lóurnar voru að kveða þessa vísu:

„Í stafni situr höggvinhæla —
Fullur skór með blóð —
Hér á landi er Mjallveig
Mánadóttir —
Snú þú aftur, kóngsson.“

Kóngssonur vissi varla, hverjum gjörningum hann var beittur. Hann hafði heyrt, að sú náttúra fylgdi tröllkonum, að væri mælispjald dregið yfir herðar þeirra, yrðu þær að steini eða spryngju. Hann átti sér eitt mælispjald, sem rekja mátti sundur norðan frá Dumbshafi suður yfir Himinfjöll. Hann lagði mælispjaldið yfir herðar kóngsdótturinnar, sem átti að vera, og hélt það ætlaði að reynast of stutt, en áður en hann teygði það á enda, var hún orðin að kletti, og gullskórinn grýttist af henni. Hann var fullur með blóð, því hæll og tær höfðu verið höggnar af fætinum, sem hann var á. En kletturinn steyptist fyrir borð.

Kóngssonurinn sneri til lands aftur með gullskóinn. Hann fór um sama skóginn og áður, en lóurnar flögruðu á undan honum í lynginu og kvökuðu:

„Hér á landi er Mjallveig
Mánadóttir —“

þangað til hann kom að laufskálanum, þar sem Mjallveig sat, með gullskó á öðrum fæti. Hinum hafði hún týnt á flóttanum, að fela sig fyrir skessunni, stjúpu sinni, sem hafði tælt hann Mána kóng, föður hennar Mjallveigar, gert sig að drottningunni hans, étið upp fólkið í ríkinu hans, svo enginn vissi, hvað af því varð, og logið því að öllum, að trölltelpan, dóttir sín, væri Mjallveig Mánadóttir.

Kóngssonurinn dró sjálfur fundna skóinn á fót Mjallveigar, þann sem skólaus var. Hann var mátulegri en nokkur giftingarhringur getur verið. Svo fór kóngssonur til hallarinnar

aftur, lagði mælispjaldið yfir herðarnar á drottningunni; við það sprakk hún, en Máni kóngur og allur mannheimur losnaði úr álögum. —

Þetta er allt sem ég lærði úr ævintýrinu, sem amma sagði krökkunum. Litlu stúlkurnar lærðu það samt betur, því þær eiga einhvern tíma að verða ömmur líka. Við drengirnir ruglum því og aflögum, með því að misminna inn í það eitthvað, sem allir vita, að viljað hefir til, og köllum það sennilegri sögu. Því segi ég það. Kóngssonurinn er enn á ferð að leita að drottningarefninu sínu. Hann er áreiðanlega kóngssonur, sonur hans Friðfróða, sem réði fyrir Danmörku, þegar gullhringur, sem einhver hafði týnt, lá óhirtur á alfaragötu í heilan mannsaldur, af því allir, sem fram á hann gengu, vissu, að þeir áttu hann ekki, né þekktu, hver að myndi hafa misst hann; og síðan er Danmörk fræg fyrir að hafa átt bezta kónginn í veldi ævintýranna. Þegar Friðfróði dó, stal sá hringnum, sem fyrstur fór þar um. Síðan hver af öðrum. Sonur Friðfróða kóngs sigldi af landi burt að leita sér unnustu annars staðar. Hann hefir fundið gullskóinn, en ekki þá, sem á hann.

Við Íslendingar vitum, hver hún er — Eykonan, sem aldrei hefir hertekið né verið hertekin.

„Í stafni situr Höggvinhæla —
Fullur skór með blóð —
Hér á landi er Mjallveig
Mánadóttir —
Snúðu aftur, kóngsson.“ [1916]

## Góðar heimtur úr helju.

Þið, Englandsfararnir afturkomnu, sveitar-piltarnir héðan, íslenzkir að ætt, þið, sem boðnir voruð í bardagann „ósjötlaða“ enn, þið sem eruð hér nú heilir á húfi og herskylduleystir — mér hefir boðizt að mæla nokkur orð til ykkar í kveld, að segja ykkur *velkomna* — og það geri ég. Þó það verði fáort og fagurmælalaust, sem ég segi, er ég ykkur engu ófegnari en aðrir.

Hitt er mér gáta, hvað til þess kom, að kvenfélagið hérna, sem hefir alla frammistöðu fyrir þessu boði, skyldi mælast

til mín um þetta. Þó man ég það, að foreldri okkar in fyrri trúðu því, að Freyja ætti val hálfan á móts við Valföður, eða Alföður. Og hún hefir orðið að taka það sem til féllst. Einnig veit ég, að þið, húsfreyjurnar og mæðurnar hérna, eigið nú fögnuð hálfan, eða meira, móts við bændur ykkar, þann fögnuð, að synir ykkar eru sloppnir heilu og höldnu heim til ykkar, og viljið því tjalda öllu sem til er af ánægjuorðum yfir því héraðshappi, hvaðan sem þau orð koma.

Drengir góðir. — Ég veit, að þið munuð þola mér það, að ég ávarpa yður sem feginsgesti, en ekki sem afreksmenn. Þið komuzt fæstir á vígvöll — sé annars nokkur frægð í því falin. Halli skáld sagði, að sér förlaði þá fyrst ljóðagerðin, þegar hann væri ekki við yrkisefni staddur. Eins fór ykkur, þó það yrði á annan hátt. Ef til vill hafa einhverjir, sem heima sátu, klifið eins bratta örðugleika eins og þið, til dæmis foreldrar ykkar, við aukið erfiði, óttann um ykkur og söknuð sinn.

Drengir. — Íslendingadaginn okkar í fyrra, 17. júní, voru sumir ykkar viðstaddir, eins og venja ykkar var — allir, sem leyfi fengu til. Þið höfðuð þá verið heimtaðir í herbúðirnar fyrir nokkru, og það gat orðið síðasti Íslendingadagurinn sumra okkar saman, eins og allt leit þá út. Þið hurfuð ekki í herinn, fyrr en landstjórnin ákvað, að ykkar væri þörf, en brugðuð þá við umsvifalaust. Í mínum augum er það ykkur ámælislaust, að þið, sem hér höfðuð alizt upp, sem höfðuð tekið tryggð æskunnar við sveit sína svo fasta, að fæsta ykkar mun hafa langað héðan að langdvölum — að þið, sem höfðuð barizt gegnum örðugleika og fátækt landnámsins við hlið foreldra ykkar, sem nú voru aldurhnigin og útslitin, þangað til heimilishagir voru nú loksins að verða ögn greiðari, — að þið voruð ekki óðfúsari út í alla óvissuna: Ég virði ykkur það fremur til dyggðar en vorkunnar.

En, á Íslendingadags-skránni 1918 stóð ekkert ávarp til ykkar. Ekki sökum þess, að þið hefðuð gleymzt, heldur vegna þeirrar eðlilegu sérhlífni, sem varnar okkur flestum að gerast sjálfboði til að ræða um það, sem okkur fellur þungt að tala um. Svo vissi enginn, hvort ykkar væri von. En, til að rjúfa þá þögn, kom einhver að lokum fram og kvaddi sér hljóðs. Ekki veit ég, hvort nokkur ykkar tók eftir því, enda var kveðjan augnabliks úrræði og öll í molum. En eitt man

ég úr henni. Sá sem hana flutti, endaði orð sín á því að hafa upp þúsund ára gamla ævintýrið íslenzka, um piltinn, sem gekk út um nótt til að bjóða gestum inn úr illviðri, sem hann hélt, að komnir væru. Þegar út kom, sá hann níu konur svartklæddar ríða norðan að bæ, og níu konur hvítklæddar sunnan að. Nornir næturinnar, valkyrjurnar dökkklæddu, náðu til hans fyrr og veittu honum banasár. Hvítklæddu konurnar, árdísir afftureldingarinnar, urðu seinni til vettvangs og sátu uppi svo búnar. Sá gesturinn á heimilinu, sem elztur var og vitrastur, þýddi þennan fyrirburð svo, að svörtu konurnar myndu vera fylgjur ills átrúnaðar, sem nú ætti þó skammt eftir. Hvítklæddu konurnar myndu vera boðberar betra siðs, og hefðu viljað bjarga sveininum. Þær myndu vinna skeiðið von bráðara, þó nú hefðu þær orðið of seinar. Ég man, að ræðumaðurinn sagði að síðustu, að sú myndi vera innilegust ósk til ykkar, frá sveitinni og sér, að í þetta skipti yrðu heilladísir Íslands, hvítklæddu konurnar, fylgjur friðarins, fyrri til bragðs; að sættir mættu takast svo snemma, að aldrei þyrftuð þið á vígvöll að koma. Og þjóðsagan okkar, um drenginn „sem að dísir vógu", er eins góð og hún er gömul til. Hún er fegursti útfararsálmur í heimi. Þar er heiðnin að syngja sjálfa sig til moldar. Það er eins og spár hans rætist, hvar sem með hann er farið. Á Íslandi rættust þær fyrir öldum síðan. Á ykkur í fyrra.

Heimboðið hér í kveld er mér að minnsta kosti bezta hófið, sem staðið hefir hér í byggð, einmitt vegna þess, að „dísirnar vógu" engan af íslenzku drengjunum hennar. Ég man enn, hve heimadapurt mér fannst héraðið okkar morguninn eftir að þið, drengir, höfðuð verið heimtaðir í herinn, þó ekki kvæði ég upp úr um það neitt þagnar-rof né ætti neinn venzlamann í þeim hóp né óttaðist um, að til þess kynni að draga. Ég veit ekki, hvort ég hefði orðið neitt þungbrýnni, þó svo hefði verið. Líklega er það svartsýni, þegar maður sleppur vel sjálfur, að láta sér hvarfla í hug, hvers maður eigi eiginlega að njóta í, í að komast sjálfur hjá gæfuraun granna sinna.

Það þótti drengskapur í fornum sið að heimta bætur fyrir félaga sína, sem féllu í bardögum, og að launa vel gjöf lífs og lima. Þó þið, drengir, kæmuzt þetta klakklaust af, hafa ekki allir sömu heill að hrósa. Samsveitungar okkar, ef til vill

einhverjir drengirnir, sem gengu með ykkur í barnaskólann fyrrum, liggja enn óbættir austur í Flæmingjalandi, eða fjær. Þá fyrst yrði þeirra hefnt að maklegleikum, ef fyrir það yrði tekið, að annað eins stigi yfir ykkar niðja, þegar þið sjálfir eruð orðnir forfeður. Leitizt við þær hefndir, hvar sem færi fæst. Flestar félagsbætur eiga upptök sín hjá alþýðumönnum, þær renna fæstar ofan að, frá yfirvöldum, sem varla er von; þau eru aðeins geymslugarðar af gömlum landslögum, og allur vorgróður byrjar á völlunum fyrr en á fjöllunum. Kristindómurinn kennir sig enn þann dag í dag við mann, sem fæddist í fjárhúsi og átti hvergi höfði sínu að að halla, að sjálfs hans sögn, sá rétti kristindómur, og sá rangi reynir að dulklæða sig með nafninu hans.

Að vísu stendur nú vetur hér yfir allt utanhúss. En, úr því ég minnist á vorkomu, ætla ég að hafa yfir íslenzk rímnaerindi, sem einhver kvað sér til gamans einu sinni í einmánuði. Þau eru svona:

Ís að leysa. Í leitir rólar
Lækja-veisa að ós.
Berum keisum bleikir hólar
Blasa úr hreysum snjós.

Flóa-lygnan víkkar víddir
Vatnsuppstigningar.
Snjóar svigna í herðum, hýddir
Hryðju rigningar.

Áin gýs, úr stíflu-stillu
Straumföll rísa keik.
Brota-ís í flota-fyllu
Fremur hnísu-leik.

Regn í sveit, en fjúk til fjalla,
Flíra og steytingar.
Vors umleitun yfir alla
Átt, til breytingar.

Lík leysing er nú að brjótast fram í hugum alþýðu, um heim allan — hér í Kanada líka. Hún er hvort tveggja í senn, hlý og rosaleg. Mér finnst það lán að vera enn lifandi, til að vera

vottur að henni, þó ég endist ekki yfir umhleypingana. En þið, drengir, verið velkomnir heim í foreldahúsin — heim í héraðið okkar — heim til Kanada — heim til lands vorsumleitananna. [1919]

## Kjartan prófastur Helgason.

Kjartan prófastur Helgason er nú kominn og farinn frá okkur Íslendingum, sem búum hér á þeirri Efribyggð Útnorðurlandsins, sem kallast Alberta. Séra Kjartan flutti fyrirlestur sinn að Markerville að kveldi ins 19. þ. m., eins og auglýst var. Vel höfðu Wynyard-landar hans við hann gert; þeir höfðu lagt honum til góðan fylgdarmann alla leið hingað vestur, Sigurjón Eiríksson, sem vera mun volkinu vanur, er greindur maður og glaðvær, kann góða íslenzku enn og getur rætt um fleira við förunaut sinn en um það, hvar þeir hafi verið staddir klukkan svo og svo margt, í gær eða fyrradag, þó að það fyrir sig þyki líka gáfulegt að geta sýnzt að muna svona utan að „skipsbókina“ eða „tímatöfluna“. Þú heldur ef til vill, að nú sé ég að skjalla ókunnugan mann, með að geta hans svona til góðs, en það er síður en svo. Sigurjóni er ekki fyrir þetta þakkandi. Hann mun vera fæddur og að einhverju leyti alinn upp í Skagafirði, en eflaust eru þeir margir til, landarnir okkar vestan hafs, sem það lán hefir ekki léð verið, en standa Sigurjóni samt á sporði í að reynast fýsilegir fylgdarmenn.

Hitt var það heldur: Ég gat ekki látið ógetið um þessa hugulsemi Wynyard-búa við séra Kjartan, að leggja honum til fylgdarmann, ekki sökum þess, að ég vantreysti því, að hann komist leiðar sinnar klakklaust, hvar í landi sem er, né að hann kinoki sér við því, en slíkt ferðalag getur orðið einum nokkuð einmanalegt, í fyrsta sinn og í ókunnugu landi, og séra Kjartan mun hafa stundað heimahagann sinn alla ævi og aldrei áður stigið fæti út fyrir landsteina Íslands. Ég veit, að hann hefir, sér og landi sínu til sóma, tekið á móti erlendum gestum heima í Hruna og rætt við þá á þeirra tungu ýmis umhugsunarefni menntamanna, en það er sök sér, og annað en að bulla sig áfram um brautirnar hérna, slíkt langræði sem oft er milli íslenzku byggðanna.

Þjóðræknisdeildin hér sá um samkomuna að fyrirlestri séra Kjartans að Markerville. Forstöðumenn hennar, Ófeigur Sigurðsson, Jóhann Björnsson og Jónas Húnfjörð gengust fyrir þeim viðbúnaði, sem varð. Sjaldan gengur allt að óskum og eins fór nú. Sökum undangenginnar ótíðar voru vegir vondir og náttmyrkvir, og ýmis heimili önnum kafin. Þresking stóð enn yfir á fjórum eða fimm bæjum Íslendinga hér, svo fámennara varð en annars hefði orðið. Íslenzku myndirnar, sem séra Kjartan hafði með sér, urðu ekki sýndar. Töfralampann, sem til þess þarf, átti enginn hér. Leitað var þó fyrir sér með það svo sem unnt var á svo skömmum tíma. Leikhúsið í næsta þorpi hefði léð sinn, en þurfti sjálft á honum að halda sama kveldið. Bóndi, sem átti slíkt tæki, en bjó langt úti í sveit, gat ekki hlaupið að heiman með það, með svo stuttan fyrirvara. Ég get um þetta, ef öðrum sveitum, sem séra Kjartan á enn ófarið um, kynni að vera gagn að því, til að vera betur viðbúnar. Sennilega varð það sumum yndismissir að verða af því að fá að sjá myndirnar. Unga fólkið, sem aldrei hefir neitt af Íslandi séð, ræki þar ef til vill augun í eitthvað eftirtektarvert, og eldri mönnum rifjuðust upp æskustöðvar, þó ekki yrði það nema svipur hjá sjón, af því ekki er unnt að sýna blæbrigði loft og láðs, þessi hamaskipti ljóss og lita, sem hvergi eru til á jörðu, hafi né himni, eins og úti á Íslandi.

Annars varð það að ráðagerð deildarformanna að freista þess að fá séra Kjartan hingað aftur. Kæmist hann vestur á Kyrrahafsströnd, myndi vegur hans liggja hér svo nærri, aðra hvora leiðina, að litlu mætti muna um krókinn hingað, en kannske þá geta betur tekizt með myndirnar.

Deildarforseti, Ófeigur bóndi Sigurðsson setti samkomuna. Séra Pétur Hjálmsson heilsaði fyrirlesaranum með virðulegri og gagnorðri ræðu. Í fundarlok greiddu allir viðstaddir séra Kjartani einróma þökk sína og báðu hann að flytja félaginu „Íslendingur", Alþingi og íslenzku þjóðinni heima, kveðju sína og kæra þökk fyrir komu hans hingað. — Svo var fundi slitið, að hallandi miðnætti.

Ég myndi ekki reyna að stuttyrða fyrirlestur séra Kjartans, þó ég orkaði því, sem ekki er. Það bryti bág við þá kreddu mína, að tvísýnt mun um það, hvort ekki sé með því bjarnargreiði gerður þeim, sem víða verður að flytja sama erindi,

fyrr en hann hafi því öllu aflokið. Það fylgir þeim lögum, að „sjaldan lætur sá betur, sem eftir hermir“.

Hitt get ég hér sagt, að þó ég þekkti séra Kjartan lítið sem ekkert, vissi ég, að hann var af öllum, sem honum voru kunnugir og bærir um að dæma, og hvar í flokki sem þeir stóðu, talinn að vera einn þeirra manna, sem Þorsteinn Erlingsson kveður svo um, að ættjörð sín hafi borið:

„Til að elska líf og ljóð,
Ljósið, frelsið, vorið.“

Mér kom því ekki á óvart, að það kæmi fram í fyrirlestri hans. Mér fannst list á því, hvernig hann fór með forna þjóðsögu, sem nú er orðið örðugt að segja svo vel sé, af því frásagnarháttur okkar hefir breytzt þar mjög svo, síðan hún var samin. Séra Kjartani brást þó hvergi sú bogalist að hreinsa sorann úr málminum, með mynd og yfirskrift keisarans — sem sé: sannleikans — svo nú er sú saga orðin eitt af okkar helgu ritum. Þá kom manni kunnuglega við kaflinn um íslenzku mæðurnar. Þó er ekki því að leyna, fyrirlesarinn setti mig líka í leiðan bobba, milli réttlætinga minna og samvizkunnar, þegar hann innti mig eftir því, hvort ég teldi mig líklegan til að benda börnunum mínum á ið betra í brezkum bókmenntum, ef ég fyndi ekkert íhaldsvert í þeim íslenzku.

Dæmisaga datt mér þarna í hug af hendingu. Í þetta sinni er hún ensk. Í svipinn man ég enga íslenzka, sem um sama efni fjallar. Ég á við „ævintýrið um manninn, sem ekki gat gefið í burtu gullpeningana.“ Einhver af eldra fólkinu hefir kannske ekki heyrt það. En ekki er hætt við, að ungmennin okkar, sem alast upp við það bezta í enskum anda, kunni þetta ekki, eða öllu heldur annað enn betra; svo oft hefir það nú sagt verið og með ýmsum atvikum. Ein munnmælin segja sögu þessa hér um bil svo; — Fyrir langa löngu síðan sátu þeir saman í Lundúnaborg bræðurnir, Bjartsýnn og Bölsýnn. Þeir fóru að þræta um alþýðuvitið. Bjartsýnn hélt því fram, að allar umbætur á hag og huga ættu upptök sín hjá múgamönnum; sagði að gullið skini fyrst úr skarninu. „Þar er nú líka helzt frá að segja“, svaraði Bölsýnn, „þessum ráðleysingjum, sem ekkert girnast fremur en gull til að gefa fyrir hégóma, en þekkja þó ekki gull frá eir, ef á er reynt.“ Viðræðunum lauk svo, að þeir veðjuðu um það. Næsta morgun

og þann dag allan stóð maður við Lundúnabrú, þar sem fjölfarnast var, með fullan skutul af glóandi gullpeningum af dýrustu mynt og hrópaði í sífellu: „Komið hér, kaupið hér, hundrað í gulli fyrir einn eirskilding, tvö þúsund aura fyrir einn eyri, og svo marga sem hver vill!“ Ranglandi mannraðirnar stöldruðu stundum við og heimskuðu hann eða hæddu, og svo búinn gekk hann frá um kveldið; enginn hafði haft glöggleik til að sjá, að gullið hans var gull, né losað hann við einn pening. Og dómarinn dæmdi Bölsýn veðféð. — Ég veit varla, hvort ég hefði úrskurðað eins. Á sama almannafærinu sem Bölsýnn valdi sér, höfðu trúðar og töframenn staðið alla daga, á vegi Lundúnalýðsins, og boðið honum mas og missýningar, aðeins ögn dýrkeyptara, og allir látið einhvern tíma ginnast. Þar hafði enginn Máni skáld komið og kveðið, eins og Íslendingurinn, sem hæddi loddarana frá hirðinni fyrir Magnús konung Eiríksson. Það var því öll von til, að einfeldnin ályktaði athugunarlaust, að það myndi argasta ónýtið, sem ódýrast var boðið.

En — ég er að hugsa um, hverja sögu séra Kjartan hafi að segja, þegar hann hverfur heim af Lundúnabrú okkar Vestur-Íslendinga. [1919]

## Jökulgöngur.

Svo er frá sagt, að Ibsen hafi kveðizt myndi hafa kastað sprengikúlu undir örkina, ef hann hefði uppi verið, þegar Nói og hans lið á að hafa fleytzt lifandi úr flóðinu. Með því móti myndi „á hafa orðið að ósi stemmd“ — það er að segja: Mannkynið úr sögunni, með [því] að þurrka út upprunann, þessa einu kynkvísl, sem enn tók land.

Gremju-djarfmælum göfugra manna svipar alloft saman, þó fjarlægðir, tungumál og tímar sé fjörður milli frænda, sem engin orð bárust yfir. Við Íslendingar gætum teygzt til að hálf-trúa því, að Ibsen hlyti að bergmála Bjarna okkar Thorarensen, sem heimtaði af ættjörð sinni að sökkva í sæ aftur, gæti hún ekki varið börn sín fyrir útlendri vesöld og ódyggð. Listdómarar hafa borið Ibsen á brýn, á hans eigin máli, að hann leiddi mann: *„Paa Gletscherne“*, sem líklega þýðir það, að hann gangi með mann á jökla, svo kaldranalegt sé útsýnið, sem hann yrkir yfir. Við getum sagt með sama rétti, að Bjarni



Stephan G. Stephansson.

*Myndin er tekin á Íslendingadegi í Wynyard og sýnir skáldið í ræðustólnum.*

sé reiðubúinn til að bylta okkur fyrir borð, í botnlausan sjó. Þetta var svo hastarlega sagt, að við hrukkum saman, og rann svo í skap. Þegar við náum okkur aftur, finnum við vel, að þetta voru aðeins blöskrunarorð góðviljans til mannanna, svo að þeir fyrirfari sér ekki — djarftefli í skákinni við dauðann, þegar það, sem manni er kært, hefir lagt aleigu sína undir og teflir um höfuð sitt. Við vitum, að sömu mennirnir, sem svona segja, myndu ef til kæmi fara að eins og Abraham í hebresku sögunni, biðja guð sinn að vægja þessu kyni og þessari þjóð, ef til væru þar 50 réttlátir menn, og smálækka tölu þeirra ofan í einn tug, svo einskis væri ófreistað til að bjarga jafnvel borg, sem ekki hefði öðrum dyggðum til að tjalda en gestrisni í einu einasta húsi.

— — —

Eitt sinn var ég staddur við sveitarsýning, hérna vestan hafs. Þangað kom múgur og margmenni af vænu og velbúnu fólki. Það ætlaði að skemmta sér við eintóm búmannsþing — furðulega feit svín, og uxa af aðalsnauta ættum. Ýmsir urðu um síðir þreyttir á því og tóku upp á, sér til afþreyingar, að gerast ginningarfífl tjaldbúða-trúðanna og gjalda þeim fé fyrir að villa sér sýn. Allt varð að auglýsing, en lítið að unaði. Að vísu er þetta ein tegund af ættjarðarrækt, en ein sér og á jökulgöngu. Mér varð það minnistætt, sökum orðanna, sem einhver svaraði mér þarna. Ég hafði sagt eitthvert hrósyrði um manninn, sem mesta virðinguna hlaut, tók við flestum verðlaununum og varð eins konar „konungur dýranna“ í kvíunum. „Ojæa“, laumaði einhver náungi að mér, sem nálægt mér stóð, „en ég veit varla, hvað segja skal, þegar sjálfur fósturfaðirinn er verst ræktaða skepnan í hjörðinni“. Þessu hefi ég aldrei getað gleymt. Hvort sem það var sagt af kerskni, öfund eða glöggsýni, hitti það naglann á höfuðið, svo vel vissi ég um allt atgervi bóndans, sem heiðurinn hlotnaðist. En þessi mannfundur var ekki til annars settur. Hér var saman komin öll sveitar-áhyggjan.

— — —

Ljósmyndarar kváðu hafa leikið sér að því að taka mynd af margra manna andlitum, hverja ofan á aðra, og ætlazt á, að þau einkenni, sem sameiginlegust væru og sterkust, settu svipinn á síðustu myndina. Sömu aðferð hafa skáldin notað frá alda

öðli til að draga upp sálir mannanna í sögum sínum og kvæðum. Ástæðurnar og ævikjörin gera eins við okkur. Jafnaldri minn og ég, báðir unglingar þá, urðum samferða til Ameríku. Svo fórum við sína leiðina hvor. Fjörtíu ár voru liðin, áður en mín leið lá um hérað hans. Ég hitti hann heima hjá sér, ríkisbónda, en úttaugaðan öldung, og eigulausan af annarri ánægju en efnum sínum. Börn hans voru flúin til borgar. Sveit hans var fögur og búsæl, sjálfur var hann sanngjarn og listhreifur að eðlisfari og vildi vel, en öll hans æska hafði yfirgefið hann fyrir langa-löngu. Hann átti framar engar þrár utan vallargarðs sinna eigin jarða, nema ef vera kunni verðlaun fyrir vöxtulegast búsílag á sveitar-sýning. Í huga mínum bar ég unglinginn saman við öldunginn, og svo fjárhamingjusnauður sem ég var í samanburði við hann, hefði ég ekki kosið kjaraskipti, jafnvel þó mér hefði boðizt sannvirði alls hans auðs í milligjöf. Ég næstum las mér lof Faríseans: „Ég þakka þér, guð, að ég er ekki sem þessi tollheimtumaður!“ Sá sálmur er ekki ætíð jafn óguðlegur. Það breytir honum, hvort með hann er farið af sjálfbyrgingsskap eða meðaumkun. Ég sá, að þessi síðasta mynd af þessum forna leikbróður mínum var marg-ofaníkrassað vélaverk ljósmyndarans, sem heitir landsháttur og hittir oft ekki hugfelldara efni í hátíðaræðu en hagskýrslur, sem getur talið þann löst verstan á ráði frumbýlinga sinna fyrstu, sem brutust til landa tómhentir út í eyðimörk, að þeir keyptu sér ekki í öndverðu bústofn af kynbótakúm. „Jeg har selv hört med til Laget,“ kvað Eiríkur gamli Bögh í spaugi um annað efni. Ég hefi sjálfur verið viðstaddur! Þó hefi ég ekkert horn í síðu nytsemdarinnar, sé hún ekki andlegt einæti; tel ekki ómaksverða illdeilu við nokkurn mann, þó hann héldi því fram, að fjórða bænin ætti að standa fremst í „Faðirvori“, svo fastlega sem ég trúi hinu, að maður lifi ekki af einu saman brauði, til að ná fullum þroska.

— — —

Ég hefi aldrei jöklana klifið, ég er ekki brattgengur. En komið hefi ég af öræfum ofan í íslenzka sveit og átti svo góðar ferðafylgjur, að þær sóttu að héraðsbúum með hátíðahug. — Þarna frammi í grjóta-götunni, morgun-megin í hlíðinni, þar sem þau stingast í stúfa, byggð og brunahraun, kemur upp lausríðandi lest, hálft hundrað karla og kvenna, líklega á leið

til einhvers mannamóts. Ég er Vestmaður og hugsa allt á verzlunarveg og gríp til minninga úr fornu fari; kemur því helzt í hug, að héraðið sé komið á hestbak áleiðis í kaupstaðinn, en gleymi hinu, að kaupstaðir standa við sjó, en ekki uppi á öræfum. Þessi þyrping stígur af baki og bíður. Ég ríð fram í flokkinn, niður í skarðbrúnina, þangað sem víðfeðmi vatns og sveitar breiðist út á báðar hendur. Þar rís getspeki mín loks á réttan kjöl. Þetta er ekki kaupstaðarfólk — það er íslenzk gestrisni að fagna komu ferðamannanna! Þó eru heyannir að hefjast, uppskerutími íslenzka bóndans, örstuttur og veltandi á veðrinu, en sem allflestar ársbjargir héraðsbúa hvíla á. Þennan dag er gott vinnuveður, að hálfu eytt í gestrisni! Vestrænni aðsjálni finnst það nærri skylduverk að fjúka upp og mótmæla, ef það héldi ekki aftur, að hún stendur augliti til auglitis við lífsgleðina, sveitar-alúðina, héraðs-fegurðina. Ekki er að vita, nema það sé einmitt þetta skemmtilega, áhyggjulausa örlæti með góðviðrisstundirnar stundum, sem veitir þessum vinnulýð þrek og þol til að leggja saman nærri nótt og dag við örðugt erfiði, ef á þarf að halda. Svo gengur maður varla grunlaus um það, að íslenzk gestrisni tæki sér nærri, ef gestur hennar gæti um, að hún tæki sér of mikið í mein sín vegna; hún finnur ekki til þess fyrir unaði þeim, sem hún sjálf hefir af sinni eigin alúð.

— — —

Af skarðsbrúninni opnast sveitarsýning niður í sólskinsmóðu sumarsins. Inni í tíbránni bregður fyrir ýmsum hillingum utan úr fortíð og út í framtíð, eins og hálfkveðinni vísu, hér og þar. Sveitin eins og úthöggvið ker, dvergasmíð í landslags-list Frosta og Funa. Vatnið á botni þess, stafað eyjum og ósum. Baugurinn kringum það, smeltur iðgrænum engjum og túnum, bæjum og byggð. Barmarnir uppi, skornir úr hnjúkum og hrauni. Það er sem hér hefði rekið konungsgjöf einhvers Einars Skálaglamms úr liði landvætta, þegar Ísland var yrkisefni þeirra — eða að hér sé bikar Boðnar, sem mannafaðir geymir „mjöðinn góða“ í — hálftæmt stundum af hallærum og harðindum, svo tvísýnt var, hvers hlutur kæmi upp, lífs eða landauðnar, eða nærri brotinn saman í helgreipum landskjálfta og hraunflóða.

— — —

Einhvers staðar í byggðar-hringnum þarna er bærinn Neslönd, þó ókunnugt auga rati ekki þangað í rétta átt, né hugurinn, gegnum tíbrá tveggja alda. Hann er heldur ekki höfuðból, og ber líklega lágt. En, á sömu öldinni sem Shakespeare hefir lokið við Hamlet, á þar heima íslenzkur bóndi, Illhugi Helgason, og hefir sér það að dægradvöl að kveða rímur út af sömu sögunni, sem Shakespeare gróf upp gullið í leikrit sitt: Amlóða-sögu. Báðir fundu þeir, að það var lýsigull í þessum leir, en ávöxtunar-aðstæður þeirra gerðu gæfumuninn, íslenzki hagyrðingurinn gekk þar ekki jafn heill til skógar eins og enski snillingurinn, hann átti ekkert leiklistafólk né hugskyggna áhorfendur að bakhjarli, þó jafnvel Shakespeare hafi stundum orðið líka að taka niður fyrir sig, til að þóknast þeim. Illhugi kvað fyrir þann aldaranda, sem leit á mannlífið líkt og Hamlet hjá Shakespeare, þar sem Hamlet slítur tryggðum við unnustu sína Ophelíu með þessum orðum: „— — — komdu þér í klaustur! Kýstu að hlaða á heiminn synda-börnum?“. Allt lífið er ein óhjákvæmileg stórsynd, eina vonin dauðinn og dómsdagur. Illhugi átti öðrum fremur úr flokki að tala. Sjálfur hafði hann erft ótilunna ættarfylgju, Mývatns-Skottu, eða *Illhuga*-Skottu. Hann gekk með kvilla sumra manna, sem vita það, að andarnir hafa mikil mök við sig; hann var taugasýktur, geðveikur. Jónas Hallgrímsson hefði sagt hann „fylla breiða byggð með aumlegt þvaður,“ en hvað um gildir, Illhugi, og íslenzk alþýða þá, kvað af sér geðveikina hálfa með rímum, eins og kraftaskáldin holdsveikina með sálmum sínum. Illhugi var ekki Shakespeare, en hann var Hamlet sinnar sveitar og tíma, hugur hans fetaði jökulinn á þúfunum, þó hann gengi ekki glerunginn á fjöllunum. En því kemur mér hann í hug, að af þessari skarðsbrún finnst mér ég vera í „ætt við það allt“, sveit og öræfi, blítt og strítt, „lifandi menn og leidda haugum“, jafnvel hraunkarlana, sem breyta svip eftir veðurbrigðum, sem standa eins og vofur, gengnar á glapstigu, úti í næturauðninni, en hilla upp í morgunroðann, sem „skógar hugmynda“ séu að skapast, búandi yfir tærustu lindum, sem til eru á jörð, niðri í bergbrunnum sínum, með nýgræðingshríslur í hundrað hol-lófum. Þó kvað Illhugi ekki fallegustu vísuna í öllum okkar Ambales-rímum — því fleiri fengust við þær en hann. Til þess varð annar, og á undan honum, og í mansöng. Sjálfur Shakespeare sló ekki betur á sama streng:

„Minn þó komist hugurinn heim
Að hreyfa mærðar-formi,
Ferst mér eins og fugli þeim,
Sem flýgur á móti stormi.“

Þarna er saga íslenzkrar þjóðar í tveimur línum. Hún hefir, í meira en þúsund ár „flogið móti stormi“, en sífellt syngjandi og kveðandi, og fyrir það hefir hún „komizt heim“.

— — —

Syngjandi og kveðandi býður hún þarna við dyrastaf sveitarinnar sinnar, íslenzka æskan, ung og gömul, úti í sumaránægju heimahagans. Sálmurinn, sem hún syngur, byrjar svona:

„Blessuð sértu, sveitin mín,
Sumar, vetur, ár og daga!
Engið, fjöllin, áin þín
— Yndislega sveitin mín! —
Heilla mig, og heim til sín
Huga minn úr fjarlægð draga.“

Höfundur sálmsins er einn í hópnum, hann, sem náði traustu taki á þessari tilfinning allra þessara sveitar-barna, sem var unun þeirra, en ómálga, unz hann lagði þeim hana í munn með ljóðstöfum.

— — —

En sést nokkuð út fyrir sveitar-fjöllin úr þessu skarði þarna? myndi einhver spyrja. Sittu uppi eina nótt á einhverjum góðum bóndabæ í þessari strjálbyggð, sem þér sýnist sitja hér úti í afskekkju veraldar, og þú verður þess var, að þetta alþýðufólk getur orðið andvaka yfir spurnum sjálfs sín út í þá heima og geima, þess sem helzt er rætt og ritað um í hóp þeirra, sem taldir eru spekingar og spámenn fjölmennra þjóða. Sýnist nokkrum, að svona léttúð skorti hæfileikann til að hugsa fram á veginn, stingdu[1]) þá í vasa þinn, þegar þú kveður, tímariti, sem stofnað er af alþýðumönnum innan þessa héraðs; taktu það svo upp á tómstund og lestu eitthvað í því, ef þú orkar við það, og hugleiddu, hversu stórt sveitar-svæði við þyrftum að hafa hér vestra til að tína saman búandi karla, sem stæðu jafn vel að líku verki. En, slíkt er þó enginn kyn-

1) Hdr.: stýktu

bóta-búskapur! myndu sumir svara. Getur verið — en það gerir kannske góðan búþegn, og ef til vill eru mennirnir mætasta kvikféð, í hverju landi sem er, og þrátt fyrir svona frátafir, hefir þetta hérað komizt yfir að ala sér upp sauðfjárkyn, Baldursheims-féð, sem væri eins víðfrægt og „Merino", að minnsta kosti, ef hagar þess næðu yfir tvær heimsálfur. Eitt er víst, svona leiðarmót er ekki lagsnauðasti leikurinn í landvörn sveitanna. Þetta fólk verður seint þorparalýður, það hefir sungið sig saman við sveitina sína.

— — —

Alls staðar gengur sama sagan: Borgir eyða byggðum, hér í landi líka, unz þær lenda með iðnaðarþjóðirnar á alheimshreppinn, og þar er búizt um á sama hátt eins og Svaði gerði í hallærinu forðum, öreigunum hrundið fyrir ætternisstapa styrjaldanna, svo enn verði þeim lengra lífs auðið á afskiptunum, molunum hjá þeim, sem öflugastir eru. Synir og dætur sveitanna flytja sig inn í iðnaðarborgirnar, niðjar þeirra flestir sökkva þar ofan í sorpið með tímanum. Erum við Kanada-Íslendingar ekki til þess ættkjörnir að fresta þeim forlögum sem mest við megnum, syngja okkur saman við sveitirnar okkar? Kanada sjálf á engan þjóðsöng enn, sem leiftrar svo af landshelgi, að birti yfir búskapnum — eins fagurt og það er þó og framdreymið. Hér eru engir söngvar til enn í alþýðumunni, sem lyfta vængjum hugsananna yfir sléttan leirinn, engir ómar, sem ekki er násir af mörhljóði umsýslu og ábata.

— — —

Séð hefi ég kafla úr erindi eftir skáldgoða Noregs, Björnson, þar sem hann ágætir Norðmenn, sem eftir sátu, en flýðu ekki land sitt forðum upp úr Hafursfjarðarorustu eins og Íslendingarnir, því þeir hafi ekki svikizt úr leik að gera garðinn frægan. Farfýsi og metnaður okkar Íslendinga væri þar að vísu búin til mótmæla. En ef þú kemur einhvern tíma, erlendur og ókunnugur orðinn, í syngjandi sveit fornra ættstöðva, myndu tilfinningar þínar finna bót í máli Björnsons; þær höggva þá svo nærri sjálfum þér, að þér yrði unnt að afsaka, ef ekki réttlæta, þá þjóðrækni, sem lítur á landflóttamanninn næstum eins og trúníðing. Að sönnu hefðu Norðmenn glatað öllu því, sem þeir glötuðu, þó Íslendingar, þeir fáu, sem út

fluttu, hefðu allir setið kyrrir, og tvísýnt, að sá Björnson og nýi Noregur, sem síðar rann upp, hefði til orðið, hefði enginn Snorri komið fram né Ísland byggzt.

— — —

Hversu langir sem vetrar verða, kemur þó ætíð sá dagur, að sumarið syngur: Blessuð sértu, sveitin mín, yfir öllum löndum, sunnan frá miðjarðarbaug, norður fyrir Greipur Grænlands. Vorhugur íslenzkrar tungu og íslenzkra ljóða á sér enn dag, til að verða jafn lang-kvæður. [1920]

## Jólasveinar og jólameyjar.

Jólasveinar og jólameyjar hétu þeir hjá okkur krökkunum heima á Íslandi gestirnir, sem að garði bar yfir jólaföstuna. Við rituðum nöfn þeirra á smámiða, og drógum þá blindandi á aðfangadaginn, strákarnir stúlknanöfnin en stelpurnar piltaheitin. Það var okkur ýmist til ertni eða ánægju. Sum nöfnin þóttu engir happadrættir. Af því gátu líka leitt löng mál og lagaflækjur eins og verður hjá fullorðna fólkinu í alvöruefnum, einkum ef sá grunur féll á, að niður hefði verið ritað nafn einhvers, sem ekki hefði komið inn og „þegið gott“, því ákvæði var til um, að þess þyrfti við til að vera gengur í slíkan gestarétt. En einu gilti um það, alltaf vorum við fús að freista hamingjunnar í svo tvísýnni hlutaveltu. Þær jóladísir eru nú löngu liðnar hjá og engar fengnar í þeirra stað, nema ef vera kynni ný bók, endur og eins.

Nú ætla ég að fara nokkrum orðum um næstliðinna jóla bók, en ekki til „dóms og reikningsskapar“, til þess er ég ófær. Bókunum fer sem ýmsu öðru, það verða „tveir um toddann“: höfundurinn og lesarinn, og gagn lesarans að góðri bók getur verið meira en allt það, sem í henni stendur, og oltið á því útsýni, sem honum opnast við yfirferðina.

*When I was a Girl in Iceland.*
*By Hólmfríður Árnadóttir, Boston 1919.*
*Lothrop, Lee & Shepard Co. 220 Pgs. $ 1.20.*

Útgefendur bókar þessarar hafa tekið sér upp að búa út bæklingasafn af eins konar æskuminningum unglinga í ýmsum löndum. Þeir segja sér til meðmæla, að þar sé allt ritað af uppalning í því landi, sem frá verði sagt. Hólmfríður Árna-

dóttir hefir nú orðið til þess að lýsa uppvaxtarárum sínum á Íslandi. Allar þessar bækur bera svo að segja sama nafn, munar aðeins því, hvað land það kallast, er höfundurinn ólst upp í. Ef Dani ritaði sína sögu, yrði hún að líkindum skírð: Þá er ég var drengur í Danmörku. Á íslenzku héti bók Hólmfríðar: Þá er ég var yngismær á Íslandi. Foreldraráð ná þarna varla til nafnanna á krökkunum.

Í 15 kapítulum er erindi bókarinnar, lauslega sagt, þetta: Landlýsing, fundur þess og nám. Uppeldisheimili mitt og heimafólk. Sumar. Harðæri. Vetur. Hátíðir. Vor. Jólin. Helga fagra. Sumarskemmtanir. Svipazt út í heiminn. Ísland daginn þann í dag. Hvert erindi ég átti til Bandaríkjanna. Stödd undir stjörnufánanum. — Þó að lítið sé að læra af því að komast yfir kapítulaskiptin ein, sýna þessi samt, að höfundurinn hefir efnt það, sem hún segir vera ætlun sína með bókina: „að mörgum þeim spurningum sé þar svarað, sem lagðar hafa verið fyrir mig um Ísland.“

— Geti einhver góðrar bókar og nýrrar, heimtar tízkan, að hann haldi þau „Torfalög“ um leið að finna henni eitthvað til foráttu; að öðrum kosti fari hann með skrum eitt og skjall, eins og auglýsingaummælin, sem útgefendur hér kaupa sér. „Fýsir eyrun illt að heyra“, segir Vídalín gamli einhvers staðar. Ég skal ljúka þessu af, lesari góður, en fyrirgefðu, hversu fátt og smátt það verður. Allmörg íslenzk orð koma fyrir í bókinni og fjöldi þeirra svo prentvilltur, eins og ef þau kæmu út úr svertunni í smiðjunum okkar í Winnipeg. Hitt liggur í augum uppi, að Hólmfríður á enga sök á því. Sjálf er hún sennilega þeim galla grömust. Sé það ekki misheyrn mín, fannst mér, að á tveim stöðum kæmi enskan ögn utan af þekju. Í fyrra skiptið þar sem Gyða kóngsdóttir „hryggbrýtur“ Harald hárfagra með svari sínu: I will not waste my maidenhood for taking as husband of a king“. .... Þótt þetta sé svona orðrétt í þýðingu Morrisar og Magnússonar af Heimskringlu Snorra, og þótt manni þyki sá sögustíll sælgæti í samanburði við þann, sem aðrir enskir höfundar eiga nú til að tjalda, er nú svo komið, sem væri þetta „of“ óþarft og oftittað. Í síðara sinnið fundust mér þessar línur loðmæltar: One special spring when I was young, seems to be very close to my mind“, þó vel skiljist hvað við sé átt. En svo er þetta að sýna hótfyndni við höfundinn.

Þjóðsagan um vígslu Gvendar góða á Drangey hefir blandazt annarri sögn. Aldir af vantrú, lútherstrú, urðu að líða hjá, áður en alþýðan yrði svo efagjörn að geta ímyndað sér, að nokkur maður, sízt af öllu Guðmundur biskup, hefði vígt björg með þeim Þórshamri skynsamlegs vits, einungis, að brjóta þær bergeggjar, sem skáru sundur sigreipin af þeim, sem óvarlega fóru. Það var fyrrum aðeins í frásögur færandi sem einn af þeim mörgu krókum, gerðum með guðs fingri, móti brögðum Belsibúls. Hitt munar engu, hvort sú *síðari saga* er sögð að hafa gerzt í Drangey eða annarri ey, nokkru austar og norðar.

Í bókinni eru nálægt 20 myndir íslenzkar. Bezt er sú af höfundinum. Enskan er ljós og léttmælt, þó höfundurinn gefi í skyn, að sig skorti þar kunnáttu; enda liggur það í augum uppi, að hvorki hefði Hólmfríður hlotið né tekizt á hendur tilsögn í Norðurlandamálum við enskan skóla, væri henni til muna ábótavant í málinu. Líka hefir hún lært ensku um tíma við háskólann í Edinburgh á Skotlandi. Ævintýrið af karlsdætrunum er sérstaklega vel sagt, þó ekki sé það ævinlega áreiðanlegt, að hún, sem helzt skyldi, hreppi kóngssoninn; og eflaust kippir höfundinum í kvenlegginn í að velja sér þá þjóðsögu til að þýða, og efni úr sögu Gunnlaugs ormstungu og Helgu fögru; en fallegt er þó hvort tveggja, þó frásöguverðast sé það í Gunnlaugssögu, sem fæst eru orðin um höfð, sem er sögnin um það, að af þessum sambiðla-drápshug Hrafns og hans hafi það leitt, að hólmgöngur voru af numdar á Íslandi, öldum á undan öðrum þjóðum, þó jafnvel biskupar legðu þá samþykkt í lágina öldum síðar.

Auðvitað er, að þessi uppeldissaga Hólmfríðar hefir gerzt á góðum sveitabæ í héraði því, sem hún er ætzkuð úr. Þó kemur hún víðar við, en ætíð svo, að lesara, sem athugull er, verður hlýtt til lands og lýðs, ekki sökum þess, að af sé gumað, heldur hins vegna, að sagt er frá af skilningi á högum manna og háttum. Að því leyti jafnast þessi bók við það, sem ferðasögur erlendra manna hafa borið Íslendingum bezt og sannast, svo sem Henderson og Russell. Því láni eiga Íslendingar þó að hrósa, að þeir menn útlendir, sem hafa kynnzt þeim lengst, bera þeim söguna bezt. Henderson dvaldi nærri tvö ár á Íslandi og Russell ferðaðist þangað fjórum

sinnum, þó öld sé milli þeirra. Margir ferðalangar eru flysjungar, aðeins nasasjónamenn í ókunnu landi. Þeir munu fæstir vera jafnokar Bayard Taylors, Bandaríkjamannsins, er sótti þúsund ára gleði Íslands forðum, en hafði þó stutta viðdvöl. En hann var mannglöggur og heimahrokalaus, veglyndur og athugull og víðförull frá æskuárum. Í bók sinni, Egypt and Iceland, lýsir hann, hvernig Íslendingar komu honum fyrir augu við fyrstu sjón, þannig: „A general aspect of rough vigor, but also something more. What this something may be, will be my task to discover.“ Þetta ætlunarverk sitt leysir hann svo af hendi við Geysi, þar sem hann komst í kynni við sveitafólkið. Hann segir frá þeim íslenzka innra manni, sem fyrir hann bar, og kemur þannig orðum að því: „Within an hour, I had seen what tenderness, goodness, knowledge and desire for knowledge are concealed under their rude, apathetic exteriors.“ Innan klukkutíma gaf Bayard á að líta, hvílík viðkvæmni, vitsmunir, mannúð og þekkingarþrá bjó undir kælu-kufli íslenzks viðmóts, sem ber ekki hjartað hangandi á vörunum.

Bók Hólmfríðar leiðir næman lesara út í slíkt glöggskyggni. Hér í landi vorum við einu sinni tólf saman, ættaðir sinn frá hverju horni veraldar, og allir staddir í óbyggðum úti. Tómstundirnar urðu þar stundum tómlegar. Til ýmislegs var þá gripið til dægradvala. Þrír okkar gátu leikið sér að því að líta í bók. Í fórum okkar flæktust nokkrar skáldsögur og tímarit. Einn þessara pilta, sem lá fyrir og las stundum, var hálffiðraðs ráðherra sonur, alinn upp við stjórnarhirðina í Ottawa, skólagenginn lengra en hann hafði lyst á; sumur lærdómur hans hafði því lent eitthvað „út um þúfurnar á Kussungsstaðatúninu“, eins og stendur í íslenzkri þýðingu af „Tímaleysingjanum“ eftir Holberg. Hann hafði þó sína kosti samt. Við vorum mátar, en aldrei á eitt sáttir um ágætið í bók. Stundum hrópaði hann til mín upp úr bók sinni: „Hvað ertu nú að lesa, Stebbi?“ Ég sagði honum, hvaða sögu ég las. „Er nokkuð sótugt í henni?“ spurði hann aftur. Ég lézt ekki hafa orðið þess var, enda fórumst við hjá um söguvalið. „Já, þá er hún líka einskis virði,“ ályktaði hann. Hjá honum þýddi sótugt sama og boðorðabrot, enda hafa boðorðin ekki reynzt haldgóð; til dæmis getur enginn bókstaflega haldið það þriðja, nema hann búi í Gyðingalandi, eða þar í grennd, hafi Jahve

hvílt sig þar forðum, sem sennilega er ætlazt á. Þá snurðu gerir snúningur jarðar. Einni ættmóður okkar Íslendinga þótti ekkert gaman að guðspjöllunum, þvi enginn væri í þeim bardaginn, og pistlarnir og kollekturnar verri þó. Það hefir verið formóðir þessara, sem hrósuðu stríðsfréttum Heimskringlu okkar um árið, þegar Nikulás inn hái flúði sem lengst með Rússaher. Á friðartímum getur flest fólk skemmt sér við sótugar sögur. Í þá áttina er þó bók Hólmfríðar ekki útgengileg. Svo óhög er hún á sögusótun, með því að segja afsökunarlaust frá, að í það eina skipti í bókinni, sem hún sýnist vera komin í færi við það, að gefa þeirri gamansemi ögn undir fótinn, sem unir bezt við að láta kitla grun sinn um „eitthvað fleira", ónýtist það efni. En það mál er svo undirbúið, að enskir ferðamenn hafa löngum hneykslazt á því, að konur á Íslandi draga af gestum vosklæði, eður því um líkt. Henderson varð víst fyrstur fyrir því, fyrir hundrað árum síðan, og varð svo bilt við, að hann skrifaði það niður hjá sér og inn í enskar bókmenntir, þó aldrei leggi hann illt í garð Íslendinga af gárungsskap. Síðan hafa fleiri þótzt verða fyrir sömu gestrisni, eða skrifað upp þessa skrítlu Hendersons um sjálfa sig, til að segja eitthvað spaugilegt, því það kemur upp á öðrum köflum, að þeir hafa lesið bók hans. Engin bót er að bera þetta af sér. Eitt af skáldum okkar, í einu allrabezta kvæði sínu, hefir komið þessu í hendingar, hjá eins fögrum spretti og þetta er, um íslenzka gestrisni:

„Þegar hún settist þar
— En það árdægra var —
Við sólina hún samdi þann skilmála,
Ekki að síga í sjá
Sumar-nóttum á,
En leiðfarendum ljósi og hita strjála."

Er ekki annars eitthvað af þessu íslenzka ofstumri við komugesti í fyrstu runnið frá þeirri vorkunnsemi, sem veit af eigin reynd, hve feginn sá verður góðum viðtökum, sem kemur af víðum vegum, veðurbarinn og uppgefinn, en slík hafa löngum verið ferða-forlög fólks á Íslandi. Þeir sem sjálfir höfðu mátt sitja við inniyl, gerðu sér að skyldu að rétta þeim hlýja hönd, sem að voru komnir og illa til reika. Hólmfríður er svo ófeimin, að hún segir frá því, að eitt sinn

þegar hún var unglingur, hafi hún metið sér til metnaðar, að næturgestur á heimili hennar bað hana að binda á sig kveldskó, sem honum voru léðir, og næstum því fellt hug til öldungsins, svo ellifagur og sæmdarmennislegur hefði sér virzt hann vera. Hún setur þetta svo sakleysislega fram, að enginn verður hvimsa.

„Það er nú að: Við eigum engar rústir af fornum riddarakastölum né tóttir af að velli lögðum borgum, og gjöldum þess stundum í áliti útlendra ferðamanna, svo þeim finnst fátt um okkur,“ sagði vitur og vel menntur Íslendingur við mig einu sinni, „en ég er ánægður með það. Ég vildi ekki skipta á öllum þeim fornu rústum fyrir Sólarljóð.“ Sú er nú ein hlið og forn, þess sem finna má Íslandi til foráttu. Önnur er hin og nýrri, skorturinn þar á öllum þessum iðnaðaróhemju-mannvirkjum þrælkunarþjóðanna, sem síðar meir muni standa upp úr eyðimörk tímanna, eins og lýbiskir pýramídar til minja um löngu liðna einvalda, sem eitt sinn áttu þau mannaráð að geta þrælað þessu upp, dysjum yfir gleymdum nöfnum og týndri tign, svo úr sögunni föllnum, að síðari aldir þýddu slík minnismerki til sinna siða og tækju það trúlegt, að upp úr þessum söndum stæðu enn kornhlöður Faraós frá þeim tíma, þegar Jósep var verzlunarráðherra Egyptalands, sem kom því lagi á stjórnina þar, að bændurnir seldu sig og sína til að vera „þrælar Faraós eilíflega“, fyrir að fá bita af brauðinu úr korninu því, sem þeir höfðu sjálfir ræktað. Sú er enn sannfæring góðra manna en misviturra, að sú regla gildi alls staðar, að guðs dómi, sem Rockefeller inn ríki á að hafa kennt sunnudagaskólabörnum sínum, að framfaraaðferð skaparans á mannkyninu væri in sama, sem amerískir blómræktarmenn hafi fundið upp við grasið, að merja af stönglinum hundruð uppvaxandi hnappa áður en þeir nái að springa út, svo þeir fái klakið af einu yfirgnæfandi rósarhöfði; því þurfi eins þúsundir af undirtyllulýð til að framfleyta fáeinum fyrirmyndarmönnum. Sjálfsagt saknar einhver lesari vinar í stað í sveitarsögum Hólmfríðar, þar sem hvergi yddir á leifar af gömlum víkingaborgum né nýja skýjaskafa.

Fyrir skömmu síðan flutti íslenzkt vestanblað kafla úr sjötíu ára gamalli ferðasögu um Ísland, eftir frú Pfeiffer. Óvinnandi væri að metast um það, sem hún sagði frá og

miður fór. Maður fyrirgaf það allt við að lesa milli línanna, hversu skemmtilega skoplega hún lýsti sjálfri sér óviljandi, til dæmis á háskaför sinni í Surtshelli. Það verður eina lýsingin, sem nokkur andi er í, og minnir á skrítlu Bandaríkjamanns um samlanda sinn, sem var í hans hóp á gamangöngu í Miklahelli í Kentucky. „Hann undraðist á engu, gerði sér ekki neinar gátur, staulaðist eða skreið fram varlega, þungt hugsandi og þegjandi, eins og hann væri að stika og mæla hvern stein og rifu. Í leiðarlok tókum við hann fyrst tali; einhver spurði hann þá: Hvernig leizt þér nú annars á hellinn, kumpáni? Og svarið var: Í samanburði við aðrar gryfjur, sem ég hefi séð, er ekkert út á hann að setja.“ Hólmfríður hefir heldur ekkert út á það að setja, sem landslag og veðurvættir Íslands eru einráð um; hún minnist á hríðar og heiðarvegi sem væru þau leiksystkini sín.

Hitt er þó verst í máli frú Pfeiffer, að óvíst er, hversu áreiðanlegur forngripur frásögn hennar var, jafnvel á sinni tíð. Pliny Miles, sem fór um sömu slóðir og hún fimm eða sex árum síðar, minnist hennar svona í bók sinni, „Rambles of Iceland“: „I can inform the old Austrian dame .... the conceited Ida Pfeiffer .... that some of the very same clergymen, who entertained her, also opened their homes for me .... This is the woman that runs all over the world, and writes books about what she sees, and much that she does not see. .... She pens all manner of false and libellous stories of the most kind hospitable and unoffending race of people the sun shines upon. The best comment that can be made on her book, is that she describes her journey to mount Hekla, and ascent to the summit, when the people here on the ground told me, she never put the foot on the mountain, at all.“

En enginn efi er um það, að Hólmfríður hefir „stigið sínum fæti á fjallið“ það, sem hún segir frá.

Einhvern tíma rekur þó að því, að sanngjörn frásaga metur það landið manntaksmest, sem elur höfðingslund á hverjum bæ og víðsýnt vit í hverju koti, en lítur ekki öllum augum á verzlunarveltuna. Eflaust hefir Hólmfríður ekki ætlað á það, en hún næstum býður barnaskólum hérna byrginn, þegar hún lýsir því, hvernig kennt var og hverjar bækur voru lesnar við vinnustörf á heimili hennar, þar sem bekkurinn var aðeins einn, en allt fólkið sat á honum, æska og aldur héldust svo í

hendur, að engin gjá var sprengd milli kynslóðanna. Varla hefir Hólmfríði grunað það, sem nú er haft orð á, að í Bandaríkjunum sé tíundi hver maður óbóklæs, og að hver sá kennari, sem völ sé á, þyrfti að segja til sjötíu og fimm krökkum, ef allir ættu eitthvað að læra. Þeim skýrslum kynni líka að vera logið. En, ef til vill hefir þessi vegavísir, sem hún spurði til götu í ókunnugri borg, haft einhvern grun um þetta, þegar hann vildi fá að vita, hvort hún væri læs. Af því að hann vissi, að hún var íslenzk, þaut þetta svo í hennar íslenzka þjóðmetnað, að hún svaraði honum ekki því, sem henni datt í hug, að á Íslandi væri hver óbrjálaður maður bóklæs, fannst það myndi verða ofvaxið fáfræði manns, sem spyrði fulltíða fólk svona lítillætanlega, til að skilja í því.

Hins vegar kveðst Hólmfríður hafa ritað bók þessa í því augnamiði, að nú mættu Ameríkumenn uppgötva Ísland og láta það aldrei hverfa sér úr sýn framvegis. Íslendingar hafi fyrstir fundið Vesturheim, en týnt honum aftur um stund. Hún segist hafa reynt að leggja hlustir við öllu því hér í landi, sem vert var á að hlýða, og komizt að þeirri niðurstöðu, að mörg ár myndi hún til þess þurfa að heyra og sjá allt gott og geðfellt í fari Bandaríkjanna. Niðurlag bókarinnar er svona: „Ég hefi þá hugmynd, að undirstaða alþjóðalagsmennsku sé þekking, að samúð mannanna sé því skilyrði bundin, að við skiljum hver annan; því sé okkur þörf á að miðla öðrum af okkar eigin þekking, og þiggja þeirra í staðinn.“ [1920]

## Hægt er að þreyja þorrann og góuna.

### Flutt í Wynyard, Sask. á Íslendingadag 1920.

Staddur var ég á ferð fyrir fáum árum, einn míns liðs og í ókunnum bæ. Loksins hafði ég leitað uppi autt sæti í einum mannflutningavagni eimlestarinnar. Inni var ös af ferðafólki. Leiðin lá út í vetrarlágnættið, fram um fannkyngda sléttuna, yfir víðavang nístingskulda og næðinga, þar sem loft og láð virðast vera lokuð sund.

Vagninn sá, er svo var gestrisinn að ætla mér autt sæti, var meira en hálfsetinn af rússneskum stritvinnumönnum og hversdagsklæddum, sem nú höfðu lokið sumarvertíð sinni við

brautarlagning úti í öræfum. Hér voru þeir á heimleið, til vetrarsetu í nýbýlunum, sem þeir áttu einhvers staðar austur á auðninni og mörgum mílnatugum af vandrötuðum vegleysum norðan við brautina, sem þeir sjálfir voru að leggja. Farargervi þeirra allt var flækingslegt og tungumálið, sem þeir töluðu, vissum við hinir ekki hvað þýddi þeirra milli, sem var gremjulegra, af því að sumir þeirra voru okkur það orðfróðari, að þeir skildu fullvel flest, sem við sögðum, og víst lá vel á þeim eftir útivistina, en alveg ólátalaust.

Fyrir sömu sök og ég, þrengslin, lentu nokkrir aðrir úrtíningar meiri manna í Rússa-rúminu, sjálfsagt ættaðir sinn úr hverri átt, og á því eina bandi saman, að við vorum ekki Rússar, og allir með ólundarsvip yfir að vera á vondan stað komnir, og sumir vöktu máls á því við vagnstjórann.

Rússarnir fóru að syngja sína söngva og sungu um stund. Auðvitað þekkti ég ekki það, sem þeir fóru með, hvorki ljóð né lag. En það lét svo mjúkt og mæðulega, að ég hlýddi á það hljómklökkur, eins og vetrarkvíðann heima, þegar hann gjálfraði fyrir golunni úti fyrir gluggaþekjunni, eða þegar ég heyri súginn þjóta í sölnuðu skógarlaufinu hérna á haustin.

Vagnstjórinn hastaði nú á Rússana herralega, til eftirlætis við okkur ekki-Rússana. Hann hafði líka flutt nokkra af okkur meiri mönnunum í sæmilegra fólksfélag, ef að sæti losnaði lengra aftur á lestinni. Loks kom hann til mín og bauðst til að búa um mig á betri bekk. Ég naut þess víst, að ég var vitund skár klæddur en þessir verkamenn í vinnulörfunum, og bar svo utan á mér heimild til króksbekkjar hjá heldra fólkinu. Ég afþakkaði boðið; kvaðst mundu reyna að komast af litla stund lengur. Hann tók því vel og hughreysti mig með, að skammt yrði nú þreyttum að þola. Þessi sóðasveit, sem ég sæti hjá, yrði nú að rýma vagninn á næstu stöð.

Undir söngnum hafði ég orðið hugsi. Yfir mig hafði liðið ein þessi stund, þegar smáatvik líta út eins og lykill að anddyri aldarfarsins, svo örlögin blasa við, aftur og fram. Þessi angurværi kveinstafur í rússnesku röddunum (rann mér í hug), hann er sársaukahljómurinn úr sögunni þeirra, hann er klökkvi kúgaðrar þjóðar. Um leið og ímyndun mín rakti upp ið fáa, sem ég er fróður um í ættbálkssögu þessa óvígasta knérunns af Ariana-ættinni, sem kallast Slavar, undir yfirgangi Tartara, norrænna víkinga, Rómverja og stjórn sinna

eigin guða og manna. Mér fannst ég merkja í rússnesku röddunum slag í lífæð lýðsins.

Áður hafði ég, af hendingu, gengið á annan óm, runninn frá sömu sögu. Það var ljóð í lausu máli eftir Maxim Gorki, kunnasta nútíðarskáld Rússanna. Það var hetjukvæði um mávinn, eða hvað menn vilja kalla það, þetta stormanda kyn, sem um aldur og árdaga stríðir á öldum úthafsins, steytir móti stormunum og skýzt undan, upp í óveðrið, með skríkjandi sigurópi ins flóttafleyga, þegar haf og himinn virðast hafa dregið saman allt sitt afl til að kremja hann við klettabrúnina, sleppur frá þeim lifandi, aðeins til að eiga í sama leiknum við þá upp aftur og aftur og ævilangt. Ég skildi um hvern þetta var kveðið. Mávurinn var enginn annar en frelsisþrá rússneska byltingarandans, í bardaga hans að bjarga landi sínu.

Til var íslenzk munnmælasaga. Móðir mín sagði mér hana ungum. Hvergi hefi ég heyrt hana né séð annars staðar. Hjá mér verður hún ekki að ljóði í lausu máli, en engu að síður bergmálar hún enn í mínu minni, eins og ómur úr Íslandssögu.

Það var fyrir löngu liðnu, þegar skortur og hallæri eyddu Íslendingum, að ekkja bjó í koti með krökkum sínum, einbúi, úti í örvæni öræfa og vetrarveðra. Tvö átti hún börnin, en bara eina kú. Jólin komu þar líka, en í bjargarþrota bæ. Börnin kjökruðu við móður sína yfir skortinum á lífsbjörg og ljósi. Hún huggaði þau með því, að kýrin kæmist í nyt í næstu góulok. Við vitum, að milli jóla og einmánaðar yrðu þrír mánuðir á milli máltíða. En með þessari bjargarvon tókst móðurinni að gera börn sín svo jólasæl, að þau sungu sig í svefn með ljóðstöfunum í viðkvæðinu þessu: „Hægt er að þreyja þorrann og góuna, og þá ber kýrin.“

Einu sinni gat móðir mín um það, að sumir bættu því við söguna, að bæði börnin hefðu orðið hungurmorða löngu fyrir góulok, en hún sagðist vita, að það væri ekki satt. „En á hverju lifðu börnin svona lengi þá?“ spurði ég. „Það veit ég ekki fyrir víst,“ svaraði mamma, „en líklega á lífsvonunum.“

Þessi jólasöngur barnanna sver sig í íslenzka ætt. Þetta líf á lífsvoninni, þegar harðærið stendur sem hæst, þessi þögula starsýn fram úr öllu öngþveiti. Að vísu gáfu Norðmenn henni viðurnefnið: „Tómlátur er hann enn, Mörlandinn,“ þegar Íslendingurinn geymdi það, sem hann gleymdi ekki; en skopið

hæfði þá líka sjálfa, ef skop það var, því eitt af skáldum ins endurborna Noregs á öldinni sem leið kveður svo að orði um þá, í einu sannspáasta kvæðinu sínu: „Me skal koma — um inkje so braadt,“ eða eins og allt erindið gæti sagt á íslenzku:

Margir eru sem vola og veina:
Mér vinnist hvergi, sé aldrei til taks —
En látum vílmögu kvarta og kveina,
Ég skal komast — þó ég rjúki ei strax.

Það var traustið á, „að hægt sé að þreyja þorrann og góuna“, sem varði vonirnar falli, í sambúðinni við sína líka, þegar sá aflminni er ofurliði borinn, hvar í heimi sem var. Þegar rússnesk tunga grípur fyrir munninn á finnskunni á Finnmörk. Þegar Suður-Jótinn verður sakamaður fyrir að syngja danska vísu á mannamóti. Þegar franski alþýðukennarinn í Elsass verður á elliárum að kveðja barnaskólann sinn í síðasta sinni á hernumda tungu sína, sem ofbeldið hefir útbyggt úr skólum lýðsins, sem á hana að móðurmáli.

Fullþroskað þjóðerni er eins og fullþroska einstaklingur (ályktar umhugsun manns), eiginleikar þess verða yfirbugaðir en aldrei afmáðir. Varpið fullmenntum manni í fangelsi; hugsjónir hans umbreytast ekki samt. Inn óþroskaði og ættlerinn gætu orðið þar að öðrum manni. Villiþjóðir einar verða gerðar að umskiptingum, eins og reifabörnin og örvasarnir í álfasögunum okkar. Sá af skáldum Breta, sem í lífi sínu og ljóði bauð hrokanum og skinhelginni bífræfnast byrginn, hefir mótað þetta minnistæðast í skáldskapinn í forsöng sínum að Bandingjanum í Chillon, þannig:

„Eternal Spirit of the chainless Mind
Brightest in dungeons, Liberty thou art.
— — —
And when thy sons to fetters are confined
Their country conquers with their martyrdom,
And freedom's fame finds wings on every wind.“

En af því ég hefi nú ekki á hraðbergi þýðing hans á þessu, sem betur átti íslenzk orð yfir það en ég, verð ég að segja það svona:

Eilífa þrá ins hlekkjalausa hugs,
Hæst skín þú, frelsi, myrkrastofu í,
Og upp úr hlekkjum sona þinna sí-
Reis sigurþjóð — þeir leystu lýð með því,
Og lyftu hverjum brotnum væng til flugs.

Í dag er Finnland finnskt, Jótland danskt, Elsass franskt, þjóðernin, sem þraukuðu af þyngstan þorra og grimmustu góu. Sú hátíðin er hæst, þegar gengið hefir eftir góðum spám. Næst henni er hin, þegar hvergi rættist úr hrakspánum.

— — —

Frelsisþrá — sjálfstæðisþrá — menningarþrá — framfaraþrá — farsældarþrá, hvað sem á að kalla hana. Þessi þrá, sem ein gerir lífið hér að lifandi manna lífi og mennina að mönnum — hún er mávurinn, sem Gorki orti um, og ég get dáðst að þeim ljóðum, með hugann í hans sporum. En sá söngur er stórþjóða-drápa, og mér fannst ég merkja óm af brotinni bringu í rússnesku röddunum forðum. Útsærinn er svo óendanlega víður, öldurnar svo efldar undan stormum allra átta; framsýnin á þar svo langt að sjá til lands gegnum rokið, að vonunum villist stundum sýn, hvort mávinn muni bera upp að hömrunum eða höfninni.

Íslenzka munnmælasagan um börnin, sú sem ég hafði yfir áðan, er að vísu ævintýri einstæðingsins, smáþjóðarinnar okkar. En hún er þó eins og hringhenda, með sigurhljóm í hverjum stuðli. Aðeins að þreyja þorrann til góuloka, og sjá fram úr vetri. Það hefir íslenzka þjóðin ætíð gert, og núna nýlega, og beggja megin hafsins, veturinn í fyrra, og veturinn sem síðast leið. Ég veit hvers við öll óskum, íslenzku smalarnir og selráðskonurnar hérna við Wynyard, sem sé, að íslenzkan eigi ætíð þau börn, hvar í heimi sem er, sem sjá fram til sumars.

— — —

Íslenzka þjóðin hefir, eins og börnin, sem mamma sagði mér frá, lifað á lífsvonunum, frá þeim jólum landnámsaldarinnar, þegar foreldri okkar voru frjálsast fólk í heimi og íslenzk tunga töluð í höllum tignustu manna um Norðurheim. Að vísu varð hungurvakan síðar mörg og löng, fram til einmánaðar átjándu aldar, upp til sólmánaðar eða selmánaðar innar nítjándu, þegar Ísland varð aftur frjálst, og landnám þess

hafði staðfestst vestan hafs. Aftur er að hefjast: „vinreið á víðum botni vindkers“, út um götuna milli sels og bæjar, upp í fjöllin og víðsýnið, þangað sem sumarið sýnir sig stærst og fegurstu huldufólkssögurnar urðu til forðum.

— — —

Þökk sé ykkur, Íslendingar við Wynyard, fyrir daginn þann í dag. Ykkur, sem dróguð Íslandsfána við hún í morgun, með sama hug sem skáldið kvað erlendis:

„Sittu heil, með háa skautið hvítra fanna,
Ljósa dísin drauma minna,
Dýra móðir barna þinna.“

Ykkur, sem dragið hann aftur niður í kveld, með „ljúfum kveðjum“, „frá þeim sem heim til hennar seinna vitja, og hinum, sem hún aldrei fær að sjá.“

## Veðramót.

### Íslendingadags-erindi 17. júní 1922.

Í æsku-átthögum mínum var býli nefnt að Veðramóti. Aldrei átti ég þar heima, en oft hefir bæjarnafnið borizt mér í hug, svo fagur-sennilegt virðist mér það vera, nærri skáldlegt, eins og ótal önnur íslenzk orð — þessi þriggja eða fjögra atkvæða kvæði einhvers hagorðs hugar, sem er gleymt hvað hét, og líklega fyrir löngu. Veðramót. Sjálfsagt bær á bersvæði, þar sem öll veður ganga um óhindrað, þar sem snjór fellur snemma á haustin og fyrst augar í auða jörð á vorin.

Oft hefi ég óskað mér að vera „endurskírari“ og eiga vald á þeim orðum, sem við festast. Þá skyldi fóstur-fylkið okkar ekki nefnast Alberta, heldur Veðramót. Ég er hér kominn til að taka ykkur tali um, hver ástæða mín er til þess.

Það er ekki víða í Vesturálfu, að veður sé á meiri hlaupum en hér. Ef til vill nollkaldur rosi að miðjum morgni, en blævablíða að miðaftni — eða að árdegi og úthall hafa verkaskipti á veðrunum, þó flestir dagar séu spakdagar, og skaðviðri gangi sjaldan berserksgang um byggðir.

Landslagið sýnist líka í sama móti steypt — miðhlíðis milli jökla og jafnsléttu. Yfirborð hverrar fer-rastar, nálega, jarðvegur og jurtagróður, fjölbreytt líkt og ljóðabók með tugum

kvæða á hverri blaðsíðu en engu eins að efni né háttaskipan. Fárra ekra akur hér getur staðið „hvítur allt til uppskerutímans“ á einu bili, en á öðru gróandi grænn — eins og ýlir — mánuðurinn, er gaf jólunum heiti sitt — en ekki tvímánuður eigi að verða uppskurðartími sinn.

Fylkingar dýranna, sem dvalið hafa hér, hafa sömu sögu að sýna. Steindar beinagrindur hittast hér, þeirra skepna, sem uppi voru alda-öðlum áður en nokkur Adam væri til, sem gæti gefið þeim nafn, en sem urðu að líða undir lokinhamra, þegar finngálkn og flugdrekar hættu að geta gert sér „jörðina undirgefna.“ Um þau er „allt svo í hæfi“, að „dautt mál“, grískan, er nú látin uppfinna þeim ættarnöfn, í orðum, sem oft enda á *-saurus*, þó alþýðumenn, eins og ég, kunni ekki að nefna þau rétt, né skynja þeirra sköpulag, og viti því engin tök til að vefengja það, sem fréttfróður sagði okkur í íslenzku blaði nýlega, að þessar ófreskjur hefðu verið „eins konar krabbar“. En nú kroppa gras á kumlum þeirra stóðhestar, sem heitnir eru í höfuð á hertogum, upprunnum í Normandí, og kýr, sem eru nöfnur lafða, kynkvíslaðra úr Lombardí.

Þannig er það. Alberta — sem er næst því að vera nýbýli í landi, sem nefnt hefir verið Nýja-álfan, ber veðramóta-mörk frá örófi alda: eldöld og ísöld, vargöld og mannöld, og nokkur þeirra dýpri en sum héruð, sem sýnast rosknari. Hún er enn ekki hálf-„setinn Svarfaðardalur“, en samt hafa lýðir lent þar frá veðramótum allrar veraldar, sem, eins og á sér stað um alla Ameríku, fluttu hingað til að stofna með sér ið fjölmennasta fóstbræðralag, sem enn hefir upp komið í mannheimum, þó ýmislegt skorti á enn, þangað til allar tungur eru viðurkenndar að vera móðurmál og orðið „útlendingur“ úrelt í þeim öllum.

Eins eru eftirtektarverð veðramótamörkin á almenningsanda okkar Albertinga. Ég ætla að fara yfir þau fáein. Við erum fólk, sem lét glæframenn ginna af sér þrjár milljónir dollara, af vilja okkar til að verða ríkir, en fyrir vonir í olíunámum, sem uppsprettuaugað fannst aldrei í. Og við erum sama fólkið, sem er að gera aðsúg að ef til vill eina milljónamæringnum, sem hér hefir ungazt út, og sem flest önnur fylki myndu hafa talið sér til metnaðar að hafa komið á legg; aðsúg svo hvassan, að vald og þingkænska hárra vina hans á

fullt í fangi með að fyrirbyggja, að honum verði ekki auðlegð sín að slysi, með því að lögleiða fyrning sakar á því, hversu milljónir kunni að vera fengnar, sé aðferðin að því ósannanlega saknæm síðustu árin þrjú, hvort sem hún áður var röng eða rétt. Sakleysið sé þá komið í hefð, þegar það verði þrevetra.

Bændaflokkurinn hérna, flokkur þeirrar stéttar, sem værukærust var og fáskiptnust um landsmálin, vó til sigurs í kosningunum nýlega, óvænt og upp úr þurru, og það með sama skipulagi á her eins og þessir „barrabasar" Norðurálfunnar, „bolsévikarnir" títt nefndu, sem sé, með iðnbræðralaginu, og önnur fylki virðast ætla að taka þetta athæfi upp. Og leiðtoginn, sá sem upp á þessu fann, hefir þrívegis sama árið neitað völdum og virðingum og ekki látið aka sér frá starfi, sem hann telur sig hæfari til, og sveitungum sínum því þarfara, og þannig varazt að láta þá „vega sig með góðsemi", sem fegnastir vildu það — eins og Grímur kvað um hirðmenn Goðmundar konungs á Glæsisvöllum. „Sá, sem sigrar, hlýtur herfangið," voru áður flokkslög, og eru enn, en svona áttavillt getur andvari komið á valda-veðramótið í Alberta.

Dagblöð okkar, þetta veldi, sem þykist vera skapari þjóðviljans, eru eins gerð í Alberta og annars staðar — flest. Svo frjálslynd, að þau fagna öllum alþýðusamtökum, sem gera ráð fyrir að staulast á stofn og vinna henni til hagsbóta, en að vísu aðeins meðan stefna þeirra er öll óákveðin. En fari slíkar hreyfingar að beita sér fyrir breytingum á ástandi því, sem er, er allur vari góður til að girða fyrir byltingu og bolsévíkingu. Hér, eins og annars staðar, sver almenningur enn við allt, sem „skrifað stendur", því allir hlutir sækja þar fram, sem áreynslan er auðveldust — jafnvel skolavatnið. Samt hefir þessi sami lýður sent fulltrúa sinn á allsherjarþing okkar, mann, sem að vísu er vígður klerkur, en hefir farið eftir fyrirmynd Páls frá Tarsus, sem ekki áleit það embættisvanrækslu, né gagnstætt kenningu trésmiðssonarins frá Nazaret, að vinna fyrir sér með höndunum, þegar hlé er á hugvekjunum. Mann, sem hefir alla þá fræðslu fengið, sem skólarnir veita í sögu guðs og manna, en þó ekki virzt hann taka neitt niður fyrir sig að hugsa um í hjáverkum, hverjar hagsbætur hér á jörð myndu reynast beztar og bróðurlegastar í breyttu fyrirkomulagi. Og þessi maður stingur upp á

því í þingræðu, hvort ekki myndi ráðlegt að skipa nefnd til að rannsaka, hvort algenga kenningin, að framleiða sem mest en kaupa sem fæst, sé ekki hagsmunavilla, yrði hún alheimsregla — að þræla upp sem flestu af því, sem allir eiga svo að láta sig vanta vilja og getu til að kaupa. Og svo bætir hann því við, að um leið myndi hyggilegt að hnýsast eftir, hvort ekki mætti hitta hyggilegra ráð í viðskiptum en það, sem nú gildir, þar sem einkastofnanir geta með tölustöfum á tómum pappír, fjölgun þeirra og fækkun, skapað almenningi skort og allsnægt, eftir eigin hag og höfði sínu. En við venjuháðir blaðakaupendur tökum ekki í lurg mannsins; látum okkur þetta lynda, og jafnvel það, að blöðin hrósa honum á sinn hátt, segja, að hann skorti eitt, sem ónýti allt, sem annars kunni að vera gott í tillögum hans — það, að kunna að hugsa ekki of háfleygt, svo höfuðin, sem sitja þetta vitringamót þjóðar vorrar, geti gripið það, sem hann sé að mæla með.

Stundum er okkur Albertingum — og jafnvel næstu útnyrðingunum: Saskatschewan- og Manitobamönnum — brugðið um, að við séum of mjög útlendir og ekki ýkja brezkir. Við því höfum við á reiðum höndum eitt svar allir, að ekki höfum við tiltölulega lagt fram færra fé og mannslíf en þeir, sem brezkari þykjast, nú fyrir skemmstu, þegar föðurlandið hafi verið í hættu statt. Svo, til sannindamerkis, sendum við til sambandsþings einn af mörgum, sem af komst, merktan heiðri og sóma hermennskunnar. En, svo undarlega tekur hann undir kostnaðinn við að búa sig enn betur til að gera vel í næstu hrinu. að hann fylgir því fastlega, að slíkt sé gert með sem skornustum skammti, — þó er engin almenningsrödd hér enn, sem lætur það uppi, að sér líki það miður.

Þá eru og sömu endarnir uppi á veðramóti rithöfunda og skáldanna hérna, eins og hinir, sem í landinu liggja. Hér er líklega á kjúkurnar komin heil eða hálf tylft af því ungviði, þó ég ekki telji þá með, sem yrkja í „Fylkið“ okkar (The Province), og hlaupi yfir Jóhann Björnsson og mig. Þessir, sem ég á við, eru engir útbrotamenn og tolla vel í gömlum götum viðurkenndrar venju og ættu því að vera víðfrægir. Þó er hér ekki nema einn höfundur landfrægur — eða meira. Það er eigandi „Vökustaursins“ (The Eyeopener), sem sjaldan ritar í fullri alvöru um sjálfan sig né annað, nema ef það væri þar, sem hann oftast er samkvæmur sjálfum sér, þessu,

að fólkið í Alberta sé frekar syndugra síðan vínbannið komst á en meðan hver drakk það, sem hann hafði tilhneiging til, og að Meþódistakristninni gangi kristnanna verst að samrýma orð og athöfn, þó mikill sé einnig brestur í öðrum kerum. Við Albertingar, umvöndunarsamir kirkjumenn og alvörugefnir eins og við erum, látum okkur þetta vel líka og furðum okkur ekkert á, að þarna sé broddborgari bókmennta okkar, jafnvel eins langt og enska tungan nær.

Þá hefi ég að nokkru leyti skýrt, hví ég vildi, að Alberta hefði ekki verið nefnd Alberta, heldur Veðramót.

Ég veit, að þið hafið í þessu máli mínu saknað vinar í stað, sem sé reiknings yfir, hve Alberta sé víðlend og auðug og fjölmenn, og fólkið þar frjálst og farsælt. En við ættum, nú orðið, að kunna það allt utan að.

Sá piltur var eitt sinn uppi, sem hét Benjamín Franklín. Hann var hygginn og gætinn karl, en svo ódæll í æsku, að honum leiddist borðsálmur föður síns, sem karl las yfir hverri máltíð, sem venjulega var brauð og flesk. Strákur stakk því upp á, að duga myndi að lesa sálminn í eitt skipti fyrir öll yfir spaðtunnunni í búrinu og spara bæði bæn og tíma. En ég kunni ekki við að gera minni míns heimahéraðs að borðsálmi yfir spaðtunnunni.

Ef til vill var það metnaðarlaust af mér að kenna Alberta við kotið Veðramót. En úr því er auðvelt að bæta og segja, að hún sé lík Júpiter. Hann er, ef mig minnir rétt, fimmta fylkið í því sjöstjarnaveldi, sem við nefnum „vort sólkerfi“, en virðist svo undarlega á sig kominn, að nokkrir, sem um hann þykjast fróðastir, gizka á, að hann sé hnöttur í smíðum, sem einhvern tíma eigi að verða eins og okkar jörð. Alberta er á líku reki, meðal kanadisku fylkjanna: óorðin það, sem hún á að verða.

Stundum hverfur mér í hug, hvort inir rosknari og ráðnari hnettir, til dæmis okkar jörð, þegar hún starir gegnum botnleysu blárra fjarlægða á Júpiter, í hvítu og dökku og rauðu skýjareifunum, uppi í vöggu eilífðanna — hvort hún muni þá ekki stundum hugsa til hans, andheitt og af eigin reynslu, eitthvað á þessa leið: Þú þarna, sem ert unglingur enn, eins og ég var einu sinni, einlæglega óska ég þér, að hamingjan megi hjálpa þér, að þroskun þín fái að hlaupa yfir sumar örðugu aldirnar, sem yfir mig hafa liðið.

Sjálfsagt er það hugarburður, að hnettirnir kallist þannig kveðjum á, og líklega runninn frá þeirri tilfinningu, sem ég veit að býr í brjósti landnámskynslóðarinnar, sem út er að fjara, gagnvart inni yngri, sem meira en á að fylla fjöruborðið fólksins, sem fluttist tjaldbúðum forðum yfir Albertaauðnina, en bráðum hefir lokið síðasta landnámi og að fagna og finna til framar, sem innan örfárra ára afhendir yngri öld alla Alberta.

## Kveld-órar.

I.

Af mér fáum fjöðrum
Fletta Eggert skal —
Syngi hann yfir öðrum,
Ef það kostar dal!

Svona hafði ég kveðið, áður en Eggert Stefánsson kom til Markerville og söng þar yfir fullri kirkju af ánægðu fólki, fyrsta þessa mánaðar.

Það er „illt að heita strákur og vinna ekki til“, og lítið gaman að vera nefndur níðskældinn, en kveinka sér við að kveða „skammarvísu“. Ég vissi vel, þegar ég kvað þetta, hvað klukkan slær í mínu „söngeyra“, og í bankabók minni líka. Samt gekk ég í kirkju eins og aðrir — og iðraðist þar vísunnar.

II.

„Guð sé oss næstur!“ segja þeir nú víst, sem „söngeyrun“ eiga, „ætlar þó ekki hann Stephan G., sem eigi þekkir C frá D í söngfræðinni, að fara að dæma um söng! Flestar kápur fara honum eins!“ „Vel segir þú, inn frómi!“ verður þá mitt viðkvæði — en ég kem ekki „til dómsins“, heldur til að malda í móinn fyrir mig og mína líka, sem erum „á söngvum stirfnir og heldur viðskotaillir,“ og sýna fram á, hverjum brögðum við verðum að beita við sjálfa okkur, til þess að verða ekki féflettir með freistandi söng.

III.

Galdur minn er þetta: þó lærdómurinn sé enginn, eyrun fölsk og æversnandi, hefi ég álpazt inn á ofurlítið lag á sjálf-

um mér, sem er einfalt eins og ég er. Ég hefi ímyndað mér, að þessir tónar myndu vera að túlka mér eitthvað, sem ég hefði áður orðið var, reynt eður hugsað í steinhljóði ins fyrirfarandi. Við og við fannst mér það koma fram. Svona barnalegur galdur við sönglistina er auðvitað bara kukl, borinn á borð við listaskilning þeirra, sem eru „innblásnir“, en er þó eina björgin þeim, sem eru eins þykkheyrðir og ég. Þessu takinu á sjálfum mér náði ég þó ekki við „sólskinsdaginn“ ítalska, sem Eggert söng fyrst, en fannst það þó borgun, hátt upp í dalinn minn, að hlusta á, hve röddin var „hugljúf og hrein“. Aftur á móti þótti mér ég komast í samræmi við annað ítalskt lag, sem Eggert söng — þjótandi gleðilag. Ég var alinn upp í nánd við íslenzkan foss. Þegar ég var unglingur, lá ég þar stundum við hann, á titrandi berginu, unz mér fannst ég orðinn einn strengurinn í fallinu, sem henti sér þeysandi, hlæjandi, hlakkandi, í hoppandi skeytingarleysi gegnum gljúfrin.

IV.

Bráðum kom svo Eggert með Íslendingana — Íslendingana í húð og hár, þannig, að bæði orð og ómar voru verk Íslendinga. Þar bjóst ég við að þekkja mig betur. Til dæmis: Ég hefi verið við „Valagilsá“ Sveinbjarnar og Hafsteins og átt leið yfir hina, sem hún er heitin eftir, þó ætíð lægi hún þá niðri í lítillæti sínu. En, séð hefi ég systur hennar í svaðilförum — einkum eina, Grjótá. Hjá henni hafði ég heyrt flauminn í fylgiröddunum, Gróttusönginn í grjótkastinu undir straum-strengnum, og furðað mig á því, sem hljómarnir fullyrtu ekki um: „Að brjóstþrekinn klár hafði betur“. Þó vissi ég, að Eggert myndi ekki fara með það lag.

V.

„Öðruvísi syngur hann nú þetta en við gerðum heima!“ hvíslaði einhver jafnaldri minn að mér. Eggert var að syngja: „Ríðum, ríðum, rekum yfir sandinn“, ferðavísur Gríms Thomsens, við lag eftir Sigvalda Kaldalóns. Já, einu sinni var það kvæði ferðasálmur okkar piltanna, en — við beljuðum það þá með „gamla laginu“. Nú varð ég altekinn af rödd Eggerts: framkeppninni í henni að hraða nú ferðinni — ískyggileiknum, að sól var að setjast bak við Arnarfell og nótt í nánd — geignum, af að verða ef til vill fyrir álfareiðinni og villast,

og verða þar til, einn og uppi á öræfum, fjarri kristinna manna byggð — alvöru neyðar-kaupsins, að vilja gefa vænsta hestinn sinn til að hafa náð næsta áfangastað við hana — og hita bænarinnar til drottins að hjálpa hesti sínum til að bera sig með heilu og höldnu svo langa og skuggalega leið. Það var satt: Eggert söng þetta „öðruvísi en við.“

VI.

Í eitt skiptið söng Eggert „Systkinin“, kvæði eftir Einar Hjörleifsson. Þar studdi rödd hans á annan streng, og væri erfitt að gera sér grein fyrir svo sljórri heyrn, að flesta, sem við voru, hefði ekki snortið viðkvæmnin í rödd hans, til dæmis hvernig hann fór með hendinguna: „Drengurinn litli sem — dó“, svo almennt sem sú tilfinning er þó til.

VII.

Einnig söng Eggert „Sverri konung“, lag Sveinbjarnar við kvæði Gríms Thomsens. Þá varð hann — og oftar — að „aðstoða“ sjálfan sig við hljóðfærið. Skiljanlegt væri, að þeirri tvískipting á sjálfum sér finnist það verða næmleik raddar sinnar nokkurt ofverk, þeim sem sjálfur þekkir, ef hann nýtur sín ekki til síns bezta. Þó hefi ég aldrei haft meiri unun af að heyra það lag en hjá Eggert. Kannske af því, að það var í þriðja sinnið, sem ég hefi heyrt með það farið, og ætíð af snilld. En þessi syngjandi „Sverrir konungur“ er einn af þeim Íslendingum frá Ljóða-landi, sem mér hefir fundizt fagurkvæðastur við minn skorna-skammts skilning, ef til vill af því, að einhvern tíma í æsku las ég Sverris-sögu og fannst ég kynnast manni, sem átti í örðugustu vök að verjast, að vísu fyrir sinni eigin tign, á yfirborðinu, en í raun og veru fyrir uppistæði norræns þjóðernis, og féll að lokum óhelgur í valdabanni þeirrar trúar, sem hann sjálfur hélt, og ef til vill gat óttazt, að kannske hefði mátt til að loka fyrir sál sinni hliðum himnaríkis líka, þó enn ætti hann þá vini, sem gætu veitt líki hans kristilegan umbúnað í trássi við æðsta kirkjuvald. „Andvaka var allt mitt líf.“ Undir orðum Gríms og lagi Sveinbjarnar finnst mér ég enn ganga með í þúsund ára líkfylgd þjóðskörungs, merkja latínusöngl munkanna og heyra líkhringing kirkjuklukknanna.

VIII.

Þar nem ég nú staðar — en Eggert gerði það ekki. Ég hefi sýnt, hversu ósöngvinn ég er, en hann ekki, hversu listilega honum léti að syngja. Hann söng mikið meira. Til dæmis: „Þó þú langförull legðir“, lag eftir Sigvalda Kaldalóns. — — — „Átti ég ekki á von! Þessu þurfti Stephan að koma að, af því að vísurnar eru eftir hann sjálfan,“ hugsar nú einhver, sem þetta les, og er ekki nema eðlilegt. Þó væri það rangt gizkað á raunarlausa von. Ég get ekkert sagt um það lag enn, og einmitt af því að vísurnar eru eftir sjálfan mig — ekki einu sinni heimsku, eins og um hin lögin. Vísurnar mínar eru mér unaður, meðan ég er að setja þær saman; þar á eftir eru þær mér fremur til fáleika, að minnsta kosti í mörg ár. Getur þó verið, að ef ég lendi á þeim aftur eftir langan tíma, orðnar nærri gleymsku-gamlar, að þá finni ég þó enn einhvern yl úr glæðunum, sem einu sinni brösuðu þær saman. Ég segi þetta í því skyni, að menn villist síður á því, að þetta stafi frá vanþökk eða vandfýsi. Það er einskær afkáraskapur, sem einhvern tíma kann að venjast af mér, en ég get ekki að gert. Þvert á móti er ég á minn hátt þeim þakklátur, sem verið hafa að leita lags við baslið mitt — tek það þeim og mér til metnaðar. En efinn minn spyr ætíð: Er ekki þessu smáræði mínu gert þarna of hátt undir höfði? Og þá fer hugur minn „út af laginu“.

IX.

Með Eggert var Pétur G. Magnús frá Glenboro. Hann hafði áður verið hér staddur „Íslendingadag“ fyrir nokkrum árum síðan, með Gunnari Matthíassyni. Þeir skemmtu okkur þá með söng sínum. Pétur hefir meira en meðalgjöf af sál og barka söngmanna. Byggðarbúar hér mundu þetta enn og fóru að hvískra um, að þeir vildu, að Pétur léti einn söng til sín heyra frá öndvegi dagskrárstjóra, sem hann skipaði, áður en upp væri staðið. Loks lét hann tilleiðast. Upp á þessu fann fólkið sjálft. Hvað myndi þá verða, ef fyrir einhverju af því ætti það að liggja að mæta Eggert aftur?

X.

Enn bætti Eggert við, til að fleytifylla útlátin, broti úr ítölskum söngleik, sem ekki hafði á dagskrá staðið. Að endingu sungu eða stóðu allir útgöngusálm konungs vors.

## XI.

Ég var staddur í dyraþrönginni, þar sem einhverjir dokuðu og ræddu það, sem gerzt hafði. „Þetta er gjöf en ekki gjald,“ sagði einhver, „einn dalur fyrir annan eins söng! Trú mér til, því ég hefi reynt það, værum við stödd í stórborg, yrðum við að láta út 4 til 5 dollara fyrir annan eins söng — ef til vill lakari.“ Ég var orðinn meira en ánægður með mín kaup við Eggert. En skyldi þessi skolli hafa heyrt „skammavísuna“ mína, sem ég byrjaði þetta blaður með, og hann vera að sneiða að mér? Vonandi ekki — og hefði aldrei skilið hana hjálparlaust. Svo fór hann að lýsa ánægju sinni með kveldið yfirleitt; tók til tvo hljóma, sem hann sagði, að Eggert næði, og skaraði mörgum færum söngmanni fram úr í, og nefndi þá á máli söngfræðinga, og virtist vita. Ég lagði þar ekki orð í. Vissi við hvern var að eiga: mann, sem ég gat ekki „svarað einu orði til þúsund“ í þessu máli — eins og Vídalín endurtók um aðra tvo ójafna, en í öðru efni. Þó veit ég ekki, hvort þessi er svo „magnaður“, að sönglistin sé honum sú „opinberun“, að hann geti skriðið til vatns með Fáfni — „riðið vafurlogann“ með Sigurði — lifað fögnuð Brynhildar, er hún kvað: „Bjór ber ég þér“ — og örlagaharm Guðrúnar í „Einstæð er ég orðin“ — þeyst Sprengisand með Íslendingum og sungið Sverri konung til moldar, fundið sífellt til þess, við hvað hann er staddur, án þess að hafa heyrt nokkru sinni getið um Niflunga og Rín, Íslendinga og Sprengisand.

## XII.

Á leiðinni heim um nóttina kom yfir mig skáldsaga, sem ég hafði einhvern tíma lesið. Einmitt „skáldsaga“ — af því að sannleikurinn hafði ekki trúað neinum nema skáldi fyrir að segja hana rétt: —

Ung hjón settust að í nýbýli á hrjósturlandi íss og auðna, eignalaus að öllu nema þrekinu, viljanum, vonunum. Árin liðu. Bletturinn, sem þau ruddu í ófrjóa mörkina, óx að vísu, en arðurinn af honum ekki. Erfiðið þyngdist. Högum þeirra hnignaði. Loks flutti manntötur konu sína til grafar í sveit, líkt og „Útilegumaðurinn“ hans Einars Jónssonar.

Hún endar á orðunum: Þannig byggðust auðnir Fannlands!

Ég veit, hver sögustaðurinn er, þó aldrei hafi ég þangað komið. Ég hefi lesið orð útlends manns, sem hefir litið yfir

„breiða byggð“, sem þar er nú, og með líkri tilfinningu eins og Gunnar, þegar hann horfði til hlíðarinnar.

Svo datt mér í hug söngmaður, sem leggur lönd undir fót, í þeim erindum að gæða dreifðum samlöndum sínum á svifhærri sönglist en þá flesta hafði áður um dreymt, og að auki að kenna öðrum þjóðum það, að Ísland sé líka gætt söng og rödd sem þær. Honum verður allt til erfiðis: tími og tíðarfar, lítill farkostur, örðug aðstaða, óviðbúið fólk og ónæm eyru. Hann er alls staðar einstæðingur, nema hjá gesta-greiðvikni landa sinna, því henni hafa þeir enn ekki gleymt í ókunnugu landi, og hún gerir hvað hún kann. Frá slíkum manni hillir að vísu undir ræktuð lönd í ríki tíðar og tíma, „bleika akra og slegin tún“ — en, þegar þar kemur: Þannig byggðust auðnir íslenzkra lista!

XIII.

Næsta kveld eftir söngsamkomu Eggerts höfðu krakkarnir sögu að segja, þegar þau komu heim af barnaskólanum. Kennarinn þeirra hafði sagt við þau: Munið þið, krakkar, að ef Eggert Stefánsson söngmaður kemur nokkurn tíma til Markerville og syngur þar aftur, þá farið þið öll og hlustið á hann. — Af tilviljun er ég honum í því einu snjallari, að ég get sagt svona eftir honum á íslenzku, án þess hann viti né skilji.

[1923]

## Í Vökulok.

### Ávarp flutt á kveðjusamkomu í Winnipeg 4. ágúst 1926.

I.

Góðvinir, konur og karlar!

Löngum hefir mér virzt það vandaminna að svara fyrir sig, þegar að manni var hnýtt, en væri manni hrósað — eins heimskt og það þó er að bila, þegar bezt er til manns gert, og skorta hug til að heyra sitt eigið lof; að heykjast við að verða öðrum margskyldugri en áður og óánægðari við sjálfan sig að vera þess viss, að aldrei hafi maður náð tám verkanna, þangað, sem hann hafði hæla viljans og vonanna. Á þeim gatnamótum tilfinninganna, þar sem víkur lengjast milli vina, verður mörgum erfitt um þau orð, sem eiga við. Svo fer mér í kveld. Kveðjan ykkar hér fer þannig með mig, sem

er þó ekki öll hér innan veggja. Á þann hátt verð ég „þeim verstur, sem [ég] unni mest“, að þeim mönnum, sem maklegastir væru, að flest væri sagt, verður fæst sagt af því, sem þeim er upp að inna.

En öllum ykkur hefi ég þó ið sama að segja að skilnaði: Til er íslenzk trú, sem ég tók af mínu foreldri, flestum trúarbrögðum fegurri — trúin margra íslenzkra alþýðusagna, sem hafa að fyrirsögn: Guð borgar fyrir hrafninn! Sú trú hefir sífelldlega gert það gustukaverk á gremjunni yfir getuleysi sjálfs mín, að ég verð öruggari um endurgjald, hvort sem ímyndun mín hallast að, að slíkt sé að ráði æðri veru en okkar, eða hinu, að það liggi í eðli mannlegrar samúðar „að hitta sjálfan sig fyrir!“ Því getur það verið þolandi, jafnvel til fagnaðar stundum, að hafa orðið óskilamaður við ætlanir sínar, vini sína og vonir.

## II.

Einnig eykur það á ánægju mína, að sum af ykkur, eða helzt öll þið, hafið fyrirgefið mér svo margt, eins og á sér hér í kveld. Enda veit ég ekki með vissu af neinni veru, sem fyrirgefur jafn fyllilega eins og mennirnir. Hér skal ég ekki afsaka þá léttúð mína, sem eitt fornskáldið nefndi að „tefla á hvassorða leikborði“, ég á við það, sem eftir mig liggur af því smá-smíði, sem almennt er nefnt „skammavísur“. Mér væri hvergi sárt, þótt satt þætti, það sem sagt hefir einn af æskuvinum mínum, sem flest gott hefir þó um mig sagt yfir höfuð, en það var, að svo herskár væri ég, að ég líktist Þorgeiri Hávarssyni í því að veita manni áverka aðeins fyrir þá skuld, að hann lægi vel við höggi. Ég efast sjálfur um, fyrr en á reynir, að íslenzkum kveðskap yrði það mikill gróði, þó öll illviljalaus stóryrði væru af honum skafin. Hitt hefir líka borið við, að misendismenn hafa talið það í tekjudálk mannkosta sinna, að gallar sínir hafi orðið heiminum til gleði, málaðir með meinlausri fyndni, svo allt hafi ómeitt sloppið. Satt að segja, mig grunar stundum, að ljóðadís okkar hafi orðið að heilsubót á sinn hátt, að eitthvað geymdist af þessum „fjósafötum“ hennar, sem kallast bersögli um of, líkt og frú Sæmundar fróða forðum og hennar heimili.

III.

Ekki getur ólíkari fugla en hrafninn og svaninn — enda fann hrafninn landið með Flóka, og óvíst er, að hann eigi færri falleg kvæði og sagnir í íslenzkum ritum, þó ólíku sé við að jafna — bæði rödd og lit. Hrafninn er orðinn langvinnt ljóðaefni, frá þeirri ómunatíð, þegar hann fylgdi hverjum gunnfána, niður að barnagælunni gömlu: „Krumminn á skjá, skjá“, alla leið niður að síðasta íslenzka krummakvæðinu, sem þessar hendingar standa í:

„Svívirtu ekki söngva þá,
Sem svörtum brjóstum koma frá.“

Á því hefi ég oft verið hræddur, að svo oft hafi ég „krúnkað á skjá“ presta og ritstjóra, og annarra enn meiri manna, að mér myndi það um síðir illa í koll koma. Þá hefi ég löngum svarað með því hreystiyrði, að hingað til hafi fáir reynzt mér öllu betur en ýmsir prestar og ritstjórar. Að vísu skutu þó slíkar spár mér nokkurn skelk í bringu. Ég vissi til hvers ég hafði unnið, og ætti þar við færustu mennina. En í kveld hefir svar mitt sannazt, enn sem fyrr. Þeir sem hér hafa ávarpað mig í kveld, eru ekki þeir, sem vilja „svívirða söngva þá, sem svörtu brjósti koma frá.“

Og að erindislokum á ég eina óskina heitasta, ykkur og mér, þá, að aldrei verði ykkur til ámælis í framtíðinni velgerðir ykkar og vináttan til mín.

## Kveðju kastað á gest.

### Flutt Jakobínu skáldkonu Johnson 2. okt. 1926.

I.

Einu sinni á ævinni hefi ég séð Látrabjarg frá sjó, þar sem það steytir hnefann út í íshafið, með fjöruna við hlið sér, þar sem Látra-Björg á að hafa róið til fiskjar og kveðið „stikluvik“ í köpp við rym Ránar — græna túnið niður frá burstum bæjarins (sem hún hefir breitt og rakað mörg vor og sumur) á Látrum, sem hún sagði svo fyrir, að „aldrei myndi brenna“, fyrr en „Kristur kær kemur og dóminn heldur“. En það er yngri íslenzk „útgáfa“ af inni eldri: „Surtur kemur sunnan með sviga-lævi,“ og hvort tveggja mun eiga ætt að

rekja aftur í aldir, eins langt og mannlegt hugboð um heimsenda nær. Og munnmælin segja þetta vera áhrínsorð. Aldrei hafi bær að Látrum brunnið og muni aldrei, sökum kvæðakynngi Bjargar.

Undarleg er íslenzk trú, dulræn á yfirborði, en eirir engu undir niðri án þess að rekja það til róta líklegleikans á einhvern hátt. „Bleyta slíku veldur", að bærinn brennur ekki, segir Björg. Spáin er rökfærð. Það er löngum rök jörð við sjávarsíðu. Þar grær líka fjölskrúðugast, ef sólar nýtur.

Kvenfélagið hérna, sem kallar sig „Von", hefir lagt mér þau orð í munn, að innilega séuð þið velkomnir, gestir sínir hér — sér og sveitinni sinni. Þú, Jakobína Sigurbjörnsdóttir, ert að ávinna þér þann átrúnað, að bær þinn, við botn Kyrrahafs, brenni aldrei, eins og sagt er um bæ Bjargar, af því hann er heimili ljóðanna þinna, þó löng sé leið milli aðsetra ykkar Bjargar, óravegur af árum og aldarhætti. Lengi mun „Vínlendingurinn" kunna kvæði eftir þig, þegar hann siglir sundið við Seattle.

II.

Í kveld er mér minnistæð leiðin fyrir Látrabjarg. Uppi í því er „Meyjasæti", stallur eftir hangandi hamri, líkur bekk uppi í leikhúsi. Fjallshlíð er yfir, en undir hnyklast Látraröst fram í hafið, dóttir „Miðgarðsorms", þar sem „brimið grefur breiðan sand, og báran sefur ekki grand;" þarna sem að tveir straumar fallast á í fangbrögð og hringvindast hvor um annan, eins og skýstrokkur, sem fallið hefir flatur í djúpið.

Fyrir „örófi alda", á þeim ritningardögum, þegar „risar byggðu jörðina", héldu norræn tröll sinn Íslendingadag á Látrabjargi. Karlarnir reyndu með sér íþróttir, en konurnar sátu og dáðu leikinn. Síðan er þar Meyjasæti.

„Nú er öldin önnur." Konurnar hafa gert mér grikk! Sett mig þar sem einhver þeirra átti sjálf að vera — í „Meyjasæti"! þegar fagna átti þeirri stallsystur þeirra hér, sem leikur bezt. Þetta munu þær hafa gert af glettni við mig, en ekki fyrir þá skuld, að ýmsar þeirra hafi ekki kunnað sjálfa sig færari til að mæla maklega fyrir upplestri frú Jakobínu heldur en mér er meðfært. „Mér er sem ég sjái sjálfan mig," hve kátleg sjón ég sé, „kraki" lítill og lofthræddur í „Meyjasæti" í Látrabjargi, en eiga að klappa íþróttakonu „lof í lófa" — enda verður það skotaskuld, ég hrapa, ef ég hreyfi mig, ekki

fyrir óvilja — nógu er ég kvenhollur! En hér hrapa ég fyrir björg ókunnugleikans.

Hér er ég staddur í líkum vanda eins og smalapilturinn, sem skessan rændi. „Vonin“ hefir gripið mig sér til leikfangs, eins og hún hann, klaufann við kvennastörf, eins og karlmenn ætíð eru. Einn dag breiddi hún allt fiðrið úr sæng sinni til veðurs og bað hann hirða svo, að allar fjaðrir væru vísar að kveldi, ella myndi hann hýðingu hreppa. Um daginn blés á byl. Varla var það einleikið, og konur voru löngum fjölkunnugar. Fiðrið fauk í allar áttir. Einhver góður vættur aumkaði hann þó og smalaði loks hverri fjöður. Ég er eins á vegi staddur og pilturinn eftir fjaðrafokið, en engan vætt veit ég enn, sem smala kynni fok-fjöðrum, sem fyrir mig hafa borið af kveðskap Jakobínu. Íslenzku konurnar vestan hafs kváðu *ætla* að gera það. Í kveld er það orðið of seint fyrir mig, svo ekki er um að villast, hvað ég á mér víst.

III.

Í alvöru að tala: Ég veit hvað varasamt er að geta margs í lófa skáldanna, einkum kven-skáldanna, fyrr en séð er til fulls allt, sem í honum felst — og frú Jakobína hefir haldið nokkuð fast um sitt. Hér verð ég því að láta við það sitja að segja ykkur, að hún hefir mér þótt þýða íslenzk ljóð á ensku bezt af öllum vestan hafs, sem við það hefir reynt. Öfundsvert er það, þyki Íslendingi, sem næmur er á þess háttar, íslenzkt kvæði eins gott á öðru máli en sínu, sé það ljóð, sem hann ann. Því hefir þessi kona orkað. Vandfýsni okkar veldur svo margt og réttmætt: ljóðleikið mál; orð, sem hvergi þarf að vera ótó í. Allt er sem óþýtt, ef andagift handkvolast í þýðingu, þó hugsun orða sé haldið stranglega og rím rígrekið. Þá fyrst fer öll gyllingin af góðu ljóði, ef blær og arnsúgur hjaðnar og hverfur úr eftirómunum. Það, sem þýðingar Jakobínu taka fram öðrum í, er, að hún lætur kvæðin fá svo hagleg hamaskipti að lítið sér á, og er þó ekki ætíð auðvelt, svo stagbætt flík sem enskan er í samanburði við íslenzku fötin. Hitt hefir hún og skilið, að svo aðeins verður vel þýtt, að rígbinda sig ekki við hvern ankanna í orðalagi afþýdds máls. Svo margt ber milli tilþrifa hugtakanna í tungumálum mannanna, að eitt, sem öðru er tamt og fagurt, verður „torf“ í hinu, sé þýtt bókstafs-bundið, sérstaklega í skáldskap, sem

les sig svo oft fram í líkingamáli. Þá er ein aðferð fær, og hún er sú að grípa til snjallyrðis, sem samsvarar, þó ekki sé orðrétt; einhvers þess, sem samgróið er hugsun í tungu þeirra, sem snúið er á — helzt nokkru snjallara. Það hefir Jakobínu tíðum tekizt, jafnvel þar sem hún hefir borið við að þýða á ensku af íslenzku annað en það, sem auðvelt var. Íslenzk ljóð njóta aldrei erlendis þess álits, sem þau eiga skilið, þó þýdd séu þindarlaust kvæði, svo sem „Þars Mississippi megin-djúp fram brunar.“ Hver þjóð á gnægð af slíku hjá sjálfri sér, en sækist eftir útsýni, inu einkennilega, inu frumlega — nýnæminu. Bjarni Thorarensen getur, í fullri einlægni, hafa sagt, þegar hann sá „Gunnarshólma“ Jónasar í fyrsta sinn: „Nú held ég, að ég megi fara að hætta að yrkja!“ En erlendur listdómari finnur mun á „meistara“ og „snillingi“, sé hann skáldskaparviti vaxinn, og ber meiri lotningu fyrir „meistaranum“. Jakobína hefir ekki leikið sér við léttustu ljóðin okkar ein. Hún hefir líka lagt á leið við þau, sem vandrötuð voru. Ég tek sem dæmi þýðingu hennar á: „Heyrið vella á heiðum hveri!“ eftir Grím Thomsen. Fáir munu þyngri í þýðingarvöfum en Grímur, ekki sízt í því kvæði — rammíslenzkur arnsúgur! þó Grími stæði „beinn byr undir báða vængi“ alla leið norðaustan frá Finnmörk — „veðurhljóð“ úr „Hör hur härligt sången skallar“. Ég man það enn, að þegar þessi þýðing Jakobínu flaug snöggvast fram hjá mér, og hvarf, svo aðeins var ómurinn eftir í minni mínu, varð mér svo létt við, að *því* hefi ég ekki getað gleymt. Þar var svo vel haldið því, sem mest lá á: blæ og bergmáli.

Menjarnar um þessa þýðingu eru aðeins handahrifs mitt, úr örþrifum staðar og stundar. Mér kann að vera vits í þessu vant, en satt hefi ég sagt frá. Margs myndi að minnast, ætti Jakobína ekki enn öll sín ljós undir „mælikeri“ dreifðra blaða eða handrita. Nú er hún hér komin til að lyfta af nokkrum þeim huliðshjálmum, yfir þeim, sem hún hefir kveikt á kolum annarra eða á eigin lampa. En — að öllu loknu er það „eftirsjónin“ okkar, sem ávallt sér skýrast.

## IV.

Ég er nærri feiminn að minnast á það, af því það kemur mér ögn við — svo furðuleg hæverska sem það mun virðast af mér, jafn tannhvass og ég er talinn. Eins og von er til munu

fáir hér vita það, sem aldrei var þakkað né út borið: En ég er einn þeirra manna sjálfur, sem frú Jakobína Johnson hefir orðið óbeðin „túlkur“. Það má þykja um minn makleik fram, en sízt sæti á mér að þegja um það, fyrst svona stendur á. Hún hefir þýtt á ensku og komið í tímarit kvæðum, sem mér eru kennd, auk æviatriða, og lýsingar á sumu, sem eftir mig liggur í „Andvökum“, og það kann að liggja of nærri aðdáun, því „seint sé kvennageð kannað“ — á þá leið líka að „kalla allt ömmu sína“. Þó kann ég henni þökk fyrir, hversu sem úr ræðst um matið á mér. Svo langt sem þetta hefir lesið verið af „annarlegu“ fólki, verður það Íslendingum til virðingar, meðan ég verð ekki uppvís að *öðru* — og jafnvel samt, því ritstjórinn sjálfur gat um, í hefti sem út kom síðar en grein Jakobínu, að ýmsir, sem lásu, hefðu orð á því haft, að vel hefði hún rituð verið. Það fyrir sig var „borgun út í hönd“, sem hún hefir unnið Íslendingum hér inn, auk margs, sem meira er vert.

V.

Á frumbýlistíð Íslands bar nýlendingurinn út eld sinn og kveikti bál svo þétt úti um auðnina, að frá einum eldi sást til annars, og gekk svo meðan sól var á lofti. Það löghelgaði eign hans á innmerkta, ónumda svæðinu, um aldur og ævi. Þannig hafa norrænir menn, einkum Íslendingar, lagt lönd undir sig í heimum ljóðs og hugsana — sérstaklega skáld og sögumenn. Svo hafa þeir kringt um allt „Hvítramannaland“, svo það bjarmar yfir til „Blálands“. Og enn eru þeir að! Þá bálköstu hafa þeir byggt út frá Norðurlöndum, yfir Frakkland og England, yfir Grænland til Vesturheims, þótt glaðast hafi logað á landi eldfjallanna — Íslandi. Verði aldrei á því uppihald! Jafnvel þó þeir þurfi að brjóta sundur og mola niður feldardálk sinn, eins og Eyvindur, til að kaupa smásíld í matinn handa sér og hyski sínu, þegar hart er í ári. Um það er ekki að fást. Það er lán úr óláni. Þannig berst silfrið út milli öreiganna við sjávarsíðuna.

VI.

Gestur vor! Við æskjum þér glaðviðra og góðrar ferðar fyrir heimsóknina og skemmtunina. Vertu sæl!

# IV. Umhleypingar.

## Menningarfélagið og Sameiningin.

„En er Heródes konungur heyrði þetta, varð hann skelfdur og öll Jerúsalem með honum.“

Þetta datt mér í hug, þegar ég las fyrstu 2 númerin af þessa árs „Sameiningu“, sem segja tíðindin af Menningarfélaginu. Slíkt fát og glumrugangur kemur tæplega yfir skynsama menn, eins og ritstjóri hennar sjálfsagt er, nema að þeir sleppi taumhaldinu við hleypidóma og frekju sér rangsýnni manna; og einmitt það hefir ritstjórann hent. Eins og sjá má af Sam., þekkir hann Menningarfél. ekkert, nema eftir sögusögn óvildarmanna þess. Reyndar ábyrgist ritstjórinn, að fréttirnar í „Bréfkaflanum úr Íslendingabyggð í Pembina Co.“ séu sannar, en ég trúi því samt ekki, að hann hefði gert það, hefði hann sjálfur verið kunnugri málinu. Að það sé postulleg skoðun hans, að saklaust sé að rangherma og villa mönnum sjónir, ef maður hyggur, að það geti orðið guði eða kirkjunni til dýrðar, vil ég ekki þurfa að ímynda mér. Ég er ofur vel kunnugur höfundi „Bréfkaflans“ í Sam. No 1. og hefi oft rekið mig á það hjá honum, að hann hefir þennan leiðinlega galla, sem margir, að öðru leyti heiðvirðir menn, eru ekki lausir við, þann galla, að geta ekki farið rétt með stefnu og meiningar þeirra manna, sem þeim finnst, að greini á við sig í trúarbrögðum; það er eins og þeir eigi þá svo fjarskalega erfitt með að segja satt.

Í þetta sinn er mér ómögulegt að elta Sam. út í alla hennar króka út af þessu máli; til þess er hvorki tími né rúm í almennu dagblaði. Ég vona, að flestir sjái annars, hvað mikið felst af þessari „menning í miklu æðra skilningi“, sem hún þykist vilja, í þessum tilvitnunum hennar í helga menn og heiðna, hvort sem þeir heita Mattheus eða Barrabas, Ingersoll eða Talmage, eða þegar hún raular á víxl „passíusálminn“ og „gamla þjóðsönginn“ úr Snót. Að segja alþýðu ögn

meira frá Rydberg, Max Muller, Girard College o. fl. væri kannske ekki alveg óþarft, úr því Sam. fór að hreyfa við því. En það verður nú að bíða. Ég ætla að snúa mér að þremur stóru ákærunum, sem Sam. beinir að Menningarfél., n. l. þessum: *að það sé vantrúarfélag, að það hafi komið því upp, að „setning“ Sam. „sé ein háskaleg lygasetning“, og að það þori nú ekki lengur að standa við sinn antikristindóm.*

Viðvíkjandi fyrsta atriðinu hefi ég áður reynt að gera grein fyrir stefnu fél. í Lögbergi nr. 13 þ. á. og ég veit ekki, hvort ég get skýrt hana betur í bráðina, einkum af því Sam., sem er komin í baráttu við vantrúna í Menningarfél., finnur sér hæfustu vopnin móti henni í bréfköflum og sögnum milliburðarmanna, en sneiðir sig hjá því, sem mest er þörf á að sýna fram á, vantrúna í forspjallinu, því það gæti ef til vill sannfært félagsmenn sjálfa um guðleysið og ofsóknirnar, sem það á að fremja. Skoðanir manna yfir höfuð á því, hvað sé nú eiginlega guðleysi og vantrú, eru, eins og flestir vita, svo fjarstæðar, að ég get ekki betur gert en tekið aftur fram aðalatriðin úr stefnu fél. og lofa svo lesaranum að dæma milli þess og Sameiningarinnar. Sé það „guðleysi“ að ímynda sér, að rétt sé að aðhyllast þá trú og siðferði, sem reynslu og þekking góðra og viturra manna hefir komið saman um að gerði manninn farsælan hér í heimi, þó maður heimti ekki, að hver einasti einn byggi það ofan á eitthvað, sem fjöldinn kynni að kalla trúarjátning sína; sé það „ofsókn“, að ætlast til, að menn geti í bróðerni unnið saman að því að gera hver öðrum þetta hversdagslíf og þennan heim þægilegri og betri, hvað sem „prestakenning“ og „biblíuleksíum“ líður; sé það „antikristindómur“ að álykta, að skoðun þess manns sé oftast meira virði, sem ekkert lætur aftra sér frá að líta á hvert málefni frá sem flestum hliðum, heldur en hins, sem samsinnir, en segist þó aldrei út í það hugsa; sé trúin, sem byggir aðeins á, að „skrifað stendur“, áreiðanlegri en sú, sem lengra hefir leitað að rökunum, og sé það „stórmennskuandi“ að vilja leysa hlekki fordómanna af manninum, jafnvel þó hann kunni að hafa rangar meiningar; sé allt þetta „guðleysi“ og „antikristindómur“, þá er Menningarfél. eflaust vantrúarfélag.

Svona er stefna félagsins, og mennirnir, sem í því eru, eru víst jafn ólíkir í trúarbragðaskoðunum sínum eins og dæmi finnast til innan sjálfrar kirkjunnar hérna. Það bannar eng-

um að halda fram trúarskoðunum Ingersolls né Talmages á fundum sínum, ef hann svo vill. Félagið hefir sömu skoðun eins og Sam., þó henni kunni að þykja það ótrúlegt, þessa skoðun, að „öll sönn menning byrji á því að læra að þekkja sig og mannlífið í kringum sig.“

Það er auðsjáanlegt, að Sam. tekur sárast til „setningarinnar“ sinnar; hún eyðir þeim ósköpum af sneiðyrðum og mælgi til að halda henni uppi. Það er versti gallinn, að höfundur „Bréfkaflans“ benti Sam. í skakka átt til að elta þennan „Barrabam“. Menningarfél. átti engan hlut að aðfinningunni við Sam., né neitt annað blað. Á fundum fél. var Sam. aldrei nefnd á nafn, þangað til hún tróð sér upp á það með því að segja tíðindin af því. Hafi nokkur maður í fél. áður lesið hana, þá hefir hann eflaust geymt hana í eins „góðu og siðsömu hjarta“ og oft gerist með sunnudagaprédikanir; það var ekki hægt að sjá í orði né atviki, að þeir hefðu veitt henni neina eftirtekt. En þetta mál er öðruvísi vaxið. Á Mountain hefir um langan tíma verið uppi einhvers konar kappræðufélag, sem er miklu eldra en Menningarfél. Á einum fundi þess, eitthvað um sama leyti og Menningarfél. byrjaði, voru íslenzku blöðin í Ameríku umtalsefnið. Þar hélt hver fram því blaðinu, sem honum hefir líklega þótt bezt; einn taldi Lögberg bezta blaðið og færði eina ástæðuna fyrir því, að það hefði tekið svari Íslendinga hér gegn blöðunum heima; annar fundarmaður barði því við, að ekki hefði þó Lögberg borið til baka óhróður um Ameríku, sem í Sam. hefði staðið. Hann átti eflaust við grein í apríl-númerinu ’87, þar sem svo er að orði komizt: „Slíka spillingu, með tilliti til lífs og hugsunarháttar, eins og þá, er hér ríkir víða í þjóðlífinu, hefir alþýða manna á Íslandi ekki minnstu hugmynd um.“ Ég hefi heyrt, að jafnvel sumum kirkjumönnum þyki þessi lýsing íburðarmikil. Það vildi nú svo til, að báðir þessir menn voru í Menningarfél., eða gengu seinna í það. Sú aðferð, að slengja því á fél., að „það hafi farið með bakmælgi“, vegna orða, sem einhverjum ekki geðjuðust, og töluð voru á opnum fundi, sem Menningarfél. átti engan þátt í, það líkist of mjög lævísisbragði, ætluðu til að siga þessum tveimur blöðum á félagið, enda tókst það vel við Sam., en öll svigurmæli hennar um „landkaup“ og „agentsnáttúru“ koma Menn-

ingarfél. ekkert við enn sem komið er; þar er hún að naga rétt í kringum sig.

Þá kemur seinasta atriðið, sem segir: að fél. þori nú ekki lengur að standa við sinn antikristindóm; sem talar um stefnu fél., *eins og nú sé búið að ákveða hana,* og ný-revideraða forspjallið. Af öllum tilraunum Sam. að gera fél. ískyggilegt, er þessi sú langvesalasta. Sannleikurinn er sá, að eins og forspjallið var fyrst samið á fundinum 4. febr. í vetur, eins er það enn í dag, svo þar er ekki orði bætt við né orð fellt úr; það vita allir, sem í fél. eru, liðugir 30 manns, og nokkrir safnaðarmenn, sem sáu það strax nýsamið. Þessi síðasta ónákvæmni Sam. hefir annars spillt meira fyrir sögunum hennar um Menningarfél. en nokkur önnur; hún er svo augljós öllum, sem þekkja til, að þá grunar, að fleira kunni að vera bogið við þær. Það er alltént varasamt að rugla meira um náungann en maður getur staðið við; það er oft vont að snúa sig út úr því og klóra ofan yfir. Ef að Sam. byggir spádóm sinn um eyðilegging Menningarfél. á þessari stefnubreyting, sem hún er að telja mönnum trú um, grunar mig, að hún komist aldrei í tölu „profetanna“, því „ófriðarflaggið“ hefir enn ekki verið vitund lækkað og allur sá „antikristindómur“, sem nokkru sinni var í fél., er þar enn, og það þorir líka að kannast við hann.

Það er eitthvað hálfskrítið við lýsing Sam. á „vantrúnni, sem syndir áfram í djúpinu“. Ég er nú auðvitað ekki „fiskimaður“, enda hefi ég aldrei heyrt getið um þess konar skepnu. En ef Sam. á við vantrúaða menn, þá er það kannske ekki nema náttúrlegt, þó þeir fari „hægt og hægt“. Fyrst og fremst ætti það ekki að vera vítavert, þó menn breyttu ekki skoðunum, sem þeim hafa verið innrættar, fyrr en eftir langa og alvarlega íhugun, því það er líklega sjaldgæft, að mönnum opinberist allt í einu allt það, sem manni kann að sýnast sannleikur síðar meir, og svo kannske kinoka sumir sér við að verða fyrir öðrum eins áburði og Menningarfél. hefir orðið fyrir hjá Sam. Það er dálítið ónotalegt, enda er víst svo til ætlazt. Það getur líka vel verið, að „vantrúin sé yfir höfuð ekki mikið fyrir það að vera píslarvottur“, en kannske að einhver vildi hlaupa yfir sögu svo sem 14 eða 15 seinustu aldanna og vita, hvort hann fyndi ekki getið um furðanlega

marga, sem einhvern veginn urðu píslarvottar þess, sem kristnir menn hafa kallað vantrú og heiðindóm. Og svo mætti velta því í huga sínum, hvor meira legði í sölurnar, maður, sem fengi svo sem $ 1000 um árið til að fylgja fram skoðunum, sem fyrir ævalöngu hafa fengið hefð, eða hinn, sem gengi „beint á móti þeim“ og tæki aðeins ónot og fyrirlitning í staðinn.

Ekki skal ég deila við Sam. um það, þó hún segi mönnum frá, að við séum „óskólagengnir bændur“. Það er því miður næstum satt, hvað skólagönguna snertir. Ég kippi mér ekki heldur upp við það, þó hún geti þess til, að við séum engir „sérlegir vitsmunamenn“. Einhver er sjálfsagt misvitur, því í Menningarfél. eru kirkjuþingsmenn, kirkjuþingsskrifarar og þess konar fólk. Og svo er nú líka hitt — og Sam. víst veit það — komi maður sér ekki saman við einhvern, og sé hann nú skólagenginn, þá er þó hægurinn hjá að kalla höfuðið á honum „ferkantað“; sé hann óskólagenginn, má allténd segja, að hann sé enginn „sérlegur vitsmunamaður“. Þannig lagaðar röksemdir geta stundum dugað vel þeim, sem vilja nota þær.

Þegar öllu er á botninn hvolft, er það annars líklega happ fyrir Menningarfél., að Sam. tók svona í þetta mál; þegar tímar líða og hugir manna sefast, geta menn kannske litið ögn gætilegar á það, og þá verða greinar Sam. greinilegur vottur um stefnuna og formennskuna í inu íslenzka kirkjufélagi. [1888]

## Um jafnrétti.

(Brot.)

Það er ekki langt síðan, að aðstoðarritstjórinn við aðstoðarkristindómsritið, Sameininguna, skrifaði hugvekjustúf um menntun kvenna í það blað. Textinn var frá amerikönskum prófessor, og bæn[ar]orðin í endann á hugvekjunni voru fyrir lútherska akademíinu íslenzka, sem er stofnað að nafninu til í Winnipeg, því það er enn þá einungis orðabygging. Menntun kvenna út af fyrir sig var því ekki augnamið höfundarins að hugvekjunni, nema af því, að kannske mátti nota hana til að skara eldi að skólakökunni. Höfundurinn tekur undir með prófessornum um kvenmenntirnar íslenzku, hve bágbornar

þær séu, og þær undirtektir skal ég ekkert áreita. Og svo fer hann að prédika, hve mikla þýðing menntun geti haft fyrir kvenfólkið, en því hefir verið oft svo fallega lýst áður í heiminum, að mann syfjar, þegar það er ekki sagt vel. En maður fer að rumskast, þegar hann fer að segja manni, að „þýðingarlaust sé að tala um jafnrétti kvenna við karlmenn, meðan þær standi þeim að baki í almennri menntun;" að það sé „jafnvel hlægilegt, að konur taki þátt í umræðum almennra mála, meðan þær vanti fyrstu menntunarskilyrðin til þess." Hann ímyndar sér, að „ekkert særi tilfinning skynsamra kvenna meira en það", og líklega af brjóstgæðum við tilfinningarnar í skynsömu stúlkunum (það sem þær heimsku finna til, snertir ekki stórt við ímyndaninni hans) vill hann binda enda á allar umræður um þetta mál; og eins og hann hafi verið að hlusta á eitthvert sóðalegt orðbragð eða blendnar kýmnisögur, sem tvísýnt sé, að samrýmist við kristindóminn hans, sker hann upp úr, að „bezt sé að hætta slíku tali".

En hvers vegna heldur nú höf., að kvenfólkið standi að baki karlmannanna í menntun? Ja, það er spurningin, sem hann sneiðir hjá. Hver hefir verið algengasta *hvötin* til þess menn leituðu sér menntunar, kæmu sér á skólana, þar sem menntunin er seld, eða foreldrar sendu börn sín þangað? Var það ekki almennast in næstum óbrigðula von um þægilegri, glæsilegri, heiðarlegri lífsstöðu en inn svokallaði menntunarlausi almenningur varð að sætta sig við? Voru það ekki embættin, brauðin, frakkinn, þérugheitin, þessi jarðneski líkami, sem ekki þyrfti að krossfesta með grófri vinnu og erfiðisstrengjunum, hversdags-fínu fötin og hversdags-hreinu hendurnar? Vissulega, sú hefir hvötin verið almennust: Enn þann dag í dag stúdera menn fyrir „brauðin" á Íslandi, segja kirkjufeðurnir hérna, og segja það satt, því enn þann dag í dag ganga flestir menn alls staðar í heiminum á skólana annað hvort í því skyni að geta lifað af því seinna eða til að geta verið menn með mönnum í samkvæmislífinu. Það kemur þessu máli ekkert við, þó til sé önnur æðri menntunarhvöt, sem ætti að vera sú almenna. Það eru fæstir hugsjónamenn, að minnsta kosti áður en þeir verða menntaðir. Allur fjöldinn í skólunum menntast þar á sama hátt eins og strákur, sem að treður í sig langri og leiðinlegri grein í kverinu, af því honum er lofað brauðbita, þegar hann sé búinn. En hefir

ekki einmitt þessi almenna hvöt til að menntast einmitt verið tekin frá kvenfólkinu með því að útiloka þær frá embættisvoninni, með því að taka frá þeim jafnréttið til að hafa ofan [af] fyrir sér í sömu stöðu og karlmennirnir, eftir að hafa lagt jafn mikið á sig og náð sömu menntunarhæfileikum, sem af karlmönnunum voru heimtaðir? Því getur enginn með sanngirni neitað. [ca. 1888]

## Karólína um „kristnu skáldin".

Hún Karólína okkar Dalmann hefir í 9. nr. Lögbergs þ. á. sent mér resept fyrir því, hvernig „kristin skáld" settu saman eftirmæli, samkvæmt hennar kokkabók. Ég ætla mér ekki að færa fram neina vörn fyrir kvæði eftir sjálfan mig, sem hún talar um í sambandi við það, sem hún segir, að sé siður „kristinna skálda". Aðeins get ég ekki notað reseptið hennar, þó það aldrei nema *sé upp í móðinn,* og hefi heldur enga ágirnd á nafninu „kristið skáld", eins og Karólína virðist skilja það orð. Annars er sú dyggð, að kveða lof um dauða menn, engan veginn einkenni á „kristnum skáldum" einungis; fornskáldin heiðnu gerðu það líka í drápum sínum, þó Karólínu sé það ókunnugt. — En það er eitt í greininni hennar, sem ég vildi minnast á. Karólínu Dalmann er það kunnugt, að ég er í kirkjulegum skilningi vantrúarmaður, en það hefir verið staglazt á því, og margstaglazt, í ræðum og ritum kirkjumanna hér vestan hafs, að vantrúarmennirnir sjái ekkert nema einlæga dimmu og dauða og skoðun þeirra á lífinu sé framúrskarandi huggunarlaus, auðvitað í mótsetning við alla blessaða birtuna, vonina og huggunina hjá kirkjumönnunum. Eins og við var að búast, hermir Karólína þetta eftir og hnoðar því inn í ofurlitla bögu til mín, seinast í grein sinni. Hún hefir, náttúrlega, aldrei lesið kristin fræði svo vel, að hún hafi tekið eftir því, að jafnvel skáld eru látin segja í biblíunni, að „maðurinn fæðist til eymdanna, eins og fuglarnir til að fljúga í loftinu", og þegar hann deyr, búast þau stundum við, að við honum taki, „land, dimmt sem myrkur dauðans skugga, þar sem engin skipan er á og þar sem að skin er eins og dimma", og komast jafnvel svo langt, að ítreka hvað eftir annað, að maðurinn sé „hégómi". — Karó-

línu Dalmann er það sjálfsagt nýjung, að mesta trúarskáld Íslands kvað aðrar eins hendingar og þessar:

„Hvað er mann nema mold og jörð,
Maktarlaus, dofin, þurr og hörð ....“

„Ævin með sorgum áfram dregst,
Endar loksins með dauða ....“

„Gröfin ofbýður oss —
Ekki er það léttur kross ....“

„Nú vill það harla heitt
Huga minn beygja,
Ég á það eftir eitt
Enn nú, að deyja ....“

Sá, sem þetta orti, hefir kveðið meira um fánýti alls þess, sem menn almennt sækjast eftir í þessu lífi, og málað þjáning dauðans dekkri en nokkurt annað íslenzkt skáld; hann varð að hugsa út fyrir þennan heim og þetta líf, til að finna nokkra huggun og birtu. Mest furða er þó, ef Karólína skyldi ekki kannast við hendingar úr ljómandi fallegum, gömlum, kristilegum sálmi, sem er svona:

„Svo stutt, svo fallvölt ævin er,
Að einkum líkja henni ber
Við skjótt burt horfinn skugga.
Vort æviblóm er sorg og sút,
Og svo sem grasið vallar ....“

Karólína kann þó líklega eitthvað af vísum eftir „kristin skáld“, fyrst hún treystir sér til að segja svo ákveðið, hverjum „sið“ þau fylgja, þegar þau yrkja eftirmæli. Þetta eru fá af ótal dæmum af birtunni yfir skoðunum sumra „kristnu skáldanna“ á lífinu og dauðanum, tekin úr biblíunni, kvæðum Hallgr. Péturssonar og sálmabókinni íslenzku, því þau rit getur ekki Karólína Dalmann borið neinar brigður á, að séu kristileg. Ég veit ekki, nema henni finnist Matth. Jochumsson vafasamur í kristninni, og tek [hann] því bara sem nýtt dæmi í skáldskap. Í einu af inum fegurstu kvæðum sínum, „Eftir barn“, ávarpar hann menn yfir höfuð svona:

„Hvert hrós átt þú um hundrað ár,
Og hver mun spyrja að þér?“

Eitt er auðvitað hægt að gera, fyrir þá, sem það kunna, hvort sem þeir eru trúaðir eða ekki, það er að koma sér upp tveimur skoðana-stökkum og fara í annan, þegar maður yrkir almenn kvæði, en hinn, ef maður kveður eftirmæli, eftir því sem bezt á við, og það veit ég, að Karólínu myndi þykja vel farið. Hitt er tómt flapur, að skoðun manna á lífinu og dauðanum hérna megin grafarinnar fari alveg eftir því, hvort maður getur fallizt á vissar kristnar kreddur eða ekki, sé trúaður eða vantrúaður. Kristnum mönnum og heiðnum verður dauðinn ævinlega jafn geigvænlegur, af því mönnum er það náttúrlegt, og hvorutveggju hafa sömu tilfinningar, sem fæstum tekst að kæfa til fulls með neinum trúarbrögðum né heimspekiskoðunum, hve gyllandi sem þær kunna að vera. Djúpur söknuður, þjáning og þreyta kunna að sætta mann við dauðann fyrir sjálfan sig eða aðra; það er ekki sjaldgæft. Kristna trúin, með líf eftir þetta og eilífar kvalir jafnhliða, sem bregður vantrúnni, sem fyrir hvorugu gerir ráð, um að hún sé dimm, er eins og blámaður, sem brigzlar hverjum manni, sem hann mætir, um að hann sé svartur.

Ég leiði hjá mér atyrði Karólínu til mín í greininni hennar. Um hitt get ég ekki stillt mig, að benda henni á, að allt þetta vol um „blóð“ og „tár“ er stök smekkleysa í annarri eins grein. Það er alltof mikil mótsetning til þess, að vel fari á, að stökkva í annan upp úr þurru, berjast við að kalla hann níðing, hjartalausan, tilfinningarlausan o. fl., og æpa svo upp, að maður þoli varla að standa í þessu, maður sé að verða allur sár og blóðrisa. Annað hvort er að hafa nóg vit til þess að hætta sér ekki í klærnar á slíkum illfyglum, ellegar að vera viðbúinn að „þiggja, taka, endurgjalda“, alveg skælulaust, og Karólína ætti nú orðið að hafa nóga reynslu til þess að láta ekki egnast til að vera að leika *kómedíu,* ef hún getur ekki gert það nema með raunasvip, því annars er leikið allt of mjög utan við sig.

Að endingu get ég sagt henni það í fullri einlægni, að ég er fús að svara henni, jafnvel á prenti, og eftir tíma og ástæðum, hvenær sem hún finnur hvöt hjá sér til að ávarpa mig út af skoðunum mínum; meira að segja, langi hana til að eiga seinasta orðið, skal ég kenna henni ráð til þess: hún þarf ekki annað en að „byrla mér“ greinarstúf um það eingöngu, að ég

sé ekki kristið skáld, heldur hjarta- og tilfinningarlaus níðingur; því út af því sérstaklega hefi ég ásett mér að deila við engan mann, allra sízt Karólínu Dalmann; þar skal hún eiga „autt og tómt rúm“ fyrir mér. [1893]

## Skrifað upp Jóni Einarssyni til minnis.

„Og eigi þótti mér síður spaugilegt, þegar ég sá í Hkr. kynbæturnar á orðin „Vor“, sem ég minnist eigi að hafa séð ættfært öðruvísi en sem hvorugtkyn, en sem nú var ritað í Hkr. sem kvenkynsorð.“

*Jón Einarsson* í „Blaðakaunum“.

Það sem þessi Jón á við, eru eflaust þessar hendingar úr vísunum „Gesturinn“, eftir mig, sem prentaðar voru í Heimskringlu:

— — — Komin til vor
Er unnustan ástar og kvæða:
Hún andheita, fjöruga Vor.

Það er spauglaust að þurfa að minna kennara sína á. Ég geri það líka af handahófi og alveg utanbókar.

„Vetur efra ég eygi.
En ið neðra ég sé
*Mey*, sem höfuð hneigir
Hýr í föður kné.
Hallast *vorið* vetri nær.
Karls við freðið klakaskegg
Kærust *dóttir* hlær.“

Þessi vísa er eftir Steingrím Thorsteinsson. Hún er margsinnis prentuð og nærri í hvers manns munni.

Ég trúi, að Þjóðverjar nefni stundum vorið „Frühjahr“, og ef til vill „Lenz“, og það kváðu vera hvorugkynsorð. Svo er mælt þeir nefni það líka „Frühling“ og það er „ættfært“ sem karlkynsorð.

„Meyjan af ókunna landinu“ er fyrsta kvæðið í Svanhvít, íslenzkaðri ljóðabók. Það kvæði er eftir Schiller, og er ort um vorið. Svona byrjar það:

„Í dal þar hjarðfólk örsnautt undi
Kom alla tíma vors með þey,
Er fuglar kváðu fyrst í lundi,
*Ein fríð og undursamleg mey.*

Í afdal þeim *hún* ei var *borin*
Og óvíst hvaðan kom *hún* að.
Á huldu vóru *hennar* sporin,
Þá *hún* úr dalnum fór af stað.“

Það er líklegt, að einhver þýzkur Kauna-Jón í málfræðinni hafi sett út á þetta, þó ég viti ekki um það. En lítill hefir árangurinn orðið, því enn er Schiller talinn merkishöfundur Þjóðverja, og þetta kvæði með inum fallegri af smákvæðunum hans.

Schiller kveður um vorið sem „fríða og undursamlega mey“; Steingrímur sem „dóttur vetrarins“ — og ég sem „unnustu ástarinnar og skáldskaparins“. Það munar eflaust miklu um skáldskap minn og þeirra, en meðferð málsins er lík hjá okkur öllum, og nú ætti Jón Einarsson að ranka við því.

Það ætla ég, að vorið sé nefnt „Spring“ á enska tungu, og það segja menn mér, að sé hvorugkyns orð líka. Þessu líkt kveður þó Tennyson í „Progress of Spring“:

„Komdu vor ....
*Hún* kemur — leystir lækir renna af stað —
Með ljósgult hár úr klakaflettum greitt;
*Hún* lausan möttul limum sveipar að
Úr ljósi og gróðri, en svalann getur leitt
Um brjóstið bert og heitt.“

Hér er vorið kvenkennt, alveg umsvifalaust. Víða hefði Jón Einarsson þurft að hrífa um kaunin. Það er annars hverjum manni ljóst, sem um það hugsar, að af því vor og sumar eru fegurstu árstíðirnar, hafa skáldin kvenkennt þær, ef þeir lýsa þeim með mannseinkennum eða sem ímynduðum verum.

Sumir fræðimenn beita dómgreind sinni helzt til þess að skoða undir rófuna á einstökum orðum. Það er eflaust vísdómur út af fyrir sig, en sjaldan eru þeir menn andlega glöggvir.

Skáld, eins og Steingrímur, Schiller og Tennyson, brjóta

stundum málvenjuna til að auðga hugsanina, fegra formið, auka áhrifin.

Það er hverjum manni sæmd að hafa vilja og vit til að verja móðurmál sitt lýtum. Hinu má maður þó ekki gleyma, in dýrasta auðlegð hvers tungumáls liggur fremur í yfirgripsmiklum hugsunum en tómum málfræði-útbrotum. Sá sem leggur það í vana sinn að glypja niður langa orðalopa af efnisleysu, spillir tungumáli sínu, þó orð hans og greinaskipun sé málfræðilega rétt og standi keiprétt, eins og tóm eggjaskurn í náttúrugripasafni.

Sá sem eykur einni einustu snjallri hugsun inn í málið sitt, hefir unnið því stórgagn, jafnvel þó hann hafi brotið með því eitthvert boðorð í málfræðinni þess.

En því næ hvorki ég í kvæðinu „Gesturinn“ né Jón Einarsson í athugasemdinni sinni við það. [1899]

## Út af eftirmálum við Jón Einarsson.

### I.

Jón Einarsson hefir útkljáð kynjamál sitt, um vorið, í 48. blaði Hkr., nýprentuðu. Svo fitjar hann upp ýmis eftirmál. Ég skal ekki kinoka mér við að svara þeim heldur; um margt má skrafa, meðan Hkr. hrekkur til.

Árangurslaust er að kvarta um það við mig, að frelsi blaðakaupenda til að spauga og skellihlæja sé að réna. Ég hefi aldrei beitzt fyrir neinu slíku ofbeldi, eins og allir vita. Sé einhver að þess konar ónotum og haldi hann geri mér þægð með því, má Jón skila frá mér, að ég hafi ömun á þeim firrum, og vorkenni honum, þó hann svari mönnum út í hött, ef hann fær þess ekki ráðið að láta liggja vel á sér. Ég hefi heldur ekki haldið því fram, að Steingrímur skáld hafi sagt þessi tvö orð, sem Jón á einn og hefir gæsarlappað sér í Hkr. Þau eru heldur ekki útgengileg og mig grunar, að enginn ágirnist þau.

Ég hefi aldrei látið á mér heyra, að Schiller né Tennyson hafi kveðið á íslenzku eða látið sér annt um hana. Þeir rituðu skyldmál hennar, sem hafa til samkynja nöfn yfir vorið og hún, en að því fóru samt þessir menn ekki, ef þeir töluðu um vorið í persónugervi, fremur en margir, sem rita ósnjallar.

Hvort ég hefi lesið verk þeirra, varðar engu; ég minntist ekki á það til né frá.

Það er lítil frægð að geta gleypt stærri bita en aðrir né hraflazt fram úr meiri bókamergð. Hitt skiptir máli, hversu gott lag maður hefir á að beita sér til andlegs gagns því litla, sem maður hefir lesið, ef á reynir.

Eins og orð hefir leikið á, er kannske heimurinn, og Jón með, svolítið breyskir. En að þeir fari ævinlega að hugsa um eitthvað ljótt, ef þeir sjá rófu, finnst mér getsök; ég trúi því ekki, og afsegi líka að bera ábyrgð af þeirra vondu hugrenningum.

Ekki skal ég dæma um, hvort ég hefði átt að tala vægra. Hitt var örðugt að láta Jón njóta þess, sem mér var hulið. Nánustu kynni, sem ég hafði af honum, voru þau, að hann hártogaði orð úr smákvæði eftir mig og reyndi að nota það sem sýnishorn af málspjöllum blaðs, sem mér er hlýtt til og sem bæði fleygir og hálffiðraðir málfræðingar vestan hafs hafa sífellt verið opinberlega að draga að fyrir illa ritað mál. Í grannleysi tók ég þetta ekki fyrir eftirlætismerki og svaraði því eftir föngum og fullum hálsi. Jón getur, óséð og yfirheyrslulaust, borið vitni um, að ég kunni íslenzku og þekki ekki þýzku og önnur mál; hann er ekki einhama í tungumálaspekinni. Sá er munur okkar, að ég hvorki sé né heyri betur en það, að ég veit ekkert, hvað Jón er að stauta, né hvað hann segir um kvæðin mín við kunningja sína þúsund mílur frá, austur í Winnipeg. Ég get hvorki látið hann njóta þess né gjalda, fyrr en hann segir mér það sjálfur, fyrstur manna, í Hkr. Mér er eins og öðrum hlýtt til þeirra manna, sem hlýlega hugsa til mín, og segi því: Guðsást fyrir mig, Jón minn góður! Lengra næ ég ekki í bráðina.

Þó get ég ekki varizt að minnast enn á eitt. Ég tók það fram, að meðferð málsins væri ið eina, sem svipaði saman hjá mér og skáldum þeim, sem ég nefndi. Jón laumast á bak við það, en reynir að smeygja því inn í huga lesara síns, að ég áliti mig þeirra mestan. Það er viðsjáll ritháttur, þeim sem heita vill góður drengur. Það er of göngukvennalegt að dylgja að ástæðulausu um hugsanir annarra, þó þeir séu einir til frásagna.

Því, sem ósvarað er af grein Jóns, vík ég af með þeirri glettni, að þegar marglytta rennur á færið manns, verður hún

að leka af sjálfkrafa; það væri heimska að reyna að festa fingur á henni. Samt efast ég ekki um, að Jón sé fræðimaður og mesta dyggðablóð, þó mér þyki hann klárvígur í vorönnunum. [1899]

## Kveðja.

B. L. B., ritstjóri Heimskringlu, henti að mér hnútu í blaði sínu 15. þ. m. upp úr þurru og alveg að óþörfu. Hann kveður mig hafa sent sér „skamma-þvætting", sem hann geti ekki í blað sitt tekið, bregður mér um kurteisisskort við sig og vísar mér á bug frá blaðinu, nema ég geti „göfgað elli mína."

Að B. L. B. neitaði kvæðinu upptöku, gildir mig alveg einu. Hvernig hann lýsir því eða mér, liggur mér í léttu rúmi.

En hugsum okkur ögn um ... B. L. B. hefir nú í háa tíð sent mér Heimskringlu gefins, og í þeirri gjöf borið þjófnað, svik og lygar fimmtíu og tvisvar sinnum á einu ári á þann stjórnmálaflokkinn, sem ég hefi greitt atkvæði með. Ég hefi ekki virt honum það til ókurteisi og aldrei um það fengizt. Fáeinar línur frá mér í eitt skipti, og gefins eins og margt fleira, en ef til vill heldur svipaðar hans eigin orðbragði, hleypa honum svo upp, að hann vill reyna að gera hávaða úr því, ef hann gæti. Hvor okkar er kurteisari, eigi það orð annars nokkurs staðar inn í þetta mál? Það getur vel verið, að vísurnar, sem ég sendi, hafi verið skammir. Flokkum eins og mönnum getur orðið það til skammar, að satt sé um þá sagt. Þvættingur eru þær ef til vill líka. Þetta voru þrjú örstutt erindi og að því leyti ólík sumu stjórnmála-skolinu í Heimskringlu. Hvað sem þessi „elligöfgun" þýðir, þá hefir ritstjórinn sjálfur líka reskzt og skekkzt, svo þegar ég er orðinn biðukolla, verður hann varla fífill. Það sem mér sárnaði við B. L. B. er hvorki úthýsingin né ummælin, heldur *aðferðin*.

Í mörg ár hefi ég sent honum og nokkrum ísl. blaðamönnum öðrum ýmislegt í ljóðum, oftast fyrir ósk þeirra sjálfra, en ævinlega tekið það fram í byrjun, að þykkjulaust væri frá minni hlið, þó mér yrði sent það aftur ónotað. Ég vissi, að blaðstjórn var víða sund milli skers og báru — hreinskilninnar og inntektanna. Ég þekkti sjálfan mig að því að fara ekkert eftir því í kveðskapnum, hvað vinsælast var í bráðina.

Mér var aldrei annt um það, að vinir mínir legðu vinsæld blaða sinna í veð, mín vegna — ekki einu sinni fordómafylgið og flokkadrátts-sleikjurnar. Jafnvel illgresið í ökrunum verður að standa til kornskerutímans, hvernig sem manni fellur það. Ég ætlaði aldrei að þykkja né þræta í heyranda hljóði frávísan neins blaðamanns. Það varðaði engan neinu nema hann og mig. Væri mér kappsmál að halda samt áfram, vissi ég hvar ég myndi fá að vera og mér var sama hvar ég gisti, að öðru en því, að setjast ekki upp á aðra í óþakklæti.

Hefði B. L. B. prentað kvæðið og skammað mig um leið, var ekkert að. Hefði hann stungið því undir stól þegjandi, hefði ég ef til vill spurt hann um það löngu seinna; hann hefði svarað þessu sama og nú, ég hefði aðeins glott að því og ekki hugsað honum verra en: Ó, vesalingur! Þannig hefðum við sleppt því máli.

Hefði B. L. B. sent mér erindin aftur, athugasemdalaust, eða með þeim — vondum eða vægum, hefði ég metið það kunningjabragð. Skylda hans var það ekki, ég sendi engan burðareyri. Einn ritstjóri Heimskr. bannaði mér það, kvað það óþarft milli gamalla máta, eins og mín og hennar. En ritstjórinn valdi það ráð, sem verst átti við mig. Tók sumt, sem ég sendi honum í þetta sinn, og sendi mér svo opinbera illkvittni fyrir það, sem hann leyndi lesendurna, hvað var.

Ég hefi ofurlítil bréfakynni af öðrum ritstjórum en B. L. B., en ekki get ég ímyndað mér, að neinn þeirra hefði beitt mig þessu bragði, eftir sömu sextán ára samskiptin við blaðið hans. Að vísu veit ég það ekki. — B. L. B. er eina lifandi dæmið, sem ég hefi fyrir mér.

Einstaka maður hefir látið svo sem sér hafi stundum orðið óleiðara að lesa Heimskringlu fyrir það, að hún færði þeim línu frá mér endur og eins. Sé það svo í raun, bið ég hjartanlega að heilsa þeim mönnum öllum, og þakka þeim fyrir þá velvild til íslenzkra ljóða, sem virðir til góðs þá tilraun að stytta þeim stundir, sem maður veit sjálfur, að oft kann að vera um orku fram og að allar kringumstæður hans hafa lagt þar einhvern þröskuld í veg fyrir. Ég geng að því vísu, að þeim mönnum, sem hlýjast kann að vera til mín, þyki ekki, að ég hafi slegið allt af setningi. Ég er ekki svo blindur að búast við öðru, og sendi þeim nú alúð mína eins fyrir það. — Því „Kringlu“ hefi ég kvatt — ekki vegna þess, að hún er

blað afturhaldsflokksins — ekki vegna þess, að hún hefir á efri árum sínum stundum ausið það botnleysis-vaðli, sem mér frá mínu sjónarmiði leizt helzt eitthvað gott efni í — ekki vegna þess, að hún varnaði mér rúms fyrir lítilfjörlegt smákvæði — heldur er það vegna hins, mér gramdist við B. L. B. og ætla framar ekkert að eiga undir þessu öðru hvoru: nærgætni hans eða drengskap sem ritstjóra. [1906]

## Í veðrinu út af „Vafurlogum“.

Getið þið heyrt mig um hálfyrði, allir sem leyft er að lesa Baldur — þið únítarar og aðrir lausaliðar, sem haldið því fram, að oft sé breyting til batnaðar.

Ég kem til að segja ykkur eins og er um sjálfan mig. Ég vil helzt unna öllum sannmælis, andstæðingum eins, og það þó þeir séu ekki gamlir sveitungar mínir og leikbræður, og þó hefir það aldrei verið að mér fundið, að ég væri ekki nógu vondur.

Það hefir verið tvítekið í blöðunum nú nýlega, að séra Friðrik Bergmann hafi einhvern tíma gert mér ómaklegan grikk, og er þá víst átt við ritdóm hans í „Aldamótunum“ sálugu um bækling eftir mig, sem heitir „Á ferð og flugi“. Hvort sá ritdómur er réttur, er sök sér, en þá voru aðrir mér illvígari en séra Friðrik, — þess verður maður þó að geta.

Mér er aldrei ánægja að ýfa upp gamlar skærur, nóg er af þeim nýju, ef maður hyggur, að orðum sé á þær eyðandi. En um dómana um „Á ferð og flugi“ vil ég nú geta, eins og þeir gengu.

Það hefir verið sagt um Söru Bernhard, leikkonuna misfrægu, að hún hafi eitt sinn eignazt krakka, án þess að viðhafa suma þá formála, sem almennt er ætlazt til að boði barnsfæðingar. Seinna, þegar Sara hafði náð sér aftur og vinkonurnar voru að heimsækja hana, tók hún þeim tveim höndum, eins og gestrisnin og glaðværðin gera, sýndi vinkonunum herbergin sín, hátt og lágt, og alla sína muni og menjagripi, en þegar það var á þrotum, hafði hún þetta að viðkvæði: „Nú á ég bara eitt eftir, að sýna ykkur litlu tilviljanina mína“, og svo lét hún færa þeim krakkann til skoðunar og skrafs og ráðagerða. Það hafði verið stungið saman ýmsum nefjum um

þetta í kvenfélögunum í Parísarborg í þá daga, eins og vonlegt var.

„Á ferð og flugi“ var litla tilviljanin mín, að því leyti, að ég bjó það aldrei út sem bók. Ég ætlaðist til, að það kæmi fram í tímariti, ef svo vildi verkast. Um það leyti sem ég lauk því kvæði, átti Jón Ólafsson ritstjóri yfir tímariti að segja, að nokkru leyti. Jón hefir reynzt mér tryggðatröll um dagana. Síðan ég fyrst settist upp og kvað í „Kringlu“, hefir hann haldið í hönd með mér. Það getur hafa verið um verðleik minn fram, en það tekst nú svona til stundum, eldri menn og reyndari skjóta skildi fyrir einhvern, sem er yngri, ekki vegna þess að sá yngri hafi unnið til þess, heldur vegna þeirrar vonar, að úr honum kunni að rætast, og á þann hátt hefir Jón Ólafsson ævinlega verið einstakt barngóður. Þegar Winnipeg-„Öldin“ hans hafði meðferðis flokkinn „Úti á víðavangi“ eftir mig, varð Jón til þess að fá sérprentuð 200 eintök af þeim kvæðum, án þess ég hefði beðizt þess né búizt við því. Þessi eintök öll voru mér send að gjöf, og vinir mínir ýmsir tóku að sér að bralla þeim út í almenning okkar hér, sem er bæði seinlegt verk og leiðinlegt, jafnvel þó varan hefði verið betri. En mér kom þetta vel, ég græddi á því um tuttugu dollara, alveg ófyrirsjáanlega, eins og ég hefði dottið ofan í féþúfu, og þurfti í þann svipinn á því að halda. Eins fórst Jóni við mig í meðferð sinni [á] „Á ferð og flugi“. Liðugt ár hafði liðið, síðan ég hafði sent það, en ekki varð ég þess var, að til þess hefði spurzt. Ég var farinn að óttast, að það hefði sokkið í sjó eins og silfurkerin. Samt hafði það flotið eins og soðbollarnir, — en Jón hafði búið það út sem bók, og vandað til verksins, og svo sendi hann mér að gjöf hingað vestur helming alls bókarstofnsins. Ég átti að eiga hann fyrir erfiðið að hafa ort.

En, svo er nú Jón samt sök í öllum vitleysunum, sem hverjum okkar fyrir sig sýnist að hafi verið sagðar um þetta kver, að séra Friðriks syndum meðtöldum, sem þangað eiga rót sína að rekja. Af því að Jón sendi út kvæðið sérstakt, varð það blaðamönnum að umtalsefni, en þeir hefðu þagað um það, hefði það tínt sig fram í tímariti. Það er víst ein af þeim niðurröðunum í náttúrunni, sem Balle kenndi okkur Íslendingum, að ekki væri almættinu unnt um að breyta, því annars gengi allt aflaga.

Þegar „Á ferð og flugi“ var fætt svona, hófst ofurlítil umræða um það í París Íslendinga, Reykjavík, af blöðunum Ísafold og Þjóðólfi, eins og vonlegt var. Einar Hjörleifsson minntist á það í Ísafold, og „G“ með svarta punkta gat þess í Þjóðólfi, og ritstjórinn prjónaði svo neðan við hann.

Ritdóm Einars mætti spyrja úr ýmsum spjörum, en þó var það enginn illgirnisdómur, hann sagði ýmislegt heldur hlýlegt í minn garð, en það kemur ekki þessum samanburði við. Nú kemur það, sem hann fann mér til foráttu, orðrétt, nema áhrifalausar orðalengjur, sem ég tek úr, og þá er það svona:

„Búningur svo þunglamalegur, að óvenjulega örðugt er að gera sér grein fyrir, hvað verið er að segja, hvort það er vit eða vaðall.“

„Þessi ferðaljóð eru, fremur öllu öðru, grimmileg árás á allt það, sem höfundinum er illa við.“

„Öllu meira vindhögg minnist ég ekki í svipinn að hafa séð. Þar er skortur á menntuðum skilning, svo átakanlegur, að það liggur við að vera grátlegt.“

„Eitt þori ég afdráttarlaust að segja, að ekkert vindhögg getur verið meira á vestur-íslenzku prestana.“

„Og jafnlítill sannleikur eins og er í ákærunum á hendur þeim um stífni og þvergirðingsskap.“

Sannleikurinn í aðdróttunum Einars um menntunarleysi mitt og skilningsskort veltur aðeins á þessu, hvor okkar tveggja skildi betur sína samtíðarmenn og sagði sannara. Þar er ekki um annað að þrefa.

Ásteytingar-hella Einars var lesin út úr þessum línum hjá mér: „En kirkjunnar rógur og kryt út úr því, hver Kristur í fyrndinni var,“

Af mildi sinni og miskunnsemi var Einar til með að reikna mér ekki orðið „rógur“, sem hann sagði að væri illyrði. Þessar hneykslanlegu hendingar mínar áttu við þetta: Milli forneskjunnar og fríhyggjunnar hjá Íslendingum í Vesturvegi var oftast deilt um eðli Krists og Guðs. Á þeirri kjarna-kreddu spreyttu þeir sig allir, og sérajónskan gekk af göflunum strax. Í ræðum og í riti varði hún ekki einungis sínar sérkreddur, það var sjálfsagt og rétt, en hitt var verra, hún freistaði þess við flest færi að smeygja því inn í alþýðu, að drengskapur þeirra manna, sem ekki samsinntu henni um trúarjátning, væri voðalegt vafamál. Kjarninn í þeirri kenning var sá, sagð-

ur í fáum orðum: „Frá þeim mönnum, sem hafa svona lausar lífsskoðanir, er alls ills að vænta. Þó þeir sýnist vera sómamenn og virðist vilja láta gott af sér leiða, eru þeir aðeins þeim mun hættulegri fyrir sannleik og kristindóm. Kristnir menn mega ekkert undir þeim eiga neins staðar.“ „Sameiningin“ bar þessu vott, nennti maður nú að snapa það uppi. Út úr helgidagahugvekjum íslenzku prestanna las maður það, en maður hefir það aðeins á minni sínu nú. Þær þorskhöfðaprédikanir komu aldrei út. Þessi grunsemi var grædd út, í samræðum og heyranda hljóði, þar sem sérajónskan þorði. Og þetta nefndi ég róg. Ég var nákunnur flokki þessara „lausu-lífsskoðana-manna“, og það var á vitund minni, að í öllu því, sem menn nefna drengskap, væru þessir menn nær því að vera það, sem ég ímynda mér, að mennskir menn eigi að vera, heldur en kirkjufélags-meðaltalið. Ég þóttist sjá fram á, að þessi byrjun myndi enda á „klippt eða skorið“ kerlinganna sælu, í öllum allsvarðandi málum Íslendinga vestan hafs. Hefir það, undir niðri, aldrei reynzt svo? Að Einar hafi æðri skilning, getur vel verið. Að þetta mál hafi farið utan og ofan við hann í þjónustu Lögbergs forðum, er líklegt. Eflaust er eitt víst, hann vann ekki bókareið sinn í Ísafold um skilnings- og menntunarleysi mitt í illu augnamiði.

Svo ritaði Einar heldur ekki heimildarlaust. Seinast tók hann sem vitni þá Tolstoj, Renan, Goethe og Napoleon. Ég hefði nú eins tekið ofan, þó Einar hefði ferðazt einn. Auðvitað þekkti ég ekki þetta föruneyti hans, en ég hafði illan beyg af Napoleon. Ég hafði ávænu um, að einhver sá, er svo hét, hefði verið vígamaður. En svo hélt ég kannske, að Einar ætti ekki við það. Í „Sumargjöf“ Páls heitins Sveinssonar las ég á yngri árum grein, sem hét „Dómur Napoleons um Krist“, og á ritstjórnardögum Einars hér sá ég svipaða fyrirsögn í Lögbergi, en las ekki það, sem undir henni bjó. Ég hefi ekki neitt af þessu undir höndum nú. En átti Einar við það? Það sem kallað er „Dómur Napoleons um Krist“ er fyrir löngu síðan talið að vera tilbúningur einn, af mönnum, sem um það þykjast fróðir. Sjálfum er mér sama hvort er og sel ekki dóminn dýrra en ég hefi keypt hann, og kann öllum þökk fyrir svona broslegar bendingar.

Svona sagðist Ísafold. Þar næst kom Þjóðólfur. „G“ með skuggann í skottinu skar upp þennan dóm:

„Sögukorn sitt hefði St. G. St. ekki átt að ríma. Hann rímar oftast illa og gerir rímið þá ekkert annað en spilla fyrir. ... Svo er St. farinn að „persónifisera“ alla skapaða hluti, líkt og Guðmundur Friðjónsson. Mætti virðast, að komið væri nóg af svo góðu, þótt St. færi ekki að bæta við. Þá eru mestu feikn af óskiljanlegum dylgjum og langar romsur, ekkert nema orð, sem enginn skilur, nema kannske einhverjir „innvígðir“. Smekkleysur í setningaskipun og hortittir keyra fram úr öllu hófi. Kvæðið „Kveldskuggar“ er einn langur hortittur frá upphafi til enda.“

Ég efast ekki um, að „G“ hafi sagt þetta eins satt eins og hann hafði vit á. En það sem rýrði ritdóm þennan var, að mergur málsins voru snuprur til Jóns og Einars fyrir að hafa sagt nokkuð annað en last um mig. Hann var í rauninni að stikla á mér til að ná að stjaka við þeim. Og ekki hafði ég þó troðið um tær á trúarbrögðum hans, því hlægilegri sagði hann að Einar væri en ég af „að docera“ í nærri tveim dálkum um þá blessun, „sem kristindómurinn hafi fært yfir land og lýð.“ Þannig stóð hann þá af þeirri átt.

Ritstjórinn vildi milda úr málum. Eflaust var hann góðgjarnari en „G“; þó hann segði sér virtist ritdómur hans á allgóðum rökum byggður, vildi hann þó muna við mig eitthvað annað, sem skár hefði tekizt, og um það gat hann svo með velvildarorðum. Svo sagði hann það væri leitt, sem Einari fannst nærri grátlegt, nefnilega sá villustígur, sem ég væri kominn á í kvæðinu „Á ferð og flugi“.

Um sama leyti var „Bjarki“ Þorsteins Erlingssonar ennþá uppi. Ekkert blað hefir tekið kveðskap mínum hlýlegar en Bjarki heitinn. Þar þurfti ekki að gruna um neina græsku. Bjarki minntist eitthvað á „Á ferð og flugi“, vingjarnlega og lagði því ekkert verulegt last, en hitt var hægskilið, að Bjarka þætti það vonum lakara.

Svona blés austanáttin, og þá tóku við vestanveðrin, og í þeim var séra Friðrik auðvitað rosasamastur með öll „Aldamóta“-harðindin. Kristján Á. Benediktsson ritaði undir nafni sínu grein um þennan bækling minn í Heimskringlu og lagði gott eitt til hans. Sama gerði ritstjóri „Freyju“. En séra Friðrik gerði þessa grein fyrir göllum hans og mínum:

„Stefán er þungur og torskilinn — langoftast, og það er eins konar dapur og myrkur blær yfir ljóðum hans ... ekki

neinn angurblíður raunablær. Það er eins og hann horfi á ranghverfu hlutanna, hefir því allt á hornum sér, og maður freistast stundum til að ætla, að honum sé meinilla við alla tilveruna. En það hefir haft þau áhrif á skáldskap hans, að hann hefir orðið myrkur og mannfælinn. ... Tiltrúin til mannanna er algerlega horfin. ... Aðalhugsunin í þessum kvæðabálki, rauði þráðurinn sem tengir hann saman, hugmyndin sem hefir hleypt þessari litlu bók á stað, virðist vera sú, að gera prestana og kirkjuna eins ljóta í augum manna og höfundinum er unnt ... Vindhögg ... Það er svartsýni í orðsins eiginlegasta skilningi. Það virðist höf. annað eðli. Ég held hann sé orðinn konungur í ríki „pessimistanna“ hjá oss Íslendingum.“

Allt í dómi Friðriks er bara samsinning við Einar, það af honum, sem aðfinningar eru, að undanskildu svartsýninu. Það, að vera konungur íslenzkra „pessimista“, væri engum meðalmanni minnkun, ef það væri sagt um mann í alvöru og maður ætti svo nafn með rentu. Svartsýnir menn hafa allténd haldið uppi sínum enda af öllum framtíma bótum, á við hina með angurblíða raunablæinn. Svartsýnið í kveld varð sannsýni á morgun. Listin er ekki það eitt, að allar sögur endi vel. Af því að sögur Gunnars og Grettis enda á Hlíðarenda og í Drangey, eins og þær gera, höfum við aldrei getað gleymt þeim. Þrátt fyrir okkar eigin ósk um, að þær hefðu endað öðruvísi, er samt sú ranghverfa hlutanna einmitt það, sem hefir knúð oss til að lesa þær, sjálfum okkur til gagns, og látið okkur taka sárt til mannanna. Sama er um fleira, sem meira er metið, eður minna er vert.

Röng eða rétt, er svartsýnisgreinin í sektardómi séra Friðriks ekki heldur hans dyggð að þakka, né hans klæk að kenna. Í lakasta lagi er hún alsiða iðnbrella allra íhaldsmanna, það sem enskan nefnir: „Trick of the Trade“. Alls staðar, þar sem íhaldssemin hefir náð í þetta orð, hefir hún reynt að núa því um nasir öllum þeim hreyfingum í kenningum og kveðskap, sem hún hélt að myndu setja sig í skuggann. Í nokkur ár hefir þetta verið samtíðarsaga í heimi allra hugsandi þjóða. Jafnvel Björnstjerne Björnson, sem ekki er íhaldssamur, setti svarta rönd gegnum skáldskap Norðmanna, með Egil okkar Skallagrímsson í upphafs-endanum og ónefnda samtíðarmenn sína í hinum. Seinna minntist séra Friðrik á

„Þyrna" Þorsteins Erlingssonar og einkenndi þá með orðtaki Björnsons um skáldskap Frakka. Svona koma syndir og snilldir feðranna út í dagdómum barnanna, fram í fjórða og fimmta lið.

Jafnvel sú freisting í ætlunum annars, að manni sé meinilla við alla tilveruna, sýnist syndsamlegri en hún er í eðli sínu. Séra Friðrik gaf mér það lof, að mér tækist stórkostlega við náttúrulýsingar. Ef hann hyggur mig mannfælinn, er það sjálfsagt satt, frá hans sjónarmiði. Sumum mönnum er urmull í kring um sig andlegt lífsskilyrði, og það þó þeir vissu, að urmullinn væri varla annað en gínandi höfuð og gapandi trjónur. Ég sækist ekki eftir því, né beygi langt af leið frá því heldur. Ég hefi aldrei ætlað mér að yrkja fyrir neina þjóð, það er ofsagt hjá séra Friðrik í ritdómnum hans; en það urðu forlög mín að kveða, og færra hefði ég gert í þéttri mannaþvögu, en fækkunin gat eins orðið til bóta — ekki sízt ef „Á ferð og flugi" hefði lent í henni líka. Ég mældi sjálfan mig svona: Sé einhverjum það hugnun að hlusta á mig, ná dagblöðin okkar ein til alls þess slæðings, og í því eru þau viðlíka heimatakahæg vestur við Klettafjöll og austur í Winnipeg. Það er alveg satt, að eðlisfari er ég hvorki kaupahéðinn né heimatrúboði, en það er ekki af mannfælni, heldur af því ég hefi óbeit á iðninni sjálfri og vil forðast það, sem ég er ekki fær um að gera.

Annars er það óþarfi að vera að vefengja dóma annarra um sjálfan sig, hversu andstæðir sem þeir eru. Séu þeir fjarstæður, er líklegt maður lifi þá dauða, og sannleikurinn, sem maður þóttist segja, verður sjálfbjarga — einhvern tíma. Hann er ekki frá fyrir því, þó maður hafi ekki sjálfur borið gæfu til að segja hann nógu snjallt. Þó er kannske þarflegt að andæfa útúrsnúningum einhvern veginn. Sjálfsagt verður manni hlýtt til þeirra, sem hrósa manni, maður veit það er vináttumerki. En þó verður sá ylur innilegastur, þegar maður finnur, að það kemur af því, að þeir, sem hæla, eiga sömu unaðsheima í huganum eins og maður sjálfur. Það er ekki vegsemd manns sjálfs, sem veldur því, að góðar viðtökur gleðja hann náttúrlegast hjá fólki, sem er frá sama föðurlandinu og hann.

Eins og á þessu sést, er ég til með að salta sumar þessar sakargiftir og meðganga mikið, til dæmis, að kvæðin mín

kunni að vera torskilin stundum. Sá maður, sem þeim hefir vinveittastur verið, tók til þess fyrst; aðrir hafa svo drepið því út á eftir. Fyrst og fremst er hætt við það sé hæfi nær, sem orðið er að samsinning skynbærra manna; svo veit ég eitt um sjálfan mig, að ég set það aldrei upp sem fyrsta kost við kvæði eftir aðra menn, að til þess það sé mér til ánægju og unaðar, þurfi það endilega að vera auðteygað í sig, eins og mjólkurblanda. Svo er eitt við efni kvæða, ef þau álpast út fyrir almennar hugsanir og vanaviðkvæði: þau virðast kveðin úti á þekju. Menn átta sig ekki strax í óþekktu landi, án þess þar þurfi samt að vera vandratað. Svo veit maður, að hugsanir, sem við engan er hægt að ræða um, hafa aldrei átt kost á að reyna að búa sig sem léttilegast. Með sjálfum sér er manni sama, hverjum flíkum þær klæðist, af því maður veit hvað þær vilja, en manni lánast miður að lýsa yfir þeim fyrir öðrum. Þeir þykjast líka margoft vera misskildir, sem léttast og lengst mál rita. Því skyldi ég þræta við skilning náungans, sem hefir prestavottorð fyrir því, að hann sé skýr, en skilji mig ekki, eins og séra Friðrik segist frá? Ég vil í þessu máli helzt ekki deila við dómarann. Rauði þráðurinn, sem séra Friðrik rakti gegnum „Á ferð og flugi“, sem sé löngun mína að lýta presta og kirkjur, er uppástunga Einars Hjörleifssonar. Einar fann þennan svarta þráð fyrstur, tók svo séra Friðrik inn í handarkrika sinn, eins og skyggnir menn gera, og séra Friðrik sá náttúrlega það sama. Ég hefi eflaust ekki dregið minn rauða þráð rétt, en hann var ekki þetta. Siðferðisvandlætarar vorir höfðu lengi suðað um það sín á milli, sem séra Friðrik skar upp úr með í „Vafurlogum“ nýlega, að íslenzkar stúlkur hér legðu litla rækt við sakleysishugmyndina, og kenndu þeir íslenzku ólagi heima um það. Ég hefi mínar kreddur um þær kenningar, eins og aðrir menn, en ég kvað ekki „Á ferð og flugi“ um þær, bara setti Ragnheiði litlu unga inn í amerísku menntunina, sem henni var unnt að ná í, og íslenzku kirkjuna, sem ól hana hér upp til fermingar. Þetta var nú allt og sumt. En utan um þennan þráð minn spann ég auðvitað margt, eins og mér er títt, og líklega hafa prestarnir hlaupið þar í hnökra. Ég áfrýja einskis manns dómi um það. Svo hefi ég nú sagt eins og var, og þess vil ég lesarinn unni mér, að við alla mína dómara er ég sáttur, þó ég sé þeim ekki sammála um allt.

Það hefir nýlega verið sagt um séra Friðrik á prenti, að hann hafi komizt svo að orði um kveðskap minn, „að hann bæri keim af kúm og kálfum“, og að hann hafi „bannsungið“ mig. Þetta er annað hvort mislestur eða misminni. Séra Friðrik sagði mér margt til hróss, þrátt fyrir hitt. Forfeður mínir og hans áttu að hafa sagt stundum, áður en til orustu var gengið: „Sá maður er í liði fjanda vorra, sem meiri er og fríðari en aðrir menn. Hann vildum vér sízt vita í andskotaflokki vorum.“ Það var eins og yfir dómi séra Friðriks um mig lægi stundum blær af líkri hugsun. Ég segi þetta í sanngirnis-skyni við hann, en ekki mér til málsbóta. Það sem séra Friðrik sagði var þetta: „Þarna situr hann í myrkinu og yrkir innan um kýr og kálfa. Hann lætur ekki lífið taka þann fögnuð frá sér.“ Það er ekkert last í þessu og engar ofsögur, að ég hafi komið í fjós. Hann tók það fram, að menn ættu að „bjóða snilldina velkomna, í hvaða búning sem hún birtist.“ Það er ekki að bannsyngja. Einar Hjörleifsson tók fram menntunarleysi mitt og skilningsskort. Séra Friðrik andmælti því heldur, óbeinlínis. „G“ í Þjóðólfi sagði, að kvæðið „Kveldskuggar“ væri hortittur. Séra Friðrik vitnaði í það sem vel gert. Slíkt er að bera blak af manni.

Eitt sinn sendi ég séra Friðrik kveðju mína og þökk fyrir ritdóm hans með manni, sem ég vissi, að yrði á vegum hans. Hvort hann fékk þau boð, veit ég ekki. Nú bið ég „Baldur“ að bera þau til hans. Þó Baldur og Heimir séu settir á „Index expurgatorius“ kristninnar í Winnipeg, eins og Baldur segir, að sér sé sagt, veit ég, að séra Friðrik sjálfum er óhætt að þeim, og ég er nú öruggur um, að þessi skilmæli komist skaðalaust fram.

Sumir segja, að útgengi bóka sé hærri réttur en ritdómar. Það byggist víst á því, að almannarómur sé úrskurður Drottins. „Á ferð og flugi“ voru aldrei fjölmörg til. Á Íslandi gengu kverin út. Hérna eru þau rótgróin í bókverzlun Bardals.

Það er sagt, að orðin „almannarómur er úrskurður Drottins“, líti út á latínu nærri því svona: „Vox populi, vox dei.“ Einu sinni vildi amerískur lærdóms-skörungur prýða ræðu sína með þessari latínu, eftir því sem spjátrungar segja, en það varð úr því „Vox populi, nux vomica“. Nú er ég í ráðaleysi að skera úr, hvort „Vox populi“ sé „nux vomica“ hér

eða heima á Íslandi, ef ég á að segja um hana eftir því sem salan gekk með „Á ferð og flugi“ forðum.

II.

Séra Friðrik sendi mér „Vafurloga“ sína í vetur sem jólagjöf. Til þeirra hefir verið tekið, fyrirfarandi mánuði, af ritdómurum. Gegnum alla mína galla, hefir hamingjan hlíft mér við þeirri dul um dagana að þykjast vera ritdómari; ég fann ég var því ekki vaxinn, og enn er það eins. Þrátt fyrir það voru Vafurlogar mér meira ánægjuefni en þó ég hefði verið viðstaddur jólamessu, eins og þær vanalega eru, og á það ætla ég að minnast, án þess að láta í veðri vaka, að okkur séra Friðrik sýnist alls staðar það sama báðum, eins ólíkir og við erum að eðlisfari og afstöðu. Séra Friðrik hefir aldrei verið torskilinn vegna tilgerðar í orðavali; hann hefir lengst af ritað ljóst, og aldrei eimt í orðafjöldann, en ekki undrar mig, þó honum þætti nú mennirnir misskilja sig. Séra Friðrik lenti ungur inn í sérajónskuna, á þeim árum, sem fleirum en honum urðu fullhál, þeim mönnum, sem andlegan þorska eiga fyrir höndum, en það er aldurinn sá, þegar baráttan byrjar milli þeirra sanninda, sem maður þykist koma með frá kennurum sínum í skólunum, og vaxandi lífsreynslu hins vegar. Á því þingi ber öllu svo illa saman, að sérkreddu-guðfræðingurinn verður að lifa sig út úr lærdómnum sínum, eða standa og verða að steini, eins og almennast er, og hjá okkur sérajónsku-siður. Það er þessi staða milli steins og sleggju, sem hefir haft það upp úr séra Friðrik, „að margan kirkjumann muni furða á sínum sessunautum í himnaríki“ (Vafurl., „Grjótkast“).

Áður en svona langt rak með séra Friðrik, á óreyndu árunum hans, sagði hann auðvitað ýmislegt, sem sýnist ekki samrýmilegt við allt, sem hann ætlast til nú. Er það undarlegt? Er nokkrum hugsandi manni það auðið að vera sjálfum sér samkvæmur frá vöggunni til grafarinnar? Teljum við okkur það ekki helzt til hróss, við sem þykjumst vera frjálslyndir, að við höfum hug til að brjóta bág við okkar fyrri vitleysur, þegar er við þekkjum þær? Og að lokunum, þegar hver okkar um sig hefir borið öll sín kurl til grafar, ætli það verði þá ekki fremur það eðlisfar hvers okkar einstaklinganna, sem sýnist að hafa borið þessar hrúgur saman, heldur

en lagið og efnið í hverju sprekinu út af fyrir sig, sem inn efsti dómur fer eftir um það, hvort einn hafi verið framgjarn, en annar aftrandi?

Jafnvel þó við höfum breytt af stefnu til batnaðar, loðir fyrra göngulagið svo fast við okkur, að öðrum mönnum sýnist við höggva í sama farið. Svo mikil venjunnar börn erum við allir.

Og séra Friðrik sveigði af sérajónskri stefnu lítið eitt, upp úr aldamótunum, sem urðu seinast, og enn frekara um það leyti, sem ritið „Aldamót" komst að því, að það hefði aldrei verið annað en „Áramót" og lítillækkaði sig og breytti um nafn og samansaumaði sig um sérajónskuna enn fastara, í þá átt að verða framvegis einskær kirkjuþings-„kronika". Sérajónskan hafði frá upphafi sínu búið svo í íslenzka trúarpottinn hér vestan hafs, að þetta lítilræði, sem séra Friðrik vék af vegi hennar, hefir síðan sett hann áveðra í ímugust frá öllum og blásið að honum tveim eldum. Afturhaldinu sýndist hann ætla að ýta í skynsemisátt, en því er verst við það af öllu. Áframhaldinu virtist hann hefði aðeins hopað, og það fyrirlítur hálfa hleifa og höll ker. Þaðan er svo rimman runnin; því hefir allt í Vafurlogum kastazt líka í kekki í höndum dagdómanna.

Nú hleyp ég yfir það manni til óminnis, sem til ásteytingar er orðið mest, af því sem séra Friðrik hefir sagt, en ég legg mína leið, og skýzt þá skemmstu götu. Ég hefi ekki annarra flutning að annast, ég sem er bæði einn í hóp og einn í lest.

Fyrir nokkru síðan braut séra Friðrik af sér við sérajónskuna með því að sýna fram á, að Mósesbækurnar eru samanhypj upp úr ýmsum sögnum og sögum Gyðinga, en ekki það sem gerzt hefði getað af viðburðum né í hugsunarhætti á ævidögum einstaks manns, eftir því sem bækurnar sjálfar bera með sér. Úr þessu hefir alltaf rokið að honum síðan undan felhellu Kirkjufélagsins íslenzka. Lútherska kirkjan í Ameríku er yfir höfuð hugsanasnauðust allra kirkna, sem uppi eru hér og nokkurt mark er að. Hennar siður er að sitja sofandi á veggnum, meðan menn í öðrum kirkjum eru dregnir fyrir dómstóla þeirra, sviptir hempunni sökum vantrúar, eða eru látnir lausir og leyft að trúa því, sem trúarjátningarnar blábanna. Seinast sígur lútherska

kirkjan sofandi af veggnum á hverja þá hliðina, sem hærri hluta ber, og íslenzka Kirkjufélagið með henni.

En þennan vökuvilja hefi ég virt við séra Friðrik. Nú sá ég, að það var eðlilegt, þó mig undraði það á barnsaldri, þegar ég lauk að lesa Mósesbækurnar, hvaðan Móses kom sá þróttur að geta sett í söguna lýsinguna á dauða og jarðarför sjálfs sín, eins og ekkert hefði í skorizt. En það vissi ég þó líka, að séra Friðrik les ritningar öðru vísi en ég, sem ljæ ekki neinu því lotning mína, sem brýtur bág við beztu vitund og réttlætistilfinning þá, sem mér hefir hlotnazt, þó það standi í guðspjalli, og sýnist það vera að gera sannleikanum getsakir að kalla hann opinberun, hvar svo sem hann er að hitta.

Á fyrsta kirkjuþingi, sem fæddi „Áramót“, flutti séra Friðrik hugvekju, örstutta, um að kristindómurinn væri bundinn á menn með ýmsum óþarfa kredduböndum, sem myndu mega missa sig. Orð hans voru samt ekki svona, en svipuð að efni. Honum fannst, að sá mætti kristinn kallast, sem læsi drottinlega bæn í nafni Krists, þó hann hefði ekki botnað öll kreddudýpin í „katekismus“ sínum. Í augum kirkjufélagsforsprakkanna íslenzku var hann þar að bæta gráu trúarjátningarlosi ofan á svartar biblíu-vefengingar. Mér þótti þessi stefna séra Friðriks liggja í áframhaldsátt og fara ekki eins nirfilslega með nafnbótina „kristinn“, sem allir seilast eftir, eins og flestir hinir flokksbræður hans gera. Ég varð þessu hálffeginn, þó það yrði aldrei þanið út yfir sjálfan mig, sem vildi ekki vera nokkrum manni svo nærgöngull að heimta af honum drottinlega bænagerð í neins manns nafni né nafnlausa heldur, ef ég hygg hann hafi vilja til að verða því að liði, sem mér finnst, að í sjálfu sér sé satt og rétt og fagurt, án þess að þurfa að gylla það með einhverjum guðsótta. Það er kennt, að guð muni virða viljann fyrir verkin; ég tek hann fram yfir trúna líka.

Í vetur gusu svo upp Vafurlogar séra Friðriks. Þeir fóru hér og þar fram á það, að menn gætu verið sáttir, þó aldrei yrðu þeir sammála, en slík friðmæli helltu aðeins nýrri olíu í eldinn í bráðina, einkum þessi tillaga: „Reyna mætti að draga fylkingarnar saman, kenna þeim öllum að verjast sameiginlegum óvinum, leggja undir sig lönd, sem enn eru ónumin. ... Mundu þær þá eigi smám saman gleyma þeim smámunum, er þeim kann á milli bera, og renna saman í

þéttskipaða bræðrafylking.“ Þessu var tekið eins illa á báða bóga. Kirkjufélaginu fannst það ætti nú að ganga af trúnni, og vantrúaðir héldu það heimtaði, að menn hættu að hafa vit fyrir sér. Líklega er það líka ofætlun. Vestur-Íslendingar eiga fáa kennara til að kenna þetta, og færri til að fylgja því sanngjarnt og refjalaust, sé liðin saga sannspá um þá, sem er ógerð. En þetta getur verið holl og viturleg tillaga, þrátt fyrir það. Setjum svo, að við hættum að tönglast um tóm orð, til dæmis hvort trú og vantrú sé smámunir eða stórmunir, þegar eitthvað er um að vera, sem okkur kemur saman um, að þó sé þarflegt í sjálfu sér, hvort sem Kristur var nú maður eða guð eða ímyndanin eintóm; setjum svo, að þetta þarfaverk sé smámunir hjá hinum stórmununum um eðli Krists; væri það stór bölvun að láta það ekki standa í vegi fyrir því, að við gætum sætzt á samvinnu í smámunum? Meinsemi í smámunum veldur verstu skapi. Heimatrúboðið danska kvað afsegja að gera smjör úr vantrúuðum rjóma. Því líkt og þaðan af verra er það, sem bítur illsárast á flesta, sem ekki kunna að hlæja og fyrirlíta. Í stórmununum sjálfum er samt enginn vandi að flýja hvorki né láta flekast, trúi maður á þá og treysti nokkuð sjálfum sér. Það er hægur vandi fyrir vantrúarmann að loka vösum sínum fyrir betlifingrum heimatrúboðsins og vara aðra við því, ef hann skilur sína stefnu sjálfs svo vel, að fyrst hann leggur færra gott til föðurlands síns en hann kysi sér að gera, skuli hann þó engan hlut í eiga að senda því hefndargjöf. „Klúbbur“ Helga ins magra hefir ekki kvolað sig á neinu, sem á skylt við leirburð og vantrú, þó hann tæki það upp eftir „Hagyrðingafélaginu“ að vilja mýkja úr manntjónum úti á Íslandi. Sjálft íslenzka skólamálið okkar vestan hafs gæti unnizt með aðstoð allra flokka, væri vit og vilji til að semja það með sanngirni. Það sem látið er fljóta ofan á í því máli, er íslenzk tunga og íslenzkar bókmenntir; því eigi íslenzkur skóli að halda uppi hér. Fáir myndu skorast undan að vera þessari hugmynd vel, ef þeir vissu, að ekki byggi annað undir. En íslenzka skólamálið vestan hafs var frá upptökum þess aðeins kænleg tilraun að leggja kirkjufélagsnet. Að vísu þrættu menn upphátt um önnur atriði málsins en þetta, en allir höfðu það samt á samvizkunni, unz Kristinn prestur Ólafsson lýsti því loks á prenti nýlega, sem allir vissu en enginn sagði, að aldrei næði kirkjufélagskristindóm-

urinn fullum tökum á fólki, fyrr en það ætti umráð á skóla, til að beygja krókana nógu snemma í. Ég hefi önnur orð um þetta en hann, en þau sýna sömu hugsun. Enginn utankirkjufélagsmaður gat með góðri samvizku stutt að stofnun þess, sem í hans augum átti að svíkja það undan framtíðinni, sem hann sjálfur taldi sannast og rétt í frjálshugsandi framför trúarbragðanna. Svo hafa utankirkjumenn náttúrlega legið á liði sínu, ekki af því þeir séu óþjóðræknari en hinir, heldur fyrir hitt: öll íslenzk mál vestan hafs voru og eru vanhelguð með trúarbrögðum, og þetta mál hve mest. Kirkjufélagið freistaði þess að færa sínum kreddum í nyt íslenzka ættrækni til tungu sinnar og bókmennta, en vantrúin er að varast að láta kirkjufélagið vefja sér þann feld um höfuð. Þegar maður athugar orðfæri og andagift, sem kemur i ljós í ræðu og riti hjá inum amerísku uppalningum kirkjufélagsins, inum yngstu prestum og prestaefnum, þessum tilvonandi „tímans herrum", er það nokkur furða, þó manni finnist það ekki fljótséð, hvað eiginlega það er í íslenzku máli og íslenzkum anda, af því sem maður sjálfur metur mest, sem vonlegt er að varðveitist í vörzlum þeirra manna? Þeir sem einungis vilja vernda þjóðerni sitt í lengstu lög, fleygðu fé sínu á glæ í þeirra hendur, eins og útlitið er nú. En samt er það satt, að almenningsfylgi til íslenzks skóla hér væri auðunnið, þó það aldrei verði vinnandi vegur eins og ástatt er. Það mælti með því að fella úr skólamálinu það, sem viðsjánni veldur, kirkjufélagslútherskuna, og útiloka þar allra flokka trúarbrögð og bænagerð, eins og í amerískum ríkisskóla; eða í stað trúarbragða að kenna eitthvert ágrip af trúarbragðasögunni, eins og menn vita hana sannasta sagða nú, frá upphafi elztu trúarbragða, ofan til íslenzka kirkjufélagsins og únítaranna, með þeim viðbótum, sem verða kunna, og aðeins með sama helgiblæ eins og hver önnur veraldleg vizka er kennd; láta hverja kenning segja til sín sjálfa, svo hlutdrægnislaust sem auðið er, og leyfa lærisveinunum að eiga um úrvalið við sína eigin samvizku og skilning. Með þessu móti yrðu Íslendingar allra flokka fyrstir til að verða einu sinni á undan tímanum í því að ala upp efnin í prestana, þá sem tuttugasta öldin virðist vera að festa augastað á. Margir innan ókatólsku kirknanna vestan hafs eru að reyna að hrinda af stað þeim straum að steypa þeim saman. Þeir vilja sía upp úr öllum þeirra sér-

kreddum eina yfirgripskreddu, sem allar skiptar kirkjuskoðanir geti undir gengizt, en setja svo hverri smádeild í sjálfsvald að nota sinn eigin úrgang af játningum sinna manna milli, eins og þeim finnst sér hæfi helzt. Það yrði sjálfsagt seinna, þegar það samræmi er komið á, hverjum kennimanni til góðs, að guðfræðisnám hans í æskunni hefði verið annað en það, að allar kirkjur séu rangar nema ein, eins og nú gerist það. Því að ef svo fer, eins og oft brennur við, að maður hallast að því seinna, sem helzt átti að halda manni frá, er hætt við það snúist svo í sumum, að þeim finnist, að þessi eina, sem átti að vita rétt, sé í rauninni vitlausust af allri ættinni, sem vanalega kemur af því, „að hver er sínum hnútum kunnugastur“ og hefir fundið sárast til smámunaseminnar og launklípninnar hjá sínum sessunautum.

Þetta er auðvitað utan við viðfangsefnin í „Vafurlogum“, en þó er það framhald af friðmælunum þar, væri um nokkra samvinnu að semja, og sýnishorn af því, að þeir eiga sammerkt í þessu við allar þær bækur, sem erindi eiga við lesarann, það að verða að einhverju umhugsunarefni. Það lítið ég les í bókum, les ég fyrir sjálfan mig, til að skemmta mér við það, sem mér finnst, að muni vera fagurt og satt. Því er mér svo stirt um vik að stegla þær; mig skortir jafnvel kunnáttu til að kenna öðrum að lesa skakkt.

Ég held helzt, að ef einhver bóndi er nú uppi í sveitinni minni, sem er svipaður Gunnari gamla á Hlíðarenda að hæfileikum og samsvarar viðlíka sinni tíð, að ég muni kalla hann meðalgreindan mann. En ég læt það samt liggja á milli hluta. Við Gunnar hittumst allsendis einu sinni, í Njálu og rímum Sigga Breiðfjörðs, og þá var ég fyrir innan fermingu og er nú farinn að gleyma manninum. Hitt man ég upp á hár, að ég hélt þá, að Gunnar hefði ekki kveðið eftir sjálfan sig dauðan hendingarnar: „Heldur en vægja vildi Valfreyju stafur deyja“. Í því lagði ég þá að jöfnu, hann og Móses. Og ég bið lesarann fyrirgefningar, ef ég fer ekki orðrétt með drápustúf Gunnars, hann er bara tekinn eftir barnsminni mínu. Reyndar mundi ég hendinguna réttari, en var ekki viss. Fannst hún svo einföld og auðskilin, svona sögð. Kenninguna, „Valfreyju stafur“ gerði ég mér svo í grun:

*Valfreyja:* öxi, (sbr. Bengríður; Gríður: tröllkona) og Freyja kaus sér val, eins og öxin ná undir egg sína (sbr. vísu

Grettis: Hygg ég að hljóp að Skeggja hamartröll ... eða hver sem þá vísu kvað). *Stafur:* viður. *Valfreyju stafur:* sá sem ber öxi að vopni: hermaður. Þetta virðist svo beint og brotafæst. Mér finnst, að Gunnar eigi ekkert í þessari vísu heldur, á sama hátt og séra Friðrik hyggur. Ég held, að Gunnar og Jónas segi satt, hvers vegna hann sneri aftur. Ég held Gunnar hafi verið meira en meðal-ör á því að gefa mikið fyrir allt, sem honum fannst vera fallegt, hvort sem það var Hallgerður eða Hlíðin. Þó geri ég það ekki að þrætuefni, fyrr en ég sé Gunnar sjálfan, og þakka séra Friðrik fyrir að hafa minnt mig aftur á Njálu, eins og yngri Íslendingana vestan hafs, sem ekki vissu áður, hvort það var bók eða stúlka, sem þessu nafni er nefnt. Ég vona, að einhver þeirra sé nú fróðari, en engum býð ég fé við því.

Líklega getur öll hjátrú orðið ljót og leiðinleg, ef svo vill verkast. Það er eins og Guð og Djöfullinn hafi í hugum manna, allténd setið í óskiptu búi í þessari vorri veröld. Þess vegna er aldrei hægt að segja, hvað hvor þeirra hefir eiginlega átt einn um dagana, allt sýnist hafa gengið milli greipa þeirra á mis. Þannig hefir kristnikoman til Íslands gert alla litlu ljósálfana, þessa hundheiðnu engla forfeðra vorra, að sem verstum vofum, og dökkálfana enn dekkri. Allir hollvættir heiðninnar illskast í meðferðinni hjá katólskum kærleika, og vondir versna. Slíkt var alveg eðlilegt og óafvitandi: að klína á það, sem fegurst var hjá keppinautnum, sínum eigin verstu vítum. Álfarnir urðu loks að árum í ljóssengla líki, sem freistuðu fólks á krossgötum. Vafurlogar segja þá krossgatnasögu rétt og affæra álfatrúna ekkert, eins og hún er í þeim þætti íslenzkra þjóðsagna, og það sem þeir yrkja út af henni er viðeigandi og vel sagt að aðalatriðinu til, það, að láta ekki æskuglauminn trylla sig, svo maður geti ævinlega sagt eins og Þorsteinn Erlingsson: „Ennþá hefi ég heila skeið og hjartað unga.“ Hjá séra Friðrik eru flestar hugsanir klæddar messufötum; hann sagði sjálfur í ræðu, sem hann hélt heima á Íslandi, að hann gæti aldrei losað sig við prestinn, og hefir þá eflaust reiknazt rétt til um sjálfan sig. Því heldur hann líka, að allar krossgötur eigi að liggja upp að kirkjudyrunum, svo þær endi sem allra bezt, en það verður ýmislegt undan að láta, áður því verður við komið. Svo er að sjá, sem aldrei hafi jafn marga góða menn og gáfaða rekið jafn langt

undan guðfræðis-lending kirkjunnar eins og einmitt nú, ekki með skynsemina eina, heldur með tilfinning sína fyrir því, sem göfugt sé og gott líka. Það er þar, sem að senn sverfur til stáls milli kreddu og hugsjóna, hvað sem ofan á er.

Trúin á eilíft Helvíti er horfin út úr skilningi og réttlætismeðvitund allra velviljaðra manna, sem betur fer; hefndargirnin ein var hennar móðir. Kredduföstustu klerkar hliðra sér hjá henni, eins mikið og hægt er, og séu þeir til þess knúðir að verja Víti, reyna þeir að gefa því geðslegra nafn, þó þeir viti, að enginn þeirra sauður kannist við þá hirðisrödd, sem hrópar þessi nýju nöfn, svo allir renna eins og áður, fyrir ofan garð og neðan. Jafnvel æstustu afturkippir Helvítisprestanna í festuminnsta fólkið hjaðna eins og hjóm á einum árstíma. Sumum vitrum mönnum og vænum er himnasælukenningin heldur ekkert hnoss og þó stafar það ekki hjá þeim inum sömu frá neinni eigingirni né illvilja. Hugsunarhætti og tilfinningum þeirra manna er þannig farið, að þeim finnst bitamunur fremur en fjár í tvennu jafn ólíku eins og ætlazt er til að það sé: því að gera gott með vissa umbun á vitund sinni, og hinu að efla illt málefni í ágóðaskyni. Þessir menn hafa viðbjóð á öðrum verðlaunaheitum en þeim, að dyggðin sé sín eigin umbun. Krossgata þeirra manna liggur fram hjá kirkjudyrunum, eins og enn er ástatt, og þeim er alveg sama, þó leið sú sé sögð að vera breið og muni enda bölvanlega. Sjálfir vita þeir ekkert illt upp á sig né eiga á vondu von vegna slíkrar vantrúar sinnar. Þeir vita, að þetta er ekkert að utan lært, það er hjá þeim náttúrufar námi ríkara. Það hefir aldrei vaxið allt það bezta innan kirkju; því hefir hún breytzt og brotnað upp. Hún er félagsstofnun andlegs afturhalds, heimahagar ins fæsthugsandi fjölda; á hverju ætti hún annars að lifa? Í heild sinni fer hún eins hart og meðalmennskan ber hana, og etur ofan í sig sínar eigin kreddur, ef að fjöldinn heimtar það. Hún er mikið mannaverk, en aldrei meistarastykki í neinu. Hún þroskast andlega á afla andstæðinga sinna; sjálf eykur hún engu við. Hún er, því miður, stundum einn af álfunum á krossgötu æskumannsins, sem lokkar á þá götu, sem hann aldrei átti að ganga, fjötrar sannleiksþrá hans og samvizku, eigi hann aldur og andlegan þroska fyrir framan sig. Kirkjan er samvizka dáinna kynslóða, en ekki sinna samtíðarmanna, því það er vantrúin, sem

vakir með hana. Að séra Friðrik sér ekki kirkjuna svona, eru alls engin undur né yfirdrepskapur. Sínar beztu hugsanir hefir hann sjálfur hitt hjá einhverjum innan kirkjunnar, og þakkar svo hennar mönnum það. Hann hefir auðsjáanlega ævinlega heldur hræðzt að hlusta á alla þá álfa, sem ekki hafa krossmark í enni, en hann hefir fallizt á margt fagurt og frjálslegt, sem þeir sungu honum fyrstir, ef að þeir álfarnir, sem það mark hafa, tóku eitthvað undir það. Því varð hann líka víðsýnasti foringinn í vestur-íslenzku kirkjunni. En svo situr hver sjálfstæður maður á einhverjum krossgötum allar sínar ævinætur. Það eru ekki nema ævintýrið og ósjálfstæðu mennirnir, sem ljúka því af á einni jólanótt.

Það er þó eitt það í Vafurlogum, sem ég á örðugt með að gera mér grein fyrir: hvaðan séra Friðrik fær það, að Íslendingar séu einstakir ættlerar að líkamlegum þroska og þreki til. Leikíþróttir allar lögðum við niður. Þær liðu undir lok þegar héraðshöfðingjar, sem áttu ráð á mönnum og tíma til þeirra, hurfu ofan í jafnsléttu íslenzkrar bændastéttar, en allir, sem máttu unna sér skemmtana, gengu í klaustur eða kirkju. Íslendingar eru öllum fimleikum afvanir orðnir, en hitt er óséð, að þeir séu að öðru leyti ófærir um þá. Dragi séra Friðrik ályktun sína af lystarleysi Íslendinga á öðrum leikjum en dönsum, og beri hann þá svo saman við innlenda Ameríkana, t. d. í knattleikafarganinu við skólana hér, þá er ályktun hans auðskilin. En, hefir hann sjálfur verið í þeirri samvinnu, sem oft kemur fyrir hér í Ameríku, að alþýðumenn frá ýmsum löndum vinna sömu stritvinnuna, en flokkast óvart saman í smásveitir eftir þjóðerni, sem lenda svo um stund í ótilætlaðri samkeppni um, hver flokkur verði afkastamestur og endingarbeztur á skorpunni, og hefir séra Friðrik þá sýnt, að íslenzki hópurinn myndi vera sá taugabilaðasti og úrkynjaðasti? Við þetta hefi ég sjálfur verið staddur, af því ég er óbreyttur erfiðismaður, og get því ekki samsinnt séra Friðrik, að Íslendingar hafi gengið úr sér öðrum þjóðum fremur. Samt veit ég, að séra Friðrik hefir eina stoð fyrir ályktun sína, sem í fljótum svip virðist fullsterk. Íslendingar uppaldir hér eru að jafnaði vaxnir heldur hærra úr grasi en þeir, sem uxu upp heima, og það mætti þakka það betri mat og meiri siðsemi, væri nokkur líkamleg efling í því.

En þetta er gamall viðburður, sem gengið hefir eins fyrir flestum þjóðflokkum, sem flutzt hafa að — eða svo hefir verið sagt hér í landi. Menn, sem hafa reynt að rannsaka þennan fágætis fyrirburð, fullyrða, að þetta sé loftslagi að kenna og sé enginn ávinningur. Í meðalhæð Ameríkumanna og Norðurálfubúa eigi Ameríka líklega lengri endann, en þumlung fyrir þumlung verði Norðurálfuendinn þyngri á metunum, sé hann tekinn í pundatali. Mér hefir oft fundizt eitthvað vindbelgingslegt í amerískum anda og tryði, að það legðist í líkamina líka. Þessir reikningar geta gjarnan verið ruglaðir, ég vinn engan eið að þeim, en hitt er víst, sú kynslóð Íslendinga hér, sem innfædd er, verður tiltölulega kvellisjúkari og skammærri en hin, sem að heiman kom. Eins eru skýrslurnar um tölu óskírgetinna barna á Íslandi valtur fótur til að tylla nokkurri úrkynjun á. Maður er sáttur við það, sem satt er, að Íslendingum hafi flestum þjóðum framar fundizt ráðlegt að fylgja þeirri reglu Páls postula „að sá geri vel, sem gifti sig, en hinn geri enn betur, sem gifti sig ekki“, en afleiðingin af því er engin sönnun um úrkynjun. Hjónabandsbörn þekkjast ekki frá hinum á líkamlegu atgervi, sé ekki eftir öðru að fara. Eitt það, sem úrkynjun veldur, eru „drepsóttir, sem í myrkrunum læðast“, en sem aldrei hafa verið innlendar á Íslandi. Þegar þeirra hefir orðið vart, hafa þær komið í útlendum skipsförmum með „vellyst og völskunum“, eins og Bjarni amtmaður kvað. Jafnvel okkar kristna, siðsama, menntaða Ameríka á tiltölulega meira af þeim sóttum til útflutnings ef á liggur en Ísland, enn sem komið er, eins og af ýmsu öðru, sem auglýsa má á opnum markaði.

## III.

Það er sannleikur, sem séra Friðrik segir í hugvekju sinni um hávaða, að oft hefir verið argsamt á samkomum Íslendinga, vestan hafs að minnsta kosti. Oft hefir það verið örðugra að halda þar við hljóðleik undir erindum ræðumanna en verða myndi á sams konar mótum innlendra manna, það er að segja, sé enska töluð yfir innlenda fólkinu, sem yfir höfuð skilur ekkert mál, nema sína eigin tungu illa. Á öðrum málum en sínu eigin hefir enskutalandi alþýða næstum því skömm, enda er hún allra þjóða tornæmust og heimskust um allt mannamál yfir höfuð. Það stafar frá óafvitandi og

innrættu drambi þeirrar fjölmennis-meðvitundar, sem eiginlega er fáfróð, og kannast ekki við neina fyrirmynd nema sjálfa sig. Íslenzkur hávaði er fremur það regluleysi formlausrar glaðværðar, sem oft fipar fyrir því, sem verulega er skemmtun að, en að hann sé ólæti skrílsins. Íslenzkur hávaði er skvaldur, aldrei ofstopi. Þegar innlent fólk orgar sig afvita við knattleik og kosningar, gengur sú vitleysa fram af Íslendingnum, hann er eini siðprúði maðurinn í hópnum. Hann getur orðið ærslameiri en Ameríkumaðurinn, en honum hættir ekki eins við að verða djöfulóður. Í öllum dómum séra Friðriks, í öllum hans jafnaðarreikningi milli manns og manns, Íslendingsins og Ameríkanans, liggur manni eitt í augum uppi: séra Friðrik þekkir ekki sveitamanninn né kaupamanninn ameríska, eins og hann er. En kennurum, kaupmönnum, lærðri stétt manna hér, öllum þessum efribekkingum á þjóðstéttaþrepum þessa lands, hefir hann gerzt handgengnari, að minnsta kosti í samkvæmislífinu, og öll þeirra siðsemisfægða og guðræknisgljáandi eigingirni finnst honum svo fyrirmynd. Jafnvel annað eins og það, að Búarnir vildu vera sjálfráðir og bitu af sér eins lengi og þeir entust til bæði enskt fláræði og enskan yfirgang, er í augum séra Friðriks að standa heimsmenningunni í vegi, þó vörn og viðbúnaður Búanna, samningar þeirra við England og samheldni síðan sé fegursta dæmið um þá föðurlandsást, sem flest leggur í sölurnar, sem sagan veit um nú nýlega, en þáttur Englands í því máli öllu sé að mestu leyti raunasaga lélegustu lítilmennsku og klaufaskapar þess styrkleika, sem á sér aflsmuninn að og veit hann hefir mergðina með sér, fyrir hvern þann mann, sem fylgir því máli með kreddulausum skilningi og í einlægni ann enskri menningu sæmdar af sérhverju máli.

Íslenzka alþýðu, upp og ofan, hefir séra Friðrik séð og reynt betur. Á göllum hennar nær hann því traustari tökum. En ályktanir hans, eftir að hafa borið þá saman, Ameríkanann og Íslendinginn, eru ekki öfgalausar; hann byggir á því, sem ósamkynja er: hugmynd sinni um amerískan alþýðumann og þekking sinni á íslenzkum múgamanni. Séra Friðrik er formælandi alls þess, sem er afkastamikið í veraldlegri umsýslu. Honum vex það í augum, svo hann sér ekki „hvaðan það kemur né hvert það fer“. Hann hefir, eins og ég, eytt

mestri ævireynslu sinni í yngstu sveitum Ameríku, þar sem mannamunurinn hefir minnst náð sér niðri enn. Hví hugsar hann aldrei út í það, sem mannamuninum fylgir, eitt með öðru, en sem jafnvel varasamir menn viðurkenna, að hagfræðiskýrslur sýni, að áttundi hver maður búi við skort í inum auðugu Bandaríkjum? Séra Friðrik er starsýnast á stórvirkin og á illt með að sjá út yfir þau.

Svo eru þetta samt athuganir, sem inn hafa slæðzt, en ekki aðalerindið, sem vakir fyrir séra Friðrik í Vafurlogum. Meginmálið er að útrýma þröngsýninni og kreddukergjunni og flokkadráttar-fjandskapnum úr íslenzkum hugsunarhætti vestan hafs. Hann vill vita til þess, að einlægu einstaklingssjálfstæði sé að einhverju leyti lifandi lífs von innan flokkanna sjálfra, og það var máttarviðurinn, sem „Menningarfélagið“ svo nefnda ætlaði að byggja sig ofan á, endur fyrir löngu, og hann er ekki alveg fúinn enn. Því halda Vafurlogar líka fram, að mannorð einstaklinganna í andstæða flokknum ætti ekki að vera húðflett að ósekju, aðeins til að svala illu skapi mótstöðumennskunnar. Og að síðustu eru þau nokkurs konar hvatamál til innar yngri kynslóðar til dáða og drengskapar, um að svíkja aldrei af sér verk í samvinnu við það, sem þeir telja, að sé satt og rétt, eins lengi og ævin endist; en svo um leið varnaður við þeim vítum, sem höf. sýnist nú helzt, að inir eldri hafi ratað í. Þetta er oftar sagt svo vel og viturlega, með svo heitum orðum og hispurslaust, að maður finnur, að hér fylgir sá hugur máli, sem tekur til orða af eigin eftirtekt og reynslu. Ég fer með fáeinar línur af því, sem mér finnast fallegar, en sleppi þó fleirum.

„Hjá baráttu verður ekki komizt. En hví að temja sér að gera þá baráttu miklu ömurlegri, miklu ljótari, miklu kvalafyllri en hún þyrfti að vera?“ („Grjókast“).

„Í flokkunum hugsa vanalega ekki nema fáir. ... Svo mikill grúi manna vill helzt eigi hugsa sjálfur. Hann vill láta rétta sér hugsanir, soðnar og tilreiddar, svo kingja megi á sömu stundu“ („Grjótkast“).

„Flokksfylgið er svo dýrmætt talið, að það er af hverjum manni heimtað, að hann sjái ekkert nema gott hjá sínum flokki, og helzt ekkert nema illt hjá öðrum flokkum. Eftir því sem hann gerir þetta betur, er hann í meiri metum hafður

meðal flokksbræðranna. Sá er oftast ódrengur álitinn, sem eitthvað ofurlítið skerst úr leik" („Grjótkast").

„Svinnur maður gengur oft sár af hólmi í þeirri orustu. ... Hann hefir verið misskilinn. ... Sagt hann færi með ósannindi, þegar hann vildi sannast mæla. Hann hefir verið tortryggður og grunaður um græsku, án þess að vita vamm sitt í nokkru. Aldrei voru hvatir hans hreinar" („Grjótkast").

Og hér dettur mér í hug vísa eftir Sigfús Benedictsson, til samanburðar, og hún er svona:

„Að lifa við þetta er heimska og háð,
Á höggorminn verða að trúa,
Og æruna leggja' undir ódrengsins náð,
Að eiga' ekki' á máli og hugsunum ráð,
Að verða til lífs sér að ljúga."

(„Ljóðmæli". „Ástandið").

Báðir þessir menn sjá og segja sannleikann eins og hann er, þó þeir komist ekki eins að orði. Séra Friðrik, sem segist vera „hræddur við hávaða" og að „í bókmenntum eigi ekkert nema prúðmennskan við", og hann Sigfús minn Benedictsson, sem oft virðist hallast fremur að hinu, að sannleikurinn eigi að tygja sig eins og Þórir sálugi leðurháls, „með harða uxahúð fyrir hlíf og rauf fyrir höfuðið", velja sér þarna sama yrkisefnið; og það hefir „Heimir" sagt, sem ég veit að hann veit, að í Winnipeg sjái Íslendingar aðeins „menn, ekki málefni", og „Heimi" trúi ég bezt til að sjá eins og ófreskir menn, þó að hann sé líklega förukarl, sem hvergi á höfði sínu að að halla og kemur því ekki í hús svo mánuðum skiptir. Það verður enginn þingmaður né nein varaskeifa, á undan kosningum né eftir, þó „Heimir" stæði heima við ártalið.

En ég átti eftir vers úr „Vafurlogum", sem mér virðast vel kveðin orð, og ég þarf ekki að hræðast að hafa þetta yfir:

„Flokkshatrið er dauðlegt mein í hvaða mannfélagi sem er" („Grjótkast").

„Skoðanamunur ætti aldrei að vera vináttu í vegi. Að vér erum menn, bræður, samlandar, ætti að vera þyngra á metum" („Grjótkast").

„Hverjum manni er ætlað að hugsa upp sömu hugsanirnar

aftur og aftur, leita ljóss og skilnings í öllum áttum, velja og hafna meðan lífið endist“ („Á Krossgötum“).

„Á meðan hann hugsar ekki, gengur hann í bandi hjá öðrum“ („Grjótkast“).

„Að breyta skoðunum er mannlegt, og fyrir það skyldi engan lýta, ef hann hverfur frá einhverjum misskilningi til annars réttara“ („Á Krossgötum“).

„In mikla list lífsins er í því fólgin, að halda sér ungum í lífsbaráttunni“ („Á Krossgötum“).

„Að láta frjálsmannlega hugsun og skilning á lífinu breytast í þröngsýni og sleggjudóma, eins og mörgum hættir við á gamals aldri, svo ekkert verður nýtilegt í fari mannanna nema íhaldssemin ein og liðið hennar, ber þess ljósan vott, að ekki hefir verið staðið við hugsjónir æskunnar eins og skyldi“ („Á Krossgötum“).

Þegar maður les þetta í Vafurlogum, kinka þeir að manni kolli, gömlu vinirnir manns, ið ágæta kvæði Jóns Ólafssonar sem svona byrjar:

„Þú ert orðinn gamall nú og grár,
Því gremst þér hversu taumlaust ungir skeiða“ —

og fallega vísan hans Þorsteins Erlingssonar:

„Gaman væri að hefja horn að Herjans fulli,
Brynjast fram í bleika elli,
Berja' á skjöld og hasla velli.“

Aðeins man maður, að séra Friðrik segist vera „hræddur við hávaðann“. En jafn skemmtilegt væri það fyrir því að hugsa sér, að mann dagaði aldrei uppi, en entist auðna til að hasla heimsku og þröngsýni völl fram til hánætur, án þess að leggja einstaklinginn í einelti. Enn eru fleiri erindi í Vafurlogum, sem ekki eru mýraljós í mínum augum, til dæmis þessi, sem næst flögra fyrir huga minn:

„Í heiðinni fornöld var drenglyndið aðaleinkunn“ („Hávaði“).

„Erum vér Íslendingar, sem kristnir höfum verið nærri þúsund ár, betri drengir en heiðnir forfeður vorir? Höfum vér tuddaskap og varmennsku í jafn mikilli fyrirlitning og þeir? Erum vér jafn varkárir með að beita ekki aðra sömu ódrengskaparbrögðum og vér erum beittir?

Það er ef til vill goðgá að spyrja svo" („Hávaði").

„En í viðureign vorri við óvini og andstæðinga finnst mér drenglyndis gæta oft svo lítið, að ég fæ tilhneiging til að skríða aftur inn í fornöldina, ef það annars væri unnt, og leita þar skjóls og athvarfs með góðum drengjum" („Hávaði").

„Í fari góðra manna er drenglyndi aðaleinkunn" („Hávaði").

„Nafn Skírnis komst inn í árbækur mannanna, sökum þess hve snilldarlega honum tókst að skila erindi guðsins" („Skírnismál hin nýju").

„Finnst yður eigi eins og mér, að hann hrópi hátt yfir meira en tíu aldir, þessi skósveinn úr heiðni:

Skilið erindi guðsins, þér skósveinar ungu, og skilið því rækilega, eins og líf og velferð lægi í veði!" („Skírnismál hin nýju").

IV.

Hvergi hefir séra Friðrik tekizt orðfæri og stíll eins vel og á Vafurlogum, svo ég muni. Ég kalla hvorki málfræði né stafsetningu mér til vitnis. Ég veit ekki vitund um þá vætti, og væri það siður minn að signa mig, væri mér það aldrei eins áríðandi eins og áður en ég nefni þeirra nöfn. En þó hefi ég mína fjósakarls-tilfinningu fyrir því, sem mér finnst list í máli, og fer ekkert eftir, hvað menn kalla tilgerð. Allt er stundum nefnt tilgerð, sem ekki er alvenja, og svo verður sumt af því seinna að fyrirmynd. Menn lofa það að rita eins og fólkið rabbar, það sé svo dæmalaust létt og ljóst. Ég hefi unað af þessum mörgu munnfyllum af efnislausum orðum, sem teygja úr mæltu máli, þegar þær koma til mín í rómi lifandi manns, sem veitir þeim sál og svip; en að lesa þær á bók, er eins og að hlusta á geispandi mann. Efnið í umræðunni loðir varla saman út yfir eyðurnar, — maður hefir ekki tekið mark á neinu. Í Vafurlogum hefir séra Friðrik oft tekizt að búa hugsanir sínar svo fagurt og fyrirferðarlítið, að þær falla sjálfkrafa í lítið gróp í minni manns, ef maður les með eftirtekt. Svo hefir hann brugðið fyrir sig einstaka fornyrði og eldri orðaskipan. Ég kann því vel. Ég man svo langt, að í æsku minni voru það rímnaskáldin og mennirnir, sem þá rituðu í eldri stíl, sem greiddu mína götu til Eddu og íslenzku sagnanna, þó margt yrði mér samt óskiljanlegt. Það er enn ekki óþarft, að einhverjir þeir, sem rita og vit

hafa og vald á málinu frá eldri tímum til okkar daga, brúi æskunni hér og þar leiðina til bókmenntanna okkar fornu og bregði fyrir hana fornum, fallegum orðum og framsetning máls. Sá tími kemur nógu fljótt samt, að alþýðumaðurinn íslenzki verður að leigja til þess lærðan mann að kenna sér að skilja sögurnar sínar, eins og þær væru ritaðar á latínu eða grísku, ef hann annars vill nokkuð um þær vita. Við megum illa við því enn. Svo þagna ég um þetta, en raula undir með Steingrími:

„Grammatíkus greitt um völl
Gekk með tínu-kerin.
Hann hirti spörðin ég held öll,
En eftir skildi berin.“

En það elur á þessum geig hjá mér, við „grammatíkus“, og því leiði ég minn hest hjá honum.

Annars veit ég, hvað við mig verður sagt, sem sé, að þó mér virðist eitthvað í Vafurlogum vel sagt, sé það allt saman yfirskin höfundarins; hann fylgi ritningunni og láti vinstri hendina aldrei vita, hvað sú hægri geri, og svo moki þær hvor frá annarri á mis; hann sé eins og þingmaður Gimli-héraðs í járnbrautarmálinu í fyrra, hann standi í sömu sporum, og þori í hvorugan fótinn að stíga, því ef hann færi annan hvorn til, verði Galisíumaður undir öðrum, eða Íslendingur undir hinum, og íhaldsatkvæðið sitt marið til ónýtis úr honum. Engum er alls varnað, og mér ekki þess heldur að þurfa ekki að búa í Winnipeg, þar sem menn „sjá ekki málefni, heldur aðeins menn“. Í seytján ár höfum við séra Friðrik verið einn dag saman og rabbað aðeins um veðrið, um daginn og veginn, eins og gamlir sveitungar. En þó ég vissi það fyrir víst, sem ekki er, að séra Friðrik hygði mig vera Þorgeir Hávarsson, sem hyggi mann aðeins af því hann bæri svo vel undir exi mína, vildi ég reyna að unna honum sannmælis samt. Kunni ég mann á velli að þekkja, t. d. í Vafurlogum, hefði ég sagt, að séra Friðrik myndi heldur kjósa sér það sæti í sögu Íslendinga, sem Þorgeir Ljósvetningagoði skipar, en Jóns biskups Arasonar. Sé Vafurlogar það sem mér virðist að aðalefni til, andróður gegn rógnum, illskiptninni milli Íslendinga vestan hafs út af trúmálum í upphafi, þá er mínum vonum fé undir þeim fólgið.

Séra Friðrik er heldur ekki heppnari með sitt mál, þó hann mæli með því, að nú eigi að láta taka hreint úr höggi. Hann var hreinn og beinn lýðstjórnarmaður í grein um stjórnarmál Íslands í blaði sínu „Breiðablikum". Vestur-Íslendingar yfir höfuð grobba um ekkert eins mikið eins og lýðstjórn sína og frelsi. Þarna hefði séra Friðrik átt að tala fyrir munn þessarar lýðstjórnar-tröllatrúar, þessa fagurgjallandi frjálslyndis. En viti menn, verri dembu hefir hann aldrei fengið fyrir flónsku sína og skrílskaparhátt, og sú demba kom sunnan úr Bandaríkjum og það frá höfundi, sem á það kvaðst trúa, sem var aðalefnið í erindi séra Friðriks. Að hafa skilið og skipt við Danakonung, yrði Íslandi bezt. Þeir „sjá menn, ekki málefni", lýðstjórnarmennirnir líka, sunnan úr Minnesota norður til Manitoba. Hitt lá í augum uppi, að aukaatriðin í erindi séra Friðriks um þetta mál, eins og þar sem hann var að gizka í vonirnar um viðskiptahug Dana til Íslendinga, og hvernig Játvarður Englakonungur myndi skerast í málin, gátu sýnzt vera gripin úr lausu lofti, jafnvel þeim, sem aðhyllast konungslausa lýðstjórn, en þau voru samt ekki úthúðunarefni. Sérajónskan sá aðallega aldrei neitt nýtilegt í neinu íslenzku, nema sjálfri sér og fornsögunum. Það eldir eftir af henni, en hún var aldrei sannspá né sigursæl. Það er líka hugsanleg álíka umvöndun og hún var, og á betri gögnum byggð, en svo hamslaus, að hún hálsbrýtur sjálfa sig. „Maður getur ekki varazt það, að fuglarnir í loftinu fljúgi yfir höfuðið á manni," segir Vídalín einhvers staðar, „en maður getur varazt, að þeir hreiðri sig í hárinu." Mér ætti að takast það, sem er sköllóttur fyrir lifandi löngu.

Síðan ég las Vafurloga á jólanóttina í vetur, hefi ég setið á krossgötum fram á miðnætti, tvisvar í viku, hvert það kveld sem pósturinn kom. Margir urðu álfarnir og ýmislegt á boðstólum. En aldrei kom hann, álfurinn með flotskjöldinn, sem freistaði mín, því ég býst við að bíta í hjá honum, þó að séra Friðrik hafi varað mig við því. Ég átti líka varla von á honum enn, það kom enginn austan frá Íslandi, þar sem þeir kváðu vera allra ísmeygilegastir. Þessir, sem ég hefi orðið var við, voru flestir frá Winnipeg og fóru lítið með flot, sem von er; þar hlýtur að hafa farið margur feitur bitinn í kosningakæfuna nýsoðnu.

Svo er hitt sem mér baggar, maður á að sjá til fjögurra

kirkna frá sætinu sínu á krossgötu. Mér hefir aðeins sýnzt rofa til þriggja, því ég tel ekki hjallinn hans Jóns míns Gottwill í Ottawa; mér virtist það bara vera kapella við ensku Íslandssöguna hans. Þessar þrjár kirkjur, sem ég þóttist koma auga á, voru Hinna fyrstu-lúthersku, — ég skrifa það í einu orði, eins og „Pre-Adamites“ á ensku, — Tjaldbúðarmannanna og Únítaranna. En kannske opnast á mér skyggnurnar fyrir inni fjórðu með framtíðinni. Maður þraukar svona þangað til, og þakkar hverjum álfi fyrir gott boð.

[1907]

## Mannadæmi.

I.

Íslendingur er maður, og hefði ekki unað öðru betur, þó völ hefði verið á.

Þó kemur það fyrir, að manni leikur öfund á, hvernig annarra þjóða menn hér vestra sverja sig glögglega í góðar ættir. Hvað kom Íslendingum annars til að nefna eitthvað af álfunni hérna Írland ið mikla? Voru Írarnir þá líka orðnir á undan okkur, eins og á Íslandi fyrr, og hér, við næstu hingaðkomu? Þetta er einungis okkar á milli. Hitt er heimskunnugt, að þegar Írland leggur niður enska okið, verða það Vestur-Írarnir, sem greiddu skattana, þá sem þjóð þeirra þurfti til að drepa sig úr dróma. Hvenær þeir byrjuðu upphafið á því, veit ég ekki um, en að því hafa þeir alltaf verið í mínu fjörutíu ára nágrenni og haft að orðtaki það, sem þýða mundi á vora tungu: að hittast svo á Þingvelli heima. Og þeir stríddu ekki um stefnurnar þar. Þeir greiddu málagjöldin þangað, sem djarfmannlegust var framsóknin.

Manni fannst það ættarbót að vera Írlendingur.

II.

Fyrir fjórum-fimm árum gekk hér grískur maður um geitarhúsin, til að afla þjóð sinni ullar. Átti hún að fara í fötin handa þeim, sem bjuggust út til að tykta Tyrkjann?

Það kemur okkur raunar ekkert við.

Grikkir teljast ekki, nú orðið, með göfugustu þjóðum. Hér eru þeir fámennir fyrir. Á einu fundarkveldi þeirra í Ottawa gerðu þeir sig þó aflagsfæra um átta hundruð dollara til ætt-

jarðar sinnar, en voru þó svo fáir, að fréttasmala, sem við var staddur, fannst afbragð að. Grískar vinnukonur, sem voru þar, sem ekki áttu óeyddan eyri, en hring á hendi, gáfu þarna fingurgullin sín, ef ekki var til annars að þrífa. Manni varð unun að því, að enn þurfti enginn að vera ættjarðarskömm, þó hann væri grískur.

III.

Nærri öld síðan Noregur stakk niður merki sínu í Eiðsvöll. Vestur-Norðmenn ferðast í fylkingu heim til ættarhagans og ætla að skilja honum eftir milljón króna gjöf. Þeir bjóðast til að sigla, og eru að safna, jafnvel hérna kringum Klettafjöllin.

Eins og oft áður, verður enn drengilegt að vera Norðmaður.

IV.

Svíar komast ekki á eigin árum austan frá sér hingað. Þá skortir skipakost. Nú ætla þeir að gera félag með sér, austan hafs og vestan, lýðir og landssjóður, um sextán milljóna skipastól, til að geta farið sinna ferða milli byggða. Af þeim milljónum er vænzt eftir sex frá Vestur-Svíum.

Það mál á að vísu ekki erindi við okkur.

En, hvað líður íslenzka eimskipamálinu okkar?

Hvorutveggja er reyndar ráðagerð ennþá.

Ýmsu má trúa um tvísýnu-mál — hvort veglegra verði, að vera Vestur-Svíi eða Vestmaður. [1914]

## Fréttaburður.

(Þýtt.)

Brezkur þingmaður, A. Ponsonby, gat þess í ræðu, sem hann hélt nýlega í Glasgow, hvernig dagblöð bera stundum fréttirnar. Eftir því sem honum sagðist frá er eitt dæmið þetta:

Þýzka blaðið, „Kölnische Zeitung", kom fyrst með svona frétt:

„Þegar fregnin kom, að Antwerp hefði gefizt upp, var kirkjuklukkunum (sem sé: á Þýzkalandi) hringt."

„Le Matin", franskt blað, kom þessu næst í stílinn, á þennan hátt: „Frétt, sem stendur í „Kölnische Zeitung", segir frá

því, að prestarnir í Antwerp hafi verið þvingaðir til að hringja kirkjuklukkunum, þegar borgin varð yfirunnin.“

„London Times“, enskt blað, gerði svo þessa umbót:

„„Le Matin“ hefir það eftir frétt frá Cologne, að belgisku prestarnir, sem neituðu að hringja kirkjuklukkunum, þegar Antwerp féll í hendur Þjóðverja, hafi allir verið reknir út af heimilum sínum.“

„Corriere della Sera“, ítalskt blað, tók nú við og gekk frá þessu svona:

„„London Times“ hefir fengið þá frétt frá Cologne, gegnum París, að allir belgisku prestarnir, sem afsögðu að hringja kirkjuklukkunum, þegar Antwerp var tekin, hafi verið reknir í þrældómsvinnu.“

„Le Matin“, blaðið sem gerði fyrstu affærsluna, rak nú smiðshöggið á þetta, með því að flytja söguna svona:

„„Corriere della Sera“ hefir það eftir fréttum frá Cologne gegnum Lundúnir, að nú sé staðhæft, að inir grimmúðugu sigurvegarar yfir Antwerp hafi hegnt belgisku prestunum, sem höfðu kjark til að neita að hringja kirkjuklukkum sínum þeim til viðhafnar, með því móti að hengja þá upp á fótunum neðan í klukknakólfana.“ [1916]

## Það sem bóndanum þykir.

### Eftir Donald Stewart, í Farmer's Advocate.

Í mörgu svipar okkar lofsungna landi til Rússlands. Helzta afurð okkar er hveiti. Við byggjum kuldabelti. Bændur okkar margir hafa hafizt höndum til samvinnu. Járnbrauta-þvælan okkar er þjóðarskömm. Þingmála-þefarar hafa handleitt okkur sem heimska krakka. Af blöðunum okkar er farið að leggja fýlulykt. Landskostum okkar höfum við sóað, mann fram af manni. Kirkjudeildirnar, mannamunurinn, stjórnmálaskúmarnir hafa seilzt í kverkatök hvert á öðru og árum saman. Arður af starfi erfiðismannsins hefir löngum lent í greipum millimannabrallsins. Stórir þættir af þjóðeign okkar hafa komizt í klær landstólpanna, sem eiga á þeim einkarétt. Við eigum urmul af fólki, sem iðjar það eitt að skeggræða. Sanngjarn Rússi myndi telja ýmis af þessum einkenn-

um okkar svipuð þeim, sem steyptu hans eigin þjóð í eymd og óstjórn.

Auðvitað erum við ekki í slíkri reiðuleysu sem Rússland. Við erum ekki fótumtroðnir af Prússum. Við getum enn selt varning okkar með hagnaði, vegna auðnusamari aðstöðu. Fjárhagur lands okkar er, að vísu, í vandræðum. En, nágrenni okkar við greiðan markað og ágætis landskostir hafa hingað til fleytt fámenninu okkar fram, við þolandi kjör. Þar að auki höfum við þjóðstjórn, svo nefnda, og stöðulög okkar eru ekki öll brotin enn. Það er og með sönnu sagt, að ráðsmenn Rússlands eru þeir Lenin og Trotzky. En þó Rússastjórn sýnist seint miða það vandaverk að endurreisa sína hálfdrepnu þjóð og skorða þýzkan yfirgang, er hún samt sem áður almennings aflið það, sem þegar þjóðinni lá mest á, kippti niður keisaraveldinu og gæðingum þess, sem seldu þjóð sína samvizkulaust. Fyrir slíka synd, og meðan rússneska þjóðin á í harða höggi við þær verstu voðahættur, sem nokkur þjóð hefir verið nokkru sinni í stödd, er hún að háði höfð af gulu geplunum, dagblöðunum okkar, sem maka sig í framan með glóandi lofi um lýðræði.

Í allri Norðurálfunni er ekki til það land, sem svo er gáfumönnum gætt, að því farist að fussa við Rússlandi, jafn örlátt og það hefir verið við heiminn, á Tolstojunum, söngskáldunum, listamyndurunum, söngsvönunum, ritsnillingunum og vísindamönnunum.

Hugtök okkar á menningu eru lausalopaleg, nú á tímum. Á síðasta aldarfjórðungi hefir Rússland átt til útflutnings meira af menningu en nokkurt annað land á sama tíma. En þrátt fyrir það, síðan það rataði í sína raunalegu ógæfu, sem við vitum þó allir vel, að svikráðum yfirvalda þess var einum um að kenna, höfum við farið um það fyrirlitningarorðum, fleiprað eins og fávitar raus hrekkvísra eður heimskra ritstjóra, sem þekkja minna til Rússlands en til myrkviðanna í innstu Afríku.

Ég hefi tekið hugsunarháttinn í garð Rússlands sérstaklega fram, eins og hann verður ofan á hjá múgnum vestan hafs, sér í lagi sökum þess, að hann sýnir svo glöggt eitt það, sem okkar ungu þjóð er áfátt í. Við vestanmenn erum æskuþjóð og eðallynd, en átakanlega ófróðir í því, hvað heita megi menning. Eigum við nokkurn íþróttamann andlegan,

sem heimurinn veit af? Hver getur um okkar bögulegu bókmenntir út um víða veröld? Ráðlegast að láta þeim spurningum ósvarað. Sá tími kemur, að við mennumst. Við eigum menninguna fyrir oss liggjandi í framtíðinni, alveg eins og auðinn mikla, sem liggur ósnortinn í landinu. En þangað til sá dagur rennur, ættum við að hafa taumhald á þeirri tilhneiging okkar að sleggjudæma um örðug málefni annarra landa, sem eru okkur, að líkindum, ókunnug. Fjöldi fólks þykist geta gefið úrskurð um írsku stjórnmálin, óðara en það les hlaupafrétt um þau í blöðunum, þar sem það situr heima við arineld sinn. Annaðhvort vill það skjóta alla Írana dauða, eður þá Englendinga. Það fer eftir því, hver áhrif að athugasemdir þessara grunnfæru blaða hafa haft á hugsun þess og hjartalag.

Æski ég mér einhverrar úrlausnar á málum Rússlands til dæmis, þarf ég ekki lengra en í málmvörubúð í héraðsþorpinu hérna. Þar hitti ég áreiðanlega einhvern heimspeking, sitjandi á naglakút, sem þau efni eru auðráðin. Í minni grennd eru það þeir, sem fávísastir og úrræðaminnstir eru, sem fremst standa í flokki þessara kreddulesnu lærisveina Norðurálfu-stjórnmálanna. Ýmsir þeirra heimsóttu hrossaréttina (stampede) í Winnipeg, fyrir fáum árum síðan. Sú ferð er þeim eftirminnilegasta atriði úr ævi þeirra. Fyrirfarandi daga hafa þeir þotið um sveitina þusandi um það (en minnkunarlausir þó, því þeir höfðu ekki vit til að sjá, að þeir voru að gangast við að hafa gert glópsku), að þeir áttu ekki ráð á nægilegri greind til að greiða skynsamlegt atkvæði á kjörþingi heima í héraði sínu, þar sem eitt af okkar smáþjóðarmálum var lagt í úrskurðarvald sjálfra þeirra.

Sennilega ættum við, áður en við förum að rétta Rússlandi ráðleggingar okkar, að gera okkur sjálfum þann greiða að vaxa meira að vizku. Við erum enn ekki komnir á það rek að geta hrópað út til heimsins: „Berðu þig vel, lagsmaður, því sá kemur dagurinn, ef þú þreytist ekki að vera þangað til að, að þú munt fá okkur að líkjast, að makalausri menningu og lastalausri landsstjórn.“ [1918]

## Óhlutdræg blaðamennska.

Fyrir fáum árum var uppi í Bandaríkjunum ritstjóri, sem hét John Swinton. Þann orðstír átti hann, að hann væri sanngjarnastur og sjálfstæðastur allra amerískra ritstjóra, sem þá voru þar við blaðamennsku riðnir, öndvegishöldur, þeirra elztur og beztur. Á efri árum hans stofnuðu starfsbræður hans til gildis í New York honum til heiðurs. Þar átti hann að mæla fyrir minni óháðrar blaðamennsku. Það sem hann sagði var þetta:

„Í Ameríku er sá hlutur hvergi til, sem heitið getur óháð blað, nema ef vera kynni eitthvert sveitablað.

Þetta vitið þið og ég veit það líka. Enginn ykkar þyrði að segja sannfæring sína í blaðagrein, eins og hún er. Ef þið gerðuð það, vitið þið vel og fyrirfram að slíku yrði stungið undir stól.

Mér sjálfum eru greiddir $ 150.00 um vikuna fyrir að birta aldrei hreinskilnar skoðanir mínar í blaðinu, því sem ég þjóna að. Ýmsir ykkar vinna fyrir lík verkalaun. Hver ykkar, sem væri svo vitfirrtur að rita eins og honum býr í brjósti, yrði rekinn út á götuna að leita sér annarrar atvinnu.

Verkahringur New York ritstjórans er sá, að eyðileggja sannleikann, að skrökva skammfeilnislaust, að rangsnúa, að flaðra fyrir fótum Mammons, að selja lýð sinn og land fyrir sitt eigið uppeldi.

Þið vitið þetta og ég veit þetta. Minni óháðrar blaðamennsku — hvílík heimska.

Við erum tól og þrælar ríkismanna, sem liggja í launkofum. Við erum leikbrúður, þeir kippa í þræðina, við dönsum. Hæfileikar okkar, hamingja okkar, ævi okkar er annarra manna eign. Við erum andlegar undirlægjur.“ [1918]

## Minnisvarða-málefni.

Röskvari er kjallaranefnd Jóns Sigurðssonar styttunnar rausnast hún út í blöðin nú, og hlammar sér á þröngsetinn þjóðræknisbekkinn og eggjar almenning, þessi minnisvarðauppkreista í Winnipeg, hún, sem hlaða ætlar „heiðursteikn yfir leiði“ hniginna hermanna íslenzkra. Henni virðist það

víst tímabærasta tilþrifið á þeirri leið að greiða raunagötu þá, sem framundan þeim liggur, sem afturkoman auðnast, lifandi að vísu, en lamaðir á hug og heilsu.

Með þessum línum skal ekkert sagt af illum hug til hermannanna íslenzku, þeirra sem féllu né hinna, sem á fótum eru. En ætlað er þeim að vara íslenzkt vinnufólk og bændalýð við því, sem aflögueyri kunna að hafa, að hrapa mjög að gjöfum í þá hít að sinni, en verja heldur því fé til brýnni bráðaþarfa þeim liðsmönnum íslenzkum, sem uppi standa og heim hverfa.

„Þeir dauðu hafa sinn dóm með sér,“ sem sagan kveður upp síðar, til eftirdæmis eður aðvörunar, og þá verður auðveldara að glöggva sig á einhverju því atriði, sem íþrótt vorri og orðstír inna föllnu kynni að geta staðið „óbrotgjarnt í Braga túni“, að verðugu vitni.

Samt skal því samsinnt vera, að enginn er líklegri en Einar Jónsson til þess að ganga á bug glitsnjáða tízku, sem þræðir venjuna og smásnotrið, og mætti hann einn um ráða, væri hann vísastur til að leysa af hendi eitthvert stórskorið útdyri, sem opnaði huganum fagurt fjallsýni inn í örlagaheim norrænnar dáðar og drengskapar, svo að jafnvel fyrir óskyggnum augum okkar ratanna rofaði fyrir nokkurri tign kringum sjálfa óhappamennina, eins og Sigynar, sem stendur og heldur mundlauginni yfir höfði Loka, allar aldir fram til Ragnaraka, til varnar því, að öll jörð skjálfi og mennirnir deyi af meiðslum við kvalateygjur hans, sem verstur á að hafa verið.

Einstaka sinnum, en örsjaldan, heppnast stökum manni að afkasta því, sem aldrei verður eins vel gert oftar. Eddusögnin um Sigyn er eitt dæmi þess. Engin þjóðsaga neinna trúarbragða hefir dregið upp eins göfuga konumynd. „Madonnur“ snillinganna verða hégómlegar við hliðina á henni.

Lengi mun íslenzk íþrótt geta leitað sér uppi margan ódáinsakur í landrými öræfanna og aldanna fyrir lögun eður liti. Við vitum ei nema það sé stærra landnám þar nú en nokkurn grunar. Ennþá fer okkur svo, „að sá stendur mitt á meðal vor, hvern vér ekki þekkjum.“ Það er allra landa borgarbragur.

En Íslendingar góðir. Við eigum fyrst úr lifandi vandræðum að leysa: högum heimkominna hermanna. Þar mun okk-

ur ekki veita af öllu okkar aflögufæra fé og forsjá, fremur en öðru fólki hér, eigi ekkert illt af að hljótast. Svo hefir það reynzt öðrum þjóðum áður. Hervald spennti Þýzkaland megingjörðum upp úr sigursæld. Hermála-brugg Frakka hafði nærri farið þjóðstjórn þar að forgörðum út af sömu sökum. Ýmsir óvandaðir togar ófust inn í uppistöðu Bandaríkjastjórnar eftir borgarastríðið þar. Við eigum sömu viðsjár í vændum, þótt hitt berist upp á bráðasta hönd, að þjóðin svíki ekki af sjálfri sér líf og limu með loforðum um brauð og björg, sem brotin eru. Eftir þeim efndum eigum við Íslendingar einnig að ganga, hvað sem það kostar. Grunsamt er, að inir heimalentu viti allir, hver að réttur þeirra sé, né tökin sem til þurfa að ná honum, án þess slíkt verði málfærslumönnum mak á krók. Svo fór það í Bandaríkjunum fyrrum. Að eðlisfari eru Íslendingar nokkuð tómlátir í bráðir. Ekki er örvænt, að þeir úrgengjust í ösinni. „Vöröld" hefir því hafið þarft verk, ef svo er sem hún býður, að hún veiti íslenzkum liðsmönnum þá aðstoð ókeypis, eftir föngum. En er hún þess umkomin svo nægi? Væri hitt ekki hægt, og nauðsynlegt, að með samtökum Íslendinga væri haldið uppi einhverju ráðfærslu-athvarfi í Winnipeg, undir stjórn færs og dugandi manns, sem annaðist þau mál hermönnunum að kostnaðarlausu? Ókunnugur spyr.

Heitorð þjóðarinnar við hermennina ættu ekki að verða að tvímælum. Ekki þó fyrir þá skuld, að þeir heimhorfnu, sem litla eiga sér útvegi, eigi umönnun alþýðu skyldugar skilið en margir hennar heimamanna, sem lagt hafa líf og heilsu sína í sölurnar, fram á fallandi fót, til uppgangs fyrir þetta auðnaland, en sjálfir ekkert úr býtum borið annað en erfiðið og fátæktina. En það verður léleg sanngirni, þó lögð séu saman tvö rangindi.

Líka er það sennilegt mjög, sem Vöröld víkur á, að ýmsir, sem þó vilja halda uppi minningu þessarar „darraðar dróttar", séu orðnir svo saddir á þessum steinaldar hugsunarhætti, sem aldrei dettur neitt nýtt í hug, en steypir sjálfan sig alltaf upp, að nú hafi þeir í hyggju að breyta til. Það hafði jafnvel verið haft orð á því í næsta kotaþorpinu hérna á útkjálkanum, áður en Vöröld sagði frá þessu.

Annars hefir Heimskringla lagt til þessa máls það, sem líklegt væri til að fá fylgi fólks, allvel færi á, og er að auki

málamiðlun. Hún getur þess, að Winnipeg-bær, þessi Aþena Íslendinga í Norðvesturheimi, ætli að efna sér til safns af listaverkum. Með svo sönnum rökum og greinagóðum að óþarft er að endurtaka, sýnir blaðið fram á, að það sé þjóðræknisskylda Vestur-Íslendinga að eiga hlut þar að. Svo er það líka, og á báða bóga: eykur við álit ættjarðar okkar, með að koma því á framfæri, sem þar er bezt gert, og auðgar fósturlandið hérna að góðum gripum. Ekki er ólíklegt, að einhverjir Íslendingar vestan hafs eigi þegar nokkra muni heimagerða, sem sæmdu slíku safni, og létu þá af hendi rakna. Næstum víst, að nokkrir myndu unna safninu þeirra eftir sinn dag, ánægðir yfir að leifa dýrgripi sína í svo góðri geymslu. Vænta mætti, að einhverjir Vestmenn, sem til Íslands ferðast framvegis og peningaráð hafa, myndu finna sér metnað í að auka ýmsu góðu við.

Þá telur Heimskringla það helzt við hæfi, að minnismerki yfir hermennina föllnu, eftir Einar Jónsson, ef úr því yrði, væri ekki lagt upp lengra en fyrir sæti á safninu, að svo komnu. Þetta er þjóðráð, eins og á stendur. Miklir og dýrir minnisvarðar yfir herkónga og hernaðarfrægð hafa það til að falla fyrir örlög fram, þegar samvizkumórauður borgarmúgur gengur berserksgang um torgin. Söfnin innanhúss eru þá vísari griðastaður fyrir þess konar. Minnisvarðar í borgum úti vekja minni eftirtekt en virðast mætti. Sökum þess hve algengir þeir eru, hrífa þeir hugina viðlíka vel eins og handbókar-faðirvor í messunum — þessir dvergar í nágrennd við loftlýti einhvers skýjaskafans. Í safnhúsi sjást þeir fremur af þeim, sem meta kunna. Svo yrði það einnig ólíkt ódýrara en eitthvert bákn í bæjarjaðri, en hættan nokkur að sæki í það, sem „sjóðþurrður“ nefnist hér í blöðunum, þegar landsfé hrekkur illa til útgjalda, eigi almenningur að reisa þennan minnisvarða-ás um öxl sér, að miklu leyti. Áhætta er, að svo fari fyrir féhirði fyrirtækisins sem Ögmundi sál. Sigurðssyni, sem „Getuna“ kvað, sífelldur „sjóðþurrður“ verði í peningahólfum hans;

„Því herrann vissi það hentast mér
Að hafa þá ekki of marga,“

orti Ögmundur; og eins fór það, þegar hann dreymdi, að bezti vinur hans og bjargvættur væri orðinn konungur Dana,

og eins og við var að búast og öll stjórnarvöld gera, sem kunna hæfileik sinna vina, gerði hann Ögmund þegar að gjaldkera ríkisins. Ögmundi fannst líka hagur sinn hækka, þar sem hann sat í fjárhirzlunni, með raðir af dalakútum á öllum hillum. Það varð þó skammgóður vermir. Útborganir drifu að honum úr öllum áttum. Hann lagði þær saman og taldi í kútunum, hvað ofan í samt:

„Ég var að telja, og taldi brattan
Tíu sinnum hvern skildings-skrattann,“

því launa-horfur hans sjálfs versnuðu sífellt, þangað til að:

„Handa mér varð ekkert ettir,
Utan kútar, rófubrettir,“

sem þýðir víst sama og tómir.

Viðbúið væri, að allur upptíningurinn eyddist fyrir okkur til að bisa bjarginu upp á gatnamót, en lítið yrði afgangs til að launa Einari sinn starfa, annað en ávísun á þjóðræknisþörf okkar og hrós fyrir handarvikið. „Toading is his long suit“ — smjaðrið er hann kjólklæðnaður — segja þeir, sem enskuna kunna, um þá, sem lagnir eru að mýkja sitt fram með fagurgala, og við kynnum að bregða því fyrir okkur í fjárþröng, og Einar er líklega lítill kaupmaður. Okkur hefir farizt nú sem oftar, og eins og öðrum mönnum gjarnast gengur, tekið trúanlegt erlendra manna mat á Einari, en ánægjulegra var, hefðum við uppgötvað hann sjálfir, fyrstir manna. En svo gerum við það nú við næsta mann, þegar við förum að draga okkar deild að listasafninu í Winnipeg, því það hollræði Heimskringlu ættum við að hafa.

Meðal innlendra er nú mjög skvaldrað um það, að í hverri borg og byggð skuli reist almenningshýsi, eins konar Vingólf, fyrir allan félagsskap og mannfagnað hvers nágrennis; í þeim á að vera eitt „allra helgasta“, er geymi minjar um sína sveitunga, sem féllu, og stríðið. Þetta kann að verða, en sú hreyfing hefir tæplega áttað sig glögglega enn.

Sé það annað en ímyndun okkur til ánægju, að til muni íslenzkir milljónarar í Winnipeg, og jafnvel þó að ekki væri um aðra að gera þar en vel efnaða menn, ættu þeir úrtölulaust að fá að kosta til hvers konar minnisvarða, sem þeir kysu. Helzta réttlæting einstaklingsauðlegðar hefir löngum

verið sú, hvílíkur bjargvættur fyrirtækjanna hún væri, og listanna líka. Þarna gæti hún gengið sér í góðar þarfir.

Einhvers staðar í Bretasögu er getið um karl, sem Cromwell hét. Hann var byltingaseggur og „bolsheviki“ sinna tíma. Það var sú taugin, sem haldið hefir uppi inum betri orðstír hans, ávallt síðan hann leið undir lok jarðar. Einnig var hann heljarmenni og harðráður. Um það gerði alþýðusamvizkan sína munnmælasögu, sem enn er til í ævintýrum. Hvar sem Cromwell var staddur, í heimahúsi eða ríkisráði, blasti ætíð við öllum óstorkinn blóðdropi á hálsklútnum hans. Einu gilti, þó klúturinn væri nýr, á sama stóð, þó hann væri þveginn, blóðdropinn kom óðara í ljós aftur, jafnskjótt og Cromwell hafði hnýtt honum um hálsinn. Þessi litla, meinlausa ógeðsfylgja hans, varð honum grimmara böl en ýmsum aðrar stærri. Engum skyldi meinað að þvo blett úr hálsklútnum sínum með hverju sem honum kemur til hugar. [1919]

## Fundarfregn.

### Eins og mann minnir til.

— — Nokkrir byggðarmenn hér höfðu boðað fund að Markerville, Alta, inn 3. þ. m., til umræðu um þrjátíu manna ávarpið. Kuldar miklir höfðu gengið um tíma og fáförult verið um sveit, sem mun hafa valdið því, að mót þetta varð ei svo fjölsótt, sem annars hefði orðið.

Forseti var kjörinn Kristinn Kristinsson og fundarritari Jóhann Björnsson. Séra Pétur Hjálmsson hóf umræður með langri tölu og röggsamri um minnisvarðamálið og mælti mjög vel fyrir því. Að því erindi loknu ályktaði fundurinn, með góðu samþykki formælanda, að fresta umræðum um það mál að sinni, en koma þjóðræknismálinu á rekspöl. Stephan G. las upp þrjátíu manna ávarpið þar næst og jók við nokkrum orðum. Kvað sér virðast vel frá því gengið og vera því sammála, en engu þó við bæta menningu Íslendinga til hróss, láta sér nægja það, sem þegar væri sagt, en fara heldur fáum orðum um nokkrar þær viðbárur, sem hafðar væru gegn viðhaldi íslenzkrar tungu hér í landi, ef ske kynni, að hann gæti sannfært aðra, eins og sjálfan sig, um að þær væru ekki réttar í reynslunni. Tók til nokkur dæmi þess, að þau lönd

væru mörg, þar sem töluð væri fleiri tunga en ein af landsfólki, og væru engir óþjóðræknari fyrir það. Komst að þeirri niðurstöðu, að máttarstoð þjóðrækni væri frekar sameiginleg heimili og hagir manna í einu og sama landi en eitt og sama tungumál. Hélt því fram, að á unga aldri lærðu börn tvö mál eður fleiri á sama tíma næstum eins létt og eitt, og gat um dæmi til þess. Sagði, að lærdómur sá, að lesa og skilja íslenzku, væri langtum óörðugri en sams konar nám í ensku, stafsetning óbrotnari og orðin hvert frá öðru runnin, en ekki gripin upp úr öllum áttum. Þó taldi hann það heimskustu viðbáruna, sem héldi því fram, að það gerði fólk útúrskotið að eiga kost þess að læra tvö tungumál. Að öðru jöfnu væri sá útúrskotnari og miður fær maður, sem aðeins kynni eitt mál. Hinn væri ögn víðar heima. Og að vera sem víðast heima, væri það, sem allir eru að hælast um af og kalla menntun. Íslenzkan greiddi fyrir góðum skilningi á ensku mjög víða. Unglingar hér, sem á enska skóla gengju frá heimilum, þar sem önnur mál en enska væru töluð í heimahúsum, væru ekki þeir, sem örðugast ættu við enskuna, heldur hinir, sem eldust upp heima hjá sér við afbakaða ensku erlendra foreldra eða brezkar mállýzkur. Íslenzkan stæði því enskunni hvergi í vegi, þjóðrækninni, né einstaklingnum, sem hér væri alinn upp við innlenda skólagöngu.

Næst þessu voru bornar upp, ræddar og samþykktar, þessar uppástungur:

I.

Fundur þessi tjáir sig fúsan til að ganga í og styðja eftir föngum almennt félag Íslendinga, sem stefnir að því einu að vernda og viðhalda íslenzkri tungu, bókmenntum og listum vestan hafs; sé öllum öðrum ágreiningsmálum úti byggt.

II.

Fundurinn ræður til, að félagið sjái um, að þegar séu hafin samtök í öllum byggðum Íslendinga vestan hafs, um að öll börn á skólaaldri af íslenzku bergi brotin eigi kost á tilsögn í að lesa og að mæla íslenzka tungu, hvar sem slíkt hefir enn ekki verið upp tekið; og að sú tilsögn verði svo ásett, að heimilum sé sem hægust til aðsóknar, og að félagið styðji það mál með hvers kyns ráði og dáð, sem því er unnt.

Fundurinn bendir á, hvort ekki sé verulegur vegur, að félagið réði hæfan mann eður konu, sem ferðaðist um byggðir vorar vestra til að kenna og koma slíkri kennslu á sem víðast. Líka væri það slíkum manni fremur til meðmæla, væri hann lítið kenndur við in önnur ágreiningsmál okkar.

III.

Fundurinn telur félaginu þörf að leita aðstoðar Íslendinga heima að þessu máli. Bendir á, að fýsilegt myndi, að fá hingað að heiman einhverja þá, sem nú þykja snjallastir í íslenzkri tungu, sögu og bókmenntum, til að flytja hér alþýðleg erindi um þau efni. Fundinum þykir og sem það kynni að verða til góðra úrræða, ef takast mætti að greiða því götu, að ungir og menntaðir menn og konur, uppalin hér í landi, hyrfu heim við og við til kynnis og náms á íslenzkum menntum við skólana þar, einkum ef samtök fengjust um það að létta þess konar fólki kostnað sinn.

IV.

Þessi fundur vill, að félagi til viðhalds íslenzkunni sé haldið uppi einungis af ramleik Íslendinga sjálfra, hér og heima; vill á engan hátt þrengja því máli inn á barnaskóla landsins hér, né blanda því við stjórnmál. Telur hitt sjálfsagt, að félagið knýi á það, að á þeim skólum landsins, þar sem kjörkennsla er leyfð, sé íslenzkan sett á bekk með þeim málum, sem um má velja.

V.

Með allra samþykki óskar fundur þessi stofnfundi þeim, sem haldast á í Winnipeg, hamingju til samkomulags og viturlegra úrráða, og félaginu til alls góðs gengis og langframa.

Að þessum tillögum loknum bar minnisvarðamálið aftur á góma. Stungið hafði verið upp á, að þeir, sem á fundi voru staddir, rituðu sig fyrir einhverri upphæð til bráðabirgða, sem til taks væri, ef úr stofnun allsherjarfélagsins yrði meðal Íslendinga og fundarmenn gengju í það. Talsmaður minnisvarðamálsins bauð þá það jafnkeypi af sinni hálfu, að allir fundarmenn styrktu hvort tveggja. Ófeigur Sigurðsson kvaðst mundu gera það. Stephan G. sagðist fyrir sitt leyti engan eyri til þess máls leggja. Sá fróðafriður um heim allan,

sem fólki væri heitinn, yrði aldrei að efndum, fyrr en alþýðan sjálf fengi vit til að neita að herklæðast. En lítill vottur til þess virtist sér það vera að láta teygja sig óviljugan til að metnast af og gylla fyrir sjálfum sér missi og manntjón sitt, sem enn stæði óbætt. Það atriði, að minnisvarði væri hugfró þeim, sem misst hefðu sína í stríðið, væri vafasamt. Hitt þætti sér líklegra, að mörgum þeim mæðrum, sem syrgja fallinn son, verði léleg ljósmynd af honum, sem hún á sjálf heima, mætari menjagripur heldur en einhver stytta upp úr öllum valnum, sem væri komið fyrir einhvers staðar í Winnipeg.

Björn Björnsson kvaðst muna það, að íslenzkt vestanblað hefði haft það eftir Íslendingi, sem í hernum var og því kunnugur, að innan við 20 hefði tala þeirra verið, sem innrituðust í fylkingar undir nafninu Íslendingur, af öllum þeim fjölda, sem talinn væri til; hér hefðu hinir allir kallað sig kanadiska. Íslendingum væri því þetta minnisvarðamál óskylt, sem hóp út af fyrir sig, á annan hátt en þann, sem þeir tækju sinn hlut í minningum um kanadisku hermennina yfir höfuð, með öðru fólki hér, og ólíklegt, að annað væri ósk hermannanna sjálfra, sem töldu sig kanadiska, þó þeir væru af íslenzkum ættum runnir.

Jóhann Björnsson lýsti yfir því, að til minnisvarða þess, sem áætlaður væri og um væri að ræða, vildi hann engu fé eyða. Héraðshælin, sem innlendir menn byggjust við að reisa í minningarskyni um hernaðinn, væru sér miklu nær skapi, og bæði hlýlegri og nytsamlegri. Hann kvaðst hafa ritað Lögbergi fyrir litlu síðan grein í þessa átt, sem ekki hefði enn verið leyfður aðgangur þar.

Þar með lauk því máli á þessum fundi.

Voru svo upp tekin samskot þau til bráðabirgða, í þarfir íslenzks menningarfélags vestan hafs, ef stofnað yrði. Inn voru borgaðir $ 12 og skárust ekki þar úr leik heldur þeir, sem fastast höfðu haldið fram minnisvarðamálinu.

Jónas Húnford flutti þar næst áhugamikið hvatamál til innar yngri kynslóðar, um að hún léti sig viðhald íslenzkunnar hér vestra miklu skipta og bæri þar skylda til, og sagðist vel um það.

Ályktað var, að sökum fjarlægðar og ónógs undirbúnings hér, væri ekki fært að senda héðan mann á fulltrúaþing það í Winnipeg, sem haldast á að þessu sinni. Enda myndu álykt-

anir þær, sem fundurinn þegar hafði gert og sendar yrðu Winnipeg-nefndinni, að nokkru leyti lýsa hug manna hér til málefnisins.

Að síðustu voru kosnir í bráðabirgðanefnd, sem væntanleg allsherjarstjórn, sem kjörin yrði, getur snúið sér til, þeir: Ófeigur Sigurðsson, Red Deer, Alta, R.R. No. 1, og Jónas J. Húnford, Markerville, Alta, og Stephan G., Markerville, Alta.

Var svo fundi slitið. Ágreiningur hafði orðið (um minnisvarðamálið mestur) í einlægni en fullri einurð, en með góðri vinsemd.

Eftir á að hyggja og neðanmáls: Voröld, sem flutti tillögur undirbúningsnefndarinnar í Winnipeg fyrst íslenzkra blaða, barst ekki í byggðina fyrr en kveldið eftir fundinn; urðu [þær] því ekkert teknar til greina.

Markerville, 6. marz 1919.

## Villuvörður.

Villuvörður nefndi sveitafólkið á Íslandi þær vörður, sem einhver hlóð að óþörfu í nánd við vel merkta vegi. Þar fór saman nafn og not: þær gátu dregið ókunnuga afleiðis.

Staddur var ég á krossgötum í Winnipeg, eitt sinn sem oftar. Ég staldraði andspænis litla lafalúðanum í riddaralíki, sem fróðustu manna minni nú rámar aðeins í, hvað eigi að tákna — þessi fáu, sem eitthvað tollir þó í af því, sem þau voru þá sjálf samtíða.

Tveir aðrir umrenningar hliðruðu sér út úr rölt-rununni og hinkruðu við nálægt mér. Annar var eflaust gestur í bænum, því ég skildi, að hinn var að segja honum skil á stórmerkjum borgarinnar, strætum og húsakynnum.

Allt í einu kveður sá upp, sem aðkomandi virtist vera, og spyr: „En hvaða varða er nú þetta, þarna?“ og benti á líkneskið.

„Ó, — það er minnisvarði,“ var svarið, sem hann fékk.

„Ég sé nú það,“ anzaði sá, sem spurði. „En hvers minning á þetta að varða?“

„Kolað fari, ef ég get komið því fyrir mig núna, og mundi ég það þó lengi og vel. Ég bjó hér í bænum, þegar þetta var

reist upp þarna, fyrir mörgum árum,“ sagði sá aðspurði og vék sér að einum uppistandaranum, sem við okkur hafði bætzt, og bar upp fyrir honum gátuna. Sá hristi kollinn á þann hátt sem þýðir: Spurðu annan en mig. Borgarinn var ekki af baki dottinn samt, hann veifaði hendinni, í sama skyni og sagt er: heyrðu nú um hálft orð! að rosknum þul, sem skreiddist fram hjá honum. Öldungurinn gegndi bendingunni, sem var til að forvitnast um, hvort karl vissi, hvað „svingsin“ þarna þýddi.

„Það get ég sagt þér,“ svaraði sá aldraði, og andlitið á honum ljómaði upp af mannvitinu: „Þetta er minnisvarði yfir hermennina okkar, sem féllu í Riel-uppreistinni.“

Þessi eilífðargáta var þá ráðin, en gesturinn bjó enn yfir athugasemd og sagði: „Þið reistuð þá Riel gamla loksins minnisvarða?“

„Nei, nei. Nú misskildir þú. Ekki Riel! en hermönnunum okkar, sem féllu í bardaganum við hann.“

„Ó — ég skil ykkur,“ varð hinum þá að orði. „En það ber að sama brunni, allt minnir þetta aðeins á Riel. Sagan kennir uppreistina aðeins við hann. Hann rennur manni fyrst í hug, á undan öðrum þeim atburðum, og þeir deifast því meira sem þeim fjölgar og færast lengra frá honum. Nöfn hermannanna, sem ekki eru fest við annað sögulegra en það að falla, hverfa óaðstæðum ofan í eyðu. Með fleirtölunni má þau hvert annað af. Þetta merkikerti ykkar minnir bara á Riel.“

Saga samtímans er ætíð ofurlítið rangeygð, en hornaugu hennar breytast oft undarlega með aldrinum. Eftir aldarfjórðung myndi minnisvarði í Winnipeg, yfir íslenzka hermenn, helzt minna gleymið fólk á Vilhjálm keisara.

[1919]

## Árni Sveinsson til sanns vegar færður.

I.

Ekki alls fyrir löngu átti ég erindi í Voröld um minnisvarðamálið. Efni þess var það, í fám orðum flutt, að ég gat um, á hvern hátt að landslýðurinn, sem við Íslendingar hér búum saman við, ætlaði sér að minnast valkastanna sinna austan hafs, eins og honum sýndist hæfilegast og helzt við

sitt skap. Þá tók ég upp tillögu eins íslenzka blaðsins okkar, sem fór fram á það, að ráð-fyrir-gerðu íþrótta-smíði Einars Jónssonar yfir kumli fallinna Íslendinga yrði valið forsæti í íslenzkri deild á væntanlegu listasafni í Winnipeg, og var ég því heldur hlynntur, en taldi ýmis tormerki á að steypa slíkt upp á þorpum úti.

Fyrir þetta hefir Árni Sveinsson í Argyle reynt að lagða mig í Lögbergi nýlega. Auðvitað snertir hann ekki við neinu af þessu, sem ég lagði til málsins. Þess var líka lítil þörf, hann gat þá sagt þeim mun meira um mig, og með slíku móti hefir hann sneitt fyrir snaga, sem áður var á ýmsum ritningum hans, sem var sá, að langstagla mjög leiðinlega rétt mál og röng, svo fæstir höfðu elju til að feta sig fram úr allri þeirri flatneskju. Nýlega sagði nágranni minn: „Alltaf er Árni að! Alltaf lít ég á það, en nú les ég aldrei annað af greinum hans en orðin: Árni Sveinsson.“ Nú hefir Árni breytt þessu svo til bóta, að grein hans í Lögbergi um mig er að því leyti eitt ið læsilegasta, sem eftir hann liggur. Ég vona, að sem fæstir hafi gengið fram hjá henni fyrir undirskriftina.

Grein skal hér gerð fyrir andstæðunum í okkur Árna og fyrst því, hvað mér kom til að rita grein mína, sem hneykslaði hann.

Frá hafi til hafs, í borgum og byggðum allt í kringum okkur Íslendinga hér, greip sú hreyfing hérlendingana, að skylt væri að stofna til einhvers aldar-erfis eftir þá, sem í stríðinu féllu, þess sem væri þeim verðugt og þeim málstað, sem sigrað hefði og vegizt var á um. Báðir hertogarnir, stjórn og kirkja, höfðu með innfjálgum orðum talið almenningi trú um, að þessi surtarlogi væri kyntur yfir fegurri himni og farsælli jörð framtíðarinnar, og þeir, sem úr sinni fylking féllu, hlytu „heilagt fall til vallar“. Tilfinninganæmi lýðsins felldi sig við þetta eins og trúarfyrirheit í raunum sínum. Slíkt kom hvarvetna fram, þegar farið var að ræða um minnismerki yfir hermennina föllnu. Enginn kaus að geyma þær minningar í Grjótúnagörðum, sjálfráður múgurinn fann til þess, líkt og trúuðum og tilfinninganæmum manni myndi verða við að líta grásteinshrúgu á gröfinni helgu.

Fyrir þessari hugsun alþýðumannsins, míns líka, bar ég lotningu. Ég vissi, að íslenzkt fólk margt var undir niðri þessu sammála, bæði átti það eðli til þess hjá sjálfu sér, og

svo stóð það hér uppi sem aðskildir dropar framan við öldu, sem rís. En á öðru skeiðinu þessa máls rennur upp steinöldin íslenzka í Winnipeg, með svo skjótum svifum og óðum ákafa, að því líktist, sem nú ætti að mærða hennar hugmynd inn á orðlausa alþýðu, hvort sem hún var henni hugfelld eður ekki.

Vegna þessa, fyrst og fremst, vakti ég máls á þessu í Voröld, vel vitandi, að í öllum áttum átti ég ýmsa árna yfir höfði mér fyrir bragðið, þó ekkert eiginnafn hefði ég þá í huga.

Næsta vandkvæðið, sem mér virtist vera á þessu minnisvarða-óðamáli, var það, að til þess sýndist slægzt að gera það að samloku við óafgreidda hreyfingu, um viðhald íslenzkunnar vestan hafs. Hvort það var gert af ásetningi eða einfeldni að senda þá illfylgju með því máli, sem alls þurfti fremur við en efnanna til nýs ágreinings, læt ég ósagt. Viðhaldi íslenzkunnar var ég hlynntur. Hitt sá ég í hendi minni, að Winnipeg-minnisvarðinn yrði henni steinn í götu, eins og í almenningi lá. Skoðanir á honum skiptu mönnum í byrjun, og til óþarfa. Ýmsir drógu sig þegar í hlé til að stíga ekki í þann eld, sem þeir yrðu síðar að standa í, sem sé þrætunni um minnisvarðamálið. Auðvitað er það óþörf sérhlífni, en ýmsu fólki er svo friðsamlega farið. Svo var það sjáanlegt, að betli-þreytt alþýða, eftir fleiri ára stríðskvabb, yrði tregari til að taka á arma sér þjóðrækni þessa, með fimmtíu þúsund dollara hnullunginn í fanginu, sem mörgum fyndist að ætti illa heima og yrði aukreitis öðrum þörfum þjóðræknisfélagsins, sem fé þyrfti til.

Þetta kom mér líka til að taka svona í strenginn í Voröld.

Eitt var þó, sem aftraði mér í bili. Það var ávænan um, að Einar Jónsson fengi að sníða til þennan varða. Ég ann honum fyrir íþrótt hans, sjálfdáð og hugsýni; á í mér, þó, einhvern svo kvikan blett, að slíkt snertir við honum, takist mér að sjá gegnum úfin-örlaga svipina hans. Ekki samt, að ég þykist kunna um að dæma, nema fyrir mig.

Listaverk hefi ég aldrei umgengizt og kem víst að þeim blindur. Engu að síður nægir mér þetta til þess, að mér væri það samvizkusök, ef svo ólíklega færi, að eitthvert mitt orð drægi ögn úr heiðri eða hagsmunum Einars. En svo varð ég viss á því, að sú raun yrði aldrei á, þó minnisvarða-móti hans yrði ekki tyllt upp á torgi, heldur ætti sér sæti í safni annarra

listaverka. Vel getur verið, að Einari heppnist meistarasmíð sín á minnisvarða, en þau forlög munu fáa snillinga hent hafa. Á þeim reit tekst ekki öllum bezt upp, fremur en erfiljóðaskáldunum, sem yrkja fyrir boðna borgun eður bænastað, en eiga frægð sína öðru að þakka. Líkneski einstakra manna, sem gnæfa alls staðar upp í almennings minni, koma þessu minnisvarðamáli ekkert við. Þau fara vel á vegamótum sem vitar, af því allir, sem sjá þá, vita hvers ímynd það er, sem eitt sinn skaraði fram úr í því að lýsa upp leiðir yfir brotsjó tímans. Þau lyfta almenningshuganum upp í hásæti fyrirmannsins á vængjum glöggra endurminninga. Við það yrkisefni yrði Einar ekki nú staddur yfir val jafningjanna, enda er svo fyrir að þakka, að stærri vandi en mannslíkan lætur honum ljúfara, þó torskildari sé fyrir grunnstígan götulýð, sem sveiar því, sem ekki gengur í augu hans, og segir: „Öll myndin er ljót.“

Ég veit, að það eru mínar eigin kenjar — en færi svo, að ég sæi setta upp við kaupstaðargötu táknmynd af hugarburði hugsjónamannsins og gripi ég það sem undir henni byggi — því annars myndi ég kalla hana ljóta eins og aðrir — þá myndi mér gremjast og tauta: „Guðlaus er heimskan, sem tyllir öðru eins upp í algleymingi, því sem ætti að standa inni í einhverri dómkirkju göfugra sanninda og fegurðar!“

Blátt fram talað: Það sem mig grunar, er, að minnismerki eftir Einar Jónsson eigi ennþá ekkert erindi út á götuna í Winnipeg, nema til stærilætisins og pyngjunnar. Á listasafni sæti það á sér samboðnari stað, og létt yrði að launa Einari fyrir það, þannig umbúið, svo að aldrei yrði með sönnu sagt, að útúrbetl hefði orðið til þess að kuta kaupið hans við nögl sér. Síðar meir, þegar fólk skilur, hvað það er, sem það fékk frá Einari, getur það gengið til verks, ef vildi, og varðað það upp á Winnipeg-reit.

Þetta vakti fyrir mér yfir Voraldar-grein minni.

## II.

Árni hafði engan tíma til að segja sína hlið á minnisvarðamálinu í annríki sínu að mála mig upp og heitingum á fólk, að láta mig ekki glepja fyrir sér. Sennilega eru þó röksemdir hans öfugar við mínar, en steini studdar og hjartgrónar, annars hefði hann ekki orðið svona uppvægur, og ekki dettur

mér í hug að drótta því að honum, að nú hafi hann lent á þrotavaði þeirra pilta, sem til rógs grípa ef rök bila, enda skal ég honum til sanns vegar færa lýsing hans á mér, því hún er mergur máls hans. Árni dæmir mig svo „að Lögbergi", að ég hafi fundið hjá mér köllun — svo sem í þakklætisskyni — með illgirnislegum orðum og klúrum rithætti að kasta saur á minning inna ósérplægnu hermanna og særa með því viðkvæmdar hjartans tilfinningar eftirlifandi ættingja.

Í Voraldar-grein minni er hvergi klámorð, né nokkurt köguryrði til hermannanna, það veit hver sem hana les, svo meinlaust verður mér og öðrum, þó Árni skrökvi þessu að sjálfum sér, sér til skemmtunar. Hann má líka bezt vita sjálfur, hvað þeim heiðursmanni sé hæfilegast boðið. Að vísu gaf ég í skyn, að harmsköp hefðu það verið að þurfa að falla í stríðinu, og hafa þó afleiðingar þess komið létt niður á mér og öllum mínum, enn sem komið er, og ég óska og vona, að Árni hafi haft sömu hamingju. En hann mun semja sig heldur við sigurópin og metnast meir af að moka yfir gröfina, og búa yfir gunnreifara geði en ég, svo von er þó viðkvæmni hans sárni.

Þá sezt Árni í fjárnámsdóm og les hann svona upp: „Ég man ekki til, að ég hafi heyrt getið um það, að hann hafi nokkurn tíma lagt fram peninga af frjálsum vilja, íslenzkum velferðarmálum til styrktar."

Þetta er ekki ofsögum sagt, þó langt sé til loku seilzt. Sjálfur get ég ekki sagt frá neinu þess konar, og enginn stafur er til fyrir því. Oft hefi ég líka til þess fundið, að ekkert er eins leiðinlegt við fátæktina eins og það, að geta aldrei styrkt, svo gagn sé að, þau málefni sem maður ann og hyggur góð og ósvikin. Ekki er tiltökumál, þó Árni bendi á þennan brest hjá mér, því þó að þúsund mílur liggi milli landamerkja okkar og ég hafi aldrei boðið honum búrreikninga mína, veit ég að hann er hirðusamari um búfræðina en ég og svo reikningsglöggur, að líklegt er, að hann sjái til þess, að enginn tölustafur týnist úr opinberum skýrslum, af því sem af hans hendi raknar. Hann er höldur góður og sómamaður — á almenna álnatölu, og slíkum höfðingja ekki láandi, þó honum sjáist yfir smágreiða annarra — ég meina ekki mína, þeir eru ekki teljandi — heldur til dæmis einskilding ekkjunnar í fátækrahirzlunni, sem Árni hefir, ef til vill, „heyrt getið um".

Næst leysir Árni alla Íslendinga undan skuldakröfum, sem ég hefi aldrei gert, hver sem hefir sótt til hans um þá undanþágu. En hún verður áfrýjulaus, og hljóðar svo:

„Ég veit ekki til, að íslenzka þjóðin skuldi Stephani G. Stephanssyni einn einasta dollar. Hann hefir ort ljóðin sín fyrir sjálfan sig — en Íslendingar létu prenta þau og binda og höfðu svo útsölu með höndum. Og ég man ekki betur en það, sem afgangs útsölu- og útgáfukostnaði varð, gengi til Stephans G. Stephanssonar.“

Það sæti sízt á mér að amast við þessari upptuggu. Ég hefi sjálfur sagt þessa sögu á prenti, fyrir nokkrum árum síðan, aðeins grunaði mig þá — og gat um það — að minn hluti hafi orðið meiri en það, sem afgangs varð útsölu- og útgáfukostnaði, ef allt hefði verið reiknað. Enn grunar mig það, þó aldrei hafi þeir, sem þar um réðu, viljað við það kannast, þegar ég hefi lauslega innt þá eftir því, og samt hygg ég mig vita betur. Vinir mínir unnu að þessu af eigin hvöt, ekki fyrir bónbjörg mína. Ég man ég gat þess þá í gamni, að einhvern tíma yrði það notað á mig sem aðdróttun. Ekkert þekkti ég Árna þá, heldur aðeins náttúrufar sumra skapmanna, þegar í þá fýkur af því maður verður þeim ósammála, enda er þetta ekki í fyrsta skipti, sem þessu hefir verið sveigt að mér.

En þó undarlegt megi virðast, hafa þeir aldrei gert það, sem kostnaðinn klufu; það eru hinir. Annars er ég Árna þakklátur fyrir að hafa komið þessari dylgju fyrstur á prent, jafn aumleg fávizka eins og það er að halda, að þetta verði mér til minnkunar og styðji minnisvarðamálstað sinn; eða af því einhverjir vinir manns hafa gert manni gott, sem Íslendingar eru, sé manni það til vanvirðu að hafa á móti nokkrum kreddum Árna og hans líka, en til þessa hefir hann skorið þennan ref. Annað getur hann ekki þýtt.

Árni segir, að ég hafi ort ljóðin mín fyrir sjálfan mig. Sjálf Bíleams asna gæti ekki sannara sagt. Ég hefi kveðið algerlega sjálfum mér til geðs og gamans, oft við vinnu mína, og hripað upp þegar tími fékkst til, eður gleymt því aftur, en án minnstu heilabrota, hvað um það yrði, hvort það „kæmist á prent“, eða hvort Árna eða öðrum yrði það ljúft eða leitt. Að mér varð það til fjár — að til eru menn, sem ekki eru eftirbátar Árna sjálfs að menntun og mannviti, sem urðu mér vinveittir vegna þessa kveðskapar míns, kom yfir mig sem

undarlegt og óvænt happ, sem ég hefi aldrei átt móð til að metnast af. Slettur um það eru getsakir. En þegar ég ekki þegi, svara ég fullum hálsi, fræðimanni sem flóni, sé um það mál rætt, sem ég hefi á annað borð gert mér grein fyrir. Hin leiði ég hjá mér. En það er mér ekki komið frá kveðskapnum.

„En ljóð Stephans munu helzt prýða hillur og bókaskápa þeirra, sem fást til að kaupa þau,“ ályktar Árni, enda má hann djarft úr flokki tala. Hann kostaði víst sjálfur upp á kirkjumálarit eftir sjálfan sig, hvort sem það var af því, að enginn annar bauðst til þess, og með svo þegjandi samþykki manna hefir því verið tekið, að enga hefi ég heyrt á það minnast, lífs eða liðna, allt til þessa dags, og aldrei séð það í skáp né á hillu nokkurs manns. Var þó ýmislegt í því, sem Árni hafði eftir öðrum, er vel var vert að lesa, ef mig minnir rétt. Var eitthvert ódýrasta drottins orð og lengi áður kennt í „Kringlu“.

Í síðustu svifunum getur Árni um þrjú íslenzk skáld, sem átt hefðu laun skilið. Réttdæmur er Árni ætíð, enda eru nú öll þessi skáld dauð. Þó mun hann hafa verið samtímamaður tveggja þeirra; annars, Páls Ólafssonar, langt fram á fullorðinsár sín. Óefað hefir Árni hlynnt að honum eitthvað, annars væri hann bara að „kalka grafir spámannanna“ með þessu.

Ekkert hækkar Árna hlið á minnisvarðamálinu, þó hann fyki svona um öll loft út frá henni. Þó er grein hans gull, í sinni röð, því í henni sýnir einn af heldri ákafabelgjum Winnipeg-varðans náttúru sína og skynsemi í minnisvarðamálinu.

Hér hefi ég breitt út bilið á milli okkar, svo þeir, sem um það njósna, mega nú milli sjá, öðlingsins frá Argyle og mín.

## Til Nikulásar Ottenson.

### Óbrotgjarnt.

„Óbrotgjarn í Braga túni,“ eru tvær síðustu hendingarnar í Arinbjarnardrápu Egils Skallagrímssonar. Snillyrði svo óbrotgjarnt, að íslenzk börn skilja það og hafa eftir honum, enn þann dag í dag, og er á ótal takteinum, í ræðu og riti.

## Óhappamaður.

„Óhappamaður = unfortunate man“ (G. T. Zoëga: Íslenzk-ensk orðabók. Rvík, 1904, bls. 324, 2. dálk, 17. lína a. o.). — Efalaust mætti tína til bein og hjástæð dæmi til þess, svo hundruðum skipti, úr mæltu máli og íslenzkum bókum.

Stærri tappa en þetta nenni ég ekki að reka fyrir allar flugurnar, sem þú sendir mér í sauðarleggnum þínum í Heimskringlu síðustu, Ottenson minn. Held kannske dugi, jafn fjölkunnugur eins og ég veit þú ert þó, síðan þú komst yfir þessi blöð úr Rauðskinnu dr. Johans Fritzners. Svo seiðir hann mann leikinn, kveðandinn hjá þér, á mansöng Ankíesar heitins, og tungurnar umsnúast, þegar þú herðir á með seinustu vísunni, þessari:

„Ört í stað ég inni það með hraða
Og öllum sanni á Óðins frú:
Að ágætlega byrja ég nú!“

[1919]

## Þjóðnýting.

„Jorden, tyvärr, är af qvinnor full,
Miste du en stå dig tusen åter.
Vill du, så hämtar jag dig af det kram
Hastigt en laddning från glödande Söder
Röda som rosor ock spaka som lam,
Se'n dra vi lott, eller dela som bröder.“

Svo kvað nú Tegnér heitinn í Friðþjófssögu, og með sama glettnisglotti yfir spaugilegum öfgum sá ég fyrir mörgum mánuðum síðan blað að heiman fyrst flytja ávænu af því, að eitthvað líkt því hefði verið lögleitt af byltingamönnum í einni sveit í Rússlandi. Að löngum tíma liðnum báru ensku blöðin þessi lög út um allar jarðir, eins og maður sæi yfir útdeilingu, og síðasta eftirætan er „Heimsk.“ gamla, eins og við var að búast. Ekki veit ég, hver flugufótur fyrir þessu er, en „Fairplay“, kanadiskt blað enskt og enginn bolshevika-vinur, heldur æst hermannablað, að svo miklu leyti sem ritstjóri þess ræðir þau mál, segir nú svo frá:

„Ef til vill rekur saga frú Raissa Lomonssoff frá Pétursborg (sem nú er stödd í Chicago) um það, hvernig in margtuggða fréttin um þjóðeign á 50 000 000 kvenna er til orðin,

skrökið ofan í háls þeim, sem enn eru að breiða þetta út. Hún skýrir þetta svona: Í Rússlandi er skopblað til, sem kallar sig „Mucha“, svipað eins og „Puck“ eða „Judge“ ykkar, og orðið þýðir húsfluga. Þegar múgamanna-ráðið — Soviet-stjórnin — breytti hjónabandslögunum svo, að þau vernda stranglegar dyggð konunnar heldur en áður átti sér stað, sáu stjórnleysingjar — ɔ: anarkistar — sér færi að æsa rússnesku kirkjuna gegn bolshevikum, en bæði þeir og hún eru andstæðingar stjórnleysingja. Stjórnleysingjar báru það á bolshevika, að lögin innleiddu óbundnar ástir. Skopblaðið „Mucha“ sá sér leik á borði að gera sér gaman, endurtók ið hlægilega úr hrópi stjórnleysingjanna og jók við. Eintök af því komust í hendur Englendinga og Ameríkumanna, sem þýddu það svo í römmustu alvöru. Í millibilinu sá rússneska ríkiskirkjan það sem var, hún hafði misst spón úr aski sínum, með nýju lögleiðingunni, misst einkarétt sinn til giftinga, varð óánægð út af því, notaði sér áhrif skopsögunnar, og setti út um veröldina þetta himinhróp.“

Frá þessu segi ég Voröld að gamni mínu, af því ég er, sjálfsagt af langri sambúð við Bretann, ögn snortinn af því, sem hann nefnir góðleikni (fairplay) sína, og hefi lært formála hans við kviðdóma: „Ef þið efizt um, að sakborningur sé að sök sannur, er það skylda ykkar að láta hann njóta þess.“ [1919]

## Nokkrar veilur í Winnipeg-varðanum.

Sú kenning hefir klingt við í ræðum og ritum þessara síðustu ára, að siðaðra manna heimur stæði á barmi þeirrar bóta-breytingar — reconstruction — að aldrei síðar yrði hann samur og áður. Félagsskapur og framkvæmd hans yrðu lögð í lófa lýðræðis. Í staðinn skipana samsoðinna flokka og foringja ætti allt það, sem almenning varðar, að eiga sér upptök í alþýðu ósk og framkvæmast að hennar fyrirsögn.

— — —

Minnisvarða-nefndin í Winnipeg fær ekki hóað saman meiru en tæpum tveim hundruðum til að líta á listaverk Einars Jónssonar með sér, af þeim þúsundum Íslendinga, sem þar búa, og fær 114 atkvæði aðeins, til trausts sinni ráðs-

mennsku, og kveður sig og sína stefnu hafa unnið kosningasigur. Svo kann kappinu að virðast, en síður forsjálninni. Segjum, að allir Íslendingar vestan hafs, sem á er skorað að bera kostnaðarbyrðina, séu rúm tuttugu þúsund talsins, eða fimmti hluti innar íslenzku þjóðar, eins og á er gizkað, það eru þá 114, gegn nítján þúsundum, níu hundruðum, níutíu og níu, sem enn hafa þagað. Ekki er það álitlegt enn með kostnaðinn, hversu hátt sem hampað er þessum 114, þarna á sjálfri fæðingarstofu steinvarðans mikla.

— — —

Nokkuð hefir þó unnizt á í minnisvarðamálinu. Nú er leyndardómurinn leystur, hvernig sá fertugi hamar lítur út, sem klífa á með almenningsfé. Einar Jónsson hefir sýnt listaverk sitt og lýst yfir því fyrir forkólfunum, og því er heitið, að svipir af því verði bornir út um byggðir Íslendinga hér bráðlega. Yfir öllu því er aðeins vel að láta. Þá geta allir dæmt um, hvort sjón sé þar ekki sögu ríkari, hvort sú myndastytta sé ekki of margþætt, of yfirgripsmikil, hugsuð of hátt yfir höfuð okkar ókunnugra eigin sögu okkar oftar en hitt (eða þá þeirra, sem minna skilja), til þess eins að fleygja út offjár í að gera hana að götuauglýsing. Þessi drápa ómældra alda, alla leið frá landnámstíð og inn í annað líf. Hugsum þá sjálfa okkur, hversu skjótt við myndum bera skyn á, hvað slíkt þýddi, þó við stæðum undir svona sköpuðu fuglabjargi, við sjö milljóna þinghúsið þeirra í Manitoba, ef enginn hefði útskýrt okkur það. Satt að segja mætti efast um, að sumir þeirra, sem nú eru léttmæltastir um lista-gildin, hefðu orðið þeim mun gleggri en við hversdagsmennirnir, að þeir hefðu hvergi hikað í skýringunum, hefðu þeir komið að þessu óviðbúnir.

Þó er það eitt, sem skýrast leggst í ímyndun manns við að horfa á sýnishornin af listaverki Einars, þau er sézt hafa á mynd eða í lýsingum, en það er, að sízt muni fjörutíu feta hæð þess ofætluð, eigi það að njóta sín vel úti í lausu lofti. Mikil hæð og sem mest í hana borið, svo myndin sæist samt skýrt, virðist eiga bezt við. Of lágt hrúgald myndi vera hlægilegt. Það mun líka vera eitt af einkennum á listaverkum Einars Jónssonar mörgum, að sparir aurar orka ekki að reisa þau vel úr velli, en það er list hans til lofs en ekki lasts að tálga ekki hugsjónir sínar niður í hæfi fyrir hreppakassana. En vel

mega þó Vestur-Íslendingar vera við því búnir, að fleiri þúsundir dollara heldur en þá grunar nú muni ganga upp, eigi sú útistökkun að verða fögur.

— — —

Fyrirætlaðan kostnað hafa talsmenn steinvarðans nú fært niður úr $ 50 000 og flökt ofan undir $ 40 000 svona lauslega. Skeð getur, að það reynist rétt og sé metið sem næst því, sem þeir nú vita. En hitt vitum við þó, alþýðufólkið, að hvort sem koma á okkur sjálfum eða þeim, sem í okkar umboði standa, til þess að ráðast í dýr fyrirtæki, er það enginn akkur til samþykkta að hrófla háum kostnaðaráætlunum í byrjun, því hafi það fé, sem fékkst í upphafi, hrokkið til að borga hálfgert verk, sjá þó allir það sem er, að því verður til einskis glatað, eigi að standa við svo búið, og taka af tvennu illu þann kostinn fyrr að urga það einhvern veginn upp, sem á vantar.

— — —

Það getur ekki úr grun manns gengið, að slíkur varði, sem á er ætlað, „hár og digur og hermannlegur", fáist aldrei fyrir $ 40—50 000, vel um vandaður. Efnið til þeirrar óvissu er það, að maður hyggur sig ráma til þess, að minnisvarðar, jafnvel óbrotnari og lægri en þessi verður að vera, hafi tekið upp meira fé fullgerðir en búizt er við að þessi kunni að kosta. Áreiðanlegra væri, að óreyndu, að búast við að þurfa ekki að sýta í svo sem sjötíu og fimm til hundruð þúsund dollara, þegar öll kurl væru komin til grafar. Vinsælustu fjárframlög meðal Vestur-Íslendinga voru eflaust íslenzka Eimskipafélagshlutakaupin, og allvel og einhuga var að þeim gengið, en veitti þó ekki af. Skyldi upphæðin, sem til varðans þarf, vera eins auðfengin, ef hún næði nokkuð upp í þau?

— — —

Minnisvarðanum er það til gildis talið, að hann verði búinn og borgaður. Allar aðrar uppástungur í þessu máli verði kostnaðarauki á komandi kynkvíslir, sem við, sem nú séum uppi, eigum engan rétt til að leggja á þær. Í fljótu bragði sýnist þetta fallega hugsað. En engin hjúkrunarstofnun væri þá til í heiminum, ekkert gamalmennahæli meðal Íslendinga, hefðu forgangsmenn slíkra fyrirtækja verið svo samvizkusamir að leggja þær árar í bát, af hlífð við framtíðina að halda þeim við. Verði ekki öruggt og nægilegt fé fyrir hendi

til að ljúka vel við varðann, áður en á honum verður byrjað, er ekki allri loku fyrir það skotið, að kostnaður við hann gangi í ættir, líkt og landsstjórnirnar hafa löggilt félögum rétt til lántöku og geta gefið út ríkisskuldabréf. Mér verður svarað því, að minnisvarða-forstaðan hafi ekkert veð við að leggja og yrði að ganga í geitarhús um lántökur. Svo sýnist það líka. En brýningar með þjóðsæmd og þjóðskömm geta orðið furðu fésælar, ef í óefni rekur. Talsvert má treysta á þær, jafnvel þar sem við óánægju er að eiga og fólk að gera sér um geð.

— — —

Auðvitað, taki íslenzk alþýða hér að sér Winnipeg-varðann, sér hún og nefndin um, að engin misgá sé gerð í byrjun. Enda er það auðgert. Þær setja í upphafi þá sök við súlu, að varðinn verði hvergi reistur af svo skornum skammti, að lýti séu á. Þær byggja hann í byrjun á nægilega hárri kostnaðaráætlun, sem dugar til afloka. Þær ganga ekki að minnisvarðaverkinu, fyrr en sú fjárfúlga er fyrirliggjandi. Og nefndin sjálf verður fús til að ábyrgjast og gefa sjálf öruggt veð fyrir því, að hún greiði úr eigin vasa það, sem fram úr áætlun hennar fer. Það eyddi óðara öllum efa og tortryggni almennings, og nefndin verður viljug til að vinna svo hættulaust heit fyrir áhugamál sitt, þegar hún veit sig hafa gert svo vel reiknaða kostnaðaráætlun, að litlu geti skakkað og að aldrei komi slíkt til umtals né útláta fyrir sig. [1919]

## Brauð og steinn.

Aldrei hefir sú öðrum lagða lífsregla: „að vinna meira, og éta minna," sem annað gamla vestanblaðið okkar boðaði bezt og fyrst hér áður á árum, gengið í slíkt gildi í þjóðræknis-kenningum kanadiskra föðurlandsvina eins og nú. Sparsemi, sparsemi er sá hugvekjusálmur, sem öll blöð syngja nú yfir sínum hjörðum, og eflaust eru einhver efni til þess, að átta milljónir gjaldenda, — ef við erum svo margir — með tveggja billjón dollara skuldabyrði á bakinu á framtíð okkar — sé hún ýkjulaus — verða að þreifa nokkuð fyrir sér og teygja tollfingurna djúpt í vasa vinnumennskunnar í landi voru, eigi stjórnin að standa í skilum, þó ekki verði nema um vöxtu af

slíkri ódæma upphæð, og fyrir þeim ómaga verður verkalýður að vinna. Afurðir af erfiði hans er ið eina, sem til er að taka upp í þá afborgun, af því sem lög leyfa, enn sem komið er. Þaðan kemur þetta óp um aukna framleiðslu. Fullar vörubúðir hér heima af þeim vörum, sem önnur lönd þurfa að fá, eru lánardrottnum vorum óbrigðult veð vaxtanna, og höfuðskuldina megum við rogga með rólegir fyrir því, við verðum ekki hengdir fyrir hana, hún fær að standa, af því að á 10—20 árum drýpur af henni annar hringur jafndigur og hún er sjálf, eins og það gekk fyrir eigendum Draupnis, eða með öðrum orðum: Þjóðin vinnur fyrir þau vildarkjör að margborga á hverri öld þetta stríðslán, með vöxtum sem af því renna, án þess að lækkað hafi inn upprunalegi skuldabaggi — eða þannig virðist það hafa gengið hingað til öllum þjóðum, sem hafa tekið upp það snjallræði að veðsetja framtíðarvinnu sína fyrir herkostnaði, uppfynding, sem sumir segja, að Bretastjórn hafi fyrst gert í brösunum, sem hún átti við Napóleon mikla. En hvað sem þeim upptökum líður er eitt víst: þeir sem skildingana léðu, ganga aldrei svo hart að okkur með upphafsláníð, að ekki verði um þokað, meðan að við vinnum af okkur vextina. Þeir vita sem er, að einn yfirburður mannsins yfir aðrar skepnur er sá, að hann er arðsamasta vinnudýrið, sjá það í hendi sinni, sem Haraldur Sigurðsson sá, þegar hann var barn, að með því að eiga húskarla marga er hægt að eignast akra og kýr bræðra sinna og verða konungur. En eflaust er það skelkurinn við skuldir og skattbyrðina í vændum (sem enn er ólögð á, eins og þó verður), það sem er efnið til ópsins um að „vinna meira og éta minna“, og veldur einhverju um það hjá sumum, að fáir aðrir en nokkrir Íslendingar í Winnipeg kjósa nú að eyða mörgum þúsundum dollara í steinstólpa úti í allra veðra vonum, jafnvel í heiðursskyni við hermenn sína, sem féllu.

— — Þegar á það er minnzt, að heimkomnir hermenn þurfi ef til vill einhverrar almennings aðhlynningar við, bergmálar frá varðanum þetta viðbúna svar: Það er þarfleysa, stjórnin gerir það allt! Ekki skal það að ágreiningi gert, að hún ætti að gera það allt. En, gerir hún það? Sú stjórn, sem til stríðsins stýrði, hefði átt fyrir öllu að sjá, þegar út í það var komið, án þess að þörf væri á að ganga um allt land með gjafabænum og gera hetjur sínar að guðsþakkamönnum. Henni var það með-

mæli um rausn og ráðdeild, og mátti vera ófeimin við að hlaða kostnaðinn á okkur hina, með opinberum sköttum til okkar síðasta penings, og hefði líka gert okkur gott með því; þá hefðum við vitað fyrir víst, það sem við erum margir viðkvæmastir fyrir, hversu dýrt stríðið varð okkur í dalatali. En þrátt fyrir sífelld samskot þjóðarinnar ganga klögunarmálin sífelld um marga misbresti á meðferð mannanna. Ég á ekki við ónýta skó né ill vopn. Það eru orðnar gæsir, sem í gær flugu. Né á ég heldur við hitt, sem nokkrir hafa látið ydda á, að mönnum hafi verið eytt að óþörfu, fyrir mistök eða metnað. Mig furðar ekki þó öll stríð hefðu þá sögu að segja, þau sem nokkuð kveður að. Ég á við hitt, sem seinast hefir kvisazt og rannsóknar er óskað á og sem væri sárast, ef satt væri, það, að aðhlynning á særðum og sjúkum hafi lent í handaskolum! En er nú svo auðgengið að því, að þessi stjórn skilji vel við hermennina nú, ef alþýðan hlynnir ekkert að þeim, né fylgir þeim að réttum málum? Þeir eru flestir hennar börn og bræður og verða að komast af á handafla sínum, eins og hún. Óánægðir verða þeir að vogestum og veltur því nokkuð á, hvort handarbak eða lófi almennings snýr að þeim í því, sem sanngjarnt væri, að þeim sé veitt að verkalaunum. Mér virðist það viturlega og vel mælt, sem haft er eftir E. Mc Donald ofursta, úr ræðu sem hann á að hafa flutt við velkomuminni, sem heimabær hans skammt héðan gerði móti honum og herdeild hans fyrir fáum dögum síðan. Það sem hann sagði var á þessa leið: „Mig langar til að nota þetta tækifæri til að bera upp ósk mína við fólkið í Alberta, að það sýni heimkomnum hermönnum þolinmæði. Þeir hafa við örðugleika átt og oft í hættu staðið í full fjögur ár. Sumir þeirra eru svo ungir, að þeir sætu enn á menntaskólabekknum, hefðu þeir heima verið. Úr orustum koma þeir nú fulltíða menn. Ætlizt ekki til, að þeir geti á svipstundu jafnað sig að háttum við heimaþegnana. Réttið þeim hjálparhönd.“

Um stjórnarviðtökurnar á þeim veit ég aðeins af afspurn í bæjablöðum, innan míns eigin heimafylkis. En ekki láta þeir allir stórt yfir þeim. Lélegur var víst fyrirbúnaður og fátt fullráðið, þegar til þurfti að taka. Í bræðingsstjórnarblaðinu, sem ég les, koma á hverjum degi nær kvartanir frá þeim, sem aftur eru komnir, eða áhangendum þeirra, um að þeir komist illa af. Fylkisstjórnin hér annast einhverja umsjá,

sem útvegar þeim heimalentu atvinnu. Skýrsla hennar yfir síðustu vikurnar í marz, í stærstu borginni hér í fylki, er sú: Vikuna til 15. þess mánaðar: 141 óskuðu vinnu, 62 fengu hana, 79 ekki. — Vikuna til þess 22.: 130 báðust atvinnu, 56 komust að henni, 74 ekki. — Vikuna upp að inum 29. marz: 157 sóttu um verk, 87 fengu það, 70 ekki. Með öðrum orðum: meira en helmingur þeirra stóð uppi eftir iðjulaus í bráðina. Áreiðanlegt held ég hitt sé líka, sem er í almæli hér, að menn, sem sýnast alfærir og leystir eru út af læknum með því vottorði, séu einatt svo af sér gengnir, að geta lítið gagn sér gert. Lýsing af því er þetta, sem stóð í blaði, í skynsamlegri og hógværri deilugrein heimkomins hermanns: „Við erum haldnir heimtufrekir, en vandræði okkar, sumra, felast mönnum í fljótu bragði. Oft hefi ég aumkað unglingsmann hérna. 19 ára fór hann í herinn, er nú kominn aftur, hraustlegur og öflugur á að sjá, og greinilegur og skýr í stundarkorns viðræðu, við beztu heilsu að dómi læknisins, sem aftekur honum öll eftirlaun, samkvæmt reglunni. Svo er þó ástatt með hann, að við ekkert getur hann eirt; í lengri viðræðu verður samtal hans úti á þekju; gengnum að verki, sækja að honum sinnuleysi og handaskol, svo enginn vill við hann tæta, og ekki er grant um, að helzt sé hent að honum gaman. Þessi dæmi þekki ég fleiri en hans.“

Hér er eftir þeim haft, sem hógværast mæla. Aðrir taka dýpra í árinni og sumt, er þeir segja, sýnist þó bera sannindamerki. — En, enginn óskar minnisvarða nema skjaldborgin í Winnipeg.

— — —

Sannleikurinn er, hermennirnir heimta hlunnindi, en stjórnarsvörin flest á reiki, fjárkröggur kreppa að og ósýnt enn, með hverju móti þeir yrðu henni handhægastir. Yfirleitt fylgir almenningur hér hermönnunum að málum, í því sem ekki er uppivaðsla. Til dæmis: hér er krafa þeirra sú, að stjórnin leysi sérhvern þeirra þegar út, með frá $ 1 000 til $ 2 000 uppbót, miðaða við tilvinnslu, og í eitt skipti fyrir öll, en sleppi öðru umstangi. Þann skylduskatt frá þjóðinni telja þeir sér nauðsynlegan, meðan þeir séu að ná sér niðri aftur. Bænda- og verkamannafélög hér mæla með þessu, stjórnin ráðgast um og ritstjórarnir tvístíga. Að vísu er beðið um feikna fé, sé það rétt talið, að 595 441 hafi í herinn geng-

ið, þegar þess er gætt, að auk þess eru öll eftirlaun ófærra manna og örkumlaðra og viðurværi og uppeldi alls þess skuldaliðs, sem þær nærri 53 þúsundir fallinna og dáinna hermanna skildu við, og eru nú handbendi lýðs og lands. Ársáætlun til þess, eins og stendur, sagði eitthvert blað, að væri margar milljónir dollara, og þó mæla þeir, sem þetta á að skiptast milli, eins og Þorbjörn Kolka forðum: „Laklega var dregið, því nú vantar í alla þumlana“, sem sé, að hálaun örbjargamanns, 50 dollarar á mánuði, sé aðeins þriggja vikna forði, svo sem nú verði keyptar nauðsynjar.

Í fljótu bragði virðist tvö þúsund dollara heimting hermannanna hátt ofanálag, en ef til vill verður hún þó þjóðinni á endanum hollust og ódýrust, ef upp væri tekin. Ódýrust, af því að þá hyrfu úr þeirri sögu langlaunaðar rekistefnunefndir og ráðsmenn, sem yrðu fylgifiskar allrar annarrar aðstoðar, svo féð lenti þó allt þar sem það helzt ætti heima, hjá hermönnunum sjálfum. Hollust, fyrir það, að veiting á því, sem þeir æskja sjálfir eftir, ætti að gera þá ánægða, og hitt ekki síður, að losa þá og þetta mál út úr landsmálabruggi stjórnarstuðlanna og stjórnarsteypiranna, hverjir sem þeir verða framvegis.

— — —

Þó svo vel væri, sem ég veit ekki, að allir afturkomnir íslenzkir hermenn væru engrar almennings-aðhlynningar þurfar, er það samt eins og það á að vera, ef að aðrir samþegnar okkar hérlendir, sem í herinn gengu, eiga erfitt: Ef fólkið í kringum okkur færi að leggja þeim lið í nauðsyn, yrði eins til okkar kvakað, og skylda okkar, að skerast ekki þar úr leik, væri sama og þeirra. Fyrirliggjandi minnisvarðatillög okkar geta orðið mörg, áður lýkur yfir, og að svo stöddu sízt að furða, þó íslenzk alþýða hér sé ekki greiðgeng með gull sitt í dvergasteininn í Winnipeg.

— — —

Hvernig er það annars? Þar sem fyrir skömmu var uppi fótur og fit að styðja allt til stríðs, þar eru nú þögn og úrtölur ef einhver minnist á, að eitthvað hafi af því hafzt, sem fyrir þurfti að græða. Þó við í Kanada stæðum jafngóðir eftir, hafa ekki allir menn því happi að fagna, til dæmis Pólland, sem kannske hefir verið sárast leikið, en verið saklausast.

— — —

Skeð getur, að eitthvað af okkar eigin dýrð geymdist í pýramída, sem ekki blési upp frammi í eyðimörk aldanna. Þó er sú mannlund mishent, sem dregur af lifandi manni brauð til að gefa látnum manni stein. [1919]

## Að hrósa verki, en klípa af kaupi.

Það hafa þeir mælt um, minnisvarða-menn, að þess vildu þeir lengst óska, að aldrei spyrðist það af Íslendingum, að þeir hefðu litlar mætur á listum. Gott áheit er það, og ætti að vera mælt á óskastund, svo það yrði að áhrínsorðum, einkanlega á okkur vestan hafs. Unaðurinn af fegurð og meistaraverkum mannanna er að vísu hálf hamingja mannsins hér í heimi, eður meira, þess sem er svo lánsamur að hafa „augu til að sjá og eyru til að heyra“. Hann getur gert erfiðið að iþrótt og sett ánægjusvip á þrældóminn. Jafnvel gróðagræðgin hérna hefir grun um það og hefir brotið heilann um, hvort það borgaði sig ekki, í betra verki og meira, að láta vinnulýð sinn starfa í smiðjunum hvern dag við hljóðfæraslátt.

Af þessu leiðir líka, að á tveimur tungum kann að leika, hvort Guðm. Finnbogason hafi tekið því, sem nefnt er „hagnýt sálarfræði“, of lítið í fang, þegar hann reit ið nýútkomna kver sitt: „Frá sjónarheimi“, í stað þess að flýta bara fyrir verkum, með því að taka krók af hendi eður fæti, eins og hann hefir áður reynt til. Ætli það auki ekki afraksturinn líka að geta gengið glaður um störf sín, af því að einhver hefir kennt sjón manns að koma auga á það, sem á öllum hlutum er og fer þeim oft svo fallega, sem sé: lögun og litir. Ímyndum okkur dagslægjuna sláttumannsins í vísunum hans Jónasar Hallgrímssonar, og segjum okkur svo sjálfir, hvort vér tryðum því, að hann hefði komizt í þennan kappslátt við sjálfan sig, hefði hann ekki haft í horfi fegurðina á heyönnunum fram að vetri, og falleg kona var á hælum hans með hrífuna.

— — —

Þær eru uppi enn, dísirnar tvær, sem hvísluðu sín í hvort eyra sofandi barns. Að erfiðinu laumar önnur þessu ráði:

„Vertu sem mestur og fræknastur;“ hún heitir „Verkalaun“. Hinni óskinni hvíslar hin: „Vertu sem beztur og vitrastur;“ sú er nefnd „Vinnugleði“. Þaðan er hann runninn, draumurinn sá, [að] eitt sinn eigi allir menn það eftir að verða vinnumenn, og að öll iðja verði íþrótt.

— — —

Fyrir æðimörgum árum síðan flutti Lögberg grein, þýdda af ensku, meðan það var í mætti sínum. Eflaust féll hún „utan hjá veginum“, þó ég muni eftir henni enn. Hún bar þá byrði, að barma sér yfir því, hve enskt alþýðufólk ætti unaðarsnauða ævi; frá vöggunni til grafarinnar gengi það svo á mis við allan andlegan lífslétti, að það þekkti ekki nöfn sinna ljúfustu ljóðskálda, því síður að það kannaðist neitt við, hverja fegurð þau hefðu flutt því. Þá reyndi hann með dæmum að skapa mönnum skilning á því, og að síðustu lauk hann máli sínu eins og sá, sem finnur, að hann fer „bónleiður til búðar“. Í niðurlagsorðunum var hugmyndin hér um bil svona: að fyrir sjálfan sig sagt, kvaðst höfundurinn ekki geta séð, hvaða erindi inn í annað líf og betra þær sálir bjuggust við að eiga, í andlega sælu af fegurðarfögnuði, eins og kennt væri, þær sálir, sem aldrei höfðu tekið eftir því sem til er af fegurð hér í þessum heimi.

Og höf. var ekki villumaður, en velmetinn og vammlaus prestur í ensku kirkjunni, og sagði ekkert um sálmakveðskap í þessari grein.

— — —

En þó allt þetta kunni að hafa sinn flugufót, er þó enn sem fyrr, að „maðurinn er meira virði en margir smáfuglar“ — meira „mannkaup“ í listamanninum en listaverkinu. Því er það, að þó okkur hrjósi hugur við borgun fyrir „bautastein“ í Winnipeg, látum við Einar Jónsson í engu gjalda þess. Ekki í því skyni að gera gustukaverk, sem við seinna gætum svo talið eftir, heldur hins vegna, að ekki gangi úr greipum okkar tækifæri til að reynast góðir drengir sjálfir. Einar er á bezta starfsaldri enn, en líklega ekki auðugur orðinn; á eflaust margar óunnar ætlanir og áhugamál, þetta ótal og allt, sem listamennirnir geta ekki efnt, nema þeir hafi fé og tíma til. Við borgum honum sæmilega fyrir minnisvarðamótið hans, hvað sem við gerum við það. Ef við gerum það ekki, yrði grunsamt um, hvort allt þetta lof, sem við höfum

borið á listina, einkanlega Einars, hefði verið af einlægni mælt, eður í öðru augnamiði, sem sé því, að hafa það í hleðslunni í Winnipeg-varða. Í það færi setjum við okkur ekki saklausa.

— — —

Eru ekki margir fleiri en ég, sem þykir langvænst um litlu útgáfurnar af ljóðabókunum, yfir höfuð af öllum „stórum bókum", hvort sem þær eru smáar fyrirferðar milli upphafs og endis, eður þeim er deilt í hefti? Þær eru svo handhægar, að maður getur haft þær alls staðar fyrir augunum, og í öllum stellingum, og legið við þær í legubekknum, meðan vinnulúinn líður úr manni, svo fljótgripnar í að finna það aftur, sem úr þeim hvarflar hálfgleymt í hugann; og það sem bezt er, oft og tíðum svo lítið dýrari en sjálfir sólargeislarnir, að þær kunna að berast inn í hvert kot, þó lítið fé sé þar fyrir. Ég veit hvað við gerum með listaverk Einars, eftir að við höfum borgað honum vel fyrir það og komið því fyrir á listasafni, ef svo fer, að við heykjumst á þúsunda-þörfunum við að hlaða því öllu upp á einum stað, sem við flestir förum sjaldan um, þó stórt væri að sjá. Við látum steypa þúsundir af smámótum (replicas) af listaverkinu og seljum eitt fyrir vægt verð inn í hvert íslenzkt hús í borg og byggð vestan hafs, til heimilisprýði. Þar með fengist það, sem er „allra-allra mest" áríðandi í öllum fyrirtækjum, en sem guð hefir ef til vill gleymt, þegar hann skapaði heiminn. Það mundi borga sig.

Fólkið keypti kaupfegið. Listin breiddist út um landið. Vandamenn og vinir ættu þá heima hjá sér, til huggunar, minnisvarða yfir frændmennið það, sem féll. Og listaverk Einars, þessi uppsteypta Íslands-saga, þessi hugsjón hans um „Frelsisþrána að leiða ljós yfir jörðina", mundi þá horfa eins og húsgoð ofan af hverri arinhillu, sem íslenzk hönd hefir skorið sér hér vestra, og fylgja ættunum, líkt og arfgengt skjaldmerki.

Það eitt er ugglaust, að hvers hlutur sem á endanum kemur upp í þessu minnisvarðamáli, verður ekki listamaðurinn látinn gjalda þess. Þeir sem því máli komu af stað, munu hafa nægan mátt og mannlund til að annast slíkt einir saman, ef á þyrfti að halda, annars hefðu þeir ekki gerzt svona hvatráðir. Þar að auki myndi alþýðan ekki undanskorast

þannig til komnum skylduskatti. Þegar hún hugsar sig um, vill hún til dæmis ekki aftur þurfa að handleika skrautútgáfu af Passíusálmunum með það í huganum, hvernig Hallgrími Péturssyni leið, meðan hann lifði hjá henni. [1919]

## Áréttingar.

Ásátt okkar með lífið fer öll eftir því, hvort manni verður minnistæðara, myrkrið eða sólskinið.

Grettir hefði komizt úr útlegðinni, hefði hann getað glott eins að Glámsaugunum eins og grobbinu í Gísla.

Vetrarbyljirnir skella víst þungt á skepnunum, sem líklega muna ekki sumarmorgnana sína löngu liðnu. Gleymska dýrðardagsins rænir allt hálfu afli til að heyja stríð við vo-nóttina. Á þeim stundum er sveitakarlinn sælli, ef hann man að láta minningarnar vega salt við veðrið, þær sem greru upp í grænskógum genginna sumra.

Þegar ræðinn maður sezt að hjá okkur til að segja okkur ævintýri sín, köllum við það karlaraup og virðum hann eins og eldabuskurnar Egil, þegar hann „hvarflaði blindur um brandana“ hjá þeim. Við merkjum ekki, fremur en þær, að þarna er mikilmennskan að orna sér við eldinn hjá okkur, sú sem hófst með æskudraumunum um það, sem varð.

Einu sinni kynntist ég karli, sem átt hafði ýmislega ævi og kveðið marga lausavísuna, eins ýmislega eins og ævin hafði verið. Sú var ein þeirra:

Ýmsan genginn götu-vott
Geymi úr lífsferðinni,
En árið sem ég átti gott
Efst er þó í minni.

Egill átti að hrósa vináttu „jarðgöfugs Aðalráðs“ og „örláts Arinbjarnar“. Mínum karli voru öll æviárin mótdræg, utan eitt. Þó mundi hann það bezt, orðinn hornrekan á heimilinu: Egill gat bitið af sér háð kulvísrar elli með minningum um að hafa kveðið kvæði, sem voru konungs gersemar.

Vorið leysir úr viðjum illt sem gott: drepsóttir sem í myrkrum læðast, mý og átumaðk, svo það gangi ljósum logum og í

herskörum á hólm við heilbrigðina og gróðurinn út í sumarsólskinið. Stopulu gróðrarstundirnar, sem kala og krókna upp í vorsvalviðrunum, eru samt sannspár um sigur og sumar að lokum.

Eins fer því, sem bezt hefir boðizt í minnisvarða-málskapnum. Þó því verði hrundið í svipinn, ofan úr uppástungunum mörgu, verður það fall til fararheilla. Allir vordraumar lögðust snemma óvígir í valinn, en vöknuðu seinna við til að sigra. Ekki er allt feigt, sem fellur, oft leynist með því lífsmark framtíðarinnar. Það eitt líður undir lok, sem lifað hefir yfir sig.

Þó tillögurnar í minnisvarðamálinu séu tvístraðar, eiga þær rætur sínar að rekja til gaumgæfni og eru góðs viti, uppburðardjarfar og runnar frá heilum hug, eins og almenningur hafi nú í eitt skipti tekið það fyrir að ganga ekki í uppgerðabúningi aðfenginna tilfinninga, né í hafti fyrirmæltra hugsana, eins og lífið sé bara leikhús, þar sem einhver fyrirsögumaður hafi skýlaust vald að skipa til um skapbrigði og búning allra, sem hlutverk hafa í látalátum leiksýninganna.

Alþýðuhugurinn, sá innlendi og íslenzki hér, á eitt sammerkt, sem fyrst kemur fram, þegar á hermannaminningar er minnzt, það er hugsunin um, hvernig þeirra verði bezt getið til góðs, og óbeitin á yfirlæti eyðileggingarinnar. Af því stafa uppástungurnar um að hlutast til um eitthvað, sem hermönnunum sjálfum sé helzt þörf á, eða einstæðum aðstandendum þeirra. Fólkið grunar, eða hefir gert sér ljóst, að séu viðtökur hermanna vandamál, sem hefir ekki verið vel fyrir séð, þá bryddi þó enn bara á byrjun þess, við það sem verði, þegar öll þessi hálfa milljón manna er heimflutt í haust, inn í vetrarríkið og, ef til vill, atvinnuleysi. Þaðan er almenningi komin þessi fastheldni í fé til sigursúlnanna.

Hitt er eflaust íslenzkur kippur í kyn, að öllum kemur saman um, að rituð sé sögubók um vestan-væringjana heimanættuðu. Öðrum en Íslendingum mundu nægja dagblöðin. Það rennur ekki frá almenningsóskum, heldur frá hagsmunavonum höfunda og bókverzlana, þetta enska syndaflóð af masandi mærð, sem velt mun verða yfir landið og látin heita „Stórtíðindi stríðsins mikla“. Íslenzka alþýðan falast eftir sögu að fyrra bragði þó lítið verði enn sagt annað en ártöl og mannanöfn. Sjálfur söguþráðurinn verður óspunninn enn lengi, og sumt má ekki tæta í hann nú, sem til er þó. En hver

árbók er þó hnot[a] í þá voð, sem Saga mun útkljá, og þær munu rekjast bezt, sem undnar eru einfaldast.

Mig minnir, að það væri einhver íslenzk kona, sem stakk upp á því í blaðagrein, að hver sá hermaður, sem saga yrði af, segði nokkuð sjálfur af sinni reynd. Það er ágætt efni, yrði því við komið, og ef sú frásögn fengist látlaus og óhlutdræg. Til dæmis væri hreinskilið uppi látið, hvað til hergöngu dró hvern og einn, svo sem þjóðrækni, stundaræsing, lagaskylda, ævintýralöngun eða erfiðar kröggur einhverjar. Allt þetta mun hafa átt sér stað, að einhverju leyti, og getur hvert um sig orðið metið jafn riddaralegt í sanngjarnri sögu síðar meir eins og eitthvað, sem nú er látið heita lofsverðast. Svo almenn játning og ófölsuð gæfi góða bendingu um, hvað það er, sem stælir múginn til stríðs, og veröldin yrði ögn vitrari um það. Að sinni yrði þó ekki svona saga öllum sögð og upphátt. En eitt gætu íslenzkir hermenn flestir: ritað upp minningar sínar úr stríðinu hreint, beint og hispurslaust, eins vel og hver hefði skyn til, falið Þjóðræknisfélaginu handritið til geymslu, innsiglað og allra augum lokað í svo sem fimmtíu árin næstu. Í þeim erfðaskrám yrði að vísu mörg misgá, en fengur væri þær þeim, sem síðar ritar sögu Vestur-Íslendinga, og skarpskyggnir sagnameistarar hafa furðaulegt lag á því að sjá, hvar frásögurnar fara villar vegar, þaðan sem þeir sitja á þularstóli, frammi í víðsýni efri alda, og líta yfir leikvöll liðins tíma. — En svo upp í hönd lagt er þetta hermanna-tal, sem kallað er til og koma yrði í sögu stað, að undur væri, ef einhver hagsýnn útgefandi yrði ekki til að ganga í það, einn og óbeðinn, nokkurn veginn viss að næla fé á því.

Að sönnu hefir sú saga gengið af einum heldri höfundi og skáldi Breta, að hann hafi sagt af sér sögukennslu-sýslu, sem vinir hans höfðu haft út handa honum með fyrirhöfn, og sem hann mátti illa án vera, sökum örbirgðar sinnar, en hann borið það í vænginn, að hafa rekið sig á það, að öll sagan væri, endanna á milli og ósjaldnast, mestmegnis gerð af samansaumaðri lygi, og sér orðið það samvizkusök að troða slíku í unglingana, auðtrygga og grandlausa. Því miður er ekki sagan allt sem sýnist og brosandi virðir maður Charles Kingsley það til vorkunnar, að honum uxu brestir hennar í augum.

Ég veit fyrir víst, að til eru heimkomnir hermenn, sem ýkjulaust kunna frá að segja og haldið hafa fullu skyni á því, sem skeð hefir kringum þá. Ég hefi átt óboðinni heimsókn eins slíks að fagna, eina kveldvöku. — Nærri tvö árin hans, í þeirri brjóstfylking Kanadahersins, sem fastast stóð fyrir og fallhættast varð, eftir því sem af hefir sagt verið; — hátt á þriðja ár í þýzkum fangelsum eða húskarl á vinnumannalausum sveitabæjum; alla leið frá Westphalen, þar sem Ísarna stóð, drekabæli drápsvéla-Krúpps, til Baden og Myrkviðar, suður undir landamærum Svisslands, átti hann nú orustu-örlög sín að rekja og margar voru minningarnar. Fágætari mun þó þessi óbrjálaða athygli hans gegnum allt, útsýnið yfir atvikin og öfgaleysið. Spurt kann að verða, hvernig ég þykist sjá sannindamerkin á viðburðasögu, sem ég hafi ekki verið viðstaddur. Skrumleysi og skilningur eiga sitt sérstaka mál og róm. Heimska og uppgerð eru holgóma. Gegnum orðin ein grisjar í þær gnægðir skaps og skynsemi, sem opinspjallur gestur á yfir að ráða, og berast þar sem hann sízt varir.

Fróðlegt væri að fara yfir sögusafn, sem leiddi það í ljós, hvort við Íslendingar hér værum langt leiddir frá þeirri dyggð forfeðra vorra að „hælast minnst í máli" né halla sögu. Hver áhrif sá aldarháttur og blaðamennska hefir á okkur haft, sem treystir á það, að dúfa þjóðrækninnar geti komið úr hrafnseggi ýktrar illsku andstæðinga sinna.

Sú tillagan var fallegust, sem sennilega reynist fjarstæðust því að ganga í gildi. Ég á við uppástunguna frá sveitarfundinum þeim, sem fór fram á að stofna nokkurs konar Nóbelsjóð, til minningar íslenzkra hermanna. Að góðviljanum til gengur hún næst þeirri, sem bæta vill úr böli sinnar samtíðar fyrst og fremst og í sama skyni, en í trúnni á, að stríðið hafi verið líkt sverðunum fornu, sem áttu að hafa lífstein falinn í hjöltunum. Þó ekki væri fjölyrt um fyrirkomulagið, var ætlunin í þeirri uppástungu augljós, sem sé manngjöld fyrir þá Íslendinga, sem féllu, greidd til friðhelgi framtíðarinnar.

Ætlað hefir verið á, að friðarþing þjóðanna, það er nú stendur yfir, myndi skiljast svo skammlaust við sitt starf, að heldur dragi til heimssátta, eins ólíkleg og sú ofætlun var þó, að þeir menn, sem fremstir stóðu að styrjöldinni og ofan á urðu, bæru gæfu til að friða um framtímann, með því að leggja allar sættir í sitt sjálfdæmi einna. Alþjóðalagsmennsk-

an, sem lofað var, virðist helzt ætla að verða sú, að kljúfa friðarríkið í tvö ríki, „ráðríki“ og „skattríki“. Sá friður verður fótfúinn, sem haltrar á verzlunarhorfum og hörundslit mannanna. Hafi nokkur sáttasemjaranna, sem setið hafa á rökstólum í París, fallizt í alvöru á fjórtán boðorð Wilsons, má hann nú segja svipað eins og postulinn forðum um sína ævisögu: „Það sem ég vildi, gat ég ekki, það sem ég ekki vildi, gerði ég.“ Og þannig mun það verða, unz almenningur þjóðanna semur frið sín á milli, setur því fyrirkomulagi sem nú er, stól fyrir dyrnar, en með svo frjálsum hætti, að þeir einir séu herskyldir, karl sem kona, sem atkvæði sitt greiða með því, að stríð skuli háð, svo engum sé bönnuð sú sjálfsfórn, ef hann trúir á hana.

Undir öðrum horfum en nú virðist á vera, hefði engin mætari minning um landana föllnu getað gerð verið en þessi íslenzki Nóbelsjóður. Litla þjóðin okkar, sú sem forlögin gerðu fyrsta friðsæla, hefði sennilega átt sitt sæti á sáttaþingi heimsins, fyrst að hún er nú orðin fullveðja. Þangað hefði hún átt erindi, með reynslu aldanna að bakhjarli. Ekki hefðu ókomnar aldir getað borið betri menjar um þá menn, sem friðlýsta landið lagði til í þann leiðangur, sem kollhríðin kom á, sú sem svörtust varð en síðust, á hvörfum allra illskiptisalda. Þá hefðu vextir af sjóði, sem kynkvíslin lagði á leiðið þeirra, getað orðið arfur þess Íslendings, sem í hvert skipti var kjörinn af þjóð sinni til að mæta á því þingi, þar sem lýðir og lönd handsala hvert öðru heimsgrið. Þó útlitið sé nú svo annarslegt, að slíkur sjóður virtist vera grafinn í jörð niður, er það engu að síður þakkarvert að hafa getað hugsað sér þetta.

Af velvild, en ekki alls kostar með réttu, hefir Voröld eignað mér upptök að tillögum í minnisvarðamálinu. Ég hefi aðeins stutt eina þeirra. Auk annarra meinbuga, virtist mér það liggja í augum uppi, að ef þetta nýklakta þjóðræknisfélag okkar sæi sér engin ráð til að hrista af sér eitthvað af þessum tugum þúsunda í dalatali, sem hefja átti í varðann, kæmist það í sömu klípu eins og Sindbað farmaður, þegar hann tók marbendilinn gamla á herðar sér af hjartagæzku, og að sú ofhleðsla myndi helzt „sýsla báðum málunum óþurft“, eins og Steingerðar-augun henni og Kormáki.

Ég hefi hvergi tekið það til, að listaverk Einars Jónssonar, það sem um er að ræða, yrði lagt til íslenzks íþróttasafns, sem

hýst yrði sérstakt í þingskála þjóðræknisfélagsins fyrirhugaða. Hafði ekki hugsað þetta hærra en svo, að þessu verki Einars yrði valinn staður í íslenzkri deild í listasafni borgarinnar, sem líklega verður á laggir sett innan skamms, ef að broddborgarar í Winnipeg halda, að það sé höfuðbóli sínu til hreyfingar að flokka því saman þar, sem fallega er gert, þó ekki verði það út borið í auglýsingarskyni. Ég aðeins studdi það, sem eitt vestanblað hafði stungið upp á. Hver þörf þjóðrækninni er á þaki yfir höfuð sitt, er mér óljóst enn. Hún kann að vera brýnni en búast mætti við. Langt er nú síðan að við því var hreyft, að hæli út af fyrir sig ætti íslenzka útflutta menningin að eiga hér, yfir viðhald sitt og menjar, með Jóns Sigurðssonar varðann sem útivörð, og að sú Valhöll þyrfti að rísa úr velli í Winnipeg, jafnvel gæti musteri Goodtemplara verið vel til þess varið, nú orðið. En mér virðist, að viðreisn íslenzkunnar hér muni verða, bráðabirgðina fyrsta og fullþunga á höndum, til upphafsefnis. Þar að auki hefir það aldrei í mér setið að einangra út af fyrir okkur né um þörf fram íslenzka íþrótt né nokkuð það, sem við vitum við eigum öllum vel boðlegt. Kysi fullt svo vel, að það prýddi heildina hérna, fengi það sæti á sæmilegum stað og röð.

Ég væri ánægður með að eiga allar bygginga-bollaleggingar undir skafti og blaði framtímans — nema eina — fullviss um það, að ef þjóðræknin okkar þrífst hér, myndi fé og framkvæmd liggja lausara fyrir, þegar þörfin kallaði fastara að félagsskap, sem náð hefði nokkrum þroska.

„Staddur var ég á Þingvelli“ heima fyrir hálfu öðru ári síðan. Enn er mér, sem gengi ég göturnar þær í „gærkveldi“, yfir þann eyðileika firnindafegurðar og frægðar-sögu. Þeim einum er komandi á Þingvöll okkar forna, sem geta hugsað, að nú sé Verðandi dæmd í Drekkingarhyl, að Urður lýsi enn frá Löbergi, en Skuld liggi í skóginum. Ég teygði vonir mínar í trúarspor þeirra manna, sem þarna settu þingið fyrsta. Út úr ragnarökum aldanna, þegar „sólin hefir eignazt dóttur, er fer stigu móður og er eigi ófegri en hún sjálf,“ þóttist ég sjá heima í Hoddmímisholti þá kynslóð, sem kemur „og byggir heim allan“. Undir þeim skógi varð Þingvöllur inn forni að Iðavelli aftur, og „kynslóðin“ var á þingleið þangað úr öllum áttum heimsins, norður um sumarsólskinið, með sitt atgervi, það sem fegurst var og frjálsast. Að Þingvöllum átti það sér

aftur búðir og mælti sér mót að Lögbergi fjórða hvert ár. Bjálkabúðin, sú er sett hafði verið þar, sem sól rann lengst til vesturs, var Vestmannabúð, og með líkri gerð eins og þeir kunnu bezt að hýsa bæi sína fyrstu, Íslendingarnir, sem lögðu tómhentir út á auðnir og merkur Vesturheims 1873 og árin á eftir, sem áttu þann úrkost einan, að telgja sér upp skála úr skógarröftum.

Göfugir menn og goðarnir fornu sendu þá til Þingvalla á undan sér til að tjalda búðir sínar, sem löglega voru afsakaðir frá öðrum þingskilum. Konur og karlar vestan hafs, heimabundnu íslenzku nýbýlingarnir frá nítjándu öld — við, sem hnigin erum nú á efri ár: þó okkur endist ekki sumar til að sitja þing á Þingvelli, höfum við samt tíma til að taka okkur saman og „tjalda búðina“. [1919]

## „Þú skalt ekki mann vega.“

Eitt sinn, á fyrri tíðum, reyndi kirkjan, sem kallaði sig kristna, að halda ögn uppi þessu boðorði og þeirri kenningu hans, sem hún kenndi sig við, með því móti að gera gólf sín að griðastað þeirra, sem áttu líf sitt að leysa. Hún freistaði þess jafnvel að þenja friðarvængina þrjátíu fet út fyrir veggi sína. Ef til vill var þetta ekki alveg nýjung, jafnvel þá, né bilið mjög breitt milli kirkjugriðanna og helgi sumra heiðnu hofanna.

Í afstöðnu stríði léðu kirkjurnar sig víða sem liðsafnaðar-„annexíur“ herbúðanna. Sumum klerkum þeirra komu, einhvers staðar að, „biblíutextar“ bardagaeggjaðir, sem þeir voru hvattir til að staðfesta af „stólnum“. Í ritningum Gyðinga er þar líka um auðugan garð að gresja í þá áttina. Sízt fyrir að synja, nema að svo megi villa um samhengi í einhverjum orðum Krists sjálfs, að það útlit verði á þeim, að hann hafi einnig hallazt að herskyldunum. Framsýni hans hefir líka fundið það á sér, svo sem í dæmisögunni um leiguhirðirinn og úlfinn, að kenningum sínum gætu verið fyrir búin ýmis undanbrögð. Og satt að segja, kenningin um „afarmennið“, sem hefir það fyrir forsendu: „Aldrei í heimstíð hefir verið nema einn maður kristinn, og hann var krossfestur,“ er þó mun drengilegri en sú, sem grímuklæðir vígtennur og

vargsklær með kristindómi sínum. Sennilega urðu þó andstæðurnar í kirkjufriðnum forðum stórum stærri en stefna Krists, þá sem nú. Páfagaukar veraldlegra valda innan kirkjunnar, boðuðu blóðböð og krossferðir, en víðtækast hefir það eflaust orðið í einni og sömu hrotu á þessari Sturlungaöld stórveldanna. Í stöku stað skelltu þó prestar, núna líka, kirkjuhurðinni svo í lás, að úlfurinn komst ekki inn að altarinu. Jafnvel þeir kirkjufeður áttu þó allmikið á hættu. Það gat verið litið á þá líkt og landráðamenn, jafnvel af ýmsum innan þeirra eigin hjarða, og ófriðurinn þannig brotið upp hurðina. Frá okkur, friðarvinum, eiga þeir prestar, sem þetta gerðu, fremur skilið hlýhug en hnútur. Aðstaða þeirra var örðug, kirkjugriðin, sem þeir vörðu, smá og einstæð, en að líkindum þó þau einu undanfæri, sem friðhelg reyndust. Engin vörn var í heimahúsum manna, ef að svarf.

[1920]

## „Lög sem hafa tog.“

Fyrir æði mörgum árum klofnaði öldungakirkja Skotlendinga í tvær ögn millimunandi áttir, rammarígs og rýmri kirkjuflokk. Það var raunar fádæmalaust, fyrir sig, ekki nema eins og annars staðar gengur til. Hitt varð frægra, af þessu leiddi langar lagadeilur. Sá hluti öldunganna, sem fastast þóttist halda um fornar játningar, krafðist þess, að sér yrðu dæmdar allar kirkjueignirnar, eins og að þær stóðu þá, sjóðir hennar og skólar; sínum gömlu játningum hefði það allt verið ánafnað í fyrstu. Yngri stefnunni ætluðu þeir að hnekkja í útlegð af eignum kirkna sinna og áhöldum, og unnu mál sitt fyrir dómstólunum. Þetta snerist þeim samt svo til mótgangs, að áhangendum þeirra fækkaði stöðugt en hinum fjölgaði. Sagt hefir verið, að svo hafi verið komið að síðustu, að margar milljónir í ýmsum eignum hafi inir gömlu guðsmenn haft handa milli, en ekki hafi þeir prestlingar verið fleiri en postulatalan, sem nema vildu fræði þeirra í skólunum. Loks tók brezka þingið sig til og réð málinu til lykta, skipti eignunum milli flokkanna, ekki eftir játningarritunum, heldur samkvæmt heilbrigðri skynsemi. Það sá sem var, að sá fjársjóður var í jörð grafinn og hvorki guði né mönnum til gagns, sem svo andleg álög fylgdu, að flestir gengu frá. Síðan hefir

víst játninga-íheldnin innan ýmsra kirkjufélaga hér í álfu haft augu á þessari skozku réttvísi og bætt því inn í lög sín, að ef að trúarágreiningur yrði innan félagsskaparins, héldi sá hlutinn öllum eignum, sem trúarjátningum þeim þættist samþykkur, sem í byrjun voru tilteknar — sjálfsagt þó enginn í söfnuðinum féllist lengur á þær, nema hringjarinn! Missouri-Synodan, amma íslenzka kirkjufélagsins vestan hafs, og norska Synodan settu þetta í sín safnaðarlög, og drógu að því dæmi skozku öldungakirkjunnar. Það hefi ég eftir góðum og vel kunnugum vini þeirra og mínum, sem nú er látinn, eitt sinn er við áttum umtal um þetta, endur fyrir löngu. [1920]

## „Og samt hreyfist hún!“

Fyrir hér um bil hálfum mannsaldri nú, náði Bandaríkjablað í nýnæmi. Það var hugvekja um víðsýni í trúmálum, eftir einn orðlagðasta prestinn, sem þá var uppi, í einni fjölmennustu borg ríkjanna. Efnið var á þá leið: Svo öldum hefir skipt, hafa hugsandi menn og góðir spurt sjálfa sig og kirkjuna: „Quod est Christus?“ eða hver haldið þér að Kristur sé? Hún hefir löngum svarað þeim með ókvæðisorðum og ofbeldi, ef svarið varð annað en hún hélt fram sjálf, án þess að auðnast að þagga þessa spurningu niður, því aldrei hefir almennara en einmitt nú verið reynt til að ráða hana, fremur eftir samvizku sinni en svari feðranna, jafnvel í flokk prestanna sjálfra. Niðurstöður fornra játninga skáru aldrei úr því. Það er fullreynt. Vitund trúhneigðra manna lætur heldur ekki hér staðar numið. Að verður spurt: „Quod est Deus?“ eða hver mun guð vera? Og kristin kirkja ætti nú að hafa hlotið það reynsluvit að taka því vel en illskast ekki. Þessari ráðleggingu ameríska prestsins hefir þokað í áttina, síðan hann gaf hana. Sú fylking hefir farið vaxandi innan kirkjunnar sjálfrar, sem að einhverju leyti á hana fellst. Þeim röddum hefir fjölgað þar, sem þykir, að það muni fært að sitja í sama guðshúsi, þó allir þar geti ekki hugsað sér hann á einn og sama hátt. Þær raddir grunar, að sá, sem sagði: „Ekki munu allir þeir, sem til mín kalla: herra, herra! innganga í guðsríki,“ myndi enn í dag telja sér þá nærstæðari, sem eiga eitthvað af því ríki innra hjá sér, en hina, sem það skortir

meira, þó þeir þýðist að þrenningarlærdóminum. Þær raddir leggja meiri áherzlu á fyrstu einkunnarorðin, sem sagan getur um, að sett hafi verið yfir það, sem kallað er kristindómur: „Friður á jörðu og mönnum góður vilji,“ en hótunina í: „Hver sem trúir og verður skírður, sá mun hólpinn verða. En hver sem ekki trúir, sá mun fordæmast.“ Og þær gera það án tillits til, hvort verið geti, að hótuninni kunni að hafa verið bætt við síðar, og af öðrum en þeim, sem mælti upphafsorðin. Þær raddir hvísla frá þeim skilningi á mannlegum mætti, að það sem helzt hjálpi sé einstaklingsviljinn að vera öllu góðu til gagns og gleði, sem unnt verður efna og lífs, af því að hugar-hæfileikar takmarka trúna, og tilfæri verkin, svo ekki verður við ráðið. Þær raddir telja sig nærri tilleiðanlegar til að hýsa hjá sér hvern þann, sem slíkur vilji er veittur, án þess að setja honum játningarstólinn fyrir kirkjudyrnar. Einhvers staðar á þessari leið eru þær allar, sameiningarviðleitnin siðabótakirknanna, nýja guðfræðin og „únítara“-kirkjudeildin, allt upp að þessum yngsta vísi til verkamanna-kirkju. Það er eins og heiminn sé farið að hálfgruna það, að þeir geti stundum átt mest af manndómi Krists, sem minnst fjasa um guðdóm hans. Allar framsóknarhreyfingar eiga illa vist í fyrstu hjá þeim húsbændum, lögum og landsvenju, og hættir líka við að fylgja því fordæmi sjálfar, þegar þær hafa hreiðrað sig niður að fullu. Þeirra sinnar sitja hvern stóradóm og eiga bæði afturhald og snapvísina fyrir áhangendur. Að vísu er kirkjuvaldið „tannbrotið ljón“ víðast hvar, nú á dögum, en á þó enn sinn hauk í horni í fornum lagaformum, og á þeim veltur oft eins mikið eins og réttlæti. Ein lítil yfirsjón í upphafi eða undirbúning að lagadeilu getur ónýtt góðan málstað; fyrir þá sök ölum við svona marga lögfræðinga, og þess vegna gilda þau lög enn, að svo geti mál gengið, að þau byggðu öllum söfnuðinum út úr guðshúsinu, nema hringjaranum, hefði hann einn kjark til að kannast við að trúa í öllu sínu hjarta því einu, sem játning sú segði, sem í upphafi var ákveðin. Eftir sömu réttvísi ætti katólsk kirkja enn allar fornar eignir sínar í löndum mótmælenda, því fáir hafa fleiri játningar til hliðar lagt en siðabótarmennirnir.

[1920]

## „Með óþrjótandi árvekni einni saman, verður frelsið kaupi keypt.“

Eins langt og ég man til mín hér í álfu, kominn fast að fimmtugu vestan hafs, þá hefir tollmálið verið uppi á teningnum í öllum þingkosningaþrætum, sem að kvað, og með þeim árangri, að enn má segja, að flest sitji þau við sama. „Rankó er eilíf eign,“ lætur Runeberg skáld stúlkuna kveða um piltinn, sem henni leizt vel á og vildi giftast. Eins mega landsmálaflokkarnir hér segja um verzlunartollinn; betur hefir ekkert haldið þeim við í veltunni; ætíð mátti finna upp nýjan snúning á honum utan um atkvæðin, án þess til muna slakaði á snörunni. Einu sinni sótti maður um forsetastól Bandaríkjanna undir því yfirskini að leggja ekkert gjald á varning sumra þjóða, en allt sem af tæki á vörur annarra. Andstæðingar hans bentu óðara á, að væri ótolluð verzlun svo hagstæð sem hann hélt fram á stöku stöðum, ætti hún að vera enn ágætari við alla jafnt, og enduðu á því að uppnefna tollmálastefnu hans og kölluðu hana „flekkóttu fríverzlunina.“ Hann tapaði líka tigninni.

En ættarmót flekkóttu fríverzlunarinnar er víðar viðloðandi, ef aðgætt er. Flest fólk er frjálslynt aðeins á köflum, sumt í trúarbrögðum sínum aðeins, en hitt virðist þeim ganga glapræði næst, ef einhver efast um hagfræðis-trúarjátningar þær, sem mannfélagið hefir hangt við hingað til. Aðrir taka þveröfugt í það. Frjálslyndi þeirra er „flekkótt“. Þeir róa áfram með annarri hendi, en halda hinni í andófi, og hafa ekki athugað það, sem Erpur vissi, að „hönd styður fót“. Þeir hafa hausavíxl á jarðríki og himnaríki sínu. Úr hugsanahöftunum verða handarjárnin sniðin, eins og þrælkunin leiðir til þýlyndis. Flekklaust frjálslyndi stendur hvarvetna á verði, jafn vel til greiða fyrir gamla sem nýja guðfræði, sem ginkefla á með ofbeldi. Slíkt leiðir af því lunderni, sem tekur sér nærri, ef níðzt er á frjálsri hugsun eða hagsmunum nokkurs manns fyrir þá sök eina að halda fram því, sem réttlátara væri, og finnur því til með honum. Því gremst, þegar svo er breytt við aðra, sem það veit fyrir víst, að sér myndi ranglátt þykja, þegar kæmi líkt niður á sér og sínum. Slíkt lunderni fagnar því, að mannkynið hafi engan þann dag til ónýtis lifað, sem það „gengur til góðs götuna fram eftir veg,“ hvar í heimi sem

er og þó smátt sé í broti. Lögmálið, sem úrskurðar aflóga trúarjátningum kirkjueign, er allt einnar ættar sem hitt, sem fyrirbýður fundahöld fólksins og jafnvel lokar samkomusölum erfiðismanna, sem þeir þó sjálfir eiga, án þess þeir hafi annað til óbóta unnið en það, að þau lagavöld, sem uppi eru, leggja þeim ekki mál í munn. Þeirra afdrifa er örskammt á milli, og frjálslynd framsýni myndi sjá það samband í hendi sér og telja það einn þátt í sjálfsvörn sinni að leggja framsókn „andlegu málanna“ líka þar liðsyrði sitt, öldungis eins fyrir það, þó tvísýnt væri um sigursæld í bráð. Sé það satt, sem sagt er: „að umbótavegurinn á úreltum lögum sé beinastur sá að beita þeim,“ sökum þess að þá komi það almennt upp, ef þau eru ósanngjörn, þá getur svo farið, að tapað mál í dómi yrði sömu málavöxtum sigurdrýgindi síðar. Þó svo ynnist ekki, mætti frjálsum félagsskap trúhneigðra manna vaxa svo vit af því að krækja undan sjálfum sér félagseign, með samþykki sínu á fangstaðar-fyrirmælum, upprunalega í sínum eigin lögum, að slíkt legðist niður. Það reynist heldur engum kreddum varanleg vörn, þó reynt sé. Verður aðeins óspektarefni. Slíkt stíflar aldrei straum aldarandans. Harvardháskóla kvað í fyrstu hafa verið komið á fót til uppeldis í einni útúr-sig-tekinni kirkjukenning. Girard College átti að útibola allri guðfræði; nú er hún sögð þar innanborðs en allar sérkirkna-kenningar útilokaðar frá Harvard.

Allt þess háttar reynist eins og eitt íslenzka skáldið kvað, sá sem löngum þykir hafa verið ljúfastur og listhagastur hjá síðastliðinni kynslóð, sem sé Steingrímur, og tek [ég] hann því til, að einhver var nýlega „að ljúga því“, að íslenzk góðskáld hefðu aldrei „bolshevisma“ kveðið. En svo kvað Steingrímur:

„Alla tíð það lán var lént:
Lyddur dóm er sátu,
Hvorki höggvið, hengt né brennt
Hugsjónirnar gátu.“

En á hinn bóginn fóru hendingar hans í kvæðinu: „Ísþakta fjall með árdagsblys“ — svona:

„Harðstjóra kúgun, klerka lygi
Með klækjum hleður myrkra-vígi.“

Uppreisnarandinn er líklega eins og veturinn hjá Bjarna, „jafngamall guði“. Í hvaða gervi sem hann gengur, er hann

góðs maklegur, hjá öllum sem framsókn unna og þá hugsjón hafa: „að kynslóðirnar bæði geti og eigi að skila mannfélaginu af sér farsælla og frjálsara en þær tóku við því.“

[1920]

## „Gáði seint að reiðast!“

I.

„Gáði seint að reiðast,“ var sagt um þá, sem ekki höfðu skyn til að skilja, þó skylli í tönnum þeirra, fyrr en eftir löngu liðinn tíma, en urðu þá svo ærir, að þeir færðu allt til verra vegar, af heift eða heimsku.

Langur vaðall um „Vígslóða“ minn stóð í nýlegu Lögbergi. Flest þau kvæði, sem hann flytur, voru áður út komin, nokkur í Lögbergi sjálfu. Hér skulu þau upp talin:

Assverus, kom út í Eimreiðinni XXI. árgangi, 1. hefti.

Hleiðra, í Heimskringlu, 19. nóv. 1914.

Ögranir, í sama blaði, 17. sept. sama ár.

Svefn ins réttláta, í sama blaði, 26. nóv. sama ár.

Tíðindamaðurinn, var mér sagt að staðið hefði í Kirkjublaði Þórhalls heitins biskups.

Vopnahlé, kom út í Skírni, 3. hefti 1915.

Brot úr hestavísum Fjósa-Páls gamla, stóð í Lögbergi, 8. júlí 1915.

Faríseinn í hlutleysinu, í sama blaði, 12. ágúst sama ár.

Stjórnarheit á stríðstíðinni, í sama blaði, 7. okt. sama ár.

Úr opinberunarbókinni og í Babylon, í sama blaði, 11. nóv. sama ár.

Einvígið, í sama blaði, 15. júní 1916.

Víga-hrottinn, í sama blaði, 20. júlí sama ár.

En sjálfu Lögbergi verður ekkert bumbult af þessu, fyrr en 21. október 1920.

II.

Á þessum langasandi Lögbergs út af Vígslóða kennir ýmsra grasa, en flest eru þau af þeirri tegund, sem rekja mættu rætur til ummælanna gömlu: „Þyrna og þistla skal jörðin þér bera.“ Þó skal ég leiða minn hest hjá öðru ógresi en því, sem heitir affærslur og ónot til ósekra manna í efni þessa kvers. Lögberg má vera eitt um það og mótmælalaust, hvað það kýs að merkja með svo þýðingarlausum orðum eins og „vel sagt“

eða „andstyggð“, þegar það er að segja sitt eðli. En ekki mega því haldast uppi rugl og rangfæringar, án andmæla. Líka er það meira en meinlaust, það er skemmtilega skoplegt, að blaðið heldur enn áður uppteknum hætti sínum, að skjótast í sínar „cyklópædiskų“ dauðra manna grafir, fyrr en það leggur til framhlaups — það er: fletta því upp í fjölfræði sinni, hvaðan orðið Assverus sé ættað. Von er þó það vilji sýnast fjölfrótt. Svo er því nú öruggt að taka sig til við Austurlandamálin, eftir grísku-vitnisburðinn, sem það fékk í fyrravetur. Einn er þó sá ágalli á þessum haugagöngum þess við byrjun bardaga: úr þeim kemur það tíðum svo ært, að varla verður milli séð, hvort það er skilningur þess eða réttsýni, sem byltir sér fyrir björg.

III.

„Hver einn bær á sína sögu,“ sagði Matthías í sveitarkvæði sínu um Skagafjörð. Svo er og um þulurnar mínar í Vígslóða, þó um þær sé langtum minna vert. Ég get um þetta aðeins fyrir það, að Assverus spratt ekki upp úr heimsvígunum, sem hófust með ágúst 1914. Það kvæði var kveðið 5—6 mánuðum áður en til var nokkur ávæna um þau. Þrátt fyrir alla mína illsku, eða kannske sökum hennar, er mér svo farið, að mig tekur sárast til míns kyns, mannheildarinnar. Ef mér slapp verk úr hendi, í dægrastriti mínu fyrir daglegu brauði, var ég stundum vís til að lesa, hugsa eða klóra á blað, eitthvað í þá átt.

Einhvern tíma um veturinn 1913—1914 sat ég svo auðum höndum, að ég hripaði Assverus upp. Í mér var óhugur, ótti um framtíðarfrið í heimi vorum. Mér vaktist upp margt ískyggilegt, svo sem brugg stórveldanna svo nefndu, eftir Balkanskagastríðið, langa þingið þeirra í Algeciras, þar sem Frakkar fengu Marocco, Englendingar einræði í Egyptalandi og í Þjóðverja var slett sneið af Afríku til bráðabirgða-sætta, og fleira kom mér í hug. Í hvort tveggja skiptið stóð mannheimur á öndinni, að til alþjóðastríðs myndi draga. Að ekki varð úr, þakka sumir því, að Balkanskagaþófið stóð svo lengi yfir, að verkalýðsforingjar og jafnaðarmenn í fjarlægum löndum fengu tóm til að taka saman höndum um kolanámaverkfall, í Vesturheimi og á Englandi svo öflugt, að öll flutningafæri tepptust, ef til stáls ætti að sverfa. Hitt, sem ofan á varð í Algeciras, eigna ýmsir því, að nokkrum inna her-

voldugu, sem hlut áttu að, hafi óað við því, að sín þjóð myndi varla nægilega vígtennt enn til að barkabítast við hinar. En hvað sem satt er í þessu — mér fannst sem heimurinn stæði á fláræði og friðurinn á glóðum. Upp úr þessu kvað ég Assverus. Sendi Eimreiðinni hann. Hann kom ekki út í því hefti hennar, sem í næstu var von á. Það var fullskipað þegar hann kom fram. Þetta get ég sannað.

IV.

Út af kvæðinu Ögranir nefnir Lögberg það nýja kenningu, að sá sé hugprúðastur, sem þorði að sitja hjá því að svíkja guð sinn og sannleikann eins og samvizka hans sér þá, en vita sig þó, ef til vill, eiga sér vísa vegna þess alla illúð, sem ofsókn og fyrirlitning eiga umráð á. Ég skal ekki efa, að Lögberg segi þetta satt, þannig, að því hafi sjálfu aldrei komið þvílíkt í hug né hjarta og reki því upp stór augu við annað eins. Af mér er hitt að segja, síðan ég var krakki að lesa íslenzkar sögur, hefi ég til dæmis dáðst að hugprýði sumra heiðingjanna í Noregi, sem Ólafur Tryggvason var að kvelja til kristni, hvað sem málstað þeirra leið að öðru leyti, og er þó líklega langt til jafnað.

Blaðið segir svo: „Á stríðsfréttir minnist skáldið með einu erindi, sem hann nefnir „Tíðindamaðurinn“.“ Svo hefir það þá samhendu yfir. „Þar sem þinn fjársjóður er, þar er þitt hjarta,“ á við Lögbergsskilninginn, ef það hyggur, að sú ímyndun mín, að dauðinn hoppi yfir heiminn hlakkandi yfir mannfallinu, sé að stikla um stríðsfréttir, aðrar eins og það segir. Þegar Lögberg nefnir Vopnahlé, er öll skynsemi þess á enda. Eftir það er eins og það eigi til veðs að vinna um, að enn geti misskilningur þess gengið fram af sjálfum sér, í þeirri íþrótt að rangfæra. Heilabúi sumra er svo háttað, að það rúmar ekkert nema nöfn og tölustafi og ferhyrninga. Það er eflaust sá bæjarlóða-skilningur blaðsins, er veldur því, að hann fullyrðir, að annar þeirra „fjandamanna“, sem orðastað eiga í Vopnahlé, sé Þjóðverji, og hinn „líklega Englendingur“, nema það sé inn rótgróni ótti þess um, að allir þeir séu Þjóðverjar, sem meira vit hafa en það sjálft. Upp úr kvæðinu sjálfu er varla hægt að hafa þetta mótsagnalítið, sem varla er von, því niðurstaða þeirrar samræðu er auðvitað sú, að rætur til stríðsins verði ekki raktar til neinnar þjóðar

einnar, það hafi gosið upp úr félagsfyrirkomulagi, hugsunarfari og aldarhætti, sem alls staðar drottnaði, jafnt hjá þingræði og keisaraveldi. Setjum svo, að nafn þessa skírnarbarns Lögbergs, Þjóðverji, sé við það stutt, að kvæðið láti hann segja, að einu sinni hafi sinni þjóð blætt til muna í þrjátíu ár fyrir samvizkufrelsið, þá koma fleiri þjóðir en þeir við þá sögu, og þeir ekki allir, enda er það sagt aðeins til að minna á, að stríð hafi verið háð fyrir andlegar hugsjónir, en ekki einungis um „commerce and trade routes“, eins og H. G. Wells kemst svo vel að orði einhvers staðar. Eigi í það að vitna, að sá, sem Lögberg nefnir „líklega Englending“, segir: „Einvaldurinn ykkar upptökunum sagður er að valda,“ þá er, auk þess sem áður var bent á, ágreiningur um, hvort heldur það voru Rússar eða Þjóðverjar, sem fyrstu vígin vöktu í þetta sinn, og sama á við þar sem sagt er, að sagan sé djúprættari en svo, að stríðið stafi frá því, að einn mann hafi gripið æði snemma í ágúst. Eða voru það Þjóðverjar, sem fyrstir fengu laun úr friðarsjóði Nobels? Hafa auðmenn þeirra verið fremstir í flokki að bjóða fé sitt til friðar? Auk fleira, sem þessi Lögbergs-Þjóðverji segir vera sinnar þjóðar megin. Ólíklegur Englendingur er það, sem telur sem samlanda sína aðalsmenn innan vígis, sem eigi svo skammt til vígvallar, að þeir útvega sér skemmtileyfi til að aka þangað, þegar ekki er barizt. Gat Englendingur, sem barðist í föðurlandi annarra þjóða og með þeim, sagt, að samherja sína skorti eldmóð og rögg þeirra, sem berjast fyrir átthaga sinn? Bendir það höfuð lýðs og guðríkis á jörðu á Bretakonung, sem bar skurðgoð sinnar sönnu kirkju, sem sé dýrlingsmynd, fyrir liði, sem hann leysti svo úr hlaði, knéfallandi, og vígði þannig Valföður? Rétt skýring væri hitt, að viðburðir, sem getið er í Vopnahléi, koma héðan og handan, en allir úr stríðinu einhvers staðar. Það er „rauði þráðurinn“. Mér þótti vænt um það, sem vinur minn í Reykjavík sagði mér, þegar ég kom til Íslands sumarið 1917. Hann var greindur maður og glöggur. „Gaman hafði ég af því, Stephan,“ sagði hann, „þegar Vopnahlé kom út í Skírni, voru allir þessir stríðsþjóða-sinnuðu hérna óánægðir með það. Engum þeirra fannst hann geta gert það að tekjugrein fyrir sína meðhaldsþjóð.“ Mér var ánægja að, hve rétt þetta var metið, og einmitt var til þess ætlazt.

V.

Meðan ég man, og fyrst ég hefi færi til, skal ég geta þess, að eins langt og mitt vit og kunnugleiki náði, var það helber vesturheimska, sem sumir hér voru að belgja sig upp með, að Íslendingar heima væru þjóðhlutdrægir í stríðinu, til dæmis þýzklyndir. Yfirleitt voru þeir öfgaminnstir allra þjóða, sem létu sig þau mál varða, enda áttu þeir góða aðstöðu til þess, sem sjálfir höfðu lengi haft frið við alla menn. Hitt var satt, til voru smáflokkar, sem tók sárara til einnar stríðsþjóðarinnar en annarrar, og mér fannst það af góðu sprottið, ef gáð var að. Flestir, sem þá flokka fylltu, höfðu farið utan og dvalið á friðartímum, og oft lengi, hjá þeirri þjóðinni, sem þeim var annast um, mætt velvild og orðið á einhvern hátt svo að segja skólabræður hennar, annað hvort í lærdómsleitinni að sannleik og fegurð, eða hyggjuvits og hagsmuna. Svona bræðrabýti mat ég báðum til sóma, en mannleysuhátt að muna þeim það ekki, ef einhverri stríðsþjóðinni voru eingöngu eignuð öll illindin. Þessi málamunur var þó ofstækislaus, og eins hitt, sem þá, er um það hugsa, greinir á um, á Íslandi eins og annars staðar, hvort stríð geti [horfið] eða eigi að hverfa úr framtíðarsögu mannanna eða ekki. Án þess að minnast á álit sitt á stríðinu spurði sveitafólk mig stundum svona: „Hvernig stóð á því, Stephan, að Íslendingar vestra skyldu lenda í þessu?“ Og það var sagt svo viðkvæmlega, að mér nærri rann til rifja að þurfa að svara því. Mér fannst eins og ég finna til með þessari hávaðalausu umhyggju og alúð, sem alþýðuminnið bar til okkar enn, frávillinganna sinna. Ég reyndi að sýna fram á, hver forlög réðu þessu, að Íslendingar væru þegnar hér, litu sjálfsagt sumir svo á stríðið, að góður málstaður væri í veði, og að sumir þeirra manna, sem mest bar á, prelátar og pólitíkusar, legðu sig fram til að ota Íslendingum út í skylduna við náungann. Við þetta allt fannst mér rætast enn betur sá grunur, er ég hefi gengið með, að þjóðrækni og mannást væri gangur velviljans í sömu átt, á sömu braut, fyrstu sporin og framhaldið. Við slítum þetta sundur og þrætumst á með sinn spottann hver. Ræktarsemin til foreldris og föðurlands hefir þroskazt þangað til, að sannur heimsborgari vill öllu mannfólki eins vel og sínu eigin, ann því alls, sem hans heimaþjóð varð til bóta og blessunar, æskir sínu kyni einskis þess veraldarvalds, er hann ekki

þyldi, að aðrir hnepptu á sig og sína, harmar hluttöku allra þjóða í hverju því böli, sem hnekkt hefir farsæld föðurlandsins hans og af mannavöldum var komið, erlent og innlent ofríki, stríð og Sturlungaaldir.

„Bóndadóttir“ Guttorms J. Guttormssonar hefir tekið tvær smámyndir af andfætlingum svona hugsunarháttar, ef til vill ásetningslaust. Þær heita „Gorkúla“ og „Gröftur“. Gorkúlan vex upp og verður bústin í myrkrinu, fúlalofti og fúanum; í ljósi og sólskini setur að henni „tæring“. Gröftur er grindin af illskiptninni. Eins og beinagrindurnar af vökumönnum kirkjugarðanna, í draugasögunum okkar, hefir sú líkamsleif ekki getað fúnað, eins og flest kristið fólk gerir í gröfum sínum. Af eru þó öll hold, hjarta og taugar, en tennurnar heilar og hvassar enn, og ígerðin í kýlinu á kjálkanum hefir illskazt, unz hún varð hans banamein. En þrátt fyrir þessar skýrt dregnu skuggamyndir, undir jörð og á, er mönnum líka léð það lifandi lán, að uppi er fjölgandi flokkur, sem tekur hverri ljóstýru, sem „býr í þér sjálfum og lýsir til blessunar,“ (eins og „Eldflugan“, sem „Bóndadóttirin“ dró upp á öðru spjaldi), næstum með eins innilegum fögnuði eins og konan, sem hafði sinn týnda pening aftur fundið, jafnvel þó birtan sé veigalítil og lýsi út í „sortann“.

## VI.

Þetta var nú kannske útúrdúr, og ég býst við, að Lögbergi gremjist, ef ég geng gjálfur þess lengur fyrir bý, finnist að sinni hrókaræðuvirðing sé misboðið. Þá er að snúa sér að því aftur, ég á nokkur orð ótöluð við það enn.

Blaðið hvín upp, að Vopnahlé „fordæmi allar hvatir manna í sambandi við þetta stríð,“ og les upp langa runu af stofnunum, stéttum og stefnum mannanna, með áherzlunni: „allt eru það svikatól.“ Eitt sem þar er til tekið, er kristindómurinn. Það orð kemur einu sinni fyrir í Vopnahlé. Þar segir frá klerk einum, sem fimmtíu jólanætur hafði boðað með kærleiksorðum komu friðar-konungsins, meðan engir börðust. En jafnskjótt og heróp var hafið, tók hann undir það í messunni, sótti biblíu sína í skápinn og sannaði með henni:

Að hver sem ekki berðist
Nú fyrir málstað guðs og góðra siða,
Gæti ei hafa skilið kristindóminn.

Hvaðan stendur það, að Lögberg illskast út af þessu? Þetta er lagt þeim manni í munn, sem það sjálft fullyrðir að sé Þjóðverji, og sagt um sóknarprest hans. Er blaðið orðið svo þaulþýzkt, að það tekur upp þykkju sína þess vegna? Hitt væri þó líkara Lögbergi að samþykkja svona kenningu með sínum sóknarpresti, þegar stríðið stóð yfir, og glannaskapur nú að nefna hana „svikatól“. Hefir blaðið týnt „kristindóminum“ í því að þjóðverjast?

Í stuttu máli sagt, Vopnahlé drepur á ýmsu, eins og sagnir sögðu, að gerðist og gengi yfir höfuð í stríðinu. Dagblöðin eru öllum í fersku minni. Heimsfrægir vísindamenn og háskólakennarar óvinaþjóðanna, sem áður höfðu dáð hverjir aðra, köstuðust í hópum á svo köldum kveðjum, að furða var um menntuðustu menn, þó Lögbergi láist að vita það.

Blaðið segir enn fremur, að í Vopnhlé sé „enginn ærlegur maður, nema einn.“ Í Vopnahlé stendur:

Hver hafa orðið forlög foringjanna
Fáu, þeirra er ekki hafa brugðið
Friðarmæli sín, og vildu ei svíkja
Sannleikann í voða? Einn er myrtur.

Það var Jean Jaurés, franskur skörungur jafnaðarmanna, myrtur af Villain, svo að segja í byrjun stríðsins.

Annar fyrir sömu sök er gerður
Svívirðing í eigin hóp og dæmdur.

Það var Ferdinand Karl Liebknecht, þýzkur jafnaðarmannaforingi, rekinn úr sínum eigin flokk, dæmdur í fangelsi fyrir landráð og loks myrtur í róstum, sem urðu, þegar þýzka keisarastjórnin valt um koll, sem ekki var skeð, þegar ég kvað Vopnahlé.

Yfirgefinn rænulaus af raunum,
Reikar nú sá þriðji um grafarbakkann.

Það var Keir Hardie, enskur verkalýðsleiðtogi og þingmaður. Varð frávita, að sagt var, af hugraun út af stríðinu, og dó upp úr þeim kvilla, nokkru síðar en ég orðaði þetta. Allir áttu þessir menn sammerkt í því, að þeir guldu þess svona, hver um sig, að vilja stilla til friðar. Þúsundir ónafngreindra manna hafa

að líkindum farið sömu för, aðeins munar því, að heiti þessara eru heimskunn.

Hvað heitir annars meistarinn, sem Lögberg er að læra að lesa hjá? Öll ólæs börn ættu að varast hann. Fyrir fjórtán, fimmtán árum, með tilliti til sumra játenda kristindómsins, spurði eitt íslenzka skáldið okkur svo í afmælisveizlu Krists, sem við nefnum jól:

„Heldurðu að yfir hugsjón þessa manns
Og heimsins friði þessir kaupmenn vaki,
Sem fluttu milda friðar-ríkið hans
Á fölva stjörnu, að allra skýja baki?“

Lögberg og ég, höfum svarað þessu sitt í hvora átt.

Sláturverk skilur Lögberg, eins og þau gerðust á Íslandi, betur en það kemur orðum að, því sú lýsing varð klaufalegt amboð í þess andlega striti. Hver getur nú efazt um, að mannfall Englendinga í stríðinu hafi „drýgt blóðið“, sem þjóðunum var tekið, svo það yrði „hæfara til matar“ fyrir hergagnagróða og ríkisauka í þá átt, að verzlunarvaldið gæti lagt undir sig lönd?

Um Einvígið farast blaðinu svo orð: „Og lofar skáldið Egil fyrir það sama og hann setur Kainsmerkið á hina föllnu Íslendinga.“

Flestum öðrum en Lögbergi mun farast eins og „Förumanni“ í Lögréttu, gera sér það í grun, að ég leggi ekki að jöfnu einvíg Egils við Ljót bleika og það, hvernig hann vann á piltinum Rögnvaldi, syni Eiríks og Gunnhildar, og að ég viti vel, að nokkrir gengu í stríðið af líkri hvöt og Egill gekk á hólm við Ljót, þó ég trúi ekki, að það væri eins almennt eins og troðið er í mann, og viti engan, sem var þetta ljóst um sjálfan sig, þegar í einlægni var talað. Annað mál er hitt, hvort sumum slíkra manna finnst ekki nú, þegar þeir sjá uppskeru þess, sem þeir lögðu í sölurnar, að þeir standi í sporum konunganna í ævintýrunum okkar, sem gifzt höfðu skessunum, en gátu ekki rekið sjálfa sig úr vitni um náttúru þeirra, þegar þeir sáu breytinguna, sem þær tóku, þegar þær í laumi höfðu lokið við að sölsa allt upp í sig úr manna- og hrossakjötstunnunum.

VII.

„Ojæja, þú segir nú svona, en ert ekki eins heimskur og þú lætur,“ var stundum stungið að þeim, sem gengu um með sögur, sem þeir sjálfir létust trúa, þó þeir kannske vissu betur, en í von um, að þær kynnu að geta orðið til gengis einhverju öðru, sem undir bjó. Við að lesa lokasennu Lögbergs um Vígslóða, verður dálítið óljóst um, hvort heldur það sé græska blaðsins eða greindarleysi, sem sýður svona upp úr. Fyrir hugann flýgur reglan, sem Vídalín gamli vitnar til: „Lastaðu blygðunarlaust, þar mun ætíð eitthvað við loða.“ Lítil bending er það, að blaðið, í hamsleysi sínu, grípur til orðsins „óhappamenn“ og tilvitnunarmerkir það. Smásaga ein varð til um það orð. Ég notaði það eitt sinn í sambandi við mennina, sem í hernaðinn hröktust, fannst fáum myndi þykja happi að hrósa að þurfa að lenda í þeim leiðangri. Grein eftir mig, sem þetta orð stóð í, var enginn sakamannabálkur, en andmæli gegn kappsmáli, sem fáir menn höfðu fitjað upp á almenning. Eðlilega þurfti að sýna í henni eitthvað svaravert. Á því stóð heldur ekki. „Nikk gamli í Parkinu“ flýgur að mér úr drekabæli sínu, með fornyrða-bókarræfil í gininu, sem á mig átti að bíta. Hvort hann var eitt af þeim vopnum, sem Nikulás fletti af Styrkári Vésteini og blaðafrægt varð fyrrum, fara engar sagnir svo ég viti. „Nikk“ þóttist hafa veitt mér mikinn áverka — sannað, að ég hefði kallað hermennina glæpamenn. Ég hafði lítinn skjöld fyrir mig að bera, gerði það mest í glensi, að öðru en því að segja sem var, að ég legði sama skilning í orðið, sem um var deilt, sem almenningur gerir nú, sem sé: ólánsmaður. Hjá siðuðum andstæðingum, í svona deilum, er öllum þess konar þrætum lokið, þegar annar hvor færir orð sín til þeirrar þýðingar, sem ekki er öfug og hann ætlaðist til, jafnvel þó honum hefði orðið mismæli á í fyrstu. En „Nikk“ hirti lítið um hólmgöngulög, vildi ekki stinga fornyrðinu í skeiðarnar alveg þurru, heldur hélt áfram að berjast um með því. Ég lagði þá niður alla vörn, nennti jafnvel ekki að sýna fram á það, sem hver meðalgreind sér í hendi sinni og orðabókarlaust, að andi tímanna ræður í þýðingu orðanna, svo þó að fornmenn nefndu þá óhappamenn, sem unnu sömu verk og þeir, sem við köllum illræðismenn, lá aldrei í þeirra huga sama ásökun á einstaklinginn, sem verkið vann, eins og hjá okkur nú í

orðinu illræðismaður eða glæpamaður. Forfeður okkar trúðu á fyrirhugun. Nornirnar, Urður (ætterni), Verðandi (aðstaða) og Skuld (afleiðing), sköpuðu öllum örlög, engum var sjálfrátt um gerðir sínar. Jafnvel viljalausir hlutir, svo sem vopn, komust ekki hjá, að með sér yrðu unnin þrjú níðingsverk. Mestu og beztu fyrirmyndarmenn þeirra tíma, sem í óhæfu rötuðu, voru ekki hugsaðir sem glæpamenn nú, heldur ólánsmenn, — óhappamenn, af tilviljun, ekki af eigin vonzku, því þeir komust ekki hjá slysinu.

Þegar ég uppgafst, tók einn vinur minn sig til og lamdi með öðrum orðabókum orðskýring „Nikks“, hans málstað svo til óhappa, að hann þagnaði. Orðabækur eru eflaust góðar, ef sá sem notar þær er orðabókarfær. Hafi því Lögberg gripið til orðsins óhappamaður í því skyni, að eitthvað myndi við loða, er grunur þess réttur — við orðið loða „gæsalappir“ þess sjálfs.

VIII.

Síðasta kvæði Vígslóða, „Fjallkonan til hermannanna, sem heim koma“, hefir Lögberg allt yfir. Þá er líka komið í það óðs manns æði, enda var við því að búast, eftir því sem á undan var gengið, að til slíks myndi draga. Blaðið tví- og þrítekur sumar hendingarnar og hrópar til bergmálsins: „Takið eftir — lesið aftur!“ Og ástæðan er, að í stað þess að láta Fjallkonuna hlakka sigurdrembna yfir heimkomu þeirra, læt ég hana segja, að sér verði ljóð á munni og hrökkvi tár af auga yfir þeim komnum úr mæðuferð með blóðuga branda og skarða skildi. Stærstan greiða hafi sá unnið sér, sem tók vopnin úr höndum barna hennar, þó ekki væri í vildarskyni gert — sem sé Danakonungur sá, sem fyrirbauð Íslendingum vopnaburð — við hann sé hún sátt. Síðan sé hún óhrædd um, að gestum sínum sé mein gert, en ekki óttalaus um heimamann sinn. Óskar, að þeim verði illa til, sem tæli niðja sína til að verða blindir banamenn nágranna sinna, ginntir eins auðveldlega til rasandi ráða eins og Höður. Friður hennar sé með inum föllnu, værðin og (val)-kösturinn geymi þá, og leyni Kainsmerki (þeirra, sem véla eða tæla, sem hún „veiar“ í fyrri vísunni) undir blóðstorkunni á þeim (sem féllu). (Biblíufróðir menn ættu að vita, hvor þeirra það var, Kain eða Abel, sem bar merki viðskipta þeirra bræðra eftir fundinn við fórnar-

stallinn, sem ritningin segir frá). Þyngst hugraun er henni, að fá þá mannskapsminni menn, er heimtast heim aftur.

„Takið eftir! Lesið aftur!“

Hvaða stríðskenningu, sem hver og einn kann að samþykkja, væri það lyginni líkast að kveða svo sem Fjallkonan hefði mætur á hermennsku. Hún, sem líklega á líf þjóðernis síns mjög því að þakka, að forlögin forðuðu henni út úr styrjöldunum. Þegar ég kvað: „Kyrrð og kös þá geym“, rann mér í hug lýsing merks manns í Bandaríkjunum af leiðum af miklu mannfalli á fornum vígvelli. Hún er svona: „Some twenty years ago, I visited the city of Novara in northern Italy .... On the battlefield of Novara the farmers had ploughed up the skulls of the slain, had stacked them up, until they formed a pyramid fifteen feet high, with a little canopy which kept off the rain.“

Ég efa, að unnt hafi verið að jarða allan nýja valinn í Norðurálfunni í grafreit. Í ímyndun sá ég vígvöllinn við Novara. Mér komu í hug „íslenzku drengirnir“, sem féllu, og lét Fjallkonuna óska þess, að kyrrðin og kösin geymdi þá, hvar sem þeir væru moldaðir, til varnar því, að til dæmis belgiskir bændur hlæðu beinum þeirra í vörður á ökrum sínum, þegar fram líða stundir.

Lögbergi má þakka það, verði skýring þess á Kainsmerkinu á hermönnunum að hefð. Það kom henni fyrst á framfæri.

En að fá þá minni menn, sem heimtast aftur heim,
Er hugarraun mér þyngst.

„I'm less of a man now than before I went to the war,“ var nýlega sagt í minni áheyrn af manni, sem ekki þóttist koma jafnheill og hann fór.

„Ég er minni maður nú, en þegar ég var á röskvasta skeiði,“ sagði aldraður Íslendingur (sem orð lá á, að hefði verið sterkur, þegar honum var ögrað til átaks með því, að einhvern tíma hefði hann getað annað eins). Sem bráðabirgða eftirtekju þessa síðasta og versta stríðs, kvað mannheimur okkar eiga á bak að sjá tíu millj. sona sinna, á bezta reki, sem lagðir voru í valinn — tuttugu milljónum barna sinna á öllum aldri, sem féllu fyrir afleiðingum þess. — Löndin hafa tæpast húsrúm fyrir alla sína höltu, blindu og vönuðu. Arðinum af erfiðis-

munum óborinna alda er varpað í veðbréfa-vörzlur viðsjálustu lánardrottna.

Að auki er úrhrökun og siðspilling, sem er, ef til vill, torbættasta tjónið, en verður aldrei tölum talið. Finnst nokkrum sem um þetta hugsar — jafnvel Lögbergi — að heimkoman eða heimturnar séu hugraunalausar?

## IX.

Fyrir fáum árum síðan var dr. Guðmundur Finnbogason gestur Vestur-Íslendinga. Hann var á vegum Lögbergs-Sameiningarinnar, Kirkjufélagsins, almennara nafni. Það boð var gert og þegið í þjóðræknisskyni, var báðum hliðum til heiðurs og vel yfir að láta. Guðmundur er ritstjóri Skírnis, eins og kunnugt er. Eftir vesturför sína tók hann eitt sinn í tímarit þetta dóm um bók, sem rituð var hér vestra og sem nokkrum þeirra, sem buðu honum hingað, var í nöp við. Ummælin um bók þessa voru rituð af manni, sem talinn er með merkari Íslendingum, sem nú eru uppi, og gengu út á efni, sem hann hefir fengizt við alla æví. Einum heimboðsleiðtoganum, sem trúði sig að hafa verið góðgerðamann Guðmundar, sveið þetta svo við hann, að hann lét þau orð falla í alþýðublaði, sem svo mátti skilja, að honum þætti Guðmundur hafa munað greiðann miðlungi vel, í að taka í Skírni slíka mótgerð við kirkjufélagsskapinn.

Mér fannst þetta nokkuð nærgöngult við Guðmund og gestrisni okkar Vestmanna, verða nærri veizluspjöll, okkur sæmdarlaus, af því líka, að örðugt var að ákveða, hvor þeirra átti hinum að þakka, dr. Guðmundur eða við.

Lögberg mælir oftast eitthvað, sem aðrir mæla, talar sjaldan af sínu eigin. Það er því næstum furða, að því hugkvæmdist að árétta svona aðhald, með því að gefa nú í skyn, að ekki einungis einstakir menn og blöð á Íslandi muni gjalda Vígslóða, heldur allt þjóðernið íslenzka. Allt afbrot dr. Guðmundar í þetta sinn er það, sem hann segir frá í örstuttum formála fyrir Vígslóða, sem hvorki lofar né lastar bæklinginn: að hann geymdi fyrir mig handritið að honum, þangað til það var prentað. Í einu kann honum þó að hafa skjátlazt, nefnilega því, hafi hann trúað mér til þess, að til dæmis Lögberg myndi lesa Vígslóða með betri skilningi, þegar stríðið stytti upp. Þar á móti hefðu Lögrétta og Tíminn átt að láta víti Guðmundar sér

að varnaði verða, þegar hann tók ritdóminn um „Trú og þekking“ í Skírni forðum, þó það afsaki nú ekki heldur fyrir inum nýjasta rannsóknarrétti Lögbergs, því nú vann Guðmundur þó ekki af sér annað en það að hafa í sínum fórum handrit að smákveri, sem páfastóllinn að Lögbergi var ekki nógu skyggn til að forboða, fyrr en það kom á prent. Væri Lögbergi annars ekki lang-óþarfaminnst að eiga við mig einan um þetta; við erum nágrannar og hvort sínum hnútum kunnugast.

En í alvöru að tala: Ég hefi trú á sanngirni íslenzkrar alþýðu vestan hafs, þegar hún nýtur sjálfrar sín, jafnvel þeirrar, sem lítur öðrum augum á ýmis mál en ég. Mér hefir svo oft reynzt hún örugg. Að henni vil ég fara bónarveg og mælast til, að hún hugleiði, hvort henni finnist ekki sér sé minnkun gerð, verði það tekið svo, að í hennar nafni sé talað, ef það er látið í veðri vaka, að hún þykist hafa keypt sér þögn eða umsögn merkra manna og blaða á Íslandi um almenn álitamál með hálfum hleif eða höllu keri skjalls eða skildinga, eða vinsamlegum viðtökum við gesti okkar að heiman. Hvort bróðerni okkar eigi þess að gjalda, að einstaklingum og blöðum þar heima og hér tekst ekki alltíð að verða sammála um kosti og lesti þess, sem einhver hefir í bækur fært. Yrði það ekki óverðskuldaður blettur á gestrisni Vestur-Íslendinga? Á það að vera skálmin, sem sker á „vígða strenginn?“

X.

Þá hefi ég rakið refilstigu Lögbergs yfir Vígslóða, flesta nema fúkyrðin. Ég met það of létt verk og löðurmannlegt að svara þeim í sömu mynt. [1920]

## Til þeirra sem það varðar.

Svar hafði ég á reiðum höndum móti upptuggu Lögbergs í inni síðari kviðu þess af því, sem blað á Íslandi heima, blað sem engan hlut átti að þessum málum, nefnir nýlega „Vitleysuna um Vígslóða“. Svari mínu hefi ég þó stungið undir stól í bráðina, án þess samt að biðja beininga fyrir það af blöðunum okkar hér vestra. Ástæðan er, að þeim kvað vera lokað fyrir öðrum, sem orð vildu leggja í þann belg. Þeir sem

því réðu bjuggust að líkindum við, að hagur sinn myndi lítið hækka við lengri deilur en orðnar eru. Þeir og ég erum þar á einu máli. Hitt er mér þó mest í mun að firra þá sem flestum vandræðum, sem af mér kunna að standa, sem enn eru svo drenglyndir að vilja unna jafnvel Vígslóða varnarorðs. Þar að auki er ég ánægður yfir mínum hlut af þessu máli, eins og hann er enn orðinn. Svo þakka ég Heimskringlu fyrir það skjól, sem hún skaut yfir minn málstað, og vona að óhlutdrægir menn virði það heldur við hana. Lögbergi þakka ég liðveizlu sína líka, slík sem hún var. Sjálfur taldi ég Vígslóða ekkert merkisrit. En eitt vann hann þó yfir vonir mínar fram. Hann dró út undan mælikerum ljósin af vitsmunum og sanngirni andstæðinga sinna, svo á þeim verður ekki oftar villzt. Slíkt hefði ekki lánazt eins vel án dugnaðar Lögbergs.

[1921]

## Lárus varð ljúgfróður, einn til frásagna.

„Heimskringla á Stephani ekkert gott upp að unna. ... Þegar hann á fyrri árum lét hana flytja kvæði sín, þá sýndu útgefendur blaðsins honum þann þakklætis- og virðingarvott, að senda honum eitt sinn gullúr í jólagjöf, og jafnharðan sendi skáldið svo harða ádeilu- og skammagrein til þess flokks, er blaðið studdi, að greinin fékk ekki upptöku.“

Lárus Guðmundsson í Heimskringlu.

Ekki er eitt orð satt í sögunni um þessa skammagrein. Þetta er víst ein af „húfunum“ hans Lárusar, rótgróið misminni eða missögli. Ég hefi enn aldrei sent Heimskringlu nokkra grein, sem hún hefir ekki tekið. Sama er með öll önnur blöð, þá sjaldan ég hefi guðað á skjá um greinarrúm.

Það, sem Lárus líklega á við, er þetta: Árið 1906, fimm árum eftir úrgjöfina 1901, sendi ég Heimskringlu þrjár vísur, stílaðar til Afturhaldsflokksins í Alberta, að afstöðnum stjórnarkosningum. Frönsku barnaskólarnir voru þá þingmálabeita hér. Atkvæðasmali afturhaldsins hér hafði útvegað sér gömul skólakver, notuð fyrir löngu liðnu í barnaskólum katólsku kirkjunnar í Quebecfylki. Hann fletti þeim upp á heimilum mótmælatrúarmanna og kvað fast að, að slíkar yrðu kennslubækur í alþýðuskólum okkar, ef Laurier-flokkurinn ynni. Hann vann, og sú raun gafst á þessu, sem allir vita. Sumir

trúðu þessari brellu. Enginn Íslendingur þó, hverjum flokknum sem hann fylgdi, og smalinn sjálfur vissi betur en hann kenndi. Upp úr þessu ryki í augu almennings kvað ég nokkrar hendingar og sendi „Kringlu“ þær. Ég hefi ætíð látið ritstjóra vita, að það væri þykkjulaust frá mér, þó þeir þægju ekki eitthvað, sem ég sendi þeim. Aðstöðu þeirra sumra veit ég vel. Heimskringla tók ekki vísurnar. Það stóð mér á sama. En hún gerði annað, sem mér féll miður. Hún hreytti í mig ónotum, án þess að prenta kvæðið og sýna, hvað ég hefði til saka unnið, eða að úthýsa því þá þegjandi. „Kringlu“ sendi ég ekki eitt orð út af þessu, en ég sagði söguna í Lögbergi, svo sem hún gekk til, illyrðalaust svar til Heimskringlu að öðru en því, að ég sagði í sundur hjónabandi okkar í svipinn. Einhverjar erjur urðu samt út úr þessu, milli vina minna og blaðsins. Í þeim tók ég engan þátt. Þriðja íslenzka blaðið, sem þá var hér uppi, ritaði mér og bauð að taka vísurnar. Ég afþakkaði, og hvers vegna? Aðeins af því ég vissi, að þá stæði deila fyrir dyrum, ekki ósvipuð ærslunum út af Vígslóða núna, en fannst okkur Vestmönnum lítil sæmd að lengja lífið í því þrasi út af jafn ómerku efni. Gögnin í þessu máli á ég enn til og tók þau nú af hillunni aðeins af því, að Lárus fór að bulla.

Ég vona samt, að þessir níu af tíundum, sem Lárus drambar af, virði honum enn á hægri veg, þó hann, einhverra sinna annmarka vegna, kunni ekki ráð til að fara rétt með svona litla sögu og þýðingarlausa, og sé líklegri til að ösla elginn út af öðru efni, sem honum er þó svo gjarnt til að gutla í.

[1921]

## Nikulásarmessa.

### I.

Oft er vandi vel boðnu að neita, jafnvel því, sem komast mætti kannske af án. Hér á ég við leyfið, sem Heimskringla gaf mér til að svara Nikulási Össurarsyni, úr einhverju horni hjá sér. Þiggja vil ég það þó. Hjá fólki, sem meta kann málavöxtu, væri gagnsleysa að svara honum, en hér vestra kunna einhverjir að hafa týnt sér svo út úr íslenzkunni, að þeir taki firrur fyrir fróðleik og gífuryrði fyrir góð rök. Nikulás mun samt sitja við sinn keip.

Einu sinni átti ég heima hér í landi, þar sem mikill sveitar-

rígur komst á út úr kirkjumálum. Ekki var það meðal Íslendinga þó í það sinn. Saga var mér sögð, sem gekk milli andstæðinga prestsins, sem þjónaði þar. Hann var kunningi minn, góður drengur og skemmtimaður utan kirkjumála. Eitt sinn átti hans að hafa verið leitað til að þjónusta aðframkominn gamlan og góðan karl, sem einhvern tíma hafði hlaupið úr hjörð klerksins. Prestur neitaði nokkuð að fara og barði því við, að slíkt yrði árangurslaust, karl væri orðinn of gamall í syndinni til að geta orðið sáluhólpinn, og þar við sat. Auðvitað hefir ævintýrið verið uppspuni, en aldrei minntist ég á þetta við prest til að vita ið sanna. Mér þótti meira gaman að eiga svona skrítlu, óskemmda af virkileikanum. En á Nikulási mun það ásannast, að hann sé orðinn of gamall til að átta sig í íslenzku.

## II.

Fyrir „útleggingu“ sinni (hártogun orða, sem ekki kemur Vígslóða við), hefir Nikulás það „exordíum“, að hann muni eiga í sínum fórum eitthvað eftir mig. Þó það væri — slíkur ruslari sem hann er. Hitt segi ég honum í hreinskilni, þau nöfn, sem hann gefur þessu, standa ekki heima við neitt, sem ég hefi kveðið. Og í gamni, en ekki sökum alvörunnar í þessu, og af því Nikulás er annars staðar í greininni að tylla lögspeki sinni á tá, skal ég minna hann á, að það getur líka varðað lög að eigna einhverjum, og fara með undir hans nafni, nokkuð það, sem ekki yrði sannað, að hann væri höfundur að — á því geta orðið tormerki frá tveimur hliðum. Þess hefi ég orðið áður var, að mér hafi verið eignað meira en ég átti, þó aldrei hafi ég nennt að vera að fjargviðrast yfir því. Mér stendur það líka á litlu. En Nikulás hefir ef til vill beztan hæfileika til að raka upp garðaló.

## III.

Nikulás er eins konar einherji í orðhengilshætti. Aðferð hans er eins dæmi og ætti að heita Ottinska. Aðalreglan í henni er ofur einföld. Hún er sú að grauta upp úr orðabók úreltar þýðingar orða, sem einhvern tíma á öldunum kann að líta svo út, að uppi hafi verið, án þess að hugleiða, frá hverjum tíðaranda þær hafi runnið né hversu þær breyttust með honum, og þrákelkja svo verstu öfgarnar inn í orð andstæðings síns, sem hann er að þræta við. En svo auðveld sem reglan

er, á hún sammerkt við allar vitleysur í því, að hún er hæðileg eins og heimskan og þrjózk eins og þrætugirnin. Hann tínir upp örgemlur í orðabók (Fritzners líklega), og klifar á þeim „contra Norskulögum“ í öfugskýringum sínum á orðum eftir mig.

Hér er sýnishorn af Ottinskunni, svo ljóst, að lesarinn skilur, án þess að þurfa annarra vitna við:

Ef til dæmis Nikulás byði þér bók til kaups, segjum Líkafrónsrímur, en þú færðist undan kaupinu með svona svari: Því miður er ég skildingalaus núna, ég var sá óhappamaður, að mér brást uppskeran í ár — þá hefir þú samkvæmt Ottinskunni játað á þig glæp, ert níðingur, þrælmenni, skógarmaður, réttdræpur hvar sem þú ert.

Komir þú að honum þar sem hann ritar upp slitur úr sögunni af Katli hæng, Egilssögu og Snorra-Eddu, til að koma þeim í blöðin, og ætlir þú að hafa orð á því, hvílíkur aðgangs- og iðnismaður hann sé við orðafræðina, en hrósið um hann dettur upp úr þér á þessa leið: Enn ert þú að skrifa í erg og gríð, Nikulás minn — þá hefir þú, samkvæmt Ottinskunni, látið þau ósköp út úr þér, að Nikulás sé enn að fremja djöfuldóm og tröllskap.

Ympri þú á því við Nikulás, að hann hafi verið með glósur um það, sem Stephan hafi sagt um Englendinga á Íslandi 1917, og leggir þann skilning í orðið að dylgja, eins og venja er í mæltu máli, yrði Nikulás líklega upp með sér. Samkvæmt Ottinskunni skildi hann það svo, að þú mundir hafa í hug sínar frægu orðskýringar. Þó Nikulás brygði þér um, að þú værir landráðamaður, væri óvíst, að þú tækir orð hans rétt upp, ef hann þýddi það ekki með drottinsvikari. Samkvæmt Ottinskunni gæti það verið tignarnafn. Einu sinni á aldri íslenzkunnar var landráðamaður sá, sem fyrir landi réð í trausti konungs síns eða fylgismanna sinna.

Ekki er það enn komið fram í Ottinskunni, svo ég viti, að orðið niðjar merkti stundum forfeður í fornri íslenzku.

Yfir höfuð, slíkt orða-hringsól aftur á bak, safnað upp til að snúa út úr, er Vellandi-Katla vitleysunnar. Með þeirri aðferð ætti það engin ósvinna að vera að nefna Nikulás sjálfan rusta, því það orð má að líkindum ráða til meinlausu merkingarinnar í sveitamaður, og varð að mannsnafni: Rustikus, en fær þessara tíma þýðingu sína, þegar það orð kemst á

sveitamanninn, að hann kunni ekki hæverskusiði þeirra, er í borgum búa. Eins færi með orðið þorpari. Það þýddi þann, sem í þéttbýli bjó, sem sé: borgarbúa. Þegar þeir sem í þorpum bjuggu, gera rupl og rán frá öðrum sér að iðn, breytist það í atyrðisorð. Eftir Ottinsku-lögmálinu mætti nefna Nikulás skálk, því það merkti hermann áður á öldum. „Hundrað gef ég þér skálka,“ stendur í fornri vísu. Menn voru og eru skírðir Gottskálk: hermaður guðs. En ofbeldisverk, sem unnin hafa verið í hernaði, snúa[1]) orðinu upp í það, sem er illyrði nú. Hitt er sök sér, orðin eiga sína sögu og hana hugmynda-ríka, en fá mál ljósa og víðsýna víst eins og þessi blessaða tunga okkar, sem við nefnum íslenzku. Uppruni og breytingar á því, sem felst í einstökum orðum, segir menningarsögu mannanna gleggra en flest annað. Á vegum þessara geisla, „sem hugur sendir hug“, eins og Jónas kvað á, getum við næstum gengið út og inn með kynkvíslum tíu alda eða fimmtán, kynnzt þeim, högum þeirra og hugsunarhætti, eins og væru þær heimamenn okkar og sveitungar. — En til þess þarf fleira en þunnildi af einhverri orðabók.

IV.

Ég hafði sýnt fram á, að forfeður okkar trúðu á fyrirhugun — forlög — að líkindum eins lengi og heiðni stóð, fram á og fram yfir daga Ingimundar gamla. Því sanna orðin úr Vatnsdælu ekkert né öðrum Íslendingasögum fram að þeim tíma, nema að önnur rök komi til, sem sýni eftir hvaða hugsunarhætti talað sé, hvort níðingsverkið var níðingnum sjálfrátt eða áskapað. Meira að segja trúin á fyrirhugun er ekki útdauð enn, þó svipt sé hún nú skáldskaparskrautinu norræna. Kappræðurnar um forlög og frívilja hafa ekki hrundið henni alveg. Merkur kirkjuflokkur hefir haldið lengi í hana, að minnsta kosti frammi í öðrum og æðri heimi en þessum. Þeir menn, sem nema vilja líflátsdóma úr lögum og breyta dýflissum í betrunarhús, eru forlagatrúnni nokkuð nærstæðir. Þeirra aðalástæða er, að það sé einungis sanngirni „að vægja ætíð breyskleik einstaks manns,“ eins og Matthías kvað, því ef maður kynni öll skil á aðstæðum ins seka, yrði glæpur hans ekki sá, sem sýndist. Og það er bert, að þeir menn hafa ekki í huga sömu ásökun á einstak-

---

1) Hdr.: snýr.

linginn eins og hinir, sem „dæma brotin hart en tildrög vægt“, og trúa, að öll hans víti séu hans eigin skuld. Orðabókin er búin að fara með Nikulás eins og bókstafurinn ætlaði sér við andann.

V.

Ég stekk yfir allan samanmokstur Nikulásar úr sögunum. Hann kemur líka Vígslóða jafn mikið við, hvort sem hann væri sagður áfram eða aftur á bak, ritaður upp rétt eða rangt, og ég efa ekki að ólesnu, að Nikulás hafi getað stautað sig fram úr þessu stafrétt. Sú saga er af honum sögð, að eitt sinn hafi hann átt í fórum sínum pappírs-doðrant mikinn, nýlegan en nokkuð lúðan. En svo nærfærinn var Nikulás í rannsókn sinni á honum, að hann útvegaði sér háskólamenntaðan mann til að dæma um það með sér, hvort doðrantinn væri ritaður á skinn eða pappír. Sagan er eflaust uppspuni og flugufótarlaus flækingur, en hún sýnir samt, hvílíka tröllatrú fólk hefir á gerhygli hans og glöggleik á fornum fræðum.

VI.

Mætti ég minnast á Sláturvísuna mína, svo nefndu? Mest vegna þess, að því hefir verið hreyft, að ég hafi verið nokkuð veikur í henni áður. Ég þarf ekki að hafa hana yfir, svo oft hefir hún verið út gefin, og af Nikulási nýskeð. Stökuskrattinn er fjórar hendingar, og tvær málsgreinar. Fyrri helmingur hennar minnist á sláturhúsið í Evrópu. Síðari helmingurinn grípur England út úr og segir sér í lagi frá, hverja hönd það leggur á starfið. Að því hefir verið fundið, að sláturverk hafi verið ið „ljótasta“ á Íslandi. Getur vel verið, en mér þykir ljótara að slátra mönnum en sauðum. Nafnið á verkinu er líklega ævagamalt. Er það ekki eitthvað í ætt við að slá til — rots? Ég veit það ekki og hefi engan til að segja mér það, nema Nikulás. Enskan heldur í orðið enn, næstum því eins stafsett og framborið og við gerum. Blöðin ensku nefna það „mikið slátur“, þegar stórt mannfall varð í stríðinu. Eða þau notuðu franskan bróður þess: butchery, sem þýðir það sama. Nikulás er argastur út af spaðinu, þó það komi Englandi ekkert við, aðeins Evrópu. Hefði hann verið eins vel að sér ger í fundvísi eins og framhleypni, hefði hann getað gert sér meiri „mat“ úr þessu, slíkan hug sem hann ber til Þjóðverja. Hann man líklega, á hvern hátt blöðin hérna sögðu, að þeir hefðu

aflað sér feitinnar, þegar þröngt varð um viðbitið hjá þeim í stríðinu. Úr því urðu „glósur“ og orðaskýringar, einmitt það sem Nikulás er drjúgastur í. Hann hefði getað kastað spaðhnútunni í Þjóðverja.

En í alvöru, þessar hendingar um Evrópu eru gerðar í líku skapi eins og því, sem einn af okkar eigin fulltrúum — N. W. Rowell — til nefndarfundarins í Genf nýafstaðna, er sagt að hafi komizt í, þegar hann hreytti úr sér: „Norðurálfustjórnvizkan hefir kostað Kanada fimmtíu þúsundir af drengjunum sínum, goldnum undir græna torfu.“ Þá kemur til hinn vísuhelmingurinn, um það hverja hönd England hafi í þessum bagga, úr því það var við niðurskurðinn statt. Ekki er það látið vera sá, sem grípur lambið og leiðir það að troginu, né hann sem heldur fótunum, eða hinn sem hnífnum bregður; því er ætlað það viðvikið, sem eitt var álitið að vera jafnvel prestinum lýtalaust í slíku verki, og að alþýðudómi, í þeirri sveit, sem ég ólst upp í á Íslandi, af því að það væri þó spor til að gera eitthvað gott úr óhjákvæmilegum forlögum, sem menn og skepnur væru staddar í. Myndi Þjóðverji hugsa Englandi ið afsakanlegasta í stríðinu? Ég hefi áður svarað því til, sem orð hefir á leikið, að kaupmennska og ágirnd hafi gert sér „mat“ úr stríðinu, t. d. þeir, sem sagt er að hafi sjöfaldað eigur sínar á þeim dögum, og að þá hafi atvinnuleysingjar haft gnægð að bíta og brenna. Í þessum hendingum hugsaði ég ekki lengra en það. En þeir, sem mest hafa hneykslazt á þessu, hafa sífellt haft öll augu á sláturkeppunum og ritað upp fyrirsagnir um sláturgerð, og það hafa konur sagt mér, sem til þess verks kunna vel, að matreiðslubók Nikulásar sé þar nákvæmust.

## VII.

Út af þessari vísu hafa menn verið beðnir að muna það, að ég væri brezkur þegn. Vitaskuld, mér hafa hlotnazt nokkur hlunnindi og skyldur innfæddra manna, þessi liðug þrjátíu ár, sem ég hefi haft landráð yfir nokkrum ekrum af jörð hér í Kanada. En ekki ætla ég, að neitt af því nái út fyrir þau takmörk, sem talin eru að vera vébönd þessa ríkishluta. Ég hygg ég hafi það svo vel skjalfest, með því sem nefnt er borgarabréf, og líka með eins konar leiðarbréfi brezks ræðismanns, að leikmanni geti tæplega annað skilizt, en að Bretaveldi hafi hvorki veg né vanda af mér, utan Kanada. Í það sé ég ekki

heldur. Ég gæti aldrei með sönnu sagt, að ég metnaðist af að vera til dæmis Íslendingur, eða brezkur þegn, sem sumir stagast á, að þeir séu „stoltir" af. Ég var ekki til ráða kvaddur um ið fyrra, og lög um ið síðara setti ég aldrei sjálfur. Ætti það fyrir mér að liggja að stíga út fyrir landsteina Kanada, héldi ég mér heldur ekki neinn háska búinn, þó ekki ætti ég neitt stórveldi að bakhjarli. Mér er nærri ánægja í tilfinningunni, sem fylgir því, að vita sig þá engan eiga að, nema mannúðina meðal vandalausra þjóða. Svo er líka fyrir að þakka, að henni má treysta, nú á tímum, þegar engar óspektir ganga, sé ferðalangurinn sjálfur fullvita og hrekkja- og hrokalaus, og eigi engri óvild að mæta sökum þjóðar sinnar. Og ég er svo heppinn, að í öðrum löndum mun enga gruna, að þau eigi neitt grátt að gjalda litlu þjóðinni, sem ég hefi lengst verið við kenndur.

## VIII.

Þrámælgi-brigzlið um Þjóðverja-dálætið er eins heimskt eins og það er eðlilegt úr þeirri átt, sem það er vant að koma. Til slíkra titla-toga hefði það nærri nægt að færast undan því að kalla England föðurland sitt, eða helzt móðurland, af því það féll nær enskunni, og ekki orðið af sér borið, ef einhver hefði til dæmis látið það í ljós, að hann kynni ekki að skammast sín fyrir þá tilviljun að hafa verið borinn og barnfæddur á Þýzkalandi, ef svo hefði staðið á. Og sjálfsagt var, að sá yrði nefndur Bretahatari, er ekki vildi gera viti sínu þá minnkun, að látast hafa lifað svo utan við allan skilning á samtíð sinni, að einskis hefði var orðið nema þess, að allt uppnám stríðsins væri einum manni eður einni þjóð að kenna, standandi hjá því sannindamerki, að þegar í öndverðu styrjaldarinnar skiptust svo að segja allar þjóðir heimsins, þær sem nokkurs máttu sín, í tvær fylkingar, svo jafnvígar, að varla mátti á milli sjá, og nokkrar hlupu milli höfuð-herja, úr og í. Reka sjálfan sig úr vitni um það, að ekki er enn friður fenginn, þó þessari einu þjóð sé algerlega á kné komið fyrir löngu, og að stríðshætta heimsins, með því áframhaldi, sem var á viðskiptum þjóðanna, væri söm og áður, þó að hver Þjóðverji, sem enn stendur uppi, yrði urðaður níu rastir fyrir neðan jörð. Geta má nærri, hver nafnbót þeim væri sjálfsögð, sem léti það í ljós, að uppleysing Bretaveldis þess, er við þekkjum nú, væri ekki öldungis út úr tilviljun, sem afleiðing stríðsins, þrátt fyrir það þó

hann segði slíkt ekki með þyngra hatri en því, sem þættist sjá fyrir, að brezku þjóðunum sjálfum myndi geta orðið sú breyting nokkuð örðug, ef illa tækist til, jafnvel öllum mannheimi, svo mjög sem hann er orðinn háður viðskiptaböndum við Breta, og sú illspá þyrfti ekki að vera runnin frá verri rót en þeirri, sem hefir gert sér grun um, hvernig logar undir í djúpunum um allan heim. Ef allsherjarfriður fæst, yrði það aðeins fyrir opinskáan alþýðuvilja. Til þess má hann ekki gleyma, hversu hann geldur stríðsins síðasta. Almenningur er svo skamm-minnugur, að hann gleymir því við hégómann í dag, hvers vegna honum hlekktist á í gær. Óþarfastar friðmálarolur eru þeir, sem sífellt æpa til alþýðu: Gleymdu, gleymdu — ýfðu stríðið ekki upp, það var svo sárt! Ekkert kemur styrjaldarvöldunum betur en almenna gleymskan. Þeir menn eru að reyna að vinna óvinsælt en þarft verk, sem lyfta vilja gyllingum og gleymsku af mesta böli mannanna.

## IX.

Á einum stað í svari sínu til mín hvetur Nikulás mjög til þess, að Íslendingar hér þvoi nú sínar landráða-hendur hreinar af mínum syndum, þó um seinan sé, með því móti að segja Englendingum til mín. Hafa má holl ráð, hvaðan sem þau koma, og margt hefir Nikulás talað meira út í hött. Úr því að íslenzku hermennirnir hafa reynzt svo aðgætnir og friðsamir, að þeim hefir ekki orðið tregnúið til að vonzkast við mig út af því að ég hafi niður-nítt þá, hvernig sem það mál hefir verið túlkað, mætti reyna Englendinginn á útleggingum Nikulásar, svo sem hann hefir nú til þeirra vandað.

## X.

Á öðrum stað í svari sínu er Nikulás að undrast yfir, að ég skuli ekki flýja héðan og leita þangað, sem mér líði betur. Hann er að skima eftir tveimur leiðum að þessari landhreinsun. En þó ég væri nú ekki ánægður með allt í heimahögum mínum hér, hefi ég hvergi haldið því fram, að allt yrði betra annars staðar. Svo veit ég ekki til, að ég hafi unnið nokkuð það ódæði, sem ég þurfti að fara landflótta fyrir, og sveitungar mínir flestir þola mig sæmilega. Annars er nú þessi athugasemd Nikulásar hrör-gömul húsgangssletta til þeirra manna,

sem ekki geta gullhamrað allt hér, þeim til geðs, sem mest vilja af öllu því láta. Ég skal nú svara henni að nokkru fyrir sjálfan mig, og kannske óbeinlínis fyrir aðra, sem eins er ástatt um. Það er léttara að sletta þessu en að leika sér að því, fyrir þann, sem eytt hefir öllum starfsárum sínum á einhverjum stað og á þar innistandandi allt það litla, sem hann hefir unnið að um ævina og ekki týnt niður handtökum við að hirða um. Fyrir mitt leyti veit ég ekki til, að ég skuldi Ameríku neitt nema það, sem hver góður drengur skuldar sjálfum sér, það að reynast íbúðarlandi sínu eins vel og hann hefir vit og orku á, hvar sem fer og flækist. Ég kom hingað til lands fulltíða maður. Ameríka kostaði engu til uppeldis míns, né þess litla þroska, sem ég náði. Hann á ég Íslandi einu að þakka, en mér sjálfsagt sjálfum, að hann varð ekki meiri en hann er. Hér hefi ég fullkomlega unnið fyrir mér með líkamlegu erfiði, geri það enn í dag, svo að ekki myndi stórkostlegur áhalli um kostnað og tekjuna af mér, yrði það sanngjarnlega metið. Ameríka átti ýmislegt arðvænlegt en ónotað, sökum mannfæðar. Hver starfandi hönd, sem við bættist, var hennar hagur. Hér í álfu hefi ég unnið eftir mætti, næstum hálfa öld, engin afrek gert, en ekki hefir hún á mér skaðazt enn. Ekki henni — en hinum, sem kjósa mig á brott, svara ég með sögunni af svarta þrælnum, sem eigandinn vildi verða af með, þegar hann var útslitinn, og fór svo fallega að því að bjóða honum þá frelsi, í laun fyrir langa og trúa þjónustu við sig og sína. Gamli Svartur margþakkaði boðið, en kvaðst þó ekki hafa hjarta til að þiggja það, því nú hefði húsbóndinn notað sér allt kjötið svo nærgætnislega, að hann væri manna maklegastur til að njóta mergsins úr beinunum. En Íslandi, foreldri mínu, ættingjum mínum, vandamönnum og vinum mínum skulda ég allt það skásta, sem í mér er. Öðrum ekki, svo ég finni til muna. En að sjálfsögðu geta þeir, sem eru aldir upp hér í landi, ekki sagt ið sama, nema með nokkurri breytingu.

Eitt er enn, sem í mig heldur hér; svo fjarstætt sem það sýnist, kann eitthvert gagn af mér að mega hafa, af hendingu. Slíkt kemur fyrir, óvænt eins og slysin. Til dæmis til skamms tíma síðan hefði ég fyrir svarið, að það ætti fyrir mér að liggja að vekja eftirtekt fólks á orða-fróðleik Nikulásar.

XI.

Of langt er þetta orðið, hugsar Heimskringla mér nú víst. Ég játa það og vorkenni henni. En svona þrætur eru þreytandi, verði ekkert lag til að létta þeim ögn upp. Það hafa andstæðingar mínir séð og skarað upp stíl sinn með ýmsum kjarnyrðum, til dæmis: villimönnum verri, skömm allra ærlegra manna, fúlmenni, illmenni, níðingur, og svo framvegis. Þeir urðu svo miklu skjótari en ég til að helga sér flest hressilegustu orðin í þeim andlegu álfum, að litlu var þar leift handa mér, til að kasta minni eigu á. Ég hafði því ekki önnur ráð til að halda uppi skemmtun en að víkka ögn út þrefbraut þessa, þar og hér. Það eykur ögn við útsýnið. En nú legg ég niður pennann og leysi mig af hólmi í bráð. [1921]

## Metnaðarmál.

I.

Það hefir verið í frásögur fært, að nálægt landnámstíðarlokum úti á Íslandi forðum hafi unglingspiltur úr Eyjafirði siglt til fundar við frændur sína í Noregi, sem þar þóttu höfðingjar og heldri menn. Þessir frændur hans tóku honum fálega í fyrstu; virtist hann bæði ófríður og afkárlegur og þótti nærri skömm að skyldleikanum. Landnámseðlið hafði sett sinn svip á hann. Við honum var þó tekið, en vísað til sætis hjá hornrekunum í höllinni. Hann var orðinn „koli“ eða *colonial*, ótiginn kvistur á ættarmeiðnum, eins og niðjar Englendinga enn í dag, sem vitja heimahagans utan úr hjálendunum. Á bænum þar sem Íslendingurinn bjó, var efnt til hófs mikils, að höfðingja sið. Í þá daga gengu berserkir um byggðir, brottar en heljarmenn, sem möttu það mestan drengskap að ala sig á yfirgangi, hafa af hverjum manni fé hans eða virðingar og bjóða að láta hnefana skipta. Einn slíkur gestur vitjaði veizlunnar, þegar hófið stóð sem hæst. Hann gekk fyrir hvern mann og um háborðið fyrst og spurði þann, sem fyrir sat, hvort hann þættist jafnsnjall sér. En enginn þorði að kannast við það öðruvísi en að anza því tvírætt, dytti honum eitthvert slíkt svar í hug. Röðina bar loks að Íslendingnum; hann spratt upp úr sæti sínu og svaraði, að ekki aðeins teldi hann sig jafnsnjallan, heldur langtum snjallari, því aldrei

mundi hann mæla sig við aula og illmenni; hljóp svo að þessum allra ofjarli og fór um hann höndum svo fast, að hinn varð því fegnastur að vísa sjálfum sér á dyr og forðast að koma inn aftur. Eftir það varð Íslendingurinn helzti gestur við háborðið, samkvæmt riddaraskap sinnar aldar. Hann hafði svarið sig í höfðingjaættir hennar, og enn glaðnar yfir íslenzkum sögulesara við að vita, að þessi „Glúma“ gleymdist ekki, og æskir ekki, að þessi þáttur væri annars efnis, eins og á stóð.

Þó er sú sagan fegurri, sem segir frá, að Íslendingar stóðu í erlendri sjávarfjöru og horfðu á íþróttamenn annars lands þreyta sund. Þar bar einn langt af öðrum, en ekki vissu Íslendingarnir, hver hann var. Sveitarforingi í íslenzka hópnum vék sér að félaga sínum, sem hann vissi vel sundfæran, og mæltist til, að hann varpaði sér í vatnið og byði þar byrginn þessum, sem bezt synti. Sá neitaði og kvað þann mann ekki myndi vera sitt meðfæri. Hinn svaraði honum því einu að ganga sjálfur á sundhólminn, og varast þannig það víti að eggja annan til þess, sem hann sjálfur ekki vogaði. Í leiknum beið hann þó lægri hlut, en svo litlu munaði, að ósigur hans varð samt sú frægðarför, sem er metnaður Íslendinga enn, mörgum öldum síðar, ekki sízt það, að hann lét sig engu varða, að sá, sem hann fór halloka fyrir, var alræmdasti íþróttamaður Norðurlanda og konungur Noregs. Íþróttin ein réð sinni tign og orðstír, og mannamunurinn þar sá, að eiga yfirhönd. Ósigur hans sjálfs varð Íslendinga frægð fram á þennan dag, sem *hann* hefir þá sízt grunað.

## II.

Að vísu er nú öldin önnur og umfangsmeiri, þegar margra landa lýðir leggja saman í sýningar á íþróttum sínum og afrekum til gagnkynna, ekki til gróða, eins og nú í New York. Þó svipar fyrrum og nú að ýmsu leyti saman enn. Líklega hafa Íslendingar orðið þar óvænt með, eins og Kjartan komst í sundraun sína í Noregi forðum, nema að á þá var skorað, og ekki er úrvænis, að það kunni að verða þakkarverð frægðarför, þegar fram líða stundir, þó aðrar þjóðir kunni að bera þar ýmislegt af okkur. Mér sýnist sjálfum, að ekki liggi langt frá, að allur sýningarkostnaðurinn sé borgaður fyrirfram nú þegar af Harding forseta. „By the Eternal!“ — svo ég viðhafi

það, sem blöðin segja, að sé forsetans eigin áherzluorð — By the Eternal! — eftir allt á undan gengið, gæti það verið „útlendingunum“ ábati stór, að hann tók sér í munn það, sem ýmsir hafa áður að sönnu sagt: Að flestir þeir menn verði fósturlandi sínu fánýtari, sem feðralandinu gleyma. Lítil líkindi eru til að þeir menn, sem fyrir íslenzku sýningunni standa, hafi slægzt til forystunnar. Meiri von, að þeir hefðu viljað víkja þeim vanda af sér, eins og Bolli sundleiknum í Noregi. Hvern veg sem fer, eiga þeir þökk skylda, að þeir gerðu það ekki. Hvað sem öðrum líður, munu flestir Íslendingar hafa þá spurn af Vilhjálmi Stefánssyni og Halldóri Hermannssyni, að ólíklegt er, að þeir vantreystu þeim fyrirfram til að vera vaxnir þessu máli. Lítil viðkynni, sem sá, sem hér leggur orð í belg, hefir haft af tveim-þrem hinna nefndarmannanna, veikja heldur ekki vonir hans um góða forstöðu. En slíkt er nú aðeins mælt fyrir sjálfan hann. Hitt er óvænlegra, hversu lítið við, íslenzk alþýða vestan hafs, höfum tekið eftir þessu, enn sem komið er, eða látið það af hendi rakna, sem þörf er á. Raunar var þó ekki til mikils fjár[1]) mælzt: fimmtán hundraða, eða þar um bil. Séum við að tölunni til 20 eða 30 þúsundir hér í Vesturálfu, sem að einhverju leyti erum við Ísland ættuð, og fimm manns á heimili, samkvæmt algengri ágizkun, gætu þau samt orðið mörg undanþegin, þó smáar yrðu upphæðir frá hinum, sem klofið geta. Væri líka ekki sú venja bezt, að fjöldinn styddi með fáum centum hver það málið, sem nærri öllum okkur kemur saman um, sem er: Sæmd Íslands í hvívetna. Eðlilega eiga fjárbeiðslur sérflokkanna okkar tafl við manngreinarálit og samvizkusakir, en þetta mál er ekki þess kyns, svo allir gætu tekið því með góðu geði.

Hafi liðveizlu-bón nefndarinnar verið of tómlega tekið af almenningi í fyrstu, er okkur þó ýmislegt til afsökunar. Nokkru kann þar að valda, hve síðla málið var borið upp, og svo lengi lagt í eitthvert þagnargildi blaðanna. Ýmsir geta líklega sagt fyrir sig sama og ég, ég tók varla eftir þessu, fyrr en blöðin fóru að viðra það af alvöru. Eðlilegt var, að aðal-sýningarnefndin, sem bjó í New York, sneri sér til Íslendinga, sem þar áttu heima, og hugulsamt að vilja okkur með sér. En geta mætti

1) Hdr.: fé.

líka til, að þeir hafi hugsað sig tvisvar um, áður en þeir tóku þann vanda á sig, svo fámennir sem þeir eru þar.

Sú fluga mun í fárra munni, sem satt vilja vita, að sýningin sé bara Bandaríkja-auglýsing, og ógætilegt að amast við henni fyrir þá grillu. Það væri ástæðulaus kali út af landamerkjum, því þó Íslendingar þeir, sem í Bandaríkjunum búa, hafi staðið hingað til utan við Þjóðræknisfélag okkar Kanada-Íslendinga nokkru tómlátara en vænzt var, væri lítilmennska að láta þá gjalda þess, þegar þeir virðast vinna að virðingarmáli okkar allra, þó á öðru sviði sé. Öllum er augljóst, að fjárklípur alþýðu hamla góðum undirtektum að mestum mun. Þær hafa víst sjaldan verri verið, síðan byggðir hófust hér, hlutfallslega við þarfir manna. En til slíks hefir lengi verið stofnað, ásett eða óviljandi. En þrefalt yrði þó tjón okkar Vestmanna, ef við létum líka rausn okkar og framúrsjón. Það kunna að virðast mótmæli hjá mér að nefna rausn en ætlast á smá framlög, en tíeyringur gefinn af einum er stundum stærri rausn en tíu krónur frá öðrum. Snjallorður Bandaríkjamaður hefir einhvers staðar ritað svo: „Ef þú gefur, gefðu eins og konungur, þó það séu þín síðustu fimmtíu cent.“ Ekki veit ég, hvernig hann hefir hugsað sér að konungar gæfu, en gizkað get ég á, að hann hafi haldið, að þeir gerðu það fljótt og umkvartana- og eftirsjárlaust. Enn er eitt, sem úr hefir dregið, að almenningur sinnti áskoruninni, sérstaklega í sveitum úti: strjálbyggð og annatími eru þar þröskuldur ólíkt örðugri en í borgunum.

— — —

Einhver vinur þessarar íslenzku sýningar gat þess í blaði, að hann tæki ekki á móti samskotum lengur en fram á sýningarlok. En, mun það ekki misráðið? Er ekki líklegt, að einhverjir eigi enn eftir að vakna við, svo seint sem þetta var upp borið, og sjái eftir að geta ekki lagt sinn litla pening í þennan sjóð? Einkum, yrði íslenzka sýningin til sóma. Væri það ofætlun, að forstöðumenn hennar gætu á einhvern hátt fleytt kostnaðinum í nokkrar vikur enn, og leitað svo lags, ef úr rættist, til að firra sjálfa sig fjártjóni eða hættunum við hálfgert verk? [1923]

## Mishermismaðurinn.

„Jafnvel Matth. Jochumsson áleit Stephan G. ekki tilfinningaskáld. Ég er þar á öðru máli. Ef klámstakan, sem hann sendi mér endur fyrir löngu, var ekki kveðin af innilegri, djúpri tilfinningu, þá kann ég ekki tilfinning að meta.“

Jón Einarsson, í Jólablaði Lögbergs.

Þessi saga einhvers Jóns Einarssonar um klámstökuna er einfaldur uppspuni.

Er það annars af því, að undirvitund hans hafi órað í það, að í miðjum klíðum greinar sinnar „Á víð og dreif“, hefir hann yfir ina alkunnu vísu Bólu-Hjálmars:

„Siglir einn úr Satans vör.
Sveinn hinn gæfurýri.
Fyrir lekan kjafta-knör
krækir lyga-stýri.“

Sé svo, ræður hann því sjálfur auðvitað, hvern veg hann segir upp sinn sjálfdóm, en þá stöku tek ég ekki mér í munn um þessa litlu ónákvæmni Jóns við sannleikann. Sú er venjan við svona lagaðar sögur að skora á höfunda þeirra að sanna sitt mál, eða vera ósannindamenn ella.

Ég veit, að Jón orkaði ekki að bera það blak af sér með sannindum, svo ekki skal þeirri aðferð beitt.

En vilt þú, Heimskringla, gera svo vel að skila frá mér til almennings, sem ekki veit, nema að Jón segi satt: Að ég hafi aldrei klámkvæði kveðið og ekki neitt erindi um neinn rægikarl, sem heitið hefir Jón Einarsson; og eiga það svo undir skafti og blaði, hvorum okkar verður betur trúað.

Mig minnir, að það værir þú, Heimskringla, fremur en Lögberg, sem hjálpaði einhverjum Jóni Einarssyni „endur fyrir löngu“ til að kingja niður, þegar ein ritsmíð hans stóð illa í honum.

Láttu þennan Jón Einarsson njóta nafns. [1923]

## Þakkargerð.

I.

Bráðlega verður nú fyrsti árgangur á enda af þessum hnjóð um stefin mín: „Á rústum hruninna halla.“ Mér mun því mál

að kveðja fólkið og þakka fyrir viðtökurnar, fyrir næsta árs útgáfuna. Lárus hefir þegar lofað sínu liðsinni fyrirfram. Letin mín, virðingarleysi mitt fyrir kennifeðrunum og aðrar annir hafa valdið, að ég vanrækti þetta, svona fram á síðasta hlunn. Hitt þó ekki síður, að ég vildi varla glata þeirri gæsinni, sem verpti gulleggginu, nefnilega gamni mínu af þessum vikulegu vindmyllum. Ánægja mín var ekki of mikil samt, þó ekki væri því settur allur stóll í dyr, sem bara er hæft til að brosa að. Ef einhverjum virðist, að ég sé nú einkum að verja mínar eigin hendur fyrir óhreinkunni af þessu kviðlings-korni, þá er það samt ekki aðalerindið. Það hefði ég getað látið lengur líða um dal og hól. Annað er til, sem að mér kallar, sem sé það, að ég hefi aldrei getað látið það ganga úr grun mínum, að það sé ekki einungis ég og þetta litla ljóð mitt, sem allt þetta stagl stefndi á — mér þykir stundum sem verið sé að seilast yfir öxl mína til ritstjóra Þjóðræknistímaritsins, en það er mér þægðarlaust. „Öllu veldur sá, sem upphafinu veldur," og það er ég, og því ætti þar að falla skömm sem skyldi. Í þetta sinn tel ég ekki upp allt, sem tortryggni mína vakti, aðeins segi sem er, að mér er óskiljanleg öll þessi árslanga upptugga, ef annað bjó ekki undir en ég og þetta kvæði mitt, ekki meiri garpar en við erum til ills eða góðs, í því sem þessum mærðarbelgjum mislíkar. Slík ofnenning er nærri ótrúleg, ef ekki lá meira við. Mig minnir, að sá sem fyrstur hóf deiluna um kvæði mitt, léti þá í þriðja sinni móta fyrir kettinum í sekknum, sem liti malandi til Tímaritsins og ritstjóra þess. Hafði ekki sami höfundur tvisvar áður lagt það til, að ritið þyrfti að prenta, þar sem það yrði gert lýtaminna, og þó hægt væri úr hlaði riðið, látið örla á óánægju með þann kaflann, sem ritstjórinn hafði sjálfur samið? Þrátt fyrir það að sú greinargerð er að líkindum það heildarlegasta og óhlutdrægasta, sem enn hefir verið ritað um tilraunir Íslendinga hér í álfu að halda í þjóðerni sitt. Bæði munu ýmis skilríki bera með sér, að svo sé, og minni þeirra manna, sem enn standa uppi og átt hafa samtíð með þeim málefnum og hafa veitt þeim eftirtekt. Líka virðist mér, að Jón í jólaboðskap Lögbergs skeri glöggt upp úr, að af mætti verða með ritstjórann. Þannig fannst mér þá upphaf og endi árgangsins, og getur nú hver sem vill lesið milli línanna og láð mér ímyndun mína.

II.

Nú mun ég reyna að sýna fram á, hvert ódæði ritstjórinn og ég höfum unnið — þeim mönnum, sem nokkuð láta sig þessa þrætu varða — með því að tylla þessu kvæði mínu í Tímaritið. Fyrst skal það tekið fram, að engum þeirra, sem yfir kvæðinu hafa klagað, hefir enn auðnazt að gera grein fyrir göllum þess frá gagnrýnismiði, og var það þó víst vorkunnarlaust, þeim sem nokkru orkaði í þá átt, en varla af þeim að vonast til. Tveir þeirra báru sjálfum sér vitni með að minnast á „Vestigia“ eftir kanadiska skáldið Bliss Carman, þýtt af Jóni Runólfssyni. Annar þeirra kvaðst ekki komast þar upp né niður. Í hinum hnaut, en hikaði við að segja svart, því heyrt hafði hann, að kvæðið væri haft yfir af börnum í lýðskólum hér í landi. En kvæðið er fagurt frá því sjónarmiði, sem það er kveðið í.

III.

Upp aftur og aftur tekna jórtrið um, að kvæði mín séu svo myrk í máli, að skýrir menn skilji þau ekki, eru þó ekki af öllum þeim, er að finna, höfð um þetta kvæði mitt sérstaklega, en aðeins haldið uppi sem allsherjar dómi. Sumir jafnvel telja það moldviðrað með minna móti, svo ekki er það aðalsökin. Annars er sá söngur svo gamalt lag, að mér ríður á litlu að rifja það upp. Þó skal við því gangast, að sums staðar í kvæðum mínum er það líklega mér að kenna, ef fólk rekur skilning sinn í vörðurnar. Fyrir það þræti ég við engan, sízt þegar á ekkert sérstakt er bent. Sjálfum mér hafa stundum fundizt annarra orð óljós í fyrstu, en aldrei haft heimsku til að kveða neinn dóm upp um það, sem ég hafði ekki gert mér grein fyrir óðara í bili. Kennt sjálfum mér um þangað til. Mér hefir reynzt mörg bók og margt kvæðið, um efni, sem mér hafði aldrei áður í hug né hjarta komið, eins og ókunnugt land, sem glöggvast æ betur og betur við yfirferðir og virðist ef til vill fagurt að lokum. Oft hefir mér orðið það drýgst og fengmest, sem nokkur fyrirhöfn fylgdi. Það var samvinna mín við höfundinn, sem ég átti það að þakka. Mér hefir þráfaldlega gagnazt það verr, sem ég gat gleypt í mig. En svo er sinn með hverju marki brenndur og sízt að efa, að þessir höfundar lýsi skilningsleysi sínu rétt, því „hver er sínum hnútum kunnugastur.“ Aðeins er eitt, sem gerir mér kvartanir þeirra ögn grunsamar með köflum. Ég hefi oft sent þeim

í blöðunum nokkrar línur í hendingum og látið þar í ljós, að blaðadómar þeirra væru bull. Það hefir skilningur þeirra öðara gripið og þykkzt við, sem von var, og svo æfir hafa nokkrir orðið, að þeir hafa tekið það að sér, sem öðrum var ætlað. Svo glöggir voru þeir á flokksmarkið sitt líka.

IV.

Af því, sem fingur verða á festir, eru aðalafbrotin við að taka „Á rústum hruninna halla“ í Tímaritið sögð að vera þessi: Að kvæðið sé ekki íslenzkt og eigi þar því ekki heima. — Að það veki óvild upp, því einhverjum þóknist það ekki. — Að enginn Íslendingur, svo að sá viti til, sem að er að finna, hafi orðið fyrir því, sem yngri sonur konunnar, sem um er kveðið, varð fyrir. — Að hendingin: „Logið, rangt og tapað mál“ lúti að málstað Samherja einna. — Að kvæðið særi einhverja.

Vilja þeir, sem nenna, líta yfir kvæðið með mér og þessar aðfinnslur?

„Ekki íslenzkt.“

Óneitanlega er það kveðið út af efni, sem Íslendingar tóku þátt í, er á íslenzku máli og kveðið af Íslendingi. Eru önnur takmörk setjanleg fyrir upptöku í Tímaritið en þau, að það verði að vera hvað sem sæmilegast býðst að efni og frágangi, og sem Íslendinga varðar um og jafnvel menn yfirleitt?

Væri svo, væri gaman, að aðfinnslumaður gerði glöggva grein fyrir þeim véböndum, sem ekkert mætti yfirstíga af því, sem ætti að vera utan við þau, því þá sæist, hve margt hitt væri, sem útundan yrði.

„Vekur upp óvild.“

Að Tímaritið flytji aðeins það, sem allir fallast á, er víst ókleift. Jafnvel þó það ráð væri tekið að gera það að slíku ónýtis-riti, myndu einhverjir verða óánægðir. Setjum svo, að í stað kvæðis míns hefðu í Tímaritinu staðið ritdómar eftir t. d. Lárus og „Sveinstaula“, myndu þeir sem gegn þeim hafa ritað ekki hafa orðið ánægðir — og þeir eru víst jafnmargir enn — en þeim L. og S. sjálfum ekki fundizt, að þá hefði verið settur neinn köttur í bjarnarból. Enginn ágreiningur er hættulegur annar en óvild röksemdaleysunnar í garð einstaklingsins, sem ekki er henni samdóma.

„Enginn Íslendingur varð fyrir því, svo ég viti.“

Að engir Íslendingar hafi orðið illa til reika sökum sann-

færingar sinnar, innan fangelsis á stríðsárunum, er fáránleg athugasemd um það, sem ætlazt er til, að ofurlítið sé skáldskap skylt — jafnvel þó hún sönn væri. Það gat átt sér stað, og það nægir, jafnvel þó heimtað sé ið hlutsjáanlega af skáldskapnum. Áður hefi ég getið þess, að kvæðið er að efni til ekki bundið við Íslendinga eina. Sá sem þessa viðbáru reisti við „vit“ sitt, mun margt hafa frá stríðinu mikla sagt, áður en hann varð afblaðaður ritstjóri, ef sá er, sem ég ætla. Aldrei markaði þó fyrir því, að hann „vissi“ út fyrir skolprennur þröngsýnna blaða í bæ hans, þeirra er með stríðinu stóðu. Allt, sem hann „vissi“ þá, hafði hann eftir þeim. Ég efa, að hann sé nokkurs vísari. Ekki þá við að búast, að hann hafi séð greinarstúf, sem stóð í einu blaði þessa fylkis — og okkar beggja. Það var meðan stríðið stóð sem hæst. Efni greinarinnar var aðbúð sú, sem svona fangar áttu að sæta, þar sem þeir voru geymdir, innan okkar fylkis. Sú vist var ekkert glæsileg sögð og heitið á lýði til lagfærslu. Mig undraði, að innlent blað þorði að birta þá aðfinnslu, væri enginn fótur fyrir henni, slík sem aðstaða blaðanna þá var. Í fangelsum á Bretlandi skiptu herskirringar þúsundum. Þar var félag stofnað þeim til kjarabóta. Bók um það starf er nýlega útkomin á Englandi, eftir einn forgöngumann félagsins, enskan prest. Eitt ið bezta blað Bandaríkjanna telur hana öfgalausa. Ein bending í þessa átt sýndist mér þó líklegust. Hún er sú, að fangavistin var fremur til þess sett, að sem fæstir hlypist undan herskyldunni, heldur en að hún væri hegning fyrir glæp. Það sannast með því, að hvenær sem fanginn „sneri sér og trúði“, kaus fremur vígvöllinn en vistina, var hann látinn laus í herinn. Var þá nokkurt „vit“ í að láta hann baða í rósum í dýflissunni?

„Að hendingin: „Logið, rangt og tapað mál“ sé um Breta sérstaklega.“

Eins og áður hefir verið fram tekið, á kvæðið ekki við einstakar þjóðir né menn. Andinn í því er stef úr stríðsdrápu, sem kveðin hefir verið um flest lönd. Aðfinnsla þessi er því átyllulaus affærsla, gerð af andúð eða einfeldni, meinloka vitleysunnar eða viljans til að villa um skilning.

Hugsunarstefna konunnar í kvæðinu getur átt heima hvar í veröldinni sem vill, eins og nú er ástatt, og henni er hvergi nafn gefið né við nokkurn stað bundin. Af því leiðir, að sú, sem blés áheyrandanum í brjóst slíkri hending, gæti eins vel

verið þýzk eða íslenzk eins og ensk og átt við sína heimaþjóð. Til dæmis myndi sá, sem þessa athugun átti og hans lið, sízt mæla móti því, að Þjóðverjar hafi barizt fyrir „lognu, röngu og töpuðu máli“. Satt sagður er munurinn milli mín og hans sá, að ég hygg, að fleirum hafi farið eins, sem að stríðinu stóðu. En kvæðið sjálft segir hvorki af né á, hvaða sérstakri þjóð þetta komi við.

„Að kvæðið særi.“

Því verður svarað með spurningunni: Hverja? Í kvæðinu eru viðhorfin við stríðinu fjögur. Bóndi konunnar, sem fer til vígvallar vegna skyldunnar, því hann er hermaður, en er því ófeginn, af því að hann veit, hvað stríð er í raun og veru. Þar næst eldri sonurinn, hugsjónamaðurinn, sem trúir því með móður sinni þá, „að nú sé sig að hreinsa heimur hjartablóði sínu með,“ og leggur því upp með ákafa til slíks góðverks. Þá er yngri sonurinn, ragmennið að almenningsdómi, sem glatar fyrr ást móður sinnar og gengur í fangelsi en að láta eggjast út í stríðið. Svo er konan sjálf. Í byrjun er hún svo hugsjóna-hrifin af herópinu, sem alls staðar er æpt, um „stríð til að fyrirbyggja framtíðar-stríð“ — The war to end war —, og um heim, sem verði hetjum-hæfur dvalarstaður — A world fit for heroes to live in — að því loknu, að hún næstum leggur fæð á þann soninn, sem var augasteinninn hennar áður, af því að hann brást von hennar um að leggja sig líka fram. Kvæðið gerir ekki upp á milli þessara stefna, aðeins segir frá, og leyfir svo lesaranum að gera það. Hver er særður? Er það hann, sem skyldunni fylgdi? Er það sá, sem hugsjón sinni hlýddi? Er það ragmennið, sem síðar í kvæðinu fær færi á að segja sína sögu? — Hver af þeim — eða þeirra — er særður? Og með hverju móti?

Þá er niðurlagið. Konan hefir lifað af „stríðið fyrir framtíðarfriðinn“, misst þar mann sinn og soninn, sem í stríðið fór. Enn drottnar ófriður, heimurinn sífelld Hjaðningavíg á öllum sviðum, hörmungar mannanna verri en þær voru. „Við stöndum nú andspænis vaxandi óánægju vitkaðrar alþýðu“ — We face the growing discontent of a disillusioned people — er haft eftir Buckmaster lávarði. Hún er komin í þann hóp. Trú hennar á tilgang stríðsins var sjónhverfing, eins og var allra stríðsþjóðanna, þjóðanna, sem við fyrsta færi veltu úr völdum öllum þeim mönnum, sem voru mest áberandi merkisberar

stríðsins; ekki í von um viðréttingu, heldur í hefndarskyni, settu þær víða í sess þeirra minni menn en við voru áður og flokka, sem þær vissu, að voru kyrrstöðuflokkar. Þar sáu þær eina vissa veginn til að hegna því, sem fyrir var. Flokkurinn, sem þykist sjá, hvar breyta megi til betra, var of fámennur enn til að ráða niðurlögum þess, sem til vandræðanna hafði stýrt í þetta sinn. En á þennan hátt varð hjá því komizt, sem almenningur vildi sízt gera, og það var að samþykkja ið skeða.

Myndi nokkur, með réttu, geta vítt hending þessa, nú þessa stundina, væri hún lögð í munn grískrar móður eða rúrhéraðskrar, sem stæði í sömu sporum eins og sú, sem kvæðið segir frá? Sennilegast engri konu og móður, sem hugsað getur fleira en hégóma, væri slíkt láandi.

## V.

Og að lokum, þið ávítendur mínir, og viðvíkjandi drengnum, sem í fangelsið fór fyrr en stríðið: Er nú ekki öll þessi andúð ykkar gegn kvæðinu mínu eins konar „ósjálfráð skrift“ ykkar innri vitundar, sem er þess vör, að þrátt fyrir allan herblástur hefir siðferðishetjan ætíð orðið sannasta sigurhetjan? Slíkt innræti myndi ykkur þó nokkur mannsbót, jafnvel þó þið sværuð fyrir það, þar sem Kaífas kynni að heyra til.

## VI.

Árum áður en stríðið skall á hafði einhver spaugsamur æringi, sem athugað hafði, hversu vitfirringahælum fjölgaði í heimi vorum, spáð því, að ef eins héldi áfram, myndu þeir, sem vitstola færu, verða mestur hluti manna, ráða lögum og lofum og flæma þá fáu í fangelsi, sem fullu viti héldu. Engan hefði grunað þá, að sú kalsa-spá ætti stuttan aldur, þar til eftir gengi. Hún rættist að nokkru við stríðið, þegar þeir, sem berserksgang höfðu, ráku friðsemismennina í fangelsi eða herinn.

## VII.

Þá er nú því lokið í bráð að stikla á þeim steinum, sem nokkurt efni er í og að kvæðinu mínu hefir verið kastað. Enginn þarf að ímynda sér, að það hafi angrað mig eða að sú hríð hafi staðið mér fyrir svefni. Þvert á móti. Ég er þeim, sem veittu mér þá eftirför, þakklátur fyrir fylgd af fremsta megni.

í einlægni að segja: Ég hefi alla tíð óttazt, að fremur lítið myndi lýsa af mér. Ég varð feginn þessum fylgihnöttum, sem að mér hafa dregizt samkvæmt lögmáli andófsins, sumir stöðugir í nærri hálfan mannsaldur, og eru nú líklega orðnir svo fastir í rásinni, að ég aldrei þurfi að kvíða, að þeir sortni upp út í ósýnið, meðan ég er uppi. Marga kvöldskemmtun hefi ég haft af þeim, jafnvel reikistjörnunum, sem aðeins sáust í eitt skipti og hurfu svo. Þó veit ég, að aldrei mun ég ganga þeirra brautir.

Og þá eruð þið, sem svari mínu hafið tekið, og þið, sem hafið sent mér bækur og blöð og hlýjar kveðjur og bréf að undanförnu, og um næstliðnar hátíðir — ykkur þakka ég alúð ykkar líka, alveg eins einlæglega, en með glaðara geði. Ykkur hefði ég átt að þakka í bréfi en ekki í blaði, en satt að segja, ég veit ekki nöfn ykkar sumra, né hvar þið eruð niðurkomnir. Suma get ég síðar hitt, en þetta gerir þó nokkurn jöfnuð í bráðina þannig, að það ber ykkur vott um, að mér hafa borizt í hendur sendingarnar, óskirnar og orðin ykkar um mig.

## VIII.

Svo má nú Lárus setjast á seiðhjall næsta árgangs síns um mig, með útbreiddan faðminn, eins og Móses á steininum á hæðinni forðum, meðan Ísraelsmenn börðust við Amalekítana, og ef armar hans síga af áreynslunni, þá hlaupa þeir sinn undir hvorn handlegg, „Sveinstauli“ og Jón Einarsson, eins og þeir Aron og Húr! [1923]

# Viðbætir I.

## Nokkur bréf til Baldurs Sveinssonar.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 12. marz 1924.

Baldur minn góður. Allt á ég þér óþakkað, og nú síðast grein þína um mig í „Iðunni“ — en ég var yfir það ánægður með hana, og hafðu sæll gert, grein þín var svo fallega hlý og innileg, eins og spak-blíða sumarkveldanna sumra hérna í Alberta, þegar bezt viðrar.

Ekki til að afsaka trassaskap minn, að senda hvorki þér né öðrum línu fyrr, heldur til að segja söguna eins og hún gekk, ætla ég að hlaupa yfir nokkur atriði. Allt næstliðið haust og fram að jólum stóðu öll járn annríkis á mér, útiannir með meira móti og ýmsar skriftir, afleiðingar af útkomu „Andvakna“, þar á meðal ein prófförk, svo ég var löngum latur og lúinn, en ætlaði að taka til óspillra málanna upp úr hátíðunum, hafði þá komið öðru svo frá, að mér yrði hægra um vik. En oft verða athafnir mínar ekki annað en ásetningurinn, og svo fór nú. Rétt upp úr nýári datt ég, við útivinnu, eins og ég hefi oft áður látið mig hafa, mér að meinalausu, en til breytingar á því frásöguleysi braut ég nú vinstri handlegg fram við ölnlið, þann „njólalegginn“, sem mergjaðri er. „Axarskaftið söng í sundur, sem að rafti líkast var,“ kvað íslenzkur hagyrðingur forðum. Minn leggur var nú ekki „raftur“ heldur rengla, en hann „söng í sundur“ allt að einu fyrir það. Þetta varð orsök þess, að ég hefi verið óvígur á þeirri loppu síðan, og enn er hún staur, en verður bráðum fær til barsmíða eins og áður, trúi ég! En, þetta ruglaði alla mína reikninga um „skuldalúkningar“, því þó „skriffinnskuhöndin“ sjálf væri heil, gerðu læknarnir þá vinstri að steinaldar-manns handlegg, með steypustokk frá knúum upp að ölnboga, svo sverum og þungum, að helzt var hvergi hægt að

hafa hann við borð eða í stól, og af því hafa nú allar mínar bréfa-áætlanir þrjá mánuði yfir!

„Iðunni“ náði ég nú ekki í, fyrr en um miðjan fyrra mánuð, þó ég vissi vel, að ég væri þar í engum „gapastokk“ hjá þér og dr. Ágúst.

„Andvökur“ komust út, eins og ætlað var, en nokkru mismæla-meiri en ég hefði kosið. Mörg eru þau víst mér að kenna, en aðstaða mín var örðug. Handritið gert á hlaupum. Stundum lúinn eða lasinn. Var því verra en ég get skást. Til einskis að flýja með yfirlestur. Sést verst yfir misritanir hjá sjálfum mér, einkum á því, sem ég hálf-kann. Einhverja eina prófórk las ég, sem mér var send frá Winnipeg, jafnóðum og hún losnaði. Var beðinn að hraða mér, og var ef til vill of hlýðinn. Þetta hlóðst að mér, þegar sumarannir stóðu sem hæst. Leiðrétti eftir minni mínu, aðeins. Pappír svo magur í „beinagrindinni“, sem mér var send, að ill-lesandi var sums staðar — og ég hafði aldrei á ævi minni fjallað um prófórk fyrr, né séð aðra gera það. Engin von að vel færi. Hefði átt að vera verra en varð, eins og á *mér* stóð. Kostnaðarmenn vildu sem bezt gera. En, það kemur ekki fram fyrr en á dómsdegi, hvor á hverja syndina fyrir sig, prentarinn eða ég, og þangað til er bezt að kenna mér þær.

Í fyrradag, eða svo, stakk ég í póstinn kverum mínum til þín, með þeim leiðréttingum, sem ég hefi tekið eftir, að helzt þyrfti við. Tvær hafa þó kannske skotizt hjá: Í IV. 35. bls. 10. línu að ofan „hálf“, fyrir *hálft,* og í V. bls. 163, 21. línu „Hljóðyn“, fyrir *„Hlóðyn“.* Eitt kvæði, stutt, hefir tvíprentazt — er í báðum heftum. — Afsökun: Góð vísa aldrei of oft kveðin!

Þá hefi ég nú leyst ofan of þessari skjóðunni!

Sumarið síðastliðna var gróðursælast allra, sem áður hafa komið yfir Alberta, síðan henni var rænt frá Indíánum. Haustið eitt ið allra bezta í landnámsmanna-minnum. Veturinn, fram að deginum í dag, einn mildasti, sem tíðarfar hér getur gert. Hagur bænda hér hér um bil svona: Flestir geta „bölvað sér upp á“ að eiga ekki í vasanum nema eitt „túmark“, eins og Gröndal lét Tyrkjasoldán gera, þegar Austurríkiskeisari ætlaði að „drífa þar upp lán“. En við erum ekki í þeim helmingi heims, sem nú gengur hungurmorða. Eins og blessaður gamli pokapresturinn okkar sagði: „Við höngum, við höng-

um, . . . þangað til okkur verður kastað í ina himnesku ruslakistu.“ Enginn hér nærlendis líður skort, en margir halda ekki við og í borgunum og sumum byggðum Kanada á víst margur maður bágt. Allt, sem að þarf að fá, með ránverði. Allar búsafurðir í lægsta verði. Skattar og tollar margfaldaðir. Ríkið og einstaklingar í botnlausum skuldum. Nokkrir milljónerar á margföldunar-töflunni, þeirri meiri. Slíkt er ekki einsdæmi, heldur veraldarsaga vorra tíma. Og þessi vandkvæði *ekki* vonlaus. Auk þess, að öll él birtir einhvern tíma, hefir almenningur aldrei kennt eins til og nú undan fyrirkomulaginu, sem er, og reynt að hugsa um sína hagi, gluggað út í að taka ýmislegt annað upp, ráðlegt og óráðlegt, og verði áframhald á því, dettur mannheimur loks ofan á eitthvað skárra, nema inir „Sjöunda-dags heilögu“ steypi yfir hann dómsdegi áður, svo hann hafi ekki tíma til að átta sig. Það yrði þá „sprengikúlan, köstuð undir örkina“, sem Ibsen gat um, og „snöggur dauði betri en aumt líf,“ eins og spáð hefir verið, þó ég búist við, að öðruvísi fari!

Ótal sendi ég orðin hlý
Inn að ranni þínum,
Væri þér nokkur akkur í
Óskum og vonum mínum.

Bið kærl. að heilsa, húsi þínu og „Víkinni“.

Vinsamlega Stephan G.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 27. jan. 1925.

Góðvinur, Baldur minn. — Þökk fyrir bréfið frá þér, dags. 19. nóv. f. á., og mér þætti gott í fréttum, ef nýja árið allt færi vel með þig og þína! Og þegar Siggi þinn verður svo aldraður, að hann skilur heimsku gamalla manna, bið ég þig að skila þessu til hans:

Meira skal ég meta það
Mörgum lengri fregnum,
Ef þú, Siggi, saknar að
Sjá mig hverfa af „veggnum“.

Nei, ekki hafði ég séð grein dr. Guðm., fyrr en bréf þitt barst mér, en vel má vera, að þú hafir sent hana áður, en

það skeyti týnzt á leiðinni. Þú gazt um það í bréfi frá þér, að þú ætlaðir það, en þá var greinin ókomin út. Ég þakka Guðm. og þér. Greinin var mér að skapi og ég vissi fyrir, að svo myndi verða, þar sem hann átti hlut að. Eftir langan efa og umhugsun hallast ég nú helzt að því, að sé nokkur slægur í höfundi, eigi allt eftir hann, sem ekki er beinn leirburður, útgáfurétt á sér í eitt skipti, fyrst „enginn veit, að hverju barni gagn má verða". Fleira en list og skáldskapur, strangast tekið, má ekki missast, ef til vill; jafnvel lítils virði í bráð getur orðið þáttur í skilningi á ævisögu og menningarsögu síðar, og íslenzkur „kveðskapur" varð til þess, fyrr og síðar, þar sem annars væri ófyllt skarð, jafnvel sumt, sem nefnt er skammavísur. Því dettur listamanni í hug að marka Agli þann minnisvarða, að hann ristir Eiríki jarli níð. Því geta skáld eins og Matthías og dr. Jón dáðst að „Varla má þér, vesalt hross", og „Hver las?", hjá Jóni gamla Þorlákssyni, þó Jóni Sigurðssyni væri fremur til lýta lagt að hafa hirt heldur um of. Jafnvel vísa Hjálmars: „Ólafur mér í augum vex", átti og rétt á sér. Það er mér kunnugt. Þó var Ólafur sá vænn maður og vinsæll, langt yfir Hjálmar fram. Ólafur annað hvort sigaði 6 hundum eða hastaði ekki á þá, þegar þeir ruku í hest Hjálmars, svo við slysi lá, en hann reið meinlaust um hlaðið í Réttarholti. Vísan varð héraðsfleyg og um leið, að viðsjált verk væri það að hundbeita hest undir hrumum reiðmanni, jafnvel þó góðmenni yrði það á. Vísan varð meira en „skammavísa", hún varð til varnaðar í samvizkum manna, betur en allgóður sálmur, enda eru „skammavísur" og sumir andheitir sálmar náskylt!

Ég varð hálf-hissa á þessum „séra Sveini" í „Eimreiðinni", þar sem hann minntist á „Andvökur", ekki *því,* að honum fannst, að þar kenndi „hrasls", — o-nei, það er nú sjálfsagt svo, — heldur á hinu, hverjar ívitnanir hann valdi sér til að sanna það. Ég bjóst við, að hann fyndi eitthvað vítaverðara, og fannst hann ekki flug-næmur. En, jæja þá! hann hefir líklega af hlífð gengið fram hjá að geta ins allra versta, og yfir höfuð er grein hans hlýleg, þó ekki sé hún skilningsskörp.

En, meðal annars, er „Iðunn" útaf-dauð? Var salan á henni þetta, sem oft kemur fyrir blöð og tímarit: eins konar fjármála-nábjargir? Ég hálf-sé eftir Magnúsi frá ritstjórn tíma-

rits, mér virtist honum það vel hæfa. Það er sérstakur hæfileiki, sem til þess þarf að ganga þar á milli manna og stefna svo að flestum finnist, að öllum sé þó unnt nokkurs sannmælis, og andstæðum ályktunum ekki misboðið af ásettu ráði eða skilningsleysi.

Hvað mig áhrærir, vissi ég fyrirfram, á hverju ég mátti eiga von, t. d. út af „Skráveifum“, sem sé óánægju jafnvel sumra, sem vildu mér vel, fundizt ég gera sjálfum mér óleik með þeim. Það var hvorki í hefndarskyni né fljótfærni, að ég lét þær fljóta með. Ég hafði marg-hugsað málið frá ýmsum hliðum. Samt réð ég svona af og var lögbrota-nauðsyn, að mér fannst. Aðstæður okkar Ísl. hér, óskiljanlegar út í frá, voru aðalástæður mínar. Meðal landa hér hefir aukizt og magnazt þröngsýn og eigingjörn ofríkis-samloka, sauðheimsk um bókmenntir og allan andlegan gervileik, en uppbelgd og fröm. Hvar sem hún nær sér niðri, er úti um andlegt líf. Hún hefir einn mælikvarða á allt: Verður þetta og þessi höfundur lofsamleg auglýsing fyrir mig og minna hag, svo það auki „innflutning“, sem okkur hagar? Sé það ekki líklegt, er ekki að sökum að spyrja, þá er „hamazt með hverju, sem að bítur á“, hversu heimskt sem það er, og einskis svifizt, svo sem kjarkur er til. Þetta sanna blöðin, einkum Lögberg nú; sbr. árás þess á dr. Ágúst. Vörnin þess fyrir árás á Vestur-Ísl. og Kanada var uppgerð, átylla, af því „Lögb.“-flokkurinn vissi, „að aldrei mun hann eitt sinn láta yndi nokkuð mér í té,“ eins og Gröndal lætur Þökk kveða í „Ragnarökkri“. Ég tek þetta dæmi til, því heima kann það helzt að hafa orðið til eftirtektar, en er ekki eindæmi, heldur ið algenga hér við þá, sem eru einskis eign andlega, og bæði verra og langvinnara á sumum. Tökum t. d. viðbúð og vitleysur Bílds við ritstjóra „Heimskr.“ núna, ritdóm Baldvins um kvæði Magnúsar Markússonar nýverið, þar sem þriðjungur þvælunnar er slettur til Jóns Runólfssonar og mín („bóndans“ og „kennarans“), dylgjur um óþjóðhollustu, sökum þess að við höfum ekki sungið *Kanada lof* — og það þó Baldvin ljúgi því, náttúrlega af fávizku á því, sem hann hefir aldrei kynnt sér. Og það sem argast er til að vita, blöðin hafa hingað til ekki verið vaxin upp úr því að taka við og gleypa með „guðlaun“ jafn illkynjað ónýti, því öll þessi gagnrýni er gagnslaus, engin hugsun sem á sé að græða, eintóm and-

leg fýla. Segja má, að þetta bull saki engan. Nei, ekki þann, sem á oddi er hafður, hafi hann nokkuð gott gert. Samt er það hálfsatt, aðeins. Það villir oft ókunnuga og einfalda. Margir eru á líku vitsmunastigi eins og þessir gleiðgosar, þó þeir kunni að vera öllu betur innrættir. Í einfeldnis-sakleysi samþykkja þeir flónskuna og trúa því, sem affært er, og verða svo ávallt blindari og blindari. Haldi slíku illendi áfram, fer loks svo, að enginn þorir að „æmta né krimta" öðruvísi en ómennskan andlega kýs, af ótta við blaðabullurnar, og þá er þjóðerni og bókmenntir búnar hér. Flestir munu hörundssárari en ég fyrir nuddinu. En, með hverju verður sljákkað í þessum skrif-skúmum? Ekki með þögninni, hún stælir þá og meskir. Eina ráðið er, að ég hygg, að svara fúkyrðalaust en fullum hálsi, lýsa þeim lifandi, ekki í hefndar skyni, heldur til viðvörunar, ef ske kynni, að þeir yrðu sér til skammar um síðir, svo þeir sæju sjálfir og fyndu. Það eitt myndi lækka þeirra segl. Ég skrifaði „Skráveifur" í því skyni og svo málið félli ekki niður, og vildi vinna til að vera talinn verri kvæðamaður fyrir bragðið. Ég hélt þeim þarna enn á lofti, ef ske kynni, að þær á einhvern hátt sneyptu blöð okkar vestra um síðir til að gera okkur minni ósóma framvegis en hingað til, með því að loka sér meira fyrir leirburði og jafnvel verri leirritdómum skynleysingja, og það yrði einkum, ef eftir þeim væri tekið og á orði haft út í frá, og ég hafði kveðið þetta allt og leyft að prenta áður, og vildi enga tilraun gera að þurrka það af mér nú, með [því] að stinga því undir stól, hvernig svo sem dæmt yrði um það. Þegar fyrri „Andvökur" komu út, dró ég undan nokkur kvæði fyrst, en kostnaðarmenn mínir skrifuðu mér og vildu fá þau með. Þeir söknuðu þeirra. Þau höfðu birzt í blöðum. Fyrst þeir lögðu féð fram, fannst mér þeir eiga heimting á verkinu, og gerði sem til var mælzt. Nú var þeim í sjálfsvald sett að tína úr, svo sem þeim sýndist. Ekki væri mér annt. Þeir gerðu það ekki, og að því leyti eru „Andvökur" yngri og eldri ekki mislitar. Annars skil ég, að „skammavísur" séu aðeins siðleysur og fúkyrði í rími, og í því þykist ég ekkert eiga, þó bendlað hafi ég ágauðara mína við leirburð og þess konar. Mannlegt eðli er nú svo, að aðdáun manns fyrir fegurðarviti og andríki verður að viðbjóði á andlegum vesaldómi og varmennsku — helmingur úr sama handraða. En því er ég að þessu rausi við þig út úr engu

efni? Ekki í afsökunarskyni né til að fegra mig — aðeins að segja sem er og einlæglega, því hvort sem ég hefi rétt eða rangt fyrir mér, vildi ég sízt af öllu, að þeir menn, sem haldið hafa í hönd með mér, svo sem t. d. þú, sæju mig öðruvísi en ég er — og fyrirgefðu mér svo mælgina.

Nordal sendi mér „Lestrarbók“ sína, og ég hefi skrifað honum, því hún þótti mér góður fengur bókmenntasögu okkar. Ég las bókina fyrst, formálann síðast. Þegar að *mér* kom, datt óðara í mig, þegar ég sá „Nýja skóg“: Hér hefir Baldur einhvern veginn gengið um garð! Svo þegar ég sá Sigurð nefna þig í formálanum, varð mér það að fullvissu um „óskeikulleik“ minn í ímyndunum, og hugnun er að verða montinn og sýnast, að „svart á hvítu“ beri viti sínu vitni. Ég þakka þér fyrir. Ég er nærri feiminn að flíka því, af því það getur litið út sem sjálfs-tilhald, en grunur minn um margt í bókinni hefir oft verið svipaður dómum Sigurðar, á þeim sviðum, þar sem ég var eitthvað kunnugur. T. d., mér hefir svo oft virzt, þegar ég las inar lengri og nýrri skáldsögur síðari Íslendinga, að efnið hefði ég áður heyrt, það væri verið að „gegna gæsum, sem í gær flugu“ einhvers staðar í Evrópu og sem þá þóttu boða miklar veðurvændir. Rámaði til að hafa rekizt á það fyrr í blaðdómi eða bók, og missti af nýjabruminu þess vegna (jafnvel þó hver kind væri í íslenzkum búningi)og sá eftir þeirri ánægju. Eins er um hitt, jafn fagur og mér finnst stíll Jónasar Hallgrímssonar á ævintýrum, eins leiðist mér hann á löngum sögum og furðar fastheldnin við hann, slíkar fyrirmyndir eins og við eigum þar, í fornsögunum — og jafnvel í annálunum, stundum. En satt að segja: Ég er ófær um að dæma, því skáldsögur les ég minnst af allri minni fáfræði og er þar næstum ókunnugastur. — „Húslestrar“ ykkar eru happaráð, að ég hygg; ég vildi þeir væru komnir á í öllum byggðum Íslendinga hér og að við ættum nóga menn, sem kynnu að lesa af skilningi.

Ekki lái ég þér það að „leiðast“ hálfgert, eins og á stendur. Þú „kvíðir“ og vantreystir þér um of, þú þarft að „rífa þig upp í hláku“. Þú átt nóg og góð efni í sjálfum þér, hvenær sem þú reynir hiklaust. Ég veit þetta. Aldrei hefir alizt meira ragmenni við allt þess konar en ég var, en ég lenti, óviljandi, á hillu, sem ekkert undanfæri var á. Úr mér varð svo auðvitað skröggur, „sem skeytti hvorki um skömm né heiður,“

en á því er engin hætta með þig! Oft rennur mér í hug, Baldur, hvernig í ósköpum þú farir að því að hafa ofan af fyrir þér og þínum með „pennanum“. — Hagur fólks hér er hálfþröngur, en neyðarlaus. Árferði örðugt. Uppskera rýr. Sums staðar engin. Góð á stöku köflum. Og kornverð hátt, á því sem óskemmt er, en óbærilega lágt á flestum búsafrakstri öðrum, en innkaup dýr. Skammdegið einhver harðasta vetrartíð, sem hér hefir komið, og lítil breyting enn til bóta.

Nóttin spann í niðmyrkrið
Næðinganna dögum.
Hlífar manna hrökkva ei við
Hörku og fanna lögum.

Heilsa mín skárri. „Lagði mig inn“ litlu fyrir jól, og yfirgaf útiverk, önnur en eldivið. Er hálfgerð lyfjabúð á róli! því nú „brúka ég meðöl“. Nú hefir aðal-læknir minn gefið lasleik mínum nýtt nafn, og ég trúi að það sé nærri rétt; síðasta grískan er svona: „Hypertrophy of the Prostatic Gland“. Ég fer að njóta þeirrar virðingar að verða eins konar grískt „Medical Dictionary“! Ég borða lítið annað en brauð úr hrati, svo ef ég kem á Þingvöll 1930, eins og við höfum ráðgert, svo að ekki er eftir annað en að ráða við það, verður þú að hafa til hlemmistóra pottköku úr heilmöluðum rúgi handa mér, svo ég safni ístru, eins og ið fyrra skiptið heima.

Gætir þú gert svo vel að skila til dætra þeirra Ingólfs frænda míns, séu þær í þínu nágrenni, að Rósa Siglaug, yngsta telpan mín, sendi þeim kveðju sína og ósk um, að önnur hvor þeirra vildi vera svo væn að skrifa sér. Ef til þess kæmi, getur þú sagt þeim bréfheimili Rósu. Það er sama og mitt.

Enn er sama innsýnið
Upp frá þessu djúpi:
Hlíðar brosa Hallstein við
Höfði þó að drúpi.

Það er svo hressandi að vita, að þegar maður sjálfur verður ekki lengur viðstaddur, verði samt, alla daga, einhver augu til, sem líta haf og jörð og himin sömu unaðarsjónum og maður gerði sjálfur eitt sinn, „stara sem yngissveinn á festarsprund“, eins og Bjarni og Hallsteinn. Ég geri það enn,

ef ég er með „heilli há“, og finnst veröldin falleg, jafnvel jökullinn.

Skilaðu kveðjum okkar í bæinn þinn, Baldur minn, til þeirra þar, sem þér eru skyldir, og minni kveðju til hvers þess manns í Vík, sem kynni að vilja vita af mér. Svo býð ég sjálfum þér góðan daginn, og blessaður og sæll!

Vinsamlega Stephan G.

Hér lýk ég bréfi með leyndarmáli, einkamáli, sérvizkukreddu, sem ég trúi þér til hvorki að hræðast né hneykslast á. Svo er málið vaxið, að ég er stundum að hugsa um að hreiðra ögn um mig hérna á árbakkanum (því aldrei fer ég héðan alfari, og láti þess langt að bíða enn að skipta mér í tvö hornin, *upp og niður)*. Þegar þar að kemur, er ekki að vita, nema einhver hlemmi ofan á leifar mínar hér „stöng og grýtu“, úr steini eða „steypu-potti“, eftir því sem þá verður „lagið á“. Slíkt er bæði of formlegt, óþarft, og of dýrt, eftir mínu skapi. Ég verð samt að koma einhverju í veg fyrir það, ef ég get. Ég hefi auga á íslenzkri *vörðu* eða *dysi*. Hefi nóga hnöllunga í hana, í ánni hérna, og steinlímið (concretið) er ódýrt og haldgott. En ég er í ímyndar-bobba, hvernig *lagið* á hrúgaldinu ætti að líta laglegast út. Ég byggði bæði *vörður* og *dys* heima, en er ekkert upp með mér af sköpulagi þeirra, og hálfbúinn að gleyma því. Gætir þú, fyrir mig, fundið í kyrrþey Einar Jónsson myndhöggvara að máli og fært í tal við hann, hvort hann vildi gefa mér á teikniblaði hugmynd um, hvernig svona *urð* sæmdi sér skást en án þess að vera neitt stórkerald. Ég skal borga honum eitthvað smávegis fyrir erfiðið, vilji hann taka undir þessa fáræensku mína. Áletrun hefi ég hugsað mér:

Hér var
Stefán G.
grafinn.

Það er svo stutt, eins og ég sjálfur, og svarar sér. En Baldur, fyrirgefðu svona bón! Og engin óhugnun, þó þú hefðir ekki geð til að gera hana! Ég nærri fyrirverð mig að fara fram á það.

S. G.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 10. apríl 1925.

Baldur minn góður. — Í gærkvöldi kom bréfið þitt væna, ritað 19. f. m., heilt og haldið. Beztu þökk fyrir innihaldið allt. Reyndar hafði ég ekki búizt við svari svona fljótt, slík efni sem í voru, og lasleiki þinn í vetur hefði orðið mér meira áhyggjuefni en töfin, þó hún hefði einhver verið. Vonandi tekur þú góðum vorbata.

Nýlega hafði ég sent þér að gamni mínu gamla garma af „Fjalla-Eyvindi" mínum, þeim sem „lagðist út" við Garðar snemma á árum. Reyndar finnst mér oft það ganga glæpum næst að senda sumum vinum mínum löng bréf og leiðinleg að þurfa að svara — þeim, sem penninn hefir orðið að álögum á, eins og t. d. við dagblaðaritun og „stólræður" — það sé aðeins aukaþrælkun, hvað þá að „rífa ræfla upp úr svelli", eins og t. d. „Eyvind" þennan, en þó er hitt satt, ég fyrtist ekki vitund við, þó þú styngir honum í stóna ólesnum að öllu. Það yrðu forlög hans hér eða verri, að mér frágengnum, og mér dettur ekki í hug, að það væru nema makleg málagjöld hans. Að hinu leytinu fannst mér hann nú ekki vonum lakari. Efnin voru ekki stór, sem að honum stóðu. Tek til dæmis grein Jónasar okkar Hallgrímssonar (Jónasar Hall) um skólamenntunina hér og heimakennslu, því það var löngu fyrr en nokkur annar Íslendingur vestan hafs hafði orð eða eftirtekt á því. En auðvitað er Jónas á allan hátt betur af guði gerður en nokkurn tíma verður viðurkennt, og þar að auki drengskaparmaður og trölltryggur, hvar sem fer. Mig minnir, að þið séuð ættingjar — en hvað sem því líður, ég er viss um, að eðlisfari svipar ykkur merkilega saman, ef ég kann mann á velli að þekkja — andlega. Það sem kom mér til að senda þér „hána" af „Eyvindi", var þetta: Hann er svolítið gagn í mat á íslenzkri alþýðumenningu borinni saman við „vesturheimskuna", sem fyrir sat, Íslendingum til lofs eða lasts, eftir því sem dómar falla um síðar, en sannur til samanburðar, það sem hann nær. Ef til vill verður einhvern tíma eftir þessu skyggnzt af einhverjum. Það er ein lína í menningarsögu okkar. Því skaut ég Eyvindi til þín, til geymslu eða glötunar.

Þá er á hitt að minnast: Allt sem ég hefi sent þér af rissi mínu, þar með „Andvökurnar" með spássíu-glósunum, er þín einka-eign, til allrar ráðsmennsku, og ég held að nú nýskeð

hafi ég búið svo um, að ekki verði vefengt. Sú saga ber til þess: Fyrir löngu flaug mér í hug, að ruslið mitt allt og óráðstafaða yrði í verri en hershöndum að mér fráförnum. Hirðan á því var ætíð ill, og myndi versna, sem von er til. Þó ég aldrei tryði, að heimurinn myndi hallast neitt, þó allt mitt dót færi forgörðum, kunni ég ekki við það „ræktarleysi“ að biðja ekki einhvern fyrir það, sem ég tryði vel, ekki sízt af því, að það var komið nokkuð á loft, hvort sem var. Hins hefði ég lítið saknað, þó það hefði horfið *þegjandi*. Fyrir fáeinum árum sneri ég mér til eins míns bezta vinar hér, séra Rögnvaldar, sem er bæði hagsýnn og djúphygginn og [hefir] reynzt mér dáða-drengur. Ég spurði hann blátt fram: Get ég fengið þig til að gerast „my literary executor“, þegar ég er genginn undir þiljur? Hann tók því vel. Þó dróst þetta, þangað til í vetur, að ég innti hann eftir því aftur. Ég hafði ekki komizt til þess fyrr. Í vetur lagðist ég upp í leti, eins og ég hefi getið um við þig. Rögnvaldur sagði, að við sama stæði frá sinni hálfu. Ég bað hann að biðja lögfræðing í Winnipeg að semja „erfðaskrána“. Þetta leið svo og beið, unz lögvitringurinn lét uppi, að hann kynni engin tök á þessu, nema sem „fylgiskjali“ (codex) í erfðaskrá yfir aðrar eigur mínar. Rögnv. afþakkaði svo hans umgöngu. Þá tók ég mig til, samdi skrá á ensku og íslenzku, undirritaða af mér og öllum krökkum mínum, þar sem ég eigna honum allt mitt pár, prentað og óprentað, til fullra umráða eftir minn dag, að *undanteknu* því, sem sé í vörzlum Baldurs Sveinssonar í Rvík: drög til sjálfsögu, í ýmsum molum. Það skuli framvegis sem áður í hans eign og umráðum. Þannig er efni skjalsins, að fráskildum kniplingum kansellí-stílsins, sem ég stældi! En ég held, að þetta orki engra tvímæla. Að vísu hefi ég enn ekki fengið orð frá séra R., um að þessi „kompa“ mín sé komin til skila. En ég efast ekki um það og þetta er nýlega um garð gengið. Heila skruddu af ritdómum og lofkvæðum um sjálfan mig á ég líka, sem ég einhvern tíma sendi séra R. Hefi haldið saman svo sem ég gat öllu þess konar, sem ég náði í og geymdist, þó margt vanti. Þá á ég líka skræður af flestu eftir sjálfan mig, sem prentað er á mæltu máli. Ég hefi reynt að hirða *skammir* mínar og annarra, *engu síður* en lof, enda hefir einn höfundurinn, sem um mig hefir ritað, sagt, að ég sé nafngreindur fyrir „skammir og — klám“, eða tók það helzt til — það var

Jón gamli Einarsson í „Lögb.“ „Bílds“. En ekki eru skruddurnar *allar tómar* skammir. Ef R. sendir eitthvað af þessu heim til geymslu, sem hann hefir gert ráð fyrir, en er óvíst að nokkur þori við að taka, svo „bærinn sökkvi ekki“, gætir þú fengið að sjá það, væri þér nokkur forvitni á — án þess ég sé að eggja þig á svo ónýta hnýsni, Baldur minn. Ég er að þessu, af því í skömmina er komið fyrir mér, hvort sem er. Stendur á sama, þó ég sjáist „svo sem ég lagði mig“, á báða bóga. Kýs það miklu fremur misskilningi. Og svo er allt uppi látið — og til of langra leiðinda fyrir þig þó. Aðalefnið í þessum upptíningi mínum er þó þetta: Þar kann að vera eitthvert spor sjáanlegt, okkar Vestur-Ísl., sem til einhvers gagns getur orðið síðar. Í mínum augum er efni allra sagna meira en minning feðranna. Ágætari er auðurinn fyrir framtíðina, þá sem eftir lifa, sem í þeim kann að liggja. Hananú — þá!

Draumar þínir þykja mér undarlega merkilegir, Baldur, og fallegir. Ekki reyni ég að ráða þá, en skil þá sem Völu-spár, en alveg eins og ég tók til við dr. Á.... forðum — hefi ég ekki sagt þér frá því? Mig minnir það. — Þú yrkir þitt eigið innræti í svefninum, af óhömdu ímyndunarafli, þegar þú ekki lengur getur kinokað þér við því, sem þú hefir hvatir og efni til, en efar þig á í vökunni, því að verða skáld. Náttúrufar þitt skapar þá, óhindrað, ekki: skrípitröll, skjaldmeyjar, en „skóga hugmynda“! Til dæmis núna síðast er það viljinn þinn að mæla fyrir minnum þess, sem þér hefir orðið dýrmætt, og fara sem bezt með fagran grip, sem yrkir draum þinn. En ekki býst ég við, að þetta sé vísindaleg sálarfræði. „Ég kann bara að nefna það,“ sögðu menn heima um þá fræði, sem þeir vissu og viðurkenndu, að þeir vissu ekkert í. Sama geri ég.

Ég veit vel, að það sem þú segir um skýringar til skilnings, er alveg rétt. En vandinn er: Höfundur á oft verst með það sjálfur, óaðspurt. Honum er allt svo ljóst, sem hann átti við, að hann getur ekki gizkað á, hvar aðra rak í vörður. *Honum* er hver dráttur skýr, eins og þér einkenni Eiðalands, en kvæði á að vera *meira* en landslagslýsing, *hún* aðeins flugufóturinn. Því fer sem fer, en lagast oft með lengri tíma, jafnvel þeim sem aldrei hafa að Eiðum komið, oftast fyrir tilsögn skilningsnæmra lesara, annarra en höfundar sjálfs.

Líku hefi ég haldið sjálfur fram í viðræðum, þegar menn hafa brugðið mér um, að ég væri svo vandyrtur, að ofraun væri að skilja í mér stundum. „Þetta er misskilningur“ hefi ég svarað, „það eru ekki *orðin,* sem þið strandið á, það er *hugsunin í orðunum.* Hún hefir aldrei komið ykkur í hug né hjarta fyrr, svo það fer fyrst fyrir ykkur svo sem þið séuð að ferðast um al-ókunnugt land, sem þið þekkið engin einkenni á, en allt verður ljóst að lokum, þegar það er orðið „ferðamannaland“ — ef það á að verða.“ Þetta er mín eina vörn — sem kannske sé meinloka mín. Svo er annað, sem ég veit vel, að er mín eigin sérvizka: Mér þykja neðanmálsskýringar *á skáldskap* lýti — einkum á ljóðabók. Um nytsemina efast ég ekki. En ef í þær fer, finnast mér skýringar úti á „spássíunni“ andspænis því, sem skýra skal, þolanlegri — enda auðveldari fyrir lesarann, og því gagnlegri. Þetta kom til tals við fyrri „Andvökur“, en þá kom fram, að sú aðferð var of kostnaðarsöm og vandaverk. Þetta hafði svo borizt í tal við Þorst. heit. Erlingsson, en hann þvertekið fyrir, að mér hefði þarna missézt. Hafði haft sömu „kreddu“ og ég. Auðvitað hefði ég aldrei fyrirboðið slíkt, né myndi gera nú. Þvert á móti er ég meira en viljugur að skýra hvað ég kann, ef ég veit, hvað vefst fyrir öðrum, enda væri mér skyldast að skýra „skissur“ mínar. En hitt grunar mig að reynist rétt, að það sé síður mitt meðfæri en annarra, þó ég feginn vildi. En ég efast um það sé ómaksvert, ekki stærra en er í húfi. Nú er þá sú saga sögð.

Nú nem ég loks staðar á þessu blaðinu, og máttu verða feginn! Þó eftirmáli fylgi, skal hann styttri.

Berðu kveðju mína í bæinn þinn, konu þinni og krökkum. Og Helga biður að heilsa líka. Hún tekur sífellt til þess, hve vel henni hafi geðjazt að þér, þegar þið mættuzt að „Lögbergi“ forðum.

Leiður er landvegur —
Löng eru höf —
Illt að eiga ei nema
Ósk í sumargjöf!

En, megi þér allt til auðnu ganga.

Þinn Stephan G—

*Leyndarmálið.* — Heila þökk mína fyrir frammistöðu þína í því, og Einari fyrir ómakið. Báðir uppdrættirnir líka mér vel, og fyrirsögn þín fyrir verkinu finnst mér afbragðsljós. Hinu er ekki að leyna samt: Mig munar einhvern veginn meira til „vörðu"-hugmyndar en „dysjar", en falleg þykir mér fyrirmynd Einars og „Smalabyrgið" kvað ég í fyrra, og kom út í „Kringlu", og óáætlað eins og það var, gæti það nú næstum verið dreymt fyrir „dysinu". Að „vörðunni" er eitt: Sá vaxtargalli, að standa of hátt á mjóum grunni og vera við hruni hætt, þegar „holklakinn vinnur", eins og Þorsteinn komst að orði. Ef til vill læt ég krakka mína kjósa um, svona síðar, og segi þér þá. En eftir á ég hitt líka, að fá að vita, hvað Einar setur upp, eða geri hann það ekki, að þú gætir bent mér á eitthvert smáræði, sem ég gæti gert honum til geðs.

Margfalda þökk fyrir „vörðuna" líka, þó kannske aldrei verði notuð og ég hálf-sjái eftir henni.

Vinsaml. S. G.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 27. maí 1925.

Góðvinur Baldur. Enn ætla ég að minnast á „leyndarmálið" við þig, og hálf-fyrirverð mig þó fyrir alla mína áníðslu á þér, nýbúinn að senda þér ýmsar óþarfa sendingar, af því það voru víst „forsendingar", en þú ert greiðvikinn, og allir gjalda þess á einhvern hátt!

Ég er enn ekki afhuga „vörðunni", *helzt af öllu,* og að öðru leyti algengri gröf, þegar ég þarf hennar. Finnst það bezt, úr því ekki er kostur á að fara á „eldvagni" til himnaríkis, eins og Elías spámaður — ég á við: líkbrennslu; hún er mér mest að skapi, en hér ófær, sökum aðstöðu, og dýr líka. Um líkkytrur og smyrðlinga, sem sé: *mausoleums,* og það sem þeim fylgir, hefir mér aldrei verið — finnst eitthvað óþarft og nærri draugslegt við þær. „Íslenzk varða" er ímyndanavökulli; *more suggestive,* myndi enskan orða það, sem ég er að hugsa. En sá galli er á, sem ég tók fram fyrr: hún *stæði illa.* En nú nýl. sá ég, hvernig þetta ætti að vera viðvíkjandi mér: „Moldin að hverfa til jarðarinnar aftur," eins og sagt var, og bauta- eða „brautar"-steinninn: Hrunin varða! sem ætti að vera byggð „hrunin", í upphafi, svo „hrunið" væri lögulegt, eins og „fallið" hefði haft ásetning til að falla

„fallega“. Þú bauðst mér að senda mér betri mynd af vörðu, ef ég vildi, heldur en þá, sem kom í vor. Nú, nú, eigir þú ekki örðugt með, og getir komið þessari kreddu minni í skilning einhvers „smekkmanns“ með handlagni til myndagerðar, gott og vel! gerðu það þá fyrir mig, þó ég viti, að allt þetta þarflausa umtal mitt sé raunar rammasta sérvizka, sem ég legg þó ekkert kapp á.

Það sem af er vori enn, hefir farið fremur vel að hér. Í dag er sumar, þessa stundina:

Sólin með gullkambi greiðir
Grænskógnum öllum,
Laufguðum lundum og þöllum.
Regndagar vor-baða völlum,
Vötnum og dölum og fjöllum,
Fangmjúkir, faðmlagabreiðir.

Leiki þér svo flest í lyndi! Óskar þinn Stephan G.

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 24. júlí 1925.

Baldur minn góður. — Í gær kom ég í póstinn hér hylki þér sendu, með öllum þeim bréfum í til mín frá þér, sem ég fann í dóti mínu. Rekist ég á eitthvað síðar, skal ég stinga því einhvern veginn undir stól. Ég hafði ekki skap til að eyðileggja bréfin, eins og þú mæltist til. Tók því þetta ráð.

Ég kannast við réttmæti þess, að ritari bréfs eigi rétt á geymslu þess eða glötun. Hitt er annað mál, hver þörf sé á eyðilegging þess, eða væri betur geymt. Nú *ræður* þú, hvað um bréf þín verður. Ef til vill sér þú þig um hönd og hirðir eitthvað. Gerir bara ólæsilegt það, sem þú vilt, að aldrei komi upp, sem ég veit varla hvað væri, bréfin eru svo meinlaus mönnum og málefnum, en orðin brot af ævisögu okkar, hvort sem talin er að vera söguleg eða ekki; það dæmir önnur öld en okkar. Sjálfur get ég ekki séð neinn akk í að eyðileggja eins góð bréf og þú ritar, sem lýsa jafn skilningsgóðum og orðheppnum manni eins og þú ert, tryggð þinni og velvilja, hvort sem það þætti koma maklega niður *á mér.*

Jæja, ég hefi þá gert bón þína, eins og líka skyldugt var, en í líku skapi eins og maður getur gengið með, þegar sumarsöngfuglarnir flýja hérað manns á haustin.



*Minnisvarði Stephans G. Stephanssonar*

*á gröf hans á Markerville, Alta, reistur að forgöngu Ófeigs bónda Sigurðssonar við Red Deer. — Á marmarahelluna er letrað nafn skáldsins, fæðingar- og dánardægur og hinar alkunnu ljóðlínur úr kvæðinu Bræðrabýti: — Að hugsa ekki í árum en öldum o. s. frv. Enn fremur upphafsljóðlínurnar úr: Þótt þú langförull legðir — í enskri þýðingu.*

Nú verð ég ekki fjölorðari að sinni. Hefi gesti (auk annars), Jón mág minn frá Garðar og Guðbjörgu konu hans. Þau eru yngri en ég, en öll erum við orðin öldruð hjú. Erindið á enda, í bráð, aðeins bætist við: Þökk fyrir bréfin þín öll! og kveðja okkar til konu þinnar og barna.

Vinsamlega Stephan G—

*Baldur Sveinsson.* Markerville, Alta, 23. ágúst 1925.

Góðvinur Baldur. — Þökk fyrir bréf þitt frá 30. f. m., en — það náði ekki háttum fyrr en í gær, hefir kannske „tafizt og orðið leit að hestunum“ á leiðinni, eins og til hefir viljað.

Af því ég bý í „buska“ út,
Bragar lítils-valdur,
Vegalengdir kváðu í kút
Kveðjuna mína, Baldur.

Afmælis var ósk í kvöld
Ofseint við að bætast —
Ókominna ára fjöld
Á hana að láta rætast.

Og berðu svo dr. Ágúst og frú Sigríði kæra kveðju okkar og ósk um langa daga og ljúfa. — Þú hefir allt of mikið fyrir þessari sérvizku minni, Baldur. Aldrei datt mér í hug, að hún yrði til þess að reka þig í svona mikla „vörðu“-fyrirhöfn, en þökk fyrir það sem komið er, og það sem í vændum er. Jú, satt er það, lagleg „beinakerling“ sæmir sér betur en þessi Mosaheiðar-grjótgerður, þó gaman sé að sjá hana samt — en í öllum bænum! Gakktu ekki af þér neina skó við þetta, það er ekki svo áríðandi, bara eins konar duttlungur! Allar kenjar ríða við einhvern einteyming, ef ekki við fleiri. Einn er sá við þessa: Þegar ég var í Víðimýrarseli, hlóð ég og hélt við vörðu á mel austan við það sem *var* „túnið“, andspænis húsadyrum. Í V. bindi af „Andvökum“, 90. bls., er „Jóla-bylur“, sannur viðburður frá þessum árum, aðeins öllum einkanöfnum vikið við. „Vörðuna hlóð hann sjálfur,“ segir þar. Varðan var enn uppi 1917, en biluð. Þorvaldur Arasen á Víðimýri var með mér og kvaðst (óbeðinn) ætla að láta hlynna að hrauknum, en hvort af varð, veit ég ekki

Auk þess að vörður eru mjög íslenzkar og einkennileg og góð landamerki, blandast Sel-varðan mín saman við. Svona „agar öllu saman“ inni í hugans ruslakistu. Þar mun fáum þykja gaman að þreifa niður í myrkrin yztu! Gott var nú þetta hjá mér! Nærri á borð við liðlétta beinakerlingavísu!

„Langt er nú síðan í sandorpið kot,“ sem þú spurðir um, liggur allt utan dyra og ævintýralaust. Átti aðeins að gefa til kynna, að í þá auðn, sem jafnvel lóur og smalar hlutu að flýja, ætti sumardagurinn fyrsti ekki erindi lengur!

Nýlega sendi ég þér enskt kver svolítið, „Circumstantial Evidence“ eftir Boga Bjarnason. Ef ég gizka rétt, er hann sá sem ritar „Salmagundi“ í „Heimskr.“ og kallar sig L.F. Hann og Jóhannes Pálsson (J.P.P.) læknir, eru þeir tveir menn hér, sem á ensku rita, sem nokkur veigur er í enn og einhvers má af vænta, ef mér glepst ekki sýn því verr. Hitt liðið hér eru enskir froðukúfar, að mér virðist, að undanteknum ljóðaþýðingum Jakobínu Johnson, dóttur Sigurbjarnar frá Fótaskinni, sem þú sem Þingeyingur kannast víst við. Annars, ef eitthvað eftir Ísl. hér kæmi út, ætti félag ykkar, „Vestur-Íslendingur“(?), að fá það gefins. „Þjóðvinafél.“ hér ætti að sjá um það.

Eitt verð ég að segja þér: Ég hló mig sælan að því, sem þú sagðir í bréfinu, að þú hefðir verið búinn að gleyma, að Sunnlendingar hefðu aldrei kunnað að hlaða vörðu. Ég hefi svo gaman af norðlenzku drýginda-ertninni okkar nyrðringanna við suðræningana, oft svo meinleysislega meinlegri.

Við hérna heima biðjum heilshugar að heilsa heim til þín.

Heyrast varla hendingar,
Hljóðafall þeim dvínar,
Svona að kalla um karfa-mar
Kveðjur allar sínar!

Þig hafrænan hljúfri að sér
Og heiðríkjan fjalla.
Og velgengnin „varði“ þér
Æ vegina alla.

Vinsamlega Stephan.

# Viðbætir II.

## Skrá um viðtakendur bréfanna í I.—IV. bd.

**Tölurnar tákna upphaf bréfa á blaðsíðu.**

**Aðalsteinn Kristjánsson,** fæddur að Bessastöðum í Öxnadal 14. apríl 1878. Foreldrar: Kristján Jónasson frá Engimýri og Guðbjörg Þorsteinsdóttir frá Mýrarlóni. Fluttist til Vesturheims. Var í brezka hernum 1918. Aðalsteinn hefir stundað verzlunarstörf og fengizt við ritstörf. Meðal bóka, er út hafa komið eftir hann, má nefna *Austur í blámóðu fjalla,* gefin út í Winnipeg 1917 — ferðaminningar frá Íslandi.
**I. 143, 290, 296, 300, III. 98.**

**Ársæll Árnason,** f. í Narfakoti á Vatnsleysuströnd 20. des. 1886. Foreldrar: Árni Pálsson og Sigríður Magnúsdóttir. Lærði bókband hjá Guðmundi Gamalíelssyni og síðar í Berlín og Stokkhólmi. Hefir stundað bókband og bóksölu og fengizt við bókaútgáfu. Hefir þýtt allmargar bækur á íslenzku, þ. á m. rit Vilhjálms Stefánssonar í 4 bindum. Einnig ritað bækur, svo sem *Grænlandsför* og fleira.
**II. 243, 256, III. 32. 161.**

**Ásgeir Ingimundarson,** f. á Útibleiksstöðum í Húnavatnssýslu 6. sept. 1881. Foreldrar: Ingimundur Jakobsson prests Finnbogasonar og Sigríður Sigfúsdóttir prests á Undirfelli Jónssonar. Fluttist til Vesturheims. Stundaði málaraiðn og veggfóðrun, og fékkst við ritstörf. Hann var ritstjóri að mánaðarritinu „Skuggsjá" í Wynyard 1916—18. Ásgeir lézt í Reykjavík 4. jan. 1948.
**II. 223, 237, 245.**

**Baldur Sveinsson,** f. í Húsavík S.-Þing. 30. júlí 1883. Foreldrar: Sveinn Víkingur Magnússon og Kristjana Sigurðardóttir b. á Hálsi í Kinn Kristjánssonar. Varð stúdent 1905. Fluttist vestur um haf 1907. Meðritstjóri „Lögbergs" 1908—1911. Fluttist þá heim til Íslands. Varð blaðamaður við „Vísi" 1918 og síðar meðritstjóri. Baldur dó 11. jan. 1932.
**I. 195, 197, 210, 217, 219, 228, 236, 245, 251, 256, 266, 271, 274, 278, 304, II. 28, 36, 152, 180, 216, 245, III. 38, 40, 56, 78, 162, 252, 333, 353, 357, 375. IV. 382, 384, 391, 395, 396, 397.**

**Björgvin Guðmundsson,** f. að Rjúpnafelli í Vopnafirði 26. apríl 1891. Foreldrar: Guðmundur Jónsson bóndi þar og Anna Þorsteinsdóttir. Dvaldi

í Ameríku um skeið. Tónskáld. Söngkennari við Menntaskóla Akureyrar frá 1931.

III. 335, 368, 376, 380.

**Björn Hjörleifsson**, fæddur að Hallfreðarstöðum í Tunguhreppi 22. apríl 1867. Foreldrar: Hjörleifur Jónsson og Björg Jóhannesdóttir, gift vinnuhjú. Björn ólst upp hjá Páli skáldi Ólafssyni á Hallfreðarstöðum og var af sumum talið, að Páll væri faðir hans, sbr. formála Gunnars Gunnarssonar skálds að kvæðasafni Páls, Rvík 1944. Björn fluttist til Vesturheims 1893. Hann settist fyrst að í Winnipeg, en fluttist fljótlega til Nýja-Íslands og bjó í nánd við Riverton frá því um aldamót. Björn andaðist 24. des. 1941.

I. 266, 285.

**Björn Pétursson**, f. á Eiðum 2. ág. 1826. Foreldrar: Pétur Jónsson síðar prestur á Valþjófsstað og Anna Björnsdóttir. Gekk í Rvíkurskóla, en lauk ekki prófi. Bóndi á Hallfreðarstöðum og víðar þar eystra um aldarfjórðung og þingmaður Sunnmýlinga 1861—67 og 1873. Fluttist til Vesturheims 1877, og gerðist þar únítaraprestur. Dáinn í Winnipeg 25. sept. 1893.

I. 36.

**Böðvar H. Jakobsson**, f. að Hamraendum í Stafholtstungum 22. maí 1889. Foreldrar: Helgi Jakobsson frá Sigmundarstöðum og Ingibjörg Böðvarsdóttir frá Örnólfsdal. Fluttist með foreldrum sínum til Vesturheims 1900. Bóndi í Geysisbyggð í Nýja-Íslandi.

II. 242.

**Eggert Jóhannsson**, f. að Vindheimum í Lýtingsstaðahreppi 1. nóv. 1860. Foreldrar: Jóhann Jóhannsson og Arnfríður Jóhannesdóttir hreppstjóra á Vindheimum Jónssonar. Fluttist til Vesturheims 1876, og settist að í Nýja-Íslandi. Eggert fékkst við blaðamennsku um alllangt skeið; hann var ritstjóri „Heimskringlu“ í ellefu ár, 1886—1897 og var auk þess ritstjóri „Aldarinnar“ og fleiri blaða. Hann lézt 30. des. 1929.

I. 60, 121, 125, 131, 134, 135, 139, 143, 144, 147, 149, 153, 154, 158, 159, 160, 165, 167, 171, 171, 175, 176, 177, 177, 178, 179, 180, 180, 181, 182, 184, 185, 186, 188, 189, 192, 193, 196, 199, 199, 200, 201, 202, 204, 205, 206, 206, 207, 209, 210, 210, 214, 221, 224, 227, 229, 234, 241, 242, 259, 262 262, 264, 268, 280, 282, 283, 285, 287, 287, 294, 300, 302, 309, 311, 314, 324, 332, 334, II. 24, 48, 127.

**Elisabeth Ruhr.** Fæðingarár hennar er ókunnugt, svo og ætt hennar, en hún er alíslenzk að ætt, gift amerískum manni, og er heimilisföst í Seattle.

III. 323. 352.

**Grímur S. Grímsson**, f. að Grímsstöðum í Reykholtsdal 9. júní 1863. Foreldrar: Steingrímur Grímsson bóndi þar og Guðrún Jónsdóttir kona hans. Fluttist með foreldrum til Vesturheims 1882. Kvæntist Isabellu Gow:

var faðir hennar skozkur en móðir íslenzk. Grímur kynntist St. G. snemma á árum sínum vestra og hélzt þeirra á milli ævilöng vinátta. Grímur dó 1948.

II. 85, 101, 106, 115, 125, 135, 138, 182, 196, 209, 211, 224, 230, 232, 239, 239, 250, 266, III. 65, 71, 74, 77, 106, 109, 116, 140, 151, 151, 165, 173, 176, 181, 187, 193, 200, 218 228, 241, 262, 275, 289, 289, 310, 317, 324, 325, 350, 371, 382, 384, 385.

**Guðmundur Finnbogason**, f. að Arnarstapa í Ljósavatnsskarði 6. júní 1873. Foreldrar: Finnbogi Finnbogason og Guðrún Jónsdóttir. Magister í heimspeki við Kaupmannahafnarháskóla 1901. Dr. phil. 1911. Prófessor við Háskóla Íslands 1918—1924. Landsbókavörður 1924—1943. Hann andaðist 17. júlí 1944.

II. 82, 109, 120, 139, III. 130, 182, 199.

**Guðrún J. Erlings**, f. að Kotlaugum í Hrunamannahreppi 10. jan. 1877. Foreldrar: Jón Einarsson og Svanhildur Þórarinsdóttir. Gift Þorsteini Erlingssyni skáldi.

II. 143, III. 82.

**Guttormur J. Guttormsson**, f. á Víðivöllum í Nýja-Íslandi, Manitoba 5. des. 1878. Foreldrar: Jón Guttormsson og Pálína Ketilsdóttir. Bóndi, skáld og rithöfundur. Guttormur heimsótti Ísland í boði ríkisstjórnarinnar árið 1937. Hann er höfuð-ljóðskáld Vestur-Íslendinga síðan St. G. St. leið. Heildarsafn kvæða hans var gefið út í Reykjavík 1947.

I. 198, 203, 216, 244, 258, II. 132, 150, 190, 225, 260, 264, III. 332, 343, 361, 363, 366, 370.

**Helga Sigríður Jónsdóttir Stephansson**, f. í Mjóadal í Bárðardal 3. júní 1859. Foreldrar: Jón Jónsson og Sigurbjörg Stefánsdóttir. Fluttist til Vesturheims með foreldrum 1873. Giftist Stephani G. Stephanssyni 28. ágúst 1878. Andaðist 12. des. 1940.

III. 5, 5, 5, 6, 8, 9, 10, 11, 12, 13, 13, 14, 15, 15, 17, 17, 18, 20, 21, 23, 26, 27, 29, 29, 30, 305, 307, 308, 311, 312, 314, 315, 317, 319.

**Jakob Briem**, f. að Grund í Eyjafirði 3. febr. 1857. Foreldrar: Ólafur Gunnlaugsson Briem bóndi þar og Dómhildur Þorsteinsdóttir frá Stokkahlöðum Gíslasonar. Fluttist til Vesturheims 1890. Fékkst við barnakennslu. Ókvæntur. Dó á elliheimilinu Betel á Gimli 25. jan. 1934.

III. 193.

**Jakob J. Normann**, f. að Syðstugrund í Blönduhlíð 14. maí 1883. Foreldrar: Jón Jónsson bóndi þar og Björg Jónsdóttir. Fluttist til Vesturheims. Var áður bóndi í Foam Lake byggðinni en hefir nú um langt skeið búið við Wynyard. Sjálfmenntaður, bókhneigður og fróður, skáldmæltur.

II. 202, 224, 233, 240, 256, 261, 268, 270, III. 58, 63, 84, 88, 94, 99, 101, 108, 114, 141, 143, 170, 173, 179, 185, 186, 194, 202, 246, 246, 265, 291, 292, 293, 300, 301, 301, 302, 313, 321, 327, 356, 358, 374.

**Jakobína Johnson,** fædd að Hólmavaði í Aðaldal 24. okt. 1883. Foreldrar hennar voru Sigurbjörn Jóhannsson bóndi þar og alþýðuskáld og María Jónsdóttir. Jakobína fluttist með foreldrum sínum til Vesturheims 1889 og settust þau að í Argyle. Jakobína hlaut kennaramenntun og stundaði kennslu um skeið. Giftist Ísak Jónssyni frá Hávarsstöðum Benjamínssonar. Þau hafa átt heimili í Seattle um fjörutíu ára skeið.

Jakobína er með merkustu ljóðskáldum Íslendinga vestan hafs. Hún hefir þýtt íslenzk ljóð á enska tungu, og hafa sum þeirra kvæða hlotið vinsældir í þýðingu hennar. Einnig hefir hún um langt árabil flutt fjölda fyrirlestra á ensku, varðandi Ísland, sögu þess og bókmenntir.

II. 162, III. 106, 177, 212, 331.

**Jóhann Magnús Bjarnason,** f. að Meðalnesi í Fellum 24. maí 1867. Foreldrar: Bjarni Andrésson og Kristbjörg Magnúsdóttir. Fluttist til Vesturheims 1875. Jóhann Magnús naut nokkurrar skólamenntunar og stundaði barnakennslu meiri hluta ævi sinnar. Hann var mikilvirkur rithöfundur sem kunnugt er, fékkst við ljóða-, ævintýra- og skáldsagnagerð, og hafa sumar bækur hans, svo sem Eiríkur Hansson og Vornætur á Elgsheiðum, náð alþýðuhylli. Jóhann Magnús dó 8. sept. 1945.

I. 59, 60, 65, 71, 79, 83, 87, 95, 100, 102, 107, 110, 113, 114, 123, 157, 224, 249, 250; 277, 299, 311, 317, II. 183. III. 124, 152, 164, 174, 187. 362, 372.

**Jóhannes Páll Pálsson,** f. að Hornbrekku í Ólafsfirði 13. maí 1881. Foreldrar: Páll Halldórsson og Jónanna G. Jónsdóttir bónda á Karlsstöðum Dagssonar. Fluttist til Vesturheims 1894. Útskrifaðist í læknisfræði af Manitobaháskóla. Stundar læknisstörf. Jóhannes hefir fengizt allmikið við ritstörf, sérstaklega leikritagerð, og er talinn einn af merkustu rithöfundum á íslenzka tungu vestan hafs.

II. 114, 186, III. 64, 125, 133, 136, 148, 197, 200, 208, 213, 216, 222, 227, 230, 231, 255, 260, 264, 273, 274, 280, 282, 287, 293, 295, 299, 303, 373, 382.

**Jón Jónsson eldri,** f. í Mjóadal 2. sept. 1834. Foreldrar: Jón Jónsson bóndi þar og Aðalbjörg Davíðsdóttir bónda á Stóruvöllum Indriðasonar. Kvæntist 1858 Sigurbjörgu Stefánsdóttur, föðursystur St. G. St. Bóndi á Jarlsstöðum og Mjóadal, unz hann fluttist til Vesturheims 1873, með börn sín tvö, Helgu, er síðar varð kona St. G. St., og Jón yngra. Nam land í Garðarbyggð. Bræður hans voru Benedikt Bardal og Gísli Dalmann. Jón dó 1904.

I. 38.

**Jón Jónsson yngri,** f. á Jarlsstöðum í Bárðardal 1. nóv. 1862. Foreldrar: Jón Jónsson síðar bóndi í Mjóadal og Sigurbjörg Stefánsdóttir. Til Vesturheims með foreldrum 1873. Bóndi í Garðar-byggð. Kvæntur Guðbjörgu Guðmundsdóttur. Var um skeið þingmaður á fylkisþingi N.-Dakota. Gegndi ýmsum opinberum störfum fyrir Garðar-búa. Jón dó 22. des. 1936.

I. 20, 180, II. 99, 204, III. 118, 210, 228, 267, 326, 378.

**Jón Jónsson frá Sleðbrjót,** f. í Hlíðarhúsum í Jökulsárhlíð 15. ágúst 1852. Foreldrar: Jón Jónsson, síðar bóndi í Húsey, og Guðrún Ásmundsdóttir. Bóndi á Sleðbrjót og víðar þar eystra. Þingmaður N.-Mýl. 1889—

1899 og 1902. Fluttist til Vesturheims 1903. Bóndi í Álftavatnsbyggð og síðar í Siglunesbyggð við Manitobavatn. Skrifaði margar greinar í „Austra“ og „Bjarka“ á Seyðisfirði, og síðar í íslenzku blöðin í Winnipeg. Skrifaði einnig nokkra þætti af landnámssögu Íslendinga vestan hafs. Dáinn 26. nóv. 1923 í Winnipeg.

I. 321, 326, 329, 337, 340, II. 24, 28, 39, 44, 54, 64, 67, 71, 73, 75, 83, 85, 90, 93, 96, 104, 108, 112, 118, 121, 129, 133, 136, 144, 164, 171, 188, 191, 193, 196, 200, 212, 220, 228, 251, III. 34, 67, 92.

**Jón Friðfinnsson,** f. að Þorvaldsstöðum í Breiðdal 16. ágúst 1865. Foreldrar: Friðfinnur Jónsson og Halldóra Pálsdóttir. Fluttist með foreldrum sínum til Vesturheims 1876. Jón gerðist síðar landnemi í Argylebyggð og bjó þar í 20 ár, en fluttist þá til Winnipeg. Jón stundaði lengi farkennslu í byggðum Íslendinga. Hann samdi mikið af sönglögum og hafa sum af lögum hans náð vinsældum. Jón var maður sjálfmenntaður. Hann dó 16. des. 1936.

II. 128.

**Jón ritstjóri Ólafsson,** f. að Kolfreyjustað 20. marz 1850. Foreldrar: Ólafur Indriðason prestur og s. k. hans, Þorbjörg Jónsdóttir. Var í Vesturheimi 1873—1875, og aftur 1890—1897. Fékkst þau ár mest við blaðamennsku og var ritstjóri „Heimskringlu“ og fleiri blaða þar vestra. Dó í Reykjavík 11. júlí 1916.

I. 52, 54, 75, 89, 91, 97, 149.

**Jónas Hall,** f. í Grjótárgerði í Fnjóskadal 1. ágúst 1852. Foreldrar: Hallgrímur Ólafsson og Sigríður Jónasdóttir. Fluttist til Vesturheims 1874, þá nýkvæntur Sigríði Kristjánsdóttur frá Finnsstöðum í Kinn, Kristjánssonar. Jónas settist fyrst að í Ontario, fór til Nýja-Íslands 1877, en þaðan 1880 til Garðar N.-Dakota. Var um skeið nágranni St. G. St. og tókst með þeim ævilöng vinátta. Jónas var fróðleiksmaður, frjáls í skoðunum og ritfær vel. Hann dó 28. sept. 1931.

I. 1, 2, 3, 6, 12, 16, 21, 30, 31, 33, 36, 41, 44, 48, 56, 57, 63, 155, 172, 190, 212, 217, 222, 257, 274, 297, 319, 324, II. 8, 9, 10, 11, 12, 13, 15, 16, 17, 18, 19, 21, 22, 22, 26, 27, 42, 44, 57, 63, 72, 72, 89, 101, 110, 117, 123, 137, 155, 162, 171, 179, 179, 185, 203, 218, 231, 242, 258, III. 32, 53, 76, 121, 126, 135, 142, 190, 203, 234, 284, 353, 355, 364, 367, 373,

**Karólína Dalmann,** f. að Litlu-Laugum í Reykjadal í S.-Þingeyjarsýslu 20. nóv. 1845. Foreldrar: Jón bóndi þar Þorgrímsson bónda í Hraunkoti Marteinssonar og Elín Halldórsdóttir bónda í Vallakoti Jónssonar. Giftist Gísla Jónssyni frá Mýri í Bárðardal. Þau fluttust til Vesturheims 1873, og tók Gísli þar upp Dalmanns nafn. Þau bjuggu um hríð í Alberta. Karólína dó í Winnipeg 1921. Hún var greind kona og vel skáldmælt.

II. 5.

**Magnús Hinriksson,** fæddur á Efra-Apavatni í Árnessýslu 24. nóv. 1857. Foreldrar: Hinrik Gíslason og Jórunn Magnúsdóttir. Fluttist til Kanada 1887. Nam land í Þingvallabyggð. Mikilhæfur gáfumaður. D. 4. nóv. 1937.

I. 194, 217, III. 208, 323, 361, 384, 386.

**Magnús Jónsson frá Fjalli,** f. að Hóli í Sæmundarhlíð 17. júlí 1851. Foreldrar: Jón Jónsson bóndi þar og kona hans Sigríður Magnúsdóttir frá Halldórsstöðum í Laxárdal í S.-Þingeyjarsýslu. Magnús bjó að Fjalli í Sæmundarhlíð. Hann fluttist til Vesturheims 1887. Nam fyrst land í Nýja-Íslandi og síðar í Argyle, en fluttist til Blaine á Kyrrahafsströnd 1902. Magnús fékkst við ritstörf. Hann ritaði Vertíðarlok í tveim bindum, er kom út í Winnipeg 1920 og 1933; eru það minningargreinar og hugleiðingar ýmislegs efnis. Magnús dó 31. marz 1942 að heimili sínu í Blaine. Samkvæmt ósk hans var lík hans brennt og askan send heim til Íslands og grafin að Hafsteinsstöðum.

I. 316, II. 52, 92, 263, III. 195, 249, 252.

**Magnús J. Skaftason,** f. að Hnausum í Þingi 4. febr. 1850. Foreldrar: Jósef læknir Skaftason og Anna Margrét Björnsdóttir Olsen. Prestlærður, hafði þjónað embætti nokkur ár áður en hann fluttist til Vesturheims 1887. Var um langt skeið prestur íslènzkra safnaða vestan hafs. Fékkst allmikið við ritstörf og þýðingar og ritstjórn blaða og tímarita. Var m. a. ritstjóri „Heimskringlu“ á hinum fyrri heimsstyrjaldarárum 1914—1917. Magnús dó í Winnipeg 8. marz 1932.

II. 58.

**Rögnvaldur Pétursson,** f. að Ríp í Hegranesi 14. ágúst 1877. Foreldar: Pétur Björnsson og Margrét Björnsdóttir. Til Vesturheims með foreldrum 1883. Stundaði nám við Manitobaháskóla 1898, útskrifaðist af prestaskóla únítara í Meadville 1902, las guðfræði og germanska málfræði við Harvard háskóla 1902—03. Lengi prestur ísl. únítara í Winnipeg. Mikilvirkur og farsæll athafnamaður og rithöfundur; var forvígismaður um flest það, er við kom þjóðernismálum Vestur-Íslendinga. Var ritstjóri „Heimis“ um sjö ára skeið, og í ritstjórn „Heimskringlu“, og ritstjóri „Tímarits þjóðræknisfélagsins“ frá 1921 til æviloka. Heiðursdoktor frá Meadville og Háskóla Íslands. Kvæntur Hólmfríði Jónasdóttur bónda í Hraunkoti í Aðaldal Kristjánssonar. Dáinn í Winnipeg 30. jan. 1940.

I. 129, 140, 140, 159, 166, 181, 183, 185, 186, 189, 195, 201, 232, 242, 253, 261, 263, 270, 288, 292, 301, 312, 335, 340, 344, 345, II. 38, 49, 86, 97, 109, 113, 124, 128, 131, 131, 132, 149, 160, 168, 170, 183, 187, 188, 194, 206, 207, 226, 227, 237, 240, 247, 251, 253, 269, III. 30, 33, 37, 45, 47, 49, 52, 54, 55, 59, 62, 70, 71, 72, 82, 86, 87, 89, 90, 98, 102, 104, 105, 106, 111, 112, 113, 116, 141, 146, 153, 160, 168, 179, 185, 189, 206, 213, 238, 240, 258, 276, 284, 288, 296, 305, 316, 319, 320, 328, 339, 350, 352, 354, 355, 356, 357, 359, 362, 370, 380.

**Sigfús Blöndal,** f. á Hjallalandi í Vatnsdal 2. okt. 1874. Foreldrar: Björn Lúðvíksson Blöndal, síðar sundkennari í Reykjavík, og Guðrún Sigfúsdóttir pr. á Undirfelli Jónssonar. Cand. mag. í latínu, grísku og ensku í Kaupmannahöfn 1898. Bókavörður við kgl. bókasafnið í Kh. 1914—1939. Lektor í íslenzku við Kh.háskóla frá 1931. Fræðimaður og skáld. Ritstjóri og aðalhöfundur að íslenzk-dönsku orðabókinni 1920—1924. Heiðursdoktor frá Háskóla Íslands 1924.

II. 181, III. 44, 80, 128, 159, 220, 340.

**Sigfús Halldórs frá Höfnum,** f. á Þingeyrum 27. des. 1891. Foreldrar: Halldór Árnason, b. í Höfnum Sigurðssonar, og Þuríður Sigfúsdóttir pr. á Undirfelli Jónssonar. Varð stúdent 1913, cand. phil. Kaupmannahöfn 1914. Dvaldist austur á Malayaskaga í nokkur ár á vegum Austur-Asíufélagsins danska. Ritstjóri „Heimskringlu" 1924—1930. Fluttist heim til Íslands 1930, og var skólastj. Gagnfræðaskóla Akureyrar 1930—35. Hefir síðar fengizt við blaðamennsku og skrifstofustörf í Rvík.
III. 214, 386, 387, 388, 390, 391, 392, 392, 393, 395, 395.

**Sigríður Halldórsdóttir,** f. að Skriðuklaustri 30. sept. 1889. Foreldrar: Halldór Benediktsson og Arnbjörg Stefánsdóttir. Gift Sigmar Guttormssyni Þormar bónda á Arnheiðarstöðum.
I. 131.

**Sigurður Guðmundsson,** skólameistari er f. á Æsustöðum í Langadal 3. sept. 1878. Foreldrar: Guðmundur Erlendsson og Ingibjörg Sigurðardóttir. Magister í norrænu frá Kaupmannahafnarháskóla 1910. Skólameistari Gagnfræðaskólans á Akureyri frá 1921 og síðar rektor Menntaskólans þar, fékk lausn frá starfi 1947.
III. 50, 219, 242, 336.

**Sigurður Jónsson frá Víðimýri,** f. að Tindum í Húnavatnssýslu 11. júlí 1851. Foreldrar: Jón skáld Árnason bóndi þar og síðar á Víðimýri og Ástríður Sigurðardóttir bónda á Reykjum á Reykjabraut Sigurðssonar. Fluttist til Vesturheims 1887. Nam land í Alberta 1889 mjög jafnsnemma St. G. St.; voru þeir nágrannar og tókst með þeim kunningsskapur, er entist ævilangt.
I. 52, 70, 119, 120, 121, 129, 134, 138, 231, 303, II. 53, 125, 219. III. 74, 205, 271, 292.

**Sigurður Nordal,** f. á Eyjólfsstöðum í Vatnsdal 14. sept. 1886. Foreldrar: Jóhannes Nordal og Björg Jósefína Sigurðardóttir. Dr. phil. frá Kaupmannahafnarháskóla 1914. Prófessor í íslenzku og bókmenntum við Háskóla Íslands frá 1918.
III. 188, 224, 356.

**Sveinn Björnsson,** fæddur um 1855, óskilgetinn sonur Björns Péturssonar bónda á Hallfreðarstöðum, síðar alþingismanns. Fluttist til Vesturheims; stundaði trésmíðar. Átti heima um langt skeið í Seattle á Kyrrahafsströnd og dó þar 19. nóv. 1941, 86 ára að aldri.
I. 8, 11, 25, 27, 315, III. 154, 156, 167, 204, 232, 285, 290, 348, 363, 367, 377.

**Theodóra Thoroddsen,** f. á Kvennabrekku 1. júlí 1863. Foreldrar: Guðmundur Einarsson prófastur og Katrín Ólafsdóttir. Theodóra hefir fengizt nokkuð við ritstörf, gefið út smásagnasafn og þulur, er náð hafa miklum vinsældum.
II. 141, III. 42, 256.

**Vilhelm Hans Pálsson,** f. að Hallfríðarstöðum í Hörgárdal 14. ágúst 1857. Foreldrar: Páll Erlendsson og Guðrún Magnúsdóttir. Hann fluttist með foreldrum þriggja ára að Hofstaðaseli í Hjaltadal og ólst þar upp. Vilhelm fluttist til Vesturheims 1883; átti heima í Winnipeg um langt skeið og var í þjónustu Kanadastjórnar á árunum 1896—1905. Síðar flutti hann til Saskatchewan og átti þar heima til dauðadags. Hann var kosinn þingmaður Wynyardkjördæmis og sat á fylkisþingi Saskatchewan 1912—1921 og 1924—1935. Hann var á Alþingishátíðinni 1930 sem fulltrúi Sask.-fylkis. Vilhelm þótti mikilhæfur maður og var riðinn við mörg opinber störf. Vilhelm dó í Regina Sask. 25. apríl 1935.

I. 118, 308, III. 322, 346.

**Þorsteinn Erlingsson,** f. að Stórumörk undir Eyjafjöllum 27. sept. 1858. Foreldrar: Erlingur Pálsson og Þuríður Jónsdóttir. Cand. phil í Kaupmannahöfn 1884. Skáld og rithöfundur. Dáinn 28. sept. 1914.

I. 173, 207, 216, 230, 247.

# Nafnaskrá.

